KLOPPSTOKKS

# MESSÍAS,

EINN

# HETJU-DIKTR

UM

# ENDRLAUSNINA,

AF ÞÝZKU Á ÍSLENZKU SNÚINN

AF

JÓNI SÁL. ÞORLÁKSSYNI,
Presti til Bægisár ok Bakka í Vöðlu-sýslu.



ÚTGEFINN AD TILHLUTAN
ENS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÈLAGS.

KAUPMANNAHÖFN, 1838.

PRENTADR HJÁ S. L. MÖLLER.

# Agrip af Klopstokks æfisögu.

Höfundur bókar þessarar, sem hèr er í ljós leidd snúin á íslenzku, hèt Frederik Gottlieb Klopstokk; hann er fæddur í Qvedlinborg 2ann dag Júlí mánaðar 1724. Faðir hans var mjög frábrugðinn öðrum mönnum, hann var hjátrúarfullur og trúði á fyrirburði og árasjónir. Hann var fyrst Kommissíónsráð, en síðan umboðsmaður Friðborgar hèraðs í Mansfeld; þar ólst Klopstokk upp á sveitabæ, og gekk í skólann í Qvedlinborg. Móðir hans hèt Anna Maria Schmidt, hún var vel gáfuð, vitur og ráðsett. Klopstokk átti 5 systur og 4 bræður, og var hann þeirra elztur. A 16da árinn fór hann til Schulpfortu hjá Naumborg, og þar fór það að koma í ljós, hvílíkur maður og hvílíkt skáld hann ætlaði að verða. Með tilsögn Freitags, er var Rector í skólanum, og Stühels Conrectors, lagði hann mikla stund á grísku og latínu, og þókti honum æ vænna og vænna um rithöfunda þeirra þjóða. Þegar í skóla fór hann að yrkja smá kveðlinga, og tók öllum skólabræðrum sínum fram í því. Þar ásetti hann sèr einnig að búa til mikið sagnakvæði (ἐπος), en það var lengi hann vissi ekki sjálfur útaf hvörju hann ætti að kveða. Nokkra stund hafði hann í huga að kveða útaf afreksverkum Henriks keisara Fuglaveiðirs, en allt í einu varð honum hugþvarf og fór að efna uppá Krists óð. Hann kannaðist sjálfur við það fyllilega, hversu örðugt yrkisefni hann hefði tekið sèr, og þessvegna flýtti hann sèr ekki um of, og hóf ekki að yrkja, fyrrenn hann var lengi búinn að undirbúa sig, og iðka svo vel bókmentir, að hann treysti sèr til að leysa starfið vel af hendi. Hvað ákafur hann var í þessu vottar 109da kvæðið í Kvæðasafni hans, og skilnaðarræðan, sem hann flutti í Schulpfortu 21ta dag Sept. mán. 1745. I ræðu þessari fer hann mörgum orðum um ágæti hins æðra skáldskapar, og hrósar mikilega skáldskaparsnilli þeirra, sem ritað hafa bækur hins gamla Testamentis, og kallar þær fyrirmind sem enginn geti viðjafnast. Þvínæst lýsir hann ýmsum sagnaskáldum, sem verið hafa á ýmsum öldum, t. a. m. Homer, Virgil, Tasso, Miltoni, Perron, Scudery, Sorbiere, Fenelon, Voltaire og enn fleirum. Hann barmar sèr útaf því, að ekkert þjóðverskt drápuskáld hafi orkt neina drápu, sem hafi verið lengur uppi enn höfundurinn; hann óskar þess að beztu skáld fósturjarðar sinnar mættu heyra þessi orð sín, ef einhvör þeirra kynni hvetjast til að yrkja góða drápu; á þessu má sjá innilega ást hann á fósturjörðu sinni. I niðurlagi ræðunnar drepur hann lauslega á áform sitt, og kveður svo Pfortu með þessum orðum: þakklátlega skal eg ætíð minnast þín og kalla þig móður þess starfa, sem eg hefi dirfst að undirbúa í huga mínum, meðan eg dvaldi hèr!

Um haustið 1745 fór Klopstokk úr skólanum í Pfortu, og var hann þá rúmlega tvítugur; sálarabl hans var orðið þar magnað og hugur hans staðfastur og snúinn til þess háleita og beiðurlega; hann var gagntekinn af laungun til að auka heiður ættjarðar sinnar, að efla dygð og trú manna á meðal; og nú kom hann til háskólans í Jena til að iðka guðvísi. Það missiri, sem hann dvaldi þar, samdi hann 3 fyrstu flokkana af Kristsóð, en ritaði þá fyrst um sinn í óbundinni ræðu, af því hann vissi ekki hvörn bragarhátt skyldi viðhafa. Svona fór hann frá Jenu 1746 um vorið, og kom til Leipzig; þar urðu þeir í húsi saman Schmidt frændi hans, (þeir voru systkina synir); nú ásetti hann sér að kveða Kristsóðinn undir sexstuðlalagi (Hexameter); líklega hefir Gottsched skáldið[1]) hvatt hann til þess. Klopstokk ætlaði ekki fyrst um sinn að láta nokkurn mann, nema Schmidt frænda sinn, vita af drápugjörð sinni, en svo tókst heppilega til að það komst upp, og varð það tilefni til þess, að hann komst í kunningskap við hina nafnfrægustu menn á Þýzkalandi. Svo stóð á, að í sama garðinum sem þeir voru frændur, átti A. Cramer[2]) heima í bakgarðinum hjá Radeke föður unnustu sinnar; en um kaupstefnu tímann urðu þeir Klopstokk og Schmidt að rýma hús sín, sem vissu út til torgsins, og flytja sig inn í bakgarðinn rétt við hliðina á herbergi Cramers; þar heyrði Cramer opt samræður þeirra frænda, er þeir nefndu drápugjörð, sexstuðlalag og Kristsóð, og fyrir því fýsti hann að komast betur í kunningskap við Klopstokk, til þess að fá hjá honum ritgjörðir í tímarit það, sem þeir gáfu út í sameiningu Cramer, Gellert, Rabener, Adolph Schlegel, Ebert, Giseke og Gärtner[3]), og sem nefndist *„die Bremischen Beiträge."* Cramer[4]) hinn ýngri hefir lýst því sem viðbar, er þeir hittust í fyrsta sinn, og hvernig Schmidt fór með Klopstokk, er hann las fyrir Cramer nokkuð úr Kristsdrápunni; Klopstokk varð afarreiður, og ætlaði að ná af honum handritinu, en Schmidt var bæði stærri og sterkari og héldt honum með annari hendi en handritinu í hinni og las svo. Cramer sá að þetta var enginn meðal skáldskapur, og bað Klopstokk leyfis að lesa, en þá hauðst Klopstokk til að lesa honum sjálfur fyrstu bókina. Cramer vottaði honum, hvað innilega hann væri ánægður með þetta ágæta kvæði, og bað hann leyfa sér að sýna það vinum sínum, og það lét Klopstokk eptir honum. Cramer sýndi Gärtner

---

[1]) Gottsched var kennari í heimsspeki og skáldskap í Leipzig; hann var maður vel að sér, en sérvitur mjög og smekklaus, og átti því marga óvildarmenn.

[2]) Þessi Cramer er hinn sami, er síðar varð, að Klopstokks tilstuðlan, hirðprestur í Kaupmannahöfn; hann var maður hálærður, skáld gott, og mælskumaður mikill.

[3]) Allir þessir menn voru nafnfrægir af lærdómi sínum og skáldskapar-snilli.

[4]) Hann var sonur Andreasar Cramers hirðprests, og var í 20 ár prófessor í Kíl; en fór þaðan til Parísar; hann var mikill gáfumaður og víðlesinn. Hann virði og elskaði Klopstokk öllum fremur og hefir skrifað mörg rit um hann, þaráméðal þau alræmdu *„Briefe von Tellow an Elisa,"* Hamborg 1777.

það fyrstum og svo binum; síðan buðu þeir Klopstokk allir í sameiníngu, að hann skyldi gánga í felagskap þeirra. Arið 1748 voru 3 fyrstu bækurnar af Kristsdrápunni prentaðar í 4da bindi af „Bremischen Beiträge" ásamt öðru kvæði bans: „*Dir nur, liebendes Herz.*" Að aungvu þýðversku riti hafa menn dáðst annað eins og þessum 3 bókum, þegar þær komu fyrst á prent. Var þar allt nýstárlegt: niðurskipun efnisins, háleikur hugmindanna, ágæti málsins og hið forna betju-kvæðalag. Mörgum fannst svo mikið um höfund Kristsóðar, að þeir kölluðu hann heilagt skáld, og þótti sem nýr dagur ljómaði með þessari sólu yfir skáldskap þýzkalands. Sumir, sem gátu ekki fundið fegurð kvæðisins, virðtu kristiligt hugarfar höfundsins. Margir níddu líka drápunni á prenti, einkum af því þeir skildu hana ekki; en við það óx að eins heiður Klopstokks. þessar 3 bækur voru prentaðar hvað eptir annað. A Sweissalandi fekk drápan samt mest álit og var skáldinu margsinnis boðið þángað, einkum af skáldinu Boðmer, er þá var orðinn ráðsherra í Zürich.

I Leipzig lifði Klopstokk ánægðu lífi saman við vini sína; þeir leituðust allir við að bæta vísindasmekkinn á fóstnrlandi sínu, og að allra dómi gerði Klopstokk mest til þess af þeim öllum. Um vorið 1748 fór hann þaðan og til Langensalza, og kenndi þar ríkum kaupmannssyni, að nafni Weiss. þar komst hann í kunníngskap við frændstúlku sína, systur Schmidt, og lagði á hana mikinn ástarhug, en ekki unni hún honum aptur á mót. Hann minnist hennar opt í kvæðum sínum og kallar hana Fanny, þessvegna verður nafn hennar ætíð uppi einsog Láru sem Petrarka kvað um. A þessum árum reit hann Bodmer í Sweiss mörg bréf, og lýsa þau öll ást hans á Fanny, bann minnist hennar með lotníng, og telur farsæld sína í þessu lífi undir því komna að bann nái ástnm heonar, því án þess geti hann engu láni náð. I einu bréfinu særir hann Bodmer við alla helga hluti að duga sér nú, ef hann geti. Bodmer tókst þá á hendur að tala máli hans við stúlkuna, og reit henni bréf og setti henni fyrir sjónir, að bún væri ætluð til svo háleitra forlaga að launa Klopstokk ástir bans. En það tjáði ekki að heldur, hún var og varð honum eins ómjúk og hún hafði verið. Olaunuð ást hjá eins úngu og viðkvæmu skáldi og Klopstokk, sem hefir þvílíkt ímindunar abl og þvílíka trúrækni sem hann hafði, er optastnær vön að leiða af sér trúarvíngl og ofmikla tilfinníngarsemi. þannig fór og fyrir Klopstokk, einsog votta, ekki aðeins smákvæði hans, einkum kvæðið til Guðs, heldur einnig sjálf Messías; og hefði ekki svona staðið á, mundi aldrei vera orðinn til kaflinn í 4ðu bokinni, þar sem ástum þeirra Semidas og Ciðliar er lýst svo hjartnæmt og guðrækilega, og þó með sorgbitnum og hvarflandi huga; enda hefir þetta hugar ástand Klopstokks allmikið aukið ágæti Kristsóðar víðar enn á þessum stað; þó má ekki ætla Klopstokk aldrei hafi verið óhryggur á þessu tímabili, heldur má segja um hann það sama sem Göthe leggur Tasso í munn:

*Die Thräne hat uns die Natur verliehen,*
*Den Schrei des Schmerzens, wenn der Mann zulezt*
*Es nicht mehr trägt — und mir noch über alles —*
*Sie liesz im Schmertz mir Melodie und Rede,*
*Die tiefste Fülle meiner Noth zu klagen;*

*Und wenn der Mensch in seiner Qval verstummt,*
*Gab mir ein Gott zu sagen wie ich leide.*

Klupstokk vann smámsaman að Kristdrápunni, og hvatti hann mest til þess laungun eptir að ná ódauðlegum heiðri, líka hugsaði hann sèr að komast í þá stöðu, að hann yrði ekki uppá aðra kominn, ef hann með þeim hætti kynni að ná saman við Fanny. Um þessar mundir hugsaði hann á marga vega, hvernig hann ætti að sjá ráð fyrir sèr; hann hafði von um, að annaðhvört Prinsinn af Oraníu ellegar Prinsinn af Wallis mundi taka hann að sèr, en sú von brást; hann ásetti sèr því að þiggja boð Bodmers að koma til Sweiss, og fór hann frá Langensalza í Maí mánuði 1750 ásamt Schmidt frænda sínum, og komu þeir til Qveðlínborgar, og hitti Klopstokk þar aptur foreldra sína og systkini eptir 7 ára burtu veru; þar dvöldu þeir nokkrar vikur í góðu yfirlæti. Í borg þessari bauð Jerúsalem áböti Klopstokk að verða kennari í Karolinum hjá Brúnsvík, með því skilyrði, að hann skyldi hafa þar ánægjanligt næði til að halda áfram kvæði sínu, og komu honum boð þessi því betur, sem það var í nánd við átthaga hans og frændfólk; en jafnframt voru honum nú boðin betri kjör. Bernstorff barón og sendiherra Dana konúngs í Parísarborg, sem þá var á heimleið sinni til Kaupmannahafnar, til að verða þar utanríkis stjórnarherra, kom við í Hannover, og lofaði Klopstokk að útvega honum fé til viðurværis hjá Dana konúngi, þartil hann fengi lokið við Messias, og síðan prestakall eða háskóla kennara embætti, ef honum hugnaðist það. Við þetta frestaði Klopstokk ferð sinni til Sweiss, dvaldi í Brúnsvík frammí Júlímánuð og beið eptir svari frá Kaupmannahöfn; en þegar það dróst lengur enn hann vildi, lagði hann af stað 13da dag Júlí mánaðar, ásamt með Schulzer og Schultheisz, er voru handgengnir vinir hans.

Klopstokk kom til Zürich 23ja dag Júlí mán. og lýsir hann í 16da smákvæði sínu og í brefi, er hann reit 2 dögum seinna til vina sinna á þýzkalandi, gleði sinni yfir því að hitta Bodmer og komast í kunníngskap við svo ágætann mann. Í Sweiss varð Klopstokk brátt allra hugljúfi, sem hann hafði nokkur kynni af, því hann var gleðimaður mikill, ástúðlegur og hjartanlegur í viðmóti. Hann varð opt að flytja nokkuð af kvæði sínu í samkvæmum og lofuðu það allir. Hann hefir orkt kvæði um Züricharvatn og segir hann í því kvæði, hvað vel sèr hafi fallið í Zürich, og lofar ekki einúngis fegurð landsins, heldur einnig hjartagæðsku, glaðlyndi og hreinskilni fólksins, og hversu það beri hann á höndum sèr. En vinátta þeirra Boðmers varð samt ekki lángvinn, því Boðmer kunni ekki við það, að Kristsskáldið var svo glaður og kátur, því hann hafði ímindað sèr hann alvörugefinn og þúnglyndan; honum líkaði það og miður að Klopstokk hafði ekki afskipti af honum einum og þiddist hann eingaungu, en gjörðist trygðavinur margra annara. Meðan Klopstokk dvaldi þar, komu hönum góðar frèttir frá Kaupmannahöfn, að báðir stjórnarherrarnir Friherra Bernstorff og Greifinn Moltke hefðu útvegað honum 400 rdlr. árlega af Friðriki konúngi 5ta, til þess hann gæti lokið við Messias í næði. Nú kepptist hann við að ljúka af 4du og 5tu bókinni, svo hann gæti fært Dana konúngi 5 fyrstu bækurnar, þegar hann kæmi til Kaupmannahafnar, ásamt líınu 18da smá-

kvæði hans, sem prentað er framantil í 1ta bandi kvæðisins; við þetta lauk hann seint á árinu 1751; hóf hann svo ferð sína til Kaupmannahafnar í Febrúar mánuði árið eptir; á leiðinni orkti hann 19da smákvæðið til þeirra Bernstorffs og Moltkes; þessi 2 kvæði votta þakklátssemi hans við Dana konúng. I Marts mánuði kom hann til Qvedlinborgar, og dvaldi þar í 3 vikur með frændum sínum. I Hamborg komst hann í kunníngskap við gáfaða stúlku, að nafni Metu (Margrétu) Möller, hún hafði lesið kvæði hans optsinnis og þókt mikils umvert, og lángaði hana mjög til að sjá skáldið; reit hún þá einum vina sinna bréf, og bað hann að stuðla til þess að hún fengi að sjá Klopstokk, þegar hann kæmi til Hamborgar. Nú kom Klopstokk þángað 4ða dag April mánaðar og sókti Metu heim, og játar hún að hann hafi borið lángt af hugmind þeirri, er hún hafi gjört sér um hann, því hún segist aldrei hafa séð eins ástúðlegt úngmenni: „eg talaði við hann í tvær stundir, segir hún, og þegar hann var farinn hugsaði eg ekki um annað enn hann; við sáumst aptur daginn eptir og hinn næsta dag og vorum við þá orðin bestu vinir; en 4ða daginn fór hann á stað; sá dagur var mér sorgardagur; en skömmu seinna fékk eg frá honum ástúðlegt bréf, og uppfrá þeim tíma skrifuðomst við jafnan á." Klopstokk kallar þessa nýu vinstúlku sína Ciðli, og nefnir því nafni þær, er heitast eru látnar elska í kvæði hans.

Klopstokk fékk bestu viðtökur í Kaupmannahöfn bæði af Moltke og Bernstorff, og heimsókti Bernstorff nærri því á hvörjum degi og var þar einsog heimamaður. Klopstokk geðjaðist Dana konúngi svo vel, að konúngur bauð honum að vera með sér á sumrum í Friðarborg og njóta þar unaðsemda náttúrunnar í fullkominni ró. Hér hefði Klopstokk getað átt bestu æfi, ef húgur hans hefði verið rólegur, en hann var það nú miklu síður enn áður. Ást hans á Fanny var ekki kólnuð, og hann hélt áfram að skrifa henni til og bróður hennar og Gleim nokkrum[1]), sem tekist hafði á hendur að tala máli hans við stúlkuna; en hún var óbifandi, svo faðir hennar varð henni afarreiður sökum hörku hennar við Klopstokk. A hinn bóginn varð Meta Müller honum hjartkærri dag frá degi, sakir hinna andríku bréfa, sem hún reit honum, og blíðu til hans, og varð úr því heit ást; og um vorið, er Klopstokk fór til Hamborgar, festi hann Metu, og varð hann uppfrá því einsog annar maður og ekki nærri eins þúnglyndur og áður; svosem votta 31—37 smákvæði hans. Metu fannst og mikið um lán sitt og er mjög viðkvæm játníng hennar um það; aptan við bréf sem Klopstokk ritaði Gleim um ráðahag sinn bætti hún þessum orðum: „Gat yður komið það til hugar að Meta í Hamborg ætti að verða svo lánsöm? Nei! það hefur yður sjálfsagt ekki dottið í hug, að Klopstokk gæti fengið ást á svo lítilfjörlegri stúlku. Eg vilda þér vissuð, hversu heitt eg elska hann, það tekur öllu fram, og það jafnvel ást hans á mér, en þó ekki svo mjög, því

[1]) þessi maður var jafoaldri Klopstokks, hann var vel gáfaður og skáld gott og lagðist á eitt með Klopstokk að bæta vísindasmekkinn, og voru þeir hinir bestu vinir. Hann dó 3 vikum undan Klopstokk; á banasænginni reit hann Klopstokk hjartnæmt bréf.

hann hefur miklar mætur á mèr. Eg get ekki annað enn ritað yður þetta, því Klopstokk er ný farinn út, og mèr þykir svo gaman að tala um hann, þegar hann er ekki hjá mèr." Og einhverstaðar segir hún í brèfi til Klopstokk: „eg kyssi þig fyrir allt það sem þú hefur ritað henni Fanny; æ Klopstokk! eg má ekki hugsa til þeirra tímanna, eg græt í hvert sinn, sem mèr dettur í hug hvað þú hefir orðið að þola; eg vildi eg gæti launað þèr það! nú get eg það ekki, en þegar eg er orðin konan þín, þá get eg það, og þá skal eg líka gera það! þú skalt ekki geta óskað þèr betri konu enn eg vil verða." Klopstokk leið nú líka mikið vel. Sumarið 1752 var hann ýmist í Hamborg eða Qvedlínborg, en um haustið hvarf hann aptur til Kaupmannahafnar.

Nú varði Klopstokk öllum stundum til að ljúka við 2að band kvæðisins, og kom honum til hugar að senda út boðsbrèf í því skini, því hann vænti sèr góðs ábata af því, og þess þurfti hann líka við til að geta gipt sig, en hann sneri því af aptur, og ásetti sèr að láta Hemmerde, boksölumann í Halle, sem kostað hafði 1ta bandið, líka taka að sèr þetta band, með þeim skilmála, að hann lèti prenta það í Kaupmannahöfn með sinni umsjá; en þegar Hemmerde vildi ekki taka þeim skilmála, tók Klopstokk það ráð, að láta prenta bókina á 2ur stöðum undireins; síðan var hún prentuð í Kaupmannahöfn í 4ra blaða broti, og í Halle í 8 blaða broti, og galt Hemmerde honum 12 ríkisdali þýzka fyrir örk hverja. I Kaupmannahöfn voru prentuð 400 Ex. handa Dönum, og greiddi Dana konúngur kostnaðinn, en gaf Klopstokk síðan bókina.

Tíunda dag Júní mánaðar 1754 fèkk Klopstokk loks ósk sína, er hann gekk að eiga Metu Möller. Þau fóru síðan til Qvedlínborgar og dvöldu þar framí October mánuð, þá fór Klopstokk með konu sinni til Kaupmannahafnar. I mörgum brèfum, sem hún reit systrum sínum og vinum um þessar mundir, hrósar hún mikið láni sínu og gjæfu, og lífað vel sèr liði í Kaupmannahöfn. Nú hafði Klopstokk líka ánægjanlegt uppeldi, því konúngur hafði bætt við hann 200 dölum. Á veturna var hann í Kaupmannahöfn, en í Lyngbý á sumrum; þar hafði mágur hans Rahn, kaupmaður frá Zürich, sett verksmiðju nokkra í fèlagi við yngra bróður Klopstokks.[1] Vinir og velgjörðamenn Klopstokks í Kaupmannahöfn voru þeir Bernstorff og Moltke stjórnarherrarnir, Cramer hirðprestur, Gerstenberg og Stürz vísindamennirnir, þeir virðtu og elskuðu Klopstokk og leituðust við á allar lundir að gjöra honum veru sína her indæla og ánægjufulla. I November mánuði misti Klopstokk föður sinn, og fèllst honum mikið um það, og 2 árum seinna 1758 dó Meta, kona hans, af barnsförum 28da dag November mánaðar, og harmaði hann hana mjög. Hún er jörðuð í Ottesen, þorpi nokkru skamt frá Hamborg, og er steinn á leiði hennar með þessu letri:

---

[1]) Elzta dóttir kaupmanns þessa og Jóhönnu elztu systur Klopstokks, hèt Jóhanna María, og giptist enum nafnfræga heimspekingi Fichte, sem komst í kunningskap við hana í Zürich, þegar Rahn var kominn þángað aptur frá Kaupmannahöfn.

*Saat von Gott gesäet dem Tage Garben zu reifen*
*Margaretha Klopstokk*
*Erwartet da wo der Tod nicht ist*
*Ihren Freund, Ihren Geliebten, Ihren Mann*
*Den Sie so sehr liebt*
*Und von dem Sie so sehr geliebt wird.*
*Aber hier aus diesem Grabe*
*Wollen wir mit einander auferstehn*
*Du mein Klopstokk und Ich*
*und unser Sohn*
*Den ich Dir nicht gebären konnte.*
*Betet Den an*
*Der auch gestorben, begraben und auferstanden ist!*

Klopstokk bar harm sinn í hljóði, því hvergi minnist hann á missi sinn í kvæðum sínum; þó fellst honum svo mikið um þetta, að hann gat ekki baldið Messías áfram, og liðu 14 ár áður 3ja band hennar kom í ljós, og er þar fögur minníng Metu, því það lítur svo út, sem hann lýsi dauða hennar í 15du bókinni, er hann kveður um Gedor og Cíðli.

Eptir lát Metu dvaldi Klopstokk í Hamborg það sem eptir var vetrarins, og sumarið eptir var hann í Qvedlínborg hjá móður sinni, en fór í Agúst mánuði til Danmerkur, og dvaldi þar framá sumarið 1762; um þessar mundir starfaði hann mikið og stundaði einkum þýzka túngu, og bar hana saman við aðrar túngur, skyldar henni, og leitaðist hann við að hreinsa málið og leiðrétta stafsetníngu þess. Honum gramdist mjög, er hann fann hvað málið var aflagað, og hve mjög þjóðverjar stóðu á baki öðrum þjóðum í vísindum, og hve lítt Prússa konúngur og aðrir þýzkir höfðíngjar studdu vísindin. Hann leitaðist því við að vekja landa sína af þessum dvala, og var að þángaðtil þeir sáu það og viðurkenndu að hann hafði rétt að mæla. Til að innræta þeim ást á móðurmáli sínu hafði hann í kvæðum sínum Keltniska guðafræði, sem hann heldt að væri af þýzkum rótum[1]). Hann var og góðrar vonar um að höfðíngjar þýzkalands mundu leggja hug á að viðrétta vísindin, því Wellsperg greifa, sendiherra Austurríkis keisara í Kaupmannahöfn, var mikið annt um Klopstokk; þeir höfðu kynnst við hjá Bernstorff. Að tilmælum Wellspergs greifa samdi Klopstokk frumvarp, sem hann byggði á því að þýzkalands keisari ætti annaðhvört alls ekki að efla vísindin, ellegar gjöra það svo að samboði tign hans. Með frumvarp þetta fór Wellsperg til Vínar, og sýndi Kaunitz fursta og Dietrichstein greifa, og líkaði þeim báðum vel; síðan var það fært keisaranum ásamt með tileinkun frá Klopstokk. Klopstokk fékk að söonn fíngurgull gimsteinum sett, til virðíngarmerkis frá keisaranum, en af frumvarpinu heyrðist ekkert framar, og var þó Klopstokk í 2 ár að reyna til að koma því fram. Í Vín vildu menn eigi algjörlega fallast á framvarpið, og var Klopstokk því af vinum sínum ráðið að fara þángað, en það vildi hann engannveginn nema hann væri boðaður af keisarnum til Vínar.

[1]) Klopstokk var einnig hið 1ta skáld hjá þjóðverjum, sem notaði hina fornu guðafræði norðurlanda.

Frá því 1759 þartil 1770 héldt Kloppstokk áfram að yrkja Messías, og var 3ja band hennar prentað 1768 ásamt tveim „sorgarspilum" sem nefnast Davíð og Salomon. Um það leiti bættist honum nokkuð missir Metu, er hann fekk ást á stulku, sem hann nefndi Done; hún var eðli borin, og fyrir þá sök fekk hann sér nafnbót, og lét gera sig að Legationsráði. Þótt nánustu frændur hennar vildu að þau næðu saman, þá vildi faðir hennar samt með engum hætti leyfa þeim að eigast, og bar það fyrir að hann mætti ekki sjá af dóttur sinni. Arið 1766 misti Klopstokk velgjörðamann sinn Fridrik konúng 5ta, og um sama leiti dó teingða móðir hans, móðir Metu. 67da smákvæði hans lýsir því, hvörsu hann harmaði Friðrik konúng, og hið 66ta hvörsu hann syrgði teingðamóður sína, og að líkindum er hið fagra kvæði *„Selmar og Selina"* orkt um þetta leiti. Arið 1770 var Bernstorff trygðavini hans og velgjörðamanni hrundið úr sessi að völdum óvina sinna; þegar Bernstorff komu þessi tíðindi, sat hann við skrifborð sitt og reit, og er hann hafði lesið bréf konúngs, stóð hann upp dapur í bragði, og mælti þá: „eg er settur af embætti mínu;" þvínæst leit hann til himins og sagði: „ Guð almáttugur blessi landið og konúnginn." Bernstorff fór nú úr landi og fylgði Klopstokk honum til Hamborgar, því allir vinir Bernstorffs mistu þá að nokkruleiti konúngs hylli undireins og hann. Struense, er valdið hafði afsetníngu Bernstorffs, varð bráðum hrundið, og var Bernstorff boðaður heim aptur, en hann dó 19da dag Febr. mánaðar 1772 aður hann kæmist heim. Nú dvaldist Klopstokk í Hamborg, því þar voru teingðasystur hans báðar vel giptar kaupmönnunum Dimpfel og Schmidt, og þar lét hann árið 1771 prenta öll kvæði sín í einu safni, og eignaði Bernstorff. I Hamborg lauk hann og við Messías 1773, og hafði hann þá verið með hana 27 ár[1]). Nú var hann búinn að ljúka því af, sem hann hafði álitið aðal-ætlunarverk sitt, og lætur hann í ljósi þakklæti sitt fyrir það í kvæðinu „an den Erlöser" sem hann kvað hafa orkt með tárin í augunum.

Því sem eptir var æfidaga Klopstokks, varði hann til heilla ættjörðu sinni, og starfaði í ákafa að endurbót þýzkrar túngu og hins þýzka skáldskapar, og enda á elliárunum hvatti hann til þess únga og efnilega menn að halda sem best saman og vinna eitthvað nytsamligt til sóma og ágætis ættjörðu þeirra, og sýndi hann í þessu slíkt fjör og ákafa sem hann væri úngur í annað sinn. Honum var mjög umhugað um frelsisstríð Vesturálfu-manna, er þá stóð yfir, og líka um stjórnarbiltínguna á Frakklandi, enda var hann 1790 gerður að frakkneskum borgara af þjóðfundi Frakka, og síðar felagsmaður þjóðskólans þar, og þókti honum mikið koma til þeirrar virðingar.

Arið 1791, er hann hafði sjö um sextugt, giptist hann í annað sinn ekkju herra Winthers nokkurs, og var hún náskyld fyrri konu hans Metu; þau bjuggu saman glöð og ánægð. Þegar hann var orðinn fjörgamall lángaði hann einsmikið til að lifa og áður á ýngri árum, og var þá enn glaður og kátur og leitaði skemtanar. Fegurð náttúrunnar og listanna, gaman og glaðværð, saungvar og

[1]) Allt hvað Klopstokk hefir kveðið og ritað er prentað í Leipzig 1799–1817, og eru það 12 bindi í 8blaðabroti.

samdrykkjur og vinsamlegar samræður lifguðu hann á grafarbakkanum; svona var hann sjálfum sér líkur alla æfi sína. Frá því 1771 bjó hann í Hamborg, einsog áður er umgetið, en hann lét ekki mikið á sér bera; á veturna hafði hann sér til skemtunar að fara á skriðjárnum, og við það komst hann einusinni í mesta lífsháska; en þó hann væri í þvílíkri hættu staddur, hafði haan svo mikla ráðdeild, að hann sagði fylgðarmanni sínum hvernig sér yrði bjargað. Við þenna atburð á það sem stendur á einum stað í niðurlaginu á Messías: „Du gabst mir Muth in der Nähe des Todes."

Viðskilnaður Klopstokk var líkur lífi hans; hann lagðist veikur 17 dag Janúar mán. 1803 og reis ekki á fætur eptir það; hann bar líkamans þjáníngar sínar með stakri þolinmæði og helgri hugarlotníng; sérhvört orð hans vottaði það, að hugur hans væri hjá Guði og Frelsaranum og var gagntekinn af elsku til þeirra; seinustu dagana hvarflaði honum bæði vakandi og sofandi fyrir hugskots sjónum dauði Maríu í 12tu bók Messías, og hann las utanað lánga kabla þaraf. Hann hélt fullri rænu allt fram í andlátið, þá hann leið burt sem ljós 14da dag Marts mánaðar 1803; hann dó dauða hins góða og réttláta með guðrækilegu hugarfari og sannfæríngu, rósemi og trausti til Guðs náðar. Jarðarför hans sýndi það, hversu mikið samlöndum hans hafði þókt til hans koma, því fáir lærdómsmenn á þýzkalandi hafa verið jarðaðir með þvílíkri viðhöfn; allir útlendir sendiherrar, sem í borginni voru, allir staðarmenn af heldra tægi, ráðherrar, kanpmenn, listamenn, klerkar og kennarar fylgði honum til jarðar, voru þar samtals 126 vagnar; líkinu fylgðu líka til virðíngar hundrað varðmanna, sumir á hesti, sumir á fæti; klukkum var hríngt á öllum 6 höfuðturnum Hamborgar, og öll þau skip er lágu á höfninni höfðu flögg sín í miðri staung til sorgarmerkis. Líkfylgðin fór til Ottesen og þar var Klopstokk jarðaður, eptir ráðstöfun hans sjálfs, við hlið Metu sinnar; þetta var fagrann vordag 22 dag Marts mánaðar. Hvítur marmara steinn liggur á leiði hans með þessu grafletri:

*Saat von Gott gesäet dem Tage der Garben zu reifen.*
*Bei seiner Meta und bei seinem Kinde ruhet*
*Friederich Gottlieb Klopstokk.*
*Er ward geboren den 2 Julii 1724*
*Er starb den 14 Martz 1803.*
*Deutsche nahet mit Ehrfurcht und mit Liebe*
*Der Hülle eures grössten Dichters,*
*Nahet ihr Christen mit Wehmuth und mit Wonne*
*Der Ruhestätte des heiligen Sängers,*
*Dessen Gesang Leben und Tod Jesum Christum pries,*
*Er sang den Menschen menschlich den Ewigen*
*Den Mittler Gottes.*
*Unten am Throne liegt sein groszer Lohn ihm*
*Eine goldne*
*Heilige Schale voll Christenthränen.*
*Seine zweite liebende und geliebte Gattin*
*Johanna Elisabeth*
*Setzte diesen Stein anbetend Den,*
*Der für uns lebte starb begraben*
*Und auferstanden ist.*

Klopstokk var maður lítill vexti, en vel vaxinn og fagur sýnum; í hegðun allri var hann ráðsettur og alvarlegur; en í samkvæmum manna var hann glaðvær, kátur, skemtinn og fyndinn; með skáldskapargáfu sinni gat hann gjört hið lítilfjörlegasta atvik skemtilegt; en þó hann væri opt gamansamur, gætti hann ætíð virðingar sinnar, og þó hann gjörði gis að einhverju, þá meiddi hann ekki með því, og tók vel mótsögnum. Sjaldan komst hann í mikinn kunningskap við höfðingja, því honum þókti skömm að verða fyrir lítilæti þeirra, af því hann gaf meira gaum að tign sálarinnar enn ytri vegsemd og glisi. Hann kunni best við sig á landsbygðinni, og bjó þar því optast á sumrum hjá vinum sínum og frændum; á vetrum hafði hann mesta skemtun af að renna sér á skriðjárnum, einsog aður er sagt. Hann hafði jafnan ánægjn af börnum, lek sér og gerði að gamni sínu við þau. Hann lét sér einka annt um heimilisheill og velgengni vina sinna, en indælast var honum þó að minnast skáldanna, vina sinna, er hann hafði gjört félag við í Leipzig; þeir dóu á undan honum hvör eptir annann, og bar hann það með stillingu og stöðuglyndi. Hann varaðist af ásettu ráði að ráða um þá atburði seinni tímanna, sem urðu á ofanverðum dögum hans, og þótt honum væri af alhuga annt um frelsi mannlegs anda, og hefði andstygð á allskonar harðstjórn, þá geðjaðist honum þó ekki grundarræði ennar frakknesku stjórnarbiltingar.

Smákvæði (Oden)[1]) Klopstokks munu vora einhvör best af öllum tilfinninga skáldskap (lyrisk Poesi), og taka jafnvel Pindars kvæðum fram í dýpt tilfinninga. Hin andlegu kvæði Klopstokks jafnast að ágæti við Davíðs Sálma, og sýna háleik sálar hans. Í sumum af kvæðum hans ríkir þúnglyndi og haleitar hugsanir, til að minda í kvæðunum til Fannýar og Eberts, en í sumum glaðværð og kæti, til að minda í kvæðinu um Zürichar-vatn og í ástarkvæðunum til Cidliar, en aldrei skeikar hann þó frá hátign hugar síns og hreinleika ástar sinnar. Þau kvæði hans, er víðvikja atburðum tímanna eður ástandi og túngu Þýzkalands, lýsa því hversu heitt hann elskaði ættjörð sína; en mörg af þessum kvæðum þóktu myrk og þúngskilin, af því guðafræði Norðurlanda er í þeim viðhöfð; samt munu skynsamir menn ætíð skilja hin andlegu kvæði hans og meta þau mikils, ekki sízt þessi tvö: „Auferstehn, ja auferstehn wirst du etc." og „Wenn ich einst von jenem Schlummer etc." Það var þó einkum Messías, sem kom fyrst áliti á hann og ávann honum mestann heiður; hið háa og spámannlega flug hugmindanna, hinar fögru lýsingar og hinn ritníngarlegi hátignarog sakleysis-blær þessa kvæðis sýndu það, að Klopstokk hafði tekist að komast til jafns við Milton; því þótt enska skáldið megi,

[1]) Sú ýngsta og að líkindum hin besta útgáfa af Klopstokks Smákvæðum mun vera sú, sem prentuð er í Leipzig árið 1831: „Klopstokks Oden mit erläuternden Anmerkungen und Biographie des Dichters" 2 Bindi í stóru 8blaðabroti. Æfisögu ágrip þetta er að mestu leiti samið þareptir, en líka hefir hagnýtt verið „Algemeine deutsche Real-Encyklopädie, Leipzig 1835" og þau hér að framan áminnstu „Briefe von Tellow an Elisa."

sem kappaskáld, teljast honum fremri, fyrir því hversu ágætlega hann lýsir hugarfari kappa sinna, einkum Satans, og fyrir því hvað orðfæri hans er skiljanlegt; þá er Klopstokk þó hinum fremri að fegurð og afli tilfinninganna; orðfæri hans er hljómfegra og lýsingar hans eru skrautlegri; en hann þreytir lesandann. Klopstokk bætti ekki all-lítið hina þýzku túngu; þessar bækur hans „Fragmenten über Sprache und Dichtkunst" og „Gelehrtenrepublik" samt hans „Grammatischen Gespräche" gjöra margt ljóst er áður var óljóst í þýzkum skáldskap og málfræði; en ekki vildu menn samt algjörlega fallast á umbreytíngar hans í stafsetníngunni, því hann sleppti öllum óþörfum bókstöfum.

Annar dagur Júlí mánaðar ársins 1824, sem var Klopstokks 100sti afmælisdagur, var hátíðlegur haldinn til minnis um hann bæði í Altona, Qvedlinborg og Berlín, og heiðursvarði honum reistur í Qvedlinborg. Hans nafn mun ætíð hjá þjóðverjum uppi verða í blessun og heiðri.

---

Um íslenzku útleggínguna af óð þessum má það sama segja og sagt er í formálanum framanvið Paradísar Missir um þýðíngu þess kvæðis, að hún ber sjálf menjar ágætis síns, ok munu allir athugasamir lesarar sjálfir best geta fundið og dáðst að þeirri snilli og andagipt, með hverri þjóðskáldið Síra *Jón* sál. *þorláksson* hefir snúið þessum hetjudikt af þýzku á íslenzka túngu, og leyst þetta mikla bæði vandaverk og þrekvirki vel af hendi. Hið íslenzka Bókmentafélag, sem hlutast hefir til að bók þessi kæmi út á prent, hefir fengið forlagsrétt til verks þessa af Stiptprófastinum Hra. *Arna Helgasyni*, hvern hann áður fengið hafði af erfíngjum Síra Jóns sál., en Stiptprófasturinn hefir af sérligri velvild og ljúfmennsku yfirlátið hann Félaginu ókeypis. Hann hefir líka góðfúsast gefið Félaginu handrit það, sem útlegging þessi hefir verið prentuð eptir, og fyrrum átt hefir Konferentsráð M. Stephensen, sæll. minn. svo Stiptprófastinum er það þannig að miklu leiti að þakka að bók þessi hefir getað komið út fyrir almennings sjónir. Á innanverðu titilblaði handrits þessa hefir Síra *Jón* sál. *þorláksson* með eigin hendi tileinkað Konferentsráðinu sál. útleggínguna; hverrar tileinkunar þykir hér bæði skyldt og tilhlýðilegt að geta, og hljóðar hún þannig:

Hérmeð er herra
hávelhornum
Magnúsi, (miklum
at makt sem nafni)
Stephensen, stillis
stjórnar-ráði,
Islands ypparligs
yfirréttar
forseta, ok félags,
sem fræðir lýð,
óður útlagður
á aðra þessi
oss tama túnga
tileinkaður.

Annars ber handrit þetta það sjálft með sèr, að það muni vera eitthvört það áreiðanlegasta, ef ekki það besta, sem til er af kvæði þessu, þareð Síra *Jón* sál. sjálfur hefir yfirlesið það alltsaman, og víða hvar leiðrètt það samt umbreytt einstökn stefum í því, hvar honum hefir þókt betur fara, þessvegna hefir því orðrètt fylgt verið við útgáfu þessa. Jafnvel þótt Fèlagið hafi viljað vanda útgáfuna sem best, og seinni hlutinn eða þær 12 seinustu bækurnar hafi verið við leiðrèttíngu prófarkanna gjörsamlega samanbornar við þýzka textann, þá finnast þó, því miður! fleiri prentvillur í henni enn skyldi, einkum í fyrra hlutanum, hvörra helztu getið er aptan við bókina, en þær munu samt ekki verða góðfúsum og skynsömum lesurum til mikillar fyrirstöðu, er virða slíkt á hægra veg. Innihald bókanna fylgði ekki handritinu, en þareð það þókti í mörgu tilliti nytsamlegt og því nær ómissandi, vegna þess lesarinn þaraf getur kynnt sèr efni og innihald sèrhvörrar bókar, sèð skáldsins þánkagáng og lètt sèr þarvið lesturinn, svo hefir það samið verið eptir enni fyrstu útgáfu af Klopstokks Messías, er bóksalinn Hemmerde í Leipzig lèt prenta á sinn kostnað árin 1751—1773, hvörrar áður er getið, og er þetta innihald hèr prentað. Þannig leggur þá Fèlagið þenna gullvæga dýrgrip fyrir almennings sjónir, með þeirri einlægu ósk og von, að hann verði öllum lesurum til andlegrar gleði og uppbyggíngar.

Kaupmannahöfn 2ann dag Apríl mánaðar 1838.

*Þorgeir Guðmundsson.*

# Innihald.

**1sta Bók:** Messias tekr sig afsíðis frá fólkinu og gengr uppá Olíufjallið, hvar hann enn einusinni lofar Guði í bænum sínum að hann vilji takast á hendur endurlausn mannkynsins. Hann sendir þvínæst engilinn Gabriel til himins, að hann túlki bæn hans Guði Föður. Umkring himininn eru eintómis sólir. Gabriel fer þá leið til himins, um hvörja forðum ætheriskr stranmr framflaut niðr til Eden. Hann heyrði á einni af næstu sólum lofgjörðarljóð, sem æ sungin verða í englatíðum eptir salminn: þríheilagr. Elóa höfuðengill, hvörn Guð brúkar til sinnar þjónustu, fer á móts við Gabriel til að handleiða hann að Meðalgaungumannsins altari. Gabriel offrar heilögu reykelsi og leiðbeinir því með heitri bæn. Allt bíðr eptir Alföðurs raust og andsvari. Þrumur þjóta og himinsins helgidóms dyr opnast, sem er fyrirboði þess að Guðs andsvör væru allnærri. Elóa og Urim Kerúb eiga tal saman um það, er ber fyrir augu þeirra í helgidóminum. Guð talar. Hann sem ein er elskan vill heilagan halda hjá sjálfum sér annann sabbatsdag til minningar um mannkynsins endurlausn, og að sálir enna frómu feðra skyldu fara til sólarinnar til að sjá Endurlausnarans framkvæmdir. Gabriel engill fær boðskap til varðhalds-engla fagra hvels og jarðarinnar, áhrærandi þau teikn, er ske skyldu við Messíæ dauða. Herrans englar dreifa sér víðsvegar vegna hátíðar halds þess annars sabbats. Gabriel fer ofan til jarðarinnar. Hann finnr Messias sofandi á Olíufjallinu. Hann talar við hann sem alvitrann, þótt sofandi sé. Þaðan fer hann til varðhaldsengla jarðarinnar, hvörra heimkynni er lítil sól í miðpúnkti jarðarinnar. Hann finnr þá og sálnahóp ómálga barna, sem hér búa sig undir himininn. Þaðan fer Gabriel til fagra hvels og hittir þar andir forfeðranna, og Uriel, gætir sunnu.

*2ur Bók:* Forfeðranna sálir sjá Lausnarann vakna og fagna honum með heilögum saungræðum. Raphael, varðengill Jóhannesar, segir Jesús frá hve Jóhannes aumkvist yfir einn andsetinn mann í nágröfum Olíufjallsins. Jesús fer þángað og hittir hinn djöfulóða, er nefnist Samma, hvörn Satan hugðist að drepa. Messías svarar ekki Satan uppá hans grimmlegu heiptar og hótunarorð; en Satan flýr á burt. Samma frelsast af kvölum sinum. Jesús dvelr einn með Jóhannesi í gröfunum. Satan kemr til helvítis og segir afgrunnsbúum frá, hvað hann á vegferð sinni hafi njósnað um Jesús, og ályktar að ráða hann af dögum. Abdiel Abbadóna, fallinn engill, telr tormerki á þessu og ræðr Satan frá slíku fyrirtæki. Satan verðr eyrulaus fyrir ofsa grimd og getr ekki svarað honum. Adramelek skammar Abdíel út, og leggst á eitt með Satan; allir helvítis búar fallast þvínæst á Satans mál. Satan og Adramelek fara til jarðarinnar til að myrða Lausnarann. Abbadóna lötrar lángt

á eptir þeim; hann hittir viðr vitis port Abdiel, goðan engil, sinn fyrrverandi vin og bróður; hann ávarpar hann mjök sorgbitinn; en Abdíel lætr ekki sjá hann. Abbadóna heldr áfram ferð sinni, og við inngáng veraldarinnar, stúrast hann mjök af því að hafa mist sína fyrri dýrð, og örvæntir um Guðs náð. Loksins eptir mörg þánkabrot og ósk að fyrirfarast og verða að aungvu, nær hann jörðunni. Satan og Adramelek nálægjast henni líka. Þegar Adramelek verðr hennar var, verðr hann hamstola og lætr með ofsa-bræði í ljósi sitt helvízka áform. Hann og Satan stefna á Olíufjall og staðnæmast þar.

*3ja Bók:* Jesús dvelr ennþá í dauðra gröfum. Sálarstríð Jesú. Elóa kemr frá himnum og telr hans tár. Sálir forfeðranna senda frá sólunni engilinn Selía til að sjá Jesús, hvörn þær ekki vegna næturdymmu lengr seð geta. Jesús sofnar í síðasta sinni. Varðhaldsengill lærisveinanna fræðir Selía um hugarfar sérhvörs þeirra, en þeir hvarfla umhverfis Olíufjallið og leita að Jesú. Satan vitrast Jndasi Iskarioth í draumi í mind föður hans. Lausnarinn vaknar og fer til lærisveinanna og talar við þá nm skilnað sinn innann skamms frá þeim. Iskarioth heyrir álengðar Jesú orð, og finnr hjá sér afleiðingar sinna vondu þánka og Satans innblásturs.

*4da Bók:* Kaífas, er líka af Satans völdum hafði dreymt, samankallar hið mikla ráð til að fella dauðadóm yfir Jesús. Hann segir frá dranm sínum, er hann heldr að Guð hafi innblásið sér. Filo Pharisæari er ei á því máli, en hann dæmir Jesús til dauða með enn meiri heiptarhug. Gamalíel ræðr til að Guði sé lögð á vald sök þessi. Nikodemus vottar honum hérfyrir opinberliga sitt alúðarfyllsta þakklæti. Filo, hvattr þartil á lann af Satans innblástri, flytur heiptuga ræðu gegn Gamaliel og Nikodemus. Nikodemus svarar Filóni og yfigefr svo ásamt Josep ráðstefnnna. Júdas segir Kaífas heimuglega frá ætlun sinni, en Kaífas birtir hana aptr ráðinu, og það heitir honum launum þarfyrir. Jesús nálægist Jórsalaborg og gerir Pétr og Jóhannes frá sér til borgarinnar til að matreiða enn síðasta kvöldverð handa sér. Pétur sér frá húss þaki Jesú móður, Lazarus enn endrvakta, María systur hans, og Cíðli, Jairusdóttur, koma og vera að leita Jesú. Þegar þau sjá Pétr, koma þau þángað. Jóhannes segir að Jesús muni bráðum koma frá Bethaníu. María biðr. Astrík viðræða Semíðas og Cíðliar. María getr ei beðið lengr og vill fara á móts við hann á veginn er liggr frá Bethaníu. Jesús fer annann veg og staðnæmist hjá Jóseps gröf á Golgata; hann þenkir. um danða sinn og upprisu. Kvöld er komið. Jesús fer til Jórsalaborgar og hittir Júdas við borgarveggi. Ithuriel segir Jesú að hann vilji ekki lengr vera varðhaldsengill illvirkjans Iskariotbs. Jesús gerir hann að varðengli Peturs. Jesús kemr til borgarinnar og setr sik til borðs með lærisveinunum, talar um dauða sinn, kveðr þá í seinasta sinni, segir fyrir að einn af lærisveinum sínum muni svíkja sig og mælir fyrir um minningu dauða sins. Jóhannes, er hann sér hikarinn, fellr flatr til fóta Jesú og sèr söfnuð nærstaddra engla. Júdas kastar sér líka á knè, en Jesús skipar honum að standa upp, og talar aptr um þann er muni svíkja sik. Júdas æðir út. Nótt er komin. Þánkar hans á leiðinni til Kaifasar. Samkoman er nú sann-heilög. Jesús talar um

sína dýrðlegu forklárun. Péturs hreystiorð; Jesús segir honum fyrirfram hrösun hans. Jesús biðst fyrir ásamt lærisveinunum. Jesús stendr upp og gengr til Olíufjallsins undir strángan dóm til friðþægíngar fyrir mannkynið. Þegar hann nálgast Kidron, nemr hann staðar á einni hæð og segir Gabríel að samansafna englunum á afvikinn stað í Getsemane, hvörjum hann nákvæmlega lýsir fyrir honum.

*5ta Bók:* Guð stígr niðr á Tabor til að dæma Messías. Höfuðengillion Elóa fylgir honum eptir álengðar. Guð gengr glæsilegann sólarveg niðr til jarðarinnar. Við eoa síðustu sól mæta hoonum sex sálir réttlátra vitrínga frá austurvegi. Ein af þeim ávarpar Guð. Frumfaðir enna saklausu og ódauðlegu manneskja á stjörnu nokkurri ræðir um Guð við börn sín, er hann sér hann fara framhjá þeim. Guð er kominn á Tabor. Allur synda her birtist fyrir hans augliti. Elóa kallar Messías undir Guðs dóm. Ákall heilags Anda. Píslirnar byrja. Jesús biðr. Hann sér kvalir fordæmdra. Adramelek spottar hann, en verðr undireins vanmegna og hugsunarlaus. Jesús kemr til lærisveinanna. Nú er fyrsta stund liðin. Fagnaðarsaungvar himneskra her-sveita. Messías gengr aptr undir ásettan dóm. Abbadóna kemr, hann hefir lengi leitað Jesú. Loksins þekkir hann hann álengðar, og talar við hann. Píslir Messíasar og bæn. Abbadóna flýr burt. Nú er önnur stund liðin, og sælir himnar sýngja þarum. Messías fer í þriðja sinn undir ströffunar dóm. Elóa verðr sendr af Guði til að sýngja líðanda Syni sigurhróss-ljóð. Píslir Messíasar aukast. Allir englar flýa nú burt, utan Elóa og Gabríel. Nú er þriðja stund liðin. Guð fer aptr til himins.

*6ta Bók:* Ameðan Elóa og Gabríel ræða saman um Jesú píslir á Olíufjallinu, kemr Júdas og flokkurinn til að grípa Jesús. Þánkabrot Júdasar. Svikaflokkurinn ræðst á Jesús. Júdas mynníst við Jesús, er nú framselr sig í fjötur. Pétr særir einn þjóninn með sverði, en Jesús læknar hann aptr. Meðan á þessu stendr er presta hópurinn mjög stúrinn um hvörnin fara muni. Sendimaðr kemr og segir þeim, að flokkurinn hafi, þegar Jesús talaði, fallið dauðr til jarðar. Annar sendiboði segir að flokkurinn þegar hafi fángað hann og flytji hann fjötraðann til þeirra. Þriðji sendiboði segir hann þegar komion. Prestum leiðist eptir Jesú komu, af því flokkurinn hafði flutt hann til Hannasar höfuðprests. Fíló fer því ásamt öðrum til að færa hann Kaífasi. Þánkar Jóhannesar þegar Jesús er færðr til Kaífasar. Jesús mætir fyrir ráðinu. Portía, kvinna Pílatusar, var komin í hús höfuðprestsins til að sjá Jesús. Fíló áklagar hann. Dauðans engill aptrar honum frá að bölva Jesú. Portía dáist að Jesú hugprýði og þolinmæði, með hvörri hann heyrir á Fílons og Kaífasar ræðu. Ljúgvitnanna vitnisburðr. Kaífas reiðist er Jesús ekki vill svara. Messías segist vera Guðs Sonur og heimsins dómari. Kaífas og ráðið dæmir hann til dauða. Samtal Gabríels og Elóæ. Portíu blöskrar, hvörsu Jesús verðr illa útleikinn, fer burt og gerir bæn sína til ens æzta af guðunum. Péturs harmagrátr; hann segir Jóhannesi frá að hann hafi afneitað Jesú, gengr burt og grætr beisklega.

*7da Bók:* Dauðadagr Jesú rennr upp. Elóa vegsamar hann. Ráðið safnast saman, dæmir Jesús til dauða og færir hann til Pílat-

usar. Kaifas og Filo áklaga Jesús. Jesús gefr þeim varla neinn gaum. Pílatus færir Jesús inní þínghúsið til að yfirheyra hann. Iskariots dauði. Pílatus leiðir Jesús útúr þínghúsinu og segist vilja senda hann til Heródesar. María Jesú móðir kémr og sèr Jesús sem illvirkja áklagaðann; hún fer á fund Portíu og biðr hana að vara Pílatus við að fordæma Jesús. Draumr Portíu. Boðskapr hennar til Pílatusar. Portía segir Maríu frá draum sínum. Jesús verðr færðr til Heródesar. Hugleiðíngar Jesú lærisveina og vina. Heródes æskir jarteikna af Jesú, en hann þegir. Kaifas áklagar hann og æsir Heródes upp móti honum. Heródes spottar Jesús og sendir hann aptr til Pílatusar. Mannmergð mikil fylgir honum. Filo sendir vildustu vini sína úti fólks grúann, að þeir æsi hann upp mót Jesú. Pílatus lætr nafnkendann handíngja, Barrabas, birtast ásamt Jesú á þíngi, í því skini að fólkið því heldr skyldi krefja að Jesús væri laus látinn. Boðskapr Portíu til Pílatusar. Filons ræða til fólksins, í hverri hann gerir því heran tilgáng Pílatusar með Barrabas. Hinir prestarnir samsinna ræðu hans, og sá uppvægi múgr krefr lausn Barrabasar. Pílatus þvær hendur sínar og kveðr sig saklausan af blóði þess réttláta. Fólkið tekr Jesú dauða uppá sig. Jesús er húðstrýktr. Pílatus leiðir Jesús þyrni krýndann fram fyrir alþýðuna, ef hún kynni að aumkast yfir hann. Jesús gefr nærstöddum einglum heimugleg umboð. Pílatus leitast við að frelsa Jesús, en það kemr fyrir ekki. Pílatus, skelfðr af áklögun prestanna: „að Jesús hafi kallað sig Guðs Son" leiðir hann inn aptr og spyr hann. Jesú svar. Pílatus vill enn frelsa hann; en þegar prestarnir sögðu að hann eigi væri keisarans vinur, ef hann lèti Jesúm lausan, framseldi hann þeim Jesús til lífláts.

*8da Bók:* Elóa höfuðengill kemr frá himnum ofan og upphrópar um alla himna að nú sè verið að færa friðþægíngarmanninn til dauða. Allir jarðar englar flykkjast um Elóa, sem í H. þrenníngarnafni innvígir eina hæð á Golgata til vígstaðar fyrir Meðalgaungumanninn. Bæn Elóæ er hann sèr Krist koma með krosstrèð. Englarnir útdreifast í allar áttir um Golgata. Gabríel færir feðra sálir frá sólarhveli niðr á Olíufjallið. Adam kemr fyrst niðr og heilsar jörðinni. Satan og Adramelek sveima ofsakátir yfir krossinum. Elóa skipar þeim að snauta burt. Þeir steypast niðr í dauða hafið. Jesús er kominn á aftökustaðinn. Hann huggar þar nokkra er harma hann. Nú fer hann uppá ena miklu altarishæð. Krossinn er reistr. Jörðin tekr til að bifast og titra í öllum leyndardjúpum. Guðmaðr stendr hjá krossinum. Adam gerir bæn sína á knjám. Þeir er krossfesta skyldu Kristum, nálægja sig honum. Allar veraldir vóru nú komnar á þær stöðvar, hvaðan þær áttu að sjá heims friðþægíng. Sköpun öll stendr kyrr og þögul. Faðirinn sèr af himnum ofan Sonarins krossfestíngu. Elóa höfuðengill kunngjörir allri skepnu, að hans blóði sè úthellt. Guð-maðurinn lítr niðr á fólkið, og biðr Guð miskuna sig yfir það. Ræníngjinn á krossinum. Uriel framkvæmir boð Gribagjafans. Hann færir eina stjörnu fyrir sólina, á hvörri ófæddir eiga heimkynni. Myrkr fellr á jörðina. Jarðskjálftarnir vaxa. Friðþægjarans píslir á krossinum. Uriel leiðir ófæddra sálir til jarðarinnar. Eva sèr þær koma. Hún ræðir þarum við Adam. Endurlausnar-

inn rennur miskunar augum til þeirra. Píslir Lausnarans. Jörðin klofnar. Rokviðri geysilegt. Þrumuslag mikið skellr í dauða haf. Elóa hugfestir að fara til himins, til að sjá Aldæmirs andlit. Hann mætir 2 dauðans englum, sem Guð hefir útsendt. Kyrð er aptr komin á jörðina. Eva er mjög sorgbitin. Hún getr ekki haldið út að horfa á Messías deyandi, en rennir augum sínum til Maríu Jesú móður. Báðir dauðansenglar koma og sveima 7 sinnum umhverfis krossinn. Tilfinníngar Frelsarans. Sjón dauðans engla skelfir alla, og einkum Evu. Evu bæn. Góðgjarnt tillit Jesú hughreystir hana svo að hún finnur til eylífs lífs unaðsemda.

*9da Bók:* Elóa kemr aptr frá Aldæmirs tróni. Píslir Jesú á krossinum. Hegðun Jesú vina og lærisveina. Jóhannes og María hjá krossinum. Péturs sorg mýkist af englinum Ithuriel. Hann ásetr sér að fara á fund vina sinna og huggast af þeim. Á vegínum til þeirra heyrir hann á tal ókunnugs manns nokkurs og Sammasar. Samma þekkir hann. Pétr hittir Lebbeus. Lebbeus getr ekki svarað honum. Hann hittir bróður sinn Andreas. Andreas bríxlar honum um fall hans. Pétr mætir Josep og Nikodemus, er eigi vita neitt af hrösun hans. Pétr snýr nú ángráðr aptr til Golgata. Jóhannes og María. Abraham er frá sér numinn af gleðiríkri forundrun yfir ræníngjans heill. Viðtal Abrahams við Móses. Isaak kemur þángað. Abraham biðst fyrir ásamt þeim. Isaak sér að engill nokkr leiðir sálir að krossinum. Þetta eru sálir ráðvandra heiðíngja. Engillinn talar við þær um Messías. Salem og Selith, varðhaldsenglar Jóhannesar og Maríu, óska og vona að Frelsarinn muni hugga þau. Frelsarans orð til þeirra. Píslir Frelsarans. Jörðin hristist aptr allt að neðsta víti, hvört Abbadóna hafði flúit frá Olíufjallinu. Hans þánkar og tilfinníngar. Hann ásetr sér að sækja á fund Messíasar. Hann er í efa um hvört hann eigi að ífærast ljóss-engils mind. Þánkar hans er hann sér jörðina alla myrkva. Hann skiptir ham sínum í ljóss-engils mind. Hann lítr Jórsalaborg, og flýgr á bæð eina þar sem þykkvast nótt niðurgrúfði. Hann heyrir org og ærsli Satans og Adrameleks frá dauða hafinu. Englarnir þekkja hann og leyfa honum að nálægjast. Þánkabrot hans. Hann þekkir Endurlausnarann, sér Abdiel og á tal við hann, verðr þekktr og flýr burt ummindaðr í sinn gamla ham. Obbadon, dauðans engill, flytr Ískarioths anda að krossinum og sýnir honum Lausnarann deyandi, en álengðar himin enna sælu; síðan flytr hann hann til vítis.

*10da Bók:* Faðirinn horfir ofan frá veldisstóli sínum á Soninn. Frelsarinn finnur, að Guð sé ennþá ekki friðþægðr. Hann finnur dauðann nálgast. Hann lítr niðr til grafar sinnar og biðr fyrir enum dauðlegu. Hann vendir sjón sinni til dauða hafs; og Satan, Adramelek og helvíti finnur strax á sér dóminn. Þvínæst rennir hann augum sínum útyfir skara heilagra, er umkríngði krossinn, og tefr lengst hjá ófæddra manna sálum; því tíminn var nú kominn að margar skyldu sameinast dauðlegum líkömum sínum. Áðurenn englar þessara sálna sameinuðu þær líkömunum, segir ein þeirra þánka sína um Lausnarann. Meðalgaungumannsins mikla boð. Hann blessar sálirnar. Lýsíng þessara. Englarnir flytja þær að grasgarðinum Getsemane á Olíufjallinu, hvar Guðs Sonur gekk undir enn stránga dóm; andir feðranna, sem þar stóðu, heilsa

þeim og blessa þær. Nokkrir af feðrum þessum eru náfngreindir. Samtal Simeons og Jóhannesar skírara. Sorgarljóð Miriams og Debóru yfir Frelsaranum, er nú var afkominn dauða. þeir frómu tvístrast. Lazarus fylgir Lebbeusi til að hugga hann. Eptir krossfestíng Jesú verðr Lazarus var hjá sér alikra tilfinnínga og þá hann var nær; honum þykir sem hann sé meðal ódauðlegra. Uriel þýtr í glansa miklum fram hjá þeim Lazarusi og Lebbeusi er þeir ræða um þetta. Uriel birtir þann boðskap enum helga skara, að hann hafi séð hinn fyrsta dauðansengill fara frá himni niðr til jarðarinnar. Við fregn þessa fellr undrun, ógn og ángist yfir allra feðra sálir, yfir Henok, Abel og Set, Davíð og Hjób, en einkum yfir vora fyrstu foreldra. þau fara niðr til grafar Jesú. þar minnast þau, í bænum sínum til Frelsarans, á yfirtroðslu sína, og þakka Guði að hann hafi fyrirgefið þeim hana. Endurlausnarinn litr miskunarauga til þeirra. Bæn þeirra fyrir syndugu mannkyni. Elóa hrópar af musteris bustinni, að dráps engillinn komi! Dauðans engill staðnæmist á Sínai; hann grátbænir Messías um krapt til að fá framkvæmt erindi sitt, er Guð hafi falið honum á hendur. Messías deyr.

*11ta Bók:* Sigurhróssdýrð Messíasar frá Golgata inní hið allrahelgasta. Jörðin skelfr undir honum og fortjaldið rifnar. Gabríel engill býðr að sérhvör enna helgu skara skuli vitja grafa þeirra. Messías yfirgefr musterið og vekr þá heilögu upp frá dauðum. þessir eru Adam, Eva, Abel, Set, Enos, Mahlaleel, Jareð, Kenan, Lamek, Methusala, Nóa, Jafet, Sem, Abraham, Isaak, Sara, Rebekka, Jakob, Rahel, Lea og synir þeirra Benjamin og Jósep, Melkisedek, Asaría, Misael, Hanania, Habakuk, Jesaias, Daniel, Jeremias, Amos, Hjób. Ræninginn, hvörjum Jesús líknaði, deyr. þessir rísa einnig upp frá dauðum: Móses, Davíð, Assa, Josafat, Usia, Jotam, Josia, Hiskiá, Jonatan, Gideon, Elisa, Debora, Miriam, Hesekiel, Asnat, Josúa, Jeptas dóttir, móðirinn og 7 synir hennar, Heman, Kalkol, Darda, Efan, Hanna, Benoni, Simeon og Johannes skírari.

*12ta Bók:* Jósep fær leyfi af Pilatusi að grafa líkama Jesú. Hann og Nikodemus búa líkið til greftrunar og grafa það. Saungr upprisinna og engla við greftrun þess. Margir af lærisveinunum, María og nokkrar guðhræddar kvinnur safnast saman í húsi Johannesar. Jósep og Nikodemus koma líka þángað, og bera þyrni kórónu Jesú. María, systir Lazarusar, deyr í návist bróður síns, Lebbeusar, Natanaels og Mörtu. Lazarus víkr aptr til samkomu enna frómu og leitast við að hugga þá. Salem, engill Jóhannesar, hughreystir hann í draumi.

*13da Bók:* Engillinn Gabríel safnar englunum og þeim upprisnu saman kríngum gröfina. þeir bíða þar með helgri hugarlotníngu og tilbeiðslu eptir upprisu Messíasar. þánkabrot Kneusar höfuðmanns varðhaldsmannanna. Sál Maríu, systur Lazarusar, kemr til samkomu enna heilögu. Obbadon dauðansengill kallar Satan og Adramelek frá dauða hafi; og gerir þeim tvo kosti, annaðhvert að fara strax ofan til helvítis, eða fylgja sér á höfuðskelja háls. Satan víkst undir seinni kostinn en Adramelek þann fyrri; en umbreitir síðan áformi sínu. Obbadon lætr Abbadóna sjálfráðan, hvört hann vilji koma til grafarinnar eða ekki. Dýrð Messíasar

birtist frá himnum ofan. Bænir Adams og Evu. Messías rís upp frá dauðúm. Fagnaðarljoð englanna, upprisinna og enna 7 blóðvotta, Thyrsas sona. Heilagir sveima að Messíasi frá skýum ofan og tilbiðja hann. Seinast ávarpa Abraham og Adam hann. Sál heiðingja nokkurs er flutt til hans; hann dæmir þann dána og hverfr á burt. Gabriel skipar Sátani að fara til vítis. Rómverskir menn og Kneus höfuðsmaðr koma á prestastefnuna. Filo drepr sjálfan sig. Obbadon flytr sálu hans í Gehenna og þaðan til vítis.

14*da Bók:* Jesús birtist Maríu Magðalenu, 9 öðrum guðhræddum kvinnum og Pétri. Þau segja frá þessum atburð á samkomunni. Tortrygni Thómasar. Jesús birtist Mathíasi og Kleófasi í Emaus. Thómas fer til grafar nokkurrar á Olíufjallinu, syrgir þar og biðst fyrir. Upprisinn einn á þar tal við hann. Mathías og Kleófas koma aptr. Lebbeus vill ennþá ekki trúa. Jesús birtist á samkomunni.

15*da Bók:* Margir upprisnir birtast. Sjónir únglingsins Neptóasar, Díleans, Tabítu, er Pétr vakti upp frá dauðum, Cíðliar, Stepháns, Barnabasar, Jósesar frá Cyprus, Portíu, Beors, sem blindr var borinn og Jesús gjörði heilskygnann; Abraham og Móses vilja birtast Sálusi, en Gabriel varnar þeim þess. Vitranir Sammæ, Jóels, Elkanans, bróðnr Símonar og Bóasar; Maríu móður Jesú; Cíðliar Jaírusdóttur og Semídasar únglings fra Naín.

16*da Bók:* Messías samansafnar þeim upprisnu og englunum á Tabor. Hann birtist þeim sem dómari og veraldarinnar herra; og heldr dóm yfir sálum þeirra, sem fyrir skemstu höfðu dáið. Ýmist eru stórir hópar, ýmist einstakir dauðra dæmdir. Ameðan dómr þessi stendr yfir kemr varðhaldsengill stjörnu nokkurrar, sem á að ummindast, og biðr um að það mætti ske hastarliga. Þegar dómurinn er búinn að standa nokkra stund, er brotfeldr únglingr, af kyni saklausra manneskja, færðr fram fyrir Messías. Dómurinn varir. Messías stígr niðr til helvítis og straffar þar andana er syndguðu.

17*da Bók:* Messías birtist Thómasi. Hann fer ásamt Gabriel niðr til andanna, sem drukknuðu í syndaflóðinu og tilkynnir þeim þeirra hlutfall. Margir upprisnir og ráðvandir birtast við gröf Frelsarans. Lazarus býðr vinum sínum og útlendum mönnum, sem komnir eru til þessarar hátíðar, inní aldingarð sinn. Upprisnir menn eru ámeðal enna framandi. Nokkrir þessara birtast. Sjónir tveggja ónefndra; Semída og einn ráðvillingr. Lazarus talar um píslir Frelsarans, og fer þarnæst til grafar Maríu, hverrar sál hvarflar þar. Kneus sér líka sjónir, og Betóron, ríki únglingrinn er ekki vildi fylgja Kristi eptir, og Bersebon hinn líkþrái, er þakkaði Jesú heilsugjöf sína.

18*da Bók:* Adam biðr Messías, að sýna sér nokkr merki endurlausnar hans og friðþægingar; hann verðr bænheyrðr og sér nokkuð af allsherjardómi. Skáldið drepr á þessa sjón. Adam segir þeim upprisnu og englunum frá því, að hann hafi séð dóm haldinn yfir ofsóknarmönnum kristninnar, trúarbragðanna smánurum saklausra og réttlátra manna morðingjum, skúrgoðadýrkurum og vondum konúngum.

19*da Bók:* Adam fellr í djúpa þánka og þögn þegar hann sér dóminn. Þeir hrokafullu, er voru kristnir að nafninu til. Abba-

dónas hlutfall. Þeir útvöldu hefja sig til himins. Þeir ytstu skárar eru þeir sem dóu í flóðinu. Jörðin ummindast. Sjónirnar hætta. Jesús birtist nokkrum lærisveinum við Tiberias vatn, og fleirum enn 500 manna á Tabor, Jakob aleinum þar, og lærisveinum sínum (70 og 12) í pálmaviðarskógi. Jóhannes fær vitrun um sendíngu H. Anda. Tíminn til himnafarar er kominn. Lebbeus er sorgmæddr yfir Jesú burtför. Thómas fer með lærisveinana til Getsemane. Jesús kemr til þeirra og gengr með þeim á Olíufjallið. Sigurhróssfylgðin, sálir, upprisnir og englar eru þar ósynilega nálægir. Lazarus engilmindast. Hann er fluttr af engli nokkrum til Olíufjallsins. Jesús blessar lærisveinana og fer til himna. Elóa, sem varð eptir, og Salem hugga lærisveinana. Þeir snúa aptr til Jórsalaborgar og bíða þar þess, að þeim yrði gefinn H. Andi.

*20ta Bók:* Messías hefr sig til himins. Englarnir, þeir endurvöktu, og sálir framliðinna lofa og vegsama hann með sigurhróss-saungum: að hann frá eylífð hafi ákvarðað að fórnfærast fyrir mannkynið: að hann hafi birtst feðrunum sem friðþægingarmaðr: að hann hafi verið með að sköpun heimsins: að hann gjöri ena útvöldu ennþá meiri og dýrðlegri: að hann sé gleði og huggun þeirra endurleystu: (Sálir frómra framliðinna komu nú til saungflokksins) að hann eptir upprisu sína frá dauðum muni færa óteljanlega skara til Guðs dýrðar: að hann hafi verið áðrenn Abraham: hafi dásamlega verndað þjóð sína, og hefnt hennar: að hann muni láta óttalegan dóm gánga yfir Jórsalaborg: að hann muni frelsa alla og leiða í eylífa sælu: (Nálæg stjarna ummindast) að elskan til hans, sem sé dáinn, og drottni yfir öllu sköpuðu, muni gjöra alla farsæla. Innbúar stjörnu einnar safnast til flokksins; þeir svífa framhjá stjörnu þeirri, sem saklausir menn byggja. Þessara sigurhróp. Þakklætisljóð tveggja dauðligra. Sigurhróss-fylgðin heldr áfram að vegsama Messías með lofsaungum fyrir það: að sú fláráða Babel hrynr í grunn: að hann endurgeldr öllum píslarvottum: að hann á Patmos ey muni láta uppkveðinn dóm sinn yfir enum 7 söfnuðum: að hann muni uppvekja alla frá dauðum, og býta þeim launum eptir verðugleik. Sálir nýlátinna koma til sigurhróss-sveitarinnar, og verða eptir á einni stjörnu. Guðs hásæti sést álengðar. Sigurhróss-saungvar. Messías hefr sig á veldisstólinn og setr sig til Föðursins hægri handar.

# KLOPPSTOKKS

# MESSÍAS,

EINN

# HETJU-DIKTR

UM

# ENDRLAUSNINA,

AF ÞÝZKU Á ÍSLENZKU SNÚINN

AF

JÓNI SÁL. ÞORLÁKSSYNI,
Presti til Bægisár ok Bakka í Vöðlu-sýslu.

---

ÚTGEFINN AD TILHLUTAN
ENS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGS.

---

1–8. BÓK.

---

KAUPMANNAHÖFN, 1834.
Prentadr hjá S. L. Möller.

Hèr hefr

# fyrstu bók Messías.

Oð um endrlausn,
ódauðlig sál!
sem þú ok sýng
syndugra manna,
þá er fullframda
fèkk á jörðu
manndómi sínum
Messías í!
Er Adams kyni
aptr nýa,
heilags sáttmála
hann með blóði,
ást hins eylífa
ávann ok gaf;
var sá vilji Guðs
ok velþóknun!
Fullur fjandskapar
forgefins reis
sjálfum Syni Guðs
Satan móti;
gègnstóð til gabbs 'sèr
Gyðínga land,
hann fullvann frægsta
forlíkun manna!
En ó afreksverk,
þat er einn kènnir
allrar miskunar
uppsretta, Guð,
mun diktar-ment
úr myrkvum fjarska
þèr í nánd
þora' at koma?

Helga þú hana,
höfundr alls,
Andi! þeim ek hèr
með áköllun
í stöð'gri stilli
stend nú fyrir
ok trúar trausti
tilbiðjandi!
Leið, því hún leitar
að líkjast þèr,
hana móts við mig
í megnri furðu
ok ódauðligum
elfða krapti,
fremd forkláraðrar
fegurðar í!
Utbú þú hana
með eldi þínum,
þú sem guðdómsins
grunnlausa djúp
gjörvallt glöggt
gegnum-skoðar,
ok helgar honum
af hauðrs dupti
myndaðann mann
fyri musteri!
Hreinsa hjarta mitt
hugdyrfð nýrri!
en þótt manns raust með,
er mjög skèlfr,
um guðdómligann
mun ek gala þá

lýða Lausnara
ljóð áformuð,
ok skeið skundandi
skelfiligt þat
fá, þó fót steiti,
fyrigefníngu!
Ef þèr Adams börn
upphefð þekkið
þá, er þèr fenguð
í því, at varð
hár heims skapari
hans friðþægir,
þá hlýðið hreifðann
hróðr minn á!
Ok þèr fyrst allra
hinir óð-göfgu,
en þótt fár finnist
flokkur yðar,
handgengnir honum,
sem hjartkær skyldi,
Meðalgangu-manns
mæta-vinir
þér til trúnaðar
teknu sálir
væntanligann við
veraldar dóm,
áhlýðið óð minn!
eylífann Son
látið guðligt líf
lof um sýngja!
I nánd hjá hinni
heilögu borg,
er sjálf saurgaði
sik með blindni,
ok sem ágætrar
útvalníngar
kastaði fávís
kórónu burt.
Drottins dýrðar borg
á dögum fyrri,
helgra forfeðra
fóstur-móðir,
en síðan orðin
altari blóðs,
marg-atat með því
af morðíngjum;
þar var þat,
sem frá því lausann
sleit sik Messías
slægða liði,
sem hann at sönnu
sýndist heiðra,
en harla fjærri
hugferði því,
sem Guðs grannskygnum
geðjast augum.
Fólst Jesús fyrir
fólki vanhelgu;
lá á leið pálma
laufgaðr viðr,
dreifðr út af drótt,
sem Drottni fylgði;
hátt gall Hósanna
af hvörjum munni!
En þat alltsaman
til einkis kom,
þann, er kóng kalla,
kenna þeir eigi,
ok Guðs hinn blessaða
at geta sèð
ofdymm eru til
augu þeirra!
Nú stèg Guð sjálfr
niðr af himni,
voldug var sú raust,
sem viðgall þannig:
„ek hann ítri dýrð
uppbirt hefi,
ok vil hann aptr
uppbirta svo!"
sú komu guðdóms
kunna gjörði;
þó var skari sá,
til að skilja Guð,
allt of synd-saurgu
sinni spilltr!
Jafnframt nálægðist
Jesús sínum
Föður, sem fór nú,
fólksins vegna,

sem til var talát
í tèðri raust,
harla reiðr
til himins aptr;
því at eitt sinn enn
ályktun ráðna
sáttmálans sína
Sonurinn, menn
at helga skyldi,
hafði' í sinni
hann fyri Föður
fram at bera:
Er við Jórsala
austr-síðu
föstum fótum
fjall standanda,
á hvörs optsinnis
efstu hnúkum
Meðalgángari,
Messías vor,
huldist sem Herrans
í helgidómi;
Er hann einsliga
offr sendi
háleitra bæna
himneskum Föður;
varði hèr til hann
heilum nóttum,
frammi fyrir
Föðursins sjón.
Nú fór hann gagngjört
at greindu fjalli,
ei var með Jesú
nema Jóhannes,
fylgði frómr sveinn
enum fræðanda
ástvin áleiðis
allt til grafa,
sem geymdu sofnat
sjáenda dupt,
at sem viss vinr
verðugr Guði
þreyði þessa nótt
þar á bæn.
En sjálfr uppstèg
á efsta hnúk
fjallsins fyrrsagða
Frelsarinn þaðan,
þar hitt ið háa,
heitit Móría,
brá um hann birtu
af brenni-förnum,
er þá enn voru
eylífum Föður
fólks forlíkun
í fyrimindun.
Hèr tók hríngr stór
hírrar kælu
móti Messía
af meiðum pálma;
ljúfari lopt-blær,
ok líkr þeim
gusti, sem gefr
Guðs nærvera,
umflaut andlít hans
allrahelgasta
Seraph, Syni Guðs
settr at veita
þæga þjónustu
á þessi jörðu —
hans er Gabríel
á himni nafn —
stóð ok hèldt heilagt
við hlið opit
ágætra millum
ok ilmandi
Cedrus-trjá tveggja
af tærum dampa.
Hann stóð hugsandi
um heillir manna,
ok sællrar eylífðar
um sigr-hrós,
þegar hjá honum
í helgri stilli
framgekk Frelsarinn
móti Föðurnum.
Vissi Gabríel,
at var nú tíð
heims hjálpræðis
at höndum komin,

af þess íhugun
upptendraðr
mælti hann meðr
mjög hægri raust:
Girnist þú, Guð-mann!
grímu þessa
blundlaust at brúka
til bænagjörðar?
eðr þráir þinn
at þiggja hvíld
lúinn líkami
af lángri mæðu?
Skal ek uppreiða
ódauðligu
hægindi handa
höfði þínu?
sjá, hve sinn breiðir
Ceðrus-viðr
úngr út
arm með blómi!
Sjá, hve beð býðr
balsamsfullt lýng!
grær ok við gamlar
grafir Spámanna
dún-mjúkr mosi
á mold svalri,
skal ek þar af þèr
búa þæga sæng?
Hví er svo hrjáðr
harðri þreytu,
lýða Lausnari!
líkami þinn?
hvörsu hefir þú
hèr at líða
margt ok mikit
fyri manns sakir,
allt sökum ástar
við Adams börn?
Svo mælti Seraph,
en Sonr Guðs
umbunar orð hans
með augna blessun,
útbúinn stóð hann
meðr alvöru
hærst uppá fjalli
himni sem nærst,
sjálfr Guð var þar,
ok Sonurinn
með blíðu brjósti
baðst hèr fyrir.
Jörðin jálmaði
undir Jesú þá,
ok umflјúgandi
unaðs glaumr
þreyngðist inn um öll
undirdjúps port,
er þau vör vurðu
voldugrar raustar
frá munni Messíæ
mjög lángt niðr.
Því þá var ekki
þúnga' at heyra
bistrar bölvunar
blöskrandi raust;
öngvann ógna-storms
ángrboða,
nè rödd ræðandi
í reiðar þrumum
heyrði jörðin hèr
frá hans vörum;
Heldr blíðasta
blessunar mál,
ok efalausrar
ályktunar,
at hún eitt sinn
skuli ummyndast
með fastri fegurð
ok fullum blóma
ódauðligs eðlis
endrnýuð.
Allar hæðir
voru umhverfis
yndælum klæddar
aptans bjarma,
sem nú ný-skaptar
næsta líkar
ágætri Eðen,
alblómgaðar;
Jesús talaði
við Jehóvam.

Enginn utan þeir
inntak ræðu
gripit gat
nè gegnum skoðat
utan ummerkja
ómælanligt;
þetta einúngis
er þar af allt
þat sem mælast má
af manns túngu:
O! guðdómligi
góði Faðir!
nú mèr nálægjast
nýir tímar,
heillum helgaðir
og hjálpræði,
eylífs sáttmála
æskilig tíð,
útvaldir dagar
til undr-verka,
stærri sköpunar
stórvirki því,
sem þú samdir
með Syni þínum.
Allt eins auglýsa
ypparliga
fagra fyri mèr
ok fulla dýrðar,
þeir sig nú ok þá,
þegar tímans
grant gegnum lítum
gjörvalla röð
ok tilkomandi
teiknaða daga
skoðun minni með
margfjölda þess
sáum gjör glansa
guðdómligri.
Þú einn þekkir,
hvörsu þat sinn var
af oss ályktuð
einum huga,
af þèr, minn Faðir!
þínum Syni,
ok okkar Anda,
endurlausn manna!
I kyrð eylífðar
einir saman,
án þess sköpun nein
at sken væri,
vorum allir í
einíngu við
vegna guðligrar
vorrar elsku,
litum við á láð
yfir lýð manna,
áðr einn maðr
enn nú var til:
Ok sæl Eðens börn,
okkar skepnur,
hve vorðnar voru
vesælar þær,
þótt í öndverðu
ódauðligar,
nú dauðligt dupt,
og af drýgðri synd
í öllu eðli
afmyndaðar!
Eg sá eymd þeirra,
en þú, Faðir!
áleizt arfa þíns
aumkunar tár;
ok mæltir þá þegar
þessum orðum:
látum oss enn nú
endrskapa
guðdóms mæta mynd
í manneskjunni.
Vegna þessa vèr
vorn fastrèðum
leyndardóm lýði
til líknar manna;
þat forlíkunar
friðanda blóð,
ok til eylífrar
endrbótar
manns sköpun nýa
eptir mynd vorri.
Þetta þrekvirki
þá kaus eg mig

guðdómligt fullfús
til at framkvæma;
er þèr ok kunnugt,
eylífi Faðir!
og heilum himni,
síðan hugsun þá
hatt ek í brjósti,
hvörsu brennandi
lítillækkunar
laungun mín var.
Þú láð liggjandi
lágt í fjarska!
hvörsu hefir þú
hjartkærast mèr
ok eitt útvalit
augnamið verit!
ok þú heilaga
hauðr Kanan!
Hve mjög opt mændu
mín í tárum
hægt fljótandi
himnesk augu
fúsliga á fjallit,
sem ek fullt vera
sá af sáttmálans
sann-helgu blóði!
Og hvörsu hrærist
hjarta mitt nú
af sí-vellandi
sætri gleði,
yfir því, at ek
er svo lengi
hèr meðal manna
maðr á jörðu,
at ek safnast sè
saman til mín
svo mikinn múga
manna rèttlátra,
ok at innan skams
algjörliga
muni mannkyn allt
mèr helga sik!
Frami fyri þèr,
Faðir eylífi!
ligg ek hèr ok bið
lífandi prýddr
manndóms merkjum,
eptir mynd þinni,
en brátt mun breita
blóma mínum
dauða-dómr þinn
í dreirugt lík,
ok niðrgrafa
undir ná-dupti.
Heyrir ek koma,
Heims dómari!
þik nú þegar einn
þó í fjarska,
ok svo harð-huga
í himna pína,
at eingi bæn orkar
at opna þá,
straungum stigum
yfir storð gánga.
Þreyngist mik ofboð
þegar í gegnum
alls ófinnanligt
anda kyni,
ok þótt jafnvel þú
þeim í bræði
fyrirfærir,
fengju þeir ei
yfirtaks ángist
ákennt slíkri.
Sèr ek grasgarð einn
gegnt mèr liggja,
nætr nið er á,
þar ek niðr fell
flatr fyri þèr,
í foldar dupti
ligg ek biðjandi,
löðra ok veltist
dreirgum, Faðir!
í dauða sveita;
O, sjá! ek em hèr,
eylífi Faðir!
ek vil alla grimd
ens almáttuga,
ok hans dapra dóm
með djúpri hlýðni

em ek albúinn
til at útstanda.
  þú ert eylífr;
anda vera
hefir aldrei ein,
sem er endanlig,
getat guðdómsins
grimma bræði
þenkt nè þolat,
hún er þýngri enn svo;
  Orkar alls enginn
endanligr
óendanligum
undir at rísa,
þá er hræðir hann
eða heli slær,
friðþægt getr Guð,
nema Guð, engi!
  Upphef, allsherjar
Eindæmir! þig!
hèr em ek, lát mik
í hel sleginn!
o, virðst eylífu
offri mínu
til traustrar sættar
taka móti!
  Nú em ek fullfrjáls,
fæ þik beðit,
undir eins himin
upplýkr sèr,
með maktar engla
mörgum þúsundum,
þeir mik dansandi
af dýrstu gleði
í sóma-samri
sigrhróss dýrð
til baka leiða
tróni þínum
ódauðligum at,
eylífi Faðir!
  En ek vil líða,
þat öngvum Seraph
nè kænum Cherúb,
þó kosti til
ígrundun dýpstu,
er unnt að skilja,
ek vil, eylífr
sem er, líða,
andlát ægasta
vil eg útstanda!
  Ok nú enn framar
innti Jesús:
höfuð mitt hef ek
til himins upp,
hendr mínar
til hárra skýa,
ok sver þèr, Faðir!
við sjálfan mik,
ek, sem eins er Guð
ok þú sjálfr:
ek vil allt mannkyn
endrleysa!
  Jesús sagði svo,
ok sik reisti,
í hans andliti
skein æðsta tign,
miskunsöm einurð,
mild alvara
sameinuð sálar
sætustu ró;
þannig stóð hann þar
þat mælandi
frami fyri
Föður sínum!
  En englum öllum
óheyranligr,
af sèr ok Syni
sínum at eins
formerktr ræddi
Faðir eylífr,
snèri ásjónu
alvörufullri
móti Messía
ok mælti þannig:
  Ek breiði höfuð
yfir himin mitt,
ok arm yfir
hið endalausa;
ek em eylífr,
ok þèr segi,

Son minn! sverjandi
við sjálfan mik:
ek vil fólki synd
fyrigefa!
þetta sagði Guð
ok þagnaði.
Meðan milli sín
mæltu þannig
enir eylífu,
alla gegnum,
neðar sem ofar,
náttúruna
leið leiptur-titrun
lotníngarfull.
Allar andir,
sem í því bili
höfu tilveru,
en hugsun öngva
eðr óðs megin
öðlazt höfðu,
titrandi tóku
nú við tilfinníng!
Öflugt ofboð
sveif á engilinn;
honum skalf hjarta,
ok hann umbergis
lá hans heimskríngla
hljóð ok vænti,
eins ok á undan
óveðri jörð.
At eins í öndum
ókominna
Christí kjör-vina
kveiktist rólig
yfirtaks undrun
ok eylífs lífs
sætt-svæfandi
sæl tilfinníng.
En sinnu sviptir
ok til sárustu
at eins viðkvæmir
örvæntíngar,
sinnu sviptir þó,
sína vondsku
í gegn Guði
til at geta þenkt,
hrundu hraðt niðr
hástólum sínum
andar helvízkir
í afgrunns dýpt;
I því sèrhvörr sökk
sveif á hann bjarg,
afgrunnit æstist
ok á þá velti
brúsanda brimi,
af bísna þrumum
nú glumdi Niflhelms
nötrandi botn.
Frammi stóð Jesús
fyri Guði,
ok nú hófust hans
hörðu píslir,
ákvarðaðar oss
til endrlausnar;
Gabríel tilbað,
grúfði flatr,
ok lá lángt frá
í leiðslu stakri
nýrra þánka nú
numinn frá sèr.
Aldrei hafði hann
híngað til fundit
hjá sèr hugsanir
háleitar svo
um allt alda tal
undanfarit,
hann sem, frá því hófst,
hafði lifat;
Eins lángt ok öndin
ímyndar sèr
endaleysit allt,
nær út af ham
hún í hvat-fleigum
hvarflar þankum,
ok er sem orðin
fyrir utan heim!
Hærstr guðdómr,
hans friðþægðir,
eylífs guðdómligs
leska Sonar,

allt stóð nú opit
fyrir englinum;
þessa myndaði
miklu þánka
sjálfr Guð
í Seraphs anda;
Guð mynntist sjálfs sín,
at sá væri,
sem skyldi líkna
sköptum verum!
Reisti Seraph sik
siðan ok stóð,
bísn þau undraðist
ok baðst fyrir,
ósegjanlig ein
yndæl gleði
gegnum hjarta hans
hvörvetna lèk,
skaut hann út frá sèr
skínanda ljósi,
ok sjón sigranda
sèrligum glansa.
Öll jörðin útflaut
undir honum,
hugsaði hann svo,
í himins ljóma,
gat þá at líta
guðdómligr
Meðalgángari
Messías hann,
hve fyllti fegurð
fjalls brún alla;
Hyl þig, Gabríel!
hann svo kallar,
þú á þessari
mèr þjónar jörð!
tak þig upp, tef ei,
sem túlkur bæn
fyri Föður minn
framber þessa!
Meðal mannanna
enum mætustu,
sælum forfeðrum,
ok flokkum himins
samansöfnuðum
svo at verði
tilkynt takmörkuð
tímans fylling,
hvörja þeir hafa
heitustu þreyð
eptirlaungun af
upptendraðir!
Þar skaltú skína
skærum ljóma
höfuð-engils í,
sem í eyrindum
Meðalgángarans,
Messíæ sjálfs,
sèrligum sannr
sendiboði!
Seraph þegjandi
sèr brá í lopt
með guðdóms geisla
glöðu bragði,
en Olivetí
ålengðar frá
hátt horfði Jesús
honum eptir!
Gjörla Guð-maðr
gat at líta
alla hegðun hans
fyri hástóli
Föðursins dýrðar,
áðr farandi
hraðfleigr hófst
at himins merkjum.
Nýar samræður
nú millum hans
ok hins eylífa
upptök höfðu,
örlög opnanda
innihaldsfullar,
dýrra dásemda,
dóma leyndra,
höfgrar hátignar
ok heilagleiks,
loksins úrskurðar
um líf ok dauða;
Einnegin englum
óskiljanligar

háleitar ræður
um hluti þá,
sem sann-guðligrar
syndara lausnar
dásemd fyri drótt
mundu dýrðliga
æ gjöra allra
endrleystra.
Meðan þeir mæltu,
sem morgun hófst
engill at himins
yztu merkjum;
álfröðlar einir
uppfylla þá
heilaga hríng-vídd
á hvörja síðu.
Tær, ok tilbúnu
tjaldi líkr
af efni ofnu
uppruna-ljóss,
umkríng ok yfir
allan breiðist
himin hvörvetna
þeirra há-glansi;
Ekkert hauðr-hvel
enna hálf-dymmu,
sem um lopt líða,
ljómandi sjón
þorir, því skæðri
þessa himins
nokkurt sinn
í nánd at koma.
Fjærri flýandi
fram hjá slíku
skundar náttúran
af skýum myrk;
fylgja flótta þeim
folda knettir,
sem agnir einar,
er ei merkjast.
Sem fyri fótum
faranda manns
gýs upp gatna ryk
á grund þurri,
auðvirðilig
yrmlínga búð,
en fellr aptr
óðarr niðr.
Um heilan himin
hrínginn í kríng
æ eru þúsund
opnir vegir,
lángar leiðir
lok sjást engin,
umkríng alla þá
eru sólir.
Um leið, sem liggr
ljómandi' at jörð,
framrann fyrst eptir
foldar sköpun
tignar-tær straumr
undan trónsfæti
með eldlopts eðli
til Eðen niðr:
Uppyfir honum
ellegar hans
um bjarta bakka
bygða af litum,
rètt sem regnboga
ok roða morguns,
englar ok Guð
stigu ofan þá,
til at umgángast
ástúðliga
meðr meinlausum
mönnum jarðar.
En strax var straum þeim
með sterku kalli
snart ok snöggliga
snúit til baka,
þá er með misgjörð
hafði maðrinn
fjarlægt sjálfan sik
síns Guðs hylli;
Af því ei vildu
ódauðligir
síðan í sinni
sjónar fegurð
virða vitjunar
enar vesælu

álfur, nú orðnar
ógnarligs hels
illa spiltar af
eyðileggíngu,
þá snèru þeir
fyri þessa skuld
ok vegna viðbjóðs
við þeim baki;
  því en fögru fjöll,
þar fótspor lágu
enn hins eylífa,
áðr svo kyrr
þyljandi lundar,
sem þytr forðum,
gjörði glaðværa
Guðs nærveru.
  Farsælir dalir
friðseminnar,
hvörra hyllirík
himins æska
gjörði sèr at gamni
at gánga til,
ok fagrlimuð
forsælu gerði;
  þar sem fyrr flutu
í fegins tárum
menn, í meinleisi
meðan lifðu,
af tærri teiti
tilfinníngar,
at Guð þá eflaust
eylífa skóp.
  Undir óblessun
lá nú allt þetta,
já, undir bölvun
lá jörðin öll,
orðin óttalig
egin-barna
almenn gröf, áðr
ódauðligra!
  En síðar meir
á sínum tíma,
þá mætar munu
morgunstjörnur
endrnýaðar
anglýsa sik,
ok út af ösku
allsherjar dóms
í sigur-sóma
sjást framgánga,
  þegar Guð gjörir
gjörvalla heima
sí-sameinaða
við sinn himin
með yfirskoðun
augna sinna
æ eins nálægra
í öllum stöðum:
  þá mun aptr eins
hinn ætheriski
straumr framfljóta
með fegri glansa,
út af himneskri
uppsprettu lind,
niðr at Eðen
enni nýgjörvu.
  Aldreigi mun þá
ypparligar
bresta samkomur
á bökkum hans,
þeirra, sem sækja
sveita nýrra
ok ódauðligra
umgengni' á jörð.
  Hèr hermdr vegr
er sú helga braut,
hvörja Gabríel
gekk áleiðis,
er hann hèðan
úr hauðrs fjarska
himni nálægðist
hátignar Guðs;
  Midt í söfnuði
sóla þessum
hefr sik himin
í hnattar mynd
ómælanligrar
ummáls víddar,
allra veralda
aðal-munstr.

Fegurðar fyllíng,
sem fæst at líta,
sú er sèr úteis
um sagðan himin,
sem lètt líðandi
lækjar straumr,
yfir allt þat rúm
óendanligt,
ok breitir alltíð
eptir honum.
Glymja frá gimli,
þegar gengr hann
á vinda væugjum
viðr strönd sóla,
sí-samhljóðandi
saungva raddir,
þær er hátt hljóma
um himin allan.
Við þá blönduðu
voldugum röddum,
líkt sem lífgandi
lofsálmar Guðs
hinna himnesku
hörpuslagara;
svo stór saungva mergð
sameinaðra
færði mörg lofljóð,
eigi lág-kveðin,
upp at eyrum hans,
sem eyrat skóp.
Svo sem fagnaðar
full hans augu
æ finna unun
ok ánægju
äsýnd í
hans egin-verka,
allt eins ánægðu
eyrum hans nú
guðdómligum
greindir saungvar.
Þú, lofljóð himins
lærandi mik,
spil-systir engla,
spá-kona Guðs,
hygginn heyrandi
háleitra radda
ok ódauðligra!
andagift Síons!
herm mèr hróðr þann,
sem himnar súngu!
Haf heilsun vora
heilaga land,
innvígt æðsta Guðs
opinberunum!
hèr sjáum vèr hann,
svo sem hann er,
svo sem hann var,
og sem hann verðr!
Sjá! enn al-sæla
án yfirhuldu,
utan öptrunar,
ekki í rökkri
heima fjarlægra,
hvörra þú ert
æ algjörðasta
aðal-munstr!
I skara þinna
skoðum vèr þik
ítrum söfnuði
endrleystra,
þá þú ok virðir
þinnar sjónar;
ó hve fullkominn
ertú vor Guð
í allan máta
óendanliga!
Sjálfr nefnir þik
at sönnu himin,
ok heitir Jehóvam
hann, sem verðr
með öngvum orðum
útmálaðr!
elfð með innblæstri
uppruna-lífs
lofgjörðar-ljóð vor
fara leitandi,
þat þó forgèfins,
þinnar myndar.
Þegar þánkarnir
skulu þik birta,

geta þeir at eins
um guðdóm þinn
sik samanborit
sín á milli;
þú, enn eylífi!
ert í þínum
egin mikil-leik
einn fullkominn!
Sèrhvör sá þánki,
er sjálfr með
þú dýrðar veru
þína skoðar,
miklu heilagri
ok háleitari
yfrit kyrru er
áliti því,
sem á sèrhvað skapt
sendir niðr.
Þó ályktaðir
þú, að skyldir
einnig sjá verur
fyrir utan þik,
ok láta frá þèr
lífganda blæ
öflgann yfir þær
ofan stíga!
Þú skópst fyrst himin,
ok þar nærst oss
andliga himins
innbyggendr,
fjærri fæðíngu
fólust yðar
þèr, í þann tíma,
þú, ýngri jörð!
einnig þú, alskír!
ok þú, máni!
farsællrar foldar
förunautar!
Fagri sköpunar
frumburðr þú!
hvörsu varð þèr við,
er frá vettngi
þú fyrst framkomst,
eigi fyrr þín varr?
þá eptir eylífð
ólugsanliga
Guð til þín
gaf sig niðr?
Ok vígði þik,
at vera skyldir
helgr bústaðr
hátign sinni!
þinn mikli hnöttur,
sem ei mælast kann,
nú frá nótt krafinn
til nýrrar veru,
lèt á sik lagna
lögun ok mynd!
Gekk en skapandi
guðdómlig raust
um kríng með klárra
krystalls hafa
fyrsta brúsandi
bylgna hljóði,
eins ok björg bygðir
bakkar þeirra,
líkir jarðliga
löndum heima,
heyrðu hana,
er svo hátt viðgall,
þó enginn enn nú
ódauðligra!
Þá stóðstu þínum
þessum nýa,
stóri Skapari!
á stóli háum;
þú stóðst ok þenktir
um þik sjálfan
einnsaman enn
ok alvarligr!
O! þeim þenkjandi,
sem þar stendr,
gegnið guðdómi
með glöðum dansi!
þá, já, þá skóp hann,
þèr Seraphim!
yðr, öflugar
anda-skepnur!
Fullar þenkínga,
fullar krapta

maktar-mikillra,
móti þaunkum
Skaparans skærum,
er hann skóp af sèr,
ok inngaf yðr,
at þèr kynnuð
at taka trúrri
meðr tilbeiðslu!
Halelúja!
já, eitt hátíðligt
Halelúja!
þú hærsti, ok fyrsti!
sè þèr sí ok æ
súngit af oss!
þú anðn einsamla
ávarpaðir:
vík burt, vert ei meir!
ok til veranna:
hèr fram! hlaupit út!
Halelúja!
Sálmr sá í hæð
meðan súnginn var,
sem: þríheilagr!
því enn mikla
æ fylgir eptir
í engla tíðum,
hafði sæll Sonar
sendiboði
nú einni náð
af nærstu sólum
við hærstan himin
harla skínandi.
Þagna Seraphim
þarnærst of allt,
heiðrandi tillit
hæðsta Föðrs,
með hvörju hann þeim
heilagann saung
lèt nú launaðann
lofgjörðar þeirra!
Í því auglýstist
alskínandi
viðr sóla sæ
Seraph englum;
Guð gáði hans,
með Guði himin;
enn komni tilbað
knèfallandi!
Tví-slíkan tíma,
sem í tilbeiðslu
djúpri, drottinligt
dýrðligr Cherúb
nafnit Jehóva
nefnir um sinn,
ok þann þrítekna:
þú ert heilagr!
englum æ tamann
eylífðar saung,
varð Guðs viðrlits
virðtr Seraph!
Hann hátíðliga
fyrir hærstann Guð
fram til at færa
fór nú ofan,
frábærum flýti,
frumburðr tróna,
er sinn útvalda
ávarpar Guð,
en himin heitir
hann Elóam!
Yfir alla fram,
sem hinn æðsti skóp,
er hann ágætr
ok hinn nærsti
enum óskapta;
svo einn þánki
Guðs útvalins í
Elóæ brjósti
er, sem öll sálin,
ypparligr:
Eins ok öll sál manns,
nær hún ígrundar
þánka-full
ok þenkir eptir
fyri guðdóm gjörð,
ok ens göfuga
ódauðligs eðlis
allmaklig síns;
Er hans augnaráð,
þegar umskygnist

víst miklu vænna
vordags morgni
ok lystiligra
leiptrandi stjörnum,
er fyri eylífs
alsmiðs tróni
nýar flugu fram
ok fullar ljóss
dávænt æsku lið
með dögum sínum!
Gjörði Guð hann fyrst
ok gaf honum
myndaðann mærum
af morgunroða
ætheriskann einn
eld-líkama;
himin kríngum hann
harla fagr,
þegar fyrst fæddist,
flaut af skýum.
Með opnum örmum
hóf enn eylífi
engil ypparstann
út af skýum,
ok svo mælti með
munni blessanda:
þar er ek,
þú hinn skapti!
Sá nú með sama
Seraph Elóa
almáttugann Guð
fyrir augum sèr,
ok af forundrun
frá sèr numinn
á hann horfandi
hugfánginn stóð!
Aptr með anda
upptendruðum
horfir hann á hann,
ok hnèg niðr,
taptr sjálfum sèr
fyri sjónum Guðs,
loksins lèt hann rædt,
ok ljóst sagði
eunum eylífa
alla þánka,
þá er hann hjá sèr
í hjarta fann,
allar nýar
ok ódauðligar
hræríngar, hvörjar
hans ígegnum
magn-miklar ullu
mjög stórt hjarta;
Fyrr munu falla
í foreyðíngu,
ok ýngðir upp
af ösku fljúga
heimar hvörjir,
ok hverfa til fulls
aldir inn
í eylífðina,
áðr geðgöfgast
guðligra svo
kenni kveikínga
kristit hjarta.
Frá sæti sínu
Seraph Elóa,
móts við Messíæ
mektugann túlk,
niðr á nýum
nú vöktum geislum,
ferðaðist fljótt
í fegurð sinni,
hann at heilögu
til at handleiða
Meðalgaungu-manns
mikla altari.
Fèkk hann faranda
fjærri kendan,
en rèð sèr ekki
fyrir unaðsemd,
er hèr einn hitti
höfuð-engil,
þann í samsýslun
hafði sèð forðum,
er þessir ásamt
alla parta
höfðu skoðat skírt
sköpunar Guðs,

með eins ok sèrhvörs
innbyggendum !
Einnig afreksverk
ásamt framit
ómöguligri
eptir at breita
en hin yppnrstu,
sem Adams börn,
þótt öll aðfylgist,
útrètt geta.
Fèkk nú forklárat
fegurð sína
elskuliga hvör
öðrum móti,
báðir brugðu við
meðr brennheitri
ást, ok útbreiddum
örmum sem best
ok með viðmóti
vinar-hjarta
flaug hvör sem fyst gat
í fáng öðrum.
Brádt skulfu báðir
blíðu fángnir
fyri fögnnði
við faðmlög þau,
eins ok tveir titra
af teiti bræðr,
hvörra beggja brjóst
hyggja dygðir,
ok báðir voguðu
með bróðr-hug
fyri föðurland
fjöri sínu,
þá er þeir enn nú
eptir þrekvirki
ódanðlig unnin
aptr finnast,
hverandi af hraustu
hetjn hlóði,
ok frammi fyrir
enn nú frægara
fallast í faðma
föður sínum.
Guð sá álengðar
engla þá tvo,
ok birti báðum
blessun sína,
gengu þeir glaðir
gagnvart tróni,
vegna vinskapar
enn nú vegligri,
ok svo arka þeir
enn lengra fram
at hins eylífa
allrahelgasta.
Nærri dýrð Drottins
dásamligustu
hvílir á himins
hán fjalli
ens allrahelgasta
óttalig nótt;
ljós-fagr ljómi
kríngum leyndardóm
ens almáttuga
innantil vakir,
hylr hins vegar
heilög dyma
at eins lit innra
fyrir engla sjón.
Stundum sterkr Guð
stóreflis reiðir,
sem sjálft almættit
á sèr bera,
ljúka lætr upp
á leyndardóm þann
skyggjandi skýlu
fyri skoðenda
helgum augum
enna himnesku,
sem hátíðliga
heiðra þá sjón !
Einmidt við inngáng
ens allrahelgasta
stóð allt í einu,
álíkt sem fjall,
glansandi gagnvart
Gabríels augum
Meðalgángarans
mikla altari !

Hann at því sèðu
í hátíðligri
prýði skínandi
sem prestr gekk,
hafandi í höndum
meðr heilögu
fórnar reikelsi
fylltar skálir,
af gulli gjörvar
glóandi tvær.
Svo drottinligu
djúpt þenkjandi
stóð nú engillinn
fyrir altari;
honum samsíða
saung Elóa
á gullna hörpu
guðlig kvæði,
offranda engils
at undirbúa
helgann háleítrar
hug til bænar!
Hann hlýddi til,
ok af hörpunnar
yfirtaks afli
upplypti sèr
hans heitr andi
hjartanligar,
eins ok uppvellr
ólgandi sjór,
strax sem í sterkum
stormi honum
raust hins eylífa
rennr yfir.
Gabríel horfði
til Guðs ok saung,
raun honum voldug
raust af munni,
ok nú áhlýddi
eylífr Faðir;
heyrði hímininn
þína heitu bæn
mikli Messías
um manna friðun.
Guð sjálfr gjörði
fyri Gabríel
offrit upptendrat
undarliga;
heilagr reykr
með heitri bæn,
hennar friðsamr
förunautr,
uppstèg ásamt
frá altarinu.
Þá hófst hann hærra
á helgu flugi
sem heill himin
yfir hauðrs fjöll,
vall hann ok valt
í víðu rúmi
affram alla leið
til híns eylífa.
Híngat til hafði
í hugleiðíngum
Jehóva jafnan
yfir jörð litit,
því sífeldt samtal
Sonurinn haldit
fèkk við Föður sinn
af fullri sál.
Voru vegligar
víðræður þeirra
örlög opnanda
inntaksfullar,
dýrra dásemda,
dóma leyndra,
höfgrar hátignar
ok heilagleiks,
ok loks úrskurðar
um líf ok dauða.
Einnigin englum
óskiljanligar
háleitar ræður
um hluti þá,
sem svo guðlígrar
syndara lausnar
dásemd fyri drótt
mundu dýrðliga
æ gjöra allra
endrleystra.

Enn nú at nýu
nam at fylla
Guðs voldugt viðlit
víðann himin!
með hægð ok stilli
hátíðligri
gegndi gjörvöll mergð
Guðs tilliti.
Allt beið nú eptir
Alföðurs raust,
himins hár ceðrus
hljóðr þrumdi;
hafit hvíldi sik
við háa bakka,
ok þreyði þögult,
meðan þannig stóð.
Stóð í stillíngu
storm-vindr Guðs
óbifanligr
millum eyrfjalla,
voru vængir hans
væntandi þandir
unz ofan kæmi
Alföðurs raust!
Nú þutu þrumur,
meðan þannig beið,
ofan frá enu
allra helgasta,
en lángsamliga
liðu þær fram;
þó var þat ei Guð
sem þá ræddi,
heldr hermdu boð
helgar reiðir,
at guðlig andsvör
væru allnærri!
At þeim þögnuðum
fyri þreyandi
teitra tróna sjón
tignarfulls síns
lèt enn eylífi
opinberliga
háum hrundit upp
helgidóms dyrum,
at hann himininn,
sem hljóðr beið,
undir auglýsíng
eptirvænta
þánka sinna þar
þannig byggi!
At snýst Elóæ
Urim Kerúb,
trúnaðar engill
tilkjörnastr
Andans eylífa,
fullr alvöru
ok enna dýpstu
engils þánka
í enu sama
innandi svo:
Hvað ber, Elóa!
fyrir augu þèr?
undir eins uppstóð
Elóa Seraph,
ok fór framanverðt
fetum seinum,
Urim aptr
ansandi svo:
Gegnt við glóandi
gull-pílára
teiknaðar sèr ek
töblur standa
vöndum völundar
villu-krókum,
fullar forsjónar,
sem fólgin er!
Líka lít eg þar
lífsins bækr,
þær er vinda við
voldugann gust
opnaðar eru,
ok upphæðanna
einuig uppljúka
ódauðligleik
fyri komandi
Kristinna nöfnum,
þeim nýu nægra
nöfnum launa!
Verða hèr bækr
veraldar dóms

eirnig opnaðar
óttaligar,
líkar blaktandi
bardaga fánum,
sterkir stór-englar
nær stríðast á.
Deyðandi dráp-sjón
fyri dárligar
helzt til hrakligra
hrekkja sálir,
þær er settu sik
sjálfum Guði
af þjóst ok þveruð
þrútnar ígegn!
O hve Jehóva
auglýsir sik!
kær Urim Kerúb!
í kyrð heilagri
lýsa leyptrandi
ljósa stjakar,
sveipaðir fögrum
silfr-skýum.
Þúsund við þúsund
þessir glansa,
fyrirmyndanir
enna friðþægðu
við Guð af Guði
Guðs safnaða;
teldu þá, Urim!
töluna helgu!
Heima, kvað Urim,
hreysti-verk anda
meðr krönsum krýnd
kostuligum,
ok gleði-greinir
gjörvallar engla
er, til at telja,
eigi torveldt oss!
Enn alla at reikna
ávexti þá,
er af endrlausu
munu uppspretta,
þá mergð mikillrar
miskunar Guðs,
er oss með öllu
ómöguligt!
Eg sè enn framar,
Elóa kvað,
dýrðliganu dómstól
Drottins æzta;
mjög ert, ó mikli
Messías, þú
hár heims dómari!
hræðiligr;
Horf hèr á ásýnd
ens háa stóls,
hve hún líflætr
lángt í burtu!
horf á heitt kyndtann
hefndar loga!
veifar lifandi
voða-stormr
honum hátt í ský
sem hvína þrumum!
Væg, ó veraldar
vísi dómari!
vert, ó Messías!
vægðarsamr!
sem ert útbúinn
allskonar með
vopnum ok ógnum
eylífs dauða!
Svo ræddu saman
sín á milli
englarnir Urim
ok Elóa;
höfðu sjösinnum
sendar reiðir
helgidóms opnat
huldu dymma,
nuz hins eylífa
alvoldug raust
leið sem lygn ofan
lindar straumr!
Guð er sjálf elskan,
ok ek var sá,
áðr ein mín til
enn var skepna;
ek var sá einnig,
þegar alheim skóp,

ok við fullkomnun
þess ens fólgnasta
ok vegligasta
verka minna
em ek enn í dag
einn hinn sami.
En þèr allsherjar
eindæmir mik
skuluð skjótt kenna
skelfiligann,
fyri sjálfs Sonar
sárann dauða,
ok hinn óguanda
með ákalli
þá taka að tigna
tilbeiðslu nýrrar!
Utan yðr þá
armleggr hans
dygði sem dæmir,
ok við dáð hèldi,
munduð þèr við morðs
ens mikla sjón
til grunna gánga
gjörsamliga,
af því þèr eruð
endanligir!
þagnaði þá,
at þessu mæltu,
sá fyri fullnað
skyldi friðstillast;
hèldt fyri honum
höndum at sèr
auðmjúkust undrun
meðal englanna;
en hann Elóæ
í því bendti!
Jafnsnart ásjónu
Jehóvæ í
Seraph ræðu rètt
ráða mundi,
vendi hann sèr við
í vetfángi
hinna himnesku
heyrenda til,
ok síðan sagði
svo til þeirra:
A hinn eylífa
augum horfið
áðr útvalin
öld rèttlátra!
hans, þèr heilög börn!
hjarta játið
fullt mestu mildi
ok meðaumkunar.
þèr hið þekkasta
voruð þaunkum hans,
eins í öndverðu,
þá er ókomna
hann sèr hugleidda
heill þeirra lèt,
er var ásett
at endrleysa.
Yðr hefir æ
eptirlángat,
er ok Guð yðr
einn þess vitni,
af heitu hjarta
hjálpræðis daga,
ok mildann Messíam
at mega sjá!
Verið blessaðir,
velkomnir honum,
þèr góð börn, getin
af guðdóms Anda!
gjörist glaðvær, börn!
Guð, Föður allra,
sjálfan sjáið þèr,
svo sem hann er,
veru veranna,
sem verða' ok eru!
Sjáið! sá fyrsti
ok hinn síðasti,
allrar miskunar
eylífr Guð,
sá einn frá eylífð
er ok varir,
skapari, skepna
sem ei skilr neiu,
hann, Guð Jehóva,
hèr sik yðr

niðr nálægir
í náð sem Faðir!
þessi fullsæli
friðar-boði,
frá sjálfum Syni
sendr híngat,
einúngis er
fyrir yðar skuld
ypparligu at
altari genginn.
Nema væruð viss
vitni kjörin
þèr ennar æztu
endrlausnar,
ó svo hefðu æ
allfjærri' í kyrð
þeir einir ásamt
ógrundanliga
sjálfir samanrædt
sín milli leynt!
Enn þèr, sem aldir
eruð á jörð,
með dýrum dansi
daga þessa
ok með eylífrar
unaðsemdar
föstum fögnuði
skuluð fullenda,
ok vèr englarnir
þar ásamt með.
Alla viljum vèr
vídd ena fólgnu
yðar ágætu
endrlausnar
með æztu undrun
yfir skoða
ok upplýstari
meðr augna sjón;
Með miklu hreinnri
munum vèr sjón
líta þá leyndar
lofsælu dóma.
enn yðar ástríks
Endrlausnara
geð-frómu geta
grátandi vinir,
dymmann vafa veg
sem villast nú;
En hans al-tíndir
ofsækendr,
er hinn eylífi
af fyri laungu
himins hefir máð
heilögum skrám!
en sínum enum
endrleystu
gefr hann geisla
guðdómligs ljóss.
þá munu þeir
eigi þörf hafa
grát-augum optar
á at horfa
frídt forlíkunar
fossanda blóð,
þegar þeir sjá,
hvörnig þess straumr
renur ört affram
í eylíft líf
ok þat án þrota
þeirra vegna!
O! þá í þessu
þeir enir sömu
skæru skauti
skulu friðar
æ halda hátíð
huggaðir ljóss
ok sabbats eylífs
með sigr-hrósi.
Sælir Seraphim!
ok sálir helgar!
Frelsarans feðr
enir frelsuðu!
hefjið eylífðar
hátíðir þær,
er skulu um aldir
óendanligar
haldast heilagar
hèðan í frá.
Ok jarðar allrar
enn dauðlig börn,

ætt eptir ætt,
til yðar munu
samansafnast,
unz at síðustu,
at fremd fenginni
fullkomnunar,
klárum líkömum
klædd at nýju,
eptir afstaðinn
allsheriar dóm
þau öll innkoma
í eina sælu.
En gángit út
frá oss á meðan,
háir englar
helgra tróna!
skírið skipun þá
þeim, er skepnum Guðs
er falit umboð
yfir at ráða:
At þeir tíguglà
tilreiði sik,
ena útvöldu
ok auðugustu
dulinna dóma
daga þessa
helgan at heiðra
hátíðligri!
Ok þèr foldar fólks
enir frómu menn
Meðalgángarans
mikla feðr! —
því af dupt-beinum
dauðligleiksins,
þeim sem þar í mold,
þegar dóuð,
af yðr eru
eptirskilin
at undirbyggist
til at upprísa,
Messías uppspratt,
maðr ok Guð! —
Yðr er einnig
unnt at njóta
frábærs fagnaðar,
er finnr hjá sèr
Guð með guðdóms síns
glöggvun hárri;
upp, upp! þèr andir
ódauðligar!
farit með flýti
til fagra hvels,
þess er umskín hríng
endrlausnar!
Þaðan skuluð þèr,
þótt í fjarska,
Endrlausnara
yðar ok Sonar
fólk forlíkandi
framkvæmdir sjá!
látið leið yðar
ljóss veg þennan!
Frá öllum álfum
yðr móti
horfir hvörvetna
hýr náttúra
endrnýuðum
með yndisleik,
eins vídt ok útná
hennar ummerki.
Því þegar hafa
þessar aldir
skamtaðann skeið-völl
skundat um kríng,
vill hjá sjálfum sèr
sæll Jehóva
heilagann halda
hvíldardag Guðs,
sá er segjast skal
sabbat annat!
Mjög er hinum hann
háleitari
enum alfræga
afbragðs degi,
hvörn þèr heiðruðuð
hákvæðum með,
frumfæddir andar!
flokkar Seraphim!
er at algjörðum
öllum heimum

heilaga hèlduð
hátíð sköpunar!
Vel vitið þèr,
vegligir andar!
hve sik, en nýa
náttúra hóf,
elskuverðugri
öll með prýði
þakin ok glaðvær
at því sinni.
Ok hve mjög mætar
morgun-stjörnur,
yðar fjölfylktum
fèlagskap í,
sik sætt-fagnandi
sínum hneigðu
í skæru skarti
fyri skapara!
En miklu meiri
Messías nú,
hans ódauðligr
elsku Sonr,
mun fá at fullu
furðuverk unnit!
skundit ok skírit
skepnum hans þat!
Hefst nú með hlýðni
ok harðri písl
hans sagða sabbat
sjálfviljugri
ens mikla Messíæ
Meðalgángara!
hann, Guð Jehóva
heitir þann dag
sabbat eylífrar
sáttmálsgjörðar.
Elóa af undrun
yfirkominn
þagnar þá
at þessu mæltu,
svo ok yfir allt
með auðmýkt helgri
horfði hljóðlátr
himininn nú
augum upp til

ens allrahelgasta!
Guð gaf bendíngu
Gabríel engli,
Meðalgángarans
mikla túlki;
stèg hann þá strax upp
at stóli hærstum
til at heyra tjáð
tignar-boð Guðs!
Hann hóf at gefa
háar skipanir
Uríel engli,
ok til annara
varðveizlu engla
vorrar jarðar,
heimuglig há-boð
um en helgu teikn,
er skyldu Messíæ
ske við dauða!
Nú voru á meðan
niðrstignir
frá sætum sínum
sælir trónar,
fylgði Gabríel
flokki þeirra,
ok jafnsnart nálgast
jarðar altari!
Þar heyrðust háum
hvelfíngum frá
andvörp álengðar
ótal vella,
er með grátligri
óskuðu rödd
mjög eptirþreyðrar
manna lausnar;
en yfir allar
annara raddir
trega-tölur manns
tóku fyrsta,
allar falls aldir
sem ofan þenkti!
Er þat altarit
einn frá hvörju
spakr Guðspjalla-
spámaðr fyrr,

ens betra ok nýrra
blóð-sáttmála,
Patmus-eyjar á
þá eitt sinn var
ströndum staddr,
stórar sjónir
himneskra mynda
hefir numit!
Það var ok þar,
sem þúngt stynjandi
í hám hvelfíngum
hófust raddir
forðum plágaðra
píslarvotta;
þar æptu andir
engla tárum,
at dýr dómari
degi blóð-hefndar
lèti svo lengi
yfir láð frestat!
Nær at þessu nú
niðr stefndi
engill útsendr
altari jarðar,
kom með fljótri ferð
móti faranda
Adam, ok allri
eldheitri þrá,
eigi ósèðr
aðkomanda!
Lopt-fær líkami
af ljósu heiði
saminn sást hylja
sælann anda
forklárnðum í
fegurðar sal.
Eins var ásýnd hans
yndislig nú,
ok þú, guðdómlig
ímynd! forðum
fyrir Alföðurs
fólgnum þánka,
er hann all-djúpum
með ígrundunum
Adam at skapa
albúinn stóð!
Ok í auðguðu
Eðens skauti,
fegurð ok fjöri
sem frá sèr blès,
jarnvegr helgr
undir Jehóva
varð laus ok laginn
til líkhams manni,
meðan mundir Guðs
mynduðu hann!
Þvílíkr sýnum
þar kom móti
englinum Adam
elzti faðir;
á hans andliti
elskuligt bros
gjörði ásýnd hans
guðdómliga!
mælir hann með raust
munarfullri:
Heyr heilsun *mína*,
heilagi Seraph!
fulls friðar boði
faðmaðr náð!
þegar um þína
þessa klíngði
mjög sómasama
sendiför raust
hófst með há-dansi
minn heitr andi.
Æ! mætti, mikli
Messías! þik
mèr, í manndóms þíns
mætu prýði,
sem þessum Seraph,
at sjá leyfast,
æ! í mildri mynd
miskunar þinnar!
hvörja þú til þess
hefir þèr kjörið,
at þú í henni
afkvæmi mitt
fallit við Föður
skulir forlíka!

Sýn þú mèr Seraph!
sýn mèr þaug spor,
sem minn Frelsari
fetat hefir,
Endrlausnari
ok ástvinr minn;
ek vil að eins
honum álengðar
með ást auðmjúkr
eptirfylgja!
Hýr hvíldarstaðr
heilagrar bænar,
þar vor mjög mildi
Meðalgángari
upphóf sitt andlit
ok eið þann sór,
öll börn Adams
at endrleysa!
skyldi þora þess
þik at sjá auga
fullt fegins-tára,
sem fyrstr braut?
Ek var, ó þú jörð!
ábúi þinn,
mèr land móðurligt
manni frumbornum!
þreyanda þeli
til þín niðr
ek nú enn vendi
augum mínum.
þínar af þrumu
þúngrar hölvunar
at ómynd orðnar
eydimerkr
mèr, í *míns* hjávist
Meðalgángara,
sem eins dauðligu
sèst í holdi,
ok því, ek í mold
eptir mik lèt,
væru víst miklu
viðunanligri:
Heldr enn hinar
eptir himinsins
óláins ökrum
yndisligum
myndaðar mæta-
merkr þínar,
ó þú, Eðens fold!
sem áðr varst
himin minn,
hvörn ek misti!"
með heitum huga
hann svo mælti.
Ek vil ósk þína,
útvaldra fyrsti! —
gegndi Gabríel
góðmótliga —
frambera fyrir
Frelsaranum;
sè hans guðdóms góð
geðþekkni sú,
mun hann án efa
Adam bjóða
at hann sjái sik,
svo sem hann er,
Drottins hærsta dýrð
djúpt niðrlægða!
Nú voru helgir
Herrans englar
með heiðrs hegðun
hátíðligri
áleiðis komnir
útaf himni;
hafði her þeirra
um heims byggíngar
allr útdreift sèr
afarvíðt rúm;
fór einn Gabríel
á fold sæla.
Henni heilsaði
hríngr stjarna
í grend glansandi,
þegar gengu hjá
í hægð hvörvetna,
með hýrum morgni
allar álfur
sá er upplýsti.
Hljómuðu heilann
hrínginn um kríng

undir eins
frá öllum stöðum
þau en nýu nöfn
náðaðrar jarðar,
heyrði Gabríel
hvör þau voru:
Þú dymmra drottníng
dýr meðal jarða,
yndælt augnamið
allra skepna!
hin handgengnasta
himins vina!
annat heimili
hátignar Guðs!
þú hinna hærstu
heimugligu
ens mikla Messíæ´
mildi-verka
ok afreks athafna
ódauðligt vitni!
Sá klíngði kliðr
kríngum þann hríng
allan einn kór
af engla röddum,
hlýddi Gabríel
á hljóm skærann,
ok fljótu flugi
fór til jarðar!
Svo sèg í dali
svöfu ok kæla,
þar með fylgjandi
þokufull ský
þöktu þeirra fjöll
þá í stilli;
gekk grant leitandi
Gabríel augum
með munarfullum
Messíæ síns;
Ok fann hann loksins
í lágum dal,
sem hneigist millum
hnúka niðr,
ens upphæð líka
Olíufjalls,
hèr var mögr Guðs,
Meðalgángarinn,
þreittr af djúpra
þánka byrði,
und' berum himni
í blund fallinn!
guðdómligum gaf
grjót-skúti rúm.
Þegar Seraph sá
Son Guðs hvíla
vært í loptliga
lèttum svefni,
stóð hann starandi
stilltr ok kyrr
með mestu undrun
á mikla prýði,
sem sameinaðr
sannr guðdómr
manndómligri mynd
meðdeilda lèt!
Unaðsfull elska,
auðkenni ljúf
gæzku ok glaðværðar
guðdómligrar,
meðaumkun, mildi,
miskunar tár,
um allar aldir
óslítanligrar:
Þat gjörvalt gjörði
ens guðdómliga
mann-vinar anda,
meðan hann svaf,
í hans andliti
auðsjáanligann,
þó var þar nokkut
at þessu sinni
áskygð af svefni
afmálun slík!
Svo lítr Seraph
á sínu flugi
um vor-dags aptan
ásýnd jarðar,
þá bezt er búin
blómstra skrúði
at hálfu leiti
ókenniliga.

þá er kemr upp
kvöld-stjarna fögr
himins hljóðlátum
hríngslóðum á,
ok hinum hyggna
útaf hálf-dymmum
laufskálum bendir
at líta sik!
Loksins Gabríel
eptir lánga þögn
ok yfirvegun
innti þannig
með mjúkum rómi
fyri Messía:
O! þú, hvörs yfir
allan himin
eylíf alvizka
útbreiðir sik!
þú sem heyrir mik,
þótt nú sofandi
liggi dauðligr
líkami þinn!
hálcitum boðum
hefir ek þínum
trúliga án tafar
sem tíðast hlýdt.
En þá í því
er ek þat gjörði
frambar fyri mèr
enn fyrsti maðr,
hvörsu bæri hann
heitustu girnd
ok eptirlaungun,
ásjónu þína,
mikli Guð-maðr!
at mega sjá!
Nú vil ek eptir
almáttugs Föðurs
æztu ályktun
æ hèðan frá
flýta mèr þína
friðþægíngu
ásamt dýrðliga
í öllu at gjöra.
Hljóðs bið ek allar
hèr verandi
nálægar skepnur
nú á meðan;
því eitt augabragð
sem allra styttst
af því nær þrotnum
þessum tíma
skammrar skoðunar
yðar skapara
megið þèr meta
mörgum sællra
öldum af yðar
önn fyri mönnum!
þegið þèr hvinir
þjótanda lopts
í auðn þessari
einsligra grafa,
eðr hefizt hægt
hvískri titranda!
ok þú skúra ský,
skamt hèðan burt,
rign værð værari
ok vindblæ hlýum
á skugga svala
úr skauti þínu!
Lát ei hark heyrast
nè háa skelli,
ei súg nè suðu,
ceðrus viðr!
hafið eigi hátt,
heilagir lundar!
meðan sá sefr,
sem yðr skóp!
Svo hætti sinni
Seraph ræðu
alúðar fullr
ok umsorgunar;
síðan flýtti sèr
á samkomu
helgra vaktara,
sem í huldri kyrð
jörð fyrir rèðu
jafnt með honum,
trúnaðar englar
tignar guðligrar,

ok hinnar fólgnu
forsjónar Guðs!
Hann skyldi skíra
skara þessum
fyri för sína
til fagra hvels
frá ósk ok laungun
anda sællra,
ok nú nálægri
náðarlausn manna,
ok hinum öðrum
offursins mikla
hátíðligum
hvíldar degi.
Þú nærst Gabríel
þessum hnetti
endrlausnar
sem yfirræðr,
andi varðveizlu
valinn af Guði
móður ódauðligs
margfjölda þess
af fæddum fóstrum
fyrr ok síðar,
Hvör eð hún, svo sem
hennar fylgendr,
aldir óðfluga,
yfrit hverfni,
ok at auðæfum
ótæmanlig,
í hærri hèröð
hvörn dag sendir.
Ok þá öll hrunin,
afhendt fúa,
ódáins anda
íbúðar hús,
undir aurhrúgum,
þar enginn hvílir
flýanda fót sinn
ferðamaðr,
í dapri dymmu
dyír með sèr!
O, þú Elóa!
engill jörðu,
sem mun sína fá
síðar meir dýrð,
til at varðveita
vora settr!
vorkenn vin þínum
sem verða mun,
at hann, fræddr af
óðar mey Síons,
auglýsir þinn,
síðan Eðen skópst
dulinn bústað
fyri dauðligum!
Ef hann eitthvört sinn
fyrir utan sik,
einsligrar fullr
unaðsemdar
í djúpum þaunkum
ok í dá-skærum
ofrmegns álfum
orðit hefir
fyri forundrun
frá sèr numinn!
Hafi þánkar hans
þaunkum anda
sameinat sik
ok sál an huldu
hans, svo sem ham-frí,
háleitar mjög
guða ræður
gjörla numit.
O veit þá áheyrn,
Elóa! nú
honum, þar hánu,
sem himnesk æska,
ok djörfum huga
dikt framsetr,
ei um fausk-fúnar
fornaldar rústir,
Heldr leiðir hann
heli vígða,
ok eins upprisu
ætlaða fjöld
til sællis safnaðar
enna samhelgu
ok vegsamligra
vaktara ráðs!

Í nánd við ná-hljódt
norðr-himins
aldrei skoðat skaut
skemtunarlaus
ok án aðgjörða
óttalig nótt
eylífri hýmir
í einsetn,
dynja frá henni
dymma ok þoka
sem sjór sökkvandi
sífeldt niðr!
Eins ok forðum fólst
fljótit Nílus,
þá Móses mælti,
undir myrkri Guðs,
af fjórtán fjörum
fjötrat saman,
ok þèr til æru
ódauðligrar
buðlúnga beinum
bygðu stólpar!
Aldrei hefir sjón
auga nokkurs,
kreppt af himins hríng
harla smáum,
þau auð öræfi
yfirlitit,
hvar hauðr grímu
hulit sífeldri
liggr æ óbyggt
ok utan lífs.
Mannsraust kom engin
af munni þar,
enginn örendr
er þar grafinn,
aldrei er þar nein
upprisu von;
þó er auðn þessi
þaunkum djúpum
ok háum helguð
hugleiðíngum!
Vinna Seraphim
vegsemd henni,
þegar gánga þeir
þessara staða
fálátum fjalla
firniudum á,
líkt sem þar leyptri
logandi stjörnur.
Ok með spádóms spekt
sprogandi í kríng,
undrun fallnir í
allkyrra þó,
á hin ókomnu
Adams barna
sigr-sælu kjör
sjónum renna!
Midt í öræfa
myrkri þessu
auglýsast uppreist
engillig port,
gegnum hvör gánga
gætendr jarðar
inní hátt hafinn
helgidóm sinn!
Líkt sem, nær líðr
at lífgun vetrar,
heilagr rennr
hátíðar dagr
yfir snyfin fjöll
eptir snarpa hríð;
ský ok skugga nótt
skunda á flótta;
ís huldar hæðir
ok háir skógar,
sem ígegnum sèst,
sína birta
ásýnd án þoku
alskínandi!
Svo gekk Gabríel
gegnum þessi
nærsta nátt-döpru
norðr-svæði,
ok innan stundar
ódauðliga
fætr hafði hann
við en helgu port.
Opna þau sik þá,
svo sem þjótandi

Kerúbims vængir
fyri komanda,
ok af sjálfum sèr
á samri stund
aptrluktust eins
eptir honum.
Gekk hinn dýrðligi
í djúps hyl jarðar,
þar er allt um kríng
ægir velti
lángsamliga
löðri streymanda
allt at mannlausum
marar bökkum.
Allir ólmuðust
ægis synir,
hinn straungu straum flóð,
eins ok sríðviðri,
útbrjótast óð
frá eyðimörkum,
eltu hann róm-rám
úr regin-fjarska.
Hann gekk híklaust
unz enn heilagi
sýndi sik í nánd
samastaðr,
port af skýum sköpt
skutu sèr frá,
ok, sem í síur
sól-skærar himins,
sèr með sama
sundrdreifðu.
Ens ódauðliga
undir fótum
rauk burt í riðlum
rökkrit lausa
á blökkum bökkum,
bak við hann lángt
leiptruðu eptir
logar í sporum,
svo var nú Seraph
á samkomu
alla leið affram
engla kominn!
Mjög lángt frá mönnum
þar sem miðpúnkti
vor sèr vendír at
veltandi jörð,
hefir hún í sèr
hvolf eitt mikit,
hvörvetna fullt
af himins lopti!
En í því miðju
upphafin sèst,
krýnd með kviklátu
kláru skini,
ein lempiliga
lýsandi sól!
frá henni flýtr
fjör ok varmi
uppeptir
í æðar jarðar.
Sú hin efri sól
sinni meðr
hèr nefndu hollri
hjálpar systur
býr til ok myndar
blómaríkt vor,
ok heitt há sumar,
meðr hálf-bognum
kornstaungum klifjað
kjarnafullum,
ok þik, vínviði
velkomit, haust!
I hennar álfum
bar aldrei til,
at hún upp eðr
undirgengi,
umhverfis hana
eylífr brosir
morgun, í rauðum
raka skýum.
Þar gjörir stundum
þánka sína,
hann sem uppfyllir
himna gjörvalla
engla augljósa
með undra-teiknum,
sem í skýum ske,
eptir skipun hans;

sèst þar fyri fram
forlaga gángr.
Svo gjörir gjarna
Guð sig ljósann,
nær, at vo-viðri
velgjörðasömu
liðnu, lætr
í ljósi sik
í skýum stiltum
skúrar bogi,
þèr, jörð! klárliga
kunngjörandi
friðar sáttmál fornt
ok frjófgun Guðs!
Nú stèg niðr
ok nam staðar
hinn sendi Seraph
ú sunnu þeirri,
sú er ósèn oss
innra flöt jarðar,
ok allt hvað eymi
andar þar lífs,
viðnærir geisla
varanligum,
tengð því til fylgðar
túngli voru.
Samt sjáum vèr ei
þeirrar sólar ljós,
svo daufu ok döpru
dreifir skini
hún, sem hálfrökkri,
ok svo hverfulu,
öngrar fær hún fold
formyrkvunar,
er svo ósamfeldt
efni hennar!
En innbyggendum
aptanstjörnu
eðr Júpiters
augljós er hún;
þá er ok sjálfsagt
Satúrn hánum;
aðrir ábúar
uppheims korna
þeirrar með mána
mergð umkríngðu
stjörnu víð-strætis
stig ekki sjá!
Gagngjört varð-englar
Gabríel þar
kríngum komu nú
kóngaríkja;
dauðans engill
ok darra hríða,
þeir um fjölflæktann
forlaga stig
gáng-leiðslu þráð
í Guðs hönd rekja!
Hvörir hvívetna
yfir hauðrs vors
þó duldir drottna
döglínga verkum,
þá er þessir sik
af þeim stæra,
allir uppblásnir
fyri ofr-móð,
svosem sköpun sè
sjálfra þeirra.
Þarnærst dýrðligir
enna dygðugu
ok fáu geð-göfgu
gæzlu englar,
þeir er þann vísa
þenkíngafullann
út frá sjálfum sèr
sæfðann leiða.
Þá hann varast vill
vefnað manna
fáfengiligri
af foldar sælu,
flettir hann upp fljótt
með fagri bæn
ennar ókomnu
eylífðar bókum!
Svo ok eru þeir
samkundum í
einkum nálægir
ósýniliga,
þá er komu Guðs
kristinn maðr

eldheitr finnr
í anda' ok bæn.
Þegar bróðrligt
biðjandi fólk,
helgat sáttmálans
háleitu blóði,
fyri þeim sem fold,
hefir forlíkat,
æru-sálmum í
úthellir sèr!
Svo ok nær sálir
enna sannkristnu,
sem hèðan sofna,
sjá nú þeirra,
örendu andlit,
andláts sveita,
sár-sorglig dauðans
sigr-merki,
ok nauð-kúgaðrar
náttúru teikn,
á líkamanum
at lífi þrotnu!
Þá taka þeir
móti þvílíkum
sèr samfylgjandi
sessunautum
mjög svo vinveittu
viðmóti með,
hvar af hýrt ljóma
huggunir slíkar:
Vèr munum, verið
vissir um þat,
ó þèr ástvinir
elskuligir!
öllum þeim yðar
ósku leifum
samansafna
á sínum tíma!
Sjálf þessi sama
sofandi stofa
dauðligleiksins,
þessi dofnu bein,
svo af hels höndum
hryggiliga
ofríkisfullum
afmynduð nú,
skulu til nýrrar
sköpunar vakna
dýrum dags morgni
dómarans á.
Komið, kærustu!
klagið ei meir,
útvaldir uppheims
innbyggendr!
skærari skoðun
yðar skapara,
já, sjálfr sjáið!
sigrenda fyrsti,
blessuðu sálir!
bíðr yðar.
Einnig andir þær,
sem út höfðu
dá-litlum liðið
líkömum af,
hvörra varla var
vísir sprottinn,
flyktust fljótt kríngum
fagrann Seraph,
en nú ómálgar
með úngbarns gráti
honum sýndu sik
sveimandi þær!
Naumast höfðu nú
nærsta hrædd litið
ok undrast augu
allsmáa jörð,
þorðu því ekki
þær hinn stærra
víðra veralda
völl sjónar á
ólagaðar enn
út at gánga.
Vísa þeim til sín
verndar englar,
ok með harpna hljóm
huglífganda
í lystiligum
lofkvæða saung
með ljúft lokkandi
list þeim kenna:

Hvörnig hafi þær
ok hvar af orðit,
hve mjög sè mikil
manneskju sál,
framleidd af anda
fullkomnasta,
í hve yndælu
æsku blómi,
síns til skapara,
sólir ok túngl
fyrst þá fædd voru,
framkomit hafi.
Forfeður yðar
fullkomnaðir
yðar aðkomu
eptirbíða,
yðar mildasta
miskunar Föðurs
dýrðarfull skoðun
við Drottins trón
þess ens eylífa
yðar væntir!
þannig kenna þeir
þessum úngu
vísdóms verðugu
vegleiðslu börnum
en háu hyggindi,
hvörra skugga
harla hverfula
heims villir menn
af birtu þeirra
blindir elta.
Höfðu heilagir
hópar þessir
skæra lauf-skála
nú skilit við
ok samansafnast
til síns vinar,
voldugs verndara
vorrar jarðar.
Gaf nú Gabríel
gjörvöllum þeim
anda söfnuði
allt til kynna,
hvað á hendr var
honum falit
at mæla múga þeim
um Messíam!
Stóðu þessir þá
þar við hrærðir,
ok fallnir frábæra
forundrun í
kríngum kennanda
kominn frá Guði;
gáfu þeir sína
gjörvalla þánka
til íhugunar
allra dýpstu.
I því andir tvær
elskuverðugar
ok hvör annari
ástfólgin mjög,
börnin Jedidda
ok Benjamín,
fèllust í faðma
ok svo fengu mælt:
Er þat ekki
sá hinn ást-holli
ok ljúflyndasti
lærifaðir?
já, er ei Jesús,
Jedidda! sá,
um hvörn allt þetta
engill greindi?
Æ! mèr er ógleymt,
hve ástúðliga
hann oss í fáng sèr
faðmandi tók,
hvörsu blíðliga
at brjósti sínu,
hvarí hjartat vall,
hann oss þrykkti
Mildi-mæstu
mannelsku tár —
ek sè þau enn nú —
andlit hans vættu,
en ek þerraði
þau með kossi,
eru þau mèr enn
æ fyri sjónum.

Ok þá, Benjamín!
í þessu midt
mæla mundi hann
við mæðr okkar,
þær er þar stóðu,
þessum orðum:
gjörist sem úngbörn,
því í Guðs ríki
ei fáið ella
inn at koma!
Já, hann játaði,
Jedidda! þat;
ok hann er okkar
Endrlausnari;
sökum hans svo
erum sælir við;
æ! umfaðmaðu
þinn elskuliga!
Svo mæltu sælar
sálir þessar,
harla hugljúfar
hvör við aðra!
Gabríel engill
greiðliga bjó
sik enn til nýrrar
sendiferðar.
Einn stór-hátíða
streymandi glansi
fleytti nú fótum
fagrliga
ódauðligs engils
í því hann gekk
áleiðis ofan
anda slóðir.
Svo líta ljósann
lýðir mána
vorrar fjölfylktu
fjörgynjar dag
þeim til nátt-lýsu
niðrstreyma
í rètt róligum
raka skýum
fyrna háum á
þeirra fjall-tindum.
Stóð upp til ferðar
ok af stað svo gekk
Gabríel búinn
glæstum skrúða,
hár fylgði honum
hljómr úr garði
af saung ok dansi
sálna ok engla
liðugra, lopt-hríng
leið hann svo í!
Með veifðra vængja
voldugum þyt,
sem sigr-ör
af silfr-boga,
flaug hann nálægum
fram hjá stjörnum,
ok hèldt flýti-för
at fagra hveli.
I sama svifi
settist hann á
meyar musteri
mundilfera,
ok fèkk hèr hittar
á hárri bust
forfeðranna
fullsælar andir!
Þær er með augum
ófrávendum,
laungunarfullum
ok leitandi
á hauðr horfðu,
hugfulla sjón
látandi lagða
viðr ljóss geisla
þá sem Kanaans
kveikja nýann
í djúpum dölum
dag uppvakinn.
Meðal forfeðra
fann hann þar einn,
hvörs útlit hermdi
háa þánka;
var sá Adam
ennar vaknandi
mögr jarðar
ok myndana Guðs!

Gabríel hann
ok gætir sunnu
allir einum hug
ákaft þreyðu,
samanræðandi
um sálarheill manns,
at koma augum
á Olivetí.

---

## Hèr hefr
# aðra bók Messías.

Nú lèt nýr morgun
niðrstígandi
sjá sik yfir
cedrus skóga,
stóð þá Jesús upp
strax af svefni
sáu hann í sólu
sálir feðra.
Ok sem þar litu
Lausnara sinn,
súngu tvær sálir
svo til skiptis
ein mót annari;
þat var Adams sál
ok guðdómliga
göfugrar Evu.
Svo var látandi
saungr þeirra:
þú meðal daga
dægiligasti!
skalt yfir alla,
sem eptir koma,
heilagr hjá oss
ok hátíðligr.
Fremst ok fyrst allra
fèlaga þinna,
komir þú aptr,
skulu kveðja þik
sálir, ok sèrhvör
Seraph ok Kerúb,
eins við uppruna
ok undirgaungu!
Stígir þú niðr
á storð til manna,
breiði þik um himin
berendr ljóss,
ok gángir glæstum
fram at Guðs tróni,
þar dýrð hans drottnar,
dýrmætr þú!
Skulum vèr þèr skjótt
skunda móti
með heiðrs hegðun
hátíðligustu,
blessandi þik
í bliðum dansi
ok hátt hljómanda
Halelúja!
Þú ódauðligrar
æru dagr
svalar sjón vorri
sárt mænandi,
með því oss sýnir
Messíam, Guð
nú á jörð nærsta
niðrlægðann!
O þú fegursti
af Adam borinn!
ó! í manndóms mynd
Messías vor!

hve í hans ásýnd
hátignarfullri
gjörir angljósann
guðdómr sik!
Sæl ert ok heilög
sannliga þú,
mær! sem hinn mikla
Messíam fæddir!
sælli mann-mergðar
móðnr Evu;
ótöluligt er
afsprengi hennar,
enn allt afbrotsmenn
ótölnligir!
En þú ein dóttir
ódauðlig jarðar!
hefir einúngis
einn mög fæddann,
einn guðdómligann
einn rèttlátann
einn af dygð dýrann
einn Drottins smurða,
einn son eylífann,
þann engi skóp,
einn, sem er syndlaus,
sjálfs Guðs arfa!
Með ræktarríkum
reikandi augum
horfir ek hèðan
á hauðr niðr,
þik þó, Paradís,
þú hin fagra!
þik fæ ek þó ei
þar framar sèð!
Ertu víst af vang
með vatni flotin
flóðs þess sem fór
yfir fold alla,
þeim sár-sorgliga
synda-baðs dóm'
ertu gjör-glötnð
ok á glæ komin!
Þínum hátt höfnum
hlè-skugga trjám,
sjálfs Guðs plöntun
af ceðrus viði,
þínum friðsemdar
fögru lundum,
er voru inni
úngrar dygðar,
hafa vægð veitta
vo-stormar sízt,
dunandi þruma
nè dauðans engill!
Borg hin blessaða
Bethlehem þú!
þar mey María
Messíam fæddi,
ok í faðmi fól
fullum ástar
ein sèrtu Eðen
yndislig mèr!
Vert Davíðs brunnr
dýr uppspretta,
sem ek sá mik í
svosem ek kom
guðdómliga gjörð
frá Guðs höndum!
ok þú, Jó-jata!
þar Jesús grèt,
míns fyrsta frómleiks
fagri lundr!
ó! ef mèr hefði
í Eðen þik,
góði Guð-maðr!
gefist at fæða!
ef ek strax í stað,
eptir stórann glæp,
þar hefði þegit
þik at syni,
ó sjá, þá þegar
ek þik til hans
hefði haft með mèr,
sem mik dæmdi!
Þar, í þeim spornm,
sem þá stóð hann,
þar gröf gínandi
gjörðist Eðen,
þar sem þaut ógn
í þekkíngar trè,

þar sem ræddi raust
hans reiðarslaga
formælíng okkr
ok fold allri!
þar skelfð við skjálfta
skelkaðrar jarðar
datt ek í dá
ok deya vildi,
skyldi' ek skjótt hafa
skundat til hans
ok haft þik mög minn
mèr í fángi;
Ok þrykkt sem þèttast
þrúngin af sorg
barni grátanda
at brjósti mínu,
ræðandi þannig:
reiðst ei, Faðir!
sefa sinni þitt,
sjá, ek hefi
mann þann, Jehóvam,
af mèr fæddann!
Heilagr ertu
hærsti ok fyrsti,
tilbeiðsluverðug
tign ok eylíf!
þú sem frá eylífð
þennann hefir
guðdóms göfgastann
þinn getið son!
Ok hann útvalið
egin-mynd þína,
af mjúkri miskun
at manna sè
minnar hörmuðu
ok hjartanliga
aumkuðu ættar,
Endrlausnari!
Guð hefir grát minn
gjörla sèðann,
sælu Seraphim!
sèð hafið þèr
tár mín ok talið,
ok frá timanum
burtbornu sálir
barna minna!
vörðuð trúskap til
at telja þau!
Víst mundi verða,
nema værir þú,
mikli Messías!
maðr orðinn,
eylíf himins hvíld
huga mínum
einnig ángrsöm
ok ónotalig.
Enn af geð-gæzku
guðdómligri
umföðmuð ek,
þú hinn eylífa
sigr-sáttmála
er samit hefir!
mundi þá mentast,
miskun ljúfri
yfirskygð af,
svo at æ findi
midt í móður-sorg
meiri sælu;
Ok þú sjálf ímynd
hins almáttuga
mynd ber mold háðrar
manneskju nú,
ó þú Guð-maðr
Endrlausnari!
vora tilbeiðslu
virðst at þiggja!
Þína vegna vor
virðstu gjöra
fórnfæríngu
fullkomna brádt,
er þú fyrir oss,
aldæmir heims!
frá himni fórst
til at framkvæma;
Vèr biðjum, virðstu
vesæla jörð
innan skams
at endrnýa,
eins sem þú áðr
hefir alyktat,

þetta fóstrland
þitt ok okkar!
O kom snart aptr
upp til himins!
kom, vèr vottum þik
velkominn oss
með þínum miklu
miskunsemdum,
ó þú Guðmaðr,
Endrlausnari!
þannig klíngði þá
þessara sálna
raddar megni með
miklu saungr
heilags sólar hofs
hvelfíngar um;
heyrði Jesús hann
híngat niðr.
Eins ok skáldligar
einsetr við
spádóms spekíngum,
spegil-sjónir
alldjúpt í sokknum
ókomins tíma
þik, lágt ok lángt at
líðandi raust,
Guðs frá gimli
gefst at heyra.
Ofan gekk Jesús
Olíufjall,
hvar mið-hlíðis
á hólum minni
ein stóð eik pálma
öðrum hærri,
af lètt lýsanda
lygnu skýi
mildrar umflotit
morgun-þoku.
þessu varð nú við
var undir trè
Jesús varð-engil
Jóhannesar,
hann er Raphaels
heiti nefndr,
sá hann þar helgri
heiðraði bæn,
Lífligir vindar
um lopt flutu
út frá ágætu
olíu trè,
ok til Frelsarans
fluttu niðr
raust, öngri skepnu
skynjanliga.
Kom þú Raphael!
(kallaði Jesús,
ok vinsamliga
við honum leit)
máttu hèr gánga
mèr við síðu
öllum öðrum
ósýniligr.
Hvörsu hefir þú
hjartkærs í nótt
sál vors Jóhannis
saklausa geymda?
hvörjar þeinkíngar
þínum líkar
hafa, Raphael!
henni borizt?
eða hvar heldr
hann sik nú?
Hans ek hefi gætt,
hermdi Seraph,
vel ok vandliga,
sem vanir erum
vèr at varðveita
vænstann frumgróða
meðal útvaldra,
Messías! þinna!
I nótt opnaðann
umskyggt hafa
hans háann anda
heilagir draumar;
hefir hann um þik
hvörvetna dreymt;
ó hafðir hann þú
horft á sofanda,
þá honum þókti
at hann þik sæi,

hló um andlít hans
heilög vor-blíða!
Svo ok sèð hefir
Seraph þinn fyrr
Adam í svefni
á Eðens mörkum,
þegar þaunkum hans
þar í blundi
birtist bílæti
brúðar Evu,
meðan myndaðist
af mundum Guðs,
ok sjálfs Skaparans
skínandi líkíng.
Þó var hann varla
þínum vegliga
jafnfagr sveini
Jóhannesi,
sá er nú sitr
sorgligum í
nætr-niðs gröfum
ná-kaldra líka.
Hvar hann aumkar einn
andsetinn mann,
sá er í dupti
dauðra molda
teigðr liggr,
eins ok titrandi
ok ber beina grind,
bleikr sem nár;
ok óttaligr
yfir máta!
Sjá skyldir þú hann
sjálfr, Jesú!
ok hinn ljúflynda
lærisvein þinn
hjá honum fullann
hugar viðkvæmnis,
harðrar hrygðar
ok hjarta sorgar
Hve honum hverar
hjarta í brjósti
bifast ok bráðnar
bitrliga
mest af mannelsku
ok af meðaumkun;
hve mjög hann titrar
fyrir harma-sýn.
Við það sorgar sjón
sèr fram þreyngðu
tár mèr í augu,
ok ek titraði;
snèri ek mèr þar
snöggliga frá,
því at sjá þúngar
þreingíngar anda,
er í öndverðu
fyrir eylífð skópst,
sál minni sífeldt
hefir sárt fallit!
Raphael þagnar,
en með reiði svip
Lausnarinn augum
leit til himins
mælandi: mikli
mik, Faðir, heyr!
verði mannanna
megin-fjandi
eylíft offr
þíns ógnar dóms,
hvará at horfa
sè himins gleði,
en skelfdu helvíti
skömm ok sneipa!
Jesús sagði svo
ok sig færði
nálægt ná-gröfum
við norðr síðu
á undirlendi
Olíu-fjalls,
hvörjar í hrúgum
harla stórum
af urðar grjóti
voru úthöggnar.
Skógar þykkvir
ok skuggafullir
geymdu grafa dyr
geigs ollandi
fyri flýanda
ferðamanns sjón,

var þar dymmt ok dauft,
þó dagr væri!
Jafnvel þó yfir
Jerúsalem
heitast hádegi
hellti geislum,
kom dapr morgun
með köldum hrolli
til greindra grafa
í grám rökkurs hjúp.
Í döpru dái
hinn djöful-óði
Samma — svo hèt hann —
sást hèr liggja
við gröf grúfandi —
grátligt at sjá! —
síns yngsta sonar,
er hann sárt þreyði.
Satan gaf honum
svika hlè þetta,
hálfu harðara
hann til at kvelja;
hann lá höggdofa
ok sem helgenginn
hjá beinum barnsins
í blautri mold,
hans annar arfi
stóð yfir honum,
grèt ok æpti
til Guðs í hæðir!
Hinn, þann framliðna,
sem faðir hans
ok bróðir grètu
bitrliga,
helzt til andveld hans
hafði móðir,
bugað af beiðni
barns og gráti,
tèðra grafa til
tekið með sèr.
At á föðurs fund
færðr yrði,
þann um dauðra dis
djöfullinn rak,
ok hrakti hamstola
híngat ok þángað,
með ergi ok æði
óstjórnligu;
Æpti Benóni:
ó! minn faðir!
elskuverðugt barn
úngt ok lítit
flaug ok fleygði sèr
úr fángi móður,
en hún rann eptir
ángistarfull;
Æ! faðir góðr,
faðma þú mik!
hrópaði barnit,
ok hèldt sem fastast
höndum hans
at hjarta sínu,
en hann titrandi
tók þat í fáng!
Ok sem nú sveinninn
sonarligar
hríngvafði höndr
um háls föður,
á hann horfandi
með hjartanliga
híru barns brosi
ok blíðu kossum;
Kastar hann kundi
á klett, sem þar stóð,
heili blóð-blandinn
ball á steini;
sú en saklausa
sál með veikum
andvörpum útflaug
ok með umbrotum;
Hèr barmar hann sèr
huggunarlaus,
ok hálf-andvana
armi grípr
kaldar kropps leifar
klagandi sárann:
barn mitt, Benóni!
Benóni minn son!
Svo mælti Samma;
sorgpressuð tár

hrönnum hrundu
hans af augum,
brostin ok blý-föst
sem blíndu nú
undir árásum
andarslitra!

Þannig þjáðist hann
þrúnginn af harmi
á jörð liggjandi,
þegar Jesús kom;
sonr hans annar,
sá hèt Jóel,
augum æpandi
undan snèri
frá föður sínum,
ok fèkk með sama
Guðs son til grafa
gánganda sèð.

Fullur fagnandi
forundrunar
æpir hann þá upp:
æ! minn faðir!
Jesús, hinn mikli
jarðar Spámaðr
gengr híngat
til grafa niðr!

Satan heyrði þat
ok svimaði,
gægiðst hann gegnum
grafar munna,
eins ok geð-grimmir
Guðs neitendr,
versta dróttar dregg
út af dymmum króm!

Þá er skelfandi
skruggu veðr
útbrýzt ok öskrar
frá ægum himni,
ok harðrar hefndar
hræðiligir
vagnar velta fram
um vindug ský.

Híngat til hafði
harðúðugr
Satan sárliga
Samma píndann,
at eins álengdar
ok í fjarska
neðstu fylsunni frá
fælandi grafa
lángsamliga kvöl
lèt hann senda.

En nú með nýum
níðíngskap hann,
ok með dauðans ógn
útbrynjaðr,
stökkr undir eins
uppá Samma;
hann spratt óðr upp
á augabragði;
en í ómegin
nú aptr fèll.

Andi hans af ógn
ákaft skekinn —
naumliga hèlzt hann
í helstríði —
æstr til æðis
af illsku fjanda
keirði hann um koll
á klett harðann.

Þannig hugðist þar
þínum augum
guðdómligum gegnt
grimmr Satan
hann nú við harðann
hángandi klett,
hár heims dómari!
í hel at merja;
en þú varst þegar
þar með krapti
maktar ok mildi
í milli kominn.

Þín varð fljótari
föðrlig gæzka
skepnu þína skjótt,
er skorti hjálp,
á almáttuga
ástsemdar vængi,
svo hún ei sykki,
sèr at taka!

Mjög gramdist audi
manna fjanda,
tók hann at titra
fyri tilkomu
gæzkuríks guðdóms,
sem gjörði hann
einnig álengdar
óttasleginn.
I því vetfángi
vendi Jesús
hjálpar andliti
helgu at Samma;
gekk út frá honum
guðligr kraptr
við sjón lífgandi
sameinaðr.
Sinn þekkti Samma
sár-hræddr þá
ok liðsemdarlaus
lífhjálpara;
hvarf nú manns mót
á mynd hans aptr
harla helbleika
ok hálf-visnaða,
hann grèt hástöfum
uppí himininn!
Mæla vildi hann,
en mátti varla
fyri feginleik
ok felmtrs vegna
stórum titrandi
með stami at eins
orði úthrinda
einu af vörum.
Þó með þreyíngu
ok þeli fegnu
breiddi blíðliga
báðar hendr
ennm eylífa
út á móti,
á hann horfandi
huggaðri sjón,
frá sèr numinn nú,
niðr af björgum;
Sem ens hughrelda
hyggna manns sál,
er af öngviti
endrvöknuð
í fellr efa
örvæntíngar
um veru sinnar
varanligleik
óendanligann
í eylífðinni,
berst við sjálfa sik
ok sárt titrar.
Ofbýðr öndu
eylífri þat
at algjörliga
eyðileggist;
nú svo nauðstaddri
nálægir sik
ein af vísari
vina sálum,
Er hennar örygg
ódauðligleika
í fastri fullvissu
um fyrirheit Guðs,
af klárum kærleik
kemr til hennar,
ok huggar hana
með hýru bragði;
Þar við hug hreistist
hin er syrgði,
ok víl með valdi
við sik skilr,
fyri fegínleik
fær sik ei stillt,
gelr blessandi
gleði-saungva!
Önd hin eylífa
af ódauðligum
sýngr sigr-hrós
sinnar veru
endrnýuðum
ypparligleik;
eins fann yndæla
endrlífgun
við Drottins friðun
hinn djöful-óði.

Síðan með maktar
mikilli raust
sagði Sonr Guðs
við Satan þannig:
hvör ert þú, andi
illrar spillíngar!
er svo meiðir menn
mèr fyrir augum,
ætt útvalda
til endrlausnar,
ok þá svo þjáir
þúngum kvölum?
Ansar öskrandi
ein með reiði
grimmlig grenjan
út af grafa dýpt:
eg em Satan, sá
sjóli veraldar,
æðsti guðdómr
anda frjálsra.
Sá minn verðugleik
vegsamligri
ákvarðat hefir
athafna til,
ok ágætari
afreks verka,
enn at sí-sýsla
við saung himins.
Þú hinn dauðligi
draum-spekíngr! —
má af Maríu
móðrlífi
ódauðligr einn
aldrei fæðast —
þrengdi sèr þetta
þitt háa kall,
hvör sem helzt þú ert,
til helvítis neðsta.
Ek þusti þarvið
þaðan sjálfr,
hreyk þèr öllum upp
af því ek kom!
svo þik sèð fengi,
sem af himins
lýstr ert liddum
Lausnari manna!
En þú varst ekkert
utan maðr,
einn Guð dreymandi
gátna smiðr,
samlíkr hinum
sjáendum þeim,
er minn mektugi
mögur, dauðinn,
hefir hvörvetna
í hanðri grafna!
Gaf ek at gjörðum
gaum því öngvann
enna ný-orðnu
ódauðligu,
en svo ek ekki
yðjulaus sè,
kvel ek ok kreisti
þína kæru menn,
sem þú sèð hefir
sjálfr gjörla!
Þú á þessari,
sem þarna stendr,
afskræmdri ásýnd
augljósa mátt
dauðans merkja mynd,
mína sköpun!
nú hverf ek hèðan
til helvítis!
Undir mèr skal minn
maktar fótr,
almáttugr æ,
eyðileggja
með feikna forsi
fold bæði ok haf,
svo ek sjálfum mèr
sæmiligann
ok vel verðugann
veg tilbúi.
Skal þá skjótt víti
fá skoðað mitt
konúngligt auglit
í klárri prýði,
ok sæmd sigr-hróss,
svo sem þat er,

ef þú athafast
ætlar nokkuð,
þá lát þat gjört
á þessum fresti!
Ætlar ek híngat
aptr at hverfa,
til at varðveita
á veröld þessi,
svo sem konúngr
ok sigrherra,
mitt undir mik lagt
maktar ríki!
En dey þú áðr,
aumínginn þinn!
ok hèr til heljar
húíg fyri mèr!
svo mælti Satan,
ok sèr fleygði
með ólmri árás
yfir Samma!
Kyrr þagnar kraptr
kom þá í veg
fólginn Frelsarans
fyrir ens vonda
Satans heiptar högg,
svo þat hindraðist,
eins ok almætti
eylífs Föðurs
óforvarandis
lætr ofan bendt
á heila heima
hruni ok töpun!
Svo flúði Satan,
en sín gleymdist
honum at halda
hótunar orð,
í fljótum flótta
því felmtr keirði,
haf ok hauðr
at hroðin skyldu
almáttugum hans
undir fótum!
Nú gaf Samma sik
frá sínum klettum,
Nebúkaðnesar
niblúngr svo
hljóp áðr ofan
Evphrats hæðir,
flýtti fótum hans
fenginn bati!
Heilags varðengils
nær honum gaf
rètt ráðs ályktun
reista at nýu
mannliga mynd,
þá er misţ hafði,
ok svo upphóf,
at andlít hans
á heiðann himin
horfa mætti!
Upp frá því aldrei
ógnanir Guðs
með Euphrats móðu
megnu dunum
sá hann nè heyrði
í hörðum þrumum,
sem á Sínai,
sèr þjóta hjá!
Nebúkaðnesar
nú á Babels
stoltu stóls-hæðir
stèg at nýu,
enn þó eins ok Guð
aldreigi meir;
hann lá hèreptir
móti himninum
hljúgr ok beigðr
með breiddu fángi,
Hann þá af þeli
þakklátu gaf
Drottni dýrðina,
þar í duptinu
auðmjúkr orðinn,
ok eptir þat
tilbað trúliga
tign ens hærsta.
Svo kom nú Samma
til Sonar Guðs
framfallandi
fyri honum;

hvört mun ek mega —
mælir hann þá —
maðr heilagi!
með þèr fara?
æ! lát mik lykta
líf mitt hjá þèr,
er þú Guðsmaðr,
gafst mèr aptr!
Svo mælti Samma,
ok sveigði um Jesúm
titrandi arma
tendraða af ást,
en hann mildu með
mannvinar bragði
til hans leit,
ok talaði þannig:
Fylg þú mèr ekki,
en far heldr
ok haldt þik hèr eptir
(meir enn híngat til,
gættu þess) í grend
Golgata fjalli;
þú munt þar sjá
með þínum augum
allra Spámanna
ok Abrahams von.
Meðan Messías
mælti við Samma,
snèri Jóel sèr
at Jóhanne,
ok með ósekri
úngdóms feilni,
ávarpaði hann
orðum þessum:
Æ! kom, ek kref þess,
kæri maðr!
mèr á Spámannsins
ens mikla fund,
at mèr veitt verði
við hann at tala,
því ek veit at þú
þekkir hann gjörla!
Ljúfr lærisveinn
leiddi hinn únga
Jóel jafnsnart
á Jesú fund,
sagði þá sveinninn
í sínu fróma
meinleysi þannig
til Messíam:
O þú góðgjarni
Guðs Spámaðr!
megum við þá ei,
með þínu leyfi,
faðir minn ok ek
fylgja þèr eptir?
enn ef ek þyrði
at áhræra slíkt,
hví þú heldr þik
hèr um stundir,
þar sem barns blóð mitt
bólgnar af stugg
við döprum disjum
dauðra beina!
Kæri Guðsmaðr!
kom án tafar
hèðan heim
í hús míns föðurs,
hvörju hann aptr
hverfr nú at,
þar mun þèr auðmjúk
þjónkun veita
móður mín, sem var
munaðarlaus.
Mjólkr ok hunángs,
einnig mætustu
ávaxta okkar
af aldin-trjám,
sem í skyldu skatt,
skaltú neyta;
ull hinna ýngstu
ali-lamba
skal þèr í skikkju
til skjóls verða!
Svo skal ek síðan,
þá sumar kemr,
þú gæzkugjarni
Guðs Spámaðr!

fylgja þèr undir
forsælu trè,
sem gaf mèr faðir
í garði sínum!
Æ! besti bróðir,
Benoní minn!
bróðir Benoni!
í beina gröfum
hlýt ek hèr við þik
með harmi skilja,
aldrei upphèðan
í aldingarði
blómstrin meðr mèr
muntu vökva!
Aldrei upphèðan
á aptni svölum
vekr þín blíða
bróður-raust mik,
góði Benoni!
æ Guðs Spámaðr!
nú er hann eptir
andvana í mold!
Leit nú hinn ljúfi
líknar augum
Jesús á Jóel,
ok við Jóhannem
sagði með sama:
sveini hryggvum
þú lát þessi tár
þerruð af kinn!
Þvíat hjá honum
hefir ek meiri
frómleik fundit
ok frjálst rèttsinni,
meiri geð-göfgi
ok góðmannligt þel,
enn hjá mýmörgum
meðal hans feðra!
svo mælti Jesús,
ok með Jóhanne
var nú einn eptir
enn í gröfum!
Mú sveimar Satan
sveipaðr þoku
um dal Jósaphats
yfir dauða sjó;
kom svo at Carmel
kýfðu' af skýum,
frá Carmel komst hann
at klárum himni.
Gana lætr hann
um guðdómliga
heils heims byggíngu
heiptuga sjón,
er hann sèr, eptir
aldir svo margar,
síðan samin var,
enni sömu dýrð
enn hana halda,
sem henni veitti
þrumu þeytandinn,
þá hana sköp!
En þó apar hann
eptir henni,
ok með upplognum
eldlopts glansa
málar mynd sína
svo myrkva nú,
er hann umbreytti
í aðra fegri!
at ekki skyldu
andstyggiligri
ok myrkri mynd hans
morgun-stjörnur,
ef hann sæu svo,
með sigr-hrósi
ok kyrri kýmni
kæta sik af!
Þó þoldi hann eigi
þenna skæra
búníng at bera,
heldr bjó sik skjótt
útaf umdæmi
alheims stjórnar,
ok hóf hraða för
til helvítis.
Snart hafði hann
at heims byggínga
ytstu ummerkjum
ófriðliga,

sem sterkr stormr,
steypt sèr niðr,
opnast honum þá
ómælanlig
ok sem endalaus
ólýsu vídd!
Hèr kvað hann hefjast
háleita stjórn
sinna sèr háðu
Satans ríkja,
er svo afarvídt
útbreiddu sik;
hèr leit hann leika
í lausu flugi
lángt at líðandi
litla skímu;
Sem síur, ytstu
sendar af stjörnum
við skaut sköpunar,
skutu frá sèr,
er um auðn reika
endalausa
megin-litlu mjög
meðr skini.
Þó þandist sjón hans
þaðan eigi
heim til hans niðr
í helvíti;
Guð hafði grafit
svo geisí-lángt
þat frá sjálfum sèr
ok sínum skepnum,
alsælum öndum,
ok með eylífri
dymmu djúpa lukt
dýblissu þá!
Því vorri veröld
enu víðlenda
sjálfs Guðs miskunar
sjónar plátsi
rúm var ekkert í
fyrir allskonar
kvíðanligustu
kvalastað þann;
Skóp hinn eylífi
skelfiligt víti,
feikna-forvirki
fárligra skemda,
helsta hervirki
til at hegna með
straffs stórvirki
sterkt ok fullkomit!
Þetta skóp hann þá
á þrem nóttum,
komu öngvar eins
ógnarligar,
ok snèri frá því
algjörliga
um alla eylífð
augliti sínu,
sem líknsamliga
lítr hann með
æ yfir allar
aðrar skepnur!
Vaktendr vítis
eru valdir tveir
himins her-engla
hugprúðastir,
sú var skipun Guðs,
er hann skrýddi þá
sterkum almættis
stríðs búníngi,
bestri brynjaða
með blessun hans.
Þeir er um eylífð
eigu at halda
föstu fángelsi
fordæmíngar,
eylífs dauðadóms
dýblissu-kvöl
innan sí-svartra
sútar skorða.
Svo ekki Satan
sínum meðr
meinfullra myrkra
miklum þúnga
af dælskri dirfsku
ena dýrmætu
yfir sköpun Guðs
skuli geisa,

ok með allsherjar
eyðileggíngu
ásýnd níða ná
náttúrunnar!
Þaðan sem sitja
Seraphim þessir
dýrðar ásjónum
drottnandi með,
við hlið helvítis
hefst einn vegr,
ljós ok ljómandi,
lángr ok beinn!
Rennr rakleiðis
röðul skær sá,
eins ok af tveimr
uppsprettu brunnum
flýtr kynja-klár
krystalstraumr,
gagnvart gimli
Guðs heima til,
hann sem hèr uppi
hefir skapta!
Svo þá þvílíkri
þannig stadda,
feikna fjärlægð í
fróma ánægju
ei skorta skuli
af skemtandi sjón
sköpunarinnar
skæru prýði!
Kom nálægt niðr
í Niflheim sinn
Lúcifer þessum
ljómanda vegi;
hann brauzt með heipt
innum helvítis,
er þá opnuðust,
ósèðr port.
Því nærst þakinn
með þoku sudda
stèg hann upp stól sinn
stuggvænann á,
sá hann alls ekkert
meðal afskræmdra
af nótt ok neyðar sorg
niflheims auga!
Zophíel sá,
er sitt í víti
annast embætti
úthrópunar,
þoku þessarar
þegar gætti,
hún nær hóf sik upp
háar tröppur;
hann við hjástaddann
svo hermir einn:
Er nokkuð Satan
vor æðsti Guð
heim í helvíti
horfinn aptr?
hvört mun þoka þá
þessi boða
öllum guðum af
æskta svo lengi
yfirhöfðíngjans
aptrkomu?
Meðan hann mælti
máðist þoka
allt um kríng
utan af Satan,
sást hann sitjandi
með svip reiðum
ófrýnn útlits
ok óttaligr.
Flaug hinn ófrjálsi
frètta túlkr,
óðr ári
at eld-fjalli því,
sem með stór-straumum
ok stríðum blossa
vant var at gefa
til vitundar,
á framslútandi
feikna björgum
ok dymmum dölum,
fyri dyn ógnar
sem sukku dýpra,
Satans komu!
I gegnum gryfjur
ganaði fjalls

strángr Zóphíel
á storms vængjum
at remmu-ríku
reik-opi þess,
gaus þat undir eins
eldi ok þrumum,
svo um allar sást
sveitir myrkra.
Við þat skyndi-skin
skelfiligann
leit sèrhvör lángt frá
lofðúng sinn nú;
allir arka fram
afgrunns búar,
þeir maktar mestu
mjög sèr flýttu,
sik á tróns tröppur
liggja sem nærst,
nú svo nýkomnum
niðr at setja.
Leið mèr þá í ljós,
ljóða-mey Síons!
þú sem af eldi
ok af alvöru
upptendruð horfir
ofaní víti,
er þú ásamt
í augliti Guðs
líka lítr
ljómandi birtu,
Ok af sjálfum sèr
sæla ánægju,
þá er þrúgar hann
þeim er syndga!
sýn mèr þá, són-mær!
enn saung-raust þína,
láttu geist glymja
með gný miklum,
sem stríðann storm
ok stór-reiðir Guðs!
Arkaði á undan
Aðramelek
vondr vítis árr,
verri enn Satan
ok lángtum limskari
í laun svikum,
brann í brjósti hans
bitr reiði
í gegn Satan enn,
fyrir uppreist hans,
þá er hóf hann
á himni fyrstr!
Því at hann hafði
hana sjálfr
leynt í lund ráðit
fyri laungu sèr;
hvað sem hafðist at
hann ei gjörði
til at varðveita
veldi Satans,
egin-vegs vegna
vann hann þat allt.
Oþenkjanligri
fyrir ára lengð
hugsat hafði hann,
hvörnig fengi
hann enum hæsta
herradóm náð;
hvörnig hann Satan
hræra mætti,
til at áræðast
enn at nýu
harðan hernað
móti himna gram.
Eðr í rúmi
óendanligu
fá hann í fjarlægð
færðann eilífa,
eðr ok loksins,
ef allt brygðist,
hann í orustu
at yfirvinna!
Jafnvel þá þegar,
er þrumu slögum
eltir eiðrofar
undan flýðu
megin-miklum
Messíæ sjálfs,
fyllti bragða brugg
brjóst hans þetta!

þá er helvítis
þeir nú voru
allir í
inniluktir
kopar-díblissn,
kom hann síðast
ok bar bardaga
fyri búníugi
glæst glansandi
gull-liga töblu,
gegnum allt afgrunn
úthrópandi:
Fyri hví fara
flýandi svo
stórri mínkun með
mektugir kóngar?
með sómasömu
sigr hrósi
fyri frelsi vort
fastliga sett,
ættuð þèr öflgir
orustu kappar!
í vistarveru
vegsemdar nýa
ok ódauðligleiks
inn at gánga.
Því þá hið nýa
þrumu smíði
Guð ok Messías
sengu grublat upp,
ok með stríðs störfum
ytórliga kafnir
aðr ofsóktu
ífar reiðir.
Inni Guðs egit
allrahelgasta
gekk ek á meðan
ok gat þar eina
fulla forlaga
fundit töblu,
sú er auglýsir
eptirkomauda
mjög merkiliga
mikileik vorn.
Safnist saman,
ok sjáið hvör er
röð sú forlaga,
er ritníng þessi
óbrygðanliga
gefr oss at sjá;
hún er hljóðandi,
sem hèr greinir:
Einn af öndum þeim,
sem hinn eylífi
eins ok ánauðgum
yfirdrottuar,
mun kröptugliga
kenna sik Guð;
hann mun frá himni
híbýlum snúa!
Sínum mý-mörgu
meðr vinum,
reiknuðum rètt
í ragna tölu,
mun hann afsíðis
aðsetr fá,
í auðn óbygðri
öðrum fjærri!
Sú vistar vera
verðr í fyrstu
honum hryllilig
ok hugnast illa;
eins ok sá Guð,
sem hann útflæmdi,
í auðn óskaptri
all-lengi bjó,
áðr ek heims-hríng
honum bygði!
var sá vilji minn
ok velþóknun!
En með hraustum hug
mun hann helvítis
viðtöku veita
víðu ríki;
því síðar þaraf
þó munu loks
verða veraldir
at vegsemd honum
sjálfum samlíkar
sannliga bygðar!

þær mun sjálfr sèr
Satan skapa,
þó af þeginni
þar til af mèr
þeirra fyrstu fá
ok form-stofui,
sem mun gjörð vera
guðdómliga
mínum mikla
fyri maktar stól!
Ek Guð guðanna
greini þetta,
ek sem afmarka
óendanligr
allar álfur
endalauss rúms,
með guðnum þeirra,
ok með gjörvöllum
heimum umhverfis,
heimi mínum
algjörðustum með
allra heima!
Honum helvíti
eigi hót trúði,
þvíngaði þat sik,
þó til einkis,
falskar fortölur
at fallast á,
en hinn eylífi
allsherjar Guð
heyrði löstun hans,
ok heimugliga
viðr sjálfan sik
sagði þannig:
Ek er Jehóva,
sá jafnan mèr
ok at eylífu
er samlíkr!
sjálfr syndarinn,
sem ek skelfi,
mælir mèr vitni
um mína dýrð!
Strax gekk ströffunar
stráugr dómr
út frá augliti
almáttugs Guðs!
hefst í helvítis
hol-dýpt innstu
bráðblossandi hnaus
útaf bál-hafi,
er gengr undir
í ægi dauða!
Reistr í reiða
rásar-bangum
tók sik nú taumum
út af takmörkum
þessi, þreif með sèr
ok þángað fleigði
Aðramelek,
sem hann ástefndi,
urðu sjö nætur
í einnrar stað,
þær þrumdi hann allar
þar í djúpi!
Loksins lætr hann
laungu síðar
mesta guðdómi
musteri byggt,
hvar hann til heiðrs,
sem hans prestr,
óguðs ölturum
yfir háum
festi forgylta
forlaga töblu.
Enginn at sönnu
úreldta lýgi
hèr tèða tekr
trúanliga,
þó koma þángat
enir þrællyndu
heiðrendr hans
fyri hræsnis skuld,
ok hans óveru,
eintómt loptið,
þegar hann er þar
eða þaðan burt,
tilbiðja boguir
af bern spotti!
Aðramelek út
af óguðs hofi

gekk ok geistist upp
á gilva trón,
hann með hulinni
heipt í brjósti
við Satans síðu
settist niðr.
Stèg þarnæst Mólok
stríðs andi fram,
frá fjöllum sínum
fljúgandi niðr,
er hann með öðrum
hefir ummúrat,
sem varnar virki
viðauknum björgum;
Ef kann ske komi
sá enn kífsami
þrumu þeytir
þángat niðr —
jafnan nefnir hann
Jehóvam svo —
öræfi vítis
til at inntaka;
Opt, þá sýnir sik
sorgligr dagr
logandi lagar
við löður-strandir,
af dymmum dömpum
drúnga-fullr,
verða varir hans
vítis búar
Er þá strax stritar
stór-klifjum hann
fjallit upp
með fetum seinum,
skekinn af skrölti
ok af skarkala,
grár fyri geirum,
sem glamra um hann,
uns með nauð nýpu
nær um síðir!
Ok nær hefir hann
hömrum nýum
hreykt uppá hina
helvítis gegnt
hol-bjarga hellrum,
hann í skýum
stæltr standandi,
nær steinar sprúngnir
úr brostnum björgum
láta brank heyrast,
hyggr skjóta ský
skruggum sínum!
Fyri felmtrs skuld
frá sèr verða,
þegar sem hann sjá,
sálir þeirra,
sem sterkri styrjöld
hafa storð kúgat,
gegnum þær með gný
geistist hann fram
ofbeldis-ærum
ofan af björgum;
þær hrukku hræddar
fyrir herjanda!
Svo gekk hann sínum
sveipaðr vopnum
dunandi, dymmr,
eins ok dökkvum þekst
skrugga með skýum
skelfiliga;
björgin bifnðust,
ok bak við hann
steyptust stóreflis
steinar niðr,
svo kom hann sjálfs
fyri Satans trón!
Nú sik nálægði
næst eptir hann
Belielel brádt
bölverks stóli,
fullr fúl-lyndis
fár ok með þögn
kom hann frá högum
ok heiðar skögum,
þar dauðans lækir
dymmir velta
sífeldt sèr
at Satans tróni,
útaf uppsprettum
eylífrar þoku.

þat er bústaðr
Belíelels;
en til einkis er
öll hans mæða,
já, at eylífu
til ónýtis,
æ bölvat óland
svo at umskapa,
at þat glíkt gjörist
Guðs veröldum.

A hans athæfi,
eylífi Guð!
horfir þú
af himnum ofan,
hlæandi at honum
háleitliga
ok fíflskufullri
fyrirhöfn hans,

Er hann með armi
áhyggjufullr
helzt til hald-litlum
hyggst at strita
með ógn æðanda
ofsa stormi,
svo sem frá vestrì
svalanda blæ,
at sínum egin-
eymdar lækjum.

Því utan afláts
æðir hann þángat,
ok hefir allar
ógnanir Guðs
sèr á bannvænum
sí-öskrandi
vesældar vængjum
vítis plágu;

Auð eyðileggíng
ómyndarlig
liggr æ eptir,
þar hann umbrúsar
helvítis hrjóstr
hrist ok skekin
af hans óvægum
yfirgángi.

Með bölmóð þenkír
Belíelel
á vor ódauðligt
upphæðanna,
þat er hlær svo hýrt
himneskum á,
sem úngr Seraph,
sældar ökrum;

Þeim vill hann vesæl
vítis öræfi,
þó lángt frá liggi,
skuli lík verða,
ok dalir dæmdir
undir dauða nótt;
enn hann emjar
fyrir ofstæki;
hans snauðu hagar
hvorvetna liggja
auðir í ómynd
ok orpnir myrkri!

Eylífri ómynd
fyrir augum hans
öll þau öræfi
undir liggja,
endalaust óland
á allar síður
fullt allskyns eymda
ok ángistar víls.

Með svip sorgfullum
til Satans kom
Belíelel
ok brjósti þrúngnu,
hann brann af heipt
ok hefndargirnì
honum helzt ígegn,
sem til helvítis
frá himins högum
hann forðum rak,

Ok þar á ofan
með öld hvörri,
sem honum sýndist,
lèti sífeldt þat
æ af sèr gengit,
ógnarligra
ok verra verða
við at búa!

Einnigin Satans
aptrkomu
varst þú var, Magog!
í vötnum þínum,
sem átt setr þitt
í sæ dauða,
útaf æðandi
unnar svelgjum
komstu hèr á kreik
til konúngs fundar.
Sundr flutu flöð
ok fleygðu sèr
fram, sem fjallgörðum
feikna laungum,
þegar þínir,
er þángat gekkst,
svartra fljóta för
fætr skiptu.
Formælti fullr
af feikna grimd
enum eylífa
óðr Magog,
gaus guðlöstunar
grenjandi raust
utan afláts
úr hans kverkum!
Frá því hann flæmdist
fyrst af himni,
með beiskri bræði
bölvar hann Guði,
ok hyggst helvíti
af hefndargirni,
en þótt þar eyðist
eylífðir til,
öldúngis loks
at öngvu gjöra;
þá hann nú þusti
uppá þurlendit
sparkar hann af heipt
heillri ströud fram
fullr ofstopa
eyðileggjanda
útí afgrunnit
með urð ok hömrum!
Safnaðist saman
til Satans þannig
hvört eitt helvítis
há-yfirvald,
eins ok eyar hafs,
þegar uppslitna
föstum sætum frá,
fyrirstöður
með braki ok brestum
brutust þeir gegnum!
Otalinn urmull
alþýðu púka
stórum streymdi með
at stóli Satans,
sem öldur ægis
áhlaðanda
at brattra bruna
bakka fótum!
Þjóð þúsund anda
þúsund sinnum
þusti þángat
eigi þegjandi;
þeir gengu ok gólu
gjörðir sínar,
fyridæmdar þó
forsmánar til,
ok til ódauðligs
ærulevsis.
Þeir súngu svo
undir samblöndnum
vanhelgra harpna
hávaða glaum,
rámra, rifinna
af reiðarslögum,
úr hófi herðtra
fyrir hels tóna
þannig hljómar hark
harðra slaga
um myrkt miðnætti,
frá menn deyðandi,
ok frá deyandi
drótt syndara
yfir allt um kríng
óttaligt mjög!
Þá nauða-napr
norðan-vindr

keyrir yfir þá
kopar-vagn sinn,
ok þeirra blóð-baul
af bergmáli
verðr undir eins
endr-baulat.
Satan samstundis
sá ok heyrði
þyrpíngar þessar
þángat koma,
ok varð allr
fyrir utan sik,
reis hann upp reiðr,
svo rèð sèr ekki,
ok þær yfirleit
allar í senn!
Yzt hjá úrþvættis
alþýðu skríl
sá hann grey-geðja
Guðs neitendr,
þá djöfla dróttar
dregg ena neðstu,
fas ok framgánga
var fullt af spotti.
Ægur íllþýðis
oddviti Gog,
þar var þrótkastr
þessara skara,
ok hinn mest metni
meðal þeirra,
eins sakir álits
ok afglapaskapar;
At þat allt væri
einúngis draumr
eintómt apaspil
ærðra þánka
hvað í himninum
höfðu þeir sèð,
Guð fyrst einn faðir,
en frá því hegnir:
Þetta þurftu nú
þeir til at halda,
óðir at leita
allra bragða
viðr sjálfa sik,
sèr finna til
allskyns örvanir,
agn ok þvíngun,
engja sik sundr
ok saman af kvöl,
ok láta öllum
illum látum.
Spretti Satan
við þeim spott-auga,
því midt í megnasta
myrkri vafinn
fann hann, ok fèkk ei
fyri þat girdt,
at hinn eylífi
eflaust væri.
Stundum stóð hann
í stórum þaunkum,
ýmist umskygndist
á allar síður
lángsamliga
ok leit yfir þá;
svo at síðustu
settist niðr!
Eins sem á háum
öræfa fjöllum
ákaft æðandi
ofsa veðr
standa stöðvuð
um stundar sakir
svo var nú Satan
sitjandi í þaunkum!
Loksins lauk hann upp,
eptir lánga þögn
af feikna forsi
freiðanda hvopti,
ok þúsund þrumur
þeyttu sèr fram,
svo var túngu tak
er hann talaði:
Ef þèr, ógrligt
ógrynni skara!
eruð enn í dag
enir sömu,
sem fyrr með mèr
á mörkum himins

þrautasama þrjá
þolduð daga;
þá heyrið hèr
í hrósi sigrs,
þat er ek yðr
anglýsa vil,
viðvíkjandi
vegferðar minnar
drjúgu tals efni,
ok dvalar á jörð!
Þó eigi þulu
skuluð þèr at eins
færðrar frásagnar
fá at heyra,
heldr hèr at auk
af hárri makt
reista ráðslögun
um rètt ok frama
guðdóms vors,
til at geta hnekkt
þess ens eylífa
ærugengi.
Fyrr skal helvíti
foreyðast allt,
fyrr skal sá sína
sèrhvörja skepnu
allt í kríngum sik
eyðileggja,
sem, eptir sögnum,
hefir settann fyrst,
í auðn ósorgar
alheim bygðann.
Ok, sem fyrr, aptr
einsaman búa,
enn at hann orki
af oss at ná
drottnun vorri
yfir dauðligu
af mold mynduðu
manna kyni.
Guðir viljum vèr
vera ok heita,
ósigranligir
æ ok frjálsir,
en þótt hann þúsund
ok þúsund til
meðalgaungu-menn
mót oss sendi,
já, þótt hann jafnvel
á jörð, til at gjöra
sik at Messía,
sjálfr færi!
En við hvörn vil ek
vera svo reiðr?
hvörju nemr nýr
niðri fæddr
á jörð Jehóva,
eðr Jesús sá,
eða Messías,
sem manns líkama
diktaðann guðdóm
dauðligum í
manna milli
með sèr dregr?
At hávoldugir
fyrir hans sakir
guðir gjöri sèr
grundanir slíkar,
eins ok ætli þeir
upp at hugsa
nú nokkrskonar
nýar frægðir
af guðdóms gjörðum
ok geira hríðum?
Skyldi einhvör einn
hinna eylífu,
svo oss signrinn
sè þess hægri,
móður dauðligrar
frá mennskum kvið',
er mun innan skams
örend fúna,
gegn oss uppspretta
til orustu,
sem hann þekkir þó?
mundi þat fá skeð?
Hvört mun sú samkvæm
sýnast kunna
bernskulig breytni
buðlúngi þeim,

er Satan sjálfr
sverða rimmu
virðir sèr verðugt
við at heyja?

Nú norpa' at vísu
nokkrir þeir hèr,
sem flúðu af felmtri
fyrir honum,
ok yfirgáfu
ótèrlig hús
djöful-setinna
dauðligra manna!

Hræðist þèr, hèrar
enir huglausu
fyri samsæti
sæmdar þessu;
umvefjið andlit
yðar nú strax
með skugga skýlu
skammarfullri!

Þat heyra þessir,
at þèr flýðuð,
göfugir guðir
fyrir gúnguskap;
fyri hví sem fól
flýðuð þèr svo?
því kölluðuð þèr
þenna Jesúm,
mèr ok yðr
til mestu smánar,
Son ens eylífa
ok æðsta Guðs?

En svo þèr þekkið
hvör þessi sè,
er gjarna Guð væri
meðal Gyðínga,
þá hlustið hèr
til hermdrar sögu
drauma diktarans
þessa drambsama;
heyr þú ok hana
hlakkandi' af sigri
göfug samkoma
guða stórra!

I frá aldöðli
ein meðal Júða
geisi-gömul spá
gengit hefir;
því öllum þjóðum
hefir þetta fólk
miklu meira dreymt
undir miðgarði;

Spjallar spásagan
at spretta muni
eittsinn upp af því
Endrleysir,
er þat frá öllum
umhverfis þar
liggjandi landa
skuli laust gjöra
æ at eylífu
óvinum sínum,
ok yfir öll fram
annara völd
þess með dýrð prýða
dásamligt ríki!

Vitið þèr ok vel,
at voru nokkrir
fyri fám árum
fèlaga vorra,
þeir er sögðu sik
sèðann hafa
umhverfis Tabor
engla grúa!

Sem hrópað hefðu,
hvörskonar með
auðmýkt ok undrun
upptendraðir,
aptr ok aptr
allir í senn,
svo ei niðri nam,
nafnit Jesús!

Svo hèr við hristust
enar hávöxnu
cedrus-eikr allt
upp at skýum;
ok pálmaviðar
prýði-skógar
allir gegn gullu
við glaum slíkan;

Tabor titraði
af tómu Jesús!
En eptir þetta
með ofr hug
ok stærilæti,
sem af stór-sigri.
tók sèr frá Tabor
tígugliga
Gabríel engill
gaungu á hendr,
á fund við eina
Israels dóttur!
Hana kveðr hann
heilsun slíkri,
er ódauðligir
ávarpast með,
ok í ljós leiðir
lotníngarfullr
fagnaðar fregn þá
fyrir henni:
At út af henni
skuli uppspretta
niflúngr nokkr,
sá er ná muni
drottnun Davíðs
með dýrð ríkjandi,
ok erfð Israels
ágæta gjöra,
Hann hèti Jesús,
ok hún einnig
gjörla skyldi hann
Guðs Son nefna,
um aldir alda
ok at eilífu
vara muni makt
hans mikla ríkis!
Þèr urðuð þessa
þann tíð varir;
en hví hræddust svo
helvítis goð,
þó at þau
þetta heyrðu?
sjálfr hefir ek
sèð lángt meira,
en aldrei orðið
óttasleginn!
Allt vil eg yðr
auglýsa þat,
ekkert skal eyrum
yðar dulit,
svo þèr sjá megið
hvörsu sinni mitt
hefst upp hraustliga
í háskasemdum;
Megi þat annars
metast háski
þó at á þeirri,
sem þaðra liggr,
veröldu vorri
vilji sik Guð
dauðligr dikta
drauma maðr.
En hann á sèr nú
ófyrisynju
leit hinn öldnu ör
eptir þrumur;
honum brá í brún
ok blöskraði,
svo hann móð misti;
en með þat sama
hann af alefli
upphresti sik,
ok lèt hvestan hvapt
hvera' at nýu:
Staddr var ek
á storð manna
ok beið þar eptir
undarliga
frábærri fæðíng
ens fyrispáða,
af guðdóms gáfum
göfuga sveins.
Nú mun, María!
móðurligu —
ek þenkti þannig —
þínu skauti
hinn guðdómligi
gánga fram af!
hraðara hvörri
hræríng augna,

ok ragna þánka
með reiði vængjum
mun til himins hann
at hæð vaxa.
Þegar hylr hann
í hækkun sinni
með einum fæti
afarvídt haf,
en hinum öðrum
allt jarðríki!
í hægri hendi
hræðiligri
saman vegr senn
sól ok mána,
en með mund vinstri
morgun stjörnur!
Dunar ok darkar
deyðandi fram
midt í stormum þeim
ok stríðviðrum,
er hann frá öllum
æstar heimum,
geistr gengr hann
með gný sigrs
yfir allt affram
öptrunarlaust!
Æ! flý sem fljótast!
flý þú Satan!
at hann ekki
meðr almáttkum
slái þrumum þik
í þúngri bræði,
uns þúsund þeyttr
þú yfir jarðir,
dofinn ok dáðlaus
já dauðr loks
liggr afgrunns í
endaleysi!
Sjáið, ó guðir!
ek svo þenkti!
þó var þat honum
þóknanligt nú,
at hann einúngis
yrði maðr,
jafnt grátanda jóð
sem jarðar börn,
hvöreð þá þegar,
er þau fæðast,
útaf dauðligleik
æpa sínum!
At sönnu saung
um hið sama bil
engla flokkr einn,
er hann fæddist;
(því stundum stíga þeir
á storð niðr,
at sjá veldi vort,
þar vèr drottnum,
Ok at álíta
allar grafir,
dysjar ok dýngjur
dauðra manna,
þar sem ekkert var
áðr at sjá
nema prýddustu
Paradísir!
Hverfa þá hryggir
til himins þeir,
en, svo þeir sefi
sína harma,
gala, sem geta,
glymjandi ljóð!
þannig var þat ok
at því sinni!)
Fóru þeir nú fljótt
ferða sinna,
ok lètu eptir
þann hinn únga svein,
eðr, sè yðr
áheyriligra,
í dupti döpru
Drottinn himna!
Flýandi fór hann
fyri mèr svo,
ok ek ljúfliga
lèt hann flýa;
at elta óvin
istöðulausann
öngvan vegin var
við mitt hæfi.

Enn svo ek ekki
ýðjulaus væri
lèt ek á undan
minn hinn útvalda,
frægstann fylkir minn,
ok fórna prest,
Heroðes heitinn,
höggva niðr
Bethlehems bygðar
brjóstmylkínga.
Dynjandi dreyri,
deyenda vein,
örvílunn mæðra
ólhugganligra,
út-austr líka
öndum blandin,
þegar allt þetta
í þægum dömpum
gaus á móti mèr,
fyri mik voru,
eymda frum-föður,
fórn en kærsta!
Hvarflar ekki hèr
Heroðis skuggi?
heyr barna-bana
burtskúfuð sál!
var ek ei sjálfr,
sá er vakti
þánka þann
þèr í hjarta,
Bethlehems börn
at brytja niðr!
Getr hinn gamli,
sem á gimlí býr,
mæðu-mikit verk
myndana sinna,
andir mannanna
ódauðligar,
um múrat svo
gegn ásókn minni.
At ek umkríng þær
ekki fái
skugga skotit
til at skaða þær,
meinsömum mínum
með innblæstri,
eðr mik til ílls
yfir þær breidt?
Já, þitt eymdaróp,
yfirgefni!
ok full ángistar
örvílnun þín,
sár sorgar klögun
sálna þeirra,
sem í sakleysi
sínu deyddir,
svo þær syndgandi
söktust í hel;
Er bæði þèr þær,
ok þeim sem skóp
báðu bölvunar
af beiskum huga,
allt er nú þetta
æskilig fórn
þessum friðþægða
þínum drottni!
þegar þengill dó,
þíngheimr guða!
kom í kyns haga
krakkinn aptr
út af öræfum
Egyptalands,
ok sín barndóms ár
ókendr lifði
móður kjöltu midt
mjúklátrar í,
er lèt einkar dátt
arfa kærann.
Ekkert æsku fjör,
eingi prúð dirfska
fèkk hann framknúð
til fyritekta,
nè þess nokkrs,
at neinum mætti
af honum ógn
nè ótti standa;
þó mættuð þenkja
þèr, ó guðir!
at á einsligum
eyði skógum,

ok berum bökkum,
þar ei bygð var nein,
er hann opt dvaldist
í einförum,
hann máske hafi
hugsat upp ráð.
Þau er úr fjarlægð
fæliligri
hóta helvíti
hruni kynnu,
ok af oss heimta
endrnýaða
hugdirfsku, hreisti,
ok háan vara!
Sjáið sjálfum mèr
sú tilgáta
hefði hægliga
til hugar komit,
ef hann æ hefði
ástundat meir
háar hugsanir
hluta stórra;
En at atgæta
aldini, grös,
ok krakka kyndr,
sem í kríng vorn,
ok at upphrýna
ünnúngs saungva,
til heiðrs honum,
sem hafði gjört
hann ásamt ormum
af aumu dupti!
Já, eg væri víst
visnaðr upp,
ok í kör kominn
af kyrrsetum
ok yðugligu
yðjuleysi,
af múga mannkyns
nema mèr hefði
sí- ok æ verit
sálum offrat.
Hvörjar ek hefi
fram hjá himninum,
at honum einmidt
ásjáanda,
híngat heim til mín
hvörvetna sendt,
til at fá fjölgat
fólki mínu.
Um síðir sýndist
sem hann verða
mundi meir enn fyrr
markverðugr;
Guðs dýrð göfuglig
frá gimli kom,
er hann við Jórdan
eitt sinn dvaldi!
Ek sjálfr Satan
hefi sèð hana
ódauðligum með
augum þessum
þá at því sinni
þar við Jórdan,
eingin önnur mynd
eingin himins
svipul sjónhverfing
hefir svikit mik!
Hún sjálf en sama
svo þar birtist,
sem frá hærst höfnum
himins tróni
gengr í gegnum
geisi-língar
tilbeiðslu raðir
tignar engla!
En hvörs eyrindis
ofan stèg hún,
ok hvört til heiðrs
hauðrs börnum,
eðr árvakri
eptir at grenslast
varatekt vorri,
veit ek ekki!
Heyrðag at sönnu
háar þrumur,
ok við þrumur þær
þessa raust blandna:
þessi einn er
minn elskuligi,

sá er Sonnr minn,
sem mèr þóknast!
En þat Elóa
efalaust var,
eða þá einhvör
annar tróna,
sem svo beljaði
til at blekkja mik!
Guðs ranst (veit ek víst)
var þat eigi!
Þvíat svo sver ek
við svart helvíti,
ok við nifilheims nótt
nátta versta,
mèr fyrir eyrum
mjög lèt hún nú,
ólíkt ok áðr,
þá með ofríki
tróð hann uppá oss
öflùga guði
eylífðarinnar
arfa forðum!
Sparar ok ei spjöll
spámaðr einn
myrkr at mæla
Messía þessum,
er um eyði-fjöll
aptr ok fram
mann-hatrliga
mundi ráfa.
Hann þannig honum
hrópaði móti:
lítið þat Lamb Guðs,
er lausn af synd
framkvæmir fyrir
fólk á jörðu!
þá lèt hann þessu
þar við aukit:
Heill sè þèr, Herra,
sem hefir verit
í frá eylífð,
ok áðr laungu
enn þat ek var til;
af einum þèr
vèr menn meðtókum
miskunar fyllíng!
náð fyri náð
sem náðar mistum.
Lèt Guð ljós verða
laga boð sín
gegnum Mósis munn
mönnum gefin,
en náð ok sannleikr
eru nú komin,
gjörð ok gefin
fyri Guðs smurða!
Er ei spjallit spakt
ok spámannligt nóg?
hendir hvörvetna
hèrvilla þessi,
nær draum-menn dikta
draum-mönnum lof,
byggja þeir hátt hof
heilags myrkrs!
Ok æ þá eymd
at ódauðligir
vítis guðir vèr
erum veikir til,
ok of-auðvirðir
innri sali
leyndardómanna
at leyfist skoða!
Vill hann ei vorar
vèla sjónir,
með því at þekja
undir þeirra mynd
syndugu seggja,
sem vèr deyðum,
hinn mikla Messíam,
mildíng himna,
þrumu þeytir Guðs,
sem þessum með
voldugu vopnum
við oss stríddi,
uns nýum heimum
vèr náð gátum,
þenna makliga
megin-dólg voru,
ofmikils metna
mótstandara?

I egin-augum
er at sönno
jarðar jóð-skepnan
Jesús þessi,
sem draum prófetinn
dáist svo at,
eigi allsmár
nè auðvirðiligr!
Margopt meinar hann
at menn kráukir,
sem í svefn falla,
sèu dauðir,
kreikar hann þá fram
kallandi á þá,
svo honum sýnlst,
sem þeir lifni;
þó at eins upptök
eru þetta;
eptir eigu at ske
enn stærri verk.
Er hann ásetr
allt manna kyn,
frá synd ok dauða
frjálst at gjöra;
já, frá syndinni,
sem þó öllum
æ er innplöntuð
Adams niðjum.
Sú æ með óspekt
ok með ofbeldi
ódauðligum í
öndum þeirra
móti setr sik
sjálfum Guði,
af þýar þúnga
eigi þvíngaulig!
Ok frá dauðanum,
sem alla menn,
já, allt jarðar kyn
jafnt niðr höggr,
hvenær helzt sem vèr
honum bendum;
frá þessum hyggst hann
heim at leysa!
Einnegin yðr,
útreknu sálir!
hvörja ek heimti
frá heims sköpun,
ok dreg í mund mèr,
sem hinn mikla sjó,
svosem heilann her
himintúngla,
ok svosem sjálfs Guðs
sýngjandi þrælar
ei taka tölu,
sem hann tilbiðja!
Já, yðr ogsvo,
sem eylíf nótt
hèr í afgrunni
ætíð kvelr,
ok í nóttinni
eldr hegníngar,
ok í eldinum
örvæntíngin,
í örvæntíngunni
ek sjálfr kvel,
yðr úr dauða
vill hann útleysa!
Þá munum vèr
sem þrælar liggja,
guðdóms gleymendr,
gjörðir at faungum,
fallnir ok flatir
fyrir honum,
nýgjörðum guði
guði af manni!
Þá mun hann þat,
sem þrumum meðr
almáttkum aldrei
gat af oss kúgat,
útaf umdæmi
óvægins dauða,
vopnlaus verandi,
vinna til fulls!
Þú vesælíngr
vognnar fulli!
sjá til þú frelsir
sjálfann þik fyrst,
ok svo eptir þat
uppvek dauða!

deya skal hann víst!
já deya skal hann!
Hann sá hinn sami,
er at sjálfs þótta,
ok af egin-makt
allt manna kyn,
af sjálfum Satan
sigraða fánga
frá dauðans fári
frelsa mundi,
hann skal efalaust
hljóta at deya!
Fyrr enn lýð leysir
legg ek þik í
dupt enna dánu,
þú hinn dauðligi!
örendann, fölann,
ok afmyndaðann,
ek skal þik allann
at ösku gjöra!
Ek mun augu þín
aptrlukt við,
sem þá sjá ekki,
sveipuð þoku,
um nótt eylífa
æ sofandi
í megnu myrkri
mæla þannig:
lítið upp, sjáið,
liðnir vakna!
Ok við eyru þín,
sem ei heyra,
af dauða deyfu
dofin ok lukt
æ at eylífu
allskonar hljóði,
vil ek hátt hrópa:
hlustit þið til,
dynr í dysjum,
dauðir vakna!
Ok sem sál þín,
útaf sínum ham
flogin, máske fer
til at fá sigr
á vorn víti,
víkr þángat,
mun ek í ægum
ofsa storms hvin
eins ok reið öskra
eptir henni:
Flýt þèr! á foldu
fèkstu sigr!
flýt þèr sem fræga
fjötraðir Guði!
væntir þín vegsemd
fyri vunnit stríð;
ok hlið helvítis
heim bjóðandi
öll sèr uppljúka
til inngángs þèr.
Dansar móti þèr
djúpit víða,
sem á als oddi
afgrunnit leikr,
þyrpast þèr í fáng
ok þik um kríng
sýngjandi flokkar
sálna ok guða!
Annathvört er,
meðan ek hèr dvel,
má Guð flytja fljótt
forvirki jarðar
meðr Messía
ok mönnum öllum
án undandráttar
upp til himins.
Eðr ek mun
at öðrum kosti
fullt ok fortakslaust
framkvæma þat,
sem mèr af minni
miklu vizku
er í brjóst blásit,
eða hind ek skjótt
á þat enda,
sem ek alráðit
ok hugfest hefir;
hann skal deya!
Svo sannarliga,
sem ek, fyrsti

verks höfundr
ok viðhaldari
ens dapra dauða,
eigi deya mun,
heldr eylífðir,
allar lifa
ósigranligr,
sem eptir koma,
heitstrengir ek,
at hann skal deya!
Bráðliga mun ek
af beinum hans
ok holdi fúnu
hismi dreifa,
víðs vegar híngat
á vítis leið,
enum eylífa
ásjáanda!
Svo sjáið þèr nú
af því, sagt hefi,
hvör mín ríg-skorðuð
ráðagjörð er;
hèr er heilt inntak
hugsana minna;
svo fremdi Satan
sínar hefndir!
Lyktar Lucifer
lánga dælu,
en hefnd hræðilig
honum í gegn
útgekk frá orum
Endrlausnara,
einsligum í
sem enn var gröfum!
Við són síðasta
af Satans máli,
er hann lukta lèt
lánga dælu,
brast í blaktanda
blaðkorni þar
við fót Frelsarans,
en fjörlátandi
einn þará aumr
yrmlíngr hèkk;
Lausnarinn leit hann,
svó hann lifnaði!
Enn með sömu sjón
sendi þèr hann,
Satan! skelfíngu
ena sárustu!
sökk við sèrhvört spor
ens senda dóms
helvíti dýpra
honum eptir.
Fyri framan hann
fæliligustu
varð Satan sjálfr
at svartnætti;
slíkan gjörði geig
Guð-maðr honum;
en sem nú sáu
satanar hánn
þeir at steinstólpum
þar strax urðu!
Enn í einsetu
undir tróni
hýmði höggdofa,
sem horn-kurra,
dymmr ok dapr
í dvöl afsíðis
Abdíel engill
Abbadóna!
Sat hann með sárri
sálar ángist,
útí ókomit
sem hit umliðna
horfandi hugar
harmfullri sjón;
streymdu stuggvættar
sturlun ok dymma
út af ásýnd hans
ok aungna ráði!
Er hann sá ekkert
nema einúngis
kvöl á kvöl ofan
köstum saman
akka sèr inn
í eylífðina
nú lèt hann litít
á liðna tíma!

Fyrr var hann *frómr*,
fullr sakleysis,
ypparligs vinr
Abdíels þess
sem vann, sjáanda
sönnum Guði,
háprúdt hreisti verk
í himninum,
órósömum á
upphlaups dögum!
Því hann einn aptr
ósigranligr
frá grimmum gaurum
til Guðs vendi,
ásamt engli þeim
eðal-hnguðum;
undan augna sjón
óvina Guðs
var hartnær horfinn
heim snúandi
áleiðis aptr
Abbadóna.
En lið Lúcifers
logandi vagna,
sendt til at sigra
ok at sækja þá,
kom utan at þeim
öllumegin,
eins ok eldíng
á augabragði.
Hardt at haldandi
herlúðra glaumr,
tryllandi tilboð
sem þeim tónaði,
kríngum hann kominn
kappa skari,
drukkinn af drambi
dýrðar, sem Guðs,
urðu hjarta hans
helzt til veiku
ofrefli,
svo hann undan lèt,
ok hrökk til baka,
sem af harðviðri!
Vildi vinr hans
*með* viðr-liti
ástar ógnandi
fá hann eggjaðann
heiðrs harðfengi
til at halda fram
ígegn tiltegíng
táldragandi.
En gabbi glapinn
guðdóms vonar,
ok af dregg drukkinn
djöful-flærða
tók hann ei eptir
ástvinar síns
áðr öflugu
augna svifi,
hann fór fángaðr
á fjandans vald;
Hvörvetna hryggr
hann þenkir á,
ok í sjálfum sèr
sífeldt dulinn,
áðr óspiltrar
æsku tíma,
ok síns fullfagra
fæðíngar dags
yndis auðugann
uppruna morgun!
Þá hinn eylífi
þessa báða
skæru Seraphim
skapaði í senn,
er af upptendrun
eðlis nýa
samanræddu svo
sín á milli:
O þú engill minn!
hvað erum við?
hvaðan hèr komnir?
hjartkæri vinr!
sástu mik nú fyrst?
seg mèr hve lengi
hefir þú verið?
hvört mun þat víst
at við sèum svo
sannarliga?

Komum, kynnumst við
kærleik innbyrðis!
föllumst í faðma,
frábæri vin!
gæddr gjörvugleik
guðdómligum!
herm mèr, hvör at sè
hugrenníng þín!
Í því dýrð Drottins
dásamlig kom
laungri fjarlægð frá
fagrar birtu,
ok býtti blessun
báðum vinum,
sáu þeir sveima
sik allt um kríng
af úngum englum
ótal skara!
Skjótt líðanda ský
skært eins ok silfr
upplypti þeim
til hins eylífa,
sáu þeir hann þá,
ok þegar nefndu
skírustu veru:
Skapara sinn!
Píndu þánkar þeir
þennann auma
Abbadóna,
svo af augum hans
hrundu hrygðar tár
hrönnum jafnan,
eins ok Bethlehems
brjóstmylkínga
frá fjöllum ofan
fossaði blóð!
Heyrt hafði enn aumi
ok hrylti við
í særðu sinni
Satans ræðu;
þó hresti hann sik,
ok hærra reistr
þjóst til at birta
þat ei bundist gat!
Þó stundi hann þúngann
þrisvar sinnum
áðr enn orðum
gæti uppkomið,
eins ok þá þekkjast
þegar deya
bræðr barðaga
blóðugum í,
er hvör vóg annann;
andvarpandi
hnígr hinn niðr
við hlið þessum
ok stynr dugvana
i dauða teigum!
Þarnæst tók hann til
at tala þannig:
þó at þíngheimr
þessi verði
mèr at eylífu
mótstæðiligr
vil ek framfæra
frjálsa ræðu.
Ræða vil ek rètt,
svo reiði dómar
þess ens eylífa
ekki falli
eins hræðiligir
yfir höfuð mèr,
svosem þèr, Satan,
saka dólgr!
Heyr, ek hata þik,
höfuð fjandi!
af heilu hjarta
hatar ek þik!
eytraðann óvin
alls hins góða,
en allrar illsku
upprunа smið!
Mín, já, mín, Satan!
mælir ek um! —
einnrar ódauðligs
anda skepnu,
sem með skömm skyldir
frá Skaparanum,
stráungr dómari
straffandi þik,

æ! at eylífu
af þèr krefji!
Anda veraldar
yfir höfuð
gjörvallr grúi,
sem ginnti þitt
fjandligt fláræði
í fordæmíngu,
yfir þèr, Satan,
einum munni
gegnum allt afgrunn
ok æga nótt,
ásamt með öskri
ægis, dauða,
án afláts æsti
endalaust vei!
Ek, þèr, eylífi
illvirki! með
hefi hèr í frá
hlutdeild öngva,
öngva hlutdeild í
áformi þínu,
þú geisi-grimmi
guðlastari!
at myrða' hinn mikla
Messíam, Guð!
Gæt, ígegn hvörjum
geistist þu, Satan?
þeim í gegn sem þèr —
svosem þú sjálfr
verðr móti vild
at viðrkenna,
hvörsu sem þú hyggst
með hræsuis lit
skömm ok skelfíngu
at skýla þinni —
miklu meiri er
ok máttugri.
Ef Drottinn dýra
dauðligum mönnum
frá fári ok dauða
frelsun sendir,
þá mun þèr aldrei
þverfíngrs lengð
til baka at toga
takast hana,
nè þeim stríða straum
at standa í gegn!
Hyggst at lífláta
líkama þú
mikils Messía,
markaði Satan!
hvört er þèr horfit
hann at þekkja?
eðr eru þá
hinna almáttku
hans þeyttu þrumna
þúngt stígin spor
eigi þrykkt svo þètt,
at þèr nægi,
á allt enni þitt
óskamfeilit?
Eðr mun ekki
fyrir oss veikum
ok vanmáttugum
vítis flugum
sá hinu stórvirki
ok sterki Guð
sik gjörsamliga
geta varit?
Vèr, sem fyrr svikum
saklausa menn
í daprann dauða
frá Drottni sínum,
(æ! vei mèr, vei mèr!
ek vann þat með)
vèr viljum einnig
með vondsku geisi
eigi skammast vor,
nè skirrast við
at fremja fólsku
við Frelsir þeirra.
Soninn, þann sama
sigranda Guð,
sem þeytir þrumum,
þeim er oss hröku,
hyggjumst vèr heimskir
í hel at slá!
djöfullig dirfska
ok dáraskapr!

Einnig von ok veg
til vors frelsis,
þó þess at vænta
hefðum þora mátt,
eðr mýkíngr
at minnsta kosti
á kvölum vorum,
keppumst vèr nú,
fyri slíkri fjöld
forðum algjörðra
anda, sem erum,
um eylífð lykja!
Svo sannarliga
sem vèr allir
kennum sárari
kvalar at eins,
nær þú nauðafullt
nætr-kot þetta,
fjós fullt af myrkri
fordæmíngar,
kallar konúngligt
ok kennt við þik;
Svo sannarliga
sver ek at þú
snautar snart aptr
með sneipu klifjum
í sóma stað
ok sigrvinníngar,
Guð ok Messíam
ef glettist við!
Heyrði Satan hann
herma þetta,
ok varð eyrulaus
fyrir ofsa grimd;
hugðist hann einum
enna háreistu
kletta teknum tind'
tróns hæðum af
heiptugri hendi
á hann at kasta!
En hans armleggr
ógnarligi
misti máttar síns
af megni heiptar,
hann stóð steindumbi,
stappandi fótum;
þrisvar hristist hann
af heiptar grimd,
ok leit þrisvar á
Abbadóna
ófrýnum augum,
þótt orðlaus stæði!
Sortnuðu Satan
sjónir af helpt,
svo þær megn mistu
móti hinum
forsmán at fleigja,
sem fegin vildu,
en ei at síðr
Abbadóna
með öflgri einurð
en eigi reiði,
þó með sorgar svip
fyri Satan stóð!
En Guðs óvinr
allra manna,
ok Satans einnig
Adramelek
hvæsanda hvopti
hvöt orð mælti,
af ofsa reiði
uppbólginn svo:
Ut af skelfanda
skruggu dymmviðri
vil ek, raga fól!
ræða við þik:
skal eitt ilskufullt
ofsa veðr
þeyta þèr í gegn
þrumu svörum!
Vesæll! þorir þú
þvílíkum með
svo at svívirða
svörum Guði?
skal einn af öndum
allra lægstu
dirfast úr djúpi,
sem hann dvelr í,
Satan mót' ok mèr
mun sinn brýna?

Nú ef nýstir þik
nokkr pína,
þá eru þánkar
þínir egin
þat sem pínir þik,
enir þýligu,
þú önnúngs ári,
ánauðgr þræll!
Flý, huglaus hèri!
hèðan á burt,
úr víðu veldi
vorrar stjórnar,
þar sem konúugar
kröptugir sitja!
dragst í djúp niðr
ok deildu þar!
Lát enn almáttka,
sem þú ástagast,
reisa þèr þar rikt
ríki kvala,
lif þar allan út
ódauðleik þinn!
enn þú dittir fyrr
dauðr niðr;
Dettu þá dauðr,
drepstu til falls,
teigðr ok beygðr
ok tilbiðjandi,
svosem þræll til þess
þjónustubundinn,
horfðu hvörvetna
til himins upp!
Heyr, herra Satan,
helvítis Guð!
þú sem vel þekktir
þinnar veru
göfugann guðdóm,
er á gimli varst
midt í mestu dýrð
meðal guða!
Hvör í heilagri
hugar bræði
enum almáttka,
opt nefndum svo,
með stórri djörfúng
stóðst á móti!
höfundr ótal
heima þeirra,
er um skamt skulu
skapast af þèr!
Kom þú, vèr viljum
vesældar púkum
arm vorn auglýsa
ógnarligann,
undrunarverðum
með athöfnum,
er þeim, sem þruma,
ok þat í einu
skulu brádt bilta
blindum um koll!
Kom, því kyndugar
króka götur,
ok dægra dvalir
dulinna slægða,
harla fjölflókuar
til fordjörfunar,
opna sik óðum
fyrir augum mèr!
I þeim er dauðinn
öllum saman,
enginn útgángr
nè opnar dyr,
engi leiðtogi
nè leiðslu þráðr
skal eunm anma,
sem vèr ofsækjum,
koma kvikum
útaf kvíum þeim!
Ok þótt hann slippi
frá slægðum vorum,
ok þó at þaðra
þú at tróni
veittir honum vit
voldugra guða
snörum vorum
til at sneiða hjá;
þá skulu skruggur
skyndiliga
með bráðum blossa
í bræði vorri

yfir hann augnar,
öldúngis hann
fyrir augum oss
einmidt deyða!
Sem voða veðr,
þat er vèr lètum
forðum færa tjón
enu farsæla
Guði geðþekka
góðmenni Jób,
rètt uppí opnum
augum himins!
Bölvun, bölvun!
þú hin bygða jörð!
vèr komum vorum
vopnum búnir,
helvíti ok heli —
þau heiti svo —
vei þeim er vill
í vorum heimi
oss á móti
uppreist gjöra!
Svo innti hinn illi
Adramelek;
fèlzt þá undir eins
með ofsa látum
svartr söfnuðr
á Satans mál,
allir orguðu
sem óðir væru!
Eins ok hrynjandi
háfjalla grjót
stöppuðu djöflar
sterkum fótum,
svo skalf hið skekna
skelfíngar flæmi,
strax sik stærandi
stigu þeir dans,
ok súngu af sigri,
sem þeir væntu,
með háum hljóðum
hræðiliga.
Allt frá uppgaungu
orguðu djöflar
stórum steðjandi
ok stefndu í vestr,
allr einum hug
ásetti nú
at myrða Messíam
múgr þessi.
Annan ógjörníng
eins ok þennan
endalaus eylífð
aldreigi sá
síðan skær skeði
sköpun hluta;
höfundar hans
frá heillum dæmdir,
illr Satan
ok Adramelek,
hlaðnir með heipt
ok hefndargirni,
í stórum þaunkum
stigu af tróni.
Glymr í sporum
grimdarfullum,
líkt skriðu skurki
skjálfanda fjalls;
kliðr af köllum
ok kætilátum,
þó dymt drynjandi
ok drúngaligr,
um sóma farar
ok um sigr-heil
veitti þeim vegfylgð
at vítis portum.
Abbadóna,
sá er einúngis
einn stóð sem áðr
óbifanligr,
lötraði líka
lángt á eptir,
at hann annathvört
meðr afeggjun
vondu vendt gæti
frá verki þeim,
eðr svo sæi
svívirðiligum
endalok
á ógjörníngi!

Nú hann nálægðist,
þó næsta seint,
viðr vítis port
varðhalds englum!
hvörsu varð þèr við
vesæll andi!
ó Abbadóna!
er hèr kendir
Abdíel engil
ósigrauliga?
Stórum stynr hann,
starir niðr,
ok ætlar ýmist
aptr at hörfa,
ýmist kappkostar
at komast nær,
eðr ok loksins
fyrir óþreyu
apsast einförum
afgeipa fram,
eitthvað útí
hið endalausa,
Stóð hann sturlaðr
um stund ok skalf,
uns hann sókti sik
sem hann mátti,
ok í einum svip
at honum gekk!
hart barðist hjartat
honum í brjósti;
stilt um hans kinnar
streymdi þau tár
sem englar einir
úthelt geta!
Djúpt dregin andvörp
frá döpru brjósti,
lángsamr hrollr,
þann líða megu
jafnvel eigi þeir,
sem á jörð deya,
harmþrúnginn hristu
hræðiliga
Abbadóna
í því hann gekk.
En sjón Abdíels
opin ok stilt
horfði hvörvetna
hvikul eigi,
heldr ófrávendt,
yðugliga
skoðandi, veröld
skaparans á,
þeim hann þjónaði
með þeli traustu,
enn hann sá ekki
Abbadóna!
Sem sól í æsku
ok sæll vordagr,
nær er niðr stèg
í naumast skaptrar
fagrt foldar skaut,
á frum-tíð hennar,
eins skein Abdíel,
en ekki þó
fyrir ángraðann
Abbadóna!
er hèldt einmana
andvarpandi
ferðum fram
ok fyrilitinn!
Þú ætlar þá svo
þik at draga,
Abdíel bróðir!
eylífliga
hèðan í frá
í hlè fyri mèr,
já, í eylífum
ærna fjarska
ætlar þú mik einn
at yfirgefa.
Syrgið mín vegna,
þèr synir ljóss!
at hann elskar mik
ekki framar!
æ! at eylífu
aldreigi meir!
æ! syrgið sárann
yfir sorg minni!
Fölnið, þèr lundar!
hvar forðum við

tídt í trúnaði
töluðum saman
um Guð ok ástsemd
okkar beggja,
þornið ok þverrið
þèr á himni
lystugu lækir,
þar sem lèkum við
hærstum himna gram
heiðrs saungva
í kærleiks faðmlögum
með klárri raust!
Æ mik aumann!
Abdíel bróðir
minn at eylífu
mèr er dáinn!
heyr þú, helvíti
heimili mitt,
myrkt ok mæðufullt!
móðir kvala,
eylíf nótt, örbyrg
af allri gleði!
syrg þú með mèr
at ek misti hann!
Náttligt nauða kvein
niðrstígi
frá þínum fjöllum,
felmtri mèr Guð!
æ mik aumann!
Abdíel bróðir
minn at eylífu
mèr er dáinn!
Svo sárt veinandi
sèr til hliðar
aleiðis snèri
Abbadóna,
ok stóð samstundis
ennar stóru Guðs
alheims byggíngar
hjá inngángi,
skelfðr af skini
ok skruggu flugi
þar gegnt gángandi
glaðra stjarna!
Heim eða himin
hátignarfullann
hafði hann ei sèð
hundrað ár mörg,
síðan í sínar
sokkinn eymdir
sik í einveru
innilukt hafði!
nú gaf hann gaum at
glöggt, ok mælti:
O at ek mætti,
æ sælu dyr!
um ykkr aptr
inn at gánga
voga Skaparans
veraldir í,
ok ei meir mínum
á myrkt ríki
fordæmíngar
fæti stíga!
Þèr skærn sólir,
sköpunar börn
ennar ágætu
óteljandi!
var ei þá þegar,
er þèr í fyrstu
komuð, af Guði
kallaðar, fram,
ek yðr fegri,
þó í öndverðu
ný-skríddum skarti
Skaparans handa?
En nú em ek hèr
útskúfaðr,
væunrar veraldar
viðrstygð orðinn,
minni fárs fullu
formyrkvun í;
ok þú, sem ek sè,
sæli himin!
nú fyrst skelfumst ek
af skoðun þinni.
Þar fèll ek fyrst,
er ek framdi þar
ennm eylífa
uppreist móti!

ok þú ódauðlig
unnar ró,
mín dýr dans-systir
í dal friðar!
hvað er nú orðit
af þèr síðan?
Minn strángr hegnir
í staðinn þín
nú ann mèr naumast,
at njóta megi
at eins undrunar
ángrsamrar
hans yfir hárri
heims byggíngu.
O! ef hann at eins
ávarpa þyrði
ek, án skelfíngar
skapara nafni,
hvörsu ljúfliga
lèti ek mèr kært
at forðast furðublídt
föðurs heiti,
sem hans sann-trún
Seraphim honum
sífeldt tilleggja
sonarliga?
Eigi vogar ek
útskúfaðr
þik at grátbæna,
þú hinn mikli
alheims eindæmir!
at í djúpi
aumkunar augum
álítir mik!
O feikna þánki
fullr kvala!
ok þú örvæntíng
óð ok vitstóla!
haldt fram harðúðng
helvítis norn!
haldt fram hóflausu
harðkvæla geisi!
O! hví em ek nú
aumr þannig?
æ! at ek meir
væri eingi til!
frekt sè þèr formælt
fyrsti dagr!
nær, at ske sköpun,
skipaði Guð,
er hann af austri
alvoldugr
útgekk í sinni
eylífu dýrð!
Já, þèr bið ek böls
beiskliga, dagr!
þá úngir englar
uppkváðu svo:
sjáið! svo ok er
sá vor bróðir!
ó móðir eymda
óendanligra,
eylífð! hví ólstu
þann óhapps dag?
Ok hafi hlotit
hann at verða,
hví hlóðst hann ekki
með hrygð ok dymmu
líkr eylífðar
enni lanngu nótt,
hvör með hreggviðri
ok heli, fyrir
þrumu þeytanda
þrengir sèr fram?
Hví var sá heillum
horfinn dagr
auðr ei
af öllum skepnum,
en með guðdóms grimd
ok geistri bölvun
þar þvert á móti
þúngt klifjaðr?
En í afgrunni
yfirgefnn
hvörjum hefir þú
hèr á móti
látið ljót geisa
löstunar orð?
fallið á mik fljótt
fögru sólir!

Hyljið mik himins
háu stjörnur!
þrauta-þjóstugri
fyri þess reiði,
er, sem eylífr
óvinr minn
ok harðr hegnir,
frá hefndar tróni
æ sendir á mik
ógnanir sínar!
Þú, sem í þínum
þúngu dómum
æ ert öldúngis
óblíðkanligr!
er endalausri
í eylífð þinni
nú ei meir neisti
nokkr af von?
Getr þá gjört sik
guðligann hegnir
um alla eylífð,
sá er áðr var
Skapari, Faðir
skepna sinna,
ok þeim mjög mildr
miskunnaði?
Æ! nú örvílnast
ek at nýu,
því ek Jehóvam
jós á lasti,
þann ek heiti hèt
enn heilaga,
sem sèr má eingi
syndugr, án
Meðalgaungu manns,
í munn taka!
Æ! ek flý undan!
ein nú þegar
öskrar álengðar
almáttug þruma
með ógn í gegnum
endalaust djúp!
ek mik — en þó hvört? —
undan hefi!
Hann at því hermdu,
heldr enn fram
fáráðu flugi
fast horfandi,
sinnu sviptr,
eins ok svefn óra,
ofaní afgrunns
hið auða rúm,
ok upp yfir sík
æpti þannig:
Tendra þá eld upp,
eld sem deyðir,
eld þann, sem anda
eyðileggr,
þú Guð, sem grandar
því er gjört hefir,
dómum ofmjög í
ógnandi Guð!
en þar kom enginn
eldr deyðandi,
því hvarf hann þaðan
ok þaut til baka
í hið vídt þanda
veraldar rúm!
Nú nam hann staðar
næsta móðr,
á hárri sól,
ok horfði þaðan
ofaní djúpin
allstaðar kríng;
streymdu þar straumar
á stjörnur ofan,
líkt sem logandi
legir væru.
Jafnsnart einn villr
jarðar hnöttur
þar at þokaðist,
er nú þegar rank,
allt kominn aðfram
undirgángs dómi;
á hann snarast ódt
Abbadóna
at hann ásamt með
undirgengi!
En þat fór fjærri,
at hann forgengi!

undirokaðr
eylífri sorg,
svamm hann sinnulaus
seint ok lengi
ok sökk um síðir
sígandi' á jörð!
  Þat var þvílíkast
þegar sökkur
harla höstum í
hauðr-skjálfta
feikna mikit fjall
fullt af beinum
þeirra sem þar
höfðu þrátt vegist!
  Nú var niðhöggr
ok næstr honum
Adramelek
komnir álciðis
at neðan nokkuð
nálægt jörðu,
gengu þeir geistir
gegnt hvör öðrum,
en þó hvör útaf
ok einir sèr!
  Leit þá lángt í hurt
liggjandi jörð,
en þótt ógjörla
Adramelek
augum öndverða,
þar hann ástefndi;
tók við sjálfan sik
svo til orða:
  „Hún er þá þetta"! —
en þánkar hans
brutust svo um
í brjósti grimmu
ok þreingðust hvör
um þverrann annann,
eins ok hafs öldr
við ægis hark,
þegar hann þik
frá þremr álfum,
Amerika
allfjærri! sleit. —
  Hún er þá þetta,
þar ek sjálfr,
alls ílls höfundr
einn skal ríkja,
svo fljótt sem mína
Satan fjærri,
eðr at Guði
yfirbuguðum,
ek hefir öllum
auglýsta dýrð!
  En hví einúngis
yfir henni?
hví þá ei allt eins
yfir hinum
skal ek stillis stjórn
stjörnum hafa,
er mik umhverfis
ollengi sælar
hlaupa hvörvetna
yfir himins vídd!
  Já, þá skal þaðra
þènari minn,
hinn dapri dauði
fara drepandi
einni stjörnu af
til annarar
allt til takmarka
tignar himins,
einmidt í augsýn
þess hins eylífa.
  Eigi einúngis,
eins ok Satan
skynsamar skepnur
skal ek myrða
um sinn einstakar,
þat er oflítit!
ó nei! allt í grunn,
ættir heilar,
skulu skjótt af mèr
undir skör minni
um koll kastaðar
krjúpa dupti.
  Missa munu þær
megn ok rænu,
saman engja sig,
sundr togna,

ok af kvöl emja
óþolanligri,
ok þegar þannig
þær sik engja
sundr ok saman
sárt emjandi,
slít ek við leiks lok
lífit af þeim.
Þá skal ek þaðra,
þar eða hèr
allglaðr yfir
unnum sigri,
horfandi á hèr sögð
handaverk mín,
sitja einn saman
ok sjá um heima!
Ok þú, náttúra!
nú af mèr þannig
þinna gjörð at gröf
gjörvallra skepna
uns þú fyriferst
af fúa sjálf,
þá skal ek þaðan
þína egin
glaðr með glotti
inní gröf horfa
óendanligrar
afgrunns dýptar!
Eðr ef betr
honum aðgeðjast
í hinna hroðnu
heima gröfum
skepnur enn aðrar
upp at reisa,
at þær eins af mèr
eyðileggist,
skal mik ei skorta
skaðsemd til þess!
Meðr almætti
mínu sem fyrr
læt ek þær leiddar
í ljóta villu
ok frá einni
til annrar stjörnu
umhverfis allt
fer ek aptr nú
drjúgum darkandi
ok drep þær niðr!
Þú Adramelek
ert þat sjálfr!
á at um síðir
auðnaðist þèr,
öndunum andlát
upp at finna;
há! sjálfann Satan
svo fengir kreukt,
at hann hjaðnaðr,
eins ok hègómi,
eintóm óvera
ok ekkert verði!
Hirð aldrei háðr
undir hans veldi
at vinna verk þat,
sem þèr verðugt er!
ó lát þat lukkast,
logandi andi,
þú sem ólgir í
Adramelek!
O! deyð andana!
ek þik særi!
annathvört eyð þeim,
eða' eyðst sjálfr,
já, sem hjóm hjaðna
heldr, ok vert
aldrei upp hèðann
andi nè vera,
enn at þú lifir
ok ei drottnir!
Já, hiklaust hyggst ek
at halda minn veg,
fer ek gagngjört,
ok guðdómliga
safna mèr saman
sèrhvörjum þánka,
sem skulu skapa
skaða ok dauða!
Nú er tími til
tvímælalaus
at fá framkvæmda
fyrirætlun,

sem er frá eylífð
innaubrjósts mèr,
nú þar Guð náir
á ný at vakna,
Ok sè ei sjálfr
Satan viltr,
sendir yfir oss
óvin nokkurn,
Meðalgaungu mann,
sem menn frelsi,
ok ræni oss ráðum
yfir ríki því,
sem vèr undir oss
unnit höfum!
En lát sem Satan
hafi satt talat,
má ok maðr sá
mestr vera
eptir Adams dag
allra Spámanna,
heiti Messías
hann eða Guð,
ekkert annat
skal hann afreka,
enn makt ok dýrð mína
meiri' at gjöra!
Ok hans algjörlig
eyðileggíng
skal mèr makligleiks
hvað mest afla
í augsýn allrar
anda mergðar,
helvítis hástól
til at hefjast á!
Eðr, hvörs þó er
af at vænta
mínum guðdómi
miklu heldr,
ok hvört afreksverk
eptir þik mun
framar til frægðar
fullgjört liggja,
þú ódauðligi
Adramelek!
þá ek fyrifer
framar honum,
sjálfum Satan,
at hann svo verði
frumgróði fánga,
sem ek fótum treð,
ok hvörs tortíníng
tilreiða skal
nafnfræg upptök
míns nýa ríkis,
at ek sem æðstr
einvalds herra
gjörvallra guða
megi gladt skína!
Hvörsu þúngt mun þèr
það eitt verða
vandalítit verk,
vesælíngs Satan!
at myrða Messíæ
manns líkama?
líflát hann at eins!
svo lítinn starfa
ek þèr eptirlæt
áðr þú drepst!
Enn sjálfr skal ek
sál hans deyða;
hennar tortíníng
tek ek at mèr!
þú mátt, þó mikla
mæðu kosti,
dauðligu dupti
dreifa sundr!
þannig sökkti sèr
svart-álfr andi
æstr af óðri
eptirlaungun
í ramt regin-djúp
ránghverfra þánka;
Guð heyrði geis hans,
sá er gegnum sèr
allt hið ókomna;
en hann þagði!
Dæstr af djúpum
drottunnar þaunkum
at sèr óvörum
Adramelek,

sem steinn stirðnaðr
stóð á skýi,
er honum undir
varð aldymm nótt.
Starandi stóð hann
ok streittist við,
glóandi glóðum
glíkr um enni,
mjög ófrýnn álits
ýgldr af grimd;
allt var íllúrligt
á ófreskjunni!
En skurk ok skarkali
skundandi jarðar,
sem nú með nóttu
nálægði sik,
fengu fljótt vakið
þann enn fordæmda
af svörtum svefni
svimaðra þánka;
Sveif hann svo aptr
í Satans fylgð;
stefna þeir nú strax
stríðir í gaungu
ok ofsafullir
at Olín-fjalli,
meinandi at mundu
Messíam þar
með hans handgengnum
hitta vinum.
Þannig steipa sèr
stríðs vagnar tveir
dauða hótandi
í dali niðr,
framm at foríngja
fjandmanna liðs,
nær hann án ótta
öruggr hvílir.
Fara fyri þeim
af fjöllum ofan,
þar sem dymt duna
darna þrumur,
með kopar klæddir
kappar rómu,
svo jörðin jálmar
fyri járna gný,
er þeir beint bruna
björg ok hamra;
þeir glymja, glamra,
grenja þrumum,
fara deyðandi,
fjarlægir þó;
eins var aðkoma
Adrameleks
ok andskotans
á Olíveti.

---

Hèr hefr

## Þriðju bók Messías.

Sæl sèrtu, jörð!
ek sè þik aptr,
þú mitt móðurland,
sem mik fæddir,
ok sem munt síðar
í svölu skauti
ljá mèr svefn-sæng
hjá sofendum Guðs,
byrgjandi bein mín
und' blæu mjúkri!
Þó þá hið fyrsta,
þess vonar ek
til míns elskuligs
Endrlausnara,

þegar um hann er
til enda loks
saminn sáttmálans
saungr nýa!
þá at því búnu
munu þessar fyrst,
er hinn elskanda
höfðu um súngit
mæltan mærðardikt,
mínar varir
ok augu þessi,
sem opt hans vegna
af gleði grètu,
gjör-lykja sik.
þá munu minna
mínir vinir
líkams leifa
legstað um kríng
með trega tölum,
tempruðum nærsta,
planta laurberja
ok pálma viðu;
Svo nær af ná-dúr
at nýu vakna
ummyndaðr ek
eptir himni,
ásýnd mín orðin
umbreitt ok skær,
komi klárum fram
af kyrðar lundi.
O, Síons saung-mær!
sem mik færðir
niðr til niflheims
ok nú til baka,
en skelfðann anda
hefir uppflutt minn
eginligra til
átthaga sinna;
þú sem einu af
augna tilliti
guðdómsins gefnu
gatst hið stránga
rèttlæti numið
röksemdar gjörn,
en þarhjá einnig
elskendum þess,
með bestu blíðu
brostir móti!
Send þú sál minni
sár-titrandi,
með því umkríngð er
af augsýn þess,
æðsta himin-ljóss
upplýsíngu,
ok fræð, sem fyrri,
framvegis hana
svo hún um Son Guðs
súngit fái
tilbeiðsluverðann
tignarlig ljóð!
I dymmum dvaldi
dauðra gröfum
Jesús einn
með Jóhannesi,
mjög dreifðra meðal
manna beina,
af nótt umkríngðr
ok af ná-skuggum
sat hann ok sjálfann
sik umþeinkti;
Já, um sik arfa
þess ens eylífa,
ok mann til andláts
ákvarðaðann;
fyri sjónum sèr
sá hann gjörvallar
manna misgjörðir,
mergð án tölu,
framhjá fara,
flýandi Guð;
Allar sem Adams
afkomendr,
frá því heimr hófst
höfðu drýgðar,
ok þær sem aldir
ókomnar þá,
miklum mun verri,
mundu fremja,
en midt á meðal
margfjölda slíks

var Satan sjálfr,
ok sást þar drottna!
Ut frá augliti
almáttugs Guðs
syndum saurgaðar
sveitir manna
rak hann með reiði,
svo þær riðluðust,
at hann til sjálfs sín
safnaði þeim.
Eins ok hafsvelgr
einn í norðri
þrá-þambar sjó
í þurrar fjörur
öllumegin at,
opinn hvörvetna
til at uppsloka
ok eyðileggja;
Osýniligr
undir skýum,
þar himin hallast
at heims skauti,
sogar hann sèrhvað
ok safnar til
ægis æ vissra
innbyggenda!
Sá Jesús syndir
ok Satan gjörla,
ok leit eptir þat
augum til Guðs,
Guð leit ok líka
með lund þúngri
aptr ofan
til arfa síns!
Brauzt fram at vísu
bistr dómr
út af augum hans
alvörufullum,
þó sem sígandi
ok með seinlæti;
Guð sendi' at sönnu,
samt í fjarska,
til at skelfa hann
skruggur sínar!
En ei at síðr
í ásýnd Föðurs
sáust enn eptir
einhvör merki,
sem neisti nokkr,
eða náðar teikn
ósegjanligrar
ástar brosa!
Seraphim segja,
at sjálfum hafi
eylífum Föður
þá í annat sinn
tignar-tær dropit
tár af augum,
þó sem þegjandi
í þeli hljóðu!
Fyrra sinn feldi
Faðirinn tár,
þegar bist bölvun
hall á Aðam,
svo þau einnig sjálf
á sik litu;
með sómasemi
sabbats-helgar
niðr hneigði sik
náttúran öll.
Virðíngarfullr
með væntandi bið
stóð við hinn stóri
stjarna geimr,
ok með undrandi
athuga sjón
fór Cherúb feilinn
framhjá báðum;
hafandi hæg ský
til at hylja sik!
Einnig ofan stèg
Elóa Seraph
á hauðr, hulinn
himneskum skýum,
ok sá augliti
til auglitis
Messíam gráta
manneskju tárum!
taldi trúr engill
tár Jesú öll,

ok stèg eptir þat
upp til himins.
Jóhannes sá hann
af jörð faranda,
opnaði Jesús
augu hans svo,
sá hann Seraph,
ok af sjón þeirri
fèll feikna djúpa
forundrun í!
Allr innan brjósts
upptendraðr
umfaðmar hann
ok andvarpandi
lýsir Lávarð sinn
Lausnara Guð;
já, svo Jóhannes
Jesum nefndi
ósegjanligum
meðr andvörpum
ok var hjá honum
í hýrum faðmi;
En hinir aðrir
ellefu sveinar,
sem Jesú sjónar
söknuðu lengi
reikuðu' í rökkri
við rætr fjalls
með hryggvum huga
hans leitandi;
At undanteknum
einum þeirra,
er nú ekki meir
elskaði Jesum,
svo heitt sem hinir,
var hópr sá
hreinn í framferði
ok frómhjartaðr.
Hæð ok guðdómleik
hjartna þeirra
þekktu þessir menn
þó eigi sjálfir!
Guði, sem gaf,
var þat gjör kunnugt,
sem hafði samit
sálir þeirra,
til at sjá síðar
á sinni tíð
þess ens eylífa
opinberanir!
Þó ei þess eina
þeirra' á meðal,
jafnt við annara
Júdasar sál,
sem, sízt verðugr
at í sveit væri
himins lærlínga,
sinn Lávarð sveik!
ella hefði hann
hinum ei minnr
Guðs vísdómsfullar
vitranir sèð!
Því at áðr enn
innilukist
sál hans dauðligs dupts
í dymmum ham,
tólf tígugligir
voru tilvaldir
Guðs á gimli
glæstum stólar.
Stólum öldúnga
stóðu þeir næst
tvennra tólf
í tign á himnum,
af gulli gjörvir
glönsuðu þeir;
en einusinni
varð einn þeirra
af skugga skýi
skýlu falinn!
En brátt burtflugu
byrgjandi ský,
ok upphófst aptr
eylífr ljómi,
geisla gefandi,
útaf glæstum stól,
hrópar Elóa
hátt ok mælti:
hann er frá honum
hèðan af tekinn,

ok gefinn aptr
öðrum betra!
Verndendr sveina
varð-englar tólf,
sem gæta jarðar
undir Gabríels
athugasamri
yfirboðun,
uppstigu á hæðir
Olíu fjalls.
Ok þar at gættu
ósýniligir
ástsamligustu
meðr ánægju
leiksveina sína,
er með söknuði
ok grátnu geði
guðdómligs síns
lengi leituðu
Lærimeistara!
Sveif þá frá sólu
Seraph nokkr
fljúgandi fótum
í flokk þeirra,
hradt sem hugr manns,
ok hjá þeim stóð,
útkjörinn engill
einn af fjórum,
sem umráð eigu
Uríel næst;
sá hèt Selja,
ok sagði hinum:
Heyrið, hermið mèr,
himnesku vinir!
hvar er hann?
á hvörjum mörkum
heldr hann sik nú,
ok hvar mun ek
Messíam mikla
meiga finna?
Sælar sendu mik
sálir feðra;
honum skal ek hægt
við hönd fylgja
guðdómligum á
gáng-stigum hans;
ok með gaumgæfni
gjörvöllum hyggja,
enni mjök miklu
manna frelsun
viðvíkjandi,
verkum hans at!
Ekkert heilagt orð,
ekkert hug-gæzku
andvarp eðr stun
eitt hið minsta
ódauðligum hans
útaf munni
skal af mèr óheyrt
undanfellast!
Engin hræríng hans
huggunar augna,
ei eitt einasta
allra hans tára,
tal-lausra tára
enna trúföstu,
Guðmanns veru vel
verðugra tára
skal svo sýna sik,
at sjái' ek ei
í hans góðgjörnu
guðdóms augum!
Æ! allt of snemma
fyrir augum, jörð!
drógstu hèr í hlè
heilagra feðra
fjall-folda þinna
ena fegurstu,
hvar í manndóms mynd
máttugr Guð
umgengst, ok offr
fram at altari
færir sjálfan sik
sáttargjörðar!
Helzt til fljótt flýr þú
fyri degi,
ok frá Uríels
auglitis dýrð,
sem nú Salems
með sínum gylla

andlætis álfur
ítrn geislum;
Enginn umskiptis
er þar dalr,
engin aldin-mörk,
þótt uppvakni,
þeim nú þægilig,
því at ekki
Messías dvelr
hinn mikli þar!
Selja þagnar,
svarar honum
Seraph Oríon
Símonar vörður:
hygg at hèr niðri,
himneski vin!
þar grafir gína
grátligar næsta,
orpnar undir fót
Olíu fjalls,
stendr Messías
stór í þaunkum!
Selja sá hann,
ok sèr frá numinn
stóð nú starandi
í stilltri furðu
um lygnt lágnætti,
lètt fleygar tvær
yfir höfuð hans
höfðu stundir
þotið, þegar hann
þar enn nú stóð!
I sama svifi
kom enn síðarsti
at Jesú augum
ómeingr blundr;
hradt flaug heilög ró
frá himnum ofan
í súg svalanda
send af Guði,
út frá hans egin-
allrahelgasta
mjúkum dömpum með
yfir Messíam!
Jesús sofnaði,
ok jafnsnart venді
Selja sèr
til samkomunnar;
gaf hann sik midt inn
meðal hinna,
ok talar til þeirra
í trúnaði svo:
Heyrið, hermið mèr,
himneskir vinir!
hvörjir munu menn,
sem á myrkvum vang
harmandi hvarfla
hèr fyri neðan,
sem einstæðíngar
yfirgefnir?
Sjáið, hvörsu hrygð
hjartnæm byrgir,
en þó yfrit stillt,
andlit þeirra,
án þess at hún þó
afmyndi þau!
svo í gegnum sorg
sik útþrykkir
háprúðr hugr
hreldra brjósta.
Harma þeir máske
hjartkærann einn
andaðann ástvin,
þann er átt höfðu,
mann þeim mjök líkann
í manndygðum?
orðum Oríon
ansaði hans:
Hefir þú hèr sèð
ena helgu tólf,
Selja! sveina,
er sjálfr Jesús
tók sèr tilkjörna
trúnaðar menn!
ó hvað ypparlig
er vor sæla,
þar oss þeim hefir
þeirra meistari
valit til vina
ok verndar engla!

Sífeldt sjáum við
hve með sætustu
bræðralags blíðu
birtir hann þeim
gjörvalt geð sitt
ok guðligt hjarta!
hvörsu ágæt er
uppfræðíng hans!
Hve þeim hann ýmist
háleitri með
krapta kenníngu
kunnann gjörir
lykil ok leið
at leyndardómum;
eðr þik ok svo
ódauðlig dygð!
með eptirmyndun
mannligra hluta
tjáir títt ljósar
ok tilfinnanligar;
Svo hann smám saman
sveina hjörtu
klökk ok leiðanlig
lagat fái,
ok undirbúit
til hins eylífa;
hve hátt ok mikið
hèr lærum vèr!
Hvörsu hvetr hans
heilaga dæmi
oss til athuga
ok eptirtektar,
honum trúliga
með tilbeiðslu
í öllum efnum
eptir at fylgja.
Ef þú hann ok hans
hegðun guðliga;
ef hans framferði,
Föður eylífum
svo vel verðugt
ok svo vegsamligt,
Selja! sæir
sjálfr daglíga,
brádt þèr í brjósti
mundi bráðna negg
af hans upptendrat
yfirvegun!
Indælt er ogsvo
á at heyra,
eins ódauðligum
þó í eyrum sè,
hans hjartans vina
hugljúfar ræður,
er þeir innbyrðis
um hann tala!
Svo sem vèr, Seraph!
meðal sjálfra vor
elskum hvör annann
ástúðliga,
eins þeir af alhug
elska Jesúm,
enginn er þeim svo
ástkær sem hann!
Ek þat optsinnis
opinberliga
sagt á samkomum,
Selja! hefi,
ok því, sem áðr,
afdráttarlaust
enn ítrekuðu
yfirlýsi:
Opt óskar ek mèr
inniliga,
at ek einn væri
Adams sona,
já, ok dauðligr
jafnvel, sem þeir,
ef þat án syndar
orðit gæti.
Ek mundi máske
Messíam þá
tigna trúligar
ok tjá honum,
bróður bornum
af blóði sama
ok holdi, hug-ást
miklu heitari.
O hve mjök hrærðr
af hans elsku

mundi ek glað-geðja
gjarnan vilja
láta lífit
til lofs mínum
ok dýrðar Drottni,
sem dáit hefði
fús fyri mik
at fyrra bragði.
Midt í blóð-baði
bráðheitasta,
er sjálfs míns dreyri
saklaus rinni,
vildi' ek vegsama
vafalaust hann,
sem bezt ok blíðast,
at brostnum augum.
Mín andvörp mundu
magnlítil þó,
ok dauft dauða-stam
dugvana túngu
guðdóms eyrum í
eins skært hljóma
ok heilags Elóæ
en háu ljóð,
er glæstum gengr
hjá Guðs tróni!
Min þá af þinni,
eða þessara
einhvörs, Selja!
ósèðri mund
yrðu aptrlukt
augu brostin,
ok mín útflogin
önd af dupti
frelsuð ok friðuð
yrði flutt af þèr
allt at hástóli
ens Almáttuga!
Svarar Selja:
hvörsu sèrliga
hefir þú hrært mik,
ok hvörsu mjög
inntekr ósk þín
allt mitt hjarta,
at þú eirneginn
Adams værir
af blóði borinn,
bróðir manna!
Þessir eru þá,
sem þar gánga
á hauðri lágu
enir helgu tólf
Meðalgángarans
mæta-vinir;
hvílíkir háir
höfuðenglar
ákaft óska sèr
einnig at vera,
já, ok dauðligir
jafnvel, sem þeir!
Sælir sèuð þèr!
sannliga þess
eruð þèr ogsvo
allmakligir,
þvíat yðr ann
Endrlausnarinn,
þèr ódauðligu!
eins ok bræðrum!
Glæstum munuð þèr
gull-stólum á
síðar sitjandi
sjálfum yðar,
nær í dýrð drottnar,
dæma gjörvalla
jarðar kringlunna
jöfri meðr!
Hermið mèr heilög
heiti þeirra,
sælu Seraphim!
þvíat sannliga
tíðir mik nöfn þau
tjáð at heyra,
sem á lífsins ljóst
fyrir laungu bók
ljómandi línum
letruð standa!
Nefnið mèr þann nú,
sem nákvæmliga
lífligum augum
lítandi' um kríng

Símon Pètur

skygnist um skóga
skuggafulla
eptir einhvörju
óþolinmóðr,
ekki ólíkligt,
eptir Jesú!
Otvílráð einurð
ok ötul dirfska
eru augljósar
í ásynd hans;
einlægt innir hún
allt frá grunni
þat sem hans þenkir
þelfróma sál,
vakin af valdi
viðkvæms hjarta!
Svarar Oríon
Seljæ máli:
sá er, segir hann,
Símon Pètr,
einn hinna helztu
í hóp þessum;
hefir mildr mik
Meðalgángarinn
valit at vera
varðengil hans!
svo er sem mæltir
sá minn vinr.
Ef þú ásamt mèr
altíð sæir
hann í hvörskonar
hegðun sinni,
fylgð ok fèlagskap
Frelsarans í,
honum heyranda
hjartanliga.
Eins þá honum hann
eigi hjástaddr
annarstaðar er
af mèr leiddr,
ok í önd hefir
Innblástr minn
gegnum glaðann svöfu,
er um Guð dreymir.
Ef þú, Seraph sælt!
sæir hann þá,
mundir hjarta hans
ok hugrenníngar
full af trúfesti
ok tilfinníngu
þú enn gjör greina,
at guðdómligt sè!
Sem nú nýliga
nokkru sinni
frètti Frelsarinn
fróma sveina,
hvör þeir helzt meintu
at hann væri,
þá sagði þessi:
þú ert Kristur,
lofligr Sonur
lifanda Guðs!
Ok sem hann, Seraph!
sagði þetta,
grèt hann af gleði,
ok vèr grètum með
þessum lærlíngi
lukkusama,
er hann fyri' ekka
ok af andvörpum
varla gat þat vel
frá vörum stamat!
Æ! at einasta
ekki hefði
heyrt ek af herrans
heilögum munni
til Pètrs töluð
táraverð orð:
þú munt mèr þrisvar
þvert afneita!
Hvað hermduð þið mèr
hryggilig orð?
seg, heyrðir sjálfr,
Símon bróðir!
þá þau, ok hvílík
við þeirra heyrn
hræríng hreifði sèr
í hjarta þínu?
þú sagðir, Símon!
at sönnu djarft,

at honum aldrei
skyldir afneita
þínum Frelsara,
þínum Guði,
enn Jesús aptr
innti hið sama!
Æ! ef þú vissir,
ástkæri vin!
hvörsu hjarta mitt
af hrygð bráðnar,
nær þar til þenkir,
þú dæir fyrr,
enn at þenna þinn
þú hinn besta,
traustasta' ok stærsta
trúnaðar vin,
svo mis-meðkendir
mínkunarliga!
Þèr er þó kunnugt,
hvörsu þik Jesús
af heitu hjarta
hefir kæranu,
ok sjálfr sástu,
hvörsu sárliga
hans ást-holl augu
orð þessi við
með trygðar tárum
til þín litu!
nei, svo nýðsliga
neitar aldrei
sjálfs síns lávarði
Símon Pètr!
Hlýddi Selja
til hans ræðu,
aumkunar úngr
engilinn greip;
ónei, Oríon!
ypparligi! —
svo hann svaraði —
síðr enn ekki
mun hann megin-vin
mann-hollustum
ok ódauðligum
afneita svo
lítilmannliga,
þat er lángt fjærri!
Horf at eins á hann
athugandi
hvörsu frómt hjarta
hèr vottar sik,
ok hvör einlægni
stendr afmáluð
í ásýnd þessi
útþrykkiliga!
En hvör er hinn,
sem um hraustliga
ásýnð ok enni
útbreidda sýnir
ákefð eld-heita
til ítrar dygðar,
til ljótra lasta
leiða ok fíóu,
ok sár-reidt sinni
eigi sveigjanligt
glæpa þrælum gegn,
sem Guði neita.
Er sá ei sannr
Símonar vinr,
ó hvað honum er
um þann hugat!
því þótt hann væri
þessa bróðir,
mætti víst eigi
mjúkligar hann
eðr vinveittar
við hann breita!
Sipha svaraði:
þú sagðir rètt —
var hann varðengill
vinar Pètrs —
sá er þú umgast
heitir Andreas,
samborinn, Seraph!
Símonar bróðir.
Uxu þeir ásamt
úngir baðir;
Oríon ok ek
uppfóstruðum
sálir sveinanna
samvistum í

æ með umsorgun
alúðarfullri.
Svo ekkert ábar
optliga þá,
á meðan mjúklát
móðir þeirra
syni sína bar
sèr í fángi,
lèt ek lagaðann
minn litla svein
algjörðari til
elsku þeirrar,
sem hann síðar
á sínum tíma
miklum Messíæ
mundi helga!
Þegar kallaði
þennann í fylgð
Jesús við Jórdan,
var hann Jóhannis
undirvísunar
einn af sveinum;
athugasömum
fyrir eyrum hans
um komu Messíæ
klíngðu ræður.
Ek sá Andream,
þegar arfi Guðs
heimti handgengnum
hann at sveini,
gegnumgángandi
með guðdóms sjón,
ok blíðri elsku
blessunarfullri,
eldi gnðligum
öflugt knúðr
mjög skundar móts við
Messíam hann!
Lagði nú orð til
Líbaníel,
fagr Philippí
forsvars engill:
sá er sèr þú
himim samrýndann
friðsemdarfullum
fèlagskap í
er Philippus
minn fóstr-sonur.
Myndar mildiligt
mannelskn bros
í hans andliti
allar línur;
óveil ástundun,
eins ok bræðr
einlægt at elska
alla, sem sköp
eptir egin-mynd
hinn almáttugi,
hans er gjörnust girnd
guðligs hjarta.
Einnig hefir hann
hærstr skapari
gæddann með gáfu
geðfeldrar mjög
ok ríkugligrar
ræðu snildar,
eins ok dögg drýpr
at dags morgni
hvörvetna holl
af Hermon niðr;
Eðr sem ágætt
olín-trè
andar út af sèr
ilmandi dampa,
svo rennr ræða
rósöm ok mjúk
frábærs Philippí
fram af vörum.
Enn kvað Selja:
inuið mèr, hvör
sá er, sem meðal
cedrus trjánna
gengr uppeptir
allseinliga,
á hans andliti
ok yfirbragði
frægðar göfug girnd
glóandi skín.
Er hann öldúngis
eins í gaungu,

ok einn af hinum
ódauðligu,
er sínar yðnir
ok ágæt verk
öldum helga,
sem eptirkoma,
svo at barna-börn
bera munu
til barna-barna
þeirra blessuð nöfn,
Já, ei einúngis
er hinn frægi
lofstýr þeirra
við láð bundinn;
utan ummerkja
ok ævarandi
streymir frá stjörnu
til stjörnu hann!
Ok ef yðu þeirra
ein var helzta
um Guð at gala
ok um guðdómsins
voldugu vegu
verðuga saungva,
vel þèr vitið,
vegligir englar!
hvörsu hróðr þann
á himnum vèr
af oss framfluttann
frægann gjörum!
Ansar Adóna
engill hèr til:
Jacob heitir hann,
er þú hèr lítr,
sá eð er sonur
Zebedæi;
öll hins óðspaka
æru-girni
á guðlig efni
einúngis stundar.
A enu mikla
allsherjar þíngi,
þá dauðar dróttir
til dóms vakna,
eptir úrskurði
þess hins eylífa
yfrit stránga Guðs
ok hans smurða,
at vera verðugr
vegs ok æru,
er þat háa hnoss
sem hann stundar!
Sèrhvör sá heiðr,
sem er þessum
mikla makligleik
minna háttar,
væri vanheiðr,
en virðíng eingin
hans guðdómliga
göfugu sál!
Jafnsnart Jacob sèr
Jesúm gánga,
hraðr skundar hann
honum á móti,
útaf ánægju
svo sem öl-drukkinn,
eins ok hann æðstum
eylífðar tróni
frammi fyrir
fagni honum!
Til hans leit ek
á Tabors fjalli,
er þar sýndu sik
sendimenn Guðs,
Elías aldni,
ok ásamt honum
Móses hinn mikli
Messíæ vorum!
Sjá þú! sól-fögrum
sik með skýum
huldi himininn
ok hvörn þeirra;
framfór Messíæ
forklárun þar;
eins var andlit hans
á at líta,
ok sólin sjálf,
nær sendir geisla
hún um hádegi
yfir heim allan.

Urðu klæði hans
sem klárt silfr,
ljómandi lángt frá,
eins ok ljóss væri,
skundar þá Jacob
ok skjótr var
eins ok Aaron
æðsti prestr.
Þá er þessi gekk,
þó með flýti,
inní Alföðurs
allrahelgasta,
svo hann sik Guði,
sáttmálans örk,
nálægði nú
ok náðarstóli.
Svo fór Jacob fljótt
sakir feginleiks
af æru slíkrar
opinberunar,
sem Guð hann setti
sjónar vott at,
skjótr skundar hann
at skoðun dýrðar.
Af hóp heilögum
hèr sèðra tólf,
er hann frægðarfús
frumburðr þeirra,
sem prýðast munu
píslarvætti,
finnst þat fyrisagt
í forsjónar skrám.
Akvarðat er þat,
at hann skuli
brádt á breiðara
ok betra miklu
sjónarplátsi sjást
sigrihrósandi
ennar ókomnu
eylífðar rúms,
svo hann seðji þar
sífeldliga
síns eylífs anda
eptirlaungun.
Símon, er þú sèr
sitjanda þar,
kallast ok kennist
Kananíte —
mælti varðengill
Megiddo hans —
var í Saron sá
sauða hyrðir.
Jesús heimti hann
hjarðar beit frá;
hans hrekkjalaus
ok hóglát breitni,
ok einföld auðmýkt,
sem hann auglýsti
í þægri þjónkun
þrávallt honum,
hneigði fast til hans
hjarta Jesú!
Því hann eitt sinn
á þúngri gaungu
bar at húsi hans,
var hinn til reiðu
at slátra úngu
ali-lambi;
lèt hann sèr annt um
athjúkrun gests!
Þar stóð þjónandi
þeim sem neytti
Símon sakleysi
sínu prýddr,
bæði bæ ok sèr
blessun spáði,
þar Guðs spámaðr
gistíngu þág!
Jesús neytti nú
nefndrar fæðu
eins með ánægju,
sem á eldri tíð,
er hann ásamt með
englum tveimr
ok með Abraham
át í Mamre!
Kom þú ok fylg mèr,
Kananítes! —
Jesús sagði svo
til Símonar —

lát samlags sveinum
sauða hjörð eptir!
ek er sá sami,
er súngit var um
engla sveitum af,
sem úngr heyrðir,
við brunn Betlehems,
þá ek barn fæddist!
Adóram engill
orð tillagði:
hèr sèr ek hugljúf
hjartkærann minn;
er þat Alphæi
arfi Jacob;
sjáið, svo heitir
sá þar gengr!
Auglýsir andlit
alvörugefit
dygð, sem er dulin
undir djúpri þögn,
manndygð, sem mælir
miklu færra
enn þat sem æfir
í athöfnum!
þótt hinn eylífi
þekti hann at eins,
en þótt hann öllum
væri ókendr
frá öld til aldar
alda sonum,
ok þótt ei vissum
af honum vèr,
mundi' hann æ yðka
öngvu að síðr
án orðróms launa
ágæta dygð!
Umbíel engill
enn framar kvað:
þessi, sem þar er
þánkafullr,
dymmum dveljandi
djúpt í skógi,
er Tómas trúi,
tvíburi nefndr,
ötull, andríkr,
einn þeirra tólf!
Aflar andi hans
yðugliga
eins þánka af öðrum,
svo hann optliga
ei sèr út fyrir
enda þeirra,
þá er þeir sem haf
þenja sik út,
furðu frjófsamir
fyrir honum!
Allskjótt hefði hann
hörmuliga
tapat sjálfum sèr
saducæiska
í dymmra ok dapra
drauma byggíngu;
hefðu honum ei
hjálpat þar frá
Jesú voldugu
jarðteikna gjörðir!
Illar afgötur
yfirgaf hann,
margflókna möskva
myrkrar villu
lèt hann sik loksins
losaðann við,
ok kom kallaðr
kenslu-sveinn Jesú!
þó mundi ek optar
ást-blandinn kvíða
í brjósti bera
fyri breiskleik hans,
nema náttúran
nærgætin hefði
þessari þannig
þenkjandi sál
fengit frómt hjarta
fullt af dygðum!
Hinn er Matthæus,
handgenginn einn —
mælti Bildai —
Messíæ sveina,
sá við vellystíng
var í skauti

fjáðra foreldra
fóstraðr upp!
Ok ótèrligar
umsýslanir
jafnframt viðvandist
vell-auðugra,
þeir at gjör-gleymdum
enum göfuga
og ódauðligum
anda sínum
aldrei seðja sik,
þó samandragi,
sem undir eylífð
aura jarðar.
En knálig andans
knýandi lyst
hóf sik undir eins
í hans *brjósti*,
ok hann á Jesú
auga-stað fèkk,
mildr Messías
Matthæum varla
æstandi orði
hafði ávarpat
fyrr enn hann fór
í fylgð með honum!
Allar aunir
ok umsýslanir,
sem honum höfðu
híngat til þrykkt
nærsta níðsliga
niðr til jarðar,
skepnum skynlausum
skilr hann eptir
Svo frá sæl-lífum
sèr einn lausum
kappi kippir burt
kónga dætrum,
nær til bardaga
blóðugr dauði
fyri föðurland
framkallar hann!
Framar enn orðstýr
ævarandi
kallar sakleysis
kröptuga raust,
hann á víg-völl
þar voldugastr
stríðsherra stendr,
hinn sterki Guð,
sem hina seku
selr í hendr
talda til hefndar
týnðum dauða!
Fólkið frelsaða
fagnandi því
mun heiðra hetju
ok honum þakka
röskligt ok rèttvíst
rómu starf hans,
ok þótt henda hann
midt í helslagi
meigi mein nokkurt
manneskjuligt,
viljum vèr hrós hans
himna jöfri
frambera fyri
með fögrum saung.
Sjóna Seraph
sagði framar:
sá sem þar hefir
silfr-grátt hár,
gæft ok góðfúsligt
gamalmenni
er, mèr sem brjóst-barn,
Bartholomæus!
Alít andlit hans,
hve þat inntekr
fullt af frómleiksins
fagri blíðu;
geymist þar gjarna
guðdómlig dygð,
ok á þar bústað
eginligann.
Hennar straung hegðun,
þegar hún verðr
fyri fjöld manna
í frammi höfð,
æ mun álítast
elskuverðugri;

þú munt víst mörgum,
maðr gamli!
Jesú játendum
á jörð safna!
þeir munu þína,
er þar at kemr,
ærit undrandi
endalykt sjá,
er mitt í döprum
dauðans sveita
bana menn bæði
ok bræður þína,
sem úngr engill
uppá brosir!
þurkið meðr mèr
mektugu kraptar!
himins hirðsveita,
þegar hann andast,
af hans ásjónu
ósekanu dreyra,
svo at sjá megi
söfnuðir allir
hans kærleiksfullu
kveðjandi bros,
ok síðan snúi
sèr til Jesúm!
Tók nú til orða
tíginn Elim:
þessi, sem þar er
þögull ok fölur
lærisveinn Lávarðs
heitir Lebbæus,
minn enn útvaldi
ástfólginn mèr!
Eins blíð-brjóstaðir
ok bljúgir af
trú-hjartanligri
tilfinníngu,
sem eus ljúflynda
Lebbæi sál,
finnast fáir
meðal fold-skaptra!
Heimta hefir ek
hana í fyrstu
útaf öræfum,
þar andir manna,
at enn ófæddum
íbúðar ham,
sveima, sjálfum þá
sèr ókendar!
Hitt fèkk ek hana
í hrjóstrum þaðra
viðr lindar læk
líðanda' um dal,
sem lèt líkt í
lángt til at heyra,
ok þá fjöldi fólks
fjærri grætr.
Forðum fèkk þar,
at frásögn engla,
hinn sífeldt sokkni
Seraph í hrygð
Abbadóna
eitt sinn grátit,
útaf Eðen
þegar aptr kom,
er hann þar hafði
helgu rænda
mæðra móður
meinleysi sèð!
Svo ek Seraphim,
sem þèr vitið,
optsinnis aumka
andir þær hèr,
hvörjum þá hafði
hærstr Drottinn
valit til verndar
ok til vináttu!
Hvörjar á hauðri
heilaga fyrst
ítru sakleysi
æsku krýna,
en munu á eptir
upphaf þetta
guðligs athæfis
glæpum saurga;
æ mjög ógnarlig
endalok þær
af löstum lýttar
munu loks hreppa!

þessar eru þat,
sem því valda,
at með andvörpum
ástar himneskrar
bróðrligum
áðr bárust þær
á óhapps tíma,
ok með tárum
ógrátanligum
fyrir alla menn
syrgja Seraphim
ok sárt klaga!
A sögðu svæði
enu sorgliga
fann ek í fyrstu
fóstr barn þetta
ens kæra lærlíngs
Lebbæi sál,
án ráðs, reifaða
róligu skýi.
Við sí-saunglandi
sorgar óma
þannig varð hún vör
meðr veikligri
ok ei tíð tamri
tilfinníngu,
sem nú útslökkt er,
meðan öflugra
skynbragð skamtat
af skilníngarvitum
hefir í henni
herra-vald sitt!
En mun um síðir
endrvakna
ok þá víst verða
verkunar knárri,
er loksins líðr
út af líkama
sálin sveipuð
í sællra ljósi.
Þó hafði þessi
þannig döpur
ok tæp tilfinníng
tvistra radda
krapt til at koma
á kyrráta sál
míns ljúfa Lebbæi
lögun fyrstu!
Ek fór með fund minn
eigi flasliga
heldr mjög mjúkt
í morgun-skýa
lètt líðanda
leiddan skauti
til síns dauðliga
dupt-herbergis!
Fæddi móður mög
undir meið' pálma,
en ek kom ofan
ósýniligr
frá trèsins toppi
tídt rymjanda,
ok með hífligum
lopt blæ sem fyrst
úngann svein
endrnærði.
En hann æpti strax
öðrum meira
dauðligum börnum,
sem dymmri mjög
með tilfinníngu
taka þegar
at kenna komu
ens kalda dauða
álengðar áðr
enn yfirfellr!
Svo tæmdust tímar
tvistrar æsku
at hjartat hrærðist
af hvörju tári
veikt ok viðkvæmt,
sem vinir feldu,
ok hvört minnsta mein,
sem at mönnum gekk,
særnaði sál hans
sem hans egit;
já, hjá Jesú
er hann jafnan svo.
Hvörsu mjög er mèr,
mæti vinr!

þúngt í þánka
fyri þína skuld!
þú munt af eymdar
ofr megni
til jarðar hníga,
þegar Jesús deyr!
Styrk hann, ó Jesú!
æ styrk hann þá,
miskunar-mildi
Mann-lausnari!
veittu honum hjálp
huggunarríka,
at hann þá ekki
útaf deyi!
Sjáið, hann sveimar
sjálfr híngat
upp til vor
með ángrsemi,
ok þúngum þaunkum
þrá-reikandi;
svo kantu Seraph!
at sjá hann gjör,
ok frá augliti
til auglitis
gefa gætr at
góðmennis sál!
Aðr enn Elim
hafði úttalat
midt kom Lebbæus
meðal þeirra;
hann var hæglátr
ok hljóðr mjög,
svo hann ei var varð,
viku til síðu
dýrðligar verur
fyri dauðligri!
Svo dreifir sundr
sèr á vori
loptið líffulla,
ok lætr undan
fyri mæðu raust
móðrligri,
nær um neyð kvartar,
næturgala!
Englar umkríngðu
ósèðir hann
í miðju staddann,
eins ok mann hríngr,
stóðu þeir stiltir
á storð auðri
af elsku fullir
inniligustu.
Lebbæus meinti,
þar hann leit öngvann,
at skepna engin
af sèr vissi,
hann sló hjarta-sár
með harma kveini
höndum saman
yfir höfði sèr!
Ek fer forgefins,
finn hann hvörgi;
svo er sár liðinn
sorgar dagr,
ok nú tvær nætr
nær því heilar,
at hann augu vor
ei hafa sèð!
Já, hans illgjarnir
ofsóknarmenn
hafa loksins hann
höndum tekið;
æ! get ek aumr
ok einmana
at Jesú dánum
á jörð lifat?
Mikli Guðmaðr
Meðalgángari!
hafa grátliga
glæpugir menn,
svo ek sá ekki,
svipt þik lífi!
eigi hefir ek
augu þín hærst
nákvæmri nábjörg
náð at lykja.
Dyljið ei, dólgar!
hvar þèr deydduð hann,
í hvör öræfi
eð' auð hrjóstr,

til hvörra hræa
enna helslegnu
færðuð þèr hann
nær fjöri sviptuð?
Hvar liggr hold þitt,
heilagi vin!
já, blár ok bleikr
ok blóði storkinn,
hýrrar hug-ástar
himneskum brosum,
ok allri miskun
augna þinna
rænt morðíngjum
ránglátum af
liggr þú nú lík
meðal liðinna!
En öngvum veittist
ástvina þinna
at sjá þitt andlát
meðan yfirstóð!
ó! at harmi hrjáð
hjarta þetta
ei hrærðist optar
innan brjósts mèr!
O! at minn andi
til ángrs skaptr,
sem skuggafullr
ský-flóki þessi,
ditti djúpt niðr
undir dauðans nótt!
ó! lægi ek látit
lík ok svæfi!
Hann þuldi þannig
þrúnginn af sorg,
ok datt í dá
ok dvala niðr,
en Elim breiddi
olín três
í hlè yfir hann
úngar greinir!
Þar með undir eins
á andlit hans
bliknat blása lèt
blæ vermanda,
ok út jós lífi
ósýniligr
yfir höfuð hans
með hægum svefni!
Sveininn sofnaðr
sá í draumi
engils völdum af
fyrir augum sèr
um láð á lífi
Lausnarann gánga,
styrkti huga hans
heilög vitrun.
Selja Seraph
sorgandi stóð
enn af meðaumkun
yfir honum;
þegar einn annar
úngr maðr
gekk hjá gröfunum
þar gagnvart upp.
Hermið mèr, kvað hann,
heiti þessa,
sem fer fetandi
fjall til vor upp;
honum fellr hár
um herðar breiðar
svart ok sèligt
í síðum lokkum.
Alvarligt andlit
hefir útlit þat,
sem á röskvum rekk
reiknast prýði,
ok höfuð hans,
sem hinna sveina
skagar öll yfir,
endar til fulls
kaskligann kropp
ok kallmannligann!
En mun ek meiga
þat í mál taka,
eða veð ek villt,
vinir himnesku!
ef ek í línum
andlitis hans
les ón einhvörrar
órósemi,

ok þar íblandit
atvik nokkurt
víst ei svo vegligt,
sem vera ber!
O! nei, hann er þó
ei at síðr
einn af Lausnarans
lærisveinum,
ok mun með honum
hinn mikla dóm
halda hèr eptir
yfir heims þjóðum!
En þèr mælið ei,
englar helgu!
enginn ansar mèr
ástvina minna!
æ! hví þegið þèr
þannig, kæru?
hefir ek hèr með
hryggt yðar geð,
at mèr missýndist,
um mann þennann?
Virðið mik viðtals,
þótt ek vilzt hafi!
ok þú herrans vors
heilagi sveinn!
ranngum gátu-grun
gremst ei mínum,
er ek ógjarna
mèr orðinu kysi!
þegar þú síðar
í þínum dauða
prísar Guð
með píslar vætti,
ok í sigrsæld
sèr hans engla;
skal ek ógætnis
yfirsjón þá,
inniligustu
meðr ástsemi,
at ásjáendum
öndum þessum,
vissuliga vel
við þik bæta!
Ek hlýt þá ófús
orð tilleggja —
ansar englinum
andvarpandi
enn nú einn Seraph
Ithúríel,
gnúði hart hendr
ok hryggr gekk
seint ok sorgliga
móti Selja —
Ek hlýt þá, ástvin!
þótt ófús sè,
andsvar at inna,
orðum þínum,
þar sem þögn eylíf
væri þó betri
fyri grát minn
ok geð-ró þína!
En þú vilt, ástvin!
at ek tali!
heitir sá þú sèr
sveinn vors herra
ok spurðir eptir
Iscaríoth;
hrollir mèr hugr,
þegar hann nefni!
Mundak mèr ekki
mæðu gjöra
ángr eða grát
yfir honum;
svo mundak sjá hann,
at ek sízt hrærðist
trega til
nè tárfellíngar;
O nei, ek mundi,
sem allra mest
stöðugt standa
ennm straffsverða
mèr hjá at hliðra
af helgri reiði
forðast ok fía
fláráðann mann!
Nema hefði hann
hugferði Guð
gædt, því er gat
af góðu klökknat,

ok í æsku hans
ósaurgaðri
hann meðr miklu
meinleysi prýdt;

Hefði hann ekki
hæfiligann
Messías metit
til menta sveins,
hvörri hann í stètt
heilagliga
frómr í fyrstu
fullvel lifði!

Enn æ nú, æ nú! —
ek vil þegja,
svo ei sögn ýfi
sorgir mínar,
ok ángrs anka
óendanligum
á ángr ofan
á mik hlaði!

Já, nú veit ek víst
hvað valdit hefir,
er vèr englarnir
eittsinn ræddum
saman um sálir
sveina Jesú,
fyrrenn líkamir
í ljós komu
fyrir augliti
almáttugs Guðs!

At þá ofan stèg,
þegar atbendti,
Drottinn dæmandi,
dapr Elóa,
ok skjótt með skýi
lèt skyggt á einn
glæstra gullstóla,
sem gefit hafði
hilmir himins
ennm helgu tólf!

Gekk ok Gabríel
geð-hryggr næsta
með huldu höfði
hjá mèr þögull,
þá er einmana
á ógæfu stund
móðir manns þessa
mög sinn fæddi!

O at þú værir
aldrei fæddur,
ok at um þína
eylífu sál
enginn engill
hefði orð talat!
þú fáráðlíngr
fortapaði!

þetta hefði þèr
þúsund sinnum
verit víst betra
enn at vanhelgir
sjálfan Son Guðs þú
svívirðiliga
ok lofligustu
lærisveins stètt!

Svo kvað engillinn
Ithúríel,
stóð hann starandi
á storð niðr,
ok syrgði sárann
fyri Selja,
er andvarpandi
aptr mælti:

Hristist hjarta mitt
hardt í brjósti,
mæðuligt myrkr
mjög líkt rökkri
eys ákaft þoku
fyrir augu mèr!
Iscaríoth
einn af tólf sveinum,
ok þinn ástlíngr
Ithúríel!

Hvað enginn ætlar
ódauðligra,
nè nokkurn tíma
hefði neinn trúat,
ok engla munur
ei' eðr varla
til fulls, af trega,
getr talat út!

Vill hann vanhelga
vegliga köllun
ennar lofligu
lærisveins stèttar,
ok Guðmann, Guðs Son
guðdómliganu?
hvör helzt er þá hans
hryggilig synd?
Hvað at glæp gjörir
sá hinn glataði,
sem hann svívirðir
svo fyri Jesú,
allri anda mergð
ok fyri þèr?
inn mèr þat einardt
útþrykkiliga!
At sönnu ólgir
af ógn mitt hjarta,
ok titrar tregafullt
af tilhugsun,
en þó bindst ek ei
eptir at spyrja;
inn mèr þat ótæpt,
Ithúríel!
Svarar hinn Seraph
Seljæ þá:
heimugligt hatr,
heiptar áfergja
æ hefir uppæst
ógæfusamann
lærlíng þennann
gegn Lausnaranum.
Illan ýmu gust
elr hann til
Jóhannem jafnan,
hvörn Jesús elskar
af innstu alúð
öllum framar,
jafnvel hatar hann,
þó hylja vilji
fyri sjálfum sèr
sína vondsku,
Messíam, mildann
meistara sinn!
Einnig er honum
innrætt í sál,
sem þó á eðli
ypparligra,
ógnarligum á
ógæfu tíma,
eptir auðæfum
ákaflig girnd,
því at þángat til
þekktak eigi
ljótann löst þann
hjá lærisveini!
Af þeim ódygðum
orðinn blindr,
jafnan meinar hann
at Jóhannes
framar öllum flokk
fèlaga hans,
ok þó fyrst ok fremst
framar honum,
muni Messíæ
í mikla ríki
feikna fjársjóðum,
frumgróðum auðs
safna við síðu
sjólans nýa!
Opt af hans egin
hefir ek þessa
möglanda munni
merkta þánka,
er hann einórum
arkandi um kríng
ekkert ætlaði
eyra nærri!
Eina hefir ek
ógrligasta
sýn þá sèð,
er sveima jafnan
mun æ mynnistæð
mèr fyri augum,
ok at eylífu
áhygginfullann
í þöglu þeli
gjöra þánka minn!
Eittsinn er hann var
einn á gángi

beisk-brjóstaðr
í Benhinnons dal,
með tvistum tölum
talandi' um þetta,
útbrutust óskir
af ólmri vondsku,
ásamt illgjörnum
ásökunum!
Ek, sem af ángri
óhugganligr
stóð, ok stuggfullr
staldraði við,
leit þá upp augum,
ok með sama
sá ek hve Satan,
þegar sízt varði,
heldr snar-snúinn
snautaði hjá!
Með bitru spotti,
svo sem bríxlandi,
ok kynja kátum
kalda hlátri
aptr kominn
frá Iscarioth,
sem hrafn frá hræi,
hlakkandi gaut
at mèr aumkanda
auga stoltr!
Nú er hjarta hans
hvörjum lesti
öndverdt ok opit,
sem at kemr,
svo ek sí-hræddr
um sèrhvörn þánka
ok hjarta hræríng
hugrann þoli,
æ óttasleginn,
at þær muni
hann færa fljóta
fortöpun í!
O Guð! æ at þín
ógnarlig hönd
heldi helvítis
í hyl-dýpi,
með demants dróma
dymmustu myrkva,
sem í sjálfheldu
Satan föstum.
At sál ódauðlig
Iscariots,
er fyrir eylífð
ok svo þína
mund þín, ó mikli
Messías! skóp,
megi dýrmætrar
dvalar njóta,
svo lánga svifstund
at svarti villu
fái frásnúit
til frelsis sèr!
Svo hún Seraph lík
sóknardjarfasta,
hraust í heilagleik,
ok með hugprýði,
grímmum óvin æg
ósigranlig
sterk ok stöðug
fái staðit gegn!
At hún sýni svo
sik at vera
frægrar fæðíngar
fullverðuga,
ok ennar skæru
skapandi raustar,
með hvörri heimti
hana fram Guð,
ok í lærdóms röð
lèt innvígða!
Hvað segir — svarar
Selja framar —
engill ágæti!
Endrlausnarinn?
hvað segir hann
um hörmuliga
frá sèr tortíndann
trúnaðar mann?
Lætr hann liðinn
hinn lastafulla,
at hann umgángist
fyrir augum sèr?

elskar hann enn nú
hinn ómakliga?
ok ef hann elskar,
hvörnig auglýsir
Messías honum
meðaumkun sína?
Ansar hèr til enn
Ithúríel:
svo þú, Selja!
sár-neyðir mik,
at ek hlýt þèr allt
uppskátt gjöra,
þat ek þó gjarnan
hefði þagat um,
ok látit leynt vera,
líka mèr sjálfum,
sem þèr ok öllum
engla skörum!
Jesús elskar enn
hinn ómakliga,
af ást inntekinn
umhyggjufullri
sagði hann sjálfr
síðast honum,
eigi með orðum
heldr ástar sjón
guðdómligustu,
við glaðvært borð
kærligs kvöldverðar
með kjörnum sveinum,
at hann sami sik
svíkja mundi.
Hann, dýri Seraph!
mun Drottinn svíkja!
nú fèkk ei framar
á hinn forherðta
aumkunar álit
unnit Jesú;
hann mun, því miðr!
Messíam svíkja;
Sjá þú, Selja!
sá hèr kemr,
en ek vil ekki
illmenni þat
líta láta mín
lengr augu;
kom þú burt með mèr,
mætasti vin!
Orðlengði þá ei
Ithúríel,
tók hann flýti-flug
ok fór þaðan,
Selja fylgði
sorgfullr með;
þá kom hinn þriðji
þeim samfara
álengðar, einn
af æsku himins,
annar Jóhannis
engill Salem!
Jesús varðengla
Jóhanni setti,
sèr helzt hjartkærum
heilaga tvo
annann Raphael
einn af trónum,
sex-vængjaðra
meðal Seraphim,
undir Gabríels
yfirboðum,
var hann enn fyrri
varðengill hans.
En þeir Selja,
ok Ithúríel
í grafir gengu
greidt til Jesú;
nú varð nærstaddr
nefndr Salem
í mynd mjög skærri
meðal þeirra,
á þá horfir hann
ok hjartanligri
alúðar ástsemd
umfaðmar þá.
Glaðvær ok gællig
gjörvöll merki
í andlits fari
engils þessa
gáfu því glansa,
ok um glæst enni

eus ódauðliga
flutu æsku bros.
Eins ok yndisligt
upplýkr sèr
morguns port
á mildu vori,
allt eins opnaði
með orðsnild sik
hans helgr munnr
hunángs-sætri,
ok af vörum hans
viðunanlig
rann niðr raust,
sem ræddi þannig:
Lát nú sorg sefast,
Seraph! þína,
sá er þar dvelr
í dauðra gröfum
jafnframt með Jesú
er Jóhannes,
elskuverðastr
allra hans sveina.
Renn at eins á hann
augum þínum,
atgæt yfirlit
yndælann hans!
þú munt þá aldrei
þenkja framar
á hinn illgjarna
Iscarioth
Heilagr hann
sem himins Seraph,
já, sem einn enna
ódauðligu,
lifir ljúfasta
Lávarði með,
sá honum heldr
enn hinum öllum
opnar með alúð
sitt innsta hjarta,
ok af góðgjarnri
guðdóms hylli
tók hann til mesta
trúnaðar sèr!
Eins ok Elóæ
engils mikla
góðar geð-ástir
ok Gabríels,
eðr sem elska
innilig var
Abdíels
ok Abbadóna.
Þá tíð þessir tveir
þar á himni
í sèr samsköptu
sakleysi lifðu,
eins er innbyrðis
ástúðligr
Jesú vinskapr
ok Jóhannis,
er hann einnig þess
almakligr!
Var á há-helgum
heilla stundum
svo hrein ok heilög
himnesks Skapara
af mundum myndnð
manns sál engin,
sem Jesú vinar
Jóhannis önd.
Ek sá, nær uppraun
hin ódauðliga,
heilsuðu henni
himneskar þá
alskínandi
engla raðir,
hárri hrósandi
hennar sælu,
súngu lystug ljóð
um leik-systur!
Heil vertu vina,
velkomin oss
ástmey ódauðlig,
til at upprenna,
guðdómligs anda
göfug dóttir!
vert oss velkomin,
vèr þèr fögnum!
Þú ert, blessaða!
blíð ok fögur,

rètt eins ok Salem
eða Raphael
útbúin æðstum
ypparligleik,
ok á upphæðum
eðalborin.
Af fagr-frjófri
fyllíngu þinni
munu, sem mildum
af morgun roða
drjúgu fæðist dögg
dropafalli,
þèr þrí-farsællri
þánkar alast!
Ok þitt mann-eðlis
mjúka hjarta,
hjarta hugarfars
heitasta fullt,
ólgir ok hverar,
svo útaf flóir
af tignar-tærum
tilfinníngum.
Eins ok englanna
augna brunnar
útaf unaðsemd
yfirgnæfandi,
við dygða' ok dáða
dýrmætra sjón
flæða fagnaðar
fögrum tárum!
Dóttir vara-blæs
drottinligs þú,
samlynd systir
sálar þeirrar,
sem í sakleysi
sinnar æsku
Adam áðr
upplífgaði!
Kom, vèr þik viljum
til vinar þíns,
líkamans leiða,
sem lögun þiggr
nú af náttúru
næsta fagra,
at hans hýru bros
himneskann þinn
skapnat, skæra sál!
sem skuggsjá megi
í hans andliti
augljósann gjöra!
Mjög mær ok fagr
mun hann verða,
líkr líkama,
Lausnari! þínum,
er af anda Guðs
innan skams mun
myndast at manni
manna fríðustum,
já, öllum fegri
Adams börnum!
Æ! þó mun þetta
þinnar leir-stofu
smágjörða smíði
smærra verða,
nær af firnd fallit
fúnar í dupti,
en þik þinn Salem
þá mun uppleita,
ok uppleitaða
endrvekja,
ok endrvakta
ummynda þik!
Með mynd himneskri
mikillrar dýrðar,
ok nýrri prýði
nú í skrýdda
mun hann þik hefja
í en háu ský
móts við Messíam
menn til at dæma,
at þú af honum
verðir umföðmuð!
Svo af Jóhanne
súngu mínum
æsku englar
allir himins —
sagði Salem
ok síðan þagnar, —
hann ok hinir tveir
heilagann svein

englar umkríngðu
með ást blíðri.
Þat var því líkast
er þrír standa
hugljúfir hlýrar
yfir hjartkærri
systur sinni,
meðan sefr hún
englum áþekk
í æsku blóma
mjúkum blómstra beð
blund værann á.
Æ! hún veit ekki
at ástkær hennar
ok frómr faðir
fram at kominn
dygðugs lífs lokum
liggr sjúkr,
þat bræðr brúði
vildu birt hafa,
en, sem þeir sáu
at hún svaf, þögðu!
Hinir hvíldust nú
herrans sveinar,
af mæðu ok ángri
yfirkomnir
ýmsum skuggum í
Olíu fjalls;
þar sváfu þeir
meðan þetta skeði,
Einn undir hán
olíu trè,
þar sem þess greinir
til þaks honum
náðu lengst niðr,
naut þá værðar;
hinn millum hóla
hvíldist í dal.
Þá svaf hinn þriðji
við þykkvar rætur
eins himin-háa
hriktanda cedrus,
hvörs frá hæglátum
hvirfil-skógi
draup svölu ok suddi
yfir sofanda;
Margir blunduðu
meðal leiða,
sem þar sett höfðu
yfir sjáendr
af þeim líflátna
fyrir lángri tíð
manna morðs-staðar
hins mikla synir.
Einu hafði Júdas
Iscaríoth
nærri náúnga
ok nafna sínum
ljúfum Sebbæo
lagst ok sofnat
út af ills hugar
óþolinmæði;
var hann vinr hans
honum venzlaðr!
En illr Satan,
sem í afsíðis
hulinni holu
hafði numit
allt þat er englar
höfðu innbyrðis
um sveina Jesú
saman talat,
reis nú reiðr upp
ráðinn til skaða,
ok þánka þrúnginn
þar kom niðr,
sem Iscaríoth
ófarsæll lá!
Svo dregr drepsótt
deyðandi' sik
um sjálft svartnætti
í sofandi borgir;
voveifligr
á vængjum hennar,
þá múrum þeirra
þeur hún at
svo leyniliga,
liggr dauði
ok blæs út frá sèr
eyðandi dömpum!

Enn er mjög makrádt
mengi borgar,
við ljós hinn vísi
vakir um nótt;
vegligir vinir
í viðar skugga
ok við vin-skálir
án vanhelgunar
sitja siðprúðir
ok saman ræða
um sinnar andar
ódauðligleik
æ viðvaranda
ok um vinskap sinn!
En brádt sik breiðir
hlöskrandi dauði
á eymdar degi
út yfir þær,
dauða kveins degi
ok dapra kvala,
þá yfir helför
harmi þrúngin
brúðr barmar sèr
brúðguma síns,
Ok af örvílnun
yfirfallin,
öllum afkvæmum
í einu rænd,
mjög lætr móðir
at mistu ráði
fárliga formælt
fæðíngar dögum
sinum ok sinna
syrgðu barna!
Þegar djúp-eygðir
með daufum svip
ok niðrsleguum
ná-grafendr
til líks frá líki
láta gengit,
uns himin-háum
hrellíngar gnúp
dauðans engill af
ofan stígr,
þá með þúngum svip
þánkafullr
í allar áttir
umskygnist hann,
enn sèr ekkert
nema auðn tóma;
yfir allt er þögn,
ekkert hrærist,
stendr hann staðkyrr
á stirðra gröfum
alvarligri
meðr ígrundun.
Allt eins kom yfir
Iscaríoth
níðhöggr nú,
honum nálægrar
töpunar til
ok táldragandi,
skaut í heila hans
helvízkum draum!
Hans órótt hjarta
hastarliga
æsir hann upp
til illra girnda,
ok svo í sál hans
sökkr þaunkum,
þeim er hann áðr
hafði innan brjósts
mögnuðum mjög
af miklum ofsa.
Sem þegar þruma
þeytist af himni
bráð ok brúsandi
á brennusteins fjall,
ok þat upptendrar,
öðrum nýum
til sín safnandi,
svo gegnum djúp
skundar skelfiligt
skruggu veðr;
því þá leyndar list
lagna englum,
háar hugsanir,
hæfiliga
öldum eylífum
ágæta þánka,

at mynda sálum
mannligum í,
enn vissi at æfa
illur Satan
sèr til fársfyllri
fordæmíngar!
Aptr at sönnu
Ithúriel
onar-andvara
umhyggjufullum
ok trygð traustustu
tilknúðr af
venlandi vildi
vera hjá sveini;
en þá hann yfir
Iscarioth
sá hvörnig Satan
sik útbreiddi,
tók hann at titra
ok tafði um stund
Hann upphóf ángruð
augu til Guðs,
ok hèrnæst hugðist
af höfgum svefni
Iscarioth
upp at vekja;
þrem sinnum sveif hann
gegnum cedrus trèn,
sem stundu sterkliga,
á storms vængjum
yfir andliti
ens ófarsæla.
Þrisvar þrammar hann
þúngstígr mjög
með feikna fetum
fram hjá honum;
ok þó allnærri,
svo undir skalf
fjalls brún, af frekum
fótaburði.
En ei at síðr
Iscarioth
með köldum kinnum
kynja fölur,
sem í dauðs dvala
djúpt fallinn svaf,
vèk sèr þá aptr
við til síðu
Ithúríel
ok andlit huldi.
Sá hinn sofandi
sveinn í draumi
föður fyri sèr
framliðinn sinn,
sá honum sýndist
á sik horfa
huggun horfinn
ok hrygðarfullr
með tón titrandi
tala við sik:
Ok þú svo ugglaus
Iscarioth!
sefr sem værast
ok sinnir öngvu,
svo lángt ok lengi
frá Lávarð þínum
eins sem ei vitir
hvað undir býr.
At hann þik hatar
ok hefir öllum
meiri mætr á
meðbræðrum þínum,
hví ertu ekki
yðngliga
honum við hönd
ok til hagræðis,
kostandi kapps um
kærleik nýann
hjá honum vinna
til handa þèr?
Hvörjum ofrgaf
Iscarioth
þik á deyanda
degi faðir?
með hvörri misgjörð
mun ek hafa,
Guð! eðr ætt mín
unnit til þess,
at skunda skyldi
frá skugga ríki

ek, svo hèr yfir
Iscarioth
ok hans hrakförnm
hljóti gráta!
Meinar þú, mögr!
at í Messíæ,
því er hyggst hann
at hefja, ríki
muni mæti þín
meiri verða,
æ! þú aumíngi,
fer ærit villt!
Þekkir þá eigi
þú framar Pètr,
sem ok þá sonu
Zebedæi
hina völdustu
vildarmenn hans?
þessir eru' þeir,
sem þèr munu
at hefð ok heiðri
hærri verða!
Þeir munu múgum
undir Messía
af sjóðum safna
svosem straumi
lystiligum af
landsins gæðum;
eins hinir aðrir
arfleifð munu
meðtaka miklu
mætari' enn þú,
minn aumi mögr
munaðarlausi!
Kom svo þú sjáir
sèrhvört ríki,
þat þeim er hugat
í þeirra dýrð!
fylg mèr físliga
uppá fjall þetta!
vert ei arfi minn
efablandinn!
þetta fast fjötrað
eru forlög þín!
Þú sèr geisi-breidt
gagnvart okkr
fagra skógar fjall,
sem furðu laungum
fleygir fram skuggum
í frjófsamann dal;
úr því án afláts
verðr uppgralit,
sem Ophirs eyum
ógrynni gulls!
Þar drýpr dalr
af dýrmætustu
yfirgnæfanligs
arðar blessun,
er af árgæðsku
yðugligri
sú auðs uppspretta
ótæmanlig,
ákvörðuð arfleifð
hinum útvalda
Jesú vin
Jóhannesi!
Hálsinn hinn þaðra
hlaðinn umbergis
vænum vínberjum
um víðar lendr,
ok engi þakin
ógrynni korns,
er þat hann ætlar
ástkærum Pètri!
Sèr þú öll yfir
auðæfi lands?
hve borgir breiðast
um bygð dala,
fullar ótal fólks
fagrar ok háar,
sem jöfrs dóttir
Jerúsalem,
undir álfröðli
alskínandi!
Þú sèr hve þángat
gegnum þessi lönd
ýmsar Jórdanir
jörð vökvandi
nýar, til nota
nafnfrægum borgum

um fagra farvegu
framdraga sik,
undir hvelfíngum
hárra múra!
En aldingarðar
ávaxtarsamri
glikir Eðen
á gullsand skyggja,
þeim þeirra bakkar
eru þaktir með;
hèr er hlutskipti
hinum ætlat
loksins til launa
lærisveinum!
þeirra kostum krýnd
kóngaríki.
Enn sèr þú einnig
Iscarioth
þat hit litla land
lángt í burtu,
hvörvetna hulit
með hraun klettum,
berum björgum
af blágrýti!
Þat liggr þarna
þjóðum fjærri
audt ok óhyggt
án allrar ræktar;
holt ok hrjóstr
eru hvar sem sèst,
ok fúnir fauskar,
en fegurð engin!
Þar norpir nótt
í nöprum skýnum,
hörðum hagl-tárum
sem hradt gráta,
en undir henni
liggr ís mikill,
ok nærsta djúpr
norðligr snjór
ófrjófsömum á
öræfum þessum!
Þar uglur einar
æfilángt dæmdar
undir auðn, ósorg,
ok umgengni þína
hrekjast all-annar
um eiki-trè,
þau sem þar hrykta
þúsund ára,
er þat arfleifðin,
sem þèr úthlutast!
Hve munu hinir
hróðugir þá
allir ellefu,
eins ok kóngar
fullir forakts,
gánga fram hjá þèr,
ó þú lærlíngr
lítils metni!
Þín vesæls varir
varla' í dupti.
Utaf geð-gremju
grætr þú Júdas!
ok út af reiði
eðal-lyndis;
en þú grætr
fyri gýg, minn son!
öll þín tár eru
til ónýtis,
er af örvilnun
úthellir þú,
ef þú hjálpar þèr
ekki sjálfr!
Heyr nú hèr fyrir
hvað ek segi!
sjá þú, ek opnar
öldúngis nú
fyri þèr
mitt föður hjarta,
ok allt sem ólgir
innan brjósts mèr.
Sjá þú, Messías
sinnar dregr
undan uppbyrjun
endrlausnar,
ok reisíng ríkis,
sem ráðit hefir,
ok heitit hann
at hefja á jörðu;

Enginn hlutr er
andstyggiligri
eðr hataðr
meðal höfðíngja
Júda, jafnt þessu
Jesú ríki,
nýa` niflúngnum
frá Nazareth
at þjóna þegnar;
ok þar fyrir
hvörn dag hugsa þeir
honum upp dauða!
Ginntu þá, Júdas!
gjörðu þèr læti,
sýn þik, sem viljir
selja Jesúm
fyri penínga
í presta hendr,
þeir í þenna feng
eru þyrstir mjög!
Þó sè fjærri þèr
þetta að gjöra,
af hefndar hug,
at hann hatar þik!
hann mundi hæða
heiptir þeirra,
ok ætíð sleppa
ósigranligr
mótstöðumanna
úr mundum sinna!
Heldr hann ateins
hèrmeð at knýa,
at hann um síðir
ofsóknum þeirra
óeyrinn yfir,
ógnarligra
sýni skuli sik,
svo þeir hræðist!
Ok at hann skuli,
í einu svifi
til at fá felda
fjandmenn sína
með skömm ok skelfíng
skjótliga um koll,
strax í ljós leiða,
eptir lánga bið,
sitt væna veldi
sem við er búist!
Þú ættir þá
með þessum hætti
mikinn meistara,
sem menn hræddust,
og fengir fyrri
þèr til fróunar
úthlutunar erfð
eignast þína!
Lát hana laungum
litla vera,
þú kannt fyri því,
þó um síðir,
ef at eins snemma
at henni sezt,
óþreytanligu
meðr erfiði,
andvökum, yrkíng,
umhyrðíngu,
konstum, byggíngum
ok kaupverzlun,
hana svo rífka
ok ríka gjöra,
At hún við hinna
hærra metnu
stallbræðra þinna
þau en stóru lönd,
ok svo auðug
af allskyns gæðum,
tíma miklum með
megi jafnast!
Ok hèr at auki
áttu þat víst,
at til endrgjalds
fyrir afhendíngu
Jesú, ef játar,
í Júda vald,
munu fylltar fá
fljótt þínar hendr
prestar þakklátir
með peníngum,
ei næsta naumir,
því nóg er til!

þetta er þat ráð
sem þinn faðir
umhyggjufullr
ávísar þèr,
horf at eins á mik!
er ei þetta
mín egin ásýnd
örend ok bleik?
Rèðst ek frá ríki
reikandi skugga —
því at þar einnig
þín ek mynntist,
ok tók sárt til þín —
tafðak eigi
at hvarfla híngat
til at hitta þik!
þarfyri þèr
með þessum draumi,
sýnir ek, son minn!
hvörnig sæmd þína
ok þitt rírnat ráð
meigir reisa við;
en þú bregðr brádt
blundi þínum;
Forsmá ei föðurs
framliðins raust,
ok hans ásthollar
ámynníngar,
ok lát mik eigi
með ángri' ok sorg
hverfa hèðan
í hús mitt aptr,
þar ek dvöl drýgi
hjá dauðra sálum!
Satan reisti sik,
eptir sýn fyllta,
á fætur yfir
Iscarioth;
svo rís himin-hátt
hræðiligt fjall,
þar sem djúpr var
dalr áðr.
þegar dalir þeir,
sem þar voru
áðr umhverfis
í afgrunn hrapa,
hauðrs höstuga
hristíngu við,
ómælanligum
ógnar skrefum!
Júdas vaknar við
ok sem vitstola
stökk strax á fætr
ok í stað mælti:
já, rètt er raun sú;
raust míns föðurs
dáins var þat víst,
sem við mik ræddi!
því svo sá ek hann
sjálfr deya!
þarf ek því ekki
þat um at efast,
hvört ek af hinum
hataðr sè,
sem nú einnig er
meðal örendra
alkunnugt orðit
í öðrum heimi.
Hvarum híngat til
hefir þèr leikit
grunr ok gáta
geigvænlig á,
er nú víst orðit,
þú yfirgefni!
sannat af sálum
enna sofnuðu!
Nú vel, svo vil ek
mik á veg gefa,
ok allt uppfylla
án undandráttar,
hvað en háa sýn
hvatti mik til!
en ek æfi þó
ótrúmennsku
móti Messía
mínum Drottni!
en ef reið ólund
í mèr sjálfum,
eða Djöfullinn
hefir draum þann gjört?

Burt þýar þánki
þorlaus nærsta!
en brenna finn ek
fyri brjósti mèr
eptir auðæfum
ákafann þorsta,
ok heitann huga
til at hefna mín!
Enn ertu, sál mín!
örkvisi sá,
at svo viðkvæma
ok veika þánka
þik, ýfðri ángist
innann brjósts með
ok efasemi
látir ábíta?
Þik hefir draum dreymt,
ok draumr bauð,
at þú harða hefnd
hefja skulir,
hlýtr því hefnd sú
helguð vera,
sem vitrun vildi
at væri framin!
Heyrði Helvarðr
herma þetta
þann dómr Drottins
var dottinn yfir,
þó lángt at liðandi,
því laungum hafði
hann um æfi tíð
undanfarna
sálar sakleysi
sitt vanhelgat!
Stóð hann starandi
með stoltri þögn,
ok geisiligum
grimdar látum
á hinn hertekna
ok hrósar sigri,
eins ok himin-hár
horfir drángr,
skaðvænn, skelfandi
á skerjóttann sjó,
yfir drukknuð lík
sem um dröfn fljóta!
En skjótt mun skrugga
skella á honum,
ok á svipstund svo
svipta niðr,
at djúpr dalr
úr dráng verði,
allar eyannar
umhverfis þar
á hrunit horfa
yfir hefnd glaðar,
ok þýðar þakkir
þrumu lúka!
Yfirgaf Satan
Olíu-fjall,
ok sèr hátt höfnum
með hroka gángi
jafnsnart jós yfir
Jerúsalem;
leitar hann fals-fús,
fagrar hallir
í kyrð kannandi,
eptir Kaípha,
óvin guðdómsins
ok æðsta presti!
At hann yfir hans
illgjarnt hjarta
enn illgjarnari
úthelti þaunkum,
einnig með dymmum
drauma sjónum
gæti gabbat hann
fram í guðlaus verk!
Enn nú var Júdas
Iscarioth
eptir sem áðr
á Olíu fjalli
ráðlaus reikandi
í ramvillum þaunkum,
ok nú sýndi sik
fyri sofanda
klár morgun kominn
knetti jarðar!
Jesús vaknar þá
ok Jóhannes,

ok uppá fjallit
ásamt gengu,
sjá þeir sveina
sofandi þar,
lèt þá Lausnarinn
Lebbæo sínum
hægt ok hírliga
í hendr tekit
af svefni sígnar,
svo hann vekti:
Ok við hann vakinn
vèk til orða:
lít upp, Lebbæe,
lít hèr á mik!
ek em hèr sjálfur,
enn á lífi!
stóð hinn sturlaði
strax á fætr,
hann fast faðmandi
með fegins tárum!
Hljóp síðan hraðr,
ok hina vakti,
fljótt á fund Jesú
fylgjandi þeim,
ok sem þeir allir
ásamt vorn
komnir kríngum hann
með kærligustu
ástar atlotum
ok auðmýktar
tók hann at tala
til þeirra svo:
Kom þú minn kjörni
kæri skari!
komið! vèr viljum
vinsamliga
allir ásamt
þenna eina dag,
sem enn er eptir
uns vèr kveðjumst,
gjöra glaðværa
með gæðum oss.
En er oss Sarons
opinn blómi,
en rignir himin
raka-dögg sætri
mildt yfir oss
frá árdags skýum
á þessum blíða
blessunar váng!
Enn nú himin-há
híngat til vor
senda cedrus trè,
svala skugga,
þau er faðir minn
hefir fóstrat upp,
sèr ek mínum með
menn umgángast,
ódauðligum enn,
ásýnd prýdda
svo gjörla gjörðri
guðdómliga.
En innan stundar
öllu þessu
mun breytt ok brugðit,
svo þat burthverfi;
skjótt mun með skýum
skelfiligum
himin hylja sik
húmleitr mjög!
Brádt munu bifast
brúsandi djúp,
ok fjall-fold þessa
fulla af gæðum,
unaðs auðga fold,
eyðileggja,
brádt líta menn mik
morðíngja sjón,
ok þèr munuð mik,
mínir vinir!
innan skamms allir
yfirgefa!
Grát eigi Pètr,
nè þú geð-veiki,
ok af ást-ríki
ángraði sveinn!
æpit ekki þið,
því æ svo lengi
brúðgumi býr
hjá brúði sinni

er hún geð-glöð
en grætr ekki!
Æ! ek mun yðr
aptr birtast,
sjá þèr munuð mik,
sem móðir ein
mun líta son sinn
sèr ástfólginn
ok dýrmætann,
þá dauðir vakna!
Mælti svo Jesús
ok meðal þeirra
guðdóms ásýnd í
allskærri stóð,
enn sálar sorgir
enar sárustu,
ok æstar píslir
endrlausnar
fann hann svíða samt
sèr í hjarta!
Þá fór hann þaðan
þánka hreldr,
sveina hópr hans
með honum gekk,
allir í einíng
ástsamligustu;
einn var þar ekki
Iscarioth;
Heyrt hafði þessi
undir háu trè,
í skúma-skoti
skuggafullu
álengðar allt
sem innti Jesús,
ok við sjálfan sik
segir hann þá,
er hann leit Lávarð
á leið gánga:
Sjá! svo veit hann vel
voða sinn fyrir,
at dymmr dagr
dregst at höndum,
ei mun hann minnr
vita meðöl til,
ok veg at verjast
vèla brögðum
eðr árásum
ofsækenda,
ok til algjörðrar
auglýsíngar
sóma sinn ok dýrð
sjálfr leiða!
Enn mun hann einnig
áform vita,
þat er þèr, Júdas!
í þánka býr?
veit hann, at þú vilt
honum vèl brugga,
er þú fer svo fram
fjörráðum hans?
En ef sýn sú
hefir svikit mik?
en ef dárar mik
draumr þessi,
ok ef hefir hann
á mik hataðann
komit at keyra
kvöl enn stærri;
þá sè ílls árnat
ólukku stundu,
sem ek sofnaði
sinnulaus á,
ok fór faðir minn,
sem föl vofa
helgengin híngat
at hitta mik;
Ef hún eitthvört sinn
aptr kemr
ættu á henni
um allar heiðar
dapr dauða kvein
dróttir heyra,
dapr dauða kvein
í djúpum rústum
gamallra grafa,
ok grát mikinn!
Sè ok sá staðr,
sí-bölvaðr
lengi, lengi,
þar ek lá ok svaf,

þar skyldi skálkr
skelfiligasti
fyrifara
föður sínum.
Belji þar fram blóð
míns besta vinar
er hann af ángist
ok örvæntíngu
meðr egin mund
hefir myrðtann sik,
en hvört álpast þú
svo ær, Júdas!
Já, hvört ok hvörnig
hvar fyri svo?
ertu geðgramr
gegn þèr sjálfum?
sèrtu svikinn
með sýn ok draumi,
þá ertu ei sá,
sem þik villir!
Svo framt sýn hefir
send í draumi
kennt svo klárliga
ok mèr komit til
við minn meistara
morð-svik fremja,
ok ek syndga samt,
er ek svo gjöri,
þá sè þèr formælt,
þú meðal daga,
ó dagr allra
ógnarligasti!
Þá er með sèr mik
Messías kaus,
þá er hann svo hýr
ok svo hjartnæmum
vinar vörum með
við mik sagði:
far þú ok fylg mèr!
hvað ek fús gjörði;
Þú ættir þakinn
þykkum skýum,
dymmr ok dapr
ok drápsfullr,
nær sem þú nálgast,
að nóttu verða;
á þèr ætti pest
eyðileggjandi
manna meðal
í myrkri læðast.
Á þèr skyldi skæð
skelfingar sýki
margt um miðjan dag
mengi deyða!
mangi minnist þín
undir miðgarði!
sèrtu gjör-gleymdr
Guði sjálfum!
Drottinn dragi þik
útaf daga röð!
Æ! hví er ek svo
ángistarfullr?
skjálfandi skrapa
mèr í skinni bein;
hvar ertu Júdas!
hvess þik ok vakna!
vertu vaskr!
hví viltu sjálfr
þik, þú aumasti!
þannig kvelja?
Nei, þín sanna sýn
svíkr þik ekki!
ok ef svo yrði,
er þá vegr
nokkr til at ná
nema þessi
því sem þreyanda
þik lángar til?
Svo hann hrópaði,
hann æddi svo!
hafði hann, síðan
heillalaus draumr
blekti brjóst hans
meðan blundaði,
tveggja stunda stig
stuggvæn gengit
endalausri ógn
eylífðar nær!

Hèr hefr

# fjórðu bók Messías.

Eptir svefu-sjónir
Satans dymmar
beið enn Kaíphas
á beð síunm
ángistarfullr,
því öll var ró
frá honum flúin
af fjandans völdum.
Augnablik hrant hann,
hrökk upp aptr,
brölti, bylti sèr,
ok barðist um
á hæl ok hnakka
hræðiliga,
með þúngu þeli
ok þánka brotum
Eins ok umveltist
í orustu
deyandi dólgr
sá drottni neitar,
þann allar ógnir
ofsækja nú;
sik þar sýnandi
sigr-herra,
frár ok frýsandi
fákr rómu,
ólmr, uppreistr
á aptrfótum,
Hróp ok háreisti,
harðneskju gnýr,
ófriðar æði
öld deyðanda,
ok harðir hvinir
af himins þrumum
umkríngir hann allt
í andarslitrum.
þannig liggr þar
þánka fyrtr
ok veltist vitlaus
meðal val-hræa
höfuð-klofinn hann,
ok handvissa
tortíníngu
telr sèr nú.
Raknar úr roti,
reisist aptr;
enn þá er hann til,
ok enn þenkir,
þrá-bölvandi þó
því, at hann sè,
hálfdauðri hendi
móti himninum
bliknandi fleygir
blóði sínu;
bölvar Guði geyst,
ok gjarnan vill
enn sem áðr
honum afneita.
Eins stökk ærðr
ok óráðs fullr
Kaíphas á kreik,
ok nú kalla lèt
saman gjörvallann
söfnuð presta,
ok hinna eldstu
af öld borgar,
sem bráðr bani
við borð lægi.
Midt í höll hárri
var harla rúmr
samkomu salr,
á Salómons hátt
skrautliga bygðr
af skærum viði
Líbanons lunda
lengi frægum.

þángat þyrpti sèr
þíngheimr presta
ok hinir eldstu
af öld borgar;
þar var ok þá
meðal þessara
öldúngr Jóseph
af Arímathæa.

Sá einn vitr var
meðal vanhelgra
Abrams ættlera
eptir hans dag,
guðliga geðprúðs
göfug-mennis,
einn ærit fárra,
sem eptir voru
eðal-lyndir af
Israels þjóð.

Stilltr hvörvetna,
sem stríðlaus máni
rennr róliga
í rökkur-skýum
sinn veg yfir oss
alla tíð jafnt,
framgekk með fasi
friðsamligu
á Júða fundi
Jóseph þessum.

Nú var ok nærri
Nikodemus,
jafnan Jesú
ok Jósephs vinur!
kom fram Kaífhas
í kennimanns
herraligum ham,
heiptugum þó,
ok sagði svo
til samkomunnar:

Hiklaust hljótum vèr
hèr til lykta,
feðr Júrsala
frægu borgar!
um síðir eitthvað
at úrskurða,
ok með mektugum
megin-dólg vorn
af oss útrýmdann
armi láta.

Ella fær hann fljótt
fullkomnat allt,
sem hann svo lengi
ok sífeldliga
oss ígegn
uppþenkt hefir,
ok vèr hèr höldum
hinnsta sinni
máskè meðal vor
mót ok dóma.

Já, einn dauðligr
jarð-spámaðr
Jakobs mengi mun,
musteri Guðs,
ok oss til skammar
afmá þenna
Guðs kostuliga
kennimannskap.

Sem þó Guð sjálfr
á Sínaí
hinn stærsta spámann
staðfastliga
lèt setja' ok semja
sona niðja
sona sonum
sí-fylginn arf.

þann í þrældómi
þranta-laungum
sjálfir Babýlons
borgar-turnar,
þann vopna veðrum
voligum í
hinar sjö hæðir
hræðiligu
aldrei orknðu
út at slètta.

Er Jerúsalem
ei' þegar hans?
eru borginnar
um bygð Júda
ei þý ok þernur
þessa sjáanda,

sem þær at Guði
hafa gjörðann sèr?
Flýr ei' ok forðast
fólk sem óðast,
af heimskri hjátrú
haldit ok blindt,
vísari feðra
vígt musteri,
at þat áglápi
með undrun dýpstu
töfrum tælandi
tákna-verk hans
feikna fjarlægum
á firnindum,
fjandans furðuverk
fyrir hann gjörð?
Ok hvað mundi meir
mengi blekkja?
hvað er alþýðu,
sem áglápir,
framar furðanligt,
enn þá framliðna
hann af hel-blundi,
eða heldr þó
mjög sjúka menn,
af megni sóttar
sem í dá detta,
af dvala vekur?
En um allt þetta
erum vèr kyrrir,
bærum ekki brár,
bíðandi þess,
at nær oss hafa
í upphlaups bræði
hans fylgi-flokkar
fjöri rænda,
ok þat einmidt
fyrir augum hans,
hann oss uppveki
eins frá dauðum!
Já, þèr þegið nú
þarna feðr!
standið stein-hissa
starandi' á mik!
getið þèr nú enn
gengit í efa?
efit þá at eins,
efið ok sofið!
Aldrei yfir sik
með úthrópun
Júda játaði
jöfr þennann!!!
ei vitit þèr þat!
þjóð aldreigi
á braut hans breiddi
blómgaðann pálma!
aldrei honum hún
Hósanna kvað!!!
O! at heyrt hefðir
fyrir Hósanna
þú ens eylífa
öskrandi bölvun!
dymm skyldi drynja
deyfu slegnum
þrumu þeytis raust
þèr fyrir eyrum!
í sigr-sálma
súnginna stað.
I djúpum dauðans
dyrum niðri
skyldu skjöldúngar
skjótliga þèr
upp af stál-stólum
standa móti,
kórónum sínum
kastandi' á gólf,
ok hrópa Hósanna
þèr til háðúngar!
Já, óverðugir
alþýðu feðr!
ræðu' þessari
reiðist eigi,
sem beiskt-brennandi
af bræði helgri
útjós andi minn
ólgandi' í grimd!
Eigi vizkan ein;
eitthvað miklu
hærra hvetr oss,
ok hardt býðr;

Guð býðr berla,
at hann brádt skulum
öldúngis afmá
frá augum jarðar.
Forðum lèt frædda
feðr vora
Drottinn ræðandi
í drauma sjónum,
leggið úrskurð á
hvört ei muni
eins sem á eldri,
enn hafa tíð
Kaípham draum dreymt,
af Drottni sendann!
Lá ek ró rændr
í rekkju minni,
var dymm draum njórun
mèr dauðans ógn;
þeukti ek útí þat
hvörn þessar mundu
óspektir nýu
enda taka.
Midt í þaunkum þeim
þýngði mik svöfn
áhyggjufullann
ok efablandinn;
strax dreymdi mik,
at ek staddr var
með önn mikilli
í musterinu,
at fá forlíkat
fólkit við Guð;
Flaut nú fyri mèr
fórnar dreyri,
tók ek tíginn gáng
með tilbeiðslu
inní Guðs egit
allra helgasta
at fyrst frályptu
fortjaldinu.
Ek sá þá — öll mín
enn skjálfa bein —
ógnun Guðs á mik
ofanfalla;
dráp-æg var hún mèr
sem deyðandi;
ek sá Aaron
alklæddann skrúða
gánga móti mèr
mjög reiðum svip.
Uppfyllt augu hans
eldliga hvöss
af grimd guðligri
gusu dauða;
skaut bráðum blossa
brjóst-skjöldr hans
á mik eldíngar,
eins ok Hóreb,
ógrligt var afl
í hans geislum.
Kynlig köst ok brak
Kerúbims vængja
yfir sáttmáls örk
ofbuðu mèr;
ok líkt sem aska
af mèr hrundi
geisi-snöggt með gný
á gólf niðr
æðsta kennimanns
yfirhöfu mín.
Svei þèr, prestskapar
svívirðíngu! —
öskrar Aarons
ógnandi raust —
svei þèr endemi!
segir ek gjörla
þetta þèr,
at þú skalt eigi,
fífldjarfr, framar
forsmán gjöra,
sem Herrans prestr
heilagri stètt!
Ert þú ekki sá? —
við orð þessi
hann megn morð-augu
mik áhvesti,
eins ok einn lítr
á annann sinn
dauð-hataðann dólg,
þann drepa vildi. —

Ert þú ekki sá,
óverðugi!
er hinn illræmda
ærulesíng,
þann viðrstygðar
verðuga mann,
þolir óhegndann
þèr fyrir augum?
Sèr hann ok heyrir
helgidóm lasta
minn bróður Mósen,
ok mik, grimmu
einnig Abraham
ausa spotti,
helgann vanhelga
hvíldardag Guðs,
deigri dáðleysis
dofinmennsku?
Vík burt, vesæll!
svo, ef við dvelr,
ei þik uppbrenna
eldinum helga
nái nú í stað
náðarstóll Guðs!
þessi sagði svo,
sem mik dreymdi.
Ek tók til fóta
tafarlaust þaðan,
ok fór til fólksins
með flaksandi hár,
ok ösku ausna
yfi mitt höfuð,
án yfirhafnar,
afmyndaðr,
ok allr orðinn
fyrir utan mik.
Fólkit óð at mèr
með ofbeldi
af víg-hug við mik,
ok vildi deyða;
urðu blund-brygði
til bjargar mèr;
datt af mèr dvali
með draum illum.
þrjár ek þar eptir
þrauta stundir
fullar af ángist
ok órósemi
lá sem sinnulaus
í sæng minni,
döprum drjúpandi
dauða sveita.
En nú titrar ek,
ok enn skelfr
hjartat af hræðslu
heimugligri;
róm em ek ræntr,
reyrð er túnga
stöm ok stríð
í stirðum munni.
Fyrir hvörn mun hann
hlýtr at deya!
frá yðr, feðr!
á fundi þessum
væntir ek nú víst
vitrligs ráðs,
með hvörju móti
megum hann deyða!"
Hann stendr, starir,
ok um stund þegir,
vaknar við aptr,
ok vèk til máls:
at einn aflífum
er víst betra,
enn at allir vèr
eyðileggjumst.
þó vekr vara
þat vísdóms boð,
hann má um hátíð
eigi hel gista,
at ei alþýðan,
undir hann seld,
honum vörn veiti,
ok verði oss meiri."
þagnar Kaíphas,
en þarámót
ekkert heyrðist hljóð
nè hreifíng svara
í sal safnaðri
samkomu frá,

allir þögðu þar,
sem þrumu snortnir,
störðu sjálf á sik
sitjandi hlöss.
Sèr Jóseph þat þá
at þögn drottnar,
hugðist hann fyrstr
at hefja ræðu,
ok fyri Jesúm
forsvar mæla;
en ofsi nokkurs
óttaligs prests,
sem þar fram þusti
ok þylja vildi,
hèldt honum aptr,
svo þat hindraðist.
Phílo fórna þjón
forsugr hèt,
hafði híngat til
hann um Jesúm
aldrei äðr rædt,
ofstoltr til
fyri fullkominn
framgáng sakar
orð án úrskurðar
upp at kveða;
Hann var vís haldinn
af hvörjum manni;
sjálfr Kaíphas
hann svo virðti,
en þótt hann hefði
at hatrligum
fjandmanni Phílo
phariseiskr.
Sá reis úr sæti
af sinnis þúnga
slóu augun eld
inní höfði,
hans flaug af fólsku
fleiprandi raust,
er hann óðmálgr
innti þannig:
Drauma, Kaíphas!
dyrfist þú oss
guðliga' at greina,
ok geisi-háa,
eins ok ei vissir,
þat hinn eylífi
aldrei mun manni
munaðar fullum,
nè nokkr andi
neinum sem er,
þótt ei sýnist svo
sadnceæiskr,
virðast at veita
vitrun dýra!
Annat hvört er
þú at oss lýgr,
eða satt segir
um sýn þessa,
Guð hafi sik svo
sèrliga lægt,
sè hið fyrra svo,
sýnirðu þik
þinnar rómversku
ríkis-kunstar
ok þessa keypta
kennimannskapar
vel verðugann
at vera mann.
Sè hið síðara,
seg ek þèr, biskup!
Guð, til at refsa
glæpamönnum,
líka lèt stundum
lýgi-anda
frá sèr fara
til falls-spámanna.
Uppá þat Achab
ófær hreppti,
Jessabels Baals
blindaðr þræll,
svo líflátinna
lengr eigi
dýr skyldi dreyri
til Drottins hrópa,
dauðans engill einn
ofan frá tróni
færði prófetum
prettvísa spá.

Svo, sjá, at vagnar
særðann fluttu
Achab heim aptr
til ólífis,
dó þá döglíngr
ok dreyri hans rann
út um þann akr,
hvar áðr hafði
níðíngr Naboth
látit ná verða.
A þeim akri stóð
eylífr Guð,
ok dauðans engill
at hans boði
úthellt æða blóð
illgjörða manns
lèt þar fram fossa
fyrir honum.
Draúmr þinn býðr,
at dólg þann skulum
sterkliga straffa,
sem oss stendr gegn,
en þik í sannleik
öngvann dreymdi,
heldr fannstu hann
með hugviti.
En titrar þú ei
óttaligt við
orð, dauðans engil
er ek nefni?
hvör veit nema nú
nokkr slíkr
við Guðs veldis stól
vegi þegar
blóð þitt í ben-straum
bráðliga dæmt.
Tak ei svo orð mín,
at hinn seka
Jesúm síkusaka
segja vilji!
nei, þú hjá nefndum
Nazaríngi
ei ert utan smár
illgjörðamaðr;
herrans vanhelgar
helgidóm þú,
er hann með öllu
vill eyðileggja!
Hans er viss veginn,
áðr varð hann til,
dreyri til dauðans
í dóms metum,
þeim er þrátt fundu
eigi þúnga nóg
misgjörða menn,
ok margopt hina
hátt-hreiktu þjóða
her-kúgendr!
Hann skal án efa
allífaðr!
ok ek, með egin-
augum mínum,
ek skal áhorfa,
nær hann allífast,
ok frá fjalli því,
hvar hann fjör missir,
skal ek bera burt
blóðuga jörð,
inní háleitann
helgidóminn!
Eðr helgu hjá
há-altari
vil ek af volgu
vota steina
nýa náss blóði
niðrleggja
í eylíft minni
fyrir Israel!
Burt! hraklig hræzla,
sem hug vorn beigir!
er vèr óttumst svo
alþýðu lausa!
hvílíkt hugleysi,
sem híngat til
öngvir forfeðr
fyrir oss höfðu!
Nema skundum skjótt
skruggu fyrri,
harðri hefndar reið
himna jöfrs

at fáum afvendt,
oss með honum
mun hinn mikli Guð
merja sundr.

Með myrkvum augum
munum vèr sjá
hann láta líf sitt
ok líkum hætti,
honum samsíða
ok í saur skuldar
fyrirfarast
fárligum dauða.

Mundi maðrinn
mjög frá Thisba,
óttast alþýðu,
at eyða prestum
í bana-blóði,
þegar Baal svaf,
ok varð ei vakinn
með veðri neinu?
eðr mat hann meir
þess máttar traust,
sem honum sinn eld
sendi' af himni?

En þótt óveðr
oss til hjálpar
engin upprísi
nè eldíngar,
vil ek vafalaust
voga mèr einn
fram meðal fólksins
fullhugaðr!

Vei þeim er varir
vill af mengi
mèr til mótstöðu,
eðr mund hræra,
at ekki skuli
til æru Guði
dreyra dögg rigna
dreymandans lík!

Þann skal þarí stað
þúngu grjóti
sundrlaminn sjá
samkundan öll,
ef at eins henni
með augna svifi
ek, sem bana boð,
bendíngu gef!

At ásjáanda
aflífast skal
gjörvöllum grúa
Gyðínga þjóðar,
rètt hjá Rómverjum,
ró-spillir sá!
síðan munum vèr
sitja' at dómum
harla hróðugir,
ok í helgidóm
Guðs inngánga
með gleði-saungvum.

Phílo sagði svo,
ok samkomunni
frammi fyrir
forsugr gekk,
ok með upplyptum
örmum síðan
stóð sterk-hrópandi
strax at nýu:

Há-sæli andi,
hvar sem þú ert!
þá er með skarti
skrýddr himnesku
sitr Abrahams
við síðu þú,
ok þik allt um kríng
ypparliga
saman safnaða
hefir sjáendr!

Eða þegar þú
þinna máske
í sona virðist
söfnuð gánga,
ok dvelja dróttum
dauðligum hjá,
ó þú ens mikla
Móisis andi!

Ek sver þèr eið
við hinn eylífa
sáttmála, sem þú
af sjálfum Guði

frœddr fœrðir oss
útaf fár-viðri
storms ok eldínga
stórkostligustu!
Ek skal ekki fyrr
unna mèr hvíldar,
enn þinn hatandi
er í hel sleginn,
ei fyrr enn framber
at fórn-altari
þakklátrar þjóðar
þessar hendr
fullar Nazaríngs
af ná-blóði,
þær hátt hefjandi
yfir höfuð mèr
grátt fyri laungu
af gamals hærum!
Svo sagði Phílo,
ok sik kyndti
allann upp
til innbyrlíngar,
at Guð ei gjörði
grafa saurindi
með kalki klíndra
kunnug ok ber.
Hjartat hræsnis mann
hann þó nefndi,
þat fann hann fullvel
ok frammi stóð,
án þess augun slikt
uppskátt lètu,
samkomunnar
fyri sitjendum.
Af grimd ok æði
yfirkominn
gat nú Kaíphas
eigi gagnast sèr,
hann á gullinn stól
heiktist niðr
allr titrandi,
enn augun brunnu,
hann glápti' á gólfit,
ok gat ei mælt.
Nú sem þat sáu
Saduceæi
risu fárs fullir
móti Phílo þeir,
jafnt ok jóir
fyri járn-vagni
stökkva stjórnlausir
í styrja rimmu.
Nær næmt hvínandi
niðr leyptrar
fleinn sá á flugi,
er fóríngjannm,
þann dröslar drógu
dauða færir,
ok með blóð-blástri
byltir um koll,
at mistu megni
millum þeirra.
Hvía hneggjandi
hátt þeir í lopt,
stappa storð fótum,
sem stynr skekin;
tinnar ógn útaf
augum þeirra,
þeir frýsa ok freyða
gegn fleina stormi.
Í slíku æði
hefði aðskilizt,
ok sèr sundrdreift
samkoman öll,
nema nú hefði
nærri staddr
göfgur gengit fram
Gamalíel!
honum skein skynsemd
skær af augum;
hinum hygguari
hann svo ræddi:
Megi hèr mannvit
midt í stormi
römmustu reiði
hafa ráð nokkr,
ok ef vísdómr
yðr er kær,
þá ljáið, feðr!
lítinn tíma,

eyru yðar
orðræðu minni!
Ef hið eylífa
ágreiníngs stríð
vaknar æ aptr
yðar á milli;
skuli flokk yðvarn
Pharísæi
ok Saducæi,
svo heitin nöfn,
í tvo atskilja
æfinliga,
hve munuð þèr þá,
þeim er hatit,
Spámanni geta
spirnt frá lífi?
En máske Drottinn
deilu girnd þá
öfundarfulla
yðar á milli
sendi sjálfr
ok sundrþykki,
af því hann hafi
ennm hærsta geymt,
úrskurði sjálfs síns,
sök at dæma
Nazaríngsins,
er þèr nefnið svo.
Látit Drottni' dýrð
ok dóm sinn eptir!
veikir verðið þèr
til at viðstandast
skruggu skellum hans;
skjótt munduð þèr
víst hans voldugu
vopnum undir,
hvörra hreifíng við
himnarnir titra,
auðvirðiligum
í aur liggja.
Þreyið ok þegit
þèr fyri Drottni!
standið stilltir við,
uns stríða heyrið
duna komandi
dómarans raust!
ræða mun hann brádt,
ok róm hans vara,
í frá uppgaungu
eyru jarðar
ok niðrgaungu
munu nnmit fá!
Segi Guð þrumu:
sundrmer hann!
ok óðum stormi:
í áttir fjórar
blás hans brotinna
beina dupti!
eðr sveipanda
sverði hvössu:
upp! lát hefndar hönd
höggva með þèr!
svelg þess syndara
sekann dreyra!
Ok ef hann býðr
iðrum jarðar:
opnið yðr,
uppsvelgit hann!
þá er hann eflaust,
eins ok þèr segið,
drauma diktari
dauða sekr!
En ef heldr hann
himneskum með
furðuverkum fram
fold at blessa;
ef fyrir hjálp hans
hjarta-gladdr
lyptir hinn blindi,
sem hann læknaði,
andliti sínu
upp til sólar,
ok horfir heilskygn
hann leiðanda
forundrun fylltr
á Föður sinn.
Tilgefið, feðr!
ef ek tendraðr
mjög, af mikil-leik
hans mildiverka,

máske, yðvars at
áliti geðs,
ofhánn orðum
um hann ræði!
Ef aptr opnast
eyru hins daufa,
svo þau manna mál
meigu heyra;
ef þeim nú á ný
at nema gefst
raust kennimanns,
sem ræðir blessun;
mjúkt brúðar mál,
ok móður harma,
helgi-halda saung
ok Halelúja!
Ef enn af honum
uppreistir menn,
sem liðnir lágu,
lifandi gánga,
megn oss mælandi
mótvitni gegn,
æ! þeir augu sín
endrlifnuð
hefja með hágrát
uppí himininn!
þeim svo undir eins
á oss renna
guðliga gramir,
ok á gröf sína,
hvar þeir lágu lík
oss láta bendt,
einnig ógna þeir
oss með dómi,
sama sem fyrir
sjálfir stóðu.
Haldi hann ok fram
háttalagi
því enn gjör greinir
guðdómligt sik,
oss fyrir augum
óstraffanligu,
ef hann manndygð með
máttugri svo
enn sik auglýsir
undrunarverðann,
ok í góðgjörðum
er Guði líkr.
Ek þá, ó feðr!
yðr særi
við Guð lifanda,
at þèr gefit svar,
hvört vèr honum þá
skulum hel dæma!
svo greindi gætinn
Gamalíel!
Mjög hár miðdegis
megin-geislum
jós röðull yfir
Jerúsalem!
Júdas nálægði
jafnframt því sik
presta samkomu
prettafullr,
hafandi' í huga
hana at finna.
Með fljótum fetum
fyrir honum
örkuðu Satan
ok Ithúriel,
stóðu þeir um stund
í stórum sal
kyrrir þá
hjá kennimönnum,
ok sáu, sjálfir
þó sæust ekki,
djúpt í rekka röð
ráðstefnunnar.
Nikodemus nú
nákvæmliga
ásýnd allra sat
athugandi;
mjög lík manni þeim,
er misgjörð framdi,
sá bleikr blýnir
ok blikuskelfðr,
Guðs grimmar reiðir
þá geisa í nánd,
eins var samkoman
á at líta.

Sjálfr Kaíphas
sýndist titra
ok Phílo fyrir
fagri vizku
ens geð-göfuga
Gamalíels;
jafnframt með felmtri
ok fyrirlitníngu
nú sá þá nötra
Nikodemus;
reis hann upp röskur
ok ræðá þorði:
Mikil-myndaðr
mannvinar þokka
af sèr band öllum,
er hann litu,
ángr ok einurð
alvörugefin
andlit uppfyllti
auðsjáanliga
þess ens þenkjanda,
þar sem hann stóð!
Öll hans ásýnd
ok yfirlitr
rædda rósemi,
sem rann um brjóst;
ítrar samvizku
ok óflekkaðrar
tveir trúir vottar
hans tær augu,
feldu fögur tár,
sem fúlust eigi,
meintu sik mæla
fyri mönnum hann.
Orð hans inntu svo:
eylífliga
blessaðr, beztu
borinn heilli
Gamalíel
meðal guma sèrt!
blessnð sè ok sú,
sem þú hirtir,
maðr dýrmæti!
muns þíns ræða!
Herrann hefir þik
til hetju sett,
ok mækir beittann
þèr í munn gefit!
öll vor atskilin
enn titra hein,
sem þróttr þrykkti
þinnar túngu!
Hnígа vilja vor
vanmegna knè,
enn er oss fyrir
augum dymma;
ok vèr enn sjáum
í ógnar veðri
stráugrar ströffunar
hinn sterka Guð,
svo mynnast meigi
mótstríðendr
hans miklu verka
moldar þeirrar,
sem þeir í fyrstu
eru fæddir af!
Sá hinn sami Guð,
sem þèr kenna
virðtist vísdóm þinn
ok veitti hjarta
einbeitt ok údeigt
til ályktunar
ok hetju huga,
með hlífð ok vernd
gæti þín, góði
Gamalíel!
Sjálfs Guðs, Messías,
sendiboði
sè þinn Messías,
ok sæðis þíns!
en yðr! yðr
at árna lukku,
Guðs æðsta Spámanns
ofsækendr?
ei þèr, Kaíphas!
ei þèr, Phílo!
Ek tárum úthellt
fyrir yðr gèt,
svoframt annars er
enn þá nokkr

harms raust heyranlig
hjörtum yðar,
ok svo framt enn nú
yðar fá hrært
sálir sár, úthellt
fyri sakleysit,
tár af mannligri
tilfinníngu!
Nú kveinar tára
kvartandi raust,
svo frelsat fái
frómt sakleysi,
ó heyrið, heyrið
hana, feðr!
því þegar úthellt
hefir þess verit
með heiptar hendi
helgu blóði
miklu hærra mun
ámóti þeim
duna dreyra hróp,
sem Drottins þruma.
Hrópandi hefst þat
í himin upp
allt til eyrna
þess ens eylífa;
hann mun heyra þat,
ok híngat koma,
til at sækja sök
síns ens deydda,
ok mun hefna hans
með hörðum dómi
voſeifliga,
ok þat vægðarlaust!
Júda, Júda!
hvar á jörð lifir
meðal mannanna
Messías þinn?
ok sè hann ekki,
mun frá uppgaungu
til niðrgaungu
níðínga blóðs
hann áfmá alla,
sem áðr höfðu
enn helgu hans
í hel slegit!
hann at svo hermdu
hvarf til baka.
Sat með hótandi
heiptar augum
fok-reiðr Phílo
ok af fár-æði
geisandi grimdar
gjörvallr skalf
í sèr innvortis,
en af drambi
huldi hann reiði
með harðri kúgun!
En sú öll kúgun
var til ónýtis,
sortnaði sjón hans,
ok sik hann kríngum
breiddi bráðliga
birtulaus nótt,
svo hann sá ekki
samkomuna!
Annathvört hlaut hann
at hníga þar
í aumt ómegin
örmagna niðr,
eðr hans orðit
ís-storkit blóð
hlaut allt í einu
upp at vella,
ok fjör-eld Phílo
færa' at nýu!
Nú tók þat til
at tendrast aptr,
ok frá hjarta hans
hátt þrútnuðu
gaus uppí andlit
ok augna svif hans;
full-sýndi fasit
hvað Phílo var!
stökk hann stríð-ólmr
strax á fætr,
reif sik útaf röð
ok rauk af grimd!
Eins ok skelfiligt
skruggu veðr

nær staðar nemr
í nánd veranda
feikna fjalli á,
sem fór engi,
nokkurt nið-ský́a
næturligustu
þrumum þúngbúnast
ok til þrauta kyndt
einsamalt útbrýzt
frá öðrum slitit
Ok nær hin at eins
yfirfalla
cedrus trjá-toppa
tilbýr þat sik,
himin-hvarfi frá
til hins á móti,
fagra skóga fjöll
í funa' at leggja.
Þat mun háturnat
hilmis setr
mjög míklar borgir,
mílur at lengð
at þeyttum þrumum
þúsundsinnum
uppbrendar grafa
í ösku rústum.
Svo branzt Phílo fram
feikna grimmr;
Satan sá hann
í sal staddr,
ok við sjálfan sik
sagði þannig:
vertu mèr vinr!
vígðr til máls!
Eins sem vèr vígjum
í voru niðri
vítis afgrunni
vígir ek, Phílo!
Þik til at tala,
ok túngu þína!
streymi ræða þín
stjórnlaus ok óð,
sem hræðiligir
helvítis blossar!
Líkt sem logandi
löguriun sterk,
ok sem á flug færð
af flapri þrumu,
þat er munnr minn
fyri mál hefir,
er hann fram flytr
mín föstu boð!
Eins ok eitthvört sinn
í afgrunns dýpt
mundi mann-fjandskap
með ok reiði
af tívum talast
til þess fjalla
óendanligra
orð niðr send,
svo straumar hlýðandi
þau strax lærðu
ok inntu straumum
umhverfis sik!
Flyt svo fram ræðu,
Phílo þína!
ok þinn öflugr
orða rómr
færi fólk þetta
fángit í bönd,
sem af svefn-töfrum,
með sigr-hrósi!
Svo sè þánki þinn,
ok af þvílíkum
tendrat hjarta þitt
tilfinníngum
ólgi svo ákaft,
at útaf flói,
at þær ei sjálfr
Adramelech
metti sèr mínkun,
þótt maðr væri!
Ræð Nazaríngnum
neyð ok dauða!
ek mun ómakit
umbuna þèr,
ok þitt heillt hjarta
meðr helvízkum
fögnuði fylla,
svo fljótt sem þú

lítr hans á láð
laga dreyra!
Ok með tíðinni
ef til vor kemr
mun ek ljást þèr
fyri leiðtoga
til samsætis,
með sálum þeirra,
sem hetjur hètu
meðan hèr lifðu,
ok mikilmenni
fyri manna dráp!
Svo mælti Satan
sèr fyri munni,
einn heyrði orð hans
Ithúríel;
Phílo stóð í stað,
ok með straungum svip
hóf upp til himins
heiptug augu,
tók svo til orða
ok tjáði þannig:
O! blóðs-altari,
á hvörju Lamb
fórnfærist Guði
til forlíkunar!
ok þèr herrans hin
há-ölturu,
af hvörjum áðr
upphófu sik
óvanhelg offr,
ilmr Guði
hvörvetna sætr
ok harla kær!
Ok þú Guðs egit
allrahelgasta!
þú sjálf sáttmálsörk,
ok þèr sitjandi
dýru Kerúbim,
dauðans engill!
næst þeim nefnir ek
náðarstóll, þik!
A hvörjum áðr
sat hinn eylífi
óburt ýfðr þá
enn af mönnum,
ok útaf helgri
ósèðr dymmu
sagði sjálfr dóm
yfir syndurum!
Drottins musteri,
er með dýrð sinni
forðum fyllti
faðir æðstr!
og þú heyrandi
herrans radda,
mikla Moría,
Moría fjall!
Nær yðr náir
hinn Nazariski
öll í grunn
at eyðileggja,
og nær hin önnur
illmenni þau,
er þeim áhánga
ófriðarmanni,
eins gjörast yðar
afmáendr,
em ek síknsaka
af sundrun þeirrì.
Skuld em ek engi
þó afkvæmi vor
gángi geð-sturluð
með grátnum augum,
krapt-lúnum knjám,
ok kapp-gnúnum höndum
fari leitandi
síns feðra Guðs
hans á háleitum
helgidómi,
fari forgèfins,
ok finni hann ekki.
Nè þó Nazarets
nýúnga smiðr
seti sèr þar trón,
er sat áðr
konúngr himins
yfir Kerúbim;
eðr þótt allra
fyrir augliti

veifi reykelsi
vanhelganda
afguðs þrælar þar
þrjót til æru,
hið fagra fortjald,
hvar fyrri hèkk!
Hvar at eins áðr
enn æðsti prestr
með huldu höfði
ok með heitri bæn —
eigi var þess unnt
öðrum nokkrum —
mátti nálægjast
náðarstóli.
O Guð! varðveit þú
augu mín frá
þá eymd ok ósköp
á at líta,
lát fyrr lykjast
ok sitt líf missa,
enn at slík andstygð
eyðileggíngar
fallít fái
fólk þitt yfir!
Enn allt hvað ek má
til at afvenda
nú svo nálægu
niðrhruni,
þat gjöri' ek gjarna
fyri Guðs sakir!
ó sjá, ek hèr stend
fyrir augum þèr!
O! veit mèr áheyrn,
Israels Guð!
hafi heyrn þinni
á himnum uppi
nokkru sinni náð
neðan af jörð
grátbeiðni manns,
sem gjörð í dupti
auðmjúk óskaði
einhrörs af þèr.
Hafi hast gripit
himins eldr,
eptir auðmjúkri
Eliæ bæn,
mildíngs menn
til morðs útsenda,
ok þá uppsvelgt
á augabragði
kvika, komandi
af Karmels toppi.
Ef jörðin uppsvalg
í yðr sín,
er þik Amramsson
ákallaði,
Kore, Dathan,
ok kund Abírams,
kvikir sukku þeir
í kvið hennar!
O! svo heyr mik nú,
Israels Guð!
mótstöðumönnum
mælir ek bölvun,
þeim sem þik forsmá,
ok þann verndа
misgjörðamann,
sem Mósen hatar!
Njót þú niðrlags,
Níkódemus!
eins ok dreymandinn
daga þinna!
greftrun gefist þèr,
sem griða spilli
meðal morðíngja,
þeir er musteri,
eins sem altari
yfrit lángt frá
helgrýttir heygjast
í hrúgum steina!
Hart sè hjarta þitt,
þá hèðan deyr,
ef' gefit Guði,
gagnstædt honum!
án sè auga þitt
allra tára!
synjat sè því gráts,
ef síðast vilt
deyandi þèr
til Drottins snúa!

Fyri því at þú
þessvegna grèzt,
at fúlann fóla
forsvaraðir,
ok at þræl-þvíngat
hefir þitt auga,
eunm eylífa
uppvægt móti,
óheilögum út
ausit tárum!

Ok þú gatst þik gjört,
Gamalíel!
falsfullum dreymi
at forsvarsmanni!
æ sè auga þitt
umvafit myrkri,
ok skugga skýlu
skelfiligri!

Sittu svo ok bíð,
uns sá kemr
Nazaríngr þinn
*með nauða bót!*
hým, uns þèr hjaðnar
hjarta ok kraptr,
enn til ónýtis
eptir honum!

Lykji eyru þín
lángvinn deyfa!
ógnarlig afdrif
fái æfi þín!
ligg þá lífvana
ok lengi vona,
uns hinn Naðverski
ná þinn vekr!
ligg í fis fúinn,
forgefins bíð!

Ok sem þú sagðir,
seinast í draumi,
aumri alþýðu,
sem eins ok þú
dymmum dáist at
drauma-manni:
tími sá kemr,
takið eptir,
at hann mik mun
af mold uppvekja!
svo öll alþýðan
um þitt leiði
sparki spottandi
Spámann ok þik!

Standi þá sál þín
fyri stóli dóms
ok heyri úrskurð
á þik feldann!
upphef armlegg þinn
ógnarligann,
Guð! ok glæpa mann
grimmliga slá!
lát Nikódemum
verða nóg sleginn!
fær í fullkomnu
formælíngar,
þær ek þuldi fram
þèr til æru!

Ok hinn, sem hefir
honum næstr
beygt í keng knè sín,
lát krjúpa' í dupt
at galhbi gjörðann,
Gamalíel,
í dymmri dys,
þar dauðinn byggir!

En þríf í hönd þèr
þinnar reiði
gjörvalla grimd,
af geisi hvörrar
helvíti hristist,
ef þú hjá gengr,
ok hinn föstu fjöll
foldar titra!

Tak þrumur þínar,
er þik um kríng
allstaðar öskra,
óendanligi!
slá þarmeð þann,
sem er þeim stærri
og gýfrligri
glæpamaðr!
lát þær ná niðr
á Nazaríng!

Ek, sem var úngr,
er orðinn nú
grátt af hærum
gamalmenni;
sífeldt hefir ek,
at siðum feðra,
þèr veitt þjónustu
ok þekk offr!
En ef augu mín
aðfram komin
líta lætr þú,
lifandi Guð!
nýstandi neyð þá,
at hinn Naðverski
villu-höfundr
vinni sigr;
At þinn eylífi
einkis metinn
sáttmáli sè,
og sömuleiðis
hár helgidómr
hafðr at öngvu;
ónýttr eiðr,
ok öll blessun,
er í öndverðu
Abraham sórst,
ok svo eptir hann
Abrahams sonum;
þá læt ek þèr nú
þar sem ek stend
æ þaðan uppsagt
allri hlýðni;
fyri gjörvöllu
Gyðíngalandi
lýsi ek mik lausann
við lög þín ok rètt!
ek vil upp frá því
án þín lifa!
án þín mun ok mitt
máttvana höfuð
gamalt ok gráhært
í gröf sik leggja!
Já, ef þú ekki
frá augsýn jarðar
dregr dreymanlann
drepinn á burt,
sjá, þik hefir þá
þú aldreigi
augum Mósis
opinberat,
svo var þat hann sá
sjónhverfíng ein
rótum Hórebs hjá
í helgum runni!
Stègstu víst eigi
með stór-undrum
nokkru sinni
niðr á Sínai;
eingi básúna
belja mundi;
hvörki skalf skrugga,
nè skalf þar fjall!
Vorir feðr,
ok vèr sjálfir
erum frá öldum
óþenkjanligum
harmi háðastir
meðal heims þjóða,
vei oss vesælum!
vèr höfum þá
ekkert lögmál enn
af þèr fengit;
ok þú ert ekki
Israels Guð!
Phílo sagði svo,
ok síðan brádt
gramr í geði
gekk til baka!
stóð með ásjónu,
staranili á jörð,
niðrvendri nú,
Nikódemus.
Þat var þvílíkast
at þar stæði
einn sem umlíðr
yfirgángsmann,
hann án orsakar
undirþrykkjanda,
sjálfr sinnis-rór
af sakleysis,

ok af dáðríkrar
dygðar sinnar,
tígugleiks transtri
tilfinníngu.
Er í ásýnd hans
alvara skír,
ok innst í sálu
yndis-skær himin;
á mundi minnast
maðr guðligr,
fullr ljúfustu
lotníngar þánka,
Nikódemus nú
nóttina helgu,
þegar tveir einir
töluðu saman
Messías ok hann
mikilvæg orð,
um eylífðina,
ok yfrit djúpa
leyndardóma
lifanda Guðs!
Þá hann þel-djúpum
þenkíngum í
með svip ok sjónum
sálarfullum,
ok með himnesku
hýrleiks brosi
við mund Messíæ
mælandi stóð!
Ok sá andlit hans
allt fullt náðar,
ok meiri anda,
enn at manns væri,
glansa gegnum hans
guðdómlig augu;
hèr sá hann skína
í huldu-lausri
prýði sakleysi
Paradísar.
Hèr sá hann háleit
ok himin-skær
Föðurs ímyndar
eylífrar merki,
í fullri fegurð
Föðursins Son!
þannig stóð hann þar
þánka stiltr,
trúnaðar transtr
ok tilbiðjandi,
miklum mun sællri
enn at menn hræddist.
Öflugr eldr,
ótti frá himni
hófu hann svo upp,
at honum var
fyri sjálfs Guðs sjón
sem hann stæði,
fyri múga mergð
mannkynsins alls,
ok fyrir efsta
allsherjar dómi.
Starði ríkt á rekk
ráðstefnan öll,
uppfyllt augu hans
yndælum friði,
ok, þeim mángi má
móti standa,
dólga fælandi
dygðar eldi,
hræddu hatendr
ena hrekkvísu;
fólsku-fullir
fundu þeir hann,
ok þoldu af þvíngun
þat hann ræddi:
Sæll em ek þess,
at ek sèð hefi
með augum mínum,
Messías þik;
farsæld fagnar ek
at feðra vonir
ok lýða Leysir
litit hefi.
Eptir hvörs áðr
optliga sjón
aldinn Abraham
andvarpaði
með sjálfum sèr,
þá sat í Mamre,

þann dag þreyandi
í þeli hljóðu.
Hvörn gjarnan hefði
híngat niðr
beðit buðlúngr,
til at biðja Guð
skapaðr, Davíð,
úr skauti föðurs;
hvörn spámenn Herrans
helgir þreyðu,
dauðligu djúpt
í dupti beygðir,
með trega tárum,
sem taldi Guð,
ok samansafnaði
í sjóð á himnum.
Hvörn enn hærsti Guð
hefir veittann
ómakligum oss
til endrlausnar!
já, hánn himin
hefir þú rifit,
föðurs frumburðr!
ok flýttir þèr
til þjóða þinna,
þær at blessa.
Ellegar, svo sem
samkomu-menn
þessir nefna þik,
þvættir drauma,
upphlaup æsandi
illgjörðamaðr;
þik sjálft sakleysið,
syndlausi mann!
þora þvílíkir
þannig nefna?
Hvönær last þú lýð
logna drauma?
hvönær hefir þik
hendt nokkr synd?
stóð hann ei eittsinn
fyrir augliti
samansafnaðra
sona Jacobs?
ok varst þú ei þá
þar staddr Phílo?
Hrópaði' hann ekki:
hvör af yðr
nokkra misgjörð má
um mik sanna?
hvar fólst þá, Phílo!
fors ok reiði,
nú laus á þessum
löstunar vörum?
Því stóðstu þá svo,
ok þinn flokkr
allr orðlaus
umhverfis þik?
þá var þögn of allt,
ok þreyandi augu,
andlit frá sèr færð
full af gleði,
andlit af ótta
ok áhyggju-full!
Með steinhljóðs stilli
stóð þá allr
sagðr söfnuðr
ok svara beið,
at sik einhvör fram
með ásökun
gègn honum gæfi
fyri glæp nokkurn.
En þar af öllum
ótöluligrar
mann-mergðar skara
móti þessu
ekki var einn
sá er uppstæði
at bera glæps gjörð
hinn guðdómliga.
Þá hóf sik hljómr
hárrar gleði
öllumegin at
af óskum fólks
um heill ok blessun
uppí himininn!
skalf þá Moría,
skógi þakinn
enn efsti toppr
Olíu-fjalls

hristist af megni
hrópandi radda!
þrengðu sèr þá fram
þeir er sjónar
ok heillrar heyrnar
höfðu saknat,
ljúfa lúkandi
lækníngar þökk,
ok heiðrun honum
af hjarta glöðu.
Enn kom þar urmull
ótalinn fólks
þat er hans áðr
með undrverki
mettat hafði hönd
á heiðum úti,
þusti þat nú fram
ok með þakklæti
mildann miklaði
manna vin þann!
Meðal ens mikla
mann-skara þess
hóf upp háa raust
ok hann kvaddi
ýngismaðr einn,
þann áðr hafði
hann af heli reist
við hlið Naims;
sá svo hrópandi
sagði til hans:
Meira þik enn mann
meðkennir ek;
án syndar allrar
ertu fæddur!
sannarliga
ertu Sonur Guðs!
þvíat þessi hönd,
sem ek þèr rètti,
stirðnuð var, styrklaus,
ok stein-dofin!
Eins voru ok augu
aptr-lukt mín,
þeim ek nú opnum
á þik renni
grátandi af gleði,
þú guðdómligi!
einnig sálin sjálf,
sem af kæti
trú-hjartanligri
tilbiðr þik,
var vissuliga
við mik skilin,
borinn var ek burt
til bygðar dauðra!
En þú gafst aptr
örendri mund
ok luktum augum
líf og krapta,
svo ek sá á ný
sól ok hauðr,
ok móður mína,
hjá mèr sem skalf!
Önd mín kom aptr
af þèr kölluð,
ei var áleiðis
úngmennið nú
lengr borit
at líka gröfum!
meira þik enn mann
meðkennir ek!
eflaust án syndar
ertu fæddur!
Glaðr em ek þess,
þú er Guðs Sonur,
þú ert Frelsir fólks
hinn fyrirheitni,
mest metin unun
móður þinnar!
fögnuðr foldar,
sem frelsar þú!
Heyrðir þú hann svo
hrópa, Phílo!
þó stóðstu staðkyrr
starandi á jörð;
hví þagðir þú svo
at því sinni
í augsýn gjörvalls
Gyðíngalands?
En hvað vil ek hèr
herma þetta?

sem þèr svo gjörla
sjálfir vitið?
hefðir þú augu
heil, til at sjá,
ok hlustir heilar,
svo heyrt gætir,
væri vit þitt ei
vafit myrkri,
ok hjartat hertekit
af hrekkvísi.
O! þú hefðir þá
þekkt hann vera
Föðurs eylífs Son
fyri laungu,
ok ef þánki þinn
til þessa var
heldr hrakligr,
at hefðir þó
skirrst við Skaparann
ok skeytt honum,
Ok borið biðlund
bljúga í dupti,
uns hann af himni
hinn, sem dæmir,
loksins ljósliga
hefði lausann sagt,
ellegar æstat
öðrum kosti
yfir höfuð hans
hefndir ok bann!
Já, þú guðdómnum
játaða trú!
heilög mannanna
ok hugljúf vina!
þú dóttir Drottins!
dygðarinnar
kostuligasta
kennslumóðir!
Hvíld, ok himinsins
hæsta blessun!
ódauðlig, eins ok
þinn uppruni Guð;
fögur, sem einhvör
enna fullsælu,
ilmandi sæt
svo sem eylíft líf!
Hárra hugsana
höfuð-móðir!
farsældar fyllsta
frómleiksins lind!
eðr, svo sem þik
Seraphim nefna,
óútsegjanlig!
nær þinn eylífi
geisli sökkur sèr
í sál hærri!
En ella sverð
í óðs manns hendi!
fórna-norn fyrir
fjörrán ok blóð!
dóttir ens fyrsta
drottins-svika!
tóm trúarleysa!
trú ekki meir!
Eins ok eylíf nótt
ófrýn ok svört,
við velgjanligri
veginna blóði,
þeirra sem þú
lætr þrá-drepna,
er þú fram yfir
ölturun sjálf
darkar dreissug
á dauðra búkum!
Þú sem þeim rænir
þrumu slögum,
er heims eindæmir
armi sínum
en öngvum öðrum
hefir ákvarðat,
fætr hefir þú
á helvíti,
en höfuð hótanda
mót himni sperrir!
Omynd afskræmda
nær íllt þenkjandi
sál eins syndara
setr á þik,
þá mann-óvinar
meinsamt hjarta

umskapar aptr
þik til ófreskju!
Hefir þú háleit,
sem heitir trú!
mentat þar til þjóð,
þá at deyða
þann, án hvörs þú
værir þó engin,
þann, er guðligust
þinna barna
áðr umsúngu
enn þú á fold
vitjaðir manna
til at vanhelgast,
Höfund þarmeð þinn
sem þik hefir,
göfug trú! gjört
með guðdómligu
öllu því efni,
sem er inntak þitt,
hefir þú kennt þeim,
þann at deyða?
O! þú lærir oss
aldrei þetta!
þat fer þèr fjærri,
sem fóstr ert
þess ens eylífa,
upphaf friðar,
heill, herrans sáttmál,
ok himneskt líf!
Hrærist mín í mèr
magnliga sál,
hnè mín skjálfandi
hníga niðr,
máttr þúngsinnis
meðlíðunar
einnig ángistar
skèkr öll mín bein,
er ek allt þetta
með alvarligum
ígrundunum
yfirvega!
Mik grípr manna
megn viðbjóðr,
ok andstygð á þeim,
sem alfaðir skóp,
svo þrátt ek þenki,
hvörsu þèr lítit
með yðr megit
merkja þetta;
Ok hve þèr eruð
of hrakligir
at taka móti
tilfinníngu
í minnsta máta
svo sem manneskjur,
ok hvè ómáttkir
til at aðskilja,
ok at rannsaka
hina rèttu trú,
ok meta mnu hennar
frá morð-girni.
Ok hve auðvirðir
almugaliga
til at geta grillt
í glýu at eins
ens yfrit fagra
ok ástverðuga
sakleysis síur
enar sólskæru.
Hvað mun sinna samt
sakleysit því,
at þat af yðar
augum sjáist?
Guð sèr þat gjörla
með Guði himin!
hvörgi mun þat hrædt,
þó hrakmannligr
foldar syndari
fordæmi þat.
Meðan seraphim
sælir standa,
undrast yfir því
ok at því dást,
ok hátt af himni
Herrann sjálfr
brosir móti því
blíðum augum.
Þótt vèr í vorum
enum vesælu

dupts heima-hreisum
hvepsnir stöndum,
sem mest mælandi
mótvitni því,
hvörsu fis-smáir
ok forakts verðir
stöndum vèr þar þá
með þráttun vora?
Ok nær á alheims
efsta dómi
sælir Seraphim
fyri söfnuði
allra örendra
endrvöktum
í gegn oss gánga,
gegn oss standa,
ok gegn oss gefa
glæpa vitni.
Nær hið klára kall
Kerúbims raddar,
á oss öskrandi
ógn hèr niðr,
hrópar heiti
enna helgu Guðs
hann þá ræðandi
rèttláta sína
til sín tekr
með tignarfullri
sigrhrhross sæmd
inní sína dýrð.
O! hve vèr aumir
munum æpandi
hrópa til hálsa:
hyljið þèr oss!
ok, fallit fljótt á oss!
til fjallanna;
ok til sjáfarins:
svelg oss bráðlà!
ok til töpunar:
tín oss sem fyrst!
Svo oss ei sjái
enir saklausu,
sem vèr fellt fengum
í fordæmíngu!
svo faldir sèum
sjón enna frómu,
oss, framar öllu,
ógnarligra!
svo faðir fóstra,
er vèr fælumst svo,
síðr sjái oss
í sinni reiði!
Styð þú mik ok styrk,
stóri þánki,
voldugi þánki,
um veraldar dóm!
gjörst þú mèr Guðs fjall,
svo geti flúit
ek til þín upp,
þá er ofbíðr
sjón þín síðasta,
(er þik seinast lít)
mèr, minn deyandi
Meðalgángari!
Æ! ek finn þegar
allt ofgjörla,
hvörsu hjarta mitt
hrærist viðr,
hvörsu sèr sveiflar
sverð tví-eggjat,
hvast ok hvínandi
yfir hvirfli mèr,
er ek álengðar
yfirvega
dauð-daga þinn,
nær dregst at honum!
Æ! til einkis
ágæti þánki!
æ! til ónýtis
upplyptir þú
sál minni svo;
því sannarliga
eru viðkvæmu
vorkunar hjarta,
manns hjarta fullu
meðaumkunar
eymdar ok ángrs
óheyrauligar
þrumur þínar
enar þúngslægu.

þat er þèr ásett
at þú deyir!
ó guðdómligi
ýngismaðr!
þú hvöru ek úngann
á armi bar,
faðmaði fast
í fángi mínu,
ok þrykkti þèr
at þessu hjarta
fagnaðarfullr
ok forundrunar!
Hjá þèr í hríng
enir hyggnu menn
kríngum þik stóðu
ok kenníng þína
eyrum áhlýddu
athugasömum!
allir einum hug
undruðust þik!
Einnig upphimin
úthelltr stóð
þar í kríngum þik
á þeim tíma,
ótal skörum í
gegnum eylíf port,
ok nam kostgæfinn
kenníngu þína,
þèr framfærandi
fagnaðarljóð.
Sjá! lík liðinna
þú til lífs vaktir!
augu þín alráð
ofviðrum buðu!
gjarna gegndu þèr
geisandi lopt;
stilltist stríðviðri,
stormr þagði!
þú upphófst þik,
ok þurrum fótum
gekkst fram á græði,
sem um grund harða,
lögr lægði sik,
ok laut niðr
fyri þèr, sem fjall,
ok fjara varð!
lagðir þú leið þèr
á lygnu bífi,
horfðu himnar á
hvar er þú gekkst!
þèr dæmist dauði,
svo deyðu þá!
sè það ályktun
æðsta Föðrs,
heilögu handfest
í hans ráði,
at deya skulir,
svo deyðu þá!
En ek geng ok græt
yfir gröf þinni;
Bethlehems borgar
við brunu helgann;
þar mey María
þik mög sinn ól;
þar vil ek gjarna
gráta ok deya!
þú meðal manna
mesti ok besti!
þú sjálfs Guðs Sonur!
sáttmálaus engill!
ypparstr allra
ýngismanna!
eins ok þín auðnist
endalykt mèr!
Liðnum kýs ek mèr
legstað nærri
þessa rèttláta
róligri gröf,
í nánd við ná-bein,
sem njóta hvíldar
örugg án ótta
ok allra meina,
ok aptr uppvakna
til eylífs lífs.
En af þessari
út at gánga
rekka ráðstefnu
ok ræðu kappi
fyrir hví fresta
fætr mínir?

hreinn ok heilagr
ek hèðan vík!
Guð hefir heyrt mik,
hvað ek mælti!
Síkn, án saurgunar
af saklausustu
rèttláts, rángliga
ræntu blóði,
kem ek klár til þín,
kalla þú mik
hèðan frá heimi,
þú sem hann dæmir!
í ráði ránglátra,
sem rètt hata,
hefir ek, Herra!
hlutdeild öngva.
Hann stóð híngat til,
ok hèldt ræðu,
en nú fèll hann fram
ok fyrirbaðst:
„ó þú, sem áðr
enn Abraham varst!
mèr, ó Messías!
á mikils degi,
vertu mèr vitni,
veraldar dóms!
tigna'k, sem Guð, þik
með tilbeiðsln!"
Hann stóð aptr upp,
ok til Phílo
tók at tala;
en sem tignarligs
engils ásjána
var andlit hans,
svo skein þat skært,
er hann skírt ræddi:
Frekt þú, Phílo! mèr
formælt hefir,
en ek þèr blessun
aptr mæli;
svo hefir sá mèr
hinn sami kennt,
er nú ek, sem Guð,
ákallaði;
nem, Phílo! mál mitt,
Messíam þekk!
Þá þarað kemr
at þú skalt deya,
blóð ens saklausa
nær blöskrar þèr,
ok sem ægis flóð
á þik steypist,
þegar stráugt þýtr
þèr um eyru
hefndar háreisti,
sem herrans reiðir;
þá þú munt heyra
þik umhverfis
í dymmu duna
drottinlig spor;
járngáng jöfrs þess,
sem jörð dæmir,
Glamran rèttvísra
gjörðar meta,
sveipanda sverðs slag,
sem hann þeytir,
ok skot skelfilig
af skeytum hans;
drukknum af dreyra
enna dráp-gjörnu;
Þá er geist gengr
frá Guðs augliti
dauðans ángist út,
til at ógna þèr;
ok nú öldúngis
aðrir streyma
þáukar þúngliga
inná þína sál.
Þá fyri þínum
þrotnu sjónum
ekkert sýnir sik,
midt í sortanum
af dauðans dymmu,
nema dómr einn,
ok þú emjandi
af ángist sárri
með víli ok veini
veltist í kvöl
deyðanda þínum
fyri dómara.

Ok með ángistar
yðandi skjálfta,
ok hörðum harmi
Herrann biðr
mjög sárt mænandi,
um miskun ok vægð,
Guð heyri þik þá,
ok þèr vægi!"
Hann at svo sögðu
samkomunnar
þvert gegnum þyrpíng
þrengði sèr út;
hafði hann sik burt
frá hóp þessum;
jafnsnart með honum
gekk Jóseph þaðan.
En Ithúriel
útgánganda
Nikódemum
nú nærristaddr
guðliga göfgann
gat at líta,
hófst þá hann í lopt,
ok hárri furðu
inntekinn af
meðr útbreiddum
örmum sveif
yfir honum.
Horfðu augu hans
hátt þenkjanda
öll full af unun
upp til himins,
gjörðu glansandi
guðdómlig bros
engils ásjónu
umvafða sælu,
ok ósegjanlig
unaðs gleði
flaut um höfuð hans
á hægu flugi.
Svo sem engill einn
upphæðanna,
sá er varðveitír
sem verndar andi
elskendr þá,
sem með ítrum hug
unna hvör öðrum,
í undrun sokkinn
ok unun allr
á yndælum hvol
stendr hjá stóli
stillis hærsta.
A meðan æðstann
Elóa saung
lætr framfærðann
fyri Guði,
ok hörpu hvellri
býðr hærra mál,
um dygðar umbun,
endrsjón vina,
ok þeirra' er elskast
sýngr Elóa!
Hinn annar engill
um allt þetta
stendr af unun
upptendraðr;
harpan heldr fram
háfleygum saung!
hèr glymr hvellr
á hvell ofan,
ein hugsun aðra
yfirgengr!
Ungr engill,
sá er áhlýðir,
dansandi' af djúpri
dýrðar gleði
flýtr allr út
í ánægju,
sem nokkru nafni
eigi nefnast kann!
Eins stóð alfánginn
Ithúriel,
ok við sjálfan sik
sagði þetta:
"hve mun sæla sú,
sem þik krýnir,
eptir þat ásett
andlát er skèð
Meðalgángarans,
mikil verða!

þá er þú, mannkyn!
þessari líkar
fleiri sálir fær
at frómleiks hæð,
ok nú innan skams
aðrir kristnir
reynast sem þessi
rèttláti maðr!"
Hann sagði svo
ok Satans eyrum
gaf ekki gaum at,
þó gjörla heyrðu,
þá ei þar fjarri,
þat hann mælti;
Satan sá hann nú,
sinni staddann
upptendrun í,
fyrir utan sik;
fann hann fullvissa
fyrir höndum
sèr hærra Seraphs
sigrhróss gleði!
Nikódemus nú
þar nærri gekk
öldúngnum Jóseph
frá Arimathæa,
sagði svo til hans,
er sèr frávendi:
"þó skammaðist þín
þú fyrir hann,
Jóseph dýrmæti!
Jesú vinr!"
gekk þat grætt honum
gegnum hjarta!
En Jóseph orðinn
elfðari' í dygð
hafði þegar hellt
heimugliga
út með sjálfum sèr
söltum tárum,
at hann allt ofmjög
einurðarlaus
hefði tal-fýsn teppt
túngu sinnar!
Frá Nikódemo
nötrandi' af hrygð
gekk hann með gráti
ok gat ei talat,
fullr frómlyndis
fèkk hann nú lypt
at eins augunum
upp til himins!
Nýliga hafði
Nikódemus
viðskilit vafna,
þegar vèk á burt,
römmustu furðu
ráðstefunna,
ok til dómadags
djúpum í sal
blóðskuldar benjum
brennimerkta!
Sí-saurgum benjum,
hvörra sárindi
þeir sik þvínguðu
þó til at deyfa,
en sem eittsinn
munu ærit vídt
endrgjaldsins á
opnast degi,
at þær upp frá því
um eylífð blæði.
því þá má ekki
þaðan í frá
veikja vott þann,
nè með værð þagga,
er hinn eylífi
eindæmir heims
hefir í hvörs manns
hjarta sendann!
Allir þögðu þar,
ok þá hefði
samkoman sundrast
á sinn veg hvör,
nema nú væri,
þar í nánd staddr,
einmidt innkominn
Iscariot,
handsveinn hans,
sem þeir hötuðu!

Inn var Júdasi
Iscarioth
fylgt í setinn sal;
sáu þeir hann,
ok mjög undruðust,
öllum hárrar
ráðstefnu röðum
róligu með
fálætis fasi
framhjá gánga,
uns hann aðfærðist
æðsta presti!
Hann tók jafnsnart
móti Júdasi,
ok gladt at honum
andlit hneigði;
tóku þessir tal
tveir einir samt
hljóð ok heimugligt
hvör við annann!
At því enduðu
hinn æðsti prestr
sèr til sitjanda
samkomu ráðs
vendi' í vetfángi
ok við þá mælti:
"enn eru eptir
í Israel þeir,
sem ei sín hafa
fyri saurugum
enn nú auðmjúk knè
afguði beygt;
er maðr þessi
menta-sveinn hans.
Hafandi þrek þó
ok þor í brjósti
til at framfylgja
feðra lögum;
er því vel verðugt
at vèr honum
lúkum laun nokkr
fyri lofsverdt kapp.
Júdas fèkk þau fljótt
ok fór síðan
rembilátr burt
af ráðstefnunni;
stórum stærði sik
hans stolta geð,
at hann svo heiðrat
hefðu feðr!
Þó lítil litust
honum laun þessi,
hughreysti hann sik
með hýrri von
at miklu meira
mundi hljóta,
þá er hefði hann
með hyggindum
ok föstu fylgi
framkvæmt sitt verk!
Philo fèkk sèð
þann er framhjá gekk,
hafandi á honum
hatrligt auga,
var þat honum helzt
hjartanlig kvöl,
at einn auðvirðr
meðal almúgans
hreppa skyldi hlut
í hans æru!
Þó brá hann bendíng
brosandi á hann,
er hinn sem eldr
upptendraði
til at fullfremja
fyrirsett verk,
lengi horfði hann
hyggjufullum
augum eptir
Iscaríoth.
Eins horfir eptir
eyðileggjanda,
þá til hildar hljóp,
hervíkíngi
manna morðvargr
mesti ok fyrsti
með sáru spotti
ok með sigr-dans!
Þat var þessi,
sem þrykkti í hjarta

sterkrar stríðshetju
stöðugri grimd,
ok sèr innan brjósts
að útslökkva
minnstu merkíngu
mannelskunnar!
Flaðrandi flögrar
frægðar draumr
ok eylífs orðróms
um augu honum,
ok lystiligr
lárberja krans
sèst nú settr
á sigrandans höfuð!
Mikils metr hann
menn þá eina,
sem, til at sýnast
svo sem guðir
ódauðligir
í afreksverkum,
eins ok hann eru
óarga dýr!
Brunar bráð-ólmt ljón,
svo bjóði dauða,
hlær í hlustum þess
hljómr sætr,
nær stál-jörð stynr
undir stór-skruggum!
öngvann bilbug
gjörir brjósti þess,
þó hel-vein heyri
hinna sem deya!
Þat er víg-vönum
vargshuga gleymt,
at hann í kristni
eins var fæddr,
ok at stór stillir
stýrandi þrumum
muni hiklaust hann,
sem hina menn
til dómsins dýra
af dauða vekja.
Fylgdu Júdasi
Pharisæanna
óskir ok augu
áleiðis nú,
er hann grafinn gekk
í gull-drauma
lofaðra launa,
at leita Jesú!
Kristr kom útaf
Kidrons skugga,
leið lækr sá
eigi lángt þaðan,
gègnum pálma trè
gekk hann í dal;
jafnsnart leit hann nú
Jerúsalem,
ok fagrt musteri
fyrirmynd sína!
Sá hann fundar flokk
fjandmanna sinna,
sem ok hinn fyrsta
enna sannkristnu;
sjáið — sagði hann
til sveinanna —
borg, sem börn getr
ok ber vitni!
Börnum Jórsala
borgar yfir
græt ek eigi meir!
sjáið grafir
hinna heilögu,
sem hafa þau
aflífat alla
frá öndverðu!
Samt eru margir
af sonum hennar
með tíð sem munu
mínir verða,
mèr vígðir vottar
vissir sem þèr;
enn nú mun ek míns
mikla Föðurs
í ró fullkomna
ráðs ályktun!
Allt mun yðr brádt
augljóst verða!
fylgist fèlagar,
far þú, Pètr!

ok þú, Jóhannes!
til Jerúsalem!
ok sem þið eruð
innan múra
mun úngr maðr
yðr mæta þar.
Vatus-krús mun í mund
maðr sá bera,
ok opt fá augum
til ykkar rennt,
verðr honum vel
til vegfarenda;
þángat sem fer hann
fylgit honum!
Þá er þèr komið
at því húsi,
ræðit svo við rekk,
sem ræðr því:
okkr útsendi
eyrindis vegna
meistari okkar
til matreiðíngar,
at vèr höldum hèr
hátíð þessa.
Fljótt fylgir yðr
hinn frómi maðr
sómasamligann
inní sal nokkurn,
sá eð áðr er
al-tilreiddr;
fóru fèlagar
fúsir af stað,
ok sem þeim sagt var
sèrhvað fundu!
lètu þeir lambit
eptir lögmáls sið
snarliga búit
til snæðíngar!
Tafði Pètr ei,
svo at tilsæi
meðan matreiddist
máltíðar lamb;
hljóp uppá háa
húss lyptíngu,
ok með þrá horfði
útá þá síðu,
sem frá borg lá braut
til Bethaníam,
ef merkja mætti
Messíam koma!
Er hann augum svo
umskundat lèt
harla fljót-fleigum
fjarlægð hvörja
um grund gángandi
gat hann at líta,
ást-milda móður
Messíæ síns;
fáeinir fljóði
fylgdu vinir.
Sonar saknandi
sorgfull ok mædd
hafði hans leitat
hún um daga,
ok langat tárum
lángar nætur;
enn at óskertri
eðlis prýði,
mjög hrygg en mikla
María gekk!
Egin-ágætis
óvitandi,
heilagt sakleysi,
sem henni gaf,
ok dygð varðveitti
vandaðasta
hreinskilins hjarta,
af hofmóð öngvum
lýtt eðr vanvirdt
verðugust sál,
ok mest sæmandi
fyri manneskju
Verðug að vera,
væri nokkr
dauðligra drósa,
dóttir Evu,
ennar fyrst fæddu,
ef hún framhaldit
sakleysi sínu
sífeldt hefði.
Hárri saung sínum
samlík at tign,

sèrhvörjum ljúflynd,
líkt sem Jesús
arfa sínum af
elskuð mjög heitt,
kom hún með sínum
kæru vinum,
henni sem við hönd
hvörvetna fylgdu.
Hèr gèkk Lazarus
henni næstr,
hvörn af hel-blundi
hafði vakit
litlu fyri lát
Lausnarinn sitt;
Lazarus lofsæll
af lund himneskri.
Utkjörinn eylíft
til at erfa líf;
hans at hauðri vendt
hugarfull augu
hermdu hyggju dýpt
er horfðu niðr,
sameinaða samt
sèrligri hæð!
Sú er máli manns
eigi mælanlig,
kristnum einum af,
í andláti
fær með formerkíng
fundin orðið,
ok af þeim einum
enn öðrum sízt,
með mildu brosi,
fyri málfæri,
náir at nefnast
nafni rèttu.
Hafði Lazarus
í hug sèr dauða,
ok endrvöknun
aptr af gröf,
þá af myrkri mold
hann til Messíam,
svosem til sjónar
sjálfs hins eylífa,
uppstèg umvafinn
með ógnun Guðs!
Ljúflynd María,
Lazari systir,
hjarta frómt Jesú
heyranda víf,
sú í sakleysi
sèr fyrir honum
ok ró úthellti;
eylífa sèr
veljandi hlutdeild
við hans fætr,
hún var hèr í fylgd
með himins brúði.
Yfir allróligt
andlit hennar
dregin var döpur
dauðans bleikja;
augum sínum í
ángrsfullum
hún til baka hèldt
hjartnæmustu
tárum, sem í tíð
hafa tapazt út.
Hlupu hugsanir
helgrar meyar
með tíðri titrun
ok tilfinníngu
ýmist aptr
ok ýmist fram,
elskuligum af
unnusta hennar
Nathanael,
sem nefndi Jesús
ráðvandann mann
ok rèttsinnaðann,
Til himneska
hennar bróðrs,
sem eitt sinn áðr
örendr var,
en nú at nýu
upp af ná vakinn,
af herrans hendi
henni gèfinn,
hún í kyrð kendi
komandi dauða.

Eigi neins nema
Nathanaels,
ok hins himneska
hennar bróðrs,
Lazari vegna
lá henni svo
harmr um hjarta,
sakir hel-bleikju,
er samlags systur
svo umræddu.
Nú framar nálægt
í nefndri fylgd
gèkk hin siðsama
Cidli henni,
Jaíri jóð,
sem Jesús hafði
áðr af dauða
endrvakit,
varla voru tólf
vetr hana
í ró ráðvandri
runnir yfir,
æsku blómstur-björt
þegar burtfèllu.
Ok henni helsótt
hratt í dvala
frá gleði ok fró,
í friðar högnm;
sálnð lá Cidli,
fyri sjón móður,
en upp af djúpum
andláts svefni,
kominn Messías
kallaði lík,
ok gaf mæta mær
móður tvistri.
Hún bar nú heilög,
hvar sem hún fór,
með sèr merki-spor
manns upprisu,
þó hún þá ènn nú
eigi þekkti dýrð
hvar með heilagt líf
hennar krýnist.
Nè framsprettandi
þau en fögru blóm
eptirkomandi
æsku sinnar,
nè himneskt hjarta
til handa þèr,
þú æðri elska
endrlagat,
Eins gekk, nær uppvóx
Israels kvenna
Súlamith, svanni
sá hinn vænsti,
þá er hana hýr
hennar móðir
undir epla trè,
uppvaxta lèt,
hvar drós dægilig
dóttur fæddi,
sem þar síðar
vakti Salomon!
Vakti sína sú
sofandi dóttur,
mjög svo mjúklát
máli hvíslanda
sagði: Súlamith!
Súlamith vaknar,
fór á fætur
ok fylgdi móður!
Leiddi mær móðir
undir myrru trè,
ok í forsælu,
þá er fús sagði
grímu velkomna
til gistíngar;
þar í reykelsis
raka skýum
ástin himneska
ypparlig stóð.
Ok með innblæstri
í úngrar hjarta
tendraði fyrstu
tilfinníngu,
ok lærði lund hennar
leiptrandi þrá
eptir yndælum
ýngismanni.

Hvöreð ok handa
henni skaptr
tók at tendrast
af tilfinníngu
svo gekk Cidli
við síðu sprundi
jafnan heyranda
Jesú mála!
En í yndælum
æsku blóma
með furðu fögrum
fljúgandi lokkum,
ok ásýnd fríðri
sem úngr Davíð,
er hann Bethlehems
hjá brunni sat,
ok af unaðsemd
upptendraðr
merkti mál í lind
ens mikla Guðs.
En ei brosandi
eins ok Davíd
fylgdi sveinn Cidli
enni siðprúðu;
sá var Semída,
sem hjá Naim
liðinn lífgaði
Lausnari vor.
En nú upplypti
andliti sínu
prúð móðir Jesú,
ok Pètr sá,
hraðar hún sèr þá
ok hvatar gaungu,
Messíam mög sinn
at mætti finna;
Pètr var genginn
í prýddann sal
aptr nú
ofan af lopti;
hann ok Jóhannes
Jesú móður
með glöðu geði
gengu móti.
Kendu þeir kæra
komu svanna,
ok urðu af undrun
fyrir utan sik;
sem hana sáu,
því svo mjög ræddi
um hátign andans
ásýnd hennar.
Svo hafði en sami
hana sjálfr skrýdt
verðugleik, sem var,
fyrrenn varð maðr,
manna myndari,
ok mun þat verða
einnig hèreptir
öðru sinni!
Nær hann mun nýum
útaf ná-dupti
ítrar upprisu
eigi dauðligum
líkömum bjóða
í ljós at koma,
ok sik sameina
sálum eylífum!
Fylgdar fljóð hennar
frómustu tvö,
ok elskuverðustu
Israels dætra,
allmakligastar
ok yfirburða
af móður Spámanns
ens mikla síns,
í hógværð, auðmýkt,
ok ástsemd hollri
við mund Maríu
mjög sik hèldu.
Sem Tabor tekr
toppum hærra
gjörvöllum fjalla
Gyðíngalands,
verandi vottur,
at vegsemd Jesú;
at sönnu sitr
Síon í ró
ok fegurð frammi
fyri Guði.

At sönnu ágætt
Olíu fjall
mjög opt Messíæ
móttöku veitti,
er hann í hænum
erfiðaði;
at sönnu einnig
á enni háu
ber mætt Moria
ens mikla Guðs
allrahelgasta,
ok undir skelfr!
En yfir öll fram
Israels fjöll
tjáist þó Tabor
tignarligt vera,
útbreidt ypparlâ
fyrir augum Guðs,
vitni frábærrar
forklárunar!
Svo mundi meðal
María frúa
háleit helgra,
sem henni fylgdu;
nú sem hún sá ei
sjálfann Jesúm,
kominn með sveinum
enum kærustu,
gjörðist hún geðhrygg
ok gáng stöðvaði.
þegar mátti mær
máli hreifa,
suèri hún jafnsnart
at Jóhanne
alúðar augum,
ok orð þessi
góðmótlig greindi,
grèt ok brosti;
„Sá ek barn bar
á blíðum armi,
sá úngum augum
áhorfði mik
hýrt sèr hallandi
at hjarta mínu;
at tala, sonur,
titrar ek við,
því hann er helzt til
hár ok mikill
móður dauðligrar
at mögur sè;
Allt of öflugr
í undr-verkum
at af Maríu
alast skyldi,
ok hún sem syni
honum sárt unna;
hvar er, Jóhannes!
hugljúfi minn?
æ! hvar er arfi
nú ens eylífa?
Ek hefir ángráð
meðr áhyggju
lengi leitað hans
ok lángt gengið,
at ei vitji hann
ennar vanhelgu
jötunmóðs borgar
Jerusalems.
þeir vilja vin minn
vondir deyða;
deyða dirfast þeir
hinn dýrmætasta,
hvörn mínar hendr
hafa borit,
hvörn mín mjólkurrík
mettuðu brjóst,
hvörs móðurliga
mein grátandi
augu aðgætin
aumkaði sjón,
blómligs þegar bar
barndóms aldr!"
Frómr Jóhannes
lèt frú svarat:
til borðs at búa
bauð hann okkr,
ok at sundra sèr
sáttmálans lamb,
svo mun hann sjálfr
samstundis híngat

bráðliga koma
frá Bethanía!
Þrey nú þolinmóð
þar til hann kemr,
mæl þá við mög þinn
í makindum
hvað svo móðurligt
mynnir þik á
ok verðugt Spámanns
vors þitt hjarta.
Allir þögðu þá,
en hin þýðlynda
Lazari systir
læri-fljóð Jesú
hægt at hlust Cidli
hjartkærrar laut;
en sik Semída
nær Cidli færði,
þó var hann hljóðr
ok horfði niðr.
Hún vissi hrygð þá,
sem harla lengi
Semídæ sinni
hafði sárt stúngit,
horfði víf á hlið
til hans, ok las
sálar sárindi
í sorgfullum augum!
Hún las þar hátign,
sem með himneskra
ágætum prýðir
andlits merkjum,
svo lystiliga
líðandi dygð;
bráðnaði í brjósti
brúðar hjarta,
ok hljódt hvíslaði
hugsunum þessum:
Æ þann ýngismann
eðal-lynda!
hjá mèr eyðir hann
í hrygð æfi,
ok döprum dögum
í djúpri sorg!
æ! væri ek verðug,
at við mik legðir,
þú hinn himneski!
hug-ást þína!
væri Cidli þín
virðandi þess!
Ek hefir æskt mèr
ærit lengi
þess, at þín væri,
ok af þèr lærði
hve svo fögr sè
hin sæla dygð;
eins at elska þik
inniliga
ok á forfeðra
fornu dögum
útvöldum unntu
sínum unnustum
dætr Jórsala
dýru borgar.
Eins ok lystugt lamb
at leika' ok dansa
sem best at blíðri
bendíngu þinni;
rètt sem rósir
í róligum dal,
er sæll vordagr
sèr uppfóstrar!
þinni þel-hreinu
þannig at lagast
umföðmun í,
ok æ þín vera,
ok at elska þik
eylífliga.
Æ! hví, móðir mín!
mèr þú settir,
þitt hið svo harða
himneska boð?
en ek þegi þó
ok þinni hlýði
ágætri vitsku,
elskandi móðir!
ok hins eylífa
í henni raust!
þeim em ek offruð
ok öll helguð!

Ek er upprisinn!
ok oflítið
hvörvetna hèr frá
heyri til jörð,
at með dauðligum
dætrum ok sonum
af mèr ankist
ættir hennar.
At eins, óð-göfgi
ýngismaðr!
hlýtr þú hrygð
at hepta stránga
ok hin kærligu
klögumál þín!
O! at eitthvört sinn
æfi minni
háleit hugsvölun
heppnaðist sú,
at sjá endrkveikt
þèr í andliti
þau en blíðu bros
barnæsku þinnar!
Þá eigi þektir
þú önnur tár,
enn grát af gleði
glýjulausri,
er þú úngr sveinn
frá örmum kærum
mjúklátrar móðnr
í mína flaugst!
Hún þenkti þannig,
þrengðist hennar
harmþrúngit hjarta,
svo ei haldit gat
ljúflyndisfullum
lengr tárum;
sá þá Semida
Ciðli gráta,
en þótt hún ángruð
fyri augu sèr
blaktandi blæu
breidda lèti.
Með hægð harmandi
heimugliga
út frá sagðri sveit
Semída gekk,
ok í einrúmi
þá út var kominn
hrygð-höldnum augum
horfandi á jörð
þenkti þannig
í þeli hljóðu:
Hví harmar hún svo
hjartanliga?
gèt ek ei lengr
hana gráta sèð!
brast í brjósti mèr
bráðnat hjarta!
æ þèr of dýrmæt
ok ástrík tár
tær ok fögr tár,
með titrun stilltri
mynduð mjög hreldri
mær í augum!
Væri eitt yðar
einúngis fellt
mín vegna; mundi
mèr þat hafa
hugarhægð verit
ok harms sefun!
ek ber ángrs kvein
yðngliga!
hvörn dag harmar ek
fyrir hennar skuld!
Líf mitt harmi hrjáð,
hrygðarfullt líf,
er einn um hana
óslitinn þánki!
ó þú sem í mèr
ódauðlig býr,
háa húsmóðir
hreisis þessa,
önd af Guðs egin
anda borin!
Þú líking þess
sem þik fèkk skapta!
eylífð nálæga
sem erfa skalt!
eðr eins ok þik
ódauðlígir

heitit hafa
þegar hófst þú fyrst!
Framseg, ek frètti,
lát fræddann mik!
framseg fólginn dóm
forlaga minna!
opna nú þá nótt,
sem niðrhángir
yfir mèr
yðugliga!
Seg fram, svara því
sem ek frètti!
þreyttr þreyir ek
af þúngum grát!
lúinn at líða,
meðan líf varir
hörmuliga hrygð
hvörn ok einn dag
ángraðr af því
at eg lifi!
Hvarfyrir, hvört sem
ek hana sè,
er máskè uppreis
til ódauðleika,
eðr fjær Ciðli
annarstaðar
um hana hugsa
hjá mèr sjálfum!
Hvarfyri finn ek
framkoma þá
í heitt-hveranda
hjarta mínu
nýa þánka nú,
hvörra neinn eigi
fyrri hefir mèr
flogit í brjóst,
háar skjálfandi
hugleiðíngar,
útfljótandi
í elsku strauma?
Vegna hvörs vekr
frá vörum Ciðli,
sem silfr-streingjum
sýngjandi rödd,
ok svifafull sálar,
frá sjónum hennar,
negg mitt nötranda
af næmum slætti,
til at taka við
tilfinníngum
þeim sem þvílíkum
þrótt mik hræra?
þær er þreingja sèr
sem í þyrpíngum
kynja klárum
í kríngum mik,
svo sem saklaysit
er sèrhvör hrein,
ok svo göfuglig
sem gjörðir vísra!
Hvarfyrir hylr
hrygðin vængjum
með, sem miðnættis,
mitt höfuð þá,
ok í dauðs dvala
mik djúpt grefr,
þá daprann þánka
þann fyri mèr:
elski hún mik ei!
læt ek út útbreiddann?
Æ! svo sit ek við
ena svörtu gröf,
er ek eittsinn var
svo allnærri,
ok útaf eymdum
æpi mínum,
hel-kyrð hryllilig
hlustar til mín!
þráliga þá
vil ek þrant mína
ofríkis armi
yfirvinna,
safnar þá sál mín
saman öllum
tilfinníngum þeim,
sem tjá henni
ættgöfgi hennar
ok ódauðleik.
Sèrt þú — ek segi
svo til hennar —

aptr þín egin,
sem ert af himni
æðstum upprunnin,
ódauðlig sköpt!
Hèrmeð ek henni
háprúða lund,
og stórann stöðugleik
strax innrædi;
en hún orðlans,
sik at upphressa,
undir sínar á
ofan horfir,
fellir tíð tár
ok titrar mjög!
Hví er ek einn sá
sem eylífliga
án þess at elskast
elsku þreyti?
hví vill hjarta mitt
hefja sik þannig
jafnvel uppyfir
æðstu hjörtu
til þess at tjá sik
tígit ok aumt?
Hvað er þat í mèr,
sem yðugliga
hana hjá mèr
með heiti nefnir,
ef ek hafna hyggst
hennar at minnast,
at hún andist mèr
aldrei í brjóst?
Hvílik Herrans raust
heilögu með
hvísli sínu svo,
ok með samhljóðun,
sem varar verða
viðkvæmustu
sálir einúngis
sèr fyrir eyrum,
hermir í hljóði
hjartanu boð,
at ek án afláts
elski hana?
Hvörsu þögla þik
sem þú mèr tjáir,
ok, at sjá, svosem
sinnulausa;
æ! ef ek, Cidli!
at eins fyri mik
at þenkja þyrði
þik vera skapta,
hve þá hægt mundi
hjarta mínu!
Hve æskiligar
unaðsemdir
mundi minn andi
mynda sèr þá,
sæmdi Cidli mik
sinni elsku,
hve fagrar foldir
fullar af ró
mestu mundu þá
mik umkríngja!
O! mun ek meiga
mèr í huga,
ljúfi þánki! þik
þora' at leiða?
ok mun ei máskè
sú er mik píuir
þessi þúnga sorg
þik vanhelga?
Mín, þú mær himnesk!
mundir vera!
mín, ok þat ekki
eylífð skèmr!
þat mætti mæla,
fyri mik at þú
vissuliga
værir sköpuð.
Hærstu bendíngu
hvörrar dygðar,
er mèr annars var
ósýnilig,
af undirvísun
elsku þinnar
ek þá ljósliga
lærði at þekkja.
Ottasleginni
umhyggju með

bjóðandi bendíng
brjóst mitt fylgði,
skírt mundi' ek skæra
skyldanna raust,
en þótt álengðar
einnig heyra,
ok hennar hvísl
í hönd faranda;
róliga rás
ok róm guðligann
mundi' ek víst merkja,
þá mángi heyrði.
Yrði þat ok ei
til ónýtis;
eins ok ósekt barn
auðsveips hjarta
fylgt lèti' ek lèttu
lögmáli því,
svo blídt bjóðandi
bestu raddar.
At ek eign þína,
sem alls værir
mèr hin mætasta,
er hin mjög auðga
allsherjar sköpun
innibindr,
öngri yfirsjón
ósæmdi með!
Hve góð af Guði
gjöf værir mèr!
hve gyldi ek Guði,
sem gaf, þakkir,
at ek af þínu
ágætasta
sakleysi fluttr,
sem á vængjum,
í nánd við alsmið
elskuverðugann,
sá er svo fríða
samdi þik, komst;
Hann, sem mitt hjarta
hefir svo gjört
tamt, at taka við
tilfinníngum,
ok þat þarhjá
látit þíns vera,
þíns háa hjarta
sem himneskt er!
Svosem með sinnar
sálar-tendrunar
blíðu brosum,
þegar borin varst,
mjög glöð móðir þín
yfir mær grúfði,
ok sem hún yfir
ásjónu þína
af dauðans ángist
aflvana laut;
þá er þú hennar
enum þýðustu
faðmlögum frá
felst í dvala,
fyrr enn heyrði hún
hræríngu fóta
þess er þángat gekk
nè þæga raust
nálægt Israels
nauðhjálpara!
Svo hefir sál mín
sèrhvörri með
sinnis tilfinníng,
ok með sèrhvörri
upptendrun í sèr,
sem öflugt skók,
þennann þánka sik
þrátt viðbundit:
sjá! fyri Cidli
sèrt þú skaptr!
Ofan yfir hann
útbreidd grúfði
sí-skoðandi sál,
ok sá hann gjör,
eylífðarinnar
allann þánka!
sá hún í honum
hluta mikinn
vegsmarks, vegna hvörs
at varð hún til!
Hún var sem vín-teit
vegsamligum

upptendrunum af,
þær er allsjaldan
eins sterkar streyma,
í storð-búa sal
hingat af háum
himni niðr!
En í sára sorg,
sú er mælir
ok mark endanligt
ekkert þekkti,
í ógn ángistar
ónefnanligrar,
í dauðans dvala
drafnaði ok rann
sál mín í sundr,
nær sign' í hjarta
harðar hugsanir
hinar aðrar
aumrar ósorgar
ok einveru
þá! æ þá var ek
í því standi
öllum af
yfirgefinn,
ek var einmana,
öngvann mann sá!
þá varstu, mær, meir
fyri mik ekki!
ek var einnsaman
í allri sköpun!
O! viðr allt þat,
sem er heilagt!
fyri dygð dýra
ok djúpar ástir,
fyri fríðleik þinn
yfir foldar dupt,
sem sálu þína
sakleysis fulla
svo hátt upphefr,
fyrir hans sakir!
Ok sè nokkuð enn
ágætara,
ef nokkuð enn nú
er æðra því,
sakir undraðrar
upprisu þinnar
af dauðans dymmu,
þegar dáin varst!
O! við kórónur
klárustu dýrðar,
ok viðr verðlaun
vegligra dygða!
seg þú mèr, Ciðli!
ek særi þik,
hvílík hugsun er
í hjarta þínu?
Hvat er þat, sem þú
þar finnr til?
hve mun möguligt
at mitt hjarta,
er svo heitt elskar,
undum lostit,
þitt eigi þekki
þvílíkt sem er?
Æ þann stárvæga
ok sterka þánka!
ógnanda þánka,
ilmsætann þó!
at hún uppvakin
er frá dauðum,
at ek einneginn
uppvakinn sè!
at við ei máskè
aptr deyum
bæði til hærra
ok til betra lífs!
En þeig ofdjarfa
ósk míns þánka
ok við hugar eld
upptendruð svo!
mik hefir máskè
merkjum lengra
hugsun þessi
yfir hóf leiddann,
ok ek ofheitt
hefir elskat fljóð!
Hve fæ ofmjög ek
elskat hana,
er ek æski mèr
hins æðra lífs

miklu meir
með at njóta
enn dvalar dauðligu
í dupti þessu!
Með hvörri mik
svo mjög heitt lángar;
hvört heldr þaðra
eðr hèr á jörð,
enn meir at elska,
af henni kyndtur,
himins eylífann
höfund ok vorn!
En hins tilbeðna
tignarfullr
jöfurs Jehóvæ
Jesús Sonur,
lífgjafi minn,
er í lífs háska;
vilja dólgar hann
af dögum ráða;
Hèr er hann nú
í háska staddr!
en ek gèt ekki,
eða hvörnig
gèt ek því trúat,
at gánga muni
hel-veg hann,
sem af heli mik
svo voldugliga
vakit hefir?
ok hvað opt eigi
undankomst hann
æðis árasum
ofsækenda?
En ef ek fór villt
ei at síðr,
ok ek átt hefði,
þar yfir hans
háski þvílíkr
höfði vofir,
mik ei minni sorg
ok megnum trega
at ofrgefa
öldúngis svo!
Fyrirgèf þat þá,
þú hinn dýri
mann-hjálpari! mèr,
maðr guðligi!
þríf þik þá lausann
útaf þeirri sorg,
sem þik einann er
áhrærandi,
eins ró rænandi
rauna mæðu
ok máske ekki
æfinliga.
Sè gjörvöll sál þín
sí-miðandi
þau á þrauta lok,
sem þínum hefir
þegar fyri fram
Frelsir háum
eflaust ákvarðat
sá hinn eylífi!"
Hann þenkti þannig,
ok því næst gekk
jafnsart út
af Jerúsalem,
ok fór með flýti
fáligra til
kyrðar kætta,
þar köldu líki
hans verit hafði
höggvin út gröf.
En jafnframt þessu
Jesú móðir
uppstóð ok inuti
úngrbitin:
kæri Jóhannes!
hann kemr ei!
mun ek móts við hann
mèr því hraða!
Ef nú ei þegar
óvina hans
meguust morðgirni
mínum syni
spyrnt hefir dauðra
Spámanna til!
ef hann enn lifir!
sè arfi minn

elskuligr
eigi enn dáinn!
Ok sè ek verðug
augum at líta
enn nú eitt sinn hann;
æ! at skoða
augum mínum með
ef mèr leyfðist
ens spaka Spámanns
eigi spillta mynd,
ok líkams hegðun
míns ljúfa sonar!
Nær hans eitt sinn enn
andlit brosa
vìrðist með míldi
til móðnr sinnar,
þá vil ek voga
við hans fætur
guðdómi gædda
grátandi mèr
ok næsta skjálfandi
niðr at varpa.
Mundi María
Magdalena,
til náðar tekin,
titrandi svo
sèr voga at varpa
við hans fætur
ok þar úthella
auðmjúkum tárum,
hvör þó ei, sem ek,
er hans móðir!
Þat vil ek voga
vissuliga,
faðma fætur hans
ok fella tár,
ok nær augu mín
eru af gráti
óþreytt orðin,
á andlit hans
mun ek mæna þeim
móðurliga,
svo segjandi
með sárum huga:
Fyri fögur tár,
fyrsta gróða
misknuar þinnar,
sem mörg feldu
brár þínar, barn
þegar borinn varst,
undrunar munu,
ok alla sælu,
er í önd mína
úthellti sèr,
þá er englar Guðs
ódauðligir
fagnandi súngu
um fæðíng þína!
Ef þèr ek hefi
einhvörn tíma
daga þinna
dýrmæt verit,
ok ef þenkir þú
til þess sem leið,
heilagri hvörsu
meðr hollustu
ok barndóms blíðu
borgaðir þú
mèr ena miklu
móðnr gleði,
Er ek eptir leit
áhyggjufulla
í húsi hitti
heilögu þik
meðal meistara
ok margra presta,
er með undrun
ok orðaskorti
allir saman
á þik störðu!
Fagnaðarfull
hvörsu flýtti ek mèr
þèr á móti þá
með þöndum faðmi,
sá hvörki kýrkjn
nè kennendr,
þèr at eins þrykkti
at þessu hjarta,
ok lèt með lofgjörð
lotníngarfullri

augum upplypt
til ens eylífa!
Fyri þá fenginn
fögnuð himneskann,
forsmekk eylífrar
farsældar þann! —
en þú ekki nú
á mik horfir! —
fyri manngæzku
þinnar miklu skuld,
sú er sèrhvörjum
sýnir mildi!
Sakir safnaðra,
sem þú hefir
af andláts blundi
endrvakit!
já sakir sèrhvörs,
sem ek taldi
heyr mik! miskuna
mèr þú, ok lif!"
Hún at svo sögðu
sèr burtflýtti!
svo háleit hugsun
til himins skundar
fjörugu flugi
fyrir augu
þess, sem þánki sá
var þenktr um!
En hinn eylífi
ást-mögr nú
ljúfa móður leit
á leið gánga,
ei með sjón-megni
manndómligu,
heldr hinu,
sem af himni kom!
Hvarmeð fyri fram
fær hann litit
fullglöggt fæðíngu
foldarorms hvörs,
með mold, í hvörri
maðkr byggir,
ok hvar fjör flýgr
frá honum burt,
sem ok sèrhvöru einn
Seraphs þánka!
Æ! ek mun, móðir!
miskuna þèr,
meir enn miskuna
móðir nokkr
syni sínum kann,
sannliga þèr
mun ek miskuna,
mik nær sýni
aptr upprisinn
ek frá dauðum!
með sjálfum sèr
svo hann þenkti,
ok gekk áleiðis
um annann veg.
Kom nú kvöld-rökkur,
kyrt var ok hljótt
allt hann í kríngum,
eins fylgendr
enir ósèðu
allir þögðu;
þannig gengu þeir
þar í stilli,
ok nú, nærsta seint
nálægðust þeir
svo heitunum hálsi
höfuðskelja.
Fannst þar ei fjærri
fjalli þessu,
ein undirbúin
afsíðis gröf,
hagliga höggvin
í hellis kletti,
framliðinn einginn
hafði fúnat þar.
Hana hafði sèr
hygginn Jóseph
af Arimathæa
látit uppbyggja,
at á hel-höfga
hinnsta degi
stæði beð byrgðum
yfir beinum hans.
Hulit var honum,
nær hana bygði,

hvílíkt helgidóms
hann þar lèti
musteri múrat,
og móti hvörs
moldum musterið
mundi taka!
Jesús nam staðar
hjá Jósephs gröf,
ok á Golgatha
guðdómligra
uppfylltum augum
ígrundana
horfði djúpsinni
háleitu með
ok þenkti þannig
í þeli niðri.
Síga dags þúngar!
svefnugu lopti
nú nótt skelfandi
nálægist með,
grúfandi yfir
Gethsemane;
brátt mun brattann hvol
bjartr dagr
aptr upplýsa,
sá er enn á ný
róligu rís
með rökkri þaðra.
Þú fjall Golgatha!
sem glæpamanna
enna ófrægstu
alþekja bein!
þú ert nú orðinn
at altari!
full-fúst er offrit
og fríviljugt,
til þess, at því sè
á þèr slátrat!
Brádt mun úr benjum
blóð þess renna!
velkominn vertu
vægðarlaus dauði,
til at myrða mik
fyri manna kyn!
mun þá minn Faðir
mik álíta
frægstum tróni frá,
þar fyrr ek sat.
Svo ok sjá munu
Seraphim mik,
ok margir vottar
meðal þeirrar
feikna-fjöldar,
sem ek fyrir dey!
velkominn dauði!
vegna þeirra,
sem eylífs eru
erfíngjar lífs!
Til hægri handar
hærsta Föðurs
fyrr skein ek skrýddr
skærustu dýrð,
skapari manna
ok skaptra vinr,
þeirra ek nú em
orðinn bróðir!
Einnig ískrýddr
yppurstu dýrð,
alþakinn undum
yfrit skærum
vil ek Golgatha
gjarnan á þèr
fyri þá láta
fjör útblæða —
Hèr snèri hann sèr
ok horfði á gröf —
þá vil ek þarnærst
í þessarar
kyrri hvelfíngu
köldu grafar,
eins ok á foldum
enna fullsælu
fárra stunda frest
fólginn sofa!
Sef ek betra blund
ok blíðara þeim,
sem Adam setti
sèr í þanka,
nær hinn myrk-mælta
mikla gáta

hels, sjálfum honum
huldulaus varð,
ok kvað, á kvöldi
kvíðafullu,
voldugt við heilags
vaktara boð,
rètt ok rígskorðuð
ráðs ályktun:
Hann skyldi halla
höfði ok deya,
ok um allmargar
aldir sofa,
ok yfir honum
skyldu arfar hans
fullum fetum
um fold gánga,
en hann ei heyra
hvað þeir ræddu!
En þeir einungin
eru dauðir
ok ber bein þeirra
hafa barna spor,
utan athuga
hvað undir væri,
eins ok aðra mold
yfirgengit!
Æ! mun á meðal
enna margföldu
eylífðarinnar
æ fagnandi
unaðsemda
ein vera til,
sú minni sælu
kunni samjafnast?
Vaktir verða þeir
vissuliga!
allir á einum
ununar degi,
hágráts ok hljóms
af hrósi sigrs,
helgi-halda
ok hátíða saungs,
þjóða þyrpíngar
munu þær vakna!
Þá hold mitt hefir
hvílst ok sofið
í móður skauti
moldugu jarðar,
ok Mannsins Sonar
þau en myrðtu bein
til lífs án enda
ek hefi vakit,
þá munu þagna
þúngar sorgir,
ok allr ótti
efanda dupts,
ok öll ángrs tár
munu afþerrast,
þá verðr dauðinn
þánki brosa
sætr hvörvetna
ok sigr-hross.
Engi finnst framar
fælilig gröf,
ok engi dauði
uppfrá þessu
á foldar nýrrar
fögrum mörkum;
nær ek hann álít
eptirleiðis,
umfer öll mín bein
ununar skjálfti,
manndóms tilfinníng
mállaus verðr!
Þeir gánga glæstir,
gladt skínandi,
koma þeir hvítum
klæddir skrúða;
margir munu þeir
bera meiðsla ör,
sem Mannsins Sonur,
sár ljómandi!
göfgun gala þeir
ok gleði-ljóð,
til sóma-sælum
sigr-herra,
sem þeir Son nefna
ok sinn bróður!
Hvör má á hauðri
her þann telja?

hvör meðal himna?
hans mergðar nafu
er þetta: þúsund
þúsundsinnum!
ok þessir allir
eru mínir!
Gjörvallt hið gamla
er gengit undir!
ek hefir uppýngt
alla hluti,
sjálfrar sköpunar
til sakleysis!
þó hlýtr þú,
áðr þetta skèr,
Golgatha! at sjá mik
gefa' upp anda;
ok þú, gröf! þekja
þessi mín bein!
Hann þenkti þannig,
ok því næst gekk!
hitti hann á leið,
ok hafði staðit
í skúma skoti
ok skugga rökkurs.
Júdas hjá múrum
Jerúsalems!
Gaf hann sik í sveit
sveina helgra,
með þögn myndandi
meinleysis svip
sèr í ásjónu
svikafullri;
þó slóg hjartat hann
undir ham fögrum!
En Ithúríel
gekk undan honum,
ok frá trè-toppi
tígugligs pálma
heyrði fóta hljóð,
þó hægt gengi,
Messíæ, meðan
miðleiðis var,
Skaut hann sèr skjótt
í skugga niðr,
meðan fram hjá meið
Messías gekk;
fylgði hann hulinn
honum við síðu,
ok raust rómlágri
ræddi við hann;
sem eins kristins sál
enar síðustu
titrandi þenkir
tilfinníngar,
meðan maðrinn
missir anda.
„Eymd — svo innir hann —
Iscaríoths
er fyrir augum
alvizku þinnar
framhjá farinn!
þú at fullu veizt,
óhæfu verk,
sem hann athafðist!
hann þik heimuglà
hefir svikit.
Hann, sem frædt hefir
hegðan þín öll,
sá þín sèð hefir
svo mörg undr;
þeim er þinn munnr
hefir þrátt opnat
lífsins komanda
leyndardóma;
þann svein þinn virðist
þú at nefna;
hann sá hinn sami
hefir svikit þik!
Há-fleyg hljómar
fyri hlustum mèr
enn sæt Elóæ
ypparligs raust,
enn sèr ek opnar
engils varir,
er mik kölluðu
fyri kóngsstól þinn:
at ek færi fljótt
á fold niðr,
ok væri engill
Iscaríoths!

En ek yfirgèf
illvirkja þann;
er ek engill hans
ekki lengr!
vottr hans verka
vera skal ek
á hinum efsta
endrgjalds degi,
ok vopna mál mitt
móti honum
skelfiligri
meðr skruggu raust!
Ok midt á meðal
mjög skærra stóla
þeirra, sem með þèr
þjóðir at dæma
verðugri voru,
vil ek gánga
dymmr ok dökkri
móti dómstóls nótt
breiða mund mína,
ok mæla þannig:
Vitnar ek við þann,
sem vegligt blóð,
sem lèt líf sitt
á láð í blóði
kross-hæð, festr, frá
fossa niðr
fyrir helga hönd
þess ens hjartkæra!
berliga hefir
brennimerkt sik,
á þann ógnar dag
Iscaríoth!
Sjálfr hefir hann
yfir höfuð sèr
eymd ok ógæfu
ofan kallat;
verkum hefir hann
hrópligum með
æstat sèr afdríf
útskúfaðra.
Víst er hann verðr
vesældar dóms
ok frá augliti
útkastaðr
mjög mildu' at verða
Mannsins Sonar;
meir enn makligr
enn myrkva veg
á at útrekast
eylífs dauða!
Sè honum sjálfum
sekr dreyri
hans yfir höfði
hèðan í frá!
ek em síku-saka
af syndarans blóði!
Merkti Messíæ
í mildum augum
enn ódauðligi
Ithúríel,
þat hann sik þyrfti
þessari sorg
enn framar
at ofrgéfa!
Því mundi hann mæla
fyri munni sèr:
æ! alla bar ek
aðra þánka;
allt var útsjónar
yndællra fyrr
mèr um mann-vinar
menta-svein þennann.
Þú ættir, Júdas!
um Jesú dauða
ljómandi at láta
lemstra-sár vitna
ok píslarvætti
prýða þik með,
einnig æru ljóð
ásamt heyra,
sem vèr sigrendum
súngin látum!
Svo þegar þannig
værir þú dáinn,
hefði hýr vinr
þína hólpnu sál
ljósi skrýdda leidt
ljómandi hendi

með sigr-sóma
at sælum tróni
ens mikla Messíæ,
mesta ok fyrsta
allra þeirra,
sem unnu sigr!
Ek hefði auglýst
álengdar þèr
þitt tignar-sæti
meðal tólf stóla
gulli glæstra,
sem geymast þaðra
Endrlausnarans
útvöldum tólf.
Þú yrðir allr
af unaðsemd
til fánga tekinn,
er tígugligann
ljóma litir stól,
ok hinn lifanda
Son Guðs sjálfann
sitja á tróni;
Þá hefði' ek ok þar
þik nefndann vin!
kærann hefði' ek þik
kallat bróður!
æ! með yndællri
ástsemdar raust,
heitit hefð' ek þik
helgann Seraph!
Þá hefði minn mèr
manna kristinna
í ljósi látit
leyndardóma
undirvísandi
Iscaríoth;
hvað í sinni sál
hann sjálfr fann,
þá er spámanna
spektar andi
frá háum himni
hann kom yfir!
Þegar þú kvikna
þèr í hjarta
faunst dug ok djörfúng
móti dauðanum!
er af andanum
uppfræddr baðst
ósegjanligum
orðum með r!
Er þú einnig gazt
ekki syndgat,
af því uppýngð var
önd þín og brjóst
til sæls sakleysis,
sem var helzta
Patríarks prýði
Paradísar!
En þèr eru nú
allir horfnir
þánkar ágætrar
upptendrunar;
sem burt fer blómi
brosanda vors,
ok lífs yndæli
útdeyr bráðum
allvænligum á
ýngismanni,
áðr alþrozka
fær aldri náð!
Eins er allt horfit,
Iscaríoth
minn fóstr-sonur
frá mèr víkr;
ek, sem varð-engill
var fyri skemstu
enna helgu eins,
fer nú einmana
á meðal engla,
sem umkríng mik
hugar hreldir
ok hljóðir standa!
Þjóð, Guð Messías!
hvað byrjar mèr,
ok hvað þèr þóknast
at ek þá gjöri!
hvört skal ek hverfa
til himins upp?
eðr er ek þess
af þèr virðtr

sèrliga sóma
at sjá þik deya?
Jafnsnart at Seraph
Jesús vendi
andliti sínu
alvörufullu
svo segjandi:
Símon Pètr
verðr ok einnig
fyrir áleitni
erki-spillis af
æðigángi;
Vil ek varð-engill
þú verðir hans!
eru Jóhannem
englar settir
tveir til at vernda,
tvo skal Pètr
einnegin öðlast
atgætendr.
Hann mun hèreptir
heyrandi verða
samsaungva þeirra
ok sigrljóða,
er þeim til æru
ok unaðsemdar,
sem yfirvinna,
uppkveðið þèr!
ok líflát hans
mun líkjast mínu!
Varla var Seraph
þessa var orðinn,
fyrr enn hann fyrir
fagnaðar sakir
Oríons engils
í örmum skein;
sá var sveins þeirra
settr vörður!
Framvegis flýtti
Frelsarinn sèr
sveinum sínum
til at samneyta
hinnstu máltíðar
hátíðligrar;
margri hárri höll
lèt hann hjágengit
enna glis-glæstu
glæpamanna.
En gekk nú inní
amalaust hús,
rekkr ráðvandr
sem rèð fyrir,
þann fáir þekktu
þó, sem hann var;
þar settu þeir sik
með þögn stilltri
niðr til nautnar
ens ný-tilreidda,
eptir sáttmáls sið
slátraða lambs!
Mundi Jóhannes
Jesú næstr
með blíðu brosi
til borðs sitja;
miklu mildara
Messíæ nú
andlit sýndi sik
samkvæminu,
runnu þar útaf
rósemd, ángr,
djúp-sinni ok sæla
fyri sitjendum!
Svo var Jóseph,
þegar svíaði
hans tilfinníngu
tendrunar fyrstu
midt í samsæti
sinna bræðra,
þá straum sinn stemdu
þau en stríðu tár,
ekka tár af því,
er augun sá!
Þá at þögnuðum
þúngum harmi
aptr uppkomust
orð á túngu,
hann ei lengr lá
ljúfum um háls
Benjamín bróður
ok brjóst-hreldann

fyri föður sinn
feginn lifði.
Sýng, minn skáldskapr!
um skilnað sárann
elskandans við þá,
sem hann elskaði,
ok um viðræður
vináttu hryggrar,
kveðju síðustu
kærleiks-fulla.
Líkt sem lærisveinn,
er með lofsverðum
Jacob nefnast nam
niðr þrumu,
ok á Patm-eyju
einsligri sá
einnig eptir þat
opinberanir!
Við mildt Messíæ
um máltíð þessa
brjóst, trútt talanda
tilfinníngu
furðu frábæra
fullrar sálar,
hóf upp til himins
heilögum frá
augu sín augum
hins ást-verðuga,
svo tendrist fullr
tilfinníngar
ok sællrar einfeldni
saung-straumr minn!
Mælti Messías,
ok af mikilli
hrygð fullum horfði
hug ok augum
á samsitjendr,
segjandi þannig:
af hjarta hefir
híngat til mik
lángat lambs þessa
loks at neyta
ásamt með yðr,
áðr enn líð!
Nú er tími til
takmarkaðr,
at verði votta
enna vísu orð
innan skams uppfyld,
sem um mik hafa
fyriframm kunngjört
foldar þjóðum!
Spámann þekkið þèr,
þann er sjónar
guðdóms virðtr var
vegligrar mjög,
sá er sællra nam
Seraphims raddir,
hvörjir honum,
sem á hástól sat
hátíðligt himins
haleluja
svo háum hljóðum
til heiðrs súngu:
At musterisins
máttar stólpar
ok traustr grundvöllur
titruðu við,
ok hinn háleiti
helgidómr
allr uppfylltist
offur skýum!
þar var ek ok svo
á þeim tíma
föður mínum með
í mikilli dýrð!
ek var þar einnig
af engla túngum
heitinn heilagr,
heilagr Guð!
Einneginn offr
ölturum frá
mèr til göfgunar
gullnum stigu;
einnig mín vegna
musterit skalf!
ek var Abraham
ærit lángt fyrri.
Aðr enn uppaf
afgrunns vötnum

hófst með hæðum Guðs
þetta helga land;
ek var áðr enn
alheimr fæddist!
en þessa þánka
með þeirra stærð
er ei yðr nú
unnt at grípa!
Speki himneskrar
Spámaðr sá,
þeim dýrð guðdómsins
gafst at líta,
hefir ok einnig
meðal ókomins
einn mann, eins ok þèr
eruð, sèðann,
ok af andanum
uppfræddr, þannig
laungu fyri fram
frá honum sagt:
Mannsins guðliga
mynd ok prýði
eru með öllu
undirgengnar!
friðsemdar ára
þau en fögru bros,
ok sèrhvör lífs ró
sjást ei framar.
Gjörvallar eymdir
glæpamanna
yfir höfuð hans
helltar eru!
mjög blöskrar mönnum,
svo þeim mál stemmist,
nær þeir sára sjá
sálar eymd hans,
ok undan honum
augum snúa.
En hann bar allar
eymdir vorar,
öll vor örkumsl
tók hann uppá sik;
vèr meintum mundi
misverka sinna
hann, svo hart píndr,
hegníng þola!
ok hefnd ofsækti
illgjörða mann!
En hans blæðandi
benjar eru
allar vegna vor
svo víð-opnar!
sjálfir vorum vèr
þeir er vondt gjörðu;
hefir plágunnar
pínandi hönd
honum í vorn stað
svo hart þjakað!
Hann firrtist friði,
svo vèr frið hefðum,
ok hittum hjálpráð
undir hans vængjum!
allir villtumst vèr
um veg rángann,
ærit óvitrir
ok aumir til,
oss veg ok vísdóm
at velja sjálfir
Hèr fyrir hefir
sá enn hefnandi
orri skuld allri
á hann varpat;
hann er, sem fær oss
friðþægíngar,
ræðir fyrir oss
ok í rètt gengr!
ok líðr saklaus
þat oss líða bar!
Allt til hels mun hann
hlýðinn verða,
ei guðdómligann
opnandi munn,
líkt sem þá leiðist
lamb þegjanda
offurs altari
at til slátrs!
svo mun þessi þjást
þolinmóðr!
Numinn er hann burt
nú frá dómi!

hvör hans friðþægða
fá mun talit,
eðr hvör mun hans
heilögu skara,
sem hann rèttlætti,
reikna kunna?
Með því hann hefir
í helga fórn
sakir syndara
sitt líf gefið,
munu honum heims,
heilar ættir
til nýrrar sköpunar
nú uppvakna!
ok hans aldr
verðr eylífðin,
Svo mælti mildr
Messías vor;
horfði til himins
ok heppti ræðu;
því næst þannig
eptir þögn lánga
til sveina sinna
sagði framar:
Síðasta sinni
til samans vèr
snæðum kærkominn
kvöldverð þennann,
því ek mun eigi
upp hèðan frá
vinum mínum með,
sem ek mjög elska,
sætann vín-viðar
vökva drekka,
eðr eta lamb
alit í dal!
En í farsælum
friðar tjöldum,
þar vistar verur
eru víst margar,
glöðu þeli þèr
þennann á ný
Messíam yðar
munuð líta!
Ok í samsæti
sáttmálans feðra
helgar hátíðir
halda at nýu,
er aðskilnaðr
aldreigi mun
nè nokkur ami
ná at slíta!
Jesús þagði þá,
at þessu mæltu,
ok hans sveina sveit,
er sat í kríng;
svo setti hljóða
í sal forðum
helga manna mergð
á Moría;
Nær hinn hyggnasti,
meðal heilagrar
Abrahams ættar
ýngismaðr,
Salómon, sína
siklíngs kórónu
frammi fyrir
fórna altari,
ok fyri augsýn
þess ens eylífa
næsta auðmjúkr
niðrlagði,
er var viðlokit
vígslu bæn hans!
Þegar þoka
fyri þjóðar sjón
Drottins dýrðar
dásamligustu
mikit musteri
mundi fylla,
svo prestar sjálfir
sjáandi þat,
offurs embætti
ei' gátu framit,
ok hátt hljómandi
haleluja
fagnaðar saungva
fyri þögðu.
Sèrhvör þagði þá,
meðan þannig stóð,

ntan hvað einhvör
ákallenda,
af helgum ótta
yfirfallinn
hóf upp hrædd augu
ok horfði gègn
opinberunar
öflugri nóttu.
Ok með titrandi
tilbeiðsln raust
hrópa: heilagr!
heilagr! mundi
haldandi höndum
hátíðliga
með innstu auðmýkt
upp til himins.
Svo þagði sèrhvör
sveina Jesú!
svo leit Lebbæus,
lágt mælandi
augum sínum at
Iscaríoth
einn, meðan allir
aðrir þögðu!
Æ! nú veit ek vel,
at vissuliga
Mannsins Sonur
muni deya,
hvað ok svo hinir
hugsa sveinar,
ok hafa rètt ráðit
af ræðum hans,
er hann svo opt
fyrir oss berla
haldit hefir
um helför sína.
Kom þú, kvala ró,
kaldi dauði!
ens full-far-móða
ferðamanns svöfn!
sýn mèr miskun þá
ok meðaumkun,
er hinn æ bezti
allra manna
verðr færðr fram
sem fórnar lamb
altari at;
mín einka huggun
vertu velkominn,
vitja mín þá!
Hèr tók hann heldr
hærra at mæla,
en ekki' ok andvörp
orð hans slitu!
leit þá Lausnarinn
Lebbæum sinn,
ok þik einnegin
Iscaríoth!
Með hrygðar megni
mannelskufullu
horfði hann um kríng
á hóp sveina,
ok sagði síðan
svo til þeirra:
já, ek kann yðr
augljóst gjöra,
at eflaust einn
meðal yðar tólf,
er sá mik svíkr,
sveina minna!
Blöskraði ok billt varð
borðsitjendum;
allir aðspurðu:
er ek þat, Herra?
ansar Messías:
já einn af tólf;
einn af yðr,
sem ásamt haldit
þessa meðr mèr
máltíð Páska!
At sönnu-sveif þá
svipr strángr,
dymmur dóms svipr
Drottni á augu —
at sönnu Mannsins
Sonur gengr,
sem spakir spámenn
hafa spjallat fyrr,
sinn veg, göfgann gáng,
guðdómligann!

Vei þó vesælum
vèlræðis smið
þeim, sem hann svíkr!
því sannarliga
þarfara' ok betra
hefði þèr verit,
at fæðast aldrei,
ógæfumanni!
Jesús sagði svo,
ok um sveina hríng
alvörufullum
augum rendi;
Júdas eitt sinn enn
atspurði hann:
er þat ek nokkuð?
ansar honum
ljúfr Lausnarinn
lágt mælandi
þessu: þú sagðir
þat nú sjálfr!
En friðar þánkar
fullir af ró
gjörðu Guðs Son
aptr glansanda,
háar hugsanir
um heill eylífa
útaf ásýnd hans
yndælar skinu!
Uppstóð arfi Guðs
til at innsetja
dauða mynníngu
dýrmæta síns!
hèr mælti hann þau
hátíðlig orð,
sem kenni-klerkar
meðal kristinna
sífeldt svo margir
ok söfnuðir
vanhelga voga
viðhafnar saung,
á sik æstandi
úrskurð dauða!
Þessa ok þeim líka
þekkir hann eigi,
því hvörki lifði
þar til nè dó
á krossi Kristr,
at hann kvittaði
ena eylífu
illgjörðamenn.
Allir meðtóku
af honum brauð,
þat er hans hafði
helgat munnr;
blessuðum bikar
bergðu þeir af!
allir með auðmýkt
ok ángri stilltu,
klökkvir komu þeir
at knjám honum
til at taka við
tignarfullum
af hans sjálfs hendi
helgidóm þeim.
Jóhannes jafnsnart
sem Jesúm nálgast,
ok leit ljómanda
líknar bikar
fèll niðr flatr
at fótum hans,
kysti þá klökkur
með kærleiks tárum,
þau hann lausa lèt
lokka þerra!
Lát hann minn líta
ljóma dýrðar!
Jesús sagði svo,
ok sínum brá
augum almáttugs
upp til Föðurs;
stèg þá Jóhannes
á stað hærra,
ok sá í sal niðri
söfnuð engla!
vissu Seraphim,
at hann sæi þá!
Af feikna furðu
frá sèr numinn
stóð nú Jóhannes
ok starði á þettað;

Gabríels glansi
gekk yfir hann;
með heiðrs hegðun
himin-skærann
horfði Raphaels
hann á ljóma.
Hann sá ok Salem
í sællri prýði
mannligrar myndar
móti sèr brosa;
örmum útbreiddum;
engli þessum
unnti Jóhannes
ástúðliga.
Vendi hann sèr við,
ok vegligust sá
með ró mjúkustu
Messíæ augna
þarí glögt glansa
guðdóms merki;
sèg hann samstundis
frá sèr numinn
enns mikla Messíæ
at *mjúku* brjósti!
Með lágum lopt-blæ
ok lund heitri
mælti Gabríel,
við Messíam svo:
umvef þú örmum
eins ok þenna
mik, þú Guðs mikli
Meðalgángari!
Mælti Messías:
minnar dýrðar
þú fyri tróni
skalt þjóna mèr
ok taka tröppu
tignar skæra,
þá er Elóa
hefir ástaðit
við ens eylífa
allrahelgasta!
Gabríel tignar hann
með tilbeiðslu!
Kom nú loks Júdas
kastandi sèr,
sem Jóhannes
at Jesú fótum;
honum Guð-maðr
gegndi þannig:
statt upp, Júdas!
ok strax honum gaf
kaleiks dýrann drykk,
sitt dauða mynni!
Hann tók við honum
með hæglæti;
horfði Messías
honum í augu;
mjög hrærðist andi
Messíæ þá,
hann með hárri raust
hermdi þannig:
Alla þekkir ek,
sem ek útkjöri;
en sá mik svíkr
er í sveit þeirra;
ek þat yðr nú
augljóst gjöri,
þèr svo því trúið,
nær þat er skèð!
Ok svo vel vitit,
hvör verka laun
taka muni sá,
sem trúr reynist,
merkið af mèr
hvörsu mikill er
verðugleikr þess,
sem vinnr sigr!
Hvör mann meðtekr
af mèr sendann
mik sá meðtekr,
ok meðtakandi
mik svo meðtekr
þann er mik sendi,
sú kóróna sízt
svikara gefst!
Enn eitt sinn yðr
ek þat segi:
eflaust er einn sá
í yðar hóp,

nú hèr nálægr,
sem á nótt þessi
Mannsins Syni mun
morð-svik brugga!
Einn leit til annars
ok enn sem fyrr
allir með ángist
um kríng horfðu;
Pètr Jóhanni
prúðum bendti,
hvör Jesú hjarta
hallaðist at,
hann spurði Herrann
hljóðt at þessu:
Þeim ek með ástsemd
alúðligri
ok bróður-blíðu
brauð þetta gef,
sem ek ídýfi,
er hinn sami!
Jesús sagði þat
við Jóhannem!
Ok þann brauð-bita
bragð-hýr næsta
aðrètti Júdæ
Iscaríoth;
Jóhannes sá þat,
ok jafnsnart skalf;
mátti þó ekki
sakir mann-elsku
níðíngs nafn
nokkrum segja!
Júdas æðir út
með ofstæki,
nú var nótt komin,
ok næturinnar
ærnar ógnanir
umkríngðu hann;
stóð hann starandi
stífnum augum
útí myrkrit audt,
ok einsamall nú
viðr sjálfann sik
sagði þannig:
Hann veit þá vissar
vèlar mínar;
mun nú maðrinn,
sá enn mjúkláti,
Jóhannes, sveinninn,
sem jafnan brosir,
meðan menn eigu
málstað við hann,
allt innan stundar
uppskátt gjöra!
hvað hann hljóðt nam
við hjarta Jesú,
er þat svo alræmt
á augabragði!
Veri þat svo þá!
þessir nýu
ráðendr meiga
renna á flótta,
ok fyrr knè-krjúpa,
en kóngar verði!
svo má tiltakast,
at tíni niðr
hoskr Jóhannes
hlátri sínum,
ok dirfska Pètrs
digni í böndum!
Ok hvað sik sýndi
sjálfr Jesús
strángann ok styggann
ok sterkt bjóðanda;
nær strax at stundu,
statt upp! hann kvað,
svo skipar Jesús
ekki Jóhanni!
hann er hýrari
hugljúf sínum!
At sönnu sjóla
má sízt skipa!
sjá vil ek þá fyrr
enn sjólar verði!
böndum bundna
er þá bezt at sjá!
en vinur þeirra
vill nú deya!
Hvað er þat? deya?
hvílíkr þánki!

hvað er at hugsa
þat hann deyi,
sem svo uppvakti
sjálfr dauða?
deya? vill deigja
dug míns hugar
þánki þessi
ok mèr þor veikja?
Vert ei svo mein-meirt,
nè mennskt um of,
þú mitt plágaða
ok pínda hjarta!
firrist hann fjöri,
er þat fullsannat,
at tóm tilviljun
hefir tákn þat gjört
at hans óvinir
svo opt mistu!
Þú er ok eflaust
eintómr hann
drauma dári,
en drottinligr
síðr enn ekki
sendiboði!
eins hinir prúðu
prestar vorir
eru vel vísir
ok vígðir menn
Guði guðanna
gjörsamliga!
Hata þessir hann
hvörvetna þó,
lögum Mósis
lifa þeir eptir,
ek er fyrst ok fremst
fulltrúi þeirra!
en hann mun máskè
eigi missa líf!
Fýsir mik hann fast
fjötraðann sjá,
ok heyra hvörnig
hann þá talar;
skèð gæti geði
gleymdist þá hans
hár ok vin-veittr
verðugleikr
menta mannsins,
sem hann meir elskar,
ok Júdas yrði
aktaðr hót,
sem nú er nærsta
neðarlà settr!
Hraða má ek mèr,
því mín vænta
drottnar Jórsala
dýru borgar!"
hann at svo hermdu
hleypr óðum
at höll áðrnefnds
ypparsta prests!
Svo var sann-heilög
samkoman öll,
svosem síðar meir
söfnuðr helgr
fólksins frómlynda
í fegurð hreinnri
augum sýndi sik
sigrvegara,
hvörs líkhams lemstr
ljómuðu þá.
Þegar kristinna
kærleiksrík æska
aptrkom
frá Ananíæ
greftrun, sèr til grands
sem at Guði laug,
þá er þar ekki
hjá þeim framar
varmenni var,
til at vanhelga
hinna heilögu
hugar eindrægni.
Messías fullviss
mikilleiks síns
ok fyri fögnuð'
forlíkunar,
sem nú var nærsta
nálæg orðinn,
allr útbreiddr
í eylífðar ljós,

greindi með hátign
guðdómligri,
ok ró indællri
sínum útvöldum:
„Með dýrð mikillri
Mannsins Sonur
er nú auglýstr!
ok enn þótt hann
sannr maðr sè,
sömuleiðis
er ok fyrir hann
Faðir hans, Guð,
dýrðligr gjörðr
dásamliga.
Þá himins hærstu
huldir domar,
ok guðdómrinn
gjörast mönnum
fyri framkvæmd hans
færðir í ljós,
mun fyri miskun
utan mælíngar
Faðir hans fá hann
forkláraðann!
Brátt mun hann birta
bur sinn mönnum,
svo þeir hann sjái
í sinni prýði!
yðar hugar hrygð
hindrar mik, börn!
hví harmið þèr svo,
mínir hjartkæru!
At vísu mun ek
við yðr skilja,
ok þèr munuð mín
mæddir leita;
ok mik ei finna,
því um þann veg,
sem geng ek, getið þèr
gengit eigi!
Enn grátit ekki
útaf því meir!
þèr mik án efa
aptr sjáið!
boðorð gef ek
börn! yðr nýtt,
sem er ypparligt,
æðra mikln,
enn þat setníngar
samdir kenna!
Elskist innbyrðis,
svo sem elskaði
yðar Messías
yðr sjálfa!
hvör annann elska
skuluð allt eins þèr!
þar af vita þá
þjóðir allar
at sènð' mínir,
samhuga þèr
ef svo innbyrðis
elskist jafnan!"
Nú stóð upp Pètr
ok nálægðist
Jesú, spyrjandi
jafnsnart hann at:
Herra! hvört fer þú?
honum svarar
Messías aptr:
mèr þú ei kannt,
hvört ek fer, fylgja
fyrst at sinni!
En síðar meir,
á sínum síma
muntu mèr fylgja,
ok minn þann veg,
sem ek geng, gánga!
gegndi Pètr
honum hèr til
með heitu brjósti:
Fyri hví fæ ek
eigi fylgt þèr nú?
ek lèti líf mitt
líf þitt fyrir!
þú lètir líf þitt?
svarar Lausnarinn;
sannliga, Símon!
segir ek þèr,
nú í nótt áðr
nýr ris morgun

mèr munt þrisvar þó
þú afneita!
Upp var nú Jesús
aptr staðinn;
fellr hann þá fram
ok fyrirbiðst;
krupu kríngum hann
kærir sveinar!
eruð þèr ok svo
allir hèr við?
sagði Sonur Guðs
sinnis-hryggr?
hèr erum vèr
svara hinir þá!
Eins mál heyrir ek
ekki framar!
eðr eruð þèr
allir hèr við?
sagði Lausnarinn;
en Lebbæus
ansar titrandi:
Iscarioth
er hèr nú ekki!
ok í því sama
sem hann þat sagði
sèg hann niðr;
Upphóf andlit sitt
Endrlausnarinn
himins til ok bað
með hárri raust:
"stundin er komin,
at stórann sýnir
þinn hinn frumgetna
í fegurð sinni,
sýn hann nú sjálfr,
svo þú verðir,
Faðir! dýrðligr
fyrir hann gjör!
Alla dauðliga
undir hans vald
gefit hefir þú
gjörsamliga,
at hann af dauða
uppveki þá,
ok þeim eylíft líf
einnig gefi!
En þat eylíft líf
er at þekkja
þik, þú eylífi!
ok þann er sendir,
Jesúm Christum,
Konúng ok Son!
ek sèr í anda
allrar nú þegar,
Faðir! fyllíngu
fullkomnunar!
A jörð ek pína
hefir auglýst dýrð,
góð skil gjörandi
guðdómsins ráði,
kostuligar mèr
eru kórónur
hjá þinni hægri
hendi geymdar!
Muntu mèr, Faðir!
þá er *mín* var, dýrð,
áðr allt skópum,
aptr gefa!
ek þitt auglýsti
ógrligt nafn
enum útvöldu
af ætt syndugri!
þá hefir þú mèr
þegna gefit!
þeir hafa þau,
sem ek þeim kendi,
trúliga varðveitt
vísdómsins orð;
þess er ek þeim
fyri þèr vitni!
þekkja þeir ok nú,
at þat ek hefi
er af þèr
einum samen!
því ek þeim hefi
þat gjörvallt kennt,
sem þú mèr áðr
sjálfr kendir,
þannig hafa þeir
þat meðtekið;

svo ok sannleik þann
í síns hjarta
dýpsta grunn grafit,
guðdómligann!
at ek af þèr sè
útsendr, Faðir!
Fyri þeim bið ek,
Faðir minn! þik;
en fyrir heimi
læt ek óbeðit!
þvíat þeir ogsvo
þínir eru;
svo sem í sælu
sèrhvörrar eign,
sífeldt erum við
sameinaðir!
Fyri þeim bið ek,
Faðir minn! þik,
þvíat í þeim,
ok þeirra vegna
em ek auglýstr
ok svo með dýrð!
burt ek fer nú frá
fold þessari
strax, ok stíg
uppá stól himins!
upp til þín, Faðir!
ek aptr kem;
En þeir í heimi
eptir verða,
ok svo lengi sjá
syndara mæðu,
þeirra finnandi
ena þúngu neyð!
lát hinni háu,
heilagi Faðir!
þá vera þeirri
þekkíng trúa,
sem þeir um þann
munu þá hafa,
sem svo er orðinn
sáttr við menn!
Eitt veit þeim vera,
sem við erum;
eitt hús af bræðrum
einúngis fullt!
önn þeim æ fyrir
ól ek sjálfr,
meðan þeirra mynd
maðr ek bar;
ek vakti yfir
athugasamr
ódauðligum æ
anda þeirra!
Allir, ó Faðir!
eru þeir hèr,
öngvum hefir ek
af þeim glatat!
einn mik yfirgaf
arfi glötunar;
vísum spámanni
vottr orðinu!
Framvegis fer ek,
Faðir! til þín;
mælir ek þetta
meðan lifi
hèr í heiminum
hjá þeim nú enn,
svo mynnast meigi
minnar dýrðar,
ok, sem ek sjálfr,
meigi sik gleðja!
þeir þinn lífs lærdóm
hafa ljúfir heyrt;
hatat hefir þá
enn hrekkvísi,
eins ok hefir hann
hataðann mik;
beiðist ek eigi,
at þú burttakir
þá úr þverlyndum
þessum heimi.
Veit þeim volduga
verndun at eins
gegn enum illa,
sem þá ofsækir,
illfúsum anda
eyðileggíngar;
því þeir ei eru
áhángandi

syndara solli;
heldr sakleysi
einúngis í,
svosem ek, gánga!
Heimrinn hlutdeild
hefir öngva
þínum friðþægðu
frelsíngjum í!
þá í sannleik þú
þínum helga!
sannleikr sá
eru sjálfs þíns orð!
Svosem þú sjálfr
hefir sendann mik
híngat í heim
af himnum ofan,
ek þá eins líka
aptr sendi,
ek gèf ok mitt líf
út fyri þá,
at þeir helgaðir
ok hreinir meigi,
friðþægði Faðir!
fyri þèr byrtast;
*þó* bið ei at eins
ek fyri þessum,
minn ljúfi Faðir!
lærisveinum;
nýrrar sköpunar
næsta mörg börn
munu með tíð
verða mèr borin,
arðr afsprottinn
orðum þeirra,
sem daggar dropar
af dags morgni!
Fyri þessum þik
þar með ek bið,
at þeir eitt sèu
allir saman,
eins ok við erum,
eylífi Faðir!
ok at við veröld
viðrkènni,
at þú eflaust
hafir útsendt mik!
Ek hefir öllum
eylíft líf gefit
þeim sem þú mèr gafst
þat er mín dýrð,
at þeir eitt sèu
með eindrægni,
eins sem við til eins
öndverðliga
augnamiðs alla
algjörða lètum!
Ok at allir heims
afbrotamenn
verði varir þess
ok vitandi,
Jesús af himni
sè á jörð sendr,
ok at Guð elski
inniliga
öll forlíkunar
endrleyst börn,
eins ok hefir hann
enn hjartkæra
sona frumburð sinn
sjálfr elskat!
Mínir friðþægðu,
Faðir! skulu
sannliga saman
safnast til mín,
svo þar sem ek er
sèu þeir líka,
ok mína sjái
mektuga dýrð,
er þú mèr, æðsti
elskunnar Faðir!
gafst fyrr enn gjörvalls
grundvöll lagðir!
Þekkir þik eigi
þessi heimr
ríkr ránglætis,
rèttláti Faðir!
en ek þekki þik
ok þann hinn djúpa
ljósann útvöldum
leyndardóm set

um sjálfs þíns guðdóm
ok sendíng mína;
ok vil enn framar
auglýsa þat!
Svo at sú elska,
sem þú, Faðir!
elskaðir mik með,
þeirra mýkt hjörtu
einnig inntaki,
ok einúngis hann,
sem þá friðþægt fèkk,
fylla nái
ódauðligann æ
anda þeirra!"
At mæltu þessu
Messías sik
tók upp án tafar
til at hefja
forlíknnar för
móti Föðurnum,
yfir Kidron
undir kaldann dóm,
gengu lærlíngar
með Lávarði.
Nær hann nálgast læk,
ok nætr suðu
algjörla heyrði
frá olíu-trè,
hann á hæð einni
hèr nam staðar,
ok mæla mundi
fyri munni sèr:
„Hèr gegnt, Gabríel!
í garði niðri,
hvar hið háa fjall
hefir sik upp,
finnst einn einsligr
afvikinn staðr,
tuttugu skygðr
af trjám pálma.
Móti mjög háum
meiða toppum
steypir sèr á storð
frá stjarna slóð
nóttin næsta lík
niðrslútandi
fárbröttum björgum,
bráðliga þar
saman-safna þú
sveit af englum!"
At greindu þessu
gaf hann sik nær
æðri athöfnum,
enn unnizt hafa,
samizt eða sèzt
á sjónar plátsi
endaleysis alls,
frá engla burði,
hauðrs sköpun
ok himnanna gjörð,
eptir nè áðr
aldrei skeðar!
Guðdómligustu
gaf hann sik til
með hægð ok stilli
hreistiverka,
ei mundu merkjast
kríngum Messíam
umbrot, ærsli
nè ókyrrleikr.
Eyrum einúngis
unnunarrík
háðum hvörvetna
undir hègóma,
lítilmótlig
ok lág at háfi
til at fylgja fast,
sem förunautar,
athöfnum íta,
sem eru djupt;
Ei heldr umkríng
eylífann Föður
var hark, háreysti
nè hristíngar,
nær útaf einum
óvernm hann
at brjótast bendti
bygðum heimum!

### Hèr hefr

## fimtu bók Messías.

Enn á eylífum
alvörufullr
sat nú Jehóva
sínum tróni;
allnærri honum
Elóa stóð
sí-frægr Seraph,
ok svo mælti:
Hví er þitt andlit,
þú hinn eylífi!
nú svo ógrligt
á at líta?
ok hví frá æðstum
augum þínum
ofanleystrar ódt
einskær dómr?
Hví með hávaða
hèðan slíkum
rammar reiðir
ræða niðr?
töluðu þessar
tíu þúsund,
strax aptr aðrar!
ok hinar þriðju
öskra heyrir ek
álengðar nú!
Stigu fram stjörnur
fyri stuttu þar!
varla var af þèr
vendt niðr augum,
fyrrenn flúðu burt
hin fögru hvel;
ok hví allt um kríng
ei' at venju,
heyrir ek hljóma
heima saungva?
Hvört sem þú horfir
harla vídt um
þik í kríng
þagna heimar!
sèrhvör Seraph þá
af saung lætr,
kèmr kyrr þögu
yfir Kerúbim!
Alls einginn enna
ótöluligu
þúsund-þúsunda
þúsund sinnum
sýngr nú sálm
um Son eylífann,
einginn af öllum
yptir nú rödd!
Alla mergð yðar
ef ek skyldi
til enda telja,
mundi tala sú
útheimta af árum
aldir heilar,
ok þèr þegið nú
þannig allir!
eingi sýngr um
eylífann Son!
Sín allir englar
andlit hylja
á bæn framfallnir
fyrir Guði!
vill tign þín til þess
taka sik upp,
Drottinn! yfir jörð
dóm at halda?
Því þetta boðar,
sem þú ber nú
eflaust yfirbragð,
eyðileggíngu;
ræðir reið ásýnd
rèttlætis dóm!

eðr er nú þinn
ásetníngr,
at rjúfa ok raska
ríki Satans,
Guð! ok slá grimmann
guðlastara?
Dregur út, Drottinn!
svo í dymmu þú,
at hinn eylífa
íllt-gjöranda,
at fullu ok öllu
ok honum ásamt
sem hann umkríngir,
eyðileggir,
flæmi fjandligrar
fordæmíngar.
Skal þess níðíngs nafn
nú ekki bók
lengr lesast á
enna lífendu,
sem þèr þóknaðist
þó at skapa?
á hann at afmást
öldúngis svo,
at hann eingi sè
meðal eylífra?
Líta lystir mik
liggjanda þann!
hegnandi hendi
hann mik þinni
fallinn fyri
fýsir at sjá!
hve þín þúngliga
þrykkir honum
refsandi reiði,
ok rammar kvalir,
ei nokkru nafni
sem nefnst geta.
At óp ok ýlfr
hans örvæntíngar
himnar, helvíti,
ok heimar nemi,
ok at hátt hrópi,
þegar hjágánga,
ein til annarar
allar stjörnur:
þar liggr þessi
þrjótsknfulli
upphlaups æsir
oltinn um koll!
Unz þú hvirfil-hvin
hvast-blásandi,
ok blossa bitrari
báli hvörju
lætr at lyktum
yfir leiðann dólg
falla fullkomna
foreyðíngu.
Ef vilt, vandlætir!
vopna þú mik!
gjör mik einnig út
til orustu
ens ógrliga
ásýnd móti!
gèf mèr ægnm af
ofviðrum þessum
þúsund þrumur
ok þykkva nótt!
girð mik geisi-styrk
guðdómligum.
At ek fram fyri
þína fögru sjón,
í dauðans dyrum,
dólga þinna
hótandi höfuð
í hel slái,
þúsundum saman
þúng-höggr mjög!
O hvörsu ert þú
ógnarligr!
hve sárann senda
sèr útaf þín
deyðandi augu
dóm ok reiði,
já vægðarlausa,
Jehóva! grimd.
Lifð' ek laungu fyrr —
ek lít til baka
inní eylífðir
undanfarnar —

þú víða veröld!
enn varðstú til;
þá voru þegar
þessum yfir
aldir alda
Elóa, mèr,
framhjá flognar,
er þú fyrst bygðist!
Ok öngvanegin
eru mínir
naumt deildir dagar,
sem ens dauðliga,
sá er uppsprettr,
öðlast blóma,
ok innan stundar
er orðinn dupt!
Aldr eylífða
yfrit lángann
ek þik, Jehóva!
hefi jafnan sèð,
en leit aldreigi
inn til þessa
eins ógnarliga
ásýnd þína.
Æ! nú er af þèr,
eylífi Guð!
orðit uppvakit
fyrir alvörn
þitt drottinliga
dóms vandlæti,
ok þínar allar
eyðandi plágur!
ok gjörvöll þessi
guðdómsins dýrð,
sem einskær elska
hefir æ verit,
er nú ei orðin
utan reiði!
Ok sjá! ek hefi
við hinn eylífa
Drottinn Drottnanna
dirfst at tala,
ek, sem er ekkert
annat enn ský,
er þú uppjóst mik
af í fyrstu;
eitt lítit blæ-blak
af blástri þínum;
endanlig at eins
engils vera.
Reiðst mèr ei, Faðir!
renn-at til mín
ógnar augum þeim,
sem þú afvarpar
nú á jörð niðr
neyðar-boða,
at þau ekki mèr
afli dauða!
Meigi svo mitt nafn
eigi meir standa
enna eylífu
áritat bók
ok ek ljóma Guðs
allrahelgasta
aldrei uppfrá því
eigi sæti."
„Stíg ek strax, Seraph!
á storð niðr,
þar Guð Messíam
mun ek dæma,
sá er milli mín
ok manna kyns
sik hefir settann
sjálfviljugliga.
Fús ok fullbúinn
til at forlíka
Guð-maðr orðinn,
gjörvöllum eptir
mínum víst væntir
vandlætis dómi!
fylg mèr í fullri
fegurð þinni
álengðar eptir,
þú minn útvaldi!"
Drottinn sagði svo,
ok sínum stóð
enum eylífa
upp af tróni!
í því hann uppstóð
undir honum

gall við hinn glæsti
guðdómsins stóll!

Ens hærsta hristust
helgidóms fjöll
ok með þeim ásamt
ölturinn skulfu,
meir enn manndómligs
Meðalgángara,
með fórn-altari,
ens friðþægjanda;
heilags heið-myrkrs
hyljandi ský
þrisvar flugu þau
þá til baka!

Dómstóls hinnsta hæð
hrærast mundi
frekt í fjórða sinn,
svo þar framkomnu,
ber gjörð við bifun,
blöskur-stig hans!
stèg hinn sterki Guð
af stól himins.

Eins sem nær uppi
um alla himna
hátíð heiðrsfull
haldin verðr,
ok hinn eylífi
allsherjar með
hjóðandi bendíng
boðskap gefr!

Þá allt í einu
á öllum stjörnum
ok sól sèrhvörri
sínum allir
standa Seraphim
af stólum upp
gullnum glansandi,
gjörvallir skarar,
þúsund við þúsund
í þyrpíngum!

Glymja göfgunum
glæstir stólar,
tilbeiðslu tónum
tignar hörpur;
kveðr við kliðr
af kórónum þeim
vegsamligu,
sem varpast niðr:
svo hátt hljómaði
himneskr trón,
er hinn eylífi
uppstóð þaðan!

Gekk nú Guð af stað,
ok glæsiligann
sóla vèk á veg,
sem veit til jarðar;
við sól síðustu
kom Seraph einn
hèðan frá hauðri
honum móti.

Hann hafði með sèr
til himin-sala
sex manna sálir
sínu holdi
ok jörð frá flognar
fyri stuttu;
sálir rèttlátra
sex voru þat!
fleiri tortíndum
tók á móti
niflheimr niðr
í nótt eylífa!

Seraph sex þessar
við sól gjörði
fagr-fánar
meðr forklárun,
ok ódauðligum
yfir hellt lèt
nú þeim ný-gjörva
nægð af geislum,
ok lètt-líðandi
líkami þeirra;

Voru þat andar
vitríuganna
enna atkomnu
frá austrvegi,
þeir er fljót-fara
færðir af stjörnu
trúrri tilbeiðslu
ok tignum gáfum

Jesú offruðu,
jóði himnesku
allra fyrstir
meðr englum hans!
Haðað — heiti þat
hafði enn fyrsti —
eptir lèt andar
unnustu sinnar
dætra Bethúrims
dægiligasta
sem lifðu, í lundi,
þá lètst hann fyrr;
en hún andlát hans
ekki syrgði.
þetta hafði hún
á heilagri
ástar stund Haðað
einni svarit!
um hans ok sinnar
öldúngis viss
andar ódauðleik
eptir hans dauða,
gráta gleymdi víf
gjörsamliga!
en þó elskuðu
hvört annat þau
öllum dauðligum
öðrum framar.
Sína Selíma
hafði sorg borið,
ok allt andstreymi
útstaðit sitt!
andaðist hann,
ok auðnu hreppti;
fór hann farsæll burt
af fold þessi.
Simri lærði lýð,
en til launa galdt
fólkið forsmán
ok fyrirlitníngu;
fór þat sínum fram
fornu glæpum,
samt ávann Simri,
þegar sálaðist,
einn, svo hann aflèt,
ok eins sem hann,
lifði guðligu
lífi síðan!
svo lukti Simri
sína daga!
Uppól ok gjörði
auðgá af dygðum
mæta mögu
Miria fimm;
ei lèt hann eptir
auðlegð stóra,
af foldar fè
enum frómlyndu!
sáu föður sinn
synir deya.
Brosandi brostin
Belleð augu
dauð-hatandá dólgs
dapr lukti;
með því goðgjörðir
göfuglyndis
hafði Beleðs brjóst
brúkat at hefnd,
ok helft síns ríkis
honum gefit!
loksins lifði hinn
líkt sem Beleð!
Súníth við Parphar
saung í lundi,
ok dygðum helgar
dætr hans þrjár,
um blessat barnit
þar í Bethlehem!
sárt þik syrgt hafa
cedrus-eikr;
jafnt sem Jedidoth
jöðrum lækir
einsligum á,
þegar andaðist!
Æ! þik, ó Súníth!
andlits blæu
huldar harmat
hafa dætr
þínar mjög mörgum
meya tárum

hvellum hellandi
af hörpum niðr.
Hèr sagðar sálir
Seraph gjörði
skínandi skírar
við skæra sól;
uppljómuð orðin
augu þeirra
fyrsta sinn sáu
sik vídt kríngum
ógnarliga dýrð
almáttugs Guðs!
Lèttar ok lausar
lyptu þær sèr
af fínni færum
formerkíngar,
til einkis urðnar
um-myndaðar,
sem er óæðra
eylífu lífi!
En hins eylífa
ógnarlig dýrð
fór fram hjá sálum
forklárnðum;
af lyst ljómandi
leiðtogi þeirra
ok tilbiðjandi
talaði hátt:
þat er Guð! hann
til þeirra sagði:
Rèðst til at ræða
með raust nýrri
Selíma sinni,
en, sem hann mælti,
fell í forundrun
yfir fagri rödd,
er, sem í saunglyst
silfr-streingja,
flaut ok flaug
frá haus vörum:
O! þú hvörn ek sè!
ávarpi hvörju
fæ ek, ó fyrsti!
fullverðugu
nafni hvörju
fæ ek nefndann þik?
ok með hvílíkri
allshugar furðu,
æ! þú hvörn augu
undrandi mín
nú fyrsta sinni
fá at líta!
O Guð Jehóva!
jarðar dómari!
ó minn skapari!
ó minn Faðir!
eðr, sè þèr þat
þóknanligra,
at þik ek nefni
ósegjanligann!
Eðr ok Föður
eylífs Sonar,
sem í Bethlehem
borinn var maðr;
sem vèr þar sáum,
ok af Seraphim
hátíð haldandi
helgir skarar.
Heilsa sè þèr,
þú enn heilagi,
eylífi Faðir
eylífs Sonar!
Halelúja!
þèr, minn höfundr!
fagnaðarfulla
frægðar saungva
um þik yrkir mín
ódauðlig sál,
eymr af þínum
andardrætti,
ok sú er eylíft
skal erfa líf!
O þú æ sæli
alls skapari,
sem öngvum orðum
getr útmálast!
ek klárann kærleik
kallaðann þik
meðal dauðligra
manna heyrði

en hví ertu svo
ógnarligr?
Hví eru augu
útbrynjuð þín,
hví svo traust týuð
til at deyða?
himin-híra mèr
huggun veitti
þinn dýrðar engill,
nær ek dáinn var,
at hann undir dóm
ei mik færði
strángrar ströffunar,
sem standast kann
einginn sá sem er
endanligr!
En ógnarligr
ertu, minn Guð!
sem mèr miskunar!
mikiliga
já, yfir allt fram
ógnarligr!
en þú mik eigi
áfellir dóm!
þat finnr þessi,
sú er þik biðr,
sál mín, sem þú skópst
fyri sjálfann þik!
Er þú eylífð gafst
um at lifa,
ok þinn elskaðann
Endrlausnara!
hvört komstu hærsti
heims dómari!
svo fyrirfærir
fènda kyni?
Eigu þá öngvann
fyrir augum þèr
samastað sèr
enir syndugu,
af þèr, eylífi!
eptirlátinn?
ok viltu afmá
alla til fulls
þá sem þver-neita
þínum Syni?
Æ! þú munt eigi
álykta svo!
því at þeim einnig
hefir þú sendann
ok gefinn Guðmann,
hinn göfugasta
mög þinn Messíam
til meðalgaungu,
svo, sæli Faðir!
muntu sízt dæma.
Heilsa sè þèr,
þú enn heilagi,
eylífi Faðir
eylífs Sonar!
leif, dýrsti Drottinn!
þinnar dýrðar spor
oss, þó álengðar,
á at horfa!
Svo kvað Selíma
ok á sína fèll
ásjónu niðr
auðmjúkliga,
ásamt með öndum
hinum öðrum fimm
tign hins eylífa
tilbiðjandi.
Sveif á sól-vegar
síðu hina
Elóa engill
á eld-vagni,
þeim er hann eittsinn
áðr hafði
á flutt Elíam
upp til himins!
þeim hann einnig á,
engla foríngi
forðum, Dothans fold!
á fjöllum þínum
augum Elisæ
opinber varð,
ok án ský-skýlu
skörum stýrði.
Hátt stóð Elóa
á hröðum vagni,

í öndverdt andlit
englinum kom
í gegnum glæstar
gimla slóðir
stormr stór þúsund
streymandi radda!
Gullu þá gullnir
ok glumdu við
snar-fara knatta
snúníngs ásar,
blèsust til baka
bjartir lokkar,
ok hans yfirhöfn,
sem óð-fleyg ský!
Með skyrkleiks stilli
stóð á vagni
enn ódauðligi
Elóa sínum;
í hægri hendi,
sem hóf á lopt,
hèlt hann vo-viðris
veifuðu skýi!
Hvörja háleita
hugrenníng við
skaut hann skruggum
út af skýinu,
ok svo Jehóvæ
eptir fylgði;
þúsund sól-mílur,
svo mikit rúm
frá sól til sólar
settr mundi
meðal-bils mælir
á milli hvörs,
fylgði Seraph fram
fjarlægð slíkri!
Guð stèg fram stjörnur,
er stræti mjólkr
vèr ok veg nefnum
eða vetrar braut,
en þær engla mál
ódauðligra
á himnum heitir
hvildarstað Guðs!
Því nær full-framleidt
hið fyrsta leit
himins hátt sabbat
heims forvirki,
stóð hinn sterki Guð
á stað þessum,
ok sá helga hvíld
í hönd farandi!
Nú gekk hann nærri
nokkurri stjörnu
miðstrætis mergðar,
þar er menn bjuggu,
manneskjur að mynd
mjög líkar oss,
en ósyndugar
ok án dauða!
Frum-faðir þeirra
fjörugu stóð
enn með æskumanns
yfirbragði;
en þótt alda tal
únglíngr sá
á baki bæri
bísna margra,
sjálfr midt í sveit
sinna barna,
óspilt í eðli
sem öll voru!
Ei var sljó orðin
augna-sjón hans,
sinna til at sjá
sona niðja,
ei heldr ofþurr
til at úthella
frumföðurligum
fegins tárum.
Var-at hlustum hans
heyrnar skortr,
til at skynja skírt
skaparans raust,
Seraphims saungva,
nè sona munni
frá þik, hið fagra
föðurs heiti!
Til hægri handar
hjartkærum vèr

móðir mannkyns þess
mundi standa
sinna midt meðal
mörgu barna.
svo fríð ok fögur,
sem nú fyrst væri
höfundar hendi,
sem hana skóp;
leidd til at takast
tíginns arma
í, ok ódauðligs
unnusta síns!
Sú var ein allra
útaf hennar
kyni kominna
meðal karlinna,
dætra sinna, drós
dægiligust!
Við hans vinstri hönd
verðugr stóð
hans enn fyrst fæddi,
fullr af himins
sakleysi, sonur,
ok síns föðurs
úngligri ásýnd
yfrit líkr!
Sat af sonar hans
sonum ýngstu
flokkr fagr
við fætr hans,
um blídt hrosandi
breiddr hæðir;
báru þeir um brýr
blómstr-kransa,
lètt ok lipurt
at lokkum ofna!
Hvörjir ok hèr við
urðu hrokknari!
heit vall í hjarta
hugarlyst þeim
föðurs fótsporum
frómleiks ríkum,
ok dygða dæmi-
dýru at fylgja!
Eins vors at aldri
ástfólgin sín
allar báru börn,
svo blèssun kæra
ok fyrstu faðmlög
af föður elzta
mættu meðtaka,
mæðr til hans!
En frá yndællri
arfa skoðun
hóf upp til himins
hann sín augu;
sá hann Guð gánga,
ok til göfgunar
honum hann þegar
hneigði sik djúpt!
ok hátt hrópandi
hermdi þannig:
Þat er, Guð! gjörvöll
mín góðu börn!
mik ok yðr öll
sá í öndverðu
skóp, at lífs skèpnur
skyldum vera,
sá björtum dali
hefir blómstrum krýnt,
ok fagr-földuð
fjöll með skýum!
En þó hefir hann
hvörki gefit
fjöllum nè dölum,
þótt fögur sèn,
ódauðliga önd;
enn yðr börn!
öllum hefir hann
hana veitta;
Ei heldr hefir
hann gefit mynd
dölum nè fjöllum
dægiliga,
svo sem þèr hafit
sæma mönnum,
er svo mjög megnar
máls fyri gjöf
í ljos at leiða
leyndustu þánka

sálar sinnar
út af sal vara!
Ei glaðvært upplit
augum himin
skæraun þakklátum
at skoða með;
ei raust rómfagra,
röddum engla
með til at tóna
tilheiðslu ljóð!
Hann sem byrtist mèr
í blaktanda
prýðis lundi
Paradísar,
er hann mik af mold
manneskju skáp,
ok mèr mælandi
milda blessun
færði mik faðmi
yðar frum-móðr!
Mæl cedrus-meiðr!
mæl ok braka!
þvíat undir þèr
sá ek þann gánga!
stattu þar straumr,
þó stríðr sèrt;
þvíat þik fór hann
þá heint yfir!
Þú lopt lygnara
ljúfra vinda!
hvískra þú um hann,
sem þú hvískraðir,
nær hann, æ sem er
óendanligr,
kom hýrt hlæandi
hæðir ofan.
Já, stattu jörð!
fyri Jehóva,
stíg ei feti fram,
sem forðum stóðst,
er hann yfir þèr
arka mundi;
er kríngum andlit
ypparligt hans
hvarflandi himnar
hvörvetna flutu.
Nær hann í hægri
hendi sèr vog
guðdómligri
þær er gjört hafði
sí-skærar sólir,
ok sömuleiðis
mat í mund vinstri
morgunstjörnur!
Mun ek mèr voga
meiga' at nýu,
þú, hinn eylífi!
þik at líta?
en hjóð bráðliga
at á burt flýi
miðnættis myrkr,
mikli Faðir!
þat er þannig nú
þik umkríngir!
Ei lát augu þín
uppfylla svo
yfirvættis ógn
allt skèlfandi
strángrar alvöru,
sem stendst nokkr
óðauðligr ei
á at líta!
Æ! hvörjir eru
óvinir þeir,
er þu þitt hefir
þannig móti
andlit útbrynjat
ofboðsliga?
ok sortnar sjón þín
sva af reiði?
Kynd er þat eingi,
sem elskar þú,
heldr heillalaus
her af öndum,
sem forðum fèllu,
ok af fífldirfsku
voguðu at vekja —
ek varla mèr
þánka þann
þoli í brjósti —

þú Guð! þverbrotnir
þína reiði.
Gefit gaum at því,
mín góðu börn!
lengi lèt ek slíkt
yðr leynt vera,
svo at ek sízt
yðar sælu ró
aflaði ama
með ángrsemi!
Lángt frá oss eru
á einni jarða
manneskjur at mynd
mótlíka ok vèr
meðskapt meinleysi
sem þó mist hafa,
ok glatat gèfnu
Guðs bílæti!
æ þann dapra dóm!
dauðligir menn;
Fregn sú fáheyrða
furðar yðr,
hvörnig sú heli
megi háð gjörast
vera, sem virðti
voldugr þess
skapari', at eylíf
skyldi vera.
Ei' er dauðligr
andi þeirra,
andinn eylífi
aldreigi deyr!
líkaminn at eins
at leir verðr,
hvar af hófst
hann í fyrstu!
þetta nefna þeir
þat at deya!
Sinni sakleysis
sviptr prýði
manni meðskaptri,
þegar myndaðist,
andi flúinn fer
fyri Guðs dóm,
ok ógnarligann
úrskurð heyrir!
Burt þú blöskrandi
bisti þánki!
einkis þel þeinki
þik nema Guðs!
sá einn er yfir
öllum verum,
þeirra skapari,
sem þær dæmir;
Er þegar þánki
þessi: at deya
ærin ógn
ódauðligum!
bresta sjónar blis
þeim er burt sofna,
blína blý-föst
ok bifast ekki
verða einkis vör,
því vantar sjón!
Hverfr hel-svæfðum
í hyldýpt nætur
eins jarðar ásýnd,
sem upphimins,
má hann ekki meir
manns raust heyra
eðr ástvina
aumliga sorg!
Svo er hann sjálfr
sviptr máli
at traudt má túnga
titrandi hans
stama sorg-sára
síðustu kveðju;
andinn dapr dregst
djúpt at neðan
með þraut þúngliga
frá þraungvu brjósti;
Af kvöl kúgaðr
kaldr sveiti,
um hans ásjónu
alla flytr
hjartat hrærist seint
ok hættir loks;
þá er þrotið líf,
þat er dauði.

Opt deyr þar dóttir
dátt elskandi
móður örmum í,
sem allfús henni
deya mundi með,
en má ekki,
ok sitr sorgfull
til síns tíma!
I faðmi föðurs
fastliga þrykktr
honum við hjarta
fer helveg sveinn
yndisfullum í
æsku blóma,
aldins ekkju manns
einka sonr!
Burt frá böl-hreldum,
barna-fuglum
fellir foreldra
fölr dauði;
horfna sjá þau sèr
sína huggun,
ok síns óráðna
úngdóms stoð
I neyð nístandi
niðr sokkinn
andast unnusta
ástrík ok kær
við brjóst bruðar vess
bráðnat af harmi,
hvörsu sem er sár
söknuðr hans!
Himin-eðlis ást,
ok þat sem hún
fáum betra brjósts
blæs í hjarta
tíginna' ok tærra
tilfinnínga,
er, þó sem einber
ímynd skugga,
ens minsta meinleysis
menjar ok spor!
En ekki lengi!
æ! skamma stund!
dauðinn grípr þá,
ok Drottinn sjálfr
þyrmir þeim ekki
nè þá aumkar,
eigi elskenda
ástar-full bros,
þegar þeir kveðjast,
enna þel-frómu.
Eingin aumkar hann
augu brostin,
sem gjarna grètu,
ef gætu meir,
ei heldr ángist,
sem um þat biðr,
ok Guð grátbænir,
at gefa sèr
eina stund
enn at lifa!
Ekki örvílnun
hins únga vers,
sem fljóð titrandi
faðmi vefr,
ok öngvu orði
getr uppkomit,
ok þik ei heldr
ángraða dygð!
til hvörrar hafði
hjörtu beggja
elskan upphafit
ok ör viðkvæmni!
Hann sagði svo,
en sorg ok harmr
öllu megin at
afsprengis hans
hindruðu hann frá
at herma fleira;
fast þrykktu feðr,
því felmtr sló,
sonum sínum
sèr við hjarta
miklu megni hrært,
ok mæðr dætrum!
Kná hèldu kundar
um knè feðra
nú þó niðr beygð,
ok næsta hryggvum

þeim kystu af kinnum
karlmannlig tár;
þar sátu saman
systir ok bróðir
hèldust í hendr
ok horfðu nú
harla hrædd
hvört á annat!
Ok við ástkær brjóst
unnusta dýrra
lágu lund-skelfðir,
liðnir niðr,
ódauðligir
ýngismenn þar,
fundu þeir fjör
út af frábærum
með meira krapti
meya hjörtum
hinna himnesku
hrærast ok slá!
Hresti nú hug sinn
helgra manna
frægr faðir,
ok til frum-móður,
sem stóð ok studdist
sturluð við hann,
ok til annara
enn svo ræddi:
Betr þjóðir þær
eigi þeir væru,
hvörjum Guð í grimd
geisist móti!
ok hvörra augsýn
óhelgri gègn
reiðr reisir sik
ræsir himna!
Máske menn þeir
hafi mjög reiðann
dárliga djarfir
dómarann gjört,
svo hann nú hafi
af himni stígit
með þúngum þjósti
þá til at deyða!
Væri vitanligt,
vorir bræðr!
ódauðlig öld þú
annars, sem vèr!
yðr, hve þèr oss
ernð kærir,
ok hve vèr ángrumst
fyrir yðar skuld,
þá munduð þèr ei
þannig hafa,
til at stíga á storð
af stól himins,
ok deyða drótt yðar,
dómarann neydt!
Ef jörðin yðr,
ættir bræðra!
verðr gjörð at gröf,
ok Guð í einn
hryndir yðr hart
í hennar dýpt;
ó þá vildum vèr
á voru hauðri
Drottins dána menn
daprir syrgja,
opt til yðvarrar
ofan horfandi
jarðar, hvar hvílast
yðar huliu bein!
En þú, ó Faðir!
hefir ætt þeirri
Guð-mann gefit,
þinn guðdómliga
ok mjög mektuga
Messíam sendt!
skyldir þessa þá
þú vilja dæma?
Sèrhvörju sinni
Seraphim þennann
allir umsýngja,
nær arka hèr,
einnig umhverfis
allir himnar
helgi höldum í
hátíðligum!
hann mun ættlið allt
endrleysa!

þá munu þínir,
er þar at kemr,
leiðast fram til lífs
enir liðnu menn,
allir uppvaktir
af andláts svefni,
ok vèr vora sjá
vegliga bræður!
æ! Drottinn, Drottinn!
viltu dæma þá?
Sjáið snarliga
snýr hann frá mèr
ægu andliti
ok affram heldr
æ stærri ok stærri
meðr strángleiks ógn
brádt brunandi för
beint til jarðar.
O! hve mjög eru
undarligir,
Drottinn dýrðar hár!
dómar þínir,
ok þinn eylífi
fyrir óljósri
sjón vorri vegr
vafinn myrkri!
en þú hvörvetna
heilagr ert,
sífeldt hinn sami,
sjálfum þèr líkr!
Halelúja!
þú minn höfundr!
frá helgu hauðri
heiðra þik menn
ódauðligir í
auðmjúkum bænum;
dróttir dauðligar,
sem deyðir þú,
hljúgar beiða þik
beygðar í dupti!
Við þinn volduga
vísari Seraph
guðdóms tignar trón
tilbiðr þik,
ok hylr andlit
undir skýlu!"
þetta sagði sá,
ok sjálfs Guðs dýrð
augum álengðar
eptir horfði.
Nú kom Guð nálægt
niðr at jörð;
skjótt sá af skæru
skýa fjalli
hann ok Messíam
hár Elóa,
stöðvar hann sik strax
ok stóð þar kyrr,
þeytti fram þrumu
ok þannig mælti:
Hve máttu, mögr
hins mikla Föðurs!
stór vera', at standast
þenna stránga dóm!
ó! at innan rúms
yztu merkja,
sem allt endanligt
yfirgrípr,
væri svo skarpt skyn,
at skilit gæti
þenna dulinn dóm
ok þá dýpt skoðatl
Guðdóms grunnleysi!
gæt þín, Elóa!
gæt, at þegir þú
ok þitt hyljir
andlit með auðmýkt
allra dýpstu,
tignar hærstu tign
tilbiðjandi!
heill þèr, foldar fólk!
fljótliga þú
svo mikla sælu,
sem ek, hlýtr!
Engill Elóa
innti þetta,
ok stóð útbreiddum
með örmum þar;
snèri hann sèr hýrt
at hauðri voru,

með sèr mjúka því
mælandi blessun!
Nú stèg Guð nafnkendt
niðr á Tabor,
ok þar augum jörð
yfirrendi
miðnættis myrkri
útaf miklu því,
er hann einsamall
í var hulinn!
Leit hann yfir allt
andlit jarðar,
öllum afguða
ölturum með,
sá þat síþakit
af syndurum!
hel um víðann váng
sá hann viðblasa,
alvalds eindæmis
eylíf vitni.
Allar íllgjörðir
frá upphafi
sköpunar skeðar
til ens skarpa dóms;
þý-góða þræla,
þjóna Jehóvæ,
ok ægri syndir
enna kristnu
skutu skjálfandi
til skýa sèr,
alskygns eindæmis
fyrir augliti!
Fram fyri Guð
með frekju reknar,
naktar útaf nótt
neðst úr djúpum,
hvar þær hjarta manns
hafði grafit
þrjózkufullt gegn þeim,
sem þat lèt skapt,
allar ultu nú,
ævarandi
brennimarks blygðun
berandi þær!
Ok svo þær, sem einn
óðfluga þánki,
sá í brjóst bregðr
bráðliga sèr,
eðr ákenníng
einhvör sinnis
smásmugligasta
smeigt höfðu í
harla þunnann hjúp
hjóm-vefnaðar!
Hèr fóru fyrir
feikna her þeim
nátt-svörtum syndir
sálna hárra,
er sik ærit vídt
láta útbreiddar,
þær er þik sáu
í þinni prýði
hinni himnesku,
þú helga dygð!
en þínum ekki
eptirfylgðu
ljúfu líf-brosum,
sem þá lokkuðu!
Þrásamliga þær
þar fundu til,
en svo laust ok lètt,
at þik lítt metna
vísvitandi þeir
vanhelguðu!
Geistar gengu þær
ok gönuðu,
sem reistir turnar
í risa myndum;
þustu þær svo fram,
ok þrumu nær,
æstaði alla
almáttkri raust
fram fyri Drottinn
full samvizka
ýtarligri af
alvörugefni!
Nöfnum nefndi hún
ena nafnlausu
meðal mannkynsins
er mjög sik tældi,

viljandi vitni
eigi viðkannast,
sem gengr milli
Guðs ok þeirra;
aðsteðjandi stund
ens sterka dauða!
Hóf sik í himin
hávarr kliðr
allsherjar upp
af áklögunum;
tvistar kváðu við
á titrandi
Guðs vinda vængjum
ennar voluðn,
þó stilltar stunur
stúrandi dygðar
undan órètti;
einmana kvein!
Eins ok ægis hljóð
atstreymanda
dunaði hel-vein
enna deyendu
upp frá alblóðgum
orustu völlum,
ok víg-vinnendum
vitnaði gègn!
Sjá! píndra blóði
píslarvotta
veittist reiðar raust
til at ræða með,
ok Guðs geisandi
grimdar veðra;
hún gekk hrópandi
gegnum himininn:
Þú sem þar sitr
á þínum tróni,
haldandi í hendi
hræðiligri
vogskálum voldugs
veraldar dóms!
ek var án saka
látit útfljóta;
ek, hæzti herra!
er heilagt blóð,
því er þín vegna
þjóð úthellti!
Hèrvið hugleiddi
heilagr Guð
sjálfan sik
ok sinn her anda,
honum trausta trygð
sem tjáð höfðu,
svo ok syndara,
sakfelda menn,
við þat vaknadi
hans voldug reiði!
Hann nam hvíldarstað
hátt á Tabor,
ok hèldt jarð-hnetti,
sem hristist djúpt,
svo at sízt skyldi
sundrdrafnat
fis þat forgánga
fyrir honum
útí eyði-rúm
ómælanligt!
Eptir þat augum
allt sjáandi
hann at Elóa
engli snèri,
rèði Seraph rètt
hvað ræða vildi
jafnsnart ásjónu
Jehóvæ í,
ok stèg frá Tabor
strax til himins.
Svo frá tjaldhúð sèr
sáttmálans lypti
stólpi himin-hár,
handleiðslu ský,
nær sem söfnuðr,
sýniligt vitni
burs frá Bethlehem,
búðartjöld sín
af eyðimörk
til eyðimerkr
at Mósis boði
mundi flytja!
Nam staðar norðr
á nótt miðri,

sinn sendi Seraph
ok svo þar stóð
ofanhorfandi
á Olívetí,
skaut hann skjótt á lopt
skruggu lúðri,
ok blès blöskrandi
út af básúnu
voðaligri ógn
veraldar dóms!
Hrópar hann þá svo
hátt til jarðar:
„fyrir hans heilagt
ok hræðiligt nafn,
sem er eylífr,
endaleysi,
sá er meðmælir
hinn mikla síns
voldugs rèttlætis
varanligleik!
ok sem einn ræðr
afgrunns likli;
hann sem helvíti
hefir vopnat
strángrar ströffunar
steikjandi blossa,
dauðann með dómi
ok dör alvöldum!
Sè nokkr sá
meðal safnaða
upphimins allra,
sem vill í ráðast
at mæta máls sókn
fyri mannakyn
reiðubúinn
í rètt at gánga,
hann sè fljótt frammi
fyri Guði!"
hrópar Elóa
af himni svo!
Horfði Guð-maðr
svo hátt stöddum
í andlit engli
Elóæ þá,
heyrði lúðrs hljóð
ok hèldt án tafar
greiðara gángi
til Gethsemane;
Fylgdu þrír sveinar
Frelsaranum,
á skuggafullri
skèlfíngar nótt,
sleit hann sik frá þeim,
ok sèr flýtti
afsíðis, at hann
gæti einn verit!
hóf nú Jehóva
sinn harða dóm!
I hið heilaga
hefir þú mik,
Síons saung-gyðja!
at sönnu færðann,
en ei' inní
hið allrahelgasta!
þótt ek spaks-spjall-hæð
spámanns hefði
manns önd eylífa
til at yfirná,
ok með afls armi
áfram drífa;
þótt ek há hljóð
eins höfuð-engils
hefði, með hvörjum
hann prísar Guð;
þótt hin blöskrandi
básúna gylli
frá munni mínum,
sem mjög glumdi
forðum á Sína,
svo fjalls rætr
allar titruðu
undir henni;
þótt Kerúbs þrumur
út af þessari
túngu töluðu,
til at mæla
hugsanir, hvörra
hátign at ná
tókst ei tíginnar
tón básúnu!

þá hlýta'g þrotinn
þó at hníga,
Guðs friðar-gjafi!
þína grimmu kvöl
vildi ek verðugum
vigta ljóðum,
þá er þreyttir stríð
þú við dauða;
ok Guð þinn gramr
svo í geði var,
at lèt enga bæn
á sik vinna!
Þú sem forðum fólst
í fjall-skoru
ens eldra sáttmáls
erki-própheta,
sá djarfast brjóst bar
meðal biðjenda,
þá hann þess beiddist,
þik, Jehóva!
at sjá augliti
til auglitis!
Unz fram hjá farin
fyrir honum
væri voldugs Guðs
vegsamlig dýrð,
er hann álengðar
hins eylífa
frábæra fegurð
fèkk at líta,
ok Guðs raust við hann
um Guð ræddi!
Andi Alföðurs
ok hans Sonar!
ek em enn framar
undir háðr
dauðans dóm
af dupti gjörðr
meir enn Móises
hinn mikli var!
O! af þínum eins
umskyggjandi
voldugu vængjum
verndaðann tryggt
mik, hèr í mínum
mikla fjarska,
láttu líta Guð,
líðanda Son,
í sinni dauðans
ángist staddann!
Djúpt beigðr dupti
fyri dómara
felmtri sleginnar
foldar yfir —
öndverð augum hans
sem öll nú skalf
með hljóðum hrolli,
ok í hristíngu
hrærði hismit
af holds leyfum
ótöluligra
Adams barna,
öll þurr syndara
örendra bein —
Lá með máttvana
Messías augum —
þau er stirð ok stíf,
starandi í Tabor,
einkis áskynja
af öllu sköptu,
urðu dómarans
auglitis vör!
Kvíðandi, kafin
köldum hel sveita,
af ógn ok ángist
yfirkomin,
öldúngis orðlaus,
en af innvortis
tvistum titrandi
tilfinníngum!
Sterk eins ok stíngr
af styr dauða,
höst ok hraðfara
sem hugsun Guðs
á ofhoð ofan
ofboð varpat,
ok tilfinníng
á tilfinníngu,
öflug ákenníng
eylífs dauða

skèlfandi skóku
þann er skreið þar nú
í grasgarðinum
Guð ok maðr.
þar lá hann þannig
þagði ok kvaldist
enn því meir óttinn
óttafullr,
því ángrs ægri
ángistin varð,
nóttin nið-dymmri,
því næmari
grimd gullu þrumur
Guðs básúnu!
Æ dýpra ok dýpra
Drottins undir
titraði Tabor
tignar þúnga!
dundi dreyri
fyri dauðsveita
af þess ásjónu,
sem á lá kvöl!
Reis hann úr ryki
ok rètti hendr
af ángist þrúnginn
upp mót himni;
tárin blíð ok blóð
blönduðust saman,
hann bað há-stöfum
hinn, sem dæmdi:
Enn var, ó Faðir!
einginn heimr!
brádt firrtist fjöri
hinn fyrsti maðr,
brádt með burt-dánum
blakt teiknuð varð
sekum syndurum
sèrhvör stunda!
Umliðnar eru
aldir margar
þannig þýngðar
af þinni bölvun!
nú er nálæg stund;
nú er hún komin!
stundin kær-kjörna
er komin, Faðir!
Aðr veröld varð,
þá er visnuðu
enn nú eingin
örendra bein,
þegar þessi var
þjáníngarinnar
sæl ok stórvæg stund
strax útkjörin!
ok sjá, nú er hún
komin yfir mik!
Sælir sèuð þèr
sofendr Guðs!
blessuð í gröfum
sèn bein yðar!
þèr verðið vaktir
vissuliga!
æ, hve frekt finn ek
fram við mik koma
yfrit dapra deild
enna dauðligu!
ek sem eins fæddist,
skal eins deya!
þú sem dómarans
þúngum armi
ok hart höggvanda
heldr á lopt,
ok með ógnunum
ákaft pínum
mèr ok skèkr mín
mold-kynjuð bein!
láttu stríða stund
sturlunar slíkrar
fljótara flugi
fram um gánga!
Æ allt möguligt
er þèr, Faðir!
láttu hana hradt
hjá mèr líða!
fleyti-fullum
af fár-heipt þinni,
ok af ákefð
þinnar ógnunar,
yfir mik armi
útrèttum með,

kvala kaleik þú
koll-steypt hefir!
Ek er einmana,
af öllum nú,
þeim sem elskar ek,
englum, mönnum,
mèr meir ástfólgnum
mínum bræðrum,
ok þar á ofan
er ek af þèr,
af þèr, ó Faðir!
yfirgefinn;
Lít á eymd ofan
augum þínum
þaðan sem sitr
ok synd dæmir!
o Guð Jehóva!
hvað erum vèr?
Adams börn erum,
ok ek líka;
Lát af at ausa
óbæriligum
ofan yfir mik
ógnum dauða!
ei þó sem ek vil,
heldr einúngis
verði vilji þinn,
voldugi Faðir!
Mín fast mænandi
magn-þrotin augu
útí æga nótt
afframm horfa,
ok gèta ekki
úthellt tárum,
mót himni hafin
eptir hjálpinni
mín er stíf ok stirð
styrktarlaus hönd!
Ek hníg til jarðar;
en jörð er gröf!
um sèrhvört dýpsta
sálar fylsni
æpir einn þánki
til annars hátt,
ek sè af Föður
útskúfaðr!
Æ! þá óska tíð
nær ei var dauði!
nær blíða Föðurs
yfir bur hvíldi;
nær sköpun Adams
skèði til þess,
at hann æ lifði
ódauðligr.
Enn guðdóms óþrot
ok svo bera
mín bein mynduð
af mold! ek líð!
aldrei ek, sem þú
eylífr, þrýt!
verði vilji þinn,
voldugi Faðir!
Hann sagði svo
ok sik reisti
aptr upp af bæn,
óstyrkva við
hægri hönd sína
hann sik studdi,
ok nið-dymmt horfði
útí nátt-myrkrit!
Svifu þá þúngra
fyri þánka sjón
ógnar ófreskjur
eylífs dauða;
sá hann sálir
frá sælu dæmdar,
þær er þeim degi,
þegar sköpun
kallaði þær
til at koma fram
ok vara um eylífð,
æ formæltu!
Hann þar djúpt drynja
dymmar heyrði
ýlfranir afgrunns,
sem undir tók,
stríða straum-fossa
steypast í djúp,
sem þrumur þyti,
ok á þeim straumum

vængjum veifa
vein ángistar!
Með lægri látum
líðandi fljót
ramm-gabbandi raust
ró frambuðu
algjörðs undirgángs
óveru svöfns,
tók þá tældra kvöl
til at hækka;
þá í andvörpum
óendanligum
úthellt aldinnar
örvæntíngar
hátt sik hóf mannkyns
hörmulig raust,
höfund sköpunar
hart klagandi,
sem var ok verðr,
at veru sína
ok hennar eylífð
hefði ákvarðat!
glöggt fann Guðmaðr
grand þess ok böl!
Af auðum kletti
Adramelech
hafði lengi horft
á hann niðr,
en stèg nú aptr
ofan þaðan,
ok út um jörð
augum rendi!
Sá hann fyri sèr
sveima í blóði,
sem rann ok rauk af,
einn ræfil manns,
þann er sjálfan sik
svipti lífi,
örvílnunar óp,
andvörp klagandi,
mann-eðlis óðr,
þegar aptr hvarf,
umbergis fyllti
allar hæðir.
Eptir ópi því
Adramelech
nálægði sik nú,
ok nam staðar,
Messíam mæddann
af mestu kvöl
tárum ok titrun
til at spotta.
Hann stóð með stolti
í stæltum augum
öllu eyðanda
útbrynjaðr,
ok með sjálfum sèr
sokkinn á kaf
í ramt regin-djúp
ránghverfra þánka.
Æsir hann sik upp
til at úthverfa
með grimmri grenjun
geisandi þankum,
sem strángr straumr
steypir sèr fram,
þeim er skruggu ský
skurkar niðr!
En í því snèri
andliti sínu
mæddr Messías
móti honum,
ok sá hinn illa
Adramelech,
með viðrliti
veraldar dóms!
Fann hinn fár-óði
fullskjótt á sèr,
hvör sá var sem hann
sèðann hafði,
skalf hann svo skjótri
fyri skèlfíngu,
varð at vettugi
ok vanmegnaðist.
Midt í hátt hreiktra
hugsana vondsku,
stóð hann ok hýmdi
hugsunarlaus,
var honum vitund
ok vætta hvörra

tilfinníng töpuð
nema tómleiks þess!
Eigi sá hann auðn
nè ort hauðr,
ei meir Messíam,
eigi minnsta hót
nema sjálfan sik,
ok at síðustu
var hann varla fær
at venda' á flótta.
Sleit sik Messías
frá slíkri kyrð
aumrar ángistar
þar í einrúmi,
sèr til sofandi
sveina vendi,
at hann nú eptir
útstaðna hríð
ángistar, er hann
einmana kvaldi
liti ljós andlit
lifandi manna!
Með þá mæðu líkn,
at menn sæi,
Endrlausnarinn
ánægðr gekk
til sveina sinna,
þeim hann sofendum
nú næsta stiltr
nálægði sik.
En allir himnar
umhverfis þá
lètu klíngja klið
kæti saungva,
hátíð haldandi;
himneskt sabbat,
hitt annat eptir
allsherjar sköpun
hátt ok heilagra
hinu fyrra!
Þegar dýr dagr
dóms er liðinn,
þá hefst hið þriðja,
ok þess mælir
er nefndr eylífð,
en hinn fyrsti
heitir Messías,
sem mun helga þat.
Nú hèldu helgar
himnar stundir
hvíldar hátíða
heilögustu;
vissu víst allir
at væri nú
sà enn eylífi
ypparsti prestr
inni Guðs eginallrahelgasta
forlíkun fólks
til at framkvæma.
Því at fyri fram
hafði Faðirinn
sjálfr sagt
svo mælandi:
nær umkríng yðr
ásar duna
himin-hvelfíngar,
ok heima saungvar
í brim hljóð breittir
brúsa þar með.
Um endalausa
þegar auðn stjörnur
skeika skjálfandi
útaf skeið hríngum
um þúsund upp
ok þúsund niðr,
sólar-mílna mál
frá merkjum vegar;
Nær yfir yðr
eittsinn kemr
geigr frá Guði,
ok gull-kórónur
hrynja með hasti
af höfðum yðar,
ok glæstir gull-stólar
til grunns síga,
þá er stíluð stund
ens stránga dóms,
þá er Guðmaðr
genginn í píuu.

Hèrvið heilagir
himnar súngu:
nú er framfarin
en fyrsta stund
harms ok hrellíngar
háleitustu,
er fèkk afrekat
eylífa ró
hinum heilögu;
hún er liðin!
svo var súngit
af sveitum himna!
Enn framan fyrir
Frelsarinn stóð
sínum ljúflindu
lærisveinum,
ok þá sokkna sá
í svöfn djúpann
nú á nálægri
neyðar stund hans!
Enn þá ásjána
sakir alvöru
Jacobs gèð-göfga
glóandi var!
svo blundar sætt
fyri sinn dauða
undir alvöru
2 með ró reifaðr
3 rèttkristinn einn
1 andlits blæu.
Hug-hægum Pètr
hallaðist at
á jörð Jóhanni,
þó jafnt eigi,
sem hann með hírum
hvíldar brosum;
kríngum kærleiks svein
klárar mundu
nú sveima Salems
svöfn-vitranir.
Talar til þeirra
tvistr háu
Messías máli,
mælandi þannig:
ok þú sefr svo,
Símon Pètr!
hafðir þú ei þol,
þar ek nú líð,
eina stund með mèr
at mættir vaka?
Brádt mun ei blíðr
blundr nè ró
sveipa sjón þína
sveimandi í tárum!
verit vakandi!
vakið ok biðjið!
freistandi fjandi
svo fái sízt
yðr óvara
yfirfallit!
At vísu er þat
yðar vilji,
en þèr einnegin
eruð af jörð;
harla mjög hindrar
himneskann anda
duptið dauðliga,
sem þèr dragizt með!
Þannig sá hann þrjá
þessa sveina,
en með augna sjón
óendanligri
út lángt um lengra
leit hann í senn
allar ættir
Adams barna!
Leit hann sèrhvörn sem
syndgaði ok dó,
ok sem mun eittsinn
endrlifna;
gekk hann enn undir
ásettann dóm,
at hann einn fyrir
alla liði.
Nú sveif til síðu
at sama fjalli
áðr umgetinn
Abbadóna;
í þoku þakinn
þegjandi nætr,

ok við sjálfan sik
svo mælandi:
Æ! hvar mun ek mann,
sem ek mjög þrái,
loksins fundit fá
hinn forlíkanda?
ómakligr ek
er at sönnu,
manna bestann mann
at meiga sjá?
Hann Satan sjálfr
sèð þó hefir,
hvar skal ek hans
um hauðr leita?
ok hvar fæ ek loks
uppleitat þik,
Guðs mikli maðr,
Meðalgángari?
Ek hefir allar
eyðimerkr
gegnum ganat;
ok gengit villr
uppsprettum at
allra vatns strauma;
forsælu lundum
hefir fótr minn
óstyrkr íflækst
einsligrar skýmu!
Svo ek sagt hefi
til cedrus viðar:
ef þú huldir hann,
hái cedrus!
tilkynn mèr þat þá
með þínu braki!
ok til fylsna fjalls
framslútanda:
O! lút ofan,
þú einmana bjarg!
til minna tára,
sem ek tídt felli,
svo ek sjái
máske sofanda
guðdóm' gæddann mann
í gjótum þínum.
Hefir hann máske —
hugsaði' ek svo —
leiddann með ljúfri
lífs umhyggju
manns skær skapari
und' skugga þaki
mjög svo mjúks
morgunroða!
Máske hafi hann
hár vísdómr
ok mikit djúpsinni,
sem menn forðast,
fólginn fengit
í fylsnum jarðar;
en hann var hvergi
á himins vegum,
hvergi heldr
í hauðrs skanti!
En ek með öllu
er óverðugr
andlit þitt
á at líta;
æ, óverðugr
er ek at sjá
þinna bros-blíðu
bifun augna!
ó þú Guðs ímynd,
ódauðleiks maðr!
En þú menn at eins
endrleysir!
mèr er þat meinat
at mik frelsir,
ok mitt eylífðar
emjanda kvein,
hvörsu hátt sem er,
heyrir þú ekki!
æ, þú menn at eins
endrleysir!"
hann sagði svo,
ok nú sofandi
leit hann hvar láu
lærisveinar!
Með blíðu brosi
blundandi lá
fagr Jóhannes
fyrir honum,

ok þó allnærri,
en óttasleginn
skaut hann til baka
skjálfandi fótum;
varla var þat,
at hann vogaði,
í hálfum hljóðum
at herma' um síðir:
Ef þú ert sá,
sem ek at leita,
hinn guðdómligi
góði maðr,
er kom ætt sína
at endrleysa,
þá er þèr af mèr,
þjóða-Lausnari!
heilsun hermd
með heitum tárum!
Auðmýktar tárum
eylífum með,
ok með andvörpum
ódauðligum
þèr ek þá heilsa
í þinni prýði,
auðngri af elsku,
ok af ástþylli!
Efllaust auglýsir
andlitsfar þitt
himneskt sakleysis
háleit merki,
vel skíra votta
veglìgrar sálar,
sem er öllum meir
undrunar verð!
Já, þú ert þat,
ok ek þín hefi
svo lángsamliga
leitat of allt;
hve þú andar út
yndællri ró!
dýrmætrar umbun
dygðar þinnar!
Ofboð ok ótti
á mik svífa,
lystiliga ró
nær ek lít þessa,
sem þèr framflýtr
út af fullri sál!
ó snú undan mèr
andliti þínu,
því ek hlýt ella
fyrir ángrs skuld,
at horfa í aðra
átt ok gráta!
Engill innti svo,
en áðr væri
úttölnð orð hans,
með ángrsemi
vendi Pètr við,
er hann vaknaði,
sèr til Jóhannem
svo mælandi:
Mik dreymdi mætann
meistara vorn,
þókti mèr hann þá
með þúngu bragði,
ok fullum augum
alvöru strángrar
mýktrar meðaumkun
mik áhorfa!"
Engill varð þess var,
viðstaldraði,
fèll í forundrun,
ok af fálátri
ósorg umkríngðr
álengðar heyrði
eins ok eymdar vein
einhvörs sem deyr!
Hann hneigði hlustir
eptir hljóði því,
ok vildi vita
hvaðan vein kæmi;
laut hann þá lægra,
en lángtum framar
heyrðist honum þat,
at hrygð aukast,
ok æ meir ok meir
magnast af ógn!
Fángit af furðu
ok felmtri slegit

skalf honum hjarta,
er nú hugsaði:
hvört skal ek skunda,
til at skoða mann
þann, sem þreitir stríð
þar við dauða,
ok dóm drottinligs
dapra þánka,
í ógn ok ángist
aumri staddr?
Skal ek sjá sýn þá
ena sorgligu,
hvörsu vætir váng
ens vegna blóð?
ske má, hann hafi
um hím nætur
morðíngi myrðtann,
í myrkvu leini
liggjandi' á leið hans
lymskr dólgr;
Nær hinn, hraðandi
heimför um nótt,
hugðist at heilsa
hjalandi börnum,
hýrrar haldendum
um háls móður,
föðurligum
meðr faðmlögum!
Kannske klárum þó
hafi krýnt verit
mannsins framferði
frómleik ok dygð,
ok hans athafnir
ágætri vizku;
Skal ek áhorfa
ángist bitra
þessa myrðta manns
meðan hann deyr;
brostin brúna ljós,
bliknaðar kinnar,
blóðs ok fjörs farva
firrtar öllum?
Skal ek hans heyra
harðar stunur,
dauða hrotr hans,
sem hróp þrumu?
æ! blóð blöskranda
hins bana-slegna!
æ, þú óseks manns
óttalígt blóð!
Ok svo muntu mèr
mótvitni bera,
fælufyllsta þeim
fyri dómi,
sem ei minnstu mun
miskun þekkja!
ek hefir ok svo
afvega leidt
Adams ætt
í ægann dauða!
Æ! hætt at hræða
hjarta mitt svo,
æ blóð, æ þú blóð
ósekra manna!
sem nokkru sinni
hefir sárum úr
úthellt orðít,
ok úthellt verðr
um lángar aldir
eptir þetta!
Æ! römm reiðarslög
raustar þinnar
öskra heyrir ek
alla vegu!
ek heyrir andvörp
óttalig þín,
er þú upp til Guðs
einmidt sendir;
heimtir af honum
hefnd óvæga,
ok henni um eylífð
afhendir mik!
Hlýt ek hvörvetna
at horfa þángat
hvar yðar hvílast
hvumleiðu fúar,
ek hlýt yðar bein,
Adams börn! sjá!
þángat þvert um geð
er mèr þrá-litit!

þótt ek þrá-vendi
þar frá augum,
sem sterk stríðs-hetja
strax þau hremmir,
vindr ok veltir,
ok viðsnýr þeim
míu sek samvizka,
til at sjá þángat,
hvar ber bein yðar,
sem ek banaði
einn með öðrum,
etr fúi,
í kyrrum kofum
kaldra líka!
Hrollir hugr minn
við heljar kyrð;
kemr ekki sá
í kyrrleik neinum
nè í nætr þels
næði þessu
sem svo gèð-grimmr
gegn mèr æðir!
Með skruggum skundar
í skýum hann,
hans en sterku stig
eru stríðviðri!
hel er hans ræða,
hegníngar dóm
mælir munnr hans
miskunarlausann!
svo þenkti Seraph,
ok nú seinliga
drógst nær deyandans
döpru kveini!
Mátti nú mildann
Messíam á
engill álengðar
augum koma,
andlit ok enni,
sem allt þá var
blóð-sveita sveipat,
sá hann ekki!
Lá á fold flatr
ok fyrirbaðst
Messías, munni
at moldu snúnum,
í stærstu stilli
sturlaðr mjög,
enn þar álengðar
Abbadóna
reikaði' í kríng
um róligt hauðr!
I því kom gagngjört
Gabríel fram
af þykkri þoku
sem þakizt hafði!
hann gekk hægt ok seint,
en við hans komu
hrökk Abbadóna
hræddr til baka!
At gekk hár himins
höfuð-engill,
ok hneigir auðmjúkt
eyra niðr
móti Messía,
mannligu tári
aptrandi í augum,
sem með alvörn
ok með gaumgæfni
gættu hèr alls!
Lèt hann í ljósi
lotníngu djúpa,
stóð á sama stað
í stórum þaunkum,
ok hneigði hlustir
hauðri sem næst,
at mál Messíæ
mætti nema;
Hlustir, með hvörjum
hann í fjarska,
um þúsundsinnum
þúsund mílur,
heyrir Guð gánga,
ok glaðværann saung
ítra upphimins
Oríona
híngat allt ofan
á ora jörð!
Með þeim heyrði hann
hægt rennanda

ok lángsamliga
Lausnarans blóð
frá æð til 'æðar
sökum ángistar,
ok af eld-heitri
ángist bænar.
Merkja mundi hann
miklu ljósar
gegnum innsta grunn
guðdómligs hjarta
andvörp ypparstrar
áköllunar,
upphimins andvörp
ómælanlig!
Enn meiri' í eyrum
eylífs Föðurs
öllum æru saung
allra skepna
þeim er um eylífð
upphefr Guð
vegsamligri víst
verði! sem skóp;
svo Guð gleðjandi
sem Guð Jehóva!
hljómar háleitt
fyrir hans eyrum,
sjálfan sik
er hann svo nefnir!
Svo mundi merkja
Messíæ nú
sálar sára kvöl
Seraph hulda,
hóf sik frá honum,
hvarf til síðu
ótta miklum með
ok móts við Guð
hèldt saman höndum,
hátt upplyptum,
ok rendi augum
eins til himins!
Varla gat vesæll
fyri vanmætti
augum upplitit
Abbadóna,
síðan Gabríel
sèðann hafði!
leit hann undir eins
fyrir ofan sik
af her himneskum
heila skara.
Þeir er auðmjúkri
augna tilbeiðslu
ok þagnar þaunkum
til þín niðr,
mikli Messías!
þar á moldu lást,
einu augliti
allir vendu!
Fullr varð felmtrs
sá hinn fordæmdi,
ok svosem uppaf
aungvits dái
kom á Messíam
máttvana sjón,
er nú andliti
yfrit seint lypti
frá dreirgu dupti
ok dauðans sveita!
Streymdi strax um hann
stórliga skelfðann,
sem hann sá þetta,
svört heljar nótt;
en nær hvarf til hans
hugsun aptr,
þá gengu þannig
þenkíngar hans;
Nú hèldt hann hjá sèr
hrellíngar þaunkum,
en lèt þá aptr
eymdar klögun
nú á ný hljóma
gegnum nætr ógn,
ángistarfullum
meðr andvörpum:
O! þú sem ert
fyrir augum mèr
í stríði staddr
við sterkann dauða!
hvör ert þú helzt
eða hvilíkr?

af mold myndaðr
mögr jarðar
lítilmótligrar
ok lágrar mjög?
Er nú, alvaxta
orðinn til dóms,
síðasta dags
fyri sjón titrar,
ok gröf gínandi
ens gamla síns
ok alls endanligs
óstöðugleika
ert þú einn skaptr
af því dupti?
En þó er þessi
þinn manndómr
skrýddr skini
frá skaparanum;
eitthvað augu þín
ok yfirbragð
greina göfugra
enn gröf ok fúa,
sízt er svo andlit
syndara nokkrs;
ei' ber slíkt upplit
útlagi Guðs!
Víst máttu meira
enn maðr vera!
í þèr dyljast djúp,
hvörra dýpt alla
mèr, at sjá meigi,
er ei möguligt;
Guðs leyniligir
leiðar krókar,
öllum sköptum óð'
óratanligir!
æ meiri og meiri
fyri mèr þú ert!
hvör ertu þá helzt,
eða hvílíkr?
O! vend, ó vend þú —
við frá honum,
enn útskúfaði!
augum þínum;
hrífr mik hugsun
hræðilig ein,
þvílík sem þruma,
þánki mikill
skjótrar skèlfíngar;
því ek skynja hèr
ímynd eina,
sem mèr ofbýðr!
Burt, burt þèr ónir,
sem blöskrit mèr,
streymið ekki svo
með stríðu flóði
umkríng mik, ógnir
eylífs dauða!
æ! hann er líkr
eylífum Syni!
Þeim sem forðum frá
Föðurs tróni,
enum hærst hafna
hástóli frá,
fluttr vængjum vagns
vídt blossanda
yfirfèll oss
með ofsa þrumum!
Ok öll sín tjón-tól
tengslaði fast
án allrar vægðar
oss við hæla,
nær ódauðleikr
einn varð bölvun,
ok lífit ekkert
nema eylíft hel.
Nær skært skuldleysi
sköpunarinnar,
gimla gleði
gjörvallri með,
frá oss flúit
í flokk rèttlátra,
lèt um eylífð af
oss at fylgja,
ok vor Jehóva
at vera Faðir!
Ek brá augunum
eitt sinn í kríng
skjálfandi' af skelk
ok í skyndíngu

sá hann óðfluga
eptir mèr koma;
Soninn allskyns ógn
útbrynjaðann;
reiða rekandans
rammskygn augu.
Hann stóð hýr-blossa
hátt á vagni,
nið-dymm nótt ok hel
voru neðan til,
Guð hafði gjört
hinn gæzku-fyllsta
allann útbúinn
með almætti,
ok með allskonar
eyðandi plágum!
Vei mèr! æ vei!
er hann veifaði
hegnandi hendi,
hrópuðu skot
þrumu þeytandans,
þau er lètu
náttúrnna nú
nötrandi af ótta
drynja sik eptir
um djúp gjörvöll
skjálfandi' ok skekin
sköpunarinnar!
Eigi sá ek hann
upp frá þessu,
því nú sökk sjón mín
í svarta nótt,
svo rakst ek ráðlaus
í rot-höfga
gègnum geisi-storm
ok grimd reiða,
ok náttúrunnar
nötrandi kvein,
eymstrum kvalinn af
örvæntíngar,
en þó sem áðr
ódauðligr!
Enn nú at nýu
nú sèr ek hann,
mjög er manns ásýnd
Messíæ lík,
þess sem þúngt stynr
þar í dupti,
hvör þó miklu meir
enn maðr er.
Hvört er hann arfi
þess ens eylífa?
mun hann Messías
mönnum gefinn?
æ! hvört er hann sá,
sem heim dæmir?
en hann þjáist þó
ok þar liggr
böli beigðr
ok berst við dauða!
Hann á eld-vagni
sem áðr stóð
brennandi blossa
berst við dauða,
engi mælir er
ángistar þeirrar,
hvar með er gjör-girdt
guðdómlig sál!
Hann kvelst ok kveinar
í köldu dupti,
dauðans ángist út
af æð hvörri
bólginni blæðir
í bana stríði!
Ek, hvörjum engin
eymd er dulin,
sem öll kvala kyn
kannat hefi
ok örvílunnar
ofan í gègn,
veit ei nokkurt nafn
því er nefnst geti
sálar ángist sú,
sem hann líðr,
ok mèr öngri með
eptir honum
tilfinníngu tekst
tárugum þeim
ok aumum dauða
á at kenna!

Nýa nálægjast,
næturligri
í fjarlægð, finn ek
fulla þánka
undrunarverðrar
opinberunar,
en um villu veg
völundar húss
þeir mjög fjölflóknir
í fáng mèr koma.
Himins sjóli sá
Sonur Jehóvæ,
eylíf ímynd
hins æðsta Föðurs,
mundi mynda sik
í manneskju,
af stillis stóli
stiginn niðr;
hann mundi máske
fyri menn líða!
hann mundi hèr
fyrir hrasat lið
dauðligra bræðra
undir dóm gánga!
Sè mèr enn ekki
með öllu rètt
himneskra hluta
horfit minni,
þá hefir þennann
þegar á himni,
þó lángt sè liðit,
leyndardóm um,
mèr eitthvað óljóst
til eyrna komit.
Sjálfr sannar þat
Satan líka
höggorms hvískri með
um hans ræður,
ok hans athafnir
undrunarverðar!
hvörsu halda sik
heilagir englar
næsta nákvæmir
í nánd við hann!
Hve trúrri tigna
hann með tilbeiðslu
öll full af auðmýkt
andlit þeirra,
ok samanlagðar
sèrhvörs hendr!
einnig er at sjá
sem öll titri
náttúran nú,
sem af návist Guðs!
Þú fyri þína,
ef þannig ert
dauðliga bræður
undir dóm genginn,
ok ef Sonur ert
hins eylífa,
þá flý ek frá þèr
ok forðast þik;
Svo þú, Sonur Guðs!
nær sèr mik titra
fyri fótum þèr,
farir eigi
reiðr móti mèr
til móðs vakinn,
ok þik hradt hefjir
á háann trón.
En þú víst ekki
á mik lítr;
þó er þèr ljóst
hvað ek þenkir innst!
mun ek þánka þann
þora meiga
hræddr at hugsa,
sem í hjarta mèr
finn ek fyrst titra,
en fyrr aldrei'.
Messías munt þú
fyri menn orðinn,
engla Messías
eigi þú varðst,
hærra háttar,
sem hinum eru;
æ! ef þú hefðir
oss virðta þess
at gjörast Seraph,
ok gimla merkr

útbreiddr yfir
eins lægir þú,
ok nú lágt liggr
á láð-dupti!
Ok at eins gengir
fyrir oss í rètt
Föðurs eylífa
fyrir dómi
lítillátustu
meðr lotníngu,
hèldir til himins
höndum saman,
augum æðstann trón
áhorfandi!
O! hvað ek skyldi
þá með upplyptum
mundum mínum,
Messías! þik
guðdómligi, greldt
gánga kríngum,
ok með hátt höfnu
Halelúja,
ok helgum hljómi
hörpusláttar
gjalda þakkir þèr
ok þik prísa!
En fyrst þèr eruð
Adams börn! þat,
ást-megir Guðs
ok eptirlæti!
þá brenni bölvun
blossa eylífum
hvört þat höfuð,
sem er harðsvírat,
hafandi hrak-geð
til at hafna gjöf,
ok synja Syni Guðs
sæmdar rèttrar!
Ok hvört þat hjarta,
sem hans eigi
verðugt veranda
vanhelgar dygð!
þèr mjög svo mörgu,
sem munuð koma
ættir hèreptir
endrleystra!
ef þèr óvirðið
ypparsta blóð,
andliti þessu
sem af rennur,
Sè þat allt úthellt
yðr til dauða!
til eylífs dauða
sè yðr þat!
yðr meinar ek,
ok með nafni
einnig ávarpa
óttaligu,
er hinn óskapti
lèt yðr veitt,
þèr ódauðligar
andir manna!
Nær yfir yðr
mun ógnarligrar
straungum eylífðar
standa með svip
bílæti bist
enna bitrustu
þánka, sem oss þjá,
þessi hugsun:
At þèr eins sem vèr
útskúfaðir
frá Guði sèuð
gjörsamliga,
frá fyrstu ok bestu
til fulls veru
æ at eylífu
útsnaraðir.
þá mun opnar ek
eylífra sálna
undir áhorfa
gegnum öræfi
full af allskonar
eymdum ok nótt;
ok, vel verði þèr,
vil ek segja,
eylífi dauði!
endalaus kvöl!
þèr geld ek þakkir,
ok þik heiðra!

Mun at vísu mèr
magnliga blöskra
at sjá sæla ró
sálna leystra,
er fyrir eylífð
umsorgun með
miklu vísari
í manndygð lifðu,
dynja mun döpur
út af dýrð þeirra
frá skærum himni
skelfíng á mik.
En ei at síðr
vil ek opnar þó
undir áhorfa
eylífra sálna
yfir eymda full
öræfi ok nótt;
ok vel verði þèr,
vil ek segja,
eylífi dauði!
endalaus kvöl!
þèr kveð ek þakkir,
ok þik blessa!
Ek vil mik jafnsnart
útaf járn-armi
helvízkra hlekkja
hrífa lausann;
fyri dýrstann trón
dómarans gánga,
ok með reiðar raust
ræða svo hátt,
at allt hauðrs hvel
ok himinsins
gjörvallir geymar
meigi glöggt heyra:
Ek er eylífr
eins vel ok hann!
hvör þess mundi minn
misgjörníngr,
at þú frá föllnum
friðþægíngar
syndara, sem er
sekr maðr,
en engli öngrar
aflaðir svo?
Hatar at vísu
helvíti þik,
þó er einn eptir
meðal útlaga,
einn, sem er öðrum
eðal-lyndari,
einn sem, Jehóva!
ei hatar þik.
Einn sem úthellir
allt oflengi,
æ, Guð! oflengi
úthellir sá
fyri þèr blóðgum
forgefins tárum,
ok eymdar kveini,
sem engi merkir,
skapleiðr skeðrar
sköpunar sinnar,
ok af ódauðleik
orðinn þreyttr!
Flaug Abbadóna
eptir þat burt,
en nú uppreisti
öðru sinni
af moldar dupti
Messías sik,
at hann enn sæi
andlit manna!
Ok nú súngu svo
sælir himnar:
nú er hún úti!
sú önnur stund
hæztu hörmúnga,
sem heilögum
ávann ununar
eylífa ró,
er nú umliðin!
inntu svo himnar.
Ok nú Messías
aptr skildi
sveina sína
sofandi við,
gekk hann þaðan þá
þriðja sinni,

at hann útgæfi
til offurs sik
þeim, er án afláts
ógnarligri
hèldt upp meðr mund
metaskálum!
Ok nú ekki lèt
af at ræða
döpur dauðans orð
ok dóms bölvun,
þá er vond veröld
hafði verðskuldat!
Hèkk yfir höfði
hinum sem leið
ófrýn ógna nótt
ofan af himni;
svo fyri dóms dag
dymmufull mun
frá hvörjum himni
hánga niðr
eitt sinn hin efsta
allra nátta!
þó mun þrengja sèr
þètt við hana
dagr fljótfara
til framgaungu!
Brádt mun bregða við
básúnu þruma;
hradt munu hrópa
þau en hreifðu bein,
frekt brakandi fold
full upprisu,
já sjálfr Jesús
frá jöfurs tróni,
er einnig eitt sinn
örendr var,
kallar dauða drótt
til dómsins mikla.
Enn hinn eylífi
á arfa sinn
tilliti vendi
af Tabor niðr,
ok sá yfirbragð
auðkenniligt
í hans andliti
eylífs dauða.
Stóð á storð niðri
í stil i nætur
viðr fjallsins fót
fagr Elóa,
skýum hafði hann
höfuð sitt birgt,
starandi á storð
í stórum þaunkum!
Kom þá ofan kall,
er kvað: Elóa!
þess ens eylífa
útaf skýi;
strax flaug með flýti
uppí fjalls dymmu
Seraph þegjandi,
ok með sama stóð
fullbúinn frammi
fyri Guði.
Enn kvað Alfaðir
til Elóa:
hefir þú horft á
hörmúngar þær,
er hinn eylífi
hefir útstaðið?
far, ok sýng sigrs
Syninum ljóð,
skörum öllum af
enna helgu,
með hans lífláti
leystra' ok blóði!
Ok af hâm himins
Halelúja,
þá krapti krýndr
konúngr hann,
til hægri handar
hafinn Guði,
mun einn um eylífð
öllu stjórna!
Ansar engillinn
aptr, og skalf:
en hvörnig ek þik
á at nefna,
þegar þángat kem
til þíns Sonar,

at greina boðskap
guðdómligann?
nú kvað Guð á ný:
nefn mik Föður!
Með Drottins dýrðar
djúpri tilbeiðslu
augum fullum af,
sakir auðmýktar
höndum heilaglá
haldandi at sèr,
innti Elóa
aptr þannig:
En nær augliti
til auglitis
í dreyra sveita
ok dauðans pínu
grimmustu grafinn
Guðmann ek sè;
nær hinn dapra dóm
í dauða teigjum
lèmagna lima
lít ek Sonar,
ok í umbrotum
andarslitra
gèt naumast glöggvat
guðdómsins spor;
Mun ek þá ekki
orðlaus standa?
mun ei mitt hjarta
magnliga skèlft,
jafnvel lotu-lægst
af ljóðum himins
frá munni at mæla
láta mèr synjat?
Munu mik ekki
myrkvum skugga
einnig í vefja
ógnanir Guðs,
ok enar dymmu
dauðans myndir?
mun ek ekki mik
meiga hníginn
sjá í foldar fis
fyrir honum?
Frá seg mik, Faðir!
för þessari!
ek em of lakr,
næ ærit skamt,
endanligr ek,
til at upphefja
mikinn Messíam
maklígum óð,
at syngja sigr-ljóð
Syni líðanda!
Mjög mildiliga
mælti Jehóva:
hvör hóf hugar-fjör
yfir himna þitt;
hvör gaf þèr göfga,
þá er gólst forðum
þú á þjótandi
þrumu vængjum,
sigr-hróss saungva,
nær Satans her,
á hinn dýra dag
dómsins fyrsta,
ráku rammliga
reiðarslög mín?
Hvör gaf hugar styrk
hjarta þínu,
at sjá á fjör-fall
ens fyrsta manns,
ok þar ásamt með
alla dauða
Adams ættar
eptirkomandi?
Far nú, flýt þèr,
ok flyt þik sjálfr,
ok ef þú titrar
fyri ótta meir
í hjávist heilags.
heims dómara,
mun hann menta þik,
til at meðblanda
af skèlfing skèkna
skjálfandi raust
svasligum saung-tón
sigr-ljóða!
þannig greindi Guð;
gekk þá Seraph

jafnskjótt samfara
Jórðanar nið,
ok þúngum þrumu
þyt frá Tabor;
svo lèt hann sígast
seinum fetum
ofan eptir
Olíu fjalli!
Næm fælu-nepja
nætur vinda
bar nú beinleiðis
biðjandi raust
ens mikla Messíæ
móti honum!
hillt varð í brjósti
blöskraði við
tignum Seraph
svo hann titraði!
En sem deyandans
andlit hann sá,
ok hans sjónar svif,
full af sárustu
dómsins tídt tèða
tilfinníngu;
er hann sá Soninn
sinum Föður
yfirgefinn af
undir reiði;
þá stóð hann staðkyrr
á storð fastr,
sviptr himneskrar
sinnar prýði
gjörvöllum glansa,
glíkr manni
af mold mynduðum
en meir ekki,
ei meir engillinn
ódauðligi!
En griða-gjafi
guðdómligr
at honum hneigði
hátignar sjón;
ásthyllis unað
augun sendu,
fylgði mildi mjúk
Messíæ brosi;
Ok við tèð tillit
tendraðist nýr
höfuðengli hjá
himneskr ljómi,
ok öll ódauðligs
eðlis prýði,
með sigr-sóma
sik hefjandi
á glæst gullin-ský
gleði-saung hann
lèt þaðan lystugt
um lopt hljóma:
Sjálfs Föðurs Sonur!
sjón hvílíkum
þín mik af þrauta
þaunkum vakti!
vel sè mèr, virðtum
þeirrar vegsemdar,
þvílíkum þúnga,
sem þú finnr til,
einnig eptir þèr
á at kenna!
At fá úr fjarlægð
feiknir sèðar
þánka þeirra,
sem á þessi stund
nauða næmustu
niðrlægíngar
gista Messíæ
guðdómligt hjarta!
Yfir yðr tjald
ofanhángir
leyniligustu
leyndardóma,
heilir himnar
hlaðnir með nótt,
glýfull girðíng
Guðs einveru
yðr áskyggja,
svo engi vætta
endanligra
hefir yðr sèð,
þèr grunnlausustu
guðdóms þánkar!

þó varð ek virðtr
þeirrar vegsemðar,
yðr álengðar
yfir at líta,
at sjá útyfir
aleðlis hríng,
sem allt endanligt
innilykr;
Ek, sem er at eins
hins óskapaða
skjótt skeðr þánki,
ok í sköpunar
dálítill dropi
djúpu hafi,
eins ok álfröðull,
sem upprennr,
svo hann sendi ljós
enu sveimanda
hismi hvörvetna,
sem heitir jörð!
Sæll sè ek þess,
at ek saminn var!
heill yðr, at þèr
um eylífð varið!
heill yðr, Faðir,
ok hans Sonur!
ok þèr ögranir,
sem uppfyllið
sannheilagar svo
sálu mína!
Sem nú með náðum
nálægðar Guðs
yðr yfir mik
ofanhellið;
haldit fúsann fram,
at færa mik
endanligs eðlis
utar merkjum,
at dymmu dýrðar
drottinligrar!
Ek finn öldúngis
á mèr sjálfum
þat hit sama, sem
síðar munu
framliðnir finna,
nær af fold koma
aptr upprisnir
á efsta degi!
Sem dofa dvala
enum djúpa frá
Meðalgángarinn
mik uppvakti,
eins mun hann yðr,
þèr Adams börn!
eitt sinn uppvekja
af andláts svefni.
þessi fró-fulla
fagnaðar titrun,
ok unaðsamr
eylífs lífs dans,
þessi mun ok þá
yfir þik koma,
er þú, Adams kyn!
endrvaknar;
þá mun sá sitja
sæll á tróni,
sem hèr lágt liggr
lèmagna á jörð;
einn yfirvættis
ógnarligann
lángann dóma-dóms
dag þá halda,
svo at síðustu
sáttmála þann
til lykta leiða,
sem með líðunum
þessum þúngbæru
þannig semr!
O! með hve tærri
tilfinníngu
sköpunar sinnar
skèðrar á ný,
hvörsu sann-sælir
sjá þá munu
flokkar þínir þik,
sem þú leystir,
dýrstum drottna
þar á dómstóli,
Ok, með auðmjúkrar
augum fullum

tilbeðslu skoða
tígnar skær ör
þinna blóð-benja,
bílæti elsku
kenniteiku kærleiks
allt til kross dauða!
þeir heiðrs hátíð
munu halda þèr,
ok þèr til æru
eylífðarinnar
láta hátt hljóma,
Halelúja!
Dymm dauðans engils
dryn af húðri
þegja fyri þeim,
ok þruma tróns;
djúpit lýtr djúpt,
ok til dómarans
mun hæðin hefja
hendr hljúgar!
Hógt ok hógt slökktaun
hinstr daga
ljóss lampa sinn
mun leggja niðr
at fullu ok öllu
við eylífðar trón;
þú munt kríngum þik
þínum rèttlátu
samansafna
til sælufullrar
sjálfs þíns sjónar,
svo sem þú ert!
þekkja munu þeir,
ok af því fagna,
at þeir æ sèu
ódauðligir,
ok unaðs þánka
hins eylífa lífs
þaraf at þú
hafir þá kæra
finna þeir nú fyrst
í fyllsta krapti!
þetta segir sá,
er sveitir himna
heita Jehóva,
en hefnanda þeir,
er hann til afgrunns
útsnaraði,
en sjálfr segir
sik þinn Föður!
Svo saung af himni
Seraph Elóa!
horfði Guðmaðr
höfuð-engli
lof ljóðanda
ljúft í augu,
en þó ljúfligar
leit á Tabor.
Strángr straffsdómr
stóð við sama
enn, at úthella
allskonar písla
enum mein-mestu
yfir Messíam,
án minnstu' at minnast
meðaumkunar!
Hneigði hann sik djúpt,
ok af hugar kvöl
hóf upp til himins
hendr gnúnar,
orðlaus, af ángist
yfirkominn;
svo berst ok blltist
í blóði sínu
eitt við altari
aflífat lamb.
Eins lá umflotinn
allr skýum
himins, sem honum
voru húmfull nótt,
sveimandi sár
í sínu blóði;
ok svo hneigði sik,
þegar sofnaði
Abel, en hann sá
ei sinn Föður
Sèrhvör Seraph,
er sjónum litit
híngat til hafði
hálf-frávendtum

Messíam með,
ok megnum skjálfta
gat ei gèð styrk haft
Guðmann píndann,
nè þá dauðans neyð
nú til at sjá;
allir síns eðlis
endanlikleik
fundu, frá snèru,
ok flýðu þaðan.
At eins Gabríel
eptir dvaldi,
hafandi huldu
yfir höfði sèr;
einnig Elóa,
enn viðstaddr,
hnèg ok hneigði sjón
í hnípit ský!
Jörðin stóð staðkyrr
ok standsandi;
dómarinn dæmdi
dunaði fold!
þrisvar hristist hún
hugði at flýa,
þrisvar hèldt henni
hönd Jehóvæ!
Sik hóf nú svosem
sigrvegari
foldar dupti frá
frægstr Guðmaðr!
samstundis súngu
sælir himnar:
nú er hún útí!
hún er umliðin
þessi hin þriðja
þjáníuga stund
enna yppurstu,
sú er eylífa
hvíld ok himin-ró
heilögum gaf!
Svo lèt samhljóða
saungr himna!
jafnsnart Jehóva
frá jörð snèri
áleiðis aptr
andliti sínu,
ok á sinn uppstèg
eylífa trón!

---

Hèr hefr

## sjöttu bók Messías.

---

Sem vísum verða,
þegar viðskilr,
í því umsmýgr
allar hans sinar
tvist tilkomanda
tilfinníng hels,
atriðs augnablik
öll en helgu
dýrmætari
enn dagar áðr!
því hinnstu hlýðni
honum býðr
nú dýr dómari,
ok dygð helga,
sem enn þá útaf
aðkomnu spreng
hjarta borinn hans
honum lyptir
uppá algjörleiks
æðra stig hans;
Meðr bljúgri bæn,
enа betri nú

tímans telr hann
tæpu púnkta,
ok góðum gjörðum
gjarnan krýnir,
með sömum sálar
sóma verkum,
er hinn alskigni,
sem allt dæmir,
aptr umbunar
eylífri náð.
Svo urðu stundir
ens stóra ok hulda
helgidóms sabbats
hátíðligri,
ógnar auðgari
ætíð því meir,
ok Drottni sjálfum
dýrmætari,
sem offrit ýttist
altari nær!
Því meir sem framfór
enn friðþægjandi
leiðar, at láta
líf sitt ok blóð,
ok kunna' á krossi
kröptugt: Verði!
sköpunar nýrrar
skírt at hrópa,
síðan megn myrkr
miðnættis í
sitt blóðugt andlit
beigja niðr;
Af ofr megnis
Elóa fánginn
verðugleik, vegsemd
vígðra stunda —
þær hann miklu mat
meira hinum
fagnaðarfullu
fæðíngar hans —
svo frá sèr numinn,
at sinni lyptri
ásjónu upp,
þó undir skýlu,
við vin Gabríel
vegliganu kvað:
Leiztu, lagsbróðir!
líðanir hans?
ek enn, Gabríel!
allr titra,
síðan ek sá þær;
sástu hann líða?
ei má nafn nefna
nokkurt himins,
ekkert engla mál,
þat ek finn til;
Sannliga sèð hann
hefir sjálfr þú!
ok hve mikit enn
mun hann útstanda!
á hvört augnablik
af hans pínu
ærnar eylífðir
eru bygðar!
ok svo úttalat
Elóa lèt!
Gegndi Gabríel:
grafizt hefir
ek með ígrundun
aldir lángar
þúsund ára þrátt,
eptir þekkíngu
um þat undr-verk,
sem á at ske!
Ef ek grillt gæti,
en ei glöggliga
reynt nè ransakat
regin-djúp slíkt;
en ek villr varð;
við skulum þegja!
hèr er allt heilagt
hrínginn í kríng;
At sönnu einnig
eru hèr grafir
kaldra kroppa
kríngum okkur,
en þaðan englar
uppvaknaðir
munu sýna sik!
sofið í ró!

En sjá, hvör sá er,
sem með blossa
hèr gegnt geysandi
grimmiliga
í nætur-niði
nálægist oss!
hefir helvíti
hrakligann skara
yðar útsendann,
upphlaups dólgar!
hvílík svika sveit
svívirðilig!
En sá er sandkorn
ok sólir skóp,
alheims-eylífr
einvalds herra,
ríkir ok ræðr
ok reka lætr
svo orm sem engil
eyrindi sín!
Ok flokks forínginn!
hvílík fádæmi!
ó sjá, Elóa!
oddvita þeirra!
annann veg verða
vissuliga
mun fas, framgánga,
ok ferða-snið hans,
þá dymmt drynjandi
dóms básúna
heimtir hismit
útaf haugi þeim,
sem þat daudt duldi,
fyri dómara;
þá mun eigi þinn
þannig verða
fagnaðarfullr
fótaburðr,
svívirðiligi
svikari þú!
Hann hermdi svo,
en hópr þessi
nálægði sik nú
næsta grimmr,
brennandi hlisum
bregðandi á lopt,
ok með gran-glöggvum
gróm-leitar augum
smaug hann krók af krók,
sem kráku stig
innan um eikr
ok ósorg dymma!
Gat hann Guðmaðr
gjörla at líta;
skaut sèr upp skýuð
skuggafyllst nótt,
er honum yfir-
ofan grúfði,
ok sem hún upphófst,
út með sama
frá henni flutu-
hennar felmtrauir!
Datt ein dymm yfir
drottinnsvika,
en hann viðvörun
volduga smáði;
þrjózkaðist því meir,
ok þannig sik
enn til óhæfu
útbrynjaði:
Hvar er hann nú?
ok hvað mun vera
af honum orðit,
síðan ástmenn hans
sáu hann sjálfir,
eptir sögn þeirra,
týaðann skýum
á Tabors fjalli,
en þó óbundinn;
hvað ei skyldi?
Brádt skal hann bundinn
birtast þeim nú;
gleymast skal þeim skjótt,
sèr til skemtunar
teitar tjaldbúðir
at tilbúa!
skekst þú ok skelfr
skelkat hjarta!
kann nokkuð körskum
kæla nætur

görpum geig
gjöra í brjósti?
Þegi þú, þrjózka
þánka býli!
er því innan skams
aflokit víst!
þá mun ek mèr,
þær meira skulu
enn tómt drauma tál,
tjaldbúðir gjöra!
þannig hugsar hann,
ok hèldt fram enn!
Sem nú Sonur Guðs
sá þá koma,
hann með sjálfum sèr
svo baðst fyrir:
er víst afar lángt,
ærinn fjarski
enum eylífu
yndælis frá
tignar-tjaldbúðum,
til þess niðr,
sem þeir syndarar
sokknir liggja!
O! mína myrkvu
mótlætis leið!
þá er hèr þreyti
í þessu dupti;
þá götu gjarnan
vil ek gánga þó;
hún, þó síðar sè,
mun samt ljóma!
Nær hèr ný verðr
niðri í djúpi
allra örendra
upprisa gjörð,
ok þat loks lætr
ljóst at fullu
hinnsti heims dómr,
hvarfyri Guð
þessa lágt lögðu
hafi leið gengit!
Júdas óð undan
Iscaríoth
fláráðr flokknum,
svosem foríngi!
höfðu boði beltt
brýnu prestar,
at gildir garpar
skyldu gjörast út
velbúnir vopnum
á vit Jesú!
Atti hópr sá
hans at leita
grandgæfiliga.
við grafir hans.
hann fundinn fánga,
fánginn binda,
bundinn flytja fram
á fund presta!
Júdas vissi vel
vanastað þann,
er Jesús hafði
jafnaðarliga
brúkat til blíðra
bænagjörða
ok til umhyggju
andvökusamrar
um myrkvar nætr
fyrir manna heill!
Hafði falsfullr
fyrirliði
gefit sveit sinni
sameginligt
teikn til at þekkja
þann takast skyldi;
at hvörn hann kysti
hann væri sá.
En at sinni sik
yfir svikarann
miskuna mundi
myrkr-fara,
ok um stutta stund
stóð á móti,
at hann útlèti
andstygðar koss!
En ekki lengi,
því eyrnlausri
fèll með feikna grimd
yfir Frelsarans

sofandi sveina
svika flokkr;
Messías gagngjört
gaf sik þá fram
sjálfkrafa í sjón
enna syndugu;
talar til þeirra
með tignar krapti,
ok spyr her-menn hátt:
hvörs leitit þèr?
Gegndu þeir með grimd,
grenjuðu hátt,
lètu blika blis,
ok branda skóku,
Jesú — játa þeir
jötun-óðir —
þess sem nafn nemr
af Nazareth!
Eru nú allir
hinir aðrir hans
kenslu sveinar
komnir þángat,
ok á hann horfðu
enir heilögu
englar allir nú,
sem áðr flúðu!
Glöggt guðdómligri
meðr geðstilli,
eins ok þá ormi
andlát býðr,
eðr brims bylgjum
brúsandi þögn,
ek er sá! Jesús
játaði skara.
Ogn hans almættis
yfirfèll þá,
rètt fyri raust hans,
er ræddi þetta,
duttu þeir daufir
ok dug-firrtir
jafnskjótt til jarðar,
ok Júdas með!
Sem á vígvelli
vegnir liggja,
eða svosem sèr
sinnulaus veltir
einhvör ólmastr
í orustu,
nær frá mið-marki
mildara stríðs
hugsvinnr herra
hildar um kríng
eys dreyrgum dauða
at dómarans boði.
En skarann skildi
skèlfíng sú við;
reis þá óðar upp
oddviti svika;
stund en stuggvænsta
stóð fyri dyrum,
sem hans skèn sköpun
skundaði til;
ok hann nú nærsta
nærri dómi!
Nú skall nálægr
með nætr vængjum
uppyfir honum
engill dauða;
með heipt hulinni
ok hræsnis blíðu
snýst Júdas gagngjört
glaðr í bragði
móti Messía,
ok mynnist við hann!
Svo var fullframit
fólskuverk hans!
skreið eins ok skuggi
hin skammarfyllsta
allra illgjörða
eptir ok fyrr
svörtust svívirðíng
svo til vítis!
En með ásthollum
aumkunar svip
Guðmaðr gegndi
þeim hann gabbaði,
ok leit ásamt
í andlit honum:
þú at svikja svo
svífst ei, Júdas!

Messíam meðr
meingum kossi?
æ! at þú, vinr
hefðir ei komit!
Svo meðal manna
mælti hinn bezti,
ok sik ofrgaf
illum skara,
at hann af þeirra
óvægri grimd
í fánga fjötr
færðr yrði!
Sá þat samstundis
Símon Pètr,
hvesti djarfann hug
hvumleiðust sjón!
hann óð hraustliga
gegnum hóp sveina,
ok með áræði
ódeigs hjarta
særði sverðs höggi
svika þjón einn!
Græddi meiðsli mund
manna vinar;
hann með sjón sendi
sögn til Pètrs:
lát þèr lund stillta,
lærisveinn minn!
svo framt ek Föður
forsvars beiddi,
mundi mèr til liðs
mektugr her
samstundis sýna
sik frá himni!
Fullar fylkíngar
mundu frambruna,
sem skyldi Syni
sendar þjóna,
en hvörnig ætti
at uppfyllast þá
þat spakir spámenn
spjallat hafa?
Þarnærst til þeirra
hann þannig mælti
saurugu seggja,
sem hann bundu:
þèr komið klæddir
kappsamliga
vopnum ok verjum
til at veiða mik,
sem ek manna morð
hafi mest framit!
Eins ok einn væri
ek hinna mestu
voða varga,
sem í vondsku gjöld
ætlaðir eru
til at aflífast,
ok fyrir yðkun
ólhæfu verka
öðrum illvirkjum
eru meiri,
En yðugliga
hefir ek sýndann
meðal yðar mik
í musterinu!
lærðág yðr leið
lífs ok dauða,
ok enginn yðar
aptraði mèr!
En nú er kominn
yðar tími
til at fá framkvæmd
fúl myrkra verk!
hèrnæst þagnar hann
hjástaddr læk,
sem er samnefndr
cedrus-viði.
Stóð í hárri höll
hópr presta
eins sem á öldum
efandi vonar,
niðr stèg nauð
ok nöldr þeirra
áhyggjufullt
frá innsta sals hæð,
gegnum marmara
múraða stiga
fjöld-heyranda fólks
til fælu eyrna:

Stóð þat ok starði
með stórri furðu;
talaði um spámann
titranda lof,
ok framfleipraðar
formælíngar;
en dýr dásömun
datt í gleymsku,
ok gladt glansandi
gull-ljósa stjakar,
sem stóðu settar
súlur um kríng!
Prestar sögðu svo
sín á milli:
ekki sýna sik
sendimenn vorir
enn frá eyrindum
aptrkomna,
hvað mun orðit af
hinum útsendu?
Þat má hendt hafa,
at hittann eigi
fengi þeir Júdas
nè flokk hinna;
skè má at við oss
einnig hafi
svartr svikari
svik í frammi;
Máske menn vora
missýníngum
enn svo sem áðr
ógnandi með
hafi narra náð
sá hinn naðverski!
sögðu þeir nú svo
sín á milli!
I því kom einn
hinna útsendu;
úfit var hár hans,
helbleikar kinnar,
umrann andlitit
ískaldr sviti,
hann nèri hristar
hendr af sorg!
Þannig hermdi hann:
höfuð-prestar!
komum vèr þar víst,
ok vannst um síðir
oss hann at hitta
fyrir handan læk,
eigi lánga leið
frá líka-gröfum.
Öngvann gaf oss geig
grafa fæla,
en svo svipljótr
sorti skýa,
at slíkr aldrei
hefir áðr sèzt,
hvörvetna hèkk
frá himni niðr;
þó gengu garpar
gegnum þat allt,
nema ek nam stað
nokkuð fjærri;
þó gat ek sprogat
svo spámann sá;
skauzt mèr þá skelkr
skírt gèt ek eigi
hve þat hendti mik
hrylliligr
skèlkr skauzt mèr
um skjálfandi bein.
En þeir ei báru
á hann kennsli,
svo nærri sem hann
sveit vorri stóð,
sóktu þeir at þeim,
sem þar voru,
áðr hjá honum
hans fylgendum;
Við oss voldugra
vèk hann til orða:
hvör er sá helzt
sem þèr hèr leitit?
en viðr ekkert
óttasleginn
gegndi grimmliga
garpa sveit vor,
ok nefndi Jesúm
þann hinn naðverska;

Hann þá undir eins
andsvaraði —
enn hljómar hljóð þat
í hlustum mínum,
enn skèlfast öll mín
aflvana bein —
með drótt drepanda
dauðans rómi
hann klárt kallandi
kvað: ek em hann!
svo ræddi raustin
sem rekka feldi.
Niðr þeittust þeir
þar á grúfu;
þeir liggja þar ok
þannig drepnir!
ek skauzt einn á burt
svo yðr þann
bana boðskap
borit gæti!
Heyrðu harms sögu
hræðiliga
sendisveinn þylja
samkomu-prestar;
leið at þeim logn-dá,
svo þeir litverpir
stóðu sem steinar
í stað fastir!
Phílo einn við ógn
óbugaðr
gat látit geisa
grimdarfull orð:
þú dælskr drussi!
hinum dreymanda
ert til liðs laginn
lærisveinn hans!
Eða nætur-niðs
nokkrskonar
grýlu grillur
hafa gabbat þik,
opnuð grafa gin
munu gjört hafa
víngl þèr í vitum,
ok vofur dauðra!
Þat eru þeir,
sem þú sázt dauða,
en vaskir víg-menn,
þeir er vèr sendum,
allir eru lífs
ok aldrei verða
með orðum einum
aflífaðir!
Meðan Phílo fèkk
fleiprat þetta,
kom enn þá annar
ok innti frèttir:
þúngar þrautir
höfum þolat vèr!
fèllum vèr á fold
fyrir honum;
ógn brann í augum;
af hans munni
rann rammr dauði,
þegar ræddi sá!
En ei at síðr
er nú híngat
hann fjötra fángi
fluttr af oss,
fús bauð hann báðar,
at bundnar yrðu,
sjálfr sjálfkrafa
sínar hendr!
Fángann færa þeir
með felmtri og skjálfta
óttaslegnir um,
at enn kunni
skarprar skipunar
skèlfilig orð
til þeirra af teknum
talast honum.
En hann þegir þó,
þolinmóðr
ok með gæfð gengr
góðviljugliga;
hann svo hèr þegar
fyrir höndum nú
er Jerúsalems
innan múra!
sagði svo þessi
sendimaðr!

Þá hrópar þannig
þriðji sem kom:
gefi Guð blessun
göfugum feðrum!
en þeir allir,
sem uppá móti
yðr setja sik,
sömu töpnn
allir eins hreppi
óvinir Guðs
glötun ok grand
sem Galilæarinn!
Því vèr höfum hann
hèr í fjötrum
þeim sem eingin orð
uppleyst gèta;
ei heldr vinveitt
viðrlits bros!
er hann einn látinn
allra sinna,
hartnær híngat
til hallar kominn!
unni Guð yðr
öllum hans blóðs!
Þegar þagnaði
þessi vargr
kom Satan sjálfr
inní sal fundar,
ok við hönd honum
helvítis kæti,
hún rak höfuð-svim
á hóp presta!
Ok lèt umflögruð
augu þeirra
blóðugra benja
bílætum með
ok bana bleiks,
sem búin mundi;
öll þeirra eyru
lèt hún umstreyma
svo saunglandi raust
sinna kvala:
Hann mun nú hljóðlaus
hèðan í frá
orð at eylífu
aldrei mæla,
brádt munu berum
yfir beinum hans
heilagir hefja
hróðuga fætur!
Víngli voru þeir
vafnir lengi
ok sem tíð tafðist
at til sín fengju
spillvirkjar spámann,
sem spurt var eptir,
kom á þá æði,
svo erindisrekar
enn í annað sinn
voru útsendir!
Phílo fór sjálfr
ok fylgði þeim!
Hafði flokkr flutt
fjötraðann Jesúm
Hannas höfuðprests
híbýlum at,
hafði hæru-karl
um húm nætr
rakafullt risit
úr rekkju sinni,
þann mjög markverða
mann til at sjá,
er slík glöp gjörði
Gyðíngalandi!
Eptir Jóhannes
álengðar gekk,
var honum vær svöfn
vikinn frá augum,
en á þan ángr
aptr komit,
er böl-blikuaða
breiddist um vánga.
Honum var Hannas
höfuðprestr
kunnr, svo kendi
at sem Kaíphas
var hann víst eigi
varglundaðr;
því fèkk hann þúnga,
sem þjáði brjóst,

sorg at síðustu
svo með þvíngun
deyft, at dirfðist
í dóm-sal gánga,
ok sá hve Herrann
fyri Hanna stóð!
Hóf höfuð-prestr
hann at frètta,
kann þik Kaíphas,
kvað hann, dæma!
ó at síknsaka
svo værir þú,
sem þín virðta verk
víðfræg eru!
Jarðar þjóðir þá
mundu þik prísa,
ok Guð Abrahams
mundi yfir þik
ok börn hans blíða
blessun leggja;
hvað þú hefir kènnt
herm nú sjálfr!
Seg hvörjir sèu
sveinar þínir?
lèztu lýðnum kènnt
lögmál Mósis?
hefir þú ok þèr
eptir þess boðum
hvörvetna hagat?
hafa þínir
líka lifat svo
lærisveinar?
Hannas sagði svo,
sik yfir Jesú
allmjög undrandi,
sem með ágætri
spámanns hegðun hèr
fyrir honum stóð,
ok hugar hátign
hóglátustu
óvanhelgaðri
af öllu stolti!
Virðtist at veita
enu vígða svar
góðr Guðmaðr
gamalmenni:
klárliga í kyrkju
kènnt hefir ek,
frjáls fyri lýð
ok hans fræðendum;
þú at þessu mik
þannig frèttir,
spyr heldr þá þess,
sem þat heyrðu
sjálfs eyrum sífeldt
sem ek kenndi!
Meðan hann mælti
mundi Phílo
þrengja sèr þar inn
þrútinn af heipt;
varð þá óð ok ær
öll samkoma;
þá vann þræll nokkr
með þræls sálu
verk þat sem vegna
viðrstygðar
nóg var níðíngsligt,
náttúru skálks
til at auglýsa
ómannliga.
Phílo bauð firðum
friðarspillir
til sín at taka,
svo án tafar hann,
undir dauða dóm
dreginn yrði;
þat ok líka þeir
þegar gjörðu;
Jafnsnart sem Jesúm
Jóhannes sá
undir fólskufulls
Phílos valdi
huldi andlit hans
helbleikja föl,
sjón hans sortnaði,
ok sorgar vegna
var nú hjarta hans
hartnær sprúngit,
svo tók hann tregi,
at hann títraði.

En nær með óstirk
út af háum
samkomu sölum
hann at síðustu
færi fèkk skjálfandi
fætr á braut,
sá hann blakta björt
blis í fjarska.
Seinast segir hann:
sjá, ek fylgi — — —
nei, ek nú ekki
næ þèr fylgja!
en bæn eptir þèr,
ó þú bezti
meðal mannanna!
mína ek sendi.
Æ! ef ályktat
er í ráði
ens almáttuga
at þú deyir;
ef þat efalaust
á svo at skè,
ó þú sem öud mín
elskat hefir!
Ok hvörn enn elskar
ek af hjarta
elsku meiri með
enn mest bræðr
elska hvör annann,
æ láttu þá
mik, minn heilagi!
með þèr deya!
Æ! at augu mín
ei skuli sjá
augu þín brostin
ok andláts sveita!
æ! at ek ekki
at eins þína
sagna seinustu
seinustu blessun,
þegar mál missir,
megi heyra!
O þèr — hvar er ek? —
illir morðíngjar!
er hèr enginn
sem annann frelsi?
finnst engi framar
frelsari á jörð?
ok enginn heldr
uppí' á himni?
Eruð þèr einnig
allir í svefni,
sem forðum súnguð
sætt yfir honum;
þegar þú hann ólst,
en ei þenktir slíkt,
til handa heli
svo hræðiligu,
er nú áhorfist,
elskandi móðir!
Þú einn einasti
ert, sem frelsar,
þú ert sá eini
sem aðstoð veitir,
lifandi' ok liðnum,
sem líknar einn;
miskuna þú mèr,
manna Faðir!
ek bið, æ, lát hann
ekki deyja!
Æ! lát hann eigi
offrást dauða,
hinn bezta borinn
af blóði Adams;
mótstöðumönnum
morðgjörnum hans
viðkvæm'ra virðstu
at veita hjarta,
menuska meðlíðun
svo merkt gèti.
Æ! ek eygir hann
ekki lengr,
hátt borin blis
eru burthorfin!
nú er dauða dóm
dýngt yfir hann!
ó at ofboðit
ok ægt gæti
af þjósti þrúngnum
þeirra sálum

meingjörðum meiddrar
manndygðar sjón!
At þeir eitt sinn loks,
einusinni,
alls einusinni
um æfi daga
hugleiddu harðann
hefndar dóm þann,
óbrygðanliga
sem eptir kèmr!
En hvör upp híngat
arkar í dymmu?
ek sèr ógjörla;
er þat Pètr?
mun hann merkt hafa,
hvörnig Messíam
dólgar til dauða
dæmdann hafa
svo hröðum hasti!
hann stendr við.
Hvör er sá ek sá?
sèr ek einkis,
nè fæ formerktann
fótaburð meir!
hvörnig er hèr allt
eyðiligt þannig?
hví er svo hljóðlaus
hræðilig nótt?
En nú þver þessi
þögn ok stilli;
hvað er fyri fjöld
sem framgeisar?
æ! með ofbeldi,
til at aflífast,
draga dólgar hann
um dymma nótt,
svo megi mengi
mannliga sinnat
ei hjálpa honum
úr höndum þeirra!
Svo hans rós-rauðann
renna um steina
ok af dör drjúpa
dreyra fá sèð
englar einir,
þegar útfossar,
æ! mèr miskuna;
meðaumkunar,
ok skèpna skara,
sem þú skapaðir,
miskuna þú mèr
mikli Faðir!
ek bið, æ, lát hann
ekki deya!
Þenkti þannig,
ok með þrá-slitnu
túngutaki hann
talaði þat;
lèt með lángsemi
á leið reikat
at höll höfuð-prests
ok hætti gaungu
nú um miðmunda
myrkrföru!
En Phílo, fólskr
fyrirliði
flokks þess sem flutti
fánginn Jesúm,
sleit sik fyrstr frá
fylgendum sínum;
æðir hann óðfús
á undan þeim,
ok strax sýnir sik
samkomunni.
Öllum var auðsært
af hans fasi
fullu fagnaðar
yfir feing sigrs,
ok af augna svip
eldligum hans,
at Endrreisir
andaðra manna
væri víst bundinn
í viðjum nú
háum hofgarði
harla nærri!
Ei gafst þeim tóm til
í tè að láta
fagnaðar fremd
við Phílo kominn;

gekk inn Guðmaðr;
gjörla sáu
þann kom, kènnendr,
en kunnu þó
trauðliga at trúa
tillits vissu,
fyri feikn grimdar
ok af feginleik.
Stèg hann upp og stóð
fyri stóli dóms!
hann lagði hátign
hvörskonar niðr,
já dauðligs jafnvel
jarðar vitríngs,
ok var rètt í ró;
rennandi lind
sem hann fyri sèr
sæi þverra!
Hægar hugsanir
hann bar at eins,
at hann nú eptir
aðrar hærri,
sem hann sendt hafði
til síns Föðurs,
um fá augnablik
öðlaðist hvild!
At eins auðkennum
alvörugèfnis
ei gjörla glöggvum,
guðdómligrar
enn hèldt hann eptir
innanbrjósts sèr;
er þó sízt auðit
engli nokkrum,
þótt hann þat vildi,
þau at hafa!
Ei heldr annar,
enn engill, neinn
gat enna göfgu
guðdóms merkja
orðit áskynja,
nè anda þeirra;
þannig stóð hann þar
til at þola dóm!
Stóðu starandi
á siorð niðr
fullum af fólsku
Phílo augum
ok Kaiphas, kèndir
kennimenn þeir;
veitti víst þessum
verðugleikr,
en hinum ákefð
öðrum framar
rètt til at ræða
meðal ráðherra,
báðir þögðu þó,
at því sinni!
Enn í hjá-höll
við hennar síðu
var einn baug-boginn
bygðr gángr,
sem drógst í dóm-sal
dymmr til hálfs,
gaf þar lampa ljós
litla skýmu,
hèr var hvörvetna
sem hálfrökkur!
Þar við stein-steugr
stóð marmara
í hóp, hálfboginn,
höfðíngs kvenna
æsku fegurð í,
ættuð frá Róm,
Portía, pontversks
Pílatí kvinna!
eigi var úngr
andi hennar!
Blóm þat blómgaðist,
blómligum með
at þat ávöxtum
auðgat lèti,
sem móðir Graccha,
mengit í Róm,
úreldt ok orðit
at ættlerum;
var þó vaktara
vissu' ok straungu
í ráði ráðinn
Rómaborgar

undirgángr, en
engi frelsir!
Hafði þángat hún
hraðat sèr mjög
fastliga framknúð
af físn heitri,
at fá loks litit
lýðs spámann þann,
er svo fóru frá
fregnir miklar!
fylgðu nú fljóði
fáeinir þrælar!
Gleymdr var vegr
ok verðugleikr
ráðaríkustu
rómverskrar frúr
þá at því sinni
þaunkum hennar;
Guðs fólgin forsjón
framleiddi víf!
Hèr stóð ok horfði
hún nú á þann,
sem liðin lík
til lífs uppvakti;
hugar strídt hatr
hofmóðugs prests
stærra hugarstyrk
stóðst ok þoldi;
Ok hafði ærit
öruggann móð
til at tjá sik
með tignar-gjörða
mikil-leik mikinn
meðal þjóðar
svo láglundaðrar
ok lastafullrar
er eigi þekkti
nè undraðist hann!
Sá drós ok dáðist
at dýrstum manni,
eldheit innan brjósts
af eptirbið,
ok glödd í gèði,
at með gæfð slíkri
hann stóð svo hugrór
fyrir hatendum
ok síns dauða dóms
dör nöktum þar;
þó hann ei þannig
þekkti Philo!
Heldr hermdi svo
enn hræsnisfulli:
herðið fast fjötur,
færið hann nær!
þó fyrr enn þat
vèr þenna dæmum,
heilagar hendr
hefjið til Guðs,
at hann úrskurð sinn
hefir uppkveðit,
ok loksins lætr
eigi lengr nú
með þagnar þúnga
þeim oss reynda!
þinna þýða bæn,
þú Jehóva!
er vèr úthellum,
enn framar heyr!
lát þá eins alla
sem upprcist gjöra,
fyrifarast,
at ei formerki
stað þann, hvar stóðu,
storð-búa neinn!
Engi maðr meir
minnist þeirra,
utan einúngis
aflífaðra,
hvar hrannir liggja
af höfuðskèljum;
hjá berum beinum,
þaraf burt er hold,
ok hvar útheltri
upphlaupsmaðr
síns lèt dreyra dögg
drykkjaðann hvol!
Já, þakkir, þakkir
skulu þrá-kveðnar
með helgihöldum
hátíðligum;

allskyns unnnar
ölturum hjá!
allr Israel
mun einskær verða
af fremd fagnaðar
fullr saungr!
  Brádt mun þèr blæða!
blind, þótt sæi,
hefir heil Júda
híngat til gjört
sín egin augu
aptrlokuð,
hún birgði hlustir
en heyrði þó!
  Þó er nú þessi
þjótandi svimi
loksins liðinn hjá,
sem lýð trylti,
nú, hvað sannast sè,
sjá þeir ok heyra,
er þann, sem áðr
enn Abraham var,
heljar hlekkjum þeir
haldinn líta!
  At sönnu áðr
í egin-hamsi
sáu þeir hann þrátt,
ok þá lètu
at eins stutta stund
af stáli gjörðum
villudóms viðjum
varpat af sèr,
svo hraustum höndum
hermannliga
heilagt gripu grjót,
guðlastara
þennann tídt tèða
til at deyða,
  En þeir æ lètu
aptr á ný
sik enum sömu
svikum tæla!
en nú er í dag
endalykt kominn
bæði banvænnrar
blindni þeirra,
ok, þú hinn þrjózki!
þinna svika;
  Svo fár af fólki
flokkr hèr er,
munu víst margir
meðal svo fárra,
ef vèr æstum þá,
efalaust þèr
í móti mæla
mjög þúngt vitni!
þat mun brádt bjóða
biskup sjálfr!
  En ek ótrauðr
áklaga þik,
ok tek til votta
tal allt Júda,
himin ok hauðr
til at heya dóm!
þú ert alkendr
ófriðarmaðr!
  Svo ok sífeldt
hefir sjálfann þik
þú gjört at Guði,
sem grèzt í vöggu!
þú, at sannri sögn,
sofandi menn
at eins uppvaktir,
en öngva dauða!
meinúngin: mæðgur,
mæður, ok systur
þessa dá-dofnu
höfðu deya sèð!
  Haf þik til! hittir
hlutfallit þik,
til þín renur röð,
reis þik upp sjálfann!
vit þó fyri víst,
at vaskir munu
seggir í sannleik
sjá þik deya!
svo skal sèð til,
at ei sofir laust!
  Ligg þú hjá hræum
í hel drepinna,

er hinn eylífi
hefir útskúfat!
sof þar sífeldann
svöfn af járni;
þar sem at þurru
þínum drekka
af ræfli rokna
rotnunar dampa
rísandi röðull
og reikandi túngl!
Unz dauðans döfnun
drottnar til fulls,
og allt Golgata
gjörist um síðir
hvítt af ber-beinum
úr búk þínum!
svo, já, svo skaltu
sofandi liggja!
Ok sè til enn nú
einhvör stærri
beiskari bölvun
og brennheitari,
sú er sjöföldum
særíngum eys,
til hvörrar hlustar
húm miðnættis,
og sem grafar gól
lætr geisa með,
hún þá nú þegar
á þèr bitni!"
Hèr stóðu stífar
og stokkbólgnar
illsku ólganda
orðháks varir,
og um ásýnd hans
úthellti sèr
dymm og dapurlíg
dauðans bleikja!
Þvíat þegar,
er hann þessari
allra óbæna
ógnarligustu,
í því ósorgar
augnabliki,
fyrst tók upphaf á,
og til ónýtis
móti setti sik
samvizka hans,
en sjálft almættit
ei hann skèlfði!
Einn dauðans engill,
sem var engill hans,
vatt tortíníngar
tilliti sínu
fullskjótt á Phílo,
framan at beint
gèkk og stóð gagnvart
glæpa manni.
O! sú beisk bölvun,
sem þú bölvadir —
innir engillin —
yfir þik mun,
þú ógnar-illi
ógæfu-maðr!
sannliga síðar
sjálfann falla!
Ek hef augu mín
upp til míns Guðs,
ok til hans, sem allt
endrgèldr,
sverð mitt sveipanda,
og sver þèr dauða!
á ek at slá hann,
þú hinn almáttki.
Nei, ekki nú!
en hin nátt-dymma
biki blakkari
blóðuga stund,
dauðans stríða stund,
stigum fljúgandi,
sem enginn aptrar,
á þik stefnir;
áðr lángt líðr
mun hún ljósta þik!
Skýlaust sver ek þèr
skèlfiligasta
dauða, dauðligr
sem dó nokkr,
þú hinn þversnúni!
ok þat tómann

af minstu miskun
með þat síðsta!
án allrar náðar,
ok eins af þeim,
skaltu skilja við,
sem skóp og dæmir!
  Nær þik niðsvartri
nótt umkríngðann
höst gegnum hana
helstund kallar
með geig gólanda
Gomorræ skræk,
þegar þik hefir
þúngu slagi
dreyra drukkins hjörs
dauðinn lostit;
  Ok nær útrekinn
andi þinn flýr
af kropp með korri
köldum þegar,
skaltu skírt ásýnd
skoða mína
í Benhinnons dal,
hvört ek boða þig!"
  Harðar hótanir
honum svo gaf
dauða dörs engill,
dragandi reiði,
svosem ský, saman
sèr á enni;
streymdi heljar hefnd
hvatskeitlig sjón!
  Steiptist höfuð-hár
hans í lokkum
nóttu næsta líkt
niðr um herðar;
sem fjall fast skorðat
stóðu fætr hans!
þó sló enn eigi
sá hinn eyðandi
þverskallaðann þrjót
at því sinni
  Heldr æg at eins
umhverfis sik
lèt hann dymmt drynja
dauðans öskr
með allskyns ofsa
ógnana sinna,
sem með reiði raust
ræddu í leyni!
  Fann víst Phílo
enar fælandi
ógnanir andans
óðauðliga
í þann máta, menn
meigu skynja
á sér anda verk
ósýniligra;
  Fann hann öllgum í
ásvifum slíkt,
skèlfíng skæðari
og skyndiligri,
enn nam neinn maðr
nokkru sinni,
því nú hræddi hann
hinn hærsti Guð!
  Nú sèg niðr hans
nötranda líf,
hann skalf og skókst
og skrýktist allr;
en hvað hann andat
út af sèr gat
var fúl formælíng
fyrir hann sjálfann,
at sá grey-geigr
hefði glapit hann!
  Hann kom til sjálfs sín
síðan aptr,
þó skók skèlfíng Guðs
skrapandi bein;
er í innsta merg
enn vall honum,
eins ok engir sik
ormr troðinn
sundr ok saman
af sárs auka,
faranda fótum
fergðr undir,
brettist úr bugðum
bófinn ok kvað:

Hvað ek hèr með þögn
hefi dulit,
af því ofbuðu
illvirkja þess
mèr hin vondu verk
vissuliga
munu málalok
mönnum sýna!
Flýt hans forlögum,
lát ei frest verða,
hár höfuð-prestr!
á hans dómi,
forfugr Phílo
fleipraði svo,
stóð síðan stamr
ok sem stirðnaðr
gat ei framar grimd
geisa látit!
En sú komna kirð
kirrari varð
sá prúð Portia,
hvörsu próphetinn
stóð nú stilltr
ok stygðist ei hót
við djarfa dælu
dauðligs fjanda
Gjörði gleði sjón
glansandi vífs,
hjartans hræríng varð
háleitari;
hófust í höfuð
háir þánkar,
fannst svo fljóði,
sem formerkíng ný
henni lèti lypt
lángtum hærra!
En með fjör-fullum
friðsemdar augum
sá hún sik þar um,
hvört í sæg þessum
meðal svo margra
mætti nokkurn
göfugra gèði
gæddann finna,
sá er svo sem hún
yfir sjáanda
svo ágæts eðlis
undraði sik
Varð þat fyri frú
forgèfins leit,
at grenslast grant
at góðum sálum
þar meðal þjóðar,
sem þegar mundi
frjóf ok fullorðin
til at fá sinn dóm,
ok bráðt á brendum
brotum standa
síns mæts musteris,
hvar nú meir ekki
jöfr jöfranna
Jehóva bjó!
Einn mann einúngis
álengðar hún
öðrum ólíkann
hjá öld merkti;
í forsal frammi
meðal fólksins sá
við eld sik vermdi
vegna kulda;
horfðu þeir hinir
á hann villir,
ok hèldu orðstríð
við hinn ókènda,
en hann öryggr
ansaði þeim.
Samt var um síðir
fyri sjónum vífs
sem honum hvirfi
hugarstyrkr,
litverpr varð hann
ok villr ráðs;
sprogar sprett um kríng,
en á spámanninn
aptr annann sprett
augum rennir;
Æ! hann er eflaust
ástvinr hans —
þenkti svo með sèr
sú ein heiðna —

sá víst viðleitast
vin at frelsa,
ok vill at veg þann,
sem hinn vísi gekk,
alþýða þessi
þekkja skuli!
Hvílíkt há-lyndi
hans prýddi líf;
hve mikil mildi
ok mannkærleikr;
hve hann gjörði gott
án gorts og hroka;
en þeim ei skiljast
orðræður hans;
heldr hóta þeir,
at hann skuli
færast eins fyrir
fólk, sem dæmir!
Þarvið hefir hann
hugskèlfðr gjörst
ok hopat hræddr
fyrir helslagi,
því er þeir fullir
af þjóst ok æði
honum hótuðu
yfir höfuð sitt
Má ok skè móðir
mannsins fángna
hafi sendann hann
ok heitt beðit
fyri fætr hans
fallin í grát,
at hann útgengi,
ok undan dauða,
æ! undan dauða!
allra sona
beztum bur sínum
bjarga vildi,
öllum afkvæmum
elskuligra!
O hve mun móðir,
móður hvörri
elskuverðngri —
þat er hún víst,
því aldrei ella
af henni fæddr
í veröld væri
sá vísi maðr —
hve mun hún hníga
fyrir harmi ok eymd,
nær hún viss verðr,
hve við hann ræddi
þessi forsfulli
pharisæari!
En hvað er í mèr
þat er önn slíka
viðkvæma vekr
fyri vífi því,
sem er mèr ókendt,
ok ákafliga
í heitu hjarta
hvera lætr
ei fyrri fundnar
formerkíngar?
Er þat nokkuð ósk,
at ek hefði
fæðt ok fold gèfit
fólkmæríng þann?
svo liði líf þitt,
at lukkugefna
megir meta þik
af mög þínum;
móðir, ó móðir,
yfir máta sæl!
augu þín aldrei
hans andlát sjái,
þótt mundi hel hans
hauðr fræða!
Hèr nærst hóf sik nú
höfuðprestr
uppá stoltar-stól
til at stofna dóm,
tekr til orða
ok talar þannig:
Jafnvel þó Júða
jörð þjáist öll
undir þúnga þeim,
sem þessi maðr,
nú dýrann dreginn
fyrir dómstól vorn,

á hvörs manns herðar
hefir lagðann;
Ok þótt hann þekki
þjóðir jarðar,
at hann gègn Guði,
sem geldr hefnd,
mikillrar maktar
á Moria,
ens allra helgasta
eins gègn prestum,
ok stórum stjórnar
stillir í Róm
rasandi ráði
sik reist hefir!
Ok þótt uppkveði
úrskurð dauða
allr Israel
yfir honum,
ok ei Kaíphas
einúngis sé,
sem hann at höggva
heli býðr;
þá samt viljum vèr
með vitnum dæma
ok ei án glöggrar
yfirheyrslu!
Víst er ei allr
Israels lýðr
nú hèr nálægr;
nætr-dymma
hefir fast fólgin
hin flestu vitni!
(senn muntu sjá þik,
sæli lýðr!
vakinn við minnr
vanhelgaðar
hátíðir hinum,
sem hèldt með þèr
áðr hinn illi
upphlaups maðr!)
En svo sár-fáir
sem hèr eru,
mun ei votta vant
verða at heldr!
komi sèrhvör sá,
sem gjörir rètt,
ok síns ætt-hauðrs
elskar mengi,
ok þat hátt hermi,
sem er hreint ok satt!
Hætti hèr ræðu
höfuðprestr,
gengu gaurar fram
gjaldi keyptir;
áðr undirlagt
uppkváðu þeir
móti Messia
meinligt vitni
Fyrst ok fremst hafði
Philo þeirra
hjörtu hvikul fyllt
með heipt ok spotti,
nóg í sjálfum sér
svívirðilig,
full skarn-skríðandi
skálka vondsku,
Gaut einn gauranna
glóðar augum
óðum útundan
eðr á skakk,
ok vatt af vörum
vitnisburði
samansettum
svo látanda:
Allir vitum vèr
hvörsu vanhelgar
hann hið heilaga
herrans musteri,
þó samt aldrei eins
óguðliga
sem at því sinni
saurgaði hann þat,
er hann fórna fjár
fróma seljendr
með harðri hendi
hrakti þaðan!
Til at tjá Guði
tíða bænir
samansafnaða
sá hann oss þar,

en hann með ofsa
ok æðigángi
þúnghöggr þrísti
þeim, er seldu
fórna fèð helgum
útaf forgarði
  Þat er sjálfsagt,
at síðr enn ekki
hefir hann Guð
í heiðri neinum,
hvörn þar vorum vèr
til at vegsama,
ok hugðumst honum
at helga fórnir;
  Ella hefði hann
frá helgum stað
eigi þat útkeirt,
sem offrast skyldi
nè svo mein-magnat
musteris rán
harðráðum höndum
haft í frammi
  Var sá vottarins
vitnisburðr,
eptir hann annar
anaði fram,
gefandi glósun
um hið guðliga
vandlætíngar verk,
sem vann Jesús;
allt eins afsinna
ok hinn fyrri!
  Þat var — þessi kvað —
at því sinni
einn hans alráðinn
ásetníngr
með makt at taka
musterit inn,
ok því nærst þaðan
yfir þessa borg
fjölmennr falla
ok fylkir verða
  En óvandaðr
alþýðu skrýll,
sem hann at sönnu
sèr fyri konúng
at undanförnu
hafði úthrópat
allfjærlægum á
eyðimörkum,
reyndist rír í trygð
ráðagjörð hans,
svo hún viðvikin
varð at flótta!
  Eptir þat uppstóð
ok yfir sèr
lèt ekki lítit
Levíti nokkr,
sá forakts-fasi
frambar þetta:
hefir hann eigi
þann hinn hærsta spjáð,
með því hann meinti
metnaðarfullr,
at yfirtroðslur
mætti uppgèfa?
  Ann hann og orðlofs
ax at plokka
sveinum sínum
á sabbats degi,
hann visnar hendr,
þegar heilagt er,
læknar og lætr
líf í renna,
þó hyggr hann sik,
hlaðinn syndum,
at fá fólks syndir
fyrirgefit!
  Fleiprar hinn fjórði,
flennti granir
háðsfullr hlátr
hlakkandi' í raust:
at vísu vitni
má ek vel bera!
Þurfit þèr feðr!
þó með vitna,
móti manni þeim,
sem af megnum er
fárs fyrirtektum
orðinn fordrukkinn

svo bygðum svika
svöfn-órum á?
Svo hann sagt hefir,
þat sveit manna
honum harla lík
heyrði ok glápti:
mölvit musterit!
mun ek á ný
þó byggja þat
á þremr dögum!
af rofnum rústum
mun ek reisa þat!
þannig bar þor til
þessi at mæla.
En gjörði gráum
gamalmenni
ærna óvirðíng
aldri sínum;
tók hann til orða:
tollheimtu-mönnum
sik, þeim syndurum,
samlagandi —
ek hefir ok svo
verit einn af þeim —
spèliga speki
spann hann saman!
Sú er lærir lýð
lög hinn dýrstu
Mósis at meta
minna enn ekki,
ok með óhraustra
illgjörðamanna
at saurga sabbat
sára græðslu.
Vitnin sögðu svo,
en sjón streymdi
eptirvæntíngar
öll á Jesúm,
frá hvörju horni
hrínginn í kríng,
með hvörju mundi
móti slíku
fá sik forsvarat
friðar-spillir.
Sem kríngum kristinn,
þegar kveðr heim;
með bliknat brjóst
af bísna þaunkum,
ok fúst at fagna
fegit til hálfs,
stendr stráklundat
stóð spottenda,
ok auðveldara
með andardrætti
tautar tilhlökkun
túngu stamandi:
Nú mun hjá honum,
sem hann sjálfr,
hinn dælski draumr,
sem hann dáraði,
um eitt endalaust
ókomit líf,
einnig, sem öðrum,
enda taka."
Jafnt enn sem áðr
játar hann þat;
enn sá hinn sami
sann-vísi maðr
biðr ens bezta
bæði fyrir
þeim ok sjálfum sèr,
sendandi bros,
gladt af góðri von,
yfir gröf hvörja!
Eins beið nú eptir
andsvörum hans
á hann horfandi
hrekkvís lýðr!
góðr Guðmaðr
gætti þagnar;
keyrði Kaífam
kennimann þá
fljúgandi fólska,
svo hann fleipraði:
þegir svarlaus svo
syndari þú
við því, sem þessir
móti þèr vitna?
góðr Guðmaðr
gætti þagnar!

beisktist þá bræði
biskups á ný:
Seg, ek særi þik
við sjálfann Guð,
enn æ lifanda!
ertu Kristr;
sá Kristr kundr
konúngs tilbeðna?
hèr hafði hann nú
hermt þat sjálfr!
Hann stóð hnarreistr
ok hnakkabrattr,
dráp ok tortíníng
tinnaði úr augum,
tengði Satan sjón
sína við hans!
fjörtjóns ok Phílos
fylgðar andi
Obaddon engill
ofanhvesti
af grimd glóandi
yfir glæpamenn,
þar sem þeir stóðu,
þánka slíka:
Ef veita virðist
sínum víg-gjörnu
mótstöðumönnum
Messías svar,
er þat ei annat
enn einskær miskun,
ljúflyndi ok gæzka
ljóma af honum!
En sik útbýr
hinn efsti daga,
ok þat nú þegar,
með þeim öllum
skèlfíngum, sem skóp
til at skèlfa, Guð;
frá því framultu
fyrst af tróni
harla harðslægar
hefndar þrumur;
sjá þú, sá kèmr
hinn síðasti
daganna dagr
ok dóm vekr!
Þú dymmi dökkra
dagr myrkra!
dagr deyðandi
dóms úrskurða!
vert mèr velkominn
vænleik þínum
óttaligum í,
meðal allra þú
ásjáligasti
eylífðar sona!
O þú upphafni
endrgjalds dagr!
þú dýri dagr
dæmanda mælis
ok mjög málm-hvellra
meta skála!
þá um kríng klíngja
komandi heimar
saunsýnnra meta
silfr-hljóm í!
Vert mèr velkominn,
vegligi dagr,
nær sik mun náðin
niðri byrgja
meðal margfjöldans
af mönnum þeim,
sem eru sæmdir
sigr-pálmum,
þessum fast fólgin
fóstrum jarðar,
Duglausu dupti
enna dauðligu
syndara sèðra
síðan í gær,
sem þó geisar gegn
Guði sjálfum,
ok hinum einnig,
sem í upphæðum
fæddr í fyrstu
frá því allt skópst
ok enn án afláts
upphlaup magnar!
Vel mèr, at ek veit
vissuliga

þat at þá báða
þessi dagr
reiða refsandans
mun rekast á,
at þá um eylífð
eyðileggi!
þessvegna þoku
þek ek mik nú,
ok þegi, þar til
þar at kèmr,
en mín þessi þögn
þó er dauði
ok mitt málleysi
megin-boði
heimsóknar hans,
sem mun hegna þeim!
Svo þenkti Seraph
meðr svífandi
ok harla hröðum
hugrenníngum;
horfði hann á prest,
sem af heipt bólginn
með makt fordæmdi
Messíæ svar.
Góðr Guðmaðr
at gimli leit,
varð mjög við þat billt
voldugum englum,
svo grant gáðu þeir
at Guðs Sonar
hvörri hræríngu
ok hegðun lima
hvörsu hèldt aptr
hann guðdómi,
ok með mestu ró
manndómligri
huldi þat hjá sèr
sem heima skóp.
Aptrar hann svo enn,
óttalígri,
sem með hjáhliðrun,
sínum heimsdómi,
ok umlíðr
at alda lángri
með röð framrenni
ránglætis flóð.
Enn nú horfði hann
höfuðpresti
einardt í augu
innandi svo:
sá er ek sami,
sem þú mæltir;
vit, at nú vinn ek
verk þau at fulln,
sem upphaf eru
allsherjar dóms!
Mann af moldu,
þann ok móðir bar,
sjá munuð sitja
sjálfum Guði
til hægri handar
hèreptir þèr,
ok híngat hverfa
í himins skýum
I því opnaði —
sá efstum daga
koma mun meðr
miklu stærri
útbrynjaðr ógn,
enn engill hels
nokkrt sinn um nótt
nátta dýpstu
herlúðrs hljómi
út af honum saung! —
I því — segir ek —
opnaði hann,
sem fljótast fyri
fljúgandi augum,
eylífð ókomna;
en með sama,
fyri furðu sjón
fælanda því
skèldi skjótt í lás
skoðunarspili.
Kaíphas keyrðr
af kólgu fram
geistrar grimdar,
sem nú gat öngvu
marki nè máta
móti tekit

einkis aktandi
alla þvíngun,
kreikar fram kyndtr
sem kola gröf,
ok bar á enni
óvægann dauða!
Hann skókst ok skalf,
svo at skírt heyrðist,
ok reif sinn sundr
serk af bræði;
hann glápti geigvænn
glóandi augum,
hrópandi í hópinn,
sem hljóðlaus stóð:
Hvað lízt þèr, lýðr?
hann lastar Guð!
hvað meir vitna við
vèr nú þurfum?
þar sem þèr heyrðuð
þat nú sjálfir;
hvað lízt þèr, lýðr?
hann lastar Guð!
seg, hvað þèr sýnist!
en sama rómi,
hann er hels sekr!
hrópuðu þeir;
Vall þá út vitlaus
vondska Philons:
hann deyi, deyi! —
drynr hann upp —
öll míns fram-fossar
fyllíng hjarta;
hann bíði bana
þess ens bölvaða,
lángsamasta lát
á ljótum krossi;
járn-benja bani
sè bitr hans!
Svo hans syndug bein
sundrfúnuð
greftrun alls öngva
öðlist í jörð,
ok at yfir hans
ekkert leiði
beri blómstra skrúð

bannsettu hræi!
Sundrist þèr af sól,
syndarans bein!
óhó! öndverð sól
yðr steiki!
á dýrum degi,
þá Drottinn kallar
fram hin fúnu bein,
fáið þèr eigi
hans raust at heyra,
nè at hjarna við!
Þannig þuldi nú
þessi maðr,
frjór ok fullvaxinn
til fárligs dauða;
en af orðum hans
upptendraðr
þusti þrár lýðr
með þuss-æði
gagngjört yfir
hinn guðdómliga!
O! gèf mèr, góða
gyðja Síons!
blæu þá sem þú
þik byrgir með,
nær frammi fyrir
Föður eylífum
með hljúgu brjósti
gjörir bæn þína,
at ek, sem englar,
augu mín hylji!
Englar utan við
auglýstu sik,
göfgr Gabríel,
ok Guðs Elóa;
þeir er sögðu svo
sín á milli:
Gabríel! hve Guðs
eru grunnlausir
duldu dómar
í dýpt sinni!
ó hvörsu hans er
heimugligt ráð
sköptum skilníngi
eigi skoðanligt!

Ek sá nær ólust
oríónar (aðal-stjörnur)
ok gjörvöll undr,
sem um öld hvörja
þúsund ára þó,
á þeirra hveim
viðbáru, veit ek
vel at greina!
Er þó aðburðr
aldrei skèðr
undr-sjón aldrei
hefir augum birzt
nokkr sem nái
niðrlægíngu
ens sæla Sonar
í sinni dýpt.
Hann, hvörn Jehóva
hátt frá Tabor
dunandi dæmdi,
sá er dóm þann ok
gjörvallann gat
meðr guðdómi
þreyð ok þolat
þvílíkum út;
sá er með einu
augna tilliti
aflagt engil-skin
endrskóp mèr;
Hann — G: ó Elóa!
ok fyri hvörjum
loks enna liðnu
munu lifna bein,
af víð-voldugum
viðhrærð stormi
í skjótu skyndi
sköpunar nýrrar.
Svo í þyt þeirra,
þegar vakna,
öll mun hátt æpa
umhverfis jörð,
sem með barnburðar
beiskum hríðum,
álengðar upp
til hins almáttka!
Hann sem þaðra þá
með þrumu lúðri,
meðr morð-englum,
ok mjög djúpt luiguum
himintúngla her,
til at halda dóm
jarðar kynkvísla
kemr allra.
E: Sjá! hann hrópaði,
þá hófst upp ljós;
glöggt þú, Gabríel!
gatst at líta
hvörsu þat þegar
þeytti sèr fram!
hann gekk hafandi
háleitastra
þánka þúsundir
þúsundsinnum.
Þyrptust þúsund líf
þúsundsinnum
hans við hönd
hægri saman;
fyri framan hann
fjörugr einn
lèk ok lífi blès
ljúfu stormr!
ultu þá ítrir
álfröðlar fram;
með klárri kæti
klíngðu pólar!
hann ena háu
himna þá skóp!
G: Ok sjá, enn bauð hann
eylífri nótt,
brá hún sèr þá brádt
burt til síðu
á hinn veg himni
hans enum fagra;
sjálfr sástu
Seraph Elóa!
hvörsu hann þar stóð
hátt yfir grímu!
Ok nú hrópar hann
til hennar skjótt;
framkom ferlíki
furðu mikit;

ein digr dýngja,
eða daudt stykki,
þat er þannig lá
þar fyrir honum,
sem ein sól væri
sundr mulin,
eðr eins ok lík
ökkuð í haug
hundrað hroðinna
hauðr-knatta.
Þá bauð hann blossa;|
blossi streymdi
næsta náttligr
yfir nöpr fjöll,
ok hin dráp dymmu
dauðans öræfi!
varð þegar vesöld
í vetfángi,
æptu djúpin eymd
upp yfir sik,
hèr með helvíti
hann lèt samit!
sögðu englar svo
sín á milli.
Sá prúð Portía,
hvörsu plágaðist
af grimmum glópum
hinn guðdómligi;
bar ei brúðr af
blöskrandi sýn
lengr at líta,
í lopt sal vendi!
Með höfnum höndum
ok af hrygð gnístum,
stóð hún ok starði,
en stýrði augum
ángrsfullum á
óljósan himin,
hvarflaði um hjartat
hugsun efa:
O þú einn fyrstr
allra Guða,
sem af nið-nætti
nýann heim skópst,
ok mann myndaðir
meðr hjarta!
hvörju helzt sem þú
heiti nefnist,
Guð, Jehóva,
eða Júpiter,
einn Rómuls, eðr
Abrahams Guð!
Eigi einúngis
einstakra manna,
ó nei, eylífr
allra Faðir,
ok allra manna
einka dómari!
hvört mun ek meiga
meðr târa
flóði fyri þèr
frambera þat,
sem er sál minni
sverð nýstanda?
Hvör mundi misgjörð
Mannsins friðsama,
at hann ómennskir
aflífa menn?
tíðir þik tillits
tignar vegna,
Olymps hæðum af,
aðsetri þínu,
Guð! líka at líta
líðandi dygð?
hefðar sèrlig sjón
sú er manni!
Stór stoltar-undrun
storðbúum er
með ótta ok unun
inntakandi;
enn getr Guð,
sem gjörði stjörnur,
aðdást ok undrast
yfir nokkru?
Fjærri! forundrast
fær þú ekki!
en þat tignar-tær
tilfinníng er
Guðanna Guðs
fyri guðdómi,

því aldrei ella
mundu augu hans
guðdómlig ok góð
gèta litit
svo hinn saklausa
sárliga píndann!
Hve munt þú honum
há veita laun,
er maktar-mestu
manndómsins prýði
þessa bygði þèr
þakta skrauti!
mèr, já, mèr rennr
meðaumkan sár,
sem veitt sè vatni
um vánga niðr!
En þú einn þekkir
þjáðrar dygðar
titrandi tár,
ok þau telr glöggt!
ó Guð Guðanna,
gjald honum sjálfr
mikil mæðu-laun,
ok sè möguligt,
æ! lát þik undrast
yfir honum!
Nú sem hún hafði
uppá húss lopti
hnípin hneigt sik
á hnè niðr,
heyrði hún stíga
frá höllu niðri
eitthvört ekkafullt
ángistar vein,
líkt eins, sem emjar
af örvílnunar
þrykkjandi þrúgun;
þat var Pètrs!
Hafði Jóhannes
hjarta frómr
við dyr stór-stofu
staðar numit,
þángat heyrði hann
harmagrát Pètrs,
kenndi klárliga,
ok kallar til hans:
Æ! er hann, Pètr!
enn á lífi?
þú grætr geist,
en gegnir eigi!
er hann enn nú lífs!
ansaðu mèr!
lát mik — svarar svo
syrgjandi Pètr —
lát mik lykta mitt
líf einmana!
Ek vil, Jóhannes!
ek vil deya;
hann er glataðr,
en ek glataðri!
ó Júdas, Júdas,
Jesú bani,
þú skelfiligi
skólasveinn hans!
þú hefir hann
í helju svikit!
Ok ek, æ því verr!
ásamt með þèr
hefi svikit hann
hörmuliga,
ok fyrir öllum,
sem mik aðspurðu,
æ! í ofdjúpri
eymd minni hefir
optar enn eittsinn
honum afneitat!
O flý þú frá mèr,
flý Jóhannes,
ok lát mik andast
í einrúmi!
dey, dey þú líka,
því dauðans til
er hann af öllum
úrskurðaðr,
ok ek, fallinn frá
frómlyndri trygð,
honum fyrir hóp
enna hrekkvísu
í áheyrn allra
afneitaði!

Hèr sagt hrópaði
hryggur Pètr,
til hins, sem tvistr
talaði' ei orð!
hann sik í hasti
hafði þaðan,
en nam nú staðar
í nátt myrkri
ærit einsligu
ángráðr hjá
hallar horn-steini,
sem hann grèt yfir;
Hann rauk reikandi
rètt at steini,
hèldt sèr fast við hann,
ok hnèg niðr;
hneigði þreytt höfuð,
harmandi lengi,
en mælti ekkert
orð frá munni!
Um síðir útbrauzt
með orðum slitnum
af sál sár-skelfðri
sorgarfylli:
æ, lát af, lát af
lengr þessum
dauðans myndum með
mik at hræða!
Sem skæðir skjómar
skera þær bein;
mín en mörðu bein
mèr ei lengr!
ok snú snarliga,
æ snú frá mèr
augna atvarpi
sem aflar dauða!
því er þú mik leizt
eptir þat framit
afbrot, afbrota
allra dýpsta,
ok synd svartari
syndum öllum!
Hvað vann ek, vinr?
æ vinr minn!
ek var þèr ótrúr
ok afneitaði
þèr, sem ek unni
þó af hjarta,
ok sem einneginn
elskaðir mik
meir enn meistari
má neinn annar,
góðgjörnum manni
ok guðdómligum,
hvað vanstu, vesæl
veigalaus sál?
Sjá, mik á miklum
mun hann nú eigi
vilja viðkannast
veraldar dómi,
fyri sveina flokk
enna frómari,
ok her háleitum
himins engla!
Meðkenn mik ekki!
þat er makligast!
æ, virðstu við mik,
æ, virðstu þó,
eins ástúðligr
at endrkannast!
aumka þik yfir
ángist mína!
Hvílíkt hrekkja verk
hafðist ek at!
því meir sem þánkinn
þar til finnr,
því dýpra dregr
dauðinn sik inn
mèr í merg ok bein;
æ, mætti ek deya!
dey! ek mun deya,
þó dauða seinum."
Þarmeð þagnar hann
ok þúngt grætr,
mjög þess makligr
at mætti gráta!
var þar við staddr
verndari hans
Oríon engill
honum allnærri,

leit hann lærisveiu
ok ljúfrar kendi
eins aumkunar,
sem engil-gleði.
Pètr vèk sèr við,
varð upprèttr,
horfði til himins
ok hermdi svo:
ó þú aldæmir
ógnarligi!
þú mjög máttugi
manna ok engla,
ok þíns eingetins
arfa Faðir!
Gjörla þekkir þú
þetta hjarta,
hjúgt, skelft ok bráðnat
í brjósti mèr,
ok hve mèr hræddr
í hugskoti
döpru dynur
hinn dýpsti þánki.
Jesú — játar ek —
jóði þínn
ek, æ mik aumann!
hefir afneitat!
miskuna þú mèr
mildiliga!
auðsýn mèr miskun!
mik virðst aumka!
góðgjarni Faðir
guðdómligs barns!
Hann á at andast,
þat er ályktat,
en ek helzt til er
óverðugr
deildar, at deya
með þeim dýrmæta;
þó er ein ósk sú,
sem ek mèr kýs!
Fyrr enn hneigir hann
höfuð í gröf,
áðr hann efstu
meðal annara
miklu trúrri mèr
mentsveina hans
býtir út blessun
ok blíðri kveðju,
unn mèr enn at sjá
elskanda þennann,
svo hans síðasta
sjón, þegar deyr,
misgjörð mína
mèr tilgefi!
Þá mun ek at eins
uppgjöf ok náð
biðja hljúgr um,
en blessun eigi,
ofhræddr hugar
ok helzt til sekr
misgjörðamaðr,
at mæla þori:
átt þú einúngis
eina blessun
til reiðu at ræða
yfir rèttlátum?
Æ! ef einúngis
ek með tárum
fæ mèr áunnit
uppgjöf syndar,
ek þá án afláts
fyrir öllum lýð
vil hann vafalaust
viðrkenna.
Svo lengi sem þú
at sjálfs þíns vild
mælir manns daga
mèr at lifa,
skal þat skærasti
Skapari minn!
mín vera mætust
metin yðja!
Ek vil gaumgæfinn
góða ok fróma,
hjörtu hvörvetna
hrein uppleita,
ok án afláts
með ángri ok tárum
þessum þráfeldu,
þeim greina svo:

Já, hann ek kunna,
Jesúm góða,
dýrmætann at dygð,
dáða beztann
meðal mannanna
mergðar gjörvallrar,
hins heilagasta
heilagann Son!
Var ek at vera
eigi verðugr
honum handgenginn,
nè hann at þekkja;
ek var kjör-kosinn
kennslu sveinn hans;
sveini sínum hann
af sálunni,
en at elska hann
aptr á móti
var ek víst ekki
verðugr þó!
Því ek hann ekki
elskaði meir
hans á hörðustu
hrygðar stundu,
hinn bezta borinn
bur hjá mönnum,
beztr birtist hann,
betri' enn allir.
Öll hans æfi
fyrir aðra var
enn hann ei sjálfann,
allra hvörvetna
mannvinar merkja
ok miskunar full:
fæddi fátæka,
fjör gaf krankum,
viðreisn voluðum,
vakti dauða!
Því deyddu þenna
þeir sem voru
manns ok manndygðar
megin-fèndr!
takið yðr upp;
sem eruð menn!
látum oss leggja
leiðir vorar
at gröf ens góða,
til at gráta þar!
Æ! of ógnarligt
er at þenkja
ok hvarfla huga
til hans grafar!
Jesús, góðgjarni
guðdóms maðr!
hvar mun þá hjá þjóð
þín verða gröf?
hvar mun hvíld gefast
þínum holds leyfum?
ef illr hugr
ofstopamanna
ann þèr at eignast
einhvörja gröf!
Maðr sagði svo
ok sárann grèt,
sá, hvörn hrekkvísir
heims syndarar
í orðum einum
allvel kenna,
en í athöfnum
afneita þó!
hèr grèt handa sèr
helgri kórónu
Pètr at prýðast
píslarvotta!

---

Hèr hefr

## sjöundu bók Messías.

Á stóðst öndverðum
Elóa þú
morgunroða midt
meðal engla,
þeirra sem þjóna
þessari jörð,
til at varðveita
valdir hana!
Saung miklu megni
mektug harpa;
sjá þú svo munu
sýngja ok dansa
eittsinn upprisur
hins efsta dags!
sagði nú Seraph
sýngjandi þannig:
Útaf þèr, eylífð!
ó kom ok fæðst,
ó kom fram ok fæðst,
fagri blóð dagr!
sjá, hann ýtist at
upprennandi!
miskunar mildr
er hans mikla nafn!
Hann mikla ok blessa
morgunstjörnur,
ok hann úthrópa
allstaðar kríng
fyri megin-mergð
minni sóla;
en sólir allar
umhverfis jörð,
svo hátt hljóðandi
láta hljóm gjalla:
Fólks forlíkunar
fagri dagr!
ó dreyra dagr
þú hinn dýrmæti!
þann eylíf elska
hefir útsendann!
saman við són þann
sýng mín harpa!
Duptit engil í
umskapar hann;
af ró ok unnu
eylífðir fullar
eru ávextir,
sem útaf spretta
hans sómasömu
sigrhrósi!
Sjá! ek upplypti
augum ok sè!
er hèr altari
einn hvoll jarðar;
en titra tekr
fyri tilkomu
fórnar, af felmtri,
fast altari!
En þótt hefði hann,
sem með hálcitri
fórnfæríngu
skyldi friðþægjast,
stóreblis stjörnum,
sem steinum lækja
upphrúguðum af,
fyrir arfa sinn,
til at offrast á
altari byggt,
þá hefði þat
fyrir þessarar
tilkomandi tign
titrat fórnar!
Ek læt allt um kríng
augunum rennt!
hvörsu brosa blídt
enar bjartari

mjög mörgu sólir
móti jörðu!
ok hve sveima sèzt
sveit af hennar
lètt líðandi fylgð
ofan lopts slóðir!
Helg ok heiðrsfull
hátíðar ró,
hátignar-hæstu
meðal hátíða!
sælasta sabbat
allra sabbata!
sjálfs Föðurs sabbat
ok Sonar hans!
Heyrir ek há-saung,
heyrir ek glaum
öllum hörpum af
ofanstreyma!
klárri kórónu
kastar niðr
sèrhvor sinni
meðal Seraphim!
sabbat orðin er
öll sköpun Guðs!
O! þánki, þánki!
þúsund ára
almargar aldir
munu útlíða,
fyrr enn þitt fái
fullsælastir
höfuð-englar horft
uppí heilagt ljós;
þessi þú: Faðir!
þinn Sonur dá!
ert hins eylífa
at eins þánki!
Svo saung Elóa;
samhljóða þat
allar upphæðir
endrkváðu;
en af saurgri synd
sjónlausir gjörðir
jarðar margir menn;
ok mjög hennar
djúpt niðr dregnir

af dóma þýngð,
ærit ólíka
ólu þánka;
sama sinnis var
Satan ok þeir!
Syndar mælir sinn
sjálfráða lèt
Guðs forsjón fylla
hennar fremjendr;
heimti hóp þeirra
höfuð-prestr
í hinn innra sal
allann saman!
þar hèldt nú þeirra
þíngheimr ráð,
ok gègu saman sór
sik enum hæsta;
offrit var af þeim
áðr laungu
með heiptar huga
til heljar vígt!
Lèt í ráði rædt
um hinn rómverska
Pílatum presta
prettvís fundr,
ok um almúgann,
ok aðferð dauða!
æ skalt á Golgata
glæpamanns þú
krossfestr kanna
kaldann bana!"
Forsmáir Phílo
at fræðast af
reistri ráðstefnu,
ok í rykk snöggvum
brýzt út sem bráðast
burt af fundi,
leitar með morð-hug
eptir Messía,
ok hann varðveittann
hjá vakt finnr
að lyktum, loga
lækkaðann við!
Gekk hann þar um gólf
gagnvart Jesú

með feikna fetum
fram ok aptr;
fólskan fram-knúði
fótaburð hans;
eitr-næm augu,
sem örvar hvöss,
festu sífeldt svif
sín á honum;
beisk hefnd ok bani
blossuðu úr þeim!
En slík óstjórnlig
ofbeldis ráð,
sem heiptin hafði
honum yfir,
gegnum gèkk hann þó
ok grundaði
skilníngi ok skoðun
skarpsýnni með,
ok með umsorgun
athugasamri
ofan örðugleiks
allar raðir!
Ýmsar ok allar
ályktanir
ráð ok röksemdir
ok ræðu snild,
veg ok verðugleik
vígðra klerka,
ok þat einnig,
sem í ýtrasta
máta mætti
fyri menn koma
sèr fyri sjónir
setr hann nú;
en átti ekkert
undir hæpi!
Eitt sinn, er hann lýð
umhugsaði
tók honum til
at titra hjarta;
þat lèt hann þegar
þvíngat ok kæft;
aptr annat sinn,
er hann þenkti,
hvað fyrst at fremja
fullbúinn stóð
skalf honum hugr,
en hastarliga
samvizku sinnar
sigraði vott!
Fullr ramm-reyrðrar
ráðagjörðar,
þó líkrar lausum
lopt-vefnaði,
er auðveldliga
uppraknat hefði,
ef af alforsjón
á væri bendt,
flýtti sèr Philo
á fund presta!
En nú erum vèr
allseinlátir —
fleiprar hann — feðr!
ok förum hægt,
brauzt ei fram birtíng?
hvörs bíðum vèr?
á hann at lifa
enn fram at kvöldi?
Philo fúsliga
fèkk þá hrærða;
spruttu þeir ódt upp;
eylífann Son
tók fælu flokkr
ok flutti þaðan
prèttvísra presta
til Pílatum,
lögmáls lærendr
ok lýðs elztu;
mjög megnum kulda
morgninn blès!
Jafnsnart sem Jesús
Jerusalems
musteri mundi,
af morgun-skýmu
lítilli, líta
nú í ljós koma,
þat er enn átti
allfáar stundir
forlíkandi fóru
at fyrirmynda,

sá hann til himins
frá húsi því!
Fljót var ferð þeirra;
fólkit þusti
múgum saman með,
því hin miklu köll
höfðu eigi haft
í hylmíngu,
nè um þat þagat,
sem þá nótt skèði;
Einnig útsendust
áðr nokkrir
piltar af prestum,
þeir er Pílató
höfðu fyri fram,
til at flýta sök,
kærenda komu
til kynna gefit!
Því næst komu þeir;
þókti honum
ferlig fádæmi
furðanlig bísn,
at grúi gjörvalls
Gyðínga mengis
flyktist fyrir hann
til at frambera
ákærur í gegn
einum fánga!
Fylgdi flokkrinn
fólks dómara
eptir, allháar
uppá tröppur;
þreingðu þeir sèr fram,
þar til hættu
geistum gángi
við Gabbata dyr,
þar var þá dómstóll
í þann tíma!
Heimti hátíðar
haldin venja,
at þeir inní sal
ei gengi þann;
svo sat Pílatus
sjálfr á stóli,
rekkr rómverskr,
þó ráugs háttar;
breiskr búks fyllir
bilífi vaur,
þar með af þótta
þrútinn ok grimd!
Kunni þó kænsku
ok klókindi til
at fá sýnt á sèr
svip ok læti
rómversks rèttdæmis,
sem ríkti forðum;
nú tók hann til
at tala þannig:
Um hvað, öldúngar
Israels lýðs!
kærið þenna þèr,
sem á þíng færðuð?
kominn kennir ek
Kaipham sjálfann!
tèð orð talaði
tignarligum
hann meðr hætti;
horfandi þar
meir á Messíam
enn mergð hinna!
Nú gekk biskup nær
ok neytti svara:
eflaust ætlum vèr
Israels svo
Pílatus prúða
presta ok feðr
þekki þannig ok
um þá dæmi;
at þeir ei hefðu
undir hans dóm
haft þennann húngat,
nema hann væri
stórs straffs verðugr
fyri strákskap sinn!
Eflaust er hann þat,
ó Pílate!
já ok miklu meir
enn maðr nokkr,
enn versti vomr
hefir verit þat,

þá tíð þú dæmdir
yfir þjóð vorri!
Geyma gremju þá
Gyðínga feðr
ákaft ólgandi
innanbrjósts sèr!
fá þeir fyri þèr
fullskírt eigi,
hve þrárri þverúð
þessi Jesús
sparkar ok spyrnir
móti Spámanns vors
lofsverðum lögum
ok lands musteri
háleitum Herrans
helgidómi!
Ráði raskandi
hve ræðum með,
fyri tálfull teikn
töfra konstar,
færir hann frá oss
fólk í villu!
æ! laungu, laungu,
ó landsdómari!
laungu hefir hann
til hels unnit!
Tók fyri tal hans
túnga Pílatí:
fellið þèr þá
eptir þeim lögum,
sem yðar eru,
yfir hann dóm!
Hví beitir boði —
biskup mælti —
þú við oss þessu,
sem þekkir gjörla,
rekkr rómverski!
at vèr ráð eingin
eigum á því,
at aflífa neinn?
þarmeð þagnar hann
svo þykkju dyldi
útaf orðum hins,
at svo hefði
meinliga mynnt þá
á mist frelsi;
eptir þat aptr
innir hann svo:
Vel vors, Pílate!
viðkannast þú
hlýðugs hugarfars
holla breitni,
hve djúpri hlýðni
heiðrum vèr með,
ok með allshugar
óraskanligri
trygð ok trúfesti
Tíberium,
lands vors lávarð
ok lýða föður,
sá er ætíð sè
sællri ok meiri!
En þessi þarna,
ó þú Pílate!
Jesús, sem þú sèr,
samandregr
fólkit í flokka
útá firnindi,
ok grýtt grá-svæði
Gyðíngalands.
Með mektugum
mælsku krapti
flekar hann fólkit
fortölum í,
at þat framfylgi
frelsi sínu
ræsis rómverska
frá ríkis stjórn,
ok hann sjálfann svo
til siklíngs kjósi!
Ek sá hinn sami —
segir hann — er,
sem sjáendrnir
sýndu fyrir,
klár kunngjörandi
kenniteikn mín;
ek fús frelsari
fólksins Júda!
Ok svo enn heldr
ávinni hann

lítil-lundaðar
lýðsins sálir,
svo hann grenslist gjör
eptir geði hvörs,
þekki þá alla,
ok þannig sèr
tæli til fylgðar
ok trúrrar hlýðni,
lætr hann lýðinn
lengi dvelja
með sèr á mörkum,
ok mettar hann!
Ok hve trútt til sín
tókst honum eigi
hèrmeð at hremma
hjörtu þeirra!
var þar um vottur
vafalaus einn
Jesú jöfur-reið
til Jerúsalem.
Þarf ek eigi þèr
þann at skíra
fordildar frama
ok fagnaðar dans;
var sá dagr verst
vanhelgaðr;
þú varst þar staddr
með þjóð, ok heyrðir
hennar háreysti,
hósanna glaum,
kætiláta klið,
ok köll sigrs,
svo at þessi þinn
þíngsalr skalf!
At prests prèðikun
Pílatus hló;
Phílo sat á sèr,
ok svo mælti:
ef ek gæti grun
gjört mèr um þat,
at þú auðsveipnis
yfirbragð þetta,
prúði Pílate!
lètir pretta þik;
Ok þenktir þennann,
sem þat hefir,
stolta stórbokka
svo stiltann vera
hvörvetna í háttum,
sem hann er nú,
at hann fráðist
ekkert stærra;
þá skyldak þegja
at þessu sinn,
en þú manns muni
mjög þekkir vel!
Þessi, sem þar er,
þessi Jesús,
svo lítill sem þèr
sýnist hann nú,
þar sem hann gagngjört
Gyðíngar hafa
í dróma dregit
fyri dómstól þinn —
vit þat Rómverji!
var ei' slíkr,
þá hann gjörvöll gekk
Galilææ
óbygð öræfi
aptr ok fram!
Sjá hèr ágrip af
upplags vef hans:
at fyrst flekar hann
fólk með konstum,
er fyrr áminntist
æðsti prestr,
þarnæst fer hann fram
freistandi leit,
hve framt hann fái
yfir fólkinu
í vafa víngli
vöfðu drottnat;
Tekst honum tilraun,
í tign sólgnum;
trúnaðar tal
ok túngu mælska —
þar þrumir hún nú
þögul ok stöm! —
tákn full af táli
með töfrum framin,

höfðu híngat til
honum lukkast!
Nú lèt hann lýðinn
lokkaðann til,
allt í einu
sik at upphefja
á stillis stól
til stjórnar fullrar;
þusti þegar hvör
um þverann annann
með kátum köllum
í kríngum hann!
Enn sem hann sá þat
sèr hann vendi
við í vetfángi
ok vèk undan,
at hann öld fengi
enn nú meir teigt;
tilraun tókst honum,
töfðu þeir eigi
um hollt ok hrjóstr
hans at leita;
tók tilhlökkunar
tælandi straumr
nú aðra nokkra
nýa til sín!
Þá er leit hann loks
lið til hlýtar
sakir margmennis
mektugt orðit,
flýr hann ei framar
nè færist undan,
heldr sveit sæmdr
í sigr-dýrð
kom jafnt sem jöfr
til Jerúsalem!
En svo sèrliga
sem honum var
fólkit fylgisamt
ok fast bundit,
helzt til hrædt mundi
ok huglítit þó
þat til at þvínga
þessa feður
Jerúsalems,
svo at jöfri þeim
nýgjörvum glaðir
gengi móti!
Ok hefði þor þjóð
til þess borit,
prúðir, Pílate!
prestar ok feðr,
höfuð, sem þú sèr,
silfr-grá öll,
allir, sem erum
hins ypparsta
meðal mustera
musteris þjónar
hefðum látit líf
ljúfir ok glaðir
fyri kærastann
keisara vorn!
Prestr sagði svo,
en sjálfr stóð
Guðmaðr geðs
í grundun djúpri;
mjög ennar miklu
manna lausnar
harðar hörmúngar
á honum láu!
Dauðinn alls dauða
dauðaligastr
offrit æstaði
at altari fram;
óðir illsku-menn,
sem hann umkríngðu,
at eins offrendr
allir vorn;
en hann varla varð
var þeirra nú!
Eins merkir ekki
orustu ryk
mikils mannafalls,
þó mjög geisi,
hernaðar hetja,
hvörja senda
föðurlandit fèkk
til at framkvæma
hefnd á harðráðum
her-spillvirkja;

ok svo gremju grát
garpr stoltr
fái fundit
enna frjálsbornu!
Enn svo róm-rækinn
raunar sem var
heiðinn Pontius
Pílatus þessi,
varð hann fljótt fullr
forundrunar
Meðalgángarans
yfir miklu þögn!
Þú heyrir þúngum
þessara manna
gegn þèr ausit út
áklögunum;
en samt þegir þú
við þeim öllum;
þú fyri þessum
þik kannskè villt
fjölmenna fundi
eigi forsvara;
kom hèr inn með mèr
í mikinn sal;
Guðmaðr gjarnan
gekk með honum!
Ráfaði ráðvill
reikandi stigum
einher óvissa
um kríng presta,
ok með yðandi
ásjónur þeirra
felmtrs farva
fölar gjörði!
Enn þeim öllum meir
ómanneskjum
útskúfaðr einn
illgjörða maðr,
svartr svikari
síns ens bezta
ok góðgjarnasta
guðdómligs vinar,
Nú er náði sjá
nálægjast hel,
þat er ránglátir
enum rèttláta
færðu með fólsku
í fáng prestar,
gekk hann geist af stað
til Gabbata!
En mikil mann-þraung
ok múgans svakk
hrakkti hasta för
hans til baka,
svo hann sneiptr snart
snèri þaðan,
ok með flug-fráum
fótaburði
hljóp, sem mest mátti
til musterisins!
Hafði útaf ugg
fyrir upphlaupi
í kyrkju klerka
Kaíphas sett;
þat vissi vondr
vèla refr;
fálátann forgarð
fór hann þegar
hárrar helgidóms
hvelfingar um.
En sem formerkt fèkk
fortjald hánga,
er aptr byrgði
hið allra helgasta,
vendi hann sèr við,
varpaði lit,
ok tók at titra,
svo til þess heyrðist.
Hann gekk uppeptir
allt til presta,
ok með æðandi
yðrun svo kvað:
sjáit þar silfrit,
þèr seldut mèr!
því fyri fætr
fleigði hann þeirra.
Blóð ens bezta,
sem ek bana rèð,
er sjálfs sakleysis
sannr dreyri;

hèr kèmr hann nú
yfir höfuð mèr!
þannig hrópar hann,
ok í hríng velti
opnaðri augum
enn áðr voru!
  Hann fór, flýtti sèr
ok forðaðist
í mesta máta
at hann menn sæi,
jós sèr út jafnsnart
af Jerúsalem;
hýmdi sem hamslaus
ok höggdofa;
stundum stóð hann kyrr,
en stundum gekk,
þant ok æddi þá
þess ámilli.
  Skimar hann skelfðum
skjáum sjónar
án ráðs ok rænu
reikandi um kríng
næsta nákvæmla
hvört nokkurs manns
augun yrðu vör,
athugandi!
  Sem hann sá öngvann,
ok af sæg borgar
fráhvarf hlustum hans
hávaða skurk,
þeim nú þar til fulls
at þögn orðit
staðrèð hann strax sèr
at stofna dauða!
  þessi nafnlaus neyð
náir ekki,
nei, hún náir ei,
þó ek nár verði,
meiri meðr ógn
mik at kvelja,
nè nýsta dauðann
meir enn nú gjörir!
  Obæriligrar
ógnar kvalir!
æðið þèr, æðið,
sem allra mest!
særið svo lengi,
sem þèr getit!
þá er þetta lykst
þrotit anga,
ok þessum eyrum
allt gjörist hljódt,
lengr Lávarðs blóð
lít ek eigi,
nè þess harða hróp
heyri þá meir!
  En hinn á Hóreb
hefir svo sagt:
þú mátt, ó maðr!
eigi mann deyða;
en hann er nú meir
ekki minn Guð;
ek á öngvann Guð
upp frá þessu!
  Minn Guð ert þú eymð!
þú eymd býðr,
mjög hátt býðr mèr
mál þitt dauða!
ek gegni gjarnan
gèfnu boði!
svo dey, ó dey þá,
sem dottinn ert
í tjón ok töpun
takmarkalausa!
  þú skèkst ok skèlfr?
hèr er skarkali!
eitt sinn yptir sèr
enn hjá þèr líf;
þreytir þrota stríð
þat til at lifa!
hvað? viltú, versti
vèlræðismaðr!
viltú vita þik
vera á lífi?
hvörjum manni meir,
sem morðsvik vann,
sviðinn svartasta
svikara marki!
  Æ! hvað ógnandi
útþenr sik

sem gröf gínandi
gjörð til at svelgja
frammi fyri mèr
feikna þánki,
fælufyllstr
allra fælenda,
sem á ná-stund nýst
hafa nokkurn mann,
at hugsa: hann
ek hefi svikit!
Dey, ok deyð líka
ena döpru sál,
sú er annars aum
at mèr dauðum
mun til, þó töpuð
ok tvist, verða!
ó þú, sem í mèr
upphefr þik,
eins sem ódauðligs
eðlis værir,
sjá þitt síðasta,
sál ens dauða!
árnar ek þèr eins
eyðileggíngar!
Hann hermdi þannig,
horfði á meðan
beint fram ok blíndi,
blandandi svo
inní djúpt orpna
örvæntíngu
hefndar heitíngum
honum í gegn,
sem er eylífr
allsráðandi!
Fylgdu feigðar braut
ens fyrirdæmda
tveir englar eptir,
Ithúríel,
ok hinn Obaddon
engill dauða;
ok sem enn stóð við
Iscaríoth
hann með hvörskonar
hegðun lima
sik melr sinn vígði
undir sárann dóm!
Tók þá til orða
af tendrun fylltr
eldligs ákafa
Ithúríel:
sjá hann gengr geist
til grimms dauða!
eittsinn vil ek enn
á hann líta,
hvörs ek valinn var
varðengill fyrr!
En ek illvirkja
ofrsel nú
þèr ok þúngri hefnd
þann með öllu!
at vísu var ek
varðengill hans!
tak hann til þín!
ek án tvímæla
hátíðligri hefð
handsala þèr,
engill aldr tjóns!
offr þetta;
Tak hann án tafar,
því til þess sik,
sjá hann fórnfærir
fordæmdri hendi;
flyt nú offrit í
eylífann dauða!
hvörnig þat skè skal,
skynjar þú gjörla
dómarans dýrt
ok drottinligt boð!
Byrgir ek mik brátt,
ok burtsný augum!
með þessi framfærð
fljúgandi orð,
þaut hann eins ok þau
þaðan sinn veg;
en Iscaríoth
hafði útvalit,
á böl-stund borinn,
bana stað sinn;
En sem Obaddons
auga sá hól,

uppstèg hann á hæð
ok hèldt á lopti
blöskranda blossa
brandi sínum
með hægri hendi
móti himninum!
Hèr mælti hann
þau hátíðlig orð,
er dauðans englar
láta uppkveðin,
ef svo fyllir ein
óhlýðninnar
manneskja mælir,
at myrði sik!
Hel, ek heimti þik
viðr hræðilgt
nafn ens eylífa
óendanliga;
far ok fall yfir
foldar mann þenna!
honum sè hans
yfir höfði blóð!
sjá, þú sjalfum þèr
sól afmáir.
Lá þèr ljóst fyrir
líf ok dauði,
at þú annathvört
útveldir þèr;
en þú valdir víst
vesælann dauða!
útslökt sèrtu sól!
sýn þik komna
heljar angist öll!
uppsperr þik gröf!
hremm þú, hræ-fúi,
hann, svo rotni!
er hans egit blóð
yfir honum!
Fèkk nú formerktann
feigr Júdas
óm af ódauðligs
engils máli;
líkt sem einn orðinn
á eyði skógi
villr vegar síns
verðr um nótt
skruggu skèlla var,
er ský þeyta
yfir fjarlæg fjöll
um fjöld mílna,
svo at cedrus trèn
sárt stynja við!
Hrópaði' í æði
örvílnunar
svikarinn svo
í svartnættinu:
rètt vel reiðar gný
af raust þinni
þekkir ek, þetta
þú ert sjálfr,
myrði Messías,
ok mik ofsækir,
þíns með kalls krapti
krefjandi blóðs;
hèr er ek, hèr er
sá þèr hel reiddi!
Þat var hinnsta hróp
hrekkvíss Júdæ;
hann starði stíft fram
ok strax sik drap!
ofbauð Obbadon
einnig sjálfum;
hann brást til baka
þegar bófinn dó.
Ráðvill rekin sál
ok í rykk gripin
þrisvar hristist hans,
nær hjartat sprakk,
fjórða frumhlaupi
framrak hana
dauðinn dvalarlaust
útaf deyandans
andstygðar enni
ok æpti sigr!
hún flæmd á flótta
flögti nú burt!
Fylgdi önd eptir
uppruna kraptr
vorrar veru,
sem er vopnum hels

einnig eins ok hún
ósundranligr,
lètt fljótanda lif
útaf líkama,
hraðara hvörri
hugrenníngu,
sveiflaði þat sèr
kríngum sálina
ok varð loptliga
at lèttfærum ham,
Svo at hún sá
með sjón glöggvari
ógnarligt afgrunn,
ok eyrum með
nákvæmari nú,
ok af næmri heyrn
skaðligar skelfðum
skyldi merkja
duna dómarans
dauðligar þrumur!
Þó var nú þar hjá
þessi hamr
alskapaðr ei,
allr vanmeta,
ok kunni kenna
á kvölum einum,
ok at mynd mjög svo
mannfjandligr.
Sem sálin hafði
svæfð af dauða
raknat úr roti
rænuleysis,
hastarliga hún
var hrokkin upp,
tók hún þegar til
tvist at þenkja!
Ek finn enn nú til!
hvör em ek nú?
hvör em ek orðin?
hve auðveldliga
læt ek lèttfleygr
mèr í lopt brugðit!
en hvað er þat þá?
eru þetta bein?
ei eru þau þat,
en þó hamr!
Enn sèr ek óglöggt;
hvör er ek þá?
skelfiligt er skyn
skilníngar-vita!
fullann finn ek mik
fárs ok eymdar!
hvört er ek Júdas,
Júdas, sem dó?
hvar, í hvörjum
em ek hèröðum?
Hvör er þar á hvol?
hvað mun þessi
mynd gefa at merkja
mjög skínandi?
skín hún meir ok meir,
en mèr af því
æ stærri ok stærri
stendr ótti!
O! at augu mín
hefðu æ verit
eins sem áðr fyrr
óskír ok sljó!
en þau skírast skjótt
mèr til skelfíngar;
því skárr þau skerpast
skelfist ek meir!
Far nú fljótt, Júdas,
flý án tafar!
vei mèr! veraldar
víst dómari
er þat sem ek sè,
sízt get ek flúit!
þat er líflátinn
líkami minn,
allskonar andstygð
andstyggiligri!
Nú sveif hann niðr,
sem næst við jörð!
hafðu þik hærra! —
hrópaði þegar
Obbadon, engill
ofan af hvol —
sveima ekki svo
við svörð jarðar!

ek er ekki sá
eindæmir heims,
heldr einn hinna
er hann sendir!
Ek er Obaddon
engill dauða!
heyr nú hèr þinn dóm,
hann er enn fyrsti;
aðrir enn þýngri
munu yfir þik
eflaust úthellast
eptir þetta!
Er þitt arfskipti
eylífr dauði!
ennm óskapta
efliðir þú svik,
ok gjörðir uppreist
móti eylífum
Drottni Drottnanna;
drapst þik sjálfr!
Þetta segir sá,
er sinni heldr
meðr mund hægri
metaskálum,
en í vinstri er
ógnarligt hel:
eingi mælir má
mæla' at fullu,
ekkert tal er til,
sem telja kunni
kvalir, sem safnast
yfir svikarann!
Lát hann fyrst líta
líðanda á krossi
með bana benjum
blóðstreymandi
minn þann hinn mikla
Meðalgángara!
sýn honum síðan
sælufull kjör
himins hásala
harla fjærri,
fær hann svo fljótt
í fullt helvíti!
Uppkvað úrskurð hans
Obbadon svo;
skugginn skjálfandi
af skelk ok hræðslu,
sem nú sveif á hann,
svartari varð,
ok fór álengðar
eptir Seraph!
Þá var í þíngsal,
meðan þannig stóð,
arfinn eylífi
innistaddr,
hjá enum heiðna,
sem hafði stjóru;
spurði þessi þá
þar hinn fángna
Jesúm, hvört Júða
jöfur væri?
Rètt röksamliga
ennm rómverska
höfðíngja horfði
hèr í augu,
einurð mildri með,
Messías nú,
ok lèt hèr til hradt
honum svarat:
Jarðneskr ek
ef jöfur væri,
þá hefði ek þegna,
sem þèr, háða;
mundi fyri mik
mitt stríða fólk!
en ek er jarðar
jöfur enginn!
Hinn aðspyr aptr:
ertu þó kóngr?
já, sagði Jesús,
ek er þat víst!
híngat hefir ek
í heim borizt
uppá þat at ek
öldum jarðar
bert segði' ok sýndi
sannleiksins veg!
hvör sem sik helgar
enum heilaga

sannleik sjálfann
sá skilr mik!
þraut þá Pílatí
þarum ræða,
veraldar vinar
með vana svip,
sá næsta skammskygn
sker úr málum
ítrar alvöru,
sem öðru gamni,
segir hann svo:
hvað er sannleikr?
Þá at því mæltu
útaf þínghúsi
leiddi landstjórinn
Lausnara vorn
aptr frammí flokk
enna forherðtu,
sem um hann sátu
samkomumanna!
Ek finn öngva sök
í hans fari —
við pretta presta
Pílatus kvað —
sem hels hegníngar
honum fái!
Þèr gátuð gjörla
um Galilæam;
hefir hann þar æft
háváða sinn!
Sjáið, ek sendi
sökum þessa
hann til Herodem,
hvörjum þat land
er til umráða
undirgefit!
veiti hann honum
sína hegníngu!
En sè, svosem mèr
sýnist vera,
megin-efni máls
miklu framar
um lögmál yðar
enn uppreistar verk;
heyrir þat heldr
undir Herodem;
má hann mèr betr
þat meta ok dæma!
Pílatus mælti
til presta svo!
Á meðan móðir
ens mesta' ok bezta,
elskuligasta
allra sona,
Jesú, jafnsnemma
til Jerúsalem
eptir andvökur
einsligrar nætur
kom, sem kviknaði
kaldr morgun.
En sinn góðgjarna
ok guðdómliga
eigi mátti mög
í musterinu,
þar hans lengi lèt
leitat, finna,
hún eins í undrun
ok ángist fèll!
Heyrði þá frá höll
hún ens rómverska
dymmraddaðan dyn,
sem djúpt at neðan
uppstígandi ærsl
ok ókyrrleik,
fór hún gagngjört
móti gjálfri því
án þess at þenkja,
hvaraf þat kæmi!
Með mannfjöldanum
María gekk,
sem braust fram breiðar
borgar götur
öllumegin at
innan múra
með þraung ok þys
at þínghúsinu.
Angruð at sönnu,
þó enn nú sízt
útaf orsök
til upphlaups þessa,

nálægist hún nú
nefndum dómstóli,
ok leit Lebbæum
lærisvein Jesú.
Ljúfr Lebbæus
Lausnarans móðnr
mátti varla var
verða þar fyrr,
enn hann fót-fimr
flúði þaðan!
æ! fer hann? flýr hann?
hvað forðast hann?
svu mæt María
með sèr þenkti!
Með þánka þessum
þegar mundi
forsjónin fal þeim
láta fyrst brugðit,
er var hennar önd
ákvarðaðr,
at gegnum gánga
gjörla skyldi!
Stèg at neðan nú
nokkut hærra
María móðir
í mannþraunginni,
svo hún sá Jesúm
hvar saklaus stóð,
en sem illvirki
áklagaðr!
En hennar engill
þegar áhorfði
hvörsu hún varð nú
helbleik ok föl,
ok mæddrar móður
magn-þrotin augu,
vendi hann sèr við
ok varð hryggr!
En þá er aptr
af augum hennar
dyma datt
ok deyfa hlustum,
færði hún fet sin
framanverdt at,
ok dró sik dugvana
nær dómstóli!
Sá hún eittsinn enn
arfa sinn standa
umkríngðann öflgum,
áklagendum,
ok rekk rómverskann
ráðinn til dóms;
fólksins heyrði hún
hróp ok æði,
er nú allt um kríng
með ofsa hljóðum
kepptist at kalla
kvalir ok hel!
Hvað átti hún nú
hèr til at gjöra!
hvörja mátti mær
miskun biðja?
hún leit hvörvetna
eptir huggara,
en nú var engi
til at aumka víf!
hún leit til himins,
en hann þagði,
mállaus við mæddrar
móður tárum!
Svo bað blóðsturlut
brúðar hjarta:
ó þú sem engil
útsendann lèzt
boða mèr burð hans,
ok í Bethlehems
lágt liggjandi dal
líka veittir,
At ek meiri með
móður-gleði
gleðja mætti mik,
enn móðir nokkur
hefir glaðst getat;
þá er Guðs englar
í saung framfærðum
um fæðíng hans
ei' fengu alla
útmálaða!
Þú sem Samúels
svinnrar móður

heyrðir blíða bæn,
bljúg þegar stóð
ok harmfull hún
við hátt altari,
ákalli ok tárum
úthellandi!

Heyr þú mjög mildi
miskunar Guð!
sárast sorgar hróp
sálar minnar!
ángist mína merk,
sem meir hrellir
enn feiknar-fyllsta
fæðíngar neyð!

Móðurligast mèr
meðal hjartna
bjóst þú í brjósti,
ok hinn bezta son,
ágætastann einn
allra sona,
já, beztann jóða,
sem á jörð fæðast!

Æ! ek bið, at hann
ekki deyi,
sè at eins samkvæm
sjálfs þíns vilja
guðdómligum greind
grátbeiðni mín;
þú sem himna hvörn
hefir skapat,
ok tilsagt tári
tregafulls brjósts
einnig um miskun
þik at ákalla!

Hèr misti mál sitt
móður hjarta!
almúgans aðfall,
sem aðstreymdi,
henni hratt
hardt til síðu
ok lèt nú sjón síns
frá sonar bægt.

Því næst þreif hún sik
frá þraung lausa,
hún stóð, hún gekk
ok hún leitaði,
en hún fann öngvann
af hans sveinum;
loksins huldi hún
harmandi sik
afsíðis orðlaus
með ekka sárum!

En sem hún uppleit
augum síðan
sá hún sik komna
til síðu-hallar
þar ráða rekkr
rómverskr bjó;
flaug henni í hjarta
hugsun þessi:

Máske mennskar hèr
manneskjur búi,
máske munaðar
þar minnst er hóf,
háum höllum í
hafi nokkur
móðir mann alit,
sú móður-ástar
at fá fundit til
eigi forsmái,
eðr álíti
oflítit sèr!

O! at væri víst
vífit Portia!
þat margar mæla
mæðr um þik
at hafir hjarta,
sem hæfir manni!
ó þèr englar,
sem um kríng vöggn
Sonar míns súnguð
útaf sendíng hans,
ok væri víst þat!
víf svo þenkti.

Skundaði skjótt upp
án skílu nú
móðir María
marmara stiga;
hafði hún sik burt
í hljóða sali,

at hún afsíðis
gæti ein verit!
En þat yfirstóð
ekki lengi;
handan frá hvelfíng
við hallar síðu,
þá sem þaðan
til þínghúss vissi,
kom þángat kona
kynjuð frá Róm,
mær sá Maríu
móður hryggva!
Fèll í forundrun
svo fet stillti
ristill rómverskr
rètt sem hún stóð;
hrundi laus haddr
um herðar úngar,
ok lèt línklæði
um limu skelfða,
hún var hörunds bleik
af hrygð at sjá!
Því ens óskapta
ypparlig móðir,
en þótt hulin hrygð
hvörvetna sýndi
í hvörskyns háttum
hátign slíka,
at jafnvel englar
þar atdáðust,
þeir ok líka þat
þekktu hvað bezt!
Þá af sorg sveipuð
sik hún lægði
í mesta máta
til manna niðr,
at hana einnig
undruðust þeir;
loks ræddi ráðsvinn
rómversk kona:
Herm mèr, ó! herm mèr,
hvör ertu mær?
hvör sem helzt þú ert,
hefir ek eigi
híngat til horft
á hátign slíka,
nè glíka geðhrygð
guðliga sèð!
Mæt tók María
máli fyrir:
ef í raun rèttri
svo ríka þú
meðaumkun manna
við mein finnr
hjá þèr í hjarta,
sem hennar merki
augljós eru
þèr í audliti,
þá far ok fylg mèr
á fund Portíu!
Undraðist enn meir
af orðum þessum
Maríu meyar
mærin frá Róm;
hún með hæglæti
hýr í máli:
ek er Portía!
andsvaraði.
Hvört ertú, hermdi
heilög móðir,
Pontversks Pílats frú
Portía sjálf?
hjá mèr heimuglig
hægjandi laungun
einhvör innvortis
óskaði sèr,
strax sem ek sá þik,
at svo Portíu
væri varit,
sem vífi þessu,
þú ert þat sjálf
þá, hin rómverska!
At vísu ekki
algjörliga
sorgir þekkir þú,
sem þjá móður
þá sem er af þjóð,
er þèr hatið;
en þó inna sjálf
Israels fljóð,

at hjarta hafir
enni hollustu
mjög fullt manneðlis
meðlíðun af!
Maðr sá, ó mær!
sem mætir dómi!
Pílati fyrir,
prestum grimmum
áklagaðr af,
hefir ekkert verk
syndsamligt framit;
hann er Sonur minn,
ek manns þess móðir!
María þagnar.
Stóð nú Portía
stillt í sporum
mildri furðu með
fyri Maríu,
horfandi' á hana
í hug upptendruð;
mátti meir enn sorg
meðaumkunar
nokkr hjá henni
hærri þánki!
aðdást ok undrast
at eins hún gat!
Loksins hrópar hún:
hann er þinn Sonur?
gæfugefin manns
guðdómligs þessa
móðir, María
mikla þú ert?
hèr við hún sèr
frá henni snèri,
ok til himins upp
undrunarfull,
svo heitt hugsandi
hóf sín augu:
Hún er hans móðir;
hán guðir!
Yðr meinar ek,
þèr æðri ok betri
guðir á gimli!
sem gjörðuð mèr
Yðr í draumi
alvörufullum
ok undarligum
opinbera!
Er — at Júppiter
yðar heiti,
er — at Apollo
eða Phœbus!
nei, hvörju nafni
sem nefnist þèr,
þá eruð þèr víst
þeir enir sömu,
sem hins mesta manns,
ef maðr er,
móður, Maríu
hafið mèr senda!
Biðr hin bezta
já biðr mik
nei, bezta brúður,
bið mik eigi!
heldr miklu meir,
virðstu mèr fylgja
á fund við arfa
ypparstann þinn!
Svo hann megi mik
megnri dymmu
efasemdar af
útgreiða loks;
lita mik lángt at,
ok í lærdómi
guðdómsins gjöra
glöggt upplýsta!
Rómversk hafði hèr
höfðíngs kvinna
aptr andliti
undansnúit,
en með ástar sjón
alúðarfullri
eptirleitat lèt,
at hún liti sik,
augum hennar enn,
ok at þeim fundnum
móðir María
mælti þannig:
O hve með afli
önd þín er hrærð,

prúðlynd Portía!
Portía fróma!
ó! hún elskar mik!
æ! mín Portía!
eflaust var áðr
auðnu ríkra
auðnuríkust ek,
allra mæðra!
einuig hefir ok
aldreigi uein
jafnt mèr jóð elskat
á jörð móðir!
En þins fleyti-fulls
fyri sakir
hjarta, mann-meina
meðaumkun af,
at heita' á heiðin
hyrð þú eigi
rómverja-regin,
þó rómversk sèrt!
hjálpa þú hèr sjálf,
þvíat hjálp öngva
meigu þau máttlaus
mönnum veita;
Ok þú orkar sjálf
ekki at hjálpa,
ef hins eylífa
alvísa ráð
fast ok fortakslaust
fyrirhugat
ok ásett hefir,
at hann deyi!
Enn meðr miklu
meiri gleði,
prúðlynd Portía!
Pílatus fyrir
mæta mundi þeim
megin-dómi,
nær Guð guðanna
gjörðæmir allt,
nema ná-blóði
hefði nú flekkat
sálu sína hann
þess eus saklausa!
A hana horfði,
er hermdi þetta
ristill rómverskr,
ok ræddi lágt;
hvað skal framfæra
fyrst eða síðast?
ó hvörsu hverar
hjarta mitt fullt!
Fyrst þèr fróunar
fái í huga,
svo framt því sorg þín
getr sefast af,
vil ek, dýra víf!
þèr viðhjálpa!
því at guði þá,
sem þú meintir,
máttu traust trúa,
tilbið ek sízt!
Hefir heilagr,
af hvörjum ek
nú er nývöknuð,
nokkr draumr
borit mèr í brjóst
betri guða
þekkíng, enn þeirra,
ok þessa sömu
ek heitum anda
hefir ákallat!
Svo var sèrligr
sagðr draumr,
at slíkr annar
hefir aldreigi
mèr um sál sveimat
sofandi fyrr!
hve hræðiligr
himneskr draumr!
ek mundi, mætust
María! þèr
hjálpat hafa,
þótt híngat eigi
fyrst á fund við mik
farit hefðir!
Víst hefði hjá mèr
helgr draumr
talat, sem túlkr
traust fyri þik,

ok með mektugu
megni raddar!
en hann endaðist
ógrliga,
svo at síðustu
ek hann sízt skildi!
Fann ek at flúnum
föstum svefni
í svölum sveita
sveimandi mik;
skundaði' ek skjótt
at skoðat fengi
mann þann enn mikla,
er mjög svo var
með sárum sóktr
sakargiftum;
þá höfðu þegar
þess ens kærða
móður mèr senda
máttugir guðir!
Því næst þagnar hún
ok þernu bendti
nokkuri, sem nú
fyri neðan lángt
at brúðar boðum
beið í gangnum;
hafði henni svo
þegar herbergjum
frágekk með flýti,
fyrisagt hún,
at sèr álengðar
eptirfylgdi
ambátt ein,
en ekki fleiri!
Nú var á ný,
er at neðan kom,
þernu þessari
þannig boðit:
far þú fljótliga
á fund Pílati,
síðan skaltu svo
segja honum:
„Sá er sannliga,
sem þú dæmir
einn mikill maðr
meiri enn aðrir,
rèttlátr, góðgjarn
ok guðdómligr;
forðast hinn fróma
þú at fordæma!
Mjög svo hefir mik
manns þess vegna
dygðaríks í dag
draumr skelfða
með sýn, í svefni,
er ek sèð hefi;
segir Portía
Pílato þat!"
Svo lát nú sefast
sorgir þínar
mjög elskandi mög
móðir, ok kom,
lát mik leiða þik
ljúft meðal blómstra
móti morgun-sól,
svo mælgi fólks
helzt til hávara
heyrum ekki;
sitjum tvær saman,
mun ek segja þèr
hvað en stránga stund
mèr stórt kendi!
Svo prúð Portía
Pílats kvinna
mælti mætasta
María við;
því næst stigu þær
þaðan niðr;
starði þá á storð
sá enn stórgöfgi
at hefð ok huga
þó heiðinn svanni,
ok hafði andlit
fullt af alvöru!
Enn þagði þessi
í þúngri furðu
djúpt þenkjandi drós
út af draum sínum
nú stödd á ný,
því í negg hennar

ein flaug ok önnur
umhugsun þess.
Hafði dýrann draum
drósar sálu
ítrar inngefit
engill hennar,
ok af vífs vildar-
venju-þaunkum,
sem fjör-fimastir
henni flugu um brjóst,
æ nýa ok nýa
nú framleiddi
aptr ok aptr
aðra þánka!
Hann svo því hitti
hentuligar
ok því vissar vífs
ena viðkvæmstu
ok handhægustu
hjarta strengi,
ok þá alla svo
eins fengi hrært!
Loksins losaða
lèt hún sik nú
útaf áminnstum
ígrundunum
ok aptr nýa
upphóf ræðu;
Maríu móður
mælandi við:
Socrates — sagði
svo en heiðna —
þann at visu þú
þekkir eigi,
en ek titra tek
af tærri gleði,
nær sem ek nefni
nafn þessa manns!
Lofsverðasta líf,
sem lifat varð
neðar nýtri sól
nokkurn tíma,
krýndi síðast sá
svo prúðum dauða,
at svo ypparlig
æfi hans var,
varð hún við hans lát
vegsamligri!
Sami Socrates,
sem ek hefi
alla tíð aðdást
með undrun stórri,
ok einart aðgætt
eptirmynd hans,
lèt mik sjá sik
sofandi í draumi,
ok sitt inntí mèr
ódauðligt nafn!
Sjá, ek Socrates,
sem þú undrast,
hverf frá hèröðum
fyrir handan gröf,
híngat á hauðr,
hvar ek lifði,
ven þik af, mik mjög
at mikla' ok undrast!
Sízt er hinn sami
sá guðdómr,
sem vèr heldum hèr
hann at vera,
ek í ský-skugga
skarpari vitsku,
en þèr offr-full
ölturu við!
En at gjör-greina
guðdóminn þèr,
er mèr, ó þú mær!
ekki boðit,
ek hin fyrstu fæ
fótstig at eins
þik inní yzta
andyri leidda
á mjög mektugu
musteri hans!
Undra dögum á
yfirstandandi,
er hið ypparsta
afreksverk jarðar
fær fullkomnustu
framkvæmd sína,

kemr kannske
annar klárari
aðstoðar andi,
æðri ok betri;
hann mun háleitann
inní helgidóm
þik lángtum lengra
leiða sjálfr!
Þat ek þori víst
þèr at segja,
fèkk þitt frómt hjarta
forskuldat slíkt:
öngvir illir menn
optar meign
særa Socratem
síðan hann dó.
Elysíum er
aldreigi til,
nè við nætur-fljót
nokkrir dómendr;
var slíkt vafa spil
vissuliga
ekkert annat
enn ímyndanir
veikum ok villum
vitsmunum af!
Annar er þar sá
einn sem dæmir;
aðrar eru þar
alskírar sólir
enn í dölunum
elysisku;
tala mál ok met
mæla, telja,
ok vega verk öll
í veröld hinni.
Hve sik sèrliga
samankreppa
í dupt dálítit
dygðir hæstu!
hvörsu hverfr þar
at hismi gjörð
í vind ok veðr
vera þeirra!
Nokkrar njóta þar
nýrra launa,
flestar þeirra fá
fyrirgefníngu;
mitt meinlaust hjarta,
þvíat mjög var frómt,
öðlaðist uppgjöf
ok álit náðar.
Hve mjög hins vegar
við hel ok grafir,
ó hvað enn lengra
yfir frá þeim,
öðru móti með
enn menn þenktu
allt, er Portía,
á sik komit!
Sjálf hauðrs hræðan,
þín háa Róm,
er, at áliti
efri búa
mikil, af möðkum
moð-dýngja kvik,
ok eitt ómeingra
aumkunar tára
er, sem heill heimr,
þar í hávegum;
vertu þess verðug,
at vel lærir
þèr af augum þau
þrátt at fella!
Hvað sá heilagi
heimr anda
öllu meir öðru
upphefr nú,
ok sem mèr sjálfum
eigi sýnt mundi,
en ek atdáðist
at eins fjærri,
þat er þetta,
sem ek þèr fæ birt!
Hinn mesti manna,
ef hann maðr er,
þúngum þreingíngum
þjáist undir,
líðr meiri mein
enn manna hvör,

ok gjörist gjarnan
guðdóminum
í allra dýpstu
auðmýkt hlýðinn!
Hèr með fær til fulls
framkvæmda sá
ena yppurstu
allra dygða;
ok hèr á ofan
skeðr allt þetta
af mold myndaðra
manna vegna,
ok þat nú þegar
á þessi stund!
Sjá, þín hann sáu
sjálfrar augu;
dæmir Pontíus
Pílatus nú
þann sem þrekvirki
þessi fremr;
ok sè hans úthellt
ítru blóði,
sízt nokkru sinni
sakleysis mun
hærra hrópat því
hafa dreiri!"
Þarnæst þagnaði
þessi svipr,
en kallar upp hátt
í því hann hvarf,
í feikna fjarlægð
frá mèr kominn,
segjandi: sjá þú!
ok ek sá þetta:
Við skyndi skjálfta
skutu sèr upp
umkríng allstaðar
opnar grafir!
frá hvörjum himni
hèngu niðr
ofan yfir þær
ærit þúng ský!
Rètt upp at rjáfri
röðuls slóða
sundrklufu sik
en svörtu ský!
þókti mèr í þau,
þar sem sprúngu,
alblóðugr einn
arka maðr;
af honum öllum
útstreymdi blóð!
Geisi-grúa
yfir grafir þær
ek sá útdreifast
ótal manna,
þeir með þreyíngu
ok þöndum örmum
eptir horfðu hal
enum helblóðga
í ský skundandi
skelfilig inn!
Af þeim allmörgum
eins rann dreiri,
þann er víg-vángr
víðlendr svalg,
ok tók titrandi
móti teiguðum;
leit ek hve liðu
líðendr þessir!
En þeir útstóðu
allar píslir
hárri hugprýði
hvörvetna með,
mundi þeir ok menn
miklu betri
þeim sem umkríng oss
eru jafnan!
Því næst þeytti sèr
þjótandi stormr
óðr upp,
svo mèr ógnaði,
sveipaði hann svæði
með svartri nótt;
varð mèr við þat bilt,
svo ek vaknaði!
Þagnar svanni þá
at þessu mæltu;
þat var þvílíkast,
nær þánka himnstum

hnykkir hnáliga
við hnekkíngu,
er hann alvísrar
of nærgaungull
forsjónar fólgnu
feikna djúpi
í bráðu bragði
til baka snýr,
var nú rómverskt víf
viðlíkt snortit!

Horfði til himins
hugfullri sjón
María móðir
ok margt þenkti:
hvað helzt, Portía!
hvað skal ek segja?
ek at sönnu sjálf
sízt fæ skilit
til hlýtar hvarum
hefir þik frædda
draumr þinn í dag;
þat er dulit mèr!

En ek með undrun
á þik horfi,
ok af heilum hug
þik hátt virði!
andar æðri
munu eflaust þik
háann helgidóm,
himinsölum
ofan stignir af
inní leiða!

Samt ek þori þèr
þetta' at segja,
svo gjarna sem ek
sagnalaus þó
mun þegja, þegar
þessir tala
æðri andar,
sem ek umræddi!

Hann, sá er himna,
þá í hríng velta,
eins auðveldliga,
sem hinn únga kvist,
er á fold frjófgast,
í fyrstu gjörði,
sá er manni mat
mæðufullt líf,
fullt af fögnuði
fljúganda hraða,
fullt af fljúganda
fári ok sorgum,

Svo hann ei sinnar
sálar skyldi
gleyma göfugleik,
ok gæti merkt,
at við hina hlið
hels ok grafar
ódauðleikr einn
eigi bygðir!

Hann sá hinn sami,
sízt fleiri' enn einn,
heitir Jehóva,
heims skapari,
ok hann hinn sami,
sem heim dæmir,
Adams frumföðurs,
fyrsta manns, Guð,
einnig allmargra
af Adams sonum,
ok erkiföðurs,
Abrahams, vors!

En mót ok máti,
með hvörjum vèr
heiðrum hann
ok honum þjónum,
er þó mjög óljós
enum frómu
mönnum meðal vor,
hvörsu magnliga
sem stoltra sinni
sèr upphrokar!

En ei at síðr
sá hinn eylífi
hefir sjálfr svo
sett ok boðit,
mátann veit hann vel,
ok vill skíra,
ok nú einnig strax
útskírir hann;

Jesús, Jehóvæ
jörðu gefinn,
mesti Spámaðr
máttugasti
í kraptaverkum
ok í kenníugum —
full af fögnuði
fram yfir nöfu,
full af felmtri
ok af forundrun
næsta niðrlút
nefn 'eg hann Son —
hann kom gagngjört
at greina þetta!
Ek var útkjörin
til at ala þann!
hèrmeð skyldi hann
heita Jesús;
hann mundi mannkyn
af misgjörð frelsa!
þann bar mèr boðskap
blessaðastann
ódauðligr einn
erindisreki,
einn meðal anda,
sem engla nefnum,
skínandi skara
skaptra, sem vèr!
En Grikklands göfguð,
ok geigvænligrar
ráng-diktuð regin
Róma borgar
mundu vera víst,
ef væru til,
at eins dauðligt dupt
móti dýrðligum
ódauðligs öndum,
englum himins!
Nær í nautsinni
næsta lágu
Jesúm jarðteikna
jóð ek fæddi,
þá saung þessara
þúsundum saman
um hann æru-ljóð
ódauðlig fjöld!"
Nú var nærri drós
niðrhuigin
hug-hreld Portía;
hèldt útbreiddum
höndum sínum hún
til himins upp,
fyri forundrun
frá sèr numin.
Biðja vildi víf
ok með veikri raust
at eins áhræra
orðit: Jehóva,
en hún þóktist þó
eigi þor hafa,
til at taka sèr
á túngu nafn
æðst allra nafna
ok ógrligast!
Nú reisti ristill
rómverskr sik,
ok með hrygð horfði
á helga móður
hermandi: hann skal
eigi hel bíða!
María mælti:
þat mun þó ske!
Hefir sú harma
hörðum þúnga
lengi lúð
líf mitt byrði!
því þat, Portía!
þráliga sagt
sjálfr hefir hann
fyrir heyrn vorri!
Þat mèr ok mönnum
enum meinlausu,
frómlyndum flokki
fylgenda hans,
meir enn allt annat,
sem oss er dulit,
þykir hið þýngsta,
ok þekkíng vorri
yfir annat fram
ógrundanligt,

hann hefir sett sèr
í sinni at deya!
Æ! nú ýfist upp
und at nýu
hin sárt svíðandi
sálar minnar,
þá er þín um Guð
þæg viðræða
lagði þó lètta
líknarbót við!
nú ýfist aptr
upp, ok blæðir
und sú ærit djúp
innan brjósts mèr;
Góðs ósk geld ek þèr;
Guð þik blessi!
já, enn eylífi
Abrahams Guð
býti þèr beztu
blessun sinni!
en bregð, ek bið þik
burtu frá mèr
þessum grát-þrúngnu
þínum augum.
Forgefins fróun
færa þau mèr,
því hans áform er
eitt at deya;
ok sá alráðinn
ásetníngr
eins mun uppfyllast,
hann eflaust deyr!"
Nú misti móðir
málróms færi,
báðar burtsnèru
brúðir augum
ein frá annari,
all-lánga stund
stóðu þær í stað
ok stórum grètu!
Loks leit Portía —
líkt sem þegar
atfram kominn einn
andláti sínu
vendir sèr enn við
til vinar síns —
svo mildt mælandi
til Maríu:
O! meðal mæðra
mætasta þú,
móðir ens mesta
manna vinar!
ek geng at gröf hans
ok græt með þèr
yfir önduðum
ástvin þínum!
svo er nú sagt frá
samtali þeirra!
Hèrnæst höfðu burt
höfuðprestar
grimmgeðjaðir Son
guðdómligann
harla hraðfara
til Heródem;
óð þar með urmull
alþýðu stór!
Hofgarð höfðíngjans
hár umglumdi
kliðr af köllum
við komu þeirra;
Jesúm, hjá Júdum
fyri jarðteiknir
gjörðar glögg-kendann,
frá Galilæa
híngat í haldi
til Heródem
Pílatus sendir,
prestar flytja!
Heimti höfðínginn
hastarliga
hóp af hirðmönnum
í höll til sín,
þar hann sjálfr sat,
ok sagði þannig:
þar skal nú þegar
þessi dagr
gjöra grein á
glöggva til fulls:
Hefir hvör yðar
heyrt ok numit,

þat er þjóðræmi,
eigi þögn duldi,
heldr hvörvetna
hátt prísat lèt;
með orðs ávarpi
einn at græða
sár ok sjúkdóma,
ok sömulciðis
með orðum einum
uppvekja ná!
En ei at síðr
er hann bundinn!
sjáið, sem yðr,
sár-furðar mik!"
þetta kvað þengill,
en þó ei allt
þat sem þenkti hann
at því sinni,
því mikln meiri
metnaðar feikn
gjörði hjarta hans
harla þrútit;
hofmóðs hugsanir
hrokafullar
í honum ullu
innan rifja!
Já, sjá at Jesús
Júda prófheti,
sá mesti meðal
manna, sem spá,
sem borinn sökum,
sik mèr hneigir
fjötraðr fyrir;
em ek fylkir hans
er honum yfir
á at dæma!
Býð ek, bandíngiun
birti mèr teikn;
svo framt sem hann þat
sýnir framit —
hve mætti honum
þat um hönd fara,
með því ekkert er
ómögnligra? —
þó ef hann eitthvað
athefðist slíkt,
hefði honum teikn
Heródes boðit,
Ok þótt hann ekkert
undraverk gjöri,
þá er hann þó
sá hinn þjóðræmdi,
hvörs á braut breiddi
blómgaðann pálma
eittsinn Israel,
ok með gleði
honum til heiðrs
hósanna kvað,
yfir hvörjum ek
á at dæma!"
Hroka þaunkum hans
hrundu prestar,
þeir er þjóstugum
þýngsla fetum,
svo gólfit glumdi,
gengu í sali,
en meðal múgans
Messías var,
er sèr um kríng hann
óðum þrengði.
þúsund hlupu hèr
hann til at sjá,
aptr athrutust
aðrir þúsund,
með harki, hljóðum,
hrynum, sköllum,
stóðu stansandi,
stundu, grètu,
bölvuðu bistir,
ok blessuðu!
En miðt í óró
ok ofsa slíkum
meðal mannfjöldans
Messías stóð,
með þeirri þel-ró
þolinmæðinnar,
sem með sögn verðr
at sönnu nefnd,
en svo hátt sizt,
af sál með þaunkum

fetuð, Frelsarinn
sem fanu til hennar!
Svo ok sína hann
sá í fjarska
ok vissi áðr
eylífa huggun,
sem þeirra sálir
mundi síðar í
öflgum innhella
unnar straumi!
Þá voruð þegar
þèr öll talin,
fyrr enn feld urðuð
fagnaðar tár;
en þeir ei slíkum
enn nú grètu,
meðal fólks fjöldans
flestir þeirra
kostuðu kapps um,
at komist gætu
gegnum þraung þessa
þángat til haus!
Svo þeir hann síðast,
æ! um seinustu
ok beztu blessun
beðit gætu,
en fyri fólks mergð,
sem fram at brauzt,
urðu þeir óðar'
aptrreka!
Þessa fóru þeir
þráfeldt á leit,
en til ónýtis,
eittsinn vorðnir
af ös ok aðsúg
æðanda skara
í úlfa kreppu
inniluktir!
Þessir eru þat,
sem þar voru
Lausnarans ljúfu
lærisveinar!
Pètr, pressaðr
Pètr af sorg,
þúng-hjartaðr þú,
með þreittum augum!
Jóhannes, jafnt sem
Júdas Lebbæus,
Nathanael
ok næsta margir
af sveit sjötíu
sveina Jesú;
víf mörg voru þar;
vinkonur hans;
mærin María
Magdalena!
Með henni mundi
María hin,
sona móðir sú
Zebedæi!
Þó ei' hin þriðja
þeirra nafna,
hún lá nær látin,
Lazari systir!
Eigi mátti meir
Magdalena,
ángr afbera,
sem var innan brjósts;
hún þekti hjá sèr
hal einn standa,
hvörs augnm áðr
hafði upplokit
máttr Messíæ;
mælti þá fljóð:
Lát mèr lítit eitt
liðsinni veitt,
ef þèr er sú stund
enn í minni,
nær hann þèr horfna
heimti til baka
at sæir, sunnu,
sýn mèr nú hjálp!
Fylg mèr gegnum fólks
fár-óðann grúa,
at ek hann eitt sinn
enn fái sèð,
ok hann með heilsun
hinnstu blessað;
sjá þeir vilja víst
vin minn deyða!

*En um fylgð fljóðit*
forgefins bað,
því hinn þakkláti
gat ei þá hjálpat;
Pètr var allt of
ángistarfullr
nú sik á ný
til at nálægja;
Jóhann beið ok bað
á býng nokkrum;
fèkk hann í fjarlægð
Frelsarann sèð!
Þú sem ólst sonu
Zebedæi —
mælti Lebbæus
við Maríu svo,
í því hún andlit
ángruð huldi; —
þú ert lofliga
lukkusæl móðir!
ó horf til himins,
horf ok brosa!
En hún sem hefir
í heim fæddann
frumkvöðul frægstu
furðuverka,
í raun ráðvandann,
rèttlátann mann,
sjálf sú guðdómligs
Sonar móðir!
Sjá hinn sorgligi
sik fyri mik,
hvört sem litit læt,
leggr þánki!
æ! ek finn svo fast,
ek finn til hans!
lát sem þik sjáir
seinna, móðir,
formerk nú fyrir
hvað finna munt;
hve þín önd orðlaus
af ángri verðr!
Aumkist yfir,
þèr englar dauða!
hans mædda móður,
ok mær leiðit,
at hún ei Son sinn
sjái deya!
lundsár Lebbæus
lèt þetta mælt!
Inngekk alvaldr
eindæmir heims
í höll Heródis
fyrir höfðíngjann,
færðr af fólki
fjandmanna sinna;
svo stríðt straffaðir
standa láta
frammi fyri sèr
forsjónina
í víngli vafðir,
þeir er villt hugsa!
Dupts galdar grillur
gefa þeir henni,
ok dóm dárligann
fyri drambs sakir
fífldjarfir fella
yfir forsjón Guðs,
en hinn eylífi
á þá bendir,
þó að síðar sè,
sinni þrumu!
Harla mjög huga
Heródis brá,
þegar sem hann sèr
Son Guðs kominn,
hvörsu sem hann var
hugskots drambi
upphrokaðr af
óhófligu
varð hann af undrun
fyrir utan sik.
Hafði höfðínginn
hvörgi nærri
slíkrar hjá honum
hátignar vænt,
svo stórs stöðugleiks
eða stillíngar,
sem öngvann bilbug
beið af nokkru.

Horfði Heródes
á hann lengi
óhrærðum augum,
en um síðir
lèt undrun undan
ofstæki drambs,
svo hann við Soninn
sagði þannig:
Spurst hafa, spaki
Spámaðr! þín,
ok allfræg orðit
ærit víða
framin furðuverk;
hefir fregn þeirra
einnig atborizt
eyrum mínum;
En tíðum eykr
orðrómr við,
eðr ofskerðir,
efni sagna,
ok segir sjaldan
svo sem eru
viðborin verk þau,
sem hann víðfrægir!
Sýn því, Sjáandi,
svo ek viti
hvílík halda skal
handaverk þín,
er þèr orðrómr,
máske oflítil,
allra munnum í
eignat hefir!
Ei sem ek efist
um at hafir
þú fyri fólki
framit þau verk;
heldr er sú ósk
augna minna,
at sjá þik æfa
athafnir slíkar,
at ek einúngis
meigi at þeim dást!
Ok með því áðr
enn Abraham varst,
þá máttu Móse
meiri vera,
meiri' enn allir
eptir hans dag,
spjallandi spámenn
enir spökustu!
Þá er þat einnig
við þitt hæfi,
at þú enn stærri
með undrverkum
yfir alla þá
upphefjir þik!
til þess tákna val
tefji þik eigi,
set ek sèrlig ein
þèr svo fyrir;
sjá, sèrhvört þeirra
er sæmt þeim gjörir!
Þar rís móts við mik
Moría fjall;
þú sèr á því
fyri þèr standa
háar hvelfíngar
heilags musteris,
ok þess topp taka,
sem turn í lopt!
bjóð nú bustinni:
beig þik niðr,
sýn, at svo lútir
Sjáandanum!
Davíds dáin bein
djúpt í skauti
hússins heilaga
hvíldar njóta;
hve mundi helgr
hilmir dansa
jafnsnart sem liti
Jórsala borg?
hvílík undrun oss
áfalla mundi,
sjóla forn-frægstann,
ef fengjum sjá?
Seig, ó Sjáandi!
siklíngs beinum,
at hann flýi frá
fylsni dymmu,

ok endrvakinn
fyrir orri sjón
um land lifandi
hjá lýð gángi!
en þú við þessu
þegir sem steinn!

Bjóð þá, ok seg svo:
sæti þínu
slýt þik fornu frá
ok flyt þinn straum,
Jórdan! jafnt kríngum
Jerúsalem;
vertu vörn hennar
vegligu turnum,
vend þèr síðan við,
ok vellt bylgjum
gagngjört aptr
í Genezareth!

Eðr seg: Síon!
set þik hærra,
nem þèr nýann stað,
ok nær himni,
á topp upphafinn
Olíu fjalls,
svo þèr öld, undir
yfrit stórum
í kríng köstuðum
kynja skugga,
undri sik yfir,
nær eptir horfir!

Þú enn við þessu
þegir sem steinn!
Heródes við hann
hermandi þetta
vissi víst eigi
við hvörn mælti!

Hulit var honum,
at hóls týranni
óttaligs einn,
ok með ofríki
um koll kastaðra
kóngaríkja
sè ekkert annat
enn uppþeytt ryk
ok fis fjúkanda
fyrir honum,
er hann nú átti
orðastað við!

Hrópar Heródes
til hans aptr:
ok þú andsvarar
ei at heldr;
tillit eitt tiggja,
tignarfullt þó,
Guðmaðr gaf
enum grimmlynda,
er hann í öllu
öfugt virðti!

Hann meinti mundi
Messías sik
foraktsfullr
fyrirlíta!
gramdist grams hugr,
með grimd heitri,
stökk hann upp styggr
af stóli sínum!

Kaiphas kendi
konúngs reiði,
greip hann meðan gafst
grimdar stund þá,
ok í því sama
augabragði
til orða tók
við tiggja þannig:

Sýnir þú ok sèr
sjálfr gjörla,
hvað fyri segg sè,
Sjáandi þessi,
sjá hljóðlaus hýmdi
hann fyri þèr,
er þú óskaðir
af honum teikna!

Getr hann gjört þau?
grannvitr svo
ætlar alþýða,
ok aðrir fleiri
veikir at viti
meðal vors skara
ala einnegin
innbyrlíng þá!

Hann er setr sik
móti sáttmálans
ok móti Mósis
miklu lögum
djarfr ok dælskr
í dular ham,
opt viðvöruðum
með villutöfrum,
getr sá Guði
verit gjörðr frá
til vor með teiknum
trúverðugum?

Vondslig vanhelgun
vors sáttmála,
Sína sælufjall
folgit í reik,
á því auglýstar
ógnanir Drottins,
skruggu skarkali,
skelfandi lúðr,
Móses í myrkri
mjög titranda,
undir feiknum fjalls!
fyrir allt þetta
kýs at koma fram
Kaiphas hefnd!

En hann auk þessa
með upphlaups girni
sókt hefir hárri
eptir hilmis tign,
dróg at sèr drjúga
drótt af Júdum,
ok hèldt innreið
með yfirlæti,
jafnt sem jöfur
í Jerúsalem,
midt í fylgdar flokks
fagnaðar saung!

Breiddu þeir á braut
blómgaðann pálma,
fleygðu fyrir hann
fötum sínum;
svo hátt hrópuðu
hósanna þeir,
hósanna Davíds
helgum Syni,
at Síons helg hæð
af hljómi glumdi!

Kvað kát María
Kóngi hósanna,
ok bað blessunar
blessuðum Guðs!
sjá, sjá, hann kemr
í sjálfs nafni
Drottins dýrmætu!
dreifið pálmum,
honum hósanna
hilmir vorum,
í hæstum hæðum
hósanna þeim!

Sakir dáð-dýrra
Davíds beina!
skjöldúngs skekinnar
fyri skuld grafar,
hismis af holdi
Heródis mikla,
fyr föður þíns
hin fúnu bein,
hefn, ó Heródes,
helgi-spella!

Svo fast sem Phílo
fjandskapar ól
kul til Kaípham,
kætis vegna
brosti hann nú blídt
móti biskupi,
en helzt til háðgjarn
Heródes nú
bar fram boð þetta
af beru spotti!

Færið hann í fat
þat hið fann-hvíta,
hvörju sveipa sik
seggir rómverskir,
nær vígjast vilja
til verðugleiks síns!
leggr Pílatus
ljósann dóm á!
sá hinn vísi veit
verðskuldun gjörla!

Sá mun víst vígja
til vísis hann;
sá mun hann helga
til hósanna,
prýða með pálmum
ok með purpura,
ok krýna kórónu
konúngligri!
Hann at svo sögðu
sína leið gekk;
hirðmenn höfðíngjans
hæddu Jesúm,
ok færðu fatnað
fann-hvítann í,
sendi sjóli hann
svo til baka!
En fólks aðsúgr
ógnarligr
hafði harla mjög
við hópinn bæzt,
af þeim sem þángat
þá sèr flyktu
til helgi-halda
hátíðligra,
sá ótals urmull
allr í senn
fyllti flokk þann
ok fylgði Jesú!
Heil borg hljómaði
hríngínn í kríng,
tóku topp-háir
turnar undir,
er gekk fram grúi
Gyðíngalands!
Philo sá þann sæg,
enn sízt ægðu
honum hópar þeir
nè háreisti!
þannig sèr sjálfr
í sævar-för
hár skipshöfðíngi
haf at brúsa,
ok kætist komu
yfir kaupfara
breið-búkaðra
með bísna farmi!
Philo verðr var,
at væri deilt
fólkit í flokka;
því fjöld þúsunda
í her hèr sènum
heiðraði Jesúm,
en honum ekkert
ógraði slíkt!
Af því ærugirnd
óstjórnlig hann
eins ok ægis brim
upp lèt geisa,
ok sik helzt til hátt
hóf yfir ský,
svo hún svim hrepti
svaðilfara!
Olmann umkríngðu
ódáðamann
vildustu vinir,
er hann vel treysti,
af fylgi flokki
Pharisæanna!
flug-orð fleiprar hann
fljót til þeirra,
ok síðan sendir
samstundis þá,
útí urmul fólks
ofhvikulann,
skiptu þeir sèr skjótt
meðal skaranna!
þannig frá fjandmanns
flýtr ólifjan
banvæns bikar
ok beiskt eitr,
en daprann dauða
dropi þess hvör
upptendrar í þeim,
sem afbergir!
Voru vinir hans
vakrir í rás,
ok mæltu mengi
miklar tölur,
sèrhvör eptir síns
sinnis beiskju,

ok sem átti hvör
orðfæri til,
sem kunst klerkskapar
kæn til mundi
stríð eða stillt
ens stránga ok milda,
mjög svo marg-týngðir
voru mælendr!
„Haldit þèr at hann
hafi gjört teikn?
hár bauð Heróðes
honum þetta,
en hann öldúngis
ekkert megnar;
þèr sáuð sjálfir·
at hann svarlaus stóð!
Festa tignir trú
til hans nokkra,
eðr áheitíng
Israels feðr?
þeim ek ílls arna,
sem í Abraham
lofsverðann lagði
löstunar orð,
sem lengi, lengi
um lífs tíð alla
virðta lögmál vort
hefir vanhelgat!
Sjá, hann sárt klagar
sjálfs Guðs prestr!
hefir þá Herrann
híngat til vor
útsendt einn af sèr
yfirgèfinn?
en hann efalaust
yfirgaf þennann,
hvörn þèr hèr sjáið
hlekkjum bundinn!
Dæma heiðnir hann
þó helzt til mildt,
því ei full-þekkja
þann hinn haldna;
bindist at biðja
bandíngja' í dag!
því máske menn
enir mein-blindu,
sem undrast yfir
athöfnum hans,
forstjórann frelsis
fyrir hann beiddu!
Ok þèr, ef þá
hefðuð þar til hvatt,
gjörðust svo glæps
ok gjalda sekir;
ó, þèr menn eruð
ættin helga;
yðr mest í mun
musterit skín!
blossa beint í hæð
brennifórnir
upp frá ölturum
yðar vegna!
Hefnið, svo hrópar
hátt til yðar
spámanns dáit dupt;
þan en dýrmætu
Abrahams yðr
áskora bein!
upp! hefjist handa,
látit hefnt verða
ens mesta mætra
meðal feðra!"
Svo dróg marg-mennit
með sèr í fylgd
fláráðr flokkr
til fólsku svarinn;
hèr þrifu þúsund
þúsund með sèr;
allfáir urðu
efablandnir,
ok þó enn færri
efendr dygðar
trygð ok trúmennsku,
sèm tækjn í akt!
Þannig standa stök
stóreflis trè
sèr ok sundrlaus
ceðrus viðar,
á bustum bifuð
hera þau ský;

nær niðrslegin
nöktum liggr,
fyri fár-stormi,
fjallgörðum á
margra mílna lengð
mikill skógr!
Hafði hirðstjórinn
heimugliga,
hann svo heldr lýð
hrærðann fengi,
nafnkendann nokkurn
fyri níðíngsverk
bandíngja boðit
at birta' á þíngi,
þeim frekar fregnir
höfðu frá gengit,
fyrr enn fánginn varð,
um flest hèröð!
Komu kennimenn
ok hinn kappfulli
almúgans urmull
aptr til þíngs;
sem þeir gengu gegnt
Gabbata stræti,
var fánginn færðr
svo hann frammi stóð
á hæð andspænis
augum þeirra!
Sín eldhvöss augu
lèt hann umhverfis,
ok þó útá hlið
ýgldr gana,
ok hèldt hvæsanda
hjá sèr niðri,
af grimd uppbólginn,
andardrætti!
Engin yðrun,
heldr einber grimd
hnarreistann hnakka
hnepti bófa;
svo stóð hann sveigðr
ok svalg froðu,
sem heiptin hleypti
fram af hans vörum;
hlekkir hríngluðu
við hraustann arm!
Svo lèt Pontíus
Pílatus nú
griðagjafa vorn
guðdómligann
til hægri hliðar
hjá sèr standa;
morðínginn mundi
mann þenna sjá
móts við sik settann
í serk hvítum;
eflaust annar hvör
átti at deya!
Gekk ígegnum hann
glóandi vafi,
ok sveið hans sinni
með sárum loga,
hjartat barði brjóst,
svo berla sást,
þannig hýmdi hann
á hlið vinstri.
Hèrnæst til hægri
handar bendti
heiðinn hirðstjóri
hermandi svo:
þèr hafið þenna
til þíngs færðann,
ok kært í klögun,
at keisaranum
fólkit fárliga
fráhverft gjöri!
Hefir ek hann nú
hèr fyri yðr
augljóst yfirheyrt,
en einkis þess,
sem þèr framfærið,
fundit sekann,
eigi heldr hann
fyrir Heróðe
varð at sagðri sök
sannr fundinn;
ei skal af mèr leyft
at hann deyi!
En með því mèr
er í mun at fá

heiðraða hátíð
í hönd farandi
með fullu frelsi
fánga nokkurs,
læt ek slá hann slög
ok sleppi honum!
  En skírri skynsemd
skeitið þèr eigi!
hvörn — segið sjálfir,
ok samt æðið —
hvörn skal ek heldr
yðr heim gefa
beggja bandíngja,
Barrabam, eðr
Nazarets Jesúm,
er nefnist Smurðr?
  Pílato próðrar
Portíu nú
aðbarst orðsendíng
innu sinnar:
„sá er sannliga,
sem þú dæmir,
rèttlátr, góðgjarn
ok guðdómligr!
forðast hinn fróma
þú at fordæma!
  Hefir hèr í dag
fyrir hans sakir
mik í svefni sýn
sèrliga skelft!"
honum sagði svo
sendi-þerna!
  Fljóðit flutti boð
fólkið þagði,
þat stóð þegjandi
þá ok lengr!
felmtraði Phílo
fjölmennis kyrð!
þá hinir honum
til handa gengnu
komu' ok kunngjörðu
at kyrða-spilli
ýmsir enn nú
meðal almúgans
hittust hèr ok þar
helzt oftrúir!
  Einnig álengðar
ángrsamt taut
í hálfum hljóðum
hófst nú þeirra
manna, sem mundu
mállausa sik,
bæklaða, blinda,
ok í burt dána;
þeir er nú náðu
nefna Jesúm
meinlausann, mildann
ok manna-vin!
  En nöldr nógra,
sem nær vóru,
tók án tafar
fyri taut þeirra;
svo veldr vindr,
at verðr hróp
barns sem björg skortir
í breiðum skógi
at óm einberum,
svo ei' gætir!
  Eins í hljóm hljaðna
hyggins manns verk
vel gjörð ok vönduð
fyri voldugra
athöfnum unnum
með yfirlæti,
fánýtri fordild
ok feikna bramli!
  Phílo vissi vel
voða síns ráðs,
hann sá hvarfyrir
hafði settann
Pílatus prestum
hinn prettvísasta
morðíngja, mestann
meðal allra
spillvirkja, í spuru,
móts við Spámanninn!
þó skildi þar nú
at því sinni
hann við hirðstjórann
með háum svip!

I hug hróðugr
hann reiddi sik
fast á fjötur þau
fángandi ræðu,
hvarmeð hann fólkit
hugðist binda,
gekk hann svo um gólf
fram á Gabbata,
undrunar efni
alþýðu sinnar!
heiðínginn horfði
frá háum stól
hálf-reiðu háði
honum eptir!

Fólkinu framgjarn
Phílo bendir,
ok þegar þagnar
þat fyrir honum,
hefir hann á því
hvörvetna sjón,
tekr til orða,
ok talar þannig:

„Oðfluga at eins
get ek ávarpat
orðum yðr nú,
Israels menn!
þèr víst þekkið mik;
þann ek hata,
sem Mósen mikla
metr at öngvu!

Ok beiskrar bið ek
bölvunar þeim,
sem með framferði
formælir honum,
þó at þat sem er
þvert á móti
hins sama segi
sætari varir!

Með þessum þánka
þannig sýni
ek í dag yðr
ógæfu ok heill!
kjósið Barrabam,
þèr börn Jakobs! —
æskið annars hvörs —
eða Jesúm!

Víst er Barrabas,
sem berlâ vitið,
ek veit þat einnig
ódáðamadr,
vel var Pílato
vitanligt þat!

Aldrei hefði hann
hèr fyrir yðr
sett fram syndara
til samvals þann,
nema vanvirðu
vildi gjörða
í því yðr,
at aumka Jesúm,
sá er með svikum
eptir sakleysi
apar, ok svo hèr
æfandi töfra!

Tilgáng Pílati
tefst ek ei við!
vèr erum unnir,
allir þegjum!
þó fær ei þagat
um þat Phílo,
at þèr ástaddir
afgrunns þremi,
Israels arfar!
eruð af svim,
máske sokknir senn,
svo mjög ærðir,
af sjálfum yðr
útveljið tjón!

Ei án ángistar
ek um slíkar
hugrannir ræði,
en ek ræði þó!
skal sona sonur
síðr enn ekki
frægustu feðra
falla svo djúpt!

Já, þessi Jesús,
Júda mengi!
ó hvað ek hefði
yðr at segja

margt ok mikit,
ef ek misverk hans
öll fyrir yðr
útmála skyldi!

Ek sagði ok sýndi
þeirra svörtu mynd
fundi fyrir
yðar forstjóra,
reið þá rètt líf hans
á ræðu minni;
dæmdu drottnar hann
dauða sekann!
dreiri hefði hans
þá um heilaga
strax í stað runnit
steina niðr,
enn oss er ei leyfð
aflífun neins!

At fyrir yðr
ek hèr minnist
einúngis einnrar
ódáðar hans
af þúsund þeirra
vil ek þessarar
í áheyrn yðar
at eins gèta!

Af þel-grimd þrútinn
þessi Jesús
veit vissuliga
valdit í Róm,
þá er hefir hann
heilann mælir
öldúngis uppfyllt
ofstopa síns,
liði miklu með,
mengi voru
til at kollkasta
koma muni!

Þar stóð hjá honum
hrínginn í kríng
heill af heyrenda
her þúsundum,
er hann umsátur
orrar borgar,
reist af Rómverjum,
fèkk rausat um,
ok um hrun hennar
fyrir hernaði,
ok dýrt hús Drottins
at dupti vorðit!

Þar at dáðust þeir
þúngri blindni
sinnis ok sálar
sigraðir af
en þó aumkaðist
ei hið minnsta
hann yfir yðar
óhamíngju!

Sèr hann berla böl
borgarinnar
ok veit sik einn
vera orsök til
nálægrar neyðar
hana nýstandi,
ok þó athæfi
yðkar sama!

Guðs hið helga hús
hann sèr í reik,
með því Moría
mikla sökkr,
án þess at aptr
uppreisi sik;
með musterinu
hve sik mjög lægja
fræg forlíkunar
fórn-ölturu,
sèr hann ok segir,
en sinnir lítt!

Hann sèr harmagrát
hárrar borgar,
æ! í dupt dottna
drottníngu staða,
ok klædda í ösku
fyrir allra sjón,
ríkdóm' ruplaða,
rænda börnum;
síðasta sinni
sèð af dögum
liggja þau liðin,
ok lögð í fúa!

En þeim sem ángist
ok ólmt húngr
ei hafði enn nú
í hrundit gröf,
þá grípa grimmar
greipar hermanna,
ok sundrsaxa
þeirra sárveiku
bein, við brotinnar
borgar rústir!
Æ! hann sèr þat svo!
syrgir þan eingi
faðir, því hann fèll
fyrr í stríði,
eingi mild móðir,
því at mæðurnar
voru fyri vesöld
ok volæði
laungu, já laungu
liðnar á burt!
þetta sèr hann svo,
en sízt aumkar!"
þegar hann hætti
hrynu prestar
hinir aðrir upp,
orðum Phílóns
samsinnúngu
fyri sæg þjóðar,
þurfti þó ekki
þvílíkrar grimdar
eðr ofstækis
til at ávinna
hvikulum bilbug
brjóstum þeirra,
áðr alráðnum
af egin-voudsku!
Pílatus þaunkum
pressaðr sat;
frèttir hann sem fyrr:
framsegið gjörla
hvörn ek heldr skal
enna hèr stöddu
yðr frá fjötrum
frjálsann gefa!
Barrabam! var brádt
með bistum ofsa
upphrynit aptr
af almúganum;
svo allir englar,
sem umkríng Jesúm
stóðu, fyri stugg
stórum titrandi
ásjónum óðar'
undansnèru!
hátt stèg: Barrabas!
beljat í lopt;
Reif sik með reiði
sá hinn rómverski
útaf yfirtaks
undrun djúpri,
ok hèr næst hrópar:
hvað skal ek þá,
greinið Gyðíngar!
gjöra við Jesúm?
hvað skal hann, yðar
heitinn Smurði?
þeir steðja, stökkva,
stappa ok hrópa:
lát hann harðann hátt
hengjast á kross!
rèð sèr at reyna
sá hinn rómverski
enn einusinni
ofsa þeirra,
ef mýkja mætti,
mælandi svo:
en hvað íllt hefir
unnit þessi?
ónei, sízt er sá
sekr dauða!
þarvið urðu þeir
þrefaldt verri,
af grimd grenjandi,
sem gráðug ljón;
þó tók yfir allt
org-rómr presta,
er stóðu stamandi
á sterkum hljóðum,
næsta ná-fölir
nýstandi tönnum,

augum ólgðu,
sem eldr væru;
krossfest, krossfestu!
kölluðu þeir!
Gjörvöll Síon gall
viðr glaum þeirra,
henni samsúngu
salir Móríu
auðir nú
ok yfirgefnir
topp-hárra turna
tók undir borg;
rifu rómar upp
ryk ok mistr!
Pílatus allt of
óttasleginn
sá nú at sín var
fyri síkn Jesú
öll til ónýtis
umsýslan gjörð,
setr hann sèr þá
sinnaskipti.
Rètti ok ráðvendni
Rómverja gegn
hugfestir hann sèr,
hvað sem gyldi,
áfellis úrskurð
yfir at leggja,
þann sem þó vissi,
ok svo þráliga
hafði sjálfr sagt
at saklaus væri!
Skelfðr hafði hann
háum dómstóli
áðr af
ofanstígit,
en á hann aptr
uppstígr nú,
ok skipar skjótt
hvað skuli gjöra!
Þá skundar þaðan
þènari nokkr,
en kom brádt aptr
ok sèr gegnum
þvera þyrpíngu
þrengði presta;
sá hafði í hendi,
hraðandi sèr,
ker eitt af kopar
korintiskum;
klár lindar lögur
með lit silfrs
var í vatns-fati
vönduðu því!
Þessu heldr hann
fyri hirðstjóra,
en hann fíngri fljótt
til fólks bendti,
þat stóð ok þagði,
ok þángat leit;
hradt var hreinum lög
hellt af keri!
Pílatus þvær þá
þar fyri lýð
hendr með hætti
hátíðligum!
Engill sá sami,
sem í Gósen
forðum fram hjá gekk
fólks híbýlum,
ok þeim vægð veitti,
sem voru merkt
enna líflátnu
lamba blóði,
sveif nú of svæði
ok sveitir Júda,
skrýddr með skaða,
ok skelfíngum Guðs,
svo drótt dáð-snauða
til dóms vígði!
En hans engil-sjón
yfirgaf sízt
fólks Friðþægjandans
föðurs augu,
gat guðdómligum
glöggvat í þeim
eitt tortíníngu
tár viðblandat;
Ok nú upphóf þar
engill dauða

orð þau fælufull
formælíngar
sem ægaun úrskurð
al-dómara
hvervetna himins
gjöra heyrn kunnaun,
þegar þjóðirnar
þar til eru
frjóvar, at fá sinn
fullkomna dóm!
Sem hauðrs hristíng
hræðilig mjög
spáir fyrifram
fólki dauða,
eins var engils raust
ógrlig sú,
hann útgróf úrskurð
á eyr-töblur,
at hann svo upp
fyrir aldæmir
sjálfann, til sjónar
settr yrði!
Pílatus þá þeim
þènara gaf
boð með bendíngu,
burt at gánga;
ok svo eptir þat
upphrópaðann
lèt fyri fólki
framburð þennann:
Abyrgist einir,
æðandi skarar!
sjálfir sök þessa;
sjáið þèr til!
saklaus em ek af,
þó at úthelli
ránglátra reiði
rèttláts blóði!
hrópar hann niðr
til hinna svo!
Þá í sama sinn
sínu frá þeim
Israels engill
andliti snèri;
skalf hann skelkaðr
ok skipti lit
ok þá yfirgaf
upp frá þessu.
Sjálfir yfir sèr
sögðu þeir dóm,
kallandi af kappi:
komi dreiri
hans yfir oss
ok vor afkvæmi!
ádatt afar-bleik,
at því mæltu,
ógn með ofboði,
eyðilig kyrð,
glíkt sem hún grúfir
kríngum grafirnar!
Hrollur í huga
hèrmeð fylgdi,
ok áþekk ángist
eins, þegar deyr,
en við ókjör þau
öll hin miklu
var þó alls engin
yðrun blandin!
Viðvèkst Pílatus
til vinstri ok hægri
boð birtandi;
var þá burtfærðr
jafnsnart Jesús
fyri Júda sjón
fram í fordyrit,
svo flengðr yrði!
Barrabas frjáls fór
til fólks leiddr!
Nú sem Barrabas
böndum sviptr
fann sik frjálsann,
ok framar eigi
sèr um húð heyrði
hlekki glamra,
hristir hann sik
ok úr hálsi sèr
upprekr öskur
ofsa kæti!
Stendr stein-dumbi,
stökkur, hleypr,

starir, ok stendr
strax aptr við;
fólkit fælist hann,
flýr til baka,
ok nötrar, nær sem
nálægt kemr!
Svo skelfist skálkr
eptir skammar-verk
fyri fólsku,
sem framit hafði!
Philo þókti þó
at því gaman,
hann sá, ok hló at,
er hinn svo lèt!
Gjarnan hefði hann
undir hýðíngu
Frelsarann framleiðt
ok feginn orðit;
at dóm-húss dyrum
dreissugr hann
töllti til ok frá,
tídt var honum
Messíam meiddann
at meiga sjá.
Stundum stóð hann þar,
ok hið stríðasta
ángistar óp hans
ok andvarpanir,
hefði glaðr heyrt,
haldandi þat
sèr hið sætæsta
sigr-hróss efni!
En þú, ó Síons
óðar gyðja!
Þú, sem Griðgjafa
guðdómligum
hefir af undit
angliti nú!
sýng um hans hörðu
húðstrýkíngu,
reir, ok hinn rauða
ræsis purpura,
kveð um krýníng hans
ok kórónu,
en þó einúngis
með ángrs raust!
Var nú þar af vakt
vor umkríngðr
Messías, margra
mann-hraks sálna,
er þá með ofsa
afklæddu hann;
svo strýkr stormr
á storð þurri
af eik einstakri
öll hennar blöð,
þar sem enginn er
uppsprettu lækr,
far-móðs ferðamanns
full hugar ósk!
Þrifu þeir hann fram
þar at föstum,
stólpa, sem hann strax
var strengðr við;
blóð vall ákaft út
undan svipum!
ó þú, Elóa!
á þat horfðir,
ok hnègst á hauðr
af himni niðr!
Þarnæst þeir hann,
at þessu búnu,
í kyrtil klæddu,
sem kóng, purpura,
rèttu honum reir
fyri ríkis völ,
þrykktu þar at auk
þyrni-kórónu
fast á höfuð hans;
hennar undan
beittum broddum
blóð útstreymdi.
En hann Elóa,
undir þessu
skammar-skæðasta
skálka spotti,
dýr uppaf dupti,
sem dauðligr einn,
tignaði trúrri
meðr tilbeiðslu!

þá — en við þetta
þróttlaus hnígr
hönd mín hrædd
af hörpu niðr!
orkar ek eigi
allar píslir
Arfans eylífa
um at syngja!
Svo sá *Pílatus*
hann sárt píndann,
at hann ásetti
með aumkun sinni,
sem hann fann hjá sèr
at hræra lýð
til viðriknúnar,
ef verða mætti!
Bendandi bauð hann
burt at gánga
með sèr mildustum
Messía þá,
ok gekk sem greiðast
útá Gabbatha;
Jesús jafnsnart
eptir jarli fór,
þó mjög svo mæddr
ok mátt-þrota!
litu þeir lángt frá
Lausnarann koma!
Brádt at baki sèr
bendti enn heiðni,
hrópandi hátt
til hinna skara:
ek hann útleiði,
Israels menn!
svo þèr sjáið,
at ek sök öngva
finn í fari hans
fjörláts verða!
Nú kom Jesús nær,
níðíngar sáu,
hvörnig hann gekk at
heiðnum dómstóli
af keskni klæddr
kóngs purpura,
krýndr kórónu
klýndri í blóði!
Þannig stóð hann þar,
ok þá hrópar
heiðinn hirðstjóri
til hinna niðr
meðr mildri raust
meðaumkunar,
segjandi: sjáið
sár-aumann mann!
En þá í því
er hann þat mælti,
umbauð englum þeim
Endrlausnarinn,
er nú umkríng hann
af ógn skulfu,
eigi með orðum,
heldr andliti
sjálfs hans sinnis boð
sáu þeir í,
hans viðvíkjandi
vildar sveinum,
ok þar með öðrum
útvöldum hans!
Himins huggunir
heimuglegustu,
ánægja í eymd
voru inntak þess:
nær mèr blóðbenjar
blæða á krossi,
nær ek með öllu
örendr verð,
nær ek lík ligg
meðal liðinna!
Hirðstjórinn hafði
fyri hvörn mun girnzt
at mýkja mætti
mengis hjörtu,
en þat auglýsti
ódt, hvörsu var
sem tinna tómt
af tilfinníngu;
Með háum hljóðum
hrópuðu þeir,
ok köll kappfullra
kennimanna

tóku yfir öll
alþýðunnar;
aptr ok aptr
æptu þeir, kross!

Ræddi með reiði
sá hinn rómverski:
takið þèr hann þá,
því ek öngva
fæ kent hans klæki;
krossfestið hann!
hann þeim hreitti fram
hraðfleygum orðum,
ok sèr fok-fyrrtr
frá þeim snèri!

Harðt hljóp Kaíphas,
honum náði,
ok hermdi: hiklaust
hafa, Pílate!
þegar dæmdann dólg
vor dýru lög,
ok hann eptir þeim
á at deya,
því hann Son Guðs sik
hefir sjálfan gjört!

En nær eð nefndann
nú Son guða
heiðinginn heyrði,
hann þegar skalf;
heimti Jesúm hraðt
hann til baka,
varð ærit órór
ok aðspyr nú:
hvaðan hann væri?
en hèr til öngvn
góðr Guðmaðr
gegndi svari!

Þá ræddi reiðr
sá hinn rómverski:
viltu víst eigi
við mik tala?
veizt þú ekki vel,
at ek vald hefi
til at lífláta
ok at leysa þik?

Ekkert ættir þú
yfir mèr vald —
jafnsnart jarlinum
Jesús svarar, —
utan at ofan
þess unnt væri,
þó er enn þýngri
þessara sök,
er mik áklaga
ok ofrseldu!"

Pílatus presta
prettvísra til
enn á ný
aptr snèri;
sáu seggir hann
til sín koma,
ok fengu formerkt
af fasi ok svip
ákaft uppvægðum
örsökina,
hví hann svo hvirfi
hvatt til baka!

Hrópa þegar hátt
móti honum þeir:
svo framt þessum þú-
enum þverbrotna
lausn, ó Pílate!
lætr veitta,
kærleik keisarans
kastar þú burt;
því hvör sjálfan sik
sjóla gjörir
æfir kergju kapp
gegn keisaranum.

Rammliga reiddist
nú hinn rómverski,
ok sem hann annat
ypparligra
fann sik at fremja
fyrirtæki
eðr íráðast
ofsmáann til,
hann þeim spott ok spè
sparar eigi.

En þeir allir samt
umkríngðu Jesúm,
ok með sigr-óps
ofsa kæti
hann undir líflát
leiddu nú burt;
en leyniliga
læddist þaðan
rómverskt ragmenni
ok rann til hallar!

---

Hèr hefr

## áttundu bók Messías.

Þú sem á Síon
sást meðal Guðs
helgra saungvara
enn heilagasta,
ok uppfræðíngar
af honum nauzt,
er af anda saung
eylífum lærðr,
þann er yfirgaf
sá hinn alvaldi
dómari' í dauða,
dáinna mestann;
Síons menta mær!
mik aptr fræð!
Himneska hluti
hefir þú numit!
kom ok haldt hræddum
í hönd, sem titrar,
þessum þèr vígða;
þú einnig skjálf!
kom ok kærliga
í ens krossfesta
lát mik leiddann inn
leyndardóms nótt!
Hremmir mik hræðsla
helgidómsins;
þessa, sem þar deyr,
þráir ek sjón!
mjög tíðir mik
at meiga líta
brostin brúna ljós,
sem ei bifast hans,
á köldum kinnum
ok í klárustum
allra blóð-benja
benjum hans dauða!
Þik ljóst at líta
lángar mik til,
friðfæranda blóð
forlíkunar!
honum huèg niðr —
honum blæddi —
honum sèg höfuð —
helblóð streymdi,
höfuð hans í nótt
heilagasta sökk!
þá þraut Guðmanni
þróttr túngu!
Ut frá augliti
aldæmis flaug —
eygði naumast einn
ódauðligr —
ofan Elóa
eptir himnum;
svo var flýti-för
furðanlig hans!
Hèldt en vinstri hönd
himins kórónu;
hægri hríng-sveiflar
her-básúnu;
gall hún geisi hátt,
svo glumdi við

heimr hvör eina
í hríng-rás sinni,
ok næstr eptir
þann hinn óskapta
upphrópar engill
um alla himna!
Haldit heilagt,
ok hátt blossandi
tignar tilbeiðslu
tendri hið mikla
sáttmálans sabbat
frá sólum upp,
allt at dómarans
æðstum tróni!
Strax en stórvega
stund er komin!
haldið heilagt!
sú en húmfulla
nætur niða stund
nú er komin!
sjáið, færa fram
fórnina þeir!
Allir umhverfis
í því sama
heyrðu himnarnir
hrópandans raust;
ok þegar þustu
þyrpíngar stórar
utan að honum
allstaðar frá,
um bil bráðustu
bendínga tveggja
flaug hann gagngjört
yfir Golgata.
Með feikna flýti
flykktust til hans
öllumegin at
englar jarðar;
komu þeir í kríng,
því hann kallaði,
lukti leiptrandi
ljóma baugr,
sem af þeim útgekk,
sik um Elóam!
Uthófst Elóa
af þeim baugi,
ok á Golgatha
gaf sik niðr
með hefð hátíðar,
ok á hæð þar stóð!
þrisvar hneigir hann
at hálsins dupti
auðmjúkr andlit
ok ákallandi!
Hèrnæst hóf sik upp
hann at nýu;
arm sinn yfir háls
útþanninn lèt,
ok á Messíam
ofan horfði,
er nú álengðar
aftökustaðar
gekk til með grúa
Gyðínga lýðs,
orðinn örmagna
undir krossi,
ok hörðum helmsdómi
honum þýngra!
Svo sá Elóa
honum sár-þjakat;
stóð hann þá staðkyrr,
ok sterkum armi
yfir hálsi hèlt
hátt á lopti,
ok tók enn framar
til orða svo:
Heyrið mèr himnar,
ok hátt dansið!
heyr þú, helvíti,
hræðst ok titra!
í Föðurs nafni,
sem friðþægjast á,
ok í nafni þess,
sem nú kemr,
at fá forlíkat
fólk með blóði!
Þarnæst í nafni
náðar anda,
sem af syndurum
sannhelga skapar.

ok af ránglátum
rèttláta menn;
þú í þrefüldu
þessu nafni,
vert af mèr vígðr
víg-staðr, fjall!
At hinu eylífi
á þèr líði
sjálfs Guðs Sonur
sárann dauða,
ei sem óvígðum
aftöku-stað;
undir andlát hans
ek þik helga!
heilagr, heilagr,
heilagr er
sá sem verðr
ok sem mun vera!
Þannig var vígsla
vegligs Elóæ!
hann fèll undrun í
allra dýpstul
glansinn gjörvallr
gjörðist rökkur;
svo fyri furðu
frá sèr numinn
enn ódauðligi
Elóa varð!
En hann stóð orðlaus
eigi lengr,
heldr hneigði djúpt
hneptar saman
mundir, mynduðum
fyri manni af jörð,
er at neðan nú
niðrþrykkjandi
kross-byrðar kúgun
kvaldist undir!
Ok sem hann sá
hvörsu sárliga
reikaði rekinn
undir rambanda
kross-bákni Kristr,
kastaði sèr
á sitt Elóa
andlit niðr,
með sèr mælandi
mjög heita bæn:
O þú, altari
atfram komni,
dægilignstum
til at deya þar
dauðdaga, ok allra
dásamlignstum!
þú mesti' í manndóm'
mikli skapari!
samborinn Sonur
ens sama kyns,
sem liðit lendir
loks í gröfum!
Þú barn Betlehems
barns tárum grèzt!
gólum vèr göfgun,
ok gleði saungva;
lítilækkaðann
lèztu þik svo,
at á Golgatha
gafst þik niðr;
enn dýpri undrun
orðlaus verðr,
þèr at fórufæra
fagnaðar dans!
Mögur, Guðs mögur
ok móður fæddrar,
óskapaðr einn!
endanligra
enginn framflutti
fegin-saung þá!
frægsti frumkvöðull
framkvæmandi
allt hið ypparsta,
undarligasta,
ok ágætasta,
allt hið bezta,
ok sem er ekkert
nema einskær dýrð!
Dýrsti Guðmaðr,
djúpt tilbeðni!
ó þú algjörligs
endr-reisir

sakleysis, sem er
sjálfum Guði
þægt ok þókknanligt!
þú ena dauðu,
almáttugr einn,
sem upp fær reist!
Einu sem úfmáir
eylífann dauða!
alheims eindæmir,
eðr sem menn
þínir þik
þráfellt nefna,
þú Lamb án lýta,
sem líðr hel!
O! virðst ákall mitt
auðmjúkt heyra!
ó, merk nú engils
endanligs raust
þessa, sem þik
uppaf því dupti
biðr, sem blóð þitt
blæða mun á!
Augu þín andláts
þegar afl sprengir,
ok dauðans dynur
döpur bleikja
yfir þik allann,
þú hinn offraði!
himnanna himnar
hræddir flýa,
at eins Jehóva,
ei nema hann,
fær þik fullri sjón
ok fastri litit!
Styrk mik þeirri þá
útaf þúngri nótt,
í hvörri lofligt
líf þitt sofnar!
veit mèr, þú mikli!
sem mest allra
fremr furðuverk,
fulltíngi þá!
Svo at ek eigi
aðstoðarlaus,
eigi ofskelfðr,
nè aflvana
til grunna gángi
und' grafir jarðar!
ok nær öll sköpun
umhverfis mik
ráfar sem í reik
ok rökkur-skýmu,
hvörsu svipul sem
mèr sýn verðr,
ek þik ei sjái
enda þitt líf!
Sjá, þú sígr at
Sonarins dauði!
sjá, þú nálgast nú
ná-blundr hans!
þú munt friðþægt fá
fólks mergð alla,
frá enum fyrsta,
sem feigr varð,
til Adams arfa
ens allra hinnsta,
hvörjum frá sèr fljótt
fersku lífi
básúna at blása
býðr upprisu!
Allar þessar þú
þúsundir munt
forlíkaðar fá
fullkomliga,
nær þú eitt sinn enn
orðinn skapari,
hrópar fyri fjöld:
þat er fullkomnat!
O! dauði, dauði,
hins dýrsta Sonar!
ó ens fórufærða
fegursta blóð!
sælar sèuð þèr
sálir frelstu!
þær koma, keppast,
kátar dansa;
mjög skært skínandi
er skrúði þeirra,
í ens líllátna
laugaðr blóði!

Eptir þat upphóf
Elóa sik,
ok nú Golgatha
gjörvallt kríngum
öllum útdreift lèt
englum jarðir;
hópaðist her sá
um hángandi ský,
ok svo birgðu bök
breiðra fjalla!
Sumir sveimuðu
yfir ceðrus-trjám,
ok þrumdu þar
í þaunkum djúpum,
vindgum topp-treflum
tengðir þeirra,
sem á sjónar hvol
hann sjálfr stóð
mikils musteris
miðt yfir hæðum!
Hvarflaði her sá
harla vídt út,
þjónandi þegnar
þróttkir næsta,
ok ógnarligir
hinnar almáttku
Föðurs forsjónar,
sem fjærri drottnar!
Dauðans ok dómsins
dýrir englar,
ok mjög mektugir
manna verndendr,
kjörnir kristinna
komenda verðir,
ok, því at urðu
englar blóðvotta,
þeir fyrstir þaðra
þess viðr tróu,
hvörjum sinn helgar
í heli dreira
með pálma prýddr
píslarvottr!
Göfgur Gabriel,
þann er Guðs Sonur
frá sèr til sólar
sendann hafði
með fljótu flugi,
þat er fagurt lèt,
sem væri saungr
silfrstrengja,
skaut sèr skjótt niðr
á skært musteri,
stóð frammi fyrir
feðra sálum,
ok tók at tala
til þeirra svo:
Færið, ó feðr
foldar manna!
yðr nokkuð nær!
nú þèr hann sjáið —
titrar tígins hönd,
er hann tilbendti —
sátta semjandinu
fyri syndir heíms
fetar at fjalli,
þar ek frambendi,
hafandi' á herðum
sinn harða kross!
sú er huguð hæð
honum til dauða!
Hinni tví-typptu,
sem tekr hærra
fyri fyrsta dóm
framgekk hann á;
þèr frá þessari
skuluð þann líta,
er fyrir yðr
ok yðar börn
ljúfr lætr sitt
líf útblæða!
Komið, þèr keyptu
með hans krossburði!
hann sona sonu
ena seinustu
af barna börnum,
sem burðr skóp
enn nú eigi
til ódauðligra,
fer ok flýtir sèr
til at friðkaupa.

Eldligri ákefð
upptendraðr
engill sagði svo,
en svarlausir
af hrygð ok unun
eptir honum
fylgðu strax feðr,
flýttu þeir sèr.
Hasti meira með
megnar at eins
um skeið at skunda
ein skjót hugsun,
sú er útaf sál
sann-auðmjúkri
bregðr upp hænar
brennandi þánka.
Gekk nú Gabríel
fyri glæstri sveit;
fengu þeir fætr
fljúgandi setta
á lágt afstöðu
Olíu fjall!
Adam fór þat fyrst
ok fèll niðr,
kisti kæra jörð
ok kvaddi þannig:
O þú mèr manni
móðrlig jörð!
ek sè þik aptr,
um aldir liðnar,
frá því mín bleik bein
á bana kvöldi
í mjúkt móður skaut
meðtókstu þitt,
fèkk ek eigi fyrr
fót minn settann
yfir foldar fis
fullrar af ná;
en nú em ek því
ástandandi;
Meðtak móður-jörð
mína kveðju!
yðr heilsar ek
örendra bein!
þèr verðit vakin
vissuliga!
æ börn mín, börn mín!
bíðr yðar
eflaust ákvörðuð
endrlífgun!
Ok þèr yndælar
óska stundir
náðar stundir, nú
sem í nánd eruð,
sèuð þèr með sæmd
ok sigurgleði
allrar unnar
af mèr nefndar!
Þèr lèttið þeirri
enni þúngbæru
bölvunar byrði
burt af jörðu;
fyrir heyrn hennar
heilaga dupts
hljómar blíð blessun
ens blóðstreymanda!
Hátt Haleluja!
hann kemr nú!
hann kemr Herrann
hauðri borinn!
sjáið, sá kemr,
sem er allra
hinn heilagasti,
ok hel sitt nálgast!
Adam sagði svo
ok sitt stillti
hjarta, sem hrygðar
himneskrar af
tók nú at titra
tilfinníngu;
hann því kyrrn hèldt
horfði ok þagði!
En á musteri
Elóa stóð
ok sá forfeðra
fylkíng koma;
leit hann við ok varð
var yfir krossi
sveimanda Satans
ok við síðu hans

Adramelechs ódt
uppí lopti!
Ullu þeir ærir
af ofsa kæti;
Satan vegna verks,
sem var nú þegar
af honum unnit,
en þeir báðir
fyri frægðar störf
framvegis sín!
Helgr Seraph sá
seka fèndr,
hve þeir hófu sik
hátt yfir ský,
sèr viðveltandi
vorrar jarðar
ok með lángleiðar
loptflugs slögum
hærri hvelfínga
holvídd mældu!
Tók sik án tafar
týaðr upp
mestu megin-dýrð
frá musterinu
engill Elóa
eylífum þeim
ígegn æfendum
illra verka!
Gjörvöllum gekk hann
glansa skrýddr
þessa hæst hafna
hátíðar dags
yfir allar fram
afbragðs helgar,
umkríng hann ullu
ógnanir Guðs!
Lopt hin lèttustu
á leið hans neðu
öll at öskrandi
ofsa stormum,
gjörðist gángr hans,
sem geysanda hers,
þeim fjöll föstustu
fyri skjálfa!
Skins ok skarkala
skaut þeim ígegn
áköfum ógnum
hinn ódauðligi!
hann sán ok heyrðu
hinir koma
eiðrofs andskotar,
ok nú vildu
fela felmtr sinn,
forgefins þó!
Stáðu þeir í stað
ok stærra varð
sorta sveipaðr
svipr þeirra,
eins ok í vítis
innstu djúpum
standa stóreflis
steindrángar tveir,
næsta náttligir
vegna niðsorta!
En at leiks lokum
með loptsprett hinnsta
öflgur Elóa
í einum rykk
framvatt sèr fyrir
ena fárdæmdu
einurðar orðum
ávarpandi:
Þið, hvörra heiti
háðúngarverð
nefni neðstu djúp
í Niblheimi!
hafit ykkr hradt
hèðan á braut!
hár, sem þið sjáið,
er sæll ljósshríngr
eign ódauðligra,
en ykkar sízt!
farið frá honum,
látið frjáls verða
heilög hèröð
frá helvízkra þýngð!
Svo lángt sem eimir
sælu takmarka
yzta glömpum af
ykkrar þrjózku,

dirfist þá ei þið
þverfíngrs breidd
ofar at ýtast
afgrunns þoku,
eðr aur jarðar
um at skríða!
svo bauð Seraph
enum svörtu tveim!
  En sem óvæg tvö
illviðris ský
á tvö ærna fjöll
Alpis-hæðar
dymm ok drúngafull
dynja niðr,
þeim stormr streymir
sterkari gegn,
sem þau síðar mun
sundr hrista.
  Ok sem þrumu þau
sèr í þúnguðu
skauti skjótfleyga
til skots hvetja,
at hún orm-bogna
ógrligri
með grenjun glymji
gegnum dali,
eins sik útbjuggu
móti Elóa
drambsamir dólgar
til djarfra svara!
  Allt hvað æðit
hefir ógnarligt
ok heiptug hefnd
af hóflausri dælsku
ýgldist allt saman
á enni þeirra,
ok biltist báðum þeim
í bál-augum!
  En þeim maktar með
máttkari sjóu
einmiðt Elóa
í augu horfði,
ok svo tala tók
til þeirra á ný:
þagnið fyrst ok fremst,
flýið síðan!
  Ef ek mínum mik
mektugum í
sýndi sigr-styrk,
sem mèr Jehóva
voldugr veitti,
vissuliga
skyldu þá skruggur,
sem skeiti næm
út frá uppreiddum
armi þessum
lángt frá mèr fleigja
ykkr fordæmdum!
  En ek í nafni
Adams Sonar,
sem þar — sjáið hann
svo til reika —
ber kross á baki,
birtist kominn!
ek kem öryggr
í hans nafni,
sem sjálft helvíti
sigrar! flýið!
  Báðir brugðu við
brádt ok flýðu:
svipdekkri enn sót
eða svartnætti;
ákafar ógnir,
sem eltu djöfla,
ráku ríkt eptir
rögum hælum
þess felmtrs-flótta,
festar við þá.
  Keirðu þær á kaf
í krók fullann
afsíðis gagngjört
útá Gomorræ
reimligar rústir
í ráu dauða
drambsama djöfla
drottinnsvika!
  Horfðu englar á,
er þeir flúðu,
sá feðra flokkr
flótta þeirra;

aptr Elóa
ofan stígr
með dýrð mikilli
á musterís bust!
At kom áleiðis
Endrlausnarinn
enni ástefndu
aftöku hæð;
orðinn örþreittr
undir byrði,
fèll hann flatr þar
við fjalls rætur!
þreingðu þá hinir
þvernauðugum
framm um faranda
ferðamanni,
sem at Golgatha
geigbundinn kom,
blóðþystir bófar,
at bera skyldi
enum mædda með
mjög þúngann kross!
Nú voru nokkrar
nálægar þær
í flokk, sem fylgði
Frelsaranum,
þær hann hörmuðu,
hugminni sálir,
ok ei sem aðrir
ólmar af grimd!
þó var fyri því
þeirra sinni
at fullu fast
við hið fánýta,
ok vissi varla,
sem vera bar,
góða grein
um hinn guðdómliga!
Mjög hvikul mundi
þeirra meðaumkun,
skèð fyri skamt einu
skilningarvita,
en ei ypparligt
eðal-lyndi
sálar samlíðnu
sízt þeirra var!
Heyrði harm þeirra
ok hrygðar klögun
góðr Guðmaðr,
ok at grátendum
sèr viðvendandi
vèk svo til máls;
hví daprast drósir,
dætur Jórsala?
Uthellit eigi
yfir mèr tárum;
heldr syrgið sárt
sjálfar yðr,
ok grátið yfir
yðar börnum!
dagar nálgast nú,
neyðar ok böls!
þá mun á óöld
óttaligri
mengi segja svo:
sælar eru
óbyrjur einar,
sem eigi fæddu,
ok brjóst, sem borit
barn aldrei saug!
þá munu mæla
menn til fjalla:
fallið yfir oss!
eymdar vegna;
ok hárra hálsa:
hyljið þið oss!
því ef þeir við mik
þannig breita,
hvað mun þá henda
ena hrekkvísu?
Uppá ena mikla
altaris hæð
Jesús, vinr vor,
var nú kominn;
ok horfði hátt
til hans, sem dæmir!
kipptu kaldlyndir
krossfestendr
hans af hendum trè,
ok þat hátt reistu

miðt meðal dauðra
manna beina;
hóf sik mót himni
hár kross ok stóð!
Hírt skein helgaðr
hátíðar dagr
fullum enn nú í
eðlis ljóma,
glaðt lèk í lopti
lífsfullum blæ,
gegnum króka gáng
gjörvöll þeirra
meðal kviks mergðar
hið minnsta hvört!
En strax á einu
augabragði
hráðhendis bendíng
bifaði jörð,
í hinum innstu
iðra sinna
lengst fráliggjandi
leyndar djúpum
tók hún at titra,
sem af tilfinníng
hægrar hristíngar
hörþræði líkt!
Yfir ógn skèlfðrar
ásýnd jarðar
sterkir stormar sik
til stríðs bjuggu,
hvirfluðust, hvæstu
ok hvinu í gjám
klofinna kletta;
krossinn hristist
þar við hann góðgjarn
Guðmaðr stóð!
Adam leit á hann,
ok eigi lengr
gat sik við-viknun
varit stærstu,
svo hrærðist hugr
hans við þá sjón,
at hann eigi gat
af sèr borit.
Með kyndtum kinnum,
sem kol glóandi,
ok lausum lokkum,
er lèku á flugi,
útbreiddum örmum.
sem allir skulfu,
yztu Golgatha
gekk hann á þröm
með flýti fram
ok fèll þar niðr!
Nær Adam nú var
niðrhníginn,
himin horfandi
fyrir hans augum
ódauðligs orðins
enn fegr skein;
lá hinn gèð-göfgi
ok grèt af yndi!
Unun, eylíft líf,
ofboð ok hrygð
með feikn fulldjúprar
forundrunar
yfir hjarta hans
í hóp streymdu!
hrauzt út barmafulls
brjósts tilfinníng
í raust ok orðum,
þar er Adam bað;
Heyrðu hvörsvegar
hópar engla
berliga blíða
biðjandans raust!
Adam brá augum
yfir grafir
enna örendu
ok innti þannig:
Nei, Seraph nefnir
eigi nafn þitt út,
andar úthella
ódauðligir
tárum, nær taka
til at nefna,
komnir á kaf
í þitt kærleiks djúp,
þúsund dýrðir þær
þúsundsinnum,

ok teppti túngu
tilbiðja þik!

Nær ek þik nefni,
nægir þat, Son;
hendir málfall mik,
ek með þeim tárast!
ó jóð mitt Jesús,
Jesús Kristr!
ó hvört, mögr minn,
mèr ek vendi?
hvört? svo ek heill þá
fyri hrygðar skuld
til arðs afberi
ónefnanliga?

Jesús Kristur kær
kundr minn þú!
ó þèr, sem áðr
enn ek tilvoruð,
en þó ei eruð
eldri honum,
horfið hèr englar
á hann niðr!
ó! lítið ofan;
hann er mitt barn!

Þèr bið ek beztu
blessúnar, jörð!
ó dupt, af hvörju
ek var gjörðr!
ó þú unaðsemd
eylíf ok full,
sem ein ánægir
ódauðligra
allshugar ósk
ok eptirlaungun!

O yfirvættis
ágrynnis djúp!
ó há hugrenníng
himin-fyllsta!
þinn, þú Jehóva!
þánki sem er;
þú lèzt sköpun skè,
skópst þá Adam,
Adam af dupti,
uppá þat hann
þess ens eylífa
yrði Faðir!

Still hèr óð ok önn,
ódauðlig sál!
gègnum skoða glöggt
hið geisi-víða
unnarinnar
ómælda djúp!
hvað eru, himnar!
þessi heilögu,
er yfirstanda,
fyrir augna blik,
ok sem auka líf
ódauðligra?

Gjörla greinir hvört
guðdómligt sik,
ok á óðfleygum
eylífðir vængjum
sísællri flytr
sèrhvört af ró,
ok þær allar mun
Adam lifa!

Nú þrýtr þessi,
þareptir hin!
aðrar færast at
æðri ok betri;
koma nær ok nær
nýar aldir;
eru þær at eins
ókomnar nú!

O þèr uppheimar!
yðar raddir!
gefið mèr í munn
yðar mikla róm,
at svo gegnum Guðs
gjörvalla sköpun
af mèr ærit skírt
fyrir allsherjar
verði heyrn hrópat:
hèr stendr nú
dýr fórn við dymmann
dauðans skugga!

Tak þik, ætt mín upp,
allt manna kyn!
reis upp rètt höfuð,
ris af dupti!

kom sem bezt búit
biðjandi tárum!
hèr er hjástaddr
enn hèilagasti
einn meðal allra
opinni gröf!
O þèr Adams börn,
afkvæmi mín!
þèr eruð þeir
hann þannig elskar!
yðr, fallið fólk!
friðþægir hann;
kom, öll dauðlig drótt,
til ens deyanda!
Hvör sem háreistar
hallir byggir,
gulli gjör þaktar
ok með gimsteinum,
komi, kastandi
kórónu á gólf!
ok þèr sem þiggið
und' þaki moldar
skjól ok skugga,
skundit híngat!
látið liggja
yðar lág hreisi!
Æ! þeir meigu minn
mælanda róm,
orð þess sem elskar
ekki heyra!
einnig þèr, sem át
eyðandi fúi,
af gröfum geymdir
ok af Guðs dómi,
ei meigið mína
meðtaka raust!
En þú sem útgafst
til offrs þik,
ert sá sem aumkar
eylífliga,
sem fær fullkomnat
hið frægsta verk!
náðar þengill þú
þolinmóðasti!
fær þat vel framkvæmt
fullr mildi!
Enn nú innvortis
yfir mik hrygð
óútsegjanlig
ákaft fellr,
sú er í sèrhvör
sálar minnar
allra innstu djúp
inn þrengir sèr!
ó! sjá, hann gagngjört
gengr þángat!
O! veit mèr aðstoð
endanligum!
styrk mik, sem misbraut
manna fyrstr
ok fnikarfullann
hefi fúa sèð,
þú sem megnum miðt
Messíam dauða
yfirgefr í,
eylífi Guð!
já, þú Jehóva,
sem jörð dæmir!
Adam hreldum hug
hrópaði þetta;
ok nú nálægði
sá nefndr er
öllum himnum af
sá hinn eylífi
sjálfr sik
sínum krossi!
höndum lypti hann,
haldandi þeim
fyri sjónir sèr
ok sik hneigði!
Mæla mundi hann
þat er merkt gátu
Seraphim sízt,
ok hvað sinjað er
at skynja ok skilja
sköptum öllum;
en frá dymma dóms
dýrum tróni
gaf andsvar aptr
æðstr Jehóva!

Glumdu gjörvöll
af Guðs svari,
er hann Arfa gaf
yfirgefnum,
ens allra helgasta
undarlig djúp,
ok hristist hástóll
hans sem dæmdi!
Með grimmu geði
Guðs Syni nær
komu nú kauðar,
sem hann krossfestu;
í sama svifi
sèr gjörvallar
viku veraldir,
með vídt umhverfis
blásanda braki,
á baughlaups stöðvar,
hvaðan háleitri
heims forlíkun
átti hvör ein
at yfirlýsa!
Þar stóðu þær nú
ok þreyðu kyrrar;
skutu hjörur heims
hægri dunum
nú frá sèr niðr
ok nöptu þöglar,
þagði stór ok stóð
stansfull sköpun,
ok frá himins hæð
helgaða stund
til fornfæríngar
frægstu sýndi!
Þá stóðstu staðkyrr
storð vor líka,
syndugra sveita
sjót ok grafa!
lá ok líkt sem þú
legstaðr þess,
er nú sem offr
átti að deya!
Englar aflögðu,
til at áhorfa
ódauðligs eðlis
alla krapta!
já, nú Jehóva
jafnvel horfði!
Jehóva hèldt jörð,
er jálmandi sèg;
at jörð Jehóva
á Jesúm horfði!
sjá, hvör viðvarir,
ok sá vera mun
Jehóva horfði
á Jesúm Kristum!
Ok þeir á krossinn
uppfestu hann!
þú sem, eins ok þeir,
er á þat horfðu,
ódauðlig ert,
þú sem undir hans
munt ok síðar sjá,
sál! at lægsta
kasta þèr ok krjúp
krossins fæti!
spenn hann, ok hyl þik,
uns þín heimvitjar
til baka tekin
titrandi raust!
Eins sem allsherjar
yfir sköpun
drottnaði dauði
dapr grúfði
alvoldugum í
einvalds dofa;
sem einher svæfi
sundrrotnun
allar víðsvegar
veraldir um,
ok ei nokkr nú
yfir ná-fúa
moldum stæði meir
manneskja kvik!
Svo með hel-högfga
helgri stilli
ok kyrð, ó Christe!
krossfestann þik
englar áhorfðu
ok andir feðra,

af ofboðs undrun
fyrir utan sik!
En sem æðsta líf
ódauðligt hans
hóf at heya strið
við enn harðasta
ok öflugasta
af öllum dauða,
nær hans fyrsta fram
fossaði blóð,
undranir engla
urðu at röddum!
Gleði gólu þeir
ok grát-saungva;
hljómuðu himnar
hátt af nýum
tilbeiðslu tónum,
er þeir tví-kváðu!
ok enn nú eitt sinn,
ok eittsinn til
Elóa engill
undrunarfullr
sjónarblisum brá
til ens blæðanda!
Ok nú með einni
upphafníngu,
hvílíka höfðu
hann aldrei sèð
áðr athafazt
ódauðligir,
hann sèr í himna
himnanna vatt!
Hrópar hátt floginn
höfuðengill;
þat var þvílíkast,
sem þyti stjörnur
harla hraðfara
á hríng-rás sinni,
hrópar enn helgi:
hans rennr blóð!
flaug útí-afgrunn
hins endalausa,
lèt þar hátt hrópat:
hans blóð rennr!
ok sveif með undrun
upp til jarðar!
En sem áleiðis
um hið skapta
hann fram sinni hèldt
híngat stefnu,
sá hann Seraphim
á sólum standa
ena yppurstu
meðal englanna,
alla við offrs
ölturu sín!
Stóðu standandi
stórhátíð þeir,
ok frá ölturum
uppstèg gullnum
megin-skærra mergð
morgunroða,
dýrstum Drottins
at dóms tróni!
Geisi-víðann geym
Guðs sköpunar
endilángann um
offr brunnu,
ennar alblóðgu
eptirmyndir
frábærn fórnar,
sem frambar kross!
Hèr var ein himnesk
hátignar sjón!
forðum sáu svo
hinir sjötín
öldúngar hjá ætt
útvalinni
af hilmir himins
ok hátt vitnandi,
dásamliga dýrð
Drottins á Sína!
Eðr, svo hóf sik,
til at sýna leið
hernum heilaga
háloga stólpi,
í þykkrar þoku
þjótandi ský,
fagri tjaldbuð frá,
sem fólginn geymdi,

þú sem þar birtist!
þinn helgidóm!
Guðmanns ná-blóð nú
niðrhrundi,
ok nú horfir hann,
af háu trè,
á geisi-grúa
Gyðínga þjóðar,
hvörrar þètta þraung
stóð í þyrpíngu,
sú um breiða braut
frá borg heiman
náði næsta laung
nálægt krossi!
Sjá, hann beigir sik,
ok svo hrópar
af fjalli: Faðir!
fyrirgef þeim!
hvílíkt vinna verk
vitu þeir eigi;
miskuna þú þik
yfir þá, Faðir!
Kross-kalli þessu
kærleiks fyllsta
fylgði fljótt eptir
forundrun stillt
hjá skygnum skörum
enna skoðendu,
lyptum litu þeir
til ens líðanda
allir saman upp
ásjónum nú!
Þá sán þeir
hvörnig þín streymdi,
þú dráp-dymmasti
meðal dauðanna!
yfir hann allan
ógrlig bleikja;
dauðligrar dróttar
daprari sjón
mátti merkja slíkt,
en meir ekki!
Sálar fyllri sjón
enna sofnuðu
miklu manna,
þá er mold geymdi,
huldari hluta
hèr fèkk nú gætt;
hvörnig hans líf þá
við hel stríddi;
líf, sem alls öngvum
ella mundi
dauða deyðanligt,
nema Drottinn hann
sjálfr til Sonar
sendann hefði!
Hvað ofboðs ógnir
almáttugar
daprt dunuðu
gegnum deyandann;
hvörsu háum hann
hèkk á krossi,
æðstum Föður af
yfirgefinn!
Hans blóð hvílíkra
til heilla rann,
ok hvörsu framflaut
friðþægíng mikil
útaf undum hans
í því blóði!
Sjá, hann til himins
hóf sín augu,
hugði sèr at hægð,
en hvíld fann öngva,
hræðiligum hann
með hvörri dó
bana bendíngu
bráðt fljúgandi;
honum var hvörskyns
hvíldar synjat.
Með honum mundu
morðíngjar tveir
kanna kvala straff
krossfestíngar;
því til þessarar
þjón-stands dýptar
níðr ályktað
hins eylífa
ok hans egit ráð
óbrigðanligt,

hafði heit-bundit
hann at lægja;
Hèngu hinir tveir
honum við síður;
einn á hægri hlið,
hinn á vinstri;
milli morðíngja
Messías hèkk;
annar upphengðra
fyri ódáðir
var einn stein-stæltr
stórbrota-maðr
grár ok grómtekinn
glæpa þrjótr;
Snèri þessi þá
þrautar-dymmu
ok mjög afskræmdu
andlits gerfi
móti Messía,
mælandi svo:
þú kallast Kristr?
ef Kristr værir
þú þá hjálpaðir
þèr ok okkr,
ok af blý-bundnum
við bölvun Guðs
þessum straffs stjaka
stígir niðr.
En hinn annar,
sem í úngdæmi
til glæpa ginntr
gefizt hafði,
eigi hjart-illur,
en af ofríki
syndar sigraðr,
ok sokkinn djúpt,
nú upp af eymdar
andkafa streitu
ávítunar orð
hinum öðrum gaf:
Ok þú, sem ert svo
sjálfr nærri
fullum fjörs lokum
ok fordæmíngu,
því þannig staddir
þat erum við,
óttast enn nú Guð
ei at heldr!
Við at vísu
höfnm verðskuldat
þat nú þolum straff,
því við báðir
meðtöknm maklig
misverka gjöld,
en þessi þriðji —
þá til Jesú
höfði bendir hann —
hefir aldreigi
nokkuð íllt aðhafst
nè ósæmanda.
Ok nú sèr öllum
atvendir hann
Griðagjafa þeim
er Guð sætti,
hann, sem mest mátti,
myndar sik til
ok leitar lags
at líta Jesú;
Nú bunar blóðit
benjum hans af
ákafligar út,
enn þat mætti,
en hann sinnti sízt,
þó sèr blæddi,
ei gaf hann gaum at,
þó göptu sár;
Heldr hneigði sik
hjartanliga
niðr, sem næst gat,
fyri náðar gram
ok hrópar: Herra!
hugsa til mín,
þegar þú kemr
í þitt ríki!
Með glöðum geislum
guðdóms brosa
ljúft leit deyandi
Lausnari vor
strax við sturluðum
stórbrota manni

ok honum andsvar
elskuríkt gaf:
„Sjá, ek segi þèr
sannliga, í dag
með mèr Paradís
muntu byggja!"
hann tók við tèðum,
með titrun helgri
ok ljúfri lotníng,
lífsins orðum,
Hann þau allr öll
á sèr merkti,
þau gengu gegnum
gjörvalla sál,
hann skókst af skjálfta
skilmerkiliga,
svo var honum sæt
sálnhjálp hans.
Ok upp frá þessu
voru augu hans
föst án fráviks
á Frelsaranum,
þángat horfðu þau,
sem þessi hèkk
mesti mann-vinr,
ok mjög grètu,
svo luktu sik þau
at síðustu.
Ameðan enn var
önd í brjósti
hann við sjálfan sik
segja mundi
ógreinilig orð,
eylífs lífs smekk,
en þótt óljósann,
enn svo þenkti:
Hvör var ek hèr til?
hvör nú orðinn?
þessi eymd áðr,
unaðsemd nú?
þessi tær titrun?
ok tilfinníng
svo sæt þessarar
sælu nægðar?
Hvör er mèr við hlið
hèr á krossi?
í raun ráðvandr
ok rèttlátr,
einn hreinhjartaðr
heilagr maðr?
miklu meiri enn svo,
já meiri lángt!
Eylífr arfi,
eylífs Föðurs!
sá hinn sendi Guðs,
sjálfr Messías?
hans ríki er hærra
at heiðri ok dýrð,
lángt yfir jörð, já,
jörðu fjærri!
Þat er hann, englar!
en hvörsu djúpt
sik undir lítilát
lægir hann þetta!
ok enn nú dýpra
ofan til mín!
at sönnu er þat
anda mínum
óransakanligt;
en mik hefir
nú hann af náð
at nýu skapat?
Nú einmidt í því
undir dauða
kremst ek í kvölum
krossfestíngar
skeðr mik svo skjótt
sköpun hans ný.
O! sèrt þú af mèr
eylífliga
traustri tignaðr
með tilbeiðslu;
þó mik skorti skyn
til at skilja þik.
Göfugum gæddr
ertu guðdómi,
ok miklu meiri
mestum engla,
því engill engínn
eins hefði' ok þú

orkat mik
at endrskapa;
Engi Seraph svo
hefði sál minni
getað lypt til Guðs,
sem þú gjört hefir;
í þèr eflaust býr
öflgr guðdómr;
ek er um eylífð
öldúngis þinn!
Hann þenkti þannig,
ok þar með varð
fyri forundrun
frá sèr numinn;
hló nú hvaðvetna,
hvað sem eygði,
með mestu blíðu
móti honum,
ofan af himni,
sem upp af jörðu,
Guðs en góða ró
honum gefin var!
Boð með bendíngu
bráðliga gaf
Sätta-semjandinn
Seraph einum,
skundaði sá skjótt
útaf skínandi,
sem nú Golgatha
girðtu, flokkum,
ok þá strax í stað
stóð undir krossi;
Boð ennar birtu
bendíngar var,
sem gaf guðdómr
ens Griðkaupanda:
„fær þú á fund minn
þenna frelsaða,
engill, þá hann er
önd viðskilinn!"
flýtti Seraph sèr
svo til baka,
ok kom strax aptr
í engla hríng.
Er sá Abdíel
ósigranligi;
var nú til varðhalds
vítis porta
skikkaðr, skeðri
eptir skipun Guðs,
annar öflugr
engill dauða!
Flykktust, frèttandi
fljótt kríngum hann
eins hinir aðrir
engla skarar;
ansar Abdíel:
„ek tók móti,
undrun mestu með,
mjög háu boði,
endrleystann einn
illgjörðamann,
eptir at andlát
hefir útstaðit,
at ek fljótt færi
Frelsaranum!
Stórum streymir mik
strax í gegnum
unnum unaðsemd
yndæls þánka,
æ því meir sem ek
útgreiði þann,
varð ek sí-sætri
af sælu drukkinn!
Einn frá eymd þrifinn
ódáðamann,
ok þat á þeirri
þrifinn stundu,
einmidt þá offrit
fyrir ætt manna
dauðligra dreirugt
deyr á krossi;
þessa sömu sál,
svo hreina nú,
svo bjarta, bezta
í blóði þvegna,
endrgefna önd
hinum eylífa,
síns at fá færða
Frelsara til!

Innið mèr, englar!
óska blessun
sakir eptiræskts
yndælis þess!"
þannig þraut ræða
þessa Seraphs,
er sú sann-prísuð
sæla gladdi!
En sólar engill
Uríel hafði
til fljótrar ferðar
fyri laungu
staðbúinn staðit
stór-fjöllum á;
nú var tiltekinn
tími kominn,
at skeða skipun
skyldi gjöra!
Tók hann sik einn upp,
engi fylgði,
ok hóf hraða för
gegnum himininn,
skær ok skínandi
skaut hann sèr upp,
at hann strax af stað
stjörnu eina,
sem Guð sjálfr
hafði sendt hann til,
fyri fagra sól
færða lèti!
Svo þú láta líf,
Lausnari! þitt
skyldir und' skýlu
skelfiligri,
enn nokkrir nætur
niðdymmustu
sorgar serkir
eru svartir til!
Strax var hátt staddr
yfir stjörnunnar
veltandi vendíng
voldugr Seraph;
sveima sálir
á sögðum hnetti,
fyrrenn fái þær
fæðíng sendar
í hið allmikla,
þó undirkastat
ráð-ríkum dauða,
reynslunnar líf!
Uríel ofan
yfir horfði
andir ófæddra
Adams barna,
ok hèrnæst heiti
hermda stjörnu
æ ódauðligu
ávarpar hann:
O Adamída!
hann sem útdreifði
þèr fyrst í þetta
þrotlausa rúm,
sjá, hefir sjálfr
svo þèr boðit:
hef þik nú þegar
útaf þínum hríng,
set þik til síðu
gagnvart sólunni,
fljúg þá svo fyrir,
at felir hana!
Heyrðu himneskir
hrínginn í kríng
ríkt bjóðandi raust,
er ræddi Seraph;
þá hljómr hennar
háum fjöllum
Adamídæ í
afliðinn var,
hristist stór stjarna
burt af stað sínum
at skjótt viðvendtum
völtrum með dyn.
Glumdi gáng-stöðvuð
gjörvöll sköpun
nær með flýti flaug
fæliligum
útsend af Guði
Adamída
með strídt streymandi
stórviðra gný,

skýa skarkala
er skutu þrumum,
fallandi fjöllum
en fjall-reistum sjó.
Stóð á vendi-völ
veltandi stjörnu
Uríel öflgur,
þó ei heyrði
hennar háreysti
í hræríng slíkri;
svo mundi sokkit
sèrliga djúpt
hugskot hans
í höfga þánka;
gaf hann ei gaum at
nema Golgatha!
Fór með feikna dyn
fljúgandi stjarna,
ok í umdæmi
innkomin þitt
óðum sýndi sik,
sól! þèr nærri
á stöðvar stýra
streymandi rás.
Byllt varð minna megns
mennskum sálum,
nær í nánd sáu
nýann röðul,
hófu þær sik hradt
yfir háfleyg ský
ennar áminnstu
óðfara stjörnu.
Aðkomst ítri sól
Adamída,
hún hèldt ferð framm,
en fetum seinum
gekk lángsamliga
fyrir ljómanda
alskírrar auglit,
ok í sik drakk
hvörn minnsta ok hinnsta
hennar geisla!
Foldin varð fálát,
fèll á rökkur,
dymman drýgðist meir
dofnaði jörð;
skuggar skelfandi,
með skýmu bleikri,
yfir storð streymdu
af sturlun fullir,
hrylliligt varð húm
um hæstann dag!
I felr flýðu
fuglar þöglir,
sem daufir dumbar
í djúp gerði,
skriðu skógar dýr,
fyri skelfíng, öll
ok jafnvel ormar
í anðar holur;
loptin lágu hljóð,
ok sem lèmagna,
drottnar dauða kyrð
dofin of allt!
Horfðu til himins
höggdofa menn
stórum stúrandi
stundu þúngann;
nú magnast myrkrit,
ok sem miðnætti
varð um síðir svart,
sá ei hvör annann.
Stóð nú stjarnan kyrr,
er stórann hafði
slökktann ljóss lampa,
ljómandi sól;
ægum myrkrum í,
þau er ein sáust,
lá vafinn víðr
vángr jarðar,
ok þreyði þögull
meðan þetta stóð!
Enn á háum hèkk
hræðiligri
nú undir nóttu
fyri neðan sól
Jesús Kristr kær
krossi píndr,
á láð með látum
þess ens líðanda

dreira dundi mjög
dauðans sveiti.
Svaf jörð í sínn
sinnuleysi,
sinnu minni sèst
eigi sá vinr,
gröf eins góðs vinar
sem grætr við,
þann tók til snemma
tvistr dauði!
Eðr hinn, sem um
ypparlig verk
vel at verðugleik
veit at dæma
viðr marmara-
yfir mætum-stein
föðurlands frömuð,
sá er framliðinn
ágæt eðal-verk
eptir sik lèt.
Okvikt yfirbragð,
augnaráð dofit,
lèmagna lima
lötranda burð
hengir hann yfir
helgar moldir,
við gröf grúfandi
en grætr eigi.
Allt í einu þó
á hann svífr
með öðru æði
ákaflig sorg;
allr hristist hann
af hrellíngu,
svo lá jörðin sæfð,
ok síðan spratt
upp með andfælum,
ógn ok skjálfta.
Hræðist Golgatha
geist með henni
allt at krossins upp
efsta toppi,
hremdi þau hrollur
svo hristust öll;
nú midt í mesta
móki þagnar.
Ok hins fórnfærða
flæddu benjar
öflgum straumum í,
eylífu lífi,
þá með Golgatha
grímu þakin,
svo af skjálfta skókst
skorðaðr kross.
Skotit lèt skugga
skelfiligum
döpr draum njórun
yfir dauðans háls;
mókti myrkrit
yfir musteri,
jafn sem yfir þèr,
Jerúsalem!
einnig sáu sítt
sjálfir englar
klára ljós kulna,
sem í kvöldrökkur!
Ok nú útstreymdi
offrsins blóð!
en fyri felmtri
föst á rótum
stóð hin stóra mergð
starandi á kross,
óráðs ærnm með
augna svifum!
Nú flóði fagr
forlíkunar
óttaliga út
offr-dreiri;
nú kom þat, kallat
kom yfir þá,
blóð hins blessaða
ok á börn þeirra!
Augum æsktu þeir
undan at snúa,
en jafnódt ógnir
almáttugar
vendu þeim við
móti vild þeirra,
svo þau æ urðu
áföst krossi!

Enn hafði annat
Uríel boð
himneskt á hendi,
honum falit;
stèg hann ofan af
Adamídæ,
sem nú stóð í stað,
sterkum hjól-ási;
til sagðra sálna,
er þar sveimuðu!
Sáu þær sælann
Seraph koma,
þvíat nú þegar
voru þessar í,
með mannligrar
myndar lögun,
líkömum luktar,
sem í lopt-gufu
einni sem áskíu
aptans-roði!
Innir Uríel
öndum þessum:
yðr leiðir ek,
eptirfylgit!
víst þekkit þèr oss,
þat yðar til
vèr at vilja
þess ens volduga
óendanliga
ofankomum.
Sjáið hinn sami,
sendir yðr
annat hauðr á,
þat er yðar sjón
hefir híngat til
hulit skuggi;
þenna munuð þèr
þar fá litit;
hvörs at er heiti
hátt ok guðdómligt:
Eingetinn arfi
þess ens eylífa!
En fyrir yðar
allveikri sjón
hángir þoka þykk
þessarar nætur,
at þèr hann eigi
fáit enn nú þekkt,
þó mun frá fjarlægð
fyrir yðar
opna sik augum
ódauðligrar
unaðsemdar ein
óglögg birta!
Komið, komið þèr,
kjör-sælar andir!
því til þessarar
ernð þèr skaptar
æðstrar unnnar
í öndverðu!
horfið um himna,
hvörsu þeir nú
stunda stórhátíð
stakrar furðu,
allir umhverfis
í einíngu!
Öll knè framfallin
fyri þèr bogna,
allar auðmýkjast
undir þik krónur!
þú sköpst fyri þik,
ok þèr til handa
endrleysir eins
eylífar sálir!
Nú flaug hann fljótr
flutníngs veg sinn,
sagðar sálir hann
sveimuðu kríngum;
þvílíkast þegar
í þaunkum djúpum
vísdóms-vinr einn
verðugr síns
ódauðligs eðlis
gengr einförum
fjölmenni fjærri
útá fagrann skóg
meðal mikillra
mána dampa.
Framleiddr frómrar
forundrunar

hann nú af hendi
hugsar um þik,
ó þú sem æ ert
óendanligr;
líkt sem honum heitt
um höfuð sveima
ok af unaðsemd
öldúngis fullt
nýir þánkar þá
þúsundum saman
betri, bráðfara,
bísna stórir!
  Svo flaug af sálum
Seraph umkríngðr,
nálguðust þær nú
þessa neðri jörð;
feðr fengu sèð
í flokkum koma,
urmul af öndum
ótöluligann
hátt höfnum skýum
hálfrökkurs í!
  Hèr var hjá engli
hátíðliga
fararliðs flokka
frumburðum af
skærrar sköpunar
skynugar verur,
vel verðug heiðrs
væn lífsins börn,
þúsund þyrpíngar
þúsundsinnum
ódauðligum af
á at horfa.
  Nú hið fyrsta fèkk
fagnandi í ángri,
frum-móðir manna
mænandi á kross
augum aðgætnum
af honum litit!
komu nú kær börn,
nú komu þau!
allar óbornar
aldir komu!
  Viðstuddist vinstri
vor hin eldsta,
meðr skjálfta mund
móðir elskandi,
með hinni hægri
hún ver, föður
bendti til barna
eigi borinna,
kristinna kunda,
komandi' um skamt;
  Hrópaði hún þá,
en hèldt á krossi,
blóðgu bana-trè,
bundinni sjón,
meðan svo mælti
móðurliga:
þau eru þetta!
þú sem Faðir
allra minna ert
ódauðligu!
sjá barna! þat
eru þessi börn!
  Með hvörju mun ek
meiga at fullu
nafni nefna þik,
sem nú lætr
þitt blóð fyri þau
á þessu trè?
hvört mun Hósanna
heiðri þínum
samboðit svo,
at um særðann þik
ólífis undum
fái útsúngið?
  O at þèr alin
væruð öll þegar
blessuð heilla börn,
börn mín kristnu!
at þegar þúsund
ok þúsund til,
ok aptr þúsund
anda glóanda
bæri mæðr með
ok miklum tárum
yðr at þessu
alblóðga trè!

At þegar þekktuð
þèr meðal fæddra
hinn heilagasta,
hann sem einganu
manndóm, borinn barn,
í Bethlehem grèt!
en þennann þó
munuð þèr kenna!
Þeim mun, ó Adam!
eptir þetta
Meðalgaungumann
hinn mikla vors
samda sáttmála,
Son elskunnar
guðdómligann glöggt
gefast at þekkja.
Æ! líkt sem lestr
læzt af stormi
á plöntum prúðr
purpura blómi,
svo munu mæki
manndrápara
á meðal yðar
elskuligastir
falla fyrir,
ok í falli því
blíðliga brosa
at bana sínum!
Blessun yrkir á
yðr móðir!
vegligri vottar
eruð valdir þèr
ens mesta meðal
manna dauðra;
föl bana bleikja
blóðugra vánga,
sjónar brostin blis,
blikandi skær
á sèr hám hrósa
himins ljóma!
Bjart skína blóðgar
benjar yðar,
ok hin djúpt dregna
dauða hrygla,
sem blæs brjóst yðar
blóð-vottar hans,
engil-fagr er
unnar saungr!
Nú brá augum upp
Endrlausnarinn,
ok sá samstundis
sálir þessar,
en hvörn himneskann
hans á vánga
ofan smeltist eitt
eylífs lífs tár,
svo var sjón þeirra
sálar-næm honum!
Því með þýðri sjón
þeirrar elsku,
sem Guðs móð mýkti,
ok nú með nunti,
Jesús Kristr kær
allt til kross dauða
upp leit hann anda
ófæddra til!
varð einskær unun
ótti þeirra.
Enn vatst á vánga
ens viðskiljanda
um sinn farvi fjörs,
sem fljót bendíng,
bráðs flótta bendíng
er ei bráðari,
enn nú sýndi sik
sá eigi meir!
Heldr hallaði
hel-fyllri kinn
sjáanliga sèr
ok sèg niðr;
sveigðist höfuð hans
undir heims dómi
orðit aflvana
ofan at hjarta!
Með þraut, at þrotum
þrótt at nýu
gat hann þat hafit
móti himni á ný,
en þat aptr
á augabragði

honum at hjarta
hneigðist niðr.
Hángandi himin
hvolfði sèr nú
kríngum Golgatha,
glíkt sem dauðra
hylja hvelfíngar
hjóm-fúin bein,
stuggfullr, stríðr,
ok steindumbi!
Með svip svartnættis
sveif yfir krossi
ský öllum skýum
skèlfiligra,
vídt útþanit þat
þar niðr hèkk;
stór helgar stilli
stóð af því skýi,
er jafnvel ægði
ódauðligum!
við eitt þánka vik
var hún á burt!
Otilkynntr af
einu sèrhverju
lægra látanda
linara hljóði
kliðr uppkominn
klauf sundr jörð,
dauðra bifast bein,
ok at bust efstu
í mesta máta
musterit skalf!
Var þat viti
fyri vo-stormi,
stríðr stormr kom
ok sterkr æddi
cedrus eikr á
með ofstopa;
steyptist stoltar trè
stynjandi' um koll!
Jós hann jötunmóð
yfir Jórsala
stórláta staðar
sterka turna,
skulfu þeir skèknir
fyri skotum hans!
reyndist rokviðrit
reiða boði!
Skall í heljar haf
hræðiligt slag,
með froðu föllum
flóð upp þutu,
ógnarligum af
ókyrrleik þeim
himin ok hauðr
hátt við glumdu!
Enn sem Elóa
allt þetta sá,
ól hann í hjarta
höfugann þánka,
þann hann ei at eins
hafði innan brjósts,
heldr fullri fèkk
framkvæmd hafit!
En hann augliti
til auglitis
vildi dýrstann dóms
dæmanda sjá,
hærstann Jehóvam
hulinn dymmu,
í dýrð ógnandi
eilífann Guð!
þrisvar gagnvart þèr,
þú hinn offraði!
fèll hann framm á bæn,
ok flaug til himins!
Hann um lánga leið
ljómandi sólir
nálgaðist nú
ok þó naumliga
himins vana veg
vissann kendi;
svo geisla-göfgann
gegnum streymdu
fádæma fölskvar
af flug-rökkri!
Sjö sóla rúmi
sagðrar leiðar
ofar inngaungu
mættu Elóæ

með huldum höfðum
hels englar tveir,
flaug hann framm hjá þeim
furðu sleginn,
Enn nú stóð á storð
stirðum fótum
kynja fálát kyrð
komin aptr;
á hinn fórnfærða
ok friðþægjanda
Adams niðjar nú
á ný horfðu,
allir orðlausir
af undrun stóðu,
enir önduðu
ok óbornu menn,
einnig öld dauðlig,
sem enn lifði!
En midt í mestu hrygð
móðir fyrsta,
hjartkæraun Son sinn,
fyri syndir heims
Guði fórnfærðann
til forlíkunar
leit svo lángsamann
líða dauða.
Sem nú sjón hennar
af sorgligri
skuldoffrs skoðun
skuggasöm varð,
glýu gryllíngar
glímandi við,
á drós dauðliga
datt hún niðr
eina frá öllum
aðgreinanliga;
Sem nú með næsta
niðrlútu
höfði hnipin stóð
við háann kross,
hálf-föllnum fótum,
föln' ok bleiku
andliti' af ángist,
augum jarð-festum,
Ok tómum tára,
því at tárfella
sèr til svíunar
var synjat drós;
hún stóð ok hrærðist
hvörgi' úr sporum,
döpr ok dúmba
sem dauðinn sjálfr!
Hún er sem öl
þann hinn eingetna,
þann enn mikla mög,
mestann allra,
hún er hans móðir —
hugsaði svo
frum-móðir fólks,
sem á fold lifir —
þín en sára sorg
sýnir mèr þat!
sjá! þú sannliga
ert sjálf María!
hvað ek forðum fann
nær fallinn lá
Abel alblóðgr
við altari!
þat finnr þú nú,
þessa sem ert
bitrum dauðdaga
deyanda móðir!
þenkti þannig
í þeli hryggvu
frum-móðir mannkyns,
ok á Maríu
elskufull augu
af alúð tendruð
heitustu hafði
hvörvetna föst;
Ok þeim ei hefði
enn frá litit
dýrmætri dóttur,
nema dauðans tveir
englar frá austri
aðkomit hefðu
með harla höfnu
hátíðar flugi
ok með alvöru
ákafri mjög!

þeir komu, þögðu,
ok þúngt sveimandi
lángsamliga sik
um lopt færðu;
voru eldr einn
augnasvif þeirra,
andlit eyðíng tóm,
yfirhöfn nátt!
Svo þeir sveimuðu
seint ok lengi
uns kendu komu
kross fjalli gegnt,
hafði frá hástól'
hann, sem dæmdi,
sínum sveina þá
senda þángat!
Með ógn allskonar
útbúnir þeir
nú sik nálægðu
nefndum krossi;
þá dýfðust dýpra
at dupti jarðar,
fyri felmtrs skuld,
feðra sálir!
Þær, at því leiti
sem þánka um gröf
ódauðligr einn
getr í sokkit,
drógust nær dymmum
dauðligleiks merkjum;
þustu kríngum þær
í þyrpíngum
herfiligar hels
hræva-myndir;
í mold morkinnar
maðka veitu
ógn kríngum-ólgði
ódauðliga!
Enn sem aðkomnir
englar dauða
Golgatha fjalli,
gátu at líta
öndvert augliti
til auglitis
dýrstann deyanda,
dvalarlaust þeir
fengu flugi vendt
með feikna dunum
einn á hægri hlið,
hinn á vinstri.
Stýrðu þeir stefnu
með stranngum svip,
berla boðandi
heiskann dauða,
í hríng sjösinnum
svo á flugi
kríngum krossinn,
þar er Kristr dó!
Voru vængjum tveim
vafðir fætr,
um andlit þeirra
skulfu aðrir tveir,
þriðju tvo böndu
þeir á flugi!
frá þessum, þegar
þannig útbreiddust,
dunuðu daprir
dauðans tónar!
Líkt sem lætr
frá laufa rymmu
hljómr fyrir holls
hlustum mannvinar,
þá er þar liggja
þúsundum saman
í bana-bláði
búkar dauðir!
Snýr hann frá ok flýr,
er hann formerkir
einn hèr útsnörla
ok annann þar,
ok svo með sama
þann enn síðasta,
sem einn var eptir,
aumu lífi!
Þar lágu þandar
þeim á vængjum
út í allri vídd
ógnanir Guðs,
glumdu grenjandi
Guðs ógnanir

niðr frá flugi
enna fælendu;
sjöunda sinni
svifu þeir nú!
Hóf upp höfuð sitt
hann, sem þar dó
mjög svo magnþrota
midt í heli,
ok leit í andlit
englum dauða;
hann brá til himins
hallandi sjón!
hrópar heilög sál
útaf hels djúpi
upp með anda raust
óheyranligri:
Lát af at ljósta
lemstraðann ógn!
þúng ek þekki slög
þeirra vængja,
ok þann harða hvin
af hels tónum!
lát af at ógna,
eindæmir heims!
þannig hrópar hann,
sem í hel blæddi!
Síðan vendu við
vindugu flugi,
hels englar hèðan
til himins upp,
ok lètu eptir
áhorfendum
hjartnæmari hrygð,
hugraun dýpri,
forundrun framar
firta máli,
gjörvalls geðs undrun
yfir guðdómi!
Ok hins eylífa
óbifanlig
hulda hèkk fyrir
enum háleita
ok lofligasta
leyndardómi!
nú stóð ok starði
stirðum augum
und skugga skýlu,
skoðenda hvör!
Augnamið ýms,
sem heir áhorfðu
á víxl í vafa,
voru grafir,
eðr hvör annars,
ellegar himin;
þó hvarf þeirra sjón
þess á milli
aptr ok aptr
alltíð á þann,
sem í sínu hèkk
sára flóði
ok í nótt niðr
negldr á kross!
En svo með öllu
ótöluligr,
sem þar var sægr
samankominn,
fannst ekkert auga
meðal allra svo
þrúngit sem þitt
af þúngum harmi.
Eins var ok enginn
ódauðligra,
í sorg sárheita
sundrrunninn,
sem þú sjálf móðir
enna syndugu
móðir mannkynsins,
móðir dauðra!
Sjá, hún lèt sitt
út af sorgar reik
sínr sendanda
síga niðr
höfuð, at hauðri,
sem hennar var
börnum gjört at gröf,
gimli móti
upphafða arma
útbreiðandi!
Ok nú snart enni
ángraðrar kvinnu

foldar fornu mold,
en fyri því
nú af nótt huldu
núnar hendr
sik vegna sorgar
saman spenntu!
Hún frá hauðri sèr
til hálfs lypti;
hnèg á ný niðr,
á ný sik reisti,
ok brá umhverfis
allstirðri sjón!
var kríngum kvendi,
svosem kvöld rökkur!
Hún var hjá beinum
holdlausum stödd
enna örendu
einhvörnstaðar;
at sönnu sett
við síðu grafar
þá sem er þaðra,
en þó við gröf!
Nú hóf sik hennar
hálfslitin raust,
ok sæt samhljóðun
sundruð Evu
útflaut í andvörp
ódauðligrar!
Mun ek enn meiga
mög þik nefna?
mun ek þora þat,
þik nefna son?
ó vend ekki frá
augum þínum,
bregð ei burt frá mèr
bróstinni sjón!
Mína gafstu mèr
misgjörð kvitta;
frumkvöðull frægsti
friðþægingar
minnar, ok manna,
sem af mèr fæðast!
Hljómuðu himnar,
hástóll klíngði
þess ens eylífa
við elsku raust,
sem bauð bannvænni
Brot-Evu líf,
ok þat ódauðligt
ævaranda!
En þú anda þinn
uppgefr nú!
þú hinn dýrsti, deyr
í dag sjálfr!
eylíf aðal-náð
er at vísu
sú er sagði mik
af synd lausa!
en þú andast þó
ei at síðr!
Þrengir þánki sá
þrumu líkr
sèr fram móti mèr
myrkr sem nótt!
mínum hrindir hann
hastarliga
á grafir aptr
ódauðligleik!
Gef, guðdómligi,
at ek gráti þèr!
at vísu ertu
ofstór tárum;
en gef þó eptir
at ek gráti!
sjá, í þeli þyrst
þráir ek ró!
Tilgef, tilgef þú
tár mín líka!
Friðþægjari! fórn!
fjörtjóns offr!
þú minn mildasti
Meðalgángari!
undum alþakti,
elskuligasti!
ó minn elskaði!
þú elskan sjálf!
Fús fyrirgefr
enum föllnu þú,
munuð þèr ok þá
þessarar Evu

börn til bana fædd
brott tilgefa?
Nær yðar andláts
yzta hrygla,
ok hvarmar hrærðir
hinnsta sinni
mèr á bak blóta,
blessa þú mik,
ó vor líflátni
Lífgjafari!
Bölvið ekki börn,
enni burtdánu!
ek grèt æfilángt
yðar vegna!
ok enn þá grèt ek
fyrir yðar skuld,
nær hið harða hel
hjarta mitt sprengði,
tárin meðr mèr
í mold eyddust!
Nær dauðinn, niðjar!
yðar negg sprengir,
þá mun strax streyma
styrkjandi bót
útaf undum hans
í yðar hjörtu;
lífs ágæt unun
annars betra!
Þèr, dýru Drottins!
deyið ekki,
heldr hægt svæfðir
til hans at eins,
sem yðr grið gaf
ok Guð sætti,
í lopt upplíðit,
yðar Lausnara!
Þá munu þessi
þar ljóma skært,
hans en sömu sár,
sem nú blæða,
þess ens óskapta
undir, sem dó!
mælit ei, megir,
móður bölvun!
Odauðligir æ
eruð þèr, börn!
ok hann einnegin
er minn Sonur
kær Jesús Kristr
sá hinn krossfesti,
eins er afkvæmi
ódauðligt mitt!
En æ! þú andast,
ástvinr minn!
öllum ástvinum
ástkærari!
þú, hvörn alls ekkert
útsegir nafn!
ó sjá! þú andast,
elskuligasti!
O! væri stríð stund
sturlunar sú
ljóss framhjá flogin
fljótt á vængjum!
lát af þánki, þú
þánki grafar!
enn framar fölnar
ok fellr hans
lengra niðr nú
ná-kaldr vángi!
En þá útgufar
með ofboði
benja hrollr hans
heitu blóði!
æ! Griða-gjafans
guðdómligt höfuð
enn dýpra dauðans
dýfðist í nótt!
Andardráttr er
auðkennilig
þessi hinn þraungvi
þín raust, dauði!
þær eru þínar
þessar stunr,
þat er rómr þinn
þessi hrygla!
En hvar em ek stödd?
augliti sínu
hann enn sem áðr
at mèr vendir!

framberið fögur
fagnaðar-ljóð
englar, út af því
at hann sínu
augliti at mèr
enn nú snèri!
Takið undir öll
upphimins port,
at hinn góðgjarni
Guðs Friðþægir
snèri eittsinn enn
andliti sínu
mildu til móður
manna dauðligra!
Ek finn eylífs lífs
unaðsfullar
náðir mik á ný
nú umskyggja,
hef ek hátt augu
til hans sem skóp,
ok lítilátri
meðr lotníngu
af heitu hjarta
hendr útbreiði,
til hans sem kross-kvöl
kannar ok deyr!
býtir ek blessun
börn mín yðr!
Hans í heilögu
ok háu nafni,
er himnar eigi
innilukt fá,
hans fyri hvörjum
heil víðátta
ómælanligs alls
hefir endimörk!
Í hins heilaga
hæzta nafni,
sem gefr sekum
sakleysi nýtt,
nafni þess sem ná
á ný lífgar,
hans, sem hvörvetna
heima dæmir!
Í dýru nafni
deyanda þess,
sem tvistra telr
tár líðenda,
ok hans böl-beiskann
fyri blóðsveita
í grasgarðinum
Gethsemane!
Hans fleytifullar
fyri benjar,
ok af undum hans
ofanstreymt blóð!
fyrir höfuð hans
hángandi niðr,
þreitt ok af þrautum
þrúngin augu!
Ok fyrir enni
ángistarfullt,
andláts yfirbragð,
ógn ok skjálfta;
ok fyrir hróp hans
til ens hæzta Guðs,
ek, börn! undir hel
yðr blessa!

KLOPPSTOKKS

# MESSÍAS,

EINN

## HETJU-DIKTR

UM

## ENDRLAUSNINA,

AF ÞÝZKU Á ÍSLENZKU SNÚINN

AF

JÓNI SÁL. ÞORLÁKSSYNI,
Presti til Bægisár ok Bakka í Vöðlu-sýslu.

---

ÚTGEFINN AÐ TILHLUTAN
ENS ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGS.

---

9—20. BÓK.

---

KAUPMANNAHÖFN, 1838.
Prentaðr hjá S. L. Möller.

### Hèr hefr

## níundu bók Messías.

Aptr frá æðstum
Elóa kom
Drottins dæmanda
dýrðar tróni;
fór hann flöktandi,
fullr þánka
megnis djúpra mjök,
of musteris bust.
Furðu seint flaug hann
framhjá henni,
ok lángsamliga
lèt nú sveimat
sællra forfeðra
á fund við sálir,
segjandi síðan
svo til þeirra:
Biðjið með mèr,
fyrr enn mælir ek!
ek hef ákall mitt
áðr enn ræði!
flatir fèllu þeir
fram á sínar
ásjónur allir,
offrandi bæn
í ró upp til hins
óendanliga.
Með stöðgri stilli
stóðu þeir upp,
at bæn endaðri;
Elóa þagði,
ei fór honum enn
orð frá munni,
uns hann um síðir
innti til máls:
O þú, hvörn ekkert
útsegir nafn,
nè þánki þenkir,
þú hinn fyrsti!
til hans ek hóf mik,
sem heldr dóm,
ok frá augliti
til auglitis
ófriðþægðann ek
æskti líta
Drottinn í dymmu,
ok í dýrð sinni
ógnarligustu
eylífann Guð!
Ek sveif til sóla,
sólir voru
dymmar ok daprar
sem dauft rökkr,
himins hjól-ása
hvarflaði' ek til;
skilmaðist þar skin
við skugga nætr;
En hèldt ek af fram
allt at tróni,
þar meira myrkr
mik umkríngði,
ok nú enn dymmra —
ek leita nafns
sem fái fráskírt,
en fann þat eigi. —
Hvörsu niðdymm nótt
nú sik tjáði
umkríng hann, sem er
óendanligr;
eðr hvílík ógn
út frá honum
gekk ok geysaði,
get ek eigi

uppgötvað orð
til at útmála!
Ek stóð ok stríða
strauma heyrði
hvergemlis hvína
hvæsanda nið
með dymmum dunum,
fyri djúpt neðan
skorðaða sköpun,
er skalf ok þagði.
Lèt ek lötrandi
lengra sveimat;
kom þá móti mèr
morðengils kall
ens fyrsta ok fremsta
af flokki þeirra:
hvör fer, sagði sá,
sveimandi þar?
er hèr einn á ferð
endanligr?
Mèr skaut skjálfanda
af skelk til baka;
ek kraup þá orðlaus
fram á ásjónu,
Drottinn dæmanda
dýrkaði' ok bað.
Engill sagði svo,
sèr burtvendi,
ok lèt umvaf
fyrir andlit sèr.
Nú var ná-sprengðu
niðr á brjóst
at hjarta hnígit
höfuð Jesú;
sýndist þá sem hann
væri sofnaðr;
ljótr lýðs ofsi,
sem hann lastaði,
lèt nú einnig af,
sem ægis bylgjur
stilla sik strandir
storm-fríar við.
Lètu Golgata
guðdómligs vinar
rækjendr reikat
ráðvillir um,
eðr umbergis
ytstu staði,
þaðan lengst líta
Lausnarann mátti
þrúngin sjón þeirra
af þúngum harmi.
Forðuðust þeir þó
þá hvör annann,
svo at síðr þeim
fyri samræður
skyldu brjóst-benjar,
sem blæddu nú
daprar ok djúpar,
dýpri verða.
At eins elskunnar
útvaldi sveinn
ok hins elskanda
ypparlig móðir
ei sik at heldr
yfirgáfu,
við kross ens kæra
kyrr stóðu þau.
Sveimað hafði sveinn
svefnlaus umkríng,
tvistr titrandi
af trega sárum,
sá er synjaði
með svardaga
þrisvar þess,
at þekkti Jesúm,
myrkva mæðu nótt
ok morgun allann;
leitat hafði hann
hugsjúkr mjök
at ró einhvörri,
en aungva fundit!
Svo sem einn sonur
með sjáfar strönd
ráðvillr ráfar
meðal rekalda
af báta brotum
ok beinagrindum;
því hans faðir fórst
fyri bráðum

skipreika við sker
skamt honum frá;
Orðlaus arkar hann
einmana, villr
fram ok aptr ótt,
óhapps boða
fær ei frálitið,
þar faðir hans
liggr beinbrotinn
blár ok dauðr.
Loksins hefr hann
til himins upp
köll ok kveinstafi,
ok kvartar sárann:
hann sínum hafi
hjartkærum föður
yfirgefnum í
ægis djúp sleppt!
Af hrygð örmagna
orðinn Pètr
stóð hjá Golgata
á granda nokkrum,
nú lèt hann af neyð
núnar hendr,
uns þat ekki gat,
ofansíga.
En Itúríel,
sem var engill hans
til verndar valinn
voldugr Seraf,
sá hann svo staddann,
ok sætum jós
í negg hans nokkrum
næðis dropum;
þetta var þat eitt,
sem at því sinni
veita mátti vin
varðengill hans,
en þótt andi sè
ódauðligr.
Lundsár lærisveinn
fann linnn harms,
ok nú til sjálfs síns
svo komst aptr,
at hann uppleit
ok eptirskygndist
þekktar vinum þeim,
er þráði sjón
hugarfull hans
at þá hitt fengi,
er hann ávíta
áttu ok hugga.
Enn hann, sem áðr,
óhrærðr stóð,
horfði jafnt at jörð
á Jerúsalem,
því uppá háls hinn,
þat heljar fjall,
gat hann alls ekki
augum litit.
Með raun ok ransókn
rètt at þekkja
stóra stoltar borg
streyttist hans sjón,
en svo víðum váng,
sem hún var yfir,
ok svo háum hún
hreykti turnum,
lá hún sveipuð samt
sorgligum með
ok þúngt þrykkjanda
þoku skugga,
stóð þar stuggr af
ok stór ótti;
Varla svo vel
at hið víðfræga
musteri mætti
frá miklu bust,
nè Síon sjálf
frá sínum turnum
nú senda niðr
nær dauða skímu;
svo Jerúsalem
undir sorta lá.
Þá leit Pètr þó
þángat í átt,
hann sem heyrði frá
hása mælgi,
óm af orðræðum
aðkomu-fólks,

hátíðar-halds
sem hugði vitja,
flýtti forvitni
fótum skara
kross-spíttan spámann
til at sprogsetja.
Pètr arkar ört
ofan til þeirra,
ok leitar eptir
sínum ástkærum,
meðal múga þess,
sem minna lèt,
fór hann forgefins,
fann þar aungvann;
en við tal tafðist
þat er tveir hèldu
seggir samferða
sín á milli.
Einhvör ókendr
ypparliga
framandi fötum
fagrbúinn,
en þó alsvartr
í andliti,
annann aðspurði
aldraðann mann,
hvörs augu einskær
voru einlægni;
honum hèldt í arm
hjartkær sonur,
úngr, óharðr,
svo allr skalf:
En hvörn, inntu mèr —
kvað hinn útlendi —
hefir þessi þá,
sem þeir deyða,
illann ógjörníng
unnit til þess?
honum svarar hinn:
hvað? tilunuit?
Þat er þessvegna
at þeir hann deyða:
hann gaf heilsubót
hinum veiku,
fætr fót-hrumum
færa til gángs,
heilbrigðar hlustir
heyrnarlausum,
sjónlausum sýn,
einnig svo fæddum.
Frá eymd hann útþreif
audsetna menn,
þaraf ek var einn
meðal aumustu;
æ! hann aflífast
ok fyri þat,
at hann uppvakti
ena dauðu;
At hann eylífs lífs
opnuðu port
munns síns mektugum
meðr ræðum
setti fyri sjón
sálna vorra;
at hann var góðgjarn
guðdóms-maðr.
En, þú útlendi! —
í því hann nú
verðr Pètrs var,
er hann viðsnèrist —
sèr hèr einn af sveit
Sjáanda þess
enni ástkæru,
er hann útvaldi,
svo þeir hann sífeldt
sæu ok heyrðu,
þeim hann einnig allt,
þat er áhrærir
sanna göfgun Guðs,
gjörla kenndi;
Fræð þú, — sagði sá
svo til Pètrs —
mann hinn morlenzka
ok mik sjálfr,
hvar fyrir honum
hel með kvölum
gyðíngar gjalda
guðdóms-manni?
Gjör þat, guðsmaðr!
gjörðu svo vel!

ljá auðveld eyru
orðum mínum,
ok snú ei frá mèr
þínu angliti!
þú þekkir hann,
ok hann þik elskar!
ertu einn af hóp
útvöldum hans?
aungvir innbyrðis
elska sik bræðr,
jafnt sem þú Jesúm
ok Jóhannes!
Pètr snèri sèr
snöggliga frá,
eigi, þó þekktist,
því at deya
var hann viðbúinn,
ok vildi þat;
í hans innsta merg
orð sèr þrengði,
jafnt sem járn væri
þat um Jóhannem
ok um sjálfan sik
nú sagt heyrði.
Allt hvað ek, vinr! —
ansar hann loks
með ángrs ekka,
sem orð hepti —
allt hvað ek ykkr
orku' at greina
er þat einúngis:
at hann nú deyr,
æðstr ok beztr
allra manna!
hann at hreittu því
hvarf burt í ös.
En til Golgata
gengu sinn veg
allir af undrun
yfirkomnir,
samferða Samma
sonur hans Jóel,
ok með þeim maðrinn
frá Morlandi
kær þegn Kandaces
kóngsdrottníngar,
þann, er þar eptir
þvoði í brunni
háleits hjálpræðis
heilagri skírn
frómr Filippus,
framkallaðr
í þat eyrindi
af anda Guðs!
Lebbeum lángt frá
leit þá Pètr,
þar hann bjúgr beið
við björk þurra,
í stórri sturlun
stóð hann þar kyrr;
Pètr greiðir gáng
gagnvart honum,
en nú nærkominn
náir þó eigi
lundsár Lebbeus
lagsmann kenna.
Til hans talaði
tvístr Pètr
lágum málróm með
ok mjök slitnum:
hefir þú hann sèð
hánga á krossi?
at sönnu ert þú
eymd kraminn mjök,
þó máttú þora
þínum at lypta
augum opnari
enn ek til hans; —
æ, at eymd minni
gætir ílinat!
Hèr, hèr blæðir ben
brennandi mín!
eitt hljóð at eins
frá mèr ástkærum
er mèr, ef öðlast,
einka huggun.
þú hýmir hljóðlaus!
hinn þegir enn!
Forgefins fèkkst við
þat er fann hann til

í hrærðu hjarta
at hljóð eitt yrði,
ei var ásýnd hans
ómálga þó
tvist ok titrandi,
nè tár, sem runnu!
En helzt til hrærði
huggun sú lint
Símonar sál,
at hún sorg gleymdi;
með þúngum þánka
hann þaðan rýmdi,
fólk-öldum aptr
ofrgaf sik,
ok lèt straum stýra
stefnu sinni.
Hann, þegar hafði
fyri hrindíngar
einum asar hóp
útaf sloppit,
í bráðu bragði
bróður sinn leit
Andream augum
öndverdt standann;
Forðast hugði hann
hlýra sinn nú,
en hann bendti brátt
at hann burtgengi
frá mannmergðinni
með sèr lengra;
Pètr vèk sèr við,
frá vörum kvað:
æ, bróðir! bróðir!
ok breiddi út arma,
en ei svo ákaft
sem endrarnær.
Mjök mæðiliga,
sem um megn væri,
brá hann um bróður
báðum höndum,
ok um háls hönum
hèldt með ekka;
með hrygð hóglátri
honum svarar
Andreas aptr:
æ, minn bróðir!
Ek girntist gjarnan,
en ek get ekki,
æ, ek ekki get
yfir þagat!
beiskliga blæðir
í brjósti mèr
harmþrúngit hjarta
með hjarta þínu!
A meðal manna
mesta ok bezta,
í trygð trúfastri
enum traustasta,
elskufyllstum æ
allra vina,
sjálfs Guðs Syni
hefir, Símon! þú
fyri fjendum hans
frekt afneitat!
Hugarhrygð guðlig
ok helguð þeim,
er Símon áðr
afneitaði,
full þýðra þakka
þessari bróðurs
traustri trúfesti
tileinkaðra,
í hans andliti
afmáluð stóð
merkjanliga mjök,
en munnr þagði.
Fast hèldust frændr
í faðmlögum,
en þó sáu sik
sjálfir varla,
einn við annars hlið
afsíðis gekk,
hèldt svo hvör þeirra
í hönd öðrum.
Þannig leiddust þeir,
þó hvör annann
nú svo nálægt sèr
naumliga sá,
svo at síðustu
sigu niðr

hendr hvörs um sik
ok hins slepptu;
þarmeð skildu þeir
at því sinni.
Pètr á hvörn hátt
huggunar þurfi,
æ meir örþyrstr
eptir henni,
enn nú áleiðis
einmana gekk,
ei þó all-lengi,
því innan stundar
skaut at honum skelk
skyndiligum.
Tók hann at titra
er hann tvo menn sá,
þeim hann í hegðun
heiðrun sýndi;
hann fýsti fund
at forðast þeirra,
en þeir, til þess
at hann þat gæti,
voru þá þegar
þar ofnærri.
Mun vera gjör-gleymt
ens guðdómliga
meistara mætum
menta-sveini
okkr at kenna?
mælir annar svo,
en þat er Jósep
frá Arímatea;
Við ok vorum hans,
vinr Símon!
þó leyniligir
lærisveinar;
en við erum nú
albúnir til
oss fyrir öllum
opinberliga
heims þjóðum honum
háða at játa.
Virkta vinr minn,
er þú víst kennir
eðal-lyndann einn
ágætis mann,
nú hèr nærstaddr
Nikódemus,
með rèttri röksemd
fyri ráðstefnu
hefir þá þegar
þetta játað,
er hann óskelfdr
einarðliga
frambar forsvars tal
fyri Jesúm.
En ek allt ofseint,
æ, því miðr!
helzt til hugdeigr
hann meðkendi
þá fyrst, í því
at ek þaðan gekk;
nær loksins náði
Nikódemus
rýma ráðstefnu
enna ránglátu,
saurugs samkvæmis
svo eigi meir
af vondsku völdum
vanhelgaðist.
Svo deyð ok dempa,
dýrmæti Jósep! —
mæla náði nú
Nikódemus —
ena sáru sorg,
er sál þína
harla hógværa
hrellir jafnan!
þú gekkst út með mèr
ok meðkendir hann!
Tærara tára
tilliti með
hóf Jósep hýr
til himins augu:
heyr, bænheyr góðgjarn,
o Guð Jesú!
ok Guð Abrahams!
hvað ek umbið þik!
þann sem ek svo,
meðan sá lifði,

veikr var
at viðrkènna,
lát mik, hár herra!
sem hjálpar mèr,
nú at ná orðinu
meðr nógligri
hugarhreysti
fyrir heyrn ok sjón
víðrar veraldar
viðrkenna!
Þá þagnar Jósep,
þegar hans bæn
at hins eylífa
uppstèg tróni,
ok ný kom niðr
með náð sinni
í brjóst bænheyrsla
enum biðjanda.
Pètri nokkuð nær
Nikódemus
við sèr vendandi
við hann mælti:
Þú burtu þinni
þrúnginn snèrir
af sorg, ó Símon!
sjón frá okkr!
hvað þú frekt finnr
finnum við með;
sárliga svíðr
sálum okkar
hel, sem heims manna
enn heilagasta
nú tekr til
at tæma fjöri;
Eðr hefir hann
enu hinnsta nú,
ok framar öllum
óttaliga,
mórð-höggi máske
meðr lostit,
at hann öldúngis
örendr sè!
En þú, sem elskar
inniliga
þinn liðna lávarð,
lærisveinn hans!
seg oss þat einnig,
inuhell þessu
bezta balsami
í brjóst okkar,
svo okkr augu
ángrfull þín
ekki ásamt með
skuli ásaka,
At góðgjörða-mann
guðdómligann
höfum híngat til
heimugliga
at eins veikir við
viðrkendann;
en þótt allt ofmjög
ásökun þá
vissuliga við
höfum verðskuldat.
Eins sem eik nokkr,
ofsa veðri
yfirfallin af,
á aðra hlið
af stöðgum storm-gný
stendr bogin,
svo skalf nú Símon
at sjón frávendri.
En nú af ángist
yfirstíginn
byrgði hann brátt sik
ok burtu flýr,
leitar sèr lèttirs
ok lyndis hvíldar
í kvöl enn stærri;
því nú arkaði
hann at hels fjalli
hratt til baka.
Hann at fæti fjalls
með fetum þýngri
er nú áleiðis
aptr kominn;
hèr andar honum
hraðara líf,
ok nú áræðir
at upplypta

hræddum augum hann
á háann kross,
en at deyandans
ekki höfði.
Hann sá hèr standa
undir hel-trè því
ásamt, hvört öðru
ekki fjærri,
Jóhannem jafnan
Jesú kærstann,
ok hins ypparsta
offrs móður,
sem blýföst bæði
fyri bölsþúnga,
bæði orðlaus eins
ok án tára;
Einnig voru ei
allfáir þeir
Kristí kunníngjar
krossi nærri,
þeir við hann hèldu
hjartgróna trygð,
höfðu þeir honum
hinnsta sinni
gjarna gengit með
frá Galilea.
Allt hvað ótígnir
þeir at ætt voru,
lukku-láns gæðum
lítt þýngðir af,
ok virðtir vettugi
af veröldinni,
eins óaðgættir
sem aungvir væru;
Voru þessir þó
þeir, af hvörra
frómlyndum flokki
framvegis æ
hinn eylíf-elzti
allra sagna
hefir haldit við
hja enum kristnu
eptir-aldanna
allt híngat til
nokkrum nöfnum
næsta dýrmætum;
þá englar áðr
við Alvalds trón
með nýum nöfnum
nefnda höfðu:
mærin María
frá Magdala,
María móðir
merkis-bræðra
Jóses ok Jakobs
Jesú vina;
Og þú hin þriðja
með því nafni,
hennar sæl systir,
er sá hinn bezta
mönnum öllum af,
einka mög sinn,
á krossi lífláts
ens lángsamasta;
Með þeim María
mundi en fjórða,
sú móðir sona
Zebedei;
þessar stóðu þar
þeirra meðal,
sem Kristí krossi
komu hèr nær,
enn margir aðrir,
sem hann elskuðu.
Nú var fyri neyð
niðrhnígin
at mold María
Magdalena,
þyrst ok þreyandi
þess, at deya,
dýrstum deyanda
nú at deya með;
frá sleit hún sik svo
serhvörri von,
ok burt frá allri
endrminníngu
Jesú jarðteikna
sem í jötunmóð.
Hún varð hrifin
af hrygðar straumi

utan afláts,
ok ótt framrekin;
svo lá hún á hæð
ok himin fyllti
sínu sáru með
sorgar kveini.
Jóses mild móðir
Magdalenu
hugðist at hugga,
hún þótt væri
sjálf af harmi hrjáð
huggunarlaus;
tók hún til hennar
tal at hefja,
en misti máls þrótt
midt í ræðu.
Bleik stóð í birtu
blakkleitrar nótt,
klögun megnri með
mæðu sinnar,
sögð móðir sona
Zebedei;
gnúnum höndum hún
móti himninum
stritar, ok stöðugt
starir á hann:
hvört Guð hefnd sinni
vilji hót seinka?
Sinnulaus af sorg
ok svipt máli,
svo at svíunar
einnig synjat var,
andvörpum af,
þó ærit veikrar,
mætri Maríu
eigi mjök fjærri
var knè-krjúpandi
þess ens krossfesta
móður-systir svinn,
ok sveima leit
í dauða dymmu
hinn dreyra-runna.
Enginn aumkaði
þessar ángruðu
með hrygð heitari
nè hjartanligar,
enn hinn fráfrelsti
fordæmíngu,
ásamt upphengði
ýngismaðr.
En jafnvel eigi
ódauðligra,
sællra forfeðra,
fara heldr
máttu með öllu
á mis við sjón
þrautir þessara,
sem þar grètu;
en þótt fórnfærðanu
Friðþægjara
tignar-tærari
tilfiuníngar
þeirra væru víst
viður-bundnar.
Svo hafði sèrlig
sálar frelsun
mannsins, sem minnst var,
með-krossfesta
uppfyllt Abraham
eylífs lífs gleði,
at hann með elsku
inniligri
gaf nú gætr
at því gjörvöllu,
sem hann á helstund
hinustu gjörði.
Nú hrærðist hann svo
við ens helgaða
ýngismanns aumkun,
er hann svo með
sá sinnis raunir
syrgjenda frómra,
at hann óðfluga
útrykkti sèr
af þögn undrunar
allradýpstu.
Vendi hann sèr við
ok vèk at Móse,
sá er hjá honum
hugfánginn stóð,

hljóðr svo sem hann
af hárri furðu;
tók tíginn faðir
tólf-kvíslaðrar
Israels ættar
upphaf ræðu.
Mælti hann við hinn,
sem var höfundr
tíða-tjaldbúðar
tileinkaðrar
fórnfæríngum,
sem fyrirmyndun
ein var öld lánga
ens allrahelgasta,
við hann, sem handfest
þau en heilögu
lýðum letraði
lagaboð Guðs:
Um þat sem, ó son!
sjáum við nú,
þat sem, þótt fáar,
þessar stundir
okkr auglýsa,
mun um eylífðir
faðir þinn við þik
þrá-rædt láta.
Nú, með því mik
hefir megin-djúp
ok orðlaus undrun
yfirgefit,
dropa viljum við
víði þessum
endalausum af
ausa nokkra.
Þèr á Hórebs hæð
hefir sik birt,
en mèr í Mamres
mjök helgum lundi
maktar mesta dýrð
Meðalgángarans;
þá var hann þýðr,
ok þar með saungva
furðu fögrum tón
frá hans munni
guðdómligum gall
góð náðar raust;
Allt eins ljúfliga
lèt fyri mèr
ok mik inntók
með unun sætri
ræðandi raust
um ránsmann frelstann,
um minn kærann kund
kominn frá dauða.
Fagr framstreymi
fagnaðar dans
minn í Guðs gimla
gleði-saungva,
at þú illvirkjum
afrekar lausn,
Guði fórnfærði
Friðþægjari!
Hvörsu niðr nú
nálægri gröf
móti brosir mildt
maðr úngr!
ó hve nú öflug
upplífgar hann
mergð Guðs mikillra
miskunsemda!
ó hvað eylífs lífs
útbreiðir sik
hreinn ok háleitr
yfir hann friðr!
Hvörsu hrærðr hann
hjartanliga,
þó brátt aðborinn
betra lífs ró,
mjúkri meðlíðun
ena mótlættu
álítr einmidt
í andlátinu!
En at Abrahams
aflífa börn
hinn heilagasta
á himni ok jörðu,
at þau iðrun nein
ekki smeltir,
ok þau ei, sem hinn,
aptr snúa!

Æ! hvað munda ek,
ef enn hefði
dauðligr dvalir
við djúpa gröf,
hvað þeirra þá
mundi þessvegna
fjörgamall faðir
finna hljóta!
Hvað gjörla girntist,
en gat þó eigi,
göfgr Gabríel
mèr greint láta;
hrygðar-þánka þann
þú lát, minn son!
þó harla hraðann
hastarliga
fram hjá þèr fljúga,
ok svo fljótt hverfa
útí óminnit
aptr á bak!
Sá, er síðar mun
sára þessara
menjum koma með
menn at dæma,
spádóms orðum í
hefir auglýst dóm
aldar af Guði
yfirgefinnar;
hefir hún ok sjálf
hann yfir sèr
ótæpt uppkveðit
opinberliga.
Nær heiðinn höldr
vildi hann eigi
til dauða dæma,
dirfðust sjálfir
þeir þat at gjöra,
ok þannig æptu:
blóð hans yfir oss
ok vor afkvæmi
komi, svo kapp-steypt
sem vèr köllum þat!
O! at enginn þau
engill dauða
ógnarligust orð
hefði útgrafit
með hörðum stál-stýl
á stein eylífann,
ok sett fram síðan
fyri sjálfan Guð!
Sjá, ek sè koma
sèrhvörja þjóð
endimörkum af
öllum jarðar,
svo lángt sem lýsir
ljóss uppgánga,
ok sik útbreiðir
aptans skuggi;
Samansafnaðar
sèr ek þær loks
allar kríngum kross
kropnar niðr
Griða-gefandans
guðdómliga!
en mitt afsprengi
eigi þar sèst! —
Mundi máli hans
Móses svara:
ó faðir Isaks
ok Israels
ok trúar traustra
tilbiðjenda,
þeir ér, þó at fólks
þúsundum saman
skunduðu skarar
til skurðgoða,
dýrkuðu dyggvir
Drottinn Jehóvam!
Þú Davíðs döglíngs
ok drósar faðir,
sem Grið-gefanda
guðdómsmann ól,
þú faðir þessa,
sem þar slátrast
forlíknar fórn
fyrir alla!
upphef augu þín,
Abraham! sjá!
At vísu veizt þú
hvað ek votta þèr

þó er þarft ok gott
þau en sèðu
sannindi síðan
at sjá aptr;
þeir eru deild drótt
dóms ok náðar.
Guð, sem gjöra mun
þat hann gjört hefir,
sá einn er öllum
ógrundanligr,
hægri mund sem með
miskun bendir
á váng, en vinstri
voldugann dóm,
lèt þá svo setta
á sjónar bjargi,
dag-skærra ok dýrra
öllum dauðligum
jarðardupts jóðum
til jarðteikna:
At þeim sett sèu
í sjálfra valdi
kjör til at kjósa
um kosti tvenna,
daprann dauða
eðr dýrmætt líf.
Sèrhvör sá þeirra,
er með sjón heillri
er viðvörunar
var orðin bjargs,
ef hann þó eigi
á umför jarðar,
sik vel vitandi
vegferðar mann,
lítr augum ört
upp, ok lærir,
án efa sjálfr
útskúfar sèr!
Honum sè hans
yfir höfði blóð,
þá honum þaðra
til þýngri dauða
með harðri hendi
á hinn veg grafar
verðr í afgrunn
ofan hrundit!
Svo hætti Móses
sinni ræðu;
Abraham aptr
innti til máls:
máske, þegar þeir
hafa þar lengi
í stað standandi,
sem stuggafullt teikn,
loksins látið af
ljótum syndum,
því synd síns föðurs
ber sonur eigi;
Máske þá, Móses! —
yfir mik fellr
yndæl upptendrun,
ok augu mín
friðr frá Guði
frítt umbrosir —
æ! þeir enn munu
aptr koma
til ens góðgjarna
Guðsættanda,
Endr-uppreisis
alls manna kyns!
Hans, sem heiðmyrkrs
hulinn skýi
forðum leiddi lýð
um ljósann dag,
en með elds loga
um ósorg dymma
klárum klæddr
inn í Kanaan;
til þess, sem þar með
fyri þá hefir
látit líf ok blóð
laust á krossi!
Komið, ó kundar!
komið aptr!
æ, safnist aptr,
afkvæmi mín!
at þeim sem æskir
yðr frelsta!
komið til Kristum,
sem þèr krossfestuð!

til ens líflátna
Lambs Jehóvæ!
umvendið yðr
til eylífs lífs!
Hann bað, ok horfði
upp til himinsins;
hans enn hjartkæri
hann fèkk sèðann,
aldrdóms unun
ok arfi hans;
fór á föður síns
fund hinn úngi.
því honum hafði
eptir hans dauða
ýngismanns ásýnd
verit endrsett,
at hann um eylífð
eptirmynd bæri
þess ens fórnfærða,
fyrir himni.
Innir Isaak:
ek þèr, faðir!
ok þat álengðar
í andliti
þánka þína
hefi þegar sèð;
æ! þann aflífa
okkar synir,
sem sik fyri þá
sjálfan helgar!
æ! hann offraðann
aflífa þeir!
O þú eylífi
Eindæmir heims!
þú munt miskuna
mönnum þessum,
ok þá á öflgum
arnar vængjum
loksins flutta fá
til síns Frelsara,
eins sem þá útaf
Egyptó barst!
Indæl úthellir
íhugun sú
sætum sælu straum
í sál mína,
ok mik upptendrar
allann ígegn;
enn þá flýgr ein
með ótta helgum
mèr um merg ok bein
mik fyllandi.
Æ, þú veizt vel,
hvað viðbar forðum,
nær á fórnar fjall
færðir þú mik,
upp at altari;
offrs-staðr
hvervetna' er hjá mèr
heilagr sá.
þá gekk sonur þinn
þèr við síðu
fullr fagnaðar,
ok færa vildi
enum eylífa
offr með þèr;
en sem ek bundinn
á offr-viði
lá, ok leyptraði
loginn helgi
umkríng mik allann,
ok augu mín
horfðu til himins
ok heitt grètu;
þú kvaddir kund þinn
kossi síðasta;
vendir þèr svo við
ok veifaðir
blikanda brandi
bana skæðum
yfir arfa þeim,
sem þú elskaðir;
þá — en ek þegi
um þeirrar stundar
hörmuliga hrygð,
því hún er krýnd
af alda gleði
óteljanligra
sífeldt með sælu
sorgarlausri.

Æ! þess var arfi
Isaak þinn
virðtr, at væri
ennar vegligu
Guðs Föðurs fórnar
fyrirmyndun,
frábærrar fórnar,
sem fest á kross
nú á Golgata
gefr upp anda!
yfirtaks undrun
með ángri stiltu
allt mitt um streymir
ódauðligt líf!
Isaak innti svo.
Abrahams raust
á hann andaði
örlágu hvísli,
ok til sonar síns
sagði þannig:
offrum bæn-offr
hinum offraða!
Fèllu fram á knè
feðgar báðir
hvör við annars hönd
hinum sem næst;
einn þar um annann
armi vafði,
þeir gegnt Golgata
greipar spenntu;
upphóf Abraham
auðmjúka bæn:
O þú — en hvörju
ek í fyrstu
get þik göfgat
með guðdóms nafni, —
þú mikli! misverk
sem máir burt!
eðr er þat þèr
þóknanligra
at nefnast unun
allra trúaðra?
O Föðurs eylífs
eingetni Son!
æ! hvað hefir ek,
síðan ól móðir
dauðlig bezta barn
í Betlehem þik,
hvervetna í hjarta
heitu fundit?
O þú æpanda
úngbarn jarðar!
með hvörsu háum
gegnum himnana
þrumu röddum þú
þá tíð mundir
duna, nær við dupt
ennar dauðligu
lèzt á reifa regn
renna tára!
Þú sem englum ert
ógrípanligr,
þó hæðsta hafníng
þeirra há-saungva,
huldir þik hèr
meðal heimsbúa
lítilmótligu
undir lífi manns!
Varla þat, at þik
mættu þeir kenna;
gjörðirðu þat glöggt,
ok gekkst á þínum
hátt-höfnu vegum
heilagr einn,
þannig þenkjandi
um þinn dauða!
Náð hefir þú nú,
með neyð ok þrautum
stríðum, stórvægu
stefnu miði,
traustu takmarki,
til hvörs jafnan
þú í frá eylífð
ofan horfðir,
laungu, laungu fyrr
enn líf mitt hófst.
Þenna dauða þú
þèr at miði
einn gazt útvalit,
ócndanligi!

fyri frelsara,
til at frelsa mik
ok öll brotlig börn
þess, er braut fyrstr.
Ok til ólífis
er þèr nú blædt!
en vèr öptrum þó
aumkun vorri,
góði Guðmaðr!
yfir grimd kvala,
er þú útstendr
upphafinn lángt
yfir meðaumkun
endanligra!
En hins fársfulla
finnum vèr til
höggs ok höfuga,
hvörju lystr
dapr dauði þik,
sem djúpt ok hátt,
með tvistri titrun,
takmarkalausa
skekr skjálfandi
sköpunar vídd.
O! vèr einnig með
á því kennum!
Virðst oss at veita
vægð ok miskun,
eylífi' ok æðsti
Endrlausnari!
at vèr þat ofsterkt
eigi finnum!
Manneskju Mögr!
miskuna þú
þó enn framar þeim,
sem þar standa
menn verandi' á mold
henni meir skyldir
enn vèr erum!
Svo Abraham bað.
Báðir þögðu þeir,
þá snèrist við
Isaak aptr
aðspyrjandi:
hvörjar eru andir,
sem aðkoma,
þær er klár Kerúb
at krossi flytr.
Þá í því sama
var þeirra flokkr
nær krossi kominn,
sem klár morgun
hýrt skínandi hèr
höfu þær sik;
liðins líkama,
eigi lángt síðan,
höfðu þær hrörnat
við hreisi skilit.
Samansafnaðar
voru sálir þær
útaf allskonar
ættum manna,
einum heims enda
til annars frá
fljótt fortæranda
færðist loga
dáinn dupts hamr,
eða djúpri gröf.
Þær hið lægra líf
líkhams veru
höfðu, trú-hollar
hjarta sínu,
gegnum gengit,
ok svo gjör-hreinar,
sem einn maðr má
af mold skaptr;
en þeim síst var sýnt,
sendt af Guði,
nokkurt lærdóms ljós
til at lýsa þeim.
Þær leiddi, þessar
þúsund sálir,
eldligr engill,
eins ok voru
nú fullar fyrstu
forundrun af
yfir enu nýa
ok æðra lífi,
ok ákallandi
hinn almáttuga.

At þeim andliti
engill snèri;
en þeir Abraham
ok öld-feðra
fengu formerkt
þat á flugi hann
niðrhrópar hátt
til hóps sálna,
í því sama sem
þær sveimandi
næsta náttligum
náðu krossi.
Þat sem þèr sjáið
sè af yðr
með allri orku
yfirvegat
ráðs ok ransóknar
ok reynslu styrk,
sem af feikn frómrar
forundrunar
enn er yðr leyfð
til at ígrunda!
Enginn af öllum,
sem ól kona,
má, án ens mikla
Meðalgángara,
er hèr á krossi
fyrir yðr deyr,
á hinn eylífa
augum líta!
Sjálfann segir ek,
sálir! yðr
æðsta leyndardóm
eylífðarinnar!
þessi Jesús — já,
Jesús er honum
af gimli gefit
guðdómligt nafn —
offrar sjálfann sik
fyri sakaða
dauðans erfíngja
dómaranum!
O, sjáið! Arfi
þess hins eylífa,
þó mögur móður
manndómligrar —
æ! hún þar hjá stödd
hans er krossi —
varð á jörðu jóð
Jesús borinn.
Hans var lofsverdt líf
at líða ok biðja,
kraptaverk vinna,
vísdóm kenna
ok at útstanda
allskonar böl;
og hèr af hángir
sem heil keðja
allrar eylífðar
unaðsemd.
Lætr hann nú líf
fyri lýð allann,
sem á fold fæðist,
ok fyrir yðr!
nema hefði hann
frá heima sköpun,
at hann afreki,
verit útkjörinn
friðþægíngu fólks,
fèllnð þèr nú
allar saman í
eylífann dauða!
Honum hvöreinn sá
hlýtr deya,
hvörjum hjálpræði
hans er boðat,
en með illum hug
útskúfar því!
Guð, sem gjörvallt sá
ok glöggt vissi,
fyrrenn fæddust þèr,
fjörhlaup yðar,
veit, at þèr veitt
hefðuð viðtökn
hans, sem heim leysir,
hjálpræðis gjöf.
Ef hann yðr hèr
ákvarðat líf
ok deilda dvöl
hjá dupti jarðar

hefði tengt við tíð
tilkynnínga,
sem Guð lèt gjörðar
um gjöf Jesú!
Yðr, andir!
hefir úrskurðat
veranna vera,
vegna Jesú,
frjálsar frá straffi
forskulduðu
yðar afhrota;
fyrir augum Guðs
eruð þèr orðnar
ítr-þvegnar!
Þess, sem þèr sóktuð
eptir þekkíngu,
en þektuð eigi,
hefir yðar sá
gjörla litit grát
ok gætt bæna,
þær er þráliga
hafið þèr gjörðar,
Yðr af synd
til at útlosa,
svo lítit þèr þó
þenna kennduð
dróttir dauðligar
drepanda varg;
þær svo hug-heitar
hjartans bænir
yðar, þèr andir
ódauðligu!
hefir hann heyrðar
uppí himin sinn!
Bað sá þá þegar,
er þar á krossi
nú er fórnfærðr
fyrir yðr,
at þèr uppfyllíng
yðvarra bæna
ok fróun fengjuð
hjá Föður hans!
At hann í yðr
endrgræddi
brennandi benjar
af brotum yðar;
þvíat þèr voruð
fyri þeirra skuld
undum eymstraðir
til eylífs dauða!
Fallið yðar á
ásjónur fram,
þakkit honum heitt,
sem heim ber aptr
sæmd ok sakleysi
enum syndugu,
yðar mjög mikla
Meðalgángara!
Æðstum eylífs lífs
afrekanda,
píslum og plágum
sem píndr er!
þess ens eylífa
Arfa, Jesú!
og megi móður
af mold skaptrar!
Hrærð af hóglátri
hrygð ok furðu
ein ok sèrhvör önd
ósegjanliga,
ok full farsældar
fèll niðr þá,
ok Son ypparstann
ákallaði,
Enn undarliga
Endrlausnara,
Drottinn deyanda
með dásemdum,
sem þá þegar
hefði þær elskat,
áðr enn yrði
alheima hvör!
Salem ok Selíth,
sinn hvörs engill,
Jóhannis jafnt
ok Jesú móður,
sem þeir sáu nú
sálir þakkandi,
samanræddu svo
sín á milli:

Sjá, hvörsu, Selíth!
sæmdar með náð
þessar þat finna,
at þannig sèu!
ok hvörnig í þeim
eylífs lífs frið
svo skíranu skapa
enar skínandi
undir elskufulls
Endrlausnara!
Æ! nú eru þær
at eylífu
dauðligs leystar lífs
líðunum frá,
margföldum meinum
moldbyggjenda
æ at eylífu
útafslöppnar!
En vinir okkar
ástfólgnustu,
svo yfirausnir
ógrynnis náð;
jafnan gjör girðtir
með Guðs friði,
ok sem allskyns ró
hefir yfirskyggt,
verandi at vísu
vegfarendr,
enn daprar dýngju
dauðligleiks síns
tæpt vegna teiti
hafa tilfundit!
En nú — ó hvörsu
elskandi móður
vinar furðu feikn,
fullar dauða
kinnar þessar þá
þreyandi sjón
ákaft eptir gröf,
undir þessar
blóði beljandi
hafa böls ollat!
Ek finn, ó Selíth!
einneginn til
sverðsins sárbeitta,
er sálu hryggva
gengr í gegnum
grátanda vífs,
ek finn þat einnig
í mèr sjálfum!
Sèð hefi, Salem! —
Selíth mælti, —
ek þann allmargann,
sem ángr bar,
margann sá ek mann,
sem mein þoldi,
þó öngvann aumann
eins ok hana!
Finn ek forundrun
fulldjúpa þó
meðaumkan mína
mjök viðblandna;
hvör er sýn sú
megi samjafnast,
at þeir, sem elskar
eylífr Guð,
sjást þannig þjáðir
þúngu böli?
Enn þat sem þar hjá
þánka minna
stansfullra stillir
stóra furðu,
er sú holl huggun,
sem harla þrátt
sjálfr Guð sendir
enum sorgmæddu!
Einmidt þegar þeim
þvínær sprúngnu
varla var nokkr
von í brjósti,
ok þá þrá-særðum
í þeirra sálum
blæðandi benjar
brenna sem dýpst.
Ok nú, ó Salem!
æ! at verði
mín ei' til einkis
eptirlaunguu,
at Selíth sæi
syrgjendr báða

ena elskuðu
aptrkomna
Guðs í góða ró,
girnd mín er sú!
Æ! at ek sæi
nú í augliti
mildu ens mikla
Meðalgángara
hýra hugsvölun
fyri hjörtu þau
nú þeim nálæga
á neyðar stundu!
Svo mælti Selíth,
ok síst fór villt
í því sem þenkti;
þá gat eigi
viðkvæm geðgæðska
hins guðdómliga
Lausnara lengr
líknar bundist.
Jesús jafnsnart
nú á Jóhannem
ok mædda minntist
móður sína;
en nú andláti
atfram kominn
leit hann þar á þau
þvílíkri sjón
niðrvendri nú,
sem nýu með
lagaði lífi
gegnum líf þeirra,
lútanda' at lotum
ok lúð af hrygð!
Heilagt höfuð sitt
hann til þeirra
niðrhneigði nú,
sem næst hann gat,
ástar orðum þau
til at ávarpa;
hlustar glöð ok hrædd
í hæð móðir,
eins ok af dauða
hefði uppvaknat,
ok með eptirbið
óstyrkri mjök,
til þeirra' at tala
hvað tídt mundi!
Raust kom ofan at
eylífs Sonar
til sorgfulls svanna
svo mælandi:
sjá, þar, móðr mín!
er mögr þinn!
ok á líka leið
lærisveini
sagði hann: sú er,
sjá, þín móðir!
Eitt sèr til annars
elskenda beggja
snèru þessi þá
með þakklæti,
ok, sem af undran
fyrir utan sik,
felldu tíð tár
af tvistum augum.
I djúpri dymmu
deyandinn sveif
döpru Drottins
undir dóms fargi;
ok þoldi þat,
sem at þenkja til
sèrhvörja sálu
sárt viðhryllir;
Ok sem engla mál,
til at útskíra,
þrýtr þrótt ok orð,
þat er sýngr
um hinn eylífa
æ við hans tróu,
þögn með þúnglyndi
ok þaunkum djúpum
hýmdi hljóðlát
kríngum háls dauða.
Hauðrs hnötturinn
hvervetna skalf
utan afláts
í innstu djúpum,
þó var hrollr hans
heimugligri

opnum dölum í
óheyranligr,
þar sem breið-bygð lá
borg Jórsala.
Eitt sinn allra fyrst
uppstigin var
hristíng til hinnar
harðsvíruðu;
nú eigi nema
nokkrskonar
óljós ákenníng
einhvörs boða
spáði fyrifram
úr fjarlægð hefnd,
en huldri í ægi
þess ens ókomna;
þó þaut í straumi
þeirrar ólgu!
Æ! stríð hefndar on
fyrir úthelltann
dýrmætann dreyra
þessa deyanda
hjörtu greip með geig
grúa þess alls
sem um Golgata
í gríð sèr þrengði!
En hin sú hulda
hræðsla jarðar
djúpar gegnum gjár
geysilig skalf
harla hŭmleitu
á hamra fjalli,
hvört flúit hafði
til at harma þar
foldar iðrum í
Abbadóna
einmana' ok all-lángt
frá Olivetí!
Hann sat á háum
hamars tindi
ok starði stríð*um*
eptir straumi þeim,
sem fram fossaði
við fætr honum,
fylgir hann með heym
ok hlustar eptir
hvörri foss-falls reið
freyðanda straums,
er frá afgrunni
til afgrunns dundi
framslútandi frá
fjallsbrúnar hæð.
Hann fann hristíngu
hastarlíga
undir sèr eina,
sem um færðist,
kríngum hann klettar
klofnir hrundu!
allmjög ógnaði
Abbadóna
hanðrs harmr sá
hátt látandi!
svo lèt hann heitna
hristíngu fróns.
Fær þat fold sorgar
at fóstr hennar
öll í öndverðn
hefir alit mold?
er hún þreytt orðin
allra sinna
fúin barna bein
at bera' í skauti;
At hún þeim eylíf
ein skuli gröf,
nú og æ nýum
af ná þrútin,
innan óttalig,
þó hún útvortís
af blómstrum bliki
sem hið blíða vor?
Eða grætr grund
hinn guðdómliga,
æ! hinn mikla mann,
sem um miðnætti,
þat er leið, leit ek
líðanda þat,
er leið aldrei neinn
endanligr?
Hvað mun um hagi
hans líða nú?

ok hví frestar ek
öðru sinni
um hærra hauðr
hans at leita?
mun á mold uppi
mèr vera nær
hönd ens harða dóms
enn hèr niðri?
Ek fæ alls hvergi
umflúit hana,
þótt ek útyfir
allt hið skapta
færi flýandi,
fyndi sú mik!
fyri hvörn mun hans
hyggst ek leita!
Líta lystir mik
líðunar hans
orðin endalok
ógnarligrar,
ok at geta glöggt
gjörvallann þekkt
þann tákna tilburð
er mèr tídt næsta!
O ef einúngis
eigi væri
hann utan afláts
umkríngðr svo
engla skörum af
ótöluligum;
hvörsu hræddi mik
þeirra hraða sjón,
er ek flúði frá
fyri skemstu!
Ok virðtu vegsemd
ef ek vogaði
hinna himnesku
at herma eptir,
ok mik íklæddi
áræðisfullr
ljóss-engils líki,
mundu leyptrandi
eldíngar eigi
hins allt dæmanda
mèr draga án dvalar
dular-ham af,
ok í minni mynd
mik sjá englar?
En at sönnu svo
Satan breytir,
hann sem meiri með
margfaldt, enn ek,
glæpa gjörðum
hefir Guð styggðann,
hann, sem án afláts
æfir syndir,
hann, sá hinn sami
sið tíðkar þann!
Hèrmeð hulinn
í hrygðarfullu
hvervetna hjarta
hefir ek mèr
alls aungvann tilgáng
ótèrligann;
at ek ásýnd hams
umbreyti svo!
En skal ek skipta
mínum skapnaði,
á Abbadóna
at umsteypa sik?
far, þú fordæmdi,
í fár-eymd þinni!
en svo hygðumst ek
ekki at fara,
ok um endalok
ei vita neitt
píslum öllum af
undarligastra!
því hvörsu þylda'k
þá at finna
gegnum gángandi
Guðs engla sjón,
án þess ek undan
yrði at flýa?
hann þenkti þannig
ok þeytti sèr,
en þótt efandi,
upp úr dupti.
Naumast hafði hann
hauðrs efra

fætr festa
fyrr á dupti,
enn hann hrökk af ógn
aptr á bak;
því með þykkri nótt
þúngrar skelfíngar
sá hann sveipat frón
fyri sèr liggja!
O hvílíkt ofþúngt
ótta myrkr —
hugsar hann með sèr —
'um hærstann dag!
hvört mun hauðr þat
hörðum dómi
til at taka við
tímabært orðit?
á nú fold til fulls
at forgánga?
Öll hins eylífa
ógnana þýngð
á henni hvílir,
ok hardt gripin
er hún af armi
hins almáttuga,
sem henni hegnir!
en hvarfyrir?
Hefir hennar skaut
hörmúnga-mann
enn undarliga
í sèr grafit?
heimtar Guð hann nú
af hennar sonum?
en mun möguligt
at hann missi líf?
Hvört sem ek horfi
hug minn trublar
nú hvör nýr þánki,
sem í negg flýgr,
mundi mèr því hitt
miklu betra,
at ek fljótt fari,
fundar hans leiti,
sjái sjálfann hann,
ok af sjón læri,
enn hèr við hýma
heilabrot einn.
Hann at hugfestu
enu hèr sagða
á fagr-fextum
fjallstoppi stóð,
skimaði ok skygndist
í skýlu rökkri,
lengi leitandi,
lètt-fleygri sjón
hinnar heilögu
höfuðborgar!
Hana leit hann loks
liggja fjærri
sem rofnar rústir,
þeim er raka ský
með svörtum sudda
sveimar yfir!
ok nú tók hann upp
engil-mynd-ljóss,
þó skulfu þá,
er hann þat gjörði,
öll hans af ótta
aflvana bein!
At vísu var þat
sú en vegliga
úngdóms ásýnd,
sem í öndverðu
borit hafði hann
himneskum á
friðardals foldum
fagr-skreyttr;
þó var líkan þat
at þessu sinni
ekkert annat
enn apaligt spil
eptirhermum af
allfjarstæðum
laungu liðinnar
ljóss fegurðar.
Fèll um herðar hans
hár at sönnu
forkunnar fagurt,
ok flugs vængir
gullnir gullu
undir gló-lokkum,

kostuliga klár
komanda dags
bjarmi breiddist
um brúna slóðir
svo búins Serafs,
samt í augum
enn sátu eptir
ángrsfull tár!
Ok nú upphóf hann
óttaligt flug,
þángat, sem þykkvust
þá yfir fjöllum
niðrgrúfði nótt,
nálægði sik,
en drjúgast dundi
at dauðans hálsi
frá hljóðum himni
húmfull gríma.
Sem hann sveif at strönd
við sæ dauða,
öskra heyrði hann
hátt risit bif
af ægis ólgu
óvenjuliga,
en með öskri því
æðandi bylgna
fylgdu köll ok kvein
kvalinnar mjök
í eymdar ofraun
örvæntíngar!
Jafnt sem þá jörðin
jálmandi skekst,
ok einhvör borga,
eyðileggíngar
dómi fullfergðra,
enna forherðtu
ein meðal orðin
íllt gjörenda
sökkr sjálfdæmd
þegar sígr fold,
þá með þjótandi
þrumu slaga
dymmrödduðum dyn
djúprar hefudar,
foldar fylsnum í
sem fólginn var,
ásamt uppstígr
ýlfr-raust dauða!
Eitt sinn verðr enn
ókyrrt hauðr,
ok með því enn nú
einusinni
vigð, en vanhelguð,
viðrgella
musteri, mölvuð
marmara-hús,
ok til innbúa
andvaralausra
dymmar ok daprar
dauðans raddir!
fölur farandi
flýr ok hrópar!
I senn at eyrum
Abbadónas,
ásamt með ærslum
ægis dauða,
kom böl-org beggja
enna bann-dæmdu;
þekkir hann þat glöggt,
þar við skelfist,
ok á rás rennr
reykanda flugs
fælu-ströndum frá,
af svo ferligu
vesældar veini
vídt glymjendum.
Ok nú engla hríng
at færist hann;
brast í brjóst honum
bráðr ótti,
þann ei þvíngat gat,
þá er fullann
himin-skærann hríng
horfði nú á
ennar ófölinu
engla mergðar!
Brádt hefði hráðnat
sú hin bjartleita
ásýnd hans aptr
ok umhverft sèr

í afskræmandi
ómyndar sorta!
ei sáu englar
ytst staddir hann;
Svo voru sokknir
sinnu-fángnir
þeir í þess skoðun,
sem þar leið hel
ærit undarligt
til at afplána
allar heims alda
yfirtroðslur.
Einn sá Elóa
hinn aðkomanda,
þann hann þekkti skjótt
þenkjandi svo:
ó Guðs útlagi!
vill einn slíkr
sí-kafinn Seraf
sorgar veini
kappkosta at sjá
þann hinn krossfesta?
þeim, er hann áðr
á Olivetí
sinni þjáðann sá
sárustu kvöl,
hann enn nú aptr
eptirleitar!
á hve djúpt er hann
í eymd sokkinn! —
lðrun smeltr af
æfinliga
nýstandi' ok næsta
niðrlútri!
hartnær síðan hann
hófst í sköpun
óþverranlig í
útflotinn tár! —
O Guð, sem yfir
alheim dæmir!
þú munt leidt láta
til lykta víst,
allt hvað um hann
hefir álýktat!
ok ek yfir hans
útförum nú
hvörsu mætti mik
makliga furða!
Hvört er eigi hann,
fyrir hvörs sköpun
allir urðu til
ódauðligir,
kvalinn á krossi
Kristr Jesús,
at hann útstandi
eylífann dauða
ok mjök megnt þoli
mannkynsins hel?
Fèll á sitt andlit
Elóa niðr
bljúgu brjósti með
ok haðst fyri,
grúfði hann ok grèt
guðdómligum
lágt liggjandi
fyri líðanda.
Aptr uppstaðinn
einum bendti
hann af her engla;
helgr Seraf
strax á sömu stund
stóð fyrir honum;
orðum Elóa
ávarpar þann:
Fljúg á fund engla
ok feðra sálna,
ok þú skalt þannig
við þá mæla:
nú sik nálægir
neyðarfullr
með efa ok ótta
Abbadóna!
Svo framt sem hann
yðar safnaðar
vogar at vitja,
varnið eigi
ángruðum anda
yðvars fundar;
þvíat hann þráir
með þraut ok tárum

Meðalgangumann,
meðan andast,
guðdómligann glöggt
at geta sèð.
Aptri því enginn
honum atgangu,
engi bortbjóði!
bölfulla þá
bölslinnn beygðum
hanuið eigi!
ótal illvirkjar
argari enn hann
þenna Kristí kross
kríngum standa.
Með ofboðs ótta
Abbadóna
skalf kríngum skæra
skara af englum;
ýmist efaði
ýmist flökti,
stundum stóð hann við,
ok á storðar grunn
lèt seint sveimandi
sígast niðr!
Gjarnann hefði hann
hörfat á braut,
en með þánka þeim
sèr þor efldi:
enginn almáttkum
ómáttkari
fólks Forlíkara
fjöl-þyrptann svo
himins engla her
hátiðligum
kann í kransi
hafa kríngum sik.
Ur hans efasemd
áræði varð;
í hríng sèr ægann
lèt hann innsveimat;
sèr viðvendandi
varð áskynja
sæl engla sveit,
þegar sá hann strax,
hræðslufullrar hans
ham-breytíngar;
Dauð ok dáðlaus bros,
dular-glansi,
sá er síst nokkri
sælu þó skein,
þúsund ára þrá
ok þánka gremja,
með eymdar ángri
ósigranligu
auglýstust englum
hjá Abbadóna.
Hljóðri hugaumkun
hann lètu þeir
frjálsann fara
ferðar sinnar;
nálægist hann nú
ennm nátt-ferðða
hegníngar hálsi,
ok hèr fèkk litit
hina kross-kvöldu;
komst hann svo við,
at með ofboði
undan snèri.
Nei, ek vil ekki
á þá horfa,
andlit deyenda
vil ek eigi sjá!
ofdjúpar undir
gjörir eymd þeirra
ok hörð harmkvæli
hjarta mínu!
Heinda þau helzt til
hryggiligum
megin-böls myndum
mèr fyri þánka,
ok á móti mèr
mæla þúngar
helzt til hátt
fyrir hans eyrum,
sem einn allt dæmir,
áklaganir!
Því at nú þegar
þetta svo stutt
afvendt augakast
allra snöggvast

á undir þeirra
gegnum allann mik,
æ! með ángistar
ofsa brennr!
Sam-undirorpnir
óhamíngju
menn, ok samsekir
svo í glæpum,
at fyri sót-svört
syndara verk
yðr ofþvínga
egin bræður,
fyri sólar sjón
sik til at deyða,
með höfgum hætti
sem hátíðar dags,
í augsýn aldar
ótöluligrar!
O nei, augu mín
ei' skulu sjá
þessa, sem þannig
þèr nú sendit
fargandi fúa
til at foreyðast,
með rèttum rökum
eða rángri grimd!
En ríf röskliga
reyrðr í kvöl
þik útaf þánka
þessum dauða,
útaf umhugsun
ángistarfullri
þess ens harða hels
hríf þik lausann!
Hvar fæ ek fundit
þann finna vil?
hvar eptiræsktann
fæ ek uppgötvat?
eru víst eigi
ófyrisynju
allir upphimins
engla skarar
eðr til einkis
ofan-stignir,
umkríngendr æ
eru þeir hans!
Hèr er hann þessum
á helga stað;
en hvar á honum
er hann staddr?
þakti grasgarðinn
Getsemane,
þá er þar var hann,
þykkvust dymma;
Nú streymir hún hèr
um höfuðskelja
enna afteknu
illvirkja stað;
en at hann sè hèr
hugsast eigi;
ó! at hann engill
einn sýndi mèr!
O! at dirfðumst ek
eptir at spyrja,
ok hann svo engill
einn sýndi mèr!
ef þeir mik at eins
eigi þekktu
af ógn þessari,
sem mik á fellr,
hastarligri hrygð,
sem hrellir mik,
ok mèr byðu brátt
burt at flýa!
O nei, mik merkja
megu þeir eigi,
í dýra ok djúpa
dásamligann
þánka gjörgrafnir
guðdómsmann um,
sem þá sendi til
sá er dæmir!
Æ! hvar er hann þá
helzt at finna?
mun hann máske nú
musterisins
inniluktr í
allrahelgasta?
er hann þar enn nú
aptr á bæn?

Eðr gefst aungvum
endanligum
lengr at líta
líðanír hans,
nè drjúgt dynjanda
dreyra sveita
af hans andliti
optar at sjá?
En þó er augum
athugasömum
hinna himnesku
á háls þenna
miklu meir starsýnt
enn á musterit;
ef ek annars sè
hvað þeir áhorfa.
O já, svo ertú,
hinn útskúfaði!
nú orðinn næsta
niðrlægðr,
at þú ei þorir
þín full af skömm
ok óvirðíngu
augu at hefja
til þeirra' er trúa
sik tjá Guði,
en þótt áhættir
uppljómaðri
þik í þeirra mynd
þeim at sýna!
Hvað þá? á hálsi
höfuðskelja?
máske þrautir þær,
sem á þessi jörð
ásett hefir hann
hèr at líða,
hann þar úteudi,
sem íllvirkjar,
vissustu vitni
um hið vonda fall
dauðligrar dróttar,
deyddir verða?
Hèr máske meðal
manna beina
hinn guðdóms göfgi
gjöri nú bæn
svo djúpt í dupti
til hins dæmanda?
hèrfyrir hlýt ek
á heljar-fjall
augum mínum enn
aptr venda!
Vendir hann þeim við
í vetfángi;
þvínæst sveimar þó
þvert til hliðar
tæpt teygðum vængjum
heldr tómliga
at láði, lengi
leitandi þar
með skjótt skimandi
skörpum augum
á allar síður
undir krossum.
Þar fèkk hann fundit
fyrst Jóhannem,
ok lèt augu sín
eptir fylgja,
líkt sem leiðtoga,
lærisveins sjón,
þángat horfði hann,
sem hún vendi.
Ok hinn offraði
fyrir illvirkja
hèkk í nauða nótt
næsta dymmri;
líkt var at líta
sem hann leitaði
grannt eptir gröf,
ok girntist hana,
með sjón sortnandi,
sèr til hvíldar!
Nær sèr fyrstu fèkk
felmturs hviðu
útaf uppstritat
Abbadóna,
þenkir hann þannig:
þat er — ó nei! —
í minnsta máta
eigi möguligt!

Er þat öldúngis
ómögnligt!
hann er þat ekki!
at hann deyi!
ætli þat engi,
sem ekki stendst;
engi hlutr er
ómöguligri!
En hvað dirfist ek,
ó þèr himnar!
til at telja mèr
trú um at sè!
ei' mik svíkr sjón,
ek sè hann víst!
hann er þessi þó,
sem þar hángir!
Æ! hann er eflaust
einn hinn sami
er ek sá áðr
við olífufjall,
þann ek líða leit
þat liðit hefir
aldrei nokkr einn
endanligr,
hann er þat eflaust,
hann er offr þitt,
þú alls eindæmir
óblíðkanligi!
Nú sèg hann neðar
ok nær fjalli;
hyggst ek hèr bíða —
hann þenkti svo —
djúpt við dupt jarðar
eptir dóms lokum
öllum dómum af
undarligasta,
ok, sè þess auðit
endanligum,
sjá enn sárt-kvalda
sakleysis-mann
guðdómi gæddann
gefa upp anda!
Hvað er þat í mèr,
sem eins ok ró
vinnr bilbug
á böli mínu?
er þat ördeyfa
ángistarinnar?
hvörnig helzt þá?
eða heilbrygð von,
allrar vonar vænst,
at verða at aungvu?
O, tæl mik ekki
mín einka von!
þykir mèr, sem þess
ek þori biðja
dýrstann dómara,
at hann deyði mik,
ek svo öldúngis
ekkert verði!
mèr finnst sem muni
mín heyrast bæn!
O! nær á nástund
hefir niðr hneigt
sitt heilagt höfuð,
þú heims dómari!
hinn guðdóms göfgi,
sem gistir kross;
ok þegar þú,
sem þess hefnir
at vèr allra fyrst
illgjörð skópum,
ok síðan svikum
til að syndga menn,
eyðir nokkrum af
illvirkjum þessum.
Þegar þú, vígða
þá sem hel-fórn,
þíns ens *líflátna*
lætr skugga,
ok þá gröf gefna
gjörir at aungvu,
fráskil þá með þeim
þú ok svo mik,
sem er sèrhvörjum
meðal syndara
æ útskúfaðri
Abbadóna,
at þú offrir mik
enum dauða!

Æ! þá er ek til
aldreigi lengr!
upp frá því finn ek
eigi framar til
nokkra náttligra
neyðar loga!
ek var til áðr,
en eptir þat
er ek öldúngis
undirgenginn.
Af röð útskafinn
allra vætta,
orðinn at anngvu
aldrei til meir!
engla hvörjum af
öllum sköptum,
af Guði gleymdr
gjörsamliga!
Sjá, ek útrètti
almætti þínu
mitt höfuð móti,
máttugi Guð!
virð mik þess, vísir!
sem veröld dæmir,
at þíns almættis
áhræríng leynd,
eðr eldíng þess
á mik fallin,
skjótt mèr skjóti burt
úr sköpun þinni!
Þannig þenkir hann
ok þess óskar,
meinandi' at mundi
mega vona;
viðgleðst von þá
ok verðr skelfðr;
hvarflar at hauðri,
ok á háann kross
byrgðann með blóði
bregðr augum,
til Lýða-leysis,
sem leið þar dauða!
Ok við ánga-svíf
óðfluga hvört
hugsar, þá ok þá
þessi muni
hinn guðdómligi
gefa upp anda!
einnig í sama
yfirfèll hann
við hugsun hvörja
hrylligri
ógn af tortýníng
tilveru sinnar!
Sveipaðr sorta
sjáanligum
stóð hann, streyttist við
ok styrks neytti,
sem hann mest mátti,
móti honum
at fá framhaldit
enni fögru mynd!
Þá er hann þreytti
þessa streytu,
ok sèr vendi við
vafinn ótta,
hann allt í einu
Abdíel sá,
samskaptann sèr
ok sífeldt kærann,
en nú orðinn sèr
óttaligann;
í leyptrs ljóma
eigi lángt frá sèr!
Sveima sá hann þar
Seraf þenna
hægra megin hjá
hæðstum krossa
einum mark-mesta,
sem í miðit stóð,
hinum hvervetna
hræðiligri!
Englar umhverfis
alskínandi
voru honum hèr
huldir dymmu!
honum heil sköpun
var helzt til þraung!
slík ángist inntók
Abbadóna,

at hann af ástvin
yrði kenndr!
Allt hvað í honum
ódauðligt var,
allann eðliskrapt
öndum gefinn
saman heimtir hann
hratt til baka,
at hann Abdíel
ei' fengi þekkt!
Með feikna flýti,
svosem fjarlægum
hann frá heimum
til heima fjærri
væri gagngjört
af Guði sendr,
ok ei dirfðist dvöl
at drýgja á jörð,
hann at Abdíel
sèr ótt vendi,
ok vatt fram við hann
vængjuðum orðum:
Kynn mèr, kæri vin!
sem kannske veizt:
nær mundi miklum
Meðalgángara
dæmt vera', að deya?
dyl þat ekki!
mèr at flýta för
fyrilagt var.
Ok ek einneginn
æski þessa
heilögu, háu,
hræðiligu,
af æðstum Guði
útkjörnn stund,
hvar sem helzt ek er,
hátíðligri
trúliga at tigna
meðr tilbeiðslu!
Augum afvendtum
Abdíel stóð;
en nú aðsnèrist
útlaganum,
ok með alvöru,
sem ángr mýkti,
ansar einúngis:
Abbadóna!
Eins ok æskumanns,
þann er æstandi
lostin lætr reið,
litr dauða
fagurt andlit í
uppstígr skjótt,
allteins í ásýnd
Abbadónas
afgrunns neðsta nótt
nú uppstreymdi!
Hinir heilögu
sáu hann allir
af dökkvum drúnga
dymmann verða;
hann fór af hræðslu
ok af hrygð lostinn
útaf ægum hríng
óðfluga burt.
Harla fjarlægt hann
nær við himins skaut
hálsi nokkrum hjá
hætti flugi,
kom hjá hæðinni
hins vegar upp
skjálfandi skuggi,
skammar sorta
allr meir orpinn
enn Abbadóna.
Sáu hinir hann
himna búar,
innti einn þeirra
við annann svo:
hvör er sá frá hæð,
sem hèr kemr
útskúfaðr einn
oss á móti?
Hvörsu hefir hönd
ens harða dóms
bófans brennimerkt
biksvart enni?
ok hvað afskræmdann
eylífr dauði

gjört hinn glataða
Guðs útlaga?
þó vogar vesæl
vofa sú enn
at fara' á flótta
til flokka vorra!
En mik undrar þat
ekki nú meir;
sèrðu, sæli vin!
Seraf þennann,
Obaddon engil
ypparligann,
sá vondri vofu
hefir vald yfir,
sem er svikarans
svartr' andi?
Flutti dæmdann draug
dauðans engill
nú upp at neðan
ok nær krossi;
allir upphimins
ítrir skarar
sán svikarann
svo sem hann var,
díla dökkvastann
dymmrar nætur,
sem nú hèkk niðr
yfir naktri jörð;
Olganda af ángist,
eins sem honum,
hvar sem sveimaði,
sífeldt yfir
væru viðbúnar
voldugar þrumur
til at tendra sik,
töpunar bál,
en jörð at opnast
undir honum;
Hinar hefnandans
hegníngar eldi
ofan yfir hann
til at útskjóta,
þessi, hann með heipt
hinna líkri
allann í einu
til at uppsvelgja.
Svo á sik kominn
svikarans' skuggi
neyddist at nötra
nálægt krossi;
ok hlaut at horfa
hræddum augum
æ á Obaddon
fyrir ofan sik,
ei mátti' hann annat,
engil dauða.
Eins sem Obaddons
ógnarlig hönd,
ok hjör í henni
hátt blossandi
skipaði at skugginn
skyldi fljúga;
svo flaug fals-bófi
fordæmdr nú.
Nam með nötrandi
níðíngs vofu
ský-hvol einum á
Obaddon staðar,
ok með ráðríkri
raust honum bauð,
svo segjandi
harla svip-styggr:
Horf fram til foldar,
þú hinn fordæmdi!
þar er bygðar ból
Betaníæ!
hèr kanntú kenna
Kaífæ rann!
hèr undir hús þat,
hvar þú einnig
meðtókst minníngu
Messíæ dauða!
Hèr er grasgarðr
Getsemane!
lít ek hvar liggr
líkami þinn!
skekr þik skjálfti?
skjótst ei undan!
at freista flótta
er þèr forgefins.

Hann lèt á lopti
loganda sverð,
ok nú enn framar
innti þannig:
hinn nakti, negldi
á náttligastann
kvalræðis kross
er Kristr Jesús!
Sjálfann sik Guði
fyri seka menn
hann fórnfærandi
fjör sitt lætr,
svo þeim með sínu
sætt fái gjört
helgu lífláti
líf ok dauða!
Þá frá þeim dauða,
sem þik kvelr,
enum eylífa
til at útleysa,
ok þá svo aptr
upp at hefja,
at geti glaðst við
guðdómsins sjón!
En þessar undir,
hvar af útstreymir
bezta fórnar blóð,
sem blíðkar Guð,
munu síðar meír
mjök skært ljóma
í klárum krapti,
þegar kemr hann
hár ok heilagr
heims dómari!
en þú vend þèr við
vofa ens dauða!
Undir örvílnun
ærit bjúgri
vendi sèr þá við
vofa ens dauða;
af hríng heilagra
hrakligum draug
Obaddon óðar
mundi útryðja;
þegar svifu þeir
í þyrpíng stjarna!
Skelfði skæðann vom
sköpunar vídd,
er hann útyfir
ei fèkk litit,
þó nú þegjandi;
en þánki nokkr
bráðari beit hann
beiskari kvöl,
at hans umdæmir
væri allstaðar!
Lengi hristist hann
hræddr ok skalf,
uns við engil hels
uppkveða þyrði:
þú allra engla
ógnarligasti!
æ! með eldligum
eyðilegg mik
þrumu þeytanda
þessum brandi!
æ! lát mik ekki
fyrir eylífann
dómara dreginn
nè dýrðar stól hans!
Hlýð ok hald saman
hvopti þöglum!
ansar orðum hans
engill dauða,
rak hann reiðari
ráðlausann draug
eptir sem áðr
óþyrmliga!
Stóð við um stund,
at sterku boði
Obaddons engils,
á einni sóla
útflæmdr andi
Iskariots,
ok þar hjá honum
hinn sem flutti;
Sá hinum saurga
sýndi í fjarska
gjörla guðdómsins
glæstann himin,

sjálfs Guðs dýrðar sess
sýniligustu,
skírrar skoðunar
skærast sæti;
þótt í þann tíma
þekti sinn tróu
dýrstr dómari
dymmu helgri,
ok hvört eitt himueskt
Halelúja
lífsins eylífa,
með lofsaungum
hinna heilögu
hann allt um kríng,
ok þeirra unun
allri þegði;
En þó var alltjafnt
aungvu minnr
himininn himin,
ok eus háleita
guðdóms vel verðugt
veldis sæti;
ok hafði einnig
af unun sinni
ei hið minnsta mist,
sú mönnum er
öllum æ jafnan
óþenkjanlig,
fyri þá fyrstu
enna fullsælu.
Innti Obaddon
við hinn útrekna:
hèr sèr þú himin
helgasta Guðs,
sjálfann sjónarstað
enna sælustu
ok allra æðstu
opinberana,
hvörjum sá sæmir
sína elskendr,
sem einn er öllum
ósegjanligr!
Hulit hefir nú
enn hæðsti Guð
auglit sitt öllum
endanligum!
annars birtist oss
alltíð hans dýrð
á hans hátignar
heilögum tróni;
Hvör nú er næsta
með nótt hulinn; —
fall, þú fordæmdi!
fram ok titra,
ok þik ofrgef
örvæntíngu! —
já hann er hulinn
heilagri nótt,
þvílíkri sem þín
þessi nýu
augu aldregi
enn hafa sèð!
skugga, sem skelfir
skepnu hvörja!
Hitt fjall himinsins
heitir Síon!
á því birtist opt
sá frá öndverðri
veröld er veginn
vegna manna,
fyri frómri mergð
fullkomnaðra,
með sinnar mildi
mikilli fjöld!
Þeir gladt glausandi
gullstólar tólf,
er á Síon sèr
sólum líka,
eru ætlaðir
frá öndverðu
hans, sem leysir líð,
lærisveinum,
af hinum æðsta
sem endrgeldr.
Eittsinn upphafðir
á þá stóla
hans helgir sveinar
munu heim dæma,
vit þat hinn vondi
vèla-smiðr!

þú varst líka lífs
lærisveinn hans!
Væl ei, at verðir
at vettugi!
væl þitt vettugi
verðr þèr at!
sjá þú! svo margar
sem þitt auga
getr götvað upp
gimla dýrðir:
svo mikla mergð
hefir mælt þèr út,
þú gjör-glataði!
Guð af kvölum!
Forgefins forðast
fastliga þú
at rennir augum
upp til himins,
veikt ok vanburða
vesældar hljóm!
lær at þekkja þú
þess sem dæmir
öflugt almætti
ósigranligt!
Líkr digrum dráng
í djúpum sjó,
þann er alls enginn
orkar at hræra
stormr úr stað,
skaltú standa hèr,
ok horfa á himin
þèr til hrellíngar!
Jesús Kristr kvelst
ok á krossi deyr,
svo hann í himin
hefji þenna,
ok ró eylífrar
unaðsemdar
um síðir alla
sína elskendr!
At þessum orðum
úttöluðum
Obaddon aptr
yfirgaf hann,
ok flaug enn lengra
uppí hæðir;
nam hann nú staðar
á nokkri sól
ens háa himins,
ok hèr baðst fyrir.
Brátt til baka
eptir bæn sína
fór hann ok fann
þann hinn fordæmda,
sem þar stóð staðkyrr,
starði' á himin
ok fann nú í sèr
eylífann dauða!
Vend þèr, dauð vofa!
til vegar! kom!
færir ek þik fljótt
í fúlt helvíti,
hvar þú heimili
hèðanaf skalt
eymdarfullt eignast
eylífliga!
Eins ok reiðar raust
rammefldasta
mundi málrómr
morð-engils nú
ógnarligr út
orð þau grenja,
ok þusti þegar
þaðan af stað.
Því neðar niflheim
nálguðust þeir,
þaðan móti þeim
þó í fjarska
uppbrutust öskur
ok ill læti,
sem skullu ok skræktu
sköpunarinnar
ytstu bökkum í
svo undir tók,
ok nam neðsta grunn,
næstu stjarna;
Veltir víti sèr
viðstöðulanst
upp ok niðr æ
í því rúmi,

er hinn eylífi
útmældi því
innann alvíddar
óendanligrar.
Aungri fer þat at
orðu skipun,
ei' lýtr lögum
um lángsamann
nè heldr hraðann
hræríngar máta;
er þat sem óðast
alltíð á ferð.
Svo því hár hefnir
hefir boðit,
at hann alltíð ný
óhæfu verk
þannig gjaldi þeim,
sem þar búa,
með æstum eldi,
ok eylífs dauða
meir skerptum skeytum
til at skaða þá!
Flugu þeir nú fram
með flýtis æði;
fordæmd forinuja
enum flytjanda
maktar engli með
merkjum heima
endilaungum af
alla leið svam
at púka pælu
porti niðr.
Dauðans engill einn,
sem þat atgætti,
allskjótt Obaddon
á bar kennsli,
ok sá atkominn
ódáðamann,
sá er hjá honum
hýmdi hjúgr,
kvalinn af kappi
til at komast burt;
en undir eggjum
eldligs skjóma
hlaut hann í hlykkjum
at hlaupa fram!
En Seraf settr
yfir sagðann stað,
voldugr vörður
vítis djúpa,
hratt upp með hrykti,
svo heyrðist lángt,
díblissu dyrum
'af demanti.
Hefði háfjöllum
verit hlaðit þar
mundu þau ei þó
þennann hafa
uppfylltann inngáng
ógnarligasta,
heldr hann at eins
hrjónugra gjört;
ei fór Obaddon
áleiðis lengra,
hann nam hèr staðar
ok hinn sá dauði.
Engi liggr leið
ljótum vítis
undirdjúpum at,
urðarlig björg
velta sèr þètt þar
at þess porti
ofan, svo enginn
útyfir sèr,
öll af ádropnum
eldi sprúngin.
Svarlaus, svimandi
með svip bleikum,
ok augum allmjök
úttútnuðum,
eins sem eirðn' þau
ekki í höfði,
horfði hèr niðr
hræðslufull ógn.
Hann, sem af hendi
hefndar-straff Guðs
leysir ok leiðir
til lykta fullra,
stóð nú þar með þèr
við þröm grafar,

hvar ei sefr hel,
þú til helvítis
útflæmdi Júdas
Iskaríot!
glötun gjör feldi
guðníðíngr!
Sagði þá Seraf
ok sèr frávendi,
en dör dettandi
til djúps vissi:
hèr er hæfiligt
hús fordæmdra,
hèr skal hèðan af
heimili þitt!
Uppá þat at öll
eigi skuli
jarðar borin börn,
brotligir menn,
eins hèr útstanda
eylífann dauða,
deyr enn kross-kvaldi
Kristr Jesús!
Hann sagði svo,
ok með sama hratt
enum dæmda draug
í djúp niðr!
hverfr sem hraðast
út af helvíti,
ok flýgr gagngjört
gegnum heima,
Uns hann kom aptr
altaris til
hans, sem fórnfærðist
Föður, Guði,
Golgata fjalls,
þar Guðs Sonur dó;
nam hann nú staðar
ok nýum beið
óblíðs almættis
eptir boðum.

---

Hèr hefr

## tíundu bók Messías.

Alltid meir ok meir
mínum vegi
ógrligum á,
sem ek ýtumst fram,
kem ek nær ok nær
neyðarfyllstu
andláts atriði
eylífs Sonar.
Ef þat ei væri
Elsknunar dauði,
hvörjum hún í frá
heims byrjun dó,
munda'k máttþrota
á miðjum vegi
uppgefast undir
ofr þúnga,
svo háleits hlutar
hugleiðíng' af!
Birtist botnleysi
á báðar síður!
á hinn vinstra veg
er vari sá:
at ek ei skuli
með ofdjörfu
geysi gala ljóð
um guðdómligann!
en á hægri hönd:
hátíðligum
víst með verðugleik
skal hann vegsamast

af mèr, sem aska
er þó ok dupt!
O þú, hvörs æðum
út af streymdi
þar á Golgata
guðdómligt blóð,
ok hvörs eginlig
allstaðar-vera
á allar síður
hefir umkríngt mik,
þú rausakar þel
þánka minna!
Sèrhvað eitt sèr þú,
sem ek þenki,
ok þat álengðar
eins sem nærri;
jafnvel ekkert orð
er mèr á túngu,
at þèr ekki sè
algjörla ljóst!
Minn Guð! sem misverk
fyri mik bættir!
leið þú mik, ok lát,
Lausnari minn!
mildiliga mèr,
næreð minn rasar
fótr á ferli,
fyrirgefit!
At eins skímu skin
þíns skæra ljóss,
ok af náðar nægð
nokkr drópi
er þeim, sem þráir
eptir þekkíngu,
ok þeim sem þyrstir,
þarfar fyllíng!

---

Frá tignar tróni —
þar hin tærasta
annars sýndi sik
sjáanlig prýði,
en nú nið-dymmum
nóttum hulin
stuggvekjandi stóð
í stakri fæð,
ok þann umhverfis
ódauðligr
helgihöldum
eigi hreifði neinn;
Nema hvað neðstu
nú frá horfði
titrandi tröppu
tæpustu brún
helztr hel-engla,
sá er hátt mændi
auðmjúkum augum
meðr áköllun,
stóð á knjám stirðr
af stórri bið,
ok af harðri hrygð
hendr nèri —
Frá tèðum tróni
meðr tilvendtu
æðstr augliti
ofan horfði
jafnan Jehóva
til jarðar nú
á Griða-gjafa
guðdómligann.
Gegnum glærra mor
glaðar sólir
ok ens dekkra dupts
dröfnur jarðar,
gegnum gjör-dumba
geim náttúru
niðr horfði hann
háleitri sjón,
er sá einúngis
undirstaðit
ok fundit fèkk,
sem hún flóði til
út frá augum
þess hins eylífa!
Kendi krossfestr
Kristr Jesús
síns Föðurs sjónar,
sem hann dæmdi;
ok vissi vel
at hann var ekki

enn nú ásáttr
orðinn til fulls!
Þat hann þekkti glöggt
ok á því kenndi
með ógn og áugist
ósegjanliga;
gegnum-nýstr neyð
nálægs dauða,
ok af ótta
fyrir ofraun hans!
Hristust af hrolli
heimar allir
í fylsnum fjörs síns
enum fólgnustu!
ógn stóðu stærri
sturlun ok þögn
umkríngðir allir
ódauðligir,
Tára-tvista við
tilfinníngu,
sem nú gegnum gekk
Guðs Son allann,
ok með aukinni
andláts bleikju
uppstèg í andlit
ypparligt hans.
Hnigu sjónar svif
Sonarins augum
döpr, dvínandi
dauð-þreyttum frá,
ok nærri ná-spreng,
niðr til grafar,
sú er Golgata
gein á móti
einstök úthöggvin
hjá öldnum trjám.
Jesús þenkti þá
þannig með sèr,
er hann svo horfði
um hríð til grafar:
þik mun, hel-höfgi!
hold þetta mitt
strax innann stundar
stirnat sofna;
Því at þessvegna
þat ek hefi
af moldu myndat
á mik tekit,
ei mun reyna rírð
rotnunarinnar,
þó liðinn liggi,
líkami minn.
Þerra þú, Faðir!
af þeirra kinnum
fullforlíkaðr
hin feldu tár,
sem þá munu miök
yfir mèr syrgja!
miskuna þu þeim,
sem þar gráta
þinn enn eingetna
arfa Jesúm!
Miskuna þú þeim,
nær af þèr verðr
þeim um síðir send
seinasta stund!
hrært sè hjarta þitt,
heilagi Faðir!
mjök til miskunar
mönnum öllum,
er þinn á trúa
ástkæra Son,
þèr fórnfærðann
til friðþægíngar,
nær helgri heya
hel-stríð í trú!
Æ! ek finn þat frekt,
ek finn dauða!
æ, hann ber ógnir
þess hins eylífa!
hann hins almáttka
er í hendi sverð!
æ, hann er ærit
óttaligr!
At sönnu eigi,
sem ek fann til,
svo þúngra þrauta
munu þeir kenna,
sem allir eru
endanligir!

en einn einúngis
af því hafi,
sem ek sökk nú í,
svíðandi dropi,
fær í þeim útbreidt
ógnanir hels!
Nokkrir munu menn,
máttugi Faðir! —
þú hefir þeim svo
þat metit út —
nokkrir mínir menn
munn sofna;
nokkrir þeirra þúngt
munu þola hel;
sannliga sumir,
sem þú elskar,
munu döprum deyð
deya, Faðir!
O Faðir! Faðir!
föður-miskun
auðsýn þeim öllum,
sem eptir hjálp
þyrstir þreyta stríð
þúngt við dauða,
ok þik nú um náð
í neyð ytstu,
ok hjarta-hressíng
heitt ákalla!
Öllum þeim, sem út
af eymd stórri
lúit færa líf
loks til grafar,
þreyðu hèr við þörf
ok þraut lánga,
ok þó aldreigi
afvirðtu þik;
þeim, sem syndarar
gjörðu svívirðíng,
hvörsu síknsaka
sem þeir voru;
þeim, sem þel-trúir
þekkum vinum,
illum óvinum
árnuðu góðs;
þeim, sem lítilátt
ljúfmennsku geð,
blíða bróðr-ást
í breytni hvörri
alltíð auðsýndu,
ok elsku hreina
yfirhöfuð æ
til allra manna;
þeim, er af æru,
auðlegð ok tign
alls óblindaðir
ætíð vörðu
til at gjöra gott
gæðum þessum,
ok þeirra þörfnun
gátu þolat vel;
Öllum þeim, sem þèr
þjónuðu trútt
með hreinni hug-ást
hjartanliga,
eptir því sem þeim
af þèr útbýtt
margsháttar mæti
minni ok stærri
tjáðu tilefni
ok tækifæri,
þar með þín forsjón
hefir þá lokkat;
Miskuna þeim þú
ok þirm, Faðir!
á hinni efstu
æfistund þeirra!
þegar þeirra sjón
þrýtr, sem mín,
ok holdit heimtar
hauðrs fúi,
en hinn sami sál,
sem hana skóp:
Send þá til þeirra
þína huggun,
ok þinn Anda,
sem í þeim ræði
óútsegjanlig
andvörp ok bæn,
uns þú umfram þat,
sem umbáðu

þeir eðr þekktu,
þá bænheyrir
yfirgnæfandi
auðgaða nægð,
ok þá loks leiðir
í lífs hvíld þína!
O Guð elskunnar!
ó minn Faðir!
sakir sáranna,
sem mèr blæða,
fyri dreyrugt djásn
dapra þyrna,
sem í gegnum gróf
gagnaugu mín:
Fyri svo sára,
sem nú þoli
dauðans ángist ek,
sú er öll mín bein
skekr ok skelfir
skilin sundr:
fyri þrautir þær,
ek þolat hefi,
þær ek nú þoli,
ok ek þola mun:
Ok sakir allrar
elsku þinnar,
með hvörri manna
enn miklu heill
ek læt algjörva,
þèr æ hlýðinn
allt í dapraun deyð,
dauða á krossi,
þeim ek nýstumst nú
niðrlægðr:
Bænheyr þú mik þá
fyri þess sakir!
þá, sem elskar ek,
æ lát sýna
mèr allt til enda
örugga trygð,
deya hughrausta
af huggun fulla,
ok sjá sèr gefin
sigrenda laun!
Þannig þenkti nú,
ok þessa bað
hann sèr í huga,
sem frá heims sköpun
dýrmætastr dó,
Drottinn hæðstr,
mikill af miskun,
mildr af náð;
Þolinmóðr mjök,
mestu gæðsku,
traustustu trygðar
ok trúfesti,
sá enn eylífi
æðsti prestr
bað bæn þessari,
áðr burtgekk hann
til ens eylífa
allra-helgasta!
En nú augum,
af ást til manna
fullum, frásnèri
Frelsarinn gröf
at ægi dauða,
þeim er enn láu
Satan illr í
ok Adramelek!
Fylgðu Friðþægis
framstíganda
sjónar sendíngu
sárar ógnir,
hauðr hristandi
hraðfleygar mjök,
allt í dymmt djúp
hins dauða sjóar!
Billtust þá báðir
enir banndæmdu
niðr á neyðar
neðstu tröppu.
I Eden auglýst
ályktun Guðs
sú: at Sonur hans
síðar skyldi
Satans harðann haus
í hel troða!
fèkk nú fullkomna
framkvæmd sína.

Frá því fórnar blóð
friðþægjanda
Krists rann á krossi
kendi helvíti
Sigr-herra síns
sárra dóma;
þó fundu þessir
þá mest allra
erki-andskotinn
ok Adramelek!
Satan, með sama
ok sundrmuldi,
af kvöl framkeirðr,
klett undir jörð,
ok nú gat naumast
nærsta dymmu
öskri stamat út,
orð svo vakti:
Kennir þú kyndtrar
kvalar sem ek,
ok svo öldúngis
ósefanligrar,
sú dauða á dauða
dýngir niðr,
einum á annann
eylífum dauða
hvört eitt hyl-dýpi
hjarta míns í,
ætíð meir ok meir
sem mik brennir!
Ek vil þèr, sem ert
öllu góðu
til fulls fráhverfr,
fyridæmdr,
ok at eylífu
íllt fremjandi,
ek, sem þú einnig
öllu góðu
til fulls fráhverfr,
fyridæmdr,
ok at eylífu
íllt fremjandi,
hennar svarta svip,
svo framt ek get,
fyri sjón settann
með sögn láta.
Í sèr at sönnu
síðr enn ekki
neðsti niflheimr
neyðar bílæti
hefir til hlítar,
hvar með ek þèr,
sem mik tíðir til,
teiknat fái
gjörla frá grunni
mína grimmu kvöl;
En heyr þó orð mín,
illr fjandi!
svo framt þú í þèr
eigi þá finnr
alla sem ek finn
eymdar pínu,
skal þat ek skíri
skjótliga þik
nýstandi neyðar
gjöra nóg fullann.
Skaltu víst með mèr
mik pínanda
kvalræðis kenna!
eða kvíðafull
on með ótta
fyrir ókomnum
eymdar auka
skal þik á bíta!
Heyr, at mèr hefir
harðliga svo
nýstandi neyð mín
niðrvarpat,
at ek ekki meir
við ofstæki
kann nú at kætast
kvala þinna!
Svo djúpt, sem mèr er
sökkt í vansa,
hefir aldrei ek
allt híngat til,
sjá þú! svo orðit
svívirðiligr,
at ek, mistum móð,
hafi meðkennt þat

grimmum ærslum í
örvæntíngar!
Já, hann er eflaust
almáttugr!
almáttugr er
efalaust hann!
en hvað er ek?
sú hin orpnasta
afgrunns ófreskja
illum sorta!
Ek er með öllu
undirlægja,
heil þýngð helvítis
hrúgast á mik!
ek þess undirligg
öllum plágum!
heygðr undir hvörn
hefndardóm þess!
Ok mun nokkuð einn
eylíf-dauðann
hann sínum hafa
hörðu þrumum
virðt þess, at varpa
í svo víða gröf
öllum gröfum af
ena dýpstu?
Þat bauð engill oss
einn at flýa!
ok þát varð einnig
at vèr flýðum!
en í hvörs nafni
oss þetta bauð
sá hinn sami Guðs
sendiboði?
Hvað er þat í mèr?
ó! hvör mun sá
nýr dómr nokkr,
sem mèr neyð hótar?
nafnit mikla meir
má ek ekki
nè voga at nefna!
nú máske deyr
hann í hvörs nafni
hlutum flýa!
er vèr settum oss
uppá móti!
Nú flýgr nýtt
ok næmt af loga,
með þánka þessum
þannig vöktum,
tjóns ok töpunar
tendrat skeyti
í gegnum allt mitt
ódauðligt líf!
Ein dymma á aðra
umkríngir mik!
líta leyfist mèr
af leyndardómi
eigi skímu skin
skyndiligasta!
ærit stór er eymd
einneginn þat!
Eitt ok sèrhvað er
umhverfis mik
eintómis eymd!
ok ek sjálfr
er hennar offr
eylífliga!
einnig vesæl von,
at verða at aungvu,
svo grimm ok sárveik
svíðandi von
er nú, auk heldr
önnur betri,
til fulls fráhorfin
fordæmdum mèr!
Verið veraldir
í vetfángi
allar at einum
óskapnaði,
at nótt ljóslausri,
loks at helvíti!
ok þú, ó himin!
yfir mik fall!
heipt hins almáttka
hyl mik fyrir!
Ofr-drambs árinn
Adramelek,
niðrsleginn nú,
naumliga gat

útaf ángistar
andar teppu,
með ærum augum
fyrir örvílnun,
hrygðar orðum hreytt
úr hriglu kverk:
Hjálpa mèr, heyr þú,
ek heiti á þik!
ek tilbið þik þá,
er þess æskir,
afgrunns ófreskja
ógrligasta! —
greip nú er greindi
grenjandi slíkt
hörðum járn-höndum
hann um Satan! —
Þú sem ert svartr
synda-þrjótr,
háðr helvíti,
hjálpa þú mèr!
ek líð ógnar kvöl
eylífs dauða,
gjöld þeirra glæpa,
er ek gjört hefi!
Með grimd glóandi
getat hefi
haft á þèr hatr
híngat til ek,
til þess mèr er megn
eigi meir gefit!
óþolanlig eymd
er ok þetta!
O hvílíkt em ek
orðit hismi!
ek gjörði gjarnann,
ef ek gæti nú,
en mik þrýtr þrótt
þèr at bölva!
bölva, því bjargar
at ek bað þik mèr!
Máske mèr í því
mundi nokkr
af linun lènast
lítill drópi,
ef mín beisk bræði
bölvaði þèr!
en ek vil þat víst,
ek vil gjarnan!
hann at svo sögðu
sinnu fyrir
fèll í omegin
aptr á bak.
Þannig fundu þá
þessir báðir
hans, er yfirvann,
til almættis,
þarmeð var ok þess
þá til hefndar
hardt knosandi hönd
harla vídt breidd.
Hinir aðrir eins
eið-rjúfenda
forsugir-flokkar
fundu hana;
neðsti niflheimr
nærsta dymmu
gall við af góli
enna gjör-slegnu
um koll orpinna
örvæntínga!
En þú, saungsama
Síons gyðja!
hirð ei en huldu
helvítis djúp,
undirþrykkt sem er
eylífum kvölum,
at fá uppgötvað
nè auglýst mèr!
Annar opnar sik
augum þínum
sjónar-flötur sá,
sem er fullr
heilagrar hrygðar,
hárrar tilbeiðslu,
ok dýrmæts dauða,
sá hinn dapra vorn
ok svo sárbeiska
sætann gjörir!
Jesús sjón sína
frá sæ dauða

aptr leidda lèt,
ok leit á skara,
í öllum áttum
sem hann umkríngðu,
stóðu, knè-krupu,
með kyrð þenktu,
allir orðlausir
undruðust þeir,
tilbáðu tvistir
ok táruðust!
Ok jafusnart jós sèr
gegnum Jesúm Krist
eylífrar elsku
ofboðs straumr!
lengst tafði tillit
hins tignarfulla
Sáttmáls-semjanda
hjá sálum þeim,
sem inní ekkert
allt til þessa
holdligt herbergi
höfðu komit,
ekkert dauðligt dupt
með dáð helgat.
Því nú nálægðist
nokkurt þeirra
afbragðs ágætu
augnablika,
sem blessa ok sæma
með sálum jörð
í senn allmörgum
ypparligri,
ok þau er aldir
eptirtíðar
með viðvaranda
valdi mynda.
Ei at sönnu
með alda fari,
því er óðum æ
áfram skundar,
sí-streymdi samfleytt
frá sálum þeim
orðrómr um þat,
sem þær at höfðust;
En verkum öflug
af eptirdæmi
þeirra lífs, sem leit
lærandi vinur,
ok síðan sýndi
sínum niðjum,
eptiraldanna
athafnir við,
at sönnu ekki
svo á því bæri,
svo í sannleik sik
samanflèttaði!
Líka sem menn sjá
eptir sokkinn stein,
þeim er varpat var
í vatn, hrínga
um þess yfirflot
útbreiða sik
eins ok hvör annann
ellti lengi.
En fyrrenn fluttu
til at fæðast hèr
englar andir þær,
augnablika
hinna heilögu
háa blessun,
í dymma dauðligs
dupts líkami,
ein af þeim ennm
yppurstu sál
tók til at losa
útaf tvímælum,
þeim er þá hafði,
þánka sína.
Nokkurt skímu skin
skærara ljóss,
sem hana, á hauðri
meðan hèr dvaldi,
um skamt eptir þat
átti at helga,
nú leið næsta hægt
niðr á hana.
Þannig þenkti nú
þessi kjörna
eylífð alsæla
til at erfa sál:

þat æ meir ok meir
fyri mèr lýsist
at hann er Sonur
hins *óendanliga!*
 Því svosem sólir
enna sí-stirndu
fjalla-firninda,
sem vèr frákomum,
eru þánkar þeir,
sem af þessum hans
augum útljóma,
ótöluligir
ok mikils máttar,
mildari þó
í verkunar art
auglýsandi,
aðr ókendir
íhugun vorri!
 En á annann hátt
er þó hans mynd
enn vina vorra,
voldugra engla;
æ! hann er at mynd
eins ok þeir menn,
sem hann sjást um kríng
sífeldliga,
en þeir einúngis
eru at vexti
ok lima lögun
líkir honum!
þeirra augum í
ok andlits fari
eitthvað sýnir sik
sorgligt ok *lágt*;
þat sem þeim er skóp
er þvert á móti!
 Hvað munu mega
menn vera þeir?
vèr til kyns komum
kallaðar manna,
eigum eins ok þeir
at íklæðast
holdligum hömum
háðum dauða,
lifa stutta stund
stríðandi svo,
ok svo eptir þat
hinum eylífa,
nær *nóg* er lifat,
nálægri verða!
 Eru þat aðrir
enn þessir menn,
er hann, sem allt skóp,
oss til sendir?
eðr eru þá
Adams börn þessir?
ef þessir eru
af Adam komnir,
vorir bræður víst
munu verða þeir.
 Þó þykir mèr nú
sem þessi jörð
sè eigi sú,
er ek sá forðum
í öld öndverðri,
þegar Adam skópst,
var sú víst miklu
vegsamligri!
 Gjörist guðdómlig
geðþekkni þín!
hvað sem af þèr er
ályktað, Faðir!
ó Faðir engla
ok allra manna!
verði vilji þinn,
voldugi Faðir!
þá ok þinn einnig,
þú Sonur Guðs!
 *Af* því öllu,
sem at útgrunda
þúngt ok erfidt er
íhugunar,
er mèr þetta þó
þýngst at skilja:
þú, sjálfs Guðs Sonur!
ert sárt píndr;
 þarna, þar sem nú
þannig festr
ok hafinn hángir
yfir hálsi þú,

sýnist sem þínum
særðum líkama
eitt líf endanligt
út af renni;
ok sem þú sjálfr
svo finnir til,
at þat útaf þèr
ofanstreymir.
Ok þèr, ó englar!
áðr jafnan
úrleystuð öllu,
sem ek atspurði!
en nú þegið þèr,
þegar ek spyr!
hvör vill mèr herma
hvað því veldr?
Hvað sem um þat er,
í mèr sjálfri
merkir ek þat þó,
at þetta líf,
er þar útstreymir,
ok eyddir kraptar
líðanda líkams,
sem lætr þinn,
góði Guð-maðr!
guðdóm huliun,
eflaust allnæri
áhræra mik;
já, máske meira
mik enn engla!
Æ! ek elskar hann
ósegjanliga,
meir enn ek áðr
elskat hefi!
æ! ef hann einnig
gæti elskat mik
sama megni með
mikillrar elsku,
sem mèr fleygir fram
svo fast til hans;
Hann mundi máske
minn hylja flekk,
sem mik sakleysi
svipti helgu,
nær ek fráfalli
ens frumskapta manns
hreppti hlutdeild í
hrokafullu!
Biðja mundi mèr
miskunar hann
ok alls góðs af
hinum eylífa,
misgjörðir mínar
mèr tilgefa,
ok svo um síðir,
at ek sjái Guð,
mildiliga mjök
mik upphefja!
O Guð! þinn gjörníng
eptir geðþekkni
fullkomna þann þú
í þínum sköptu!
uppfyll eld-heita
ok æ tilfundna
þreyíngu þeirra,
þel-fróma girnd,
at komast kunni
í kjör farsældar!
Þú, enginn annar,
óendanligi!
ert frábær fyllíng
þeirra farsældar!
ok ei neitt, nema
at nálægjast þèr,
er nægð eylífrar
unaðsemdar!
Svo þenkti sálin,
ok síst mundi
hafa hugsun þá
hún forgefins;
því Guð sem gjarna,
þat er gjörir hann,
undirbýr áðr
all-lángt fjærri,
lèt rètt tilreidda
undir reynslu-líf
ok til eylífs lífs
einnig hana.
Fagnaðarfullum
flaug með svifum

tafarlaus tími,
ok hin tilkjörna,
æskt ok eptirvænt
af englum, kom,
at eins með englum
ypparligu
hátíðar-haldi
helgaða stund.
Stóðu staðbúnir
ok störðu á kross,
fullir af frómri
forlengíngu,
þeir er þaðan af
þessara sálna,
feigðar fjörs dvöl
sem nú færðust at,
vera varðenglar
vissir áttu.
Titrandi tèðir
tífar stóðu,
ok felmtrs fullir
vegna fagnaðar;
þá midt í þessu
þar frá augum
kom út gagngjört
hins guðdómliga
Meðalgaungumanns
hið mikla boð;
Með birtu boði
blessun fylgði
dýr ok drottinlig
hins deyanda:
takið til, lifit,
trúit, sigrið!
elskaði ek yðr
fyrir upptök heims!
Englar áleiðis
andir fluttu.
Seg þú frá, Síons
sýngjandi mær!
hve þær hèr lifðu,
ok hvörnig vígði
sèrhvör þeirra sik,
eptir sèr veittum
gáfum, Guðs Syni,
fyrir glæpa menn
píndum, í prúðu
pílagríms lífi!
Voru verkanir
ennar viðkvæmu
fyrst við trè teknu
tilfinníngar,
þar Krist á krossi
höfðu kvalinn sèð,
hjá þeim hvervetna
hjarta fastar;
Ætíð meir ok meir
mögnuðust þær,
ok sik útbreiddu
ásamt meðr
óðs deildar dug
ens dauðliga lífs,
ok hinum hærra
helgrar náðar,
sem á jörð Jesús
jós yfir þær.
Einhvör ágætust
í þeim flokki
var, Thimothee!
þín en tigna sál,
ó þú hreins hugar
ok hályndis
afbragðs-auðugi
æskumaðr!
Því at þá varst enn
þú í æsku,
er með árvakri
alúð gættir
safnaðar, sem varst
settr yfir,
ok full-fjörugri
fastheldni með!
Fús Thimotheus
tók á móti
birtum boðskap
um hinn burtdána
Jesum Kristum, já,
upp af jörð risinn;
honum kærkominn
var kenníng sú.

Endrlausnarans
útvaldi Páll,
herklæddr hinum
háu móti,
er sik settu gegn
sönnum lærdómi
um dýrstann Drottinn,
sem dauða vann,
bar honum boðskap
útaf blöskranda
leyptrs ljósi,
er lærandа þeim
felmtr frá Drottni
færðann hafði.
Forkunnar fögur
fræddist gjörla
önd um eylíft líf
æskumanns þessa
titrandi af teiti,
ok þat tilkynnt fèkk
aptr út frá sèr
öðrum þúsund!
Þúsund lærðu þat
þegar hann dó,
nær dör deyðanda
datt hann undir,
en stóð stöðugr
til stríðs enda!
stór ljósastjaki
ok sterkr vottur,
sem Páll ok Pètr,
ens pínda Jesú!
Víst mun verðugra
votta sinna
Jesús nefna nöfn,
þegar ná vekr,
fyrst ok fremst allra
enna framliðna,
þannig munu þau
þá verða krýnd
með vænstu vegsemd
allra vegsemda.
Antípas árla
einn við-launum
tignarligum tók
enna trúlyndu;
því nær hár herra,
sem heim dæmir,
sendi sinn dóm
yfir söfnuði
úr Patmos-eyu,
á þitt minntist
hann, ó Antípas!
ódauðligt nafn;
því með traustri trygð,
ok með tár-hreinni
ást ok eldheitri
elskat hefir
þú lemstrum lostinn
Lausnara þinn!
ok hann elskaðir
allt til dauða!
Saung Hermes sálma
sorgar-tára
undir eins fulla
ok unaðsemdar
um vorn eylífann
Endrlausnara;
saung hann þá Son Guðs
sofnaðann um,
aptr upprisinn,
ok til himins
hátt upphafinn
Heilsugjafara,
veikri manna mergð
miskunanda!
Saung hann um Son Guðs,
sem af dauða
allt hold uppvekr,
eindæmir heima!
súngu sálma hans
sannkristnir menn,
sem flúðu feldir
í fylsni jarðar,
Sem frá saung-kórum
sinna bræðra
helgi-haldenda,
þegar hans vilji,
sem þeir blídt báðu,
bendti þeim til,

í bráðu bragði
til bana færðir
fórn í fegri kór
fullkomnaðra!
Trúuð Febe tók
út af takmörkum
sik, þar hún sett var
af sínu kyni;
til at gjöra gott
glóandi þyrst,
ok at ávinna
andir Guði,
heilann söfnuð hún
á hendr tókst,
þeim sik víf vígði
til velgjörnínga:
At lina eymdir
hinna örbyrgu,
at koma kraunkum
kær til hjálpar,
styrkja dug ok dáð
enna deyendu,
æ! hressa hjartað
með huggun Guðs!
Með helgri ok hollri
himins smurníngu,
með spádóms spjalli
spakra saungva
um sigrsælu
Sonarins ljóð
við hástól hans
á himnum uppi,
styrkja hrjáðann-hug
af helstríði!
Ok at ávísa
með uppbendíngu
lystiligustu
ljóss erfðar til,
mál ok megin
þeim er mist höfðu,
sællra sigrenda
sigr-pálma;
hún var þegar hèr
heilög ok sæl!
Svo knúði konu
Kristi elska;
þekktu fáir fljóð
frómir at eins;
en hana englar
allvel kenndu
dýrðligir Drottins,
ok dauðir menn!
Loksins lausann
útaf lítt tryggvum
viltra vísinda
vafamálum
hverskonar hreif sik
Heródíon,
menta-meistara
meðal allra
kom hann gagngjört til
guðdómligasta;
Vissi hann vel
ok viðrkenndi,
at hann ekki meir
ypparligr
fyrir frægnstu
furðuverk sín,
enn sakir saunleiks,
sem hann ræddi,
vilja veranna
volduga Föðurs
heilann ok hreinann
fyrir holdlignm
örfum andaðra
augljósann gjörði!
Ok þat, þess vilja
at þekkja ok gjöra,
eflaust innleiddi
til eylífs lífs!
en hvörsu hlaut hann
harðsóktnstu
króka-grafgötur
grubls ok vafa
þyrnúm þakta
at þrengjast gegnum,
fyrrenn flaug hann upp
til ens fagra ljóss,
er hann af Guði
umljómaði!

Hve frekt forgefins
fullr áhyggju,
ok í önd særðr
undum djúpum,
þúngra þreytti hann
þenkínga stríð,
fyrr enn hann fann
hvörsu fis-lètt er
mannvits metaskál;
ok móts við hana
hann sá hinnar þýngð
hræðiliga!
Í bæn öflugr
Epafras varð!
virðtr at vera
viðjum týranna
undirokaðr
ásamt Páli,
kærðr um kærleik
við hinn krossfesta,
beitti brennheitrar
bænar styrk hann
fyri gagns gengi
Guðs safnaða.
Blessun bænar hans
birti sik mest
yfir úthellta
öllum framar
honum kærkomna
þá í Kólossis,
er hann elskaði
inniliga.
Hann vakti værð-skirr,
ef var hjá þeim,
stríddi sterkliga,
ok stóð óþreyttr!
trúa gleðr Guð
góðum launum!
af hans umsorgun
ávöxtu þeir
hárrar helgunar
himni báru!
Hèldu lengi líkt
í Laodícea
eldheit Epafrass
önn ok bænir
sumum þeim sálum,
sem voru betri,
í klárum kærleik
til ens krossfesta
ok í ástsemdar
óslökktri trygð.
Þó lèt at lyktum
Laodícea
sèr allri sökkt
í sinnis velgju;
svo lá hún, henni
þegar heljardóm
Drottins dæmanda
dapraun sendi
prúðr frá Patmo
prófeti Jesú.
En sá úrskurðr
einnig af náð
ok ljúft-lokkandi
líkn var fullr;
enn var lagt fram líf
lýð deyanda!
enn var í boði
yfirhöfn hvít!
enn var sekum sýnd
sigr-kóróna!
Persis mær var með
mönnum viðkvæmri,
þeim, sem þeirra Guð,
fyri þrengíngar
helzt heimugligar,
sem hermast eigi,
leiðir affram í
eilífa hvíld.
En í trega-tár
svo tvist hennar
himins liðu ljúf
læknandi tár;
þá hún í heitum
hjartans bænum
hrópaði hóglát
í hæð til Guðs.
Appelles ekkert
fyrir orðróm vann,

sá er dygðar dáð
ena dýrmætu
lætr launaða
lágt ok til hálfs,
ok þó ofsækir
optar hana,
nè naðar túngur
enna níðmálgu!
Ok jafnvel ekki
fyrir æru þá,
at hinn vísi vel
um verk dæmdi;
þvíat þráliga
í þeli niðri
geymda hafði hann
hugsun þessa:
At hinn skyn-skíri,
hvörsu skarpvitra
ok háa hann
sem hefir þánka,
ei geti gjörníng
glöggliga þekkt,
allt at hans innsta
augnamiði;
Ok at einúngis
athöfn framin
sjálf sè líkami
sýniligr,
en hennar andi
augnamið þat,
hennar höfundr
sem hafði í þánka!
Enginn utan hinn
Allt-sjáandi,
ok lofuð umbún
öllum hreinum,
þeir hærri þánkar
voru þat at eins,
sem honum setti
sínar skorður
ok einkar úrskurð
til at athafast
ok láta ógjört
þat hann um þenkti;
hvað væri at voga
ok ei' voganda!
Fèkk ei fyri þat
Flavíus Klemens
vænstu vegsemdar
verðugr gjörst,
at hann kyn-tengðr
keisaranum
þeirrar frá fældist
fremdar glansa;
því sem fánýtt fis
at fyrilíta
tíginn týranna
eigi torveldt var!
En sem hann sjálfr
sök ábáru
hygguari höldar,
at hann sèr velti
órómverskum í
armíngjaskap,
at hann athöfnum,
ærugengi,
ok feðra foldu
væri frá dauðr!
Ok hinn óð-göfgi
ei' at síðr,
hvörsu sem hans sál
sár-viðkvæma
bitu beiskliga
bríxlyrði slík,
köllunar kröfum
kristinndómsins
hvervetna at heilu
helgaði sik,
skipuðum skyldum,
sem skírt þekkti
helztar ok hæðstar
hann at vera;
þá fèkk hann þar með,
at því leiti,
sem maðr megnar
mest dauðligr,
gjört sik virkta vel
verðugann til
at prýðast kórónu
píslarvættis!

Gjarnann hefði hann
hilmis trón nær
unnit athafnir
ypparligar,
hvar með hann fræddi
ena heilögu,
nema vindi veitt
vitat hefði!
En þar hann þekkti,
at hinn þrællynda
ok smásmugliga
smjaðranda þegn
ok hans ofstoltann
yfirherra
mundi skorta skyn
til at skilja sik,
svo at sín yrði
sakir þessa
mjök örðug mæða
fyri manna heill
öll at engu höfð
ok til ónýtis.
Tók hann röskligt ráð
ok rèð fastliga,
at þreya þaðan af
í þrengra hríng,
gjöra þar gott,
sem gæti, jafnan,
ok til síns andláts
umþenkíngar
ok sálar sinnar,
er síst dæi,
láta lángtum meir
lífi varit!
Ofmiklum önnum
fyrir einn, hlaðinn,
en flæktr aldrei
í því neti,
kapp ok kostgæfni
kröptugliga
lagði Lúcíus
á loflig verk
sífeldt, sem honum
sómdi at vinna!
Aldrei yfir því
upphrokaðr,
nè í nokkurt sinn
niðrsleginn,
enn þótt akurs þess
optsinnis korn,
sem hann sáði,
eigi sèð fengi.
Trúr án tómlætis,
tíðar kaupandi
spakr án spillis
sparði stundir,
til blíðra bæna
brúkandi þær
himins háleitum
hugleiðíngum
frá heimi horfnum
helgaðar stundir!
ok svo rann hann út
til eylífs lífs!
Yðr, afsprengis
ýngra dætur!
trúat tillokki
Trýfenu líf!
líka þótt lifit
með lýð heiðnum;
með hærra háttar
hreinsaðri ást,
sem er dávæn dygð,
drós elskaði!
Margt bar mikilsverdt
ok mynd fagra
ýngismaðr einn,
elskugi vífs;
en hann var heiðinn,
ok hafði ráðit
fast í sinni sèr
svo at deya!
Allmjök óttaðist
æskumanns þessa
tillokkunar tal
Tryfena mjúkt,
enn meir elsku hans,
allra mest sína;
sem hún sigraði
sjálf í tíma!

Fegri fögnuðr
fyritekt hennar
hreina, þegar hèr,
hátt fèkk launat;
sèr í sinnar þann
sálar voða
ódauðligrar út
ei at hætta.
Línus lèt aungvann
lífsins glansa
geta ginnt sik,
allt at gröf sinni;
öllum öldúngis
óþvínganligr
hègóma hlutum,
í hvörjum sik
jafnvel frómlyndt fólk
lætr flækt verða,
ok fær opt með þraut
útaf sloppit!
Línus einn útaf
með einum sèr,
ok honum, hjarta
hans sem þekkti,
eðr af vinum
upptendraðr
háprúðs hugarfars
ok hreins sinnis,
hafði unun af
ok elskaði:
At mæla manninn
með þeim kvarða,
sem þín mælir með
mikla speki,
ó þú, orð Drottins,
uppsprettu lind
hærra þánka hvörs,
ok hvörrar betri,
sem sik tær tjáir,
tilfinníngar!
Þat var Líni lyst
legstað blómstrum
ypparligum á
út at dreifa,
ok at sökkva sèr
í sjón skæra
álengðar öllum
upprisunnar,
laungu fyri fram
fángandi sjón!
Til fánga tekinn,
ok af Trajano,
svo flekkanda sitt
sæmra hjarta,
bundinn burt færðr,
banadóms þýng
undirokaðr
ofsækjanda,
forsmán Guðs fórnar,
Frelsarans Jesú,
Ignatíus út
allglaðr bar.
Engin áklögun
auðvirðilig
dirfist dýrðlíngs þess
Drottni vígða
saunrèttláts sálu
þat at sök gefa:
at hann ofmikit
hafi unnit til,
at sæmast sællri
sigr-kórónu,
sem pínda prýðir
píslarvotta.
Einúngis ærir
afglapaskapar
ok saurgir svartra
synir lasta
geta þat ofgjört,
ef geta þó!
Allteins ok upprann
Ignatíus
eins gekk hann undir
ágætum með
ljóma lýsandi,
ok með lífs straumi;
svo var klár kjarni
kenníngar hans:
Hvörsu mjök megi
manni kristnum

há-dýrmætr hans
hinnsti tími;
hvað sá vunnins við
veðs steudr mark,
þótt jafnvel þakinn
enum þrautmesta
skeiðhlaups sveita sè,
sína fyrir
meðstríðandi menn,
ok hin mikln laun,
enn nú athafist,
oss hann kenndi!
Hann styrkti stórum
stríðandi bræður,
ok þá uppbyggði
til eylífs lífs,
hvörjir honum þá
við hönd fylgðu,
hann síðsta sinni
at sjá ok blessa.
En þeim, sem eigi
auglit hans nú
vinar tárum vætt
veittist at sjá,
hvatníng sendi hann
ok hugganir,
traustann tendrandi
með tilskrifum
kærleik til kappans
sem á krossi vann;
Uns enn háa hríng
hann at lyktum
skærrar skoðunar
fèkk skundat í,
fyri dauðdaga
dýra grimdar,
sem hinn sannhelga
sundrrifu! —
Fljóð var frumvaxta
útaf foreldrum
Klaudía kallat
komit heiðnum,
við heiðni hèldu
hennar bræður,
svo sem þeir sjálfir
ok systur vífs;
Rètt var ráðvandr
ristils faðir,
ok móðir mjök svo
mjúk í lyndi,
eins tjáðu ok einnig
elskuverð sik
börn þeirra, brúðar
bræður ok systur!
Klaudía kæra
kynsmenn hafði,
ok hún var einnig
elskuð af þeim;
en hún kaus sèr kjör,
kristin gjörðist,
geymdi trausta trú
ok tók svo enda.
Fráhorfin heimi
at hugarfari —
þat er ei alltíð
auðkenniligt
mæðugeðs merki,
vegna mannelsku
foldar fèlagskap
at firra sik —
Amplías vel vís
viðr hnýtti
djúpskygnann skilníng
á skorti styrks,
mannakyni mjök
meðfylgjanda,
alúð eldheitri
ok yðugligri,
at eptirfylgja
með auðmýkt hræddri
Skaparans skipun
enni skelfandi:
fólk, vert fullkomit,
sem Faðir Guð!
Frá hof-bust hæðstu
hinna er sigra
leyptraði ljós þat
ljóma guðligum
hátt ok himinligt
ok harla skært

felmtrsfullann um
foldarbúa.
Sífeldt horfði hann
ok hvörgi frá
uppá allmjótt port,
útaf hvörju
ljós þat leyptraði,
ok leið þá stefndi,
gekk ok hnaut hnípinn,
en þó hnáliga.
þann hinn þraungva veg
þroytti á enda.
Flegon hafði hríng
heilann í grunn
hinn glæsta gjörmælt
Grikklands vitsku;
mikil hafði hann
heims auðæfi,
þó lèt hann þessi
eigi þrykkja sèr
á hinn verra veg
í vellyst niðr,
nè hin hyggindi
í hègómaskap.
Flant um feril hans,
hvar fótr gekk,
hreinnar brjóst blíðu
balsam jafnan,
sem ens geðgöfga
geymdi hjarta;
nærði kránkra krapt,
klæddi nakta!
En hann auk þessa
aðrar miklu
vegligri veru
veitti gjafir,
holl ráð kærkomin
kránkari anda,
enn kroppr kránkr
kann at vera!
Hann gaf hvervetna
huggun fulla
sálum þeim, er sik
höfðu samanflækt
við þau vafamál,
sem vantaði
ljós til at lýsa
ok leysa sundr!
Hann færði hinna
hálf-frásnúnn
kristinni kenníng
til ens krossfesta
mannvinar marga
mjök til baka!
hann þá til himins
handleiddi' á ný!
Ei fyrir eintómt
ofstærilæti,
heldr af auðmýkt
síns egin brjósts,
hann með sjálfum sèr
sýndist eigi
veraldar vísdóm
vita neitt um.
Já, at eins Jesúm,
Jesúm Kristum,
sem kom syndugum
í sátt við Guð,
líknar athvarf lýð
í lífi ok dauða,
þennann þekkti hann,
en þeigi meir!
En þegar þrístu
þánkar djúpir
eigi úrgreiddir
óráðnum bræðrum
úti grafgötur
til at grubla frekt,
útvall uppsprettan
ótæmanliga,
uns endrnæríng
hinum örþyrsta
gaungumanni gafst
af gildum teigum.
Af egin eðli
ágæta-ljúf,
ok enn ljúfari
eptir skyldu
trúaða tjáði
Trýfósa sik,

mætasta móðir
margra barna,
sem hún umkríngð af
uppfóstraði
í fagri fræði
um forlíkanda
dauða Drottins,
ok í dýrri trú.
I sínum iðnum
óþreytanlig,
ok af íþróttum
ágætrar vitsku
innvortis auðug
ótæmanliga
vann hún verk sitt,
ok varð með því
söfnuði Jesú
sjálf til styrktar,
án þess víf vissi
hann væri þat!
Varla hafði hún
í heim fæddann
sinn hinn ýngsta son,
þegar sálaðist,
með ástar ekka
óskandi sèr:
æ! at einnig hann
mætti uppfóstra!
Hún þat harmaði,
ok við heim skildi,
en hins eylífa
yndæl blessun
var sælu vífi
á vánga komin;
ýngstann uppólu
elztu synir;
hann beið loks bana
blóð-vottr Krists.
Ur dauðans örmum
englar sælir
færðu henni hann
til himins upp;
grèt þá glöð móðir,
en grátr hennar
var allr annar
enn við opna gröf!
At hepta hefnd,
ok þó hefnd væri
eptir rökum rækt
rèttvísinnar,
er víst ypparligt
eðal-lyndi;
hitt er háleitt
at hafa kærann
mótgjörðamann sinn;
en með nýrri
velgjörð vesælann
við at hressa
heimugliga hann,
er himnesk dygð!
Þetta gjörðir þú;
þat stóra nafn
ek, þitt, Eraste!
með æru nefni;
sælir Serafim
móti sál þinni,
er hún gekk til Guðs,
gull-ligum upp
af stólum stóðu
strax á himni!
Þessar, þvílíkar
voru þær sálir,
sem í rètt ráðit
reynslunnar líf
fluttu frá krossi
ens framstíganda
þær varðveitandi
vegligir englar.
Fylgðu þessir þeim
þaðan af stað
alla leið ofan
Oliveti
at grasgarðinum
Getsemane;
þegar komu þær
at þeim pálma
tuttugu trjám,
þar tvistr fyrsta
Guðs Sonur gekk
undir grimdar dóm,

kom at þeim ótti
ofboðsligr.
Heilsuðu þeim þá
þær blessandi
andir sem undir
eikum stóðu,
heitustu hug-ást
ok himin-fullri
tærustu tignar
tilfinníng með:
Fyrst sæll Símeon;
sömuleiðis
hann, sem virðtr var
at veita skíru
sjálfum Guðs Syni,
ok sjá yfir hann
Andann eylífa
ofan stíga!
ok at heyra hátt
útaf himnesku
Guð um Guð ræða
geisla-skýi!
Ok næst eptir þá
Amos sonur,
slátraðs offurs einn
erki-spámaðr!
hár Hesekíel
holds upprisu
sjáandi sá,
þegar svo var mælt:
heyr þú holdlaust bein!
hauðrit í sama
vetfángi viðgall,
vaknaði nár!
Nói, hvörn hreinann
enn hærsti fann,
Lot ok Samúel,
svo ok Aron,
Melkisedek með
hins mikla Guðs
prúðum prófeta,
presti ok kóngi!
Bezta Benjamíns
bróðir Jósep,
ok bróðir Jóseps
Benjamín eins,
meðr mætri sjö
móður bræðra,
sem öll pínd prýddust
píslarvætti!
Davíð, Jónatan,
dýrir vinir,
en þeir hvör augum
frá öðrum snèru,
at hrygð ens eina
ei skyldi sorg
hinum hjá
í hjarta vekja!
Þel-þýð Miríam,
ok þú, Debóra!
sælar saung-kvinnur,
er sigr-ljóð,
Drottinn með dansi
dásamandi,
fyri frelsis gjöf
fögur kváðu!
Símeon snèri
sèr frá húum
Jóhanne þá,
ok jafnframt mælti:
þèr sælu sálir!
sannrar trúar
af náð umföðmuð
útvalin börn!
Gángið glaðar fram!
Guð er með yðr,
ok mjök full mælíng
misknnar hans!
gjörið marga Guðs
gædda trúnni,
ok bræðra frelstra
bindini stórt!
Mönnum sæm mildi
af mentun yðar
yfir Adams kyn
útbreiði sik!
hug-ást ok hegðun
hreinni ok betri
hinum, sem heims ein
hyggindi kenna!

O hvað, Jóhannes!
örlög þeirra
eru æskilig
ok unbun há!
brann ei blessuð önd
í brjósti þinu,
er þær sálir sást
sann-rèttlátar?
Linar ei sjón sú
ena sáru hrygð,
sem dymmum dynr
dauðans hálsi
yfir okkr nú
alblóðgum frá?
þannig hermdi hann,
ok horfði sínum
einmidt í augu
ástkærum vin.
Ansar Jóhannes:
ef ek gæti,
ef ek orð hefði
til at útmála
þat sem ek þenki,
þat sem ek finn;
ef þat tjá tækist
tárum hrygðar,
ef gleði-grátr
gæti þat sagt;
Svo vilda'k segja,
Símeon! þèr,
allt hvað ek finn til,
elsku-vinr!
síðan ek sá Hann
enna sakfeldu
hörðum dauðdaga
deya' á krossi;
ok yfir alla,
já allann heim
mjök sik miskuna
með þeim dauða.
En ek vil þegja
með öllu hreint;
ek vil enn lengr
orðlaus vera;
hönd ek mína mèr
vil á munn leggja,
ok taum á túngu
tilbiðjandi!
þessi sagði svo.
Símeon kvað:
æ! þú, ástvinr!
á mik veltir
nú aptr allri
ángurs byrði;
æ! at öldúngis
um hans dauða
þú hefðir þagað,
eigi þar á minnst!
Sèrhvört orð, sem þú
sagðir þar um,
mik, sem þúng þruma,
þrengðist gegnum,
því ek sjálfr sá,
ok sè hann deya!
já ek játa þèr,
Jóhannes dýr!
Andi minn áðr
allt til reiðu
hafði hafit sik
at hans písla
lofsverðum lokum
ok launum Guðs;
sár hins sofnanda
sá ek ljóma;
nú er mèr á ný
niðrvarpat!
Æ! sá hinn sami,
sem ek vafði
í faðmi forðum,
er ek feginn grèt,
sá er ek orðlaus
örmum lypti
at hins eylífa
allrahelgasta,
uns mèr gafst orka
aptr á ný
ok tóm at tala
ok at tilbiðja,
sjá, hinn sami nú
særðr andast!

Sjálfr at sönnu
sýndi mèr Guð
hans fyri fram
úr fjarlægð enda,
en svo úr máta
ógnarligann,
sem ek sè hann nú,
sýndi Guð ei!
Hann deyr meiddr mjök
ok miskenndr!
einnig af Guði
yfirgefinn!
hann deyr, háðúngar
hengðr á kross!
hann bíðr bana
meðal bölvaðra!
svo þagnar þrykktr
undir þaunkum hann!
Aptr Jóhannes
ansar honum:
vert mèr ok vinr
vorkunsamr;
minntu mik ekki
á hið mikla líf,
sem við sáum
með sjón holdligri
hann í heiminum
hvörn dag lifa!
Æ! þessi þánki
þrengir ofdjúpt
sèr í sál mína,
særandi mik!
svo opt ek sá hann,
Símeon kæri!
en ek sá hann opt
offur-lamb Guðs,
sem í burtu ber
brot veraldar.
Æ! svo opt um mik
allstaðar skein
hinna himnesku
háleit gleði,
því ek varla varð
var, at sæi,
blóðugs bardaga
ok bitrar pínu,
ek sá sigrandann
sjálfan at eins!
En ek vil orðlaus
ekkert mæla,
uns hann þat hefir
af hendi leyst!
þannig þeir sik
útaf þessari
tárafulls trega
tilfinníngu
loksins at losa
leituðust við.
Mælskrar Miríams
mjök, ok þínar,
díkt-fróð Debóra!
djúpar hrygðir
lètu sik loks
eptir lánga þögn
heyrast í hægum
harma saungvum.
Því af sjálfri sèr
sundr-flýtr
í saung anda raust
ódauðligra,
nær tali tjáir
tilfinníngar,
líkt sem mætti mæt
Miríam nú
ok dýr Debóra
við dauða Jesú.
Sú heiti sínu
sjálfrar nefndi
eina pálma-eik
Efraim-fjalls,
ok dóttir Amrams
ódauðligar
súngu svo á víxl
sín millum tvær!
Debóra kvað:
meðal dauðligra
fríðasti fundinn
foldar manna!
þeirra vænstr víst
varst þú allra,

en ert nú orðinn
afmyndaðr!
dreyrugr dauði
hefir dapra gjört
ok sèr ólíka
ásýnd þína!
Miríam mælti:
mitt at sönnu
grætr heitt hjarta;
hrygð ok tregi
á allar síður
umkríngja mik;
en hann er allra
yndisligastr,
skærastr skara
meðal skapaðra!
Lángt lystiligri
öllum ljóss sonum,
er þeir með auðmýkt
alskínandi
ok tignar titrun
tilbiðja Guð;
öllum er hann þeim,
eins í sínum
dreyra deyandi
dægiligri!
Syrg þú, Cedrus-eik! —
saung Debóra —
syrg þú, Cedrus-eik!
sjáið, hún stóð
ljós á Líbanon,
lúins skuggi,
en hún er höggvin
í háann kross!
ó þú Cedrus-eik
andvarpandi!
Svo saung Miríam:
syrg dal-blómstr!
silfr-skærann sett
sást þat við læk,
en at kórónu
um kóngligt höfuð
er nú glæstri gjört
ens guðdómliga!
Oþreyttr hóf Hann —
hermdi Debóra —
óþreyttr hóf hann
hendr sínar
fyri fallna menn
til Föðurs síns,
til hins heilaga
móti himninum!
Ok hans án afláts
óþreytanligir
flýttu sèr fætur
at fáráðra
hreysum, hverskonar
sem hardt liðu!
gegnum nýstir nú
eru nöglum þeir!
heilagar hendr
hans ok fætur
eru stál-stýlum
stúngnir ígegn!
Gól nú Miríam:
guðdómligt enni,
þat er hneigði hann
í hauðrs dupt
flatr fallinn
á fjalli þessu,
hvaraf blóð-blandinn
biltist sveiti,
æ hvörsu er þat
nú undum sært
af beittum broddum
blóð-kórónu!
Enn kvað Debóra:
önd hans móður
þrengir sárbeitt sverð
sèr ígegnum!
miskuna, mögur,
yfir móður þik!
æ! veit aumstaddri
endrnæríngu,
at hún ei af sorg
útaf deyi!
Enn kvað Amrams barn:
ef ek væri
móðir ens mikla,
mundi þó sverð

sárbeitt þrengja sèr
gegnum sál mína,
en þótt ek lifði
í unun himna!
Daprast ok dökkna —
Debóra saung —
mjök svo Messíæ,
Miriam! augu!
er hans æ þýngri
andardráttr;
áðr lángt líðr
lypta mun hann
síðasta sinni
sjón til himins!
Miríam mælti:
málar vánga
með fölum farva
fallandi hans,
Debóra! döpur
dauðans bleikja;
brátt mun húga hans
höfuð niðr
síðasta sinni
í svöfu dauða!
Grát — gól Debóra —
gleði-tárum,
þú sem þar uppi
þýðustum út
geislum jafnan jóst,
Jerúsalem!
snart er umliðin
offursins stund!
Grát — gól Miríam —
þína geysi-neyð,
Jerúsalem!
sem á jörð syndgar!
því brátt mun blóð hans
í bræði krefja
harðr hegnir
af hendi þinni!
Svo saung Debóra:
á sinni rás
stöðvaðar stóðu
stjörnur allar!
gjörvöll Guðs sköpun
fyri Guði varð
orðlaus umhverfis,
er hann líðr!
Því Jesús Kristr
er í Jehóvæ
allrahelgasta,
sá hinn eylífi,
sik at fórnfæra
til forlíkunar,
höfuðprestr hans!
Halelúja!
Svo saung Miríam:
á sinni rás
stóð ok storðin kyrr,
ok storð-byggjendr,
þèr dupt af dupti,
dauðligir menn,
yðr er nú sól
undirgengin!
Því Jesús Kristr
er í Jehóvæ
allrahelgasta,
sá hinn eingetni,
sik at fórnfæra
til forlíkunar,
höfuðprestr hans!
Halelúja!
Þetta súngu þær
þannig á víxl
dikt-fróð Debóra,
ok dóttir Amrams!
Nú dauða næsta
nálægr varð
Endrlausnarinn
auðsjáanliga!
fóru þá flestir
frómir á dreif;
þoldu þeir ekki
þessa deyanda
miklu sorgar-sýn
at sjá lengr.
Reykar ráðvillr
rasandi stigum
Lebbeus á leið,
ok með lúðri sjón,

eigi skelfðr eins
af ógn hrygðar,
þó mjök svo þrúnginn
af þúngum harmi,
fylgði fljótt eptir
enum flýanda
lángt frá Lazarus
lærisveini.
Leiði varð á leið
fyri Lebbeo
harla mjök hrunit,
hann fór þar inn,
allnærri ok undir
Olíveti,
en hnant um hnansa,
sem hnekkti gángi;
Hann kom nær kollhnýs
við klett niðr,
ok hèldt sèr um hann
höndum báðum,
einnig andlit sitt
á hann lagði;
en hann lá orðlaus
eins ok klettr;
nú var hann í nótt
niðrkropinn
hrollfyllri hinni,
sem huldi jörð.
Lazarus lágum,
við leiðis munna
útistaddr, inn
orðum varpar
með hinni mildu
mýkjanda raust,
sem jafnvel sárnst
sorg má heyra:
Sökk þèr eigi svo
í sorg niðr,
at til grunns gángir,
góði vinr!
lát upp angum lypt,
lít út af gröf!
máttu raust mína
eigi meir kenna?
Ek er sá sami,
sem þú jafnan
hefir heitt elskað,
hvör einnig þik
af heitu hjarta
hefir kærann!
er þú grèzt yfir,
ei fyri laungu,
Lazarus, hvörn lík
upp til lífs aptr
Guðs hinn krosskvaldi
kallaðann lèt.
Með meiri gleði
enn megi nefna,
af teikns tendraðr
titranda furðu
þú þá Frelsara
þessum vorum
guðdómligum galdst
göfgandi þökk!
Lát hug þinn hvarfla
hót til baka!
alfáum áðr
augnablikum,
enn guðdóms gjörníng
göfgnðum þann,
lá ek lík í gröf,
ok lykt hræva
tjáði mik tekinn
til at fúna!
Okkar á milli
optliga við
tveir í trúnaði
talat höfum,
en hrifit hefir
hvervetna þik
með sèr meiníng
þinna með-sveina:
at víst veraldlig
vera hljóti
Jesú jöfurs stjórn
á jörð niðri,
aðr enn himnesk
orðit geti.
En þú mik aldrei
útaf leystir

efa þeim, sem æ
hefir aptrat mèr
frá at mæða mik
með at leita
jarðnesks einhvörs í
orðum vinar
guðdómligs ok góðs,
sem greiniligar
hitt sem er himneskt
hljóða þó um!
Ut af eymd þinni,
ástríki vin!
lát þik losaðann,
ok legg eigi
útá annann veg
afskipti mín,
enn sem eru þau
óbrigðanliga
meðgrátanda míns
meining hjarta!
Ans þú tárum út
yfir honum,
já, grát þú gjarnann
hinn guðdómliga!
þvíat eflaust er
ósegjanlig
neyð, sem nýstir hann
nú svo lengi
á krossi kvalinn
í kaldann dauða!
En þú mátt ekki
eymdar þúnga
yfirbugaðr
undirliggja;
hann kann af krossi,
ef hann kysi þat,
þar nú er negldr
niðrstiga!
Eðr, ef hann upp
andann gefr,
meinar þú, muni
möguligt vera,
at reyni rotnun
hans rèttlát bein?
Jesús, Jehóvæ
honum jafn Sonur,
hann sem af himni
var í hold sendr,
hann sem áðr enn
Abraham var,
er þat möguligt
at hann rotni?
Lèt nú Lazarus
eigi lengr rædt,
en höndum hèldt,
svo hrærðust ekki,
Lebbeus full-fast
um fáng-stein sinn;
leit þó loksins við
til Lazarum!
Allstirð at sönnu
voru augu hans,
þó leit hann þá upp
þeim til vinar;
ljóp nú Lazarus,
Lebbeum faðmar,
ok dró hinn dapra
útaf dymmri gröf!
studdi hann við hönd
hjástandandi!
Liggja litu þeir
undir lángsömum
nið-dymmu nóttum
niðrhángandi
Jórsala stór-stað
ena stoltu borg,
musterit myrkt
at mistum glansa,
Síon sveipaða
svörtum skugga,
einnig Golgata
geigvænligt fjall!
Lít upp lærisveinn! —
Lazarus kvað
skelfðann viðr vin —
vend til augum!
ógnarligum á
ok með nætur
sorta sveipuðum
sjónarvelli

get ek Guðs návist
glöggliga sèð!
Sèr ek hana hríng
hauðurs yfir
gjörvallann gánga,
sem er gröf manna,
hefir þínum þú,
þvílíkann dag,
æfidögum á
undanförnum,
nokkru sinni sèð,
sem er þessi?
Hvört fèkk þinn faðir
eða faðir hans
fært þèr frásögu
eða fregn nokkra
um einn annann dag
eins ok þenna?
hvílíka hátign
ok heilagleik
hefir hæðstr Guð
honum gefit?
Hvörsu hefir hann
hræðiliga
hauðr ok himin
hulit sínum
undir ógnunum!
ok alla reyrt
þá sem þetta sjá
með þögn dauða!
O at gjörði Guð
góðann enda
með fullri framkvæmd,
fyri dauða
hins heilagasta,
hlutum þeim á,
sem vort skammsýnt skyn
skilr eigi!
Þat get ek greint þèr,
minn góði vin!
ok þó því at eins,
at þín yrði
með því mikil sorg
máske linuð;
af mèr ótalat
mundi ella þat!
Síðan Golgata
hins guðdómliga
deyanda dreyri
dreifðist yfir,
verð ek var hjá mèr —
en virðugliga
hvörnig þèr ek þat
þylja má allt? —
Eitthvað friðarfullt
finn ek ok stillt
í mèr innvortis,
þat einnig sefar
mína miklu hrygð,
með hvörri Hann
ek sè þær þola
þúngu píslir.
Allt, allt er heilagt
umhverfis mik!
hvört ek helzt mèr sný,
finn ek hvervetna
spor ens eylífa,
ok hans allstaðar
viðverandi dýrð
vottar sik þar.
Hvað get ek gizkat
guðdómligt sè,
þat hina helgu
hægð mèr gefr!
þá er þreytti sinn
þessi stóri
krossburðar-kappi
kvalræðis-gáng
upp brattar bana
brekkur hæðar,
fann ek enn þá ei
á mèr þetta.
En síðan sitt
úr sárum lætr
hellast hèlga blóð
hann á krossi,
heyrist hvass þytr
fyri hlustum mèr,
er blæs ok blaktir,
sem um braut gángi

ótal skarar af
ódauðligum!
eins sem ek heyrði
þegar ek var nár!
Einnig ósjaldan
angnasvif mín
eitthvað himneskt er
sem umleyptrar,
þat er ótt eyðist
eins ok þat kom;
sæta hugar hvíld
hjá mèr þetta,
Guðs hinn góða frið
ok gnægð sælu
æ í önd minni
eptirskilr!
En rètt í sama
augnabliki,
sem lèt Lazarus
lyktaða ræðu,
hrópar Lebbeus:
hvað! þik stansar!
þú stendr staðkyrr
af stórri furðu!
Æ! hvör er hann?
eða hvörn sèr þú,
þeim er þvílíkri
þín með unun
umvafin augu
eptirhorfa?
loksins Lazarus
Lébbeo svo,
nær mæla mátti,
mundi svara:
Einmidt á þessu
augabragði
með feikna flugi
fram hjá þusti
ódauðligr einn
andspænis mèr!
aldrei hefir ek
í eitt skipti
svo mikit sèð
af sælum ljóma
ódauðligs eins,
ok aungvu sinni
annars heims unun
eins ok þessa!
Hefir máske hann
haft guðligann
boðskap at bera
ok birta af himni?
því hans flýti-för
furðanlig var!
hvörri hröðustu
hugsun líkr,
bráðr blossandi
brunaði hann fram!
Nei! — lèt enn lengr
Lazarus rædt,
gjörði tær teiti
túngu hans stama,
augun fylltu fróm
fagnaðar tár;
allr innann brjósts
upptendraðr
lagði ljúfann faðm
um Lebbeum! —
Hann mun eigi, hvörs
enir himnesku
fæðíng fögnuðu
með fögrum saung,
aldrei mun Arfi
eylífs Föðurs —
nei, þat fer fjærri! —
forrotnun sjá!
Enn ódauðligi
Uríel var
sá, hvörs sèrliga
sendu-geisla
um lopt leyptrandi
Lebbeus sá;
hann kom flóginn frá
fagra hveli!
Hann fór gagngjört,
sem hans glóanda
óðu flugi af
andlit stefndi,
meðal forfeðra
fögru skara,

ok tók at tala
til þeirra svo:
Ek hlýt yðr
án undandráttar
segja hvað ek sá
samstundis nú!
hann flaug hraðfara
af himni niðr;
stýrir hann á storð
stefnu beinni.
Stundum stöðvast hann
ok stendr við,
ok síðan aptr
augnabliks tíma,
til þess, sem sýnist,
sik at hressa;
en þar öll sköpun
er nu í hvíld
andar at mæddum
engin stjarna!
Skal ek hans ásýnd
yðr greina?
skal ek skíra frá
hins skelfanda
útliti, eins ok
þat er í dag,
skal ek útmála
engil dauða
hinn fyrsta ok fremsta
fyrir yðr?
Aðr aldreigi
með ógn slíkri
hefir enn hæðsti
hann útbrynjat,
áðr, eins ok nú,
aldreigi var
hann frá heims sköpun
hræðiligr!
Hæðsti herra Guð,
sem heim dæmir!
ó þú eylífi
yfirdómari!
hvör ert, hvör ert þú,
nær heldr dóm?
Drottins dýr eldr
fyri dóms boða
bálast ok blossar
bísna vídt út.
Nær hann lætr lypt
ljóstandi vængjum,
er þat sem öskri
ógnarlig reið;
fyri honum flýr
sem af friðleysi
hvervetna himins
hvíld ok stilli.
Ef hans áslægist
einhvörn heima
blossandi brandr,
mundi bráðliga
hinn sami sveima
sviðinn í dýpt
um auðn óskapta
endaleysis!
Ottalig eru
augnasvif hans,
miklu meiri ógn
með sèr færa,
enn þá hann áðr
eyðileggjanda
fyrsta dóms flóði
yfir fold steypti;
þá heilum höfum
himins-vatna
ofanhelltum í
auglýsti sik
hans öflug umferð
of allt hauðr,
dróttir deyðandi,
dýrum eyðandi
skjótr ok skæðr
skemdar-vargr!
Sjá munuð þèr þann,
ok þegar sjáið,
mun yðr einnig,
eins sem nú mik,
yfirgeysast ógn
hins óendanliga;
þat mik úr máta
mektugast skelfði,

er sú ángurssöm,
alvörufull,
ok ósegjanlig
ömun hrygðar,
sem hann undireins
í ásýnd bar!
Æ! en ef er hann
til at auglýsa
enum mikla Guðs
Meðalgángara
dapranu dauða
af Drottni sendr!
skjálfandi skildi
við skara þann
Uríel aptr,
ok engla flokkum
sik at svo mæltu
sameinaði.
Fèll hèrvið fyrst
á feðra sálir
undrun orðlaus, stirð,
óhræranlig,
þarnæst þvílík hrygð,
at þýngsli hennar
nefnast manns máli
minni enn voru,
ángistar, ógnar,
yfirbugunar,
trega-full ok tvist,
en þó táralaus,
aldrei fyrr fundin
fèll á þær hrygð!
At var andláts stund
allt til reiðu
komit Jesú Krists,
þann kenna megu
englar aungvir
algjörliga,
hvörsu þó sem þeir
eptir því stunda,
Ok svo hátt settir
sem eru þeir
yfir orku-stig
allra manna,
þann Guð einn þekkir!
þessi hans Sonur
skyldi þola þá
þúnganu dauða!
Sukku sálir þær,
sakir hvörra
heilagastr hann
skyldi hel þola,
svo djúpt sem kunnu,
at síns lífs dupti,
ok sárum sviða
fyri syndar völd;
aum endrminning
allri sinni
yfirvættis ógn
umkríngði þær!
Fengin fyri þær
forlíkun var,
ok þær fundu sik
forlíkaðar,
þó hlaut nú þannig
fyri þeirra skuld
frægr Friðþægir
fjör at missa!
Af tèðri tekinn
tilfinníngu
gjörsamliga í gegn
nú á gröf eina
hèr studdi Henok
hendi vinstri,
en hægri hèldt hann
til himins upp!
Svo góð ok guðlig,
gagnskær af dygð
sem Henoks hegðun
hafði verit,
ok þótt ei' ynni
á honum dauði,
nè rotnun nýsti
nokkr hans bein,
hafði hann þó
eigi hreinn verit
í hans augliti,
sem allt dæmir!
Trú, ein í öllu
iðjusöm trú

á hans hjálpræði,
sem helstund sinni
nú var næsta mjök
nálægr orðinn,
frelsaðann fengit
frómann hafði
Adams arfa þann
til eylífs lífs.
Hann þótt hefði sèð
heima stóra
ok sólir sökkva
sik umhverfis,
hann mundi meðr
móð óskelfðum
hafa horft á þat,
en hræðst eigi!
En nú flóði frekt
Frelsaranum
harla nálægt hel
hrygð stórri með
ígegnum Enoks
innstu veru!
englar, forfeður,
flokkar sálna
ok drótt dauðligra
duldust hans sjón!
þann, sem þaðra dó,
þekkti hann varla!
Niðrbeygðr nú
nálægt honum
hèldt Abel höndum
um harðann klett;
sá at sönnu var
af syndugu
Adams alinn
egin-blóði.
En þó svo saklaus,
sem hèr verða
möguliga má
maðr nokkr,
sá enn nú eigi
viðr endir sinn
fasta fullkomnun
fengit hefir;
Guði hafði hann
helgat sitt líf,
þat hann manns misti
fyri morð-hendi!
Æ! sá er hann
í andarslitrum
hafði hrópat á
ok heitt beðit,
þá af volgu vígs
vellanda blóði
rèttlátastr rauk
meðal rèttlátra,
sá hinn sami
skyldi sálast nú!
Ei sem hann sjálfr
skyldi sá deya,
ei svo hægt sem hann
hel-blundi ná,
heldr hlaðinn
ok harð-þjakaðr
öllum syndum af
Adams barna,
ok af almáttugs
allr kraminn
dómara dapri
deya reiði!
Seth var ens vegna
verðugr bróðir
hans, sem hèr fyrstr
á hauðri dó!
árla tók hann til
at tala ok kenna
útaf offri því
ályktuðu,
sem skyldi síðar
á sínum tíma
forlíka fyrir
fólks syndir alls;
Hvörsu sem hafði
hann varit til
optsinnis öllum
eptirþánka,
at fá íhugat
álengðar hel
þess, sem var settr
til synda fórnar;

Ok þótt hann hefði
hundruð svo mörg
ára lifat út,
iðugliga
ákveðin afdrif
yfirvegandi
laungu fyrifram
Frelsara vors;
þá hafði þó ei
þat allt verit
annat enn ímynd
einúngis veik
þess, sem þaraf
at þessu sinni
fèkk hann formerkt
ok fundit til;
O! dýr dómari,
er dæmir alla,
sem lifa, lifðu
ok lifa munu!
hans innsta hjarta
hugsaði nú
sár-titranda svo,
ok sömuleiðis
stundi stórum upp
stamandi túnga!
þessu þegar fram
þrengðu varir,
hann lèt til himins,
hèrnæst á kross,
ok til annara
endrleystra,
loks á liðinna
litit grafir!
Drjúgum varð Davíð
dymmt fyrir augum,
mjök svo hafði hann
hvarflandi sjón
til ok frá tvístr
titrat lengi;
en við Uríels
ofankomu
dvínaði dapr
Davíðs skjálfti.
Hann stóð fót-fastr
á fold ok horfði
á þann, andláti
atkominn var;
gjörvallt hjarta hans
hèkk við bundit
fast þá fyrimynd
Frelsarans dauða,
hvörja hann at sjá
hafði Guð virdt,
svo djúpt sökkt dveldi
í Davíðs sálu!
þetta var þat allt
sem þenkti hann;
þat, ekkert annat
gat hann um hugsat!
en sem máls-orka
aptr kom hans
sundrslitin orð
útaf sjáandans
svo hugar-hrelda
hrutu munni;
tóku tár aptr
til at renna!
harma klögun hans
hljóðaði svo:
þú Guð, hans Guð
hefir gefit hann
öldúngis ofur!
andvarpandi
hrópar hann til þín!
en hjálp engin,
ei hjálp nè huggun
honum kemr!
sjá, þú sjálfr ert,
Sonur! orðinn
maðkr at mynd,
en maðr eigi!
Sjá þú, syndarar
sauruga stir
með ógn ok æði
hafa umkríngt þik,
ok þik í þínum
þrautum spotta;
trúnaðartraust þitt
til þíns Föðurs

at háði hafa
hvervetna þeir
seku syndarar
ok sjálf-dæmdu!
Uthellt er honum
sem öðru vatni,
ok hans öll eru
atskilin bein,
böl-særðu bráðnat
í brjósti hjarta,
allt megn uppþornat
sem önnur skurm!
Túnga tvist víð góm
tollir honum;
áðr lángt líðr
leggja munt þú,
ó dapri dauði!
hann í dupt niðr!
vargar, villudýr,
víst eigi menn,
ellaust eru þat
sem hann aflífa!
Hvörsu hafa þeir
hendur þínar
ok fætur, full
af furðuverkum,
gegnum grafit
meðr gadd-fleinum,
ok þik út þannig
þanit á kross!
Þín öll þjökuð bein
getr þú talit;
þar standa þessir,
ok á þèr píndum
seðja sína vild
sjálfs helvítis,
þá er þik loksins
hafi þeir deyddann!
(Alls heims eindæmir,
eylífi Guð!
einn sá illgjörðir
má uppgefa!
hvílík hugrenníng:
„hann þegar deyr!"
svo full fángandi
forundrunar,
ljúfrar lotníngar
ok leyndardóms!
at hann innann skamms
örendr mun).
Þegar þat er skèð,
þjóðum jarðar
at hennar ytstu
endimörkum,
öllum kynkvíslum,
kunngjörit þat,
svo þær til sjálfs Guðs
sèr umvendi,
ok í transtri trú
tilbiðji hann!
Harð-prófaðr Hjób
fyrir hörmúngar,
eptir hans hjarta,
er honum sendi
þær reynslu raunir,
rèttlátr stóð,
sem má hið mesta
maðr dauðligr,
hvörjum hörð prófun
hans sem dæmir
varpaði í vesællt
volæðis dupt.
Hjób, sem virkta vel
vissi hvat er:
öllum ógnum
hins almáttuga
inniluktr af
*ok umspenntr*
kaldri dauðans kverk,
at komast nærri;
þoldi þá ekki
þánka sinn meir
um hins kross-kvalda
Kristi dauða;
Hóf sik hraustliga
úr því hyl-dýpi,
hresti hjarta sitt
hvíldar þyrst mjök
með hárri hugsun:
hann mun lifa!

lengi mun lifa
Lausnari minn.
Hann mun sjálfann sik
sannarliga
voldugr vekja,
nær vill, af gröf;
ok sik upprisinn
opinbera,
háum hrósandi
yfir helvíti
ok dymmum dauða
dýrðar sigri,
lángt orðinn efri
öllu dupti!
Þá munu þik sjá
þessi mín augu,
já skoða skrýddann
skínandi dýrð,
mikli Guð-maðr,
Meðalgángari!
frægsta furðuverk
sem fullkomnar!
Þannig gegnum gekk
ena guðhræddu
döpur dvalar-bið
dauðans-engils;
aungvann fèkk þó á
Endrlausnarans
nú svo nálægr
nýstandi dauði
svo mjök, sem mannkyns
móðir elzta,
ok fyrsti faðir
fundu til hans.
Þá er Uríel
undan snèrist,
ok sitt andlit
meðal englanna,
sem úr skugga skein
skýlu byrgði,
stóðu þau staðkyrr,
starandi sjón,
hjástödd hvört öðru,
hèldu fastri;
Hvörgi hrærði sik
hót ið minnsta;
innstu fjörs fylsnum
fundu þau í
aptr ok aptr
ógn sèrhvörja
þrumu-orðum af
engils vara!
um síðir sjálf sik
sèð fengu þau!
Eins mun á efstum
allra daga
vinr þekkja vin
valdasta sinn,
ok bróðir bróður,
þann bísna djúpri
furðu fánginn af
fyrir skömmu
fèkk at eins áhorft,
en ekki meir.
Því hátt hljómanda
herlúðurs boð,
byljanda bergmál
bifaðra fjalla
öflgum upprisu
fyrir átökum,
ok þeirra egin
umskapaða
teit lífs tilfinníng
höfðu teppt þeirra
hjörtu hvörskonar
hlutum öðrum,
at fá formerkt
eða fundit til.
Honum rètti hönd
harmsfull Eva:
hvað við helzt eigum —
hún mælti svo
orðum, er naumast
urðu at hljóði —
ó hvað eigum við,
Adam! at láta,
grein mèr þat! gjört,
eða gjört eigi?
Skulum við skunda,
ok skygnast eptir,

hvar dýpst er djúpit?
ok í dupt niðr
þar einmidt okkr
auðmjúk varpa?
ok með áköllun
hinn almáttuga
Drottinn, með dómi
sem deyðir hann,
biðja heitt honum
hel at lina?
Henni hèldt Adam
í hönd ok grèt:
nei, manna móðir! —
mælti hann — vera
er of endanlig
okkar til þess
brennheitu brjósti
at biðja þessum
dýrstann dómara
fyri deyanda.
En þótt með okkr
á eitt legðust
dýrir dýrðlíngar,
Daníel, Jób,
ok Nóe, neyttu
nýrrar orku,
ok með ángurs raun
ósegjanligri
um þat úthelltu
allshugar bæn;
Ok þótt Elóa
enn kæmi til,
hinn fyrst framleiddi
flokka skaptra,
þarum þreytandi
þrásækna beiðni
með fullu fylgi,
væri forgefins!
Sèrhvað þat, sem er
sett ok ráðit
at Guðs offraði
skuli útstanda,
án minnstu mýktar
mun hann líða!
má víst alls engin
endrnæríng,
engin línun
ángistar hans —
æ! ek skèlf allr! —
honum unnt verða!
Engi fróun fær
ferliga grimd
hægri gjört hinnstu
hels-ángistar,
ef þat at eins
hinn ógrundanligi,
sem hann sik offrar,
hefir svo bundit!
Kom, þvíat knýr mik
kvíknaðr einn
af Guðs innblæstri
öflugr þánki;
kom, ok förum fljótt,
fylg mèr eptir;
gjör hið sama sem
sèr mik gjöra!
Síðan svifu þau
sorgligu flugi
áleiðis ofan
Olíufjall
döpur at dymmum
dauðans-hálsi;
englar ok feður
eptir horfðu,
er þau ein flugu,
undrandi sjón.
Svo framt þeirra þeim
enar þróttkari
lyndis líðanir
leyfðu sem mest,
ok felmtr fullur
forundrunar
yfir Guð-offurs
ægum dauða,
fylgðu foreldrum
enum frumsköptu
með on ok efa
augu þeirra;
Nú sik ná-fjalli
nálguðu þau,

því nær þessum stað
sem þau komu
fèll enn meir á þau
ángurs dymma;
þessu næst þau
námu þar staðar.
Þar stóðu þau,
sem þessi hinn deyddi
um skammt viðskilinn
skyldi sofa,
at full-framkvæmdu
furðuverki
strax enu stærsta
allra stórmerkja,
sem menn, hans bræður,
í mold grafinn!
Mundi mikill steinn
munna grafar,
sem þau voru við
veltr byrgja;
annann veg við hann
vor stóð faðir,
en á hina hlið
hans vor móðir
hnèg þar við hermdann
hún niðr stein.
Þrengði sèr þegar
þánki grafar,
um hins ben-blóðga
beð svo nærri,
helzt til harð-efldr
hana ígegnum,
ok hins almáttka
gegnum önd hennar!
Adam hresti hèr
hug sinn á ný,
ok hóf til himins
hendur báðar;
nefndi þrisvar nafn
ens Náð-kaupanda
lágt með sjálfum sèr,
ok svo lengi
stöðugt horfði hann
heilagast á
andlit hans, sem hèkk
hel-bleikara,
enn nokkurs annars
áðr var manns!
En sjálfr Adam
ei heldr stóðst
svo skelfandi sýn
at sjá lengr;
fèll í foldar dupt,
ok fast höndum
sínum samanhèldt
sèr fyrir enni.
Niðr horfði hans
á hauðr sjón,
hvaraf Herrann skóp
hann í fyrstu,
en í hvörju hans,
eptir harðann dóm
ok bista bölvan,
höfðu bein fúnat;
ok hvar einneginn
eptir hans dag
frá öld til aldar
iðugliga
mundi mannkyn allt
at mold verða.
Háttmælandi hann
hóf sína raust
í bæn brennheitri
af bljúgu hjarta,
heyrðu hana skírt
helgir feður
ok englar allir,
er hann svo bað.
Drottinn, Drottinn Guð!
dýrstrar mildi,
traustrar trúfesti,
tærrar gæðsku,
þolinnmóðr mjök
ok miskunsamr!
Guð! sem gefr
enum glæpugu
yfirtroðslur upp,
afbrot ok synd!
Þú sem frá því fyrst
fæddist heimr

ert til at offrast,
fyrir oss deyddr!
prestr ypparsti,
prófeti, kóngr,
þú mannsins mögur!
mína bæn heyr!
 Okkar auðmjúkt kall
á virðst hlýða
offurs altari
alblóðgu frá,
þar sem þú nú deyr,
þessa vora
gaumgæf grátbeiðni,
sem frá gröf þinni
af heitu hjarta
hrópar til þín!
 Guð hefir glæp vorn
gefit kvittann;
ok frá augliti
til auglitis
gátum við gjörla
Guðdóminn sèð
ára þúsund um
öld svo marga!
 Full af farsæld,
sem við forgefins
þreyttum at þenkja
þaðra við gröf,
þótt hèr til hefðum
hugleiðíngar
skilníngs-skírustu.
um vorn Skapara,
sí- ok æ sjálfann
sjáum við Guð!
 Af því okkr varð
uppgefin synd,
svo stór sem hún var,
sakir dauða
þessa, sem þik
fyri þrjózka menn
her, þú blóðug fórn!
burt frá lífi,
afmáðist okkar
yfirtroðsla!
 En nú annarar
yfirstandandi
innann skamms skèðrar
sköpunar dag,
er þú mannkyns mergð,
nema mótstandi,
gjörvallri gefr
Guð til at sjá
orðlof, af þèr svo
aptrfluttri;
öllum endrlausn
afrekar þú!
 Er þú afplánar
allra syndir,
ok með almætti
útrykkir þeim
frá vondra verka
verðskuldaðri
hegníng' eylífs hels
hræðiligri!
 Þann dag þú einnig
þik mín vegna
sjálfann fórnfærir,
Frelsari Guð!
þorir ek þeirrar
þó með hrygð stilltri
misgjörðar minnast,
sem mik hendti!
 Eigi þat, at ek
innbirli mèr,
at þú enn á ný
öðru sinni
móti mèr í rètt
munir gánga,
miskunsöm mildi!
hve mætti ek slíkt,
ek sem Guðs auglit
áðr sèð hefi,
ok hvörn fórnfærðr
til at friðþægja
inngengr þú í
allrahelgasta!
 Þó lát mik þat enn
fyri þèr játa,
Herra Guð! hvör ek
hefi verit!

æ! þú ert lægðr
allt til dauða,
auðvirðtr orðinn,
allsherjar þú
dómari! djúpt
til dauða' á krossi!
svo minnist sinnar
syndar í dag
Adam, at hún var
honum uppgefin!
Hèrvið heilagri
hrygð ok sælu
uppfylltr Adam
endaði bæn;
einneginn Eva
ásamt honum,
ei með orða raust,
heldr andliti
ok heitu hjarta
hafði beðit!
En hún orðlaus var
eigi lengr:
já, þú sem einn ert
útgefinn svo
til blóðugs bana,
nú á blóðsdegi,
degi þeim, sem þeir
munu þik grafa,
æ! þú umflotinn
allr af kvöl!
Mun Eva mega
minnast sína
yfirtroðslu' á,
sem er uppgefin,
ok með einlægri
áugursemi
hana játa hèr,
ok með harms-þökkum?
Svo uppkvað Eva
auðmjúka bæn;
Adam tók þá til
at tala af nýu:
O já, við, Eva,
upphófum þat,
við því fórum fram,
ok þat fullgjörðum!
æ! við unnum þat!
ok hvör mundi
hann, sem oss hafði
hægasta boð
til at varðveita
virðst at gefa?
Sá hinn sami var
sjálfr Jehóva!
hin fyrsta, hæðsta,
ok hvörri betri,
öllum verum af
elskuverðasta,
verauna vera,
vor skapari!
Sá er okkr af
auðvirðiligri
moldu myndaði,
ok lèt menn vera,
þann er við þekktum,
þarmeð í sál
furðu fánginni
fundum vera
í allann máta
ósegjanligann!
Sá er sèrhvörja
af sálar hita
brennandi bæn,
ok at bindast áts
af três ávexti,
eið hvörn nýann,
ok hvörja hlýðni
fyrr' hrösun okkar,
allskonar unun
umbunaði!
Sá okkr alltíð
ótöluligum
með skepna skara
af skrauti fullra
dýrs ok djúpfundins
dægiligleiks,
á sik er samdi
sèrhvað, minnti!
Hvar okkar alsvinn
yfirvegan

fullri vissu varð
meðr vísligum
uppgötvunum æ
óþekktum fyrr,
ok með kæti krýnd
kostuligri!
Hann sem mèr móður
mannanna gaf,
ok mik mannanna
móður veitti;
ok hvörs egin-dýrð
nær okkr birtist,
hvört sinn hóf okkr
hærra til sín
enn gjörvallt annat,
sem iðugliga
okkr umkríngði
á allar síður!
Almáttugr einn,
sem okkr sköp!
en við ofdirfð þá
fyrir oss tókum,
skamtaðar skorður
sköpunarinnar
at vilja óðum
yfirstökkva,
ok, verna vera!
verða þèr jöfn!
Fíflsku þá, Faðir!
fyrigafst þú!
tign ok tilbeiðsla,
trú-hollar þakkir,
ok af elsku full
auðmjúk hlýðni
sèu Griðgjafa
guðdómligum!
Uppá hvörn allri
hefir okkar skuld
voldugr varpat
vor dómari,
ásamt með öllum
ofurþúnga
af gjörða gjöldum
enna glæpugu,
undir hel háða
heims manna kyns!
Svo útjós Adam
auðmjúkri bæn,
ok mannkyns móðir
meðr honum,
hann með hárri raust,
hún í sálar
þenkjanda þeli
því enu dýpsta!
Utfrá augliti
hins atfram komna
Guð-sættis gengu
guðdómlig miskun,
stóreflis styrkr,
stillt himins ró;
þú, sem ert æðri
enn öll skynsemi,
góði Guðs friðr!
gaust yfir þau.
Fundit fengu þau
fullkomliga,
hve mjök af hjarta
hafði þau kær
miskunar mildr
Meðalgángari;
Adam útbreiddi
enn með nýrri
upptendrun arma
öndverdt krossi.
Þèr himnesk hug-ást,
minn Herra ok Guð!
hve get ek goldit
gildar þakkir?
þèr at þakka,
svo sem þat bæri,
eru eylífðir
ofstuttar til!
Þar til þú hnegir
þitt í dauða
heilagast höfuð,
skal ek hèr liggja
bljúgr brennheitri
með bænagjörð!
at eins engilsins
ógnarligasta

feikna raust fyri,
þegar fram kemr,
mælandi munnur
minn skal þagna!
Nær kall hans kemr,
ok þat kunngjörir
Föður þínum frá,
sem forlèt þik!
heyr minn harmagrát
fyrir hels sakir
þessa, sem þolir
þú, af Guði
enn yfirgefni!
fyrir oss seka;
Gef gaum at, Herra!
grátbæn minni,
fyri fiöld þinni
enna friðþægðu
bið ek, brotligum
börnum mínum,
ok fyrir öllum,
sem eptir þetta
byggia breiða jörð,
blöskrandi gröf, —
þá er þú hefr
þinnar meðr
nýum nú prýdda
náðar blómstrum! —
Sem ok sofnaðir
fyrir sætt þína
öllum manns-öldrum
umliðnum með,
á dóma degi
dýrsta ok stærsta
munu máttkir
upp af mold rísa;
ok fyrir allra
ótöluligri
barna minna mergð
mjök heitt ek bið!
Með megnum gráti,
ok mjök vanburða
litlum líkama,
liðs þurfandi,
þessu meira þó
þurftugri sál,
fæðast í fyrstu
þau á fold þessa;
En þú strax þegar
þannig stöddum,
mildi Messias!
miskunar þeim,
ok þau inntekr
í hinn mikla
sjalfs þíns sáttmála
saminn við Guð!
Þegar þau varla
þánka sína
með úngbarns orðum
geta útstamat,
lát hann af þeim opt
íþrekaðann;
þú á öndverðum
aldri þeirra
til þín með teikni
hefir tekit þau,
þín um eylífð því
sèu þau, Herra!
Þau sem þíns Föðurs
ok þínum Anda
í vígðri vatnslaug
hafa viðtekit,
uppá þat eylíft
skuli erfa líf,
ok þau sem þóknast
þángat hèðan
þèr um annann veg
inn at flytja;
Öll þau, sem þú
með þínu blóði
ok döprum dauða
svo dýrt keyptir
ok helgat hefir,
á himnum Guð
at sjá augliti
til auglítis;
Láttu leidd af þèr,
nær á legg dragast;
rækta þessa þú
ena þróttlitlu

ok klökkvu kvisti,
svo kjarna ok þroska
fái fullum með
þeirrar frjófgunar,
sem þú í þeirra
þrykktir sálir!
Síst nokkru sinni
fái syndin gjört
í þeim ofdymmann
ítrann glausa
árla yfir þau
úthelltrar náðar!
eld þann aldreigi
fái útslökktann,
er þau upptendrar
til at elska þik!
Yfir allt fram þó
aldrei, Herra!
í þeim, sem þar til
hefir þú kjörit,
at hinn uppvaxni
aldr þeirra
sè lærdóms lampi
til at lýsa jörð,
ok á hinn hæðsta
hana at minna!
Eðr í þeim,
sem þú útkjörit
hefir frá hærra
hvoli sjónar,
þar sem þín hauð hönd
at þeir stæði,
til at útausa
yfir bræður,
meðskapaða menn,
af mold, sem þeir,
rèttvísi, velgjörð
vernd ok frelsi!
Alla þá sem þess
eru þekkendr,
hvað enn hæðsti Guð,
heilagasta,
öllum verum af
æðsta ok bezta,
skaparinn, sem skyldt
skal at tilbiðja,
með svo mikilli
miskunsemi
ok lund umburðar
af þeim heimtar!
Æ! lát alla menn
yfirhöfuð
skammvinnt æfi-skeið,
skamtat dupti,
stutta reynslu stund
á storð þessi
sjálfum sèr lifa
til sáluhjálpar!
Svo hins víða vángs
vegferðarmaðr
ei' við lindar læk,
sem á leið verðr,
eðr í skugga
ófyrisynju
sofi burt af sèr
sælu kórónu,
sem honum sýnda
sjálfr Guð lèt!
Eðr álengðar
auglýsta svo
hana láti hann
fyri hègóma,
lítillra ok lèttra
lystisemda
fjötrum fastr í,
fyrirlitna.
Þeir, hvörra hjörtu
þann enn hæðsta Guð
eigi athyllast
algjörliga,
ok þeir, sem ofmjök
á sik reiða
holdligrar hjálpar
hvikulann arm!
Hvörjum helzt til sæt
heims er æra,
þeir, sem þráliga
þóknun manna
vilja ok velja
sèr í verkalaun,

en gleyma Guðs,
þeim er gildir hjá
lof ok last manna
eins ok lopt-blöðrur,
alskygnum augum,
sem alla hluti
rèttvís ransaka,
reikna ok dæma!
Þeir sik flækja frekt
í fýsn holdligri;
hrifit höfðu þeir
með hugprýði
gjálífra girnda
útaf gildru sik,
en völd viðsjállri
vellystínga
gátu ginnt þá,
eins ok góm-sætt agn,
burt af bust niðr
betri gleði!
Þeir ei algjörla
elska sinn bróður,
eigi elska hann
útaf hjarta,
sá glislig góðverk
gjörir at sönnu,
en hefir æru
fyrir augnamið;
ok svo hann af sveit
sèðr verði
leitar sèr lofstýrs
fyri lèttustu
skyldu, sem sköpun
skilr á mann!
Sá er sökudólg
sínum til hálfs,
ei at fullu, fær
fyrigefit;
ok lætr ekkert
á sik vinna,
honum alla hefnd,
sem hefna vill,
at fullu ok öllu
at ofrgefa!
Ok þó enn síðr
af sèr getr
fengit frjálsliga
ok af fullri sál
þann blídt at blessa,
er bölvar honum,
ok at árna goðs
ofsækjanda!
Allir, ofsjaldan
yfir um gröf
sem renna sínum
sálar-augum;
þeir helzt til hvikult
hugleiða þann
andar óðauðleik,
sem í öndverðu
þú lèzt, þeirra Guð!
þá til skapta!
Ef þeir ástsemdar
yndælliri raust
Föðurs alúð í
ekki gegna,
hrópa þú, Herra,
fyrir hörmúngar,
þá burt frá þeirri
þverúðar synd
ok voða villu
á veg rèttann!
En þá sem þrjózku
þrældómi sik
frá Guði gefa
gjörsamliga,
ok sèr til afguðs
útvelja löst,
sem þý þjónandi
þeim enum falska
bríxlanda böðli
beiskrar pínu,
virðst þú at vekja
ena vesælu
með þrauta þrúgun
frá þeirra dauða!
O! mín afkvæmi,
ó, þèr mín börn!
hann, sem hángandi
hèr á krossi

líf sitt fórnfærir
fyrir yðr
enum eylífa,
hefir yðr kær,
hann elskar yðr
ósegjanliga!
Er þat ætlanda,
ódauðlig börn!
getið þèr mótmælt
yðar Messía,
óvirðt endrlausn
yðar ok köllun,
at gánga lífsins leið
í ljósinu?
Æ! með almætti
elsku þinnar
hrær þau en hörðu
hjörtu af steini!
umskapa þú þau
ok þannig fær
ítr-hrein aptr
til hins eylífa!
Látið skynja skírt
yðar skelfð hjörtu
blóðs þess blíða raust,
sem frá banans hæð
niðrstreymir nú
um náð biðjanda,
um nýa náð,
um náð fyrir yðr!
Með helgri hræðslu
heyri þá raust
sætt-hljómandi svo
sálir yðar,
tignar tilbeiðslu
meðr tárugri,
ok með upptendrun,
sem eylífs lífs
fyrifram gefinn
forsmekkr er;
Sá er gjörir geð
grafar erfíngja
miklu stærri með
magnat krapti,
dauða sinn nær sjá
sèr kominn at,
enn öll vísindi
allrar jarðar!
Ei hans, sem andast,
augu sprúngin,
nè lík liggjanda
hins liðna manns,
ei gröf fúa full,
nè foreyðíngar
brennandi bál,
nè hins burtdána
útkulnuð aska,
afar-víða
dulin ok dreifð
um djúp sköpunar:
Ekkert af öllu,
sem útbýr þinn
heiptar harðneskju
hegnir dauða,
ok hann æ gjörir
ógnarligann,
ekkert, alls ekkert
ofbýðr þeim!
Því at þessari,
þú hinn deyddi!
gefr gætur at
grát-bæn minni,
ok til eylífs lífs
uppvekr þeirra
sálir sannliga,
áðr sofnar hold!
O! at þær þá,
nær eð þú hefir,
góði Guðmaðr!
gjört þær vaktar,
æ sæki eptir
með ótta ok titran
sælu þeirri, sem
eigi sèð hefir
auga nokkurt enn,
nè eyra heyrt,
einkis heli háð
hjarta fundit!
Eingin þínum þær
þaðanaf meir

föstum kærleik frá
fái skilit!
af mold er myndat
manna þeirra
hold, í hvörju,
enar heilögu,
þínar friðþægðu
bera þeir sálir,
er skulu erfa
eylífðina!
Lát ei líðandi
líkamans þýngð
þrykkja þeim niðr,
sem þú elskar,
ó! Griða-gjafi
guðdómligi!
með ofrefli
allt til jarðar!
Þeim, við hvörja hann,
sem hvörrar er
vís ok voldugr
veru Faðir,
Drottinn drottnanna,
ei í dóm gengr!
hvörja sèr helgar,
at hans sèu
mæta musteri,
meðan lifa,
friðarfús Andi
Föðurs ok Sonar!
Heitt, tíðra târa,
ok af torveldu
æ fullt erfiði,
umbunar stórrar
svo vel verðugt,
sem þat vera kann
bezt hjá brotligu
ok breisku manna
dauðligra dupti,
sem drýgja syndir,
sè þeirra sálna
sífelda stríð,
sem þær heya hèr
fyrir himninum!
Sæla stór ok sterk
streymir um mik,
nunu um mína
innstu veru,
nær um nægð þenki
náðar gæða,
sem þeim, er sigra,
munu síðar veitt!
At sjâ sjálfann Guð,
svo sem hann er,
þetta, sem þeim var,
áðr þeir dóu,
svo sæt tilfinníng,
at síst á nafn,
þó í þann tíma
fyri þeim hulit;
ok hinn óskapta
eins at þekkja!
Guð, sem gjörir allt
gildt ok fullkomit!
þá til þíns efsta
þú kemr dóms,
þá er þú lèttir
af þessi jörðu
bölvunar byrði,
ok breytir henni
í Eðen aptr
yndisliga:
Æ! lát eins vera
óteljanliga
ok sand-korn sjávar
sæla skara
þeirra, sem þú
fyri þeim dómi
hefir hólpna sagt,
ok í himins dýrð
með skæru skarti
skulu gánga!
Margopt munu ský —
mèr eigi slíkt
hefir þú, Herra!
hulit látið —
útbreiðast yfir
þína útvöldu,
útyfir söfnuð
ósýniligann

barna þinna þau
munu þenja sik:
skuggafull ský
skæðrar hjátrúar,
en afneitunar
ennar rèttu!
Jafnvel jöfrar þeir
yfir jörð drottna,
þá er til þeirrar
þú hófst tignar,
at þeir æfi þitt
ypparsta boð:
elskið, sem yðr,
yðra bræður!
þeir svo þat iðki,
því nær öngvann
við skamt nè skorður
eða skort bundnir!
þeim er bæri bezt
beygðum niðr
í dupt, dýrðligann
Drottinn gjöra,
þann sem fyri þeim
þenna setti
víða váng opinn
vinskapar þess,
einn maðr öðrum
á at sýna;
þessir sjálfum sèr
svo mjök niðra,
at berast bundnir
blóðugrar á
hjátrúar hlekki,
hennar þrælar
eðr öfga,
sem þèr afneita.
Bræður með bistri
bræði' at pína!
eðr, öflgu með
eptirdæmi,
á snauð öræfi
útleiða þá,
er þinn um rennr
enginn lækur,
engin tvistum tèst
ok táraverðum
brjóst-bótar huggun
um betra heim!
þessa nauð-næma
nætur tíma,
svo opt þeir sýna
sik yfir jörð,
láttu skjótt líða,
lát þá stytta,
ok þat einkum
sakir útvaldra;
Svo einnig eigi
ástvinir þínir,
svìknir í sveit
enna syndugu,
ræni sjálfa sik
sigur-kórónu
þeirri, sem þú
með þessu blóði
ok með andláti
afrekar þeim!
Otal, æ Herra!
óteljanligir
sèu sigrenda
sælir skarar,
sem döggfalls dropar
á dags morgni
útum víðann váng,
ok sem viðblasa
um skæra sköpun
skínanda stjörnur!
nær eð þessa þú,
at þínum dómi
fullgjörðum, færir
inní fagra dýrð!
O þú sem oss
hefir elskaða,
sem oss með elsku
elskað hefir,
hvöreð himnum er
hár leyndardómr,
ok yrkis efni
undrunar þeirra!
Eylíft ljós
útaf eylífu ljósi!

ó þú Arfi Guðs,
Endrlausnari!
heill! fús fremjandi
fyrirbæna!
vinr! vor bróðir
veikra manna!
Æ! veit áheyrslu
ok uppfyllíngu
bæn fólks foreldra,
er þú fyrsta sköpst,
þinna fyrst föllnu,
þinna friðþægðu
ok endrleystu
auðmjúka bæn
meðtak, Messías!
mildiliga!
A meðan Adam
enn gjörði bæn,
upphóf andlit sitt
Elóa Seraf,
ok því vendir at
alvörufullr
samansöfnuðum
sálum feðra!
Midt af hins mikla
musteris bust
hrópaði hann,
svo hèr við skulfu
háar helgidóms
hvelfíngar allar,
fæti mâttkum með
Móría fjalls;
Með hárri hrygðar
ok með hræðslu raust,
hvílíka höfðu
af honum aldrei
englar áðr heyrt
ódauðligir,
hrópar hann ofan
til helgra feðra:
Sjáið, sá kemr!
sendiboði
Drottins dæmanda
til dymmrar jarðar
sveif á Sínai
ok svo þar stóð,
ok varð af ógnun
yfirfallinn!
Einsamall undir
ærna byrði
eylífs Alföðurs
æðstu boða
stóð hann, sem sagt er,
á Sínaí;
hèr virðtist honum
himin ok jörð
á flugstig færð
at flýa ok sökkva,
atfram komin öll
undirgángi!
En hann, sem heldr
á himni ok jörðu
öllu því sem er
endanligt við,
gaf honum hreysti,
svo hann eigi
sjálfr sykki,
eðr sín misti;
Asamt með örmum
orðnum sem járn
hvarf þá frá honum
hræðslan mikla;
en þó var hann eins
allr furða
eptir sem áðr
ok allr hrygð!
Blossandi bana
brandi at halda
öll hafðist hans við
hángandi mund;
blóð-rauðir breyttust
í bleika skímu
gömlu geislar hans,
þeir er glóandi
eins ok eldíng hvör
eyða ok deyða,
hvenær sem hann
frá hendi verðr
Drottins dæmanda
til dráps sendr.

Svo fèll hann við sjón
sjálfum dauða
atfram komins allt
Endrlausnara
framm á sitt andlit
ærit skelfðr
Golgata fjalli
gagnvart niðr,
til at tigna hann
ok at tilbiðja,
fyrr enn framkvæmdi
Föðursins boð.
Raust hans umbreytt í
ángurs hljóð lágt
var ei, sem áðr,
eins ok þruma;
þó heyrði hana
enna heilögu
þreyandi þyrpíng,
er hann þannig bað:
Heyr Herra, Sonur!
heims dómari!
endanligann einn
útsendi mik,
sá er þitt offur,
þú hinn offraði!
fær at eins friðstillt,
ok þú fórn orðinn!
O! efl mik, efl mik,
þú hinn óskapti!
veittu megin mèr
mjök svo þreyttum,
at ek erindi
umboðit mèr
framkvæmt fái svo
til fullnustu!
Æ! mèr undir sik
endanligum
þrykkir þessa boðs
þýngð hins mikla,
sem heilir heimar
hrundir í grunn,
síðan þú þannig
á þínum krossi
ógrundanligann
útstendr dóm!
Guð, sem granut dæmir
gjörvallann heim!
æ hvör er ek þess,
at mik sendir —
æ hvör er ek þess —
eylífr Guð!
boðskap um bana
at bera skuli
ógnarligastann
allra dauða?
Ek sem er saminn
síðan í gær,
eintómis andi
inniluktr
líkham einum í,
þeim er endanleik
mik fyrst minnir á
minnar veru;
Af skugga skýi
skópst hann einu,
ok af eldsloga
útstreymanða,
þú maktarmesti
Meðalgángari!
ósegjanligt er
almætti þitt!
Ogn, hrygð ok ángist
umkríngja mik,
er ek fyrr á-kennt
aldrei hefi!
en ek hlýða hlýt
háu boði,
ok allt útrètta
erindi mitt
sjálf-sagt! Jehóva
hefir svo boðit!
Hann sagði svo,
ok á Sinaí
efst stóð uppi
með ógn ok hrolli;
gaf nú Guð honum
gjörvallt aptr,
þá hann þannig stóð,
þrek skelfíngar.

Stæltr stóð hann þar
af sterkri ógn,
ok at Golgata
geyst hèldt niðr
brandi blossanda
bísna vídt út,
brauzt út bak við hann
brúsandi stormr.
Með þeim vo-vindi
viðgall næsta
ódauðligs engils
ógurlig raust;
tóku pálma-trè
til ok Jórdan
með guý at grenja
ok Genezaret,
fyri feikna storms
fáheyrðri makt!
Nú streymdi niðr
á nakta jörð
aptans-offur,
með undansendum
ljómandi loga,
löðrandi heitt;
innti þá engill
ódauðligr:
þeim er þú offrar
þik, Jehóva
fyri fólks syndir
hefir fórn þína,
gildt gjald, meðtekit
guðdómliga!
víst er með öllu
óendanlig
refsanda reiði
hins rèttlátasta!
Þú, Sonur! þik
hefir þeirri grimd
óendanligri
undirkastat!
þú einn einasti,
engi með þèr,
enginn utan þú
allra skaptra!
Hátt hrópandi raust
hins helga blóðs
um nýa náð,
um náð eylífa,
er honum upp
til eyrna komin;
en hann, ó Sonur!
yfirgaf þik.
Ok hann mun þik eins
yfirgefa,
uns þú dauða deyr,
sem dugir einn
at fullu Föður
til at friðstilla;
hann muntú hratt
innann handar svifs
í gegnum gánga,
guðdómligi!
Sèr at svo mæltu
hinn sendi Guðs
bana-boðs engill
á burt snèri!
Jafnsnart frá jörðu
Jesús Kristr
beint til himins brá
brostnum augum;
hèrnæst hrópaði
með hárri raust,
eigi manns raust með,
sem missir anda;
Onei! með öflgri
almáttugs raust,
þess er seldi sik
sjálf-fús, hlýðinn,
undrunar efni
endanligleiks,
Meðalgaungu-manns
megnum dauða!
hrópaði hann svo:
Hvarfyrir mèr
ó! Guð minn, Guð minn!
þú gleymt hefir?
Huldu þá himnar
fyrir háleitum
ljóma-ljós audlit
leyndardómi;

ok sem allra nú
á sèr kenndi
síðasta sinni
þeirra sárinda,
sem má manndómr,
mæddri túngu
þannig hrópar hann
hátt: Mik þyrstir!
Drakk, þjáðist þorsta,
þúngliga skalf,
fölnaði framar,
flæddi blóði,
hrópar enn aptr:
Ek mína sál
fús þèr, minn Faðir!
fel í hendur!
Svo at síðustu
(sèrt þú oss, Guð,
mikli Messías!
miskunsamr!)
frambar hann fljótt:
þat er fullkomnat!
hneigði sitt heilagt
höfuð, ok dó!

---

## Hèr hefr

# elleftu bók Messías.

---

Ef ek hefir ei
of-lágfara
trúarbragða flug
tómliga sókt,
ok ef í hjörtum
endrleystra
tókst mèr at tendra
tilfinníngu;
þá hefir heilög
handleiðsla Guðs
mik flutt öflgum á
arnar vængjum;
ofan af þínum,
opinberun!
tignarhæðum traust
tilfinníng mik
hefir þá hárri
með heill blessat!
Hvör sem með helgri
hugarlotníngu
ei lèt stöðvuð stig
við straum hreinann,
er klár sem krystall
konúngsstóli
ofan flýtr af
meðal eika lífs;
Sè þess samþykki
sundrtvístrat,
ok í burt blásit
brátt af vindi,
en nái aldrei
eyrum mínum!
at því ófeyktu
eigi þar með
fái hann mèr fært
flekk á hjarta!
Æ! við duptit eitt
hlyti óður minn
hèr lágt at liggja,
nema lifandi
sælu straumr sá
sèr ena nýu
Guðs borg gegnum,
á gimli byggða
Jerúsalem,
jysi svo fram;
Ok mik upp til hans
sú hin almáttka

hönd hefði fluttann
himins forsjónar;
flyt enn áleiðis,
ósýniliga
Leiðslu-móðir mik!
minn á skeiði
felmtursfullann gáng
framvegis leið!
Saung lèt ek saminn
Sonarins um
niðrlægíngu
næsta djúpa;
hef mik nú hærra,
svo um hans megi
upphafinś yrkja
unun ok dýrð!
En mun ek mega
um svo mikilvægt
efni íráðast
óð at hefja,
fögnuð ens frægsta,
sem fullkomnaði
afreksverk öllum
ypparligra?
Um hátt hriktandi
hæðir ok dali
upprisum af
hinna örendu;
um sjálfs sigrandans
sigurhróss dýrð,
er hann af dauða
upp var risinn?
Ok um Sonarins
uppstigníngu
frá djúpi dupts
á hinn dýrðliga
himnanna himin,
hásæti Guðs,
aðal-aðsetr
eylífs Föðurs?
Þú himin-hafni!
hjálp þína veit
mèr, ok þeim mönnum,
sem mik heyra!
æ, styrk oss auma,
þó í eymd sæla!
styrk þú oss ok styð,
svo staðist fáum
þrek-þúngar ógnir
af þinni dýrð!
Eylífr, alla
aumkandi menn,
full-sætr Faðir
á hins framliðna
niðrhorfði nú
nákalda lík,
lík hins fórnfærða
Friðþægjara!
Sonurinn, sjálfs Guðs
sá enn dýrðligi,
hans egin ímynd,
frá eylífð Guð,
hann sá himinsins
háttlofaði,
Kristr augum upp
einnig vendi,
hann til síns hæðsta
horfði Föðurs!
Hvör skyldi skynjat
meðal skapaðra
geta þá guðdóms
gleði ok elsku,
hvar með horfðu þeir
hvör til annars?
hvör fær fundit,
hvílík fagnaðar
óviðjafnanlig
unun þat var?
Þar sem Föðurs frá,
at fold, tróni,
þar sem hauðri hèr
heilögu frá
guðdóms-sjónar sú
sæla þeirra
ofan stèg ok upp;
á því stræti
harla skin-skæru
sköpunin kyrra
upphóf nú á ný
náttúrligt hlaup;

þar tók þat sik upp
þá í fyrstu.
Ut hins eylífa
öll frá stóli
hvarf þá brátt á braut
byrgjandi nótt;
vídt frá sólu veik
í því vetfángi,
sú hana hafði
hulit, stjarna.
Allra heims-hnatta
hjól-ásar nú
bifuðust, búnir
brátt til at hefja
flug þat aptr upp,
sem í öndverðri
gjörvalls grundvallan
Guð þeim kenndi.
Hófu þegar þeir
þat, ok lètu
glymja við um vídt
veldi himna
bænar háann hljóm,
er þeir hrópa með
á þann, sem annast
alla sköpun:
At hinn eylífi
aldrei vilji
arm síns almættis
af þeim taka,
ok til eylífðar
at þá láti
samvitna sífeldt
um sína dýrð!
Svo vendtu sólir
sèr at nýu
með feikna flýti,
ok fylgðu jörðum,
uns þær komust á
umrásar sinnar
vanaligann veg,
sem vissi hvör.
Sá er í samstjórn
með sínum Föður
hvervetna heldr
heiminum við,
Jesús Kristr klár
yfir krossinum
sveimandi sá nú
sinn líkama,
hve í blóð-baði,
bleikr ok þögn,
hèkk til jarðar hann
heli seldr!
Vendi sèr þá við,
sá er vann dauða;
fyrir honum fold
með felmtri skalf,
er hann snèri sèr;
ok nú snarliga
sveif hann með megni
til musterisins.
Undir flug-farar
fljótum svifum
klofnuðu klettar,
sem í kríng voru,
sukku hardt hristir
ok hrundu um koll,
reis upp rik ok hark
at rjáfri skýa.
Hratt fyllti helgar
hvelfíngar nú
Kristí kröptug dýrð
ens krossfesta,
ok hins eylífa
allrahelgasta;
þat allt á einu
augabragði.
Í því einmidt,
sem hún innfærðist
í hins eylífa
allrahelgasta,
sjá þú, at sundr
með sviptíng harðri
fortjald, fullt leyndra
fyrimyndana,
ris-háu rjáfri
rifnaði frá,
þar sem þat var fest,
at þess við gólf

niðri nemanda
neðsta faldi!
Þá hvarf fyri þèr,
við þetta teikn,
þú hin fullframda
friðþægíng manna!
sá er sjálfa þik
hafði sýnt skuggi,
fornum tíðum fra
í fyrimyndun!
Jesús samtal svo
við sinn Föður
hèldt í hálcitum
helgidómi,
ræddi Guð við Guð
gjörvallrar um
algjört erindi
endrlausnar;
uns hann sjálfann sik
sínum Föður
til hægri handar
hefði settann.
Því eigi at eins
hinn aflífaði,
heldr ok einnig
sá hinn upprisni
ok himin-hafni
Herra, Guð-maðr,
er sönn sálar-heill
enna syndugu,
ok traust furðu-teikn
trúar þeirra.
Einúngis efnit,
um hvört ræddu
Faðir ok Sonur
fær þú hèr greint,
Síons saungva mær!
en sagnar-máti,
með hvörjum hætti
hafi þeir rædt,
er þèr með öllu
óskíranligr.
Því til at þenkja
þessa hluti
á sálin ímynd
eigi neina,
ok manns málfæri
eigi munntæk orð
til at teikna með
talshátt þeirra.
Sjá, hve hin svarta
sik birtir nótt
uppí eylíft ljós
eptir þetta!
hvörsu hjálpræði
ok heill Sonar
sè nú alls aungvum
upp frá þessu
villu-vegr neinn
vandrataðr!
vár aðal-inntak
umtals þeirra.
Því nú fór fram-hjá
Föðurs og Sonar
alskygnum augum
allr sá lýðr,
hvörs forlíkunar
fórn-ölturu
lètu loksins af
lengr at vera
þess ens eylífa
offurs skuggi;
Mengit, hvörs mikla
musteri var
orðit þá þegar
þurrar rústir,
ok svo ösku dupt
innann stundar;
ok þess úngursfull
óhamíngja;
Hve þat útdreift er
alla vega
meðal mann-þjóða
und mána slóðum;
einnig úrgreiðsla
ógæfu þess;
þetta var nú þar
þeim fyri sjónum.
Til með trúarbrögð
meðal tal-lausra

yfir alla jörð
útbreidd skara,
hve þau fljóta framm
með fjöld alda,
myrkrum áskygð opt
ok aflöguð;
með löstum manna
ok meinvillíngskap
hún opt hulin,
sem húmi nætur,
en af jörð útrýmd
aldrei til fulls.
Sèrhvörs syndara,
sem er frelstr,
ágæt upprisa
af andar dauða;
sèrhvört streytu starf
ens stríðanda,
sèrhvör sigr þess,
sem er styrktr;
Þar með þjáníngar,
þær hann líðr;
fundinn í fjarlægð
forsmekkr himins,
einnig hin efsta
endalykt hans;
þetta gjörvallt gekk
gagnvart sjónum
hins full-friðþægða
ok friðþægjanda.
Svo hvör öðrum sik
sýndu með dýrð
forklárað a fyrst
Faðir ok Sonur;
gegnum vídt veldi
velti sèr þá
heyranda himins,
eins ok haf brúsar,
röksamlig raust,
er ræddi þannig:
Vitnar ek við hann,
sem vissuliga
er frá eylífð Guð,
einnig maðr,
sem var líflátinn
ok líka mun
aptr upprísa,
ok til Föðurs
hægri handar sik
hafinn setja!
Einnig yðr,
sem eigi fèlluð,
nnun ok undrun
ok ærin heill
mun um mjök auðgar
af megin-gleði
eylífðir allar
af því spretta;
At hinn eylífi
æðsti prestr
fyri fólksins synd
hefir fullu bætt,
ok at með yðr
endr-helguð
manna dauðlig drott
fær Drottinn sèð!
bræður yðar eins,
eylífð skaptir
sem þèr, sjálfann Guð
sjá upp hèðan!
fallið allir fram,
færið þakkir!
Enn hvílist helgr
hans líkami
alblóðugr á
altari hels;
en fullgjörð, fullgjörð
fórn hin mikla
er nú af honum
eylífðanna!
algjör er eylíf
endrlausn brátt!
Senn þèr sjá munuð
sigur-herrann
á hins eylífa
alvalds tróni,
ok guðdóms glansa
gjörvallann hans
kríngum hann krýndann
með klárum ljóma!

Guð, frá eylífð Guð,
gladt skínandi
örum blóð-benja,
sem bar, þakkinn!
Svo gullu gegnum
gjörvallann himin
yfrit öflug hljóð,
Elóæ raust.
Einnig upphóf sik
yfir jörðu
með teitri titrun
talandi rödd:
Jesús Kristr, jörð
sá af Jehóva
fyrst fyrirheitni,
sá hinn fulltrúi,
fyri fólk píndi,
fulli náðar,
elskan sjálf er nú
fyrir afbrotsmenn
dauðra lífs dauða
dáin sínum!
Adams ættstofni
ávaxna grein!
veina ei, nè vert
visin framar!
æ til eylífs lífs
eflst í blóma!
þeir á fold fæðast
fögnuð hrópa,
yfir því at þeir
eru þar fæddir!
Því at nú þegar
í þessum jarðar
dymma dauðligleik
er dýrmætt ljós
þeirra Jesús þeim,
sem þá leysti,
Lambit líflátna
er þeim ljós beri.
Syndin, sem þeim var
sektar vitni
ok hels óskaudi
æ fyri Guði,
er nú afmáð
sem önnur þoka,
ok þeirra illgjörð
sem annat ský!
Ok þú, dráps dómr!
dýrum hreinum
frómra frelsíngja
fram-hjá gengr,
sem hins fórnfærða
fögru blóði
trúar traustir
hafa teiknat sik!
Hefjið til himins
höfuð, ok trúið!
sá mönnum mikla
miskun veitir
yðr öllum gaf
sinn hinn eingetna;
betra líf búit
bíðr yðar,
uns þèr andláts blund
hafið útsofit!
Þèr kjörnir kóngar
ok kennimenn
eruð í blóði
ítr-þvegnir
þess ens ljúfa Lambs,
sem lèzt á fjalli!
Svo hèr á hauðri
hljómaði raust
þess, sem fyrstr fèll
fold byggenda!
Enn var Jesús í
allrahelgasta;
hann aungvum engla
opinberaði
sjáanliga sik,
nè sál feðra
neinni nærstaddri
nú at sinni.
Var þeim at vísu
vitanlig gjörð
nálægð hans næsta
nýstárliga,
er hann Golgata
grátligu frá

maktar mikill sveif
at musterinu,
af þyt ok þruski,
sem þá skeðu,
einnig af þèr, jörð,
er þú skærum
hans geigfull gnaptir
fyrir guðdómi.
En þeim eigi var
auðit at sjá
dýrð þá, sem þutu
þykk ský fyrir,
ok en fasta fold
af felmtri skalf;
þeir biðu bil frá
ok báðust fyrir,
móts við merkisstað
Móríu-hæðar;
Af því enn skalf
hið allrahelgasta;
at sönnu sárar
sorgar-myndir
Endrlausnarans
eptir dauða
sálir forfeðra
fylltu nú enn;
En sem þær engin
meðal englanna
má svo mjök þær
með sèr finna,
greip þær gjörvallar
ok gegnum streymdi
blíð unun blönduð
við brjóst-sætari
þá orðna þánka
um þinn dauða,
þú Griða gjafi!
sem Guð sættir;
hin hógværasta
himinsins ró!
Fagnaðar-full ró,
ok friðr Guðs
ok Krists kærleikr,
er kveikt sèrhvörjum
ljós eitt lifanda
lèt í þánka,
ok tók at tendra
tilfinníng hvörja!
Því at þær fundu
þat, at tilgángr
skepna sköpunar,
sem skulu vara
um eylífð alla,
sá hinn ypparsti
síðasti sè
ok hinn sælasti,
kærleikr til Krists,
sem á krossi dó,
Guðs milli ok manna
Meðalgángara!
I þá upptendrun
eptirlætis
sálir sann-helgra
sáu hvör aðra
niðrsokkna nú
enna nærstöddu;
smámsaman var
hinn sæli glansi,
þeirra ljóma líf,
þeim lènt á ný;
þannig sáu þær
þá sik vera;
Himnesk hugar-ást,
sem hjá sèr fundu
hvör ein innbyrðis
annarar til,
hóf þær enn hærra
til helztu sælu
þeirrar, sem er þat,
þik at elska,
ó mildi-mesti
Meðalgángari!
Þær allar ein sál
ok eitt voru
musteri ens mikla
Messíæ sjálfs!
Með fljótu flugi
til flokks þessa
burt frá Golgata
Gabríel sveif,

gekk hann midt meðal
mergðar þeirrar;
en var orðlaus
sakir undrunar.
Svo mjök hafði hrært
hans eð innra
enna útvöldu
eylíf-frelstu
lystiligasta
ljós-fögur sjón!
hljómaði raust hans,
sem harpna saungr:
Blessuðu bræður!
bræðra nafni
yðr ávarpa,
þèr ódauðligu!
varla vogar ek;
vegligu feður
Krists ens krossfesta!
frá klárri sól
yðr ek flutti
ofan til jarðar;
Hátt boð á hendi
hefir ek, feður!
enn mèr útgefit
frá æðstum trón;
svo bauð sá yðr
ek segja skyldi:
gángið Guðs frelstu
til grafa yðvarra!
Skildust skjótliga
skarar helgir
at, ok án dvalar
útbreiddu sik;
sèrhvör sókti
til sinnar grafar
með fljótu flugi,
at fengnu boði!
Enn þá var eptir
altaris þess,
hjá hvörju Abel
hafði dáit,
stakr standandi
steinn í skorðum,
mosavaxinn mjök
á miðjum váng.
Að því altari,
áðr enn varð
nær því allt numit
niðr til grunna
burt, í bana flóðs
bitrum dómi,
var Adam elzti,
þegar andaðist,
sinna mörgum með
í mold lagðr.
Með fáum frómum
flýtti sèr hann
þángat þá sem fyrst
þeim at safna;
nær þeir nú komu
í nánd við grafir,
sáu þeir sína
sveima hjá rústum
vissa varðengla,
sem verit höfðu,
dupti dauðligs lífs
meðan dvöldust í.
Eins var, sem englar
undur smærri
skærrar sköpunar
skoðuðu graunt,
dymma dupts heima,
ok dysjum undir,
at rustum orðnum,
innbúa þeirra.
Nú sem nær komu
nágröfum þeim
sálir sannhelgar,
sik burt höfðu
frá þeim firnindum
fagrir englar,
ok sik hátt hófu
með hrósi sigurs.
Síst vissu sálir
enna sofnuðu,
hvarfyrir hófu
helgir englar
sik í sviptíngu
svo frá hauðri,

með sætt sýngjanði
sigur-röddum.
Enok var eptir
ok Elías
hjá dauðans hálsi,
horfandi á bak
hinum heilögu
með hárri furðu,
sem þeir sáu
til sinna beina
ná-herbergja nú
niðrstiga;
Rètt á fólks-frelsis
fullkomnunar
tilsettum tíma,
nú á tíð dýrðar,
sáu þeir sveima
sálir feðra
til greindra grafa
eptir Guðs boði.
Nóe niðrstèg
með niðjum tveimr,
jafnskjótt á jörðu,
Jafet ok Sem,
fór hann gagngjört
til grafar þeirrar,
hans sem huldi bein
á háu fjalli;
þar sem forðum fèkk
frelsis örk hans,
af Guði gefin,
griða stöðu,
dymmt drynjandi
yfir djúps öldum,
sem bjarkir brutu
ok bylltu skógum,
ok tjáði tilbeiðslu
teikni gladdr;
þar hann þegar lèt
þakkar altari
ok offurs uppbyggt
hinum eylífa,
ok sá þik sanni
sáttmáls bogi!
sem Guð sjálfr mat
sjónar í náð —
friðar trausta teikn
tilbiðjandi.
Aldinn Abraham
unnustum með
hafði hraða ferð
at hellir grafa,
sem lá gegnt lundi
enum lauf-fagra,
þar honum þegar
þraut-sigranda
guðdómligann gafst
at geta sèð,
meðr mannligri
mynd þó klæddann;
þekkti því eigi
þann er hann sá,
nè, hvör var, vissi
hinn vegfarandi,
hvöreð með honum
í hlè ok skugga
neytti næríngar
af nýum gróða.
Við Nebo náði
ná-beð sínum
Móses óbygð í
öðrum fjærri,
þar sem Guð hann gróf
undir grjót-urðum,
er hann andaðist
fyrir augsýn Guðs,
Sem honum sýndi,
fyrreun sofnaði
fyrirheitna fold
af fjalli Nebo,
hið kostum krýnda
Kanaans land;
fyri geystum geig
af Guðs náveru
sundr-brustu björg
undir bleikum ná,
svo hann sjálfkrafa
sökk þar niðr;
Ultu þá aðrir
eptir honum

stóreflis steinar
af storðar skjálfta;
svo lá hann svefni
svæfðr laungum,
já, af Jehóvæ
jarðaðr mund.
Einnig undu sèr
eigi svo lángt
burt frá Golgata
til grafa sinna
Mósis lofligir
lærisveinar,
þeir er megnum með
mælsku þrumum,
ok spádóms spjöllum
spakligra sálma
ókominni af
útbúnir heill,
útaf járn-armi
ónýtra goða
Abrams sonar son
með sæmd þrifu.
Geigr umgirðti
grafa svæði
hinna heilögu,
ok hratt til baka
fældi fót þann hvörn,
sem fór þar nærri,
enn nú ódáins
atkomumanns.
En nú englarnir,
svosem einúngis
hyggðust heilögum
hjá at dvelja,
skjótfleygir skýum
skunduðu frá
ofan aptr
enn til þeirra.
Adam ásamt með
ástfólgnum sèr
var kominn gagngjört
at gröf sinni,
sik út af undrun
ærit djúpri
hreif hann þegar hratt,
hermandi svo:
Ek sá þèr urðuð
hjá yðr varir,
eins sem ek fann til
ógnar helgrar,
þá er greindi Guðs
Gabríel boð;
en þèr ásamt mèr
yðr gleðjið!
Virðtir erum vèr
þeirrar vegsemdar,
at vèr nú einmidt
á þeim tíma,
nær hið liðna lík
Lávarðar vors
guðdómligs ok góðs
nærri gröf sefr,
erum sjálfir svo
meðr sofanda
nú allt at nábeð
niðrlægðir!
þrí-sælir þess,
at vèr þat urðum!
O hvað hugsun er
yndislig sú,
ásamt eylífum
Arfa Föðurs
nú niðrlægðum
at niðrlægjast!
þá er ein enn nú,
sem mik upptendrar!
Ek mun á efstum
úrskurðar degi,
nær hann af himni
híngat kemr
jörðina' at Eðen
til at umskapa,
ok þèr meðr mèr,
mín kæru börn!
aptr uppvakna
af andláts svefni!
Allir uppvakna,
til enda jarðar
sem liggja ok sofa,
munu sannliga

allir uppvakna
til eylífðanna!
öll mín afkvæmi
ótölulig
munu meðtaka
myndunar fyrstu
líkami lýsta
ljómandi dýrð,
sèrhvörs samkvæmann
sál líkama!
Æ! hvörsu hárrar
hefir oss til
sá hinn sanni Guð
sælu skapat!
hvörsu hefir þú
hel ens mikla
foldar Friðþægis
ok til fagnaðar
hvílíks hafit oss
hauðri fædda!
Þið eruð, Enok
ok Elías!
þess vissir vottar,
hvörsu verðug er
upprisa' af dauðum
eptirlaungunnar
einum þeim, sem er
ódauðligr!
Drýg eigi dvalir,
dagr efsti!
svo vèr þurfum þik
eigi þrá lengr!
tef, æ tef heldr
svo tölulausa
fái flokkar þeir
fjölgandi mergð,
sem at síðustu
sínum gröfum
af til eylífs lífs,
skulu útgánga!
Adam sagði svo
með sælli ró,
ok hinir helgu,
sem honum fylgðu,
fullir af unun
eptirhugsuðu
glöðum þánka þeim,
sem hann þá vakti
um lítil-lækkun
með Lausnaranum,
ok hinn efsta dag
allrar jarðar;
svo stóð nú sèrhvör
við sína gröf.
Nötraði nú
frá neðstu rótum,
ærit óttaligt,
at efsta toppi
mikils musteris
Móría fjall;
skelfilig ský
með skjótu flugi
ultu fram, útaf
allra-helgasta;
þaðan streymdu þau
þá ígegnum
háar hvelfíngar
þess ens heilaga,
svo framm um forgarð
fagrar kyrkju,
ok svo þaðan enn
upp til himins.
Hvört sem þau horfðu
hræðilig ský,
ber jörð bifaðist,
brustu klettar,
straumar flóðu framm
ok frekt ólgðu;
loksins lágu kyrr
leyptrandi ský,
ok sik útbreiddu
yfir grafir;
Ofan yfir þær
æddi stormr,
en í þeim stormi
eigi var þó
öflugt almætti
eylífs Sonar;
skalf þá grund ok grjót
kríngum grafirnar,

en eigi at heldr
í þeim skjálfta
Endrlausnarans
almætti var.
Streymdu stoltar-ský
sterkum logum,
en í þeim logum
eigi var Guð;
þvínæst blíðr blær
blès af himni,
ok hins eylífa
eingetna Sonar
öflugt almætti
var í þeim blæ.
Æ! á forfeður
fèll nú dvali,
sætur eins ok svöfn
í svölum skugga;
hvörsu þeim varð við
vissu þeir eigi;
en þat þeir fundu
var þetta at eins:
góð Guðs nærvera,
ok gustr hennar
blíðr blès um þá
í blæ þessum.
Fagnaðarfullir,
forundrun með
bróðurligri brátt,
blíðum augum
horfðu heilagir
hópar engla
upprisunnar um
allvíða mörk!
Þóktist Adam þá
þannig hrópa:
sjá! ek skapast skjótt,
ek verð skapaðr!
stórum streyttist hann
at standa á fætur;
en hann kraup á knjám
kyrr í dupti.
Hörpur hljómuðu
hann umbergis;
svo til hans Seraf
saung ok Kerúb:
sèrtu nú á ný
nú upp lèðan
ok at eylífu
eylífð skaptr!
Sjá, þú dauða dóst
daga þinna
deyanda degi
dymmustum á;
ó! þèr æ sè heill,
Adam fyrsti!
vakna nú ok njót
at nýu lífs!
Lífs svo sælufulls,
at síðan fyrsta
skeði sköpun þín,
skalt þú, Adam!
ei líku lífi
lifat hafa!
aungvum dauðdaga
deyr þú nú meir!
Adam sem áðr
í kraup dupti,
ok hafði enn nú
óskíra sjón;
hans af ljóss-lopti
líkami gjörðr,
sem hann síðan dó
sífeldt klæddi,
varð hinn vaknanda
viðeinaðr,
ok fèkk umsköptum
uppklárunar.
Reisti hann sik hratt
ok hafinn stóð;
arma báða brátt
breiddi mót himni:
unun er mik skeð!
út af dupti
þú mik náðir nú
á ný kalla!
Já, ek veit þat víst,
við mik hefir
af þèr, ástríki
Endrlausnari!

aptr sköpun skeð
skærari enn hin,
sem mik myndaðir
með í Eðen!
O! fengi ek fundit,
Frelsari, þik!
ó! ek ef fyndi
hinn almáttuga!
hvörsu mjök mundi
mèr vera tídt,
at falla fram
fyri honum!
hvörsu tídt ok tamt
hann at tilbiðja!
Eflaust þú ert
oss nálægr,
at sönnu eigi
með augum sèðr,
en oss efalaust
allnærri þó
ertú, góðgjarni,
Guð-friðþægir!
já, sú hin hæga
himins kylja
nú er náðug raust
nærveru þinnar!
Ok þau umkríng mik
einnig vakna! —
lítit þèr á láð,
ljóssins englar! —
kríngum föður fólks
framkoma börn
hans en heilögu
af hel-dúr vakin!
Eva tók nú til,
talandi svo,
endrvöknuð eins
sik at upphefja:
hvör em ek orðin?
eða hvörnig?
er ek í Eðen?
ellegar hvar?
Ek lifi lífi,
lifnuð aptr,
skærn, fyrst skeðrar
sköpunar minnar!
ó, þar er Adam!
en hvað hann skín!
ok hvað ek einnig
em nú fögur!
O þú, hvörs undir
eittsinn munn
lítast ljómandi,
lýs hvar þú ert,
at ek megi mèr
sem mest flýta,
ok þèr auðmjúkar
inna þakkir,
sem aptr sóktir
sakleysi mist!
Nú flýtti fljóð sèr
á fund Adams,
Adam eins flýtti
til Evu sèr;
en þau öldúngis
orðlaus stóðu
fyrir forundrun
ok af feginleik,
er þau hvört annat
umföðmuðu;
návekjandans nafn
naumliga þau
at eins orkuðu
út at stama.
O Abel, Abel,
ástkæri son!
svo Adam Abel
ávarpaði,
er hann fyrst kom framm
fögrum líkr
milda vors morgni
í megin-glansa
purpura prýði
prúðbúinn mjök!
Hvörsu hefir oss,
hjartkæri son!
meðr stórri mergð
miskunsemda,
heill ok hollustu,
ok með hæð náðar

fólksins Friðþægir
farsæla gjört!
At jörð urðum við,
þegar önduðumst;
at hvörju orðnir
erum við nú?
yfir allt þat framm,
er vèr skildum,
ok vèr óskuðum
eðr báðum,
við oss hefir hans
hvervetna gjört
ástar örlæti
yfirgnæfanda;
Vorar hefir hann,
himneski Faðir!
forlíkat fyrir
framdar syndir,
ok fyrir allar
illgjörðir heims!
hvílík himins ró!
hvör einn þeirra,
já, allir, allir
munu eins ok vèr
menn af mold vakna,
þá morgna tekr
at enum efsta
allra daga.
Enn fann sik aptr
Enos hjá Seth,
með Malabeel
ok með Jareð
hèrmeð hjá Kenan
ok honum sem gat
nafnfrægann Nóa,
næsta gömlu
mikilmenni hjá
Metúsala.
Midt meðal geisla
menn þeir vaktir
fundu sjálfa sik
á sínum gröfum
titrandi ok tómum,
með tilfinníngu
næsta nákvæmri
ens nýa lífs;
I ham himneskum,
hinum betra
fèlags förunaut
frelsaðrar sálar
ok ódauðligrar,
er eitt ok sama
þvínær þenkir
ok til þess finnur,
sem hún sjálf þenkir
ok sjálf finnur til,
í hvörjum einnig
sú hin eylífa,
sálin, sjálfann Guð
sèr ok skoðar!
Sem fyrst fagnaði
eptir fæðíngu
sú hin mikla mergð
morgunstjarna,
með tign týaðra,
tilveru sinni,
ok þik upphófu,
alls Skapari!
hátt hljómandi
með heiðurs saungvum;
Adams arfar þeir
eins komu framm,
fullir fagnaðar,
ok fagurt súngu
yfir sjálfum sèr
sæld ok unun,
nýa unun nú
ok nægð sælu!
Allar upprisu
endimerkur
undirkváðu klið
kæti-radda,
fagnaðarfullri
forundrun af
enna örendu
aptrkomenda!
Nóe, foldar fólks
faðir annar,
sem hinn fyrri fyrst,
fann, at hann varð;

kyrrari kylju
kvöldrökkurs í
varð af hel-dúr hann
hèr uppvakinn.
Rauðleitr raki
rann af herðum
ens ódauðliga,
í því hann reis
af skugga skúmi
skyndiliga;
þannig undir eins
upphrópaði:
Þèr englar, englar,
innið mèr þat!
er mèr, sem Adam
í Eðen, gefinn
nokkr nú skaptr
nýr líkami?
ó! hvar erum vèr?
uppi hjá trón
eylífs Alföðurs?
eðr í gröfum?
Hvar at tjá tíðkið
tilbeiðslu þèr?
hvar er hann, sem mik
hóf at nýu,
allann af honum
umskapaðann?
at ek með yðr
ákalli hann
á jörð framfallinn
fyrir honum!
Jafnsnart upp af jörð
Jafet ok Sem,
sonu sina,
sá hann vakta;
hann þá undir eins
ávarpaði:
innið mèr, arfar!
æ hvar er sá,
sem upp fèkk æstat
oss frá dauðum?
At vèr förum fljótt,
föllum niðr,
ok með traustri trú
tilbiðjum hann!
Þèr nýu niðjar —
eigi Nóa meir,
því hann er þat eins —
upprisunnar!
Hvar er hann, sem oss
meðr himinsins
öflugum eldi
hefir upptendrat?
at vèr knè-krjúpum,
köstum oss niðr,
ok hjölum honum
heiður-saungva!
Glíkt sem góðmenni
þat er Guðs leitar,
Guðs, sem gjörði þat,
í gjörvöllu,
ok fær hann fundit,
í furðanligri
prýði sinni sól
sèr upprenna,
í vænsta vor-blóms
viðhressandi
skemtunar skógi
bak við skrautlig trè,
sem af sèr anda
ilmsætri gufu;
Fellr hinn frómi
frá sèr numinn
í undrun, yndi
ok ótta blandna,
viðr sólar sjón,
því at sannliga
er hún afbragðs fríð,
öflugt vitni
Drottins dýrðar
dásamligustu!
Eins leit Abrahams
engill föður
trúar-traustra
á tímum seinni
fullann farsældar,
forkláraðann
ok ódauðligann
upprisa nú.

Abraham munð með
munn sinn byrgði,
ok brá strax augum
upp til himins;
sagði hann um síðir,
er um sik þenkti,
af furðu fánginn,
framvegis svo:
Ek em víst orðinn
ummyndaðr!
ó hvað undarligt,
Endrlausnari!
er þat afsprettr
endrlausn þinni!
ok hvörsu er þat
allt fullt náðar!
Guð, sem leystir lýð!
líf hið nýa
þetta, sem þú mèr
hefir þannig skapt,
at ek risinn er
upp af dupti,
eins þínum undum
er útaf flotit!
Iskrýddann eðlis
óvisnanligs
ljósi líkama
lèztú þenna,
sóma meiri svein
sálar minnar,
minn Guð! myndaðann,
ok mèr hann gafst,
fyri daga dag
ok dupt-gáng jarðar!
Æ! hvör er ek,
hvör er ek þess,
at þú mik svo með
miklum heillum,
Manna-elskandinn!
meir uppfylltir!
hann svo hrópandi
hástöfum grèt,
af þökk ok unun
upptendraðr.
Enn kom Isaak;
Abraham leizt
sem væri sveinninn
einn af Serafím;
svo var sólfögru
sóma skini,
ok hýrt hlæanda
himin-búa
morgunroða með
upp af mold risinn
ok úngr orðinn,
Isaak prýddr!
O, sást þú, engill
alskínandi! —
innti Abraham —
ek þegar varð?
fyrir Adams ætt
er hann dáinn!
mínu hefir hann
hismi beina
þurru þverraðra
þetta líf boðit!
Enum eylífa,
Abraham, faðir!
til þess trúðir þú
tvímælalaust,
at ek af ösku
mundi uppvakinn
rísa, þótt reistr
reynslu altaris
blossi brenndi mik
brátt til fórnar.
Nú em ek aptr
uppvaknaðr!
Fólk-forlíkandans,
feðra bezti!
yfir allt er náð
undrunarverð!
örendr enn nú
uppá krossi
hvílist heilagr
hans líkami;
ok vèr af honum
uppvaktir þó
með dýrstu dásemd
af dauða risum!

Ek sem af svefni
sigraðr hnèg,
lèk um mik lopt-blær
ljúfr himins;
í skærum skýum
skyndiliga
furðu fánginn ek
fann mik á ný.
Fyri forundrun
frá sèr numdar
hirtust brátt Sara
ok Betúels dóttir,
endr uppvaktar,
unnustum sínum;
stundum þeir á þær,
ok þess á milli
á háann himin
horfa mundu;
Stóðu fagrar frúr,
faðir ok sonur,
öll fundu á sèr
upprisuna;
lengi þögðu þau
ok þar biðu,
en í sálum innst
eylífar þakkir
gullu glóandi
ok gleði-saungvar.
Svo kom með sællri
sigur-kæti
af gröf upprisinn
Israel framm;
flóðu fögur tár
ok full sálar,
þýðra þakka tár
þessum dundu
öldúngi af augum
endrvöktum:
Hátt Halelúja
hels Sigranda!
milli dóms ok mín
Meðalgángara!
þolat hefir þú
þúngann dauða!
allt er vel af þèr
á enda kljáð!
þú frá dauðans dal
ok dúr laungum
mik ýngðann aptr
hefir útkallat!
Máttu sèr nú sist
Serafim halda,
lètu ljúf saman
lofkvæði sín
viðr rödd renna
þess ens rèttláta,
er lèk uppvakinn
unaðs saungva:
Dýrð ok dásaman
þeim dauða vekr!
gäfgun gjafara
guðdómligum
þvílíks al-yndis
eylífa lífs,
sem nú grær nöprum
upp af ná-gröfum!
þik gleð, þú himin,
þínum yfir
at eins ókomnum
innbyggendum!
þessar fyrst frjófu
frumgróða stengur
bifast ok blakta
með blíðu hvísli
undan allsherjar
uppskeru gný;
þeirra lofljóða
lystugu saungvar
kynna fyri kall
kornskerandanna:
upp þèr örendu!
allir hèr framm!
Ok hátt hljómandi
herlúðurs raust:
gef þá, ægir upp,
ok þú hauðr!
seljið framm sèrhvörn,
er svolgit hafið!
æ! hins efsta dags
unnnar glaums

er hèr nú innboð
undan súngið!
Israel augum
af þeim snèri,
ok á gröf gætti
Golgata fjalls:
um himin allann
vil ek úthrópa,
eylífra samsón
meðr saung-flokka,
þakklæti þèr,
nær af þinni gröf
öflugr aptr
upp þik hefr!
Nær enn elskaði
elskandann sèr
á drottinligum
dýrðar tróni,
glóanda af glansa
guðdóms tignar,
þeim er áttir þú,
áðr þessi fèkk
alheimr upptök
allra fyrstu!
Eruð þèr, englar!
sem ek er, slíkir?
ónei, þèr eruð
víst ekki þat!
eigi þèr, sem ek,
andast hafið!
ek dó eitt sinn,
ok á hann trúði!
Frábærann fögnuð
funduð þèr eigi
af því at öðlast
upprisuna!
eins ok menn andast
andaðist hann;
eins ok menn einnig
mun hann uppstíga
neðan frá ná-beð
í hið nýa líf!
Þèr æ sí-sælir
Son tilbiðjið!
ok vèr samsælir
sömuleiðis,
með helgri heiðrun
hjartauliga,
ætíð eins ok þèr
áköllum hann;
En vèr elskum meir
þess ens eylífa
ok drósar dauðligrar
dýrmætann Son!
æ! hvar eru þeir,
sem elskuðu
hann í heims lífi
hinu fyrra
ásamt meðr mèr,
mínir vinir?
Þeir sem hann sáu,
at sönnu þó
at eins álengðar
ok í þoku,
hinn mikla mannkyns
Meina-bætir,
þó í góðgjörnum
guðdomi hans!
Hann leit frá himni
at hauðri niðr,
kom hann augum á
sína elskuðu,
ok þá með ástsemd
umfaðmaði,
ei þó en Jósef,
eigi Rakel.
Beið hjá grafar beð
Benonis móður
vífsins varð-engill
vegsamligr;
hún stóð við hátt op
ens hola kletts,
en á hæð ofar
engill hennar;
Ástsemdar augum
inniligustu
leit hún til hans
uppá hæðina;
ástsemdar augum
inniligustu

leit hann til hennar
af hæð niðr!
Þá hóf Rakel róm
ræðandi svo:
einslig er mín gröf,
ó þú Seraf!
ansar engillinn
aptr svanna:
einslig er, Rakel!
einnig sú gröf,
sem ásett er
at innann stundar
geymi göfugt lík
ens guðdómliga!
Rakel innir enn:
þú ódauðligi!
hvílík harðkvæli
hefir liðit
hann, hvörs ásett er
innann stundar
lík á Golgata
í gröf skuli lukt!
Æ! hvað oss hefir
afrekat hans
fullfenginn dauði
til friðþægíngar!
ek mun um síðir
eittsinn vakna,
hèr, þar sem hold mitt
at húsmi varð!
einnig upprisu
hefir afrekat
mèr sá hinn mikli
Meðalgángari!
Meðan þetta þar
þau umræddu,
sást um fætur fljóðs
fyrst upp af gröf
sik hægt hefjandi
hrærast gufa,
lètt ský ok lítit,
líkt sem kríngum
væna veifast rós
vorlags lauf,
silfr-kvoða sæt
sem afdrýpr.
Hjóðat Rahelar
röðul-glansi
lèt á líðandi
lopt-gufu þá
glóanda gulli,
glíkt ok sunna
umsmyr ytsta fald
aptan-skýa.
Fylgði svanna sjón
sveimandi gufu,
ok leit hve leið
í lögun ýmsri
einni ok annari
umhverfis sik,
lyptist, lækkaði,
loksins henni
æ fyllri' í fegurð
færði sik nær.
Dáðist drósin
at svo djúp fyndnum
skilníngi í skiptum
sköpunar þeirrar,
í enn stóra
ógrundanligum,
ógrundanligum
eins í smáu;
An þess víf vissi,
hve væri mjök
sèr nákomin sú
sveimandi gufa,
ok hvað af henni
almáttug raust,
þín raust, fórnfærði
Friðþægjari!
mundi skjótt skapa,
skynjaði' hún eigi!
Yfir hana hún
hneigði sik brátt,
ok með augum
æ glaðari
gaumgæfiliga
gáði hennar;
hèldt at sèr höndum
hennar engill;

með meiri gleði
enn megi nefna
stóð hann staðkyrr
ok starði á þetta.
Í því uppkom raust
hins almáttuga!
Rahel leið á láð,
lèmagna varð;
fannst svo fljáði,
sem flyti í tárum
yndæls gleði-gráts
ok geðfróa;
Sem rás rammefldri
rynni í dali
forsælu fulla
í fossum niðr;
sem hún yfir einn
upplypti sèr
bakka blaktandi
blómstra fullann,
meðal hvörra hèr
ok hennar gufu
dásætra dampa
drós sik nú fann.
Við þat vaknaði
víf at fullu,
fann til sín, sá sik,
ok til sanns vissi,
at lopt-líkama
lèttfærum mjök,
nýsköpuðum nú
næsta fögrum,
ok ódauðligum
íklædd væri.
Hún leit til himins
hjarta fángin,
ok þeim þakkaði,
er þannig hafði
hana heimtat
útaf hel-svefni;
ok nú var hún ei
orðlaus lengr:
Þú minn Friðþægir!
þú minn bróðir!
Jesús Kristr kær,
minn Kóngr ok Guð!
nafn þitt fyrst ok fremst
framm af vörum
mínum hátt hljómi,
ok hèr næst yðar,
ó þèr elskuðu
ástvinir! nöfn:
Jakob, Israel,
Jósef, ok þú
bur minn, Benjamín!
Benjamín sonur,
Jakob ok Jósef,
ok Jesús Kristr,
minn Drottinn, minn Guð!
hvar mun ek þá
mína mest þreyðu
mega finna?
Leið mik, æ leið mik,
ljúfi Seraf!
svo at ek sjái
hinn sann-tilbeðna,
einnig Israel
ok arfa mína!
þyrstir eptir þeim
þreyandi sál
innstu fylsnum í
ákaft mína!
í augsýn þeirra,
ásamt með þeim
mik af minni heill
mun ek gleðja,
æskiligum arð'
upprisunnar.
Jakob hitti hún
ok hans Leu,
systur sína,
ok syni hennar,
uppaf ummerkjum
Egyptalands
þeir frá flóðstraumi
voru framkomnir,
jafnt sem Benjamín,
en Jósef ekki;
hann enn himneski
ok helgi Jósef

gröf sína í Sikkem
sveimaði um kríng.
Einn hinna úngu,
sem eitt sinn Jesús
kysti kærliga
ok kvaddi blessun,
setti midt meðal
múgans ok kvað:
verðit þèr sem þau,
því at ella
ei' þèr eylífft líf
erfa kunnið!
einn enna sömu
var nú andaðr.
Ljúfr ljóss-engill,
er leiddi svein,
í Hemons haga
honum fylgði,
ok sem þeir sáu
sál ens helga
grafar hvelfíng hjá,
heptu þeir flug.
Ungr Sameð svo
Seraf frètti,
er hann andar dýrð
ókenndrar sá:
hvör er, himneski
handleiðir! þessi
furðu fagra mynd,
full af helgri
hugar hátign
ok hjartagæðsku?
Með blíðu brosi
ok bjartleik hægri
svaraði sveini
sjálfr Jósef:
aldin-blómstur úngt,
sem unað-skugga
lífsins eikar í
uppvaxa munt,
ok við kláranu klið
af krystalls straumi,
þeim er framflýtr
af fögrum tróni,
þekkja fýsir þik
þat, hvör ek sè?
Ek var únglíngr
í því lífi,
sem þú einnig ert
útaf sloppinn,
farsæll í fyrstu,
en fyri liðnar
ofsóknir aumur
útlendíngr,
síðan hátt hafinn
í heiðurs stand!
varð ek velgengni
vafinn stórri,
fjölda-lýðs faðir
ok föður míns!
þekkir þú nú,
sem þaðan hefir
árla útflogit,
Israels son,
einnig af Rahel
alinn móður?
síðan Sameð
til Serafs mælti:
Er þat víst, engill
ódauðligi!
af Rahel alinn
Israels sonur,
um þann mèr áðr —
æ! um Jósef! —
fèkk opt faðir minn
furðanliga,
grátandi af gleði,
greinda sögu.
Skín, skæri Jósef!
skín ei svo bjart,
svo ek vogi vel
við þik ræða;
þat eitt, þik at sjá,
þess, ó Jósef!
fullverðugt væri,
at vinna þat til
at þola þúngar
þjáníngar dauða;
þá vilda'k þola
fyri þik gjarnaun,

ok þat optar
enn einusinni,
bitra baráttu
blómafulls lífs
enn í uppgaungu,
ok inniligrar
elsku til æsku
yndisfullrar,
bitra baráttu
við bistann dauða,
Ok við tortínslu
tilfinníngu,
ofboð algjörðrar
eyðileggíngar,
draum um eylífa
óveru nótt,
þá ógn ógnanna
er ek hið fyrsta
þó varla vorðinn
viðskila nú!
Engill mildr minn
mèr þat sagði,
ok hlaut opt segja,
at ek lifði!
svo hafði svikul
sjónar-villa
algjörs undírgángs
önd mína skelft!
O þú únga sál,
árla hólpin!
þú hlauzt þrauta lífs
þjáníngum af
ok svo lítit eitt
at útstanda;
hvörsu þat nú þèr
með því launast:
At svo hraða hlauzt
hlutdeild sælu
eylífrar öðrum
erfíngjum með,
ok þat jafnvel þeim,
sem þó eru
hafnir hærri enn ek
á hennar tröppu.
O! son Israels! —
inni Sameð —
má ek þinn mikla,
sem þó mildaðir,
at líta ljóma
lítt afbera!
en Jósef aptr
ansaði því:
Senn muntu, Sameð!
sjá ok nema,
áðr lángt líðr
líta munt þú
öldúng Abraham,
ok hans ljóma!
lausir látnir
frá líkham jarðar
fljótliga fræðast
enir fullsælu!
Vil ek víst gjarna
vísdóm nema —
svaraði Sameð —
þú, hinn sannvitri
Israels arfi!
uppfræð þú mik!
líka lènast
í lífi jarðar
stundum stórvægar
stundir himins
Hvör var hagr þinn
himins stund á,
er ei lengr leynt
lund gazt þinni,
heldr hrópaðir,
hástöfum grèzt,
svo Egyptsk eyru
álengðar heyrðu:
ek em Jósef, ek,
yðar bróðir!
er minn faðir ok
enn á lífi?
Þegar brúna blis
bræðra þinna,
einkum hins yngsta
af þeim bræðrum,
þegar brúna blis
Benjamíns þíns

sáu sjálfann þik
svo mælanda:
frá skíríð, frændur!
föður mínum
minni upphefð á
Egyptalandi!
Fèllst þú fljótt um háls,
fellandi tár,
blíðum Benjamín
bróður þínum,
urðu þá ok í
umföðmun þinni
Benjamín full-fljótt
en felldu tár
tár tignarsælu
tíðliga hrepptrar!
Því á þeirri stund,
er þú vissir
þinn fróma föður
hafa fregnat slíkt,
ok hjarta hafi
eus háaldraða
allt fullt af undrun
annann veg þenkt,
ok því ei trúat,
uns um síðir
mál þitt heyrði hann,
ok háann vagn
Faraónis fyrst
fèkk at líta;
Þá, já, þá hafi
þarvið lifandi
orðit andi hans,
er hann sagði:
mèr nægir nú
þar numit hefi,
at minn enn lifir
arfi Jósef!
ek vil án dvalar
ofan þángat,
at hann enn sjái,
áðrenn dey!
Ok sem þú sást nú
í sannleik hann,
fèllst þú fljótt um háls
föður þínum,
ok fjöld, faðmandi,
felldir tára,
sagði hann þá svo
við sjálfann þik:
glaðr geðs vil ek
gjarnann deya!
Af því ek hefi
þitt auglit sèð,
ok er viss orðinn
at þú lifir,
lengi sárt syrgði
son minn Jósef!
hvörsu var háttat
hugferði þínu,
hèr sagðri himins
heillastund á?
Jósef Sameð svo
svaraði aptr:
kom, sem einnig ert
Israels sonur,
bróðir mætr minn
ok mínum ýngri
bezta Benjamín
nær bar svo til!
kom, ok mjúkum mik
mundum faðma!
Tók af tali hans
titrandi nú
Sameð sèr í faðm
sælann Jósef;
lengi lètu þeir
ljúfum himins
hvör yfir annann
úthellt tárum.
Hermdi hár Jósef:
hvörnig mèr var,
sannliga, Sameð!
sjálfr fundit
hefir þú með þèr,
þegar sögn
um mín elsku-tár
áðr á jörð
yndis auðuga
upprifjaðir;

þegar þú mínn
þar með í brjósti
harla háa jókst
himins gleði,
já, svo mjök jafnvel
jókst, at nýum
ek þann með þökkum
ok þróttkari,
enn goldit gat
meðan gisti jörð,
göfgaði Guð,
er gaf mèr sælu.
Sameð svarar:
at segja þakkir
ek vil ok, Jósef!
af þèr læra;
en herm mèr hèrnæst,
hvarfyri þessa
dymmu dauðs manns gröf
dvelr þú við?
En Jósef engil
ávarpaði:
inn mèr, þú sem ert
ódauðligr!
hvört veit hann vera
viðskilinn líf
Griða-gefandann
guðdómliga?
Svar vildi veita
voldugr Seraf,
en Sameð áðr
upphrópaði:
víst veit ek gjörla,
veit ek skeðann
afgáng allsherjar
Endrlausnara!
Jósef ansar enn
úngum sveini:
þú veizt þá líka
þat, at til vor,
kríngum hans kross
sem kyrrir stóðum,
skeði skipun hans,
at skyldum hraðir
nágrafa niðr
nú sveima til.
Viðstaddir vottar
vèr hans sánm
þúngu þjáníngar
ok þolinmæði,
þar til höfuð hans
hnèg at brjósti,
efst við andartak
í því hann dó.
Víst enn nú eigi —
ansaði Sameð —
vitandi var ek
vorðinn þessa;
til at tala um þann,
sem á trènu dó,
em ek eigi sæll
enn til hlítar!
Hvőnær sem ek hæð
hefst á slíka,
ok mik ei skortir
orðfæri meir,
vil ek við Jósef
um vegsamligann
ok góðann Guðmann
gjarnast ræða.
En herm mèr hèrna,
þú enn hjartkæri
Benjamíns bróðir
ok bróðir minn!
hvörs bein greinast geymd
í gröf þessi?
sjálfs míns bein, Sameð!
svaraði Jósef.
Atti þá hvör einn
at sinni gröf —
svo spurði Sameð —
sèr at venda?
eða er af þèr
at egin vild
þessi þín sjálfs gröf
þar til valin?
Svo var af engli —
ansar Jósef —
boðskapr birtr:
at beina grafar

sinna sèrhvör til
skyldi sik gefa.
Hvað þýðir þetta?
þèr Guðs englar,
sá mik varðveitir,
ok vinr Jósef!
mælti Sameð svo,
en sá brosti
engillinn ætíð
ódauðligi;
gaf hinn seinni svar
sveini þannig:
Máske þat þýði
þetta', at skulum
Messía með
allt at moldugum
nú oss ná-gröfum
niðrlægja;
ok með umhugsun
í allri kyrð
hjá berum beinum
bezt yfirvegum,
frá hvörju hafi
hann oss frelsat.
Því at þat hann dó,
ok at því skeðu
upprís nú aptr,
oss frá dauða
fullfrjálsa gjörir,
ok fyrir þat
verðum vèr reistir
af vorum gröfum
allrar jarðar á
efsta degi.
Sameð svaraði:
svo mun Jósef
heims á hinnsta dag
hèr uppvakna!
ó at mínir menn
af mèr gefnar
hauðri holds leifar
híngat flyttu!
ek þá með Jósef,
upprísi af gröf!
Látum oss gagngjört
inní gröf sveima,
ok sjá hvað eptir
er í dupti
af hjúp holdligum,
sem huldi þik,
lítum, hvað loks mun
til lífs vakna!
Arfar Israels
innvöfðu þat
í balsams búníng
enna burtdánu
hjá framfljótanda
Faraóns straumi;
því máske mold þín
frá mold jarðar
sundr-skilin sè,
ok við sjá megum
hvað undir eylífð
uppblómgast mun.
Kom þá, kvað Jósef,
ok í kalda gröf
hann sik með Sameð
svo gaf niðr;
þar sem í þeirri
þykkvast nætur
húm var hvelfíngu,
hittu þeir nú
Jósefs engil einn
innistaddann;
útaf augum hans
eptirbiðar
fögnuðr framskein
ok föst þreyíng;
Sèr ek, ó Seraf!
sagði Jósef,
at þú glaðr ert
yfir honum,
sem mun sannligá
af sínum vakinn
bráðliga birtast
bana-svefni!
Ek gleðst, ó Jósef!
engill mællti,
allmjök yfir hans
upphafníngu

sú er sífeldt mun,
í sælu ok dýrð
vaxandi, verða
vegsamligri,
ok mèr æ mína
meðr nýrri
undrun eptirbið
endrgjalda.
Ef þú elskaðir
yndælann völl
ok vænum vafinn
vordags skrúða,
þar er fyri þèr,
hvört sem þú gengir,
ætíð uppspryttu
aldini ný;
En hið eina,
sem unnir mest
allra aldina,
en nú svæfi
glaðværrar grundar
geymt í skauti:
þú mundir þess
með þrá, Jósef!
ok unaðs-óró
eflaust bíða!
Hvör af mildi mergð —
mælti Jósef —
er sú, ó Seraf!
sem þú meinar?
þú ódauðligi,
þó enn dauði! —
ansar engillin —
atspyr þessu,
hvað af mildi mergð
ek meini nú?
líttu við, vinr!
vit hvað þú sèr!
Jafnsnart jós sèr
upp af jörð sjálfri
gufa glík skýi,
ok grjót-hvelfíngar
sèg með sama
við síðu niðr;
en þar sem engill
yfirflökkti
þess hins heilaga,
hismi lítit
var, ok veifaðist
sem vind-rik eitt.
Skaut sèr af skýi
með skyndi-svifum
hann ótt umvafinn
upp ok niðr;
gjörði þat glampa:
þar glýa var,
ok fèkk fegurðar
fæðanda dupti;
Jósefs hermir hátt
helgr engill:
sveima nær ok sjá,
hve síur lífs
enar fyrstu fá
hèr í foldinni
upptök eðlis síns
alldýrðliga.
Nú kom upp niðri
í ná-hvelfíngu
einn blídt blásandi
blær með hvísli,
lèk hann um lokka,
líta sem gull,
svo þeir sveifluðust
á Sameðs höfði;
Einnig Jsraels
eptir syni
sendi þæganu þyt
þessi kylja,
er nú öskugum
eptir leifum
beina sinna sá
sik færði nær.
En hin nýa nú
næsta mjök varð
sköpun skjótari
skygnum augum
Serafs ok Sameðs,
enn at sjá mættu
þá mikla myndun
meðan skeði;

þá fyrst sáu þeir,
er þat var skeð,
dáit dupt orðit
dýrðliga veru;
af ríki risinn
Rakelar son!
Strax hefr hann upp
hrópandi raust:
ó, sá hinn sami
sáttmálans engill,
sem forðum færði
fólk um nætur
með skærum loga
skýi um dag,
Er hann leiddi lýð
lofsverðri makt
burt af böl-gröfum
bygðar egyptskrar,
yfir ægir sefs,
inná foldir
kærar Kanaans;
kveljandinn sökk!
ó! sjá, hèr sökkur
sá hinn stærri
deyðandi dólgr,
dauðinn sökkur!
En nú Israel
er ok Rahel
Efrons haugum í
ok Abraham,
Abraham einnig! —
uppkvað Jósef
þannig þánka sinn,
ok þar með flaug
í glöðum geislum
útaf gröf sinni;
Farar flugi hans
fljótt þjótanda
englar ok Sameð
eptirfylgðu;
sveif hann þá þegar
þess ens helga
merkis-miði frá
Mamre-lundar,
forfeðra sinna
á fund ok bræðra.
Hvör mundi heyra
til hlítar svo
hljóm af himneskum
hörpu-strengjum,
at fái óm þann
endr-kveðinn,
hvörsu hèr tóku
hvör mót öðrum
í seinna sinni
samfundi við
fagnaðarfullir
faðir ok sonur;
Hve bræður blíðir
bróður þekktu;
hvílíkar hjá sèr
hræríngar fann
mjúk-hjörtuð móðir,
nær mög þenna
sinn hinn frumfædda
fèkk at líta!
þessi hafði hann
hans en seinni
sköpun skærari
skaptann með dýrð;
inní eylíft líf
einnig náði
draumurinn dýri,
sem hann dreymdi fyrr.
Fúsir fyrir hans
fegri ljóma
hans sik hneigðu nú
hinir bræður,
já, nú ei at eins
öfundarlausir,
heldr honum
með hárri gleði
lutu þessir þar,
ok þökkuðu
þeim sem nú gaf náð
nýrri ok hærri.
Kaldt lík kennimanns
ok kóngs í Salem
ferðamaðr fann
hjá Fíala-lind;

gróf hann við hana
þann enn heilaga,
ei af einúngis
atknýandi
mennskri meðaumkun
nè mann-skyldu rækt,
líka svo ljúfrar
lotníngar vegna
hann furðu fánginn
framandi gróf.
Fann hann liðit lík,
liggjanda' á jörð
framm á sitt andlit,
at sèr halda
höndum sínum svo
samanlögðum;
þannig lá þessi
þegar hann dó, —
háleit himin-sýn
helgum englum! —
Guðs kær ok kjörinn
kennimaðr.
Horfði hinn, sem kom,
á hann lengi,
verðugr virðtr
at veita greftrun
þessum örenda,
upplypti hann
höndum til himins
með harla glöðum
ok ótta blöndnum
allshngar þökkum;
þvínæst mundum með
manninn spennti,
sem lá sofnaðr,
sèr tók í fáng,
hóf hann úr dupti
ok huldi at lyktum
bein í beð grafar
meðr bænagjörð.
Sagðrar sveimaði
um svæði grafar
mæta-maðrinn
Melkisedek;
meðr móðu-nið
miklum næsta
jós sèr framm Jórdan,
at um jörð rynni
út frá Fíala
fyrrnefndri lind,
at hans svefn-sængur
svölum mosa;
Itrar uppsprettu
yndislig rödd
sál hins heilaga
hægt yfirstreymdi
megin-djúpum með
mörgum þánka,
ok glaðværð göfgra
geðshræringa.
Heyra þóktist hún
þína hýra raust,
ó þú almáttki!
ofanrenna,
ok jafnt til jarðar
Jórsalaborg
gegnum á gimli,
með gladt látanda
ok klárum kóngstóls
krystal-straumi,
ok sinn blíða blæ
blása láta
lífsins tigna trè
topp í gegnum.
I slíks undrafulls
eptirlætis
æ dýpra ok dýpra
dásæta ró
sökk mikilmennit
Melkisedek;
hauðr ok himin
hann umbergis
gengu til grunna
gjörsamliga;
gekk-at til grunna
Guð einn ok hann.
Allr nú orðinn
uppskapaðr
hóf úr hauðurs mold
hann sik ok stóð,

en fèll aptr
á andlit niðr,
ok lá með öllu
orðlaus þannig;
En hans augu þó
öldúngis full
titrandi tára
töluðu: Jesús!
nefndu hendur hans,
er hèldt saman,
Jesúm, mjök mildann
Meðalgángara!
Ein var slètta sú,
þar sendiboða
þínum einum af,
almætti Guðs!
leiddir með lífi
úr loga-djúpi, —
ógnar-sýn öllum
áhorfendum,
skelks ok skelfíngar! —
skunduðu framm
þeir Asaría
ok Ananía
með þeim Mísael,
menn rèttlátir!
Ognar-sýn öllum,
sem afguðs mynd
fleygðu sèr flötum
fyrir, af gulli;
þegar þrá-skekin
þjóð í eyrum
gullu gjallarhorn,
gýjur, trumbur,
saltarar, symfon
ok saung pípur,
þegar þar sleginn
þinn glumdi dans,
bumba! básúna!
þín bist skrugga.
Þrír á þessum flöt
þeir ek nefndi
í stein úthöggnar
áttu grafir;
en frá legstað lá
eigi lángann veg
tèðra Guðs traustu
trúar-kappa
stór stykkja rúst
af stoltar líkneskju;
þeirri sem þar
hafði þengill sá
upphreykt undir ský,
sem hinn eylífi
hratt, sakir hofmóðs,
af hæðum niðr
Babýlons borgar,
meðal bestía;
hafði dramb-döglíng
dreymt slíka mynd.
En þau, sem þýddi
þengils draumr,
smáð ok kollköstuð
kóngaríki
enn nu liggja lágt
í lama sessi,
bísna mikil brot,
berar rústir!
Andaðann ástvin
Asaríam
hinir vinir hans,
Hananía
ok mætur Mísael,
í mold lögðu,
glaðir í geði
við greftrun hans
útaf upprisu
eptirkomandi.
En þitt helsvæft hold,
Hananía!
mætur Mísael
mundi jarða;
hann var eptir einn
ykkar þriggja,
hafandi hjarta
huggunarfullt,
ok við unnu
af umþenkíngu
nógsamliga nært
nálægs dauða.

En hans augu nú
eptirleituðu
hinna holds dupti
í helbeð þeirra,
en hans ítra sjón,
ódauðligs þó,
fór þat forgefins
ok fann ekki.
Yfir háar hann
hóf þá grafir
sik í svipting,
ok saung skærri
sálar unun í
ofan á jörð
eptir ástvinum
ok upp til himins,
lèt hann saung-róm sinn
samfara verða
um útbreidt andfar
Evfratis nið;
Ei' sem eyru manns
óm þann merkja,
sálar megni með
minnur lífguð,
heldr sem himnesk,
þegar hraðfleygr
straumr steypist framm
ok við strönd gellur,
heyrði hvör beggja
hljóm Evfratis
ok mál Mísaels,
meðan svo kvað:
Hvað sem verða vill
ok í veg kemr,
þá munum þó vèr
þessum gröfum
eittsinn uppvaktir
útaf gánga!
já, hvað víðs vegar,
sem voru þið,
firnd ok forrotnun!
fyri laungu
hafið dupti dreift
um djúp sköpunar!
Sveimi þínum þat
í þrumu svelgjum,
ægir, umgirðíng
allrar jarðar!
fari fis þetta
fjúkandi um lopt,
gullin glens beðja!
í geislum þínum!
Hönd ens hæðsta Guðs
hefir þat skapt,
bjó önd ódauðlig
í því dupti;
hans en sama hönd
mun ok hèr eptir
því samansafna
á sínum tíma!
ok hinn almáttki
yfir því standa
ok nú annat líf
aptr bjóða!
Jörð tók Jehóva
ok við jörð skelfða
mælti: mold, verð þú
manns líkami!
jafnsnart var jörð
þat Jehóva bauð;
moldin myndaðist
í manns líki!
Eins mun aptr
hinn almáttugi
taka fúit fis
forrotnunar,
ok með máttugu
maktar boði
láta þat lagat
til líkama!
þá mun víst vakit
verða at manni
fúit holds hismi,
Halelúja!
Stór mun straums niðr
ok storms æði,
ægis öskur
ok umbrot jarðar!
himin dunar djúpt;
dymm verðr nótt!

þó enn öflugra
allra þeirra
skurki, skarkala,
skelfanda gný,
hróp mun himnesk
her básúnu!
Við hennar voldugt
vakna munu
hinir helsvæfðu
hávaða kall!
þannig munu þá,
þeir er sofa,
allir upprísa
endrvaktir!
Lækkuðu hljóð hans
við hinnsta *tón*;
hann reis hèr sjálfr
upp af hel-svefni;
þar með undireins
þeir hann eptir saung
hinir vinir hans
Hananías
ok Asaría
ásamt honum!
Sá er sèð hafði,
svosem Pardus
harla frá-fætt dýr,
eða fljúgandi
at ætum erni
ákafa mjök,
ráð-rík Kaldea,
reið-skjóta þína!
en garpa grúi
geyst farenda,
sem á jórum sat,
saman hripsaði
fjöld af faungnum
eins ok fjöru-sand.
þeir höfðu at háði
háa fursta,
köstuðu at kóngum
köldu spotti;
hershöfðínginn var
harla drukkinn,
fyrst af geysi grimd,
sú er gröfum lík
æ sik auglýsti
ósèðjanliga,
hèrnæst af hefnirs
höfuð-víngls bikar;
Sá er ok sèðann
í sinni dýrð
hafði hefnanda
hræðiligri,
hvörrar klæddr kom
krapti af Paran;
fór drepsótt fyrir
enum felmtranda,
hvar sem hann gekk framm
hörmulig eymd.
Laudit lèt hann *mælt*,
hvörsu lángt skyldi
framm æða fár-pest
foreyðandi,
hvar en stór-stíga
skyldi stöðva gáng;
hálsar hlutu sik
at hneigja ok beygja
djúpt, þar dýrðin gekk
drottinliga!
Björgum blöskraði,
byltu straumar
sèr út með ákefð;
öll lutu djúp;
hæðirnar hærra
höndum lyptu;
þá stóðuð þið kyrr,
þú sól ok túngl!
eins ok eldíngar
örvar hans flugu,
ok sem ljós leyptran
logandi spjót!
Sá ok sèðann fèkk
svo hinn mikla
hjálpar-herra
fyrir her Júða,
endrgjaldandann
í egin-dýrð,
sjá, í sinni dýrð!
sá hvörs kraptr

nú var dýr Drottinn,
er dásamliga
hóf á hærra stig
hann upp af gröf;
hrósar Habakuk
þeim sem hann vakti!
Svasliga saung nú
sjáandans harpa
guðliga göfgun
við gröf opna:
grænkar ei at eins
eik með fíkjum,
eigi vínviðar
vex at eins blóm,
eðr ávextir
olíu-trjánna
virkta vel yrktra
vídt um dali!
Heldr hrósa sèr
ok hátt blómgast
einnig ódauðlig
eðal-sæði,
ágæt uppskera
eylífðarinnar!
fullfrjóf urðu þau
ok fagur-skrýdd
yndisfullum á
ökrum bindina!
Full er himins hæð
heiðurs þíns, Sela!
einnig jörðin öll
æru þinnar!
miskunsamr mjök
minntist þú vor,
nær beiskann bikar
böllfulls dauða
allt at dýpstu dregg
drukkit höfðum,
ok til fulls fúa
forrotnun sèð!
Fyri því fagna,
Frelsari minn!
ek nú yfir þèr,
sem mik elskaðir,
ok gleðst í Guði,
sem er góðs brunnur
ok mín einka heill
eylífliga!
Eins ok þegar er
öll umliverfis
himinsins hvelfíng
hulin skýum,
ok hnýsit auga
eptirbiðar
horfir æ meir upp
alvörufullt;
þá allt í einu
eldslogi Drottins
brízt út bráðr
af brostnum skýum,
ok skjótt skundanda
í skruggu stormi
úthrópar æru
ens almáttuga.
Jafnskjótt sèr jörðu
Jesaías
ok dauðans ósorg
útaf rykkti;
gladt skein Guðsmaðr
yfir gröf sinni,
ok gól þakkir þeim,
er þannig skóp
af dauðu dupti
dásamliga!
Meðal stórs staðar
stuggs ok rústa
Babýlons borgar,
sem byggja látit
til heiðurs hafði
herradóm sinum
Nebúkadnezar
niflúngr fyrr;
En þó í hvörri
eins meðal helgra
vaktara við-kvað
sú voldug raust:
þengils ríki þitt
er frá þèr tekit,
ok þú útrekinn
ert til dýra!

Innann um aldnar
eyði-rústir
lá dupt Daníels,
þeim Drottinn sjálfr
skein fagurt fyrir
í fjöld ok stærð
ókomins aldurs
opinberana.
Lengi leitandi
legstaðar síns
aðspyr hann engil,
er hans gætti:
hvar fæ ek fundit,
fagri Seraf!
gröf mína meðal
hins mikla hruns?
Sveimuðu þeir þá
þar í gegnum
eyðiligt ýlfur
af uglum nætur,
dreka blýstur dymmt,
ok dýngjur rústa
af hám hofgörðum
ok höfðíngs setrum.
Enginn átti hèr
arabiskr
hreysi nè hæli
til at hýrast í,
ei þý nè þræll hans
átti þar gerði;
loksins sá Seraf
sjáandans gröf.
Var hún öll vafin
með vatni ok sefi;
byrgðr bautasteinn
blautum mosa
efstann sýndi sik
undir sefi því,
sem blakti í bylgjum,
þá blès vindr.
Dýr sál Daníels
dauðra margra
minntist afdrif á
í aldir framm
enar umliðnu,
þeir enn sváfu,
í foldu fúnir
fyri laungu;
þenkir hún þá
um þann til baka,
sem stór, standandi
með stoltum toppi,
tók upp til himins;
trèð var skuggi
þeim enum þreyttu,
þángat til fèll
mjök voveifliga,
nær var þetta
hrópat af himni:
högg þat um koll!
Hann nam hyggindin,
en hinn eigi,
sem var Sonur hans,
ok síst vildi
nema nokkurt sinn
niðji stoltari:
at Guð einn ráði
öllum ríkjum,
ok um koll kasti
kóngum þá vill.
Gekk því framm gegnt
enum gull-liga
ljósa-haldi hönd,
sem á hallar vegg
ráðinn ritaði
ræsis dauða:
ár, tiggi! talin
tignar þinnar
öll nú ok enduð
eru þegar!
Sjá! þik á sína
sá þik dæmir
hefir vegit vog,
ok sem vettugi
ert þú oflèttur
af honum fundinn!
sundr skal nú skipt
skjöldúngs veldi
því sem þú ræðr,
þat er gefit

ok mun milli deilt
Medis ok Persis!
Samt lèt samstundis
sál ens helga
drambsamann dögling
ok hans dróttseta,
hálsa, sem sukku
með sjálfu fjalli,
fólks tortýníngar
tíma þeim á,
fara framm hjá sèr,
svo fljótt hvurfu.
En nú var endíng
einnig komin
dvínandi daga
fyri Daníel;
Guðs var nú vakit
vildarmenni,
sveif hann ok sendi
frá sèr geisla
Babýlons borgar
yfir bælis-rof,
sem frá fálátri
festíng himins
á jörð ofan skín
aptanstjarna.
Hafði Hilkiæ
hjartkær sonur
sorgar tárum sáð
á sínum tíma,
en uppskar aptr
yndæla gleði,
þar með nægri nú
ens nýa lífs
svo tærri ok trúrri
tilfinníngu,
Guð göfgandi stóð
yfir gröf sinni,
ok fann sik allann
ódauðligann.
Til spámanns tekinn
útaf Tekóa
grasbíta gætir,
sá í gortlausu
einfaldleiks inni
allvel þekkti
þann, sem hátt höfnum
á himni skóp
Vagn ok Oríon;
Amos sami
hörmuliga hrjáð
haglendin sá;
Uppvísnat allt
at ofanverðu
Karmels fjall, kyndta
Kiriots höll
af fárelds flugi
foreyðanda;
midt í mann-skæðum
Móab deyanda
upphlaups ærslum
ok ópi lúðra,
við hvörs kollköstun
Kiriot sökk!
Hèr at auki hann
hrun ok dauða
miklu meira sá
um merkur Júða;
byllt um ok brotit
Betels altari,
ok háar hallir
höfðíngjanna;
Allskonar óárs
æðandi kvöl,
himin harðara
hvörju járni,
án regns ok raka,
rik-ský at eins,
þrjá til eins þyrsta
þyrpast staði,
at sækja svölun,
en síst fá nóga:
Af sverði svelgða
sá hann æsku,
ok dróttir deyddar
af dapri pest;
nú töldum næsta
niðrsleginn
eymdar-sjónum af
Amos gjarnann

fór uppí fögnuð
enna framliðnu
frá kviku fólki,
sem fylling náði
hvörs eins sem hafði
hann fyrisèð.
Hèr reis hann nú upp
heill til at sjá
þess ens fórnfærða
fyri syndir
eðlis líkam í
hins ódauðliga;
at sjá aldrei meir
einn af járni
harðlæstann himin
heitum þorsta
þeirra sem þrá
eptir þekkíngu
þess hins heilaga
heims Lausnara!
Sína hafði Hjob
hlè-skugga trjám
gróðr-settum girdt
gröf umbergis,
í þeim svala-súgs
sveif hann lundi;
steinar hátt hreyktir
yfir hans leiði
sýndist honum sem
sígi niðr:
svo þeir sukku nú
fyri sjónum hans!
Stèg þá strax upp
af steinum kyrrum
skyndiliga ský
skjótfara dupts,
þó flaug fagurt skin
frá því dupti,
eitthvört annat dupt,
annar glansi,
enn sem hafði hann
híngað til sèð;
Sem glaðr gjörðist
með grundum djúpri
hann nú við nefndrar
nýlundu sjón,
fèll hann af furðu
frá sèr numinn
í ský skemtiligt
skínanda dupts!
Hans Seraf sá hann,
sem hann nú varð
ens almáttuga
undir hendi;
gat þá engill ei'
orða bundist,
heldr hrópaði
til himins upp,
útaf unaðsemd
upp til himins,
svo af hans hrærðust
háu kalli
laufgrænn lundur
ok leiðis-steinar!
Fann Hjob furðandi,
at fengit hafði
næsta fagra nú
nýa sköpun;
gat hann orðum ei'
aptr haldit,
heldr hrópaði
til himins upp,
óðum ultu tár
upp til himins;
Svo af hans hrærðust
háu kalli
laufgrænn lundur
ok leiðis-steinar:
heilagr! heilagr!
heilagr er
hann einn, sem er, var,
ok mun verða!
Kríngum Golgata
grátligum var
enn nú hulinn hjúp
himin allr;
hèngu hvervetna
hæðir ok dali
ský ofan yfir
eins sem gríma.

Allt sjónar svæði
svo var hulit
umhverfis offrit
aflíſaða,
sem mannlig máttu
í mesta lagi
atkomast augu
til at umsproga
fjallit fyrr greinda,
þar festr stóð
kross sá er kvaldi
Krist til dauða.
Þar í stað stirðr,
at styrk horfnum,
höfði djúpt hneigðu,
um heilagt enni
harðann hafandi
háðúngar krans,
í sjálfs síns dreyra,
sá er einnig
stemmdr ok storkinn,
til strángs dómara
nú ei meir nýa
um náð hrópaði
í himna himna
um hylli Föðurs.
Þannig hèkk nú þar
þinn líkami;
æ! vissi ek vera
þèr verðugt nafn!
hèr þinn heilagi
hèkk líkami!
hvörki tár nè tvist
títranda raust
ok fulls af felmtri
fá þik nefndann!
hold þitt heilagast
hèkk andvana
á kvala krossi
köldum niðr!
Líka vel lægsta
loptanna hljóð
þagði þá kríngum
þann enn dauða;
himin ok hauðr
hljóðlaus urðu;
öllum mönnum af
yfirgefit
audt stóð ok einsligt
aftöku fjall.
Svo frá víg-velli
víkja sálir
til náðar teknar
eða tapaðar
fallinna firða,
sem fórust þar,
ok hann öldúngis
yfirgefa.
Á hinn andaða
ófrávendtum
augum mændi mjök
hinn meðkrossfesti,
áðr umgetni
ýngismaðr,
en þótt af þúngum
þverrandi nú
sortnaði sjón hans
svefni dauða.
Nú ertu nár!
þú ert nú dáinn!
ó þú, sem mín sál
sárt elskandi,
sem mest hún megnar,
hefir mætur á!
ek nú einsamall
eptirskilinn
kremst þessum krossins
kvala dauða!
Þetta vil ek þó
þola gjarnann,
ek vil feginn allt,
já allt líða,
því miklu meira,
Meðalgángari!
hefir þú þolat,
enn þat ek lið!
En þú eigi svo
yfirgef mik,
sem þinn Guð þik
á þínum krossi!

forgefins fer ek
fast leitandi
útí ógnar djúp
óbotuanligt,
eptir þánka þess
þekkíngu fullri,
at Guð þinn eginn
yfirgaf þik!
Öllu, sem áðr
hefir ógnat mèr,
er sá ofstrángrar
alvörn þánki
felmturs ok furðu
fyllri miklu;
ef ek at eins
gæti orð stamat,
þèr fáu frómu
fljótt gæfuð mèr
svar, ef sáuð hann
svo hrópanda?
Hvört þèr hann sáuð
höfði lypta?
ok hvört hann augum
upp til himins
stirðnuðum starði
við hið stóra kall?
ef þèr æpandans
andlit sáuð?
Reið líka raust,
er hann ræddi með,
kvartanda kall þat
klárt þèr merktuð,
ef ek yðr þat
gæti útstamat!
himin ok hauðr
hvurfu mèr þá!
heitara hel-blóð
mèr um húð streymdi!
æ! ek þenkti þá,
þat ek dæi!
Æ! þeir meðaumkun
álíta mik!
þèr, hógværs hugar!
þèr hjarta-frómu!
augu megu mín
eigi meir gráta;
gjarnan ef gætu
gráta mundu
þau yfir yðr
aumkunar tárum!
Mest þèr, móðir hans!
mögur hennar!
ek bið yfirgef
aldrei þessa
þú, sem þinn Faðir
þik yfirgaf!
æ! mik Messía
miskunsamasti!
lát mik af þèr ei
yfirgefinn!
Hann þenkti þannig
þreytandi stríð
við daprann dauða;
Drottins fegri
upplýsíng útjós
yfir hann geislum;
nú fèkk hann fræddann
Föðurs ok Sonar
eylífr Andi
ágætliga:
Um gagn ok gildi
guðdómligs offurs,
at hins fórnfærða
fossaða blóð
allt í eylíft líf
út sè runnit,
Guð full frlðstilltr
við fólk jarðar!
Varð hann fljótt frá sèr
ok furðu sleginn,
eptir því sem einn
getr orðit þat,
er hins alvísa
Andi fræðir,
en er síst öðrum
unnt at verða.
Hirðstjórann höfðu
höfuð-prestar
bráðlátir beðit,
at ei biði við,

uns þeir illvirkjar
upp voru hengðir,
hefðu látit loks
líf á krossi,
at deyða' án dvalar
ok dysja þá,
svo ei saurgaðist
af sí-bölvaðra
hángandi hræum
hátíð páska.
Því kom nú þángat
þræll einn sendr
harla fljótfara
frá Pílato,
hann við höfuðsmann
hèr átti tal;
þá var þegar gjört
hvað þessi sagði.
Strax greip stríðsmaðr,
sem stoð næstr,
kylfu klýnda
hinna krossfestu
yfrit margra með
manna blóði,
hann gekk hardt at,
ok hinir líka
fylgðu fast eptir
fèlagar hans;
Kylfuna hóf hann
yfir höfuð sèr
með efldum örmum
upp, ok mælti:
deya skaltu skjótt!
skell hèr niðr!
í brotnum beinum
brast hins seka,
rammlíga rumdi
frá rót neðstu
kross-trè titrandi
á topp efsta!
En hinn umvendti
ýngismaðr
skell þann ok skjálfta
skynjaði très
boðun bana síns
brátt komanda;
nú fèll næsta vel
nýrrar spásagnar
hljómr sá honum
um hel í nánd.
Snèrist þá snart við
með snöggvu bragði
rekkr rómverskr,
rak hann ótti
mikill framm hjá meið,
sem í miðið stóð;
hèr virðist honum
hefndar-guða
kríngum kross í mið
kraptr sveima.
Nú kom hann nær
enum náðaða
ásamt upphengða
ýngismanni;
þessi horfði hýrt
til hans niðr
með ró af reistu
refsíngar trè.
Keyrði karlmenni
krossfestíngar
á bein ýngismanns
til at enda kvöl
af blóði blauta
bana-kylfu,
ok með andvörpum
alls neytti síns
lengi stælta styrks
af stríðs hörku.
Beinin brotnuðu,
búkr marðist,
dynr út dreyri,
drynr hátt kross,
gaus upp grundar rót
gjörð at dupti!
hristust á hvörn veg
höfuðskeljar
enna aftekna
um þat svæði!
Þá gekk enn aptr
allseinliga

meiðslamaðr sá
at miðkrossi,
stóð hann ok horfði
ok hugði at líki,
hèrnæst hrópaði
til höfuðsmanns,
sem þar gekk um gólf
í grundun djúpri
fetum fullseinum
undir fjallinu:
Sver ek, segir hann,
við sjálfa Guði,
at hann andäðr
er nú þegar!
honum ansar hratt
höfuðsmaðr:
veit ek vel, at hann
viðskilinn er;
En þú hèr umframm
ei at síðr
tak þèr hratt í hönd
hvasseggjat sverð,
lát því hjarta hans
á hol stúngit!
hann at svo sögðu
sèr vendi burt,
ok með alvöru
áhyggjufyllri
fyri fætur sèr
á fold horfði.
Lèt sèr þegar lypt
ok í lyptíngu
til baka brugðit
blikandi spjót,
broddr bráðari
fyri brjóst rekinn
gegnumgróf síðu
guðdómsligs líks;
við þat vatn ok blóð
vall út af síðu
gegnum-grafinni
guðdómligs líks.
Yngismanns augu,
orðin næsta
sljó ok slokknandi
í slitrum andar,
litu lángt í burt,
líkt sem í rökkurs,
honum sýndist svo,
syrtandi glýu,
blóð úr ben runnit
brjósts ens helga;
nú sprakk hjarta hans
heli lostit!
Meðan mótstríða
megnum skilnaði
ok þèr, ó dauði!
at undanvíkja,
at liðnu lífi,
líkami ok sál,
áðr enn allr
sá hinn óþekkti
næsta öflugs nú
náttúru bands
til fulls sundrar sik
samvefnaðr;
Þá finnst þess anda
þannig, sem deyr,
þannig þenkir hann
á þeim tíma,
eðr er sjálfs síns
svo vitandi;
en mesta málsnild
mannligrar túngu
freistar forgefins
frá at skíra,
með hvörju móti
mannsins, þá deyr,
sýslanir sínar
sál framkvæmir.
Æ! nú — hèr var hans
hugsun þessi —
æ! mèr einnig þá
auðsýn miskun!
sakir dýrs dreyra,
sakir dauða þíns
eins fyri alla! ..
yfirgefinn
lèt Guð þinn Guð þik!
við þik Guð skildi!

Öllum mönnum, mèr
miskuna þú
fyri fæðíng
á foldu þína,
þrautir sem þoldir
þú í dómi,
fyri líflát þat
sem leiðst á krossi,
fólks friðþægíngar
fullkomit gjald!
Ok sakir æðstrar
upprisu þinnar,
ok upphafníngar
til eylífs Föðurs!
sakir lífs ok láts,
Lávarðr! þíns!
þú, Amen! Amen!
ert hinn sami,
sem frið ok frelsi
hefir fullkomnat!
Ok einn inngenginn
æðsti prestr
í hið eylífa
allrahelgasta!
eylíf er einnig
endrlausu þín,
þú mikli manna
Meðalgángari!
Hvörsu þyrsti þik
þá Jesús Kristr!
sem varst svo gjörðr
at synd ok bölvun,
hvörsu þyrsti þik
þá, ó Jesú!
heyrir ek þik enn,
almáttug raust
fyri mèr, sem fyrr:
þat er fullkomnat!
þú varst lífláts hæð,
legstaðr minn,
ásett altari
til offurs honum!
fagnit, brotnu bein!
yðar burtrotnun,
þið munuð ljóm hèr
ok hismi verða!
þá hann sinnar svo
sálar dýpt í
útjós auðmjúkum
andvörpunum,
nálægði sik nú
enum nauðstadda
Abdíel engill,
ok hann kríngum
flökti hóft ok hóft
til hans lítandi.
Skjótt þá skærara
skrýdd með ljóma
ódauðligs engils
ásjána varð;
helgaði hann svo
til hèðan-lausnar
með bæn ok blessun
hinn burtdeyanda:
O lífs uppspretta!
þú sem útbýtir
auðlegð af miskun
ósegjanligri,
ok af náð nýum
nægtum hærri,
enn hugleidt hafa
frá heims byrjun
eðr umbeðit
englar nè menn!
O þú, allsherjar
yfirdómara
sem við fallit fólk
friðstillt hefir!
vert með þessum þú
á þeirri stundu,
er jafnvel englum
hefir ógn vakit,
nær til Guðs gengu
gegnum þá nótt!
Leið hann við hönd
yfir húm-dal þann,
ok lát hann líta
lífs þíns miklu
unun álengðar
ok æskiliga

fullkomnun sjálfs síns
at síðustu!
A hann yrkti svo
Abdíel blessun!
ok enn nú æpti
önd hins, sem dó,
til Guðs grátbeiðni:
Guð, þú elska!
Guð, eylíf elska!
andvarpar hann;
frelsta sál mín slíkt
síst þú stama!
atburðir eru
til einkis þínir,
þótt mjök svo þreytir
at þakka hèr.
Drottinn, Drottinn Guð!
djúp miskunar
þornar aldrei þitt,
nè þín gæðska;
aldrei tæmist traust
trúfesti þín,
þín er þúsundföld
þolinmæði!
Þú Guð! sem gefr
hinum glæpugu
yfirtroðslur upp,
illsku ok syndir!
Þèr Herra! í hendur, — —
æ! hópar slíkir
prúðir í prýði
Paradísar!
hvörsu sýna sik
sigrenda pálmar!
Drottinn! Guð! Drottinn!
djúp miskunar
þornar aldrei þitt,
nè þín mildi,
aldrei tæmist traust
trúfesti þín;
þín er þúsundföld
þolinmæði!
Þú Guð! sem gefr
enum glæpugu
yfirtroðslur upp
illsku ok syndir!
Hèr fel ek, Herra!
í hendur þínar —
æ! nú ei lengr!
eingi dvöl meir
full friðþægða sál,
full-rèttláta,
fullfriáls, ok tekin
til fullrar náðar!
fús þèr, Frelsari!
fel ek — — hann dó.
Svo hafði sik burt
meðr sálinni
af liðnu líki
lífs tegund smæsta,
sem enn var eptir,
at yrði nú
hana hyliandi,
sem hamur blæa,
ok fengi í framtíð
forklárunar
þess dreifðu dupti
nær dómr kallar.
Sálin þenkti þá:
var þetta dauði?
ó þú harla hæg
ok hröð sundrun,
hvað skal ek heita
hèðan af þik?
el dauða! nei, nei,
nú frá þessu
heitir þú hvörki
hel nè dauði!
Ok þú einuveginn
umhugsun sjálf
fyrr svo fælandi
forrotnunar!
ó hvað ertu skjótt
orðin gleði!
sof þá sætliga,
sem hèr varst minn
fylgðar fèlagi
í fyrra lífi!
Fúna þú í fold
fræ af Guði

sjálfum sáð niðr,
svo þú á ný
frjóft ok fullþróska
megir framkoma
á hinn dýra dag
dóms bindina!
Já, þú mátt í mold
sem mest rotna!
hve mörg ok hvílík
hèr finn ek líf!
þessi fjörva fjöld
fær ei dáit!
nei, hin nýu líf
ei' at ná verða!
Ei gat Abdíel
aptrat sèr meir;
hafði Seraf sèð
sál ens únga,
hvörnig hún klæddist
himneskum ljóma;
hann móti henni
hjartanliga
skundar skínandi
skærrar vegna
unnar af ást
inniligustu;
Ok þó enn hærra
yndæli þat,
at hún var hólpin,
hans skin gladdi;
fögur fegins tár
fèllu af augum
hinum himneska,
þá honum líka
sakamaðr sá
svo móti rann,
er nú at hreinni
yfirbót gjörðri
hafði heilann sik
helgat Guði.
Sálin sagði
til Serafs þannig:
þú ens hæðsta þjón!
því án efa
hermir mèr hátign
ok helg rósemi,
er svo skín útaf
andliti þínu,
at sèrt af sveitum
enna sælu Guðs!
I því at augu,
þegar urðu, mín
litu þik ljóma
lángt í burtu,
þá er þyturinn
þínum hvella
gall mèr af gángi
glöggt fyrir eyrum,
sem fagr sanngur,
varð sinni mitt
fullt af felmtri
ok af fögnuði!
Þú sèr þat ek enn
fyri þèr titra;
en sú titrun er
undrunar gleði,
ó sæli Seraf!
en síst hræðsla;
ansar þá engill
í sokkinn djúpt
umhugsun alda
ókominna:
Kom, fylg mèr, fyrsti
enna framliðnu,
Kristi kross-offur
sem keypti frið,
þú sem þèr seint
ok þá hið fyrsta,
er gadda gistir,
til Guðs snèrir!
ok meðtókst miskun
midt við altari!
Þú, von ok vögun
vísdómi firrt
seinni syndara,
ok síðan þeirra
ángistarfull ógn
eptir dauða!
kom nú, þat sem þèr
þinn Lausnari

fyrihèt, fær nú
fyllíngu strax.
Frábærs fagnaðar
flyt ek þik til
innum prýði-port
Paradísar!
hann at því hermdu
hratt flaug af stað;
svo fylgði sálin
Seraf eptir.
Hann, af hvörs ásýnd
útflutu geislar,
er hins eylífa
ofan kom hann
frá sjón af Sína
svo skínandi,
at hann með huldu
hlaut at byrgja
ofbjart andlit
fyrir Israel;
Sá er söknm þess
honum sást yfir,
at hann alls eitt sinn
eigi trúði,
er við eitt nætur
augabragðs slag
eigi streymdi strax
steinn út vatni,
leit at eins lángt frá
land Kanaans,
frá Nebo fjalli
fjarlægr hann
fyrirheitna fold
fèkk at líta;
Hinn sami sína
sveimaði Móses
nú alls einnsamall
umhverfis gröf,
enginn umkríng hann
engill mundi;
aungvann hafði hann,
meðan hèr lifði
reynsluvegu við,
varðengil haft!
Svo var sá mikill,
er sèða fèkk
á bak dýrð Drottins,
en dó ekki;
svo hann sveimaði
sokkinn djúpar
umþenkíngar í
allnærri gröf!
Svo flaugst þú frammhjá
fyrir honum,
sem skjótr skuggi
skamma stund sèst,
hans laungu liðna
líf í dupti;
lángt var síðan sást
sef-löðurs fjara
hvít af ber-birktum
beinum þínum
ok fólks, Faraó!
Faraó! þíns.
Hvörsu geyst hrundu
hafsins múrar!
hvörsu hvass æddi
hvínandi stormr,
sá er sendr var
útaf sèrliga
stórum bál-stólpa,
stoð undir himni!
Hve sökk til heljar
hèr Egypta!
hvörsu Guð þá gróf
grimmliga djúpt!
hvörsu hèr ok þar,
á hina ok þessa
feikna-firninda
ok fjalla síðu,
fèkk oss framleidda
fylgðar-ský hans,
ok hans eld-stólpi
undarliga!
Þik, þú Amalek!
þá sló Drottinn,
meðan mínum var
móti himni
höndum haldit upp,
hallaðist stríð

á þik, Israel!
ef þær hnigu.
Þá sá ek þaðra
þyrni-runn loga!
storð ertu, staðr,
þar ek stóð, heilög!
æ! lángsamliga
at liml varstu, bjarg!
hvörnig varð þèr við,
vondr Kórah!
ok þèr Abíram,
ok þèr Datan!
nær ykkr uppsvalg
údauða jörð?
vítis grimma gin
grenjaði sigr!
Já, þú ert þetta,
af þrumu dunum
fyrr hljómanda fjall
ok af feiku hrðra,
þú sjálft Sínai!
ok sannarliga
ert þú eyðimörk
yfirtaks stór!
Æ síðan ert þú
allra þeirra,
sem burt frá blóðgum
bana straumum
muud ens máttuga
yfir mar flutti,
næsta við nágröf
ok Nebo mín!
Kastar ei' klárum
útaf Kanaan
gló-geislum frá sèr
Garizims hæð;
ok á Golgata,
guðligrar fórnar
eylíft altari,
allt með blóði
eylíft altari
uppfyllt, ok heill!
Í nánd við Nebo
nú upphófu
englar sömu saung,
sem Guð forðum
lögmáls sáttmál lèt
á láð bera;
glöðum stjörnum glíkt
glönsuðu þeir,
komu, kalda gröf
kríng sveimuðu,
hèldu gull-hörpum
hátt á lopti,
ok með tón tjáðu
tempruðum svo:
Blessun Grizim-bjargs
berum vèr eigi
hèr til at tala,
nè tímans líf;
hina höfum vèr
hæðar Golgata
at birta og boða
blessun nýa!
O Móses aldni!
Arons Guð,
því tefr þannig
þinn líkami?
þú djúpt í dauðans
dái liggr,
statt upp strax til lífs,
sterkr kallar
fohlar Friðþægir
á fætur þik!
Í hægu hvísli
harpna radda,
er mjök ljúft lètu
með list himneskri,
datt á hann dvala
djúpr höfgi;
en hann vaknar við
í vetfángi
yfrit háanu hljóm
af her-básúnum!
Hrist af háreysti
hvörrar þeirra
nötraði Nebo,
er þær ná vöktu,
þá í gröf glumdi
geysilig rödd;

með heitri heiðrun
hátíðliga
á knè krjúpandi
kastaði niðr
dýrðlíngr djúpt
fyri Drottni sèr!
Lengi lypti sèr
meðr lotníngu
ok með unun upp
ákallan hans,
lengi lèt hann upp
lofgjörð stíga,
án þess at örmum
engill nokkr
hans þyrfti halda
móti himni nú!
Einnig beið bifun
buðlúnga gröf;
Davíð af dvala
dauðans vaknar;
æ! sælu saddr,
ok, sjá, dýrðligri
ímynd eptir
hins órotnanliga.
Hvörs hátt sigur-hrós
af hans upprisu
var ok í vændum
vegsamligri,
frábærs frumburðar
enna framliðnu;
Nær í húm-holi
hvelfíngar gekk
Isaí arfi,
ok hjá beinum
Salómonis sá
sál hans reika,
stóð við hjá henni
hann í þessum,
svo skær sem hann var,
sínum glansa.
Yfir upprisnum
undraðist sonur
óvakinn yfir
endrvöktum;
þá flykktust þángat
til þeirra í gröf
englar ok aðrir
hinir upprisnu.
Hófu hvörjir upp
hrópandi raddir:
ó! þeir uppvaktir
eru af dauða!
já, vèr vöknuðum
víst af dauða!
vor hin beru bein,
burtvisnuð, þurr —
uppkvað Abraham
undrunarfullur —
heyrðu Herrans raust
háttlátandi;
Við þat vöknuðum
vèr af svefni,
honum teitir til
at taka á móti,
allir eins sem hann
ódauðligir,
nær hann sjálfr sik
sýnir nú brátt
æðstu fegurð í
upprennanda.
Kjörinn ert þú ok
þess hins andaða
dýrðliga Drottins,
Davíð, faðir!
til at tímgast
með tignar gróða,
sem vænt vor-blóms korn,
vegligt kríngum
sjálfs Guðs Cedrus trè,
sem hann elskar;
Ok til at anda
í unaðs svala
hins blídt blásanda
blæs af himni,
næreð trè þat topp
tígugligann
í hin efstu ský
upphefr sinn.
Greindi Gabríel:
grát þú eigi,

Salómonis sál,
sett til náðar!
þik mun eigi þitt
þá klæða dupt,
er Guðs Cedrus-eik
yfirskyggir
velvaxin blómstur
vor-frumgróða;
Gráta? — svarar svo
Salómons önd —
ek, sem himins hann
háleitliga
með svo mikilli
mildi krýnir,
ek, sem frá fluttr
fárligri svo
villu varð
til vegligs frelsis!
Sofið, bern hein
hurtvisnuð mín,
allt til efsta dags,
önnur stærri
þá loksins ljómar
lífs uppskera!
ok nær hin napra
ná-hvelfíng þessi
ykkr má ei meir
í mold halda;
Fjúkið þá sem fis
í fari vinda
ein dreifð ok drifin
dampa gufa,
í hægð kvöld-kælu
und' klárum mána,
svo lángt sem hann skín
sonum jarðar.
Ok þú eigi munt —
engillinn kvað —
kristnum, sem koma,
kunna at birtast;
þvíat þeir einir
megu þeim verða
auglýstir, upp
sem eru risnir.
En ek sè þó samt —
Salómon gaf
andsvar englinum —
opinberanir;
ok finn fagnandi
með flokkum þeirra
háðum, sem birtast,
ok þeim birt verðr
enna upprisnu
ypparlig sýn,
hjá mèr í hjarta
himins gleði!
þessir bíða þín,
þú hinn sæli!
svaraði Seraf
svo at lyktum;
síðan svifu þeir
frá sjóla gröfum,
svo Mamre sæu;
af svefni vaktra
skunduðu skarar
í skugga lunds.
Hófst-at Hiskía
af hel-beð enn,
hinn, sá er Sera
sýndi þvíngun
megin-ógnum með
mildíngs himna,
en þótt útdragi
ógrynni hers,
var nú vakinn upp
vísir Assa!
Sem ok sá einnig,
er sveitir Júda
allar gegnum gekk,
Guðs rèttindi
til at tjá fólki,
tvisvar sinnum,
allt frá Bersaba
at bygð Efraims;
Ok með honum hans
höfðíngjar allir
göfgasta gildis,
ok Guðs prestar;
þeim ok líka þá
þvílíka heill

virðtist Guð gefa,
sem gafst aungvum!
Því Júda jöfur
Jósafat þessi
leiddi framm lið sitt
með lofgjörð stórri,
ok heiðurs hætti
heilagrar prýði;
ok með sálma saung,
saltara-leik
ok háum hljómi
upp til himinsins;
Ei til orustu,
heldr einúngis
til at teikna þeim.
þegar, sem brátt
með hjálp ok miskun-
mundi koma,
til at sigra sveit,
er á sóku hugði,
ok sjá alþakit
óvina búkum
allt frón umhverfis
at eyðimörkum,
án þess at ein sál
undaukæmist!
Einnig í sinni
uppvaknaði
aptr Usía
einsömlu gröf,
sem ok sonur hans
í sjóla leiðum,
þar var með þessum
sá hinn þel-frómi
ítrar alvöru
ýngismaðr,
jöfur Jósía,
sá jafnan var
eyðir afguða
yfrit stráugr!
Mjök var ok miskun
mildíngi töm;
sèrhvör saungmaðr
ok saung-kvinna
hörmuðu hilmir
heli lostinn,
ok hinn böl-bitni
Benjamíníti,
sem ok grèt Salems
sorgliga brot,
syrgði helför hans
hjartanligast!
Syrgðu þessir þann,
er þengils bogi
Nekos hinn næmi
til náss særði,
ljúfum lángvinnum
líksaungvum með!
því hann syrgðu svo
sona dætur!
þessir fimm fengu
fjör sitt aptr,
allir í einu,
svo þeir upprisu
með hröðum hasti,
himins eldíngar
fimm sèr fleygjandi
framm í lopti!
Hófst-at Hiskía
af hel-beð enn;
undirdjúps engill,
afguð forðum,
nafnkendr Nisrok,
ok náttlig vofa,
svipr Sanheribs
sveimuðu nú
lángsamliga frá
Líbanons hæðum.
Nisrok hèr nefndann
níðíng styrjar
hlaut á hauður
uppaf helvíti
at flytja gagngjört
til grafa staðar,
þar Júda jöfra
jörð geymdi bein.
Hvör okkr híngat
svo hardt rekr? —
spurði dráps-dólgr
drambsamasti

hastarliga hitt
heiðinna goð —
ef ek hefði hlýdt —
hinn tilgegndi —
dauðans engill einn
ei mundi þá
þetta bista boð
okkr birt hafa.
Hans mál heyrðir þú;
hvört var eigi
stríð, sem af stáli
hefði steypt verit,
reiðar þrumu raust,
sem hann ræddi með,
ok bráð sem eldíng?
er því dauðinn
drápmeiri dauði,
at þeir deyðandi
eru svo ofboðs
ógnarligir,
ok maktar meiri
allri mótstöðu!
Þú veika vesöld!
vegna hvörs þó
áðr var úthellt
offurs blóði —
sagði Sanherib,
ok svo spurði: —
hvönær var hinum,
sem hræðist þú,
dauðans engli dýr
deydt til fórnar?
Þú enn aumari!
afguðinn kvað —
sem hlýða hlýtr
enum hlýðanda,
ok hopa' á hæli
þegar hann býðr!
flý þú fors-bólgni
foreyðari!
tak á rás, tilbið
táit í skúm
dauðra döglínga
dupt í Júda!
Þú sem heiptar-heit
háðúngar orð
mæltir á móti
hinum mektuga,
sá er, Sanherib,
setti hrínga
þúngrar þvíngunar
þèr um nasir,
beizli ok bitil
þèr í beittann hvopt;
Sá um sama veg,
sem hafðir eydt,
lèt þik snar-sneyptann
snúa til baka;
þekkir þá ekki
þú nú framar
háann engil hans,
hvörs ek í dag
mèr birtu boði,
sem ber, hlýði?
Er þèr ókenndr
hinn ógnarligi,
sem þínar sveitir
í svefni drap,
ok lèt víðs vegar
varg með búkum
umkríng alþakinn
öndu svipra;
Svo með vind-varpi
vængjuð skræktu
röðuls, þegar reis
á rás sína,
óhljóð ok ýlfur
ok ill læti;
líka loguðu
Líbanons arnar
af dauðra dreyra
drukkin augu!
Kennir þú ei þann,
sem lèt þvíngaða
Hamats hjáguði
ok hina í Arpað?
hvar sik halda nú
Harans guðir,
Rezefs regin,
ok ríkugliga

tignaðir tívar
í Talassar?
seg, hvar sitja goð
Sefarvaim?
Hvárt þeirra hýmir
nú í helvíti,
ok þik háð-hákr
hafa at spotti;
öfundar ek þik
af því happi,
at þú útsloppinn
ert frá hríxlum
þúngum þessara
þvínguðu guða;
Ok at eins híngat
erindis þess
ert nú uppsendr,
at þú skulir
kyssa dáit dupt
döglíngs Hiskía!
svo fór Sanherib,
ok sèr flýtti;
Ok nú örkuðu
afgrunns skuggar
báðir án biðar
inni buðlúngs gröf,
hvar enn Hiskía
hèldt sik einnsamann
mjök seint sveimandi
með sínum engli.
Hermdi Hiskía:
hvarfyri þessar
vanhelga vofur,
víti dæmdar,
gáði Guðs engill!
gröf mína svo?
ok hvörjir eru
hinir aðkomnu?
Sá er Sanheribs
svartr skuggi —
ansar engillinn —
ok afguð hans;
um þat efalaust
innann stundar
muntu viss verða,
vegna hvörs þeir
ok hvörs eyrindis
eru komnir;
kennir þú klæddann
klárum glansa,
Sanherib! svip þann,
sem hèr stendr?
Sannerib svarar
til Serafs spurnar:
hvörnig ek undir
óheill dæmdr
alla kenna kann
ena kjörsælu
himin hollustu
heillar syni?
Af því illur varst —
svarar engillinn —
ertu nú undir
óheill dæmdr,
þat er sá sami,
sem fyri þeim,
er þú ganst í gegn
grimmu spotti,
hljúgr beygði sik
brjósti klökkvu;
Sá er sik reiddi
á hinn sanna Guð,
þegar þustu framm
þínir skarar
öllumeginn at,
eins ok straumr;
dóma þekkir þú,
sem þik hittu,
á meðan enn varst
ofan jarðar,
þeir komu þá framm,
en þessi nú:
þann, sem þèr sýndist
þá svo lítill,
at varla vildir
virða smáanar,
heldr hæddir þú
himnanna Guð,
hvörs fúsa frelsun
fullu trausti

þengill þèr æðri
þá studdist við,
þann hinn sama sjá
skaltu, Sanherib!
nú í nýrri dýrð
næsta fagrann.
Hafi hann sína
háleitu dýrð —
sagði Sanherib —
svo þá nýu
heila ok haldna,
sem hina fornu!
lát mik í myrkvu
mín flýa djúp!
Hvað mun Hiskías
ok hans ljómi,
eðr eylíft ljós
áhræra mik!
lát mik hèðan hratt,
himins grimmi
týranni, taka
án tafar flótta!
Engillinn ansar:
allnærri Guðs
þúngu dómar þó
þik áhræra,
drambsami dári!
dupt hins sæla
hvílist hèr í ró,
en hismi þitt
nýstist nú af þýngð
Niníve rústa.
Þat mun einnig upp
aptr vakna,
þó dymmt ok dapurt
dæmt til eymda;
allt á aumann hátt,
ólíkann því,
sem þú, Sanherib!
sjá munt þegar!
Ofboð ok æði
yfirfèll nú
þjóðar þvíngandann
þakinn blóði,
nær allt í einu
öflugliga
hrærðist ens háa
Hiskíæ gröf,
ok hann allt eins skjótt
uppvaknaðr
sýndi sik með dýrð
sæmdann nýrri.
Flý þú fíbldjarfi
forsmánari!
þú sem hæddir hann,
er af helsvefni
leidir framm til lífs
ena liðnu menn —
hrópar Hiskía
með hraðfleygum
glóandi geislum,
sem geyst eldíng —
Hví seinkar þú þèr!
í þín svörtu
flý nú sem fljótast
forsmánar djúp,
niðr til Niflheims
neðstu botna!
svo hefir þú sèð
Sanherib mik!
Sem gróin grasrót
við grafar steina
stóð nú hinn stolti
þar í stað fastr,
ok sakir æðis
ei gat flúit;
hrópar Hiskías
til hans, ok kvað:
Sjá þú, enn nú ein
önnur sneipa,
enn þín flótta för
forðum í hof
Nísroks, þar er þèr
þinna sona
bana sverð biðu
brugðin eptir,
ein háðúng önnur
er nú þín laun!
Síons dóttir sjálf,
sú á himni

gædd er Guðs-heillar
gull-kórónu,
fyridæmda fól!
forsmáir þik;
já, sjálf jöfurs borg
Jerúsalem,
sem er þar uppi,
eptir þèr sitt,
hrundi her-vargr!
höfuð skekr!
Þvíat hvörn hefir
hæðnis orðum
þú yfirausit,
ofdjarfa fíbl!
hvörjum hafit gegn
hrokafull augu,
ok með fors-fullri
fleiprat túngu?
svo fór Sanherib
sína leið burt
heim í helvíti,
ok hans goð-fylgja.
Nú með fljótri ferð
frómr Davíð
kepptist at koma
til Kis grafar,
sú er sett var
í Sela Benonis, —
þann Rahel því svo
þá nefndi stað,
er hennar henni
sá enn hjartkæri,
þeim er fèkk hún fjörs,
færði dauða; —
Jónatan sinn svo
sjá fýsir hann!
Þú ert sjálfr sá —
sagði Jónatan; —
þú ert þá sjálfr
þat, minn Davíð!
sjá, svosem þú ert
eru síst aðrir,
en at eins, Enok
ok Elías!
hvör ert þú orðinn,
ó, hins mikla
Friðþægis faðir,
sem frægstr dó?
Duptit í dymmri —
Davíð sagði —
minni moldar gröf
ok minna barna
fèkk hraða hræríng,
ok hèrvið, sjá,
em ek upprisinn
á augabragði.
Já! — kvað Jónatan —
Jesú faðir,
sem var fórufærðr
Föður eylífum,
sèrtu sæll, vinur!
ek samgleðst þèr,
dýrmæti Davíð!
yfir dýrð þinni!
Þú verðr vakinn
víst — kvað Davíð —
jafnt sem ek af jörð,
Jónatan minn!
ek? — kvað Jónatan —
er ek einn feðra
Griða-gefandans
guðdómliga?
Adam upprisinn
er — kvað Davíð —
Nóe uppreis eins,
ok Abraham!
eru þeir ekki,
allir — kvað hinn —
Meðalgángarans
mikla feður?
Móses uppreis ok —
ansar Davíð —
hvör má sèr manna
svosem Móises
við Jesúm jafna —
svarar Jónatan —
er var — innir hann —
Arons Guð?
Ek em upprisinn —
enn kvað Davíð —

hefir þú svo hætt
hrasat sem ek?
eigi þat — ansar
ástkær vinur —
en var ek þá svo
eðal-lyndr,
svo fullur frómleiks,
sem fylkir var?
Ok yfir allt framm,
er ei af þèr
hinn mesti manna
Messías kominn?
hvörsu mínum meir
makligleikum
var mèr sá veittr
velgjörníngr,
ok hvörsu hann ek
af hjarta þakka,
at þess virðtr varð,
frá vist himins
ek á jörð færi
Jesúm at sjá!
Mèr dugir, Davíð!
ek hann deya sá!
ok mín enn framar
augu hafin
dýrðarfulls Drottins
dásamligt á
signr-hrós í hæð
horfa munu!
Svo ok sakir þess
em ek sæll næsta,
minn mæti Davíð!
at mín vitjaðir,
því nær hefði hrygð
yfir hjarta mitt
gosit getat
hjá gröf þessari!
Því hèr em ek einn,
engi fleiri,
enginn er með mèr
minna feðra
aungvann ber at bygð
bróður minn hèr;
at sönnu sælir
sjást þeir fleirstir;
en æ! hvílir hèr
hold ekki Sáls?
Þú ei syrgir samt,
nè sárt klágar —
mælti Jesse jóð —
Jónatan minn!
hann ansar aptr:
ek, minn Davíð!
fyrr at forgángi
fyri mik kysi!
Hvað? ek at harma?
hefir Drottinn
eigi gjört mik at
erfíngja ljóss?
ofan yfir bein
örends föðurs
ek at eins lèt
eitt tár falla,
án þess at ypta
ángurs kveini.
Jafnvel hátt hafnir
himins englar
ei í Guðs augsýn
eru hreinir,
svo ok sjálfra vor
sælufull kjör
eitt kann ángurs ský
á at skyggja.
Nú — kvað Jesse jóð —
Jónatan minn!
ei þarf ángurs ský
á at skyggja;
af því andaðr
er nú Kristr!
miklu meira fèkk,
meðan hann leið,
enn sem einber hrygð
á vor hjörtu!
ok sjá, at aptr
enir fyrstu
nú hans láts ok lífs
lifna vottar!
Jafnsnart upphrópar
Jónatans engill:

þerra nú þetta
þitt eina tár,
sem þèr fèll nú svo
seint af auga!
ó lát þat einnig
afþerrat skjótt!
Varla hafði hann
hrópat þetta
hátt með hljóðs rómi
Halelúja,
þá í dvala datt
dýr Jónatan,
ótt ok allt eins hratt
einn fyri Davíð
stóð allur orðinn
ódauðligr!
Hvör sem loks heyrir
við himins trón
júbíl Jónatans
ok Jesse sonar,
hann mun ok heyra
hvað þeir ræddu
hvör við annann hèr,
ok hvað þeir eigi
megnuðu at mæla
milli sín þá;
Gröf nú Gídeon
í glansa sveif
ódauðligs eðlis
uppaf sinni,
sá er sèr færðri
síðr enn ekki
játaði Júda
jöfur-kórónu.
Svo skína síst,
þá er Sonarins
hjá stóli streymir
stránga dóms kall,
þeir er þvíngaðra
úr þjóða blóði
kipptu kórónu
kvíðanligri,
ok henni hreyktu
höfuð sitt á
með eins tilteknum
týranna rètti;
Eðr einn, hana,
eignar rètti,
betra berandi,
sá í hardaga
verðugleikum verr
vanhelgaði,
sá ei sýndi hjálp
enum saklausu,
ok dyldist, ef dygði,
dómaranum;
En hann hefir heyrt
hróp þeirra blóðs,
ok mun því, þegar
til þíngs kemr,
berliga bjóða,
at þat beri framm
upphátt áklögun
yfir honum!
Einnig örend bein
orðin at dupti
náðu nú vakna,
þess er ná vakti,
fyrr enn forrotnun
fann sjálfr nár;
sem frómar sálir
sína skilja
at loknu lífi
viðr líkami;
Eins sitt yfirgaf
Elísa nú
grafar fylsni fornt,
ok framm þaðan
skundandi skein,
sem skær purpuri,
hann aleinn, yndæl
ár-blíða vors.
Eitt sinn áðr
fyrir öld lángri,
þá bein byrjuðu
ber at verða
sofnaðs sjáanda
í sinni gröf,
var einn útborinn
inní hana

liðinn líkami
lagðr þar niðr;
þat var ein önduð
afbragðs kona
úng ok egin gift
unnu síns manns,
sú er honum son,
þegar sofnaði,
harms ok harðkvæla
hafði fæddann;
Eitt hafði annat
elskat lengi,
svo þau samtengðust
at síðustu,
en hún andaðist
allt fyri þat;
ól hann eigi sorg
eptir hana.
Í dumba dofa
fyri dauðs fylgð hann
gekk út til grafar
með góðri konu;
ein af sorgar sveit
svein nýfæddann
bar, þann bana svein
ennar burtdáuu,
sá er vænn, viðlíkt
ok vísir at rós,
byrjaði barndóms
blomgun fyrstu.
Nú lögðu líkmenn
liðna móður
brosanda barns
á bein Elísæ;
þá hófst upp hróp eitt
hastarlíga
fagnaðar-felmturs,
fölari varð
ásýnd í einu
æpendanna,
ok enn fljótari
andardrattr!
Með því móðirin
til moldar lagða
stóð strax á fætur,
stökkvandi framm,
greip fljótt úr fángi
ennar framandi
barn sitt, ok bar þat
blíðum örmum,
þó tídt titranda,
til þess föðurs.
Ok hún einnegin,
andlit hvörrar
umbreytt við andar
aptrkomu
bar nú blóðroða,
bleikari varð
fyri feginleik
forundrunar.
Enn hennar ástkær
ektamaðr,
er þær sjónir sá,
ok í svips örmum
harns síns bilæti,
at báðum gætti
hýr ok hlæandi,
hagsæld nýrri
fagnaði framar
enn fyrr nokkurt sinn!
ek fer ok fylgi,
fljóðið bendir,
ek fer ok fylgi,
fljótt hann sagði!
En sem hún þat sjálf
sannliga var,
ok viðstödd vitni
þat víst kváðu,
hún sjálf hrópandi
hermdi sama,
sveif svo sem dymma
fyrir sjónir hans!
Hún fèkk í hendur
hjástöddum konum
samstundis sveininn,
ok sinn mann leiddi
heim at híbýlum;
svo sem hels rökkur
sveimaði um sjón hans,
svo varð hann feginn!

Við gröf ens vísa
vífs, Debóru,
at bráðu bragði
bifuðu sína
pálmatrè toppa,
er þau titruðu;
ok þá reis þegar
meðal þjótandi
uppvakin eika
á augabragði
spákonan spaka,
spjallandi glöð
lofgjörð Lávarði
líf skapanda!
Megin-skær af mold
Miríam nú
vakta sýndi sik
með sigur-dansi;
glansandi-glöð
lèt hin guðliga
til himins hafin
sín há augu.
Vandliga vökrum
vídt um svæði
kríng lèt hún leitat
ljósum sjónar,
en fann þó eigi
hinn ódauðliga,
sem hana hafði
uppaf helblundi
svo til fjörs færða
í fljótu svifi,
hèr til með hæðstri
við enn himneska
útbúinn orku
almættis trón.
Engill upprisu
þú hinn öflugi!
hvar þú heldr þik,
haustyrkir Guðs!
hvar láta höfuð
huldu sveipat
þitt hið skin-skæra
skuggar helgir?
eða hvörjum helzt
hvell lúðurs raust,
með hvörri mik þú
af mold uppvaktir,
öræfum í
hefir úthljómat?
Æ! hvar hvílist þú
eptir háleitt verk,
sjálfr sokkinn í
sèrliga furðu,
vegna þess, at þik
þvílíka til
dásemd at drýgja
Drottinn sendi?
Þú fólk, sem forðum
útaf fángelsi
sá um grund gánga
grafa þinna,
heillt manna herlið,
Hezekíel,
nær muntu, dóms drótt!
af dauða svefni
aptr uppvakna
öðru sinni?
Svo hann ei at eins
útlausn þína,
heldr ok hinna,
sem hel líða,
gæti gjörla lært
gleðjandi von,
sá hann fyriframm
fólks upprisu.
O þú undra-sjón
alvörufulla!
hann á storð starði,
stóð ok spáði,
uppkom eptir þyt
ókyrrleikr;
ber ok skinin bein
um breiðann völl
dreifð laungu dauðra
drógust saman;
Tengði sèrhvört sik
sínu beini;
hann sá þau hyljast
holdi ok æðum,

síðan gaf þeim Guð
gjörvöllum húð;
þó var enginn enn
andardráttr.
En hinn spjall-spaki
spáði at nýu,
andi kom í þau
öll með lífi,
urðu nú af þeim
upprèttir menn,
ok þar útaf her
ótölnligr!
Honum var hèrsögð
himneska mynd
frá Kebar fljóti
föst í huga;
lángtum ljósari
fyri ljómandi
dýrðar geisla gjörð,
á Guðs himni
eigi hafði hún
við hann skilit.
Nú þar næsta mjök
nálægr var
gángr útaf gröf
hins guðdómliga,
ok hann útgreiðslu
yfir stórri
holds síns dupti hjá
hátt gladdi sik,
upprann ímynd sú
enn fyrir honum,
sem mjök skær morgun
á mildu vori,
upphóf engill hans
orðræðu svo:
Vind-suðu verð ek
var hèr fjærri,
glíkt sem af gusti
Guðs nærveru,
blæs hún öllum af
áttum jarðar!
hvað, ef einhvör einn
áblástr hans
hrærði hjá okkr
hismi þetta?
Blundar aptr blær
blásandi lopta;
æ! hann uppvaknar
enn at nýu;
engill sagði svo,
en sjálfs hans á
gekk nú gusturinn
gullna lokka.
Orðinn í ásýnd
enn bjartari,
hrópar hátt Seraf:
Hezekíel!
en honum heyrn var
horfin um sinn,
ok hans þá þegar
þaut í dupti,
hrærði þat sik hratt,
ok með hræríngu
gafst því undir eins
andardráttr,
andardráttr einn
til eylífs lífs!
Aptr á sína
hinn ódauðligi
sterka fætur stóð
strax upp, ok gekk;
allt ofglaðr, at
úttalat fengi
þat sem þá fann til,
þó lypti hann
höndum til himins,
ok hèldt þeim saman,
engil með alúð
umfaðmandi.
Svifu þeir svo
eptir svasligri
gángleiðslu af gusti
Guðs nærveru,
annara enn nú
örendra til,
svo þá sjá mættu
sjálfir vakna.
Asnat sýndist sem
sykki í dvala,

eins sveimar yfir,
þegar uppkemr,
græna grashaga
gufa sú lètt,
sem mána síur
at silfri gjöra,
sem hún með svifi
sinnar grafar
all efasömu
áhrærði dupt.
Æ! hvað er, engill,
sem mik atgætir,
hvað er, sem mik svo
sveipar rökkri?
hvað fyrir hvarfla
hèr nú á sveimi
myndir framm hjá mèr
margvísligar,
þær ek þó eigi
þekkt hefi fyrr?
Hvað er sem í mèr
ek merki nýtt?
ekkert hefir ek
orð nè heiti,
sem þær tekst at tjá
tilfinníngar;
líkar þykja þó
þær at eins fjærri
þeim ek formerkt fèkk
í fyrra lífi,
þá er hel heimti
frá heimi mik.
Dey ek enn aptr,
engill Drottins?
þykir mèr, sem mín
mjök skjálfi raust,
er nú at lágu,
yfrit veiku,
heyrn skirru hljóði,
hennar orðinn
silfur-tón, sí-skær
sem þó var fyrr.
Ek dey nú aptr,
engill Drottins!
í hægu hvísli,
svo sem hèr rynnu
Edens uppsprettur,
indælum blæ
prýði-plantaðrar
Paradísar,
fró ok forsælu,
fagri Seraf!
útaf sofnar ek
enn at nýu.
Asnats sæfðist svo
síðasta hljóð;
en af alskírum
umkríngð þaunkum,
líkt sem mildum með
morgunroða,
ok öll inntekin
inniligustu
tíginnar teiti
tilfinníng' af,
uppsveif hún, orðin
á augabragði
algjör erfíngi
ódauðligleiks!
Midt í furðu feikn,
þegar fold dauða
öll af upprisu
umhverfis skalf,
blès nú básúna
bísna hljóði
eins af englunum
öflug næsta.
Við hennar háu,
ok harla líku
skruggu skarkala
skelfandi raust,
af dvala djúpum
dauðans skugga
kom framm kappinn,
sem Kanaan var
af sjálfum Guði
sendr at þvínga.
Líkt sem leyptrar
út af lágnættis
megnustu myrkrum
mikil eldíng,

ok sem Elísa
uppá Dótans
fögrum hæðum fèkk
fjöld af vögnum
engla skara skært
skínandi sèð,
þeirra hjálpar her
hann umkríngði.
Eins sem öndverðr
árgróði vors
í raka-ríkum
rennur upp dölum,
svo til lífsins lífs
varð nú lifandi,
en aldrei optar
til at uppvisna,
sú hin dýra drós,
dóttir Jefta.
At sætt sýngjandi
silfur-tónum
varð þat, er varir
vegsamandi
blómfagrar brúðar
bifuðust af;
kvað þat allt eptir
engill hennar
hátt á gull-hörpu,
ok hóf á vængjum
einíngar, unun
upplífgaðrar,
enn hærra hennar
til himins saung.
Móðir sjö sona
hafði sann-frómr
nokkr, í nánd
við nafnfræga borg
Jórsala, jarðat
með jóðum hennar
hellir einum í
afsíðis þar.
Hann gróf hugdjarfr
þessa heilögu,
ok hafði einsett
óhvikull sèr
viðgaungu at veita
verki frömdu,
trútt ok tregðulaust
fyri týranna,
dólg sem deyddi þau,
ok deya sjálfr!
Hvíldar hæli var
hellir þessi
farmóðum fæti
ferðamanns þrátt;
opt gaf hvelfíng hans
heitum tárum
skýlandi skugga,
sem skír afdrupu
augum þess, sem í
einrúmi bað.
Fyllti sèrhvörs sál,
sem þar gekk hjá,
hann með hugsunum
harla djúpum
ítrar alvöru
iðugliga,
því hvöreinn hafði
heyrt ok vissi,
hvörsu heilög bein
hellir sá fól.
Nú þar knè-krupu
kríngum móður
sína sjö hennar
synir inni,
píslar-vitni vífs
hjá vitni blóðs,
öll full af unun
inntu þakkir,
Fyri þat, at þau
þess hefði virdt
mannanna mikli
Meðalgángari,
sem votta sína,
sárann dauða
at láta líða,
meðan lögmáli
hann var enn hulinn
hinu fyrra;
Er hann einúngis
eptirgrenslendum

í margra mynda
myrkvum skugga
enn nú sýndi sik,
ok síst höfðu
tignarfullt Tabor
ok tvist Golgata,
þau en frægu fjöll,
forklárat hann!
Þegar nú þeirra
þakkar bænir
þar við gröf gjörðar
til Guðs uppstigu,
lögðu leið sína
læk þann yfir,
sem hjá rann helli,
hugljúfir tveir;
Sá var Semíða,
ok samfylgjandi
Betlehems búi,
sem þik barn litit
í hreysi hafði,
heims Lausnari!
þar á fold felldir
hin fyrstu tár,
höfðu englar hann
handleidt þángat.
Þessir settu sik,
af sorg þúngri
lángvaranliga
lúðir við dyr
grafar, ok grètu
gegnt hvör öðrum;
Semíða! — sagði
svo hinn annar —
En ek þegi þó
um þann sem leið;
nær mundi ek ella
útsagt geta
allt hvað ek finn til
andláts vegna
mesta mannvinar
Messíæ sjálfs!
En seg, ó seg mèr,
hvað sè þessi
tilfinníng, sem svo,
síðan hjá mèr
helgrar grafar hèr
hvarfla skuggar,
með stiltum mik
ok mjök þægum,
aldrei fyrr fundnum,
felmtri skelfir?
Þó þenkir ek nú
á þat hið liðna;
mèr var eins við ógn
þegar englarnir,
sem oss færðu fregn
fæðíngar hans,
en þótt álengðar
at eins komu,
rökkur-glætu glíkt,
en ei glansandi
uppheims geislum í
enn þeir skinu.
Semíða svarar:
sannliga gröf
er hèr hvílenda
heilög, Jetro!
ek sjálfr sama,
sem þú, kenni!
förum sem fljótast,
því fagrir englar
eðr andaðir,
ástvinr minn!
hèr til helgidóms
hel-beð vígja!
Förum því, förum
sem fljótast hèðan!
óttinn, sem okkr
innann frá dýpt
hellirsins hræðir,
er hröð bendíng,
at við skulum skjótt
skunda hèr frá.
Nú án návistar
nokkurra fleirri
þeir sem hvíla hèr
með honum vilja,
er þeir ákalla,
einir vera!

sagði Semíða
svo við Jetro.
þó áðr enn hann
áleiðis gekk
stèg hann fácin fet
framm ok dýpra,
ok í hellis húm
hrópar þannig:
allir hèr inni
ódauðligir!
hinn dána Drottins
dýrkið með oss!
Gjörvallt líf gekk hann
guðdómliga,
ok eins guðliga
er hann dáinn,
Jesús Kristr kær!
kölluðu svo
hann, fyrr enn fæddist,
fagrir englar.
Gjörla þekkið þèr
þess nafn sem dó,
heiti heilagra
hvörju nafni!
Jesús Kristr! já,
af jörð mun hann
dýrðligr Drottinn
ok dauða rísa!
Þèr svo vel sem við,
þó at víst hafi
nálægð yðar nú
í negg okkar
skotit skelfíngu,
skaptir eruð!
eflaust eruð þèr
ódauðligir!
ódauðligir eins
erum ok vèr!
Látið mjúkum með
manna nöfnum,
látið brjóst-blíðu
bræðra heiti
ykkr af okkr
ávarpaða!
æ! bræður okkar
eruð þèr víst!
Veri þess vottur
votta gröf þessi
okkr, til ykkar
nær eitt sinn komum,
at vèr yðr
höfum ávarpat,
bestu blóðvottar!
bræðra nafni,
á vang verandi
vanhelguðum,
dymmann dauðligleiks
dragandi hjúp.
Hjá ykkr hæga
hugvekju gröf
blóð-vígðra votta
verki þessi,
okkr á móti,
þegar atkomum,
sem bræður bræðrum
at blídt takið
þèr fyrr heim fluttu
í fögnuð himna!
Merkti Tirza trú
tal hins únga
í svefn-þró sinni
ok synir hennar;
sáu þau hann þar
ok þann sem fylgði,
sífeldri sjón,
meðan Semíða
rómfagr ræddi,
reyrða furðu
horfa hvörntveggja,
hugglaða þó,
þókti þeim svo,
til þeirra niðr.
Þegar hætti hann
hèr sagðri ræðu,
sèr at sínum brátt
sonum vendi
Tirza, til orða
takandi svo:
vildi' ek víst óska
at þeir við dveldi;

því ek elska þá,
þels einfeldni
ok sönnu sálar
sakleysi prýdda;
En máske óttinn,
sem þeim ógnaði,
þeim frá sjálfum sè
sendr Guði!
í fögrum friði
farið hèðan!
æ sè yðar Guð
æðstr Drottinn!
ok í eylíft líf
innleiði vort!
Já, við dupt vort,
þat er vakna mun
upp til ódauðleiks
eptir þetta,
vinnum vèr þann eið,
at víst skulum
ykkr, nær andist,
ofan frá himni
alúð mestu með
móti koma.
Síðan Semíða
sèr ok Jetro
vendu til vegar
ok vikn frá gröf;
en meðan myndir
manna beggja
enna ódáuu
umsveimuðu
enn í eptir-svip
fyrir önd Tirzu,
þeim allt í einu
út frá sèr hratt
furðu-fyllri sýn
framkomandi!
I dvala duttu
kríngum drós niðr
synir hennar sjö,
sem þeir voru
ljómandi' af ljósi
lífsins himneska;
henni þókti þó,
sem þeirra tveir
fyri forundrun
framar miklu,
enn sem af svefni
yrðu sigraðir.
Þvíat þá skinu
þeirra fegur
andlit enn áðr
í augum móður;
því næst ræddu þeir;
en þánki hvör
var einskær unun,
öll var þeirra
raust, þegar ræddu,
róm-skær harpa.
Fullur hrópar hèr
hárrar sælu
Benínu bróðir
brátt hinn þriðji:
ert þú upprunninn
allt til reiðu,
ó! þú ypparsti
allra morgna!
sigur-sæll morgun
fyri sakir hans
ens sigur-sæla,
sjálfs upprisu?
O já, ununar
æðsti morgun!
sjá, þú sýnir þik
sannliga kominn!
gjörla bifast gröf,
Golgata hrærist,
krossinn kvikar,
kominn ert morgun!
Þannig hrópar hann,
ok hèr með fèll
brátt í blund niðr,
sem bræður hinir.
Jedidot eins upp,
ýngstr hlýra,
hrópar hátt, fullur
himin-sælu:
Hvar em ek, englar?
er hann nú strax

hafinn frá hauðri
á hástól Föðurs?
já, æ! jafnt himni,
Jerúsalem,
skín þú ok skartar
skærum ljóma!
háum hrósar þú
himins glansa,
Sigur-herrans sjálfs,
Sonarins trón!
Hvörsu skært skarta,
hve skína gladt
ör hans ok undir
alblóðugar!
þá er hafði hann
hrópat þetta,
sèg hann eins í svöfn
sem hans bræður.
Enn um allt þetta
ein stóð Tirza,
fyri forundrun
frá sèr numin;
sá hún þessa sjö
fyri sèr liggja
ódauðligs eðlis,
en svo sem menn
andláts bróður af
yfirskyggða.
Yndællt at sönnu
á at líta
mundi þessa þá,
sem þar láu;
andlit móður með
mjök stiltum laut
fhugunum at
andlitum sona;
en þar sváfu at eins
ódauðligir!
Skulu þeir — þannig
þenkti móðir —
svo lengi liðit
Lausnarans hold
hans gröf helgar,
um hátíðligar
megin-stundir, mest
þær er menn hugga,
einnig, at sönnu
ekki í dauða,
þá í dvala þó
þessum liggja?
Hún þenkti þannig,
ok í því lukti
augu saman sín,
ok sèg niðr,
eigi sá hún sik,
en síga fann;
ok hóf sik aptr
endrskapta!
Hvörnig varð vífi,
er hún vaknaði —
innit þat, englar! —
upp frá dauða,
ok nú sá sik
í sinni nýu
full forkláruðu
fegurðar mynd?
Með raust hrópar hún
hátt skjálfandi
þrítekit: þakka,
þakka vil ek,
ek vil um eylífð
alla þakka!
æ! miklu meiri
mèr þú hefir
gleði gefit,
enn hin glaðasta
megin-furðu með
mik tendrar von!
Æ! þeir eins vakna!
arfar mínir
einnig upprísa!
ó þú, sem mèr
unun útbýtir
ósegjanligri!
ó þú, sem eylíft
einn veitir líf!
Nú kraup hún á knè,
kneptum saman
hèldt at sèr höndum
ok með háum grát,

sá nú kríngum sik
sjö afkvæmi
vakna við aptr
ok verða at nýu!
Svo brátt sem blossi
bálast af glóð,
sá hún þeirra þar
þjótanda dupti
engla sem óðast
upp af spretta,
ok ljóss líkama
leyptur-fegra
ný-skaptann nú
af ná forklára!
Sona sinna bros
sá hún fyrsta,
ei móti móður
megir brostu;
sá hún sik opna
sólskær þeirra
augu, nær urðu,
upp til himins,
heyrði fyrsta hjal
hafit til Guðs
af sonum sínum
sælust móðir!
Hvörs hjá öðrum ein
afsíðis gröf
fól bein framliðin
fjögra vina;
hafði hörðum af
hauðurs skjálfta
úr hálsi hrunit
hvelfíng sú grjóts,
hvari holds leifar
hvildust þeirra.
Sín bein sáu þeir
yfir sokkinni
liggja ösku af
ýldum þeirra,
yfir útdreifðar
eptirleifar
þær ens liðna lífs
lögðu blessun;
einnig óskuðu
upprisu þeim;
þó væntu þeir ei,
at þegar mundi
ósk sú uppfyllast
eptirlætis.
Sá hinn síðasti
enna sofnuðu,
sem hinum hafði
til hvíldar fylgt,
Etan ok Kalkol,
ok enn Heman,
lifði litla hríð
eptir lát þeirra,
mælti dýr Darða
til dauðra vina:
Hvörsu vórum við
vinir jafnan
á fold farsælir,
meðan fjörs nutum!
okkr allt at gröf
æfin hefir
síféldt sameinat,
síðan gröfin,
ok svo eptir gröf
eylífðin sjálf!
Etan vèr aðrir
andast sáum,
ok bárum ærna
eptir hann sorg;
blánkar berari
á bein þín, Etan!
Heman sá ek svo
sem ok Kalkol
hels at vísu veg
víkja hèðan,
en upp til Etans,
eptir hann við
bárum hægri harm
enn hinn fyrra.
Eptir þat einnig
uppgaf Kalkol
ástkær andann
í örmum mínum;
einn stóð ek eptir
okkar fjögra,

ei at fjörs fyllíng
frjór eins ok þið.
Hve var mèr, Kalkol!
kránkt í geði,
þá ek þína gröf
at þèr lukti,
nú eptir orðinn
einmana svo!
þó mátti meira
mik styrkjandi
huggun ens hæðsta,
sem hvatti mik
at renna augum
upp til himins!
Síðan Salomon
svo strax eptir
dáinn dvöl hreppti
hjá Davíðs beinum;
átti ek þá enn
ólifat skammt,
ei' nema nokkrar
nætur fáar;
kom þá með köldum,
sem mik kallaði,
sá hinn síðasti
svefni dauða.
Sjá, þar liggja lágt
liðin vor bein,
ok bíða eptir
öflugn kalli,
er þau útheimti
til at upprísa!
ó hvað eptir þèr,
upprisa vor!
tendrar tillaungun
tídt æskanda!
Hvörsu muntu mjök,
mikla upprisa!
nær þik sjálf sýnir,
sinni vort allt
fylla feginleiks
ok forundrunar!
hvörsu mjök muntu —
meðr himneskri
saungva samhljóðan,
svo kvað Heman —
allann eðlis krapt
inntaka vorn,
ó þú upp til lífs
endrkoma!
O þú hin æskta
endrkoma
ei fljótt flýanda
framar til lífs!
ó lát mèr leyfða
lífs ok sæln,
voldugi veitir!
vogun óskar
fýsnar-frómustn
af fjöld þeirra;
Sú í sál minni
svo er því nær
vaxin, at von sè
vorðin þegar,
þat er þessi:
at ek þèr meðr,
mikli Messías!
megi vakna!
því þik aldrei á
orkar fúi!
Jesús Kristr kær!
hve kynni Guð
þinn at láta þik
þurfa at rotna!
hèr frá ham mínum,
hvörs fyri laungu
sundrmoltin mold
er at mold orðin,
ek, með allshugar
auðmjúkri bæn,
lánga leið ofar
líðunar fjalli,
í himna himin
hrópa til þín:
Lát, hár höfundr
hanstyrkju þinnar!
dauft fræ í dupti,
dvala svæft hold,
fá vöxt ok viðgáng
und' værum skugga

þínum, ax axa
æðsta ok bezta!
Æ! þat kastar enn
aungvum skugga,
kallaði Kalkol
af kappi nokkru,
ok á Heman hátt
hefst þegar blóm!
æ! sjáið þèr þann,
sem þúngum haldinn
bana blundi svaf,
bræður! vakna?
sjáið þèr hèr hann
í hærri glausa?
þannig hrópar hann,
ok hljóðs misti,
vaknar við aptr
með vaknanda!
ok þèr eins, Darða,
ok Etan þèr,
ykkr gafst enginn
undrunar tími.
þaut í beinum þá
þeirra dauðu,
þar við hrærðust þau,
ok í því sama
urðu skin-skæru
skrýdd með ljósi.
Líkt sem ljómuðu,
lyptu þeir sèr,
sólfagrar síur
sameinaðar,
héldust í hendur
hátt til skýa,
með saung miklandi
Meðalgángarann!
Jörðuð allnærri
Jerúsalem
svaf helblund Hanna,
helg spákona,
fyri fjöld sinna
farsæl daga;
hún sá í háu
Herrans musteri
Betlehems borgar
blessaðann svein;
Gjörla vissi víf,
hvör var þessi
kvistr kominn af
kynstofni Júða!
hann komst undan á
Egyptaland;
hún í hvíldar stað
hauðurs grafar
vaknar nár á ný
nú til dýrðar.
Nær hin glæsta gekk
uppaf gröf kaldri,
ok nú augu sín
opnaði fyrst,
at þau aldrei meir
aptrlyktust,
leit hún ens liðna
líkama þar
einmidt yfir frá
uppá krossi.
þú at vísu þó,
sem þar hángir,
ert sá hinn sami,
sem mik vaktir;
þú ert sjálfr sá,
sem þenna mèr
ódauðligann æ
einn líkama
fyri dauðadag
dýrðligann gafst!
Hve drýpr dreyri
dýrmætr hans!
hátt í hvelfíngum
himin-sala
furðu-fjarlægum
fullglöggt merkti
allheims Eindæmir
með áheyrslu
heilags dreyra hróp
um hylli ok náð!
Eptir hèr hermd orð
Hanna þagnar,
öll full af unun,
ok ofan sokkin

yfirvegnu í
ávaxta þeirra,
sem blíð bænheyrsla
bera mundi!
Jóel, sonur sá
Sammas fyrsti,
ok nú einasti,
arkat hafði
föður sínum frá
ok fjalli dauða,
ok í dul ofan
Olíufjalls
Getsemanes garð
gegnum ráfat
barns at Benónis
bróður síns gröf.
Leitar hennar hann
höfugum fetum;
þá var steinn þegar
þakinn mosa;
Jóel hug-hnugginn
hnèg þar á jörð
styrklaus hjá steini,
stirnuð augu
ok blóðug blíndu
af beiskum tárum,
Jesúm harmar hann
ok hlýra sinn.
Þægt lof hefir þèr
þú í munni
barna búit
ok brjóstmylkinga,
en mein í mínum
ok mikla sorg!
tekinn var ek til
trega at stilla
beiskann, sem ek bar
af bróður láti;
En þar á ofan —
ei' má ek nafns
guðdómsligs geta
með grimms dauða!
æ! nú stillir ek
ekki lengr
böl mèr í brjósti
vegna Benóni;
eitt sinn er hann mèr
enn nú dáinn!
Hinn sá sann-mikli,
sem menn deyddu,
engla bróðir er,
ek því varla
syrgja þori þann;
þat er engla
vegligri verum
at eins voganligt;
en at eilífu
ek þíns dauða
vegna bæði verð
ok vil gráta,
bróðir Benóni!
Benóni minn!
Hann lèt stein styðja
sturlaðr sitt
hníganda höfuð,
með harla dapri
sjón ok sorgfullri,
ok með sár-fölum
vanmegna vörum,
er vart gat opnað,
þat blíðum bróður
bæði mundi
ángr ok unun
ok engli hans;
Af því hans engill,
ok þú Benónis
í fagri farsæld
fullkomnuð sál!
voruð á undan
ofan komin
hèr til holds grafa
helgrar kyrðar;
þó var Jóel þá
þess eigi viss.
Eins þekkir eigi
einn sem líðr
þelfrómr þá,
í þjáníng sinni,
hönd, sem hjálpar,
þótt hún sè nærri,

ok jafnvel eigi
ögn lengra frá,
enn hið litla lopt,
sem lágt blaktir,
at honum ofan
í blása gröf
með kyrri kælu
kunni um síðir.
Af því hann hefir
heli vígðann
látit Lávarðr
lífs ok dauða;
mitt líf er meira —
mælti Benóni —
heldr enn hans er,
heilagi Seraf!
en hví svo harmar
hann þann dauða,
en þenkir eigi
upp til míns lífs?
Já, þú ert af jörð —
Jóel mælti
enn við sjálfann sik,
ok sá aungvann —
bróðir Benóni!
á burt genginn,
ok mik einnsamann
eptirskildir!
þú blóm af bráðum
brotit stormi,
mæta morgun-blóm
munaðar ilms,
Sarons dýra dals
dægiligasta!
Burtgenginn, bróðir! —
Benóni kvað —
ójá, minn Jóel!
Jóel bróðir!
burtgenginn betr
brátt til at vaxa
eitt hátt á himni
hlè-skugga trè,
stöðugt standanda
við straum lífsins!
Faðir okkar er
orðinn gamall! —
Jóel sjálfann sik
svo við mælti —
þinn dapr dauði,
já, dauði þinn,
bróðir Benóni!
burtu taka
mun ok hann frá mèr,
ok meðr sárri
hjarta hrellíngu
hans innann skamms
gráu gamals-hár
í gröf leggja!
O! hvað ek mun þá
aðstoðarlaus,
fáráðr, firrtr
föður ok bróður,
þjáðr af þorsta
ok af þróttleysi
þrá bana bikar,
beiskann öðrum
hvörri malurt meir,
en mèr sætann!
O sæli Seraf! —
sagði Benóni —
sorgir sveins þessa
sál mína nú
í gegnum gánga
gjörsamliga!
tár hans þerra þú,
þessi miklu
óafberanlig
útþerra tár!
Engillinn ansar:
af honum þerrar,
sè tíð tilkomin,
tár þessi Guð;
veizt þú ekki vel,
at vèr á himni
engin afþerrum
ofsnemma tár?
Sof — sagði Jóel —
sætt, minn bróðir!
þann ek æ elska
af innsta hjarta!

þó frá forrotnun
fór Lazarus;
en hinn góðgjarni
ok guðdómligi,
er hann uppvakti,
var enn þá lífs;
en nú hefir hann
á hörðum krossi
frá fjöri kallat
fullkomnun hans.
O þú, engill hans —
enn kvað Benóni —
hve lengi hann mun
hèreptir lifa?
Seraf svaraði:
sá einn þat veit,
sem þat mèr, þegar
þar at kemr
at hann skal andast,
umbjóða mun
til himins hèðan
hann at flytja.
Jafnframt Jehóvam
Jóel biðr:
fræð þú, ó feðra
Faðir allra!
mik, sem minn föður
misti ok bróður,
svo vísdóms verði
vitandi þess,
er lífsins alla
eyðimörk gegnum
inná fagra fold
fyrirheitis
farsælum fetum
framleiðir oss.
Þú full-sèr, Faðir
feðra ok barna
sem einn ert allra,
þá aumu sorg,
sem með brjóst-böli
bitru kremr
mjök svo mitt orðit
máttvana hjarta.
Var ek verð hjá mèr
vaxandi krapta,
merki mann-orku
minnar æsku;
fæ ek fyri mèr
frammvegis sèð
eitt líf án lykta,
líf án Benónis,
áðr lángt líðr
líf án föðurs,
já, æ mik aumann!
án enda líf!
Mun brjóst bítandi —
Benóni spyr —
sorg þessi, Seraf!
syrgjandans eigi
stórum sturlat líf
styttra gjörla?
drjúg þykja dægur,
dagarnir ár;
ok at eins daga
mun hann enn lifa.
Fullkomnaðs sí-sæl
sál míns bróðurs! —
innir Jóel enn —
æ! ef værir
þú nú hèr nálæg
í nánd við gröf,
ok þinn Jóel á
yfirgefna
kynnir þèr kærann
kennsli bera;
ó! þú mundir mèr
mjök stuttra víst
óska hèreptir
æfidaga.
Brátt kvað Benóni:
bezti Seraf!
hèr til heyrir
eigi hót minna,
at sjá sveins þessa
sáru hrygðir,
ok þat ufstanda
óskertri ró,
enn til at eignast
eylífa sælu;

Odauðligr æ,
engill hans, varst;
ok aungvann eptir
í eymdar hreysi
heims þessa hefir
hlýra skilit!
orðum hans engill
aptr gaf svar:
þó ek þess sama,
sem þú finnr,
kenni klárliga,
kæri Benóni!
hvönær helzt sem vèr
hjartkæra við
skiljum, ok skeðra
skipana vegna
stígum af stóli
stillis eylífa,
verða víst eptir
vorir bræðr!
Hæð borni bróðir!
Benóni kvað —
hvað mun hèr tákna
hristíng grafar?
Jóel jálmandi
jarðar neggjum
uppstökknr á,
ok um mik sveimar
nú allt í einu
eins ok rökkur?
At ek — ó minn Guð!
hvar er ek nú?
ó þú, eylíft líf
sem einn veitir!
þú, veit' ek víst,
at mèr viðheldr,
ok at eigi mik
öldúngis þú,
góði Gjafari!
gjörir at aungvu?
þannig mælti með
mjök lágu stami
Benóni bergmáls
burthvarfi líkt;
ok strax aptr í
upprisu dýrðar
líkham ljómandi
lýstugt hrópar:
þú mèr ei at eins
æ viðheldr,
alls góðs útbýtir
óendanligi!
heldr ljóss-líkham
lætr ok þessum
ódauðligs eðlis
íklæddann mik;
dýrð sè þèr Drottinn,
þú hinn dýrðligi!
slíka gæða gnægð
sem gefa kannt!
Nú, minn bróðir! nær
þinn at ná orðinn
líkham lúð hefir
í ló-dupt fúi,
hann skær Skapari
skírann vekr,
slíka gæða gnægð
sem gefa kann!
Var ek, vakandi? —
viðkvað Jóel —
eðr hafði hrygð
hræðiligann
yfir mik útbreidt
aungvita svöfn?
hvört ber ek böl
nú í barndómi
þegar þvílíkt,
sem þoldi Samma?
Er hann óð-villur
afsinna lá,
ok hengði höfuð
svo sem höggdofa,
síðan stökk upp strax
ok stórum æpti:
barn mitt Benóni!
Benóni minn!
í hel bein-brotinn
á blóðgum steini!
Var ek vitstola
viðlíkt orðinn?

eða var þat allt
eins ok mèr fannst,
at hinn stóri steinn,
þar ek stóð, hrærðist?
þèr, míns bróðurs bein,
blundit þó vært!
hrærðist hauðrit enn?
híngat kemr
faðir mæddr minn,
ok mín leitar.
Sjá þú, ó Seraf! —
sagði Benóni —
hvar minn faðir fer,
ok fetar híngat!
grát ei, geðfróma
gamalmenni!
gæt, at ei grátir
gröf mína við!
Ek er sællri, enn svo,
at syrgjast þurfi;
tómt er moldar mor
af mínu dupti,
þat sem þakit er
þessum steini,
sá er kyrr sitr
í sínum stað.
Þá sagði Samma
svo við Jóel:
lengi, litli son!
leitar ek þín,
ok hefi hittann
hèr um síðir;
förum sem fljótast,
flýum hèðan
burt frá blöskrandi
beina gröfum!
Er þat ekki gröf
þess hins andaða
barns míns Benóni,
sem þú bíðr hjá?
kom jóð mitt, Jóel!
var ei jarðaðr
bur minn burtdáinn
Benóni hèr?
Æ! látum okkr
arka burt hèðan!
kom, flýum, kundr!
kvikr eptir!
þik, jóð mitt, Jóel!
Jehóva blessi!
þar með gengu þeir
þaðann sinn veg.
Brátt þik blessi Guð —
Benóni mælti,
sèr við til vegar
nær vendu þeir —
brátt þik blessi með,
bölsærði faðir!
Guð æðstr allra
eylífu lífi!
Símeon. nær sèð
sendt af Guði
hjálpræði hafði,
heilagast ljós,
alla jarðar öld
til at upplýsa,
dásamliga dýrð
fyri drótt Júda,
ok þökkum innstu
yfir hann grátit,
lèt eigi lángt
áðr lagt fengi
silfur-höfuð sitt
til sætrar hvíldar.
Tók sik til vegar
trúr Símeon,
ok varð vegligt ljós,
þegar viðskildi,
því ljós hans lýsti
lángtum fegur
hátt ok heilagt
fyrir handann gröf,
ok þú, dýrð Drottins,
dægiligri
upprannst annars heims
yfir honum.
Allt hvað af honum
uppvisnat gat
var í dauða dupt
dottit niðr;

sjálfr sveimaði
sjáandans andi
þar í grend við gröf,
er geymdi fræ
híngat til hulit
hans líkama;
Svo þat á svipstund,
er hann síst vissi,
uppí hálm yxi
yfrit háann
fyrir al-aldar
uppskeru dag,
eigi mörgum með
merkis-staungum
yfir sèrhvör sáð
enna sofnuðu,
sem eptir Adam
andazt hafa,
yfir mannkyn allt,
sem andast til dóms.
Einn gekk aldraðr
allseinum fetum,
ok einn úngr sveinn,
er hann leiddi,
sá var ens sæla
Símeons bróðir,
en sonar sonur
sá hinn úngi,
Reikaði rekkr
ranðleitann veg,
sem lá lángt gegnum
lækjar nið Kidrons,
beygðr í bugi
frá borg Jórsala,
fót undir orpinn
Olíufjalls,
ok með sínum svo
sífeldu krókum
sveigði sik at gröf
Símeonis.
Augum hins aldna
álá blinda
fyrr áfallandi
föl dauðans nótt,
áðr enn hann oss
algjörliga
í hinn dymma dal
dregr sjálfr;
barnsligri blíðu
Bóas huggar,
stafr styðjandi
stirðfættann karl.
Bóas við blindann
blíðr mælti:
þerra þín augu
þó um síðir,
frómlyndi faðir!
ei' framar grát!
sá gamli gegndi
ok grèt sem áðr:
Lángt er síðan sjón
sviptust min augu,
þat eitt sem orka,
lát þeim óbannat;
ek mun um síðir
öðlast með grát
þann er seinkar svo
sèr minn dauða;
Ok loks frá lífsins
lángsamri nótt
niðrbeygðr ná
nóttu betri;
en birt mèr, Bóa!
beina leifum
hans ens heilaga
ok há-aldraða
hvört við erum enn
all-lángt fjærri?
Onei, ekki lángt,
ansaði Bóas,
minn frómi faðir!
erum frá þeim við;
enn spyr öldúngr:
er af mosa
gamall grafar-steinn
gróinn yfir,
viðlíkt ok villum
af vetrar-lauk
eru alþaktar
auðar rústir?

Sýnir sá nokknð
hinu sokkni steinn
hvíldar-legu lengð
ens lyndis-fróma?
ok þú ýngissveinn
uppvaxandi!
hlakkar hjarta mitt
harla stirdt orðit
ok hefst upp háfleygt,
nær hugsar um,
þær gömlu grafir
hve geðhrærandi
alla tíð eru
ok æruverðar.
Sik í sinn grafar
Símeon minn
legstað lagði
fyri laungum tíma;
einnig er mín gröf
áðr laungu
hagliga höggvin
í harðann stein,
en hún er jafnan
án hins dauða!
þannig hermdi hann,
ok í hrygð djúpri
stóð við ok studdist
stillt við Bóas;
son minn! segir hann,
þeim sólar ljómi
ei fyrir augum
hefir útslöknat!
þú, hvörs sískær sjón
sumar nátta
ljúft lýsandi
litr birtu,
hvört er himininn
heiðríkr nú?
andar móti mèr
ein mjúk kæla,
er mik örmæddann
endrnærði.
Heiðr er himinn —
hermdi Bóas —
ok á vor-blóms vöxt
varpar prýði,
ángan ok unan
útbreiðir sik
um fagrar foldir,
fáðir góðr!
þótt hann þykkvustu
þakinn væri
skýum ok skuggum
skuggafullur —
sagði sá gamli —
son minn, Bóa!
þá skal þó, nær helzt
þar at kemr,
dauðadagr minn
dýrmætastr
ok vænstr vera
vordagr mèr!
Harla heitt þyrstir
hann til at deya —
sagði Símeon
við sinn engil —
því hann þolir ei
hina þúngbæru
hrygðar hugsun
um helför Jesú.
Æ! hann ekki veit
at nú sè skeð,
ansar engillinn;
en nú hana
hafa þeir honum,
svo heldr lifi,
Drottins dauða sögn
dulda látit.
Hann þá víst þegar,
er þat heyrir, —
svarar Símeon, —
ó Seraf! deyr;
en þó hefir ek
einnig honum
sagt, at sverð þetta
sál hans móður
gjörvalla gegnum
gánga mundi.
Meðan þeir mæltu
milli sín þat,

setti sik á gröf
Símeons bróðir
með sveini sínum,
sem honum fylgði;
en hin beru bein
byrgð með ösku
ens sæla Símeons,
sem þar láu,
atskildi engill
frá aur jarðar,
ódauðligt eðli
til at öðlast nú.
Þytr kom at þeim
ok þau hrærðust,
öllum nema englum
ósýnilig,
ok þeim einum var
unnt at heyra
hark ok hljóm þeirra,
sem í himninum
merkja lánga leið
lofgjörð stjarna.
Í því at ofan
yfir þau fèll
ljómi hans, ok lèt
líkamann nýa,
sem nú frammkom fljótt,
forkláraðann,
svo hinni háu
hans þókti sál,
sèrhvör einn hvirfi
hennar þánki,
furðu fagurs saungs
fluttr á vængjum
æ lengra og lengra
líðandi burt.
En þeir undu sèr
ótt til baka,
nær nú líkami
nýrrar sköpunar
ódauðligleik í
algjörðr var,
ok önd ens dána
orðin mundi
sèrhvörri, sakir
sinnar upprisu,
innstu gleði af
öldúngis full.
Einn lángt at kominn
í því svifi
hljóp þar hratt um veg
hátíðligum
at plagsið páska
pílagrímr,
sá beint bráðfara
Betlehems til
hugðist híbýla
at halda stefnu.
En Bóas orðum
ávarpar hann:
hví fer þú svo fljótt?
sá hinn framandi
gaf þá sveini svar,
ok svo mælti:
skylda'k ei skunda
skjótt til minna,
at tjá tíðindi
táraverðs dauða?
Hvörs þá helzt dauða?
hrópaði strax
aldinn bróðir upp
hins endrvakta;
svarar honum hinn
hátíðar gestr:
ertú sá eini,
sem ekki veizt,
at vorir æðstu
yfir Jesúm
manninn góðgjarna
ok guðdómliga
hafa heli steypt
hengðann á kross?
Mállaus undir eins
aptr á bak
fèll sá er frètti
við fregn þessa;
loks eptir lángt strit
yfir læk Kidrons
fengu Bóas fært
ok hinn framandi,

þann hinn bölbeygða,
burt frá gröfum.
Sik beint til baka
bað hann, ok grèt,
fylgendr færa,
en þó forgefins,
at háu heldr
hann þeir leiddu
blindann Jórsala
borgar-hliði.
Skulum við hann vèr
vera á reyki —
sagði Símeon —
ó Seraf minn!
ok hans útflognum
anda móti
skunda, nær skilr
við hið skjálfanda
hrörleiks hreysi,
sem hann nú þýngir?
því hinn nærsti nú
niðrhrunit
morgun, nær mætir,
mun þat finna!
Engillinn ansar:
eigi deyr hann,
sæli Símeon!
því sá hans gætir
er ei hjá honum
hlífðar engill;
já, hann mun jafnvel
á jörð lifandi
mikinn fögnuð fá
framvegis enn.
Þvíat þú honum
þik munt sjálfr
sannliga sýna,
Símeon minn!
ok um upprisu
Endrlausnarans
við hann bölbeygðann
berliga ræða!
Ligg þú hèr ok hvílst,
holds leifar við
sínar svo þenkti
sæll Jóhannes,
allt at efsta framm
ógnar degi,
at dýrum degi
dómsins mikla;
Hvörra glæp-gjörðir
þú, Guðslamb! barst;
vèr skulum víst
hèr viðdvöl eiga;
eigi lengr enn
á meðan hylr
þess ens líflátna
líkama nótt,
meðan þú, ljúft lamb!
liðit sefr,
á hvörs altari
enn af þínu
reykr reisir sik
rennanda blóði.
Þá samansafnar
sjálfr þú oss,
er þik auglýsir,
at unnum sigri,
öllum umkríng þik
aptr at nýu,
svo þína sælu
sjá skulum dýrð!
Þú dupt! við þik
mun ek þá skilja,
uns þèr hljómar hvell
her básúna!
nú geng ek gjarnann
kríngum gröf mína,
ok tef í tómi
tíma þann af.
Hvílík muntu mergð
af megin-gleði
upprisunnar, í
egin-veru,
þareð þín at eins
þreyandi von
slíkann fyriframm
fögnuð vekr!
Eða hvað er þat
einn fyri draum,

sem mik sveimar um?
hvað er sú mikla
heita hugar-ósk,
sem mèr hátt lyptir,
at ek innann skamms
uppvakna megi?
en hins dýra dags,
dómari, þíns
alls holds upprisu
eigi bíði?
Sjá hèr ósk eina,
sem öflug von
enn hærra hafna
himnum færir!
undarlíg eru
ok utan tölu
náðargæði Guðs,
sem gefr hann;
megum vèr æ víst
vænta nýrra.
Þannig þenkti hann,
ok þá sèr koma
blikandi birtu,
þat var Benóni,
yfirföllun í
aptans rökkri;
ok við varðengil
vèk svo til máls:
Hvör er sá engill,
ó minn Seraf!
sem hèr sveimar
frá svörtum hellri?
öll unaðs prýði
yndisligs vors
umkríngir uppheims
únglíng þenna.
Hans svif heyrir ek,
ok hann kenni!
all-líkr er hann
úngum Benóni;
þat mun vera víst
varðengill hans;
hvör er hann, Seraf!
hvör er þessi?
Ek ber eigi meir
á hann kennsli;
ei er þat engill,
engi sálna,
ljómandi er leyptra
í ljóssins klæðum;
er hann Benóni
all-líkr þó!
Enn hvað? upprisnum?
æ! frá dauða
værir at vísu,
þú hinn vegligi
uppheims ýngissveinn,
endrvakinn?
kom, vopna vængjum
þitt voldugt flug
há-svifs, hvör sem ert,
hörpu þína!
Ertu máske einn
við ægir þaðra
Benóni borinn
burt fyri skemmstu,
aptr upprisinn
ok yfir haf
sendr til at tjá
táku ok kenna
ens mikla meistara
miskunarinnar,
nokkurnstaðar nýtt
nú framkomit;
eðr ok sjálfr
eitt at vera?
Farar hörpu hljóm
hafði vængjum
hráðum Benóni
búit, ok þeim
vakurt veifandi
var nú kominn;
sælum svarar hann
svo Jóhanni:
Þú mesti manna
meðal allra
af kvínnu kviði,
sem komnir eru!
þik í frá eylífð
eylífðar til

varðveiti ok blessi
veranna Faðir!
Blessaðann boðskap
ber ek himins;
sjá, upp af svefni
sínum vaknar
Herrans helga dupt,
helsofnir menn
gánga glaðir
út af gröfunum!
Dýri dýrðlíngr,
sem Drottinn skírðir!
hrærist ok hriktir
af holds upprisu
öll mörk umhverfis;
endrvaktir
á fætur fara
framliðnir Guðs!
O, sveinn! hvörn sástu —
sagði Jóhannes —
hvör var, sem þú sást?
segðu mèr þat!
ek sá, ausar hinn,
allra manna
fyrsta föður,
ok með forundrun
uppfylltan Enok
sem ok Elíam!
Ek sá Abraham,
sem allur skein
eins ok himins her
í heiði kláru!
ek sá Isaak
einnig koma,
patríark prýddann
purpura skýi!
Ek sá augu sín
upp til himins
hefja hátt tendruð
af hjartans þökkum
ena miklu menn,
Mósen ok Hjób!
svo ok sá ek þá
sjö blóðvotta;
fèll í forundrun
frá mèr numinu!
Þik í frá eylífð
eylífðar til,
himins hæðstr Guð
helgi ok blessi!
ek sè þik einnig,
ó þú Jóhannes!
þó enn nú eigi
endrvakinn!
bú þik strax í stað,
stærsti af Adam!
er í aðsígi
upprisa þín!
Ljúft furðandi leit
líkama sinn
jafnsnart Jóhannes
í jörð hrærast,
sá hann reisa sik,
sá hann lifa;
þó fyrst án fagrar
forklárunar,
af jörð einúngis
enn nú skaptann.
Nú allt í einu
ypparlig sál
sínum síðasta
sviptist þánka
um hið tèða teikn,
ok tilfinníngu
yndællrar efstu
eptirvæntíngar;
því nú sjálfa sik
sameinar hún!
Nú var full frammkvæmt
furðuverk þetta,
hóf upp háleita
sá enn heilagi,
í fullum fagrar
forklárunar
líkama, lofgjörð
Lausnaranum!
Hátt klíngðu heiti
hèr frammtalin
enna upprisnu
fyrir eyrum mèr;

en hin annara
öll af vindi
pálma trjá-toppum
tvístruðust hjá;
en við vegligrar
vígslu stundir
kemr hin kæra
kvæða-mær Síons,
hún hin heilögu
mèr hermir nöfn!

---

Hèr hefr

## tólftu bók Messías.

Sinum ber sálin
sorg ok kvíða
innstu fylsnum í,
nær óttast hún,
at hinn eylífi
frá erfð sinni
á himnum henni
hrinda muni.
Villur vorðinn
í vega krókum
fólgnum ok flóknum
forsjónarinnar,
þánki hennar hvör
hverfr nú frá
upp þaðann allri
eptirgrenslun;
Sèrhvör sèrhvörja
af Sína ok Ebal
brúsandi bölvun
bítr hennar
titrandi' ok tvista
tilfinníngu,
ógn af Golgata
þó enn meir háu.
Æ! nú mun aldrei
íklæðast hún
hvítum sóma-serk
enna sigrandi,
aldrei á himnum
eignast pálma,
æru-teikn allra
sem yfirvinna,
aldrei sjá á sèr
sigur-kórónu!
Svo hún marin mjök
í moldu liggr,
ok til grunns gánga
gjörvöll mundi,
utan ein henni
enn hèldi við
hugrenníng, hjálpar
hönd sem rèttir,
engill sendr önd
ofan af himni;
það er einn þánki
þessi enn mikli:
gef í gjörvöllu
á Guðs vald þik!
Svo fullur sorgar
ennar sárustu,
ok af allri von
yfirgefinn
var hinn fá-fylkti
flokkr þeirra
meðal mannanna,
sem hinn mikla Guðs
Friðþægir á fold
fengu þekktann,
þá er hann þeirra
þrúngin augu
lík á Golgata
gjörðann sáu,

alstirðnat, örendt,
ok aflvana;
allt var audt ok hljódt
umbergis hann;
Eins var þat ok einn
frá Arimatea,
hann einn einasti,
sem olli því,
at þeir ei af sorg
allirsaman
til grunna gengu
gjörsamliga.
Þik, fèkk fast ráðit,
framliðni Guðs!
jafnsnart at jarða
Jósep þessi,
nú orðinn efldr,
ok hins fyrra
hraustlyndr hegnir
hugleysis síns.
Hann á Golgata
gjörði hrópa
hátt, svo at heyrði
höfuðsmaðr
rekka rómverskra
raust hans gjörla,
ok viðstödd vitni,
sem voru þó
harla heyrnar-dauf
af hrygð orðin:
Ek geng at greftra
Guðs hinn dána!
hèr er gagnvart gjör
gröf hans ok mín;
nei, mitt, nár orðit,
niðrleggjast
hjá ens hola steins
hold skal dyrum.
Nú, upp næsta hratt,
Nikodeme!
tak þá myrru mergð
með þèr alla,
ok af alóe
allt, sem hefir;
ber brátt at krossi,
ok bíð mín þar!
Ek fer ok finn,
en fljótt kem aptr,
ríkis-ráða höld
enn rómverska;
líka legg ek til
lín at hjúpi;
hann með fljótri ferð
fór nú af stað.
Fer svo fljótt til verks
föst ályktun,
at laga lifnat
til leiðrèttíngar,
nær hún ófölsk er,
ok ákefð syndar
hvörein henni gegn
hvetr nakinn,
ær, til ónýtis
uppreiddann flein,
eðr svefn-són
ok sælu galdra
forgefins fleyprar
fyrir henni!
Hratt bar ötul önn
hinn Arimatiska
at höll ens heiðna,
hvörn at máli
fèkk hann strax fundit,
ok fyrir hann
inngekk umkrígðann
órósemi;
Prúða Portíu,
Pílats kvinnu,
leit hann litverpa,
ok lúin mjök
af hörðum harmi
hennar augu!
enn jarlinn jafnsnart
Jósep spurði:
hvað er þat, af mèr
sem óskar þú?
Líkami ens liðna,
landsdómari!
sem þú ei þekktir,
en af þjóð minni

prettaðr pína,
Pilate! lèzt
í dag, ok deyða
á döprum krossi;
ek vil hann jarða,
Jósep mælti.
En hvað áhrærir —
ansaði jarl —
þessi dauði þik?
þá kvað Jósep:
varðar mikit mjök
mik, Pilate!
um hann, ok at eins
all-lítt minna
enn þann, sem uppi
einn heldr dóm,
þann Guð guðanna
gjörvalls Drottinn!
Við Kokyt, kæri! —
kvað enn heiðni —
en ei á gimli
guðir dæma!
at vísu sá síst,
sem af stolti
næsta fullur nú
nefna þorðir
þann Guð guðanna,
gyðíngr þú!
Radamantus rètt
ræðr dómum,
annar er Minos,
Eakus þriðji!
Hvört rómversk regin
ráða dómum,
hvört þau hjá Kokyt
halda sín þíng —
ansar aptr
hinn Arimatiski —
gjörum fyrst grein á,
nær gröf fyllist,
eðr ösku-krús
okkar beina.
Nú bið ek at eins
inniliga
þik, sem þessari
yfir þjóð drottnar,
einnig yfir þeim,
sem æðstann deyddu
með grimdar geði
Guðs prófeta:
gef, ó gef mèr lík
guðdómligs manns,
gèf fáum frómum
þenna framliðna!
Mundi hann svo hratt —
hirðstjórinn spyr —
orðinn örendr
algjörliga?
seg mèr, var þat víst
at hann viðskildi
líf svo til lykta
á litlum tíma?
Ljúflynd Portía
lengr eigi
mátti máls bindast
fyri megnri hrygð;
gef — svo mælti mær —
mannvali þessu
þat hið liðna lík,
lát mik ella
þegar gista gröf!
grèt hún þá mjök.
Jafnsnart jarlinn
við Jósep mælti:
send nú samstundis
ok segja lát
hundraðs-höfðíngja,
sem hjá er krossi,
at hann sem hraðast
híngat skundi;
ok nær at kemr,
inn fyri mik
hèr í höll staddann
honum vísa!
Hinn at svo sögðu
sendi þegar;
hundraðs-höfðínginn
hraðfara kom;
jafnsnart þeir Jósep
fyri jarl gengu;

spurði þessi þá
þann hinn komna:
Hvört er hann, sem þeir
til heljar knsu
fyri Barrabam,
svo brátt dauðr?
hundraðs-höfðínginn
hèr til gaf svar:
víst til fulls var hann
orðinn viðskila;
engi vildi vor
enna viðstöddu
brjóta bein hans,
en bitri lensu
lagði loksins einn
í liðins hjarta.
Hundraðs-höfðíngja
hirðstjórinn bauð:
*láttu lík* þetta
laust af krossi!
gef þat, svo grafist,
gyðíngi þessum!
hvar þú, Jósep! hyggst
hann at jarða?
Rètt við Golgata,
þar í gröf minni —
ansar öldúngr
Arimatiskr; —
síðan undir eins,
at því mæltu,
fór hann með flýti
til fjalls dauða.
Fyrst kom augum á
ásthollann vin
mjök hrygg María
móðir Kristi;
sá hún í hendi
hann bera *lín*,
hjúp til hulníngar
hennar syni;
fljóðit fullt af sorg
flaut í tárum;
En hún stóð orðlaus,
ekkert mælti,
með sverð í sálu
sárt skeranda;
þá fyrst tóku til
titrandi varir
mjök mædds Jóhannis
at mæla svo:
Okkr aumstöddum
er þó lèttir
mikillar mæðu,
María! þat,
at Jósep ástvin
okkar liðnum
veita vill greftrun
virðugliga.
Þó samt, þegar hann
þetta mælti,
brá hann burt frá gröf
bölmæddri sjón;
en hins andaða
*ok* hans móðir
orðlaus, sem áðr,
aungvu gegndi.
Jósep frómr fór
fljótt at krossi,
mætti nú í nánd
Nikodemus;
hvör sem þá hitti
helgra votta
hrópa þeir hreifir
til hans báðir:
jarða vogum við
hinn vegna Guðs!
En hinir hreldu
hrukku til baka
ok felmtursfullir
fjærri stóðu;
aðrir eigi svo
upphæðanna
vegligir vottar,
vakuaðir menn
af dauðans dvala,
ok dýrir englar.
Þessir svifu þá
þángat nærri,
hófust þar þegar,
þó at hlustum

ei mættu merkjast
mannligum af,
heilagra harpna
harma-tónar;
enn nú orða róms
engi klögun.
Hvör sem þat hefði
heyrt dauðligra,
hvör af hóp þeirra,
sem í harm sukku,
fyri fögnuði
ei á fróni sá,
heldr á himni
hefði verit;
eðr áugurs rödd
engil-harpna
hastarliga hann
hefði deyddann!
Nú gekk *Jósep* nær
ok Nikodemus,
hinn á láð lagði
líkblæu dúk,
þessi mörg ok mæt
myrru smyrsli;
báðir tóku brátt
burt af krossi
liðinn líkama
Lausnara vors.
Hann þeir hægt lètu
á hauðr síga
Golgata fjalls,
þar gálgar stóðu;
nú lá hann niðri,
sem næst krossi;
stjakans lèutu líf
líkblæu þeir;
Ok þann, sem eitt sinn
upp at rísa
liðnum líkum
með lúðri býðr,
hugðust þeir hèrmeð
heutugliga
fyri forrotnun
at fá varit.
En nú sveif Eva
ofan at honum,
yfir ásjónu
hins aflífaða
Messíæ hún hèr
hneigði sína;
gullnir hennar hægt
höfuð-lokkar
yfir undir hans
útbreiddu sik;
hnèg eitt himneskt tár
at hvíldu brjósti.
O hvað öll þín sár
eru fögur! —
svo at honum hún
hvíslaði lágt,
sú en óborna
endrleysta —
alda sælan öll
óteljanligra
út af und hvörri
ofanstreymir!
O! hvað öll er nú
ásjána þín
döpur ok dulin
dauðans bleikju!
þó samt þegjandi
þinn ok luktr
muunr, mállaus þín
ok myrk augu
eylíft, sem áðr,
enn ræða líf!
Svo lægi', ef lètist,
ljómandi Seraf
í dauðans dvala;
dátt brosir enn
elskan yndislig
á þèr liðnum!
ok sèrhvör atferð
í ásýnd þinni
mjúkustu mildi
mælir, ok náð!
Svo gæfugefin
greindi móðir
við hinn líflátna,
sem lá nú þar;

hinir aðrir hèr
huldir stóðu,
á líðinn líkham
ei' líta máttu.
Náðu nú Jósep
ok Nikodémus
í ljósu líni
lík at sveipa;
en nær harð-hristum
í höndum þeirra
dauða-hjúps dúkr
at dreyra varð,
helzt til röm var raun
enum rèttlátu
Frelsarans feðrum
fullkomnuðum!
Nú loks lètu þeir
líksaung hafinn,
himins hljómandi
harma kvæði;
svo gól samróma
saungflokkr einn,
flóðu fögur tár
enna fullsælu:
Hvör er hann, sem frá
hæð Golgata
kemr hèr kyrtli
klæddr rauðum?
hvör dreyra dýfðum
dúki prýddr
er frá altari
ofan stíginn?
hvörs djúpt er dulin
drottinulig makt,
hátt herraðæmi,
ok heill eylíf?
Síðan svaraði
saungkór annar,
ok tær með tónum
tár framm-runnu;
viðgall voldugum
veraldar dóms
ein af básúnum
í þeim flokki:
Ek er þat, ek,
sem öllum kenni
ráð ok rèttvísi,
reyndr at hjálp,
meistari í mínum
mildi verkum!
aptr hinn annar
andsvaraði
flokkr, sá er fyrr
flaut í tárum:
Af hvörri orsök
er svo rauðum
farfa fágaðr
fatnaðr þinn?
ok þín yfirhöfn
sem eins, er treðr
af vökva votr
vínpressuna?
Trað ek ekki einn
örðuga pressu?
var nokkr með mèr
af mergð skaptra?
þeim enum þrjózku
ek þrúgat hefi
í rammri reiði,
sem risu gegn;
þá í geysi-grimd
lèt ek gjör-marða;
allur útgosinn
um mín klæði
er þróttr þeirra
undan þrúgunni;
í því erfiði
ek hefi mínn
með berja blóði
búníng litat!
Nú er hinn hái
hefndar dagr,
komit æðstrar ár
endrlausnar!
ek sá mik um
við upptök hennar,
en einkis var varð,
sem veitti hjálp!
Gjörði Guð mik þá
geysi-skelfðann!

vætta var ekki,
sem mèr viðhèldi,
á himnum enginn,
enginn á jörð!
armur mátti minn
mèr þá hjálpa!
I gegn árásum
enna stoltu
mátti mín reiði
mèr viðhalda;
sjá, ek höggorms haus
hefi marit!
hann mik harð-tenntr
í hælinn beit!
Alla þá illu,
sem uppreist frömdu,
hefir ek í hel
með heipt troðit;
ek þá af minnar
ógna grimdar
dreggjum til dauða
hefi drukkna gjört!
Þannig ek þeirra
þrótt ok afla
hefi hvervetna
hrundit í grunn!
Kórar súngu svo
sína viðr
samblandandi sorg
sigurhrósi.
Blóðuga burttók
böls kórónu
jafnsnart Jósep
af Jesú höfði,
ok hana hinum
í hendur fèkk
frómum fèlaga,
sem fylgdi honum,
en heilagt höfuð
með hjúp vafði.
En nú orðlausir
ekki voru,
líkt sem ljúf móðir
ok lærisveinar,
enir sann-sælu
sjónarvottar,
yfir Golgata
er gjörðu sveima;
því nú ná-saungvar
á ný hófust
með tvistum tölum
ok táraföllum.
Hefðu nú hljómat
fyri hlustum þèr,
ljúfi lærisveinn
Lausnarans dána,
ok mögur móður
ennar mæddustu
ok mest ángruðu
allra mæðra!
hörpur, sem heyrðir
svo hátt láta,
Patmos-eyu á
enn þá dauðligr!
Svo kvað samróma
saungflokkr einn
enna upprisnu,
áhorfandi
hold ens heilaga
meðan hjúpfærðist:
Sjá, kyrrt kvaklaði
Kídrona lækr,
lækr líðandi
um leið musteris!
lágt, þèr englar, lèt
lækr Kídrona!
stíg ok stappa
á hinn stolta, sál!
láttu liggjanda
linna troðinn!
Eikur allfáar
einsligar pálma
gjörðu brak um garð
Getsemanes;
þá tók hann tvistr
til at deya!
Ut frá öðrum kór
anda saungva
streymdu org-ómar
eptir skruggu:

heyrði hann ekki
harla djúpt niðr
öskur-róm allra
afgrunns fljóta,
æðisfullt upphróp
anda fordæmdra,
með allskyns ógn
ok ángurboða,
ok tók þá tvistr
til að deya?
Titraði ei Tabor
upp at topp-skýum?
útkom af myrkri
Elóa þá,
dapri dymmu nótt
dæmanda föðurs,
sveif ok saung honum
sigur-kvæði;
þá tók hann tvistr
til at deya!
þegar þagnaði
þessi saungr,
kvað við kyrr ok hæg
klögunar raust,
hún er hermdi svo:
hann er dáinn!
hann, ó þèr englar!
er nú dáinn!
þannig súngu þeir,
þá lèt Jósep
næsta nákvæmr
ok Nikodemus
holdit heilaga
hafit af jörð;
síðan seint ok hægt
sagðann þúnga
báru báðir samt
burt þeir af hæð
Golgata fjalls,
sem Guð hans virðti.
Frá einum flokki
fagra saungva
fylgdi för þeirra
frábær hljómr:
æ! hann áleit þat
ei fyri rán,
Guði gjörsamla
glíkr at vera!
Heldr þú þik
fyri því lægðir,
fríðastr af fjöld
fólks ok engla!
til dapurs dauða,
dauða' á krossi,
lítil-lækkaðann
lèztu þik allt!
Glæpugra goða
grimmir þrælar
hlutkesti hendtu
yfir hans klæði!
æ! þeir at honum
eðik ok gall,
í brjóst brennanda
bana þorsta,
rèttu með reiði,
ok þó rammari
spott-bríxla bikar
at bölmædds sálu!
Laust síðan loptið
logandi kór
með raust, sem rauk
at rjáfri stjarna:
Jerúsalem, já,
Jerúsalem!
æ vei, æ vei þèr
vesæla borg,
Jerúsalem, jafnt
jóðum þínum!
Hróp þitt úr hófi
hræðiliga,
þá er þú krafðir
þèr yfir höfuð
blóð ens blessaða
Borgunarmanns,
æ! hve fast er því,
til at uppfyllast,
gegnt í gjörníngi
af grimdar köllum
hershöfðíngjanna!
hels dæmda borg!

hve hafa ernir
at hræi safnast!
Hnigu hörpur
úr höndum feðra,
en hin bista blès
básúna framm
hershöfðíngjanna
háu kalli;
úr mundum mannsins
mikilhugaða,
er var áðr Guð
Aronis,
hárómuð harpa
hèr einnig fèll.
Enn þá hið þúnga
þrumu-básúna
Elóæ engils
öskraði vei,
hann frá heilögum
harma kórum
sveif, ok við engils
allþètt síðu
Lausnarans liðnum
at líkham gekk;
svo lèt saungr hans
ok Serafs lúðr:
Lengi mun hann mjök,
hinn mikli ok eini,
sem er eylífr,
við yðr deila,
þú þjóð, sem myrðtir
þennann Abel!
yðar, Kain, kyn
kennir ek vel!
þekkir ek þat glöggt,
hvörjir þèr eruð!
Mundi mót' yðr
til mín ei hrópa
yðar bróðurs blóð
beint í himin?
ei um heipt nè hefnd
hrópaði þat;
ó nei, ek nam
þat um náð hrópa,
allt í innstu nótt
ens allrahelgasta!
En þèr vilduð ei
árnaða náð;
því mun þrumu raust
þess sem hefnir,
feiknar háu frá
fjalli Golgata
allt í helvítis
afgrunn neðsta,
um aldir alda
öskra margar!
Svo verði valit
eptir vild yðar,
Meðalgaungumanns
morðíngjar, deyið!
en nú hlaut einnig
Elóæ sjálfs
hljóðfæri honum
úr hendi falla;
þar með þagnaði
þess ens stránga
Sjáanda saungr
sömuleiðis.
Heilögu holdi
horfðu þeir eptir,
þat frómir fluttu
fèlagar ofan
at gröf, sem gagnvart
Golgata lá
einstök aldinna
eika milli,
hagliga höggvin
í holum steini;
yfir op grafar
eitt var lagit
bísna mikit bjarg,
sem þeir burtveltu.
Ór Jóseps augu
útvöldu stað
á grafar gólfi
göfugu líki;
þá jós þannig út
þaunkum sínum
sál ens syrgjanda
sárliga klökk:

svo fèkk um síðir
hinn sí-þjakaði,
sem leið laungum kvöl
lífs ok dauða,
stað helgu höfði
til at hallast at!
Hèrnæst heilagann
hægt þeir lètu
líkham ens látna
lagðann í gröf;
aptr ok aptr
augum tárgum
niðrlögðum ná'
nú frá litu,
þar til þeir lyptu
þúngum steini,
ok með arma raun
á op grafar
hlúnk-dymmu hlassi
hleyptu niðr;
yfir liðit lík
Lausnara vors
nú þeir nið-dymma
nótt útbreiddu.
Þá er þannig var
þakinn dymmu
sá hinn sofnaði,
saung upphófu
hinir himnesku,
sem höfðu fylgt
liðnum Lávarði
til legstaðar.
I grímu grafar
gátu þeir sèð
eyma þegar af
upprisunnar,
sem móti morgni,
mildum roða;
sjálfum var þar sáð —
súngu kórar —
en án alls fúa
uppsprettr þú!
Naumast ert þú af,
eylífi Sonur!
helskugga hulinn,

þegar hèr vottast
umkríng þik aptr
uppruni lífs!
svo þaut nú þegar
þar í fjalli
sjálfu Golgata
gustr, sem var
æðstrar upprisu
undanfari!
Umkríng alblóðugt
altari gall
hljómr, sem hermdi
helga upprisu
hins mesta meðal
manna dauðra!
Tónið trómetur
ens tígnasta
á meðal engla,
sá er uppskera
mun, á hinn efsta
endrgjalds dag,
himin-hrópandans,
hjá ens æðsta
stillis-tróns straumi
stríð-sigrenda
þau en nýu nöfn
nær uppveifast!
Tjáið með tónum
tilkomandi
allskjótt upprisu
eylífs Sonar!
hvískrið þèr, hörpur,
enum hýrasta
ok mýksta móti
morgunroða,
ítrum ár-ljóma
upprisu hans,
sólfögrum svifum
sigrandans móti!
Fyrir oss hann er
ei' sofandi
í nótt nè myrkri
nokkrar ógnar!
heldr blundar hann
hægt fyrir oss

þrýði-plantaðra
í pálma skugga,
sem dauðann sjálfann
hefir sigraðann!
Harmið, harmið
eptir hann látinn,
ó þèr elsknðu
ástvinir hans,
dveljandi í dupti
enn nú dauðligir!
innann skamms yðar
augu munu
eflaust úthella
öðrum tárum,
Tárum, er vèr ei
úthellt getum,
vèr, sem yðar eymd
eigi, sem þèr,
fundum, nè felldum
fyrr eða síðar
bitr böls-tár
af blóðgu hjarta!
Kom nú kyrð á gröf
ok kríngum hana
á allar síður
útbreiddi sik;
hún var af öllum
eptir þetta
englum ok mönnum
yfirgefin.
Gjörvöll þagði þá
þik umhverfis
harpna raust ok harms,
þú hái Guðs,
hans ok manns milli
Meðalgángari!
er við alblóðugt
altari loks
hafðir hvíld fundit,
hörðu þrifinn
útaf ofríki
offur-dauða.
Snèri sèr nú við
sveininn Jóhannes,
við mey Maríu
mælandi svo:
nótt hann, móðir mín!
myrk nú hylr;
förum loksins frá
fjalli þessu!
ek mínu inni
vil þik at leiða.
Útaf allri sál —
ypparlig var
Meðalgaungumanns
móður sála —
með sjón bölbeygðri,
er blæddi tárum,
mælti María,
sína mjök laungu,
líkt sem liðins manns,
lyktandi þögn
þannig: þín móðir!
ok þú, minn sonur!
Há kann hèr eptir
himins unun
mèr verða', at var hann,
sem veitti þik;
mín sú síðasta
sèrhvörrar gleði
ei' jafnvel, at þú
elskuligasti
sveinn hans, ert sonur,
sem hann mèr gaf!
En þat er ángist,
eymd, hel ok gröf,
ok ógn allskonar
ofboðsligasta,
at hann ekki meir
er minn sonur!
enn varð hún orðlans
ok sik huldi.
Bliknaða í bragði
ok bölmæddasta
öllum mæðrum af
ofanleiddi
sonur Golgata
gefinn á hæð
nú við mund með sèr
móður sína.

Afdeilt frá öðrum,
með eikum pálma
alþèttum umgirðt,
ok í skugga
musterisins mjök
múrum nærri
Jerúsalems lá
Jóhannis hús,
allflestum ókenndt,
þar átti heima
kærasti kjörsveinn
Kenniföðurs
hins góðgjarnasta
ok guðdómliga.
Þángat hafði hann
hrygðarfulla
Maríu með sèr
frá morð-krossi;
sjálfr hnèg ok hann
hartnær af sorg
ok eymdar ángri
einnig niðr.
Hvörn sem hann leit,
nær af hæð gengu,
enna tvistu tólf
eða tíu sjö,
ok af hóp hinna
helgu kvenna,
bað hann í hús sitt
hjartanliga
mjök mæddrar vitja
móður sinnar,
ok græða', ef gæti,
hið geysi-djúpa
svíða-sár hennar,
er í sál bæri;
At sönnu eigi
til alls ok fulls
mundi þat megna
maðr nokkr;
Guð einn gæti þat!
Gabriel kann
þat vel at vinna,
en vèr ekki!
Ef Guð hann aptr
öðru sinni,
hún svo hans göfgun
hefji at nýu,
sármæddri sendir,
svo hennar önd
gleðjist í Guði,
sínum græðara,
enn á ný
sem áðr fyrri!
Eigi leið nú lángt
uns lærisveinar
söfnuðust saman
í sögðu húsi,
sem ok sumir
hinna sjötíu,
þarmeð heill hópr
helgra kvenna.
Hèr gekk sem hulit
at húsabaki,
frá þeim sem fyri
framan stóðu,
enn þá annat hús
ofan til múrs,
sem var í salr
samkomunnar;
Hafði salr sá
sèr yfir lopt,
byggt með þeim máta,
at múrs hæð náði,
ok gaf augna sjón
um at horfa
bæði víðann váng
ok vel auðgann.
Sýng, minn saungr!
um hin söltu tár
yfir elskuðum
elskendanna,
um klökk klögumál
þess ens kveinanda
vinskapar, vegna
vinar dauða!
Eins ok Israels
augna straumar
ofan yfir serk
alblóðugann

Jóseps, sem var jóð
ennar jörðuðu
Rakelar, runnu,
renni mín ljóð
tær ok full trúrrar
tilfinníngar,
ok full einfeldnis
öll sèu þau!
Loks með lángsemi,
lúð af harmi,
ok með örðugum
andardrætti
náði fyrrnefndu
næsta húsi
María móðir
musterit við,
gekk hún svo í sal
samkomunnar,
Hvar enn heilaga,
sem hún fæddi,
ok nú nýliga
var nár orðinn,
hún áðr óhreld
opt hafði sèð,
ok fast frávendtum
fagnaðar tárum
opt sik umvafit
andlits blæu.
Þegar svanni sá
sæti þau auð,
já, auð æ síðan,
þar áðr tíðum
setið hafði hann,
himneskar ræður
frammfært, ok henni
fagra blessun,
grèt hún hástöfum,
hnèg þar niðr,
ok hneigði ennit
á eitt af þeim.
Svo fann hana hin
hrelda liggja
María, mærin
frá Magdala;
svo móðir sona
Zebedei;
nú varð nærstaddr
Natanael,
ok hana eins fann
á sik komna;
Unz hún um síðir
eptirlèt þat
Magdalenu með
móður Jóhannis,
at þær upp hana
aptr reistu,
sat hún þá sveipuð
svo sem við kross;
en þær eins ok hún
stóðu orðlausar.
Síðan kom í sal
Símon Pètr,
ok, sem hann sæi
hjá sjálfum Jesú
mædda móður hans
Maríu stadda,
hástöfum grèt hann
hrópandi svo:
hann, enn heilagi,
hann er grafinn!
Ek vona, vona
vissuliga
svo góðs til Guðs,
at grafnir verðum
allir innann skamms
umhverfis hann!
Jósep skjótt ok skírt
skal því heita.
Með himin-háum
heilögum eiði
sverja mun hann mèr,
mik við hans stein,
ná' hans hið næsta
niðr at leggja!
María mælti:
ok mik í steini!
Leiddust tveir ok tveir
tengdum höndum:
komu samt í sal
Símon frá Kanan

meðr Matteo,
mætr Filippus
ok bur Alfei
eldri Jakob,
en inn Lebbeus
einnsamall gekk.
Mjök svo at mæla
var í mun honum,
en í hinnsta horn,
þar húm var mest
salsins, sorgfullur
settist niðr
hann, ok höfuð sitt
huldi skýlu.
Jakob, þrumu jóð
jafnframt kominn,
svo nefndr sonur
Zebedei,
til himins hendur
hóf ok augu,
hrópandi: hann er,
hann er dáinn!
Öldúngis ekkert
er at vísu
mannanna mesti
mikil-leikr,
eins sá hinn sanni,
sem at glansa
virðir vettugi,
en veru ok raun
at eins ástunðar,
ei er neytr!
Því honum hafa
hrekkvísir menn,
við tjón eitt tamir,
ok týrannar
illgjarnir orðit
yfirsterkari!
svo mælti sonur
Zebedei,
gekk svo út aptr,
ok undir pálma
harla tvistr trè
tók sè kælu.
Svo bar at bráðum
Bartolomeum,
ok honum ásamt
Andreas kom;
kom þá Kleofas,
kom Mattías,
svo at síðustu
kemr Semíða;
Hafði hvör þeirra
huggun aungva;
allir voru af eymd
yfirkomnir;
þegar sèrhvör sá
sorg hins annars
orðlausar urðu
allra varir,
einn heyrðist hljóma
harma grátr
ok þó alldymmt
um eins dymmann sal.
Mundi María
Magdalena
í honum hafa,
þó harla spart,
gjört með lík-lampa
litla birtu;
svo lá munni með
máli firrtum
Abel í dapri
altaris skímu;
enginn æpti þar
utan hans blóð.
Nú hvurfu híngat
heilagar kvinnur,
sem báru lík-lín
ok ljúf smyrsli,
sómafullt salve
sætt ilmanda,
huguð til heiðurs
honum sem dó.
Svifu einnig inn
ódauðligir,
lofligir englar
lærisveinanna,
ásamt annara
ángri spenntra;

augat alskygna
einniginn þitt,
hvörs þeir hel grètu,
þú it hjartnæma
aumkunar auga
ástarfulla
sendir sjón þína
samfundi þeim!
Máttkur Maríu
Magdalenu
engill önd hennar
upphafit fèkk
svo hátt úr sárrar
sorgar djúpi,
at kveða kunni
kveinstaf þenna;
svo kvað hún sem hlýdt
hafði Jesú:
Hve mjök ólíkt er
ástand vort nú!
ó hvað umbreyttr
er vor hagr,
með því Hann —: móðir!
mín er sú bón,
at þú ei, sem hann,
útaf deyir!
svo at ei vèr öll
ángurs vegna
til grunna gaungum
gjörsamliga!
Nú finn ek fyrst til
ok fæ numit,
af því at æpa,
sem orsakaði,
at sá, borinn barn
Betlehem var,
eittsinn ángraðist
yfir þèr næsta,
Jerúsalem, já
jós út tárum;
Yfir ekkjunni,
sem er einsömul,
hvörrð há frú var
heiðíngja meðal,
ok dávæn drottníng
dýrra landa!
Smáir vorum vèr,
ok í vanefna
lítilmótligu
lifðum dupti;
lukkusamliga
lifðum vèr þó,
því hann, sem hèr nú
hörmum látinn,
góðgjarn maðr var
ok guðdómligr!
En, æ! hvílíkir
erum vèr nú?
í hvílík ókjör
er oss hrundit?
ok, æ! hvað aumir
eptir þetta
verða munum vèr?
hvörsu vesælar
munu vorar veins
verða nætur?
O at eigi þær
eymda nætur
vorar mættu mjök
margar verða!
ok at innann skamms
yfir oss kæmi
sú hin síðasta
svöfns eylífa,
þess blíða blunds
í betra rúmi,
enn vor er þessi
armæðu dvöl!
Nú vaða vorir
í vondsku drambi
óvinir uppi,
ok ausa spotti
yfir þá aumu,
sem í einfeldni
gjarnann göfguðu
hinn guðdómliga.
Hæddu þeir ok hann,
ok honum gáfu,
nær hátt hrópaði
í heitum þorsta,

eigi gall at eins,
heldr illa dregg
hróps ok háðúngar
í hans pínu!
Dyrsti dómari!
drykkjaðu þá,
ó þú sem öllum
endrgeldr!
með beiskum bikar
barmafullum
hörðustu hefndar,
svo hrynji um koll!
Lát þá hann heilann
hljóta at drekka
nauðuga niðr
í neðstu dregg
ok drukkna deya!
drósin þagnar.
Magdalenu mædd
móðir Jesú
gegndi grátandi,
gat þó varla
sundrslitin orð
fyri sorg talat:
gef í þess vald þú
þat, sem dæmir,
lát hann um þat einn
öllu ráða!'
Hvört hrópað' eigi
af háum krossi
minn særði Sonur
í sínu blóði:
ei þekkja þessir
hvað þeir vinna;
minn Faðir, mönnum
miskuna þeim!
Nú greip undrun ok
ósegjanlig
hrygð allra hjörtu
hjáverenda;
hófst þar upp hardt stríð
hæðsta milli
fagnaðar fljótt
ok feikna mestu
sinnis sárinda,
sorgar ok gráts.
Sorgin sigraði,
svo at nýu,
varð nú sál í senn
sèrhvörs at nótt!
lundsár Lebbeus
lèt þá svarat:
Drottinn dómari!
Drottinn Faðir!
já mönnum mildr
miskuna þeim!
en líkna' oss líka,
lát oss deya!
Hvað á fold framar
fáum vèr gjört?
ó hvað erum vèr
án hins dána
heyr þú, Faðir hans!
hann oss sagði
eittsinn at þínu
allmargar víst
vistar-verur
væru í húsi!
Við þröskuld þá
í þínu húsi
ó, lát oss liggja,
en lengr eigi
í eymdar inni
umveltast hèr!
ó, kom engi til,
enginn vogi,
enginn hafi hug
til at hugga mik.
Aungva þekkir ek
aðra huggun,
enn þá einúngis,
at ek deyi;
dauðann elskar ek,
engi getr
sefat sorg mína,
nema sá at eins,
dauðans dymma nafn
sem duna lætr
opt ok einart
í eyrum mínum!

þat er mèr indællt
ástsemdar kall
blóma-tíma til,
tíða saungr
merkiligr mjök,
sem í musteri!
aungvar lífs óskir
ávarpi mik!
Sè vort sætasta
samtals efni
þángat för þeirra,
sem þegar hafa
fengit farsælann
flutníng hèðan;
um legstað, líksaung
ok lagða mold
ofan yfir mold
sè vor orðræða!
Líkt sem lèttfærir
lángferða menn
verum vegfúsir,
ok vorn tökum,
búnir strax af stað,
staf oss í hönd!
elskar ek eigi
at eins mik sjálfann;
Yðr eins ok mik
hefir ek kæra,
ok yfir yðr
eina ok sömu
blessun lagða læt,
sem ek lengst orða
yðr, ástvinir,
umbað: deyið!
Kefas kallaði,
ok kvað: deya!
já, já, at deya!
ok í jörð vera
oss grafar-gjörnum
gott væri nú!
lát, ó Lávarðr
líknsamasti!
hvörn af oss öðrum
hið allrafyrsta
tilbúa traustar
tjaldbúðir þær!
Varla var þat mælt,
áðr vèk í sal
Tómas tvíburi
tregafullur;
stöðvuðu stig
um stundarsakir
húss-þröskuldi hjá
hvarflandi fætur.
Hvílík sorgar sjón
sèr innþrengði
brátt í bíðandans
bölmædda sál!
mæðu manneskjur
meinlauss hugar
ok frómleiks fullar,
sem fáir voru,
honum hugljúfar,
horfnar vinum,
Hjálpara á himnum,
hjálpara' á jörð
sínum sviptar nú,
sjálfum Jesú,
í þrauta þrúgun
þessari midt
orðnar einmana
ok yfirgefnar!
Grúalig gjörðist
gröf fyrir honum
rökkur-salr sá,
ok svipir dauðra
þeir sem þar grètu
með þögn djúpri
umkríng hann
á allar síður.
Ef þèr eruð þeir
enn, sem heyrðuð
hljóma Hósanna
hans innreiðar,
hve frestið þèr þá
því, at deya,
síst að sjón einni,
heldr sannri raun?
hví þannig þessu
þèr svo lengi

í döpru dveljið
dauða stríði?
Ek finn mèr einnig
atfærast hel,
ok meinti mundi
meðal yðar
þegar finna þá
því at heppnari,
sem grafit gætum
gengna' af heimi!
Nú er nár í gröf
niðrlagðr,
sá er lög sem láð
lífandi gekk,
ok lèt Lazarum
til lífs vakinn,
ok þik, sem þarna
svo þúngt grætr,
Semíða! sjálfann
sömuleiðis!
Naumast hafði nú
neyðar þulu
tèðr tvíburi
talat þessa,
þá hann, sem hinir,
undir harms þúnga
at einu sæti
aflvana hnèg.

Inn með alvöru
ángursfullri
þá gekk á þenna
þegjanda fund
öldúngr Jósep
frá Arimatea,
segjandi svo
til samkomunnar:
Þèr Krists mjök mæddu
ok mínir bræður!
híngat meðr mèr
minn vinr kom
Nikodemus nú,
ok í nánd bíðr
með titrun tvistr,
uns tilkynnt verðr,
hvört unnt sè orðlofs
inn at gánga?
Hann ber — hvað ber
hann?
hinir spurðu —
æ, Jósep, inn oss,
æ! hvað hann ber!
birt oss hvað hann ber,
bezti maðr!
hann þrá-spurn þeirra
þannig gegndi:
Ek sèr at þegar
innanbrjósts þèr
helzt til mikinn harm
hafit at bera;
hve miklu meiri
mundi hann verða!
nei, tilbaka nú
Nikodemus
hlýtr at horfa
hèðan á burt!
Hvað ber, hvað ber hann?
bezti Jósep!
herm oss, hvað þat er?
hinir spurðu;
hann ansar aptr:
efalaust þèr
þakka munuð mèr,
at móti honum
geng ek brátt ok bið,
at hann burtvíki!
hann ber blóðuga
böls kórónu!
Ber hann blóðuga
böls kórónu?
með hrygð ok harmi
hrópaði móðir;
kallit meðr makt
inní merg ok bein
þrengði sèr þeirra,
sem þar saman
eins ok steinn stirðir
staddir voru!
Varla hafði hún
til himins upp

af hreldu hjarta
hrópat þetta,
áðr enn inngekk
andláts vottr,
hafandi í hendi
höfuð-krans þann.
Hún sèr haldanda
úr höndum rikkti,
aftók andliti,
enn meir enn fyrr
bliknuðu, blæu,
ok breiddi hana
döpur deyðanda
yfir djásn þetta!
Hún gnúði hendur,
hristist ok skalf,
ok fèll nú aptr
enn til jarðar;
þeir sem máttu mest,
móður studdu,
uns þeir eins fèllu
allir sem hún!
þagna nú, því at
þú ei megnar,
rauna-raddaðri
raul af hörpu,
lotulægsta þú
líkt at æpa -
móður fyrsta mál
máttvana ok stamt!
Er hún stóð uppreist
enn at nýu,
horfði til himins
eptir hjálp þaðann,
arma með ángist
útbreiðandi;
af hæð til hennar
hýrum vendi
aðstoðar augum
elskandi sonur,
ok móður unun
ágæta bjó.
En hún var hulin
henni at sinni,
bleik, sem brátt væri
at bana komin,
harmaklögun hèldt
hún framm þannig:
krans þann eittsinn enn
aptr at sjá?
hvarfyrir hann þèr
híngað báruð?
Lengi leit ek hann
löðra af blóði
á höfði honum,
meðan hann kvaldist!
en hann, sem hæðstum
á himni býr,
sinn á móti mèr
mjök svo spenntann
hræðiligann hardt
hefir boga!
Dauðlig hefir hann
hvervetna þar,
æ, vei mèr aumri!
álagt skeyti;
á mik miðar hann,
ok mèr til skaða
býr hann brennandi
böl-ör sína!
Er til nokkr ein
undir himni
meðal mæðranna,
mun hafa fædt
nokkr sú er sinn
son leit deya,
sem Syni mínum
enum sannhelga
á trè líflátnum
líkr væri?
Hún svo böli beygð
barmaði sèr;
ljúflynd María
Lazari systir
af sviða-sárum
sjúkdómi lá,
nærri komin nú
nástund sinni.
Klárt gaf til kynna
kaldr sveiti

dauðans komu drós,
ok dapurt hjarta
í staddt erfiði,
fyrir-atsókn hels
at lokum liðit
líf at verja.
Grúfði þá þegar
þúngr dvali
ofan at henni,
sem undanfari
er hins eylífa
allsherjar svöfns
í fáláts fúa
fornu skauti.
Nú hóf upp höfuð
hún úr djúpum
þeim, sem þrykkt hafði
þessi dvali
henni höfgur í,
ok harla döprum
sjónar svifum með
sorgfull ok þreytt
leita mundi mjök
Martæ augna.
Þau voru þornuð
í þráfeld tár
út af óps veini
yfrit laungu;
þá mælti þannig
hin þúngt haldna
dauðvona drós
við dapra systur:
Þagða'k, systir! svo,
en síst má lengr,
ek er af öllum
yfirgefin!
Lazarum líka
lít ek ekki,
nè Natanael,
nú þegar dey;
æ, ek ásamt þeim
áðr lifði,
en nú án þeirra
á at deya!
Marta mælti þá:
menn trúfasta
ásaka þú ei'
ófyrisynju;
útá einhvörja
af eyðimörkum
hefir góðgjarn
ok guðdómligr
látit þá leidda
lærifaðir,
svo þeir sjái,
hvörnig seðr hann
hina húngruðu
ok hressir þreytta!
María mælti:
mundi nokkuð
ek þá ásaka?
hvað ei vildi;
eða hefir ek
einusinni
mönnum þeim, Marta!
um mína daga,
er ek elska mjök,
ásökun veitt?
Hafi þat mik hendt,
míuir hjartkæru!
gefit gleymt ok kvitt,
ok gjörvallt annat,
er ek við yðr
hefir afbrotið,
hvört ek vera veit,
eða veit ekki!
sèrhvað þat, er sik
sýnir mèr nú,
sveipar sálin
í sinnis þínga!
Gjör þik gruhlandi
geðs sturlun frá —
Marta mælti svo —
María! lausa,
með hvörri þú þik
þannig kvelr!
kemr nokkuð ný
nótt sú aptr,
sem þik um þína,
þess á milli

yndællri æfi,
umvafði sorg?
heimsækir hún þik
við hel at nýu?
Nefn eigi nótt
ena nákvæmu
vors Guðs vegleiðslu
í veröldinni —
mælti María —
yfir manninum!
Ek sár-bið, systir!
fyri sakir þess,
er oss alla mun
eittsinn dæma,
sem ok safnar mèr
senn til feðra,
varast þú, at við
vegleiðslu hans
brúkir nætur nafn
nokkurn tíma!
Hafi ek hlotið
hardt at líða,
hefir ek þá ei'
ok svo notið
mjök margrar gleði?
hafa mèr eigi
hèr verit veittir
vinir, sem þú?
Hefir ek eigi
um æfiskeið mitt
lifat ljóss-engla
lystisemdir,
upptendruð orðit
af unun himins,
götu gángandi
sem at gröf liggr,
sèð kærann Kristum,
ok hans kraptaverk?
heyrt ok einnig hans
háleita speki?
Lát mik þýdt þakka
þrautir mínar,
einnig alla ró,
sem í þeim fann!
sèrhvörn svala-drykk,
sem í þorsta,
sèrhvört skugga skjól,
sem í skeranda
hrellíngar hita
mik hresta fèkk!
En yfir allt framm
at ek hefi
mesta manna vin
Messíam sèð,
Jesum, jóð gefinn,
ok í jarðteikna
voldugann verkum,
sem vekr dauða!
Gakk frá mèr, Marta!
ok mínu dupti
lát, því tæp er tíð,
tilreidda gröf!
hvar lík Lazarí
lá míns bróðurs,
þar vil ek einnig
önduð sofa!
Hvar lík Lazarí
lá, at sofa? —
Marta svarar svo
systur orðum —
ok at upprísa
við ávarp hans,
sem af dauðs dvala
dána vekr!
Hve dátt dillandi
draumar vonar! —
mælti María —
þú Marta sæl!
gakk ok gröf mína
gjör tilreiða!
gakk, ein með Guði
ek girnist vera!
Ek hins heilaga
hjá sat fótum,
þá hann þýðr mèr
þetta kenndi:
eins er nóg nauðsýn!
nú er hún þess,
at sè einsaman
ek með Guði!

vil ek nú velja
hið vænnsta ok bezta
heilla hlutskipti,
til handa mèr!
Mun þik, María! —
Marta sagði —
ek í andláti
yfirgefa?
hvörgi fer ek fet
frá þèr um sinn!
vertu vel til geðs,
ek em veitandi
at eins líkamligs
liðsinnis þèr;
En þú einsömul
ert með Guði!
Amen! Abrahams
eylífr Guð,
ok Guð Isaaks,
ok Guð Jakobs,
sjálfr sè með þèr
hinn sanni ok eini!
Hin sjúka sagði:
sittu þá kyrr!
sá einn uppfyllir
alla himna
æ sè meðr mèr,
sá hinn máttugi,
sem veitt lèt verða
veldis boð þetta:
ó komið aptr,
þèr Adams börn!
Jesú, Jesú!
ó þú Jehóva!
einn Guð Abrahams,
Isaaks, Jakobs!
svo mælti hin sjúka,
ok síðan heita
grátbeiðni gjörði
í grunni sálar
til hans sem synd,
ok sekt uppgefr:
Bænheyr mik, bænheyr,
hún bað þannig —
ok við auma mik
ei gakk í dóm!
hvör mundi mega
manna lifandi,
vildir þrátta þú,
fyri þèr standast?
Dreip á, Drottinn! ró
deyanda hjarta,
ok fær friðandi
fullvissu sál
þessarar þreyttu
um þitt hjálpræði!
ó, þú Herra hels!
hrind mèr eigi
án líknar útfrá
augliti þínu!
Aptr, ó Faðir!
endrnær mik;
send mèr nú á ný
náðar huggun!
fagnaðarfullur
friðar andi
þinn mik varðveiti
ok viðhaldi mèr!
Þú sem bölgbeygðann
bænheyrðir Job,
þá hann þraut spenntr
þreytti, stríddi,
bar sik at sem bezt,
ok brauzt at trúa,
ok þó ei trúði,
at þú, Faðir!
mundir hann heyra;
hjálpa þú mèr,
ok gef at gætur
grátbeiðni minni!
Svo bað hin sjúka,
ok síðan aptr
mælti við Martam:
meinar þú, systir!
at nú nauðstaddri
náð um ok hjálp
minn Jesús muni
fyri mèr biðja?
Þú veizt þó, at hann
þá felldi tár,

þar sem Lazars lík
lá nær komum,
mundi hann þá mèr
eigi miskuna?
kunnum vèr án Krists
komast til hans
sem hann útsendi?
seg mèr, kæra!
At ek nýa náð
nú meðtekit
fái fyri hans
forþènustu,
þetta var sú von,
sem mik viðhresti,
þá mik, sem þruma,
þanki sá greip:
sèrhvör sá maðr,
segir Drottinn,
sem brýtr boð mín,
veri bölvaðr,
ok sá ei fyllir
allt hvað ek bauð!
Væri nærri nú
Natanael —
mælti Marta þá —
ok minn bróðir,
þeir mundu þèr víst
þetta segja;
ek veit þat eina,
þú yfirgefna!
fastri fullvissu,
at fyri þèr
með blíðu brjósti
biðr Jesús!
María mælti:
mun ek vera
einmana, eðr
yfirgefin?
en hinn eylífi,
sem er allstaðar,
Herra lífs ok hels,
er hjá mèr þó,
ok hinn heilagi
Hjálpari í Júða
mælir fyri mik
miskunar bón!
Sofnaði svanni
at sögðu þessu;
þúngr dvala-dúr
datt yfir hana;
með trúar taki,
en þó titranda,
hèldt sèr þá hjarta
hennar við Guð!
Marta, svo sæi
systur blunda,
hóf sik úr sæti,
sæng viðr stóð,
ok nær því niðri
nú hèldt anda,
því varast vildi
at hún vaknaði;
Hvörri hún unni
heitara enn sèr,
ok sem hún sá nú
til sinna feðra
frá sèr feikna lángt
fara stigu
þess ens dymma dals
dauðans skugga,
ok yfirgefa
einmana sik!
Nú sem neyð ok hrygð
negg um streymdi
fèllu fáein tár
á fljóðs vánga;
gafst þó ei gángrúm
grátandi raust;
hún lèt enn aptrat
andardrætti.
Hún svo í húsi
hálfdymmu stóð,
þánkadöpur þar
ok þegjandi;
því næsta þykkvar
þoku skýlur
fólu farandi
fylgju nætur,
loga þann, sem þrátt,
þegar nú fyrst

morgnn fetar framm
til fulls slöknar.
Líkt sem lán-gefinn
lángferðamaðr,
þeim hels tilhugsun
helfró gefr,
sá í svelgjandi,
svölunarlaus,
örmæddr arkar
eyðimörku,
nær kærri kælu
við klett nokkurn;
I honum hittir
hann eina gröf,
ok mynd ens dána
yfir henni,
þess sem þar liggr,
ok við þetta lík
stendr starandi
stólpi marmara
annar, sá eð er
ástvinr hins.
Litlu meiri má
móti taka
hellir í hol sitt
hrygðar degi;
horfir harmsfullur
hans vegna' er dó,
ok hins einnig,
sem eptirlifir,
atkomandinn einn
á þá báða.
Eins fann engill þinn
upp yfir þèr,
María! Martam
mædda standa,
nær at sóttar-sæng
sveif hann þinni;
við fætur, fegurð
fölskvaðri með,
deyandi drósar
dvaldi þessi,
einn af æsku lýð
upphæðanna,
Fegurð englum er
úthlutuð þeim,
sem í sinni röð
sálum manna
á meðal anda
ern næstir;
þá er þar yfir
þeim gefin dýrð,
hvörra hærri stètt
heitir trónar.
þó er þeirra dýrð
hjá þess, er stèg
til hægri handar
hæðstum Föður,
ekkert annat
enn einber skuggi.
O þú, með þrennum
þúsundfaldrar
dýrðar sigri svo
á hinn sælasta
himnanna himin
hafinn sem ert,
gjörvalls gramr,
þar sem Guð drottnar;
O þú, sem ætíð
árnar mèr góðs!
lát mik, lát ótal
leystra skara,
bræðra mikla mergð
mesta ok flesta
deya dauða
Drottins rèttlátra!
þá megu mestar
mótlætíngar,
þær hinar hinnstu
af hörðum reynslum,
eðr fyriframm
fenginn smekkr
af hásæld himins
hlaðast á oss;
Hvað sem helzt líðr
um hagi vora,
lát, ó fórnfærði
Friðþægjari!
lát þó oss at eins
endalok við

æfi-rof reyna
enna rèttlátu!
Beið við brúðar
frá Betanía
af kránkleik kramda
Kebar fætur;
finnur hann fölskvast
fegurðar sinnar
glóandi glansa
í glýu rökkurs;
rann hinn rauðleiti
rósar morgun
af hans andliti,
ok augna geislar.
Nú sigu niðr,
sem nætur skuggi,
hans vökru vængir,
án vaktra tóna;
án þess at andat
af sèr lètu
ilm hins eylífa
ununar vors!
ei' meir af ítrum
yfirstreymdir
himins heiðbláma,
hættu þeir nú
gull-daggar dropum
at dreifa niðr.
Hann af höfði sèr
himneskann tók
krans, sem lánga leið
ljós gaf áðr,
gátu honum hans,
hrygðar vegna,
hnígandi hendur
haldit varla!
Hann vissi vera
vífi at hjálpa
sinn tíma síst,
fyrr enn síðustu
andarslitrum í,
nær yfir hennar
brostnu brjóst-epli
bæðist fyrir
Lazarus loks,
ok lærisveinn Elias
ásamt með Marta
mjök sárt grètu
nábeð nærstödd
ok Natanael.
Lazarus hèldt hjá
hinum öðrum
sik nú í Salem
samankominn;
við hins líflátna
lèt hann þannig
til orða tekið
tvista móður:
Sjá, mjök er miðju,
María! skeiði
nærri komit nú
næturinnar;
en þegar er ek
upp híngat gekk
burt frá bygð minni
í Betanía,
sýndist systir mín
af sjúkdómi
allnálæg orðin
andláti sínu.
Æ! væri at eins hún
ekki dáin!
ek vil fara fljótt
ok fljóðs vitja,
at ek enn hana
einusinni
fái litit lík
eða lifandi.
Hafið þèr henni
harms fregn eigi
greint frá Golgata,
sem gjörðist þar,
kann hún, enn þótt aum,
enn at hjara;
vissi víf hana
áðr viðskilr,
hve mundi henni
hèr við bregða?
Ok ef hún einhvörn,
áðr enn deyr,

litl Lávarðar
lærisveina
góðs ok guðdómligs,
gæfist henni,
ó hvílík, andláts
endrnæríng?
Uppstóð ok inntí,
ek fylgi þèr!
ljúfr Lebbeus
við Lazarum;
en hann umfaðmar
í hinu sama
Natanael nú,
ok næsta blíðr
mælti: kom, kærra
kærasti þú!
ó hve þýdt þakkar
þèr mitt hjarta!
Strax þeir stóðu nú
af stað búnir
frá hins frammliðna
frómri móðir;
lèt þá svo ljúfr
Lazarus mælt:
ó hans mæt móðir!
má ek nú eigi
nafn þat nefna,
sem nefndu englar;
því hvört sinn þegar
þat vèr nefnum,
blæða brár þínar
beiskum tárum.
Hann enn sami, sem
sèð hefir öll
tár þín, ok talit,
sá hinn trúfasti
Faðir þess, sem þeir
í þró grófu,
hvör viljat hefir
at hann dæi,
sè með þèr, móðir!
með þèr sè Guð!
Hann þá heyrðir svo
í hæðir biðja:
Faðir! þèr fel ek
fús mína sál!
hún þèr í hendur
heitt sè falin!
falin sè þín sál
sömuleiðis
í hönd ens hæðsta!
heil sèrt ok lif!
Hann gekk frá henni
hröðum fetum,
hinir eins hratt tveir
honum fylgdu;
allir undir þögn
alvörufullri,
óvissunnar af
ásamt leiddir
hendi, sem hristist,
at húsi því,
hvar drós lá dygðug
fyrir dauðanum,
grafar forgarði,
gengu þeir nú.
Asamt með Marta
menn þeir stóðu
sæng hinnar sjúku
sorgfullir hjá,
þá er höfði hún
frá höfgum dvala
lèmagna lypti-
loks ok mælti:
þakkir sèu þèr,
þú sem gefr
dauða líkt sem líf,
at ek lít komna
þá sem ek þrái,
ok í þeirra fylgð
ljúfann Lebbeum,
lærisveinn Jesú!
Lazarus við víf
vakuat mælti:
ó hvörnig hefir,
hjartkæra systir!
hann sem lènar lýð
líf ok dauða,
híngat til hjálpat
ok hjúkrat þèr?

Með náð ok mildi —
María sagði —
því, sjá þú, sèrhvað,
sem hann gjörir
mesta miskun er
ok meðaumkun,
hvörsu sem þat sárt
sýnist þó opt,
ok fullt ferligra
feikna kvala!
O hvað mitt hjarta
hefir liðit!
loks ek lykta nú
líf með dauða!
æ! hvar er Jesús,
ástkær bróðir?
hann veit hvað ek líð;
hefir þessi
bróðir mildi minn
fyri mèr beðit?
Megu mèr vèra,
María! þínar
líðanir ljósar —
Lazarus mælti —
þá hin þykkva nótt
þik umkríngir;
en lát í ljósi
hvað líðr nú?
Eigi þjáumst ek —
ansaði hún —
fyri fæln mynd
forrotnunar,
ei heldr ángurs
umhugsun þess,
at ek við yðr
á at skilja;
þrautin er þessi,
sem ek þjáumst af,
at sú efasemd
iðugliga
tærir sál mína
sútar benjum
æ dýpri ok dýpri
dauðliga hrellda:
hvört sá á Hóreb
hann sè minn Guð?
Æ! birt mèr, bróðir!
hve brá þèr við,
þegar þú heyrðir
þèr í hjarta
deyanda duna
dóms reið þessa:
sèrhvör, sem eigi
sèrhvört fyllir
lögmáls-bókar boð,
veri bölvaðr?
Mundi minn Jesús
fyri mèr biðja?
æ! ef mèr aumri
árnaði góðs
hann, sem er sjálfr
sann-rèttlátr;
sjá, ek gjarna geng
þá glöð hèðan
í hinn dapra dal
dymmrar nætur,
at ek leggist í
eylífann svöfn.
Greinið, gætendr!
er gríma jarðar
nær því úti nú?
er nótt á förum?
Marta! þeir þegja,
þegir einnig
nú hèr nærstaddr
Natanael!
Mèr ei hefir hann
hjálpar beðit;
svo gakk þá gegnum
gjörsamliga,
sverð Guðs, sál mína,
sjá, hèr er ek;
verði þinn vilji!
vissuliga
er hann, ó Drottinn!
æ hinn bezti!
Lazarus lypti
lögðum saman
hátt upp höndum,
ok hèr næst mælti:

sem blíð í brjósti
um barn sitt kennir
ein mjúklynd móðir,
miskunar þú,
ó El Skaddai!
oss af hjarta;
Ok þótt aumki sik
eigi móðir
yfir afkvæmit
af sèr borit,
miskunar þik þó
þú yfir oss:
þvíat þú ert Guð,
ok þínum höndum
af þèr erum vèr
íteiknaðir!
Ut Lazarus orð
æpti þessi;
hún þá upp höfði
hnignu lypti;
herm mèr, sagði hún,
himneski bróðir!
hvört er sem heldr
heyrir mèr til:
sú hin sárbeitta
Sínai bölvun,
eðr mildi-mest
móður elska?
O! væri elskan
þat mik áhrærir,
hátt vilda'k heppinn
hrósa sigri,
frammbera fagrann
fagnaðar saung,
ok heitar hefja
hjartans þakkir
æðstum útbýtir
eylífrar náðar,
þeim er æ aumkar
eigi sem menn,
sem er sjálfr Guð,
ok svo líknar!
En hve verð ek viss,
at hann vilji mèr
móður elsku með
miskun sýna?
hefir sinni svo,
seg mèr, bróðir!
mildiríkri raust
sá hinn rèttláti
í bænum blíðkat
bistaun huga
ens dýrsta Drottins
dómara míns?
Mun hann nokkuð nú
niðr til mín
meðr viðviknun
virðast líta,
iðrum sínum í
innstu hrærðr,
ok með móður hrygð
enni megnustu,
augum fullum af
ósegjanligri
innvortis óró
aðstoð ok hjálp?
Ek ligg eymdarfull,
æpi, veina,
ek hef til himins
hendur með sorg,
eptir hjálp hrópa,
en hvör sá muni,
sem mèr sýnir björg,
sèr ek ekki!
ei' hún sem ól mik,
aumkunarsami!
Nú bað nauðþrengðr
Natanael:
heyr, sèrtu, Herra!
hennar móðir,
æ! unn at líta
andlit þitt henni
fullt af innvortis
óró ok hjálp!
Drottinn! dvel eigi,
nè dylst lengr!
Líð þú ljúfliga —
Lazarus mælti —
þjáníngar þínar,
þær svo nærri

tengjast takmörkum
ennar tignustu
ok fremdarfyllstu
fullkomnunar.
O! ef þekktir þú,
hvílikt þollyndis
dásamligt dæmi,
ok í Drottins vald
á sèr algjörðrar
ofurgjafar
oss skín í augum,
ok eptir hvörjum
í himna himin
horfum vèr nú!
Ek er upprisinn,
ok æskti gjarnann
með þèr, mín systir!
at mega sofna;
kæmi kall dauðans
ok krefðist mín,
fegra mundi mèr
musteris saungvum,
þegar þar hljómar
þakklætisfullra
hátíðar-halda
Halelúja!
Fast knýr fögnuðr
felmtri blandinn —
mælti María —
mèr á hjarta!
hvað er þat undra,
ó minn bróðir!
sem þú sagðir mèr?
seg mèr þat gjör!
Hèr til svarar hann:
hefir eigi
Guð sjálfr gjört það?
greina vil ek
vífi hvað viðbar,
vinir góðir!
látum oss eigi
undrunarverða
dylja dumba-þögn
Drottins vegn,
en þótt oss sýnist
ógnarligir!
María, manna
hinn mesti ok bezti
guðdóms vinr vor
vegsemd prýddr,
hann, sem hjálpaði
hvörjum í neyð,
kær Jesús Kristr,
kvittari synda,
liðna lífgandi,
lèzt á krossi;
með þróttkum þor-hug
ok þolinmæði
líkt sem engils eins
útaf dó hann!
Dó — svo drafaði
dróa — á krossi! —
sortnaði svanna
fyri sjónum þá;
með stami tvítók
hún nú titrandi:
dó hinn dýrmæti,
dó á krossi?
í því hnèg höfuð
hennar niðr.
Hann, ó þèr englar,
er nú dáinn?
hennar hvarma steinn
hrökk-á krossi?
til fulls framliðinn,
ei framar lífs?
Þú sem þat lèzt ske
þitt ek prísa,
ek dýrka Drottinn,
þitt dýrðligt nafn,
fyrir allt hvað ok
útstaðit hefi,
ok fylgi fegin
þínum frammliðna!
Nú misti mál sitt
máttvana túnga,
dreifði dauf bleikja
með dauða kirð
sèr allt í einu
um andlit hennar;

Lazarus lagði
lófa sinn á
ís-kaldann ennis
andláts-sveita.
Sof þik — sagði hann —
inní sælann frið,
til hans, sem hvílist,
Herrans liðna,
fullkomnaða fljóð
Frelsara þíns!
fæðst á fögrum ljóss
fegins-degi,
orðin úng á ný,
fyrir eylíft líf!
Mitt hjarta hángir
við hjarta þitt;
þó læt ek þik nú
þetta hreysi
gjarna gefa tapt,
ok í Guðs Kanan
fullt af fögnuði
flytjast hèðan.
O þú Israel
æ sem geymir!
vertu nú vifi
á vegferð hennar
styrkjandi stafr,
ok styð hana
gegnum dymmann dal
dauðans öræfa!
Ok leið svo sjálfr
sálu hennar
inná land æðstu
endrnæríngar,
hvar þú úthellt öll
afþurkar tár,
þar ekkert eymdar
óp nè klögun
vanhelgar vegsemd
verðugra þakka,
ok Guð göfgandi
gleði-saungva!
Slökk þik, sól jarðar,
fyri sjón hennar!
hels-svöfn síðasti,
sýn þik, ok kom!
lát þèr lokit upp,
liðinna heina,
hægt fyrir henni,
hvíldarstaðr!
tak þú, fúi, fljóð,
svo at frammvegis
liðit lík hennar
til lífs vakni!
Þèr, sæði, sáir
sjálfr Drottinn
undir uppskeru
hins efsta dags,
þegar hátt hrópa
haustyrkendr,
ok glaumr geysar
gellandi luðra!
Þegar fold og flóð
fæða munu
með háum hljóðum
ok hríðum burðar,
eins ok áðr
þegar Eðen bar!
þá er undir eins
efra ok neðra
hljóma himnanna
himnar allir,
af prís hins eina,
sem alla dæmir!
Teit, með traustustu
tilfinníngu
himnesks hugfróa
af hvíld ok frelsi
lèt hún nú litit
uppá Lazarum,
ok fegin frænda
feginsamligar
á mændi, meðan
máli streymanda
bar hann framm blessun
til betra lífs,
með eld í anda
yfir henni.
Kebar Seraf sá
sigranda hel

í drós deyandi
drjúgum æða,
ok fyrir unun
svo upphátt skalf,
at, líkt blæ-blásturs
blestu hvískri,
varpaðist vind-hljóð
frá vængjum hans,
eins ok álengðar
upp af djúpi.
Þetta merktu þeir,
þar voru í kríng,
ok víst ei vissu
hvörs varir urðu;
en nú greip engill
andafullann
samansettann vef
sinna strengja;
Midt í kærkomnum
kvölum gleði
hvarflandi hendi
híngat ok þángat
fór hann fljótt ofan
fagra strengi;
heyrði hún sem lá
fyri hels dyrum
einhvörn óm af saung
eins ok frá himni.
Hèrvið reistist hún
hátíðliga,
ok í himins hæð
hlustaði til;
lèmagna líkham
Lazarus studdi,
nær því ná orðinn,
ok Natanael.
En nú skalf ekki
engillinn meir;
útaf hægt hrærði
hörpu sinni
lèt hann nú með list
lokkaða tóna,
sem ei með orðum
kunna útmálast.
Um Guðs æðra frið
eitt hljóð strengja
saung upp hátt undan
öðru hljóði,
sem lotu-lægra
lèk þat eptir:
Amen, hærri hann
harla mjök er!
I sálu svanna,
sem þat heyrði,
tendrast tóku nú
tilfinníngar,
þeim hún aldrei á
hafði áðr kennt:
nýir þánkar nú
næsta stórir
uppvaktir urðu
eins ok til lífs
af dauða dupti
hjá drós veikri.
Þannig gekk þat ok
þèr, Sjáandi,
áðr á öldum,
upprisunnar,
er allt varð ókyrrt
umhverfis þik,
brak ok brestir
með buldran stórri
voru vídt umkríng,
vöknuðu dauðir.
Ok nú ódauðligs
engils harpa
himins hljóðum töm
hèldt framm saungvum,
ok í sjúks svanna
sál innhellti,
hvör nú hartnær var
við hold skilin,
ríkugligri ró,
er reynir sá
enginn, er til lífs
aptr hverfr.
En þótt stór stykki
storðar hnausa,
at honum heyrist,
yfir höfði sèr,

niðr mokuð mjök,
mulin í sundr,
skurki skelfíngu
ok skellist saman,
ok duni daprir
dauða saungvar!
Harpan helgaða
himins tónum
hèldt framm at hljóma,
hækkandi raust
æ meir ok meir,
eins ok megn stormr
hvini með hennar
háu saungvum,
var sem vildu fjöll
við þat hrynja.
Af því með afli
andagiftar
sinnar Seraf
frá sèr hrifinn
svo látandi són
súnginn lèt nú
í feikn fljúgandi
fjörugrar hörpu:
Heilagr, heilagr,
heilagr er
hann, sem á hæð dó
höfuðskelja,
þjáðr þángat til
þúngum píslum,
at full forlíkun
fyri var gjörð
dauðans erfíngja
drýgðu syndir!
Nú sem næst komit
nár at verða
stóðst ei styrklaust víf,
stadt í dauða,
yfirvættis afl
upptendrunar,
sem brauzt brostit
inní brjóst-epli
raddar megni með;
María dó!
Leið eigi lángt
áðr Lazarus
hneigðist niðr hjá
hennar líki;
fèkk hann faldar
ennar frammliðnu
hel-kaldar hendur
milli handa sèr
sem hann samanhèldt,
sorgartár þerrdi
sinnishraustr sín,
ok svo baðst fyrir:
Lof sè Lávarði,
sem líf gefr,
með lífs ok lausnar
likli, dauða!
göfgist Gjafari
guðdómligr
tignartærustu
tilbeiðslu með!
Sjá, þú systir!
hefir samastað
í fögrum fengið
friðar tjöldum,
þó mun þar eigi
þín sál verða
um allar aldir
einsaman svo;
þetta fallna fis
forrotnanliga
órotnanligt í
umbreytast mun;
þitt bliknat blómstr,
brotið af stormi,
ó hvað ypparligt
upprisu vors
á miklum morgni
mun uppvaxa!
Helgar holds leifar
hèðan þessar
færið at fornu
foldar dupti!
berið þær ei burtu
svo bráðliga,
svo frómri fáum
forundrun með

enn nú athugat
þat útaf felldi
heljar hörð þruma,
en af hvellari
mun lífgast lúðrum
lýðs upprisu.
Sjá, hann frestar fŏr,
ok til fulls vaxtar
lætr aldir upp,
ok enn mun láta
eptir þær aðrar
aldir spretta!
allt er undur
í hins eylífa
stöðugt stýluðu
stjórnar-ráði!
alltíð ný efni
til at undra sik!
Nær ek hygg at hans
háu vegum,
eru þeir allir
óljósir mèr;
þó bregðr þar inn
þokn-skímu,
ok ek felli fús
fagnaðar tár,
þegar mætr mik
morguns boði,
aptr-eldíngar
upprof, leiðir;
nú er henni hýr
hafinn morgnn!
O! sèrt þú eitt sinn
enn mèr blessuð!
mik ef mátt heyra,
ok megi sá,
sem nú við ná-beð
niðri dvelr,
birta þèr blíða
blessunar ósk!
Þú sem heyrir hann,
sem heyrn er vorri,
en englum ekki,
óheyranligr,
sá hinn sami þik
sjálfr blessi,
fullur Guðdóms fyrr,
ok nú framliðinn!
Hafði þá þegar
þessi dáni
guðdóms hár Herra
hana blessat,
en í umsvifum
kríngum önd hennar
hamr himneskr
hóf at verða,
eigi algjörðr,
enn nú til ljóss;
Er hann skalf undir
enn ok flökti
máttkri myndandi
mund sköpunar,
sèg niðr, sveif upp,
svo at fengi
hann brátt at heilu
himneskr gjörst;
þá þenkti sálin
til þess, sem eptir
látið hafði lóð,
líkama síns;
einnig at hún nú
orðin væri
til fulls fráskilin
foldar dupti,
ok við þess þúngu
þjáníngar laus.
Þat hún fundit fèkk
fyrst var þetta;
þarnæst þat annat,
þá með svifi
lèttfæru leið
í lopt til skýa;
kenna kunni hún
kröptugliga
meðr sjálfri sèr,
at hún sæl væri!
Dauði! — hrópar hún —
þú hægi svöfn!
þú bezta blessun
allrar blessunar!

hvört er þat, englar!
erfíngjar himins!
möguligt? mun þat
mega vera,
ek svo í sannleik
sæl ok hólpin?
Svo hrópar sálin,
ok sínum fast
hèldt saman höndum,
hèrnæst þagnar
ok lèt lopt-svifi
lokit þessu:
fór á flug aptr,
svo fagurt skein,
ok nú hrópar hún
hátt at nýu:
Fögru frumburðir
fagnaðanna!
ljóssins eylífa
ljómandi synir!
hermið mèr hinir
heilögu Guðs!
mjök sæl ek! mun það
möguligt vera?
O! kom þú, yndæl
alls þess gleymska,
sem ek leið lífi
líkamans í!
úthell yfir mik
í ákenníngu
ríkugligri raun
þinna rósemda,
ok sannri sælu,
sem þèr fylgir!
O nei, kom ekki!
því yfirvættis
fagnaðar fær mèr
ok forundrunar,
at bera böl saman
burtflogins lífs,
ok því andspænis
eylífa huggun,
frábæra friðar
fyllíng þessa!
Þeirrar er yðr,
sem ei hefir
fall neitt fyrihitt,
farsældar vant,
at mæla mótsvið
mælíngarlausa
eylífs lífs unun
eymdir syndar!
Ein er meðaumkun
yðar hluti!
en tárum aldrei
úthellt hafit
þvílíkum þèr,
sem nu þerrð lætr
af vorum vangum
voldugr Jesús,
sá enn eylífi
elskunnar Guð!
Forspár, sem ek fann,
fyrirboði
greip tíðum geð mitt
enum geystustu
hrygðar hríðum í;
hann er þessi:
ek mun enn þakka!
opt greip hann mik
í bráðu bragði,
ok mèr bert sýndi
í himna himni
háar vonir;
Þar mundi' ek þakka
fyri þjáníngar,
ok fyri allar
eymdir mínar,
allt mitt mótlæti
mundi ek þakka!
sjá, uppfyllt orðin
ertu nú, spá!
Öllum mínum á
æfidögum
kom um síðir kvöld
ok kvöld aptr,
síðan aptr enn
alla daga
svo kom seinast kvöld
þess ens seinasta,

nú tók nótt dauðans
næst þessu við!
hvörsu stutta stund
stóð hún yfir!
O! lystiligr
lífsins morgun,
þess sem ek nú er
uppvakinn til!
draumr, sem tókst til
með tárafölluni,
ok loks endaðir
með andláts harmi!
þú dapri draumr
deyanda lífs
ert nú útdreymdr,
ok ek vöknuð!
Enn verð ek vakin,
nær minn visnaði
líkami loksins
eptir lángann svöfn
íklæðist eðli
óvisnanligu,
ok víst verðugr
vara-blæs þessa
guðdómsligs gjörðr,
göfugrar sálar,
mín, sem eylíf er,
allur ljómar!
Líkr líkama
þess er lík vekr,
sá eð einnig er
andaðr nú,
ok mún í myrkva
verða mold lagðr,
en brátt af henni
aptr rísa!
Nú fór fljúgandi
fullkomnuð sál,
hóf sik hátt upp,
sem hýrt skin morguns,
lèttari lopti
enu lèttasta,
vakrari vindi
enum vakrasta,
ok skjót á skeiði,
sem skyndi- þánki;
Skíran skynjar hún
sköpunar gáng
í fylgd fagnaðar
fegri saungva;
harla mjök hana
hennar sáu
augu enn víðar
opnaða nú,
en svo með öllu
óþrjótandi;
Hvílíkir hennar
voru hvervetna
í skauti skaptir
skarar lifandi!
hvörsu gekk hún upp
hækkandi stig
ætíð meir ok meir
margvísliga!
Eigi hún at eins —
ek er hafin
þúsund tröppur, til
tignar hæðstu
veranna veru!
ok verði síðar
á daga degi
enum dýrðliga,
sem mèr finnst fyrir,
forkláruð ek,
mun ek enn hefjast
yfir þúsund!
Verði veralda
veitt í huldu,
sem þá munu meir
fyri mèr glansa;
verði heims huldu
hvörskonar án
mèr enn eylífa
unnt at skoða!
Auðgr innann brjósts
andláts þánka
nær nú Lazarus
á ný því húsi,
hvar enir helgu
voru harmandi;

þá hann því nær var
þángat kominn,
einn af sveina sveit
enna sjötíu
af furðu fánginn
faðmaði hann;
Hermdi honum sá,
hvörsu væri
æ hinn eylífi
undarligr!
eldligum orðum
innir hann svo:
sjá, ei með eyrum
ek þat merkti,
en með augum sèð
ek þat hefir!
Sorgar-læti lág
móti Lazaro
runnu frá ranni
rökkur-dymmum,
en af augum hans
at eins falla
mundu mjúkrar tár
meðaumkunar.
Hann lypti at himni
höndum ok sjón:
ó! Guð guðanna!
gjald þú honum
umbun, eins ok þú
hefir uppbyrjat;
lát honum launat
at hann lægði sik,
þvíat þú vildir,
þángat til niðr,
at hann loksins lèt
líf á krossi!
Hví er blæu byrgð
blóði storkin
þess ens kross-kvalda
kóróna þannig?
hana vil ek helzt
hans af dreyra
löðrandi líta
líka sem er!
Engla glansa gladt
gull-kórónur,
fæ ek fjærri kennt
fegurð þeirra,
miklu meir er þó
makaðr blóði
krans ens krossfesta
kostuligri!
því ann Guð eigi,
umbunar honum
furðanligrar frekt
frammyfir þat,
sem vèr at vona
vogat höfum,
ok þú einnig hans
ángraða móðir?
Upphef þitt andlit
úr eymdar djúpi
guðdóms-mikla manns
móðir þessa!
ok gef gætur at
því ek greina vil!
jörðin hristist hardt
í hans dauða,
ok hristíng hennar
hrærðist þú við!
Huldi hauðrit allt
hryllilig nótt;
sástu sjálf hennar
sárar ógnir!
eigi veizt þú allt
enn at fullu,
hve hinn á himnum
um hann vitnar!
Meðan musteris
miklar brunnu
færðar kvöld-fórnir
í forgarði,
eldsloginn uppgaus
óttaliga
midt í myrkrinu
kríngum María;
Uppvið ölturunn
offrendr stóðu,
næsta skelfðir nú
af nætur ógn,

dyr hins heilaga
háar gegnum
litu þeir inn at
allrahelgasta.
Krjúpandi í kyrkju
klerkar inni
hæðstum hefnanda
hófu þakkir,
at nú lèti loks
líf á krossi,
sá þeir svo lengi
höfðu sókt eptir!
Við þessar þakkir
þorðu prestar
dyr hins heilaga
háar gegnum
at láta augum
eldligum vendt
innar at hinu
allrahelgasta.
Nú hratt hefnandinn
hefnd sinni framm!
því fagurt fortjald,
þat er fráskildi
hið allrahelgasta,
ofaní fald
frá rjáfurs risi
rifnaði sundr!
Döpur dauðans ógn
dýpra niðr
byllti biðjendum;
blikuskelfdir
fengu þeir ei fyrr
enn furðu seint
fótum til flótta
fyri sik komit.
Með ofureflis
armi stríðum
hremmdi hræðsla þá,
ok hörð skelfíng
ellti með ákefð
hina orðlausu,
er með illann leik
umflúðu hel!
O! háa huggun
af himnum ofan,
at sjálfr svo
á hinn sofnaða
minntist hinn mikli,
er myrkri svörtu,
þegar þessi dó,
þakta lèt jörð,
braut ok bifaði
björg ok kletta,
opnandi augum
óttaligann
dauðligra drótta
sinn dýrðar stól!
Allir þögðu þeir
sem þat heyrðu;
hèrvið hugsvölun
harla lítil
þrengði sèr þó inn
í þeirra sálir;
svo voru sorgar
sár þeirra djúp!
Svo fær eigi sá,
er af svim-háum
hángandi hömrum
horfir niðr,
gángandi, í grænum
glansandi blómstrá
dal, dægiliga
dags prýði sèð;
Um skóg skrautligann
skin dags honum
allt til ónýtis
útbreiðir sik,
ok fer forgefins
framm með straumi,
gjörslökkt geigbundins
gaungumanns augum
öll er umhverfis
unaðsemd vors.
Leit enn Lazarus
líðun þeirra,
sem þeim sorgfullum
svall í brjósti,
ángurs skýum ei
af sèr lètta,

tók því til orða
talandi svo:
Sè yðar öndum
engin huggun,
at hinn eylífi
um sinn dána
vitnar sjálfr svo
með sögðum teiknum;
ó! sè yðr samt
sorgar lèttir,
sè þat í þorsta
yðr þæg svölun!
Sè þat skugga-skjól
móti skerandi
bölhrygðar bruna,
at burt er gengin
hèðan til hans,
sem við heim skildi,
hún, er svo áðr
elskuðuð þèr!
Sú er þáði þýð
þeli hreinu
sèr gjarnann gefna,
Guðdóms munni
andaðs vinar af,
uppfræðíngu;
ei meir María
með yðr grætr!
Magdalena með
miklum flýti
hóf sik frá hinum,
honum gekk nær,
á hann án tára
augum horfði,
lukkuligri nú
lángtum þegar,
eins sem áskæru
án allrar tafar
fylgði fljóði
hinu framliðna;
Hefir engils orð
við oss talat
í þúngum þorsta
þú, Lazare!
gegn brjóst brennanda
beiskum hita
svo er sæt kæla
við svala lind!
Hún er hèðan,
sú en himneska,
til Krists komin
þín kær systir;
ó hefir ekki
enn fleiri þú
engils orð
við oss at ræða?
Kannt þú aungvar oss
um vorn dauða
spakligar spár
at spjalla fyrir?
sjá, þú varst sjálfr
meðal sofnaðra;
varst þú einkis var
um vini þína,
hvört virðtir verða
frá veröld þeir
brátt at burtfara
í bygðir himna?
Lát þat, Lazare!
ljóst fyri oss!
lát þat oss lengr
eigi leynt vera,
ef þú vorðna veizt
vort hlutskipti
áðr ákvarðat
únun þessa?
Messíæ móðir!
hann mælir ei.
Lát þá, ef lengr
lifa skulum,
Herra, sem hæðstum
á himni dæmir!
lát oss þá lifa
svo lengi hèr,
ó þú aldæmir
ógnarligi!
At menn, sem myrðtu
hinn meinlausasta,
um koll kastaða
kunnum líta

æ dýpra ok dýpra
í dauðligt tjón,
sem aldrei aldrei
geti umflúit!
At þá skæð skelfíng
skellist yfir,
já, með járn-armi
jarðvarpi þeim
af ógn umkríngðum
alla vega,
nær með böl-bikar
beiskrar hefndar
Drottinn drykkjar þá,
svo detti um koll,
ok þeir at þurru
þamba hljóta
hans dýpstu dregg
ok deya síðan!

---

Nú var nið dymma
nætur miðrar
yfir fold fallin
fylliliga;
mæðu þrykkta mjök
Messiæ vini
datt hún með döprum
dauðans skugga,
ok með grafar geig
grúalig á;
Aðr var ósorg
yndællri þeim
enn vænn vordagr,
nær vakti Jesús
hana harla þrátt
heila gegnum
án blunds, brennheitri
með bænagjörð;
En því ótalfaldt
óttaligri
nú, enn nokkurt sinn,
at hin náðuga
góðgjarns biðjanda
guðdómlig raust
þrotin ok þögnuð
var í þann tíma.
Smámsaman linnti
sorgar kveini,
tára-falla fró
flaut eigi meir;
ángurs ok eymdar
ógna-kuldi
þrykkti þúngliga
þeirra sálum,
eins ok bísna bjarg
eigi bifanligt.
Dvöldu dyggvir
þó í daprari
enn annars umkríng
englar, glansa,
fullir mjúkrar mjök
meðlíðunar,
sáu þeir, hve sárt
sorgir nýstu
Kristi kjör-vini
krýnda með náð.
Salem ok Selit,
sá enn fyrri
engill Jóhannis,
en hinn seinni
Maríu meyar,
móður Jesú,
samanræddu svo
sín á milli:
Fyrst sagði Selit:
Salem, bróðir!
gjörla vitum vèr,
vegsamligann
at þat allt muni
útgáng hreppa,
ok þó erum vèr
ei at síðr
því nær eins ok þeir
þrykktir af sorg!
Eins ok þeir? upptók
eptir honum
Salem Seraf,
ok sagði framar:
ærit vantar á,
at vèr líðum

annat eins ok þeir
hinir aumu menn!
Ok vèr eins ok þeir
getum ei' liðit!
þeir, sem ei' eru
annat enn menn,
vitu víst eigi,
at vegsamliga
allt hvað þá ángrar
endast muni!
Í staðinn útgángs
af þeim krókum
villugángs vega,
sem væri þeim
einn tómr töfra
ok tálar draumr,
þótt hann þeim sýndir
þú af himins
geislum glansandi,
geta þeir sèð
æ meiri ok meiri
mein ok eymdir
á dægra dvalar
dymmri götum!
Mik — svarar Selit —
sundlar næsta
við þat voða djúp,
sem verða þeir
öllumegin í
ofan at horfa!
ok ek augunum —
ansar Salem —
renni með rósemd
í ráða djúp Guðs!
Æ! sundrsmeltir
sannarliga
úr máta mikil
meðaumkun þik;
ok nú vil ek víst
viðrkenna,
at þú, Selit! svo
sem þeir, líðr.
þvíat nema þik
þrautir manna
gengju rètt gegnum,
gætir eigi
þú hugsat þannig,
sem þenkja menn!
ei utan fullur
eymdar þeirra,
gleymt, at tilgángr
Guðdómsligs ráðs
sè þat, með þrautum
þá at betra;
Ok þá síðan svo
sællri gjöra,
enn þeir ellegar
orðit gátu,
ef þeirra á undan
ei hefði sál
jarðar böls bikar
beiskann drukkit;
Ok ef á tíma
endrnæringar,
lukkusælum lýð
þegar lífs straumi
er veitt ókeypis
af at drekka,
þeir eigi þenkja
á þann til baka
súra böls bikar,
sem bergðu á jörð!
Hefir hörmúng sú,
hjartkæri vin! —
svaraði Selit —
er sálu móður
sundr-kremr svo,
sorgar þoku
úr máta megnri
mik umvafit.
Vorkenn þat, vinr!
víst er þessi,
sem ek samharma,
sjálf Krists móðir;
svo ok sá ek,
hvörsu sárt hún leið
áðr, er hún stóð
undir krossi!
Ef fró færandi
fengi blundr

sik henni hrelldri
yfir höfuð breidt,
svo skyldi ek sveima
kríngum sál hennar
draumum mildum með,
er mær hrestu;
Einnig andfælur
af árasum
nýrrar neyðar
í nánd verandi;
æ! hennar ángist,
þegar upphrykki,
drauma minníng með
munda'k sefa.
En ró af raunum
ratar engi
hana harmþrúngna
til at heimsækja!
æ! hún mun himins
hugsvölun móti,
ok hins eylífa
endrnæríngu
eflaust uppvakna,
eins sem hún nú
horfir hugarsjón
móti hels komu!
Meðan þeir mæltu
milli sín þetta,
bráðr blundr
á brár tárgar
Jóhannis jós sèr;
jafnsnart þángat
flýtti Salem sèr,
ok sætann draum
upp lèt tendra, tvist,
með tilfinníngu
nýrri lífs ok ljóss,
lærisveins hjarta.
A fjall fljúgandi
fannst nú honum,
sem um lopt líði,
þat var Líbanon,
þóktist hann á því
meðal þjótandi
um svæði sveima
cedrus eika!
Ljómandi lèk
á lunda toppum
af döggfalls dropum
deigra morgun,
prýddr purpura,
prýddr gulli,
aungvann eins fagrann
sá hann upprenna.
Lífliga lètu
lækir í dal,
sem hátt hljómandi
helgi-saungvar;
brátt heyrðist honum
með hærri tónum,
ok meira megni
fyri manns unun
leika lystng hljóð
lífgaðra harpna
samanblönduð svo
sýngenda raust:
O! mæti mögur
móður himneskrar!
þerra þú, Sonur
þeirrar móður
hinnar himnesku,
harmatár slík!
honum þóktu þó
þar við eigi
tár sín tregarík
til fulls þorna.
Svo gat öflugs einn
engils draumr
síst afmáð sorgar
sárindi þau;
svo frammfossaði
full af beiskju
einnig í svefni
uppspretta sú.
þessi rós-rauði
raka morgun
sitt hið skæra skin
skýum huldi,
í feikna fjarlægð,
þar framar engi

heyrn má hlusta til,
hvarf burt ok dó
sá harpna hljómr,
ok þær himnesku
sukku sömu leið
saungva raddir.
Þó hann enn nú einn
óðar' enn fyrr
leiddi framm lengra
í lundi þessum;
því enn sveif um sál
enum sofanda,
ok ei aflèt,
hinn ódauðligi.
Ok nú sá sveininn
at seggir hjuggu,
með gegn-glóandi
grimd í augum,
eina Cedrus-eik
upp frá rótum,
svo at drundi dymmt
við dýnk mikinn
fjall-fold Líbanons,
nær fèll þat trè!
Hjuggu háann meið
höldar grimmir,
svo kæmi kjörinn
þeim at kross-stjaka;
hófst enn hái kross,
ok hræðilignm
skaut frá sèr skugga;
en í skyndíngu
uxu pálmar út
af þeim krossi!
ok nú eptir þat
ei' var lengr
Líbanons lundi
lærisveinn í.
Æ! hann í Eden
var nú innkominn,
leit hann lángt meira
ljóma himins
prýða Paradís
enn purpura ok gull,
ok nam engla saung
ypparligri;
ótt hrærðist hjartat
í hans brjósti,
fullt af fögnuði,
sem fann hann til.

---

## Hèr hefr
# Þrettándu bók Messías.

Jesu forfeður
fögnuðu nú
útaf upprisu
umkríng grafir,
þarsem þeir sváfu
þó fyri skömmu;
en jörð umhverfis
englar svifu,
Svo at þeir sæu
sèr kæra menn,
hvörja nú hafði
helgat af nýu
sjálfum, sem þá skóp,
sínum Föður
þeirra fórnfærði
Friðþægjari.
Æ! þá optsinnis
ítri gleði
hratt úr brjóstum hrygð
helgra votta;
veifandi vökrum
vængjum purpura
þustu þeir svo hratt,
at þrátt fuku

foldar lopt fyrir,
sem fis þat er einn
hristir sendi-sveinn
sèr af fótum.
Göfgr Gabríel
hjá gröf dvaldi,
á einnri af sólum
Elóa stóð,
þeim er umgyrða
allann himin,
þar beið hann þess,
at þegar mundi
Jesú æðsta dýrð
ofannstíga.
Lèt þá enn lengra
leið sköpunar
uppsvifit eptir
engill grafar,
sigursælustu
svo upprisu
háleitt himin-teikn
hann fengi sèð.
Lengi hafði hann
hvatskygn einum
augu sín á fest
Orione,
ok sá Orion
eld-glæztr nú
frammhjá öðrum flaug
í fljótu svifi;
varð hins væntanda,
við þeirra sjón,
engils andlit brátt
enn skærara.
Vendi hann sèr við
í því vetfángi;
sèrhvör hræríng hans
var hvass stormr,
ok hvört hans uppþot
var eldíng bráð!
Seraf fljótri för
flaug til grafar,
hátt svo hrópandi
sem hörð þruma,
fyrir hvörrar feikn
fagurlimi
við velli lagðr
verðr at reik;
komið! kallar hann,
komið til grafar!
Undir eins englar
ok aldnir feðnr
með fljótu flugi
flykktust þángat;
lukti laung sú röð
ljómandi skara,
sem lýstu sigri,
sik kríngum gröf
ens mesta meðal
manna dauðra.
Mundi midt í hríng
mergðar þeirrar
glaðr Gabríel
á gröf sitja,
glíkt sem á glæstu
gyllini-skýi,
þat er flytti framm
fullkomnaðar
sálir saunhelgra
enna sofnuðu
inní unaðs líf
eylífðarinnar,
En dauðans engill,
sem áðr hafði
Jesú, í nafni
Jehóva sjálfs,
kunngjört á krossi
komanda bana,
svam nú sèrliga
seint til grafar,
ok hnèg gagngjört
í Gabríels fáng:
Nótt! svo hermir hann,
hvervetna mik
enn nú umkríngir
óljós gríma!
enn nú er mèr jörð
sem öll titri!
öllum myrkrum enn
er fyri mèr

dauðans dapra fjall
dekkra miklu!
Aldrei hefir afl
ódauðleiks míns,
fyri mèr fengnum
til at framkvæma
af Drottni dómum,
duglaust orðit;
sá hinn síðasti
sigraði þat;
ek er eptir hann
af mèr kominn,
ok ligg enn fallinn
undir hönum!
Efl mik nú aptr
almættis geisli,
þú sem þessari
útaf þró grafar,
skær til at skína,
munt skunda brátt
frá hægri hendi
hæðsta Föðurs!
Odauðligs engils
orð voru þau,
af feikna furðu
frá sèr numinn
studdist hann við stein,
þar stærstu fórnar
liðinn líkami
lá nú inni.
En nú spurðust á
englar ok feður,
svo segjandi
sín á milli:
hvört mun með hönum
hýr vakna Sól?
mun hið milda vor,
sem menn líta,
þá verða þeirrar,
sem þekr hann,
nær skær frammskundar,
skuggi dýrðar?
Eðr mun ítru
álfröðuls skini
frávendt sofa fold,
þegar frammbrunar
sá hinn sofnaði,
sem þó lifir
um allar aldir
ok at eylífu?
Mun þá verða veikt
fyri voldugum
honum, hismi gröf
ok hellis klettr,
loptsins leikhnöttur,
lèttur næsta,
foldar ásýnd frá
fekinn hverfa,
þá er hefr hann
höfuð sitt upp
sómasamastr
sigurherra?
Mun nokkuð mega
megin-glansa
vor styrkr standast
af hans stóru dýrð?
varla þánka þann
þolir mitt hjarta,
æ! svo inndællrar
eptirlaungunnar —
uppkvað Abraham —
af eðli himins,
fullann þánka þann
ok þess unun:
I sannleik sjálfr
sjá mun ek þat,
ek sjálfr, enginn
annarligr,
at hinn offraði
eylífs Föðurs
eflaust, at unuum
yfir dauða,
dauða sem hann dó,
dýrum sigri,
öflgr upprís hèr
aptr til lífs!
Með eigin augum
ek mun þessa
á hátign horfa,
Halelnja!

þegar hafði hann
hrópat þetta,
tók aptr túnglit
til at skína.
En þat áskygðu
innann stundar
þykk ok þokufull
þjótandi ský;
hundrað þreyttir þá,
þeir er gengu,
menn ok mæður
ok megir komu.
Hafði hópr sá
hraðari ferð,
meðan mána skins
mátti njóta,
en nú aptr seint
arka mundi,
kominn hèr í hríng
enna heilögu.
Ofboð yfir þá
óvörum fèll;
ok vissu ekki
hvað þeim ógnaði,
en þeir flýðu fljótt
felmturs vegna;
gekk einn götu villt
grátandi sveinn.
Skjótt kom engill einn
ok nú færði
mjök titranda mög
móður sinni;
þakka vildu þeir
þessum trúa
förunaut framda
fyrirgreiðslu,
en hann var horfinn
úti húm nætur.
Hafði hjá Davíð
helgr staðit
engill sá áðr;
ok aptr nú
kom til kærs vinar
í kraus hinna,
þessi þá við hann
þannig mælti:
Svo leiðir ljúfr
um líf hit fyrra
menn sá hinu mikli,
er mun nú brátt
af gröf upprisinn
öllu jarðar
samansafna
til sín fólki!
Hve glöð í Guði
gjörist mín sál!
hvörsu mun ek hýrt
hönum fagna,
þá er hann af þró
þessa dvala
útgengr aptr
uppvaknaðr!
Frómleiks fylgendr
enir fullsælu,
hvörra þó er hold
hèr ennú dupt,
ok þèr mætu menn,
sem moldar-fúa
ógnir aldreigi
ullu gegnum,
fáið ei svo fullt
fundit sem vèr
óinnanliga
upprisu gleði!
O hvörsu mjök mun
mildr Jesús
finna frábærann
fögnuð hennar,
eingetinn Arfi
þess hins eylífa,
hann sem miklu meir
mönnum öllum
sjálfs síns dauðligleiks
sárindi fann,
ok hels hrellíngar
hræðiligustu!
Assaf! hropar hann,
hraðandi sèr
í Assafs arma,
til að umfaðma —

brátt mun bróðir,
sá er beiskliga
kvalinn kannaði
kross ok dauða,
útaf gröf gánga,
hinn guðdómligi!
Sálar unun af
upptendraðr
leit hann á legstað
Lausnara síns,
eins ok einn frómr
óviðskilinn
horfir til himins
með heitri þrá;
þann er þess virðir
þengill himna,
einn sem allt dæmir,
at hann minnist
æ streymandi á
uppsprettu lind
ennar eylífu
unaðsemdar,
at hann elskaði
alltíð sína,
hvervetna hlýðinn
til hels á krossi!
Assaf á spámann
einnig horfði,
svo mjök af sælu,
sem hann, drukkinn;
í Davíðs ásýnd
sakir ununar
urðu bjarma-blik
brátt at glansa;
Einnig öll hræríng
ok andardráttr
urðu sem saungvar
samhljóðandi;
á flökti fór hann
ok fagurt gall,
lèt nú lífgaða
lystuga hörpu.
Eigi heyrðust orð
enn nú hljóma;
þó gól gullharpan
gleði-saungva;
en nú inntekinn
öldúngis hann
andagift varð af
uppheims sálma!
sterkr straumr gall
strengja ok raddar:
Svo mun síðar meir
sjá í himni
sjóna Sjáandi
á Síon standa
lamb eitt ljómandi,
lemstrum þakit,
ok dýrum dreyra,
sem drýpr heill.
Standa þètt þyrptir
þá kríngum hæð
skarar öllum æ
ótöluligir,
hátíð haldandi
helgaðir allir,
öll sú ótal-mergð
endrleystra!
Eins ok ægishljóð
eðr margra
raddir rammefldra
reiðarslaga
lètu hörpur hátt
í höndum skara,
sem með listarleik
lífguðu þær
hátíð haldenda
kríngum hæð Síons,
um Son, um Soninn
er saungur þeirra!
Af því at eylíft
ofannstreymir
líf frá ljómandi
Lambsins benjum
sífeldt í sælar
sálir þeirra:
svo dó hann, ok svo
sáum vèr hann!
O! þú í dvala
hins óskapaða

líkami liggr!
ljósi þessu,
áðr þèr, englar!
enn voruð til,
einnig lèt hann út
af sèr varpat:
áðr var það oss
eins ok rökkur;
A hið fyrsta form
fagrar sköpunar
gaf hann geisla þann;
geysi-lánga
er hann alda röð
afframm þenkti:
dauðligir dvala
skyldu dúr sofa,
sem ok sjálfr hann,
síðan vakna!
O! þèr allir hans
andláts vottar!
um himin heilann
hrópit þat út!
frammsegið fregn þá
friðarins sala
hvörjum einum í
augljósliga!
En enginn, enginn
allra þeirra,
sem njóta sælu
í sölum himins,
virði víti þess,
vitundar til
þeim sem þar búa
þat at gefa!
En svoframt sem þèr
sagnar virðit
þessarar þat,
yfir því látit
skurka skruggu raust
skelfíngarinnar!
hrópit hræðiligt
Halelúja!
Svo þat samstundis
sökkvi dýpra
ok í afgrunn síns
endalaust rúm;
flæmist enn nú fjær
fögrum himni
ógnar ok ótta
fyrir ósköpum!
Víst mun brátt vakna
af værum blundi
góðr Guðmaðr,
grafar standa
dýr yfir dupti,
dýrð ein vera,
hæðsta himna dýrð,
Halelúja!
Komið, ó komið,
keppist híngat
til vor, hans vissu
vottar á jörð!
til reiðu, ríkar
af rósemd, yðar
tjaldbúðir bíða!
benda pálmar,
eylíf æruteikn,
yðr til sín!
Brátt er af yðr
til endalyktar
vel leidt verk yðars
vitnisburðar,
blóð snart ausit út
yðar, sem hans!
ó! dauða dreyri
dýrra votta!
hrópa þú ei hefnd,
hefnd, sem Abels!
heldr hrópa þú
heiðurs kórónu!
Sterku stríðskappar
Stefán ok Jakob!
frægu frumvottar
Frelsarans blóðs!
varla verðr hans
á veg kominn
miklu mannheillar
morgunroði,
fyrr enn þá þegar
hafið þið sigrat!

Farið strax af stað
Stefán ok Jakob!
kveðjið Kanaan!
kann sèr Jósep
ei lengr aptra;
eigi nú lengr
fær hann sèr haldit,
Halelúja!
Davíð saung nú svo,
ok sèg niðr
undir ofurþýngð
upptendrunar;
hann gat varla heillt
Halelúja
lykta látit óð,
ok lágt hvískrandi
fèll úr hendi hans
harpan skæra.
Fögrum silki-serk
sínum klæddr,
pálma vænum við
veifandi í hendi,
um heilagt höfuð
hári gullnu,
Jósep sínum saung
sælum móti
bróður, hvörjum hann
hjartanliga
fagnandi forðum
í faðmi grèt:
O hvílíkt ofboð
upptendrana
hrærir hjarta mitt,
nær hugsar ek
á þá einu stund
aptr til baka,
er mèr eptirlèt
sá hinn alvaldi
forlaga Faðir,
fyrir yðr
berliga bræður
at birta mik!
Þú, nær þenkir ek
til þín aptr,
ó þú af öllum
inndælasta
frammförnum stundum
hins fyrra lífs
verðr mèr ein af
hins eylífa!
Hve var mèr, hlírar
yfir hel gengnu!
nær ek við yðr
æpandi kvað:
ek er Jósep, ek
yðar bróðir,
er minn enn nú lífs
ástkær faðir?
Þú, sem nú sefr
í sæng grafar,
þú bróðir bræðra,
enna brotlign,
ótal, af þèr nú
endrleystra!
fyrst alinn allra,
sem erfa ljós!
O! frá yppurstu
andliti þínu
blóðs ok dupts blæu
burt lát falla;
sýn oss þik aptr
í þinni dýrð!
At vísu vèr
eigi villt förum
um þik í þinni,
svo ei þekktum rètt,
nokkurntíma, nei,
niðrlægíngu,
en oss þyrstir þó
þik at líta
sára-merkjum með
meginn-skærum.
Þyrstir þráum vèr
þik at líta
sárum prýddann svo
Sigrara hels,
eigi þess at eins,
sem úldit liggr,
heldr ok einnig
eylífs dauða!

Einnig yfir þá,
sem eptir þèr
ei' þyrstir, þvíat
þik miskenna,
eylíf uppspretta
eylífrar náðar!
miskuna þú þik,
yfir þá líka;
Ok gef flug-fráa
flýtis vængi
deginum dýra,
þegar dýrð vors Guðs
efsta sinni sik
sýnir heimi,
augljóst ok utan
allrar huldu!
Ert þú ekki
með öllum hætti
freistaðr framar
enn freistast kann
í mesta máta
maðr dauðligr,
uppá þat at þú
þèr í brjósti
kunnir at kenna
um kæra bræður?
Sèr at vísu sá,
sem skóp auga,
ok sá eyrat skóp
eflaust heyrir!
hvört mun þá mega
meðaumkun þann
skæra skorta,
sem skóp þik hjarta?
Ert þegar eigi,
þú hinn ypparsti
biskup! með blóði
borgunar þinnar,
forlíkunar fórn
fullkomnustu,
inngenginn í
hið allrahelgasta?
hvört er ei' eylíf
endrlausn þín,
sem þú sjálfr,
hinn saklausasti!
fannst ok fullgjörðir
fyrir alla?
Sem nú sælu stund
sú loks kemr,
en hulin himni,
huldari jörð,
sem mun færa framm
til síns Frelsara,
æ! hins krosskvalda,
kynslóðirnar,
öll börn Abrahams
Isaaks, Jakobs.
Þegar fylling fólks
frammkomin er,
einnig Israel
inn sèst genginn,
já, þegar Jesús
jafnvel eigi
fær sèr fráhaldit
framar tárum,
ok hrópar upphatt:
ek er Jesús!
En þeir sem eru
ástfólgnastir
halda sèr honum
um háls grátandi;
heiðursklæðum hann
hátíðligum
sæmir sèrhvörn þá
sakleysisins;
Hvörjum einum ört
útbýtir hann
björtu blóð-stökktu
brúðkaups fati,
krans ok kórónu
enum kærari,
svo við vegligra
verðlauna stærð
færist felmtr á
fagnandi tróna!
Þá hann fullframit
fær allt þetta:
ó! hvörsu hraðir
himneskir þá

munu sveifla sèr
sendiboðar
frá stjörnu at stjörnu
ok strax úthrópa:
Hvörsu háleitt ljós
hæðstu speki
útaf afgrunni
upp sè sprottit!
hve glaðr geisli
guðdómsligs ráðs,
næsta dymmri nú
útaf nótt skíni!
Ok hve sín andlit
öldúngar þá
hjá tróni hæðstum
hneigja munu,
klárum kastandi
kórónum niðr,
hátíðar-haldi
meðr heilögu,
þökk enum eina,
sem er eylífr,
fagra færandi
Föður daga!
Sjá, þú hefir þat
þrekvirki gjört,
ok munt þat ennú
allgjört láta!
Faðir, alls Faðir,
fyrsti ok eini,
sem ert eylífr!
endalaus prís,
frá einni eylífð
til annarar,
dýrt nafn dásami
dýrðar þinnar!
Hátíðligum hjá
hróðrar straumi
tvinnuðu tóna
ok tóku undir
helgar hörpur
ok hvellir lúðrar,
sem hann sínum framm
sveif at bökkum,
(eptir hans óma,
þegar útliðu,
hermdi hróðr minn
hinnstu lotum),
Er hann ýmist með
afli minna
flaut, eða flaug
með fljótari rás;
sinni saunglistar
samhljóðun meðr
sveif á hann ofann
ómr harpna,
ok bert beljandi
básúnu kliðr,
sem at eins sællra
sik tjáir heyrn.
Helgir ok háir
himins saungvar
síst eru synir
ennar seinfæru
ok tídt örendu
andagiftar;
aðal-innblásturs
uppsprettu þeir
af krapti kyndtir
kundar eru,
frumgetin fóstur
fagnaðarins,
þau vèr þessa heims
þekkjum eigi!
At eins eru þeir
endr ok sinnum
heyranligir hèr
þeim er heim kveðja,
þá er þar með
í þeirra sálum
eylífs lífs unun
fær upptök sín.
Þess ens þegjanda,
þegar kvaldist,
ok lýtalausa
Lambs spámaðr
Esajas einn
á þá hlýddi,
en þá allfjærri
opnaðri gröf;
Er sín englarnir
andlit byrgðu,

ok vökrum vængjum
veifandi hvör
ákaft í flúgi
öðrum móti,
þeigi þögulir
þannig súngu:
Heilagr, heilagr,
heilagr Guð
er, sá einn Drottinn
alls hins skapta!
öll lönd eru full
æðstu dýrðar
þess ens eylífa
allsherjar Guðs!
svo at sjálf skulfu
af saungrödd þeirra
digr drótta-trè
ok dyr musteris.
Allir inntekuir
indisligri
eptirvæntíng af
upprisu sjálfs
hins mildi-mesta
Meðalgángara,
hinir heilögu
hèldu nú framm,
at herma hvör öðrum
hvörs tilfundu;
Ymist upphöfnum
með eigin röddum
eðr háum hljóm
hljóðfæranna,
ok harla hvellum
hátíða saung,
eðr optliga
eins með báðum.
Því enn nú eigi
yfir þá var
komin kyrð ok þögn
kærstrar gleði,
eigi orðleysi
unnarinnar;
góðr Guðmaðr
í gröf svaf enn.
A eina af gröfum
Olíveti

stèg hinn heilagi
Hezekíel,
næsta hraðr nú
niðr frá skýum,
ok í sínum saung
sagði þannig:
Ek sá umkríng mik
afholda bein
útum víðann vâng
visnuð liggja;
virðtr varð ek þess
volduga boðs,
til þeirra þannig
þá at hrópa:
Þèr hin þurru bein,
sem þar liggið,
heyrið Herrans orð!
ok at hrópuðu,
eins ok bráð bendíng,
boði þessu,
varð um vídt svæði
viðbragðs þytr!
Sjá! þar hófst hræríng,
er ek hrópaði
út hið öfiga boð,
umhverfis mik;
samansvifu bein,
sèrhvört færði
samstundis sik
at sínu beini;
Fljótt kom fljúgandi
fjör með vindum,
eins ok áðr var,
í hina dauðu;
allir útum völl
uppstóðu þeir,
mikill her manna,
meiri tölu!
Var ek vitrunar
virðtr slíkrar;
enn nú ímynd sú
uppteudrar mik
af fólks frelsunar
fyrirburði
þessum, sem ek sá
svo fyri laungu.

En hve var mèr ok
einnig sjálfum,
þá er ek aptr
uppkom til lífs,
þessi þurru bein?
þakkir sèu,
æ! sè eylíf þökk
þeim mik uppvakti!
Hvörs enn nú hvílist
hold í jörðu,
ok þó enn dauða
uppvekr hann!
rírnun ok rotnun
reynir hann eigi,
eins ok vèr aðrir
Adams niðjar.
Þessi var vilji
voldugs Föðurs:
harðann dauða hann
hlaut at þola,
daprasta dauða,
dauða á krossi;
en aldrei átti
eylífs Föðurs
heilagi at hitta
holds forrotnun!
O! þú uppskera
öllu stærri
þeirri, sem ek sá;
sömuleiðis
miklu meiri' enn sú,
sem munum til
kallaðir koma,
þá kornskerendr
hrópa haustyrkju,
ok hljómr lúðra!
Eitt korn at vísu
einúngis rís,
er þó uppskeran
öllu stærri,
enn hinna axa
óteljanligu
furðu víðu flóð,
þau er fá munu
alls engin augu
útyfir sèð,
full af feikna-mergð
fólks bindina!
Ef þat eina korn
ekki sprytti,
kæmi aldrei kall
kornskerendanna,
aldrei heyrðust há
hljóð básúnu!
ó! þèr, hið eina,
sè eylíf heill!
Himnanna himnar
heilir munu
loksins þyrpast þá
undir þinn skugga
samansafnaðir
á sínum tíma!
helit, sjálft helit
hræðiliga,
síðast öllum af
óvinum hel,
mun ei þola þá
þessa skugga
ena almáttku
endrnæríngu;
Heldr af hennar
háum krapti
til grunna gánga
gjörsamliga;
þá muntu þessa
þínum Föður
einum afhenda
yfirdrottnun;
Guð í gjörvöllu
svo gjörvallt sè!
heill, Halelúja,
hæðstum Föður!
Guð allt í öllu
sè at eylífu!
Ok hinir helgu
haustyrkjendr
eittsinn hins efsta
uppskeru dags
hjartaglaðir hýrt
horfðu í augu,

meðan samdi saung,
Sjáandanum.
Gabríel frá gröf
ens guðdómliga
snöggliga snèri,
sem snör bendíng,
aungvu lengr, eins
augum þángat,
sem hèldt helgann saung
Ilezekíel.
Þá viðgall voldugt,
sem vatna niðr,
heilagt, hátíðligt
Halelúja!
at Guð, at Guð —
svo gólu allir —
sè allt í öllu
eylífliga!
Ok nú yfirgaf
Amos sonur
sælann söfnuð
enna sannhelgu;
svo hann sveimandi
sik gaf niðr
á fjall Golgata,
guðdómligt lík
þar hángit hafði,
ok hjástóð krossi.
Líka fórstú frá
flokkum helgra,
Daniel, Drottins
dýrmæti vin!
ok hins andaða
eins þik krossi
niðr nálægðir
ok namst staðar!
báðir biðu þar
ok brátt tóku
saltara sína
sýngjandi á vixl:
Es. Hèr bar hann vorar
hörðu sóttir,
ok vorum á sik
örkumslum hlóð!
meintu menn, at hann
mundi sleginn,
ok harðri hegníng
hrjáðr vera,
af því sjálfr svo
syndgat hefði.
Dan. Æ! hann er undum
fyrir oss særðr,
ok sleginn sökum
synda vorra!
harðri hegníngu
er á hann kastat!
svo vèr frið fengjum,
ok fyrir hans
undir erum vèr
orðnir heilir!
E. Hann upplauk eigi,
þegar æðendr
svo hann sárt kvöldu,
sínum munni!
hann þagði, þegar
þeir hann leiddu
til bana-bekkjar
burt, eins ok lamb!
D. Burt frá allri eymd
ángistarinnar
er hann útkominn,
ok frá dómi!
áðr lángt líðr
mun til lífs vakna
Jesús, ok jafnsnart
af jörð frammkoma;
hvör er á hauðri
eðr himni sá,
er kann útsegja
eylífðanna
lengð, sem lifa mun
hinn látni Jesús?
E. Andaðr er hann,
af því hann bar
allar illgjörðir
allrar jarðar,
hèrfyrir er hann
hörðum kvölum
eins ok illvirkjar
aflífaðr!

D. Æ! nú er örugg
offurgjörð hans
at fullu frammkvæmd
fyri syndir!
honum berast börn
bísna mörg nú,
sem daggar dropar
á deigum morgni,
ok hans lífs-aldr
er eylífðin!
E. Ojá! eylífðin!
því at erfiði
allskyns píslar í
ósegjanligu
hve sveittist sál hans
ok sárt strýddi!
af því er arfleifð
ununin þín!
D. Drottins þekkr þjón,
þessi rèttláti,
sinni marga mun
meðr speki
hinni himnesku
heilaga gjöra,
ok at erfíngjum
æðstu dýrðar,
hann, sem heims syndir
heilagr bar!
E. Sjá, hvör köldum kom
Kiðrons læk frá,
útaf djúps dymmu
dómsins fyrsta,
gekk í göfgum styrk
guðdómsligs kraptar
til at bera beisk
brot öll manna,
undir eymd ok kvöl
andar djúpri?
D. Kristr var, sem kom
frá Kidrons læk;
hann sem klárt kenndi
ok kröptugliga,
með ráði ok röksemd,
rèttvísina;
hann, til at hjálpa
hetja sem er!
E. Hann af hvörs undum
yfir þenna
dauðans hvol dreyra
dropar fèllu;
o! himna himnar!
hvörs streymdi blóð,
er hann fórnfærðist,
forlíkunar
uppá altari
yfrit straungu!
D. Æ! blóð hans, blóð
sem begja fyrir [hans,
sik mun sèrhvört knè,
fyri sæti hvörs
allar túngur æ
einum rómi
munu meðkenna
Messíam vera,
Drottinn til dýrðar
Drottni Föður!
E. Er nú aflirundit
yfirtroðslu,
öll synd innsigluð;
ávirðíngar
fullkomin fyrir
forlíkun gjörð,
eylíf heill orðin,
algjört rèttlæti!
Er nú innsigluð
opinberun,
ok hin spöku spjöll
spámannanna!
makt ok meginn-prís
enum miskla sè
frægsta furðu-verks
Fullkomnara!
Heiður sè honum,
hann er smurðr!
hèr dauða háðum
hálsi þessum
smurðr er hann á
allrahelgastr!
hann er hèr smurðr,
Halelúja!

Frá sèr allir af
ímynd únmdir
þess eins fórnfærða
Frelsara Guði,
líkt sem lopt þýtr
um lífsins trè!
hinir heilögu
höfðu eptir;
hèr, dauða háðum
hálsi þessum
smurðr er hann á
hinn allrahelgasti!
hann er hèr smurðr,
Halelúja!
Grafar gætendr
gengu á burtu;
önnur vakt tók við,
var fyrir henni
húndraðshöfðínginn,
sem hafði fyrr
sèð á Golgata
Guðs-son deya,
fundit fjall bifast
undir fótum sèr,
klúngr ok kletta
klofna sundr.
En viðr op-stein
innsiglaðann,
þann er varðveitti
vors Herra lík,
stóðu stansandi
stríðsmenn vaktar,
ok hjá þeim hennar
höfuðsmaðr.
Kneus — svo hèt hann —
hratt í djúpann
efa sökkti sèr
sinna þánka;
því at þögu nætur,
ok þægt skin mána
æ lengra ok lengra
lokkuðu hann
inní vafa-veg
villugjarnann,
er hann engi fèkk
útaf leiddann.
Hallaðist hann þá
hægt at steini,
ok þenkti þannig:
þú, Sonur Guðs,
eða hvað er hann?
en af hvörjum
Guði getinn þá?
Gyðínganna?
Hans? hví efast ek
um vors Jóvis
makt ok mikilleik,
sem mest tignum?
þenkir ek til þess,
sem þjóð auðkúguð
Júda Jehóvam
jafnann nefnir,
þann hún at þekkja
þó er ei verð,
svo löðurmannlig
með lund þræla?
Hve af sjálfri sèr
sú er lítil,
en af Jehóva
ypparliga
Guðanna Guði
gjörð er svo stór!
svo hann sik hefir
sjálfr nefndann,
ok eigi nefndann
einúngis svo,
heldr sýnir sik
svo í verkum!
því væri voldug
verk Jehóvæ
undirorpin
efasemi,
sannliga sagnir
um sjálfs Jóvis
gjörðir mættu menn
meir enn efa!
En mundi mögur
mikils Jehóvæ,
þess Drottna Drottins
vera dauðligr?

en maðr ef hann
at eins væri,
hve mundi hann mega
svo mikill vera?
Hann þenkti þannig,
þegar sendr
piltr einn prúðri
Portíu frá
þreif hann úr hörðum
heila brotum;
sagði sveinn þessi
svo til Kneum:
Kem ek hèr, kvað hann,
Knee! sendr
frá frú Portíu,
til at frètta þik:
kríngum Kristi gröf
ef kyrð væri,
ok hvört nokkr ná
nálgast hafi?
ásett hafði hún
híngat þó sjálf
at fara í fyrstu,
en frá því snèri!
Allt er, Kneus kvað,
kynn þat Portíu!
hèr geymt í grafa
grandlausri kyrð,
eigi nokkr ná
nálgast hefir.
Sveinninn með sama,
at svari fengnu,
næsta fljótfættr,
fór til baka.
Bíð — kallar Kneus —
kynn ok þetta
vandliga vífi!
at hann vakna mun
aptr, at hann mun
ekki vakna;
hvörttveggja hvarflar
fyri hug mínum,
ok hann í vefr
efasemi.
Gakk, sem þik girnir,
geð mitt kvelr
ígrundunar önn,
úr at greiða
atburðum æfi
ok endalyktar
hins frómleiksfulla,
sem felldr var,
því at þat var hann
þekkjanliga!
Með dáð ok dygðum
var hann dauðligr,
ef hann ekki var
eiginn Sonur
þess Guðs Guðanna!
hví get ek hans,
ok svo yfirtreð
afneitandi
játníng Júppiters,
er ek Jehóvæ,
sem ek síst þekki,
set hann neðar,
þeim ek þekki meir
þó, enn Jóvem!
Því miklu meiri
mèr sannleikr
sýnir sik gjörðum
sèrhvörjum í
Jehóvæ jafnann
enn í jarðteiknum
þrumu þeitandans,
þat er meira,
ó! er þat ekki
allt samann satt?
O! ef ákallat
Israels hefðu
sigraðs sigrendr
sjálfann Jóvem,
mundi hafa mynd
ens mikla Guðs,
sem Dagons, dumba
dottið í mola;
já þrumur jafnvel
Jóvis, í parta
dumba dottið úr
dugvana mund.

Ha! hvað hefr mèr
í hug flogit?
hvað mèr þrengir þá
til þess at neita
Jóvi, ok jafnvel
fyrir Jehóva
enum ókennda
útgefa hann,
enum ókennda
ógnarliga?
Ok hvörs er sú raust
innst í sálu,
sem mèr er megnfátt
til at mótstanda?
ef þú ert meiri,
ó Júppiter!
þá lát mèr þrumur
þeyta niðr
ógurligast í
afgrunnsins djúp!
O! hvar er ek?
þú ofsafulla
ákefð óvissu
ógnarligrar!
nei, ei' óvissu!
ek hefði þá
Guði Guðanna
gjört á móti!
Þik ek þrá-særi
við þann Kókyt,
er þú sjálfr, Zevs!
sver við at eins:
lát þinna þúngu
þrumuslaga
afl mèr í afgrunn
ofann varpa!
Þú, hvörs þekkíngu
þrái ek eptir
með girnd glóandi,
Guð Jehóva!
ek þik ákalla,
auglýs þik mèr!
ef ek ei er þess
óverðugr,
sè þess sá verðr,
sem mun deya,
bráðliga bið ek,
birtu þik mèr!
Þetta þenkti hann
þá til himins,
ok nú höfuð hans
hèkk at brjósti;
æ! hví leit ek ei,
þegar enn mátti,
hinn fróma fremja
furðuverk sín?
Hví ek fyrr svo frekt
forsómaði,
helzt til hirðulaus,
at heyra þat,
sem hann sagði um Guð,
sik ok manninn?
nú ek, nema slíkt
niðrfellt hefði,
mætti grein gjöra
um Guð, hann ok menn.
Þeir, sem helzt heyrðu
honum voru
ítri fullir af
einfeldni menn,
víst betri enn vísir
verit hefðu,
þeir er svo sjaldann
sik ei villa,
eðr grubl-grillum
gróm-teknir af!
En hvar á ek nú
at þeim leita?
hann er burt hèðan,
hann er dáinn,
ok ekki mik meir
mun uppfræða;
ek fæ ei færi
til at finna þá!
En hann mun þó mik
miklu betra
í lífi læra,
þar lifir nú!
hvað? leiddann læra
í líf hið betra?

er þá til annat
ókomit líf?
Ok ef er það til,
ek hvört vona
má, at þat muni
fyri mik betra?
þar hann, svo saklaus,
sárar píslir
utann alls mælis
útstanda hlaut,
hvörsu miklu meir
mun hinn seki?
Æ! þú ókenndr,
ókenndi þú!
eptirgrenslun í
önd mín þinni
útí ófærur
einar villist!
ó! ef ek skildi
opinberanir
ok sannar sagnir
þinna Sjáenda,
ok frá augum mèr
opnat gæti
huldu þá sem þær
fyri þeim byrgir!
Hann ek hefði þá,
hörðum krossi
einmidt nær áhèkk,
aðspurt getat!
nú er hann orðlaus,
eigi fær mælt;
en mun hann orðlaus
eylífliga?
Sá er hann sendi
sjálfr þat veit!
mun þat mögnligt,
at menn dauðir
aptr upprísi
til annars lífs?
hann enn heilagi,
sem hèr er dáinn,
hefr heitit þeim,
sem hans væru,
eptir andlát sitt
endrlífgun!
Einnig óvinir
sem hann ofsóktu,
segja þat sjálfir,
ok sakir þess
erum vèr hèr við
vöktun settir
hans í láð lögðum
yfir líkama.
Ef hann ei til lífs
aptr vaknar,
þá verð ek villtr,
vefst í svíma
útaf öllu því,
er hann skeði,
hvaraf meiri með
málefnanna
eptirgrenslun ek
uppfræðst hefði,
um Guð, undr Krists,
ok þat hann leið!
Hvílíkt lánleysi
er líf mitt orðit!
hví fyrir heli
hafa sparat,
ein eptir aðra,
orustur mik,
skeitin skjótfleygu
ok skotvopn bitr?
Hví ek hefir ei
heyrt fyri laungu
hinnstann heljar-slags
hvin af boga?
brand þinn bráðliga,
Brúte! þú greipst,
er þú efaðir
umbun dygðar!
En ek, sem nú sè
svo mjök stærri
dygð utann afláts
ólaunaða,
tef við at taka
tvímælin af!
hvað er magn meira,
sem mik hindrar?

Enginn ótti
nè ofboð dauða,
hann því helzt til opt
hefir ek sèðann
bísna blóðugum
bardögum í,
ok meðal arna,
er æti sóktu,
geiglaus gengit
móti greipum hans.
O nei, ek óttumst
eigi dauða;
en hvat er þat,
sem mèr aptrar þá?
hvað mèr innblæs ógn
aðframm komnum
alvarligs áforms
uppfyllíngu?
Mundi með því ek
móti syndga
enum ókennda?
ok er hin dulda
máske makt,
sú er mik bindr,
viðvörun nokkr
til at varna því?
Sè dauði minn mjök
mótgjörð honum,
þá mætti þessu
þánka minna
alltíð áformi
einhvörs vera
sátt, til at færast
í fullann gáng!
En hvörnig ek fæ
útgrundat þat,
hvört af mèr hèrmeð
hann sè styggðr?
mun hin tídt tèða
titrandi spurn:
hvört ek styggi hann?
vera hels ótti
harla djúpt í hug
hjá mèr fólginn?
O! vissa' ek víst
at þat væri svo,
hve vilda'k vinna
enni viðkvæmu
elsku lífsins á
ómilda hefnd,
ok þèr, hel! hana
hiklaust offra!
Kneus veg-villur
í voða dymmu
gekk svo grublandi
eptir guðdómi,
meðan vegvísir
til vísdóms hæðar
honum varð ei hönd
hjálpandans enn,
þann hinn þraungva veg
þángat gegnum,
ok hlið harla mjótt
hann at leiða.
Var nú vísdóms port
at vífs baki,
þrotinn var ok þá
hinu þraungvi vegr,
er fagra flutti
ennar frammliðnu
álciðis öndu
engill hennar,
Kebar sæll Seraf,
samkomu til
enna upprisnu
ypparligrar.
Móti Maríu
meginn-skærum
tók með silfursón
sveinninn Benóni,
sá er samstundis
sveimandi þar
í lopti leið
frá ljósu skýi.
Þú sást þat eigi,
þegar hann dó —
sagði sveinn þessi
svo til hennar —
þarna, þar dó hann!
þó hann líta

muntu, María!
upp af mold rísa!
þótt ei sæa'k þat,
þegar hann dó —
svaraði sveini
sál Maríu —
þarna, þar dó hann!
þó samt líta
mun ek Messíam
af mold uppvakinn!
brátt mun hann birtast
Benóni, mèr!
Mikinn — mælti hann —
María! sigr
barst þú úr bítum
fyri blóð Lambsins!
tak nú, svo at sèrt
ein af sýngjandi
svanna sálum Guðs
saltara í hönd!
María mælti:
mun ek voga
sigrenda samann
saungflokka við
(mun ek mega þat?)
mèr at blanda,
þar sem þeir hafa
þó um margar
aldir áborist
ærnpálma,
krýndir kórónum
kostuligustu?
Sveinninn svaraði:
sýng þú Drottni!
kenni ek þèr kvæði,
sem kennt var mèr:
hann enn heilagi
holds forrotnun,
þótt um sinn sofi,
sjá mun eigi!
O! þú uppskera
allmjök stærri
hinni, hvörja sá
Hezekíel,
miklu meiri enn sú
sem munum til
kallaðir koma,
nær kornskerendr
hrópa haustyrkju,
ok hljómr hlíðra!
Eitt korn at vísu
einúngis rís,
er þó kornskeran
öllu stærri,
enn hinna axa
óteljanligu
furðu stóra flóð,
þat er fá munu
alls engin augu
útyfir sèð,
ok öll afarvídd
upprisunnar,
full af feikna mergð
fólks bindina!
Ef þat eina korn
eigi sprytti,
kæmi aldrei kall
kornskerendanna,
aldrei heyrðust há
hljóð básúnu!
ó, þèr, hið eina,
sè eylíf heill!
Himnanna himnar
heilir munu
loksins þyrpast þá
undir þinn skugga,
samannsafnaðir
á sínum tíma!
helit, sjálft helit
hræðiliga,
síðast öllum af
óvinum hel,
mun ei þola þá
þessa skugga
enna almáttku
endrnæríngu!
Heldr af hennar
háum krapti
til grunna gánga
gjörsamliga;

þá muntu þessa
þínum Föður
einvalds afhenda
yfirdrottnun!
Guð í gjörvöllu
svo gjörvallt sè!
heill, Halelúja
hæðstum Föður!
Guð allt í öllu
at um eylífð sè!
Af il upptendruð
unaðsemdar
í blíðu brjósti
Benónis raust,
sú hana heyrði,
hlustaði eptir:
ó, hve sæl ek er
ómælanliga —
mælti María —
minn Benóni!
Með hve mikilli
miskun hefir
hann, sem gefr hel
hvervetna' ok líf,
mildiríkr mjök,
mèr frá heimi,
til at takast burt
tíma valit;
Svo ek sèð fái
enna syndugu
aptr uppvakna
Endrlausnara,
ok þat í þessa
þúsundfaldliga
sæla safnaðar
samfèlagi!
O! þèr hátt höfnu
heilagir Guðs!
blíðir bræður Krists,
bræður mínir,
ok mèr ástfólgnir
eylífliga,
í söfnuð yðar
inntakið mik!
Sendir mik sá mèr
hefir miskunat,
sem mjök miskunar
mèr ok yðr!
ó! þú sannsæli
söfnuðr himins!
brúðgumans brúður
blessuð ok sæl!
o, hvað þú erfir,
umbun stóra!
Hve vèr nýrrar nú
njótum allir
ríkrar röksemdar,
ei' reyndrar fyrr!
gleði, sem með grun
eða grillíngum
aldrei fyriframm
fengum skynjat!
Hvörsu verðum vèr
vel drykkjaðir
af lystiligum
lífsins straumi,
ok þat ókeypis,
fyri ekkert gjald,
yfir ósk ok von,
allir saman!
Hvörja gáfna gnægð
gjörla at finna,
sèrhvörja sælu
sálum þú gafst
þeim, sem þú hefir,
þína at erfi
dásamliga dýrð,
Drottinn, kallat;
ótæmd örlætis
uppspretta þú!
O! hvörjar einnig
allkyns sælu
gafstú gnægtir
handa gáfum þeim!
ok gjört eylífann
aldr hefir
sèrhvörrar sælu,
sem þær vari,
ó þú almætti,
sem allt gefr!

Með þèr, já, með þèr,
sem vèr mest elskum,
at höfum allir
eylífa vist!
hvör stendst þánka þann,
ok þaraf kveiktar
indis auðugar
upptendranir?
hvör stendst at horfa
með hugarsjón
útá þá unun
eylífðarinnar?
Ek missi mín
af megnri furðu,
ó, Guð sem gefr
gjörvallt þetta!
þú sem at því ert
öllu samann
Faðir, frumkvöðull,
fullkomnari!
Ek var fyrst enginn,
aungvir voru
himnanna himnar;
hugsaðir þá
þú upp allt þetta,
ok með þèr festir!
ó Guð vèr urðum,
ok vèr lifum;
Ok vèr uppstigum
iðugliga
um tignar tröppur
tölulausar
af einni á aðra,
æ lengra hvör
sífeldt frá sælu
til sælu nýrrar,
frá öldum alda
annara til,
ok látum aldrei
af at hækka!
því aldrei þrýtr
þik at gefa!
Nú teppti talit
titrandi sál,
full af því þegar,
á þeirri tröppu
hvar stóð, at standa
stærstu gleði;
setti heilaun hríng
hún í furðu
allra erfíngja
hins eylífa lífs;
Svo þeir sýngjandi
svöruðu henni;
varð skruggu skvaldr
skjálf rödd harpna:
Hann er frá eylífð
óendanligr!
óendanligr
er hann, sem gaf!
vèr allir erum
endanligir!
O! traust tilfinníng
tendrunarfull
þess, at vèr þyggjum
þannig allir
náð fyrir náð
af Náðargjafa
voldugum veitta
verna Föður,
einskærrar elsku
eylífa náð!
þorsti, þú sem fær
þik fullslöktann
af lind eylífrar
endrnæríngar!
Fyrr munu falla
fölskvaðar burt
í nótt nið- dymma
nýar jarðir,
ok í hálf-ljóst húm
himnar nýir,
enn at þinuar æ
ótæmanligr
miklu miskunar
megi straumr
synja svölunar
enum sárþyrstu!
Sjá, ens hæðsta hjá
hátróns sæti

útvellur eylíf
uppspretta hans,
eins ok haf, sem heim
heilann girðir!
hann miklu megni
um merkur nætur
dunar foss-föllum
ok um foldir dags;
Himnanna himna
hann gjörvalla
ofannrennur æ
öptrunarlaus,
frá jörð til jarðar
jafnan ferskr
frá sól til sólar
sömuleiðis!
Hinn af sjálfum sèr
sæli heyrir
hvervetna hljóma
hans fagra nið,
ok lystiliga
lífsins sona
kríngum heima hann
fyrir heyrn klíngir,
þángat koma þeir
ok þar uppausa
unun ok undrun
af allri nægð!
O! þèr ættkvíslir
endrleystu,
bræðr hans, sem hel
hlaut, ok vorir!
seinkið yðr ei,
at þeim straumi
hlaupið sem hraðast
hjálpræðisins!
Frammgáng fall-hættra
fóta yðvarra,
þó á stig steiti,
sterkr leiðir
fulltíngis fursti
frægr af hjálp,
hann, sem hrópaði
af hjarta brostnu
hátt fyri fólki:
þat er fullkomnat.
Eins ok einn þreyttr
eptir mæðu
sveitasama dags
sofnar um kvöld,
svo at eins sefr
sá enn sterki
nú á nábeð,
í næðis skugga;
liggr litla stund
ljón af Júda.
Værir þú, víti,
af víngl-dregg hefndar
ei' svo mjök ölvat
ok ært vorðit,
þú mundir þegja,
svo þessi hinn sterki,
sem nú sefr,
af sínum blundi
ok skugga skuli
eigi skunda framm.
En hann innanuskamms
mun sik upphefja,
ok áðr enn hann,
í upphafníngu
sinni, svo fer hátt,
at sik við Föðurs
hægri hönd setr
í hæðstu dýrð;
Mun hans í uaktar
miklum flýti
eitt spor almáttugt
á þik hitta;
hans, ó helvíti!
þess hrausta ljóns,
eðr, aðgæt þat,
undirlægja
lögð í lamasess!
Lambs í reiði.
þá munu þínar
undir þess fæti
andstygðar auðnir
auðari verða,
ok þín dymmu djúp
dýpra sökkva,

með ógn ok ótta
af einu spori
reyrð mjök rammliga
hins reiða Lambs!
En við orð þessi
engill dauða,
Obaddon, fór frá
Frelsarans gröf
ok hinna helgu
hríng, með skyndi;
honum hafði svo
verit hátt boðit:
Nær í nánd komnum
niðurbrots dómi
hótar helvíti
helgra flokkr,
far þá sem fljótast
á fund Satans
ok Adrameleks
í ægi dauða!
Sik hann sveipaði
svörtustu nótt
ok stóð nú stuggvænns
við strönd lagar,
kallandi fast framm
ena fordæmdu
undir alla kvöl
eylífs dauða!
Með bröttum bylgjum
brátt fyrir hann
af kólgu komu
enir kölluðu;
dró þá dymma nótt
dauðans engill
af sèr, þó eptir
á enni hans
eitt sat skruggu ský
skugga-mikit,
svo hann sèr þokar
seint at hafi.
Heimti næsta nú
niðrbrotna
Satan samann
sína krapta,
í sèr alla
sem enn hafði,
ok dauðans engil
ávarpar svo:
Engil-önnúngr
auðnusami,
allt at almætti
öflugi þræll!
hvörjar hefir þú
eða hvílíkar·
oss at anglýsa
erinda gjörðir?
Ek frá ald' ööli,
Obaddon kvað,
gegnt ei hefi hót
hrakyrðum þínum;
mun ek meir í dag
máls þau virða?
heyrið brátt þau boð,
sem ek ber ykkr:
þetta sagði sá,
sem er dáinn,
ok nú rís aptr
upp frá dauðum:
annaðhvört ofann
í afgrunn hèðann
flýið sem fljótast,
eða fylgið mèr
at hálsi, hvar hann
hèkk á krossi!
Rís hjá þeim hálsi
hann frá dauðum
á meðann mínum
mæki þannig,
sem bráðum blossa,
bregð ek á lopt,
svo skjótu skyndi
skuluð þèr verða
hann látnir líta
en lengr eigi!
þarvið munuð þið
þeytast niðr
á ykkar enni,
illvirkjar þið,
hamist ei svo hardt
fyri heipt ykkar!

vist eigi virða
vill hann ykkr
tignar-boðs, at tjá
honum tilbeiðslu!
Ykkr umbylltir
hinn almáttugi,
en þið ut heldr
ei' tilbiðjið,
ok þat er ykkr
ómögnligt!
hvört þið metið meir
mèr at fylgja,
eðr ei fylgið
ok eruð hèr?
Flýið svo flæmdir
í fúlt helvíti,
yðar bíðr beiskt
blýstranda spott,
ok hæðnis hlátrar
hátt öskrandi
í víti verða
ykkr velkomnir.
Af því allmargir,
at þèr flýðuð,
sáu sveitúngar
svartir yðar,
undir eins ok þat
Elóa bauð!
annathvört, sem ek
helir uppkveðit,
útveljið yðr
upphlaupsdólgar!
Satan glápti gegn
með grimd stórri
fljótum framburði,
þó fjærri stóð;
því frá djörfum dör
dauðans engils
streymdu stór-blossar,
þó staðkyrr lægi.
En Guðs óvinr
ok eins Satans
reif upp stórann stein
úr ströud ægis,
sem hann sundrbraut
sèr við enni
í marga mola,
ok sem mest hann gat
stappaði á stykkin
stæltum fótum;
hann lysti at leggja
löstunar orð
á hinn eylífa;
en nú þagði!
Kjósið! uppkvað enn
engill dauða,
ok síns hvassa hjörs
hótandi geislum
skýldi með skýi,
sem skaut upp reyk;
enn þeir eins stóðu
efablandnir.
Ok nú aðfærðist
Abbadona,
horfði hann um leið
er hjá sveimaði
Adramelek á
ok á Satan,
án þess at óttast
æði þeirra,
ok fyrir utann
allt hefudar dramb,
því ei þat var hans
þá at dæma.
Þó hafði hann sik
himneskum nær
Seraf, sem þeir nú
svo fyri stóðu;
þú ert, hermdi hann,
hefudar boði,
en þú, Guðs engil,
eins kennir þó
milda meðaumkvun;
má ek ekki,
ef þessir þora
enir þverbrotnu,
sjá góðann Guðmann
af gröf þá rís?
Hve mun ek mega
mjök úr hófi

dirfast at draga
svo dul at mèr
at mèr tjá takist
honum tilbeiðslu?
vertu velkomin,
velkomin sèrt
þú hin hulda hönd,
sem hrindir niðr
þeim meðr mèr
í mold ok dymmu;
ó þú armr
hins almáttuga!
Æ! at ek mætti
á þat horfa
nær af gröf gengr
Guðmaðr út;
hann er samdi sætt
fyri synduga,
sá enn sannnefndi
Sigrherra!
Satan heyrði hann
herma þetta;
varð hann undireins
upptendraðr,
stamandi stórum
af stækri grimd
varpar orðum á
Abbadóna:
O þú argr þræll
eigi þó Guðs
heldr helvítis!
hrakligastr,
ok æ aumastr
allra þræla!
teppti þá talit
fyri túngu hans
Obaddon engill
ógnarligri:
múlbind fyri mèr
munn þinn Satan!
En þú, Abdiel
Abbadona!
um þik er mèr boð
ekkert gefit,
hvað lengi á hauðri
hèr at dvelja
ok hinn andaða,
nær uppvakuaðr
útaf gröf gengr,
Guðmann at sjá,
hvört þèr veitt verði
veit ek eigi.
Þat get ek þó sagt
þèr með vissu,
at hálsinn allann
umkríng girða
raðir rèttlátra
risnar af jörð,
ok þarmeð ótal
engla skarar;
þessir tortýndu
tveir hann líta,
svoframt þeir sjálfir
sèr velja þat;
svo hans sigur-dýrð,
sem nú vaknar,
hefji þarmeð hefnd
yfir höfuð þeim
þeirra fólskufulls
fyrirtækis,
at firra fallna
sínum Frelsara!
En þú í þessu
þeirra áformi
áttir aungvann hlut
Abbadóna;
enn gaztu gabbat
geðsmuni þína,
Abdiel, með ósk
þess eptirlætis:
at þú minni með
munaðstendrun
ok með unaðsemd
hinna upprisnu
frelsuðu flokka
fengir hann sèð?
Aptr eldheitri
ákefð meðr
ansar englinum
Abbadóna:

ei með allshugar
upphafníngu,
eigi með nunn,
heldr einúngis
at sjá hann, sjá hann,
sæki ek eptir!
Ha! þú hrak-ára
hrakligasti! —
æpir at honum
Adramelek —
ójá, þú varst það!
þú Elóæ
hefir heiti nefnt
fyrir helvíti!
Ek fer, Obaddon,
ofann í víti,
vei verði stoltum,
sem varpa þorir
at mèr álösun
eðr spotti!
stóreflis steinar
af sterkri slaungu
skulu þekja þann
undir þeim grafinn!
Fyri hví fylgir,
fordæmdastí
á meðal engla,
eigi mèr þú?
en þó ekki meir
engill nokkr;
nei, ekkert utann
eintómis sál!
Eflaust óttast þú,
ok ei' fer villt,
at þik ek muni
allraneðstu
við tróns míns tröppu
traustum binda
með Demants dróma
af digrum hlekkjum;
Ok, á meðann ek
afgrunn þánka
ofannsokkinn í
yfrit stórra
held mik á hæðum
hásætis míns,
muni' ek mína þèr
midt á hnakka
fætur harla hægt
hvílast láta!
en þú sèrt orðinn
áðr við hvol
fórn, fyri þína
fýsn til at skríða!
En við orð þessi
Abbadóna
með hugar hrolli
hrygð ok reiði
skriktist skjálfandi,
ok skók sitt höfuð,
ok svarar aptr
Adramelek:
Eigi skelfumst ek
útblossandi
orðum þínum af,
æðandi vargr;
heldr hræðumst ek
enar heilögu
andir ok engla,
ok óvin minn
jöfr Jehóvam;
jafnsnart þetta
sem af vörum var
viðsnèrist hann.
Adramelek ótt
á brott vendi;
strax kvað stamandi
stoltr Satan
með ofsa' ok æði
við engil dauða:
ek þèr Obaddon,
eptirfylgi!
Allt fullt af örum
eptir þrumur
jók á sik sorta
Satans enni,
í því hann eptir
englinum fór;
svo þeir sína leið
svifu báðir,

enn í efa stóð
Abbadóna!
Með æðis óstjórn
Adramelek
vendi í vetfángi
við til baka;
hann velti hamslaus
í hjarta af steini
með grimd geysandi
guðlöstun nú
nauðsvartri, sem nótt
neðsta vítis;
Asett hafði hann
enna heilögu
sælunn söfnuð i
sinni vítis
illri ófreskju
út at streyma,
ok nú hrópar hann
á hels engil:
sjá, ek þèr einnig
eptirfylgi!
Vend þèr við aptr! —
voðaligr
eyðíngar engill
andsvaraði
með höstu hljóði,
sem hörð þruma —
þú skæra sköpun
skallt ekki sjá!
A þín augu mun
ausast blindni,
ok þinn vegvísir
skal vera gól,
skaltu eptir skræk
skjálfandi sveima!
þá urðu þegar
hans þrjótsk augu
stirð ok steinblind,
svo störðu í nótt,
undireins brast á
allt í kríngum
gný ok gjálfr
ok gól í stormi,
er hann eptir því
óðfluga rak!
Eymdafullt ýlfr
sem hann elta hlaut —
ei gat hann annat —
ýmist fjærri
á lot liðanda
eða lángtum nær
skjálfanda með skræk
skelfíngarinnar
var í vængjuðum
voða stormi!
Hastarlig hræðsla,
hans gjörvöllu
megni máttugri
móti at standa,
ok óuefnanlig
yfirfèll hann,
nær hið dapra drýn,
sem dóms básúna,
hrópaði til hans
herfiligt vei!
vei sè þèr! vei þèr,
vældi skrækr!
þókti honum þá,
sem þar nálægri
frá stjörnu steyptust
stórefls fjöll
á hann ofann
með ógna braki,
marin ok moluð
í marga parta,
ok honum áframm
innanum reyk
í bylgjum byltù
brota þeirra!
Nú heyrðu hèrnæst
helgir feður
sem ok Serafim
sóla vegi
útaf álengðar
uppá himnum
ofannstíga sterkt
stórviðri Guðs.
Öll saung-samhljóðun
sveimandi heima

þagnaði, þegar
þeirra sveitum
þessi reiðar raust
ræddi nýa
feikna forundrun
ok fullann stans!
Því nú var þegar
þat hið lága
Tabors fyrrtèð fjall
Föðurs hæðsta
ofannstígin á
almáttug dýrð;
höl'ðu þeir í hæð
hann sèð gánga;
' Frá vana vegar
vissum skorðum
hafði stjarna stór
stöðjat at sól;
hljóð með gaumgæfni
gjörvöll sköpun
ok stórri stilli
staðit hafði!
Fljótt heyrðu feður
fljúga þrumur,
hófu höfuð upp
af hárri gleði,
í himna himna
hlustandi eptir,
næsta hratt niðr
nálægðust þær
á rás óðfluga
eins ok þánki.
Heyrðu þeir nú þær
þjóta gegnum
harla hraðfleygar
hvíldarstað Guðs,
ok, sem frá fjalli
til fjalls, senda
stjörnu frá stjörnu
sterka hvini
endrkveðnum af
óðfara gný;
nú þar nálægt jörð
niðrkoma.
En með ásjónu
alskínandi,
augum eldskærum,
öllum himins
unaðsemdum af
upptendraðr,
yfir alla sveit
upprisinna
öllugr ofann
almáttugs Guðs
einn skein eldslógi,
þat var Elóa!
Samlíkr sólum,
þegar sjálfs undann
skundandi skulfu
skaparans mund,
svo þær folda fjöld
fyrirrèðu,
hrópaði hann nú
hátt ok mælti:
Nú hin stóra stund
strax er komin;
sú Drottins dýrðar
dásamlig stund!
með morgunbrún-
inn uppvekja
Lausnarinn lýða
líkama sinn!
glöggt þèr gáng heyrið
ens guðdómliga!
Niðr Seraf svo
sveif til grafar,
en hið mikla megn
maktarstorms þess,
sem einn viss vottr
var á himni
hans, sem eylífð um
alla lifir,
mjök sinn mikla styrk
mildari gjörði,
at ei' flýði fold
fyrir honum.
Hèldt því aptr hann
hörðum þrumum,
sterkr blès um storð
stormr at eins,

svo hann lúta lèt
í frá Líbanon
gengt gröf Messíæ
gjörvalla skóga,
sem um grund grèru
Gyðíngalands!
Foldin fèkk at eins
frekann skjálfta,
svo frá Seirs björgum
á sínum Pasga
Arnon ok Hermon
öldum fótum
lystilígum allt
Líbanons at
toppi titruðu
ok tinda skýum!
Skelfð, frá Seirs fjalli
fljótit Nílus,
heimslanda hríngr
ok hátt Karmel
lètu líkt móti
Líbanons hæðum;
jafnframt jálmaði
Jórdanar á
með rás á reiki,
frá rótum neðann
allt til uppsprettu,
sem ok Amana!
Þó skalf enn eigi
hins andaða gröf;
enn lá óhrærðr
við op hennar
sá hinn stóri steinn
á stað sínum,
eins ok honum, hèr
svo at hurð væri,
hefði vellt verit
af vinum Jesú!
Glóandi af gleði
Gabríel niðr
horfði hèr á stein,
því honum var
heitit því af þeim,
sem þar hvíldi:
þú skallt burt frá beð
bjargi velta!
Hinir himnesku,
sem heyrðu gjör
hark ok háreysti
hafs ok strauma,
skóga skarkala,
ok skjálfta fjalla,
enn merkja máttu
mannlig eyru,
ásamt með englum
upprisnir menn
fèllu fagnandi
framm nálægum
Griða-gjafans
fyri guðdómi.
Adam bað upphátt
eins ok með rödd,
sem göfga gelr
gleði saungva;
svo með hljóða-hreim
heima rásar
engla bylr bezt
básúnu raust,
er þeir undurverk
hins allrahelgasta
heiðra með hróðrum
hátíðligum.
Eins ok ræðu raust
rèttláts föðurs
buldi nú blönduð
við blástr lopta,
ok viðr vind-þyt
af viði pálma,
við bergmál bjarga,
ok svo bylltist framm,
flaug ok fleygðist
með fljótum straumum.
O! þú, af aungvum
sem ert skaptr!
eittsinn borit barn
með barns gráti;
einn vís únglíngr,
yndæli Guðs,
sem ok sálnanna,
er syndgat höfðu!

Hèrnæst himneskr
Heims-fræðari,
frömuðr frægstr
af furðu verkum!
mannvinr mestu
meðaumkunar!
ok svo eptir þat
æðsti prestr,
sem þik sjálfr framm
seldir í fórn,
ok inngekkst í
þat allrahelgasta,
synd ok sett bölvun
fyri syndara!
Æ! loks áhengðr
illvirkja kross,
ok þar andaðr!
ó! hve megum
vèr þik vegsama
verðugliga,
ó Guð, sjálf elskan,
fyri allt þetta
gott, sem gjört hefir
ok gjöra munt!
Þú, hvörs nálægð nú
nemum gjörla,
þú munt á þessi
þat gjöra stund!
innann augabragðs
muntu uppvakna!
sjá, öll vanvirða
vesælls dauða,
krossins vanvirða
voldugum mun
þínum liggja þrykkt
þá undir fótum!
O! þú, sem ert
í öllum stöðum
æ viðverandi
vor Frelsari!
en vorum augum
opinberaðr,
vel sè oss virðtum
velgjörníngs þess,
at sjá þik senn
af svefni vakna;
æ! sem þik sáum
sofna á krossi!
Vakna, vakna
nú í vetfángi
mun hinn mikli nár,
mestr dauðra,
sá hinn sann-helgi
sofnaði Guðs!
Eins ok þú komst þá,
þegar sólir
af nótt altómri
útkallaðir,
sjá, þú svo kemr
af sveitum lífs,
þúsund þyrpíngum
þúsundsinnum,
allr umstreymdr,
ok undann þèr
fjörgefandi fer
fljótr stormr!
Himneskt blæva-blak
brátt mun skilja
sjálfkrafa sik
frá sögðum stormi
ok þitt uppvekja
andvana lík,
þú sem eylífð um
alla lifir!
Sjá yðar augu
þat hit yzta skin,
dregil af dýrð hans
dásamligri,
sem nú skín niðr
nálægt stjörnum?
ok þá rósrauðu
rennandi morgna,
fyrir hátign hans,
sem heldr mýkja
guðdómsins geisla,
svo getum sèð?
O! at allir
sem eru skaptir
honum brjóst bljúgir
beygi sín knè!

fyrí fætur hans
með fyllíng náðar
krýndir kórónum
kasti niðr!
Hann kemr, hetjan,
til at hertaka
höpt ok fjötur
hertekinna,
ok gefa gáfur,
þeim hann grið keypti,
enar yppurstu
eylífðarinnar!
Kom, lát í ljósi
lífgandi kraptr
blæ þinn blaktanda,
þú blástr Guðs!
lát þann líkama
til lífs vakna,
hvörs ör af undum
æ munu skína
fegur hægri hjá
hendi Föðurs
enn sól, ok synir
hins sæla ljóss,
fyrst getnir glæstum
á guðdóms himni!
Ok þú unun,
sem orðlaus verðr,
legg þèr mund á munn
ok mæl eigi!
hljúg ok biðjandi
bíð þeirrar stundar,
at hinn andaði
uppris af gröf!
O þèr arfar dupts
enn verandi,
þèr mínir megir,
ok mest allra
hópr harla fár,
er hann sjálfr
valdi svo væruð,
ennar veglign
mjök eptiræsktrar
upprisu hans,
gjörvöll grafa lönd
gegnum vottar!
Hvörjum hryggðar tár
hrynja af augum;
þèr, sem þann liðna
þekkið at eins,
sem var unnit á
með ofríki,
en hvörki hans dýrð
nè hina kennið
lystilignstu
sem hann lannar með!
Gel ek gjörvallrar
guðdómligrar
ósegjanligrar,
sú er afsprettr
enni yppurstu
upprisu hans,
blessunar, börn mín,
bæn fyrir yðr,
frægstu fyllíngar
fyllíngu þeirri,
ok gnægð gnæfandi
yfir gnægð alla
ek til eylífs lífs
yðr blessa!
Blessat sè böl þat,
sem berið þèr,
sèrhvört streytu starf
ens stríðanda,
sèrhvör sigr þess,
sem er styrktr,
yðar súr sveiti
í hins sannhelga,
sem yðr eftir,
erfiði hèr!
Yðar ángistar,
yðar tára
eðr yðar blóðs
allir dropar,
eptir því sem einn
hefir ályktat,
hann sem hvörn þeirra
hefir talit!
Ætíð ágætr
yðar ræðu

veri vísdómr
vafinn blessun!
heilagleikr hár
yðar hegðunar!
ok hún á himni
hvervetna sè!
Fylgi föst blessun
furðuverkum,
sem Föðurs sjálfr
ok Sonar andi
yðr útbrynjar
ok eblir með!
minna móts blessun,
enn ek mælt hefi,
hirðið ei hreppa,
hún forgengr!
Einúngis at þèr
í hans nafni
ok krapti, er kallast
Kristr Jesús,
döprum deyendum
ok dauðum bjóðit,
at þeir upprísi
ótt ok gángi!
Sjálfir sèuð þèr,
nær sofnið loks,
hvað bezt blessaðir
barna minna,
ok þá allra helzt
ósegjanliga!
Yðr verði, við
veðhlaups enda,
eptir endrburð
til eylífs lífs,
sællra sigrenda
sóma kóróna,
ok útvalinna
öldúnga trón,
öllum ættkvíslum
yfir at dæma!
Hún, sem hjá Adams
hlið standandi
nú skrýdd með skini
skærara varð,
í því hún augum
eptir dýrðar
hátign horfði,
sem í himni kom,
Ok fèkk formerkta
fulla blessun,
er mundi inna
hinn upprísandi,
ypparlig Eva
útrètti hönd
sína gagnvart gröf
ens Guðdómliga:
O! renn eylífa
uppspretta, renn!
brjót í sundr björg
brátt streymandi!
sjá, þú sefr enn
í sæng nætur,
brjózt gegnum björgin
ok bruna framm!
Eylíf uppspretta
hins eylífa lífs!
svala sálum
allra sár-þystra,
allra sem ákaft,
eins ok hjörtr
af þorsta þjáðr,
eptir þèr kalla!
O þú, í heimi
æðra ok betra
streymandi straumr,
í strandar þinnar
bezt lífganda blæ,
í hið blíða kul
skjóls þíns ok skugga
skjótt lát tekinn
gangna móðann mann,
sem miklliga
keppist at komast
inní Kanaan;
Svo honum hressíng
háleit veitist
ok styrkíng stöðug,
til at standast gáng
frammvegis á ferð
framandi stíga,

svo at hann sæt von
um sína megi
egin-upprisu
endurnæra!
Lystiligust von,
ljós af himni
dapurs deyanda
fyri dymmri sjón!
þú von, at verða
vakinn aptr!
já von, at vera
í vist með Kristi!
Lát þú ausit út,
auðug af náð,
í þánka þeirra
þinni gleði,
sem í Kristo sætt
sofna hèðann,
svo at síst skelfi
sundr-rotnunar
í vænd verandi
viðbjóðr þá!
Sæla sigurstund,
sem munt þegar
bráðum bruna framm
brjóst at tendra;
í þèr lýða líf
liggr fólgit
lángt yfir allt tal
ódauðligra,
Allra, sem útaf
Adam komnir,
hvönær helzt sem er
fyrir handann gröf,
lifa munu, líf
liggr fólgit
í þèr, óskastund
upprisu hans!
Hvílíkt heilla líf
eða hvílíkir
slíks utan enda
eigendr lífs!
allir eruð þèr
af mèr komnir!
eylíf ljóma lind
lífsins eylífa,
brjót sundr björgin
ok bruna framm!
þú munt víst verða
at vötnum stórum
ok Guðs haf gjörast,
gef framm strauma!
þannig báðu þau,
þá til skýa
lypti Seraf sèr,
sem viðr gröf
hins dána dvaldi
móti dýrð Kristi!
Eins ok eittsinn mun
ástadt verða
fyri þeim þúsund
þúsundsinnum
dróttum Drottins,
sem dáit hafa,
nær mikið mein-vei
í frá manns falli
allt til efsta dóms
útvælt hefir.
Ei meir uppstígr
einum sèrhvörjum
með dægra dropa,
sem dettr í
haf ens almenna
óstöðugleika,
grátr eins, sem ólst,
nè andláts hrigla,
til himins, helgra
meðal hásaungva
þeirra, sem síst
hefir saurgat hel;
Sem þeim verðr við,
þegar vegligri
morgun-brún meðr
ens mesta ok efsta
dögum öllum af,
mun at eylífu
loksins linna
þat hið lánga vei,
harmr ok hrigla
hljóðlaus orðin!

þeir útaf unun
með ógu glaðir,
sínum hátt höfnum,
heitra þakka
augum af munu
ör fella tár
vegna sigurs síns
ok sáluhjálpar!
Sigurhróss saungvar,
sem þeir kveða,
munu við mikla
meginn-kappi
básúnu beita,
er bana svefni
af mun uppvekja
örendra dupt,
ok enn hærra hlut
hafa í stríði!
Þvílíkt sem þúsund
þúsundsinnum
reyna þá raðir
enna rèttlátu,
fann nú hinu færri
flokkr, sem beið
við gröf vors Herra
ok vanmegnaðist
af þess eptirbið,
sem átti að koma!
Þegar skýin skjótt
skiptust sundr,
ok göfgr Gabríel,
einn Guðs lógi,
sveif með fljótri ferð
at fold niðr,
þá hann brátt ok beint
frá Betlehem
yfir Golgata
til grafar flaug!
Er frá Efrata
allt að krossi,
ok þaðan aptr
innundir gröf
hristist hauðrit
með hörðum skjálfta,
þá, sem feikna fjall
fèlli, Satan,
ok gildir garpar,
sem gættu at líki,
hratt eins ok hálsar
hrutu niðr!
Þá hinum þúnga
þróttkur velti
burt frá grafar gátt
Gabríel steini;
þá með Guðs gleði
gladdist sjálfr
Jehóva, Jesús
af jörð þá reis!
Þat út at þylja,
sem þá skeði,
at eins álengðar
með óð, slíkri
nýrrar náðar hæð
nálægja sik;
ok lotu-lágum
líkt at stama
bergmáls óm einum
um unun þá,
ó þú upprisni!
ok um unun, pína,
fögnuð allra,
er þik sáu;
Þat er ofdjörf ósk
þó eldheit sè,
ok meðan ek nú
upp til himins
með hana' at hefjast
hardt viðstrita,
æ! til óuýtis!
öflugliga
hún sjálf með sama
sannfærir mik;
At ek ennú sè
ofaun jarðar
at gröf gángandi,
en gjörðr eigi
enn nú at sáði
fyrir uppskèru,
sem er ávöxtur
upprisu Krists.

Orðit var auða
ok yfirgefna
kríngum Kristí gröf
kyrrt í fyrstu;
þó leið eigi lángt,
áðr ljómandi
enn meir orðnir
af aukníng sælu
fullsællra flokkar
fagnaðar dans
mikinn mögnuðu,
sem morgun stjörnur,
frumgetin fóstur
er fæddi sköpun.
Því Soninn sínum
sáu þeir nú
bana bardaga
burt frá risinn,
ei nú útleikinn
eins ok á krossi,
með hnígnu höfði
þegar hèkk hann þar!
Allr umvalinn
yppurstu dýrð
sveifstu, Sonur Guðs
sæll, yfir steini
gínandi grafar,
guðdómliga,
skrautligar skrýddr
enn skíra megi
hæðstu sigurhefð,
Halelúja!
Með sigri, sigri
ok sigurhrósi
yfir allri makt
eylífs dauða,
ó þú sem öllum
hefir æðri makt!
hvörs nafn heilagt er,
ok í hvörs nafni
öll knè sik ætíð
auðmjúk begja,
á háum himni
hvört ok eitt knè,
á jörð ok undir
öll knè lúta!
Borinn Betlehem
borg Efrata!
þú hvörn grasgarðr
Getsemane,
ok en hulda hæð
höfuðskeljum,
eins ok illvirkja,
aflífuðu;
þann gröf aptr upp
hefir oss gefit!
O! þèr djúp, dýrstum
fyri drottnara,
er nú yfirvann,
yðr hneigið!
höndum þínum, hæð,
fyrir honum lypt!
hef, höfuð-engill
hörpu þína
fljótt fyri honum,
fyrstum tróna,
í himna himin,
með háum saung!
Andvarpið allar
einum rómi,
mín ok með yðr
manna raddir,
foldar dupti frá
fögnuði þeim
yfirlýsið ört,
at hann lifir!
Fyrir hástól hans,
hans, sem lifir
um eylífð alla,
munuð eittsinn þèr,
sem nú fergðum framm
fögnuði stynjið,
unnu uppkveða
ósegjanliga
stórum stilli þeim
stórrar náðar!
þeim er vort eðli
eittsinn hefir
uppá sjálfann sik
svo sem bræðra,

en yðart eigi,
englar, tekit,
honum sem heilagt
hold er ok bein
bezt Adams borit
af heini ok holdi!
O þú, sem einn
hefir alla makt! —
hrópuðu hærra
helgar sálir
fyri fögnuði,
enn flokkar engla —
hvörs nafn er heilagt!
hvörjum fyrir
öll vor auðmjúk knè
æ begja sik!
Fyri hvörjum, hvör
heimugligasta
tídt sèr titrandi
tilfinníng vor
í djúp djúpanna
dýpstu varpar,
hvörn nöfn, at nefna,
eigi nægja til,
ei heldr heiti
þitt ið heilaga,
upphafit sem er
öllum framar!
Hæðsti höfundr
hreysti-verka,
frábær forvirkja
fullkomnari,
í frá upphafi
alfaðr
ok at eylífu!
uppvakti þú,
æ at eylífu
ok frá upphafi!
En þinn einnig var
allstuttr svöfn;
eptir þat at þú
þeirri níundu,
sem ei nú var nein
nætur stunda,
dags, á dauða stund
enni dymmustu
sannarliga svo
sofnaðr varst,
at þú allteins skjótt
uppvaknaðir,
sem þú sjálf-fús
móti svefni tókst!
Þaraf þinni raust
þó kallaðar
veltu sólir sèr,
sem ok jarða
hlýðnir hnettir
kríngum hvel þeirra,
ó þú Guðs eginn
allra fyrsti!
Ok þú, auðugr
af allri náð,
sá hinn síðasti,
þú sjálf mildin!
þú sem eitt ok allt
endurnýar,
hvör alla hluti
gjörir himneska!
einnig vèr erum
enir hinnstu.
Af þèr er þat til,
at vèr lifum,
af þèr erum vèr
ódauðligir,
ok munum allar
aldir vara
alla fylling um
eylífðarinnar,
svo lengi sem þú
sjálfr ert Guð,
munum vèr, minn Guð,
með þèr lifa!
Þögnuðu þeir nú,
því síns milda
virðti þá viðlits
sá hinn vaknaði;
þeir af nýrri nú
niðurvarpaðir
svo stórrar sælu
sálar-teudrún

orðlausir urðu
þá allir strax.
Sem þá ei þylja
þythljóð lengr
ekrur uppskeru,
ok sèr niðr
at hauðri halla
fyri hreggs megni,
þá er himin heill
hefir sínu
úthellt óveðri,
ofaná þær,
en þó allfáar
at eins stángir
sín öx hefja hót,
hrist af stormi;
Svo hjá sinni nú
svifu móður
í hríng heilagra
ok hátt sèr lyptu
hennar sjö synir,
sem forðum öll
prýddust með pálmum,
píslarvottar,
þessir þar nú
eigi þögðu meir,
heldr hófu saung
hátíðligann.
Tíð er, tak þik upp
til at dansa,
hauðr, sem heiðr
heppnaðist sá,
iðrum opnuðum
í at lykja,
sem í mjök mjúku
móður skauti,
Jesú Kristi — jörð,
jálma þú! — hold.
Upprisinn er hann
orðinn skelfðu
harla lángt hærri
hauðrs dupti,
frægsti frumburðr
enna frammliðnu!
sèrhvör sæll himin
sá þik koma!
Sigurfurstans frá
fótum sterkum
grundar skjálfti gekk
í frá Golgata
allt at mjök miklu
Móría fjalli,
skalf hinn skekni kross
með skelfðum fjöllum,
musteris mænir,
ok mjök há bust!
Því tak þik nú upp
í þinni prýði
lystiligri, jörð!
ljós þitt kemr;
ok nú yfir þèr,
ýngstri barna
skærrar sköpunar,
skín upprunnin
dásamligust dýrð
Drottins Jesú!
Þú kær kóngsdrottníng
kölluð verðr,
ok hans Blessuð, bezt
sem bjó þik til!
varst þú ei svo væn,
ei svo vel metin
nè hrósi hafin
í himnum öllum,
þá fyrstum þína
þú á morgni
eptir fæðíng framm
fullsköpuð komst.
Mjök eru margir
megir þínir,
ríkt skipuð er röð
enna rèttlátu;
þá muntu, móðir
mörgum börnum
ódauðligum at,
æ senda burt
útann afláts
í alla himna;
Svo þeir sakleysis
sóma-klæðum

helgra hátíða
himneskum í
sælum sýngi lof
sigurherra,
með nýum nöfnum
næsta fögrum,
frægum Frelsara,
sem fèkk þá leyst!
Dansa dillandi
þú dauðans háls
hvörjum hálsi meir
heillrar jarðar!
framar fjöllum Guðs,
enna framliðnu
grafir gjörvöllum
gleðjið yðr!
því at þeir munu,
sem þèr geymið
sofnaða, af svefni
sínum vakna.
Þú munt þá, ó jörð!
þik upphefja
á hinum efsta
allra daga
útaf dóms dupti,
er dæmist heimr,
eylífs Arfa Guðs
fyrir almætti;
Þess sem þín huldu
þá lokuð djúp,
nú aptr opnuð,
iðra þinna;
af hans almætti
endursköpuð
til fegri foldar
muntu frammkoma.
Yfir þèr mun þá
þaðan í frá
ei' ríkja röðull,
nè á rás þinni
framar fylgja þèr
farandi máni;
þik, sem þjóð rèttlát
þá mun byggja,
mun ens eylífa
uppljóma dýrð;
hann, sem á hálsi
höfuðskelja
lèt sitt líf ok blóð,
mun þitt ljós vera!
Þessir súngu svo
af söfnuði,
bræður bráðgjörvir,
blómguðum með
pálmavið prýddir,
píslarvotta;
þá er þann varla
þekkt Stephanus
fèkk, sem í fjarska
ok fyri dymmu;
Hvörs hann vitni var
valinn at bera
um satt sigurhrós
með sínu blóði,
kominn fyrst í kjör
meðal kristinna,
frumborinn bróðir
blóðvottanna.
Enn hve þú varst þó
þínu pálma
mjök nærri merki,
mikli Stefán!
hvörsu skammt var skeið
er skunda hlauzt,
sæli sigrari!
inní sal himins
frá kærkomínni
köllun þángat?
Þann er þú standa
þá sást opinn,
ok hjá Guðs hægri
hendi Jesúm;
blóð þitt beljaði
af barsmíð grjóts,
sem þik svo marði,
at þú sofnaðir.
Jafnsnart Jedidot,
jóð hið ýngsta
bræðra blóðvitnis,
ok Benóni

meðr María
útaf mikilli
fagnaðar furðu
fljótt sik þrifu;
hvört í annars hèldt
heiðurspálma.
þannig svífu þau
þá frá skýum
ofann gagngjört
at gröf Jesú,
ok krupu kyrrlát
á knè við stein,
sem lukti' ei lengr
leiðis munna.
Öll litu eptir
hinum upprisna
augum sínum upp
með elsku slíkri,
sem er helzt til há
fyri hjarta manns,
ok túngutak
at talast kunni.
Ef fyrra fjöri
á fold ek lifði —
mælti María
meðnjótendr
helzta hlutskiptis
hjástadda við —
ok þótt æfi mín
úng þá stæði
í bezta blóma,
væri brennandi
ástar, er ek finn
augnablik hvört,
ok mildi-mæta
mèr víst dauði!
Sèr þú, sjáið þið,
sæll Benóni!
ok dýr Jedidot!
þann enn dýrðliga?
hans mjúkt mildaðann
mikinn glansa?
oss, sem erum smá
ok úng blómstr,
nýsáð á Saron
sælufulls himins,
eptir megns máta
mildaðann svo?
Ok hinum einnig
eikum cedrus
við megn mildaðann,
því myndat hefir
endanligann einn
Elóam hann!
ok þó er hann víst
annar þessum
enum útvalda
engli stóra!
Annar! — upphrópar
Elóa þá,
er með kæti kom
ok kraup niðr
hinum þremr hjá —
hvörjum annar!
sá er sannliga
svo fullkominn!
Öllum yðr, Jób,
Abraham, Móses,
þèr dýr Daníel,
ok dauðans engla
þú hinn fyrsti, þèr,
ok þèr, Salem! —
því einnig þessir
voru þar komnir —.
þèr mæt María,
mèr ok ykkr.
jafnt, jóð Benóni,
ok Jedidot,
er hann sá eini,
öllum saman,
sem ok sèrhvörjum,
sá vèr elskum
einn framar öllum
inniliga.
Einn, hvörs örlæti
ótæmanligt
gjörvöllum gefr
eptir girnd sinni;
sem er sèrhvörjum
sá hinn bezti;

einn hvörjum einum
elskuverðastr!
Ok, — þessi hinn ærit
ypparligi,
aldrei grant gegnum
grundaði þánki
öflgum vængjum á
yðr hefji!
eylífs Föðurs einn
sá hinn eingetni,
elskuligr einn
frá eylífð kær,
einn at eylífu
elskandi Sonur!
Hèr verða villir
vorir þánkar
ok í svim sökkva
sinnuleysis
á vors yztu þröm
endanligleiks!
Þú Herrans hái
höfuð-engill,
árla borinn af
allsherjar sköpun,
þánka máttr minn
missir gjarnann
sjálfs síns í þessri
síns upptendrun;
Hvörsu lánga leið
sem frá lýritta —
mèr er þat ei þröm —
þíns endannleiks,
mik þó á mínum
merkjum svimar!
svo ræddi samann
sál ok engill!
Æ fleiri ok fleiri
flykktust sællra
gagngjört niðr
at grafar steini;
þik, mjök nærri þèr,
þeirra bróðir
ok Endrlausnari,
umkríngðu þeir;
Ok með annari
yndis gleði,
enn heimr hefir,
hátt sik glöddu,
annari enn þeirri,
sem óskað getr
hann sem hèr gengr
hvervetna' í nótt.
Hèldt samann höndum
til himins lyptum
aldinn Abraham
upphrópandi:
ó sigursæli
Son Jehóvæ!
ok — syngjið allar
eptir mèr þat
hátíðar hörpur
hèrverenda
kríngum mik kærra
kunda minna,
unaðs megni með! —
ok minn sonur!
Hvörsu hóf verna
hæðstr Faðir
þín stór þrekvirki
þèr at launa!
híngat á hauðr
af himni þínum,
æðstum stillis-stól',
stègst þú ok dóst!
Öllum heimum í
aldrei, þeirra
frá sköpun, skeðu,
nè ske munu
um allar aldir
eptirkomandi
nokkur verk, sem við
verk þín jafnist!
Vegsamligann vèr
vors Frelsara
guðdóms gjöruníng
getum at líta,
yfirskininn af
alla vegu
síur sendandi
sóla skörum!

Gleðjist af gleði
ens glæsta Serafs
ok furðu fögrum
fagnaðar saung
meðdýrkendr! mjök
fyri Messía!
glóandi af glöðum
geislum himins
yfirleit engill
Elóa þá!
Hóf sik úr hafi
hugar furðu
um síðir Adam,
ok útaf straumum,
sem hann sökk nú í,
sól fegra ljóss;
þúsund þánkar hans
þegar voru
glöggt grundandi sál
gegnum flognir,
eins ok bráð elding
yfrit hraðir
undanusendir ört
augnasjón hans;
Skjótt at hels hálsi
frá háum skýum
niðursveif hann nú
ok nam staðar
Herrans krossi hjá,
ok honum mót',
sem dauðann sjálfann
sigrat hafði,
blíðliga breiddi
báðar hendur:
Sver ek, sagði hann,
við sjálfann þik,
þú sem um eylifð
alla lifir!
at uppfrá þessu
aldrei verðr
dauðinn dauði;
ok á deginum
mikla, þegar þú
þína stóru
fullkomnun fremr,
frammkoma mun
sèrhvör sofandi
af svefni vakinn!
Jafnsnart sem Jesús
jörð ok dauða
þúngum, þeim er hann
þoldi á krossi,
ódauðligr af
uppvaknaði,
tók til upphafníng
tignarlig hans;
hún fór hvervetna
hækkandi stígum
tröppu af tröppu
uppá trón Föðurs,
til hægri handar
honum sjálfum,
Hvar prís ok heiðr
honum skyldu
verðlaun vera,
sem viljugliga
hafði sjálfann sik
svo frá þessum,
í dupt dauða fjalls,
dýrðliga sess
næsta náðugr
niðrlægðann.
Upphóf til einkis
Elóa sjálfr,
með helgri hörpu
hátíða saungs,
sik í sálmum þeim,
sem nú streymdu
útaf anda hans.
allra dýpstu
fylsnum forgefins,
er hann freistaði
Guðs æru göfgun
at gala þá.
Kenn mèr, kvæða mær
kæra Síons!
stutt ok stök at eins
stef ennar miklu
upphafníngar um
ypparligleik,

sem hófst við hreysi
hrasaðra manna,
en nú til náðar
á ný tekinna;
Ok svo æ lengra
iðugliga
um hærri ok hærri
hækkaði stig;
ó lær, álengðar
eptir honum,
mik, hèr at horfa,
sem himnatróni
upp at liðlángann
ljóss-veg gengr.
Astheitr ofann
til Adams leit
Endrlausnarinn,
ok í því bendti
einum engli,
þeim er önd flutti;
þannig sagði sú
til síns leiðtoga:
Þú furðu-fagri
fylgjari minn,
en þótt ókenndi!
hvör er þessi
hinn mikli maðr
ok mjök tígni,
en þó yfirtaks
óttaligi,
sem stórum stendr
á stein-hól þar?
(Eng.) Lætr þá líka
lítit eigi
þú til þykkfylktra
þeirra skara,
sem ótal eru
umhverfis þann,
ok glöðum geislum
glæstir skína?
Æ! ek get eigi
augum mínum —
svo ansar öndin —
af þeim litit,
sem þú fljótfara
færir mik til!
hann er hèr í sveit
helgra guða!
tilbið þú með mèr
hinn mesta Guð!
(Eng.) Sá er hinn sami,
sem þik dæmir!
(Sál.) Vei mèr, Júppiter,
Júppiter, þú
er á ólympo
uppi drottnar,
dýrstr drottnenda,
ok dýrðligastr!
Þú máttar-mikli,
sem mik flytr!
ó hvað þín augu
mèr til ógnar sjá!
mundi Minois,
manna dómara,
hinn geig gjörandi
guðdómr þat?
Hvört lykr hauðr
hèr um svæði
ógnarligum upp
afgrunns dyrum?
nöldrar hèr nærri
niðr Kókyti?
duna þrumum þá
yfir þeim straumi
í nánd við okkr
eiðar Jóvis?
Helzt til harðráði
handleiðir minn!
jafnann þegir þú
við því öllu,
er ek eptirspyr
óttasleginn!
sór hann seinast eið
er ek sofnaði?
flegir hann mèr framm
í Flegetons djúp?
Því næst þannig
við þennann dauða
jafnsnart kvað Jesús:
Júppíter, Mínos

aldrei eru til;
en svo hrópar
frá lúðum löndum
laungunarfullum
dansfull drótt til mín:
Drottnari vor!
Hann at svo sögðu
samastað nefndi
af sèr ætlaðann
önd hins dauða
með einu orði
fyrir englinum;
svo fèkk í fyrsta
fótmáli lètt
tröpustig tekit
hin tignarfulla
öndverð upphafníng
eylífs Sonar,
eins ok upphefjast
afreksverk stór.
Mælti votta við
voldugr Jesús:
fyrrenn þat ek fer
til Föðurs míns,
mun ek tídt tefja
á Tabor fjalli,
sá skal vor settr
samkomustaðr;
lengr litu þeir
Lausnarann eigi,
ok til Tabor nú
tóku sèr flug.
Eins ok skelk skotinn
skeldist niðr
Satan, er hann sá
sigurherra
aptr upprisinn;
enn lá hann svo
sinnulaus með svim,
sviptr rænu,
ok grúfði gagnvart
grafar steini;
Gegnt sèr heyrði hann
hraðfleygum líkt
geystrar þrumu gný
Gabríel koma;
þann hann loksins leit,
ok með lángsemi
ok stóru striti
stóð á fætur.
Steyp þèr — svo sagði
sigrarans engill —
í þín dymmu djúp!
hví dveir þú
hèr á hauðri meir,
háðr víti?
ef þèr enn væri
unnt at nema,
þú umsíðir þat
mundir þá læra:
At stríð ok uppreist
hins endanliga,
í gegn þeim, sem er
óendanligr,
er þeim, sem ávallt
hefir ósigr
ok þó æ stríðir,
endalaus kvöl!
en þèr eflaust þat
aldrei lærist.
Svo flý sem fljótast
í fornt dýki,
sundr ok samann
síengjandi
þik af rammri raun
ráðagjörða
enn um óspektir
ok upphlaup ný.
Vit þó — en varast
ok við því sporna,
at ek úttali
enn þá nýa
þèr búna þrumu
þúngrar hefndar!
forðast þat ok flý
sem fljótast burt!
Þá flúði fjandinn
ok fór sinn veg;
en á öræfum
aptr tafði

einnrar óbygðrar
eyðimerkur;
hátt skagauda hann
hèlilt sèr um dráng,
stóð svo ok starði
stirðum augum
útum auðn þessa
afarvíða.
Eltið hann allar
ógnanir Guðs!
gall við Gabriel,
geystum stormi
eptir honum í
ótt komanda;
Satan lèt sígast
frá sögðum dráugi,
ok með gný geysar
gegnum sköpun
heim í hegníngar
helvíti sitt.
þó áðr enn hann
inngekk sjálfa
í púka pælu
viðr port hennar,
hann drýgði dvalir
daga margra,
þeir er hann þýngðu
með þraut ok kvöl.
Tvær hafði tvistar
tafit nætur
biskups sjálfs í sal
samkoma presta;
synjat var þeim svefns,
en sáu loks
aptr uppreuna
ítrann morgun.
þegjandi þrumdu
þeir í setu,
ok þenktu um efnis
endalok þess;
sá hinn stóri steinn
með sterkt innsigli,
gröf varðveitandi
vakt Rómverja,
ok hinn andaði,
sem inni lá,
svifu sem myndir
sálum þeirra
óróligum æ
fyrir augum nú.
Uggfull óvissa!
með öflugri
þirlaðirðu þeim,
sem þèr fylgir
umkríng án afláts,
órósemi,
með bísna bylgjum
bröttum sem turn,
ok þínum öllum
ofsa stormi;
upprann enn þriðji
óttadagr!
Viðr vors Herra
vaktaða gröf
rekkar Rómverskir
rakna tóku
nú við á ný,
ok náðu koma
til sjálfra sín
ok samanrædda:
Æ! hve varð þèr við?
vissa'k ei fyrr,
en ek heyrði hratt
hauðr skjálfa;
datt ek við dyn þann
í dupt niðr;
eins fór fyri mèr,
kvað hans fèlagi.
þá mælti enn þriðji,
þó með hræðslu
stórri studdist við
stallbræður sína:
hve var því varit?
vargr hrærðist,
ok við klett um koll
kastaði mèr.
þá kvað enn einn:
eflaust þenkti
ek þá með mèr,
at mundi deya,

nær enn hvassi hvein
hvirfilvindr,
ok hinn mjök mikla
molaði stein;
ó nei, hann er enn
ómolaðr,
enn þó ei liggr
við op grafar.
I því hrópar hátt
höfuðsmaðr;
vísar honum veg
einn af vaktinni:
ef þèr eruð hèr
enn á lífi,
nefnið nöfn yðar!
þeir nefndu sik.
Kneus gekk í gröf,
ok gat at líta
at hún með öllu
var orðin tóm,
en burtvellt bjargi,
sem byrgði hana;
grafar gætenðr
gjörðu sama,
ok svo með undrun
aðskildu sik.
Einn tók hann til sín
þá talat hafði,
ok svo með sama
sagði til hans:
bregð þèr sem bráðast
til biskups hallar;
fær mèr aptr fregn,
fundr nokkr
hvört þar er haldinn?
hlaup þú undann,
ek kem þángat ok
innannstundar.
Hvört hleypr þú nú?
hinir spurðu,
höfuðprests at höll,
hann svarar þeim;
svo fór hinn sendi
ók sèr flýtti;
en hinir aðrir
eptirfylgðu.
Eins sem af aungvum
öðrum vakinn,
hastarlig hugsun
hræðir sálu
allt í einu þess,
sem arkar villr,
næsta djúpt í nótt
niðrsokkinn,
svarta galls grillna
grublandi mjök;
Svo kom hinn sendi
á samfund presta,
þar sem þegjandi
þeir sátu nú,
öllum óvæntr;
andardrætti
hann fyrir felmtri
fèkk varla náð,
nærri kominn nú
niðrfalli.
Sendir vorum vèr
at vakta gröf —
kvað sá enn komni —
af kennimönnum,
en til einkis
varð þat erindi,
hauðrit hristist svo
hræðiliga,
at hinn stóri steinn
stökk frá dyrum
tídt teðrar grafar;
tóm er hún nú!
Hann skrapp brátt á burt
er þat birt hafði;
en þeim brá í brún,
svo brutust upp
af fætum sínum,
á sik blíndu,
stóðu sem stjakar
eða steinvörður,
minnismerki
mestrar hræðslu.
Þrír runnu rekkar
enir Rómversku

inní opinn sal
eptir hinum;
hvör kallar kominn
í kapp við annann:
sjáið sjálfir til —
sviptist í rykk
hellan frá hóli —
hvað þèr gjörið!
Hauðrit hóf sik upp,
hvelfíng grafar —
hvass ok hvínandi
hvirflaðist stormr —
er, sem vèr sáum,
í sannleik tóm!
fyrst vèr fèllum,
eins ok framliðnir;
gáðum svo glöggt at,
gröfin var tóm!
Skjótt merjanda skot
af skruggu slagi
var enum vígðu
vitni þetta;
þá kom þareptir
þýngst at lyktum:
því midt í þessu,
sem þá nú greip,
ógnar óráði
ofboðsfullu
skrapp upp í skyndi
skölla-hlátr
fæliligr frá
Fílo presti.
Sem dauðinn sjálfr
sífeldt þegir,
eins hímdi hljóðlaus
hópr presta;
fèll ok sem fyrr
yfir Fílo þögn;
þá kom Kaífa
karlmanns hugr
nokkr á ný
í negg umsíðir.
Hann lèt sem hraðast
heimta til sín
án undandráttar
öldúngana;
þeir ok undireins
óðfluga komu;
einneginn aðrir
af þeim flokki,
sem grafar gætti,
gengu þángat,
höfðu sik í sal
ok svo mæltu:
Vèr sjáum, þèr þess
þegar eruð
orðnir áskynja,
ok innstu þakkir
gjörum Guðunum
sem gáfu þat,
at vèr erum hèr
enn á lífi!
Hvarfyri þèr þann
þrumu-guðs son
dírfðust at deyða,
dælskir prestar?
sjáið enginn er
innann grafar;
kvikir vèr á kreik
komumst varla!
I því uppstóð
hinn æðsti prestr
ok við vaktendr
vèk til orða:
farið til fólks míns
í forsal niðr,
rekkar Rómversku!
ráð mitt er þat,
ornið yðr þar
við eld kyndtann!
hvört var hjá yðr
höfuðsmaðr?
Var hann víst, kváðu
vaktendurnir,
ok sá eins ok vèr
opnaða gröf;
fylgir hann þeim þá
þaðan sjálfr,
ok segir svo
til sinna þjóna:

þèr meðr máltíð
mönnum þessum
ok víni veitið
viðhressíngu!
Hans sjálfs heimamenn
honum fylgðu
brátt til baka,
ok at búnu því
hann sem í svima
settist niðr,
ok ræddi: ræð ek,
ena Rómversku
með gjaldi ginnum!
Gyðíngaland
ellegar mun allt
upphlaup gjöra!
En hvað er mèr nú
orðit mitt líf?
lærdóm þar ek þinn
þvínær gjörist
efablandinn um,
ó þú Saddok!
en mun ei ángist
óttaslegna
grafar gætendr
gabbat hafa?
skjálfti skeði fróns;
en skyldu tóma
þeir ok glöggt getat
gröf hafa sèð?
Midt á meðan hann
mælti þetta,
höfuðsmaðr hratt
hermanna kom;
stóðu þeir strax upp
af stólum sínum,
ok viku um fá fet
fyri honum.
þekkið þèr mik víst,
þessi mælti,
ek sá hann einnig,
nær á hèkk krossi,
ok þenkti þegar,
at þar dæi
sannliga saklaus
Sonur Guða;
hvað við gröf gjörðist
glöggt vitið þèr!
Í því gekk þar inn
engill Fílons,
fimti foreyðir
fyri tróni
dæmanda Drottins,
dauðans engill
Efód Obaddon,
er þat hans nafn.
Hans frá háum
ok heljar næmum
augum útstreymdi
ógurlig hefnd;
lokkar líkir nótt
lèku um herðar;
stóðu sem steinar
sterkir fætur.
Niðr horfði hèr
hann á Fílo,
ok þó eigi lèt
ennú sína
skurka skaðvæna
skèlfíngar raust
nè hennar hörðu
heljartóna.
Biksvarta blóðstund,
banastund þú!
vopna með vængjum
voðalignstu
þetta þýngst ok hinust
þinna stiga!
Benhinnons bali!
ek bezt þèr heilsa;
blessat, Benhinnon
bæli, þú sèrt!
Hann við sjalfann sik
nær svo mælti,
út frá honum ótt
ógnir sjöfaldar
fóru fljúgandi,
ok fleigðust niðr
allar eins ok flóð
yfir Fílo.

Hann gekk með glotti
geigvænligu
þó mjök makráðr
móti Kneo;
með drætti daufum
ok dymmri raust
frèttir hann svo fyrst:
faunst gröf opin?
ok var þar enginn
inni dauðr?
Ansar hinn: enginn
inni dauðr!
vitnar þetta þú
þá við Jóvem?
ó nei, ei vitnar —
ansar Kneus —
ek þat við Jóvem;
en við Jehóvam,
er ek trúir á,
eið þann sværa'k!
Ef ek mèr annars
ásett hefða
at sverja sanna
sögu mína,
ok þú, hinn aumi,
nema eiðr sè,
tal mitt trúanligt
tekr eigi!
Hátt þá hrópaði
hamstóla Fílo:
sèð hefir hann þá
at hún var opin,
ok hinn andaði
allr á burt!
en hann sór eigi!
ó þú hefir
meir enn svarit mèr,
maðr frá Róm!
Þannig hrópar hann,
ok höfuðsmanni
greip sverð frá síðu,
ok sèr með æði
keirði þat í kvið,
ok svo kastaði
löðranda laufa
lángann spöl frá,
steyptist svo á storð
strax til at deya!
Svo á fold fallinn
fjörbrötum hann
bylltist í; ok blóðs
beljanda straumi;
úr sári sínu
sundurrifnu
hann móti himni
hreytti' af dreyra
gusu, grenjandi:
þú Galilee!
ok at orði því
útsögðu dó!
Kneus tók sverð sitt,
sem af blóði
löðrandi lá,
ok lèt á Fílons,
þeim hann nær gekk, ná
niðrfalla,
ok slík ummæli
yfir því kvað:
Yðr, ógnanir
ok eylíf nótt,
ok þèr örvílnun,
öllum samann,
hjör þenna hèrmeð
læt ek helgaðann!
hann at svo sögðu
samkomuna
skildi við, ok veik
til vegar þaðan.
Flaug ok frá henni
fálát ok reið
sjálfsmorðíngjans sál,
ok svörtum skugga
hlaut fljótt at fylgja
gegnum föl myrkur;
enn nú var engill
öflugr hels
dveljandi í dymmum
dal Benhínnon;
Vendi hann sèr við
sem í vetfángi,

með sama sá hann
sál ens dauða!
hvör mun hermda fá
hræðiliga
dráp-sjón dæmanda
dauðans engils?
ok hvör með orðum
getr útmálað
reiðarslags raust,
sem hann ræddi með?
Efod Obaddon,
eitt sjöfaldrar
hermist svo heiti
hefndar, ok mitt;
em ek einn þeirra,
sem eyðileggja;
ek er sá sami,
sem lèt deydda
við fljótið forðum
frumburðina.
Hèðan gagngjört
útaf Gehenna —
þú ert, gæt glöggt at,
í Gehenna nú —
flyt ek þik afframm
ofann lengra
í djúp djúpanna!
frá dal þeir svifu.

---

Hèr hefr

## fjórtándu bók Messías.

---

I sína sáru
sokknir harma,
enn nú án afláts
eptir huggun
þreyandi þyrstir
ok þróttvana,
töfðu til samans
í tjaldbúð, er stóð
við múr músteris,
Messíæ vinir;
Líkt sem skammskygnir
skjótt deyendr
gráta, þótt gángi
götu feigðar
rètt framm við fortjald,
sem fagrann ljóma
áskyggir aldar
ókominnar,
nú þannig næsta
nálægrar þeim.
Blönduðu blómstrum
bálsams jurta
viðsmjör við
víf en helgu,
háleitast Herrans
hold til at smyrja;
þeirra þráfeld tár
þar runnu með.
Sem fimm forsjálar
fylgðar meyar
burðugs brúðguma
blis at tendra,
lögðu alúð á
árvakrar mjök,
svo honum, hvönær
sem hann kæmi,
mættu með sóma
móti gánga;
Eins var árvekni
yðar mikil,

þèr fljóð, sem fylgðuð
Frelsaranum,
yðar önn ok kapp
áhyggjufullt,
at nær bendti brún
birtíngar fyrsta
viðbúnar væruð,
verki þessu
til at framfylgja
frómrar ástar.
En þær ei til fulls
upprunninnar
birtíngar biðu
af blíðum morgni;
nærri því var nótt
ok níða myrkr,
er þær fóru frá
flokki sveina.
Þær með Maríu
Magdalenu
höfðu híbýli,
helgar konur,
kvinna Kleofæ
kær María
jafnframt Jóhönnu,
Jesú, sem dó,
móður-systir mæt;
með þeim líka
svanninn Salóme,
ok sár í brjósti
sú móðir sona
Zebedei;
fóru þær fremstar
í flokki þeirra.
Þèr hann, eittsinn enn,
mínar ástkæru!
sannliga sjáið —
sagði við þær
María móðir,
þegar mey kvöddu —
en ek hann optar
ei mun líta;
gángið nú, gángið
í Guðs nafni!
Þær svo þegjandi
þaðan viku.
Mjök svo mundi svöl
morgun kæla;
fljóðin frammhèldu
fljótri gaungu,
ok nú sögðu svo
sín á milli:
hvör mun færðann fá
fyrir oss burt
þann enn þúnga stein
frá þrór munna?
En sú áhyggja
ei þeim hnekkti;
hvað vèr getum gjört
gjöra skulum —
mælti María
Magdalena —
vèr skulum verja
viðbjóðsligri
fyri forrotnun
Frelsarans lík,
svo lengi sem þat
samannvalinn
kostuligra kann
kraptr smyrsla.
Mærinn sagði svo
ok sèr flýtti;
en á afveltum
ótta steini
burt frá grafar gátt
Gabríel sat,
ok nú til orða
viðr Elóam
ok við Abdíel,
honum allnærri
sem þar sveimuðu,
svoleiðis *tók*:
Varla má ek mik
mönnum birta,
er tærri teiti
tendraðr skelf!
sjáið þessar þèr
sem þar gánga
komandi konur
kjörna votta?

ek vil mik úngs manns
yfirklæddann,
ljósri líkíngu
láta þær sjá!
Yfirtaks ofboð
ella mundi
á fljóðin falla
farsæl, þó veik,
ok með skyndi-skèlk
mundi skelfð gjöra
dýrð mín en döpru
drósa hjörtu.
En með yfirlit
eldri manna
þèr fyri þeim
skuluð þá birtast,
er þeim æðra megn
ódauðligra
gefst til at geta
geisla staðist.
En sínum útaf
ósýniligu
leit nú Lausnarinn
leyndar huldum
yfir englana
ok aðkomandi
mæðu-manneskjur,
ok með þeirri
gladdi sik gleði
guðdómligri,
er honum ávann
hans egit blóð!
María, mærin
frá Magdala, kom
ok leit opna gröf,
afvelt steini;
flýr hún ok hrópar
til hinna strax,
ok hljóp sem hraðast
heim til borgar.
Hinar sik ei hót
hræða lètu,
hèldu þær fast framm
fljótri gaungu,
ok í svip sán
sitja á steini,
er við op grafar
afveltr lá,
únglíng einn
alskínanda;
Öll var ásýnd hans
eldíngu lík,
ok hans yfirhöfn
eins ok drífa;
en með engils-raust
yndisligri
enar aðkomnu
ávarpar hann:
Ottist eigi þèr!
ek veit gjörla,
at þèr ángráðar
eptirleitið,
kvinnur, Kristo
enum krossfesta!
upprisinn er hann,
ok ekki er hèr,
eins ok hann áðr
auglýst hafði!
Komið, svo sjáið
samastað þann,
hvar þeir hann
til hvíldar lögðu,
gröf þá sem geymdi
hinn guðdómliga!
hann ok þegar þeim
þángat fylgði.
Farið sem fljótast
ok fregn þessa
segið sveinum hans,
ok segið Pètri:
at hann af dauða
upprisinn sè!
Sjáið, gagngjört
í Galileam
ferðast Frelsarinn
fyrir yðr;
þar munuð þèr hann
þegar líta;
skundið skjótt, þetta
skíríð þeim tólf!

Vífin stóðu við
vafabundin,
töfðu tómliga
ok titruðu mjök;
enn nú tveir englar
inn þar gengu,
kyrtlum klæddir
klárt skínandi,
fylltust af felmtri
ok á fold slógu
undir eins niðr
andlitum þær.
Hví þèr hèr leitið
hans sem lifir —
mæltu menn þessir —
meðal dauðra?
Jesús er hèr ei,
sem þèr aðleitið;
upprisinn er hann;
athugið þat,
sem hann sjálfr fyrr
sagði til yðar,
nær um grundir gekk
Galileu:
Mannsins Sonur mun
manna hendur
ofurseljast í
óguðligra,
kanna mun hann kvöl
ok krossfestíngu;
en sik upprisinn
auglýsa þó
með dýrð af dauða
á degi þriðja!
Fljóðin með felmtri
ok með fögnuði
hlupu strax af stað
í stórum flýti.
svo tèð tíðindi
tafarlaust þær
sagt fengi sveinum
ennm sorgbitnu.
Svo kom samstundis
Símon Petrus
jafnframt Johanne
til Jesú grafar,
með Maríu
Magdalenu,
er nú útþángat
aptrvendi.
Johannis, jafnsnart
ok Jerúsalem
öll þrjú áleiðis
útaf gengu,
sagði við sína
samfylgendr:
vegurinn sem veit
til viðar runna
er fljótfarnari,
förum vèr hann!
Hann fór nú fyrir,
fylgðu þau eptir,
þar sem þjóðkunnir
þessir vegir
lágu nú nokkuð
nær hvör öðrum,
ok svo at segja
samann náðu,
var ei annat enn
ein hæð milli.
At eins aðskildir
af þeirri hæð
fór nú hvör flokkr
frammhjá öðrum,
svinnir sveinar
ok svannar helgir,
án þess einn þeirra
gæti annann sèð.
Þannig nálgast nú
næsta tíðum
þeir sem til Salem
sína þreyta
pílagríms gaungu,
gjörð hvörra sál
eins fyrir annars
er, mjök líkar,
ok þó aðskiljast
ei at síðr,
fara miðs á mis
ok missa sín.

Gengr þannig þrátt
í þessu lífi;
í Salem síðann
sjást þeir fyrst aptr,
ok þá undrast mjök
at hèr skildu;
ok ei fyrr fengu
fundit hvör annann.
Pètr kvað víf við,
sem var með honum:
hvört mun handtekinn
hafa verit
líkami' ens liðna
á laun af prestum?
svo er þó sagt
at þeir sett hafi
á hinn stóra stein
sterkt innsigli!
Þat hafa þá gjört
þurfandi menn,
gripit hinn grafna
útaf gröf sinni,
uppá þat at þeir
þannig gætu
náð hans náklæðum
til nota sèr.
Kvað svo Kefas,
komst svo Jóhannes,
fylgendum frárri,
fyrr til grafar,
sèr hann lík-línin
lögð þarinni,
en af ángursemd
efafullri,
líka lotníngu,
lætr hann þar
stig sín stöðvuð
fyri steins dyrum.
Nú því næstr
at ná ei anda
kemr Kefas,
ok kappsamliga
arkar inní gröf,
eins ok hann kom,
sá hann sveita dúk
sèrilagi,
sem hafði sveipat
sofnaðs höfuð,
svo undinn samann
í sinum stað,
en ei hinum hjá
hjúpi lagðann.
Jafusnart Jóhannes
í Jesú gröf
inngekk óhikat
eptir Pètri,
sá hann hið sama
ok fann satt vera
þat mær mælt hafði
Magdalena.
En þat, at eptir
undanngengnum
sögnum ok sjónum
sjáendanna,
ætti Kristr upp
aptr at rísa,
sökum vanvizku
var þeim dulit;
báðir gengu burt,
enn beið við gröf
Magdalena með
mæddu geði.
Svo framt sem prestar, —
sagði Kefas
ljúfann lagsmann við
á leiðinni —
eitthvört annað ráð
uppþenkt hafa,
en ei allvel treyst
innsiglinu,
til at hafa hann
handvissann sèr,
þá hefir þeirra
þrjózkufullt æði
liðnu holdi hans
hjúp af dregit;
Svo þeir eittsinn enn
upptendraðir
af heitu hatri
ok hefndargirni

með sjón hans sára
svöluðu grimd;
gengu sveinar svo
samt ok þögðu.
María mædd
við munna grafar
stóð ok starði
með stríðum ekka;
tíðum tregafull
tár lèt þerruð
hvað eptir annat
með ákefð hún,
svo at sèð gæti,
sèr af augum.
Horfði stadt ok stift
sturlaðr svanni,
gætandi grannt at,
inní gröfina;
at vísu voru
vegsamligir
englar inni þar
opinnberir;
þó gat varla víf
þeirra vart orðit,
því hún sá þar síst
sjálfann Jesú!
þannig leitar þrátt
með þurri túngu
hrópandi hjörtr
um heiðar skóga
einúngis eptir
uppsprettu lind;
röðull rennr upp,
en rá nè hjörtr,
sem eru sárþyrst,
sjá hann eigi,
formerkt fá þau ei
nè fundit til
skýlandi skógar
skugga kælu.
Hví þú sárann svo
syrgir kona? —
sögðu sælunnar
sendiboðar —
hafa þeir Herra
hjartkærann minn —
þannig hermir hún —
hèðann tekit?
hvar þeir lögðu lík
er mèr ljóst eigi.
Svo mælti mærin,
ok midt í þessu
snèri augum af
opinni gröf,
með sama sá hún
sjálfann Jesúm,
vissi þó ei víf
at þat var Jesús.
Hví þú harmar svo —
hann spyr — kona?
eða hvör er þat
sem þú aðleitar?
en með eylífs lífs
unuuarraust
hann enn nú eigi
orð þau mælti.
Hún ansar aptr
aldingarðsmanni,
sem hún sik meinti
sjá þar standa:
tjá mèr án tafar,
ef tókst hann burt,
hvar þú hann lagðir?
í hvört myrkr?
at ek megi með
mesta kappi
án undandráttar
uppleita hann.
Svo sem hún syrgir,
sælu þeirri,
er síst með orðum
getr útmalast,
allnálægr einn
ástvinr Guðs,
þá er hin efsta
en öflugasta
dapurs dauðligleiks
djúp tilfinníng
geysar gegnum hans
gjörvalla sál.

Hèr liggr hann
ok við hel stríðir
eptir himins hjálp
harla þyrstr;
kveinar til Kristum
ok kennir varla,
svo af síðastri
sinna rauna
undirþrykktr ógn,
elskandi sinn!
Ei sèr hann utann
einn sem dæmir
alvaldr yfir
öllum heimum!
enn eru tvő tár
til at gráta,
ok hvílík er þá
unaðsemd hans!
Frá sjálfum sama,
sem um Jesúm
ræddi vífit við,
vendir hún nú,
áugri sálar í,
audliti sínu.
En sem hörpur hjá
hæðstum tróni,
sem gleði-saungvar
enna sigrandi,
nær ljúfu Lambi
lofgjörð hefja,
því sem valit var
veraldar fórn!
Ei sem hörpur hjá
hæðstum tróni,
ei' svo sem saungvar
enna sigrandi,
heldr heitara,
hjartannligar
ok með enn stærra
ástar megni
hljómaði í heyrn
ennar harmandi
raust hins ríkjanda,
er reis af dauða;
Messías mælti
María nafn!
Orðit heyrði hún,
ok Herrans raust
kannaðist vel við,
en varla kunni
fyrr at formerkja,
enn í fagnaðar
einmidt ofboði
með ógn ok skjálfta
föl hnèg á foldu
at fótum Jesú.
Hún at hermt fengi
hvörs nú fann til,
enum upprisna,
orku neytti,
en var orðstőm mjök
andaði varla,
á Herrann horfði
hástöfum grèt;
Þat sem með þraut
fyri þróttleysi
af furðu fánginn
fèkk nú stamat
ristill *rómlágr*
var: Rabbúni!
en með óstyrkvum
ástrík höndum
hèldt ens heilaga
hún um fætur.
Elsku fullur af,
allur *miskunn*
á hana horfði
Herrann ok kvað:
haldt eigi mèr, mær!
mun hjá yðr
ek nú enn dvelja
eptir þetta;
optar muntu mik
María sjá,
hæðstann er ek enn
eigi stíginn
uppá tignartrón
til míns Föðurs!
Gakk þú sem bráðast
til bræðra vorra,

svo skaltu segja:
sjáið, minnar
nú er nálæg stund
nýrrar dýrðar!
innann skamms upp til
eylífs Föðurs
mun ek mik hefja
míns ok yðar,
ek fer upp til míns
ok yðar Guðs!
Hvarf þá Jesús hratt
hennar augum;
en hún án dvalar
undir sinni
boðskapar byrði
til bræðra gekk,
sem hún seldi þeim
sjálf í hendur.
Með sveit Salome
samfylgenda
nú var nærkomin
náhúsa dyrum,
en hinn sami, sem
frá sjónum hvarf
mætrar Maríu,
mætti hinum,
rètt í rauðleits dags
raka kælu,
sem nú með sjálfri
sólinni kom,
ok skein Drottins dýrð
dásamliga;
Sú var sjálfr hann
sami ok eini;
þekktu þær hann, ok
þegar allar,
sem ei mundi meir
meðal dauðra;
sælar sènð þèr!
sagði Jesús.
Teitar til jarðar
titrandi þær
fèllu þegar framm
fyri honum,
ok hèldu höndum
um hans fætur;
en hann orðum þær
ávarpar svo:
Hræðist eigi hót,
heldr farið,
ok berið boð þau
bræðrum mínum:
at þeir greidt gángi
í Galíleam,
þar skulu þegar
þeir mik líta!
hann at því hermdu
hvarf þaðann burt.
Vitnisburðar víf
viku án dvalar
harla hraðfara
heim til Salem
hvör upphóf aðra
orðlausum með
fögnuði, ok frèttir
færðu glaðar.
Kominn var Kefas
ok kær Jóhannes
undann þeim aptr
inní Salem,
höfðu hrygðar ský
hörmulig þeir
útbreidt yfir hóp
allann vina,
sem þar sátu nú
samannkomnir.
Þá komu þángat
þess sem lifir
vitnisburðar víf,
ok við þá sögðu:
þèr harmið! heyrið,
ó, heyrið oss!
Lávarð á lífi
litit höfum;
Aðr urðum vèr
engla varar;
fyrst var einn úti
við op grafar;
aðrir tveir inni,
þegar aðkomum,

ok þessi þriðji
sem þá gekk inn.
Til vor talandi
tíðindi þessir
sögðu — Salóme!
hvað sögðu þeir?
ek var helzt til hrædd
himnesk eyrindi
rekanda ræðu
rètt at skilja.
Helzt til hræddar
þat er heyrðuð þèr —
talaði Tómas —
til at skilja?
ok máske allteins
ofhræddar til,
at sjá hvað sáuð
svo sem skyldi?
Svörnðu svannar:
þú, sveinn Jesú!
gjör þú oss eigi
með efa þínum
eðr álösnu
enn meir skelfðar;
ærit nóg erum,
þótt ei ábætir,
felmtursfullar vèr
útaf fögnuði.
Ottist þèr ekki!
við okkr þat
sagði sjálfr hann,
sem nú lifir;
ok þú, uppfræddr
af hans munni,
oss gjörir aptr
óttaslegnar.
Tómas talaði
til þeirrá' á ný:
æ! þat vilda'k ei,
elskanligu!
en leyfið, at ek
yðr spyrji,
ok gjörist ekki
óróligar,
þótt ek grenslist grannt
ok greiniliga,
sjálfr sorgfullr,
eptir sannleiknum.
Fyrst þèr fenguð sèð
fagrann engil;
hvörnig var hann
at hætti ok vexti?
eins ok úngr sveinn —
ansaði drós —
áþekk eldíngu
var hans ásjána,
ok hans yfirhöfn
eins hvít ok snjór.
Lèt ens lifanda
lofsverð móðir
gegnt svar gefit:
þat var Gabríel!
var röðull risinn?
ræddi Tómas,
seg mèr, Salóme!
hvört sólin skein!
Hefr þèr hlutr
hulinn verit
sannliga sá,
at settr væri
í gær, til gæzlu
við gröf Jesú,
hundraðshöfðíngi
með hraustri vakt
Rómverskra rekka,
er rèði fyrir.
Svo bauð sjálfr,
eptir sárheiðni
prettvísra presta
Pílatus jarl;
fylgði þarat fast
färheipt þeirra;
hinir geymdu gröf
sem girðíng væri!
Ærit fagr er
orustu skrúði
rekka Rómverskra;
þegar röðuls skin
eðr ár-ljós dags
á hann fellr,

getr hann glapit
fyri gumna sjón:
Enda var óttinn
allnógr til
margar at mynda
missýníngar,
þurftuð eigi þèr
þartil glansa
lángt at, at líta
líkíng engla.
Enn nú var öndverð,
ó minn Tómas! —
mælti mærin þá —
morgun-skíma;
ei' var hinn úngi,
sem ek þar leit,
rómu-rekkr neinn
Rómaborgar.
Ei var hans andlit
orustu skrúði,
var-at hann vopnum
vafinn, hann skein!
allt hvað ábarst
hinn ódauðligi
var eitt fannhvítt fat,
en fleira ekki.
Nú vel! sè þat svo!
sagði Tómas,
en hvað við ykkr
engill ræddi?
at vèr ei' skyldum
óttast, kvað hún;
hann vissi vel,
at vèr af harmi
lúðar leituðum
líðins Jesú;
hann sè hèr ekki,
heldr af gröf
aptr upprisinn
endrlifnaðr!
Komið þèr, kvað hann,
kvinnur þángat
ok lítið legstað,
þar hann lagðr var!
ok at svo sögðu
sjálfr leiddi
okkr inní gröf
engill þessi.
Farið fljótliga —
frammvegis hann
inuti við okkr —
utann tafar,
segið sveinum hans,
segið Pètri,
at hann af dauða
upprisinn sè!
Nú kallar Kefas
ok komst við næsta:
hann skyldi hafa
heiti mitt nefnt
undann annara
allra nöfnum?
sann-helgr Seraf
syndarans heiti?
Æ! sjálfs Guðs sæli
sendiboði!
hefðir himneska
hugsvölun þú,
svoframt í sannleik
þik sýnt hefðir,
til mín tregafulls
talat þessa!
En at heitis hann
hafi getit
míns, en minnst eigi
Maríu nafns,
já, ei Jóhannis
jafnvel heldr,
þat er þat sem mèr
um þessa sögn
steypir stórliga
í sterkann efa.
Tómas tvíburi
tvílráðr stóð
umhugsun í
ok eptirþánka;
loksins aðspyr enn:
er nú þetta
allt þat sem engill
ykkr sagði?

Svannar svöruðu:
sagði hann oss
framar: Frelsarinn
fyrir yðr
greidt muni gánga
í Galíleam,
þar munuð þèr hann
þegar líta!
Tómas enn aptr
adspyr kvinnur:
hvört voru hinir
heilögu tveir
englar at ásýnd
eins ok þessi?
tóku til orða
tvær þeirra svo:
honum hvör af þeim
var himneskari!
en vèr sáum samt
sjalfann Jesúm!
Sáuð þèr hann þá
þar með englum?
frètti Tómas frúr;
frá oss horfnir —
sögðu svannar —
voru Serafim,
þá vèr þar sáum
við þróar dyr
mildann Messíam
mót oss koma,
sem fyrr at sjón
í sínum klæðum.
Þó hafði hann
í hegðun sinni
harla háleitt
ok himneskt nokkuð;
máske fagra fyrr
forklàrun við
sik han svo hafi
sýnt á Tabor.
Sælar sènð þèr!
sagði Jesús;
fèllum vèr þá framm
fyri honum
allar með auðmýkt
innilegri,
ok hèldum höndum
um hans fætur.
Hann kvað: hræðist ei,
heldr farið
ok berið boðskap
bræðrum mínum:
at þeir greidt gángi
í Galíleam,
þar mun ek þá
fyri þeim birtast!
hvarf hann oss aptr
með orðum þeim.
Svo þèr sáuð hann
sjálfann? allar?
Tómas sagði svo,
með svip djúpum
ígrundunum af
inntekinn stóð,
ok með augu
full af alvöru.
Þat var öll ásýnd
ok yfirlitr
Krists ens krossfesta,
ok klæðnaðr hans
ok hans rètta raust!
ræddi Tómas
þat við sjálfann sik,
síðan þagði.
En af öflgum straum
efasemdar
æ dýpra ok dýpra
dreginn á kaf,
tók hann til aptr
at tala þannig:
þèr eruð orðnar
ofmjök um sinn
teitar af tali
tèðra hluta,
sem þèr segið
yðr sèð hafa,
Vil ek eptir á
allra fyrsta,
þegar þartil
hafið þol fengit,

orsök eða míns,
sem annann veg
þrístir at þenkja
þeli mínu,
yðr auglýsa,
en aungvu leyna!
Sannarliga síst,
sveinar Jesú,
trúið þessum þèr,
sem þær herma,
ýkjum ok öfgum
æfintýra?
hann at svo sögðu
settist niðr.
Með frammfossandi
fagnaðar tárum
vífa valinna
til vitnisburðar
meðaumkunar mjök
mildt runnu tár;
þær nú þegjandi
þetta heyrðu.
Þreytt undir ángist
ofboðs gleði,
með alsveitt enni,
ís-föla kinn,
treghrærða túngu,
titrandi varir,
kom í samsæti
hinna syrgjandi
yfirmáta móð
Magdalena;
Hún vildi höndum
til himins lypta,
en þær jafnóðum
aptr hnigu;
harla föstum hún
hèldt þeim samann;
upprisinn er hann!
upprisinn víst!
Þannig hrópar hún
hjartanligri
fagnaðar fulls
meðr felmturs raust,
sem aungvar útþrykkt
engla hörpur
eðr fullhermt fá
fagrir saungvar.
Nú var dýrri drós
dymmt fyri augum,
leitar strax stoðar
til at styðjast við;
lèði sprundi lið
ljúfr Jóhannes,
hún upp at honum
hallaði sèr.
Mæla, nær mátti,
mundi Lebbeus:
svo þú ok sæla
hefir sèð engla?
henni var hægra
fyri hjarta nú;
ei at eins engla —
aptr svarar
honum himnesku
hún með brosi —
heldr hann sjálfann
hefir ek sèð!
allir augu sín
upp til himins
hófu nú með hægð
hjartanliga,
at Tómas einum
undanteknum;
þángat þurliga
þokaðist hann,
ok kvað með ángri
alvörufullu:
Hvör sem sjálfann sik
svo fær tældann,
at hann með augum
engla sjái;
má þann makliga
meiníng blekkja
sú, at hann sjái
sjálfann Jesúm.
Hvað vær höfum þèr —
honum gegndi
Magdalena með
mikilli hægð —

hvað kann þèr Kristr,
kæri Tómas!
Herrann heilagi
at hafa gjört?
Þann er þó sáu
þessi mín augu,
felldu þau fróm tár
við fætur hans;
já, af jörð risna
Jesú fætur
augu þessi þar
þvoðu tárum.
Hana með heiðrun
helgr Jakob
ok hugar undrun
áhorfandi
spurði þannig sprund:
var speigil-klár
sem heiðr himin
hann at líta?
var hann gull-glæstum
geislum klæddr?
María mælti:
maðr var hann;
í hans ásjánu
enn stærri mildi
sá ek þó samt,
enn ek sèð hefi
í nokkurs annars
andliti fyrr,
já, ei jafnvel
hjá Jesú sjálfum.
Svo færði sik nær
Símon Pètr,
ei tóku tölu
hinar torveldu,
er hann ástríddu,
efasemdir;
en hans ofstæki
umsíðir lèt
hann eins sem hina
hreifa máli.
Titrandi tók hann
til at spyrja
útaf áhyggju
fyrir andsvars heyrn:
hefir þú ok heyrt
hans raust mæla?
Svanninn svarar: já,
Símon Jóna!
raust gafst mèr gjörla
ens guðdómliga,
orð hins upprisna
á at hlýða!
Æ! segir Símon —
hvað sagði hann þèr?
mjök — kvað María —
á mèr ek kenni,
ónei, útmálat
ómöguliga
get ek, af gæðsku
guðdómligri
hvörsu rík var raust
rèttláts Herra.
Hún var hinni lík,
hvarmeð til Guðs
hann fyrr hrópaði
hulinn blóði:
fyrirgef, Faðir!
fyrirgef þeim!
hvílíkt vinna verk
vita þeir eigi!
Æ! ok enn framar
ástúðligr
elsku meiri með
kvað hann: María!
þekkta'k hann þá,
ok nú þókti mèr,
sem ek sjálf væri
í sælum himni!
At eins, Rabbúni!
ek gat stamat;
helga fætur hans
höndum spennti,
vegna vanmáttar
hvað varla gat,
en mjök elskandi,
ok allr miskun
horfði hann á mik
hýr ok mælti:

Haldt mèr eigi, mær!
mun ek yðr
hèr enn hjá dvelja;
hefir eigi
ek mik enn hafit
upptil Föðurs;
þèr gefst tími til
at taka á mèr!
Gákk nú brátt um braut
til bræðra vorra,
seg til þeirra svo:
sjáið, minnar
nú er nálæg stund
nýrrar dýrðar!
ek fer upptil míns
ok yðar Guðs,
eflaust innann skamms
upptil Föður
mun ek mik hefja
míns ok yðar!
Híngat til hafði
Herrans móðir
með hnignu höfði
horft til jarðar;
nú hið fyrsta fèkk
fegri sjónar
hún lypt upp ljósum,
ok litit þeim
með hægð mikilli
til Magdalenu;
Ærnum örðugleik
gat hún uppstaðit,
hèldt sèr með höndum,
hinir leiddu;
gánga mundi mær
til Magdalenu;
hún lèt hönd sína
henni rètta,
ok hèldt í hennar
sinnar hjartkæru;
Augum á hana
alúðarfullum
horfir hún aptr,
ok hermdi lágt:
seg mèr sannliga,
sástu Kristum?
hefir þú ok hans
heyrða ræðu?
Sonar míns sjálfs?
er hún svo mælti,
hugsar hún sik um,
hikandi við
eptirgrenslun í
athugasamri:
O! mun ek mega
minn Son nefna
hann enn sem áðr?
elskanligir!
mèr yðar augu
ávísa þat,
at ek hann mög minn
megi nefna!
Þat hefir þú mælt,
at þessi sè
minn Sonur maðr,
ó Magdalena!
bar hann einnig ör
unda sinna?
en hún leit undann
í því ok grèt,
hèldt þó í hönd
sinnar hjartkæru.
Þessi gegndi greidt:
grát þú eigi!
upprisinn aptr
er hann frá dauðum!
hvört ek sá örin
af hans benjum,
veit ek eigi víst,
því af voldugum
fagnaðar felmtri
frá mèr numin
ek því nær at eins
andlit hans sá;
Ok nægð nafnlausa
af náð himneskri
gat sèð glöggliga
ens guðdómliga
ek í andliti;
yfirtaks náð;

meiri gæðsku gnægð
enn greinast megi!
sjá þú, svo stóð hann
sveipaðr gufu
aptureldíngar
ásamt bjarma.
Nú grèt mær ei meir
móðir Kristi;
hèldt báðum höndum
sinnar hjartkærn
ok leit augunum
upptil himins;
sætu mundir svo
síga lèt hún,
ok gekk í þaunkum
aptr til baka;
A hana horfði
hún með undrun,
ok mælti með sæmd
mikilli náð:
svo þú sèð hefir
sjálfann Kristum
aptr upprisinn,
ok at heyra
hefir þèr heppnast
hans dýru raust?
Hinar, sem í hóp
höfðu í fyrstu
meðfylgst María
Magdalenu,
orðnar upprisu
áðr enn hún
verðugir vottar,
nú í vetfángi
komu með kæti
kríngum hana;
Ok hermdu henni,
hvílíkrar þær
englar í fyrstu
opinberunar,
ok hèrnæst Herrann
hefðu virðtar!
Tómas tvíburi
til þeirra kom
ok sagði: sástu,
sem þær, engla?
greindu mèr þat, mær,
Magdalena!
Varla — sagði snót —
sá ek engla,
svo var sjón mín
af sorg döpr;
ek mèr vendti við
í vetfángi,
ok varð vör nokkurs,
er var at sjón
áþekkr einum
urtagarðsmanni.
þann ek undir eins
eigi þekkti,
en þekkti þá fyrst,
þegar hann mik
nefndi með nafni,
ok nú sem áðr
sinni sönnu raust,
sem ek kenndi.
Svo gaztu sèð
eptir sögn þinni —
gegndi Tómas til —
trauðliga þá,
er þó eignar nafn
ódáuðligra,
ok hann eigi strax
ábarst kennsli,
er fyrst ætlaðir
urtagarðsmann?
Hinar herma svo,
at hans klæði
viðlík, sem voru,
verit hafi;
er þá yfirhöfn
urtagarðsmanns
eins ok hans áðr
á sik komin?
Hve mundu margir,
Magdalena!
er þú sást, enir
ódauðligu?
sprundit tjáir: tveir!
Tómas mælti

en hinar aðrar
einn gátu fyrst
ok svo aptr tvo
engla litit.
Tómas tvílsamr
talaði þetta,
ok snýr snöggliga
frá snót augum;
en hún til himins
há-fleygri sjón
lèt þegar lypt,
ok um leið mælti:
O! at einúngis
anngrar fengi
hann yðr aflat
uppertíngar;
Messíæ móðir
ok menta sveinar!
láttu mega mik
minnar, Tóma!
nú um sinn njáta
í náðum sælu,
ek vil annat sinn
andsvara þèr.
Þá tók án tafar,
er talat hafði,
Magdala með sèr
móður Jesú,
ok frá hóp hinna
hana leiddi,
svo at samtal þær
sín á milli
tvær einar ættu
uunarsamt.
Nú var Salem sjálf
Símoni Pètri
ofþraung orðin,
því at efasemd
sleit mjök hjarta hans,
ok hugskots eyrum
gall án afláts í,
ok útpressaði
tár af hans augum
atkvæði þat:
segið þat sveinum,
segið Kefa!
Hann fór með flýtir
útaf fundinum,
svo han sökkt fengi
sèr gjörvöllum
eptirgrenslun í
ángursfulla,
ýmist eyðimörk
útvelr hann,
þá er lægi lengst
frá lýðsbygðum,
Galilee grund
eða gröfina.
Hann-kaus leið, sem lá
lángt frá bygðum,
útá öræfi-
eyðimerkur,
en barst til baka
brátt á hina,
sem færði gagngjört
at gröf Kristi.
Við bratta þúngu
á hana fjalli,
stóð hann af storðar
stilli' umkríngðr,
er nú aptr hægt
uppvaknaði,
ok af árdeigis
endurhressíngu
dafnanda dag-ljóss
eptir dymma nótt.
Gægðist hann í gin
grafar tómrar,
ok þessi þúnga
þánka sturlun
í hans æsti sál
órósemi:
æ, ofboðsliganu
ógjörníng þann!
Hefðu þeir hann svo
hèðann tekit,
at þeir heygðu hann
meðal hausskelja
midt í bland beina
enna bölvuðu?

skyldi þetta þó
hafa þèr lukkast
niðíngsverk næsta
niðurdrepsfullt,
hatursverðug hefnd
helvítis neðsta?
Ætti til einkis
andvana líki
Jesú jörðunar
Jósef frómr
af höldi heiðnum
at hafa beiðst?
ættum vèr einnig
til ónýtis
við sölt sorgar-tár
samblandat hafa
nokkrum grátgjarnrar
gleði tárum?
Því hvörnig þessu,
sem þær herma,
at hann af dauða
upprisinn sè,
ok þeim auglýstr,
ek fæ trúat?
til torveldt er
at trúa slíku!
Þú hrygð hræddari
hrellíng allri,
hefir streymt ofstrídt
yfir sturlaðar
svanna sálir þær,
ok með svelgjanda
fleygt þeim flugstraumi
flóða þinna,
þær svo þókst hafa,
þvílíkrar af
ángistar ofsjón
allar blektar,
á hann upprisinn
augum líta!
á hann upprisinn
auglýstann sèr!
Æ! hann upprisinn
ok þeim birtr!
en ek ósnortinn
yndæli því,
eigi fallinn enn
undir þúnga
unaðs-undrunar,
ok eylífs lífs
svo tignar-tærri
tilfinníngu!
Til krossins hóf hann
hrygðarfull augu,
kallaði ok kvað:
þú kross ens dána!
vitnar helzt til hátt,
himin ok jörð
við þitt ægt vitni
hafa vör orðit:
dáinn, dáinn,
já, dáinn er hann!
Þá skar sárbeitt sverð
sál hans móður,
dör gekk deyðandi
gegnum drósar önd!
at sjá hann aptr!
æ! ek trúi,
ok veit með vissu
þat verða muni!
Ek sè hann aptr
við hinn eylífa
hástól á himnum,
en hèr eigi;
hví nú hopar svo
hrædd til baka,
þú mín þreytta sál,
fyri þeirri ró,
einka ró, sem átt
eptir, þinni?
já til baka tvist
titra mín sál
felmtursfull at eins
fyrir henni!
Er þèr at sönnu
áheyrsla veitt,
ok þinni yðrun,
er þú gjörðir,
hefir með miskun
móti tekit

þinn dýr dómari
fyri drýgða-synd.
En ei þarftu þik
þó at gleðja!
þar stendr stuggvænn
ok sterkr vottr
hans dapra dauða,
dreyrugr kross!
enn nú brostin björg,
brotnir klettar,
gínandi grafir
á grund liggja
eins ok armleggr
almættisins
setti þau af sèr
sundurmarin!
O nei! þú ei þik
þarft að gleðja!
þannig þenkti nú,
þrá-stamaði
hann ok hrópaði,
horfandi fast
aptr ok aptr
í op grafar.
Ei lángt frá legstað
Lausnarans, hann
sá knè-krjúpandi
um kinnar tárga
mæna mót himni
Magdalenu,
sú hægri hendi
á hauður studdi.
Kefas kallaði,
komst við í lund,
ok mælti: María
Magdalena!
raust um síðir rekks
ristill heyrða
kannaðist klárt við
ok kom til hans!
Hvört ert þú ætíð —
innti Pètr —
fljóðit farsæla!
þarum fulltrúuð,
at þú hafir hann
af hel-svefni
aptr upprisinn
fyrir augum sèð?
Ungann — ansar hún —
armi vinstra
hèldt ek, sem þú sást,
Símon! um kvist,
hjá þeim hans stóðu
helgir fætur!
minni hægri mund
ena moldugu
á storð, þar stóð hann,
studda'k niðr!
Lít upp — Kefas kvað —
krossinn skoða
þarna, þar dó hann!
þá svarar sprund:
ok hann er, Símon!
af þeim dauða
útgenginn aptr,
hann er upprisinn!
Símon svaraði:
við sjálfann Guð,
einn sem æ lifir,
ek þik særi:
hvört með þessum þú
þínum augum,
sem þú mik sèr með
Magdalena,
frammi fyri þèr
Frelsarann sást?
María mælti:
hvört mín augu
sjálfrar sáu hann,
Símon! þú spyr?
við sjálfs hans sannleik,
sem æ lifir,
segir ek ok sver:
at ek sèð hefi
með egin augum
þess ens upprisna
dásamliga dýrð
Drottins Jesú!
Mín egin eyru
einnig heyrðu

af gröf útgengins
Guðs Sonar raust!
himins unun ek
ákennt hefi!
nú varð svanninn svo
frá sèr numinn,
at hún stóð orðlaus
ok eins Pètr.
  Aptr tók hann til
at tala svo:
þú helzt til heppna,
hèðann skunda,
láttu mik með mak
mínu böli,
sem ek ángrast af,
yfirgráta.
  O! at ofsjónir
á mik hefðu
leikit þeim líkar,
sem lèku á þik,
yndisligar eins,
svo þær önd minni
hefðu hægð lènta
harma sinna!
æ! ek trúir ei
enn þinni sögn!
  Trú þá enn eigi —
ansar svanni —
sjálfr sástu hann
á sjónum gánga!
þú leizt hann ljóma
í lifandi dýrð
Föðursins fyrr
á fjalli Tabor!
  þannig skildu þau;
þenkti Pètr
nú með sjálfum sèr,
er svanninn aptr
gekk burt til grafar;
æ! gæti at eins
ek trúnað áfest
orðum hennar!
  Helzt til happasæl
hún því trúir,
já, af allri önd
óbrigðanliga;
hvörsu full er hún
hjartanligs trausts
ok æskiligrar
unaðsemdar,
hvörsu hýrt breiðir
hálund ok ró
yfir hana út
algjör vissa!
  Eigi fælir fljóð
fúi nè gröf,
heldr brosir hún
hýrt at stormi
þeim, sem dauða dals
djúp hin myrkvu
með gný ok gjálfri
gegnum brúsar!
  En hví trúir ek
eigi henni?
kann sá hinn sami,
er á sjónum gekk,
ok mèr uppihèldt
at ei sykki
iljum troðnar í
æðandi bylgjur,
ei af andláts dúr
endrvakna?
  Já, dýrsti Drottins
meðal dáinna!
tilgef, æ tilgef
treganum þat,
enni sáru sút
sálar minnar,
ef þú upprisinn
ert a lífi!
  Æ! þinn armleggr
uppihèldt mèr,
næreð niðr
fyrir nálægum
blöskranda boða
í bif hið djúpa
trúar-tæpr ek
tók at sökkva.
  Auðsýn mèr einnig
enn þína hjálp;

ek er, þú veizt þat,
þessu sinni
miklu meir enn þá
mariun af hræðslu,
ok þú mèr aðstoð
aungva veitir,
Herra! nè hægri
hönd rèttir út,
guðdóms mátika mund,
mèr til bjargar!
Æ! sakir allrar
elsku þinnar,
með hvörri mönnum
miskunar þú,
ok sakir álits
augna þinna
mildifullra mjök
miskunarfullra,
er þú at mèr brást,
nær híð ofþúnga
afneitunar ok
yfir mik fèll;
Sakir mjök mjúkrar
miskunar þeirrar
ok guðdóms gæðsku
grátbæni ek þik:
aumka þik yfir
ángist mína!
ok birzt mèr einnig
eins ok henni,
svo framt sem þú ert
sjáaunligr!
ó nei, ek óskar
ofmikils nú;
farið ok fregnir
færið sveinum,
innið ok Petri!
sagði engillinn;
er þat eigi strax
ósegjanliga
mikil míldi,
sem mik virðti þess?
Skyldir þik mèr þá
þú, ó Herra!
aptr upprisinn
opinnbera,
mèr, er þèr áðr
afneitaði?
en þú hefir' ei
auglitis dýrð
látit Lebbeum
líta þína,
já, eigi Jakob
eða Jóhannem,
ei heldr hana
ena heilögu,
elsknfylst sem er
allra mæðra!
En fallit áðr
einnig hefir
Magdalena mjök
í misgjörnínga;
nær hendti hana
at hrasa þannig?
áðr enn hún bar
á hann kennsli!
eðr hefir ek
elskat sem hún?
þannig þenkjandi
þúngum stigum
hann gekk hæðina
harla seint upp;
á knè framfallinn
fyrir at biðjast
horfir hann á jörð,
en með hjartanu
hrópar heita bæn
í hæð til Guðs!
En sem hann uppleit
frá önn bænar,
kènnir hann Kristum
hjá krossi standa;
hvör gètr gripit
geðs undrun þá
ok sálar unun,
sem um hann streymdu?
þegar sá hann svo
sèr fyrir augum
ljósliga birtast
þann hinn lifanda;

ok með geð-gæðsku
guðdómligri
sína hægri hönd
honum rètti,
sá menn synduga
sætti við Guð.
Aflfátt er Pètri
til at uppstanda,
neytti nú orku
ok ná vildi
handfesti hann
á Herrans armi,
en hans önnur,
sem hann útrètti,
mund af máttleysi
til moldar sèg.
Öðru sinni svo
sik hann reisti,
ok báðum örmum
umspennandi
Jesú hægri hönd
við hana skalf,
þrykkti henni hann
hjarta sínu
elskufullur at
inniliga;
ok sitt at armi
þess hins upprisna
með ást ok alúð
fèkk enni hneigt.
Hauður ok himin
honum þókti
sem mundu sökkva
sik umhverfis!
Nú loksins leit hann
lyptum augum
góðgjarnligt andlit
Guðs Sonar á;
tók hann strax í stað,
en þótt stamandi,
fyrsta fagnaðar
með fullri raust
af heitu hjarta
at hrópa þannig:
Drottinn, Drottinn Guð
dásamligasti,
mildiríkr mjök
ok miskunsamr!
meðan munnr hans
mælti þetta,
leit hann ok horfði
á hann, sem lifir:
Drottinn, Drottinn Guð
dásamligasti,
mildiríkr mjök
ok miskunsamr!
hrópar hann aptr,
hræðist ei' meir,
ok fann álits fró
hins upprisna
yfirgnæfandi
ósegjanliga.
Sælir sveimuðu
seraphim tveir
kríngum Golgata,
gætendr Pèturs,
Oríon engill
ok Itúríel;
þá gat ei þessi
þagat lengr.
Hvílík heilla-stund, —
hann svo mælti —
æ! minn Oríon,
ódauðleiks míns!
hátt munu helgir
hróður-saungvar
unaðsemdar opt
fyrir oss hana
íþreka með óð
afbrags-gleði!
Aptr upprisinn
ópinnberast
Drottinn dauðligum,
sem drýgði synd,
Kristr Kefa!
þú minn kærasti
finnr þat ek finn,
fóstur sveini
yfrit ástfólgnum
okkar beggja!

Kom fljótt ok fagna
í faðmi mínum
yfir unaðsemd
okkar þeirri!
at hafa hrasat
hræðiligt er,
Itúriel,
þat er ógn mikil;
Ok at syndgast á,
Endurlausnara,
ok, á tíð einmidt
endurlausnar,
ok þat af einum,
sem er með náð
sèrligri sæmdr,
sveini fræddum,
varla vèr þaunkum
vogum snerta.
En svo með söltum
sorgar-tárum
at fá þess fulla
fyrirgefníngu!
hve sælir, Seraf!
enir syndugu
eru, sem uppgjöf
öðlast hafa!
En hinn upprisni
yfirgaf nú,
við þau engils orð,
aftöku-fjallit;
augna sinna sjón
sendi Pètr
ok bæn andheita
eptir honum,
hèldt samann höndum
ok horfði fast,
uns skjótt í skugga
af skúta grafar
hvarf enn heilagi
frá hans augum.
Ok nú útbreidda
arma Pètr
hóf móti himni
af hjarta glaðr:
æ! þakkir, þakkir
þèr, Sonur Guðs!
þakkir sèu þèr,
þú hinn upprisni!
inniligustu
eylífar þakkir!
Þèr, sem fèkkst sálu
svalat minni
huggun meiri með,
enn mátti sèr
hún í hug leiða,
eðr hrygg óska,
þegar þjáðist hún
þyrst eptir ró;
svo muntu síðar
sömuleiðis
hugga mik, Herra!
á helstund minni!
Hvör er ek Herra?
hræðiligrar
syndar at sönnu,
sem ek fèll í
þat sinn er ek þèr
þríneitaði,
iðrast hefir ek
alvarliga;
En hvör er ek þess,
at með slíkri
náðar gæða gnægð,
Guðs Sonur þú,
mildiríkr mèr
miskunat hefir?
dásamligust dýrð
Drottins Jesú
er mínum augum
opinnberuð,
ok frá andláts dúr
aptr til lífs
uppvakinn er hann
af mèr sèðr!
Utstreym án afláts
eylífliga
innstu sálar af
alúð mín þökk,
heitt ok hjartanligt
hugar þakklæti!

allar ástgjafir
upphæðanna,
uppfyllíng allrar
unaðsemdar,
öll farsæl fyllíng
fast ek vona
veitast muni mèr
miskunar þinnar!
Leyndardóm þíns láts
ljósann gjöra
eflaust muntu mèr
mögur Föðurs!
ei' má ótals-her,
eigi kraptar,
anda skarar ei
eða tróuar,
nè háir himins
höfuðenglar
á móti meiru
megu taka
af þeim, hvörs auglit
þeir ætið sjá,
enn mèr af honum
ek nú vænti.
Hann, sem er sannr
Sonur ens hæðsta,
leit ek lifanda,
sá látinn var,
þann á döprum dó
dauðans krossi,
sjálfann hinn sama
sá ek lifa!
Frór þánki, fullur
af friði dýrum
ok ró rótfastri,
ríkdómr þú
ok gnógt gjörvallrar
Guðs miskunar!
þann hinn mikla mun
fyri mèr gjöra
líka velljósann
leyndardóm þinn,
sá er eylífð um
alla lifir!
Hann ek hefi sèð
heilann ok lífs
eptir kvöl ok kross,
Kristum Jesúm!
tjáið tíðindin
við trón eylífann,
hermið: hann lifir!
himnum öllum;
fregn þá í fögrum
fagnaðar dansi
sýngið samhljóða,
þèr synir ljóss!
Þagnaði þá,
at þessu mæltu,
hann, ok horfði
til himins lengi;
ok svo eptir þat
uppreisti sik,
bráðliga búinn
til burtgaungu.
Þèr skuluð með mèr,
míuir bræður,
ausa huggun upp
af þessi lind;
yðar brjóst-benjar
enar blóðugu,
áðr lángt líðr,
læknast skulu!
þannig þenkir hann
ok þaðan skundar.
Þegar hafði hann
hraðfara náð
á sömu svifstund
Salems múrum;
síðann á samfund
sinna bræðra
vèk í vetfángi
viðstöðulaust,
þar sem af þreyíng
þeir ok efa,
fögnuði ok furðu
fullir biðu.
Hann gekk haldandi
höndum at sèr
á sagðann samfund,
ok svo mælti:

æðst lof, æra, prís,
auðmjúk tilbeiðsla,
ok þökk sífeldt sè
Syni Guðs þeim,
er oss elskaði
elsku þeirri
meðr, sem mun oss
meðan lifum
ok í andláti
unnar saungr!
Honum, sem heli
hæðstrar furðu
dásamliga dó,
frá dauðum reis,
ok sik upprisinn
auglýst hefir!
einnig er Kristr
auglýstr mèr!
hann stóð hjá krossi,
hvar at líta
á hann auðnaðist
augum mínum,
guðdómligs andlit
glöggt sá ek þar.
Nú sik nálægðu
nýstárligra
tíðinda túlki
tèðir bræður,
allir dáðust at
auðnu Pèturs,
hans mjök hrósandi
heill ok sælu,
fángnir af furðu
yfir Frelsarans
kröptugri komu
frá krossins dauða!
Datt nú dumba þögn
djúprar tilbeiðslu
yfir þá alla,
svo með orðleysi
tókust til banda
túngur þeirra.
Nær gángandi nú
hinn nýa loks
kríngum þyrpast þeir,
þennann sæla
vott ens upprisna
umfaðmandi,
hèldu honum fast
at hjarta sínu
fagnaðarfullir,
ok felldu tár.
Lyndisljúf móðir
ens lifanda
hèldt enni hægri
hendi Pèturs,
vinstri mæta-mær
Magdalena;
*Símon*, son *Jóna*! —
sagði þessi —
sjá, þú leizt hann loks
líka sem ek!
Mærin mælti þat
Magdalena;
jafnsnart jók þarvið
Jesú *móðir*,
ok brá við brosi
blíðu himneskrar:
sástu — sagði hún —
Son Guðs ok minn?
Lèt þá með linu
Lebbeus stami
mælt, ok á *móti*
Maríu leit:
síst fyri sorgar
sakir lengr,
heldr af hárri
hugarfurðu
traudt ek tali því
trúi, móðir!
þú bana blóði
ok benjum þakti
at sèrt upprisinn!
en við þetta
hann á Jóhannis hægt
hallaðist brjóst;
honum þessi þá
þrykkti sínu
hollr at hjarta,
hvíslandi lágt:

upprisinn er hann!
ok nú sleppti
mund hans, en mælti
til Maríu:
Gleð þik, góð móðir
ens guðdómliga!
særir sál þína
sverð eigi meir,
engi mækir mun
nú meir gjöra
blóðugar benjar
brjósti þínu!
Himins mildri með
megin gleði,
son minn! — sagði víf —
sjá ek fagna!
æ! jóð mitt Jesús
er af jörð risinn!
upprisinn er hann!
ok eflaust mun
Jesús mögr minn
mèr sik birta!
þitt hýrt hvarma svif
hèt mèr þessu,
sem mèr fèkkst síðast
sendt af krossi.
Hinum tók í hönd
Herrans sveini,
sem þann boðskap bar,
Bartólomeus,
ok með hægri hrygð
honum sagði:
Síst mun, ó Símon!
sik mitt höfuð
fyrr í gröf gefa
grátt af elli,
enn þat eins hefir
augum mínum
guðdómligann glöggt
gefist at sjá
uppaf dauða dúr,
með dýrð hárri
ok vegsemd vakinn,
vorn meistara.
Pètr hèldt hendi
hans ok mælti,
horfandi á hann
með huga fullum
af trúar trausti,
til hans þannig:
já víst, yfir oss
alla samann
mun hann, mæti vin!
miskuna sik.
Eins ok uppkemr,
óðar vonum,
skugga ský
á skærum himni
einsligt, óklárt
ok ákafa-fullt,
svo gaf samstundis,
sik til Pèturs
hinn trúar tregi
Tvíburi framm.
Heyr, sjálfr Símon!
sagði Tómas,
munda'k víst, ef mèr
möguligt væri,
tregðulaust trúa
tali þínu!
ok við orð þessi
inniliga
ángráðr augum
undanleit hann.
Vend þèr við, Tómas!
verðugar þakkir
ásamt gjör með oss —
ansaði Pètr —
at hann upprisinn
er frá dauðum!
já, trú tilbeiðsla
tign ok heiðr
fagnaðarfullir
friðar saungvar,
ok þýðar þakkir
sèu þeim sem dó!
þeim, sem dauða dó
dýpstrar furðu,
ok uppreis aptr
undarligr,

ok nú einnig svo
opinnberast!
yfir oss alla
mun hann aumka sik!
Svo lèt hann lokit
sinni lofræðu;
jafnsnart hnèg á jörð
Jesú móðir
útaf óstyrkvum
örmum vottar,
með ljúfri lotníng
lá hún á knjám,
hjarta glöð hendur
mót' himni breiddi,
ok þannig upphóf
unnar raust:
Mín sál makliga
miklar Drottinn!
allt hið innsta mitt
ypparliga
gleðst nú í Guði,
sem gaf mèr heill!
mín sèð móður-tár,
mæðufullrar
þernu þinnar,
þú af krossi
hefir trega-tár
ok talit öll
mildiríkri með
miskunsemi!
Allrar mann-ættar
uppfrá þessu
megir mik sæla
munu kalla!
ó hve mjök er hann
undarligr!
hvörsu hátt er allt,
sem hann gjörir,
sá með makt sigrar
sjálfann dauða!
heilagt, heilagt er
hans mikla nafn!
ok hans miskun um
eylífð varir!
Er sjálft almættit
armleggr hans!
stoltum blóðbelgjum
billtir hann niðr!
veltir við stólum
enna voldugu,
en fær upphafit
auðmýkt lága!
Hvörjir, sem hans
eptir hjálpræði
af þorsta þjakast,
þeim veitir hann
öllum öfluga
endurnæríngu,
þeim, er sjálfum sèr
sjást fullbyrgir,
sleppir hann slippum
ok slær þá skorti!
Æ! hann er einskær
eylíf miskun!
háleit huggun
þeim er hann elska!
Abraham ok hans
afkomendum
sór hann þat sjálfr,
ok sinn halda
mun hann enn mikla
miskunar eið!
Já, trú tilbeiðsla,
tign ok heiðr
fagnaðarfullir
friðar-saungvar,
ok þýðar þakkir
sèu þeim, sem er
miklu mektugri
megnum dauða,
ja, lifir jafnan,
Jesú Kristo!
Uppá húss lopt hátt
hafði gengit,
ok hinir aðrir
þar ásamt með,
Tómas tvíburi
til at hressa
sik með dáð dýrri
dagsins prýði

ok með lífligum
lopt-kylju blæ;
Ok skíra skoðun
sköpunar viðr
guðdómsfullrar geð
til at gleðja sitt,
hans vegna, er hana
hafði' í fyrstu
með svo mikilli
mildi gædda.
Þyrptust nú þegar
þeir at Tóma,
ok með ávarpi
uppvöktu hann
af daufum drúnga
djúpra þánka;
en hann varð hræddr
ok hrökk til baka,
í því hann uppleit
ok umkríng sik
sá í senn alla
samkomuna;
honum var annt um
ofann at stíga.
O! flý þú eigi,
ástkæri vin!
flý þú eigi oss! —
ansaði Pètr —
einnig innannskamms
yfir þik, Tómas!
Drottinn mildr mun
miskuna sik!
ek var eins sem þú
efafullur,
en hve mjök hann mèr
hefir miskunat!
En hvörjir arka
álengðar þar?
ef mik augna sjón
eigi tælir,
mun þat Mattías,
ok með honum
Kleófas, kærir
Kristi vinir.
Æ! þèr ef væruð
ástfólgnu hèr,
eflaust yðar þá
eins sem vorar
frábærann fögnuð
findu sálir,
þann er engin orð
útsagt gætu;
ójá, eylífs lífs
yðar nú brátt
væntir, ó vinir!
voldug gleði!
En hvör er hann,
sem hins vegar at
nú sik nálægir
nefndum bræðrum,
frammgángandi frá
forsælu skugga?
ek fæ ásýnd hans
eigi kennda.
Virðist mèr viðmót
ens vegfaranda
ok allt hans útlit
ypparligt mjök;
þekkir Tómas þú
þennann komna?
sjá þú, sínum þeir
samferðamanni
heilsa með hegðun
heiðursfullri;
hann ok þegar þar
þá ræðir við.
Ei' kennir ek hann —
ansar Tómas —
en líkar litit
í lánga tíma
eigi hefir ek,
eins ok nú sè
hátign ok hjartans
helga einfeldni
sameinaðar svo
sín á milli.
O! at auðnan brátt —
innti Pètr —
heim til Salem hann
hángað leiddi;

þeir þá undir eins
aptr snèru,
þvíat þartil er
þessi gángr
af þeim ángruðum
einúngis gjör,
at sækja svíun
sálum þeirra.
Sjáið, gata sú,
er í sveig liggr,
nú þá at nokkru
nær oss færir,
þó munu þessar
þá fyrir oss
aptr á skyggja
eikur pálma.
Sjáið þriðja þann,
sem þeim fylgir,
hve með höfugri
hann alvöru,
hvílíkri hátign,
er þó hvervetna
mýkir mildari
mannúðleikr,
á hinna hlýðir
hugrauna tal;
Máske saga sè
sú um dauða
hans, sem þeir síðast
sáu á krossi,
áðr enn uppreis
andvana lík?
er hann einn kannske
engla þeirra,
sem við Golgata
hjá gröf sáuð?
En hvað þèr yðr
fyrir ofsjónir —
talaði Tómas —
tælið sjálfir!
maðr er þat einn,
þótt öðrum sè
eptir áliti
ypparligri.
Þekkir eigi þú
þær — kvað Pètr —
tilgátur, Tómas!
sem tær gleði
elur innanbrjósts
yndælar mjök!
Þat sem þú finnur
þess ek kennda!
Hvör mundi minnur
mik snerta von,
enn sú, at sèðann
Son Guðs fengi
midt í mestu hrygð
minnar sálar,
er ek hóf augum
uppat krossi
mæðuþrúnginn mjök,
ok þá minnst varði
leit hinn lifanda
ljóst fyri mèr;
sjá, mèr sjónvilti
síst mín gleði!
Svo þèr sjónvilti
sorg þín, Pètr! —
ansar með ákefð
hinn efafulli; —
Drottinn mildr mun
miskuna þèr!
kvað með kyrrlæti
kjörinn vottr
ok náð umvafinn
þess ens upprisna.
Guð, já, Guð Drottinn,
gegndi Tómas,
mun at vísu mèr
miskun veita!
en hinn góðgjarni
guðdóms maðr,
æ! manna mestr
Messías leið
þat hið sama, sem
sjáendanna
hefir hvör liðit;
hann er dáinn!
Tómas tárfellir,
túngan þagnar;

Grát ei, Guðssonar
geðþekki sveinn! —
Pètr sagði svo —
þvíat sannliga
er hann af dauða
aptr risinn!
en til ónýtis
öll var huggun;
Tómas tárfellir,
túngan þegir.
Meðan þeir mæltu,
Mattías nú
ok kær Kleófas
komnir voru
fljótt með framanda
förunaut sínum
þángat, sem þeir
af þèttum pálma
eikum áskyggðir
undanhvurfu.
Sagðir sveinar,
nær Salems múrum
einir í fyrstu
útaf gengu,
fyrrenn fengi þeir
förunaut þann,
samannræddu svo
sín á milli;
Kleófas kvað:
hve kunna þánkar
mínir, Mattías!
mik at blekkja:
gjörla þekkir þú
þjóstugt æði,
stækann hefndarhug
höfuðpresta,
hve bitr bræði
brjóst þeirra skar,
þá er þeir eigi
gátu því varnat,
at Jósep Jesúm
jarða næði.
Höfuðmannsins hug
hafa þeir tælt,
ok leynt hins liðna
líkham stolit,
hvörn þeir ok hyggjast
á hálsi dauða
byrgja hjá beinum
enna bölvuðu!
Máske þegar þitt,
þú hinn bezti!
heilagasta hold
helstirðnat nú
hylji Golgata
í gryfju dymmri!
En hvað undarligt
engla sjónir —
mælti Mattías —
mundu tákna,
kæri Kleófas!
við Kristi gröf?
eða voru villt
vegna hrygðar
missýníngum með
svo mörg augu
allra þeirra þar,
sem þá sáu?
Er þá ok svo hrygð
orkandi þess,
at vèr englanna
auglit sjáum?
hví þó ei heldr
hræðiligar
ófreskjur einar
ok æga nótt,
fölar forinnjur
fordæmdra skugga,
Iskaríots önd
andstyggiliga?
Kom at Kleófas
kaldr hrollr,
svo hann sveif á hæl
svarandi loks:
leis mèr at eins úr,
ágætasti
ástvinr! einu
efamáli;
Hví mun hinn mikli
meistari vor

eigi sjálfr oss
opinnberast?
hvörnig er mèr unnt
engla' at þekkja?
ok þótt ek þekkta,
veit ek þarfyrir,
at sendir sèu
af sjálfum Guði?
Æ! mundi hann eigi,
ástkæri vin!
oss sik efalaust
opinnbera,
ef hann af dauða
væri upprisinn?
vèr hann án vafa
mundum viðkannast!
Mundi María —
Mattías kvað —
eigi trúa traust
því er til kynna
Gabríel gaf,
frá Guði sendr,
kæri Kleófas!
eða kenndi víf
eptir áliti
engla helga?
Geta Guðs hærri
góðir andar
annat enn sannleík
einskærann sagt?
munum vèr þess mjök
makligir vera,
at hann fyrir oss
opinnberist?
Hörfat hefðum vèr,
sem hinir tólf,
fældir á flótta,
nær af fjandmanna
ærslum, óhljóðum
ok ofsa grimd
grenjaði garðr
Getsemanes!
At eins álengðar,
ekki nærri,
ýttum vèr oss at,
þá með ógn glumdi
dauða dómr hans
frá dómstóli;
æ! lángt frá einnig,
þegar andaðist,
dvöldum vèr döprum
deyandans krossi!
Kvað þá Kleófas
klökkur þetta:
þat ek þúngliga
með þèr harma!
en hvört egum vèr
einhvörju sinni
veg til at vera
verðugir þess,
at hann fyrir oss
opinnberist?
Ef hann upprisinn
er ok birtist,
einúngis er þat
óforskuldat,
at hann birtist oss,
einskær miskun,
því hann yfir eymd
aumkast vora,
ok vor trega-tár
telr hann öll,
eins ok hjá sèr hann
hefir talit
hvört ok eitt hár
á höfðum vorum!
Kæri Kleófas!
kennir þú ok —
mælti Mattías —
mikils efa?
efar þú þá ei? —
aðspyr þessi —
þú veizt — hermir hinn —
at ek hvað eina,
þat ek þenkti ok fann,
þèr æ til fulls,
kæri Kleófas!
kunngjört hefi.
Þá er ek þetta
í þánka stilli

ok með andarspekt
yfirvega,
trúir ek ok tek
tvímælin af;
en þegar þróttug
þrengíng vonar,
ótti ok eptirbið,
ok ör tilhlökkun
at sjá hann aptr —
er þat himins
fullur fögnuðr —
falla sem reið
ákaft yfir mik,
ok önd mína
í grunn gjörvalla
gegnum leyptra!
Þegar allt þetta
þúngri deyfu
lætr mik lostinn,
svo ek lítt heyri
eðr samsinni
sannleiksins raust,
verð ek undir eins
efa fánginn!
Nú áleit augum
ástheitara
kærleiks il kyndtum
Kleófas hann,
ok þessum orðum
ávarpaði:
En hann, ef vèr nú
endurlifnaðann
sjálfann í sannleik
sæum, vinr!
mundi himins hinn
hái fögnuðr, —
fallvaltr foldar
fögnuðr eigi —
unun eylífs lífs —
orð finn ek traudt —
mundi, mættum vèr
Messíam líta!
O! þat mundi með
meira krapti
sannfæra ok sigra
sálir vorar,
enn ljóss allkyrrar
yfirvegunar,
sem þær með sannleik
svo streymir um!
Mattías mælti:
Messías vorum
ó at upprisinn
augum birtist!
ok lemstrum lostnar
læknaði brátt
með sjálfs síns nálægð
sálir vorar!
Kvað nú Kleófas:
kærasti vin!
ofmikit er
þat við óskuðum;
eptirlætis alls
ósegjanligast,
ok hæðst at hljóta,
hvör mætti því,
en þó æskti sèr,
eptirvona?
fögnuðr finnast
fyri þetta,
annar eins ok sá
eigi má, líf!
Nú höfðu hryggvir
Herrans sveinar
hèr greindir gengit
gegnum skugga
hángandi hæðar,
sem var harla brött
vegna viðundins
vegar buga,
sást nú við síðu
sorta skúti.
Þaðra sáu þeir,
þó í fjarska,
framandi feta
ferðamann einn;
með stilltum stigum
stýrði gangnu
þessi til þeirra
þrekliga vaxinn,

ok at allri mynd
ypparligr,
virðtist þeim hann víst
vera af þaunkum
allur inntekinu
alvörnfullum.
Kleófas kvað,
er hinn komanda
leit, við lagsmann sinn:
látum okkr
með hægð, Mattías,
meiri gánga!
máske með okkr
maðr þessi
sjálfkrafa sik
í samferð gefi!
Ok hjörtum okkar
ángruðum svo
fái nokkra fró,
þeim til friðunar,
veitt með viðræðum
vitsku-sinnar,
hygginn sýnist hann
ok hárrar lundar.
Mattías mælti:
hve má okkr
hans háa vitska,
þótt hygginn sè,
kæri Kleófas!
koma at gagni,
svo framt sem hann
um sjálfann Jesúm
eigi við okkr
at eins ræðir?
Nú hinn nýkomni
nálægist þeim,
ok þá ávarpar
ástar kveðju;
heilsa þeir honum
með heiðrun stórri;
en hann aðspurði:
hvört arkið þið?
Kleófas kvað:
til kauptúns okkar
Emaus áform
er at gánga!
mun ek þá mega —
mælti' hinn komni —
fylla fèlagskap
ferðar ykkrar,
því ek fer einnig
til Emaus?
Þú hinn kærkomni —
Kleófas sagði —
ok mæti maðr
með okkr gakk!
æ! við óskum þess
inniliga!
Um hvað áttuð þið
ykkar á milli
svo ákaft samtal?
sagði enn komni;
sannliga sá ek
sálir ykkar
allfast áhánga
orðræðum þeim,
ok af harðri hrygð
haldnar vera.
Kvað þá Kleófas:
hvað kunnum við,
æ! hvað áttum við
um at ræða?
ert þú alleina,
sá ei viti
þat sem þó hefir
á þessum skeð
bitra böls dögum
í borg Jórsala?
þá spurði þessi,
hvað þat væri?
Lángt aðkomni — kvað
Kleófas aptr —
ó svo þekkir þú
þá ei Jesúm
næsta nafnfrægann
af Nazaret,
Guðs Spámann, Guðs mann
guðdómligann,
sá er miklum með
mætti í verkum

hvervetna ok hárri
himins speki
gekk fyri Guði
ok gjörvöllum lýð?
En vorir æðstu,
sem yfirdrottna,
upptendraðir af
allraneðsta
helvítis heipt
ok hefndar æði
handtóku hann,
ok í heiðins vald
Pontversks Pílats
til písla seldu,
sá lèt dauðadóm
dynja á Jesúm.
Loksins — ó at ek
eigi þyrfti
hræðiliganu hans
helfarar máta
á nafn at nefna! —
negldu þeir hann
á kvala kross,
at kanna dauða.
Æ! lát eigi þess
af mèr krafit,
at ek þær undir
ýfi at nýu,
sem minni sál
eru sárastar;
at ek hans andlát
útmáli þèr;
Hvörnig hann fastr
hèkk á krossi;
hvörnig dreyra drakk
dýrmætann hans
dauða háðr háls
höfuðskelja;
hvörnig hann fölur
undir hels fargi
um hjálp hrópaði,
já, um hjálp til Guðs.
Æ! vèr vonuðum
vissuliga
á hann, ok hèldum
heimi sendann
Meðalgaungumann
Messíam vera!
ætluðum einnig,
at hann mundi
eflaust Israel
endurleysa!
yfir allt þetta
er dagr nú
hinn þriðji þessi,
síðan þat skeði.
Svo hafa ok svannar
útaf sveit vorri —
mælti Mattías —
mjök oss skelfða!
árla voru víf
vikin þessi
í dag gagngjört
til grafarinnar,
en hins andaða
ei fundu lík.
Komu felmtursfull
fljóð til baka,
sem ok höfðu sèð
sjónir engla,
hvörjir hermdu þeim,
at hann lifði;
æ! vèr glaðir gjörst
gätum þó ei'!
nokkrir gengu greidt
útat gröfinni,
er þeir einnegian
opna fundu,
en aungvann inni
andvana þar.
Lá nú leið tèðra
Lærisveina
meðal myrkviðar
af meiðum pálma;
leit þá hinn þriðji,
sem þeim fylgði,
til þeirra tveggja
með tignar svip,
þeim ei stýrir stolt
heldr stærð sálar,

svo viðr sína
sannleiks öflugri
með raust ræðandi
reisubræður:
Heyrið, þèr heimskir
ok í hjörtunum
næsta tregir til
at trúa hvörju,
sem spakir spámenn
spjallat hafa!
hlaut ei háðúngar
hel ok pínu
Kristr at kanna
krossfestíngar?
ok fyrst útstaðnar
eptir þrautir
upphefjast aptr
í sína dýrð?
Báðum varð byllt við
ok brá til furðu,
hvör, sem höggdofa,
horfði á annann,
en á hann hræddir
með heiðurs ótta;
hugkvæmst hefði þeim
við hann at skilja
um fá augnablik
einúngis þó,
svo þeir sèr um hann
sámrædt gætu.
Urðu ljós óglöð
augu þeirra,
mættust, ok með sèr
milli báru
spurníng þessa þau
til þeirra á vixl
harla hvatliga:
hvör er þessi?
hvör er sá, er svo
sálir okkar
með æru-ótta
ok undrun fyllir?
Þó hafði hèrmeð
hann yfir þeim
at eins uppbyrjat
enn at drottna,
síns með sigranda
sannleiks valdi.
Sem sterkr stormr,
strax þegar rís,
ei blæs með öllu
afli sínu,
nè skóg naprara
nú í fyrstu
allann uppfyllir
enda milli;
Dvelst enn dagsæva
dölum hans í;
skuggar liggja lágt
lit-fölari,
ei er sól enn nú
öllu meginn
umsveipuð orðin
með ægri nótt
ógn þúnguðum af
ofviðris skýum;
Svo hóf nú sína
sá hinn tígni
ræðu reikenda
reisubróðir;
eigi leið lángt,
áðr leiddi þá
hann djúp ofan í
opinnberunar.
Mælskumaðr Guðs
Messíam hennar
sèrhvörju sveinum
sýndi í djúpi,
ok þeir öflugum
orðræðum hans
eigi máttu meir
móti standa.
Þannig þrengir sèr
með þrótt auknum
sterkari stormr
gegnum stórann skóg,
allar hans eikur
ódt títrandi
með braki ok brestum
bognar lúta

djúpt, fyri dunum
drottnanda storms;
þeim er þrumu ský
ok þúng fylgja
himin-hrapandi
haf-strauma flóð,
einu fjalli frá
framm til annars,
hönum fullfengit
föru-neyti!
Nú biðu báðir
ok beiddust hvíldar
þeir vegna þreytu,
meðan þerruðu
sveita sárheitu
sèr af enni,
ok við sinn sögðu
samferðamann:
Oss þú ókenndr
ert at sönnu,
Guðs maðr! gjörla
getum við þó
þik Guðs mætann mann
merkt at vera,
þann við með virðíng
vandliga skoðum;
þat er víst at þú
þesshåttar ert!
Tef við ok tómstund
til at hvílast
leyf okkr lítit
við lind svala!
setti sveina hvör
sik hjá öðrum,
en gegnt þeim gestr
guðligr sat.
Nú tók hann til
at tala mýkra;
gjörði grunnlausa
Guðs Sonar elsku
til mannkyns mergðar
sèr at málstofni,
einnig ást manna
aptr á móti
honum til handa,
sem hans eru.
Þá minntust þeir
á þess ens mikla
Hirðis helför
með hýrari sál,
inniligrar af
endurnærðir
rósemdar rökum
við ræðu hans.
Eins sem eptir dag
ákafs hita
kemr kvöldrökkurs
kælandi blær,
ok sèr úthellir
yfir þreytta;
svo fèkk nú svala
sveina hjörtu
hann yfirausit
endurnæríngar.
Hann aðspyr: elskið
ok svo þèr hann?
skyldum vèr — skutu
skjótum orðum
þeir framm þessum —
eigi þann elska?
hafið þèr hvört sinn
hann elskat þa?
svo hann aptr enn
eptirspurði.
Sveinar svöruðu
með svip hrygðar:
vèr skyldum við hann
í varga höndum,
þeirra sem þetta
þegjanda Lamb
upp at altari,
svo þar offraðist,
drógu til dauða
á döprum krossi!
æ! vèr hann í því
yfirgáfum!
En nú — spyr aptr
sá hinn aðkomni —
þar er þèr vitið
þat hann hefir

útstaðit andlát
fyrir yðar skuld,
munduð þèr ok þá,
ef hann þess krefði,
ljúfir at láta
líf hans vegna?
O! — sögðu sveinar —
sannarliga
vonum vèr til Guðs,
vinr dýrmæti!
at sá hinn allra
elskuríkasti
mundi þor ok þrótt,
ef þessa krefði,
oss gjarnann gefa,
svo gætum þat.
En reiðst oss eigi,
með álúð bljúgri
við ok virðingu
viljum spyrja:
er hann uppaf gröf
aptr risinn?
eflaust er um hann
allt kunnugt þèr!
Ok munum mega
megin-heillar
vèr þeirrar vænta
vissuliga,
góði Guðs maðr!
at gjörast aptr
kærs Jesú Kristí
kættir af sjón?
Eigi báru brátt
bræður Jóseps —
ausar hinn aptr —
á hann kennsli,
þó kom þareptir
þeim at höndum
gleði-stund ok gráts
geðþekk ok sæl;
eigi mátti meir
mildr Jósep
bindast at birtast
bræðrum sínum,
heldr af hjarta
hástöfum grèt!
Hinn mikli maðr,
at mæltu þessu,
stóð nú strax upp,
af stað gángandi,
með fegins felmtri
fylgðu þeir honum
efabundnir um,
hvörju ættu þeir,
ellegar ættu
ekki at trúa?
Sögðu: síst var hann
sjálfr þetta!
heldr engill einn
á at getska?
ok nú nema þeir
á ný staðar,
ok hinn ókennda
ávarpa svo:
Leyfist okkr enn
einusinni,
þann sem ei þekkjum,
þik at spyrja?
er við at sönnu
ei fáum þekkt,
en þó upphefjum
ósegjannliga
ok elskum ennú
ósegjanuligar!
Æ! seg, hvör ertu?
hvör ertu, seg?
ei við þorum þat
þik at faðma!
ert þú máske einn
engla þeirra,
sem við gröf sáust?
seg okkr þat!
Faðmið mik! kvað fljótt
sá hinn framandi;
en þeir örmum strax
um hann spenntu,
ok lengi luktann
lètu í faðmi,
haldandi hönum
um háls grètu.

Nú þeir nálægðust
nefndu þorpi
Emaus, er þeir
ætluðu til,
þá sagði þessi,
sem þeim fylgði:
ek geng nú áfram
enn til minna;
bræður mínir! brátt
brautir skilja;
leið mín, lítið þèr,
liggr hèrna
yfir Emaus
enn lengra framm!
O! vert hjá okkr,
elskuligi!
sögðu sveinarnir,
sjá, nú kvöldar!
hratt fer at húma,
hallar degi;
báðum höndum hans
hèldu þeir fast,
með blíðu brjósti
báðu ok skulfu.
Sleppið mèr, því mjök
mínir erú
frá oss fjarlægir —
kvað hinn framandi —
meðr þúngri þrá
þeir vænta mín;
hjá sèr hafa þeir —
hinir sögðu —
þó jafnann þik,
ok þú sèr líka,
hvörsu hjartkærann
vèr höfum þik!
O! vert hjá okkr,
sem vèr umbiðjum!
vegna hvörs villtu
voða nætur,
góði Guðs-maðr!
gefa þik í?
víst máttu meira
mæla um Jesúm
okkr til yndis!

æ! vertu kyrr!
Svo vil ek — sagði
sá hinn komni —
bíða, sem biðjið,
bræður mínir!
Kleófas kunni
kærliga þökk,
ok með allglöðum
augna svífum,
eigi með orðum,
undanhleypr
mæta máltíð
til at matreiða.
Mattías mælti
við meðfylgjanda:
hèr á sèr inni,
meðal Emaus
kauptúns, Kleófas,
kallast hann svo,
sem mèr samferða
sèð þú hefir,
Jesú lærlíngr
lyndisfrómr.
Skýla skála þess
skuggar hliðum
fögrum eikum af
ok allþèttum;
ein fersk ok fögr
frammrenur lind,
þar lopt ljúf-svalast
ljær forsæla.
Svo mjök þat sá ek,
sèr hann flýtti
til at búa borð,
ok brjóstum okkar
af litlum efnum
endurnæríngu;
ó! slík aptans kyrð
eptir sorgar
ok þrauta þúnga
þessara daga!
Þökk sè þèr einnig,
þú maðr Guðs!
at þú oss virðir
inngaungu þinnar,

ok ei fátæk faung
fyrirlítr
okkar allsmáa
einfeldnis-húss!
Jafnt sem þú Jesús,
nær á jörð lifði,
manna vinr var,
velgjörðasamr,
sá lítilátr
lækkaði sik
allt at ítrasta
auðmýktar dupti,
ok gjarnann okkr
endurnæríngu
veitti voldugum
með vísdómi.
Enn framar um hann
læt ek ótalat,
því yfir allt þat,
sem útaf honum
orkar munnur minn
mest at ræða,
Jesús at eðli
upphafinn var,
hvörjum hèr þèntu
heilagir englar.
Sýnist mèr þó samt
sök ok efni
lítilækkunar
lofsverðrar hans
undrun enn dýpri
útkrefjandi,
enn líka-lausa
lægíngin sjálf.
En hins eylífa
ákvarðaðr
vilji varð þannig,
ok hans velþóknun
djúp þessa dýra
dásemdarverks
lèt hann fyriframm
feðrum opnat.
O! at aldr minn
ek gjörvallann
mætti, maðr Guðs!

með þèr lifa,
ok þarnum öðlast
af þèr kennslu,
hvörnig himneskum
heims Friðþægi,
svosem sál mína
sárlángar til,
megi makliga
mitt líf helga!
Því, at þakklæti,
ok þat án enda,
inniligust, æ,
elskufull þökk
af heitu hjarta
honum greiðist,
víst er verðugt,
sem vorar hefir
svo friðþægt fyrir
fárligar syndir,
ok þvílíks elskat
oss til dauða.
Kofa Kleófæ
komu þeir nær,
sáu þeir hann þá
þeim til drykkjar
vatn ausa af opnun
uppsprettunar,
setr hann þat hratt
hjá sèr niðr,
ok balsams urtir
ilmandi þvær.
Um hendur honum
hèrmeð flutu
burtslitin blómstur,
bárust nokkur
ofan eptir læk,
þar upptók *sik*;
nú sá hann nálgast,
nær því kominn,
meðr Mattía
hinn mikla gest,
spratt þá harla hratt
hann á fætur.
Vert mèr velkominn,
þú vinr Guðs! —

kvað svo Kleófas
við hinn komanda —
gjörvöll Guðs blessan,
sem gæddann hefir
hann þik hvervetna,
hèr inngángi
með þèr, maðr Guðs!
í mitt hreysi!
Mattías með þeim
mundi fylgja,
færandi fötu
hins ferska vatns,
ok þar ásamt með
endurhressíngu
dýrra drjúpandi
dáða jurta.
Hafði þá þegar
þúngalaust borð
Kleófas klædt
með kofans öllum
ríkdómi ok rausn,
af rèttum mjólkur,
hunángs, fíkna fermt,
ok fjör-styrkíngu
brauðs, ok með bikar
brjósthollum víns;
hann ok hèr umkríng
hafði tjaldat.
þeir sik þá til borðs
þegar settu,
gestr einn útaf
á aðra hlið,
en þeir andspænis
yfir frá honum;
augu sín á þeim
alvarligr
fèkk hinn framandi
fest, ok glaðr.
Með rósemd mestu,
mjúku þakklæti,
hann ok hæversku
heilagligri
hèldt í höndum sèr
hjá þeim brauði;
sá hinn sami var
siðr Jesú.
Hann leit til himins
hógvært ok stillt,
eins ok veglig var
venja Jesú;
nú horfðu hinir
hvör til annars,
ok á hann einnig
einart störðu!
Borðhaldit með bæn
blessaði hann;
raust ens ræðanða
var raust Jesú,
ok hans andlit,
sem orð las bænar,
var nú undireins
andlit Jesú;
sú bæn var samin
svolátandi:
Veri vor Faðir
vegsamaðr,
hann enn hæðsti,
sem á himnum er,
fyrir góðgirndar
gáfu sína,
er hann oss veitti
til uppheldis
þessum, sem þrykkir
þörf, líkama!
Margir mjök smáa
meta þá gjöf;
en með almætti
einu ok sama,
sem skóp himna hvörn,
hefir vor Faðir
þó tilreidt þetta
fyri þörf vora.
Æ! jafnvel orð hans
ein ok sömu!
sögðu sveinarnir,
ok sömuleiðis
fèllu fagnandi
fölir á bæn;
en hann aptr svo
upphóf ræðu:

Honum sè heiðr!
hann bauð sólu,
at hún oss lýsti,
einnig mána,
at hann enni sveitt
erfiðenda,
þeirra þerri,
sem þreyttir eru;
hann oss hvörs dags brauð
til handa skóp;
tignuð sè tign hans
ok tilbeðin!
Nú braut hann brauðit
ok býtti þeim;
meðtóku þeir þat,
ok þegar urðu
fölari enn fyrr
vegna fagnaðar,
horfðu þeir á hann
ok hugðust mæla,
en aungvum orðum
gátu uppkomit;
eittsinn enn
með ást blessandi,
horfði hann á þá,
ok hvarf í því.
Þeir flugu á fætur,
fóru á eptir,
höfðu hraða ferð
hans at leita,
en hann ei fundu,
ok aptr komu
heim at herbergi
með hugar ró.
Mattías mælti:
munum vèr hann
efalaust aptr
augum líta!
ek, minn elsku vin!
er á himni,
á himnum er ek
en ekki jörð,
kæri Kleófas!
Kleófas glaðr
honum at hjarta
hnèg ok þagði.
Hann faðmar feginn
fèlaga sinn
með ást ok alúð
inniligri,
hann lèt honum svo
haldit lengi,
ok hann enn á ný
að sèr faðmar.
Þá kvað Kleófas:
kenndi ei bruna
í okkr, ástvin!
okkar hjarta,
nær á götu gekk,
ok um Guð ræddi
í dag við okkr
hinn elskulígi,
einart opnandi
orð ritnínga?
En við sitjum svo
ok seinkum okkr;
strax greip hann staf sinn
ok stóð á fætur;
Mattías gagngjört
greip sinn líka;
báðir brugðu við
ok burtgengu.
En um allt þetta,
er þeir gengu
útaf Emaus,
áttu Pètr
tal ok Tvíburi
tveir milli sín:
dulit — sagði svo
sá hinn fyrri —
láttu þetta þá
þeim, ó Tómas!
Svo hardt at hrella
hjörtu þeirra
vel þú varast,
sem vilja trúa;
útslökk eigi þú
eldneista þann
í þeim allveikann,
annars kynni

hann upp til himins
hátt at loga;
þenna kæfir þú,
nema því leynir!
Svo má ek, Símon! —
sagði Tómas —
aldrei auglýsa
uppfrá þessu
vorum vinum,
svo at viti þeir
þat sem þúngt er
í þánka mínum?
ángist alla,
sem at mèr þrengir,
hlýt ek at hafa
hulda með þögn?
Hvað mun þeim hjálpa
hugarvillu,
en þótt inndæl sè,
í at sveima,
en með þess þýngri
þareptir hrygð
af því uppvakna
öfug-dreymi,
sem hin vilta von
værar' svæfði?
O! nefn þat eigi
öfug-dreymi,
bróðir mæti minn! —
mælti Pètr —
við þann einn, sem um
eylífð varir,
já, við Jesúm,
sem er jafnann lífs,
en þótt andaðist,
ek þik særi,
nefn ei villu von
verk þat, bróðir!
hægri hönd Drottins
sem hefir gjört!
O! nefn eigi svo
opinnberun
yfir sèrhvað eitt
undrunarverðrar
dýrðar, sem ek sá;
sannliga staðr
hár er ok helgr,
þar hann ek sá.
Þar var þat, mèr brann
þyrni runnur,
þar skein Drottins dýrð
dásamlig mèr,
þar var háleitt hlið
himins opit!
sjá vissa votta,
þar vèr hèr stöndum,
umkríng þik, aðgæt
athugasamr,
at vèr erum hèr
allir níu!
Magdalenu merk
ok mik síðann;
gjörla gafst oss
hinn guðdómliga
á lífi at líta,
lifanda hann,
ei lengr liðinn,
lítum vèr allir.
Af ángist önd mín
í mèr hrærist —
mælti María
Magdalena —
þína þúngu hrygð
þegar ek sè,
þá sáru þánka,
sem þik kvelja
grafandi grillna
gruns ok efa.
Haf þú við hann,
frá helju risni!
milda meðaumkun,
menta-svein þinn;
æ! þik yfir hann
aumka, Jesú!
þat er af ángist
ok eymd hans sálar,
at sú ástríðir
efasemd hann,
aunganneginn af
illu hjarta!

Brjót ei hinn breiska
brákaða reyr;
slökk ei hörkveik hans
harla daprann
ok líttloganda,
lærisveins þíns;
mikli Meistari!
miskun þína,
eins ok mèr áðr,
auðsýn honum!
Trúir þú, Tómas!
tignarligr
himins engill einn
at með slíkri
mæla megi raust,
með þessari
eylífs lífs æðstu
ununar raust?
svo hljóða himins
hásaungvar eigi.
Eins ok örendra
endurreisir
endurrisinn ok
uppfrá dauðum
mælti, með nafni
þegar mik nefndi,
er mik eptir því,
at hann sæi,
þyrsti, svosem þik
þartil lángar,
nafni mínu með
mik nefndi hann.
Tómas svarar svo
svannans máli:
feikna fár yðar
forundrunar
æ mèr enn dýpra
yfirgefnum
ofannhrindir í
ángistar hyl,
sá er svelgir upp
sálu mína.
Yfirtaks ákefð
yðar ræðu
gjörði sjálfa sik
eigi sjónvilla?
svo meðr sárri
sinnis gremju
talaði Tómas,
sú er tár hepti.
Símon hèldt samann
sínum höndum,
er hann gnýr ákaft,
alvarligri;
þín at eins ákefð,
sem efar með,
gjörir sjálfa sik —
sagði hann — blinda.
Vèr sáum víst,
ok við þat urðum
allir af undrun
upptendraðir;
hvör er á himni,
sá af háleitri
undrunar unun
eigi logar?
En þú sèr ekkert,
ónýta þèr
skapar þú skugga,
skelfandi myndir
grafar ok grímu,
grílur efa
þessar lætr þú
þitt hræða geð;
þarum ræðir þú
frá þèr numinn,
miklu meir enn vèr
útaf Messía
aptr upprisnum,
er vèr sáum,
hvörs vèr heyrðum raust
ok á hörundi
hvörs vorar hendur
hafa þreifat;
Sá er með sinni,
sem vèr þekktum
jafnann honum hjá,
hjarta gæðsku
allri fyrir oss
auglýsti sik,

ok sem þú áðr
einnig kenndir.
Sel þik aptr sveit
Sadúceanna,
ok trú ásamt þeim,
at engi sè
engill nè andi
ósýniligr,
engin upprisa
andaðra manna!
En við orð þessi
ofannhrundu
Tóma tregafull
tár af augum;
Salóme sá þat,
ok sefa vildi
hrellíng hans
með huggun sinni.
Sem hún tala tók,
Tómas svarar:
útskúfa mèr ei,
ástvinr, svo!
æ! glíkri geðást
hinn guðdómliga
ek sem þú, Símon!
þann er sofnaði
á krossi, Kristum
kærann hefi!
Nú hóf sína svo
Salóme ræðu:
mýkið, góðir menn,
mein hans sorgar;
þèr sjáið sjálfir
hvörsu sárliga
hann af ángist er
umspenntr nú.
Skyldi til torveldt,
Tómas bróðir!
þeim, sem þú heiti
þess ens dána
guðdómliga gafst,
at greiða sál
útaf þraut þína
þessarar villu?
mun hann ei mega
útaf mikilli
hrífa hjarta þitt
hörmúng þeirri?
Hann, hvörs hugprýði
í heli midt
á köldum krossi
klárt bar vitni
um hæð ok hátign
hina sömu,
er hans umvitnar
ódauðligleikr,
þetta láuglífi
líf enna sælu
engla, sem er hann
upprisinn til!
Ojá, engla líf
eylíf sællra! —
hermdu hinar,
sem henni fylgðu —
ódauðligt eðli
einskært var þat,
sem vèr svo berla
sáum á honum!
At sönnu eigi
útfrá honum
glíkt sem Gabríel
geislar skinu,
ei' sem englum þeim,
er umkríngðu
Betlehems búð,
þá hann barn fæddist;
Eitthvað annat þó
enn til forna,
meðan vor mildi
Meðalgángari
hèldt sik hjá oss
fyrir hèðann gröf,
var nú auðsèð í
andlitsfari
gjörvöllu ok gángi
hins guðdómliga.
Ok at eins Herrann
yðr birtist? —
mælti Tómas mót —
en mèr ekki?

ek þó í þessu
vil þegja' um mik!
eigi sorgsærðri
sinni móður,
ok ei' Jóhanni
arfa hennar?
Honum ei, sem hann
helgri móður
at syni, sjálfr
settr á kross,
henni ei, sem hann
honum at móður,
hulinn helblóði,
hafði gefit?
Þau ræddu þannig
þá milli sín;
hremdi heyrendr
harðr efi,
aptr átti trú
umráð meiri,
skiptust þau opt um,
ólgðu ok brunnu
sitt hvört sinn, gegnum
sálir þeirra.
Nær prúðr Pètr
prèðikaði,
nær konur kjörnar
til Krists votta
töluðu teitar,
nær hin trúaða
María mælti
Magdalena,
þá gat hvör geiglaust
gengit á sjó;
En þegar aptr
efasamr
Tómas talaði,
tóku þeir brátt
í hinn sama sjó
at sökkva niðr,
helzt til huglausa
af hans fortölum
keirði þá á kaf
komandi bára.
Sveif frá sveit þeirra
sveinn með efa
bundinn, ok burt
af borg Jórsala,
fór hann fetandi
í fjærvist manna
ytstu gröfum at
olífufjalls;
Svo hann sèr fengi
sökkt enn dýpra
í kvöl ángistar
einmana þar;
þá vill hann þat ei
þess á milli,
heldr at hægja
með hvíld einveru
sinni djúpt særðu
sál í kyrðum.
Hefir í hendi
hægri bikar
fullann fagnaðar,
en fal æganu
í enni vinstri
einvera sinn;
bikar býðr hún
börnum lukku,
en at aumstöddum
otar fleini.
Nú var í nokkra
náttligustu
lángt fráliggjandi
lík-hvelfínga
með trega tárum
Tómas kominn,
hrygðar byrði hans
hèr þýngðist mjök;
At sál hans sigu
sorgligri þánkar,
kvalir hjarta hans
hálfu meiri
höfðu hèr enn fyrr
huggunar þörf!,
sveittist sál hans við
sik at hefja
uppúr afgrunni
eymdar slíkrar,

er nú sem óðast
æ dýpra sökk.
En hann til einkis
erfiðaði,
ok mundi at öllu
uppgefist hafa,
ef hann eigi sèr
athvarfs hefði
ok líknar leitat
loks hjá Guði,
allra örþreyttra
einustu stóð;
Einka styrktar staf,
þegar sturlaðir
vèr midt í mæðu
myrkri gaungum,
ok vorrar veikann
við at styðjast
höfum hèr at eins
huggunarreyr;
þat fann þá Tómas,
ok þessvegna
snèri sèr til hans,
sem einn hjalpar:
Til þín, góðgjarni
Guð, enn huldi!
vendir sèr mín sál
sárum lostin;
ei kann hún annat
athvarf at fá,
í hennar hrygðar
huglausum efa,
hvörsu þó sem þíns
þykkri jafnann
dulin með dymmu
djúp eru ráðs!
Víst er vegr hels
vafiun myrkri,
en þó er stigr,
sem ek ráfa,
daprari ok dekkri
enn dauðans spor!
Ræsir, sem ræðr,
ransókn stærri,
öllu sem er
ok á at verða!
æ! horf á hörmúng
híngat niðr!
álít mik aumann
orm, þar ek skríð
mjök sár í myrkri
miðrar nætur!
Ætta'k þik eigi,
mitt einka bjarg!
utann augu mín
á þik sjálfann
harla hjálpar-þyrst!
í hæð mændu,
ok ek eptir þèr
upp til himins
þendi þreyandi
þreittar hendur;
Lágt fyri laungu
lægi ek fallinn
þá undir ángist,
af efans grimd,
ok fyri fargi
væri forgenginn!
Hvörsu hún, sem nú
fyrir hans sakir
emjar af ángist,
elskaði hann,
öndin mín, hve öll
áhèkk honum,
gjörla þekkir þat
þú, Jehóva!
sjálfr veizt þú vel,
at hann var mèr allt!
Þú hafðir hann
af himni sendann
á fold, ó Faðir!
með fjöld gáfna,
af gnægð gjörvallri
gæðsku þinnar,
hvörskyns miskun með;
mèr var hann allt!
Þenna sama þó
þú lèzt hengja
á kross, ok kvelja,
ok kanna dauða!

æ! hann andaðist!
æ, framar mèr
enn hinum öllum
er hann dáinn!
Miðnættis myrkr!
þú sem Messíam
hylr nú á hæð
höfuðskelja,
eðr í einni
enn dekkri gröf,
sem ei fellda fèkk
foldar skjálfti,
ó! at hjá honum
þó hyldir mik!
O! at ek mætti
undir sama
hvíla mik, sem hann,
helbeðs þaki,
ok þar sofa sætt,
sálar unda
þreyttr orðinn af
óbærri kvöl!
Æ! ek er þá svo
fyrir utann hann!
æ! ek hlýt án hans
hjara ok deya!
ó þú ógnar nótt,
sem mik umkríngir;
vei mèr! at ek verð
at vera hans án!
Bjarg á bjarg ofann,
botnlaus hylur
rètt við annann eins!
ofboðslig nótt,
mik, þú en myrkva
mín tilfinníng
hví vilt þarmeð þú
þannig kvelja:
at hann muni mèr
meira síðar,
enn hann var áðr,
eittsinn verða?
Hví gegnumgrefr
grætta sálu
í mèr ok svo þú
efamál nýtt?
ert þú ódauðlig,
önd, sem hefi?
yfirfallið ei
áðr flúnu,
andstygð fullar af,
efanir mik,
með yðar ofsa
endurnýuðum;
æðið ei, æðið
ekki sem fyrr!
O þú mín, sem ert
ódauðlig, sála!
djúp er, ofdjúp er,
offull neyðar
eymd þín af undum
öll flakandi
sundr-rifna sál,
sem hans ert án!
Svo ættir aungva,
þú hín aumasta!
hlutdeild í honum
hèr í dupti,
svo lengi sem ek
sorg boginn skríð?
en hann er jafnvel
oksvo dauðr
máske megnugr
mèr at hjálpa?
Hve má ek miklu
myrkvari kenna
flækju-gatna gaung
fyri gröf handann,
stuggvænnri stigu
sturlunar-fyllri,
sem dauðans dalr
drótt færir til,
með því mèr er ei
moldar götur
þúngar at þekkja
þessa lífs unnt?
Guð á gnúp Ebals,
Guð á Sína,
í reið, eldíngum,
ok í stormi!

heyr, Faðir! hvar er
þinn hái Sonur?
hvar þínar hvíldust
hvötu þrumur?
hvar svaf þinn hvassi
hvínandi stormr,
þá er harla hár
hóf sik upp kross?
Svo skalf at sönnu
í sínu mikla
ógnar ofboði
algjörla jörð,
at frá sèr fleygði
feikn af grjóti,
svo af gný glumdi
gjörvallur himin;
ok hrædd ok huglaus
hvör ok ein sál,
af ógn ok undrun
alls sem skeði,
sundr söxnð varð
ok sárt knosuð;
En Jesús áðr
andaðr var;
þó kom í koll þeim,
sem hann krossfestu
enginn ama steinn,
þótt ótal flýgi,
aungvann gleypti gaur
gjá nè sprunga!
O Faðir, sem ert
almáttugr!
Guð auglýstr í
engils dómi,
þess sem fyrifór
ennm frumgetnu
endimörkum í
Egyptalands,
en lèt ósnertar,
ok allt hvað geymdu,
ádreifðar dreyra
dyr í Ramses!
Guð í sterkum straum,
sem stóð skiptr,
meðann milli gekk,
sem múra tveggja,
allr Israel
undarliga!
Jehóva jafnt
kríngum Jeríko!
þá skara þinna
þeyttu lúðrar
hrundu hardt niðr
háreistri borg,
svo hún döpur datt
í dal pálma!
Drottinn, Drottinn Guð!
dýpstrar mildi
næsta náðugr,
svo í ná-dupt ei'
muldust Mósis bein,
meðann þinni
dásamligri dýrð,
með dýrkun fjærri,
hann á bak horfði
hulinn í kleif!
Guð svo með sjálfum
Syni þínum,
at hann öruggt gekk
ofann sjáfar
opnum bylgjum á,
ok með honum
lofligrar trúar
lærisveinn hans!
at hann augum blinds
upp fèkk lokit,
svo skæra sköpun
skírt gátu sèð,
æ! sèð hann sjálfann
sinni fyrsta!
At hann aptr líf
ástvin dauðum,
þeim sem þegar var
þó at rotna
tekinn til í gröf,
tákna stærst gaf;
ok þat hann þína
með þèr uppvöktum
gladt gat, Semiða,
grátandi móður,

þá grèt hún gleði
vegna gjafar hans!
Guð svo með sjálfum
Syni þínum,
at hann með hugar
himneskri ró
þoldi þvílíka
þjóns lægíngu,
hvörskyns hörmúnga
hræðiligustu
smán á smán ofann
smurða spotti,
benjar á benjar,
ok bana á hel!
Heyr Guð, heims dæmir!
hvar er þinn Sonur?
muntu, miskunar
mikli Faðir!
eða mun hann mik
míns þessum af
aptr fá uppreist
ángurs dauða,
af þeirri andstygð,
af þeim myrkrum
æ kvöl aukandi
efasemdar?
En hvar at hverf ek?
hvört snýek mèr?
hann liggr liðit
lík, ok fúnar,
ok þú Guð þegir
þótt ek kalli!
mjök svo þyrstir mik,
má ek varla
lengr viðvara,
því ek vanmegnast,
eptirlaungun af
at öðlast hjálp!
Hann upp af helju
hafi risit?
á þeim ek skal mèr
uppihalda
hálfsokknum hálmi,
þú huldi Guð!
nær þín feikna flóð
fossum dynja
öll samannsöfnuð
yfir sál mína?
þessum orðum enn
gat hann útstamat,
þarnæst þagnar,
ok því fastara
heldr hardt gnúnum
höndum samann!
Æ! at mætta'k í
einni grafa
þessara þegar
þrotinn hvílast!
ei mundi' hann mik
af mold nú vekja,
ok hvörnig ætta'k
inní þat líf,
sem hann ei er í,
aptr venda?
Farsældar fólk,
enir frammliðnu,
sem hèr sofið nú
svo mèr nærri!
þekktuð þèr Jesum?
þúsundsinnum
gæfugefnari!
guðdómligann
ef kennduð Kristum
ok kærann höfðuð!
æ! svo eins honum
eruð þèr hjá!
En þèr eruð mèr
allir dumbar,
sèrhvörs hlutar svar
er svarlaus þögn!
þèr hin þurru bein
þannig sundruð,
sem hèr fis-fúnið,
munuð formerkja
Herrans háu raust
ok hratt vakna!
Renni dagr dóms
dýrðarfullur
umsíðir upp,
nær hinn eylífi

aldafaðir á
yðr kalli
voldugu at varpa
virðir yðr:
ek gef anda' ok líf
yðr á ný!
Æ! mín bein munu
með yðr vakna,
ok hans þá einnig
munu upprísa
bein, sem at sönnu
sundr eigi
brutu beisklyndir
bana menn hans,
en sem þó eflaust
undir nætur
ok moldar myrkrum
munu fúna!
Þá ——— en hvörsu þó
þángat til laung
raðar reim máske
rekst til enda
eylífðum af,
at ek uppvakna!
en til míns andláts
ei verðr lángt!
Stutt ok ei stöðug
er stund vors lífs,
draumr, fleygi-flug,
fljótr þánki!
þó at eins nær þat
er þotit yfir,
liggr ok þess enn
oss á herðum,
hvörsu lángsamlig
er lífs streita!
ok líf líkt mínu
lifat án hans!
O! máttu merkja
útaf miðnætti,
þú sem hlust ok heyrn
hefir skapat,
óp ok eymdarkvein
eins sem lifir,
en þyrstir ákaft
eptir dauða?
Há sè heill yðar,
hinir aðrir
Krists ens krossfesta
kæru vinir!
sælir sèuð þèr,
ok sífeldt njótið
ánægju ok yndis
í yðar ró!
Þèr ætlið at hann
upp sè risinn!
þaraf fagnið þèr
eigi því minnur,
þótt af draum dillat
dátt yðr sè,
lystiligum draum,
líkt sem forðum
sá var, sem Jakobs
sálu hresti;
Ei at sönnu svo
sannleiksfullum,
en þó með unun
ánægjusamri
yðr eins ok hann
endurnærauda!
Nei, veina ok væla
vil ek ekki;
ó þú, sem augat
einn hefir gjört,
ok sèr þá sáru
sorgar pínu,
er mèr inust í sál
ákaft brúsar!
at ek eins ok þeir
yrði glaðr,
var ei vilji þinn
voldugi Guð.
Hvörnig mundi mik
mega gleðja
yfirgefinn ek!
ef hann sæi,
ek mundi andast,
en ei lifa!
ek með ofskelfdri
ununar raust

móti Messía
mundi hrópa,
midt í því missa
mál ok deya!
En ek, hvört sem er,
andast mun brátt!
þú sverð hið sama
gegnum sál mína
gengr, sem gegnum
gekkst önd móður;
læknast móður mein,
en mitt blæðir!
Æ! virðst þik mèr þá
þú at sýna,
svoframt sem þú ert
sjáannligr!
birtast! hvílík bæn!
til baka snú
villumeiníng með
mín sál þessa!
hvað villtu hefjast
hærra til þess,
at á stuttri stund
steypist dýpra?
Gjarnann getr hann
gengit, ef vill,
heill ok hraustr
útaf hels skugga;
með hvörju móti
mun hann vilja
hafa látit líf?
til at liggja' at eins
frammliðinn í fold
fáar stundir?
Hann mundi hafa
háðúngar três
af stjaka stígit
á stórð niðr
með sómasömu
sigurhrósi,
girnst ef hefði hann
hèr at lifa!
Muudir þú ei mèr,
svo mik gleddir,
þik leyfa at líta
ef þú lífs værir?
hvör mun þjást af þró
þúngri, sem ek,
ok af feiknar fýsn
eptir fullvissu?
víst þat leyft lètir!
þú lifir ei!
Ek mun, er þik sè,
öruggt trúa!
já, ef í opnar
undir þínar
mína legg ek mund;
mun nokkuð þó
einn sá uppreis
undir bera?
Ok nær óstyrkvum
örmum meðr
fastheld föðmuðum
fótum þínum,
þá, með því móti
mun ek trúa!
eu af því eigi
ek trúa mun,
at mèr auðnast ei'
örmum fætur
þína' at þrávefja,
nè þeim halda!
æ! því nár ertu,
eu eigi lifir!
Næst voru ei nema
nokkrar stundir,
er hann oss var með
enn við Kidron,
þarnæst — ó hvað ótt
allt at krossi
tímans rásar reim
runnin er framm!
Ok hvörnig er mèr?
anda siuu þar
hanu uppgaf! hvörsu
hastarliga!
æ! mun þat allvíst,
er haun dáinn?
já, nár er Jesús,
haun er jarðaðr!

ok nú þegar í
annari gröf
dauðans dysjaðr
djúpt at nýu!
  Æ! mik yfirgef
eigi til fulls,
mikli Messíæ
ok minn Faðir!
undir ángistar
ofurþúnga
ek til grunna geng
gjörsamliga!
  Þannig hrópar hann
hálfkveðin orð,
rambar á riði,
ok sèr rígheldr
um steinbrot stórt,
er stokkit hafði
úr grafa grjóti,
grund þegar skalf.
  Þá er tignar tjald
í tvo parta
rifnaði rètt,
ok riki dymmu
jarðskjálftinn jós
á Jerúsalem,
ok hennar allar
umhverfis fól
múra merkur
í myrkrum ógnar.
  Sá hinn sorgfulli
sèr fèkk haldit
enn nú með örmum
ærit þreyttum
um hið brostna bjarg,
þegar brátt viðgall
midt í myrkra þögn
málrómr nokkr,
sá æ nær ok nær
at neðann færðist.
  Hvörs er en harða
harmaklögun,
sem hèr gellr geyst
frá gröfum þessum?
mun þik morðíngi
meiddann hafa?
get ek þèr, gestr,
gjört nokkra hjálp?
  Herm mèr, hvör þú ert?
hyggst ek þínar
um benjar binda,
sem bezt ek kann;
tvistr Tvíburi
talar ekkert,
en spyr: hvör ertu
sá hinn ókenndi?
  Ek heyrði óp-raust
ángistar þinnar,
því hvarf ek híngat
til at hjálpa þèr;
fjærri, framandi,
fer, at ek sè
manna meiðir neinn
eða morðíngi;
  Ek fèkk í fjarlægð
formerkt þína,
þar í dal dvaldi,
dapra klögun;
sjá þú, sá ek er,
sem þèr hjálpa,
ef þat er möunum
unnt at geta!
  Tómas til orða
tók nú ok kvað:
gleðr mik, góði
gaungumaðr!
þat, at þitt er svo
þelfrómt hjarta;
Guð sè þinn gætir!
gakk nú þángat,
nátt-leið þessi þín
sem þik kallar.
  Kannske kærrar sè
komu þinnar
beðit af blíðum
barnafuglum,
ok mjök mjúklyndri
móður þeirra;
megn þitt má ekki
mèr veita hjálp,

undir þær, sem þú
þá mik heyrðir
með eymd ok ángist
ýfirkveina,
eru sálar sár
sorglig ok djúp!
Sálar sár, bróðir! —
hin sama raust
en nær aðkomin
andsvaraði —
seilst at mèr öðrum
armi þínum;
ek vil þreifa' á þèr
ok þik finna!
Tilseildist Tómas,
tók hinn móti,
ok hann með alúð
umfaðmaði;
fèllust þar í fáng
framandi tveir:
tók þá Tvíburinn
til at spyrja:
Grein mèr, gángandi
gestr, hvör ert,
hvört einn af ættum
Israels manna,
einn sem frá eyum
hefir uppkomit,
hátíð at halda
hèr í Salem?
inn mèr ok einnig,
hvört er þitt nafu?
Jakobs er ek einn —
ansar hinn — sona;
lángt fráliggjandi
löndum næsta,
já, feikna fjarlægð
em ek frákominn;
Jóseps nafu á ek;
en þú, bróðir?
Tómas — hermir hann —
heiti mitt er!
Jósep vinveittr
við hann ræddi:
en til hvörs, Tómas!
tefjum við hèr
í grímu ok grafa
geig-hroll' þessum?
ó! komum, kæri,
kreikum hèðann
daprari ok dekkri
útaf drúnga nótt;
þvíat þegjandi
þessi dymma
setr svartari
sútar skugga
myndir ægar á
ángistarinnar,
sem þína sálu
sveipa skýum.
þessa þagnar kyrð —
þá kvað Tómas —
þessa, sem sagðir,
svartari skugga,
ok þær ángistar
ægu myndir,
elskar ek Jósep,
ok enn þá meir
held mèr hnossgæti
hel ok grafir!
Hefði móti mèr
moldin sína
í trausta tekit
tjaldbúð friðar,
ek meðal allra
eymdar sona
sá hinn síðasti
síst væri þá,
nè hlyti neðst
í neyðar djúpi
lengr at liggja
lægstr allra.
Hinn svarar: hef upp,
hjartkæri bróðir!
höfuð þessu þú
þitt úr dupti!
at klaga' ok kvarta
lát þèr kennt vera,
Tómas, með temprun
titrun ok ugg,

ætíð eigum vèr
oss at gleðja
með ugg ok ótta,
ok eins at kvarta.
Hvör er hann, sem leið
hörmúng at ske?
er þat eigi sá,
sem í öndverðu
oss til eylífs lífs
einn fèkk gjörða?
hafðu þèr hann
fyrir hugskots sjón;
Ef nú til eyrna
ens allrahelgasta
kæmi kvörtun þín
með kveins frekju,
sèr við saungkóra
samblandaði
þýðra þakkenda,
ok þeirra tár,
vellandi af vellyst,
vanhelgaði,
ok hin heilögu
Halelúja!
Getr þá ei Guð
gefit frelsi?
vill Guð ei veita
voluðum þat?
lær því, aptr enn
ek þat segi,
með ótta at ángrast
ok með skjálfta!
Hann, sem með helgri
há tilbeiðslu
víst æ verðugr
er at vegsamast,
er hinn sami, sem
sendir oss böl;
haf því í heiðri
himna jöfurs
sómasamligann
sendiboða!
Jósep! — tók þá til
Tómas orða —
þú ert maðr mèr
mjök eptir hjarta;
um hinn eylífa
er þú ræðir
öll at eldsloga
önd þín verðr!
Þér bið ek beztu
blessun sína
gefi með gleði
Guð ok með sorg,
en þó ei með sorg
eins ok minni!
undir þúnga þeim
þú mundir víst
öldúngis, sem ek,
uppgefinn liggja!
Tala þá, Tómas!
tjáði Jósep,
þær enar þúngu
þrautabyrðir
nafngrein, sem þèr nú
niðurþrykkja!
tvistr Tvíburi
tók þat eptir:
þrautabyrðir þær,
sem þrykkja mèr!
Þekktir þú hann?
en af þvílíku
hvað fæ ek frammsagt
fyrst eða síðast?
guðdómi gæddann
gazt eigi þekkt,
þú Jósep! Jesúm;
á Júdalandi
hvörsu lengi hèr
hefir þú dvalit?
Dvöl at eins drýgða
daga fárra
hefir ek — kvað hinn —
hèr eð fyrsta,
þó hafa hinna,
þar heima' ek á,
gleðitjalda til
tíðinda boðar
frá Júda jörðu
jafnann komit.

Jafnann um Jesúm
Jehóvæ Son
hafa þeir hjá oss
harla margt talat,
loksins lètum vèr
á láð stígit,
svo vèr hann sjálfir
sæum deya,
ok frá dauðum upp
aptr rísa.
Tómas tók eptir
þat hann talaði:
ok frá dauðum upp
aptr rísa?
hvör ok hvílíkr
ertu helzt Jósep?
en hann gaf aptr
orðum hans svar:
Ek hefir einnig
ástfólginn vin
áðr átt
hjá ættum Júda,
lengi varð ek víst
við hann skilinn,
þar strax á storð,
er streymir Nílus,
hlaut ek hryggr sjá
honum á bak;
þó gaf mèr gæðska
ens guðdómliga
mjök lengi mistann
minn vin aptr,
er hann ei lengr
í ógnum gekk
foldar skjálfta framm
nè fælu myrkri;
I því er hann kom
uppfrá Kidron
kæri kennslu-sveinn
í kælu mjúkri,
þá gaf hann mèr hinn
hjartfólgna vin,
sem ek svo lengi
saknat hafði,
ok nú eylífr
er minn vinur.
Nú hlýt ek hèðann
hverfa at sinni
ok þik einnsamann
yfirgefa,
en kem þó aptr;
í annat sinn
muntu, minn bróðir!
mik fá sèðann.
þá talar Tómas:
tef við, Jósep!
hvör ertu helzt
eða hvílíkr?
eigu þá englar
oksvo þat nafn?
eitt svo indælt nafn
hins ástfólgnasta
síns Föðurs sinni
sem ok Guði?
Gef at eins enn nú
eitt svar, Jósep;
eitt hljóð af þinni
upphæða raust!
við mèr þegir þú!
þik, minn bróðir
má ek þora þat
sem þú mik, nefna?
en þú mèr ekkert
andsvar gefr!
Hvört fer þú hèðann?
eða hvör ertu?
gegn máli mínu,
án meðaumkunar
heldr þú framm heyrn
harla daufri,
allteins óhrærðr
ok annar steinn.
Víst er hann eigi
engill nokkr;
eðr mun englum
unnt at vera
svo harðhjartaðir
sem hann er nú?
mönnum möguligt
mun þat einum.

En hann á heima
í húsum gleði!
fregna færendur
af fróni Júda
ræddu mjök mikit
um Messíam;
hvörjir helzt eru
fra hanðri þvísa
sendisveinar þeir?
sendi þá Guð?
Víst getr Guð
frá Gyðíngalandi
útsendt engla
til uppheims búa;
hann kom af himni
híngat á jörð,
svo at hann sæi
Son Guðs deya;
Svo hafa sagðir
sendiboðar
frá grund Gyðínga
gjörla vitat
þat, sem þar skeði
þegar, fyrir?
ok frá dauðum upp
aptr rísa!
en þat atriði
hefir eigi skeð.
Hvör getr gripit
greiniliga
máls þess meiníng,
er hann mèr sagði?
kærann kennslusvein
kallaði' hann mik;
ok þá var eigi
í ókyrð jarðar
Kristr frá Kidron
kominn framar,
heldr í hægum
hvíslanda blæ;
Honum ástvin einn
aptr at gefa
inniligar æ,
honum ástfólginn;
en hvönær helzt þá?
hvört fyrrenn dó?
hví þá í hægum
hvískr-blástri?
Hann blès hægt líka
hvískri mjúku,
er hann oss vort líf
endurkviknat
ok hvörn öðrum gaf
aptr á ný;
bylgjur þögðu þá
enar þjóstugu.
En ei frammkom fyrr
foldar skjálfti
enn eptir þat
hann andaðr var;
því hefði hlotit
hann at gefa
eptir andlát sitt
aptr honum
lengi látinn fyrr,
en lengr orðinn
um alla eylífð
ástvin hans nú?
Ok þá ynni hann
andaðr líka
mikil mildiverk
meistari hjálpar?
en hví andaðr
er hann, Jósep!
upprisinn eigi
auglýstr þó?
Nei, ek fæ orð hans
eigi skilit,
ef Jesús aptr
væri upprisinn,
hve mundi hafa
himneskr þat
jafnvel engill einn
áðr vitat?
Skyldi englum ok
unnt at þekkja
leyniligustu
leyndarráð Guðs?
eins ok hann aldrei
eitt hið minnsta

láti þeim leynt
eða lukt vera;
hann sem öllum er
ógrundannligr!
Því lengra þarí
sem þaunkum með
geng ek grublandi
ok grenslast eptir,
því meir, sem í sjó,
sökk ek dýpra;
en var ek vissri
vakandi í raun?
Var ek ei við stein
orðinn vanmegna
með öllum mætti
mèr at halda,
ek svo, því nær ei',
af mèr vissi,
já, vissi varla
hvar var, sjálfr?
Eflaust hefir ek
oltit niðr
ok síðann sofnat,
en sèð í draumi
undireins þennann
ókennda gest.
Mikla meðaumkun
mèr at vísu
hinn sèði sýndi;
en ef satt væri,
hví mundi hann þá
hverfa svo brátt?
hverfr ei svo ótt,
utann draumr,
engi viss vinur
nè valinu-kunnr,
hvört sem engill er
eða maðr.
Sèr ek um síðir
ok sjálfr reyni,
hvað sú hrygð verkar,
sem er harla djúp,
ok hve sik aðrir
ofmjök tæla,
er sik ætla fá
opinnberanir.
Harla heppnir!
þèr sem hug yðvarn
gabbið ok gjörið
geðhressandi
skugga þá, sem þèr
þykist líta,
þótt sèu svik ein,
at sannri mynd!
En ek götu geng,
sem Guð mik leiðir!
sè mín sorgliga
sinnis deyfa,
ok hennar helzt til
hrellandi kvöl
at eins afstaðin,
ó, með gleði
geng ek þá götu,
sem Guð mik leiðir.
Veri vegr sá,
sem vill, myrkr,
dymma, djúp ok nótt!
Drottinn leiðir,
ek honum öruggt
eptirfylgi!
Tómas trausta ráð
tók sèr þetta;
hlýddi hann ok gekk
hljóði Kidrons
eptir ofan,
til at íhvílast
grasgarðs híbýlum
Getsemanes.
Hafði húss-dýra
hurðu lokat
eptir honum einn,
þegar útgekk hann
sveinaflokki frá
fèlaga sinna;
þessi sagði svo
við samkomuna,
er hann kom aptr:
ek lukti dýr:
Svo vèr, ef senda
sína prestar

ófriðar menn út,
megum afkomast;
meinið síst at sè
sinni þeirra
allur slökktr í
æðis þorsti
þess ens mikla með
Messíæ blóði.
Ei vil ek at þèr —
innti Kefas —
látið lengr dyr
luktar vera,
ef þeir senda svo
sína skara;
hermdu þá hinir:
Herrann er víst
aptr upprisinn!
en þeir sjálfir
þann er nú uppreis
aflífuðu.
Svo vil ek, sè þat —
sagði Pètr —
girnd ok geðþekkni
ens guðdómliga,
gjarna láta líf;
lokið ei dyr!
þvílíkt þorleysi,
sem þetta, gjörir
ennm upprisna
óvirðíngu.
Ef vèr, ó Símon!
egum at deya,
hjálpar ei — kvað hann —
þó hurð sè læst;
en at ofdjarfir
útí háska
vèr oss vogum,
vill ei' Drottinn;
ok at komast af
yfir múra
í voru valdi
veit ek at er,
ef hurðin aptrar
æði þeirra.
I voru valdi
veit ek þat er —
ansar Pètr enn
ákafari —
ef Drottinn aptrar
æði þeirra;
ok lèt þá líka
loka dyrum.
Þó leið ei lángt
áðr lokat hús
gall við hátt ok hardt
af hröðu kappi;
at þeim sló ótta
er inni voru;
enn var ábánkat
öðru sinni.
Jakob stóð upp strax
ok stèg ofan,
spyr hann óðar at
hvör úti sè?
mundi Mattías
ok með honum
Kleófas kær
þeir komnir voru.
Hann lauk upp hurðu
happa sælum
brátt fyrir bræðrum
báðum þessum;
þeir hnigu hardtnær
af harðri mæði,
önduðu ákaft,
ýmist stóðu,
eðr færðust framm
furðu seint þó,
ok sín ærit sveitt
enni þerrðu.
Jakob frètti fljótt:
hvörn flúðuð þið?
brostu hinir hægt,
hressir gjörðust,
stígnir undir eins
upp með Jakob
gáfu sik í sal
til samkomunnar.
Sjá, loflig móðir
þess ens lifanda,

ok mæt María
Magdalena
fóru með fleirum
af flokk trúaðra
brátt ok blíðliga
móti báðum þeim;
þyrptust kríngum þá
þýðri röddu
ok með augum,
sem afskein gleði,
hrópuðu: Herrann
uppaf helsvefni
er í raun risinn;
ok rèttum sjónum
hefir sjálfr sik
Símonar birt!
Kleófas hóf hátt
hendur sínar
megin- furðu með
móti himni,
hropar: heill sè oss!
hann er upprisinn!
upprisinn er hann!
einnig vottar
at hans upprisu
erum nú við;
Jesús okkr er
oksvo birtr!
Pètr nálgast nú
næsta hraðr,
mælti: Messíæ,
ok mínir bræður!
sjálfr — sögðu þeir, —
svo nefndi hann
okkr báða blídt
bræður sína!
Pètr innir enn:
oksvo þessir
allir, sem yðr
umkríng standa,
lifanda ljóst
hafa litit hann,
ein er María
undanntekin;
vert glöð ok vona,
víst þèr birtast
mun hann, María,
móður sinni!
Mæt sá manna fyrst
Magdalena,
ok hún einsamann
upprisinn hann,
þarnæst þeir níu,
sem þèr, með efa
mjök bundnir, merktuð,
þá við mót skilduð,
eptir þat er hann
auglýstr mèr.
Æ! miklu meiri
enn megi nefna
sálar tendrun sú
sannliga var,
sem oss hristi hrærð
hjörtu í brjósti,
er vèr hann aptr
enn sáum lífs!
En hèrumkríng oss
ángraða sjáið!
ern bölsærð brjóst
bræðra vorra,
einmidt í því vor
ólga af gleði,
þar sem þó höfðu
þeir enir sömu
áðr uppbyrjat
oss at trúa.
En hve Tómas er
ásigkominn,
allur sokkinn í
eymd ok trega,
Tómas hefir hug
hinna trublat!
Tómas trúarlaus
táraverðr
enn er án Jesú,
ok vegna þess
hefir víst hinna
hugi glapit!
þeir voru vorðnir
vorrar gleði

áðr eins ok vèr
aðnjótendur;
miskuna þú þik
yfir þá, Herra!
ok þó allra helzt
yfir Tómam,
svo diúpt særðann
af sorg ok efa!
Jafusnart Jóhannes,
Jesú vinur,
stóð upp, ok gagngjört
gekk til hinna;
hann kvað: ei' hefir
hug minn glapit
Tómas tvíburi;
tregar mik hitt
einúngis, at mik
eigi, Símon!
sik lætr líta
sá enn lifandi!
Eigi hefir hann —
hermdi Pètr —
móður sýndann sik
sinni ok þinni;
kunngjörið, kæru
Krists ok mínir
bræður, báðum
enum bölsærðu,
at hann sèð hafið
heilann ok lífs!
Kleófas kvað:
mín en kærustu!
út við örkuðum
ángistarfullir,
eins ok þið eruð,
til Emaus;
vildum við með sjón
víðra marka
hressa hug okkar,
ok hryggri sál
leita linunar
á lífs kvíða;
þá kom þartil vor
á þeim vegi
í för framandi
ferðamaðr;
þann við undir eins
elska hlutum,
er hann sèð höfðum
ok heyrðum ræða;
Lèt sá hinn sami —
hvað segi ek fyrst?
hvað segi ek síðast? —
sjáendanna
öllum djúpum upp
fyrir oss lokit!
lèt hann líðanir
okkr ljóst sýndar
Messíæ miklar
ok margvísligar,
sjálfs síns líðanir,
því sjálfr hann
var sá, hann var þat
sem við oss ræddi!
Hve þær hans Faðir
hafði sjálfr
fyri-sèð ok sagt
sannarliga
gjörvallann lífláts
leyndardóm hans!
við þó enn, hvör var,
vissum eigi;
Öll var hans ásýnd
annarlig nú,
hún var sem huldi
hann fyrir okkr;
lóks við náðum nú
nærri kvöldi
inni því, ek á
í Emaus.
Allt hvað hann á leið
okkr sagði,
veit ek, en þótt ei
orki at greina;
hve mun ek mega
mæla sem hann?
stormr, stór blossi
var sterk ræða!
Við báðum bæði
blídt ok lengi

inni hjá okkr
at hann dveldi;
loksins lèt hann ok
leiðast til þess,
gekk inn með okkr
ok atsettist.
Ek hafði ausit
uppsprettu vatn
ok á borð borit
brauð til nautnar;
sèr ek hendur hans
halda enn brauði,
æ! ek heyri hann
hèr mæla bæn.
Þá bæn ok blessun
borðs hann mælti,
raustin, sem ræddi,
var raust Jesú,
hin sömu heilög
ok háleit orð
voru blessun borðs,
sem hann brúkaði;
Andlits gætti glöggt
ens guðdómliga;
indis vegna við
í því vetfángi
fèllum líka framm
fyrir at biðjast;
hann brýtr brauðit,
býtir okkr,
ok ennú eittsinn
elskufullur
horfir á okkr,
ok í því hvarf.
Við fórum fljótt
ok fylgðum eptir,
leituðum hans lángt
en lítt fundum;
gengum strax af stað,
stórrar gleði
til at tjá yðr
tíðindi þau.
Höfði næsta nú
niðurlútu
af tölum Tómæ
trublaðr meir
enn hinir aðrir,
efasemdar
enn í sjó sokkinn
sat Lebbeus,
ok á storð starði
stirðum augum.
Hann, hvörs sál var svo
sinni hvörju
æ vön at vera
viðkvæm ok klökk,
með tíðri ok traustri
tilfinníngu,
hafði þessa þó
með þurrlyndi
af grillum glapinn
gleði-fregn heyrt.
Enn nú sat hann ei
orðlaus lengr,
heldr sagði hátt:
mínir hjartkæru!
ykkr trúir ek,
já, allvel get
trúat því, at þèr
hafið þar gengið
með einum manni
mikillrar vitsku,
eðr með engli
til Emaus.
Ef við eða þèr
engla sáuð,
sannliga sjálfr
sendi þá Guð,
til at sefa svo
sorgir vorar
yfir lífláti,
sem leið Jesús,
þessa þúngu sorg
þará ofann,
at liðnum líkham
er á laun stolit!
Guð, er sik yfir
aumkat hefir
sára sorg vora,
sendir engla,

svo at sjón þeirra
sælufulls glansa
oss huggi ok hefji
hugvekju þá
öfluga hjá oss,
at unaðs skauti
Jesú önd sè í
eylífrar hvíldar.
Þræti ek ei því
þess gegn yðr,
at sá þið áttuð
orðastað við
hafi gagngjört
af Guði sendr
verit, von ykkar
til at viðhressa,
hvört sem þat heldr
himins engill
vegsamligr var
eða vís maðr.
Ei heldr ykkr
ek synja þess,
at sá hinn sami
hafi sèð lengra,
enn vèr, inní djúp
opinnberunar,
ok at oss spámenn
hafi áðr sagt:
Þat veri vilji
voldugs Föðurs
ok alheims æðsta
yfirdómara,
at, meðal manna,
sá mestr er,
sjáið, sá eð er
saklausastr,
sè dauða deyddur
á dauða fjalli!
Sjáið, mætu menn!
með yðr því
ek af alvöru
allvel trúi;
en at hafi hann,
hvað ei var fyrst,
eptir þat orðit,
get ek ei' trúat!
Með hvörju móti
mátti þat ske,
at þèr í fyrstu
ei hann þekktuð?
meintuð, mynd sæuð
manns framandi?
ykkr geyst gleði
glapit hefir.
Þið sáuð, þegar
þessi gestr
brauði hèldt við borð,
í breytni hans
eitthvað ypparleik
áþekkt Jesú,
eins ok vanur var,
áðr vèr snæddum,
hann móti himni
at halda brauði,
meðann gæðsku Guðs
gjörði þakkir;
þegar þið einnig
þetta sáuð,
hèlduð þið helzt til
hastarliga,
að sá þið sáuð
væri sjálfr hann,
ok nú gat ykkr
auðveldliga
Herrann heyrst ræða,
þar hinn las bæn.
Lèt sú Lebbei
lemstruðum í
sálum eptir sik
sorglig ræða
öx fyrri unda,
efasemdir
fullar freks ángurs
ok formyrkvandi.
Horfði með hrygð
á hann Kleófas
ok meðr aumkun
inniligri;
vafði síuum senn
um hinn syrgjanda

Mattías mundum,
ok mælti svo:
Kæri kennslusveinn
Krists lifanda!
þá er við, enn nú
meðann ei þekktum,
eittsinn um Jesúm
aðspurðum hann:
hvört enn líflátni
lífs nú væri?
hvört mundum mega
megin-heill þeirri,
at sjá hann aptr,
eptirvona?
oss hinn upprisni
ansaði svo:
Eigi báru brátt
bræður Jóseps
í hjá Egypzkum
á hann kennsli;
umsíðir uppraun
ununar stund,
gleðistund ok gráts,
gat hann eigi
falist þeim framar;
fegins tárum
hann þá af hjarta
hástöfum grèt!
Himins mildri með
Mattías þetta
rósemi ræddi
fyri raunhreldum
lærisveini; loks
Lebbeus nú
innir: ó Jesú,
ef þú lifðir,
falist fyri mèr
fengir eigi!
Æpir hann svo upp,
ok andlit sitt
bleikara byrgir
brátt með skýlu;
Pètr sá hann senn,
ok síst hrygðist;
hann gat hèðann af
eigi hrygðar kennt.
Hèrnæst aðspyr hann
hina báða:
nær þèr fóruð frá
frammslútandi
klettum, sem af sals
sáum lopti,
ok genguð yfir
at eikum pálma,
kom enn upprisni
til ykkar þá?
þeir sögðu: þegar
hjá þeim klettum
kom til vor gagngjört
hinn guðdómligi!
Pètr unun í
upphrópar þá:
ó! þèr upprisinn
allir, bræður,
hafið Herrann sèð;
heyrið votta!
Já, þèr hafið jafnt
Jesúm Kristum
allir augum leidt,
einnig Tómas;
æ! at hjá oss hann
hèr væri nú!
Hóf nú upp hendur
ok hèldt þeim samann
ljúflynd móðir
þess ens lifanda,
ok meðr undrun
indælisfullri
sagði hátt: Son minn
sèð hefir ek!
hefir ek hann víst
heppnum augum
lifanda litit,
eigi látinn meir!
Eins ok einstæðíng
eptirlífanda,
sá er síðasta
sinn misti vin,
dreymir hinn dauða
í döprum svefni,

þann hann þykist sjá
þá á lífi,
en tálit tálmar
til hans at ná;
Hálfvaknaðr hann
höndum fálmar
eptir ástvinar
enn dymmra svip,
klagar, óviss um,
hvört enn sefr,
elligar er hann
uppvaknaðr;
Hjartað með hörðum
hefst upp slætti,
um bein brennandi
blossar streyma,
svo var nú varit
fyri vel mörgum,
sorgar samkomu
er sátu þessa.
En fjöld af englum
atstreymandi,
ok af forfeðrum,
sem fylgðu með,
fagnaðarfullum
flokkum þeirra
óx æ meir ok meir
við mót þetta.
Símon Jóna son
samkomuna
horfði einart á
elskufullur;
hann sá ljóma ljós
leyptranda skært,
ok af unaðsemd
upptendraðr,
til baka tári,
er tók at renna,
haldandi, hóf upp
í hljóði bæn:
O! þú oss huldi,
en þó jafnann
sá meiri ok meiri
mildi sýnir!
sá er um eylífð
eylífðanna
veitir meir ok meir
miskun ok náð!
þú sem mèr svo mjök
hefir miskunat!
aumkast nú einnig
yfir þessa!
þannig þakkaði
þá enn ok bað
Kefas, er Kristr
kom til þeirra,
gekk inn Guðmaðr
til Guðs manna,
sem í sal voru
samannkomnir.
Allt varð nú undrun
í því húsi,
sem steinar stóðu,
störðu, þögðu
allir umkríng hann,
sem inni voru,
uns hinn upprisni
ávarpar þá:
Friðr — svo sagð' hann —
sè með yðr!
þeir sáu at sönnu,
ok sáu hann eigi,
stóðu staðkyrrir
ok störðu á hann.
Yfirstreymdir af
ofmergð þánka,
líkt sem í ljóss höf,
þar laungum kafa
ódauðligir í,
allir sukku,
ok nú ei gátu
útlosat sik;
ætluðu at engil
einn þar sæu!
En hinn upprisni
með elskuraust,
með sinni, sagði
svo til þeirra:
hví mik hræðist þèr,
mínir hjartkæru?

ok hví uppstíga
í yðar hjörtu
þvílíkir þánkar?
þessar hendur
sjálfs míns sjáið þèr,
sem ok fætur,
at ek sjálfr er
efalaust þat!
Hvörki hold nè bein
hefir andi,
sem þèr mik sjálfir
sjáið hafa;
hèrvið hrærðust þeir,
svo hardt skulfu;
María fèll framm
fyrir honum
ok hins upprisna
um hèldt fætur;
Svo ok sá hún nú
sára ör hans;
tók fyrst hægri hönd
hans, ok benjum
hennar hyggr at,
hina vinstri
með sárum sínum
síðann skoðar.
Ok nú gat augum
upplypt sínum
hún, svo hans andlit
heilagt sæi,
en svosem engils
ásjána varð,
í því hún uppleit,
andlit hennar.
Hèr var, móðir mín,
mælti Jesús,
ek líka lensu
lagðr gegnum;
henni sýnir hann
hjarta-stíngs ör,
hvaðan vatni var
veitt ok blóði,
nær hann, ná orðinn,
nótt umkríngði;
en nú varð aptr
andlit hennar
eins dýrðligs engils
ásjónu líkt.
Kríngum hann á knè
krupu flestir,
ör hans aðgættu,
einnig sínar
hendur at honum
hvöreinn rètti;
mildt þú, Mögr Guðs!
móti þeim tókst;
þú hèldst í þessar
ok þeim slepptir,
svo þú eins annars
at þèr rèttum
máttvana mundum
móti tækir,
mesti miskunar
Meistari þú!
Hófust hálfslitnum
hèr með orðum
lágt látanda gráts
ljúfar raddir;
í hins upprisna
eyrum þat var
ærusaungr einn
ok óp gleði;
eitt tár elskufullt
ofann á vánga
ens gæðskugjarna
Guðs Sonar rann.
Lengi hèldt í hönd
heitt elskanda
Jesú Jóhannes,
ok jafnlengi
uppá andlit hans
augum horfði
glóandi glöðum,
ok gjarnann hann
fýsist at frètta,
en frèttir einkis.
I hug var honum
helzt at greina,
hvörsu heitar
ok hjartanligar

góðum Guðs Syni
gyldi þakkir,
hve trútt tignandi
tilbæði hann;
en þat hlaut nú allt
ósagt vera!
Nú tók hann til
at tala umsíðir,
en varð aptr brátt
orðlausari;
en hinn upprisni
ávarpar hann:
þú minn kvalakross
kyrr viðdvaldir,
þú stóðst ok þreyðir
þartil ek dó;
ljúfi lærisveinn!
hvar er Lebbeus?
Lebbeus lá nú
lágt á jörðu,
höndum sínum hann
hèldt í neðsta
klæðafald Kristi
ok kysti hann;
hann spratt undireins
upp með skyndi,
er hann elskuligs
Endurlausnara
með nafni nefndi
náðarfull raust.
Nú hann nálægðist
eins ok nár væri,
fölleitr fyrir
fagnaðar skuld;
lít á, Lebbee! —
Lausnarinn sagði —
hèr er hönd mín!
ok hana rètti.
Lebbeus lèt þá
líka sína
móti Messía
mund útrètta,
þegjandi þó,
en af þróttleysi
í sama svifi
sèg hún niðr.
Lausnarinn laut
at lærisveini,
tók í hönd honum,
er hnèg niðr,
ok meðr elsku
all-lengi hèldt;
öndin at eins
en ekki munnur
frammstamat fèkk
ens feginn-skelfða
þetta: þú ert náð!
þú allur náð!
Símon kenndr kom
Kananíti,
ok Jakob annar
Alfei sonur,
fèllu fagnandi
í fáng hvör öðrum
yfir upprisnum
Endurlausnara;
augum allt umkríug
ótt fengu rennt;
á Herrann horfðu
ok hvör til annars.
Eins hinir aðrir
allir tóku
at líta ljúft
af Lausnaranum
hvör uppá annann,
yfrit glaðir
yfir því, at þeim
þannig öllum
hefði hann gefit
háleita náð.
Sem gleði saungr
þeim er sigraði,
í ranni rísu
raddir á ný
lágt látanda gráts
kríngum Lausnarann
orða máli með
miðslitinna;
Kríngum þá á knjám
krupu hinir

fyrr vorðnu vottar,
sem voru Pètr,
mætr Mattías,
með Kleófa,
ok fljóð, sem fengu
frábæra náð,
harla hugprúðar
hetju sálir,
þær er fylgðu fyrr
Frelsaranum
ofsóktum eptir
allt at krossi.
Þar stóð hinn sterki
stríðskappi nú,
sá er sigraði
sjálfann dauða,
þeirra milli midt
meðr allri
hátign sinni hann
hóf sín augu
útbreiddum örmum
upp til himins.
Ei skein at sönnu
útaf vorum
Frelsara' en fulla
forklárun enn,
nú var þó næsta
náðarríku
í hans andliti
af guðligum
mikilleik meira,
enn mundi fyrr,
þoldu þarfyrir
þeir ei lengr
í hans ypparligt
andlit horfa.
Jakob nær jörðu
fyrir Jesú sík
niðr-hnegja nam,
ok nú vogar
gráthróps máli með
mjúkt at biðja:
Drottinn, Drottinn Guð!
á hinn dýrðliga
stíg nú eigi strax
stól þíns Föðurs,
æ! bænheyr, bænheyr!
barnakorn mín! —
gegndi svo gæðskan
guðdómliga —
ek mun enn nú
hjá yðr vera.
Með sama sem hann
sagði þetta,
geysistór gleði
greip þeirra sálir,
svo varla voru
vitanda þess
hvað þeir hugsuðu
eða hvað sögðu;
O! má þat, mun þat
möguligt vera,
at þat sjálfr sè
Sonur Guðs, Jesús?
mun þat möguligt?
mektugu englar!
þannig uppkvað einn;
annar sagði:
æ! hvört erum vèr
uppá himni?
eðr erum vèr
ennú á jörð?
Æ! er þat Jesús?
er hann þat sjálfr?
æ! hvört ertu þat
einn ok sami,
sem á Golgata
gafst upp anda,
mikli Meistari
til at miskuna!
ertu sjálfr sá?
sjáum vèr rètt?
eðr erum vèr
fyrir yndælar
ofsjónir allir
orðnir villtir?
Jesús veik sèr við,
vendi at borði
ok tjald undir breidt
álagði sik;

hann spyr: hafið þèr
hendi nærri
þat nokkuð nú,
sem neyta megi?
Þeir stóðu strax upp,
ok stórum flýti
bjuggust at bera
á borð fyrir hann;
jafnsnart Jóhannes,
Jesú kærstr,
fljótt sèr framm þrèngði,
at fyrstr yrði;
Han bar hunáng-seim
Herra sínum
fimum höndum framm
ok fisk steiktann;
þá með þegjandi
þjéns lotníngu
hann burt frá borði
til baka gekk.
En hinn upprisni
ávarpaði
hann svo með hógværð
hugljúfustu:
kom, minn kærasti!
kom híngat nær!
svo nú sem fyrri
setjist, vinir
mínir, kríngum mik
á mjúk hægindi!
Kom, móðir mín!
ok mèr hið næsta
set þik við síðu,
Syni þínum!
þá kom hún þángat,
ok þarnæst hinir;
hann át þeim öllum
ásjáendum.
Ok nú gjörðist gæf
geðsmuna þeirra
óstjórn af undrun
upptendraðra,
af hans umgengni
ástúðligri,
er þeir sátu svo
við sama borð
með gott gjöranda
guðdómligum,
er, sem fyrr, fæðu
fyri þeim neytti.
Strax í stöðvuð brjóst
stiltari gleði
þá kom þeirra
með þroska trúar,
ok sem hann sá nú
sefat vera
hjarta hvörs þeirra,
með hógværð svo
mælti Meistari
miskunsemda:
Sjáið, sögnum ei'
sanura votta
trúðuð þeirra þèr,
sem þat hermdu,
at ek upprisinn
enn nú lifði!
þeir egin-augum
upprisinn mik
sannliga sögðust
sèðann hafa!
Þeim er þó hafið
þèr án vafa
tregðulaust trúat
til hvervetna;
hvörra þelfróm þèr
þekktuð hjörtu;
ó! hví þá ekki
einúngis nú
til þessa tókuð
trúanliga?
Síst lètu sveigjast
sálir yðar,
en grátið eigi,
mín elsku-börn!
því yfir yðr
ei' at síðr
ek í mildi mik
miskunat hefi.
En þèr af þessu
skuluð þat læra,

hvörnig háttat sè
hjörtum manna,
ef þau missa mik
ok mína hjálp;
Hefða'k yðr ei'
áðr boðat
ok tídt íþrekat:
at ek munda
á krossi kvalinn
kenna dauða,
ok af dauðans dúr
dag hinn þriðja
aptr upprisinn
auglýsa mik?
Mundi Móses ei
hafa mælt þetta,
spámenn spjallat
ok spilat sálmar?
opnaði ek ekki
fyrir ykkar sjón
háleita huldu
helgra rita?
Þat sem ek sagða
sögðu ok þessir
verðugu vottar,
at ek víst munda
verða líflátinn,
ok líka þat
ek mundi af dauða
upp aptr rísa!
Hèr á Júda jörð,
í Jerúsalem
skulu taka til
ok tala vottar
málefni mín,
ok munu gánga
harla vídt hèðann
til heims þjóða,
þeim bert at boða
báðar heillir
enar æðstu,
sem eru þessar:
Einlæg umvendun
aptr til hans,
er skóp alla menn,

ok frá hvörjum
þeir svo frekt fèllu,
ok fyrirgefníng
sèrhvörra synda,
sem at vísu
uppbyrjun er
hins eylífa lífs.
Vottar þessir þá
eruð þèr, bræður!
milli Guðs ok manns
Meðalgángara!
þèr skuluð þjóðum
þessarar jarðar
í öllum áttum
auglýsa mik!
Sjáið sannliga
sendi ek yðr
frá mínum Föður
fyrirheitit!
þèr egið, at mèr
aptr til hans
burtförnum, bíða
í borg Jórsala
uns klárum klæddir
krapti af hæðum
farið útum fold
fólks lærendur!
Hvör sem traust trúir
ok tekr skírn,
hann skal hvervetna
holpinn verða!
tortínist hvör,
sem trúir eigi,
trúuðum tídt
munu teikn fylgja!
Þeir munu af mönnum
í mínu nafni
djöful-óðum út
anda reka;
túngumál tala
tídt ónumin,
höggorma hrekja,
en hræðast eigi,
dauðligann drekka
drykk án bana,

kærkomin bót
mun krannkum veitast,
þegar þeir hendur
yfir þá leggja!
Uppstóð með unun
Endurlausnarinn,
ok fyri flokkinn
framanuverdt gekk;
hinir hann glaðir
í hóp umkríngðu,
svo hann næðu nú
sem næst skoða.
Nálgist mik sem mest,
minir sveinar! —
innir Elskandinn —
aðrir viku
bilkorn til baka
burtu lengra;
var þat ei' at eins
öfundarlaust,
heldr með hýrri
hjartans gleði.
Eins ok algjörðar
upp á himnum
gleðja sífeldt sik
sálir frómra
yfir annara
enn stærri heill,
yfir gáfna gnægð
gæðskufyllstu,
sem fèkk Frelsarinn
enum fyrst kjörnu;
Stóð hinn góðgjarni
Guðmaðr nú;
háir kríngum hann
hans Postular,
sem andast áttu
oksvo með písl;
ok nú í anda
alvitsku sinnar
sá hann fyriframm
fjörlát þeirra.
Allmjök af ástsemd
innstu hrærðr
sagði svo: Friðr
sè yðr með!
sjálfs Guðssonar raust
sagði þetta,
ok, sem ofþýngðr
einn með gleði
í sálu sinni,
sóktum dýpra
uppvarpar anda,
ok á þá blæs.
Hann kvað: hèr þegar
heilagann Anda
af munni mínum
meðtakið þèr!
frekari fyllíng
munuð fá síðar
í hans algjörðri
úthellíngu;
Hvörjum þeim sem þèr
þeirra syndir
uppgefið, eru
uppgefnar þær;
hvörjum helzt sem þær
haldið aptr,
eru þær einnig
aptr-haldnar!
Þeir hið mjök mikla
Messíæ boð
með undrun innstu
ok auðmýkt heyrðu,
virðtist þegar þeim,
sem í því skilja
við þá vetfangi
vildi Jesús.
Kríngum hann í hríng
hèr stóðu þeir,
þorðu þó ekki
þess at biðja,
at hann enn hjá þeim
ílengjast vildi,
titrun þeirra þó,
ok þrárfull augu
greindu glöggliga
grátbæn hugar.
Pètr þá af þeim
þaunkum fánginn

sem yfir sál hans
svosem logar
streymdu sterkliga,
strax at Jesú
fleygði sèr fótum,
faðmaði þá;
kysti kærliga
ok kvað þannig:
Hèr gèt ek, Herra!
á hauðri þessu
eigi þakkat þèr,
þat á himni
vil ek víst gjöra,
viss em ek þess,
þú sem mèr svo mjök
miskunat hefir!
Því þinn sagði svo
sendiboði:
segið sveinum hans,
segið Pètri!
þar mèr þú hefir
þik auglýstann
ok nú auglýsir,
er ek þess viss,
mikli Meistari
miskunsemda!
Þú sem gefr grið
enum glæpugu!
at þú mína mèr,
minn ok allra
fallinna Frelsir!
fyrirgefit
hefir hrösun þá,
sem hendti mik
í því at ek þèr
afneitaði;
En lát þú, elska!
eittsinn hana
mik enn meðkenna,
minn Herra, þèr!
Já, lát mik, Jesú!
játa ok gráta
sjálfs þíns augsýn í
afneitun mína;
At nú af þínum
eginn-munni
gef ek heyrt geti
guðdómligum
nýa náðar-raust
gegn neitun minni,
uppgjöf hennar hèr
þína himin-raust!
At mik enn til lífs
aptr takir,
fyrr enn ek frá þèr
fer til þeirra,
sem þú frelsa fèkkst,
ok fyrirgef
syndurum syndir
í sjálfs þíns nafni!
Nú horfði hann
með hjartans-fullu
trúnaðartrausti
ok trygð auðmjúkri
elskufullum í
andlit Jesú;
ok nú ansar
hinn offraði Guðs:
Sjá, þú veizt sjálfr
fyrir sál þinni
at ek æ hefi
ákaft beðit,
at hana hennar
hjálpsamlig trú
eigi með öllu
yfirgefi.
Faðir mildr minn
mik bænheyrði;
svo statt upp, Símon!
synd þín er víst
til fulls forlíkt
ok fyrirgefin.
Svo greindi enn góði
Guðs offraði
með þeim málróm,
sem í merg ok bein
þrengði sèr þeirra,
ok þeim í sálir
innst sik innlæsti
öllum samann;

ok nú hvarf hann úr
augsýn þeirra.
Hafinn hárri náð
hrópar Pètr:
vèr þèr, vor Herra!
viljum fylgja,
ok gánga glaðir
í Galíleam!
en grafar engill
auglýsti sik
þeim í því sama,
ok þannig mælti:

Jafnt sem nú, Jesúm
í Jerúsalem
mun yðr enn nú
unnt at líta,
ok heyra af honum,
hvönær skuluð
geta glöggt sèð hann
í Galílea;
engill hvarf aptr,
með aflíðanda
lángsamliga seint
ljóma, frá þeim.

---

Hèr hefr

## fimtándu bók Messías.

---

O, kom ókomins
ígrundun heims!
þú sem þrátt hefir
í þeli hljóðu,
með hrygð ok hræðslu
fyrir hans vændum,
uppfyllt önd mína
í eptirbið hans.
Þegar þat skeði,
sem þessi hróðr
umsúnginn er,
var öld hins seinna
heims, sem væntum vèr,
viðstödd á jörð;
því fyri flokki
enna fyrst kristnu
lètu liðnir menn
lifandi sik
í mynd augljósri
opinberaða,
svo helzt til himins
heimta fengi
ok til eylífs lífs
innvígt bræður.

Fár var nú flokkr
enna farsælu,
en síðann uppspratt
af þeirri rót
trè þat, er þakit
þèttum greinum
um himin allann
útslær skugga;
Fyrst hundrað fjórar
ok fjörutíu
þúsundir þær;
ok þessir voru
allir endurlausn
innsiglaðir!
þá hin mikla mergð
meiri tölu
klárann kristals sjó
kríngum skipuð;
ok þessir allir
endurleystir!
Þúsundir þaðra
þessar hundrað
fjórar frammyfir
ok fjörutíu

sik nærsjáanda
sýndu himneskum,
er til dóms dvaldi
yfir dal sjóna,
lèku þau lofsaungs
ljóð fyrir tróni
en nýu, nema
sem neinn ei' má.
Komu þeir keyptir
af kyni jarðar,
óflekkaðir af
ást hègóma,
þess ens fórnfærða
fylgjendur Lambs,
hvört sem helzt gengr;
helgr fyrsti
gróði Guðs ok þess,
gjörðum öllum
sem ok orðum í
óstraffannligir,
ok frómir fundnir
fyrir Guði.
Ok sjá ótals her
allr þessi
Herrans hár vottr
hann þegar sá,
svo stór sem hann var,
hjá sælum tróni,
túngum öllum af,
ættum, fólki
samannsafnaðr,
silki hvítu
búinn, berandi
blóm-pálmavið,
hrópaði háum
hljóðum gleði:
Heilsa sè þeim, sem
sitr á tróni,
voldugr vísir,
vorum Guði!
heilsa honum
enum heilaga
lýða Lávarði
ok Lambinu sè!
Ok nú fèllu framm
fyri tróni
af dýpstu auðmýkt
á andlit sín
englar ásamt með
öldúngunum;
hátt lèt í hafi,
hrærðir pálmar
gáfu súg af sèr
sigreudanna.
Því at þeir eru
útaf þúngbærum
hauðurs harðkvælum
á himin komnir,
fat sitt þvoðu þeir,
ok þat hafa
ljósfagurt litat
í Lambsins blóði.
En nú var eigi
öld hin færri,
rót ens tigna très,
tilkölluð fyrst;
lá enn lýðr sá
lögmáls undir
huldum af höfgum
haldinn svefni;
upprisnir einir
allra fyrst þá
af honum eittsinn
áttu að vekja;
Þá Kefa þarnæst,
meðr þulinni
kenníngu klárrar
Krists smurníngar,
átti' að auka við
í eitt skipti
sálna söfnuð,
er sælar urðu,
þremur þúsundum
af þeirra mergð.
Enn sváfu sjálfir,
þeir síðar skyldu
fá, af flokkum þeim,
frumburða tign;
ekkert þekktu þar
þá enum nýa

af saung eylífrar
unaðsemdar!
Svo ok sváfu þá
sigrendur hinir,
án pálma prýðis,
ok píslarblóði
fágaðs fatnaðar
fyrirhugaðir;
æ! vèr sofum samt
enir síðustu
jarðaröldum af;
ó, munum vèr
aumir um síðir
einnig vakna,
at vèr af Kristo
megum upplýsast?
Sjá, ens upprisna
aðalverk hófst;
tóku rás raðir
enna rèttlátu
forkláraðar frá
fjallsbrún Tabors
ofan eptir því,
til að auglýsa
komandi Kristum
klárliga sik.
En fyrr enn öld sú
opinberana
stíga náði nú
niðr til Salem,
samannsafnaði
sik umhverfis
þessum öllum einn
upprisinna,
dauðligra ok dauðra
drótta faðir,
ok þá til þeirra
þannig mælti:
Nú eru næstar,
niðjar mínir!
fagnið þèr af því,
þær eru komnar,
heillum helgaðar
happastundir!
þess verðum virðtir
vèr, enni fyrstu
bendíng' at bregða
til brautar þraungvu;
at fá frammæstann
fyrsta þorsta
eptir svölun af
uppsprettu lífs!
Höfundr himnesks,
er hann sjálfr
bjó til ok byggði,
barna-rèttar,
yðar egin-raun
ok uppgötvunum
eptirlèt umboð
til at útvelja,
sem yðr sýnist
at sjálfdæmi.
Þèr veljið vini,
sem verða börn,
ok til arfskiptis
egu at gánga;
þèr veljið vísa
at viðurbúníngi!
þó ei' þeir einir,
sem þèr virðið
yðar allháu
opinberunar,
kennast kallaðir
í kjör heilla.
Ok ef ákysuð
einhvörja þá,
sem Guð ásamt ok
eigi kallar,
mundu móti því
enir mektugu
yðr aðvara
engla trónar.
Skundið þá, ok þess
þánka njótið
fulls af fögnuði,
at fá valit
yðr bræður at
arfskipti ljóss!
Sèr ek þat, at þèr
þær útvelja

munuð manneskjur,
sem móti tóku
náð þeirri þegar,
þó í myrkri,
at þær hófu hèr
himins frammgaungu,
en þótt hrashætta,
í hegðun sinni;
þá, sem þessa náð
þegit hafa,
munuð þèr mjök vel
mega kenna.
Dvöldu dagliga
djúpir þánkar
í sveins þess sál,
er sett ok blessat
hafði hýr Jesús
meðal heyrenda;
nafn var Neptóa,
numit af lind
einni við Efrons
endimerkur;
Miklu mundi hann
minnur elska
eptir þat alla
æsku leiki;
honum hvervetna
hèðanaf var
orðin einvera
indisligri,
enn gjörvöll gleði
gaman-ára;
Bar hann barneðlis
blóm ok kjarna
frjóf á frumhöfnu
fjörhlaups vori,
eins ok ýngismenn
ítri fullur
skilníngs auðlegð af,
ok ypparligum
guðligrar gæddr
gáfum náðar.
Framm hið fyrsta
voru flogin ár
sjö yfir sveini,
ok hið síðasta
lengt hafði hann
með heitum bænum,
frjófsamt ár, fögru
fullt af sæði;
Öllum þeim ærit
óþekkjanligu,
sem um smámuni
sífeldt flæktir
ónýtjuskap í.
einúngis þenktu;
en gæddu af Guði
góðri blessun,
allt til uppskeru
eylífðarinnar.
Einnig á ári
hinu áttunda
náði Neptóa
niðr at sá
undir uppskeru
eptirkomandi;
þat ár hafði hann
með heill byrjat
dag þann, af dauða
nær Drottinn reis.
Ok nú brjóst-blíðr
baðst hann fyrir
á knè krjúpandi
í kvöldrökkrinu,
í horni hússins,
þar hann vissi
mangi mundi sik
mega finna.
Svo var sárbeiðni
sveins látandi:
eflaust, Herra hár!
heyrir þú mik,
en þótt ek eigi
áskyuja verði
þèss at þú heyrir
mína þrábeiðni!
Aptr ok aptr
ek kem ok bið
af heitu hjarta,
at heyra viljir,

ó þú á himnum
allra barna,
ok á jörð einnig
allra Faðir!
Öll furðu fögrum
fyri þínum
krjúpum vèr á knè
konúngs stóli
fátæk börn á fold,
hvörra fjárhluti
er, sem hèr erfum,
iðuglig tár,
vèr djúpt í dupti
drepum oss niðr;
Öll, sem útgrátit
áðr hafa,
börn þín sik beygja
í björtum skýum,
ok þau einnig,
sem aldrei grètu,
gjörvöll í geislum
glæstra stjarna,
allir ófallnir
engla skarar.
Allir auðmjúkir
af þèr beiðast
með einum munni
meiri sælu,
en utan ángurs,
at eins með ró
þeir uppi þar
um þetta biðja,
þá föst fagnaðar
fyllíng nærir.
Vegna volæðis
vors með tárum
bölsærðra barna
biðjum vér þik,
Faðir! um frelsun
frá því vonda,
æ, um frelsun frá
fári ok eymdum,
einnig um blessun
til eylífs lífs.
Aungvann-veginn án
uppfyllíngar
getr orðið ein,
sú yfir mèr
með þýðu þeli
þinn spámaðr
hinn mikli mælti,
á minnar æfi
hæðstu heilla stund,
meðal heyrenda
sinna safnaðar
nær setti' hann mik.
Hryni hún á mèr,
ef hluti at eins
mèr í fáng færði
forgengiliga?
ef hún einúngis
at mèr rètti
ens líkamliga
lífs forsorgun,
er sem annat blóm
uppvisnar skjótt!
Onei, í eylífð
upp þú stígr
himnesk blessun hans,
sem hæðstr Guð,
til þess ei at eins
útsendt hefir,
at hann líkamlig
lækna skyldi
vanheilindi vor
ok veikleika;
Heldr hèr at auk,
heil at gjöra
sèrhvör sálar-mein
enna syndugu,
sendann hefir hann
himneskr Faðir
mikillrar mildi
ok miskunsemda.
Æ! ek þekkir ei'
enn þá blessun,
er hann mèr innti
til eylífs lífs;
enn er hulit hug
hvörnig þessi

munni mik leiða,
sem mèr gaf hana,
ok mèr hvörja helzt
hann at gánga
fyrir-búna braut
bjóða muni.
En ek vil mik á
einn Guð reiða;
verði þinn vilji,
ei vilji minn!
æ! þat er ennú
engi dagr
mèr í önd orðinn
ennar miklu
þekkíngar um þik,
þú enn eylífi!
En ek vil mik á
einn þik reiða!
verði þinn vilji,
vor Drottinn Guð!
ef lýsa lètir
ljúfann fögnuð
yfir mik at eins
andlitis þíns,
ó, þá yrði mèr
auðveldari
raun sú, at reyka
í rökkri dymmu;
en ek þó á þik
þarum treysti!
Æ! þat allstutta
óðfluga líf,
eitt blað, sem blómgast
til at burtvisna,
hvönær mun,
mold lítilli
yfirausinni
til at áreifast
ok hyljast undir,
einnig visna?
Hvílík í mèr er
órósemi,
mjök knýandi mik
meiri jafnann
at þrá þekkíngu
ok þróttkann fögnuð
grátbæna Guð um
at gefist mèr?
Mèr bæri at bíða
í blíðri stilli,
uns ek fell af
til at uppvisna
ok til at öðlast
aptr í ljóss
reit ok rósemdar
rækt ok þroska;
Engi þekkíng þó
á þessi jörð
er, nè útlausn
til æðri birtu,
útaf óljósri
ok áskyggjandi
nótt, sem hèr sveipar
sálir vorar.
Hvört eru ekki
ótöluligir
hlutir, ek sem enn
eigi kenni?
þó munu þeir
úr þessu verða
enn nú ærnum mun
ótöluligri,
er minn andi fyrst
útbreiðir sik,
ok sèr uppþeytir
i ið hærra,
hafinn auknum af
aldurs þroska.
En haf, mitt hjarta,
hvervetna ró!
eflaust þorsta þinn
eptir þekkíngu
sjálfs síns, mun sefa
sá er í fyrstu
með þessum þorsta
hefir þik skapat.
Ef ek — mundi mèr
meinat eigi
af þèr, sem einnar
alvöru til

hefir hug minn
ok hjarta vakit,
ok mínum úngdóms
augnasvifum
at eins allhæg bros
eptirlátit?
Ef ek nú aptr
inngæfi mik
í lið leiksveina,
líkt sem áðr
yxi með þeim upp
eins ok rósir,
ok um heims hluti
hegómliga,
vettugi verða,
við þá ræddi,
en ei' um annann
ókominn heim
ok um þekkíng ei'
ena miklu?
Ok þess án afláts
ek svo biði,
at með öflugum
alls ljóss Faðir
vísdóm' ofann at
upplýsti mik?
Sannarliga svo
sinnaðann Jesús
mik í fyrstu fann,
nær fólks samkomu
innkallaðann í
yfirlagði
blíða blessun,
ok bar sèr á mund.
Mæla nam svo nú
Neptóa bæn;
heyrði heilagr
hann svo biðja
engill hans, honum
hjá sveimandi,
ok með ljóss-leturs
logandi skrift,
aldrei mást sem má,
mundi rita
bæn í bók sína,
í bók lífsins;
Allt hvað mildi með
merkti hinn stóri
heyrandi himins
í heitri bæn,
er sveinninn samda
sendi í hæðir,
lèt hann ljómanda
letri ritat.
I því er nú flaug
hins ódauðliga
skínandi skrift
með skærri hendi,
brátt kom Benóni
ok biðjanda
sik nálægði senn
sveini ok honum.
Býst þú, Benóni!
at birtast sveini?
aðspyr engillinn
upptendrun með,
ok svo með sama
sína rèttir
af blæ blaktandi
bók at honum,
er hinn upprisni
algjörla las.
En hann, sem æ var
ódauðligr,
gat fyri gleði
eigi gjört at sèr,
hann enn himneska
höndum báðum
únglíng umfaðmar
ástúðliga.
Blessuð bænheyrsla!
bænheyrsla þú!
sagði samstundis
Seraf glaðr,
þú ert þá í dag
þegar komin,
send híngat gagngjört
frá Guðs tróni!
Nú nam Benóni
nálægjast meir;

en knè krjúpandi
af kyndtu hjarta
hóf nú at nýu
Neptóa bæn:
með helgum hjartans
háfögnuði
ok með eylífum
ástarþökkum
sèrtu, sæll Faðir!
sílofaðr!
Þú sem mèr svo mörg
mildi þinnar
guðligrar gæði
gefit hefir!
hvörsu hefir þú
með hylli ok náð
yfirausit mik
ótalfaldri!
Þú varst — þú varst þat
vissuliga,
sem ens mikla mèr
milda blessun
sjáanda sjálfr
senda hefir,
ó þú eylífðar
eini Faðir!
O, þú einn Faðir
allra barna
á himnum uppi,
ok einnig þeirra,
á sem eru jörð
allra barna!
hvör getr hafit,
hvör fullendat,
sem verðugt væri,
at vegsama þik?
Hár dýrðar Herra!
til hvörs ek full
augu mín auðmjúk
upphef tára,
þú hefir þægt lof
þèr í munni
blíðra búit til
brjóstmylkínga;
Guðligri göfgun
gjarnaun, Herra!
vil ek alls ekki
yfirþegja;
því at þú hefir
þèr í barna
líka lof tilreidt
ljúfum munni.
Bjóst við at birtast
Benóni fyrst
honum eins ok einn
atkomandi
af flokk framandi
ferðasveina,
sem þyrptust þángat
á þeirri tíð
til helgi halda
hatíðligra;
En sem hann sá nú
sveins lofgjörðar
fögur fegin-tár,
fèkk hann eigi
svo haldit sèr,
ok sinni rèttu
dýrðar ásýnd í
auglýsti sik,
nærri staddr nú
fyri Neptóa.
Forknnnar fögrum
fyrir honum
skein hann skrýddr
skýum vor-morguns,
þó skaut eigi skelks
eða skelfíngar
Neptóæ neista
nokkrum í brjóst.
Var nú sveinsins sál
svo vön myndum,
hvörjar frá himni
fyrir hann svifu,
ýmist í draumi
opt þegar svaf,
eða bil beggja
blunds ok vöku,
vatt enum únga
uppheims búa

hár á höfði
hann í lokka,
ok svo með orðum
óðfleygum kvað:
Mèr þik enn mikli
meginn-profeti,
Salems úngi sveinn!
sendann hefir;
hvaðann helzt ertu
híngat floginn?
Jesús mildr mjök
hefir mèr þik sendt;
blessunar boðskap
ber þú sendann,
friðar, fagnaðar
ok fulls yndis!
Seg mèr ok sýng þat
á sólfagra
hörpu þína, þá
er þú styðst við,
hvaðann helzt þú ert
híngat floginn?
seg frá, Sonur ljóss!
seg mèr um Guð!
Seg mèr frá mínum
til moldar hnígnu,
einnig erfíngja
at unun þeirra;
seg frá sofnaðri
systur minni,
meinlausustu mær
frá mèr sem dó
midt meðal rósa
í morgun skini,
sjálf laungu liðin
lystiligt blóm.
Himneska heilsun
hvört frá Dimna
Kedimot ei kannt
kunngjöra mèr?
eða hvörnig helzt
heiti verðr
hennar nýa nefnt
nú á himni?
Hvað mælti mærin?
máske þetta:
dýrð sè Drottni
at ek dáin er!
ok at einnig mun
auðnu þeirri
ná minn Neptóa
nár at verða!
taktu mik með þèr,
ok minnar Dimna
Kedímot kæru
lát komast til!
Tilgef, tjaldbúða
tignarligra,
uppi sem eru,
innbúi! mèr
mál-dyrfsku mína,
at mjök svo lengi
þorir ek þannig
við þik ræða;
æ, Guðs sendisveinn
svarar mèr ei.
Blíðr Benóni
byrjar ræðu:
þat, at ek þik
ok þinnar gleði
nú sè Neptóa
nýa furðu,
hefir mèr um hríð
haldit í þögn.
Mik hæðstr Herra
hefir þèr sendann
tíðindi til
at tjá en miklu:
Jesús lèt sitt líf
ok lá í gröf!
þú vissir þá ei
at þvílíkt skeði;
En hann upprisinn
er nú þegar
útaf gröf genginn
guðdómligr,
ok mun innann skamms
í sína dýrð
hèðann af hauðri
til himins stíga!

Hèrnæst munu hans
enir hjartkæru
vinir, með vissum
vitnisburði,
andlát, upprisu
ok uppstigníngu
Jesú Krists játa
til Jerúsalem.
Gef þik til þeirra
þeim at heyra!
gjörvallt þèr um Guð
greina munu
þeir, hvað at þekkja
þèr dauðligum
unnt er ok auðit,
áðr enn deyr.
Eptir þat mun þín
móti þèr taka
saknaða systir
á sælli tíma
lystiligum í
lífstrès skugga;
nú kallar nauðsýn
frá Neptóa mik.
Æ! uppheims búi
ekki svo fljótt! —
nú kvað Neptóa; —
nokkuð lengr
gef enn gángi dvöl
gestr frá Salem!
drag ei dýrðlíngr
enum dauðliga
þín en fögru frá
svo fljótt augu,
þenna mjök mæta
morgunroða
vegligra vánga,
þau en vænu bros
allrar ánægju
ok unaðsemdar;
brátt hvarf Benóni
burt frá honum.
Nú stóð Neptóa
numinn frá sèr,
ok með útbreiddum
örmum glaðr
vildi vefja mynd
vinar himneska,
sem nú at sönnu
sínum ljóma
afklædd, en þó samt
óburtvikín,
þannig hyggr hann,
fyrir honum stóð.
En nú hverfr hún
honum líka,
huigu handleggir
hans þá niðr;
biðjandi hèldt hann
höndum samann,
ok leit augunum
upp til himna;
grèt bæði' ok brosti
með bljúgum hug,
ei' svo einmana
sem hann ætlaði.
Ei var engill hans
enn burtvikinn,
ei' Benóni, enn
ósýniligr;
nafn ens náðuga
Neptóam svein
heyrðu þeir heiðra,
ok heitar þakkir
útaf innstu sál
æðstum gjalda,
þeim sem allr er
eylíf miskun;
Sá honum hafði
háleita þessa
nú unnt at öðlast
opinberun,
einnig vissa von
ennar vegligu
þekkingar þeirrar,
sem þráði mest.
Dileau dauði
dapr hafði
þeim, er hann átti,
einka vin svipt,

ok þará ofann
ektakvinnu;
grein vissi' hann gjörla
á Guðs spámanni.
Lengi hafði hann
með heitum þorsta,
viss at verða,
villst í Salem,
ok grenslast eptir:
hvört endurvakinn
eðr andvana
enn sè Jesús.
Honum hèkk dymm
yfir höfði nótt;
æddu straumar inn
at hans sálu;
hvarflar hvervetna
at hvíld leitandi
hann ok hugarró,
en hvörgi fann
ok jafnvel ekki
á indælustu
foldum fullum vors
enum fegurstu.
Nú er hann orðinn
of síð-fara,
er hann snýr aptr
við olíufjall,
í megnu myrkri
meðal grafa;
honum vísar veg
villusöm dymma;
kafar hann í kríng
króka djúpa;
Nöldrar hèr í nánd
niðr Kidrons?
er þytr þessi
þytr pálma
frá grasgarðinum
Getsemane?
nei, bylja buldr
frá bjarga skorum;
er þat manna mál,
sem mèr heyrist?
I sama svifi,
er hann svo mælti,
brá fyri birtu,
sem blis væri,
þat er vegna vinds
varð nærri slökkt;
lèt han sèr ljósit
leiðsögn vera.
Nú kom hann nokkri
at ná-hvelfíngu;
þaðann leit hann lið
lík útbera;
fèkk af fátækum
fullríkr einn
klett þenna keypt;
er kynþátt heilann
framliðna feður
ens fátæka
þessir undir eins
útaf báru:
Dilean dvaldi
við dyr grafar;
stritmóðum stigum
af stein-þró út
þrömmuðu þessir;
en þángat aptr
leiðinligum mjök
ok lángsömum,
sundurlaus sveipuð
til at sækja bein.
Dapr til drengje
Dilean mælti:
þat eru þessir,
sem þèr berið,
fólkit farsæla!
fáit mèr eitt
brennandi blisa,
svo bakvið megi
halda hjá líkum
í hag yðr.
Honum þeir fá þat,
þegar gengr
hann í eptra hlut
hvelfíngarinnar;
lætr þeim lýsa
loganda blis;

styðr sik við stein
ok strax þenkir:
Þrí-farsæla þjóð,
þèr enir dauðu!
ok þèr ástvinir,
sem ek místi,
eruð þat einuig,
ok þegar fyrst
hjúpr ykkar er,
eins ok þessir,
af firnd ok fúa
fánýtr orðinn,
er ek eins ok þèr
einneginn sæll!
En nú — — ek hefir
einstæðíngr
ykkr, ástvinir,
upphèðann mist,
mín hèr í heimi
heill ok sæla!
ok í ókomnum
er ek minni
eins sælu sviptr
sjáanda Guðs!
Er nokkr ennú
eptir at vona,
þar hann tortíndist
fyri týrönnum?
æ! hvört elur Guð
önn fyri þeim,
at um eylífar
aldir vari,
meðal hvörra menn
mestu ok beztu
af vestum verða
at velli lagðir?
Er ek eylífr?
elligar mun
ek í dupt dauðr
drafna sundr?
reis hann aptr upp,
eða fúnar?
spursmál maugi mèr
má þau leysa,
ok ei þèr þarna
enir þegjandi!
Þetta mættuð þèr
þó geta víst,
svoframt auðit er
endanligum;
þessi þurru bein
þat ei megna,
sem yðar anda
auðveldt mundi.
Hvar eruð þèr þá
þessara líka
fornu fèlagar
frá þeim skildir?
er þat ljóss-inni,
sem þèr íbúið,
yðr eins líka
inni gleði,
ef einu at eins
af yðar kyni
kvelur sál sína
með sögðum efa?
Hann þenkti þannig,
þá var af líkum
orðin gjör tæmd gröf
ok grafarmönnum;
hann þess varla varð
var nè gætti;
uns hann umsíðir,
því allt var hljódt,
vaknaði við
ok vissi af slíku.
Sjá, nú em ek einn,
engi nærri —
hugsar hann með sèr —
hvar eruð þèr
lagsbræður lausir
frá líkum yðar?
af bana blundi
bein Elísæ
áðr uppvöktu
andvana mann.
Þá hefir þar
hjá þessum beinum
sannarliga sjálf
sálin verit?

aungvann uppvekr
eittsaman dupt;
sè nú ein at eins
önd hèr nærri;
ó, kom þú eina,
svo mik uppfræðir
hvörs ek hlutskiptis
hefi' at vænta!
Kom, ek skal eigi,
þú örends sál,
af felmtri fánginn
fyri þèr verða;
upp, sál ek særi
við hin síðustu
þín andvörp þik,
nær þreyttir glímu,
andarslítrum í,
við ægann dauða.
Viðr von þína,
at verða mundir
ódauðligs eðlis,
élligar við
ángist þína af því,
ef þú yrðir
gjörð öll at aungvu
í orustu hels!
Þannig hrópar hann,
ok horfði' á meðann
alla hvelfíng um;
en nú þegar
Tirza viðstödd var
votta móðir
enna sælu sjö,
er sitt lètu blóð.
Var sál hans vinar
ok vífs hjartkæra
laungu fyriframm
í för með henni;
þær höfðu þrjár
hann þegar leiddann
gegnum grafa-dal,
uns greindum náði
sturlaðr steini,
hvar staddr var.
Mun ek mik honum
mega sýna?
spurði fljóð, sem fyrr
faðm hans byggði;
mundi hann ei hræðast,
ef mik hèr sæi?
ek — talar Tirza —
vil tjá mik honum.
An vonar allrar,
at hann mundi
sjá hvörs sárliga
sèr hann æskti,
dapr Dilean
dúr at sofna
til lundar lèttis
leitaðist við,
frá þúngum þaunkum,
er, þoku skýum
harla líkir, hans
hug umkríngðu.
En hann til einkis
eptirsókti
stuttri stundar ró
frá sturlun sinni;
fylltu hjarta hans
harmar aptr:
ykkr hefir ek
ástvinir mist!
Ok þik einneginn
ek hlaut missa
mæta vin minn
í mynd kvennligri!
æ, þið mik einann
eptirskilduð!
ek er einmana
orðinn á jörð!
Ek er — en hvör helzt
hèr ingengr?
hvör ert þú, sem þar
þik nálægir?
hann á móti mynd
myrkleitri gekk;
í viðlits vetfángi
varð nú Tirza
dávænn dýrðlíngr
af dauðligri;

honum varð hverft við
svo huglaus stóð.
Eu sem bráð bendíng
brá hann ótta,
gekk nær ok gætti
at glansandi mynd,
þegjandi þó,
en þarnæst hana
án dvalar orðum
ávarpaði:
Muntu, mikla sýn,
er mèr birtist,
þakkar minnar mál
mega skilja?
elligar ertu
sem augna tál,
eigi neitt nema
næturgufa,
er ljósir logar
gjöra lifandi?
eðr ein meint mynd
í mínum heila?
Tirza brosti blídt
með bragði himins,
svo var sál mikil
í sjónum hennar,
at gleymdist gufa
glóandi skjótt,
með hans meiníngar
mynd í heila.
Kallar hátt ok hratt
hann ok mælti:
ó þú sýn, ó sýn,
seg, hvör þú ert!
undireins með tón
indisligum
klíngði klár rómr,
klettr tók undir:
Þú fær síðar þekkt
þat, hvör ek sè;
nú gæddr nýrri,
nem þú, Lukku,
at þik ei haldir
öðrum vera
fyri frama þanu
fullkomnara,
þó at þessarar
þèr sè af náð
ypparligrar unnt
opinberunnar.
Eigi var öðrum
ófullkomnari
sá, er sjónlaus var
síðan fæddist,
þeim góðgjarn Jesús
gaf bjartann dag;
at hann uppfrá því
yrði vottr
af jarðteikn jafnann
Jesú dýrðar,
lángri var hann víst
vafinn blindu.
At þú eins gætir
orðit vottr,
sem hann, sendi mik
sjálfr til þín
Jesús, upp sem er
aptr risinn;
eigi fyrir orð
áheita þinna,
er mik æstaðir,
ek þèr birtumst,
at vissum votti
vil ek þik gjöra;
af þèr ókölluð
ek hefði birzt.
Forskuldat fengi
fyrirgefníngu,
en umbun ei'
þín efasemi;
ok ek, Dilean!
mundi umbun þèr,
værir þú ei' víst
vottr kjörinn.
Verðr at vísu
hvað verða skal,
eins þó at efið,
eins þó neitið!
þótt öll synd-ötuð
ætt dauðligra

efaðist um einn
ókominn heim,
þá samt mundu þeir
þat til vissu,
at þat sem ske skal
skeðr, reyna.
Þeir at raun þarum
mundu þá komast,
at lífit luktum
yfir leiðum býr,
hvörsu hardt sem þeim
í huga brygði,
er raun þá reyndu
til rammrar furðu.
Ok í grafa gjám
gall umhverfis
herlúðra hljómr
ok hark reiða,
nema hvað ei' nam
sá hinn nábleiki,
fagnaðarfulli
ok hinn farsæli,
at sjá, hvörjum helzt
hèr streymdu frá
herlúðra hljómr
ok hark reiða;
Uppyfir honum
útbreiddi sik
með tignar-tónum
trón-samhljóðan
háleit, hræðilig,
himnesk unun,
sú er sèrliga
sál umbreytti.
Verðr at vísu
hvað verða skal,
eins hvört þèr efið,
eða neitið!
þótt öll synd-ötuð
ætt dauðligra
efaðist um einn
ókominn heim,
þá mundu þeir samt
þat til vissu,
at þat sem ske skal
skeðr, reyna!
Þeir at raun þarum
mundu þá komast,
at lífit luktum
yfir leiðum býr,
hvörsu hardt sem þeim
í huga brygði,
nær raun þá reyndu
til rammrar furðu.
I djúp úr djúpi
Dilean sveimar;
ræða þeirra þraut
þá stamar hann:
nei, at spyrja nú
nokkurs hlutar
eigi dirfumst ek
uppfrá þessu.
Ek djúpt í dupti
drep mèr niðr,
fell í auðmýkt framm
fyrir honum,
sem ykkr, sælu,
síuum mikla
frá tignartróni,
hefir til mín sendt.
Hann á knè klökkr
kraup þá niðr,
ok snýr andliti
ei' at Tirzu,
þó var þögnuð gjá
þar honum gegnt,
en hann augu sín
aptrlukti;
þú dýrðar Drottinn
af dauða risni!
minn fyrirgèf mèr
mikinn efa!
mín tár þar til!
þú, tignarhæðsti!
mundir vel vita
víst hvörs ek bið,
þótt ei merki þat
þeir mèr sendir!
Unn dýrðar Drottinn
dásamligasti!

mèr enn mikla
miði því ná,
sem þú mèr sýnir
með sendíng' þessi;
þá fer ek fús
í friði hèðan
þar upp, þegar dey,
til þín ok minna!
Hann at svo sögðu
sik uppreisti;
sveif enn hin sama
sýn fyrir honum;
flutu lífligri
loptkylju með
orð til hans ennar
ódauðligu;
Sjá, þú ei þorðir
þar at spyrja,
en ek vil óspurð
andsvara þèr
ok þat auglýsa,
at ek er Tirza,
móðir sjö sona,
sjö blóðvotta.
Hèrna hjá þessum
helliskletti
sveimar sál þinnar
sælu kvinnu,
en hinum hjá
þíns holla vinar,
báðar bíða þín
blídt elskandi.
En merk ok meðtak
meira af sælu:
berliga birtist
bræðrum í senn
fimm hundruð fyrr
enn fer til himins
Messías góðgjarn
í Galilea;
þú munt þá fá hann
þar at líta!
At þessum orðum
úttöluðum
hvarf en háleita
honum Tirza;
þóktist hann þriggja
þyt formerkja
í senn álengðar
ódauðligra.
Svo kom hann sunnu,
sem nú rann upp,
grátandi af gleði
úr gröf á móti;
stóð hann eittsinn enn
ok innti þakkir,
fyri þat at þú
þvílíka honum
dýrðar fyllíng fèkkst
ok forsmekk himins,
þú eylíf eylífs
uppspretta ljóss!
Þá er hann þyrsti
undir þýngð eymda,
at þú honum hjálp
hafðir veitta,
nær mangi mátti
honum meir bjarga.

---

Með högum mundum
til at mála líkt
forngjörða flúr
á fagurt silki,
Tabíta' á tjaldi
týriskt purpura
sat ok saumaði
síns hugar verk.
Brátt missandi blóm
Benónis móðir!
þat var þín gröf,
sem þessi gjörði
sèr at ísaums önn
alvarligri,
meir enn annars mjök
marglitann þráð
undir konst-kænni
konu hendi.
Nálar sprúttu spil
útaf sprunds þaunkum;

hvíldi hèr á gröf
helbleik Rakel,
beið þarvið beygðum
Benóni knjám,
ok með augliti
undanvendtu
stakk henni í hjarta
hvössum fleini.
Einmidt í því
at ofanrunnu
dauðligum dreyrgir
dropar af fal,
reisti Rá sik upp
af rauðu tjaldi,
ok fór með flýti
fljóði, sem kom,
mjök þreyttu ok mæddu
móti at taka.
Fati lík-fylgðar-
fölu búin,
ok þó með ásýnd
enn fölari,
arkar at henni
sú hin ókennda;
þó höfðu þúngar
þrautir vináttu
úngligrar útslökkt
eigi getat
Debóru dýrrar
dægiligleik.
Mjök svo mundi líkt
morgni dymmum
vífit at vísu,
þó vordags morgni;
ek kom — sagði sú
svo viðr Rá —
til at hvílast hèr
af harðri gaungu,
því ek þreytt hana
þoldi ei lengr.
Hvílist hjartkær mín
hægar enn ek,
æ! mèr ástkærra
hin ástkærasta;
sit þína þolug
þú viðr iðn,
lát mik hvílast hèr
ok hèr gráta.
Nú settist niðr,
ok næsta hægt
hallaðist hún
at hörpu sinni;
hvaraf grát-hljóð gall,
nær en gángmóða
Debóra hæg-hendt
á hana studdi.
Forgefins freistar
fróm Tabíta
at hugga hana
af harmi þrúngna;
æ, lát mik eina,
ok þær hinar
blæði undir út
annarstaðar!
mín blæði bitra
ben fyri sik.
Til síns Tabíta
trega vendi
aptr sorgfull sèr,
sem þó minnur
eptir enn áðr
á hana beit,
tók enn Tabíta
til at sauma.
En hin ókennda
eins tók hörpu,
ok líkt grát-látum
lækjar fjærri,
nær undan einni
óveðurs hríð
drottnar dauða kyrð
djúp í skógum,
gall strax í strengjum
kríngum styrkvana
mold þreyjandi mund
megin-vinu.
Tón nam Tabíta,
ok tárum gleymdi
hinnar harmfullu,
nær hennar klíngði
saungr, sál strengja,
saman við þau;

ó Guð Guðanna
gæð nú launum
framliðit fljóð,
sem er fullkomnat!
En eru tímans
eymdir verðar,
dýrmætrar dýrðar
Drottinn, hvörrar
þú, er umbunar,
upphefr til?
hún lèzt í ljúfum
lífsins blóma.
En hvað er blómstrit,
sem óðar hnígr
af blástri brotit,
móti blómguðu
sjálfs Guðs cedrus trè,
sem þó hreppti
efst á Golgata
geysiligt fall?
Sem frá himni hám
harðra storma
ákefð æðandi
ens almáttuga
barði svo ok braut,
at björg umhverfis
í grunn gjörhristust
ok grafir dauðra?
Sem af sjón myndar
sjálfrar skelfda
datt nú djúp þögn
yfir Debóru,
utan einstakar,
sem útskruppu,
harðar hristíngar
af hörpu sínum
næsta lángt niðr
nú gáfu hljóð,
uns hin háa sál
hermdra strengja,
saungurinn sjálfr,
sèr hreifði' á ný.
Líkfylgð þess er lèt
líf á krossi
var flokkur fár
af fólki dauðligu,
hèrmeð ok helgir
himinbúar,
með skerðtu skini
sem skíma væri.
Ok sorgar saungr
sjón-hulinna
líkfylgjenda lèt
líkt sem forðum
dapurt dauða kvein
við djúpann straum,
sem í sjö kvíslum
sik útbreiðir;
Nær harð-hjartaðr
hreysi lægsta
fátæklíngs frá
hinu foreyðandi
allt at stoltum stè
stillis tróni;
æ! tortíñanda
týranna slag!
þarnæst þúng andvörp
ok þá dauði!
Heyrandi hermdra
harma saungva
aldar ósèðrar
eigi var jörð;
himins hástjörnur
voru heyrendur;
Oríon ok þèr
hins allt dæmanda
mektuga mildíngs
metaskálir!
þessir voru þèir,
sem þá merktu.
Með dýmmum dýnk
dyrum grafar
storðhristandi steinn
stór aðveltist,
þessi lukti þær
þegar hann fèll,
fylgði hlemmi-hlúnk
af hlassi slíku
rik þat er reis
að rjáfri skýa;

þá lá hinn liðui
í luktri gröf.
Greiðara gángi
þèr Guðs stjörnur
yðr skömtuð skeið
skunduðuð þá;
sá hinn sofnaði
svaf ei lengi;
víst er vaknaðr
af værum dúr
hann með hárri dýrð
Halelúja!
Halelúja! hann
hóf sik með dýrð!
Þið fá-ein fet
voruð frammgengin,
Oríon ok þú
aldæmis vog!
þá er hann sik hóf
upp af helblundi;
himnum öllum í,
ó þèr vottar!
hefjið þat heiðrun
hátíðligri,
at hann upprisinn
er frá dauðúm!
Hún, sem hèr á gröf
heldr einsligri
baðar í bana
blóði sínu,
var einnig vitni,
vitna þú ok,
sem hennar hjarta
helflein særðir!
Þenkir þú dauðlig,
at þeir sem rotna
muni sísofa
svöfn eylífann?
at dauðra dvali
í djúpi jarðar
egi aldrei meir
endíngar von?
Tilleit Tabíta
við tal þetta
spakrar spákonu,
en spurt gat eigi,
af því allt var nú
orðfæri teppt,
ráðvill ok reyrð
af regin — furðu
tók hún tveim höndum
í tjalds ramma.
Á fætr fýsti
fljóð at standa,
girntist at gánga
til Guðs spákonu,
en nú eigi bar
orku til þess;
hughá Debóra
við hörpu studdist,
ok til Tabítu
talaði þannig:
Nem, því at næsta
um nás upprisu
margt ok merkiligt
máttu læra;
helzt þarftu heli
at huggast móti,
af því at eru
ákvörðuð þèr,
Tabíta takmörk,
tvö at deya.
Fyrst var frumburðr
enna frammliðnu
ok er enn nú
hinn almáttugi,
sá er síðar
enna sofandi
allra manna mergð
mun uppvekja.
At eins all-lèttri
umkvörtun með,
at í jörð egir
aptrhverfa,
ok með annarar
eptirbið sætri
sköpunar, sem skè
skal af dupti,
máttu lágt leggjast
lík ok deya.

Engin óguar nótt
opin grafar,
eigi mold mokuð
á manus líkama
meðr dymmum dyn,
eigi dumba þögu
í gröf einsligri
yfirgefinni,
Nè heldr nokkr
náfúa mynd
þeim er, þó at alls
þessa honum
sè víst at vænta,
veit, at muni.
Guð hann í hæðstann
himin kalla
frá dauðans dupti,
dag eus mikla
endurburðar á
til engla lífs.
Ok at svo sögðu
sèr tók aptr
í hendur hörpu
helg Debóra,
ok hægt andandi
ódauðlig raust
flaut nú fljúgandi
útaf fljóðs hendi,
ok af andliti,
sem allt brosti.
Hvað fann ek furðu,
þá fjörit nýa
frá grasgróinni
gröf mèr lypti,
ok mín áska varð
ódauðleikr?
frá skært skínandi
skörum engla
sterk forklárnn stè
strax yfir mik?
O! hve skalf ek öll!
(aptr at nýu
tók hún at titra
ok tær varð glansi);
ó hvílíkt ofboð
yfirtaks sælu
allt mitt innsta líf
ólgði gegnum!
Hvör geysi glansi
glansi minn var!
hve lystiligu
ljósi dýrðar
í bjó andi minu
ódauðligr!
ek leit allt umkríng
eptir tróni,
þráleitandi þess,
er þannig hafði
nú mik á ný
útaf ná skapað.
En mêr síst var sá
sýniligr;
hægt blásandi blær,
ok blídt hvískr
af góðum gusti
Guðs nærveru
at eins allstaðar
umkríngðu mik.
Hægðist himneskr
hljómr þeirra
ætið meir ok meir
mèr fyrir eyrum,
sem ok sá glansi
fyrir sjón minni;
Tabíta tók nú
af teiti full
mjök fölann farva
frá sèr numin,
ok nú þraut einnig
ómur hörpu.

---

Gedor var gæddr
gæflyndu hjarta,
gaf hann sik glíkt
at gleði ok harmi,
ól hann óhvikull
ásetníng þann,
góðum Gjafara
at gjörast jafnann,
hvört sem hæga ró
eða hrygð sendi,

eins með ánægju
undirgefinn.
Gedor lifði leynt
lukkugefinn
í fylgð með frómri
fèlagskvinnu,
ei' at eins þessa
heldr eylífs lífs;
hve þau hvört annat
heitt elskuðu,
aungvum utan þeim
at eins sjálfum
vitanligt var
ok vinum fáum.
Horfin með huga
holdligu frá
lífi, sem lifðu
í lágu dupti,
tídt þau töluðu
tvö ein samann
um heim ókominn,
ok um þeirra
skilnað, er ske
innannskamms mundi,
eðr eptir frest
einhvörn lengra,
á heimferð hèðann
til himinsala.
Æ sakir ástar
æsktu þau sèr,
þess sem ei þorðu
þó at vænta,
því fáir fengu,
at fara bæði
undireins hèðann
upptil himins.
Herra, þú hafðir
hann útkjörit
fyri förunaut,
at fylgja skyldi
at ens dymma dals
dyrum henni;
hún lá ok teikn tók
til at deya;
hvað hann sjálfr sik
at sjá trúði.
Enn hann vissi vel
at veita kynnir
frelsun fljótliga
frá mjök stórum,
líka sem líftjón
í litlum háska;
nú kom næsta skjótt
í nánd dauðinn,
varð þat ok víst,
at hann væri þar.
Til himins hæðar
hún frá Gedor
rendi augum upp
alvörufullum,
hèrnæst frá himni
til hans niðr,
ok frá honum enn
upp til himins,
tvisvar hún sín hóf
til himins augu.
Aldrei augnasvif
eins ok þessi
litit hafði hann
nè heyrt umrædt,
aldrei útmáluð
eins ok hennar
hárrar ok helgrar
hugar alvörn,
inniligs ángurs,
ok efalansrar
trúar ok trausts
um tilkomandi
eylífs lífs unun
öldúngis full.
Ek dey, ek þik hlýt
yfirgefa!
nálægist nú ró
enni nafulausu!
þetta var þat,
sem hún þá mælti;
þat var þó ekki,
þúsundsinnum
allt var öflugra
ósegjanliga.

Hèr mátti hann minna
sakir mannedlis,
hefði hann ekki
hjálpar armr
öflugr uppreist
hins almáttuga,
hvað ok hans gjörði
hjartagæðska.
Maðr máttvana
í mynd dauðligri
fann sik fastliga
frá hrifinn jörð,
ok nú næsta mjök
nærri kominn
dýrðar dyrum,
fyrir dygðugri,
sem nú Cidli hans
höfðu sik opnat.
Meiru með enn ró,
meðr fögnuði
gekk hann til hennar,
ok hendur lagði
á enni hennar
ok upphóf blessun:
gakk nú heim hèðann
í Herrans nafni,
er var Abrahams
Isaaks Guð,
ok Jakobs einnig,
í hans nafni,
er hjálpar öllum
æ tilbeðinn!
Verði vilji hans
ok velþóknun!
vilji hans verði,
sem víst er mildr!
ok hún enn framar
innti með raust
trúnaðar-trausts
ok tærrar gleði:
hann gjöri hvað helzt
af honum er
áðr ályktat!
Þat allt mun gott!
Gedor hèldt í hönd
hennar ok kvað:
þú hefir þolat
þraut, sem engill!
mildr Guð þèr, mær,
hefir með verit,
mun ok mildr Guð
með þèr vera!
Hann, sem allr er
einskær miskun,
hefir hvervetna
hjá þèr verit;
æ sè heiðrat hans
háleita nafn!
hann mun þèr hjálp
ok hjástoð veita!
Væri ek nóg vafinn
vesöld til þess,
at ek honum ei'
innti þjónkun,
þá samt þenna dag
þjónaði ek honum;
ef Guð ann þess,
minn engill vertu!
þú hèr mundir minn,
mælti Kiðli!
O! vert engill minn
arf-mær himins,
gegndi til Gedor,
ef Guð leyfir!
ástúðlig aptr
ansar Cidli:
hvör vildi, ver minn!
eigi vera þat?
Mjök full mikillrar
meðaumkunar
ok glöð í geði
með grundun djúpri
reikaði Rahel
rètt kríngum þau,
hans kæra kvinna,
sem frá Kanaan
var einn víðförull
vegferðar-maðr,
móðir hans, sem hèt
harðkvæla sonur.

Eigi var hún enn
augum þínum,
Cidli, sýnilig,
en síðast, þú
nær höfuð hneigðir
at heli niðr,
litu loksins
ena ljómandi
brosandi brostin
brúna-ljós þín;
þá tókstu þik upp,
svo þinnar kæmir
á land lifenda
leiksystur til.
En mèr hnígr hönd,
harma sögur
til at útenda,
aflvana gjörð;
seinna sorgar-tár,
sem af augum
enn í dag drýpr,
dreif meðal hinna
þúsunda þèr
sem ek þrátt felldi.
En þú óðr
um Endurlausnarann
statt þú ok streym
frammhjá steinskorum
þeim, er mjök margir
missa sín í!
saungur sigrandi
sèrhvörja tíma,
ódanðligr af
innihaldi,
Flýt þèr frammhjá,
ok flyt í þínum
fljúgandi farstraum
framm á merkur
allfagrar alda
eptirkomandi
þennann, er ek fèkk
áunnit, krans
við gröf grátandi
með greinum cyprus!
Háttgjallanda hús
stóð í hlè skugga
midt yfir miklu
Móría fjalli,
yfir öll önnur
upphóf þat sik,
at þat eittsinn
því óttaligar
kollsteypast kynni
á hinn kunngjörða
asar dag arna
ennar miklu!
Uppá loptsal einn,
þar allt var rórra,
ens stóra staðar
stígit hafði
auðugs innbúa
einka sonur,
hann lifði ljúfum
lífs í blóma;
Yngismaðr einn
alvörnfullur,
lystilig gleði
leiksveinanna,
mesta mæta hnoss
móður sinnar,
unaðs uptendrun
í hennar sál!
Róliga rann þá
risinn máni
á heiðum himni
án huldu skýa
yfir bratt-byggðri
borg Jórsala
ok megin-merki
Móría fjalls;
Hann skein inní hug
hægum þaunkum
þeirra, sem þá ei'
í þúngum svefni,
dagligum dauða,
dofnir lágu;
í þinn, allramest
ó, þú Stefán!
ýngismaðr ör
ígrundana.

Hann kríng kannaði
króka stigu
með hægum huga
harla dymma,
sem um hans sálu
sívafit fèkk
sèrliga sagan
af sjáandanum,
sem í Betlems borg
borizt hafði;
Þeir uxu því meir,
sem hann þráligar
ok með athygli
eptirgrensladist,
urðu þeir æ meir
óratanligir
ok til útkomu
aptr byrgðir.
Hrokkit hár ok dökkt
hans sik breiddi
um lètt línklæði,
sem líkam huldi,
ok handlegg hægra,
er háa studdi
þánka, þegar hann
þeim háðr sat;
Nú er hann ákaft
ígrundaði,
uppstèg einn þángat
ókenndr maðr,
þegar sagði sá:
sjá þeir hafa
lög mèr látit
uppaf lind ausinn;
Mik þeir með smurðu
mætu salve,
(hann gaf af sèr ilm
arabisks lífugs)
með þægri máltíð
mik þeir hrestu;
ek þarf aðhjúkrun
aungva meiri;
þetta klára kvöld
ok kyrrar náðir
eru þat at eins,
sem ek þarf nú.
Kom mèr, kvað Stefán,
kær ok blessaðr
ferðamaðr frá
fjarlægum stöðum!
vor frjáls húss-friðr
sè friðr þinn!
ansar aptr
sá hinn ókenndi:
O þú einka son
elskuligra
foreldra, framar
flestum öðrum!
ek em lánga leið
yfir lög kominn;
mèr hefir mikit
mætt á henni.
Aðr enn þú mèr —
ansar Stefán —
frómi ferðamann
frá því skírir,
er þú á ferð
hefir útstaðit,
vil ek þik aptr
at öðru spyrja;
Hefir þú heyrða
harða sögu
frá Júda jarðar
Jórsalaborg
um hennar æðstann
aðal-prófeta?
já, um Jesúm —
svarar Jedidot
fljótt með frammhlaupi
fljúgandi raddar —
prúðann prófeta,
sem píndr var;
Sá er saklaus dó
sannleiks vegna,
hins hærra sannleiks,
er hann sjálfr,
en Móses eigi,
oss hefir kennt;
sá er — í Salem
sik því jafnann

fær mjök fljótliga
fregn útbreidda, —
er risinn aptr
upp frá dauðum,
at hann sannleik svo
sinn styrkti meir.
Feikna furða,
þú enn framandi! —
Stefán sagði svo —
sannliga mik
af þínum orðum
yfirfellr!
hann sakir sannleíks
sjálfr skyldi
píslarvottr víst
vera gjörðr?
Þú segir þetta,
sem þó ert kominn
löndum lángt hèðann
liggjandi frá,
ok þat yfir sjó
ærit breiðann;
var yðr um þat,
sem hann oss kenndí,
á eyum úti
uppfræðíng gjör?
Hvar vér heyrðum þat,
sem hann kenndi,
skal þèr síðar sagt —
svaraði gestr —
en lát mik einnig
aðspyrja þik:
Ef þú sannleiks svo
sjálfann vissir
eigi vott at eins
heldr enn stærra
fólks alls Friðþægír
hafa fjör látit,
ok risit aptr
upp frá dauðum;
Mundir þitt líf þú
í þess blóma
aptr ofdýrmætt
álíta þá,
at varit verði,
til vítnisburðar
um sama sannleik
svo stórann, því?
Ef vor grá orðin
eins ok silfr
at nábeð niðr
af náttúrunnar
hljóðlátri hendi
höfuð sígi;
hvört mundir þú þá
þitt, Stefane!
líf, uns þú lètist
svo lángt, elska,
eðr þat áðr
útgefit láta
fyrir þann, sem fyrr
fjör sitt gaf út?
Guð veit hvað gjörða'k —
gegndi Stefán —
en hvörs ek óska
af innstri sálu
ok með allri girnd
upptendraðri
vil helzt at verði,
veit ek sjálfr!
En hvað er þat þá,
sem þú girnist
ja, óskar jafnann? —
Jedidot spyr —
ó þú ýngismann
eðal-lyndi!
ó, nefn mik eigi
eðal-lyndann —
Stefán sagði svo —
heldr syndugann
óstyrkvann únglíng,
útlendí mann!
Þú sem þessara
af þèr tilgreindu
svo hárra hluta
hefir mik spurt;
hvörnig æðstann ek
Endurlausnara
ok hvað óbrigðult
elska vilji?

hvað örðugt ek mèr
einsett hafi,
at byrja eylíft
ókomit líf?
En þú, sem ofboð
í mitt hjarta
færir ok fyllir
með fjöri sál,
þú ósk ilmsætrar
upptendrunar
yrði mèr unnt
at eptirgengist;
Streyma mundi mjök
minnar æsku
blóð, til at bera
sem best vitni
ok játa á jörðu
Jesúm Kristum,
mèr útaf öllum
uppsprettum lífs!
Já, kvað Jedidot,
ek vil eigi
æsa þèr enn meir
eld í brjósti,
æ, heldr at ek
umbuni þèr,
ástkærast efni
sem ert blóðvottar;
þá heyr mik herma
historíu
sjöunda sonar,
sem var ýngstr;
hann meðr heitum
hvörskyns lukku
vegs ok virðíngar
veraldligrar
at lokka lengi
leitaðist við,
en til ónýtis,
Epifanes!
Fylkir forgefins
fróma móður,
hugprúða hetju,
til hans sendi;
hún til sonar síns
sagði þannig:
O þú ástmögur
ýngsti bræðra,
ok sá eini,
sem eptirlifir,
þann ek bar áðr
undir hjarta,
þarnæst ól þrjú ár
á þessum brjóstum,
ok meðr mæðu
móðurligri
þinn úngann aldr
hefi uppfóstrað,
sonur minn, við mik
meðaumkun haf!
Horf upp til himins,
horf á jörð niðr!
gjörvallt Herrans hönd
hefir skapat;
myndat hefir mann
mund hin sama;
miskuna mèr því,
mögur ok dey!
En hann einráðinn
í at deya,
áðr enn móðir
hafði úttalat,
hrópar: hví bíðið
hamstola þèr?
ok þú Epifan
ógnar-maðr!
hvört muntu hefndar
harðasta dóm,
arm hins almáttka
umflúit geta.
Inní eylíft líf
eru mínir
eptir blóðugt bað
bræður komnir,
svo litla líðun
ok ei' lángvinna;
með hraustum huga
hann síðann dó!
Þess, sem flutti framm
frásögu þessa,

var andlit orðit
einskær glansi,
sjónar litust ljós
ljómandi geislar;
titra tók Stefán
ok tárfeldi.
Öll mjök mikils verð
mèr eru þín
tár, ek taldi þau! —
tjáði' enn komni; —
taldir þú tár þess,
sem tídt syndgar,
spurði Stefán strax,
ok stórum skalf.
Já, kvað Jedidot,
jafnt þó syndgi,
en Jesú offur
afleysir synd,
ok ber inní
hið allraheilgasta.
Jafnsnart leit Jesús
af jörð upprisni
ofaun af Tabor
á þá báða,
hann midt í mána
manninn dauðliga
sá, en þínu þik,
þú sem nú varst
ódauðligr, í
egin-skini.
Strax þá er Stefán
af stórri sýn
nú var nærri því
niðrhníginn,
Jedidot at jörð
jafnsnart hrópar:
ek var, heyr þú, haun,
himneski bróðir!
sem minni móður
miskunaði.
Þaðra, (þá sveif hann
þegar í lopti)
þaðra nam ek þat,
sem þèr lærðuð
á jörð af Jesú;
jafnsnart vendi
hann upp til himins,
ok hvarf í ský.

---

Barnabas Jóses,
einn bur Levi
Cyprus foldar frá
fjarlægri strönd,
þessvegna gagngjört
gekk at Jórdan,
at hann akri þeim,
sem átti þar,
gæfi gætur at,
hvörsu greiðliga
vaxa lèti vor
vísir stánga;
Hvörsu fagra framm
frjófsemdar von
biðu þegar þar
þrútnandi sæði;
einn gekk hann, en þó
eigi lengi,
tveir á tèðri leið
til hans komu:
Ananías
með innu sinni,
sem hèt Saffíra,
samferðamenn.
Heimti hjón þessi
at heimann líka
akr, sem áttu
þar á árbökkum,
at sjá hve sýndi
sáðverks afla;
svo þau samt komu
til Cedrus lækjar.
Stakk í steindaun sand
staf til reynslu
Saffíra sínum
í sjón fögr,
ótt ok tídt, ærit
óstyrkvum höndum,
áðr enn þyrði
yfir at gánga.
Hjá læk hvíldi sik
hún á steini,

en á öðrum sat
Ananías
rètt við hlið hennar,
hjástóð Jóses,
fyrir framann þau
feigari hjón.
Sátu þau samann
á sínum gröfum,
er nú innann skamms,
áttu at verða;
æ! þið ei vissuð,
at á þeim steinum
úngir mundu menn
mjök skelkaðir,
nær ykkr örend
hefðu útborit,
hvílast, bruna burt,
en blessun aungva
ykkr áleggja
til upprisunar.
Hann vissi þat þó,
sem þángat niðr
svo nú sitjenda
sveif til ykkar,
jafnframt Jóhanne,
er Jesúm skírði,
ykkr ósèðr
Elíseus.
O, ef hans hefði
fyrir hjónin raust
komit í kvakli
Kídrons lækjar,
til viðvörunar
enum vesælu;
ef þessi þúngu
þrumu orð hefði
ens háa hrópat
hann postula:
at Guði, en mönnum
ei' þið luguð!
máske hefðu hjón
eigi hèr grafist.
En sjá, ókomins
alls þú hulda!
hamlaðir hjónum
ok hèkkst niðr,
ok þèr öldúngis
engi fær lypt,
utan um síðir
efsti dómr.
Saffira sat,
ok af sinni gröf
plokkuð veitti ver
vorblom fyrstu;
en hann einúngis
uppskeruna
þegar fyri framm
fast um þenkti.
Því næst komu þau
þángat ofann,
sem láu sáðlönd
sèrhvörs þeirra;
sèr lèt túngutak
tíðast vera
Ananías um
axa fylli,
þeirra frammför
ok frjófsemdarverð!
Kannaði kæti
kornskurðamanna
Jóses, þegar þeim
þreyttum móti
brosir kvöld-blíða,
boðandi hvíld,
ok þeir svala sèr
í sætri kælu;
Þá er þeir prýddir
þeim með krönsum
bláum, sem blómgast
meðal blaktanda
hálms, í hvervetna
hreifum röðum,
undir áskyggíng
olíutrès,
dansa dátt af því,
at dags þúnga
hafi heilann,
ok hita borit.
Sæll hóf nú samtal
svo Jóhannes:

upp, látum okkr
auglýsast þeim!
ansar orðum hans
Elíseus:
hvörjum villtu hèr
heldr birtast,
manninum, miklar
sem merkur á,
eðr einn lítinn
akr grýttann?
Ek vil jafnt báðum,
segir Jóhannes!
ok mín at eins —
kvað Elíseus —
vil ek var skuli
verða Jóses,
hvörs sáð á hörðum
hrjósturs akri
leir ok möl láta
laungum kafit.
A Ananías
einn at verða
Jesú játenda? —
Jóhannes spyr,
inn mèr ágæti
Elísee!
verðr hann þat víst!
vottar þessi.
Já vel! jafnt látum,
Jóhannes mælti,
okkr auglýsast
enum kristnu!
sè þat síðr gott,
sem hann þenkir,
hann þarf handleiðslu
heldr enn Jóses.
Ek sá þar uppi —
Elísa kvað, —
at hann veginn varð
á vogskálir,
ok at hans skál hófst
hræðiliga.
Við mundum valda
viðurauka
hans dóma dýngju,
ok Drottins bræði
áfalls enn þýngra
yfir honum
af völdum okkar,
ef við sæumst,
þann dag reið refsar
ritandi hönd.
Mundum vèr manninn,
mælti Jóhannes,
lágt við lagsbróður,
eigi leyst geta?
kom þá — kallar hinn —
kristit látum
okkr fá sem fyrst
fólk at líta,
en þó eigi
sem upprisna Guðs;
síðann svifu þeir
til Salem þaðann.
En Ananías
ásamt Jóses
ok þeirri þriðja,'
sem þeim fylgði,
hvurfu líka hratt
heim til borgar;
sáu þeir sitja
í sorgligri kyrð
menn tvo mjök nærri
musterinu,
báðir báru mein
blindu ok helti.
þessir þurfendr
þá sem komu
orðum ávarpa
ölmusu bænar,
eigi með ofsa
heldr akti í bón;
Jóses hjálpar hönd
með hægð rètti,
ei' vissi vinstrí
hvað veitti en hægri.
En Ananías
ölmusu gjöf
meiri, þó minni,
af mund. lèt rakna;

þarmeð þeytti hann
þessu minna
svo hast af hendi
með hugar þjósti
fyri fætur
enum fátæku.
En at þeim þremr
þaðann gengnum,
tóku tveir hinir
tal milli sín:
þú sást nú sjálfr,
sagði hinn blindi
við hinn, þann halta,
at hann eigi
var þess verðugr,
at við birtumst.
En sem orð merkti
Elísei
hinn, þeim enginn er
áðr meiri
af fljóði fæddr,
fyri því, at
hann mundi manna
mannligastr,
þagnaði þá,
en at þagnar hans
óttaligrar ótt
enduðum dómi
innir hann enn
við Elíseum:
Þú sást, þar hann var
þegar veginn;
hvað var sem þú sást?
sá ek, kvað hinn,
samannsafnaða
sveit enna kristnu,
ok kenndi Kefas
meðal kristinna.
Sèrhvör sem var
á samkomunni,
hvör nú var himni
harla nærri,
seldi sína erfð,
sameginliga
at gagnsemd gjörði
ok gæfist öllum.
þar var þá Jóses
þeirra meðal,
seldi sinn akr,
er við sèð höfum,
ok fyri fætur
frammlagði verðs
prúðr penínga
postulunum.
En þar kom einnig
Ananías,
sá allt verð akurs
ei frammlagði;
Kefas sagði svo
við enn svikula:
hvarfyrir hefir
hjarta þitt svo,
ó, Ananías!
uppfyllt Satan,
at þú anda Guðs
skyldir aðljúga,
ok leynt afdraga
akurs silfri?
Hann var þinn, honum
halda máttir,
ok svo þegar þú
þann hafðir selt,
þá heyrði þèr til
þetta silfr;
hví svo hrekkjafullt
hjarta þitt var,
at drýgja dirfðist
dælsku slika?
eigi mönnum at
heldr Anda Guðs
hefir þú helzt til
heimskr logit!
þá er þrumuslags
þessi heyrði
Ananías orð
innt af Pètri,
datt hann án dvalar
dauðr niðr,
hardt skelfðist hvör einn,
sem horfði á slíkt,

Ungir upptóku
örendann mann
ok báru burt,
svo byrgðr yrði;
frá því frammliðu
fáar stundir,
uns aðbar innu
Ananíæ,
Saffiru, sem ei
sèð eðr heyrt
nú hafði neitt
um hið nýskeða.
Pètr frètti fljóð
fljótt þegar kom:
seg mèr, selduð þið
svo dýrt akr?
svo dýrt, sagði víf,
seldum við hann!
kvað þá Kefas svo
við konu þessa:
Hví þið svo hafið
handfest bæði
ásamt, at freista
Anda Drottins?
sjá fræknir fætur
fyri dyrum
eru þar úti
ýngismanna,
sem mold á manns þíns
mokuðu lík,
búnir þegar þik
þángat at bera;
fèll hún dauð á fold
fyri Pètri.
I því aðkomu
hinir úngu menn,
fundu fljóð liðit
ok fljótt útbáru,
svo hún við síðu
sínum manni
með líku láti
legstað fengi.
Skall yfir skarann
skelfíng mesta
ok yfir alla
umhverfis þar,
sem fengu fregn
ena fáheyrðu
um svo rammreyrðann
rèttlætisdóm.
Jóses sínum sik
samfylgjendum
fyri ferðalok
fráskilit hafði,
flýtti hann sèr heim
at húsi sínu;
Baptistam bar at
á braut til hans.
Jafnsnart Jóhannes
Jósen spurði,
hvaðann helzt um veg
hann atbæri?
ek kem frá Jordan,
Jóses mælti;
á ek þar akr,
sem ek aðgætta;
þá at því mæltu
þeir gengu í hús.
Fagna fögur börn
föður komnum,
hángandi honum
um háls ok arma,
gakk til, greindi hann,
við gest þenna,
mæl yfir mínum
mæta blessun!
ok færði fyrir hann
fagnandi börn.
Sá til sveinanna
sèr þá vendi,
hafandi hegðun
hátignarfulla,
er lèt alvarligs
uppfyllt hjarta
föðurs frábærri
forundrun með.
Ok þèr Jóses jóð —
Jóhannes mælti —
verið vors Herra
vottar líka!

en þitt akurland
upphèðann mun
færa þèr færri
frjó-bindini,
enn þú áðr
hefir uppskorit!
Mun þá Drottinn mik,
mælti Jóses,
ok mín aumu börn
yfirgefa?
fjærri fer þat,
kvað enn framandi,
honum, sem heldr
hærra við makt
enn líkamligu
lífi þessu.
Hann jafnann, Jóses,
jarðneskum gefr
ok tekr einnig
aptr fra þeim,
en frá þèr aldrei
þitt hið eylífa
háleitt hlutskipti
hann mun taka.
Þetta sagði svo
sá er skírði,
ok hans álit varð
ætíð hærra;
aldrei augna-svif
áðr hafði
Jóses jöfn þessum
á jörðu sèð,
aldrei heldr heyrt
með hátignar —
svo — ríkri raust
vera rædt um Guð!
Hann þagði ok hlýddi
meðann hinn ræddi;
Jóhannes tók til
at tala at nýu:
gjörla þekktir þú
þann, hvörs fætur
viðsat ok valdi
vænst hlutskipti
Lazars systir sèr
sæl María,
er hún útvaldi
eylífðina!
Sá af dauðadúr
dóttur Jaírs,
ok son ekkjunnar
útaf Naín,
ok síðan sjálfann
systur þeirrar,
er eylífðina
útvaldi sèr
hæðsta hlutskipti,'
himneskann bróður
áðr uppvakti,
er nú sjálfr
dýrðligr Drottinn
af dauða risinn.
Ek em hans vottur
ok innannskamms
hans þú verðr víst
vottur líka!
hann með hátign
hermdi þetta,
sú er samstundis
sik tók hefja
til furðu fagrar
forklárunar.
Ek hefi áðr
á árbökkum
hans vottur verit,
vatns-straum þegar
stèg hann ofan í,
ok yfir hann
af hæðstum himni
heilagr Andi!
guðdómlig nær gaf
gellandi í skýum
hans frammfært vitni
Föðursins raust!
Þessi hermdi hann
með svo himneskum
yfirlitum orð,
at eigi brast
meir enn fá fet
til forklárunar,

vendi hann sèr við
ok í vetfángi
fór nú frá honum,
en fagrir glampar
bliknðu af baki,
þeir er bliknuðn,
fjarlægðust, flutu,
sem í fölt rökkur.
Ok nú var enduð
opinberun;
æptu börninn upp:
eldíng! faðir!
þá sökk þar niðr
þessi skíma
við takmarks tröppu;
en tjá þú, hvar er
hann, með hvörjum þú
hafðir komit?
Ok nú frammskein fyrst
fimti morgun
eptir þik, ár-skin
upprisunnar,
frábær frumboði
fegursta dags,
gyllandi gnýpr
Gyðínga foldar
meginn roða með,
þá meir vaknaði
frá draum enn dvala
dýr Portía.
Nú gekk hún niðr
til nýrra blómstra
dásætra dampa
dags á morgni,
en þau ilm gáfu
til einkis henni;
hún við sjálfa sik
sorgfull mælti:
Aptr næ ek enn
einum morgni,
ennú lifir ek
einn dag jarðar,
samt er mèr í sál
sorgligt ok dymmt,
lángvinnt lágnætti,
ó Lífgjafari!
æ! þar uppvaknar
engi dagr!
Mèr drjúgum draumar
í dymmu gánga,
ligg ek lèmagna
af laungun sárri
til at þekkja þik
ok þann líka,
sem vèr síst finnum
í sinni gröf.
Æ! nær um síðir
upprennr mèr
sú hin síðasta
sóla minna;
hvört mun en mikla
myrkur gríma
í mèr innvortis
enn þá verða?
þá fyrst dagar þar,
þegar hún loks
víðann ægir í
ofann sökkur?
eðr ok svo nótt
enn daprari?
Einnig öld sjálfrar
útvalníngar
nefnir veg, sem veit
til vorra grafa,
er hún oksvo mjök
óttast fyrir
götu gegnum dal
geigfulls myrkurs.
Svo hefir sèrhvör
sína byrði,
eins þeir, sem æðstr
upplýsir Guð,
ok þeir, sem hann sèr
sjálfum lætr
upplýsíngar án
ofurgefna.
En lát mik eigi
ofurgefna
í mitt egit vald,
upplýstu mik!

ógnir andláts míns
eigi' mik skelfa,
ef þú lætr ljós
lýsa mèr þitt.
Nú bjarg í bifi
enu bárótta
djúpum ægir í
efasemdar!
ó þessi þánki,
þú sèrt mèr nú
athvarf ángráðri,
sem opt fyrri,
verði þat sem vill
veran fyrsta!
Sefast þú nú þá,
þreyandi sál,
helzt til áköf í
eptirlaungun!
gjörið þèr, gufur!
geð mitt fegra!
þèr lystilign
litir blómstra
látið lund mína
ljósari verða!
Þó nærri nábeð,
þess er nú sefr
eigi máske meir
meðal dauðra,
er ok einnig vor,
sem eins brosir;
fyri hví framar
frestar ek þá
mik þánka þjáða
þar að hressa?
Er mèr álengðar
einhvör þeirra,
sem lát hans syrgðu,
sýnir skímu,
en þó all-litla,
atspyrjandi!
hún þenkti þannig
ok þarnæst bendti
at sèr álengðar
væri eptirfylgt.
Utfrá hátt hreyktum
húsum borgar
var hún gengin gegnt
þar gröfin lá;
þá sáu þær
at þángat stemdi
Rakel rakleiðis
rètt at steini;
Með henni Jobs-jóð
Jemína var
þess, sem mótgángs með
mælir fullum
áðr útreyndr
umsíðir hlaut
eptir biturt böl
blessun nýa.
Svo ræddu samann
sín á milli
hinar hásælu;
Hjóbs dóttir kvað:
hèr er, Rahel, hún
hvörrar bíðum;
sú er fast sækir
sik at hefja
nú í nánd himnum
útaf nótt sinni;
henni leiðsögn ljá
látum okkr!
Þá sá engill þinn
þær at mönnum
verða' í vetfangi,
sem vèr erum,
Portía! páska
pílagrímum
tveimur fljóðum frá
fjarlægum stað.
Grisk virðtust vífin
yfir ver komin
hátíðar-halda
helgra vegna
frá eyum utan,
einni af dætrum
ægis, er kallast
Arkipelagus.
Komu þær með kurt
kvenn-prýðisfullri

studdu stig þeirra
stafir lèttir;
hvílanda haddi
hèldt purpuri;
seinum fetum framm
fángnar gengu
dýrar drósir
af djúpum þaunkum
rakleiðis ristli
rómverskum hjá.
Vífit vendi sèr
við til þeirra
ok kvað: stöðvið stig
um stund, ef þurfið,
framandi foldar
ferða-konur;
þið hafið hárra
híngat at gröf
vegvillar gengit
vegna þánka!
hvört þekktuð þèr hann,
sem þar hvíldi
fyri fám dögum
frammlíðinn nár?
Hvör ertu, mær mín!
mælti Rahel,
sem okkr aðspyr?
en mèr sýnist,
at þú engi sèrt
Jsraels kvenna,
komstu frá, kona,
Kapitólío,
hæð af sjö hæðum
hræðiligustu?
Ef þú þaðan ert
ein sem drottnar,
þá, sem leið liggr,
lát okkr fara!
vert spör á spotti,
þú sprund frá Róm!
við okkr víf tvö
vegfarandi!
Prúðlynd Portía
pílagrim-kvinnum
ansar aptr:
hinn allrahæðsti
spari þeim ei spott,
er at spjá dirfast
saklaust framferði
ok frómlyndt hjarta!
Kennið þið mik þá
þessu betr!
ek víst Pílats er
egin kvinna,
þó munda'k mjök djúpt
*mik* lægða sjá,
ef ek gæti gjört
gis at ykkr.
Eruð þið ekki
um ægi komnar
mjök lánga leið
til at lofa Guð
ok tjá tilbeiðslu
tign ens hæðsta?
ok ek ykkar þá
endurgjalda
skíra dygð skyldi
skríðanda spotti?
Takíð mik tali
til at þekkja,
dýrmæt ok dýrðlig
ens dána gröf
yfir ykkar von
er mèr þessi!
hvört er furðu fregn
færð til ykkar,
at hann af dauða
upp sè risinn,
sem þar lá liðinn
um litla stund?
Já, kvað Jemína,
um Jesúm þú
svo þenkir, sem við
höfum síst fundit
áðr neinn annann
yðar þenkja,
sem heiðrið hörga
heiðíngliga!
Vel ertu verðug
at við þik ræðum

af geðs einlægni
óðulustu,
ok bíðum eptir
með allri kyrð
því, sem þú loksins
þarum dæmir.
Meir enn flugu fregn
fengit höfum,
ok sú mèr er með
hefir mær eina
af flokki fundit
enna frómlindu,
fyrir hvörri hann
hafði sik birt.
P. Gjör mèr, lukkulig,
ljóst, hvör mundi
sú enn sællri mær
sæmd með hans náð,
hvörja sú fèkk sèð,
sem þèr fylgir?
er hún enn þessu
í eymda lífi?
hefir hann eigi
hana þegar
burt hèðann borit
til betra lífs?
Svara Rahel rèð
ræðu hennar:
mærin María
Magdalena —
hún, sem náðar naut,
nefnist þannig —
er heil á hófi
hèr enn ok lífs!
Fljóðit forgefins
enum framliðna
í gröf opinni
eptirleitar,
hún reikar ráðvill,
af raun grætr,
ok sèr — ætlar hún —
urtagarðsmann;
þvíat hún huldi
háar eikur
aptr-eldíngar
enn nú fyrstu!
En hvörnig ek fæ
útmálaðann
fagnaðar felmtr
frómrar kvinnu!
sjá, hann snèri sèr
snarliga við,
ok hennar heiti
himinn rómi,
eginn málróm með,
María! nefndi.
Hún full feginnleiks
fèll til jarðar,
hún gat ekkèrt orð
utan þetta:
Rabbúni! rædt
með raust skjálfandi,
hún lá ok hèldt
með heitum tárum
grát-glöð um fætur
ens guðdómliga,
þrá-kyssandi þá
þartil hann bauð.
P. Hættu nú, hættu!
hjarta mínu
ofmikil aðhleðst
ella gleði,
svo allt í einu,
mèr allfátt verðr!
já — strax Jemína,
Jakobs innu,
sagði svo við —
þú sèr, hún titrar,
þú sèr þat, Rahel,
þarfyrir hætt!
Ræddi en rómverska,
þá Rahel nefndist:
er þetta þitt nafn,
þú en ljúfa!
þat sem hin hermdi,
heitir þú svo?
hvörsu hefir þú,
heilla Rahel,
unnit bilbug
á böli mínu?

Æ! hann auglýstr!
ávarpaði
svo mildt María
meðr nafni,
með harla hýrri
himneskri raust,
ena útvöldu
til unaðsemdar!
Hvör mun fundit fá
fullt, eins ok hún,
hvörsu hann gjörði
hana sæla?
látið mæta mær
til mín koma,
at ek mitt megi
mæðufullt höfuð
til hennar hefja
úr hrygðar djúpi,
ok tárgum augum
að henni dáðst!
Æ! tárgum augum
ok með harmi,
því at af þeirri,
er þar yfir hana
rann svo ríkuglig
rósemdar lind,
mun ei mik hressa
minnsti drópi!
Ei' heyrir ek til
Abrahams kyni,
ek, sem er heiðin,
ættuð frá Róm;
ok þá enn síðr
hinum ástkæru
af söfnuð sjálfra
Salems dætra,
þeim er sýnir sik
sigurherrann,
sjá, í sannleik stór
sigrandi hels!
O! hví er engi
til æru-launa
honum sigur-hróss
hátíð goldin?
engin heiðurs hróp
útaf hans sigri;
já, svo öll jálmi
Jerúsalem!
svo af glaum Síon
ok sjálfs musteris
hvelfíng hvör ok ein
hvellum skjálfi!
Hví fornra feðra
fyrir honum
bílæti berast
um borg eigi?
hví gjörvallt gullnum
Gyðíngaland
ber ei bílæti
björt á stöfum
Abrahams ok Jóbs,
einnig Mósis,
Daníels dýra,
ok ens djarfasta
á meðal allra
ýngismanna!
Já, á storð steypti
sterkum risa,
ok hratt með hreysti
af herðum sinna
ánauðar oki
ok undirkúgun!
O! hví grætr ei
eptir honum,
hann, sem var halltr,
en hleypr nú?
hann, sem heyrn skorti,
en hefir fengit?
sá er sjónlaus var,
en sèr nú gjörla?
O! eptir honum,
sem undurverk
frægustu framdi,
sá fyrr var dáinn,
en er nú aptr
endr-lifnaðar?
svo at sigurhrós
hafi sèð verit
aldrei undir sól
annat sem hans!

Ekkert með allskyns
yfirlæti,
sem gekk sjálfa
kríngum. sigur-hæð,
ok sem lagði lágt
lárberja niðr
kostuligann krans
á Kapitóli
þaðra hjá þúngri
þrumu Jóvis!
En hve víðsvegar
em ek villt orðin?
hans er ei' hèr
af heimi ríki,
hvað ek heyrði sjálf
af hans munni.
Sloppin útaf ósk
ólgufullri
eptir svakksömu
sigurhrósi,
líku launum
enna lituðu
mjök úthelltu með
manna blóði,
flaug hún á hæðir
heldri tignar,
þagði því um stund
þenkíngarfull
um heims ókomins
æðra ríki.
Sem hana sökkva
sá Jemína
þannig í þessa
þánkaskoðun
af glaðrar ítrum
alvöru svip,
hún af hálcitri
hugar tendrun,
at drós dauðligri,
sem dauðlig cin,
hún nú hjá stæði
hardtnær gleymdi.
Því klárs kvöldroða
á kinnum prýði
blikaði brúðar
ok bros í augum;
en þat skin aptr
yfirgaf hana,
nær viðleit virðta
vífit frá Róm,
ok tók á hana
enn at horfa.
Hún varð undireins
á at líta
prúðri Portíu,
pílagríms kona,
ok þjáð af þreytu,
þurfandi hvíld,
studdist styrkjanda
staf sinn viðr.
En þó lèt unun,
útaf hvörri
hún þannig þúngrar
þreytu kenndi,
eptir í ítri
önd Portíu
fylli frábærrar
forundrunar,
svo ei' gat aðspurt
fyrir orðleysi;
þat var harla hæg
hugarfurða
stans ok styrkleysi,
svo stórum skalf,
einnig enn styttri
andardráttr,
þá fylgdu þarmeð
þánkar djúpir;
en hún orð, sem fyrr,
ekkert mælti.
Mjök svo gleðr mik,
mælti Jemína,
ein svo alvarlig
ígrundun þín,
um heims ókomins
eylíft ríki,
ok at allt jarðar
ofsmátt virðtir
sigur glauma-glis,
ok gjálíft svakk

þeim dýrðar Drottni
dásamligasta!
Þú, sem ángruð ei'
uppfrá þessu,
ei' lengr leikspil
lyndis villu
eðr óvissu
ættir vera,
heldr fastann fá
fögnuð af því,
sem við segjum þèr,
at sè frá dauðum
upp hinn andaði
aptr risinn!
Svo ok þèr síðar
sjálfar vitnis
kvinnur kannske
munu kunngjöra,
enn sigursæla
at sèðann hafi
Drottinn, sem drottnar
yfir dauðanum!
Sem sæl Jemína
sagði þetta
með lystiliga
ljómanda brosi,
hún hýrt Portíu
horfði í augu;
en hún í andvarpi
at eins hægu
með ok málrómi
mjök svo lágum
uppkvað einúngis
orð þetta: mèr?
Burt, burt — Jemína
brátt þá sagði —
vík burt frá vífi
vondr efi!
en Drottinn æðstr
eylífðanna,
er frá upphafi
allri sælu
hefir hátt blessat
himnaríki,
sá hæðstr Herra
hann sè þinn Guð!
Hann, hvörs þik hendur
hafa skapat,
virðist þèr, víf,
af veita miskun!
Þú, sem mitt í mèr
marðir hjarta!
Jehóva sè sá,
sem þèr líknar!
Tíð hrundu tár,
svo tepptist rómr,
af hennar augum,
enni þegar
en ódauðliga
álagði hönd
himneskum huga
ok hana signdi.
Rómversk ræddi mær,
þá raust fèkk aptr:
leið mik hægt við hönd,
hvör sem þú ert
ein dýrra drósa
meðal dauðligra,
sem eru sæmdar
sèrligri mildi!
Elligar ein
af öldum himins,
er sik opt mönnum
opinbera;
handleið mik! hvað skal
ek hafast að?
gjörðu mèr til Guðs
götu kunna;
Rahel spyr með spekt
sprundit frá Róm:
er þèr sú orðfregn
til eyrna komin,
at hafi ok einnig
andaðir menn
jafnframt með Jesú
af jörð upprisit?
Hvað? sagði' en heiðna
hröðum orðum,
hvað var sem hermdir?
helsvæfðir menn

jafnframt með Jesú
af jörð upprisnir?
Já — mælti jafnsnart
Jakobs inna —
tíðindi taka
til at hljóma,
at með Jesú út
andaðir menn
af gömlum gröfum
gengit hafi,
ok hans elskendum
opinberast!
O! lát mik útaf
ofboðsfurðu
mik hefja minni —
mælti en heiðna —
ok samansafna
sinni mínu!
ofmegn upptendrun
um mik geysar,
svo mik svimar af,
sem á flúgi!
Upprisinn er hann
ok önnur lík!
hann lætr sjá sik
sem ok hinir!
ó, lystiligann
lífs dag þennann,
er slík undur Guðs
ek fæ heyra!
Nú ræddi Rahel
Róminnu við;
þik um vissann veg
við skulum leiða;
þenk til þess eigi
þeirra at leita,
sem Kristum sáu
þvíat síst þèr tekst,
þótt leitir þeirra,
þá at finna.
Sjálfr senda,
ef hann senda vill,
þèr mun hann þá,
svo þeir af honum
fái fyri þèr
frammsagt vitni!
hann birtist gagngjört
í Galílea
fyri fleirum
enn fyrstu vottum,
en inni í Salem
einúngis þeim.
Hèr greindir hans
munu helgaðir
frumburðir fólki
um fold gjörvalla
kunngjöra kenníng'
ok kraptaverk hans,
ok loks innsigla
með egin-blóði
vettugi virðtu,
vitnisburð sinn!
Glaðir gánga þeir
í greipur dauða,
til at taka við
trúlyndis síns
eylífri umbun
hjá æðstum tróni
ens alvolduga,
sem endurgeldr.
Gakk nú sem greiðast
í Galíleam;
ef þú hann ei sjálf
augum lítr,
þá mun hann þèr einn
þeirra senda,
sem hann sèrligri
sæmt hefir náð;
ok nú verðum við
við þik at skilja;
þær brostu báðar
blíðu at henni.
P. Ek við æðstann Guð
ykkr særi,
er mik einnig
hefir auðgað náð,
standið við um stund,
strax mik eigi
svo allt í einu
yfirgefið!

hermið mèr, hermið,
hvörjar eruð!
Einhvör ákenníng,
engi slík fyrr,
gefr sterkann grun
geði mínu,
hefr mik hátt upp,
ok hugboðs skini
yfrit inndælu
umkríngir mik
um þat, at sèuð
ódauðligar!
En ek bið ykkr
inniliga,
segið mèr sjálfar
at sèuð þat!
svo ei' sè eptir
eitt hið minsta
skugga-ský hjá mèr,
er skemma kunni
dags mön, sem myndast
mèr í sálu;
æðstr Guð ykkr
umbuni þat
fastri fullvissu
síns fagra himins!
Hinar horfðu nú
hvör á aðra
uppfylltar unun
ok enn töfðu;
kenna viljum við,
víf, þèr at biðja,
sögðu fljóð, ok framm
fèllu með henni
undireins við
hins upprisna gröf.
Þær báðu þannig:
Þú vor Faðir!
hvör á himnum ert,
helgist þitt nafn!
veit at vendi
til vor þitt ríki!
verði þinn vilji
á vorri jörðu,
eins sem á himnum!
oss dagliga
næríng vora veit!
vorar skuldir
uppgef oss, eins
sem vèr uppgefum
skyldu skort vorum
skuldunautum!
Eigi leið þú oss
inní freistni,
heldr útleys oss
af því vonda!
því þitt er ríkit,
þinn er máttr,
þín dýrð ei dvínar,
nè deyr, Amen!
Þá er þær sögðu:
þín er dýrðin,
bænar endíng í,
ok með sama
hófu til himins
hendur sínar,
huldi þær henni
hastarligt skin,
svo þær gagngjört
útaf gröf svifu,
með skjótu skyndi
í skugga af eikum.
Opt þær umhverfis
augum hýrum
at vífi vendu,
sem þær viðskildi,
var þeim unun at
orðstemmandi
fagnaðar furðu
fljóðsins heiðna.
Hún kraup á knjám
í köldu dupti,
eptir þeim arma
útbreiðandi,
en brast orku til
sik at upprètta
henni var horfin
helg Jemína,
ok at endíngu
einnig Rahel.

Forkunnar fagr
fögnuðr nú
rann um rjóðari
ristils vánga,
hún sik í hasti
hóf á fætur,
lètt eins ok laufblað,
sem lyptir blær.
Ríkit — mælti mær —
máttr ok dýrð
þín eru um eylífð,
Amen, Faðir!
sèr svo biðjandi
Salems flýtti
Portía prúð
at porti niðr!

---

Sú var sál meðal
sinnis þúngra
ok ofviðkvæmra
ein, meðal þeirra,
sem góðs gleymendr,
gjarnar á þat
þess, sem þær hrepptu,
en þrátt aukendr
eðr ok jafnvel
aðalsmiðir
eymdar, einúngis
um hana þenkja;
Ok sèr í hana
ofannsökkva
með grubli ok grundun
gjörsamliga;
sú var Beors sál,
sem hèr er meint;
burt hafði hann sik
frá hjávist manna
tekit tómligrar
til einveru.
Eins sem einn glaðvær
yðjumaðr
stendr upp til starfs
strax með degi,
svo er hann svöfn-skirr
um svart miðnætti,
við fá-fjáðs kofa
fjárlægar dyr
tæpa ljós-tíru
tóra lætr,
líkt lampa glætu
í líka gröfum.
Etit hafði hann
hrygðar brauð sitt,
eins sem vanr var,
ok vatn drukkit,
ok sik til sinna
sígrublandi
þúnglyndis þánka
þróttugri gjört.
Svo lát eittsinn enn
ofannstígit,
þángat sem þú
hefir þrátt verit,
tvist sál ok trubluð
tvístruð næsta!
er ei einskorðat
at eymd sè til?
ok at einhvörjir
skulu eymd bera?
Jú, þat er fullfast
fyrst hún er til!
hlyti himin ei
hana at bera,
svo framt sem á oss
sú ei lægi?
hvört sem er hlyti
hún vera til;
aldrei orðin til
ella væri!
Hvarfyrir helzt þá?
hvörsu sem ek
aðspyr optliga
engi svarar;
á himnum enginn,
enginn á jörð;
svo er með sama
sú mèr horfin
huggun, at hljóti
hún at vera!

En með helzt hálli
huggun þeirri
má þó mitt hjarta
mjök niðr-þýngt
þreyta þúngt fáng
eptir því svari:
Hví útkýs eymd
frá öðrum suma,
járn-hörð þrífr þá,
þeim yfir straum,
harla hátt lyptir,
ok hardt rekr
ómjúkum armi,
sem allt kremr?
Með þeim armi mik
mer hún sundr;
fæddist ek ei fyrst
á fold blindr,
ok lifði líka
lánga tíð svo?
hann vel at vísu
veitti mínum
dægiligann dag
dymmum augum;
sem ok sál minni
af sèr skímu!
En hún er aptr
orðin at nótt,
með því 'at hann er
önd viðskilinn,
fárlig nauða nótt!
hvað notar dagr
augna minna mèr
mjök svo stuttr,
með því í meira
myrkri ráfar
sjálfum dauðansdal
mín dapra sál?
O! kom nú aptr
augnablinda!
því skoðun skærrar
sköpunar við
get ek eigi glaðst,
nè geisla framar,
sem blómstur Sarons
ok cedrus trè Guðs
hin lystiligu
lifandi gjöra!
Ei sökkur optar
aptanskíma
mèr tærrar teiti
í tilfinníngar
hægar ok hýrar,
sem hún er sjálf,
en þótt ek sè gröf
augna-blindu,
sem nótt níð-dymmri
nú vakinn af,
er ek samt orðinn
allr sami!
Því í nótt er nú
niðurgrafin
mín sála miklu
meinblindari,
enn sem augu mín
áðr voru,
þvíat, þèr englar!
(þakkið kyni
voru þat, at vèr
urðum vesælir)
því, englar! er hann
ekki dauðr?
Kom nú karl gamall
til ens klaganda,
sá var móður mjök,
ok mælti þannig
biðjandi: Beor!
bikar mèr gef,
ek er eldri þèr,
ok svo hefi
miklu meir enn þú
mæðu liðit;
Mæðu meir enn ek?
mælti Beor;
árum ertu víst
eldri mörgum!
tak þar bikar bifs!
betr enn þú
má ek mik at lind
mýkri beygja.

Getr þú gefit —
hinn gamli kvað —
mat til máltíðar
mèr at eta?
tak — kvað Beor brátt —
brauð skerf þenna,
neyt hans ok njót
þèr til næríngar!
Þá gegndi enn gamli:
gleðr þat mik,
Beor, at þú ert
eigi harðr
eðr ómildr
öðrum mönnum,
þótt at eins þú
móti þèr sjálfum
herðir hjarta þitt
ok huggun allri!
Já, til þess at þú
þik ei huggir
skoðar ok skygnist
skilníngr þinn,
ok þat ástundar
allt þitt hjarta,
því ek þik, Beor,
þekki gjörla;
viðstaddr var ek,
þá er veraldar
fèkkst sèð fyrsta sinn
fagra sköpun.
Ef þú mik þekkir —
þá kvað Beor —
manna þekkir þú
þúnglyndastann;
því þúnglyndara,
sem þróttr minn er
deigr ok duglaus
at dempat fái
þat í mèr, sem mik
til svo mikillar
hrekr ok hrífr
hrygðar spennu.
Þenk at eins eigi
at orsök hrygðar
skorta muni mik,
því mæða ok eymd
svo megn, sem mín er,
mætti fella
geðglaðastann hvörn
gjörsamliga!
Var ek frá fæðing
eigi fyrr blindr,
lángann tíma lífs
ok líka' enn bezta?
er ek eigi nú
enn blindari
at skyni ok skilníng
skírt at kenna
mann þann enn mikla
í makt guðligri,
sá er full á fold
til at fremja verk
kærleiks ok krapta
kom frá Guði?
Hvört mun til meiri
mèr þekkíngar
lát, sem hann leið,
at ljósi verða?
þekkir þú nú eymd
þá er jafnast
muni við mína?
megu þá ekki
óttast, at æ meir
aumari verði
þeir, sem fra fæðíng
eru fergðir eymd?
Er böl þat eigi,
sem æ pínir,
annars ókomins
undanfari?
refsar ei raunar
sá enn rèttláti
syndum mínum meir
enn manns annars?
Ek læt at sönnu
eigi mínum
með frekju formælt
fæðíngar degi;
en ek þvínær þó
þess mèr óska

at ek öldúngis
engi væri!
Beor hætti hèr,
en hinn tók við.
Lèt hann eittsinn ei'
opinn settann,
þegar þú hvað síst
eptir því væntir,
allt í einu síns
allrahelgasta
forgarð fyri þèr,
þenna fagra heim?
Brosti þá ei blíð
blessunar fyllíng
hans af hýrri sól
hátt uppljómuð
þá á móti þèr,
er þú fèkkst sýn?
þá hjá þèr fannstu
þvílíka gleði,
sem enginn af þeim,
er alltíð sjá,
nant eðr náði
nokkurntíma.
Opnaði hann eigi
eitt fyrir þèr
angakast inní
hið eptirkomanda,
þá er sjálfann sik
son hann nefndi
þess ens eylífa
ok allrahæðsta?
Var ok böls byrði,
Beor, þetta?
mundi þat mikit
misgjörða straff?
eigi hefnir hann
heldr synda
með þúngri þjáníng
á þèr enn öðrum.
At hins eylífa
opinber dýrð
skært skínandi
skyldi verða
vildi Jesús víst
við þik, Beor,
sem með sárri eymd
sæll ert gjörðr.
Fyrrenn þú fæddist,
frammvegis hennar
vottur at verða
varstu kjörinn;
þannig minntist þín
þegar í fyrstu
sá enn eylífi
áðr enn varst!
Niðr í nýtt djúp
nú — kvað Beor —
grublandi grillna
ginnir þú mik;
lát mik lifa mèr!
þar ek ligg áðr,
er ek í djúpi
ærit nógu,
nóg er mitt afgrunn,
þótt ei dýpist!
En þótt ljóss engill
einn þú værir,
ok sögn þín sama,
sem hún er nú,
þik ek þó mundi
þannig spyrja:
hve mætti þèr þat,
þótt værir einn
ódauðligum af,
unnt at vita,
sem Guð sjálfr
í sínu ræðr
helgidóms húsi
heimuglegasta?
Uppfinn mèr eitthvað
þat er enn lengra
sett er sjónarhríng
sèrhvörrar frá
uppgötvunar ok
þat er allsherjar
Drottnandann dylji
dýpra enn þetta:
at hann einúngis
gjöri auma menn,

svo at sjálfs hans dýrð
sè þess meirri!
Ok hvörnig ert þú
einn dauðligr
þekkjandi þess,
at þvílík breytni
sè ens eylífa
ákvarðat ráð?
svo framt, sem engill
sýniligr
mælti þat við mik,
munda'k trúa;
En at hann hafi
hulinna djúp
Guðsdóma gjörvallt
gegnum skoðat,
framber fyri mèr
forgefins hann,
en þótt öflugr
engill væri.
Ansar hinn aldni:
þú efafulli!
eru þá engin
eylíf laun til?
ok heldr aungvar
eylífra launa
tröppur til,
sem taki at fullu
í himna himin
hèðann af jörð?
Getr Guð þá ei
góðu launat
þeim, sem hann hrygði
hèr vegna sín?
ei' þeim einnig, hann
sem er uppspretta
ótæmanlig ein
allrar sælu?
þú ert hèr við haf,
hvörs einn dropi
fær þèr, fis jarðar,
fyllíngu streymt!
Hjarta mitt hressir,
hermdi Beor,
þú enn aldraði
ok æruverði!
þó ef Guð gjörir
sem þú greint hefir,
hve mun ek svo hátt
hugsa mega:
At ek einn meðal
auðnu-sællra
megi mik telja,
sem miklu böli
Drottinn dýngir á,
svo at dýrðligann
sjálfann sik gjöri,
en sælufull laun
þeim í eylífa
umbun gefi!
þú ert einn þeirra,
þess em ek viss —
ansar hinn aldni —
ok mun veitast
þèr senn sanfæríng
af sjálfs reynslu;
þvíat þá mun
í þinni sálu,
gleð þik við þá von,
verða dagr.
Morgunroða rós
röðulskærs dags
ek sèr álengðar
ítra þegar;
látum oss áðr
enn hann kemr
byrja bænagjörð,
svo at biðjandi
hitti hann okkur
hýr dagr Guðs!
þeir fèllu framm
í foldar dupti;
Jób fyri framann
frómann Beor,
sem bar framm bljúgr
bæn með stami
ok tærum tárum
talandi svo:
Drottinn Guð! Drottinn
dýrstu náðar,

mikillrar mildi
ok miskunsemda!
ef ek er kjörinn
eymd at bera,
svo mèr því meiri
miskun sýnir,
þá hef ek höfuð
til himins mitt,
með þökk, með þökkum
þúsundföldum:
At þú eittsinn gafst
augum blindu
ok sinnis sjúkri
sál minni nótt
meðr mikilli
miskunsemi;
ek vil inna þèr
eylífar þakkir!
því at eylífu
út skal hrópa
mín full fegurðar
fagnaðar raust
þat, at þú hafir
þinni miskun
yfir mik útheldt,
ó Guð Drottinn!
Er nú brátt úti
ok yfirstaðit
sálarmyrkr mitt,
manna-vörðr?
þú varðveitandi
von en nýa,
þú hátt til himins
hefjandi von!
þik ek þakklátr
þigg af Drottni!
Heiðrat, hátt lofat,
hæðsti Faðir!
vegsamat verði
þitt voldugt nafn,
mikil miskun
ens mildiríka,
bjargarlauss barns
sú blíða móður!
Ok þótt ein um sitt
eigi kenndi
bjargarlaust barn
í brjósti móðir,
mun þó mildr Guð
miskun veita!
ó Drottinn! Drottinn
dýpstu náðar,
mikillar mildi
ok miskunsemda!
Um eylífð alla
þitt æðsta nafn
vegsamat verði,
voldugi Drottinn!
fyri þat at þú
þegar í fyrstu
blindr frá burði
bauðst ek væri!
At mèr mótlætis
mælir fullum
tærðir ok tára,
ok til mín sendir
eymd, þinn ágætann
eyrindisreka,
kennslu móðir mæt
mín svo væri!
At þú efasemd
ok óglaðleik
sálar minnar mèr
mikinn sendir,
svo ek í sjálfs míns
sannarliga
innstu fylsnum fjörs
finna skyldi,
hvörsu hjálpandi
handar ek sè
þinnar þurfandi
í þessu lífi!
En skal ek ekki
einnig greiða
þèr mitt þakklæti,
þú sendi Guðs,
hái, heilagi
hjálpari í Júda!
en — (við þat varð hans
veikari raust) —

hann er hèðann burt
hann er dáinn!
Hann lifir! hrópar
með höfði vendtu
ok alskínanda
andliti Jób,
hann lifir! stóð strax
stillt á fætur,
ok varð allr dýrð
hins annars lífs!
Sjá! ei örendr
er hann framar,
heldr lifir hann,
hèr er einn votta
at hann enn sè lífs
endurvakinn,
ek hinn aldni Jób,
sem hann uppvakti.
Ek þoldi — þessu
þú trúir nú —
þýngri þjáníngar
enn þú miklu;
en hvörsu hefir
hann mèr veitta
mikla miskunsemd
ok mèr hjálpat?
Beor bar sik at
beint til himins
at halda höndum,
en hann þraut krapta;
sem Mósis mundum
menn upphèldu
eittsinn á straungum
orrustu degi,
þegar þær sigu,
þá kom dauði,
en líf, nær lyptust;
lèt nú svo Jób
hèr á lopt haldit
höndum Beors.
Ok nú með unun
undrunarfullum
frá Beor burtu
bjóst at víkja,
en hann eins ok nár
ærit fölur,
öldúngis orðlaus
á hann starði.
Sjá þú — sagði Jób —
sá hinn dáni,
er þó um eylífð
alla lifir,
ok nú innannskamms
uppstíga mun
á himna himin —
hendi ljómandi
hann í hæð bendti
hátíðliga —
yfir þèr eittsinn
uppkvað þetta:
Ei' blindr borinn,
nè blinds móðir,
ei' hinn, sem hann gat,
hafa syndgað;
heldr er hann vottur
Herrans dýrðar!
Jób burt frá Beor
brátt þá líðr,
vegligs viðskilnað
sem varla stóðst.

---

Aldinn Abraham
ok hinn stóri
Móses með honum
musteris við
háar hvelfíngar
helgir svifu;
hvaðann þeir horfðu
yfir hátíðlig
helgihöld ofann,
hugleiðandi
allt með athuga
ok eptirgrenslun;
Nokkurn þann ef þeir
gætu þar fundit,
meðal svo mikils
manna grúa,
sem virðtist vera
verðugr þess,

at sik augum hans
opinnberuðu;
lengi var leitat
þó lítt fyndist.
Litu leitendr
loks, hvar staddr
hjá pálma prýddum
pílárum var
ýngismaðr einn
alvöru-fullur
ok Guðs auðmjúkrar
áköllunar.
Hans sjónar svifi
sèrhvörju frá
flóði fjör-eldr
furðu sterkr,
helgaðr honum,
hvörs mikla nafn
nú lèt há hljóma
himin-básúna,
stöðug stríðsfylgja,
stórs sigurhróss
ok hljóms af helgu
Halelúja.
Varð í vetfángi
viðlit augna
hans, þegar hætti
hennar þruma,
miklu mildara,
ok af mýkjandi
tára tilkomu
temprat skini.
Næreð nú saung
með næsta hægu
hvísli hljóðfæri
heilagt Kóres,
ok Davíðs dansmey
dýrmæt harpa,
ok mannsraust, yfir
alla strengi
allar málm-æðar
ótæmanlig,
hún, sem mest megnar
á manna brjóst.
Svo gall saungurinn
í sik hefjanda
til himins heilagt
hámusteri:
hèr stendr hún
enn heilaga
á fjalli fögur
ok fast grunvölluð,
Síons port-prýði
pörtum mörgum
yfir öll Jakobs
önnur herbergi
hefir Herrann Guð
hana kæra!
I þèr, ó borg
ens allrahæðsta
dýr ok dægilig!
dýrðligir mjök
kunngjörast, klárri
kenníngu, hlutir;
hlutir hvervetna
hádýrðligir!
Stóð með stöðugri
stilltur á knjám
alvöru ok auðmýkt
áköllunar
Sálus í sinni
sál upphafinn
gjörvallra gjafa
fyri Gefanda,
honum, sem hæðstum
á himni lifir,
ok at eylífu
öllu ræðr.
Af þeim mjök mikla
manna grúa,
sem þar var um sinn
samannkominn,
þar er hvör þrengðist
um þverann annann,
mundi sèr Móses
mann þann kjósa
einn ok Abraham
til at auglýsa
sjálfa sik fyrir
sýniliga.

þá gleði glaumr
gjörðist at þögn,
ok sá söfnuðr
sundurdreifðist,
sem haldit hafði
hátíð þessa,
svifu þeir í svip,
svo hann leiddu,
undireins báðir
eptir honum.
Með flýti miklum,
sem mjök skein af,
flaug þeim fylgjendum
fast á móti
ofann af Tabors
áskyggðri hæð
Gabríel, ok gat
með greiðu flugi
náð hinum nefndu,
ok nú svo mælti:
Auglýsið yðr
eigi — kvað hann —
farsælu feður!
fyri honum;
því Herrann hefir
honum sjálfr
ásett æðstr
at opinnberast.
Seg oss, Guðs sæli
sendiboði! —
mælti Móses —
hvör maðr sá er
dauðligr, svo dýr,
at Drottinn sjálfr
vill, at við ekki
vottar hans tveir,
heldr hann at eins,
honum birtist?
Gabríel gegndi,
góðir feður!
Damaskum þið þar
þekkið standa!
hann í þau hèröð
hraðar gaungu
upptendraðr einn
ofsóknarmaðr,
sem þik sækir á,
söfnuðr Guðs!
Hann æðir ákaft
ok at sèr dregr
magnliga mikinn
manna skara;
en þeir eins, sem hann,
ofstopa-fullir
láta geysa grimd,
granda ok deyða!
En allt í einu
ofann frá himni
ljós á leiðinni
leyptrar um hann;
fellr hann á fold
felmtri sleginn,
ok heyrir hrópat
hátt í skýum:
því þú, Saule, svo
sækir á mik?
En hann til himins
hrópar á móti:
Herra! hvör ert þú?
hræðilig raust
andsvarar aptr:
ek em Jesús,
er þú svo ákaft
ofsókn veitir;
þat mun þúngt verða
þèr at etja
sljórri sleikju
gegn slíkum broddi!
Hinn spyr huglaus
með hræðslu ok skjálfta:
hvað skal ek Herra
hafast þá at?
hvað er þat, sem þèr
þóknast at bjóða?
Jesús, sem sitr
sínum Föður
við hægri hönd
á hæðstum tróni,
gefr honum glöggt
guðdómlig boð.

Þessum hlýðir hann,
þó hardt sleginn
sjónar missir með,
svo menn hjástaddir
harla hugskelfðir
hann leiða til
dýrs í Damaskó
Drottins sjáanda.
Hann er til hauda
himna Drottni
valit verkfæri,
til at viðfrægja
háleitt Herrans nafn
meðal heiðíngja,
ok þeirra, þjóðum
þeim sem stjórna,
ok meðal allra
Israels sona!
Vill hæðstr Herrann
honum sýna,
hve mikit hann skal
vegna hans líða;
heilags Anda hann
hlutteknìng fær,
ok hans blindu böl
batnar honum.
Hann verðr vígðr
vatnslaug helgri,
ok með orðræðum
útbreiðir hann
mjök nafn ens mikla
Meðalgángara,
at hann Sonur sè
sjálfs Guðs Föðurs,
hinn mikli Messías,
sem menn deyddu,
at sè upprisinn,
ískrýddur dýrð
ok hátt upphafinn
hann enn sami!
Gabríel gaf upp
at greina fleira;
Abraham upphóf
orð ok hendur:
at þú einn sèrt alls
upptökum heims
enum fyrstu frá
fullkomnari!
At sik í þínu
öll knè nafni
skuli bljúg beygja
byggjenda himins,
eins á jörð allra
ok undir henni!
ok túngur allar,
eins hins fyrsta
á trón eylífum,
æ meðkenni,
sem ens síðasta
við sína gröf:
At þú til æru
eylífum Föður
Herra sèrt ok hans
til hæðstu dýrðar
eingetinn Arfi,
sem öllu ræðr
á himni ok hauðri,
Halelúja!
Ok nú af unun
inniligri
þögðu þeir lengi,
at þessu mæltu,
svo at síðustu
sagði Móses,
ok með þeim orðum
innvígðann lèt
ýngismann ítrar
einurðar fullann:
Kærleikr klár
til Krists ok bræðra
fast þik frammknýi!
fullefldr sèrt
hæðum hvervetna
at hrinda niðr
í grunn, sem Guði
gegn sik hefja!
Vertu vottur hans
veltalandi
mjök, svo sem maðr,
ok mæl um hann

með orðsnild eins
sem engils túngu,
en lát kærleik krapt
kenníngu gefa!
Haf kærleik Krists,
sem kostuligra
metr miklu
hinn mest elskaða
þeim enum þraungva
þoku vísdómi!
kappkosta líka
kærleik bræðra
þakknæmann, þýðann,
þolinmóðann,
Sem ei öfundar,
eigi spottar,
eigi blæs sik upp
með ofurdrambi;
þann ei' afmyndar
áköf reiði,
sá ei' ástundar
hvað er hans sjálfs;
Sá sik aldrei' upp
erta lætr
til beiskrar bræði,
nè bræðrum sínum
girnist at granda
nè gjöra tjón,
eigi gleðst hann af
órèttlæti,
af sannleik sífeldt
sèst hann fagna!
Hann umber allt
ok öllu trúir,
allt hann umlíðr
ok allt vonar,
eigi gefst hann upp
óþreytanligr,
ok varir allt inní
eylíft líf!
Veri þessi þá
þinn kærleikr,
á niðr náðar
nýfæddasti
af sendi-sveinum
enum sannhelgu,
þeim er sjálfr sik
sjá lætr hann!
Því at þeir eru,
sem þú elskar,
ens sóma-sæla
safnaðar limir,
án flekks, án galla,
óstraffanlig
er Herrans há
ok hrein samkunda;
Brúðgumans brúður,
í blóði hans
ítur-þvegin öll,
í því blóði,
sem hærra hrópar
enn hitt Abels,
ok hefndar aungrar
óskar sem hans!
Heill yðr! hrópar
ok hærra lætr
enn fyrr af fjalli
felmtur-gerðis,
Sína, skruggu skot
skarar engla,
ok bist básúna
um bölvun aungva!
Ok nú gekk ofann
eptir Stefán
Sálus samfara
sagðri vígslu,
hún var með honum
hèðann í frá;
hinir heilögu
hvurfu á Tabor!

---

Ens sjónar-sæla
Símeons bróðir
Elkanan innkom,
ok með honum
sá enn úngi sveinn,
sem hann leiddi,
til Samma, sama
sorgliga kvöld,

sem þeir frá þaktri
þykkvum mosa
enni gömlu gröf
gengnir voru.
Hjá sèr með sætum
samræðum hèldt
Samma greiðagjarn
gestum þessum,
vel hýr veitandi
ok vinsamligr,
enn þótt ærit dymm
ángursemdar
um hans sáru sál
sveimuðu ský;
Ok nú hinn nýi
neyðar þánki:
at Kristr ennú
andvana sè,
engi fáist fregn,
sem hinn framliðna
enn vitni vakinn
vera af dauða!
Einnig Elkanan
um þat kvartar,
Bóa þráir þat
með þèr, Jóel;
sendu svo um kríng
samstundis þeir,
en fengu ei fundit
fróma sveina
þess, sem þeir æsktu
þá at lifði.
Þeir satu samann
í sætt ilmanda
lysti-laufhúsi
litla Jóels,
því er honum hans
hafði faðir
gefit í gróða
garði sínum.
Um lopt líðandi
enn ljósi máni
en engin annar
ætluðu þeir
sínar heyrðu hèr
harmatölur;
þó samsöfnuðust
á silfr skýi,
sem hann laust huldi,
heyrendr aðrir;
Ok vottar aðrir,
ángurs vegna
þá er þagnaði
þeirra ræða,
sem var Símeon,
sveinn Benóni,
ok þú fróma fljóð
fullkomnaða,
loflig María
Lazars systir!
Eigi má ek meir
mèr nú aptra —
kvað brátt Benóni —
ek birta hlýt
föður mínum mik
ok mætum bróður!
seg þú oss sjálfr,
Símeon, þetta:
er ei nóg útheldt
eymdartárum?
Er ei enn drukkinn
út til hlítar
beiskr bikar
af böli þeirra?
hefir þeirra þó
ei þegar sínum
skörp reynsla skundat
at skeiðslokum?
skulum við ei víst
verðlauna krans
þeirra nú þegar
at þeim rètta?
Símeon svarar:
sannarliga
brátt þeim, Benóni,
birtast skulum;
fylg okkr eptir
ósýniliga,
María mæt,
svo megir njóta

unaðsemdar af
á at horfa
frábærann fögnuð,
sem finna þeir!
Birzt þú Benóni
burt frá lengra
minni glansa með
ok mildara,
svo þeir ei í svip
sökkvi til grunns
undir ofmegni
opinnberunar;
þarnæst svifu þau
þángat niðr.
Beið ek við bróður
Benónis gröf,
sem þú Símeons,
sagði Jóel,
ó at við aumir
einnig hefðum
við gröf vors Jesú
verit staddir,
svo máske, sè hann
svefni dauðans
endurvakinn af,
upprisu hans
hefðum við horft á
meðann hún skeði;
Hefðum — Guða Guð!
hvað glansar þarna?
lítið á, lítið
lángt burt hèðann!
Samma sèg niðr
svo hrópandi:
Drottinn! Drottinn Guð!
dýrstu náðar,
mikillrar mildi
ok miskunar Guð!
sjáið sjálfs himins
sendiboða!
O! hvað sástu sveinn?
sagði Elkanan,
hvað sástu Samma?
móti sýn þessi
færið mik fljótt,
svo fái hana
ek viðrædt, vinir,
veitið mèr þat!
O! við Elkanan
allmjök titrum —
Jóel sagði svo —
síst megnum við
þessvegna þángat
þik at færa!
Elkanan áknýr
enn hið sama,
leiðið mik! lát sjá,
litli Bóa,
seg mèr hvað þú sèr?
sjá, leið þú mik!
Sveinninn fárskelfðr
sèr fèkk haldit
við lund laufgaðann,
orðinn lèmagna;
talið þó til mín!
tjáði enn gamli,
segið mèr, segið,
hvað sjáið þèr!
Ek sèr únglíngsmynd —
ansar Jóel —
bjarta hjá björkum
*Benóni míns*,
hvarflar hún þar
um háar eikur,
ok bregðr blíðum
brosum til vor!
O sýn, ó sýn!
segir Elkanan,
inn mèr hvör þú ert?
indisligum
tók með tón undir
í tèðum runni:
einn sem boðskap ber —
Benóni kvað —
um sælu, sem er
í sannleik stærri,
ok meir upptendrar
ótalsinnum,
enn þèr ágezkið
eða vonið.

Hvörs raust heyrir ek?
hrópar Jóel,
ok hvörs er andlit
þat oss nálgast?
ó Guð Guðanna!
goði Benóni!
nú hnèg hann niðr,
en næsta skjótt
Benóni bróðurs
bjargandi armur
honum hèldt við
ok hann uppreisti.
Minn bróðir! megnri
midt í unun
hrópar þessi þá;
þarámóti
stamar hlýri hinn:
himneski bróðir!
Benóni blíðum
barnsrómi með
þarnæst sagði svo:
Samma minn faðir!
Hallaði hann sèr
at hans brjósti,
fallanda fjöri
fèkk viðhaldit,
at hinn aldraði
í svo geystri,
at ei tók tali,
tilfinníngu
eigi með öllu
útaf dæi;
At ei af slíkri
undrunarfullri
en tára-tómri
tendrun hugar
augu hans yrðu
óbifannlig,
ok dymm í djúpi
dauðans nætur.
Hèrnæst handleiðir
hann enn gamla
málstaðann með sèr
at mosa-bekk;
síðann segir hann
svo við Bóa:
leið loks Elkanan
líka til mín,
hann svo heyri nær
hvað ek tala!
Ek nú ánægðr —
Elkanan mælti —
ok glaðr geng
til grafar minnar;
því at þótt hafi
þik mín augu
eigi litit á,
ódauðlegi!
hafa þik þó heyrt
hlustir mínar;
ræð ok uppfræð oss,
útsendi Guðs!
Brátt mun betr fá,
Benóni mælti,
einn miklu meiri
mentat yðr;
svo brátt, sem yðr
sinnis stilli
gefst ok þèr getit
guðliga komu
borit ens bezta,
sem birtast mun!
Meðann hann mælti,
mundi Jóel
hafa honum nær
hægt sik færðann,
ok björtum blómstrum
bróður síns spor
yfirdreift áðr
af sèr kystum.
Getið þið-greindi
gegn ok horfði
Benóni blídt
á bróður Jóel,
ok þat með þýðum
þakklætis svip —
afhorit ykkr
opinberaðann
Símeon at sjá?
segið mèr þat!

Símeónis sál —
segir Elkanan —
ef hún umkríng mik
er á flögti;
æ! lát oss hana
auglýsa sik,
ó þú unnnar
eyrendsreki!
O! verið allir
öryggs hugar,
Samma, Jóel sveinn,
sem ok Bóa!
hamlið ei henni'
hèr at birtast!
eyru mín full-fús
fá nú þegar
hlakkandi hlustat,
hlýri, til þín.
Sæli Símeon,
Símeon, kom!
þik ei munu mín
mega líta
dauðlig, dymm augu,
dýrmæti bróðir!
enn þik innannskamms
ek mun þó sjá,
nær ens dymmra dals
dökkva gríma
lætr mik til ljóss
loks uppvakinn.
I sama svifi
Símeon kom,
megin-ljúfu með
mána skini,
gekk hann inn glæstr
glausa himins;
þó urðu þeir
af þessarar sjón
mjök fögru myndar
minnur skelfðir,
Enn tveir óvörum
atsvífandi,
af birtu bráðrar
Benónis komu,
er þeim eigi var
áðr boðuð;
en þeirra undrun
meiri varð.
Ypparligum út
engilsins háa
raust svo ræðandi
rann af vörum:
kær Jesús Kristr
er af kaldri gröf
aptr upprisinn,
einnig hafa
með honum margir
menn rèttlátir,
af bendíng einni
almættis hans,
öskug inni sín
yfirgefit!
Hann birtist berlå,
birtumst ok vèr,
en hann eigi sjá
utann vottar
þeir, sem hann sjálfr
með sinni köllun
kýs til að kenna,
kraptaverk gjöra,
ok líf sitt láta
líka sem hann!
Hvörra hæðstum
á himni bíða
enna frumfæddu
fagrar kórónur,
væn pálma-viðar
vegsemdar teikn,
ok á dóms degi
dýrðar trónar!
þó fyrr en fer
til Föðurs aptr
vor mildi-mesti
Meðalgángari;
fyrr enn með fögrum
fagnaðar-saung
ok háum hljómi
herbásúnu
hann til himins
af hauðri stígr,

fær hann sèð í senn
sanntrúaðra
fjölmennr flokkr,
fimmhundruð menn.
Jesús æðstr æ
yðr blessi,
ok nafni nefni
ena náð gæddu,
ydar egin-nöfn!
o, Guð! blessa
þá með þessari
þinni miskun!
Upprisinn ert þú —
Elkanan kvað —
Símeon sæli
fyri síðastann
allra daga dag
dómsins mikla?
æ! hvað eptir því
er mitt hjarta
þyrst ok þreyandi,
at þik fái sèð!
En ek síst sjálfann
mundi sjá Jesúm,
aldrei var áðr
ángruðu mínu
sjónleysit sinni
sárara böl;
en lát þik, ángur,
ekkert heyra!
Símeon sèr mik,
ok sömuleiðis
heyrðar hefir ek
hans viðræður,
því skal þessari
enni þakknæmu
hamíngju ok heilla
heilögu stund
ei nokkr niðra
neyðar klögun,
þar hann á henni
um Herrann Jesúm,
ok hans æðstu dýrð
uppfræðir mik!
Æ! fullur flokkr
fimmhundruð manna,
ok þat í einu
allirsamann!
mætta'k mik telja
meðal þeirra,
gleðja munda'k mik
mikit af því;
þeir mundu mæla
mèr upptendrun!
Hvört þú um himin
ok um háleita
hans duldu dóma
dirfist ræða,
seg mèr, Símeon!
svarar þá hinn:
ónei! ei við þá,
sem enn byggja
duptit dauðliga,
dirfumst ek þess!
Þannig sjálfr,
sem upphefr
af tröppu á tröppu,
tilskikkaði,
ok sem umbúnar
eptir reynslu;
sá er sèrhvörja
sundurgreindi
heima frá heimum,
en hefir þó
sèrhvað sameinat,
svo eitt væri!
Sá er í sínu
sjónarformi,
endalaust sem er,
til allra sælu
tegundir, tröppur,
ok takmörk öll
sörhvörrar sælu
hefir sameinat!
Þó er móti þèr,
þú ljósfagra
fyrirhyggju form
um farsæld anda!
sköpun, sem skynja
skilníngarvit,

ekki par utann
einber skuggi.
Eymdar grundvöll á
uppbyggir hann
frábærann fögnuð,
sem fá ei þekktann
enir sísælu,
synir lukku;
ok lærið af mèr
ennú þetta:
Ekkert er stærra
í eylífðunum,
ekkert þat sem er
ógrennslanligra,
ekkert minnur má
merkjast enn þat,
at ein af hæðum
upphafníngar
ennar mjök miklu
Messíæ sjálfs
stendr á stærstrar
stètt lægíngar!
þessi þúngskildi
þánki alvöru
færir yðr í
undrunar djúp;
látið ei um of
ákefðarsama
grundan hans gjöra
yðr geðsjúka!
englunum er hann
undur-furða!
þekkið þá sælu,
sem þegar hèr
Guð yðr gaf,
sem gjörst at fullu!
eigi við einir
erum staddir
hèr umkríng yðr;
önd María
ljúf ok ljómandi,
Lazars systur,
hèr er hjá oss
í helgum lundi;
faguar fljóð af því,
sem fagnið þèr!
Hrópuðu þeir þá
þegar allir:
liðin er nú ljúf
Lazarí systir?
ok fljóðit fagnar
okkar fögnuði! —
Samma brátt ok bert
bætti því við —
vèr ok fögnum, fljóð,
fögnuði þínum!
O hve þerrar þú
þá um síðir,
Faðir forlaga!
mín felldu tár,
með því mèr sendir
minn Benóni
ok sinn Elkanan
ástkærann bróður!
já, ok Jóel sinn —
Jóel sjálfr
barnsligri blíðu
bætti því við. —
Hvörsu hefir þú,
himna Drottinn,
endat eymd mína!
enn kvað Samma —
hve vilda'k voga
at vænta þessa,
þá mitt þúngsinni
þokufullt hófst,
sem er eymd yfir
eymd gjörvalla;
þá er ennú ek
af mèr vissa,
ok sá um kríng mik
einúngis nótt,
afgrunn, villuveg
völundar króka,
ekkert ókomit
nema ógn svarta!
Nú fór ek til fulls
frá mèr sjálfum,
ok varð vitstola,
svo viðr einn

blóðgann bana-stein
bur þik marði,
æ! at gráta geyst
gegnum mínar
allar ókomnar
æfistundir;
ek þenkti þannig
þartil í dag.
Ok nú allt þvílíkt
er umsíðir
útkljáð ok endat
með unun himins,
ok með endursjón
indælnstu,
sem nokkurt njóta
náði hèr líf!
Bur minn Benóni,
Benóni sonur!
til dauðs beinbrotinn
á blóðsteini!
hvörsu hefir þik
hárri náð gædt
hann, sem með helgri
hèrkomu þinni
svo mikla miskun
mèr lèt veitta!
Veit ek víst at þú
víkr burt aptr,
en við fráför
ok fjærvist þína
skal ei nokkr ske
skilnaðr okkar,
ek mun upphèðann
iðugliga
sjá þik, ó son minn!
svo fyri mèr,
sem þú stóðst þaðra
þinnar dýrðar
allri fegurð í,
erfíngi himins!
Naumast at nýa
nefna þurfi
endursjón, nær ek
ofar gröfum
sè þik í þinni
þar uppi dýrð.
Bónar bið ek þik,
bur minn, einnar,
fyrr enn þú frá mèr
fer burt hèðann:
bezti Benóni,
blessa þú mik!
ansar hinn úngi:
ek þik blessi?
sonur sinn föður?
ok sá hinn ýngri?
Nei — sagði Samma —
sá nú orðni
fyrsti mögur minn
ok mèr eldri!
aldinn af dögum
eylífðarinnar!
sem ein má segjast
sannarligt líf!
ei er utan svöfu
æfi þessi,
sem hinn síðasti
svöfn afvekr.
Ok nú upphóf
enn úngi hendur
fast saman felldar,
ok fegur skein,
allr gló-geislar,
greindi þannig:
fyrrenn lángt líðr,
ljúfr komi
svöfn þinn síðasti,
eins ok Símeons
dygðugs dauði kom,
dýri faðir!
sú var signíng hans
svolátandi.
Ek ok líka jafnt,
Jóel mælti,
beiddi þik bróðir
um blessun þína,
en mik slær uggr
at yfir mèr
lánglífis óskir
lesa munir.

Blómvaxni bróðir —
Benóni kvað —
þèr stendr stuggr
af stærri launum!
því framar sem fær
fjör ens góða
dáðríkt dygðamanns
djúpar rætur
hèr á hauðri;
því hærra vex
upphæðum í
hans eikar króna;
Ok því betr út
aldin-kvistir
blómfyllri breiða
blíða skugga;
skal ek nú einnig
eptir þessu
boða þèr blessun,
bróðir Jóel?
Jóel játandi
jafnsnart á knè
fèll með fögnuði
fyrir honum;
blíðr Benóni
bróðurliga
lagði honum hönd
á heitt enni:
Meðtak, minn bróðir!
megin-blessun
allri blessun af,
ok eylíft líf!
sá Guð, sem Jesúm
sjálfr uppvakti,
leiði þelþýðr
þik til Jesúm!
Brátt þeir burthvurfu
enum biðjanda
frá augum aptr
í einu svifi;
brátt — hrópar Bóa —
burtu horfnir
aptr, Elkanan,
eru þeir nú.
Jafnsnart Jóel
af jörð upprèttr
gleði málróm með
mjök lágum kvað:
ef þú hèr ennú
öud Maríu
dægilig dvelr,
dýrstu, mestu
þeim ok fjörfyllstu
færðu þakkir,
At þeir oss virðtu
opinberunar,
sem ok samræðu
sinnar um Guð,
ok hafa hermt oss
himneska blessun!
Jóel sagði svo
ok með sama hnèg
í fáng fagnandi
föður sínum.

---

Háum sat í sál
sælust kvenna,
meyan María,
móðir Kristí;
runninn ægir í
álfröðull var,
kom framm kvöldstjarna
á klárum himni;
hvíldist mæt hjá mær
musteris harpa.
Þókti henni þá,
sem þar sæi,
nær yfir læk leit,
lángferða konu
eigi gánga grund
heldr greiðfara
í lopti líða
lausa við jörð,
ok midt á meðann
verða mynd himins.
Svo í rann sannar
sik stór þánki;
þar stóð nú þegar
þessi fagra

mynd hjá Maríu
midt inní sal,
ok nú undrast hún
ekki framar;
hvört heldr einn
fra heli reistra
eðr ódáinn
engill væri;
hún hafði son sinn
sèð upprisinn!
Fljóð kvað framandi:
fyri þèr ek
dyl mik ei', dýra,
Drottins móðir!
því skyldak þèr
vilja þat gjöra?
brátt skín þú með mèr
fyri miklum trón!
Miríam! ek em
ok svo móðir!
Máske þess móðir,
sagði María,
sem færði fórn
með fullri hlýðni,
eðr hins sem hel
eigi hefir þekkt,
aldrei gröf flagst,
Enoks himneska?
Andsvarar Eva:
ek víst móðir
Abrahams er
ok Enoks líka!
ek er hún, sem ól
endurbætir
sakleysis sjálfann,
sem vèr mistum,
ek er ein móðir
allra manna!
María mælti:
mèr er gefit
þá at líta þik,
þú sem himins
ert hins opnaða
unaðsemd há;
ok nú er mèr sýnd
Abels móðir!
Þá ansar Eva:
oksvo Kains!
híngat yfir ek
er því komin,
at ek með þèr mög,
þann mann Drottinn,
með þèr, Maríam,
megi prísa;
nú vel! látum ljóð
lofgjörðar hans
heilagar hefja
hörpur okkar!
Ek með þèr? ek
með ódauðligri?
mælti María,
með þèr, sem ert
móðir alls mannskyns,
en ek mitt hefi
dauðligt dupt ennú
at dragast með!
En við umsýngjum
Endurlausnarann!
taktu upphaf á,
Eva, hróðri!
lær mik at lofa
enn lofsverðasta;
þann enn hæðst hafna
mèr heiðra kenn!
E. Ek var — tók hin til —
tvisvar sköpuð,
tvisar hefir hann
heimt mik til lífs,
hvörn þú mæðra mest
Miríam fæddir!
ó mikla móðir,
mögur er borinn,
sami sá er þik
ok sá mik skóp,
hann, sem himna gjört
hefir alla!
M. Sá er sól, mána,
sèrhvörja stjörnu,
allann himins her
hefir skapat;

sá er svo vel þik
sem mik gjörði;
ó, hann er af mèr,
Eva, fæddr!
Hefir þú heyrða
háa saungva
góðra Guðs engla,
sem gólu þeir
honum til heiðurs,
híngat þegar
hann á fold fæddist
meðal fènaðar?
E. Nær eð náði
hans nafn prísandi
saungva sigur-óp
til Síons aptr,
fyri þúngum þess
þrumu glaumi
titraði toppr
á trè lífsins,
drupu djúpt niðr
við dunur þess
fyri þeim fædda
flokkar himins.
M. Hann grèt hjá gripum,
sem gras bíta,
í búð Betlehems,
þá er barn fæddist;
áðrenn hann grèt
englar höfðu
al-endurbætirs
úthrópat nafn.
Jesús! höfðu heyrt
há trè cedrus,
ok jafnframt, Jesús!
jálmandi pálmar!
heyrði tvítekit
Tabor: Jesús!
æ! ok Golgata
heyrði glöggt: Jesús!
E. Gjörla heyrði greint
Guðs ens smurða
heiti himins trón,
af hvörjum stèg;
himins herskarar
heyrðu nefndann
gjörvallir gjarna
Guðs enn smurða!
M. En sástu, Eva,
þá hann andaðist?
E. Ek sá, at hann dó!
M. En hefir þú
líka svo litit
löðra af blóði
spotts ok kvalar krans
kríngum enni
Meðalgaungu manns?
móðir Abels!
E. Ek sá enni hans
umgyrdt kransi!
á andlit engla,
ek sá, skuggi
rökkur dymmu datt;
daprari þó
fölskvi fèll á svip
enna friðþægðu!
M. Hefir þú heyrða
hans dauða raust,
sem fèkk friðstillta
Föðursins reiði,
þessa, þá Kristr:
þat er fullkomnat!
hrópaði hátt,
ok hina síðan:
ek fel þèr, Faðir!
í faðm minn anda!
E. Æ! ek hefir orð
eylífs lífs heyrt;
heyrt, sem hásálma
hörpu slagara,
heyrt sem heiður-saung
helgra kóra,
svo sem þeir sýngi
við sjálfann trón
enum hátt hafna
hæðst lofkvæði;
þá er hann þetta:
þat er fullkomnat!
hrópaði, höfuð
hefjandi sitt;

í því hans augu
upp til himins
gáfu geisla sjón
guðdómliga:
Faðir! þèr fel ek
í faðm minn anda!
M. Ek, sem dauðlig er,
útstanda hlaut
þó svo þúngt böl,
at þvílíkt hefir
aldrei útstaðit
Abels móðir!
en lof Syni sè,
sem gaf líðun!
Því, æ, hvað unun
eykr mína
nú sú neyðar stund
náttligasta!
sjá, stund sturlunar
ok stórs ángurs,
já, sverðs í sálu
sárbeitta stund!
E. Eins sem þú, eigi
hefir ek liðit,
en þótt arfa minn
Abel sæi
felldan liggja á fold
fyrstann dauðra,
ok minn eginn Son,
enni hans marit!
Bistrar bölvunar
bráðgjört offur;
bylltann í blóði
minn bezta Son!
forgengu fold
ok fagr himin
öll mik umhverfis
augum mínum!
móður sálu svo
sjón skelfði líks!
M. O þú armur
hins almáttuga!
enginn utann þú
uppihèldt mèr,
góði Guðs armur!

þá er grátandi
útí ógnar nótt
upphrópaði
af dóms alltari
æðstr Sonur:
Guð minn, Guð minn!
hví gjörsamliga
er ek svo af þèr
yfirgefinn?
Ek heyrði hrópa
hann — kvað Eva —
Kristi kær móðir!
klögun þessa,
ok ek eigi þik
eptir þat sá,
er hinn offraði
hafði æpt þannig.
M. Heill þèr! mann mergð-
móðir allrar, |ar
at þú varst þá stödd
þar hjá krossi,
er hann í himin
hrópaði þenna
leyndar djúpa dóm
til Drottins Guðs!
Sæla segir ek
sannarliga
mik, sem er móðir
Messíæ Guðs!
sæl ert þú einnig
aðal móðir
hans, sem allra ert
endurleystra!
E. Ek er sæl! útaf
Adams beinum
Skapari mik minn
myndaða lèt
í prýði-plázi
Paradísar!
rotnuðu ryki
í rústum hennar
endurskóp mik af
sá er uppvekr;
heill mèr! at ek em
endurleystra

móðir, Miríam!
ok móðir þín!
M. O þú tvisar af
Eðen fædda;
í fyrstu fóstur
frumsköpunar,
hvörs fjör þó forgekk,
nú fegri dóttir
upprisunnar ert
til eylífs lífs!
Æ! hann er einnig,
Eva móðir!
sem frá eylífð er,
af þèr kominn,
þann ól í inni
auðvirðiligu
hjá dumba dyrum
dauðlig móðir.
Heyr móðir hennar,
sem hann fæddi!
himin eðlis er
indæl gleði,
sem í mestu mergð
yfir mik kemr;
merkja má dauðlig
Miríam þá,
hvörsu djúpt sem hún
harla opt þessa
í strauma steypist
ens sterka ljóss.
Eylífs merki með
mik blessa lífs!
sáttmáls er ek ein
eudurleystra;
eylífs lífs, Eva,
einkenni blessa,
tilkjörna af taka
tignar arf himins!
E. þú átt — kvað Eva —
eptir at deya,
en ek ódauðlig
er at vísu;
þó kann ek þat ei,
þik at blessa!
hefr höfundr
ens helga þik
sáttmála, sjá þú,
sjálfr blessat,
Sá allt fórnfærðr
fullkomnaði
dauðans offur dýrt
yfir dreyrugu
eittsinn altari
aftöku fjalls,
sjálfr signdi þar
sína móður
hann með hjálpræði
ok heill eylífri.
M. Fyrrenn framstreyma
mín fögur ljóð
hæðstum himins
fyrir hástóli
um hins elskanda
ágæta blessun,
mun ek hann eitt sinn
augum líta
hèr gömlum grundum
grafa-lands á.
Stóð ok skærum skein
skínandi dýrðar
Gabríel geislum,
gaf hann oss þá
þat fast fyrirheit,
at fá skyldum
kærstann Kristum
klárliga sèðann.
O! sýng hins aldna
Abrahams mèr,
þú ok mín móðir,
mikils Sonar
útaf upprisu;
þá eigi meir
höfuð hans
á háum krossi
sik í níða-nótt
niðrhneigði!
Ei meir augnaljós
útslökknaði,
ei meir andlit hans
yfirrigndi

blóð-dynjandi dögg,
dreyrugr krans,
þegar þrumugáng
þess ens mikla
úrskurðar æðstr
Alfaðir gekk!
E. Há reis ok ræddi
raust: verði ljós!
ljós varð undireins;
uppreis Jesús!
oss hnigu hörpur,
hnigu pálmar,
hátt vèr hrópuðum
hátíðar gleði!
ei er svo súngit
við sjálfann trón.
Svo er hljómr hafs,
sem vèr hrópuðum
Halelúja hátt
enum heilaga
Guðs milli ok manna
Meðalgángara;
en allt í einu varð
undrun ok þögn.
Himin ok hauður
hljóðlát urðu,
ok vèr einniginn;
uns blóðvottar
um síðir súngu
sigurhróss ljóð;
uns Adam ofan
til hins upprisna
kom ok kallaði
klárri röddu:
Þat sver ek við þik,
þú sem lifir
um eylífð alla!
at uppfrá þessu
er dapr dauði
eigi dauði meir,
ok at þeir á þann
þinnar miklu
furðu-fagra dag
fullkomunnar
allir, er sofa,
munu uppvakna!
M. Æ hans ununar
úthropun sú
sèr í gegnum geð
gjörvallt þrengir
hennar, sem hlutdeild
með honum tekr
ennar indælu
arfleifðar hans,
ok dreifir dýrum
dáða blómstrum
æðstrar uppskeru
á mína gröf.
Þú sáð, þèr sáði
sjálfr Drottinn;
þyt korna þinna
ek þegar heyri;
heyrir ek frá himni
hátt-látandi
köll enna kösku
kornskerenda.
E. Brátt til at blunda
ek bið þú leggir
þik þinn dauðadúr,
svo í dal friðar
ek þèr andaðri
ástúðliga
megi, Miríam,
móti taka.
M. Svo við sýngjum lof
Syni hæðstum
fagnaðarfullum
í friðardal,
þá er hann þaðra
þerruð lætr
hjá tignartróni
tár enna kristnu,
ok með náðarnægð
niðurþaggar
hvörja hljóðláta
hrygðar klögun.
Sá heims bar syndir,
sjá, er elska;
hann, sem Adams ok
á sik lagði,

ok upp Golgata
gekk, er elskan,
hann, sem elskan er,
eigi kenndr,
æ! óelskaðr,
útkjöri sik,
nær himna himnar
hvervetna þögðu,
ok sik til offurs
útgaf dauða.
E. Ojá! til offurs
fyrir allra synd,
þá englar þögðu
þeir enir helztu;
hátt gans helvíti
harðri áklögun,
ok dómur stál-stig
en straungu hóf.
Eva saung nú svo
ok sèr vendi;
lengi mundi mjök
María horfa
ástfullum augum
eptir henni,
hún í háleitum
himin glausa
þaðann til Tabors
tafarlaust sveif.
Heilagra' at hverfa
hóf til baka
flokkr nú á fjall
forklárunar,
at fá fèlags not
fagnaðar þess,
sem þeir með sinni
sjálfir gáfu
enum útkjörnu
opinberun.
Björtum brugðu þeir
frá borg Jórsala
í lopt upp lèttir
ljóma sínum;
fjöld var uppfyllt af
unun þeirri,
hvörja þeir hinum
höfðu gefit;
allmargir eins
af ókominni.
Hvöreð, enn hulin
í hjörtum þeim,
sem blíða báru
bróður-elsku,
tók nú fyrst at tjá
tærann vísir,
þrífast, þreyta kapp,
ok þannig vaxa,
at eitt skugga skjól
skyldi verða
loks yfir lúins
lángferða-manns
höfði, heitum á
hörmúnga vegi.
Eins sem ein stjarna
ok önnur brátt,
þarnæst enn þá ein
upp sik gefr
endalausum úr
ómælanligrar
ok skelk skjótandi
sköpunar hyl,
nær frá níðdymmri
nætur komu
rýmir, rekin burt
rökkur-skíma;
Samannsöfnuðust
svo á Tabor
allir Guðs enir
opinberuðu;
sumum síðfara
síst móti tók —
fáir fundust þeir —
fjallit helga.
Cidli, sú Jaírs
sem var dóttir,
laufguðum loptsals
fyri lundi sat,
midt um birtu mund
morgunroða;
hún sinn hjartkæraun
ei' hafði sèð,

Semiðam, síðann
sèr hann flýtti
í harðri hrygð
til hennar grafar.
O þú siðsöm ást
sakleysis full!
þik, mín ást þannig
þori ek nefna;
hvenær muntu mik
mæðu-hrellda
umsíðir eitt sinn
yfirgefa?
Hvenær brjóst-böl þat
burt frá mèr kalla,
sem umsnýr öllu
í ángurs myndir;
sem í sorgartár
sèrhvörjn því,
sem mik umkríng er,
ávallt breytir?
Heyrir ek hauðri
helzt lítit til,
at ek ali því
arfa dauðliga;
uppreis ek til þess,
at mik Guði
til handa helgi
með hætti þeim?
því dvelr þannig,
þú mín elska!
at sönnu sorgar-
þó sakleysis-full?
því dvelr þú svo
í þeli mínu,
ok lætr aldrei
af, nè hvílist?
þó ef þessi dvöl
þín mèr sýndi,
at ek ei til þess
upprisin sè,
Guði mínum mik
með því at helga;
æ! hvör er sá
mik útaf leiði
því dapra ok dymma
djúpi hrygðar?
hvör úr grafgatna
greidt fær villu?
Ek er að sönnu
uppreist til lífs,
en dauðlig er ek
ei' at síðr!
lifir ek ok líð
líkt sem aðrir,
já líð miklu meir
mönnum öðrum,
sem þó eigi svo
saklaust elska;
Væri ek at eins
ek dauðligri!
en helzt til áköf
fyrir ósk þessa
gjörðist þú ok geyst
grátklögun mín!
vil ek víst ekki
vera dauðligri!
Reisti svanni sik
at svo mæltu;
flýtti hún sèr fyrst
at fá þerrat
sárrar sorgar tár
sèr af kinnum;
undireins uppstèg
ókennd í sal
ein prúð páskahalds
pílagríms kona,
mundi með henni
móðir Ciðlis.
Pgr. Hvarflat hefir ek
harla víða
ok lengi leitat
at líta fengi
Jaíri jóð,
sem Jesús vakti,
ok nú fæ ek fyrst
fundit þik hèr.
Hefir þú heyrðann
hans enn mikla
sigurhróss sóma,
sem þik uppvakti?

heyrða hefir ek
hans, kvað Cidli,
sæla sigurdýrð,
sem mik til lífs,
er ek örend var,
endurheimti;
Ei' hefir ek þó
ennú litit,
nè viðrædt votta
vegsemdar hans;
mærin María
er at mold hnígin,
at lifi liðnu,
Lazari systir;
hann þú hægliga
hefir ok þekkt,
með því svo mjök
hefir mín leitat?
Ok ek veit eigi
hvört enn lifir
móðir ens mikla
Meðalgángara;
lifir hún — kvað hin —
ok hefir víst
þann enn upprisna
augum litit.
Hefir engill einn,
ansar Cidli,
þik mèr þartil sendt,
þú hin framandi!
at teit tíðindi
tjá skulir mèr
um dýrðar dásemd
Drottins Jesú,
ok mætrar móður
mikla gleði?
Ansar aptr
sú hin ókennda:
einnrar uppreistra
ek leitaði,
einnrar af þeim,
sem umvitnuðu
dásamliga dýrð
Drottins Jesú,
nær hann nú var enn
niðurlægðr.
Fèkkst þú ei formerkt
eða frètt, Cidli!
af völdum vottum
ok vitnis kvinnum
neitt enum nýu,
nú, þá drottnar
hann yfir heli
með hærri makt,
enn meðann menn þá,
Maríæ bróður,
frómann frá Naín
föðurleysing,
þá er hann þessa
ok þik uppvakti?
Flaug ekki fregn sú
fyri þik enn,
at mjök svo margir
manna helgra
af svefni sèu
sínum vaktir,
í því hann uppgaf
anda' á krossi,
ok at frómra fjöld
fái þá sèð,
er hann elskuðu
áðr fyrri?
Æ! ek elska hann —
ansar Cidli —
æ ek elska hann!
er þá líka,
ó fljóð framandi!
fregn þessi viss?
en hin ókennda
andsvaraði:
Ei mun líða lángt
at þat ljóst verði;
þat mæla margir,
at menn rèttlátir,
af gröfum gengnir,
gjöri sinn flokk
fullann á fjalli
forklárunar.
Er því áform mitt
uppá Tabor

at hefjast hèðann;
en heldr kýs
ek með einum,
sem er upprisinn,
fengnum förunaut,|
enn fylgðarlaus,
ein at sveima svo
í sveit rèttlátra
nú rètt nýliga
af ná uppvaktra.
Svaráði Cidli:
svanni ókenndi!
at vísn var ek
vakin af dauða,
en ek dauðlig er
enn nú sem þú;
enir upprisnu,
ef opinberast,
er hið fróma fólk
fullkomnaða.
Þó mun ek þángat
með þèr fara,
en með því móti
at þú mik leiðir,
ok vel viðhaldir
vamneguaðri;
nær okkr aðber
opinberanir.
Upp sik tóku til
Tabors gaungu
með Cidli móðir
ok mær ókennda;
en hinn úngi mann
útaf Nain,
sem var Semiða,
svo mikit hafði
getat götvat upp,
Guðs Son|.þína
endurvöknun um,
at sitt hjarta
fèkk hann nú friðstillt,
ok fundit ró;
Svo hann góðri greind
gat því trúat,
at þú af dauða
værir upprisinn!
hans nú at nýu
með næmri hrygð,
sem á brjóstit bar
benjar djúpar,
mundu vakna við
verkir ásta.
Ennú, sem áðr,
er fyrir hann
í sjálfs hans sinni
Cidli sköpuð;
helzt til harðliga
hann þess kendi!
innst í öndu hans
óvinnanligr
sá var sigrari,
sár tilfinníng.
Þú næsta níðdymm
nótt fyri mik!
ó hvör er sá mik
um þik leiði?
hvör mèr vísar veg
til vissu þeirrar,
hvört hún, sem hefi
hjartanliga
ek fyrir eylífð
útkjörit mèr,
mik, eðr eigi,
elski á móti?
Hvör fær mik færðann
fagnaðarins
ítrar hæðir á,
ellegar niðr
í hinn djúpa dal
döprustu hrygðar?
endurvakinn ek
er af dauða,
en þó ei orðinn
ódauðligr!
Ef þat værum við,
vissuliga
hefðum við hèðann
helzt fyrir laungu
fluzt á friðsemdar
foldir hinar,

elskendr ekkert
hvar aðskilr!
ek víst af Cidli
mundi' elskast þar!
O, Cidli! ó, mín
þú hin útkjörna,
er ek svo elska,
sem ærit fáir
meðal mannanna
megna at elska!
en, hrygð! þagna þú,
því at vísu
gjörumst af þèr ek
enn dauðligri;
neyðarliga næmt
nýstandi hrygð!
Hve furðu fáheyrð
eru forlög míu!
ýngismaðr einn,
æskufjöri
ok vænleik vafinn,
var ek ok dó,
ok kom aptr brátt
óljósra svæði
formerkínga frá
en þó fagnaðar.
Ek varð — hvað varð ek?
viðr mína
apturkomu ek
ætlaði mik
ódauðligann einn
orðinn vera,
en hve fljótt ok frekt
fann ek aptr
eins dauðligr ek
at enn væri;
Ok þará ofann,
hvað eigi var
áðr enn ek dó,
aumur næsta;
af því aumastr,
at hans speki,
sem lèzt, en lifir,
lífs míns uuun,
ek til hlítar ei
umhirðti svo;
At mèr sæði sè
til seinni tíma,
hvaraf eylíf ek
uppskeri not
loksins at liðnu
lífi þessu!
O, Drottinn dýr
af dauða risni!
fyrrenn til Föðurs
fer þú hèðann,
knýmik ok kalla,
at koma til þín,
at ek af þèr
hið eina betr
nema nái,
sem er nauðsýnligt!
Semiða svo
með samannlögðum
hryggr ok hljóðr
hönðum þenkti;
einmidt þá í því
þángat til hans
fetar framandi
ferðamaðr.
Þú getr gjarna
gjört þat ef villt —
mælti maðrinn —
mèr at hjálpa,
ó, þú úngi mann!
undir Tabor,
rètt við rætur þess,
rjóðraðr blóði,
ok lemstrum lostinn
liggr maðr,
mjök hafa meiddann
morðíngjar hann.
Ok líka á leið
sem liggr þángat,
sitr einn sjónlaus
ok sár-þyrstr,
engin er þar lind;
ei vissi hann
mèr neina að nefna
sem í nánd væri;

sjá hann þyrstir þar
ok þrátt hrópar
um hjálp, sem honum
er helzt synjat.
Veinar vanmegna
á vegi til hans,
hjá stórum steinum
stafkarl hnígiun,
eigi gat ek hann
út þaðann leidt,
nè honum næríng
nokkra gefit,
sjálfr þrótt-þrotinn
ok þurfandi.
Semiða svarar
segg með flýti:
hress þik á þessu,
en þeim til handa
tak þetta, ok þetta,
þá ber ek hitt;
fóru þeir fljótt
ok fundu hinn gamla.
Semiða segir
samfylgjanda:
far þú nú fyrir,
fær enum blinda!
ok við hinn aldna:
et, minn faðir!
þarmeð af þessum
þèr nýa tak
vínberja-vökva
viðhressíngu!
Hann að því hermdu
hraðaði sèr:
ok komst frammfyrir
hinn framanda,
svo fyrri fundit
fèkk enn blinda,
þeim at eins með il
ornaði sól;
Til þín, tjáir hann,
tak nú þessa
hressíngu, hratt
ek hèr kem aptr;
þá muntu mèr
til meginn borgar
Salems samfara
sjálfr verða.
Framm lengra fór hann
ok flýtti sèr;
röðull tók nú til,
síðann tráðu þeir
braut Salems borgar
burt frá porti,
hið fyrsta fjöll
at færast yfir.
Fljót varð ferð þeirra
framskundenda,
lètt einsok loptblær
á ljúfum morgni;
nú sem þeir náðu
í nánd við Tabor,
Semiða Cidli
sá meðal hinna
framandi fylgðar
fljóðs ok móður.
Fagnaðarfelmtr
fèll yfir hann,
en hann sik hinum
hèldt við síðu
fylgðarmanni fast
enum framanda;
komu þeir nú þar,
sem hinn þriðji lá
bleikr í blóði,
sem bana næstr;
Bundu þeir sem bezt
um benjar hans,
með aluð mestu,
á mosa dýnu
svala, svasliga
svo til hægðar
næsta nákvæmir
niðr lögðu.
Þá er lèt nú loks
litit umkríng
Semiða, sá hann
Cidli koma,
þó fjærri' á fjalli,
færðist hún nær;

ok sem hún sá þat,
sína gaungu
stöðvaði strax
ok stóð með felmtri.
En þá hún þekkti
at þessir menn
hal, sem benjar bar,
bjargat höfðu,
þorði fljóðit ferð
framm at halda;
sèr ei Semiða
seinka mundi;
skundar skjálfandi
með skjótri rás
hann, sem mest mátti,
móti Cidli.
En nú svo nærri
nam þau bæði,
svo orðlaus urðu,
ángr ok gleði;
fljóðit framanda
fylgjendur bað,
at þar eigi dvöl
ættu lánga;
þvíat þeim ella
þarhjá fjalli
mundi miðdegis
mæta ljómi.
Semiða sagði:
svo skil ek þá
enn við þik aptr,
ó mín Cidli!
ok þat upphèðann
æfinnliga!
fljóð grèt, ok fylgdi
enni framandi.
Samt var Semiða
enum særða hjá
með fyrr fylgjanda
förunaut sínum,
ok hann með hjúkrun
hraustara gjörði;
sem þeir milli sín
samannræddu,
hvört þeir helzt skyldu
hann flytja burt,
þar til tals þeirra
tveir menn komu.
Þeir ens þjakaða,
sem þar nú lá
undir blóðbenjum,
bræður voru,
þar skyldu þessir
með þakklæti
fimm, ok hugarhægð
hvör við annann.
Ef þú mèr afframm
yfir Tabor
fylgir fèlagi —
kvað enn framandi —
önnur liggr leið
lángtum skemri
þeim vegi þángat,
er þær völðu.
Svo við undireins,
ok upp sik hefja
þær á Tabors topp,
til þeirra komum;
með því enn minni
við hinn meira veg
loks á leiðinni
liggr samann.
Semiða svarar
ok segir: já,
fyrst ek fer með þèr
sem förunautr,
en þú meðr mèr
munt til baka;
ónei, ansar hinn,
eigi með þèr
frá þessu fjalli
fer ek aptr.
Hvar er, hèðann lángt
heimili þat —
segir Semiða —
sem þín væntir?
á fullfarsælu —
kvað enn framandi —
heimili, hvar ek
hvervetna bý,

vænta mín vinir,
vígðir himni.
Þú ert þá ekki
fyri þess sakir —
sagði Semiða —
sárvolaðr,
at þitt almargir
ærukærir
gjöra glaðvært líf
góðir vinir;
herm mèr, hvör eru
heiti þeirra?
Herma þèr — kvað hinn —
heiti þeirra?
þik mundi maðr
yfir megn furða,
at þeir eru svo
yfrit margir.
Semiða svarar:
svo margir vinir!
þat mik frekt furðar,
framtel þó nöfn!
Fagnaðarfullur
sá hinn framandi
horfði þá á hann
ok hóf at nefna;
Davíð fyrst ok fremst,
föður Abraham,
Nóa, mæta-mann
Melkisedek,
Jsak, Jakob, Jób,
Jósep, Rahel,
dygðaríka drós,
ok Debóru!
Sveif á Semiðam
sèrlig furða;
starir hann á hinn,
er hermdi slíkt,
en þó undrast hann
öllu meira
sýn þá, sem honum
samstundis gafst.
Varð í vetfángi
hins vegfaranda
andlit yfirklædt
indælum roða,
sem fylgði fegurð
í fyrstu, þó
aptur-eldíngar
at eins bjarmi;
jafnsnart Jónatan
þat um jörð hrærðist
sýndist sem heldr
svifi enn gengi.
Æ því meir sem óx
uppbirtíng hans,
fèkk því fölara,
fagnaðar vegna,
Semiða svip,
ok sakir otta;
en hann styrkti strax
styðjandi vinur,
ok lengra leiddann
lèt, þó skylfi.
Gladt, allt í einu
þat hið ókennda
fylgðarvíf stóð við
á vegi hinum,
segjandi svo
við Cidlis móður,
sem fylgði fljóði:
far ei lengra!
Ein hin uppvakta
Endurlausnarans
sèr enar æðri
opinberanir!
í því varð hún öll
ummynduð skær;
víf, skil við okkr,
vend til baka!
mælti við möður
mær ok hana,
er nú hnèg niðr
ok nákvæm studdi.
Móðirin mælti:
við mína Cidli
ek skuli skilja!
skeð hefr síst
fyrr, at ek fljóðit
frá mèr lèti!

hverf til baka hratt,
himueska dóttir!
ok sèg mèr aumri
allt hvað þú sást!
gefi Guð blessun
til góðra heilla,
þèr af því öllu,
sem þar birtist!
Hverf ofan hèðann
heim til Salem!
mælti Meggido
við *móður* Cidlis,
þvíat þú eigi
þessa svo brátt
mjök sælu Cidli
sjá munt aptr!
Leiði, móðir mín!
mælti Cidli,
þik æ, móðir mín,
mildr Drottinn!
veglig vinkona
vor frá himni!
lát móður mína
mik innannskamms
aptr umfaðma
elskuliga!
þar skildu þær
við þá hina aumu,
er þeim mjök ángruð
eptirhorfði.
Þá er þær stigu
þar uppá hæð,
ok Cidli sakir
sèrligrar furðu
naumast neins spurði,
nær, þó fjærri,
sáu þær hvar sæll
Semiða kom,
cedrus skógar skjótt
í skugga af eikum,
ljúfum lángferða
leiðtoga með,
sem nú ok sínum
sást í glansa.
Semiða sá þær
í sama máta;
mjök brá við báðum,
er bana höfðu
eigi reynt, en nú
ýmist stóðu,
hvörfluðu hvikult
eða hvíldu sik.
Þeim á hvörja hlið
hófu at sveima
mjök fagrar myndir
mikils ljóma,
með blíðu brosi
móti báðum þeim,
ó hve skært skinu
í skörum þessum,
þó ei' þekktir enn,
þau umhverfis
sá enn sjónlausi,
sá hinn gamli,
ok sá hinn særði
með sínum bræðrum!
Ætíð óx tala
uppheims búa;
ætíð urðu þeir
enn skærari;
hvör nafni náir
at nefna þær
allar unnar
upptendranir,
sem á þau svifu
þá í senn bæði!
Hvörnig þau hèldu
höndum at sèr,
augum með undrun
umkríng vendu,
ok til jarðar ótt
aptr brugðu;
fýstust at frètta,
en færi máls
mistu midt í spurn
mjök titrandi!
Hve þau umkríngð af
ódauðligra,
nú svo nálægra,
nægtum geisla,

hve þau nú þegar
af þægu skini,
ok af blíðum blæ
blessunar máls
allstaðar umkríngð
urðu bæði
full af felmtri
af fögnuði!
Nú hvört öðru nær
námu þau staðar;
þá hvurfu þánkar
þeirra beggja,
ok þau bæði brátt,
sem í bendíngu,
en fullfarsælu
forkláruðust.
Þá svifu þau framm,
ok þegar strax
fèllu fagnandi
í faðm hvört öðru,
æ! þá fyrst þaðra,
en þessum eigi
aðskilnaðar í
aumum hreysum.
O þú endursjón
elskendanna,
ef hjá þess eina
hvílir annars dupt,
þá er þó jafnvel
þín tilhugsun
draumr einn at eins
um þann fögnuð,
sem þeim Cidli
ok Semiðæ nú
gafst, svo glaðari
grètu tárum.

---

Hèr hefr

## sextándu bók Messías.

Eigi nokkr einn,
eylífann Son
þann enn dýrðliga
Drottins, þekkir,
sem þess ennú er
óvitandi,
at lèt af honum
ok fyrir hann
Faðirinn frammkvæmt
fyrst at skapa;
Ok at hann einn sè
allra skaptra
herskara Herra,
hvörra tölu
honum einum er
unnt at vita,
þeir er vegna vits
ok vals gáfu
fá móti farsæld
fullvel tekit;
At hann yfir þeim
ávallt drottni,
uns útaf öllum
ótal heima
vöndu völundar
villu-krókum
koma loks leiðir
lifanda Guðs
allar at einu
aðalmiði,
allar at einni
allsherjar sælu;
Hefði hann eigi
hrópat á krossi,
þá er fórnfærðlst:
þat er fullkomnat!

ó! þá gæfist ei
ótöluligum
skínandi skörum
enna sköpuðu
at hrópa um himin,
at hans algjörðu
farsæld fenginni:
þat er fullkomnat!
En undireins ok
ályktaði
hann af skapa heim
fyrir heims aldir,
af honum einnig
ályktat var
þat í frá eylífð,
at hann dæi!
Jesús Kristr jafnt
Jehóvæ Sonur
eylífs Föðurs ok
afkvæmi manns,
getinn ok fæddr
Guð ok maðr,
á fjalls hæð aptr
uppstèg sömu,
sem hans, uns settist
sínum Föður
til hægri handar,
hásæti var.
Sjá hans hásæti
hèr á jörðu,
er þó alheimum
yfirdrottnar,
trón þessi, Tabor
titrandi skein
undir almáttkum
ásitjanda.
Enir upprisnu
allir stóðu
kríngum Kristum
ok Kerubim Guðs
í fullum flokkum
fjær enn hinir;
háleitir hríngar
móti himinsins
allrahelgasta
opnir voru.
En sjálfr innann
í þeim miðjum
Kristr stóð ok stein
studdi sik við,
sem var hjá honum
hulinn mosa;
lá hann ei lengr
undir líðunum.
Fölt varð feðranna
fyrir honum
einnig engla skin
eins ok rökkur,
ok sjálfs Elóæ,
þeir er útjusu
miklu ljóss megni,
morgunroðar,
sýndust sem túnglskin
um sumarsnótt.
En svo opt sem hann
sjónum renndi,
tók sæt tilfinníng
sinna takmarka
einn ok sèrhvörn inn
endaunligra;
svo stóð sèrhvör
á sinni tröppu
gjarna glaðr,
sem í gjörvallra
skaptra skara röð
var skipt af honum;
fann sik fyrir hann
fullsælann hvör.
Kenndi Kerub
í Krists andliti,
er hann veik því við,
vísbendíngu;
brá hann sèr á braut,
brátt kom aptr,
ok flutti í flokki
fjöld af sálum
liðinna líka,
er látist höfðu,
síðann gekk af gröf
Guðs Sonur út.

Ok hvör nú örend
undir jörðu
grátnir grafendr
gjörðu hylja,
eðr á þeirra
ösku krúsir
settu samann krans
cýprus-greina.
Glansa græn blómstur
á gröfum sumra,
þar dreifð nú þegar
af þeirra vinum,
þó er ok þá strax
af þroska frjór
dómur ens dauða
und' dysjar blóma.
Flutti til Tabor
tèðr engill,
sem Kristr sendi,
sálir þessar;
komu þángat þær,
eins ok þrumu regn
hrynr af himni
hèr með glampa
í sunnu síum,
en sorta meira,
þar sem þat hrúgar
þykkri skýum;
Eðr einsok nær
í önd hárri
ok fjörelds-fullri
fángbrögð samann
skæðir skapsmunir
ok skynsemd þreyta,
hamast um hana
her af þaunkum;
Sumir sannir,
en sumir falskir
eru þánkar þeir,
en þessir seinni
undir sannleiks svip
svikulir mjök
af töfra táli
tillhnegínga
í þann yfirlit
ummyndaðir.
Nú voru nærri
nefndar sálir
fluttar framm
at fyrsta dómi;
svifu þá þegar
þær fyri Krist,
ok furðu feikn,
er svo fljótliga
fèll á þær allar,
úthrópuðu.
Gall frá þeim glaumur
gleði ok hræðslu,
sem þær sáu Guð
sjálfann í mið,
ok hann umhverfis
aðra Guði.
Hvörjar — hár mælti
heima Drottinn —
eruð þèr andir?
ansaði brátt
hljóða klidr hás
harla blandinn,
hermandi, hvörjar
helzt þær væru,
ok þarmeð úrskurð
yfir þeim sjálfum
stefnliga stilltann
en stolltann meir.
En í þess ásýnd,
sem allramesta
gaf frá sèr geisla
meðal Guðanna,
fengu þeir fljótt sèð,
at fyrir honum
í felur færu
forgefins þeir.
Nú skildu nokkrir
neðri Guða
frá flokknum sálir,
ok færðu þær
enn þá nær enum
æðsta Guða,
Domarinn dæmdi;
dvalarlaus orð

ok bendíng bráðarí
gáfu boð englum;
  Englar vitunðu,
uppluku skrift
loganda leturs,
luktu bækur
ótt samann aptr,
útdreifandi
at eins all-litlu
óttaligs glansa.
  Ræddu sálir senn,
svifu þöglar;
orðfár úrskurðr
Aldæmirs var,
laust eins ok eldíng,
ok sem dags ljómi
umskein með unun
áðr blindann.
  Eðr boðs bendíng
braut þá englum
sýndi, sem sèrhvör
af sálum þeim
upp eðr ofann
ætti at gánga.
  Eru til afgrunns
allmargir vegir,
einnig allmargir
upp til himins,
aldir vara við
vegir sumir,
aðrir eru leið
at eins stunda.
  Þarna gjöra þat
þeir, sem búa
öðrum heimum í,
augljóst sálum,
en hèrna hinar
hjá sèr verða
látnar til lykta
leita sjálfar:
hví þær hefjast
at hástóli Guðs,
hví þær afgrunn í
ofannsteypast.
  Nú mundu margar
meðal þeirra
sálna, sem voru
svo fluttar nær,
Tabors djúpt í dupt
drepa sèr niðr,
ok hátt svo hrópa:
heyr Juppiter,
þú, ó þrumu-Guð,
þirm oss sekum!
  Tak oss til náðar
Tien! Brama!
Alfaðir! æ, vèr
aðhöfðumst rángt,
sjá vèr syndguðum,
vèr sárvilltumst,
ó Zevs, Krónion!
kóngr Guða,
virðst oss at vera
vægðarsamr!
  En sínum engli
Endurlausnarinn
birti nú boð þau,
sem beið hann eptir:
  Sá frá Evfrat er
uppstígandi
í frá Líbanons
yztu stjörnu
allt at sjöundu
cedrus eik lunds;
syndgat hefir hann
harla mikit,
en sterk var lokkun
ok stórlynd hans sál;
nær hann Fialæ
nálgast geisla,
skal sá, er sitr
sömu stjörnu,
honum herma nafn
Heimslausnara!
  Þessa frá Ganges
var þúnglynd sál,
ok helzt til hugdeig;
hann brast vissu,
viðr Hermons hæð
hann uppstígr;

Dómsherrann honum
hvörgi nefnið
ok fólks Friðþægir
fyrrenn hinum;
skal þetta ske
við skin Engeddi.
Hví beygir þú þik
þannig í dupt?
meir enn mannseðli
mundi gegna,
var stóru stolti
stælltur þessi;
færið hann hiklaust
til helvítis,
áðr ek uppstíg
á Oliveti!
reiðst ei, Juppiter!
reiðst eigi svo!
hann strax datt í dá
deyfu sleginn.

---

Nema vèlum veidt
vin þinn hefðir,
þú ei til afgrunns
ofannfærðist!
auðfræddr engill
ótt á tveggja
bendínga bili
burtflutti sál.

---

Gefið pálma-grein
enum geðfróma,
svo brátt sem ber hann
at Betlehems lind!
umbun Alföðurs
á þú treystir!
mjök er Guð meiri
enn meintir vera
í þánka þínum,
þú enn frómi!

---

Stóð hann eigi upp
til at aflífa,
ok svo dreyrug dráp
dreyma skyldi,
lagði sik til svefns
í sæng niðr?
bráð var bjóðaudans
bendíng augna,
bráðar sá blóðvarg
á burt flutti.

---

Þeim leyniliga
lastmæla dólg
steypið strax englar
í straffseld neðsta,
svo hvörein helvízk
höggorms túnga
blýstri beint honum
bríxli í nasir!

---

Kom ofann kaskr
Kerub nokkr
harla hvatfara
af hvíldarstað Guðs,
ok sem á svifi
sveifluðust lokkar,
glóuðu glóðum
glíkir vángar,
fèll hann fljótt niðr
fyrir heima
jöfri til jarðar
Jesú Kristó:
Stjarna sú, stóri
Stýrir friðar!
hvörrar ek hefi
á hendi geymslu,
óðum upphefr
umbreytíngar
sinnar sèrligrar
sik at merki.
Hefir heima-lið
hárrar stjörnu
fasta tilfinníng
fyrírboða,
um hennar framnflug
til fyrsta ljóss;
en þeir nú þegar
þola varla

sterkann þorsta þann
sem þeir hafa
at fá drykk ausit
af þeim straumi.
Er at sönnu sú
söm tilfinníng,
sem þeir svo hafa
enna sælu Guðs,
þó er þat velgjörð
þinnar náðar,
at þú enn fyrri
uppflytjir þá!
Getsemanes grund
ef gefist mèr
hendi viðhræra
ok hennar pálma,
þá skjálfa skekktir
mínir skeið-ásar,
sterkir steypast fyrr
stólpar djúpa,
ok með þeim Paradís
minnar stjörnu.
Getsemanes grund
gjör þú, Kerub,
hendi viðhrærða
ok hennar pálma!
undireins skundar
engill þángat
hans til at hræra
háa stjörnu,
svo hún fengi fyrr
fullann enda.

---

Klár móti Kermat
kom hans engill,
blíðri brjóst-elsku
brosti til hans:
mjök fyri menn þá,
sem þú meðlifðir,
ótegundar öld,
ofhár þú varst,
góðgjarni Kermat
ok göfuglyndi!
Þat var þessvegna
at þeir svo dæmdu
öfugt um þik
með illu hatri;
þau tár þerra nú,
sem af þessari
órèttar ömun
einmana grèzt,
með hugar hrellíng
harla sárri.
Komdu nú með mèr
móti at taka
launum þeim, sem þín
þèr til handa
ávann geðgæðska
ok gott þollyndi;
lít upp! (sýndi svo
sagða stjörnu)
þar er þèr ætlat
á at standa
fagrar fullsælu
fyrstu tröppu!
En þú uppstígr
eylífliga
af tröppu á tröppu
til ens hærra,
frá bjartleik framm
til ens fegra ljóss,
ok frá fögnuði
í fullt indæli!
þeir at svo sögðu
svifu þegar
hvör með öðrum upp,
uns þeir lèttu
för á ens fróma
fyrstu tröppu.

---

Einn var andaðr
Indía kónga,
sveimaði sál hans
enum síðasta
ei' enn afvikin
andláts svefni,
seint ok síðfara,
sem henni fannst,
geysi-mikil gaung,
sem hún gat eigi

ásèð enda neinn
umreykandi.
Hinn dauði vaknar
af dvala þessum,
síst af sjálfs þótta
yfir sinni makt
heldr af hennar
hruni fánginn,
nú við sjálfann sik
svo mælir hann:
Hvað er orðit af
öndum þræla,
hvörra beru bein
af brunnu moldar
dupti, deigrar
ok dampafullrar,
lifendur lètu
lesin samann,
grètu þeir af því,
at þeirra bein
enginn umhirðti
upp at tína?
Hvar þær halda sik?
ok hví ekki
koma hèr á kreik
til at kunngjöra
dauðum dróttsetum,
at Drottinn þeirra
nú at ná orðinu
nærstaddr sè?
Hèrnæst honum
útaf hvelfíngum
rökkurs-rángala
reykat verðr,
framm í frjálsa vídd
fegra himins;
gat hann at líta
gagnvart standa
ódauðligann einn
yfir frá sèr,
hægri hendi sá
til hans bendti,
sem boð birtandi,
at bíða skyldi.
Horfir hinn úngi
himin-búi
ofannyfir hann
undrunarfullann,
brá til hans brosi
byrjuðu at eins;
við dauðann döglíng
dýrðlíngr mælti:
Fylg þú álengðar
eptir þeirri
birtu, sem breiða
at baki mínu
sik út sjá muntu!
sjóli dauðr
hlaut fljótt at fylgja,
fór hann af stað.
Strax var hann ataddr
meðal stórs skara,
þar sem þèttust var
þyrpíng sálna,
samannsafnaðra
fyri Syni Guðs;
við sama vetfáng
var hann dæmdr.

---

Hèr finn ek frelsun,
finn hana víst,
af því ek sè hèr
eina Guði;
ok þèr eylífu,
eruð jafnann
regin rèttvís
í raun ok veru!
Ei' þat eru menn
heldr óvinir
fullir fjandskapar,
er frómt sakleysi
ætíð ofsækja
ok eru blindir;
rètta ráðvendni
rángt dæma þeir,
þekkjast þann ekki,
sem þeim er betri;
eins þessa andi,
sem var örendr,

hrópaði hèr sagt,
ok hreppti laun.

---

Lá á banabeð
burtför nærri
Gelimar gæddr
gildum þroska,
efniligr einn
ýngismaðr,
midt í megin-fjörs
morgun-roða.
Við sæng ens veika
vinur hans stóð,
brjóst hans, sem brann
af bitrum þorsta,
svo kæla kynni
útaf klárri lind;
gegndi Gelimar
góðvin sínum:
Æ! at eylífu,
(hvað annat þú
meinar, minn vin,
at muni verða?)
um eylífð er þat
at við skiljum,
heimtar svo hlutfull
hvörs fyri sik
bjarkar sem blómsturs
á banadægri;
Hèr eins ýngismanns,
sem elskar þú,
ok nú undann þèr
er at deya,
eins þitt ok allra,
sem með audanum
dapranu dauðligleik
draga um nasir.
Allt er úti þá,
allt er horfit,
nær visnir verðum
vèr ok deyum;
ekkert er eptir,
allt í burt,
einsok ef hefði
aldrei verit.
Heyr þú, hinn úngi!
hvað vill þetta
tárafullt tillit
tala um huggun?
þú hyggst ei, held ek,
at hugga mik?
hvað skal mèr huggun,
sem hlýt at deya?
gleð huggun geð þitt,
svo getir lifat!
Ek þat óttaðist
ærit lengi,
en ek þenkti þó
þarum sjaldann
á árum æsku
meðann allt var kátt
æ, nú er loksins
at því komit,
ek hlýt at hvarfla
hèðann burtu,
eitthvað í burtu!
ofanní gröf?
Ek hvarfla hvörgi,
því ek hverf allr
ok verð at aungvu
eins ok reykur!
þá muntu þessum
þaðann í frá
líkama lengr,
sem liggr fúinn,
víst eigi vilja
gefa vinar nafn
eins, sem þú áðr
elskat hafðir!
Aðr þirmda'k þrátt
þínum tárum,
nú þat, at þirma
þekkir ek eigi,
já, tárum þínum
jafnvel ei meir!
grimmum jarn-greipum
grípr dauði,
svo verðr sjálf járn
sál þess er deyr.

Æ! hvað er öllu
ógnarligri
þrumu-þánki sá
þrautadymmi:
hèðann hlífðarlaust
hlýt ek deya,
verða rofin rúst
ok rotua' í fis!
Heyr, merk ok hugleið,
haf í minni
varðveitt orð, vinur,
viðskiljanda,
einsok hirðir helzt
hermaðr skjöld!
æ! þótt ek deyi
ok undirgángi,
þarum átel ek
eigi Guði;
vèr aumir erum,
fyrir ódauðleik
allt ofaumir
ok auðvirðiligir!
Hlaup nú sem hraðast
ok handa mèr
úttæm allann foss
uppsprettunnar,
at ek mèr eittsinn
ennú svali,
eðr ef þat mèr
aflar dauða,
at ek andist þá
öldúngis strax.
Ok hans ástvinar
eptir boði
fljótt var honum færð
full skál dauða;
fljótt varð hann fölur,
fèll í svima,
titraði, teigðist,
tafarlaust dó.
Sál laus við líkham
leið í dvala,
fèkk eptir fjörbrot
fljúganda svöfn;
æ, hún skaut sèr upp!
ok nú þegar
streymdi reiðar raust
rammrar furðu;
samstundis sætrar
silfur-hljómr
flaut ok fagnandi
forundrunar:
O Guðir allir
ódauðligu!
mun þat möguligt?
manna ok sunnu
göfugu Guðir!
getr þat skeð,
at ek enn lifi,
sem var andaðr?
Lifir enn liðni?
lifandi Guðir
hauðurs ok himins
ok hvörrar stjörnu!
æ! ek er enn til!
ei' er þetta
hel-líðanda holds
hinnsti draumr!
ónei! ek er til!
enginn þessi
líkami lengr
líkami sá
er, sem uppvisnar
eins ok blómstur.
Heyrið heilögu,
heilögu Guðir!
þèr tívar sólar,
túngls ok stjarna,
sem æ meir ok meir
fyri mèr skínið,
enn þótt álengðar,
hvað eruð þèr?
hvar fæ yðr ek
uppleitaða?
Hvörn steypir ek mèr
á stað niðr?
hvar get ek með grát
goldit þakkir,
at ek enn er til
ok ætíð verð?

ó þèr alvöldu
eylífu Guðir!
Hvar minn hjartkæri
harmar vinur?
oflángt uppfloginn
er ek frá jörð!
hvar ens sorg-særða
sýtir hjarta,
at geyst til grunna
gánga muni,
eins ok sá áðr,
sem hann elskaði?
Gánga til grunna?
þú góði ok trúi!
hví eigi með mèr
minn vinur dó?
tortíníng meinar,
þú hinn trúfasti?
ó hinir háu,
heilögu Guðir,
er dæma dróttum
dauða sem líf,
enir eylífu
annat meina.
Mun ek mik niðr
mega gefa,
ok lundar leita,
hvar líki mínu
gjörir hann nú gröf,
svo geti ek honum
með drjúgum drykk
til dauða svalat,
ok hann eins ok mik
til ódauðleiks fært?
Nú sá hann svífa
sèr líkar vernr,
til Tabor niðr
er tóku stefnu;
enn sá hann aðrar
ei' líkar sèr,
virðtust honum víst
vera Guðir.
Hann veik sèr við
á veg til þeirra,
fèll framm ok til-bað
fljótt hrópandi:
ek er til! yðr
inni' ek þakkir;
yðr tilbið ek,
elska ok dýrka,
eylífu Guðir!
því ek er til!
Engill ansar:
vèr erum skaptir!
gengdi Gelimar:
greinið mèr þá,
eruð þèr, sem ek,
einnig dánir?
ok, sem ek, lifið
eptir dauða?
einn at eins er Guð —
engillinn kvað —
er oss skóp, enn þótt
ódauðliga.
Fylg oss nú eptir!
innann stundar
gefr þekkíng þèr
þessi sem skóp
sólir, Serafím,
ok sálir manna.
Hann kom framm fyrir
enn Friðþægjanda;
gól ok galdt honum
gleði-saung fyrsta;
ok fylgdi fús
þeim er flutti hann
uppá þá tröppu,
sem hinn eylífi
honum tilhanda
hafði kjörit.

---

Runnu röðlar upp
röðlar undir,
enn stóð dýr dómr
Drottins Jesú,
samannsöfnuðust
sálir þángat,
rètt sem regn-skúrir,
sem renna á vixl,

úr skýum ofann
ýmist þykkvar
dettandi með dyn
eða dropum smám;
  þornuðu ok þrutu
á þurrum svæðum,
eðr flutu framm
fagrar hæðir
lífligar lindir
með lit silfurs.
  Himneskra hrygð
eðr há unun
uppstígnum öndum
ætíð fylgdi,
eðr ofannsökk
annars kostar,
sköpum skiptandi
skál í metum.

---

  Hverfulir hafa
hundrað mánar
hvör eptir annann
umframm gengit,
síðann með sálar
saung ek þetta
inniligum il
upptendraðrar.
  Um mik skein þá ok
alla vegu
full fögur von
til míns Frelsara,
at ek mitt áform
fyrir aðstoð hans
til lykta leiða
loksins mundi;
þó dró sík döpur
dymma nokkr
um hríð á hýrann
himins geisla;
  þá hvurfu þánkar,
nema þessi mèr,
at tjá í öllu
undirgefni;
þeir komu ok þirmdu
þá mèr eigi,
heldr hel ok líf
hátt umræddu;
sumir þögðu þeir,
þó um dauða
mælandi á meðann
miklu hærra.
  Skelfíng ok bilbug
bannaði ek mèr,
reisti þrótt ok þor
þeim á móti;
leið þat ei', lifði
ok loksins endti;
en í dag Drottni
sè dýrð ok lof!
þeim, sem veitir vernd
ok viðheldr,
tjáist tilbeiðsla,
tign ok þakkir!
  Hún, sem eptir oss
ok á gángi
ens dapra dauða
gjörir dvöl nokkra,
er hin frábæra
fagnaðar makt,
en nær hún orkar
ekki lengr,
höldum vèr hèðann
til vors heimkynnis.
  O, not næsta djúp!
nær ek líka,
einhvör il-minnstr
allra þeirra,
sem þrá þekkíng
um þánka ok kjör
meðal mannanna,
mun þar uppi
á stað stóra dóms
standa ok skoða:
  Hvörnig at handann
í heilum skörum
sálir sofnaðra
með sèrhvörri
tímans bendíngu
til vor koma,

sem efa, afneita,
ok eru kristnir.
Vinur, sem vegna
vinar um skammt
hafði heilögum
hellt út tárum;
ástkær ekta sál,
ekkja lengi,
ok laungum orðlaus
útaf harmi;
þessir koma þar
í þykkvum mjök
fólksins frammliðna
fljúgandi skýum.
Augljós eru gjörð
öll manna kjör,
alltsamann upplýst,
ekkert dulit;
ekkert óráðit
eptir verðr;
þann, hvörs vellyst var
eptir vísdómi
grafgötur í
at gánga ok leita,
þyrstir þá ei'
at þar uppi sè!
At fá svo fræðst
um forlög manna,
ok ná í nýrri
ok nýrri villu
þræði þeim, sem mann
þaðann fær leidt,
þat er fyrst fengin
fylling sælu!
flýt þèr framm, lækur,
flyt í straumi
són af sáttmálans
saung ens nýa!

---

Hilmis hofgarðr
hafði sokkit,
drekktist drótt sú öll,
dauðir komu,
voru þeir vinir
vellystínga,
áðr tortíndust,
eða tyrannar,
einn hafði hjarta,
hinir ekki.
þeir í þyrpíngu
þann umkríngðu,
svo at huldist hann
af hóp þeirra,
er hann einneginn
eptirlèt þeim;
þó leið ei lángt
at í ljós kæmi,
er hann stóð aleinn
fyrir englinum.
Rètt sem ráðvandr,
þann rógberenda
illr óhróðr
áskyggt hefir,
frammburð forsvars sins
fyrirlítr,
þreyir þegjandi,
þvíat hann veit
at slíkt skugga ský
muni skjótt hverfa.

---

Enn gekk reykr upp
af hans blóði,
enn bylltust augun,
eigi stóðu
þau enn með öllu
óhræranlig,
ei' var bifun burt
frá beinum hans;
nú hann til nábeðs
nóg teygðr dó.
Hann hafði í æði
örvæntíngar
flein sett fálmandi
fyrir sitt hjarta,
honum á hauðr
hardt niðr slengt,
gripit aptr upp,
ok með hlátri
blöskranda blik
síns bana litit.

Hefndarón hafði
hann af blóði,
af blóði sjálfs síns
svörtu fengit,
miðat mæki spor
midt á hjarta,
þar sem þat sló,
með þeli köldu;
Dregit dveljandi
dör tilbaka,
upprèttum armi
en miðat til,
ok hjörvi hiklaust
á hol stúngit,
svo kvað við kall
frá kopar brjósti,
ok með dymmum dýnk,
þá hann datt á jörð,
hún af hans þúnga
hátt viðstundi.
Nú stóð dauðs andi
fyrir Dómara,
ok gat enn varla
ímyndat sèr,
eðr skilit skírt
hvað ský þau væru,
sem fengu fegurð
af fullum mána.
O hvað helzt væri
himintúngl þat,
sem skein á ský þau
er svo skær urðu;
æ, þá ok þarmeð
þessir Guðir!
þetta var þat,
sem hann þá vakti!
Hrolli hugr
enum himnesku,
allir urðu þeir
efablandnir;
blídt bros Dómarans
bauð honum mildi,
ok þat eina bros
almætti var,
er til ununar
eymd hans snèri.

---

Loks hafði höfði
hallat í gröf
algráu af elli
Elisama,
orðinn þurstugt þrot
ok þróttvana,
sá með vânarvöl
við ens ríka
sèr brauðs biðjandi
bíða hlaut dyr,
ok sèr láta læk
lúnum svala.
Viðkvæms hafði hann
hjarta verit,
þarmeð þó jafnann
þolinmóðr;
svo frjáls fullhugi,
at fár er slíkr,
stærstu hafði
hörmúngar lífs
ei at eins borit,
heldr æ prísat
gjörvalls Gjafara
gleði ok hrygðar.
Kónga hefði hann
heiðra kunnat,
ok af lægstum lýðs
laungum smáðist,
nú lá hann loksins
liðinn á beð,
en sá kom enginn
er hann græfi,
þá sleykti hönd hans
hinnsta sinni
hundr hans kalda,
ok hèrnæst dó.
Nú frammi fyrir
fólks Dómara
stóð eptir andlát
Elisama;
klára kórónu
Kerub nokkr,

frá hvörjum fagr
fögnuðr skein,
af sjálfum senda
þeim sálir dæmdi,
háa heiðurs gjöf
honum færði.
Umkríng í engla
ok upprisinna
harla víðum hríng
hvískranir nú
runnu rómlágar,
raddir gleði,
Kerub kórónu
enum krossmædda
þegar þessa fèkk
þannig í hönd.

---

Allmörg um æfi
uppfyllt hafði
sína fyrir Zadck
sett lagaboð,
af því at honum
auðveld voru,
ok með því engin
í hans sálu
þeim gagnstæð girnd
eða geðslag bjó.
Þrútinn af þótta
þessi enn tældi
var orðinn vegna
ennar vesælu
eignar, sem af því
öðlast hafði,
vegna bers bita
af brauði grænleitu;
Vegna trè-trýgils,
tjarnarvatni
frammrás firrtu
sem var fullur af,
vegna vesæls
af veiku lími
kofa, sem kaf-sökk,
ok kopar-skarfs.
Vei þeim, vettúgi
er virðir aumann!
en, vei einnig þeim
eymdarmanni,
sem yfir sèr
af sínu verki
litlu lèttara
lætr mikit!
Ok þeim auðuga
einnig sjálfum,
sem metnast mjök
af miklu þýngra,
nær hann sjálfann sik
svæfir þarvið,
með upphrokaðri
eptirvæntíngu,
ok án auðmýktar
umdreymt lætr
viðr leiðarlok
launa kórónu!
Gjörsnauðum grafar
í gyn sökktu
umsíðir Zadek
samlagsmenn hans;
með sama sálin
síns Dómara
fyri stóli stóð;
stíg með hann niðr!
Kerub helgr hann
hóf at flytja,
en hann barðist um
uppá móti
streyttist, vatt sik við,
vildi flýa,
en gat aungvann veg
undannkomist,
rak upp rofa hróp,
ræddi, þagði!
Mik! — sem svo mörgum —
mik, sem öllum
hefi hlýdt boðum,
ok haldit þau,
ok víst verðugra
vænti launa!
hvör þú ert, sem í
alblóðugum

glóandi geislum
grimdarfull spor
þvíngar mik þessi
þèr at fylgja?
muntu skipun skírt
skilit hafa?
*Finn ek felmtrandi*
flugs þíns stefnu,
finn ek helharða
hótun augna;
rígt, þú ránglàti,
rekr mik framm;
ó! þik svelgi svo
svartar nætur!
illir eldslogar
umstreymi þik,
ok þínum öllum
eyði geislum!
hvör sem helzt þú ert
haf þik frá mèr!
Þannig hrópar hann
ok helgum eptir
Kerub koldymmu
kastar skýi;
skyndi-skin þoku
skjótari gufa
af geislum engils
allt skýit hvarf.
Flaug nú fyrir
sá enn flytjandi;
öndin fann orku
ens ódauðliga,
en þó setti sik
samt á móti,
eigi vill hún enn
undannláta;
kom hún framm kappi,
ok í kletta gjá
þríhlutaða þar
þeyttist niðr.
Nú kunni Kerub
eigi kyrrt láta,
vildi víst eigi
vægja lengr;
rètt var reiðarslag
raust hans orðin,
skundar skjálfandi
skjótt upp af gjá
öndin ok engli
eptirfylgdi.

---

Herlið hèldu stríð;
hersforíngjar,
foreyðendur fólks,
fèllu báðir;
fylltu fallin lík
foldir þöglar,
teygðust víðsvegar
um völl sárir;
Drifu drjúgum at
dauðra sálir,
skjótt sem skýabrot,
ok með skörum þeim
var einnig englll,
sem anda flutti;
upphóf hægri hönd
sá er heim *dæmir*;
skelfandi skruggur
skullu niðr
ofaná báða
ódáðamenn.
Drundu lengi dymmt
dunur eptir
meinsæris mönnum
manneðlisins,
gall viðvarandi
vídt ok lengi
eptir-ómur,
ok ógnarliga
í gjám Gehennu
glumdi kliðr.
Ok nú upprakst
frá afgrunninu
ógurligt öskur,
örlaga ragn,
buldi, sem barsmíð
af böðuls svipum,
fyrst við styrjar starf
stríðs þræll drepinn

framdi flenging
ok full hátt skrækti:
einnig slag á slag
er slegit hèr!
Nú hóf hann hærra
hýðíngar svipu
ok gaf grimdar slög
geysiligri;
hlekkja gnýr hinna
hèr-níðínga
lángsamliga gall
ok lèt illa,
háð-sköll helvítis
þó hálfu verr.

---

Fögur listar-lög,
leiksystur þær
ennar yppurstu
unaðsemdar,
uppstign með óm
frá engla hörpum,
af því án jarðar
andir barna
til cedrus trjánna
á Tabor komu
Ganges flóði frá,
fljótinu Rín,
frá Níagara
ok frá Nílstraumi.
Líka sem fráfærð
fjárhjörð stórri
gánga látin lömb
um lánga heiði,
vorsæld alast á,
eins komu nú
til Tabors lunda
téðar sálir.
Dæmir Dómari
dýrstr eigi;
þær fóru fluttar
um fjöld vega,
stjörnu frá stjörnu,
en stigum hærri
gekk undaun gimla
göfug æska.
Furðu margt fengu
framm í veg sèð,
líka lærðu margt
á leið sálir;
þókti þeim ei lángt,
þvíat umhverfis
stigu stilltann dans
stuudir glaðar.
Þykir mèr þannig,
sem frá þeim hafi
eitthvört sinn einnig
ágæt harpa
með strengjum mörgum
fyri mèr súngit:
áflutt úngbarns sál
einhvörja víst
rósemdar ríka
reiti verðr!
Hèr kemr hraðr
henni á móti,
á einni af ítrum
aldinmörkum,
útfarinn andi
einka vinar,
þann eptir átti
Elisama,
sá er síns hafði,
þegar sálaðist,
há-aldraðs herra
hönd sleikt ok dó.
Tók sik án tafar
ens tryggva dýrs
sál við sál barnsins
til hans samveru,
hinni hvervetna
hún svo fylgdi,
ok vildi aldrei
af henni sjá!
hin frá sèr henni
ei heldr spyrndi.
Þó munu þessa
þær innanuskamms
sína samveru
sundra hljóta,

nær öndin æðri
á aðra stjörnu
hærri hèreptir
hafin verðr,
en þó sem áðr
aðhyllast mun
þessi þær sálir,
sem þar koma.

---

Geltors gleði hróp
galandi sál
hóf sik ok helgum,
sem hana flutti,
án dvalar engli
eptirfylgdi;
þá af þjótanda
þeir mundu gný
eigi merkja meir
mána gángi;
eigi þrumu-þrusk
þeir nú framar
heyrðu há-fextrar
halastjörnu.
Er þeir umsvifu
alkyrrt heiði
ens hreina himins,
hinum í nánd
sólum, sem eru
utann samfylgdar;
Itrar uppstíga
umkríng Geltor
mundu þá myndir,
myndum eigi
áþekkar anda,
sem umþenkja,
eigi svöfn-sjónum
sem menn dreymir.
Hann sá, nú sá hann
sik umkríngja
gjörvallt þat gott,
sem hann gjört hafði
ok frómt um fyrra
fjörhlaupstíma;
náði hann nú þat
á ný lífa,

án þess at afbrot
anglýstust hans;
fyllast fann hann sik
fögnuði himins,
at Guð hans gjörðir
góðu launi:
Með ljúfri lofgjörð
lyptra handa
sá hann þyrpast þar
ena þurftugu,
þeim er hafði hann
hagsbót veitta,
föðurlausra flokk,
er fóstrat hafði
ok gjört at góðum
gagnsmönnum hèr.
Brúðnr, víf, vini,
virða frjálsra
heila herskara,
sem hafði fyrr
hann í hernaði
til hjálpar komit,
ok þartil úthellt
eginn blóði.
Nú flaug hann framm
í fjölskipaða
herflokka hina,
hánm sæmdr
gleði-radda glaum,
ok enn glaðari
þökkum blíð-brosa
blessaðr með.

---

Runnu röðlar upp
röðlar undir,
enn stóð dyr dómr
Drottins Jesú,
samannsöfnuðust
sálir þángat,
rètt sem regnskúrir
rennandi á víxl,
úr skýum ofann
ýmist þykkvar
dettandi með dyn
eða dögg smárri.

þornuðu ok þrutu
á þurrum svæðum,
eða flutu framm
fagrar hæðir,
lífligar lindir
með lit silfurs;
himneskra hrygð
eðr há unun
uppstignum öndum
ætíð fylgdi,
eðr ofannsökk
annars kostar,
sköpum skiptandi
skál í metum!

---

Báðir í bræði
brugðu til vígs
Syrmion sverði
sínu' ok Hagíð
einn í gegn öðrum,
undum særðir
bylltust báðir um
í blóði sínu,
uns með ofsa grimd
útblèsu sál.
Ut af sót-svartri
sjáanligra
niða-myrkra nótt
nú þegar skrölltu
harla dymmt ok djúpt
Demants hlekkir,
einsok þrumu-þrusk
þeim á móti,
óttaligri ógn
álengðar fyrst;
færðust óðum at
óhljóð þeirra.
Kerub einum af
öndum vítis
bauð at binda þá
báða samann;
sá með æðis ógn
yfirfèll þá,
ok batt hörðum hlekk
hvörn við annann;
afgrunns opin gjá,
sem þeir í hrundu,
glumdi grenjenda
af grimmu falli.

---

Yngismaðr einn,
er hèt Tóa,
á hinu hauðri
í hvíldarstað Guðs,
hvar synd engin er,
enginn dauði,
horfði með hárri
hugarfurðu
eptir engli þeim,
honum æ fylgdi,
enn nú ángráðr
yfirgaf hann;
skjótt um í skelfíng
skiptist undrun.
Klögun hafði hann
enum himneska
Skapara mótmælt
ok Meðalgángara
ámælis-orðum
uppbyrjat með,
en með algjörðri
uppreisn lyktat:
Yfir því, at þeim
þjáníngar hels
enn skildust eptir
til at útstanda,
enum sömu sem
í sælufulla
eylífð útaf gröf
innkæmust þó!
Umkríng horfir hann
hræðslu sleginn,
ok í einum dal
álengðar sèr
fagra saungflokka,
er með fögnuði
frömdu helgihöld
hatíðlegum,
Hafandi á höfðum
helga kransa,

blómstrum úngum af,
ok með straumi
himins hákvæða
hrifnir af makt,
ástúðligum í
ununar röðum
vængjum veifandi,
um vegu Guðs
margbreytta mjök
í meðbýtíngu
súngu þeir, sællra
sigurkjöra.
Nú tók hann niðr
nýa stefnu
til þess at tala
um táraföll sín;
en hann stöðvar stig
ok staðar nemr,
honum annar einn
engill bendti;
þessum hlýtr hann
hiklaust fylgja;
hann finnur svif sitt
ok sik furðar.
Æ! þó leið ei lángt,
áðr lítr hann
fæðíngar-frón sitt
fyrrveranda
á bak sèr blika
bísna fjærri,
einsok í sköpun
aðra stjörnu,
sá hann þat; sá þat,
ó hve sèrliga
fèll hann í furðu!
við fagra sól
nú allt í einu
augsýn hverfa!
Tóa til engils
talar ok spyr:
hvört færir þú mik,
Herrans engill?
en Herrans engill
aungvu svarar;
hvað, engill Herrans,
hefi ek grátit?
en Herrans engill
allteins þagði.
Ok nú eldr
hins ódauðliga
fölskvaðist fljótt
ok fèll á vaungum.
Hann kvað: hjálpa mèr,
Herrans engill!
ek get — ansar hinn —
eigi hjálpat.
Sem á vængjum vinds
vídt flugu þeir,
ok lètu líða
lángt bil þagnar.
Hvör er hann sem bauð,
hermdi Tóa,
þèr mik þessa leið
þannig flýtja?
engillinn ansar;
Aldæmir bauð.
þvínæst fengu þeir
þessa jörð sèna,
í fyrstu fjærri,
en þó fullgjörla,
svo at gætti glöggt
grafa hennar.
Æ! þat eru —
uppkvað Tóa —
haugar ok hæðir
hinna dauðu!
eru — kvað engill —
útsáðs reitir!
ok hálsinn hèrna,
sem hinum lángt —
talaði Tóa —
tekr hærra,
berandi á baki
blóðuga krossa
hjá þessum hreysum,
hvört er þat fjall?
þat er Golgata
gegnir engill —
Golgata — kvað hinn
ok greip þat eptir,

Seraf! ek sè þar
sveit dauðliga;
en hvar er hann,
sem hauður-búum
lènt hefir líf þat,
er lyktar dauði?
Þú, sem oss þekkir,
þat sèr glansa,
ansar engillinn;
enn kvað Tóa:
ek kenni klárra
meðal Kerubim
þann enn hátt-hafna
himins í mið!
Já, þú sèr — svarar
Seraf honum —
þann enn hátt hafna
Heimsdómara!
æ, vei mèr! ok minn —
mælti Tóa —
hvört þú mik til hans
hyggst at flytja?
flýttu þèr! fèkk hann
frá engli svar.
Loksins ná þeir nú
niðr til jarðar,
ok án tafar til
Tabor svífu;
Tóa safnast svo
meðal sálnanna
at dóms útkjörnu,
ok annarar nú
fjalli Frelsarans
forklárunar.
Þrátt kemr þannig,
þegar stormar
brúsandi blása
blómstra meðal
fölnaðra ok ferskra,
fullmynduðum
einn af ávöxtum
ásamt fokinn.
Sik meðal sálna
er sá nú Tóa
kominn ásamt at
ógnar fjalli,
gjarnann hefði hann
hlaupit á burt,
en hann hindraði
hulinn kraptr;
hann stóð hèr fyrir
Heimsdómara;
karskir Kerubim
komu þarat.
Sem nær sveipaðr
svartri grímu
hljóðr er himin,
áðr hleypr framm
með skyndi skellum
skruggu stormr,
svo var sá allr
söfnuðr nú;
Stutt en sterk þruma
steypist þegar
um lánga leið
úr lopti niðr;
svo mundu megnum
móti Tóa
Kerubim kasta
klögunum framm.
Endast orðræður
áklagenda;
breyttust undireins
Eloæ geislar,
en þótt hann andlit
áhorfði Krists,
í fölt skímu-skin
skyndiliga;
enir upprisnu
ok englar skulfu,
Tóa titraði
ok tvistar sálir.
Nú gaus nálitr
næsta bleikr,
duttu dauða mörk
dymm yfir Tóam,
ok með strángri stun
steindofa furðu
fèll hann í fjörbrot
á fold ok dó!

Almættis armr
umbreytt þegar
rotnun lèt í rík,
ok rètti vindum
fjölsundrat fis
til at feykja burt;
æ! síst var aumri
önd hins dauða
af hreinu heiði
hamr neinn gjör.
Hún var ein, utann
allra vætta,
öllum verum af
yfirgefin,
ok átti í sköpun
ekkert rúm meir,
hafandi hvörki
hauðri dauðligra
nè sjálfrar sinnar
samastað á.
Einkis ódauðligs
andlit líta
mátti, nè merkja
í megni hrygðar
hún ið minnsta hljóð
himins radda;
þenkt eins ok áðr
enn getr hún,
ok fær sik fullvel,
sem fyrr, hrærða,
en ei' at síður
er, þó hrærist,
ávallt einsömul
í auðn berri.
Æ! nú var til náms
nýrra hluta
sèrhvört sjónarpláz
sokkit henni;
öldúngis ekkert
utan hið fyrra
nú ok sjálfa sik
sálin hafði.
Hún var án vina
ok viðurmælis;
ekkert hljóð ansar,
þótt hún aðspyrji,
með hrygð ok hræðslu:
hvenær á þrot
Dæmandans dómr
dragast munu?
At eins hjá henni
af hinum gömlu
risu þá ok þá
þánkar nokkrir,
þeir er þó eigi,
þat mundi sál
hvervetna hulit,
hennar voru.

---

Flutt var enn framm
í flokk af sálum
dáinna drótta
drambsömust ein
manna meðal
undir miðgarði.
Af þjósti þrútinn
hafði þjóð sína
fráfellt heilögum
frelsisrètti
áðr um æfi
illvirki sá,
eins með uppþenktum
eitur-brögðum
af höggorms hjarta
ok með harðýðgi,
sem laungum leika
ljónsgrimmar klær.
Ok sem með öllu
uppgufat hafði
undirokunar
útkúgat blóð,
ok tilfulls yfir
ánauð fergðum
uppfèkk höfði hreykt
herravalds sýki,
hvomar hann í sik,
ok hvæsir spotti
orðleysíngjum at,
er fyrir honum

varla voru menn;
hann vorðinn Guð;
Loks at líki Guðs
læddist ormr,
drógst ens dauða sál
Dómara nær,
ok sem engillinn,
er hana flutti,
einn af æsku lýð
upphæðanna,
at skunda skuli
skipar á ný,
hún, eptir helsögn
orðin hressari,
herðir upp hug sinn
ok hættir svifi.
Seraf sá þat
ok síur litlar
elds at eins skinu
af hans vaungum,
eins sem oss fyrir
augum blikar
harla lángt hèrfrá
hunda-stjarna;
enn þá seinkar sèr
sál ens dauda.
Vattz enn úngi við
í vetfángi,
ok harla hægri
hræríngu með
englum áskapaðs
upphafs kraptar
snart at eins snöggvast,
er hann snèrist við,
eitt lítit blæ-blak
af bifun þeirri
þess ens dauða dólgs
drambfulla sálu.
Ok nú elltir hún,
eins sem fyki
af stríðum stormi
sterkliga rekin;
hvirflast hún nú svo
sem enn hvassasti
fárviudr feykir
froðu sjóar.
Vill ok viðleitast
vomr dauðr
háðúngar hlátri
úr hvopti gjósa,
en þat varð óðarr
ýlfranda gól;
því næst hratt honum
hinn, sem flutti,
í hið djúpa dupt
Dómarans sjálfs
fyri fætur
með forsmán niðr.
Greinir við gaur
enn guðdómligi:
seg mèr, sál, hvör ert!
svarar enn stolti:
ef þú upphimins
einn ert Guða,
þá vit, at ek er
einn af jarðar
göfugum Guðum,
ok at Guð engi
öðrum Guðum er
undirgefinn;
Kristr leit í kríng
yfir krans heilann
sálna, safnaðar
sem þar stóð nú;
sá var Sameð einn
sem lèt kjörinn
brátt gefin bendíng;
bauð honum svo
dýrstr Dómari:
dæm þú hann, Sameð!
Sameðs ásýnd í
upprann gleði
veglig ok væn
eins ok vor-morgun.
Sveins önd vissi vel,
hve sá ok viðþyrfti
dugs ok djörfúngar
Drottinn at biðja,
sem af Syni Guðs
sjálfum væri

útkjörinn, úrskurð
til at áleggja
drótt enna dauðu,
sem dæmast skal;
kraup hann brátt ok bað,
ok varð bænheyrðr.
Vendi sèr við
til vargsins dauða
sveinninn ok sagði
svofelldan dóm:
þú skalt afgrunns í
ánauð þjóna,
þverbrotni þrjótr,
þrælum lægstu!
þeim sem þýligast
þíns viðr tróns
niðurlaut, ok lá
lægstu tröppu,
skreið þvínæst þaðaun,
ok með þuss-æði
fóttrað fátæklíng
fergðaun oki,
þann enn þelfróma,
sem þoldi nauð!
þessum þræl skaltu
þjóna hljóta,
ok hans boðsbendíng
blandin efa
fá skal flugvængi
fótum þínum!
fyri forsómun
skal þik fast klaga
af villu víuglat
vitfirrings kvabb!
Fann enn fordæmdi
fljótt sik þýngðaun
svo allt í einu,
at undir fargi
samstundis sèg,
ok sökktist niðr
þángat sem præla
þrautafullar
ok bistar biðu
bendíngar hans.

---

Mjök lengi lifðu
lagsbræður tveir
Zóar ok Seba
samann báðir
í viðvaranda
vinskaparbandi;
ok nú atbar svo,
er þó sjaldann
vill til vinum,
at í vetfángi
bana biðu þeir
báðir sama;
Með verðkaups vissu
vafalausri
sofnaði Seba
um seinna heims dýrð,
af því at hann sèr
eptir rètti
mat, sem makleg laun,
í mund krónu;
með iðrun, ugg
ok auðmýkt Zóar;
með öðrum máta
enn vor mannauna
hefjast ok hallast
heimsdæmis met.
þegar þá til dóms
á þíngstað flutti
ódauðligr einn
uppheims búi,
áttu þeir ennú
ástsamliga,
sem fyrr, samræðu
sín í milli:
O! þau eylífs lífs
æskilig kjör!
svo mælti Seba,
Zóar vinur!
ó hvað eylífs lífs
æskilig kjör
slíkri heill hafa
heppnast okkr!
Einuig okkr hèr,
ansar Zóar,
sem fyrr sameinar

sönn vinátta;
eylífr er nú
í frá þessu,
minn sæli Seba!
sáttmáli hennar;
orð þau áhlýðir
engill með þögn.
Tjáðust tveir þessir
Tabors dómi;
birtu boð engli
bendíngar hans,
sem dæmdi sálir,
en Seraf flutti,
ei þó allengi
áðrenn kom
dauðans engill einn
at auðn fjærri;
stig hans stór ok sein
stefndu til þeirra.
Öll ens ókennda
ok ógnarliga
atferð ok umferð
á vorn at sjá,
þótt einhvör æskti
hann at umflýa,
einum sem öðrum
óflýanligar.
Var enn vegar breidd
víð ok mikil,
sem heil höf, milli
hvörutveggja,
þeirra þriggja
ok þessa sem kom,
dauðans engils eins
aðsvífanda.
En er Zóar sá
Serafs flýtir,
þess er þeim fylgdi,
ok þá hafði flutt
frá ens stránga stóls
stóra þíngi,
ok haft frá augsýn
hins eina burt,
sem honum sýndist
serhvörn yfir
mjök hátt upphafinn
heiðr bera;
þegar Zóar sá
svo á flugi
hvörnig hels engill
horfði til þeirra,
eins var, yfir hann
sem ógn streymdi;
stöðvar hann þá stig
ok staldrar við.
En þeim andspænis
engill dauða
stóð ok hèldt í hæð
sínum háloga,
mælti mjök fljótt:
þú ert meðtekinn!
ok við hinn annann:
útrekinn þú!
öskur var þat orð
áþekkt skruggu,
lèt hann litít
um leið til Sebam.
Hann misti heyrn,
en hún kom aptr,
þá skall hátt: skiljið!
þat var skaðandans
annat orð
eins ok þruma.
O himin, hauðr —
hrópar Seba —
hvað sem heilagt er,
heimsmenn, englar!
þèr allar eylífs
aldurs verur!
útskúfaðr ek?
ok at skilja?
Utskúfaðr ek!
ó hefir þú,
hefir þú hrópat,
sem hvatskeytligum
þeytir út þrumum,
þat orð: skiljið!
þú makt maktannar
mesta, hvör ert?
O Seba, Seba! —

Zóar mælti —
ástvin útkjörinn
öllum framar!
æ framar öllum
útkjörinn mèr!
lengi mjök dýr mèr
ok minn vinur!
Minn Zóar — Seba
segir ok spyr
ógnar engil:
hvört at eylífu?
dunari dóms,
sem er dymmr mèr
ok helzt til hár
at hann ek þekki!
Ansar orðum hans
engill dauða:
hvört at eylífu?
aðspyr þú mik;
(í því varð engils,
er þá flutti,
skin fullt af skugga
sem skíma rökkurs)
aðspyr mik eigi,
heldr engilinn
þann sem þik flutti,
þeim kominn frá,
sem himin heilann
ok heim dæmir!
Svo spurði Seba
Seraf þenna:
var hinn voldugi,
er veröld dæmir,
sá englum öllum
einn framar skein?
hefir hann þennann
harðann okkrið
skilnað skipat
ok skúfat mèr út?
O þú engill,
sem okkr fluttir,
Zóar minn ok mik,
mèr þetta seg:
ó þú engils Guðs!
hvört at eylífu?

Drógs nú drapari
dymmu glýa
yfir ásýnd
ens ódauðliga,
sem flutti sálir
sofnaðra vina,
gaf hann Seba svar
svo látanda:
boðit hefir hann
hvað eitt þetta:
hlýð, ok vin þinn vert
viðskilinn strax!
Hann skyldi hvað eitt
hafa bodit —
sagði þá Seba —
sem þó eigi
leit eittsinn augum
ofann til mín?
hann sem hvervetna
hinum öðrum
öll kjör ok afdrif
úrskurðaði,
en eins sjúnarsvifs
synjaði mèr.
Hann — sagði Zóar —
sannarliga
leit til þín ok þat,
þókti mèr svo,
augum öldúngis
alvörufullum;
ok þú — sagði svo
Seba hryggr —
vitnar móti mèr,
manna kærsti!
nú á stygðar stund
enni stríðustu,
einmidt við ógnar
afgrunu þetta!
Eigi vitnar ek
eitt hið minnsta,
minn vin, móti þèr, —
mælti Zóar —
heldr er hitt,
at ek hvörgi gat,
sem þú veizt Seba,

sannleik dulit;
æ, kom, umfaðma
ástvin trúann!
eigi vitnar ek
orð þèr í gegn!
Undann hafði horft
heljar-engill,
látit loga sinn
lægðann á jörð,
ok hans mjök miklu
mildat ógnir;
því Zóar Sebam
sèr tók í faðm;
því Seba ok Zóar
nú at síðustu
grètu báðir beiskt
blóðugum tárum;
En sú var sárrar
sundrunar stund,
aum stund, ógnarlig,
orðlaus, bitr;
eyðíngar engill
enn sinn blossa
hefja hlaut á ný,
ok hann með sinum
öllum ógnunum
endurvopna.
Hann varð hár logi,
horfði niðr,
hrópaði, en hörð raust
hans af járni
var skelfíng: skiljið!
svo skildu þeir.

---

Yngismaðr einn,
er hèt Cerða,
þyrstr í þeli
eptir þekkíngu,
lá á sóttarsæng
sinni hinnstu,
trútt hèldt sik til hans
tvöföld blessun,
fullt ráð ok ræna
með rèttri vissu,
at hans at enda
æfitíð sè.
Af hins ókomna
eptirvæntíngu
heitr í hjarta
hann svo gleði
mektuga mundi
með sèr finna,
at þeim, með þrykkíng,
þýðum kossi
ok hræríng handa,
hvörjum móti
tók, sem til hans kom,
ok tafði í nánd,
eins vin sem óvin
ástúðligr;
Næreð hann nú
var að ná orðinn,
engill hans áðr,
enn hann lèti
frammleiddann fyri
Frelsarans dóm,
hann um hæð ok djúp,
himins opna
vegu vogaði
vídt at flytja.
O dýri dauðans,
ó Drottins gjöf!
nú svamm hann, sveif nú
ok sveiflaði
innann-um vídd
ens ómælanliga;
flaug hann með felmtri
framm ok aptr,
gat sèð Guðs stjörnur,
ok gáng þeirra
heyrði hvervetna
hann fjær ok nær.
Líka vel leit hann
á ljóssins stræti
glæstar Guðs stjörnur
ok grúa þeirra,
sem á þeim alast,
innbyggjenda,
sem nokkrum nöfnum
eigi nefnast kann,

eigi tölum tekst
telja neinum.
Ok nú umkríng hann
alla vegu
skipuðust skarar,
þeir er sköpunar
hátíð heilaga
halda mundu;
þá hann þat eigi
þoldi lengr;
Nú hnèg hann niðr
á nokkurt ský
rauðleitt rètt við foss
rennanda lagar,
þar lá hann, líkt
sem liði í dvala,
fölnaðr farvi
fèll til skímu,
fannst honum allteins
sem hann enn dæi.

---

Ennú aðfluttust
ótal flokkar,
ok í þètt þyrptum
þessum grúa
heyrðist hrópat upp
hástöfum svo:
ó þú Guð þrumum
þúngt veltandi,
sem útaf svörtum
sjálfann Olympum
skelfíngar skýum
skekinn lætr!
Uxa feitra fórn
færðum vèr þèr
búinna beztu
blómstrum dala,
fórn vèr færðum þèr
feitra hrúta,
með lystiligu
laufa skrúði!
hvað drýgja dirfðumst
dauðligir vèr?
O! reiðst ei Faðir
allra Guða!
reiðist ei' regin
rètt kríngum hann!
ok þú með úrna
óttaligri!
einhvörstaðar í
undirdjúps nótt
hefir þú hana
hulit, Minos!
hreif ei harð-óðu
hlutkesti þínu;
æ at eylífu
sè úrna byrgð!
Hreif ei hlutkesti,
hreif ei', Minos!
vèr höfum verit
viðjum, Brama!
bundnir blóðugum,
benjum særðir,
ok sárum sviðnir
sólarhita!
Vanmegna vorðnir
vèr, ó Brama!
erum allir
fyri augum þèr!
lávarðr lunda
enna laufguðu!
Voðan, ei' þó villt
væntanliga?
Alfaðir! ei' þó,
við oss reiðast?
Fyri þik flóði,
fyri þik streymdi,
herja faðir! heitt
enna hraustu bloð
út í orustum
æskumanna;
hlekkjum hardt reiddir,
hlaðnir benjum,
ok sem ber-beinur,
Brama! þurrir,
ei' dóum dauða
deighjartaðra,
fyri vopnum vèr
í val fèllum.

Lát hulinn liggja
lukkupott þinn,
Minos, molbrjót hann,
myl hann sundr!
lát hið fársfulla
fjúka niðr
hlutkesti, sem hjóm
fyri hláku þey,
í hið auða gap
óskapnaðar!
Vèr í darra dyu
djúpum næsta
af bruna benjum
erum burtdánir!
blómkrönsum bezt
voru búin naut,
helgir hrósuðu
hrútar laufum!
Lypt ei hægri hátt
hendi þinni,
ok samannsafna,
Zevs, ei' þínum
skruggu skýum
ennm skelfandi!
kenn, Zevs Kronion,
kenn í brjósti
um oss, ok þínar
eldíngar svæf!
Vèr fyri frjálsa,
fyri vini
ok brúðir biðum
blóðugann dauða!
svo þessi sami
sálna skari
hrópaði ok hreppti
hratt mildann dóm.

---

Nú sèr vendi við
voldugr Jesús;
kom, engill, kvað hann,
kjörinn jarðar!
Elóa án dvalar
eptirfylgdi;
sik þeim undireins
opnaði vídd
skærrar sköpunar,
skjótt viðglumdi
ógnarstærð öll
ens ómælanliga.
Ljóss streymdu stjörnur
sterkum glansa
vídt út frá ægi
eins sem fjöllum;
himins hjól-ásar
hægt skulfu við;
lèt þá mjök laust
í lèttum gángi
at eins áhræða
enn almáttugi.
Lánga leið þegar
leit ok heyrði
Kristum komanda,
í kæti svifiun
ok með unaðsemd
útí sköpun,
Abdiel aptr
ofann at portum
helvítis hvarf,
ok hinum gæti
með kalli komu
kunna gjörði;
upplaukst með ákefð
óvissri hurð.
Harðar heljar slár
hátt viðkváðu,
svo lèt í lömum,
at lángt niðr
heyrðist ómur í
eylífa gröf;
fengu fángar
enir fordæmðu
nú Seraf sèðann
sem í loga;
ok heyrðu ávallt,
sem yllti á hjólum
þúsund, þrumu-vagn
þúngt knosandi.
Í hin opnuðu
inngekk þegar

púka-pæln
port vor Jesús;
vorn verðir,
sem þau vöktnðu,
framm fyri honum
fallnir tröppn
sèrhvör á sinni,
sem hann þar stóð.
Ennú uppstaðnir
eptirhorfðu
þeir hinum háa
Heimsdómara,
trúrri tignandi
tilbeiðslu hann,
sáu hvörnig hèr
hann stèg niðr
í djúp djúpanna,
ok hve djöflarnir
sem steinar stóðu
stirðir umkríng.
Með storms svo sterku,
at streymdi glansi
ok blossi brands
til baka, flugi
fèkk enn fyrsti náð
Frelsaranum
við dyr díblissu
dauðans engill.
Hann til helvítis
hæðstr Faðir
hafði sjálfr sendt,
svo hann þann dóm,
sem hann sjá mundi,
segði himni.
Jesús ört gekk at
afgrunns tróni,
sem hærra hreyktr
hátimbrat á
musteri mundi
ens mikla fjanda,
sá Guð ok Satan
sífeldt hatar,
skuggum skotit fá
skelfiligum.
I hegðun allri
Endurlausnarans
niðr til niblheims
nú stíganda,
í hans andliti
sem yfirvann,
glansandi af geðró
guðdómligri,
fyri hvört fæddir
eru frumkraptar,
eitt var almætti,
ok undir fótum
Guðmanns gánganda
gjörðist Eðen.
Aptr varð Eðen
at hans baki
hratt at helvíti,
hafs stóð dauða
á bröttum bakka
sá enn blöskrandi;
flýa fýstust þeir,
en flótta var
þeim nú þversynjat,
þá at deya;
ónei! þá aumkar
engi dauði!
Mjök nærri miklum
Meðalgángara,
augum ærit vídt
umsprogandi,
fullur undireins
alvarligri
eptirvænting af,
Elóa stóð.
Eigi má engill
óðarr þenkja,
enn steyptist stóll
hinn stóri vítis
allr í einu
orðinn at rúst;
beisk af brotum hans
branzt upp svæla,
ok ljótir logar
í lopt gusu.
Gullu Gehennu
gjörvallt flæmi

umhverfis öskur
endurdrunin,
þúsund-sinnum þrátt
þúsund í röð;
musterit mikla
mundi ok hrapa,
en af *því* eptir
ei' hið minnsta
var, sem vottaði
at verit hefði.
  Nú mátti merkja
Meðalgángarans
í ásýnd útlit
Elóa slíkt,
at hann flatr fèll
fyri honum,
ok síns alls kenndi
endanligleiks.
  Þá drundi dymmt
af djöfla skrækjum,
ok við brim buldr
blandat ægis
hvein þannig hans
í háum bökkum:
vei! hvað úr mèr er
orðit nú loks?
  Ok hvör ertu nú
orðinn líka?
ok þó lifir ek
enn, því miðr!
vei *mèr*, at ek er
enn á lífi!
lifir þú líka?
hví lengr nú
heldr hann inni
heiptar skruggum?
  Síst þær sèr lengr
seinka munu,
síst slá sloku við
slengðar niðr,
ok heillt helvíti
hrynja með þeim;
þá mun brátt þúngi
þessara fjalla — — —
  Ha — segir Satan —
svarið mèr til,
grenjið, svo gángi
gegnum hlustir:
hvað úr yðr er
orðit nú loks?
ek ligg, hèr ligg ek! —
Lucifer þetta
næsta nötrandi
nöldrar, stamar —
hèr á hrakligri
hrauns auðn þessi
ligg ek sem lurkr
lángt út teygðr!
  Þar sem helvískt hof
hafði staðit
ennar algyltu
óguðs töblu,
hvar nú eggslètt auðn
orðin mundi,
Adramelek ærr
organdi lá,
svo hinna hávarr
hljóða glaumr
varð, sem þegðu þeir,
þá hann drundi:
  Vei, öll vei yfir!
ek ligg nú hèr
þú dóma dómr,
sem dumba gjörir
hin ramm-rödduðu
reiðarslög Guðs!
ekk ligg staur stirðr
ok steindofinn,
einber beina-grind,
byrði vítis!
  Nær formerkt fèkk
hið fæliliga
egit gabb ára
engill jarðar,
er þeir sjálfa sik
sviku þannig,
skaut hann sèr ok skalf
skjótt til baka.
  Sem ský frá fjarlægð
fordæmdar sálir

urðu dregnar at
ægi dauða;
þeim feikna flokkum
Fílonis prests
ok Iskaríots
andir fylgdu.
Ei sá djöfla drótt
Dómarann meir,
en gjörvallt yfir
ógna svæði
sjá þeir drjúgum dreift
dauðra beinum,
engla beinum út,
ok þar standa
midt þeirra meðal
myndar ham þó
eginlignm í
Abbadóna;
en hann sá einnig
urmul beina.
Höfðu hvervetna
yfir helvíti
sik breidt svikular
sjónhverfíngar,
en fyrir egin-
ummyndunar
fölsku fár-gabbí,
sem fældi mest,
þirmt var þó sálum
ok þessum engli.
Ok nú var eldhnaus,
sá er aflýsti,
middags megin-glóð
meðbrennandi
einmidt uppyfir
ægi dauða,
í fyrstu, enn annars,
afskapligri;
biksvörtum blöðrum
bólgnaðr af
upphafligs efnis,
sem nú opnuðust.
Ok sem æ framar
útgusu nú
ljósari logum,
löður straumi
elds, útaf hvörju
ógnar gini.
Allt þángat urðu
útlits hvítari
fælu firnindi,
sem framar ei
auðit var augum
einn hinn minnsta
greinarmum gjöra
grafar mynda.
En þar eins þó,
sem þær atgreindu
sálirnar sundr
ok sitt kynferði,
engi gat annann
öörnvís þekkt,
enn af raust einni
þegar orgaði.
Því eins sem annars
uppámóti
hófu sik hljóðin
með hafs órum,
sem brim þeim byllti
af björgum niðr,
eins þau með ofsa
öskruðu nú,
utan einúngis
at þau miklu
dymmra kváðu kvein
af kvöl ok æði
meir sundr-söksuð
sakir ógnar.
Nú fór á fætur
fyrstr allra
Satan sjálfr,
ok sik reisti
endilángann upp,
einsamann stóð.
Hár stóð helvarðr
meðal hrægrinda,
ok svo hardt hendi
á hvirfil skelldi,
at tók titrandi
tróns rúst undir,

ákaft hrópar hann
hánm kletti
líkr, sem lafði
lengi úr skýum,
sem honum hèngi
höfuð af svim,
flóttamanns fæla
frammslútandi.
Ok sterkri stíflu,
sem stóð á móti,
í bísna breiðum
bergmáls skógi,
yfir-hlaups órum
ólgauda straums;
enn nú bæði brátt
bylltast niðr,
svo brauzt út Satans
sorg með æði.
Vissuliga vel
veit ek hvað er
þat, at þessa mynd
þrykkir yðr,
at þèr hafið hann
í hel slegit;
þat er þetta víst,
þèr enir vondu
bannsettu bófar,
beinagrindur!
Þèr, ófrýn andstygð,
uppfrá hvörri
rotnun er risin,
þó raunar þreytt
öldúngis orðin
af því at naga!
illar ófreskjur,
ýldu leifar,
þeim er þrumur Guðs
þeyti sundr!
Ok skekit afgrunn
aptr hrysti,
svo at sameinist,
sem ok stormr
kastar í kös aptr
ok kólga vers,
þá hann af þrjózku
viðr þjótanda
stórviðri steypir
straumflóðum út;
svo glumdi Satans
sinnis æði.
Með harla háu
harma kveini
brauzt framm bölmóðr
Belielelis
gegnum eymdar auðn,
æpir hann svo:
Fengut þèr formerkt
en fögru blómstur, —
æ! ek leit á þik
Eðen himins! —
sem fyri sjón hans
sèr uppskutu,
en brátt bak við hann
urðu bleik ok þurr,
ok þá undireins
öll forgengu?
En vèr uppþornum
eylífliga,
ok þó aldreigi
eyðumst til fulls;
æ! vèr ei til fulls
eyðileggjumst!
þannig hrópar hann
ok heitt æskir,
at ný undir sèr
opnuðust *djúp*,
sem hann svelgt fengju
í sínar grafir.
Umsíðir einnig
Adramelek,
ógn sèr upprykkir
allra stoltra,
því hann strax í stað
steyptist um koll;
honum hvarf megin
hastarliga;
hár gjörðist hlúnkr,
hrykkti í beinum,
af honum uppgaus
öskuský dymmt.

En með raun rembist
at rísa á fætur
ok mæðu Mólok,
sem mest hann gat,
hann sat ok hægri
hönd á studdist,
meðann við Magog
mælti þannig:
Hristist mín hrægrind
af hröðum vindi;
hvín mèr í hvirfil
hvast stórviðri,
en ek em óðfús,
upp vil ek standa;
en Adramelek
æ liggi kyrr!
Hann stendr strax upp,
stinnum þrífr
mundum til Magoggs,
ok með sama
rètt eins ok ræfil
reif hann úr kös;
þvínæst stóðu þeir
þar ok gengu,
við Mólok mælti
Magog þetta:
Ljótann líkham,
ef líkhamr er,
þenna viljum vèr
víst hvör öðrum
brjóta; beinagrind
brjót þú mína;
ek vil eins þína
aptr brjóta!
Því, sem af þeim
verðr þá eptir,
dreifa sterkir strax
stormar þrumu!
tröllsligum tökum
tóknst þeir á,
hugði hvör annars
ham at mylja,
en jafnt sem uppí
Oríons klettum
voru bein brotin
í báðum þeim.
Til bragðs tóku þeir
sèr af turn-háum
björgum báðir
at byllta niðr,
en, sem í sjálfum
sjöstjarna gjám
hefðu herðt verit,
hvörugs þeirra
gat byllta brotit
bein í grindum.
Eptir sem áðr
afgrunns kvölum
enn nú urðu þeir
í at liggja
þvílíkir, sem þeir
þann sama stað
af himni hrundnir
hittu í fyrstu;
allir útteygðir
endilángir,
hræríngum horfnir
ok hljóðlausir;
þannig hlutu þeir
þar at liggja.
Ognarfull ángist
ónefnanlig,
lík fossum flóða,
þau er freyðandi
af ský-skautuðum
skunda fjöllum,
gaus nú yfir Gog,
þar grúfði hvítu
hann á heiðlendi,
ok honum skaut
anda niðr í
afgrunn dýpsta.
Hann vældi, velltist,
vatt sik í keng
ok bar sik at
á allar lundir,
með feikn forgefins
fyrirhafnar,
því at þverneita
þá sem áðr,

með góli' ok grenjun
at Guð sè til!
Hans keppi kebli
þat ið kærasta
var, at hann vildi
verða' at aungvu,
emjaði' ok æddi
eptir því hann,
ok greip, sem einn
við ofboð dauða,
föstum fángtökum
at fá því náð;
en þó æ var til
aungvu at síðr.
Svo fèkk nú fundit
fullri reynslu
verst ok neðst víti,
hvör væri sá,
sem á Golgata
gaf upp anda.
Svo gaf viðvörun
með vo skelfíngar
næsta nýstandi
nýr dómr einn,
ei' at sí-auka
uppreisn þrjózku
á uppreisn ofaun
allt at hinusta
Meðalgaungumanns
mikla dómi.

---

## Hèr hefr
# seytjándu bók Messías.

Tomas tvíburi
eptir töf lánga
fjærri flokk bræðra
fór til baka,
ok at inni því
opt nefndu kom,
miklu musteri,
er mjök stóð nærri.
Hann fór hægt ok seint,
hínkrandi við
eigi þegar inn,
heldr umbergis
rètt hjá ranns dyrum
reykandi millum
pálma trjánna tídt
til ok frá gekk.
Ymist hrærðist hann
hægum fetum,
eðr stóð í stað
styðjandi sik
við eina' af eikum
áhlustaði,
er hann strax heyrði
hina sýngja.
Nálgast hann nú port
ok nam staðar,
súngu þeir ok óð einn
upprisunnar,
einn sálm ágætann
enna nýu,
sem við trón sýngja
sálir blóðvotta.
Jesús Kristr kom
klár upp af gröf,
sá ok sjálfr mun
sína vekja,
ei' munu ástkær
eylífliga
hauðurs mold hulin
hans liggja börn

gjörspillt af grimmum
greipum fúa.
Blíð mun bezt hljóma
blessunar raust,
en hitt eð hinnsta
hljóð bölvunar
fullþaggat falla
fyrir henni!
þá mun hirð gleðjast
höfuðengla,
ok fá fegra skin
frá sèr numin
indisfullum af
undrunar styrk
yfir nöktum ná,
sem nú lifir!
Æ vel! engi gröf
er nú framar,
eigi ríkir rírð
rotnunar meir,
ei' liggr lengr
í leirpælum
hárrar sálar sveinn
sundurmarinn.
Andid frá austri
æstir vindar,
færit fúit dupt
forrotnunar!
vindar af vestri,
veifið dupti,
forrotnunar fis
færið hèr til!
napurt nýstandi
norðann stormr,
flyt rof ok rústir
rotnunarinnar!
Jesús Kristr kom
klár upp af gröf,
sá er sjálfr mun
sína vekja;
ei' munu ástkær
eylífliga
hauðurs mold hulin
hans liggja börn,
gjörspillt af grimmum
greipum fúa.
Þá mun oss þykja
sem þeim er dreymir,
er til engla lífs
aptrvendum;
blásið af austri
öflugir vindar,
at til engla lífs
apturvendum!
sunnann vindsúgr,
sofendur Guðs
flyt inni Eðen
ena nýu!
Sjá, við prýði-port
Paradísar
ennar eylífu
aldrei skelfir
Kerúbs þögn, nè kann
kyndtr logi
hjörs neinn at hræra
með hótun tjóns!
Því vèr þar höldum
þægri kælu
lífsins eikar í
indællt gildi,
með sjálfum Syni
sælt gestaboð,
gladdir af gusti
Guðs nærveru.
Af því upprisinn
er frá dauðum,
sá er án afláts
elskaði sína
í daprann dauða,
dauða á krossi;
þannig súngu þèir
sem þar voru.
Tómas hafði heyrt
hátt lofkvæði,
ok var fallinn framm
á fót tröppunni
þar viðr þröskuld
þess húss-dyra,
andlit huldi hann
höfuð-dúk sitt.

Tár af hans augum
allteins streymdu,
sem blóð af benjum
bardaga manni,
sem á vígvelli
val fallinn í
liggr án líknar
ok án lífsvonar;
Sem ok samfara
sigur-hrópi
heyrir til hervagns
hildar kappa,
frelsi til forsvars
er fremja stríð,
en hann eigi sik
uppfèkk reistann.
Í hans örþreytt bein
innþrengðu sèr
dampar dymmustu
draumnjórunar,
en hann fann þá ei
heldr ákaft grèt,
hann grèt hástöfum,
ok hrygðar skjálfti
einn eptir annann
á hann stríddi,
svo at sál gjörvöll
sundurrann hans.
Loksins hreif sik hann
hardt á fætur,
ok gekk undireins
inn til bræðra,
svo þeir sinn bróður
sáu Tómam
umsíðir aptr,
með orðum lífs,
útaf yfirtaks
unaðsemd þeirra,
honum heilsandi
hlupu moti;
heyrði hann þat
en um hríð þagði.
Ennú í önd hans
aptr á ný
kom hrygðar-hrollr
hræðslufullur,
sem á hann sínum
sárt þrykkjanda
sterka stál-armi
nú strax slengði,
ok hann svo hrópa
harmþrúnginn lèt:
Nema svo sè,
at ek sjá megi
för í höndum hans
hvassra gadda,
ok fäi í förin
fíngr minn lagt,
ok hendi haldit
í hans síðu,
tekst ei at telja
mèr trú um slíkt!
hinum, sem heyrðu,
hitnuðu vángar,
brugðu brátt litum
ok bliknuðu.
Heyrðust hryktandi
meðal húss-pálma
kveða við kvikir
Kerubims *vængir*,
ok strax draup unun
af augum þeim;
með sama mjúk
sik miskunaði
miskun Guðs ok manns
Meðalgángara;
með sama midt
á meðal sveina
stóð hann góðgjarn
ok guðdómligr.
Sem ansa svölun
einir sannkristnu,
er dauðans ógnun
undirlágu,
eptir andlát sitt
afstaðit hèr,
útaf líf-ljúfum
ljóssins straumi,
flatr fèll Tómas
fyrir Jesú.

Orðum ávarpar
elskufullum
votta sína senn
Sonur Guðs fyrst:
Friðr — svo sagði hann —
sè með yðr!
þvínæst til Tómam
talar þannig:
Framrètt fíngr,
ok í för nagla
lát hann lagðann
í lófum mínum!
hygg at hèr ok sjá
hendur þessar!
legg, sem mæltir, mund
mèr í síðu!
sjá til, ó Tóma!
trúaðr sèrt,
varast at vera
vantrúaðr!
Nýr þess af nágröf
nú upprisna
vaknaðr vottr
við þat hrópar:
minn Drottinn! minn Guð!
mælti þa strax
aptr eylífr
Endurlausnari:
þú trúðir Tóma!
af því tókst á mèr
ok sást mik sjálfr;
en sælir eru
þeir sem ei' sjá,
en samt þó trúa!
ok at orðum þeim
úttöluðum
var síns safnaðar,
sem hann keypti,
með dýrstum dreyra
Drottinn ok Guð
farinn frá augum
fyrstu votta.
Tómas trúaða
tilbeiðslu lèt
í tè auðmjúkr
eptir honum,
uppstendr aptr,
ok til sveina,
einnig annara
umhverfis þar
Jesú játenda,
jáfusnart geugr,
ok á yfirsjón
uppgjafar bað;
var hún af vinum
veitt fyri laungu.
Um dreyrgann dauða
Drottins vætta,
ok um hnoss uppsett
við enda skeiðs,
at því rètt runnu,
ræddi enn sæli;
einnig orðræður
áttu við hann
bræðurnir blíðar
um blóðugt vætti.
Sem ok sóma kraus
sigrendanna,
unnit verðkaup við
veðhlaups enda;
en himin-há-leitt
hèr at ljóðum
varð af sjálfu sèr
samtal þeirra.
Sælir sèuð þèr,
söfnuðr Krists,
alda fjarlægð út
ókominna:
sèuð þèr sífeldt
sanuri hans meðr
blessaðir bræður
blessun dauða,
ok með blessun eins
upprisu hans!
O þèr hvörjum ei
Endurlausnarann
leyft er at líta
í lífi reynslu,
sem hið fyrsta' at sjá
síðarmeir gefst

hinumeginn hann
hels ok grafar,
en þó án sjónar
á hann trúið!
O! hann í helgri
himins breytni
fetið framm rèttann
farsældar veg,
ok leggja látið
til lífláts yðr
hèr niðr nokkra
ok til nýlundu
ok á öðrum stað
aðra til hels
ok til augljósrar
undursjónar!
Nokkrir af yðr,
æ til dauða,
munu þreyta þúngt,
ok þat á tímum
skelfiligum, skeið
ok til skoðunar!
standið ok stríðið,
hann styrkir yðr,
stríðið lángvinnt stríð
verið stöðugir!
oss þeir óvirðtu
ok aflifuðu,
yðr einúngis
óvirða þeir.
Ok þó yðvarrar
óvirðíngar
styttir svo stundir
sem stytti vorar
hann sá hinn sami,
sem fyrir oss
ok fyrir yðr
frá upphafi
fórnfærðr var,
ok nú framvegis
allt til heimsenda
er ok verðr
sífeldt hjá sínum,
sem hann elskar.
Síðann jóð á jörð
Jesús fæddist
höfðu frá himni
helgir englar
ofannstígit í
anda díblissu
til sömu sálna,
sem ei trúðu
fyrr, þá flóðsdómr
fold var nærri.
Höfðu þessum þeir
þángat komnir
kunngjört mjök mikit
um Messíæ heill,
gjörla greinda spá
Gabríel hafði
hèr sögðum sálum
svolátandi:
Ahlustið andar,
innbyggjendr
áðr á öldum
ýngri jarðar,
Mannsins Sonur mun,
fyrrenn mektugann
á himin aptr
upphefr sik,
ofann til yðar,
er hèr gistið
dymma díblissu,
dýrð ískrýddr
sinni sannliga
sjálfr stíga.
þá er hörð hræríng
hastarliga
skekna gjörir grund
Getsemanes,
ok haggast háir
hennar pálmar,
þá kemr gagngjört
enn guðdómligi.
A meðal aldar
anda-skara
þeirrar, sem sökk
í syndaflóði,
hafði frá fæðíng
Frelsara vors

uppkveikt ódauðligs
engils boðun
þessi þánkabrot
þúsund mynda,
ok at aungvu gjört,
ummynduð þrátt,
uns föst fullvissa
fèkkst umsíðir.
En at eins nokkrir,
því ótal margir
vöfruðu vafðir
villu þeirri,
án þess, at þeirra
þó spilltist heill,
ei voru af sjálfs síns
svikuir hjarta.
I hið ókomna
augakast nýtt;
ljóskorn fölskva-fullt
fölt af húmi;
eitt ljós at ætlun,
þó einber nótt;
hugar laungun heit,
svosem haft geta
afklæddar einar
andir holdi;
Osk, sem ýmist flaug
uppat himni,
eðr hardt hrundi
af himni niðr;
von, æ von! efi
vafafullur,
eigi þess at eins,
hvört ending hennar
gjöra nái not
nokkurn tíma.
Heldr ok einnig
efasemi
um rètta ráðníng
þess, er rædt höfðu
englar af honum,
er maðr sè,
ok fólks Friðþægir
fyri Guði;
Ein ný óhlýðni
er upp sik reisti
föstum forlögum
eða forsjón gegn;
hrygð ok hjarta sorg
hörð þessvegna,
at jafnvel eigi
burt frá ánauðum
fái þá frelsat
frelsun þessi;
sorglig sinnishrygð
sèrliga beisk;
Dramb undan öðrum
apturköllnðum
upp at fá fetat
enna fyrstu stig
færa framar þeim
fegurstu pálma;
ærsl ok æði,
því aungva hefðu
arfleifð í ríki
enna frjálsu,
arfleifð aungva,
þar engi nótt
eðr óvissa
olli skugga.
Allt hèr upptalit
umkríngði nú
ok gekk í gegnum
gjörsamliga
lengi refstann lýð,
lengi reyndann
foldar, sem fórst
í flóði vatna.
Af þeim útsendir
upptil skara
nokkrir njósnendur
neðan úr djúpi
skyldu glöggt gæta
at Getsemane
einnig at pálmum
umhverfis þar,
síðann færa fregn
fljótt til baka:
Gjörvöll bifast grund
Getsemanes;

fálma fylgjendur
fagrar stjörnur!
nokkrar ná-vofur
núpa-skoru
æptu frá einni
til annarar:
tíminn nálgast nú!
ok niðri í djúpi
gall við tvítekit:
tíminn nálgast!
Flokkar af faungum
fráskildu sik,
ok af óklárum
ausa mundu
funa flóð-straumi
fullar skálir,
sem þeir hátt hèldu,
helzt leitandi
at finna fótstig,
en fóru á mis;
ok loks at komust
útgánginum.
Hvurfu heim aptr
ok hrópuðu:
eigi hrærist enn
atgætt stjarna!
hinir hóparnir
eigi heimsnèru,
en þótt eyrindis
afdrif sæu.
Hófust hátt logar
ok hardt streymdu
í lopt upp, eptir
andaflokkum,
sem ægir æsist
við ásókn storms,
fyrst ýfast öldur
eins ok hólar,
en þó ei' lengi,
innannstundar
at bökkum brúsa
bylgjur, sem fjöll.
Þó voru þeir
meðal þessara
sumir, sem höfðu
sik til baka,
því áframm ennú
arkandi sinn
venjuligann veg
voru stjörnur.
Enn hjá straumi stóð
stórum neðar
ótalinn urmull
enna dauðu,
albúinn upp
at ausa loga
til farar flýtis
ok fullkomnari
sjónar síðann,
þegar sá kæmi,
sem góð greint hafði
Gabríels spá;
Nær loks ens liðna
en þó lifanda
yrði þeim augljós
opinberun,
laungu fyriframm
ennm fjötruðu
frá háum himni
heitin sálum.
Göfgum Gabríel
Guðs Sonur bauð:
far þú skjótt fyrir!
flaug þá Seraf
ok leið ei' lángt
uns ljóma dýrðar
allr ískrýddr,
svo aldrei höfðu
þessir hann þakinn
þvílíkum sèð
forkunnar fögrum
frumljóss geislum,
dymmrar díblissu
dyrum náði.
Nú gjörðist greindri
Getsemanes
stjörnu stór hræríng
ok enn sterkari,
svo mjök, at sáu
sálna flokkar,

þeir sem þess biðu,
þat, at sínum
húu með hjólásum
hastarliga
frá vana-vegi
viðsnúin gekk.
Með feikna flýti
fóru þeir ofann
til at tjá hinum
tíðindi ný;
hinn senda Seraf
sáu þeir varla,
þótt hann þakinn dýrð
fyri þeim stæði.
Jesús Kristr kom,
klár dagr upp
gekk fyri gesti
guðdómligum;
niðursendi sá
sína birtu
í djúpa ok dymma
díblissu gjá;
A fulla af forar
framvellandi
keim-illum korgi
kletta skúta;
í fjærstu fylsni
undir fjall-hengjum,
hvar dymmt drynjandi
Demants hlekki
nokkrar ná-vofur
nú skóku geyst.
Fyrst djúp forundran
fèll nú yfir
samannkominn sæg
af sálum dauðra;
þarnæst bísna bráð
brennandi laungun
at sjá uppgötvuð
örlög sín loks
at eins allskostar
opinberuð.
Svo þyrsti suma
at sjá, hvílíkum
nýum kjörum nú
at nætur baki,
sem enn umkríngði,
hefði uppskotit
úr dymmum djúpum
Dómara þess,
er ransókn engin
út fær grundat.
Brátt blès Gabríel
í básúnu:
frá hans fæðíngu
fyrir yðr
höfum vèr hermt
um heims Frelsara,
hann rètt ransakar
ok reynir allt;
hann veit hvörnig þèr
hafið síðan
híngat til hugsat
um hann ok Guð.
Ei eptir því
sem um hann þenkið
nú, sem hann sjáið
í sinni dýrð,
heldr hinn
sem þèr hugsuðuð
ko æsktuð eptir,
nær yðr var
tilkynnt fyrirframm
Frelsarans koma,
mun yfir yðr
hinn alrèttláti
ok hinn algóði
úrskurð leggja.
Nú stigu niðr
nokkrir englar,
sem af Syni Guðs
sendir verit
ofann til anda
áðr höfðu;
þeir stóðu þegar
þar fyrir Kristo.
Enn fegri at ásýnd
af þeim degi,
sem gekk upp glæstr
fyri Guðmanni,

karskir Kerubim
í kríng stóðu,
mörgum en mesta
megin-furða
einnig allmörgum
ununar sjón.
I prýðis ásýnd
óttaligri
tóku englar ótt
upp at stíga,
svífa sveimandi
svo vídt umkríng,
sem dýptar svæði
sik útbreiddu
und' mergð mikilli
múga dauðra,
ok svo hátt hafnir
at horfa lágt.
Er nú úrskurðr
algjör nærri,
ok kaldr kvíði
fyri knosanda
skruggu-slagi skall
á skara sálna,
ok en komna kyrð
kyrrari varð;
En brátt viðbuldi
bergmáls kliðr
útfrá einni hèr
annari þar
asar-þraung anda,
af ópi snöggvu
mjök sundurslitnu
ok sárbænanda;
hvör grèt hástöfum,
hvör bað um lausn.
Einn hinn almildi
ok alrèttvísi
heyrði hljóðláta,
hrópi þessu
samfara, sjálfa
sálnanna bæn,
en enginn annar
ódauðligra,
eu þær allfjærri
af auðmýkt stóðu.
Nú svifu niðr
á ný englar,
sem birtann boðskap
borit höfðu;
gengu þeir gegnum
gjörvalla skara,
ok þá umhverfis
atskiljandi,
gjörla gleði saungs
ok gráts stundir;
Fleiri fundust þèr
fagnaðarins!
hvar gelr harpa
sem hróðr yðar
geti gjörsúngit?
ó gæfist mèr
at hræra hendi
við hennar strengjum,
ok þótt um tár
hún einnig kvæði!
Ok værak af þeim
engli fræddr,
sem helga hörpu
hefði mèr fært,
um heill ókomna
einnig þeirra,
sem grètu geyst,
ok hvað gráti var
miklu meira,
at þeir mögluðu
eymdar fergðir feikn
gegn forsjóninni;
Ok at eylífu
sem þeir ætluðu
lut-tökulansir
í ljóssins ríki,
hremdir, hraktir
ok í hríng snúnir
straumi, stormviðri
ok stríðum svelg
örvæntíngar af
uppreistn gjörðu.
Ok nú var enduð
aðgreiníng sú,

en frjálsra flokkar
forkláraðir
stigu ströffunar
strax úr djúpi,
ok fylgdu fúsir
flutníngs englum.
Ljómandi lindum,
líkt sem ofnir
af mætum mundu
morgunroða,
girðtir voru víst
enir viðförlu
flokka flytjendur
til ferðar þeirrar
gegnum heima hríng
harla stórann;
Glóandi af gulli
gaungustafi
báru þeir ok þeim
þráliga bendtu
hátt upp til himins,
hvörsu sem þó
fegnir flýttu sèr
enir framandi,
leiddist þeim ei leiðin
þótt laung væri.
En sem síðastr
sálna frjálsra
skari skildi við
skelfandi djúp,
fljótt fèll á rökkur
ok fljótligar
þraut enn fyrsti þar
þeirra dagr.
Af viðvarandi
varð umkríngðr
nótt ok níð-dymmri
nú, sem áðr,
anda sægr sá,
svo hann stóð kyrr
ok orðlaus eptir
í undirdjúpi
um þrjá hauður-hvels
hríngsnúnínga;
Fyrst við enn fjórða
fengu nokkrir
reist sik úr setu
sinnulausri,
eldstraum atgengit
ok ausit þar
skjögrandi skálum
skímu litla,
svo stöðvar sinna
samlags-bræðra
í gjám ok gjótum
gætu fundit;
Hunnmörg hittu þeir
húmbæli tóm
yfirgefin af
þeim er íbjuggu;
þeir frá auðn þeirri
þá burtsnèru,
sína samfánga
sárt harmandi,
lítt bar sik bróðir
eptir bróður sinn,
vegna vinarhvarfs
vinur syrgði.
Fögnuðir finnast
á fold þessari,
í hvörjum unun
eptirkomandi
þeir, sem ásett er
at erfa grafir,
þegar fyrir framm
fá at smakka,
æ þeir blómgast brátt,
burtvisna skjótt;
eik lífs í Eðen
þó eins blómgaðist.

---

At bæn frammfærðri
fyrstu morguns
áfèll sætr svefn
sveininn Neftóa;
svo drýpr dögg
á dægilig blóm
fagurs frumgróða
fyrst á vori.

Brátt heyrði hann
í helgum draumi
eina raust ræða:
rækir þú svöfn,
en gengr eigi
til at anglýsa
eunm frómu fregn,
at frá Kristo
af þèr sèðr sè
sendiboði?
Skrýddr skrautklæði
skínandi geisla;
einn sem þèr sendann
hefir sjálfr Guð,
einn af helgra herr
himinbúa?
Hann þá sem hraðast
hljóp til grafar
Golgata fjalls,
þvíat Guðssonar —
þannig hugsar hann —
handgengnir sveinar
eflaust eiga dvöl
optsinnis þar.
Gjarna gánga þeir
til grafarinnar
á sitt einkamið
útaf Salem;
hana sjá ok sik
síðann aptr
venda, viljandi
vitja þess enn.
Á grafar götu
ok í garðinum,
þar sem liðit lík
Lausnarans svaf,
hans fæ ek fundit
frómra votta
samannsafnaða
sveit hjá steini.
Ungr, ódáinn
enn, ok glaðr
himins sendisveinn
Salems porti
gekk útaf árla
nær uppraun dagr,
ok tók strax stefnu
um stíg Golgata;
hèr mættu honum,
horfnir frá gröf
á leið, Lausnarans
lærisveinar.
Nú kvað Neftóa:
hvört nokkra þèr
lètuð Lausnarans
lærisveina
eptir í garði
upprisunnar?
snúið, ef svo er,
aptr til vor!
Ok færið fleirí
farsællra votta
undir áskyggíng
af eikum pálma!
ek til at inna
yðr ok þeim
hefi mörg himins
há eyrindi.
Nálægs gróða-garðs
girðíngu við
samannlèku sèr
sveinar úngir,
en hann útvaldi
af þeim níu,
hvörra fyrrum fimm
Frelsari vor,
barna Guð, blessat
ok brjóstmylkínga
hafði meðal hóps
ok hann sjálfann.
Hina námfús nú
Neftóa kaus,
honum kenndi kjör
Krists vísdómr;
eins leiðir engla,
þegar útvelja
handa sèr helga
himins erfíngja
til at varðveita,
vísdómr Krists.

Sveinir úngir at
opinni gröf
skunda, skoða dýpt
skelfiliga,
ok steinsins stærð,
sem stóð afveltr,
mikit foldar farg,
fyri henni.
Fagnandi felmtr
færðist at þeim,
þó einnig ofboð,
er þeir litu
yfir sèr eika,
fyrir aldurs skuld
hrjáðra, hryktandi
hristast toppa.
Reykuðu þeir þá
í ens þykkvara
forsælu ok fegra
fagurlima,
hvörn eð hvíta vor
hvörskonar með
blómvefnaðar bjó
brúðarskarti.
Gegnt munna grafar
í glampa skini
mjök indæls morguns
á mjúkum grösum
úngum ennú
ok upprennandi,
unan ok ángan
sem umstreymdu,
hittu þeir hina
heilögu Guðs.
Þessa fundu þeir
þar úthellta
í reifri rósemd
ok rètt stiltri,
fögur fellandi
fagnaðar tár,
ena sælu sveit,
er senn skyldi
kunngjöra' ok kenna
Krists upprisu,
en nú hátíð hèldt
hennar vegna.
Leit á lið þetta
lotníngarfullur
Neftóa næsta,
er nú var líka
sjálfr Guðssonar
sendiboði,
ok þat til þeirra,
þegar orðinn.
Nokkrir Neftóam
náðu kenna
af hóp heilagra,
ok hans leikbræður,
eigi var þá orð
af honum mælt,
þegar sèrhvör sá
at á sveins vörum
lèku ljúft ræður
lífs ok heilla.
En hann undanndróg
eigi lengi
tal sitt til þeirra,
þvíat tóku sik
nú at nálægja
nýir flokkar,
hvörjir hèr við gröf
hinum mættu;
Ræddi rómskærri
raust Neftóa
brátt, hve Benóni
birzt hafi sèr,
ok hann handleikit
hins gull-lokka,
svo ok hvað sveininum
sagt hafi um Krist,
endurvakinn um
þann enn upprisna
fólks friðþægíngar
Fullkomnara.
Fekk nú fagnaðar
fregn en nýa
harla fast á hug
heyrendanna,
ok þeim upplypti
enn nær himni.

I þeim indælum
anda krapti
þeirri fyriframm
fenginni hèr
tegund af teitri
tilfinníngu
eylífs indis
hjá æðstum tróni
hjörtu heilagra
háum streymdu
saung um Sigrandann,
er sundurtrað;
at honum eigi
sakir eitraðrar
höggorms hefndar meir
hælsund blæði.
Eptir því sem út
ullu straumar
hèr sagðra saungva
var af sveinunum
framinn fagr dans,
fyrilèk hvör
at rèttri reglu
í röðum helgum
hinna sigur-saung
sambjóðandi.
Sjá! helgr hóf sik
himinsbogi
eptir óveðurs
ógn í skýum;
sáttmálans orð er
óbrigðanligt!
eylíft er sáttmál
upprisunnar!
Eptir því sem út
ullu straumar
hèr sagðra saungva
var af sveinunum
framinn fagr dans;
fyrilèk hvör
at rèttri reglu
í röðum helgum
hinna sigur-saung
sambjóðandi!
mynduðu mæður
fyri mögu þá
kransa vel-vöxnum
af vor-laufum!
Sjá, öll sorgartár
enna syndugu
afþerruð urðu,
nær algjört hafði
Lambit fórnfærða
friðþægíngu;
þá var dauðinn drótt
eigi dauði meir.
Eptir því sem út
ullu straumar
af saung hèr hermdum,
horfðu sveinar
móti Golgata
í glöðum dansi;
fagnaðarfullar
færðu mæður
sèr kærum kundum
kvistu pálma.
O! hinn upprisni,
sem æ lifir!
mælti María
með sinni raust;
hún fèll til fóta
Frelsaranum,
hánm ræddi róm
ok kvað: Rabbúni!
Eptir því sem út
ullu straumar
af hermdum hróðri,
helgann sveinar
til sigur-saungva
sinn hèldu dans.
Minn Guð, minn Drottinn!
megnri furðu
hrópaði hinn,
þá er hafði sèð
för í höndum hans,
ok hönd sína
í ens upprisna
innlagt síðu.
Eptir því sem út
ullu straumar

af hermdum hróðri,
helgaun sveinar
til sigur-saungva
sinn hèldu dans.
O! vèr ok munum
eittsinu vakna
uppaf dauðadúr;
dag enn hinnsta
allir uppvakna
til enda jarðar
Guðs liðnir lýðir,
er liggja ok sofa.
Eins sem utflóði
ört í strauma
hèr sagðr saungr,
sveinar í röð
á ok umhverfis
eina af gröfum,
kastandi kátir
kröusum sínum,
til sigur-saungva
sinn lèku dans.
Ur höndum hrutu
hastarliga
prúðlyndum piltum
pálma kvistir,
þvíat þá birtust
þeim á kletti
fyrrgreindrar grafar
sem gein nú tóm,
enir upprisnu,
ok nú þagnar
sigur-saungr
í sama bili.
þrír voru þessir,
sem þar stóðu
enir upprisnu
í sinni dýrð,
sem ský sveimaði
hjá sýn þeirri,
svo kom seinliga
af silfur-skýi
Asnat út, ok varð
einskær glansi.
Upphóf andlit sitt
útaf skýi
ok hèldt mót himni
höndum samann
dáðrík Debóra,
uns dýrðarligu
stóð þar eins orðin
öll af skini.
Jafnsnart Jedidot
Jesú grafar
sveif til, ok sýndist
sem hann kæmi
einhvörsstaðar at
allfjærri lángt,
þar himins hallast
hvolf at djúpi,
en strax á einu
augabragði
stóð dýr dýrðlíngr
hjá Debóru.
En fylgdu englar
ok aðdáðust mjök
Isak forföður
enum fegursta
á meðal allra
upprisinna.
Gaf um Rahel
gullinn haddr,
er hún alhvítri
útaf gufu
leiddi hèr við hönd
helgann Jósep,
með ást svo mjúkri,
at mæður hinar
gjörla þekktu þar
þessa móður.
Enum ódáinu
áhorfendum
kyrrari kæti
kom í sálir,
tóku þeir nú til
tvistri furðu
brátt sèr úr brjósti
burt at hrinda.
En sú stilli stóð
stuttann tíma

því nú var nálæg
ný furðu-sjón,
þá er þar sáust
þessir standa
Esaías,
Abraham, Jób,
þrjár gladt glóandi
geisla myndir;
titrun deyfði dug
enna dauðligu.
Jókst við Jóhannes,
sá Jesúm skírði,
Set ok Abel enn,
Adam þángat
gekk með Gabríel,
Guðs eldingar!
duttu sem í dá
enir dauðligu,
þókti þeim bjargit,
þokast úr stað
ok allt umhverfis
ókyrrt verða.
En þessi þúngi
þeirra sálum
aflèttist aptr,
þvíað Eva kom
fegurð mýkri með,
ok við mund leiddi
Benóni barn,
af birtu mána
umkríngð ósorgar
endurnærandi
ok af heiðs himins
hýrum bláma.
Þá veittist vottum
viðreisn aptr,
svo þeir með sálar
svölun litu
hina heilögu
himins erfíngja,
ok með unaðsemd
ósegjanligri
fengu fundit þat
fullkomliga,
hvörsu sann-sælir
sjálfir voru.
Örr ok ódeigr
til áræðis
nú gekk Neftóa
nálægt steini,
tekit hafði hann
í hönd aptr
pálma gefna grein,
ok gegnt Benóni
henni hèldt á lopt
hermandi svo:
Æ! þik ek þekki,
en þessar háu
ok geysi-glæstu
geisla myndir
eigi kennir ek,
er þèr fylgja;
sjá þú, Guðs sæli
sendiboði!
hann, sem hefir svo
meðr háleitri
dýrðar blik-birtu
blessat yðr,
einnig brjóst-blíðr
blessaði mik!
Jarðleir ennú ek
er at vísu,
ok hold, sem hefi,
hlýtr fúna,
en ek, eins sem þèr,
ákalla þann,
sem allt foldar fólk
friðþægt hefir!
Þèr, svo sem ek er,
áðr voruð
heli háðir
ok harðann mjök
báruð þúnga þess
þá með kvíða,
uns hann yðr loks,
nær at því kom,
felldi frá lífi
til fulls niðr.
Frjálst lát, frómi sveinn
fullkomnaði!

mèr, þeim Messías
mælti blessun,
at stíga steini
stórs ótta nær,
ok þó ennú nær
ypparligra
andlit áhorfa
uppheims búa!
Snýst Eva' at Adam
ok svo mælir:
hýr er húgar spá,
hún mun, Adam, eiga
skammt aldurs eiga
til at uppfyllast,
er bani brýtr
blómstr þetta;
hún svo strax í stað
stóð hjá sveini,
þeim hún brátt beindi
til Benóni leið.
Ennú er miðjum
innilnktr
svo var hann í hríng
enna himnesku,
ok tillit augna
ypparligt hans
hinna hèr mætti
hýrum brosum,
alldjarfann únglíng
umlèk skjálfti
beinum öllum í
fyrir ótta skuld.
Dró þá Debóra
dymmu rökkurs
yfir sik ok svo
svein viðræddi:
saung þú hefir heyrt
Herrans votta!
sýng nú hinn sama
saung fyrir oss!
Lèt með lágri raust
lofsaung votta
tekit upphaf á
útvalinn sveinn,
en harpna hljómr
enna hásælu
lènti ljóðum þeim
líf ok anda.
Sjá, helgr hóf sik
himinsbogi
eptir óveðnrs
ógn í skýum!
sáttmálans orð er
óbrigðanligt,
eylíft er sáttmál
upprisunnar!
Eins sem hans útrann
óðar-saungr
hvervetna' af hörpum
háttlífgaðr,
sveinninn svo pálma
sveiflaði grein,
ok gröf Guðs Sonar
gagnvart bendti.
Sjá, öll sorgartár
enna syndugu
afþerruð urðu,
nær algjört hafði
Lambit fórnfærða
friðþægíngu;
þá var dauðinn drótt
eigi dauði meir!
Með skini mýkra
mælir Asnat:
hví þèr hikið við
hróðrar sveini
frá gröf at færa
sinn fagra krans?
mærin Miríam
Magdalena
kom ok krans færði
enum kveðanda.
Æ! enn upprisni,
sem æ lifir!
mælti María
með egin raust;
hún fèll til fóta
Frelsaranum,
háum ræddi róm
ok kvað: Rabbúni!

Eins sem af hörpum
eftir fjöri
hátt lèt saungr sveins,
svo runnu tár
af hans allskærum
ennisljósum.
Minn Guð! minn Drottmeguri
furðu |inn!
hrópaði hinn,
þá er hafði sèð
ör í höndum hans,
ok hönd sína
í ens upprisna
innlagt síðu.
Sem nú saungr hans,
svo af hörpum,
með afli' ok anda
upplífgaðr,
streymdi, hjá steini
stóðst ei lengr
saunglöð samkoma
sik at halda,
hóf hún sik í sveit
enna sælu Guðs.
Svo gáfu sik þeir
í samlag hinna
skínandi skara,
ok nú skært súngu:
ó! vèr ok munum
eittsinn vakna
uppaf dauðadúr,
dag enn hinnsta
allir uppvakna
til enda jarðar
Guðs liðnir lýðir,
er liggja ok sofa!
Svo hátt sem hendti
harla fagr
sá þeirra saungr
sigurhróss flug,
svo herðtu hörpur
hljóms þeytíngu,
sem við sjálfann trón,
til saungs unnnar.
Svo var söfnuðr
at saung kór einum
orðinn, af kristnum
ódánum þá
ok fjöld fullsællra
frammliðinna;
um Son eylífann
allir súngu,
með hám hljómdansi
enir himnesku,
en lið láðbúa
með lágu kvaki:
Sómi sè ok dýrð
þeim sigur vann,
Júda liðs ljóni,
Lamhi Síons,
kvisti Jesse kyns
kostuligum!
sem á Golgata
gjörðist fölur,
en brátt við blóðfjall
blómgaðist aptr,
fagr frumgróði
fyrstu uppskeru!
ok hans áskyggíng
um eylífð mun
góð ok guðdómlig
gleðja' ok hressa!
Ei' heyrðust hrópa
haustyrkjendur,
nè hrutu úr höndum
höfuðengla
blásturs básúnur,
þá enn blessaði
Jesús Kristr — já
jafnann honum
sè, er sigraði,
sæmd ok heiðr! —
Jesús Kristr kom
klár uppaf gröf!
I djúp yfirtaks
upptendrunar
sukku svo raddir
enna sælu Guðs;
leið þá til lykta
ljómi þeirra,

ok datt í dymmu;
dauðir hvurfu;
Lágu Lazari
líka Martæ
áskygðum inni
i aldingörðum,
sem lækjar lind
með lopti svölu
gegnum flaut, ok fèll
um farveg nokkurn
með rás mjök hægri
at Maríu gröf.
Frá helsnótt hafði
hennar bróður
áðr af sömu
útkallat gröf
dýrstr Drottinn,
sem dauða vekur,
en svöfn hans systir,
sæl á himni,
jafnt sem járnfastann
í jörð nú svaf;
An þess at vinir,
sem enn lífðu,
harm eptir hana
hefðu framar,
af því at Jesús
upprisinn var,
nú var heim til hans
sú en himneska
mjök farsæla mær
María komin.
Meðr morgun-sól
Marta hvörri
á drósar dreifði
dáinnar gröf
björtustu blómstrum,
er bekkr nærði,
sem hana sjálfa
sætrar vonar
tær hrestu tár
ok tilhlökkunar,
at sína sæi
systur á ný.
Er hún innannskamms
önduð henni
mundi hvílast hjá,
ok í hægri sæng
jarðar jafnt sem hún
járnsvöfn blunda,
blind fyri blómstur,
ok buldr lækjar
harla hægt
til at heyra, dauf,
en sálin sæl
hjá sál María.
Hún frá hinnar gröf
hvarf til baka,
á leið Lazarus
ljúfr mætti
sinni systur
ok sagði: Marta!
ek hefir útsendt
ok til gesta
boðit bræðrunum
ok brot viðkvittum!
Ferðamönnum frá
fljóti sjö kvísla
ok Grikklands eyum
ek híngat bauð,
matar máltíð
til at meðtaka,
þar skýla skulu
skuggi' ok vestr,
einnig í lundi
á at hlýða
fagrann sálma-són
vorra saungvara
með harpna hljómi,
heyrnar gaman.
Fljóðit flýtti sèr,
ok fyrirhöfn
eptir sèr nè önn
aungva taldi,
á borð at breiða
ok búa til mat;
lítt beið Lazarus,
lèt hann blómstrum
dýrum dreift út,
ok deigði sandi

lysti-hús lundar
frá lind kælandi.
Svo ok til svala
sveigði greinir,
at skamta skyldu
skugga meiri,
ok hindra heldr
hitann af sól.
Ok þótt hann við önn
eptirlætis
sal at prýða sinn
ok svalann gjöra
hjá sællrar systur
svöfn-þró gengi,
draup vegna daprar
dauða minníngar
ei' af augum hans
eitt hrygðar tár.
Ek sèr innannskamms
aptr hana! —
hann þenkti þannig —
ok þæg blómstur
líka lèt plokkuð
á legstað hennar.
Þar höfðu þegar
við þröm lækjar
hvíldartöf tekit
kríngum trè pálma
ljúfir leikbræður
Lazari æsku,
þeir um hönd höfðu
hörpur, Gitít,
einnig Asóor
ærit snjöll horn,
bjöllur, básúnu
sem ei' blès þrumu,
heldr hvirflaði
hvellum tónum.
Þeir nú fyrirframm
fagnaðar kenndu
þess, sem í saungvum
sèr úthella
mjök vídt mundu
frá meiði pálma,
lángann laufskála
lund umhverfis,
þá er kæmi klár
kvölstjarna framm
með sèr samferða
silfur-mána.
Sèr nú smámsamann
safnat hafði
í eitt heill hópr
heimboðsmanna;
lopt-svalann laufsal
lètu þeir nú
af sèr umhverfis
allann setinn;
Frábærs fagnaðar
fundu þeir til,
þó eigi þess,
nè þvílíks framar
sem á sálina
sínum straumi
með ofur-efli
óðfluga jós,
heldr til hins,
sem hægt rennandi
lækjum líkr
gegnum lífs þeirra
allt þat hið innra
indæll flóði;
Hvað þeir ei höfðu
heyrt af vottum
eus ný upprisna
Endurlausnara?
hvað ei' sjálfir sèð
sannarliga?
ok hve mikils ei'
áttu þeir von,
sem meina máttu
at mundu nema
augum sem eyrum
uppfrá þessu,
sjálfir sáttmálans
synir nýa!
Æ! sá er saminn
með sárum dauða
ok með upprisu
innsiglaðr,

lèt þeim líf verða
lystugann dag,
ok kvöld komanda
klárara miklu —
ateins allfáir
óskírt sáu
augakast inní
þat hið ókomna —
at sætum svefni
sjálfann dauða.
Engin áskyggíng
efasemdar
þakti með þoku
þeirra sálir,
ei' sú ofurþýngð
óvissunnar,
hvör opt á harðri
hörmúnga stund
jafnvel fergir fast
frómhjartaða,
þrykkti þeim niðr,
sem þar voru.
Þeir voru þvínær
þegar komnir
afframm yfir gröf
öfundarverðir,
kynni kristinn einn
kærann bróður
af því öfunda,
at sè honum
veitt meiri mildi
miskunar af
allrar eylífum
aðalbrunni.
Silfur-litr leið
yfir lopt máni,
fögur stjarna stóð,
stallsystir hans,
lystugt leyptrandi
á ljósum himni;
glaðvær gestaboðs
gaf samkoma
sik burt af sætum,
ok sèr dreifði,
at svo kvöld-kælu
þar í kríng nyti.
Einn frá Sams-eyu
útlendíngr
Dimnot vídt um váng
vegfarandi
sik frá samtali
til samtals gaf,
ok komst loks svo lángt,
at lèt til rúna
svo mælt, sem honum
samnjótandi
varð þess at veittist
vináttu nýrrar
fyrst at finna til,
sem er fylgjendum
æðra mann-eðlis
eptirlæti:
Æ! þú meinar mann —
mælti Dimnot —
dauðinn eflaust at
aungvu gjöri;
þarf ei þó fræit
at þrútna fyrst,
áðurenn þat svo
getr upphafist,
at í ljós leiði
lifandi plöntu?
Skal ekki skýit
skipta litum
ok ná nið-dymmum
nætur sorta,
áðurenn af því
kemr eldíng skjót,
ok Guðs róm-há raust
reiðarþruma?
Hvört skal en háa
þú hljóta sál
æ byrgð at búa
í búk dauðligum,
ok utann afláts
at eins en fyrstu
takmörk at tróða
tilveru sinnar?
Hinum hann at eins
hermdi þetta

ok fór at öllu
yfirtaks skjótt;
þvínæst þar einn
þakinn geislum
var í vetfángi
fyri vin sínum;
Ok hann svo hraustri
hristíngu með
af draum uppvakti
ángistarfullum,
híngat til sem hann
hafði trúat
um manns eyðíngu
algjörliga.
Frá Níl framandi
ferðamaðr,
sem frá samtali
til samtals gekk,
Kerðit, kom svo lángt
at til kunníngja
sagði, sem honum
samnjótandi
varð þess, at veittist
vináttu nýrrar
fyrst at finna til,
sem er fylgjendum
æðra manneðlis
eptirlæti:
Lukkuligi mann!
leynt hvörjum er,
hvörsu þú ert þat,
þik enn sturlar
sífeldt sá þánki,
at sè af eymdum
á foldu fleira
enn af fögnuði!
Böl, sem þú ber
af bitrum þánka,
áðr lángt líðr
mun linun fá,
lángt meir enn linun,
linna' at fullu
ok þik æ síðann
yfirgefa.
Lukkuligr sá,
leynt hvörjum er,
hve mjök hann er þat,
ok hvörsu nálgast
hann þat honum mun
hèr í lífi
við grafar gáttir
yfir gröf lypta!
Hvört eð honum mun
hræðiliga
dauðans hèðan-heimt
himinsaung gjöra,
nærri komins nú
náfúa mynd
teita tilfinníng
teikn og boðun
frammtíðar fullrar
af forklárun;
at moldum muni
mulinna beina
eittsinn upprisa
útaf spretta!
Mik er, minn bróðir,
mín upprisa
skeð af hans skikkun,
sem skóp alla,
sem einnig alla
hefir endurleyst.
Hèr sagt, hrópaði
hann með tóni
unaðsemdar, æ!
inniligustu,
hermdi þat hinum
hálf-stamandi
fyri fögnuði,
ok frumljóss skein
morgunroða með
á mann undranda;
seinkaði sèr
ok sínum tafði
undann at snúa
andlits glansa.
Engils fegurð í
enn lengi stóð
hann fyrir hinum,
harla margar

spurníngar hóf hann
hraðar ok glaðar,
sem hann setti framm
fyri sárskelfðann
mjök titranda mann
máli sviptann.
Ennú sem niðr
á nálæg blómstur
tók enn titrandi
til at hníga;
veik hann af vegi
ok varð sem rökkur,
lèt þó ljóma sinn
í ljós á ný,
ok kom aptr
til ens aflvana.
Umsíðir ei
þótt óburthorfins
vinar gat vinur
var orðit meir;
af felmtri fánginn
sakir fagnaðar,
sem hans synjaði
sjónar augum,
loks hann liggjandi
litverpr fannst,
varð svo viðreistr
ok vel nærðr.

---

Sjón var Sebídæ
súrleit ok hvöss;
mosa-huldum hann
hýmdi' á steini,
með eldheitt enni
af umþenkíngu,
en þat hann þenkti
þessháttar var:
Ek sem öldúngis
ok fyri laungu
um hluti hefi,
sem heyra til
öldum ókomnum,
afsagt vissu,
en mik efasemd
undirkastat,
hvörsu sem hún er
hjartanu þúng;
Ek því efalaust
á at trúa,
at nokkrir af þeim
útlendíngum,
sem ek sèð hefi
svo fyri skemstu,
ek sem er ennú
ei vorðinn nár,
at þeir upprisnir
aptr sèu?
at þeir svo augljóst
opinberast?
En ek eigi því
á at trúa,
at þess sál, er sèr,
sè hún líka
upprisunnar af
umþenkíngu
tendruð, við trúnað
verði táldregin
af þess ímindun
sem ei er til?
Birtist þessum þá
þèr enir dauðu
grant aðgætanda
er grenslast eptir,
sem þat er sýnist
frá sönnu greinir;
lát hann líta þik
lifandi nár!
Því ek þekki vel
þess tilveru,
sem í sannleik er
svo ok lífit;
ek lít umkríng mik
alla vegu,
en finn ei' fyllast
forgefins bón.
Jafet aðkom einn
útlendíngr
til ens tvíbendta
frá Tenedos,

hèr stóð heiðs mána
hann í skini
næsta nálægr
nú fyri honum.
Ok um tvöfaldt tál
talar við hann,
fyrst fast ætlaðrar
falskrar vissu,
uppgrublaðs efa
í öðru lagi,
allt þar eptir,
sem annat-tveggja
sálin hneigir sik
til sannfæríngar,
eðr henni hún
hardt stríðir gegn.
Vel enn vísari
veldi sèr hluti
ok háttu hluta,
sem honum fyrir
í ljósi lægju
svo litit gæti
augum algjörla
útyfir þá.
En framm ef biðust
útfrá rýmri
hygginda hríngum
honum aðrir,
reyndi hann þá rètt
ok ransakaði,
sem háttu ok hluti
fra hinum þrengri
einsok endrarnær
áliti þá;
En ei' öfugt
við yfirskoðun
hins sem er hærra
hjárenndi sjón,
ok ei sjálfann sik
sjálfr tældi
með ugg ok efa
uppgrubluðum.
Svo kvað enn komni,
sem með kaldlyndi
ok með útliti
alvörufullu
hvarf þá undireins
allr á burt;
Sebída sagði
er sá hann eigi:
Hann er nú horfinn,
hann er farinn,
ok hefir eigi
opinnberast!
hann mèr sýndi sik
sannarliga,
en með aungri dýrð
yfirklæddann.
Einsok endrarnær
á ek at sjá,
ek sèr ok einnig
eptir venju;
hann er mèr horfinn,
en hefir birzt!
eðr af hvörjum
er hann sendr?
Er af sjálfum sèr
sá hèr kominn?
eðr var hann í
eyrindi Guðs?
en þótt sè nú svo,
at hann sjálfkrafa
hafi mik heimsókt,
hann at vísu
er þó einhvör
sem uppfræðíngar
vissi mik vera
viðþurfanda,
ok sem afli
uppfræddi mik.
En sè hann sendr
af sjálfum Guði,
víst ek þessu þá,
þar ek í sökk,
útafsloppinn er
efans hafi;
ek er útsloppinn
ok með fjöri
stend viðr strönd
af stormi frelstr.

Á haf hug-glaðr
horfi' ek niðr,
heyri bylgna brak
buldra dauða,
en ek hjarta-hress
hræðumst eigi
ægis æðanda
ólæti meir.
Hann varð nú á ný
nægðar meiri
af himins hylli
hluttakandi,
honum fyrr horfinu
hèr í sinni
dýrð eigi dulinn
enn dauði kom.
Sebída sá
í svölum skugga
pálmatrès prúðann
pílagrím fyrr,
ennú sem engil
alskínanda,
síðann í svifi
sèr koma nær;
Loks hann með ljósi
linari geisla
sá hann sèr gagnvart
setjast á stein
nokkurn niðr,
sem njóta vildi
hægðar á honum
ok hvíla sik.
Frjáls, sem fagurt lopt,
fjötrum efa
öllum leystr af,
allri hans þýngð
nú frá frelsaðr,
frètti þessa
Sebída sýn
ena sólskærn,
Ok heyrði' af henni
háleitliga
sæta svara raust,
sem margt ræddi
um þetta ok annat
ókomit líf,
beggja hlutfalls hátt
harla náinn,
ok hvörnig æðstr
allt fullkomni
Drottinn þat með dýrð
dásamliga!
Loksins hrópar hann:
en hvör ertu
af himnum ofann
opinberun?
af háum himni
hèr komna sýn,
en þó uppaf gröf
ei' at síðr?
Ek er — ansar hinn —
ek er Josep;
ennú er þinn lífs
aldinn faðir;
skunda skjótliga,
skír honum frá,
svo finni enn frómi
fjörgamli maðr
kærs sonar kinnar
kæti-tárum
allar votar af,
ok þik blessi!
Á Tabors tinda
tignarligum
stól, um þær stundir,
stóð ok lagði
Drottinn dæmandi
drýgðar gjörðir,
augnamið ok mark
á met ok vog,
hann sá ok hvílík
hóp þeim veittist
sæla, sem dvaldi
í sal Lazari;
Lazarus lèt
um lærdom Kristi
eins með indæli
sem einurð rædt,
svo mangi mátti
í móti standa;

Hvörsu hann dýpri
hafi speki ·
nú — sem er næríng
ok nýtt líf manna —
ítrum útskírða
með einfaldleik,
at eins álengðar,
en um tíma
alls mannskyns augum
opinberat.
þegar þyrstir
eptir þekkíngu —
viðtal var þat hans —
vegfarendr
loks hafa lokit
leið yfir gröf,
fær at nálægð fyrst
fjarlægð orðit;
þeir læra líka
ljóst hvað olli,
at sú uppbirtíng
ei skeði fyrr.
Fjöld stóð frèttenda
fróðann kríngum
Lazarum, ok ljúf
líka marga
andsvör hafði hann
heyra látit
um þau efni,
sem þeir atspurðu.
Nú kvað hann nokkurn
nærri staddann
vegfaranda við
víðförlann mjök,
er var raunar einn
ódauðligr,
ei' framar foldar
ferðamaðr;
Lægíng líðanda
Lausnara vors
er fyrir allra
öflugustu
ok skarpskyggnustu
skoðenda sjón
afgrunn, í hvörju
öllum sýna
stórvirkjum stærri
stórvirki sik,
minnst merkjanligum
meðr hætti.
því at þaðra,
hvareð þau eru,
sökkr sjálf dýptin
sannliga dýpst,
meðr mannligum
mælum hætti
alltíð um hluti —
annann veg þat
getum vèr ei gjört —
guðdómliga.
Maðr einn, sem er
eðal-sinnis,
athefst, en verðr
fyrir athafnir
ítrar af öðrum
öfugt dæmdr,
hann með hóflígri
hugar viðkvæmni
finnur, at hann er
álitinn rángt,
en þægu þeli
þat umlíðr.
Hvað er hann? hann er
harla breiskr
maðr moldar-kyns,
sem mun deya;
hann er hót at eins
hinum betri;
ok þó æpir hann,
en þótt hèldi
til baka beiskum
bölmóðs tárum,
sem honum sýnast
at sönnu rètt.
Ok Kristr allra
Endurlausnari?
ó! vèr stöndum við
vídt reginn-djúp!
samlík! samlíkið
síðr enn ekki!

ek hlýt öldúngis
ella' at þegja.
Vor manna mikli
Meðalgángari
er sjálfs Guðs Sonur,
já, sjálfr Guð!
hèr til grunns gengr
gjörð at aungu
eptirmyndin af
aðalmunstri.
Ok hann er ætíð
iðjusamr,
en hèr fær einnig
áskyggíng rúm;
miskenndr mjök
ok margvísliga?
allr fyrir allt
öfugt dæmdr.
Ok þau öll tár,
sem hann aptr hèldt?
hvört mundi harms
af hvörmum neinum
rèttvísara regn
runnit hafa
nokkurt sinn niðr
nauðlíðenda?
En þat allt, sem einn
orkar maðr
fyri sjálfann sik
sèr at skíra,
er lángt, lángt fjærri
líðunum þeim,
sem hann heilagr
hafði' at bera;
fjærri tor-tèðri
tilfinníngu,
með hvörri hann leið
harðkvæli þau,
einúngis öfugt
í öllu dæmdr.
Hann af heitari
hærri' ok dýpri
fullur tilfinníng,
enn fèkk neinn maðr
reynt, eðr ákennt
engill nokkr,
helvítis hæddr
með háðúng var.
Með hátt hvæsanda
höggorms blýstri
færðu fèndr hann
í fat purpura,
rèttu reir í hönd,
ræsis sprota,
sem kóngs kórónu
knýtti þyrna
honum um höfuð
hópr skálka.
Svo var hann á hæð
höfuðskelja
til kvala keyrðr
ok á kross negldr,
hrópaði hann
um hressíngardrykk,
ok var gall gefit
góm at kæla;
Kristr var með kvöl
ok með krossdauða
lángsömum loks
af lífi tekinn.
At svo endaðri
orðræðn gekk
Lazarus á leið
útaf laufskála,
ok kom einnsamann
innann stundar
at geðgöfugrar
gröf Maríu.
Svo at síðustu
settist niðr
hann á hvíldarstað
ennar helsvæfðu,
ok með ánægju
ok ángursfullum
hugsunum höfuð
hneigði niðr.
Þar í þessari
þenkir hann gröf
fær þik frjófa gjört
fólks upprisa!

at eins andaðann
um Messíam
heyrðir þú hermt,
þegar heim kvaddir,
en ei' um aptr
upprisinn hann.
En þèr allkunnugt
er nú þetta,
þú sem honum hjá
hefir veru!
því væri þat ei,
þá hefðu mik
ofmjök efalaust
englar gabbat!
ok nú eptir þèr
enn at nýn
blessun sæta sýng
sofandi Guðs.
En hið andaða
ódauðliga
víf sinni var þar
viðstadt hjá gröf;
frá hvörju honum
hermt ek gæti? —
mælti María —
mundi kunna
ek mik augum hans
opinnbera,
einsok upprisnir
Endurlausnarans
af vottum víða
verða sènir?
En máske yrði
ummyndaðr
hann til fullfagrar
forklárunar,
svo sem bæði senn
Semídam hans
ok sælann svanna
Cidli skeði;
O þú kæra kvöld,
kvað Lazarus,
er mik í þessu
öðru lífi
lífa lætr nú
líknsamr Guð,
fagra kvöld fullt
af farsældinni!
hve mèr at hátíð
heiðarligri
Guðs pílagrímar
gjöra nú þik!
Hvörsu mjök mundi
María gleðja,
ef hún enn lifði,
yfir þèr sik?
hvörsu mundi hún
hógvær spyrja,
hvörjir raun rèttri
sèu reisendr
ok hvör af þeim sè
ódauðligr,
orðinn einn meðal
uppheims búa?
Ef ek — þèr innti
hin ódauðliga —
minn bezti bróðir!
birtast kynni,
skylda'k skíra þèr
skilmerkilega,
hvörjir helzt sèu
í ham af dupti
ennú ódánum
um-reykendr,
ok hvörjir hinir,
sem við hel lausir
eins ok aðrir menn
yðr birtast.
Lát þèr, Lazar,
vera ljóst merki,
at þeir sem eru
ódauðligir,
hafa þá hátign
sem hyljast kann
eigi jafnann öll,
ok því stundum
þeir einsok englar
á yðr horfa,
gætnir ok glöggvir
geta það sèð.

En svo er sögu míu,
sem ek þetta
tali til lækjar
tóms ok grafar,
Lazarus mál mitt
má ei' nema,
heyra líka lítt
lækr ok gröf.
Þó vil ek mik enn
indisligu
þánka táli því,
þik, minn bróðir,
at ek átt geti
orðastað við,
einsok áheyrðir,
ofurgefa.
Einn þar við álmtrèð
aldraðr maðr,
með hár á höfði
harla fagurt,
rètt sem reisumanns
rauðleitann staf
hefir í hendi,
þat er Húsaí.
Yngismaðr einn
atkomandi
lætr sik líta
við lækjar bug
alvarligr, ok
upptil himins
lyptir sjón sinni,
sá er Jetró,
mikill fjármaðr
frá Midian.
Sjá hún er sveipuð
sem í gufu
blæu, berandí
belti' af gulli,
mærin Megiddo
meinleysit sjálft,
dægilig ok dygg
dóttir Jeptæ.
Hafði sífeldt sjón
sína festa,
þó nú þegjandi
at þessu mæltu,
víf á vors Herra
enum vöknuðu;
jafnanu ferskrar full
ferundrunar
ok mjök indællrar
yfir þeim heimi,
er hún í var nú,
umskygudist hún.
Grenslaðist þar grannt
eptir gjörvöllu,
umbreytíngum eins
allra minnstu;
hvervetna hlutdeild
enni heitustu
trausta takandi
í tilfinníngu.
Nú merkti mærin
hvörsu margstreugjuð
hallaðist hnígin
harpa Kóres
með lágt látanda
lotufalli
þarupp at einu
olíutrè;
Nú hvörsu honum
hans Jedítun
við hörpu hengði
hárra blómstra
krans fullanu ferskra
fjörugra dampa.
Ok nú upplengra
hvörsu álmtrè við
viðbindi vindr
vitur Rahel,
enn hyggr hún at,
hvörsu nálgast
hèr Rahel Hapúk,
sem hjálpa vildi,
ok þó uppgötvar
opinberanir.
Þá er forðum fèkk
fjárhirðir einn,
sem hèt Zalmona,
saung heyrt engla

við bygð Betlems,
þá barni fæddu
dýrðarlof lèku,
er lá í stalli,
yfirvættis í
upptendrun hann
dýrrar dásemdar
dó af gleði.
Nú var hann á ný
uppaf ná vakinn,
hjá Betlems hirði
hinum eldra,
Jesse syni, sá
sæl María
hann við hlið standa
honum sem næst.
Þeir báru báðir
beitar stafi,
báðir mundu menn
af mörk komnir,
eptir uppvöknun
enna frómu
ok uppvakinna
opinnberun
grandgæfiliga
grensluðust þeir,
ok lètu um allt
sèr undirvísa.
Veik sèr ok vendi
við at nýu
loflig María
til Lazarum:
sjá, hann tekr sik —
segir hún — upp,
ok býst at birtast
brátt hinum únga,
sem við Sternons hæð
hans móðir ól!
Ek sè af ítrum
augna-glansa,
Elífas ætlar
at opinubera
saunfarsælum sik
sveini þessum!
ó hve nærri nú
nákvæm venda
eptir honum öll
augna-svif hans!
Ok hvað hann okkr
allmjök nálgast,
hann þèr samsíða
sezt á leiði,
ennú sèr ek hann
ekki lengr,
hvörsu hastarlig
hambreytíng varð,
er hann ásýnd manns
af sèr lagði!
tíðir hann Tabors
tind enn háa
þegar aptr á
upp at stíga.
Dvöl hjá oss, Heman,
haf þú nokkra;
lát minn Lazarum
líta þik hèr!
ó lát mik líka
líta mega
fagnaðarfulla
forundrun hans
yfir engil-ljóss
ásýnd þinni,
ok hans indis-tár
at ek sjái;
Honum, kvað Heman,
Herrann sjálfr
egin vegsemd í
opinnberast,
ok nær uppstígr
Endurlausnarinn
af fold til Föðurs,
forklárun mun
bróður verða veitt
veglig þínum!
Æl þèr æðsta Guðs
ódauðligu! —
mælti María —
mun forklárast
Lazarus líka
ok í ljómandi

himins híbýli
hefjast með oss
upp til ljóss erfðar
ævarandi?
Til þeirra þúsund
þúsundsinnum,
frumburða flokks
af fagri sköpun,
ok til útvaldra
allra skara
at sjálfs Guðs sælum
samdýrkendum?
En þú brátt fer burt,
bróðir, frá mèr!
gekk svo frá greindri
gröf Maríu
Lazarus á leið
heim at laufskála.

---

Kneus sat einn sèr
á svölum mosa,
þannig þenkjandi:
ó þèr farsælu,
sem þat allt sáuð,
hvörjum sik hafa
enir upprisnu
opinnberat,
ok sjálfir sagnir
sannfæríngar
um líf ókomit
egin-heyrn merkt
af Guðs sannsöglum
sendiboðum!
En ek hefir ok
öðlast gæfu,
hvörjum þrávalt þeir
þat allt greina;
heimska væri víst,
vilda'k nú meir
um þat efasemd
ala nokkra,
bæði blekkjandi
ok blind heimska.
En hvað skal ek þá
upptaka ráðs?
skal ek þjóna þeim
sem þrælka ok eyða
með stríði' ok styrjöld
storð ok lýði?
á ek at offra
Olymps Guði
skruggu skjótanda
skúrgoða fórn!
Ok við örn sverja
útat hella
undirokaðra,
fyrir aungva sök,
rèttvísara ráðs
rekka blóði?
ok sè því úthèllt
æ veita fylgd
stríðsherrans stoltu
stærilæti,
ok með ráðríkum
Rómaborgar
sigrendum svelgja;
skal ek sverja þat?
þareð nú þánkar
því gagnstæðir
öll á annann hátt
útskírð láta
fyri mèr forlög
fólgin manna
þessa heims ok hins
enn hèrtil var!
Farið framnvegis,
far vel jafnann
sèrhvört sigurhrós!
sömuleiðis
hauðurs ok hölda
hernemendur!
ok þèr afguðir
allir samann!
Honum hèðanaf
helgar ek mik,
með sannleik sínum
sem mik fræðir,
himneskr hvörs
ok hár sannleikr

forlög manna mjök
mönnum opnar,
auglýsir oss
þat hið ókomna,
ok þá úrgreiðslu
sem er í vænd!
O! mèr, æ sèrt þú
uppfrá þessu,
ó Guð Guðanna,
Guð alleina,
ok mik æ jafnann
eptir þetta
lát at lyktum framm
leiðast af þèr!
Osk hans uppfylltist
undarliga,
er hann Elihús
opinnberun
sá með sama
fyri sèr standa,
ok heyrði herma
hjálpræði Guðs.
Forundrun frómann
fèll á Kneum
af þeim atburði
óforvarandis,
at Guð yfir hann
aumkaði sik
með svo mikilli
miskunsemi.
Laungu var sýn sú
svifin á burt,
ok í anda heim
aptr farin,
þá er þó lengi
þareptir hann
á stað þann starði,
þar hún stóð áðr,
ávallt heyrði hann
þat hún ræddi,
æ voru orð lífs
fyri eyrum hans.

---

Bljúgr í brjósti
Betóron var
ok í allri sál
inniliga
komst við af Kristi
kærleiks hita,
er hann æ hafði
óbreyttann reynt,
en þótt hann eittsinn
áðr at verða
ei sèr ljúft lèti
lærisveinn hans.
Sèr við at verða
veigrat hefði
nám-sveinn þess, er nú
var af ná risinn,
þess sem nú sendi
sínum vinum,
enum ástkæru,
upprisna menn,
hvörjir þá himins
meðr háleitum
fögnuði fylltu,
svo flaut yfir.
Hvað? at ek ennú
elskaðr sè?
ek þat at þenkja
þora skyldi?
þvílík hugsun hans
hjarta píndi
ok sú und honum
innann brjósts svall.
Þennann, sem þyggja
þurfti svölun,
leit nú Lazarus
í lundi staddann
einnsamann útaf,
en eigi gat
honum hagkvæma
huggun gefit.
Brátt fór Betóron
burt af lundi,
ok í gaungum garðs
gaf sik um kríng
um leið liðuga
ens litla skógar

í flokk framandi
ferðamanna;
Ibland ókenndra,
er sik gátu
sýnt sem dauðliga
nær svo vildu,
ok verit allteins
ódauðligir,
gátu bæði birzt
ok birtast viljað
öllum öðrum
en eigi honum.
Hann við nokkra nú
náði tali,
en snèrist aptr
undann og grèt,
ok var einúngis
áhlýðandi
þat sem þeir ræddu
þar við aðra;
Hann gekk um gólf
með Gerson nokkrum
prúðum frá Paros
pílagrími,
er var Elihú,
einn vinur Hjóbs;
Betóron bar framm
at beiðni þessa
gjörðir Guðs Sonar
guðdómligar;
Þá hann í heimi,
meðann hèr var lífs,
góðann lærdóm Guðs
gjörði kunnann,
sterkra stórmerkja
staðfestandi
klára kenníngu
kraptaverkum.
Ok nú upphrópar
Elihú brátt:
ó sælir eru
þeir hann útkjöri
ok setti sjálfr
sèr til votta!
þetta þrengði sèr
þegar ígegnum
ena böl-beygðu
Betórons sál;
Hann nú heldr
af hins útliti
þóktist skynja skírt,
at ei skyldt ætti
Gerson par Paros
pílagrím við;
Gerson fór í flokk
sinna fèlaga.
Þenkti þá með sèr
þannig sjálfum
Betóron: bæði
bifun augna,
ok raust, sem ræddi
með róm stundum
þeim, at þvílíkann
þekkta'k ei fyrr;
kynja kröptug orð,
klár sannindi!
En hví þenkir ek
eptir honum,
ok eyk önd minni
enn meiri kvöl?
ó! vert einúngis
þú enn útsendi
ódáinn, enn ei'
ódauðligr!
Kom Gerson kæri,
kom til baka!
en hann kemr ei'
aptr til mín;
er sá enginn hans
ásetníngr,
at mèr auglýsist
yfirgefnum.
Hafði' af hendíngu
hvarflat orðit
Betóron á burt
beint til lækjar,
sem um molda mið
Maríu rann;
en sem einförum
arkar þannig

hugar þrúnginn hann
hitta mundi
hann nú einn annann
ókenndann sèr.
Tók í hönd honum
hýrliga þessi
ok varð hans vinur
í því vetfángi,
ok með sama sèr
sál úthèllti
Betórons, beisku
bundin ángri,
hann um köllun Krists
klökkur ræddi,
um veigrun sjálfs síns
enni sömu gegn;
Svo ok um sèrhvað,
sem hans innri
gegnum geysaði
gjörvöll fylsni,
hvört enn sem áðr
Endurlausnarinn
hann, eðr ekki,
elska muni?
hvört sèr ok hvönær
hann mundi brot,
þat er framdi fyrr,
fyrirgefa?
O! seg hvör ert
þú enn ókenndi!
hvört þú átt heima
meðal himneskra?
sèrt þú einn — sagði hann —
enna sælu Guðs,
er sik hans Sonar
sýna vottum,
svo lát þik sigra
mína sárbeiðni;
Æ burtsnú augum
eigi þessum
svo fleyti-fullum
frábærrar elsku!
mèr aumum mjúka
miskun sýn!
veit mèr vesælum
vorkunsemi!
Ek bið þik eigi
um umbun himins,
um líku geðgæðsku
grátbænir ek;
svo haf samlíðun,
sveinn frá Guði,
aumka mik, ítri
ýngismaðr!
Minn vin! sjálfr
sagt þú hefir
við mík at vinur
værir þú minn!
þèr ek varla þat
þori at segja
uppkveðnum orðum
um hvað beiði.
Svo lát mik sjá þik,
sendiboði
hans, sem uppreis af
andláts svefni,
þess, er mik aumann
eittsinn kjöri
sèr lítilátr
til lærisveins,
þeim ek þó eigi
þág at fylgja.
Loks gat ei' lengr
leynst Jedidot,
heldr fèll hinum
um háls ok tárum
ásamt úthellti,
uns Betóron
hnèg megin-miklum
midt í geislum,
ok honum hvurfu
himin ok jörð,
nú fólgin fyri
farsælls augum.

---

Semnó svaraði:
sælann líka
gjöra mundu mik,
*mætta'k þær sjá,*

enna önduðu
opinnberanir,
en til at telja
trú þar um mèr,
at sè upprisinn
Endurlausnarinn,
er ei' þeirra þörf,
ek þat veit gjörla.
Allvel þekkir ek —
kvað hinn upprisni,
er nú var at eins
erlendisfari —
fasta fullvissu
þíns fróms anda,
ok þá hugskots hægð,
með hvörri þú
ransakar rètt
ok reynir hluti,
hvörra svo við sjón
sál vor reisir
sik upp, sem ægir
í ofsa vindi.
Ei' meir orðlengði
hinn ódauðligi,
en at endíngu
ályktar svo:
óuei, ek honum
eigi birtist;
mundi máske hann
með sínum himni,
allt hvað sterkr er
andi hans þó,
opinnberun ein
ofmjök skelfa.
Hann mundi máske
missa hljóta
rósemd lengra lífs
sakir lángt færri
sælustunda, sem
svo skamm-vinn not
ununar ollu,
svosem öl-teitis!

---

En um allt þetta
Endurlausnarinn
stór á Tabors stól
stóð ok lagði
dæmandi drygða
dáðverknaðar
mið ok meiníngu
á met ok vog;
hann sá ok hvílík
hóp þann skeði
sæla, sem dvaldi
í sal Lazari.

---

Bersebon, einn af
aumum tíu,
sem líkþrár lækníng
Lausnarinn gaf,
einn snúinn aptr
at inna þakkir,
heyrði hjá pálma
hríngsetnu trè,
nær því nálægðist,
næsta mikinn
gjallanda af Gitít
glaum, ok hörpum,
ásamt Asóor
með eining hljóms.
Með eyrum, einsok
öli-glöpnum,
ok með indællri
yfirstreymíngu
fengins fagnaðar
formerkti hann
gáng ok glíkíngu
glaðra tóna,
ok furðu fljótar
fljúgandi myndir
svifu samstundis
um sál honum;
En brátt bar fyri
brúna-ljós hans
manna myndir
við meið pálma
blikandi, enn byrgðar
bjartri þoku,
ok sem hann sá þær
saungva-tón varð

harpnanna hvörtsinu
himin-fegri;
Fagnaðar felmtr
fèll yfir hann,
í því ein þeirra
ágætu mynda
nálgaðist nú,
ok nákæmliga
tók í hönd honum,
ok hann leiddi
bráðhendis burt
í hið bjarta ský.
Þá hann var þeirri
í þoku staddr
opnast mundi mörk
mikillrar víddar
forkunnar fögur
fyri honum;
svo leit hann ljóma
ljós yfir henni,
at hann áðr slíkt
ei' hafði sèð.
Einu hann ávarpar
ódauðligr:
ánga brjót þú oss
af eik pálma!
hann fór mjök hræddr
ok hvörjum þeirra
braut af blóma trè
blaktanda kvist,
en einu af þessum
ódauðligu
honum gjörði grein
gefa sína.
Fagnaðar felmtr
fór nú allr
burt frá Bersebon,
svo hann brátt ræddi:
eruð þèr eigi
ofannaf himni
híngat — kvað hann —
á hauðr komnir?
Vèr erum — ansar
hinn ódauðligi —
aptr uppkomnir
útaf gröfum;
erum af dauða
upprisnir menn.
Þá spyr Bersebon
brátt at nýu:
Hefir hann yðr
frá heli vakit,
er mèr eittsinn
frá allnálægum
bana til baka
bauð at hverfa?
Kristr — kvað hann —
hefir kallat oss,
er hann andaðist,
upp af jörðu,
til at öðlast eitt
ódauðlegt líf.
Hvörsu lengi hèr
hafa munuð —
aðspyr Bersebon —
bið á hauðri?
hinn ansar aptr:
eigi lengr
enn sá er oss
hefir uppvakit!
Frètti Bersebon:
búist þèr við
hèðann at hefjast
í hæð með Kristo?
með Kristo mínum,
mælti hinn annar,
hefjumst frá hauðri
til himins vèr.
Fer — kvað Bersebon —
brátt frá jörðu
Guðs enn fórnfærði
Friðþægjari?
mun hann sik hefja
til himins brátt?
þat ei vitum vèr,
var þá svarat.
Mèr — kvað Bersebon —
bið ek mína
freka forvitni
fyrirgefið,

at svo dirfumst ek
opt at spyrja:
mun ek nú eiga
ólifat skammt?
vèr þat vitum ei,
var þá svarat.
Hve varð yðr við
þegar vöknuðuð —
spurði Bersebon —
af blundi dauða?
þá ansar enn
hinn ódauðligi:
einsok Adam varð
á þeirri stundu
sköpun hans skeði
af skauti jarðar;
eittsinn mun þèr ok.
uppaf jarðar
blundi básúna
bjóða' at vakna.
Ok með þeim orðum
í einu hvarf
öll hins uppvakta
opinberun;
orðlaus stóð eptir
sá enn ódáni
lánga stund, ok lèt
litit víða
umhverfis eptir
enum dauða.
Ei sá Bersebon
blakta pálma,
þar hljómat höfðu
harpa ok Gitít,
merktist eigi meir
hið minnsta hljóð,
engi gall nè gól
gullinn strengr.
Var nú vegliga
vinskapar sú
hátíð haldin svo
helg Lazari
indisligum í
aldingarði,
enir upprisnu
ok ódauðligu
hana með honum
hèldu líka.
þeir sèr þar at eins
þenktu at skemta,
en fengu fullann
fögnuð himins;
svo mun verða víst,
þegar vèr deyum,
vèr frá volæði
væntum hvíldar,
en oss gefst eylíf
unaðsemd Guðs.

---

### Hèr hefr
## átjándu bók Messías.

Adam auðmjúkr
inniliga
til fóta fallinn
Frelsaranum
brennanda brjósti
bað ok sagði:
Hafi ek fyrst fundit
fyrir þèr náð,
mikli Messías!
mèr gef leyfi
fáein sjónar svif
at senda á þat,
er þín endurlausn
af sèr leiðir.

Ek mun þat, Adam,
allt fullkomna
á hinum efsta
allsherjardómi;
skunda fjær, skýl þèr
í skugga pálma,
þú skalt fyriframm
fá, þó mýktar,
nokkrar síur sèð
síðasta dags;
Fór þá Adam í
eika skugga,
sèg at honum svöfn
sem í skauti
prúðri ró prýddrar
Paradísar;
fylgdi vitran veitt
værum blundi;
Hann kom ríg-reyrðr
rammri furðu,
ok gekk yfrit seint
aptr til flokks
enna upprisnu
ok engla skara;
kríngum þyrptust þeir
þjóða föður,
með girnd mjök stilltri
mælt at heyra
um sèðar síur
síðasta dags.
Settist Adam á
eina' af hæðum,
hinir höfðu sess
við hennar fót,
frammi fyri þeim,
er fengit hafði
nákvæmrar náðar
nægð af Kristo.
Á dýrum degi
Drottins einum,
er í einrúmi
allglaðar stundir
fyri mèr flugu
framm á vængjum
hálfbirtíngar húms
í hönd faranda,
ok ek einn var
í eptirgrenslun,
gekk helg gagnvart mèr
gyðja Síons.
Aldrei eins hafði
auglýst sik mèr
mæriu spá-spaka,
sprunds ásjána
aldrei eins mikla
eylífð borit;
lèt mèr súngnar sú
sjónir Adams,
ok varð sjálf orðlaus
opt meðann saung.
Glóðu vífs vángar
sem væru kindtir,
þrengði sèr þá inn
þekkjanliga
í hennar eldheitt
andlit bleikja
harla hastarlig;
hrópuðu varir,
þó þúngt stamandi,
þytharða reið;
störðu sterkliga
hennar straung augu.
Hraut þvínæst harpa
úr hendi stirðri,
fagrann fljúganda
fljóðs kríngum hadd
hristist en helga
hennar króna;
þó hóf ok hresti
hún sik aptr,
rann þá rètt sèrhvört
rósemdarbros
ennar eylífu
í andlit henni.
I hæð, hafandi
hundrað vængi,
með sterkra storma
stigu til Guðs
fljótasta flugi
enir frumgetnu

sálar synir þá,
sönnustu þánkar.
Svo höfðu saungmær
sèð mín augu,
ok horfðu hèrnæst
frammí húm nætur;
hauðr, helbeð minn
hendi vinstri
ek lèt áhrært,
en upp á meðann
hèldt enni hægri
móti himninum.
Þèr sem gángið grund
eða gröf byggið,
ek vil, hvað orka,
yðr sýngja;
þúsund þánkar
eru þeir sem ek
fèkk ei með flugi
fylgt svo næði;
Þúsund eru þeir
sem ek þarfnast til,
svo fái sagða,
saungs ok raddar;
þá eru þúsund
þúsundsinnum
sem hún lèt hulda
fyri heyranda.
Adam tók þá til,
talandi straumr
frammflaut af vörum
ens fyrst skapaða:
svo bráðu svifi,
sem einn Kerub
þánka venda veit,
varð ek fluttr
meðal mikillra
manna skara
af fyrr önduðum,
upprisnum nú.
Engin endimörk
afskömtuðu
feikna firnindi
fólks upprisu,
ok þat allt vorn
afkvæmi mín;
ó þú, alls sem er
eylífi Faðir!
ó hvílík undr
á at horfa!
hvílík hans tilsýnd,
er á hástól sat
Adams afsprengi
allt at dæma!
Frelsarans feður
ok flokkar engla!
hvörsu knátt kenndi
ok kröptugliga
ek þá, hvað er
ódauðligleikr!
ek sá allt þetta
ok hèldt lífi!
Sjáið sá dagr
síðar kemr,
hèr þann, sem ek sá,
sjá munuð þèr,
ok þá mun einnig
eylífð koma;
enginn orka mun
yðar á meðal
at segja sèrhvað
er hann sèð hafi;
æ! hann ok skryddann
uppá tróni
drottinnligri dýrð
Dómarann sá!
Adam fèll flatr
á fold niðr,
ok hóf auðmjúkr
ununar bæn:
ó hvað þú hefir,
Herra Jesú!
góðfúsliga gegnt
minni grátbeiðni!
Af þíns dómadags
dýru geislum
ek nokkra neista
nú hefi sèð
ok heyrt álengðar
öskra nokkrar

dóms þrumur þínar,
þú Sonur Guðs!
Eptir þat uppstóð
allra manna
frumfaðir aptr
ok fèkk svo rædt:
lengi, svo leizt mèr,
liðins tíma
varat hafði við
voldugr dómr;
Næsta margir nú,
er ek nálgaðist,
voru þá þegar
þaðra dæmdir;
sjá dagr sólar
síst var nokkr,
útslökkt eðr byrgð
áðr var hún.
Frá tiggja tróni
tíginn glansi
furðu fagr
ok fæliligr
skein yfir allt
hið afarvíða
ítrar upprisu
ógurligt rúm.
Kristnir at koma
voru kallaðir
frammfyri Guð,
þeir fólki kristnu
allir sem árás
ok ofsókn veittu,
ok fyri lofligs
lærdóms sakir
um myrðtann mesta
mannanna vin,
ok um hjartans ást
inniligustu
til bræðra, bræðrum
bana færðu.
(Öllum innvortis
ofbýðr mèr,
ok mín stirð augu
af ángri líta
offurs altari
nú aptr hjá
Abel í sínu
egin blóði
dygðugann deyddann
af dólg vondum.)
Hinn klári Kerub,
sem þá kallaði
frá stillis stóli,
stíginu ofann
at dómstað opnum,
öflugr stóð
uppá hæðum hans,
ok hellti niðr
fleytifullum tveim
á fold skálum,
einni tára, en
annari blóðs.
Nær í tár niðr
nú rann dreyri,
ótt snýr engillinn
andliti sínu
at Herrans hástól
ok hrópar þannig:
þú hefir þegar
þau öll talit!
sè ró sárpíndu
sakleysi, því
sem þessum sáði
sorgar tárum!
Mjök svo miklaðist
múgum engla
ok öllum öndum
enna frómu,
þá sèr og sjálfr
sá er dæmir
vendi við, ok leit
vinar augum
elskufullum á
ena deyddu;
Með svo mildri sjón,
at megnar engi
lofsaungr ljóð,
eða lífsætri
sálar unun af
upptendruð bæn,

til fulls at tjá
nè tala um hana.
En flokkr allr
aflífaðra
stóð þá ok þagði,
þeir voru nú
allteins ok áðr
þegar önduðust
fullir mjök mjúkrar
meðaumkvunar.
Minni meðaumkun
miskun aungva
hafði hardt tillit
þess ens heilaga,
sem nú sik upphóf,
svo at hefndi
öskunnar af þeim
enum deyddu;
Ok þeirra augna,
er þeir síðast
höfu til himins,
áðr helsvöfn þau
at fullu ok öllu
apturlukti,
þau er þá einnig,
þegar sprúngu,
báðu blídt um náð
bana mönnum,
síðann með sætri
sofnuðu ró.
Heil sè — hrópaði
hár mannvinur —
öllum þeim indæl
eylífðar sjón,
er sjálfir offur
alblóðugu
með glöðu geði
ens guðdómliga
offurs altari
atlögðu sik,
ok nú eptir hvíld
alda fárra
uppvaktir eru
aptr til lífs!
En ógn ok kvalir
ónefnannligar,
allskonar eymdir,
einn ok sèrhvörn
grípi grimmliga
guðlastara!
Alla sem yfir
offrin hófu
morðíngja mækir,
ok manndrápsverk
á hins eylífa
unnu vottum,
eðr at helgu
ösku dupti
á bóli brenndu
bein þeirra felld!
Hví mundi' en háa
hafin blakta
kross-fána, kærleiks
klárast vitni,
hvar til mundi hún
svo hátt veifast,
þar sem þèr drápuð
þessa bræður?
Ok hið æðsta nafn
yppurstu dýrðar,
hvörju sik hnegja
hæðir ok djúp,
nafn þess, sem nýrri
nægð af miskun
blæddi fyri brot
bræðra sinna,
alls mannskyns mergðar
hið mikla nafn
einnig þorðnð þèr
þar at nefna,
sem þúng þrumu raust
yðr þrykkt hefði;
Eðr, svo yðr
í sèr græfi,
hauðr hefði sèr
hratt upplokit,
væri' yðr eigi
allt á þessa
ærit óvægrar
ángistar-stund

hefnd samansöfnuð
ok sár-reiði!
Látið nú litit
loks til baka
ens dymma dauða
dali gegnum;
í hið liðna líf
lítið aptr,
nær í dælskum draum
dáraskapar
yðr meintuð með
manna blóðsfullum
höndum hremmt geta
himins kórónu.
Sjá enna sömu,
er sáuð þèr
andlit afmyndast
við andlát þeirra,
ok næm náttúru
nötran sterkrar
ígegnum öll bein
enna kristnu,
en gegnum andann
eigi, gosin;
Sá rètt ríkjandi
rósemi með
frá dauða-dofnu
dupti snèri,
ok með ljúfri lund
lèt nú vindum
trúat til rofa
af tjaldbuð sinni,
uns krafin yrðu
af þeim á ný.
Þá líka' í loga
lofgjörð þeirra,
uns bál ok bruni
bannaði þeim
at geta göfgat
Guð með saungvum,
þetta sèrhvað þá
þèr áhorfðuð
með ró manneðli
mótstríðandi;
hvað er orðit af
öllu því nú?
Mörg þúsund þakkir,
þýð tilbeiðsla,
heiðrun hátíðlig,
heilög unun,
stórum stilli,
sem stjórnar öllum
himnanna himnum
með hæðstu tign,
ok bezta bróður
sinna blóðvotta,
at nú er dauði
engi framar;
Í stað sturlanda
stuggs af honum
inntók ok umvall
upprísendur
indisligr einn
undrunar skjálfti,
þá er fluttu framm
fljótir vindar
drafnat dupt allra
dauðra manna,
ok gekk inn gegnum
gjörvalla svo
náttúruna nú
ein ný sköpun.
Þá stórum streymdi
stamandi kliðr
í hæð af háu
Halelúja!
í stað auðmjúkra
aumkunar bæna
hátt lèt: heilagr!
heilagr! nú
gall í gleði saung
guðdómligt nafn
þess sem öllum er
ósegjanligr!
Kröptugs kæranda
var klögun þessi,
honum einn annar
eptirfylgdi,
gekk framm efldr ógn
ok svo mælti:

þaðra líflátnir
líka standa
þeir eð þó eru
þeim hinum jafut,
sem á þeim unnu,
útskúfaðir;
Frammferði þeirra
hefir fordæmt þá,
tafn ok tilgángr,
sem þá tendraði
hvervetna á hæðir
hefðarmestu
til at tilla sèr
trúarbragða.
Hvað djúpt sem dulinn
drambs þánki sá
hjá þeim hvildist
í hjarta þeirra,
ok hvað mjök sem með
marmara prýði
gjörð öll glæsilig
gröf þessi var!
Sá þat sjáandinn
af sínum himni,
en þèr víst eigi,
ok þótt sæuð
þorðuð þèr ei' enn
þann at deyða,
er þá at eins var
auðvirðiligr,
er þèr hann, einsok
ómanneskjur
löðurmannliga
af lífi tókuð.
Hvað þèr höfðust at,
heyrið af mèr!
í Herrans háum
helgidómi
engi var annar
yfirdómari
enn sá eini,
sem er eylífr.
Þá sinnar þorðu
þeir enir kristnu
vanhelgun veita
vegsemd trúar,
nær sem syndarar
í söfnuðinum
ofmjök, auðmjúka
fyrir utann bæn,
sjálfum Syninum
sik nálægðu;
Ok af fáfengri
fullir þegar
meiníng, at mundu
í myrkvum orðum
eins ok augliti
til auglitis
fá hann fullskoðat,
forgleymdu þeir
at öllu leiti
egin-dupti.
Síðann sjón-villir
sáu tilbaka
hann ennú eigi
utann í draumum,
ok af sjálfum sèr
svo mjök tældir
hèldu þeir hiklaust
hann væri þat;
Samsett bílæti
síðan í gær
í heila helzt til
heitum borit,
hann sem á hálsi
höfuðskelja
alls einusinni
offur gjörðist;
Svo var enn sami,
sem fyri oss
eittsinn gekk inní
hið allrahelgasta,
helzt til nærri hèr
helgidóm sínum,
seka syndara
svo hann dæmdi;
At eins augnabliks
umráðendur
snart at gröf gjörðra
grafarbakka

koma þyrftu þá
þar til hjálpar,
hans fyrir hann
at halda á þrumum,
þá dirfðust þèr til
þat at gjöra.
I staðinn streytu
ok stríðs með ótta
sífeldum, sjálfs þíns
fyri sáluhjálp,
upphófst þrjózkr
þitt járn-enni
á meðal maðka
moldarinnar,
hljópst ok helvítis
harðkvælum stalst,
til at þjá með þeim
þína bræður;
Ok svo yfir þá
úthellt fengir
beiskum blóðdómi
brynjaðir þik
með heipt ok harðúð
helvítligri,
klaktir út köldum
kvala-dómi!
Hvör má nefna nú
neyð ok pínu;
hvör má herma dóm
harðrar reiði,
sem æðir yfir
yðar höfuð?
tak þik upp ok æp
ákæru raust,
nefndu nauðir þær,
nefn þær kvalir,
ó þú allt blóð,
sem þeir úthelltu!
Sjá hann sitr
á sínum tróni,
hróp þitt at heyra
ok hefna benja
allra sem afrannst,
ok ásamt þèr
sjálft líf sómafullt
enna saklausu!
Þá er þessi lèt
þrjóta ræðu,
fetaði framm
útaf fögrum hríng,
er trón umkríngði,
honum allnærri
einn af öldúngum
alvörufullur,
ok með ígrundun
ærit djúpri;
Mannkærligann mjök
Messíæ vin
þrátt hafi þèr sèð
þann í tölu
lærisveina liðs,
er Lebbens hèt
fyrrenn fór til Guðs,
en fengit síðann
hans ið nýa nafn
nú er Elim,
eptir ypparligs
engils heiti,
sem hans á hauðri
handleiðir var.
Þessi sagði svo:
sjónum mínum
lít ek frá lífi,
sem lifðuð þèr;
dreyra drýpr þat,
dráp sakleysis
mörg þess mann-ægann
mála feril.
Frægu forn-stundir
frumsköpunar!
þèr sem forðum fyrst
frammkölluðuð
sálir, svo væru,
sem fyndu til
ok hugar hræríng
hefðu slíka,
þèr dimbil-dægra
döpru stundir,
húmfullar, helzt til
hræðiligar!

O hvörnig ek skal
yðr nefna?
voruð þá þegar
þèr vottar dóms,
þegar bölvan bist
ball á Eðen;
þá fyrsta fjör-tjón
ok hið frumkveðna
nauðkvein næsta hátt
náttúrunnar
formælíngar feikn
fullkomnuðu?
Ok snèruð aptr
einúngis þèr
til foldar fergðrar
undir formælíng,
æ! hins efsta dags
úthrópendur
ok teikna túlkar
til at verða?
Þèr sem af sanuri
sæms manneðlis
tign ok tilfinníng
tómar sálir,
sjá, þessar sálir
sett hafið framm,
ok loksins afhendt
eylífðinni!
En sköpun skakka
skóp sik eigi;
ó nei, sjálfir sik
svo skópu þeir!
en látit ósagt
uppat tróni;
þegið yfir því
þar sem egu
enir sannsælu
samastaði,
at þeir sjálfir sik
svo hafi gjört
með vondsku vesöld
vanskapaða!
Ok mun ek ennú
yfir þeim gráta?
yfir þeim ekki!
en ypparligum
mannsins mikilleik,
er mjök svo lángt,
já, ærit oflángt
frá augna miði
skærrar sköpunar
skildu þessir,
yfir honum ek
úteys tárum.
Engi meðaumkun?
æ! þèr sáuð
sára sálar neyð
enna saklausu,
þeirra djúpt dregnu
dauða hrígln;
eigi jafnvel í
yðvarra sina
nokkri nötur-taug
enni næmustu
sárast ok síðast
sorgarkvein þeirra
minnstu viðviknun
vekja knátti.
Er þó hjá öðrum,
þá er eitt sáu
brennheitt frá brjósti
biðjanda tár
af grátnum augum
ofann falla,
gegnum gekk þeirra
gjörvalla sál.
Ei krefst af yðr
ek at sönnu,
at af indælis
ótta helgum
við sjón sakleysis,
er sárt líðr,
skulið skeknir
ok skelfðir verða;
sorg því sárari
sakleysit bar,
þá verðr þarvið
þessum rèttlátu
at þeim mun meiri
meðdeild sæla.

Þó ætlast ek til
í yðar fari
at merkist maklig
manneðlis spor,
lítil ljóss skíma,
líkt sem rökkur,
sálar íbuð af
ódauðligrar.
Yðr verði vei,
vorkun engi!
ei fenguð aðgætt
orm jarðar þèr;
án þess at sæuð
í hans kæti
Skaparann skína
í skærri hylli!
hèr yðar augum
ei' til himins
gátuð lypt látið,
nema lituð þar
enn mikla mildíng
miskunsemda!
Þèr at vísu þó
þeim til himins
aldrei upplituð,
aldrei grètuð,
aldrei yfir mann
aumkuðust þèr!
svo heyrið hefnd þá,
sem hept var lengi,
en nú æðir framm:
sá er allt dæmir
yðr aungva líkn
auðsýna vill!
Ameðann Elim
ennú ræddi
við dælska dolga,
sá enn dæmandi
vendi sèr við
á veldis stóli;
sjá, hann í svífi
enu sama leit
augum allskonar
ógn berandi
til eins af öflgum
englum dauða.
Hvörsu má ek hans
í hríng skundandi
sjónar svif greina,
ok sára reiði
orðum útmála,
sem frá augum hans
ofsafull útgekk,
ok ógn raustar
sem hann mælti með
morðengils til?
Bauð hann Seraf svo:
svíf þú niðr,
áhrær þá ok aus
ógnum drauma
yfir þá út,
svo anda þeirra
nauðskelfðum nálæg
nýstandi kvala
feikn ok fordæmíng
fyrisveimi;
ok þeim endurgjalds
uppbyrjun sè.
Svo ræddi reiðr
ramma skelfíngu
Dómari dólgum;
en dauðans engill
skundaði skjótt,
sem skyndi þánki,
útjós yfir flokk
ofsækjenda
níðdymmri nótt,
ok nálgaðist þá.
Hrópaði hann þá
sem hörð þruma:
fylgið fljótt eptir,
farið, sjáið!
gekk hann ótt undann
ofsækjendum,
ægann auga stað
á þeim hafði,
ok gaf sik útí
óskapanótt;
afgrunnit upplaukst
fyrir englinum.

Augu mín urðu
opnuð líka,
svo at ek sá
þat er sáu þeir;
brátt, svo ei' sæu,
sínum vildu
þeir ógn andlitum
undannsnúa,
en þeim almáttr
eylífs Sonar
stirðum ok stífum
sem steinum hèldt.
Þannig stóðu þeir
þá ok horfðu,
láu ber-blásnar
beina-grindur
um þau ángistar
öræfi laung,
sterkr storms ofsi
stórum æddi,
greip en beru bein,
en þó bifuðust.
Samstundis sèrhvört
sagðra beina
ræddi sinni raust
ramma bölvun;
ek burt frá ógnar
öræfum þeim
upphóf augu mín
ákallandi
þann, sem þeim miskun
þýða veitir,
sem yfir aðra
aumkuðu sik;
A meðann ek var
enn at biðja,
af flokk útkomu
enna deyddu
hundrað í hvítum
heiðurs klæðum;
hundraðs her úngra,
hvör fyri sik
var eitt vor blómstur
vaxit Eðen;
sèrhvör sól-morgun
sæll upprisu.
Kætifullt klíngði
komenda flug
mjök lystiliga
líkt ok saungr;
ó hvílík unun
á at horfa,
er þeir atsvifu
Abels bræður!
Hèrnæst helgum
fyrir hástóli
lögðu þeir á lâð
ljóss kórónur
af gulli glæstar
ok glaðir súngu,
súngu þeir um þann,
sem þar hèldt dóm;
Hvör er sá helzt,
sem híngat blóðgum
kemr frá Kíðron
klæddr sveita?
hann með hol-undum —
Hósíanna —
sveipaðr síst
á Salems fjöllum,
harla fagr hann
hol-undum með.
Ek em þat, ek
sem allra manna
fyri sakir fús
hefi fjör látit!
hví bugast bein þín
undir byrði svo,
niðurþýngð ok þjáð
þessa dauða?
Hví þèr drýpr dýr
dreyri' af enni,
áþekkt enni þess
eins, sem stríðir?
hví með hárri raust
hrópar þú svo?
af því einnsamann
hefir ek barist,
engi var með mèr
mögur jarðar.

þú, Amen, Amen,
allt er fullkomnar,
sem ert sá fyrsti
ok enn síðasti,
fót þinn hófstu hratt —
Hósíanna —
útaf gröf aptr
uppstègst á trón;
þar sitr þú nú
ok þá alla
drottnanda dæmir
ena dauðu menn,
er þú af jörðu
útkallaðir,
já þú jarðarlík
Jesú vaktir!
þú sem bezt barðist
ok í blóðugum
komst upp frá Kídron
kafinn sveita,
þú sem á svæði
Salems fjalla
allfögrum undum
ískrýddr varst!
þú einnig undir
hefir oss gefit,
þèr svo værum vèr
vottar písla;
því einnig uppreist
oss á móti
hefir heiptar stríð
hatandi Guðs.
þá oss strídt strengðum
stáli herðtir
djúpt í díblissu
drómar hèldu,
þá heitum hljóp framm
hel með blossa,
hel með hjörs eggjum
hvass brýndum mjök
hel frá ógn-æstum
augum þeirra.
(Formælið fèndum,
sem fróma deyddu!
sagði sèrhvör
sinni mennskr,
njótið í náðum
ná hvíldar, bein!
sveipist sætri ró
enir sofnuðu!)
Er vèr öðluðumst
anda spámanna
ok hug týr-traustann
til at deya,
er vèr önduðumst;
ununar sanng
færið frelsisins
Fullkomnara:
Var þá veðhlaups skeið
vort á enda,
til himins tignar
takmarks komnum
gafst oss hnoss í hönd,
heiðurs kórónа;
þá var liðit líf
líka sem dupt
undann ofviðri
oss at baki!
ok öll armæða
æfi vorrar
sem stutt stundar hjal
strax horfin burt!
O þú aldr lífs
ærit stuttr,
eitt snöggt augakast
inní sköpun
ok þó umbunat
af hinum mikla
daga degi,
svo dýrum launum
kjörit at krýnast
kransi þessum,
ok fá svo indæl
eylífðar nót!
Lát hátt lofgjörð
um láugar aldir,
lát hátt án afláts
eylífliga!
lypt upp lopt-svífum
sem lengst þínum,

ok fljúg andagift
yfirtaks flug;
kunngjör, kunngjör þat
kröptugliga!
Reifar dansraddir
raustin verði
ok Guð göfgandi
gleði hljómr,
sá í hæð hafinn
hátíðliga
sælum samblandist
saungflokkum tróns.
Lof sè þèr, lotníng,
ljúf tilbeiðsla,
ok eylíf æra,
allra Drottinn
himnanna himna!
huggun ok líkn
sem öllum sýnir
þeim er sárt líða!
Einnig þegar enn
ekki var dupt,
þá er þessi sál
þat at lífga
ei' var ennú til,
í frá upphafi,
þá varstu þegar
ok þenktir árla
fyriframm á manns
friðþægíngu;
Hósíana hæðst
enum heilaga,
Betlehems barni,
þeim er beiskar mjök
lífsþjáníngar leið
ok loks dauða!
þeim í dauðligt dupt
djúpt niðrlægðr,
sinn enn fyrsta svöfn
svaf í stalli,
sem enn síðasta
svaf á krossi!
Honum æ sem er
undrunarverðr
ok himnum hærri,
hetjunni miklu,
þann ei nefna nein
nöfn eða tár,
sem þetta sæla,
síglaðværa
eylífs indis líf
hefir afrekat!
megi mannligrar
móður ok Guðs
heilögustum hæðst
Hósíanna!
Þúsund feta framm
fyrsti hels engill
stè þá nær stóli
stórkostliga,
sem heill herskari
hann einn væri,
hátt gall herlúðr,
hann þegar stóð,
þagnaði, þá hann
þannig ræddi:
Þeir, sem þann er dó,
en þó lifir,
lávarð lífs ok hels
lastat hafa,
skundi skjótt framm
at skínandi tróni,
horfi þar á hann
sem hèkk á krossi,
ok vísir verði
hvað voru þeir!
Þeir birtust brátt,
en byrgjast eigi
þeirri mátti meir
mannfjandlig sál
undir ótrúum
útlits brosum;
uppí andlit þeim
öllum voru
stígin ok stimpluð
stóðu þar nú
með hvörskyns hrekkjum
hjörtu þeirra.
Þannig stóðu þeir
þeim fyri sjónum

augljósir, er þá
áttu' at dæma;
horfðu dóm-helgir
hvör til annars
gegnum gjörvalla
gullskýja röð,
ok skygndust eptir
þeim er uppstæði,
á dælska dólga
dóm at leggja.
Samann við sveitir
enna sigrandi
innarla stóð einn
ýngismaðr,
voru vángar hans
vafðir ljóma,
ok með mjök líkri
morgunroða
lífs kæti krýndir
kostuliga;
Náfölr farfi
frumvaxtar ára,
ok þel þolinumódt
þroska tíða
seinum bana sik
at sjá deya,
umbunað urðu
meðr annari
fegurð, enn fyrr
á fold hann prýddi;
Engils ásýndar
indæl prýði
honum var nú víst
veitt til launa,
sú með málsnjöllum
mektug alla
línum lèti hans
lagaða sál.
Frægr frumburðr
fór blóðvotta
Stefán frá stillis
stól, er dæmdi,
ofann umgetins
úngmennis til;
hafði honum ok
hel í æsku
blóma brosandi
brár til-luktar;
Auðmjúk sýndi sjón
sendiför hans,
sem nú var næsta
niðurslegin;
hann skalf í hljóði
ok hóf sik þegar
skjótandi skæru
skini geisla;
Svo stóð sèrhvörri
sakleysis ró
friðar helgum hag
hann *umgirðtr*,
ok með eylífs lífs
allri blíðu
skær enum unga
eins ok strengja
rann, þá er ræddi,
raust af vörum:
Mèr skal eigi meir
*mitt* eins ok fyrr
hrygðin hylja líf
harma skýum,
ykkr, án þess meir
at ek titri,
nefnir ek nú,
ó nöfn: minn faðir,
æ! minn faðir er
*ok minn bróðir*
midtí þraung þeirri,
sem þar stendr;
En þú ert faðir
eigi nú meir,
ok þú ei framar
ert minn bróðir!
greinið, hvað gjörði?
hvað gjörði þèr,
seg mèr, sonur þinn,
at sönnu stiltr,
en þó með öllu
ósigrannligr?
Hvað vann þessi þèr
þegjandi munnr?

hvað braut þíns bróðurs
bliknandi kinn,
at þið með undnum
ályktunum,
sem eitur-ormar
ótal hlykkja,
ok með ofsa grimd
eptirsóktuð,
dapurs deyanda
dýrustu ró,
sem mest þið máttuð,
mik at ræna?
Enni æðstu heill
ódauðleiks míns,
enni efstu von,
sem ei tælir,
honum, sem helgr
hèkk á krossi,
sem þar at sönnu
af sárum blæddi,
en sem útblæddi
einskærri náð.
Ens mikla morguns
megin-vöku,
stærstu styrkíngar
stríðandi sálar,
nær hún í hauðr
hold lèt síga,
sú yðr einnig
uppvakti nú,
enn þó með aungvum
indis-dansi;
Ok með aungri lífs
ákenníngu,
aungum upphöfnum
unnar saung
til frægs frumburðar
enna framliðnu.
O! mjök var yðr
yfirsterkari
biðjandi sveins sál
ok sín betr
kenndi sjálf, enn svo,
at frá sèr lèti
ódauðleiks auma
ofsækjendur
kærustu kippa
kórónu burt.
Glöð í góðri-von
gaf hún eptir
duptinu duptit;
at dupt hún sjálf
væri víst eigi,
vissi gjörla,
at himni ok hauðri
hún sè meiri!
Sigur-glaðann svip
ok svif augna
áhorfið enna
ódauðligu,
þau er þèr sáuð
þverra forðum
í bana brostnum
brúna-ljósum
ok stynjast út
með andardrætti;
Horfið á þau enn
athugasamir,
sè eigi sjálfum
sigurhrós þeirra
yðr eylífr
at eins dauði!
Hann sagði svo,
ok sjáanliga
upphófst ens únga
ásýndar skin,
svo fegurð fèkk
ens fyrsta af englum,
með nýu nafni
nefndu þenna
sælir sigrendur
svein, þar hann stóð
skært skínandi dýrð
skrýddr sinni.
En vísann einn,
sem útaf flækjum
næsta neðarlà
náttúrunnar
sik hóf, svo næði
Sonarins tróni,

fljótt á flug-háum
fluttu vængjum
Oriones upp
áleiðis fyrst.
þarnæst djúp þekkíng
þeim máttkari
um manns athafnir
honum upplypti;
svo at síðustu
samvizka hans,
sú er sífeldt því
sækir eptir,
höltum hauðurs dóm
hjá at sneiða,
upp til ljóss leita,
ok loksins ná
metum ens mikla,
sem menn dæmir.
þá kom þegar framm
þessi' enn vísi,
eins ok af brekku
uppsprotin lind
verðr strax straumr,
streymdi ræða
fróðleiks-fullum hans
framm af vörum,
hann sagði svo
með svip dæmanda:
Lángsama leit
um leyni-götur
þráváldt ek þreytti
þúsund króka,
þó æfða'k altíð
í eptirgrenslun
fróma frammgaungu
ok fallslaust þel!
gekk ek svo gáng minn
til Guðs Sonar!
þèr miklu meiri
mæta fenguð
heill ok hamíngju,
hærri sálir!
sem nær sáuð ljós
sögðuð til þess
þetta: þú ert ljós!
ok til þess sama
dreyra, sem draup
af Drottins offri
hátt á kross hengðu:
þú ert heilagt blóð!
þèr sem ok sögðuð
síðast til hans
nær eð hans niðr
í nótt hneigðist
andlit við andlát:
þú ert eylífr!
Til-lengi tafða'k
torveldum í
sköpunar skugga
ok skygndist eptir
með leit lángsamri
lífsins Guði;
þó var þessi mèr
þá einn skuggi,
er mik fylltann fèkk
felmtri helgum.
Mætti mèr nokkuð
í mynd sanninda,
ek í andlit hans
umdæmandi
ok með all-lángri
eptirgrenslun
horfði hvervetna,
en harla seint
var fyrst, ok varla
at ek vogaði
svo at segja:
þat er sannleikr!
þá þekkíngar
þoku-ráfi
ek sá einhvör spor
eittsinn hafa
Guð sjálfann gengit,
glaðr næsta
hrópaði ek hátt:
þat er heilagt land!
þat er hlið himins!
ok hann dýrkaði.
Ek komst all-lengi
at eins nærri

enn hátt hafna
himins porti;
loksins lauk þat,
er ek lá á bæn,
sèr eittsinn upp,
ok augum mínum
gaf frá sèr glansa
guðdómligann.
Ok ek sá Soninn
í sinni dýrð;
ek minn vana veg
veik til baka;
skírari skugga
sköpunarinnar
ek sá nú, ok á
eptirmyndum
lángtum ljósari
línur ok strik
útþrykkt af sínu
adalmunstri.
Ek fann þann aptr
uppá krossi
hvörn ek á himni
hafði sèðann;
sá hann svo gjarna,
því at sannliga
vissi vel, at hann,
sem við sinn dauða
hneigði sitt höfuð,
heimti af gröfum,
at þær sendi sèr
sofnaða menn.
Hafið þannig þèr
eptir þekkíngu
grenslast ok gengit
götu þessa,
þá er þèr sannleiks
þess ens frjálsa,
Drottins dýrasta
dóttir sem er,
lètust leita
með ljótu drambi?
Nefnið nafn hennar
nú ekki meir;
æ, þèr eruð þess
ómakligir;
haleitast heiti
hennar takið
þèr aldrei optar
yðr í munn;
At meðr ákefð
eigi vekji
hefndar-reiði hún
ena himnesku
ok með almættis
augna tilliti
yðr svo í svip
sundurmerji.
Mannkynit myrðtu
miklar hetjur,
kristinna klerkar
kristna deyddu
í hjá altari
sem offur-fè,
en á altari
orustuvallar
útrann af undum
einúngis blóð.
þèr hafið helzt til
heimugligum
morðverkum meðr
manna sálir
ódauðligar at
eldsneyti gjört,
ei' þar at vísu
útaf benjum
dundi dauði
sem í djúpa gröf
mönnum liðnum lèt
til lífs varpat,
heldr útvall ótt
eylífr dauði.
Af yðar eitri
opt hafið þèr
freyðandi fulla
meðal fólks borit
bikara, búna
hýlífis krönsum,
með háum hlátrum
háðúngarinnar,

ok þó optar
í yðar höllum;
Svo at af sínum
sá enn gyllti
týranni trylltr
töfra drykkjum
ok í dá dottinn
dauða lèt gleymt,
ok þó mannaumkun
auðveldligar,
ok dýrum dómi
fyri dis handann.
Þeim er nú þetta
þúsund-eygt sitt
andlit atsnúit
öllum tárum,
ok þau öll ský,
sem ofann hèngu,
til himins hafin
hefir nú sýnt,
ok Jesúm einnig
augljósliga.
Hljódt varð á himni,
en helgir feður
ennar útvöldu
ættar gengu
skjótt í skínandi
skara samann,
einnig þar ásamt
allmargir vottar
útaf þeim þjóðar
þeirrar sömu,
er fyrir aftan
allsherjar dóms
sèr til Sonarins
í sál vendtu.
Sem skýa skarar
með skauti fullu
leyptrandi loga
ljósir vottar
ótt sèr undu framm,
ógn var at sjá;
hóf sik einn þá upp,
allir lètu
atferð hans samsinnt;
senn uppkváðu
allir samann einn
úrskurð dauða;
svo mælti sagðr
sendiboði:
Meðann með al fólks
mannligu hann
lífi lifði fyrr,
lík af dauða
vakti hann, vottar
at vera skyldu
um guðdóm sjálfs síns
sannarlígir.
Þá spunnu spilltir
spottaranna
frumburðir fyrst upp
fólsku-ráð þat,
hans vissu vottum
at vinna bana;
Nú skeði skjótt
at skírt vitnaði
óútdeyanligt
Abrahams fólk,
á ný útkjörit,
ógna grimdar
á dymmum degi,
er hið dýra blóð
Sonarins þat sjálft
yfir sik krafði:
Ok sik frammseldi
svosem offr
hátíðligt huldu
hræðiligrar
nætur ógnum í
altari dóms,
eylíft blóðbað
svo beri þaðra.
Vèr þannig vígðir
vorum sendir
í heilum hópum
meðal heims þjóða,
öllum áttum
um at vitna
dýrt ok dásamligt
Dómarans blóð.

Sjá, vígðir vottar
vèr hèr stöndum,
þar bera blóðdóm
bræður vorir,
allir vèr áðr
eittsinn lifðum;
hvört getr hærra
himininn rædt
um þann er hann skóp
með öllum sólum?
Mundi þakin þat
þúsund litum
foldin fá gjört
meðr fjölskyldu
ótal ávaxta,
afkvæmum vors,
framar enn fólks þess
feikna grúi
án tölu tjáð
ok talat hefir
margt um Guðs mikla
Meðalgángara?
Hefði yðr heimsókt
helgengnir menn,
þá hefðuð þèr ok
þeim burtskúfat,
eptir því allir
af yðr slíkir
virðtust vettúgi
vitnisburðir.
Með svo mikilli
mínkun hafið
skíra skynsemi
skapta mönnum,
Guðsmynd væn sem var,
vanhelgat þèr;
svo traustann trúnað
til yðar sjálfra
settuð þèr sífeldt,
en svo á móti
lítinu lögðuð á
lifanda Guð;
At þèr önnúngar
afguðanna,
ílls átrúnaðar
útsnöruð þý,
allir andlitum
undannsnúi
þvert frá þeirra sjón,
þessara Kristnu!
Reisi sjálfa sik
samvizkan straung
upp til eylífðar
úr því dupti,
hvarí þeir hiklaust
hana tráðu,
ok á annann hátt
um hinn sama
vitni nú, sem vèr
vitnuðum um!
Nú hvörnig helzt
ek hann skal nefna,
sem þèr fyrst sáuð
söfnuðina
ákaft ósækja,
en upp til himins
stækkanda strax
at stólpa verða
af gulli glæstum
í Guðs musteri,
því sem allt er eitt
allrahelgasta?
O! hve kann ek hans
heiti greina?
nafn þat eð ýa,
sem nú ber hann,
óútsegjannligt
er at vísu!
einnig útaf mèr
ertu kominn,
Herrans hugljúfi
heilagi maðr!
ennú blessar ek
yfir þat dupt,
af hvörju í fyrstu
ek var gjörðr!
þá mælti þannig
þessi enn helgi:
æ! um eylífð,
já, eylífliga

eru mín augu
einúngis fest
á þjáníng þeirri,
er þjóð at sýna
vakinn var ek til
voldugri raust
frá hæð af honum,
hvörjum áðr
einnig ek sjálfr
ofsókn veitti.
  Heill, ó þèr englar,
er hennar nafn;
hátt Hósíanna,
helgr saungr
í munnum allra,
er unnu sigur!
  Ek þegi' ok þek
fyri þeirra sjón
allra, sem eru
útskúfaðir
ossrar eylífðar
æðstu festíng,
Hel er hennar nafn,
hún er dauði!
  Þá nú margra með
mitt streymdi blóð
pínu plágaðra
píslarvotta,
ei kross-óvinum
yfirgrètu
augu mín þá meir,
með enu sama
ek djarfra dára
Dómari varð;
ek sá endalok
allra þeirra,
ok nú eru þau
yfir þá komin.
  Hvörsu lágt lægðar
ok litlar voru,
hve skæðri skemdar
skugga-vits þoku,
hve stríðu stolti
stórum píndar
ok hvörsu aumar
yfirmáta
sálir þeirra, sem
Sonarins í
ásýnd alskírri
eigi sèðann
Föðursins fengu
fagrann ljóma?
  Með fullri forsmán
fyrilitnir
eruð þèr allir
af minni sál,
varla verðúgir
fyri veraldar
þíng-heimi þessum
at þèr dæmist.
  Hvörsu heiðarligt,
hvörsu fagurt,
hvörsu vel víðsýnt
yfir víðsýni
allt inní eylífð,
hve uppstíganda,
göfugt þar Guð var,
gull-musteri,
sett ofar sólum
at sæti Guðs,
nemr þó niðr
á náttúrunni;
  Fórn alla fallna
fyri var blóð
í því offrat,
en unun saungr!
heill þess öndum allt
ódauðligum,
svo sem þenktu þær
ok til þess fundu,
uppfyllíng alls,
sem þær æsktu sèr!
  En tigna trú
var tèð musteri,
þá er þèr, dárar,
þekktust eigi;
æ! vilduð ekki
umvita neitt,
burtköstuðuð brátt
með bitru spotti,

þèr sem heyrðuð hann
hinnsta sinni
á krossi kalla,
en ei komust við;
Allmargar aldir
eru liðnar
síðann sèr upplauk
sjón hans aptr,
ok mælti munnur,
sá er mállaus varð
hans, háann úrskurð
Heimsdómara.
I dauðans dyrum
dyljið eigi
heldr hermið þat,
ok í helvítis
portum verða vart
við þat látið!
ó hví öldúngis
eru fallnar
hæðir, sem himin
heituðust við?
Fljótt mun fordæmdr
forsugr hvör,
sem hardt hótaði,
hrýna' ok emja,
í aumast afgrunn
ofannhrundinn
andlit upphefja,
til annars sèr
vendandi vesæll
við þann mæla:
Grát þú meðr mèr
megnum tárum
yfir því, at við
eittsinn fæddumst
yfir orðinni
okkar sköpun,
er oss álagði
eylífð þessa!
Sorgfullir svo
munu segja þeir,
þvíat sá sitr,
sem var deyddr,
á tignar tróni,
til at dæma
drambsama dólga
dygðar hatendur;
þat sagði þessi,
þareptir kvað
með hátign hægri
hann sem dæmdi:
Strax eptir stundir
storð útmældar
er kvöldstund komin,
kjörin til dóms;
þèr hèlduð hana
hègóma vera;
en hún öðruvís
er nú komin.
Svo meinti maðkr
í mold búandi,
samastað sínum
síðann í gær,
at frá hæð engin
með ógn vopnuð
skelfandi skrugga
skunda muni;
þannig þèr yðr
í þrengsla-búð
ormbognir unduð
ok engðuð samann.
Nú en stránga stund
strax er komin,
ok hefir yðar,
sem ítra dygð
höfðuð at hatri,
hvörn einn vegit,
en yðr alla
oflètta fann.
Syndari, sem hèldst
sál at vera
fjörslátt þann, er fannst,
ok fúa grafar
at eins erfð henni
ákvarðaða,
vit nú, at hún er
ekki dáin;
ok þann, sem þú lèzt
þagna' á krossi,

allann ataðann
egin-blóði,
ei gat hel afmáð;
hann er eilífr!
Ok þat var hann eins
áðr enn þú,
þú sem þeigi varst
þartil skaptr,
tókst þik upp, traðst þèr
til at spotta
Friðþægjara fólks,
nær fjör sitt lèt.
Jehóva, góðgjarn,
guðdómligrar
þolinnmæðis, þýðs
ok þirmanda geðs
við menn, þó midt
í misþirmíngum,
þá er hann við hel
hlaut at stríða,
hvör verit hafði
nær helzt fann til;
Af bók, ó Faðir!
útslètt þinni
níðínga nöfn,
sem nafn þitt lasta,
bræður mínir meir
eru menn þeir síst,
sem þíns sáttmála
sannarligann
Meðalgaungumann
mjök vanhelgat
sálarhrygð hafa
hans ok dreyra,
Ok við andlát hans
augu brostin
í köldum kvölum
krossfestíngar,
einnig upprisu,
uppstigníng hans,
sèrhvörja sæla
Sonarins unun,
sem ok sèrhvör tár
svívirdt hafa.
Sakir mjök megnrar
mínnar pínu,
minnar mannelsku,
ok meðaumkunar
míns dapra dauða,
dýrstu upprisu,
upphafníngar á
eilífann trón,
Ok minnar miklu
meginn dýrðar,
útfrá augum mèr
allir samann
víkið og verið
í vist þeirri,
er þèr yðr svo
umskópuð til!
Svo var dauða dóms
dýrt atkvæði
af honum uppsagt
yfir þessum,
djúpt þrengðist þat
í þeirra sälir,
svo ok með sárum
samvizkur þeirra
blossa brynjaði
brátt þeim í gegn.
Hefja hugðust þeir
til hans augu,
en þat ei' gátu
ok ofann sukku;
því síst af sárum
Sonarins meir
dundi nú dreyri,
ok dunandi trón
var ei heldr hæð
höfuðskelja;
hèr gall frá hástól
eigi hróp um náð.
En sèr með orku
upprykkjandi
úr dupti, dirfðist
Dómarans til
einn at upplypta
augum sínum,
hann sló örmum út
með ópi sterku,

svo allt umhverfis
afarvídt svæði
ok hæð himinsins
heyrði þat glöggt:
Með því miskunin
hefir mörk þessi,
ei' þau almættit
einnveg skorði;
tak þrumu þína,
þú, sem hegnir,
ok drep mik útaf
algjörliga!
Svo framt sem þín reið
sálirnar eins
orkar at afmá
ok eyðileggja,
at ek einúngis
allr verði
eldr ok aska
ok útaf deyi!
At ek enn þá með
afl-þrota mund
í ofboðs æði
ösku taki
af benjum opnum
ok henni svo
hreyti hátt í lopt
móti himninum;
Svo at sál mín öll
sökkvi niðr
í rof ok rústir
rjúkandi þánka,
hafði síðann sik
sjálf á flótta
ógrundanligt í
óveru rúm.
Hann svo hrópaði
móti himninum,
vèr hèldum höndum
hátt til skýa,
því síga sáum
svo úr hendi
dauðans engli djúpt
dóms básúnu,
ok mjök ótt hylja
Elóam sik;
Vèr enn volduga
við sèr litum
harla hratt snúa
Heimsdómara,
sá er at armi
útrèttum strax
lèt fljúga lausa
logandi skruggu;
drundu við dyn þann
djúp ok hæðir
helvítis hiunstu
hvelfíngum at.
Steypti staðr dóms
stóreflis klettum
hár af höfði sèr
hundrað niðr,
rofa rústin skalf,
rauk ok hrykti,
líka þar sem lá,
af logum skruggu,
eins ok frá fjöllum
frammveltir gný
harla hljóð-rámum
hauður-skjálfti.
Ek með óðfleygum
augna svifum
lostins leitaði
löstunarmanns
í þeim ósköpum
umturnunar,
ok sá hann aptr
enn frammgánga,
hafandi hræríng
eins ok hálfdauðann.
Hans líf hafði nú
hefndar þruma
tendrat tilfinníng'
tvöfaldaðri,
gefit breyttann brand
brjósts viðkvæmni
ok hugsun óðri
enn dýpra grubl.
Vèr uppfra ógnar
óbygð heyrðum

ýlfur ok óp
hans örvæntíngar:
lát af böls boði,
böðull, hegnir,
dauða drynjandi
dómarans reið!
Lát af loksins
at lemja ok hræða,
ek heyrir org þitt
eylífliga,
ok at eylífu
ofann á mik
ryðjast rjúkandi
regin hálsar!
O! at þèr allar
orðnar væruð
dránga dýngjur
at djúpum gröfum,
at ek heyrði hans
hrópanda svo
dauðligs öskur
enn þá neðar!
Sí- ok sár-formælt
sè þeim munni,
er sik opnaði
til at úthella
grátbæn hugheitri
hans fyri dóm,
at hann yrði þess
ógnarligri!
Formælt sè fjöri,
formælt dauða,
ok þeim öllum,
sem útaf skautum
móður ok moldar
myrkvum hafa
frá enu fyrsta
flogit til lífs!

---

At myrkvum myndum
mínar sjóuir
urðu þvínæst þar,
þær er komu
fljúgandi' ok fóru
fljúgandi burt;
þá heyrða'k þrumur,
þeim næst hörpur,
hèrmeð hjá tróni
hrópandans raust.
Ei mátta'k merkja
meiníng raddar,
einstakt heyrða'k hljóð
hennar at eins,
hin í stríðann straum
steyptust reiða;
harmakveinsins hljóð
hverfa þannig,
nær eð niðurslær
nötrandi jörð
rammbygðar borgir,
ok beint at himni
reisir sik rik
af rústum þeirra.
Aðrar ok aðrar
ýmsar myndir,
er þó auglýstust
aldrei til fulls,
skutu sèr upp skjótt
ok skjótt hvurfu;
iðuglig uppþot
ok undirgángr.
Ymist fleygðist framm
flugi hröðu
tíð, eða tafði
tómlát hjá mèr,
ár mèr þókti þat,
sem þar hvurfu;
síðann var mèr sýnt
sjónarspil eitt;
Kaín klæddr mynd
kom þar risa,
með risa myndar
mörgum hetjum,
þær er þvíngaðar
þúngbærum mjök
með hlekkjum hafði
hann af járni;
en skurk skelfiligt
skröltandi hlekkja

yfirgekk ōskur
ægra reiða.
Svo at síðustu
sjónir þessar
enar áskyggðu
allar voru
afmáðar orðnar
fyrir augum mèr;
sjá, ek fèkk aptr
opinnberanir.
Harla víðs vegar
voru dauðir
allir orðlausir
umhverfis nú;
aðsveif Elóa
ok í sinni
frammgaungu fullann
fögnuð sýndi,
glaðr at gjöra
Guðs mikla boð.
Kynni engill einn
uppaf dauða
vakinn at verða,
vakna mundi
hann, svo háleita
hugar tendrun
allr í sokkinn
af þessari
fagnaðarfullu
frammgaungu hans
ok hegðun, háu
í hrósi sigurs.
Hann gekk heilaga
útaf her skörum
at tignar tróni
til at flytja
ens hátt heiðraða
Heims-lausnara.
þá ek sá þessa
þar komendur,
er meðal manna
voru menn beztir,
alls míns ættarlýðs
æra' ok heiðr,
vegna virðíngar
verðugleiks þeirra
stóð ek strax upp
þar ek staddr var.
Fyri fagnaðar
fylling ölur
ok af dáð drukkinn
dýrðar þeirra
ek svo með undrun
upphrópaði:
O! ek vil um þá
er þèr gángið
vegu vídt dreifa
viði pálma,
já, pálma prýði
prísa vil ek,
at svo önduðust
ok svo lifðuð,
at vel verðugir
voruð þèr slíks
lífs, sem þèr lifðuð,
ok láts, sem dóuð!
Ek svo með undrun
upphrópaði,
en Seraf sjálfr,
sem þá flutti,
einnig yfir þeim
undraði sik;
þannig stóðu þeir
þaktir prýði
himins hátignar
við hæðstann trón.
Brátt kvað básúna
bísna hljóði:
skundið framm skarar,
sem skömm voruð
mannkynni mesta,
meðann lifðuð!
hvört sem þèr heldr
hreysi mosa
gistu gjörðuð
eða gull-hallir!
Hèr framm hrakligir
hègóma menn,
þèr sem þögulum,
en þó stórum

veittuð vanheiðr
verðugleikum,
þèr sem þrælsliga
þrykktuð í skarn
ágætustum af
yðar kyni!
Brátt við básúnu
bjóðanda kall
auglýstist urmull
illra manna,
þeir áttu' af þýngslum
þeirra sjálfra
erfidt uppgaungu,
ok urðu dæmdir;
Heman hèldt dóm
yfir her þessum.
Heman hermdi svo
heilagr Guðs:
í oss at sönnu
aumu myrkri
guðdóms göfug mynd
gjörðist hulin,
ok spor ens æðsta,
sem alla skóp,
óþekkjanligt á
örfum jarðar.
Samt á sèrhvörri
sendi Guð öld
menn, sem haft hafa
hærri sálir,
sálir, sem með sèr
sjálfum fundu
glöggt hvartil Guð
hafði gjörðar þær.
Góða mæta menn,
menjar helgar
prýði plantaðrar
Paradísar;
svo klárri kynnu
ok kröptugri raust
minna yðr á
yðr sjálfa,
ypparligt eðli
yðar sálna!
At minna á mikinn
manns sköpunar
einn dag í Eðen,
á mann skaptanu,
svo at síst var þess
sjálfum Guði
oflítill, at hann
eylífr sè!
A Guðs ytsta dóm
yðr at minna,
hvörra hugsanir
heli ok gröfum
aldrei um æfi
utar komu,
þèr sjálfs Guðs sögðum
sendimönnum,
einkis öktuðum,
útskúfuðuð;
En þeir öldúngis
ofstaðfastir
til þess, at þeir,
sem þèr rángliga
svívirðtuð svo,
lèti sik hræða,
frömdu frjálsliga
furðuverk sín!
Undur þeirra þau
þessi voru:
um æðstu veru
ok allra fyrstu
aldrei' at þenkja
annat enn hátt;
hæverskt hóglyndi,
hófs at mæla
mönnum settri með
mælíngu sik;
Tignar tilbeiðsla,
en traust ei' minnsta
eginn verðleik á
fyrir eylífum
Guðanna Guði,
nè á góðverk sín;
eigi hálf at eins
algjör heldr
megin-frammkvæmd með
mann-hollusta;

Sanuróligt sinni,
er sèr lèt nægja,
at þeir af Guði
einum sæust,
en harla hæglát
heimuglig dygð!
fráhald fáþykkju,
frammhald þagnar
þá jafnvel, þegar
þvertámóti
dómr dánumanns
dygð þeirra gekk!
Teit af tilhlökkun
tendruð gleði
lystiligustu
lífs midt í ró
á hitt at horfa
hærra miklu
ok brosa blídt
at bana komu!
þessum lètuð þèr
í þrekk varpat,
ok þarsem áttuð
ágæti þeirra
ljúfir at lúta
ok læra af þeim,
hví gjörvallt glis
ok gleði jarðar
æ sè of fánýtt
ódauðligum;
Ok hvað olli því
á þeirri stund,
nær sálin sjálf
til sín fann allrar,
at hún þá eptir
annars þráði
sártitrandi svo
sakleysis dygð
ok rósemd eptir
einni betri!
þar sem þèr áttuð
þessum yðr
mætu mönnum
sem mest nálægja,
þèr yðr þeirra
í þess stað gjörðuð
illskufullum at
ofsækjendum;
Bituð beztu menn
beisku hatri,
þeirra veglig verk
vörpuðuð þèr
óklárindum á
yðar svarta
baktals, ok báruð
brixli' á engla;
Hann er heilagr,
sem heim dæmir!
við hans vottar ek
vegsamat nafn:
einnig horfir hann
af hæð niðr
yfir illa menn,
sem hans ástvini
krömdu með kvölum
ena kærustu;
En þó með öðru
augna tilliti;
enni sömu sjón,
sem á yðr
niðurblossar nú
nýstandi sár,
ok með eldslogum
almáttugum
festir yðr í
ytsta djúpi
undirokaða
eylífri smán.
þessi þagnaði,
þá stóð annar
ýngismaðr upp
einn af sveinum,
sem fyrr fölnuðu
enn frjófar yrðu
plöntur prúðri dygð
píslarvotta
enna ókomnu;
annara menn
verðugir votta
ef verit hefðu;

þá mælti þannig
þessi enn úngi:
nær en dýra dygð
döprum nauðum
undirokuð var
ok með tárum,
er þó aungvum fannst
allmikit til,
afsíðis út
í einrúm flúði;
sá fyri sannspá
samvizka mín
dauðadóm þeirra,
sem dygð þrengðu;
Ek frá athöfnum
illum þeirra
æ vegna viðbjóðs
vendi sjónum,
formælti fast
þeim er formælti;
af úngdóms eðli
upptendraðr
mik útaf öllum
örmum þá sleit.
Stappaði stórum
á storð, þar bjuggu
leiðir lastendur,
lagðist niðr
ok dó, svo dauða
dóm ek þeirra
vita víst fengi;
nú veit ek hann!
er sá hinn sami
svo látandi:
Þá brosti blessun
sá er blífa mun,
er þjáðust enir
ósigrannligu;
hann sem hel þoldi,
hann sem lifir
veg þeirra vænum
viði pálma
fullann af ok eymd
algjörla sá,
ok mun þeim æðstu
umbun veita!
An dvalar dynja
Dómarinn lèt
úrskurð um afdrif
undirþrykkjenda,
ályktunar orð
eldligt klíngði;
óðar þutu þeir
af þíngstað burt.
Meðann þreyttu þeir
þennann flótta,
kom einn kröptugr
Kerub niðr
með feikna flýti,
flaug gegnum ský,
fuku þeir sem fis
fyrir honum,
er hann ellti þá
ógnum skelfða
með römmum rekstri
reiði sinnar.
Hvass útaf hvörju
í hvatri gaungu
hans sterku stiga
stormr æddi;
nú stóð hann ok hóf
hótunararm;
hann þagði ok hèldt
af himnum ofann
fleytifullri skál
ferligs blossa,
svo skæðir skuggar
skelfandi handar
slógust yfir öld
enna dauðu;
Hvolfði hvellri skál
með hvin engill
ok hellti' af himni
heitum loga;
dundu drjúgum
yfir dómstað enn
skálar skurk ok bál,
nær skemdar boði
um himin eið sinn
úthrópaði:

hans, sem Jehóva
heltir, við nafn!
Einnig hegnir, en
ást rèttlátum,
eru heiti hans,
sem helga trúar
gjörði grundvöllun
ok gaf mönnum!
hann einn vissi vel
hvör væri Guð!
Auglýsið yðr
þèr ofstoltu
svika semjendur
svívirðiligra,
sem skópuð skúrgoð,
skundið hèr framm,
sem enn háttháfna
himins sjálfann
elskuverðann æ
afmynduðuð
mjök fyri mönnum,
eða meðhjálpar
hjáguði honum
við hönd gáfuð!
Þar komu þeir framm,
ok þá dæmdi
hygginn höfundr,
sem helgrar trúar
grundvöllun gjörði,
guðligr maðr,
túlkr tíginnar
trúar þeirrar,
sem var Sonarins
sönn spákona,
ok er, allt framm at
ytsta kvöldi
dóma dags, um hann
dýrmætt vitni.
Hann, sem maðr með
mold dauðligri
áðr vanr var
voldugum armi
reiða ráðandans,
ok raust básúnu,
hið næsta hvörju,
hjá at standa,
tók nú til orða
talandi svo:
Sèr ek öll svæði
í svælu reykjar
falinnar foldar
fyllt bílætum,
uppþenktum ærit
undarliga,
ok þau öll voru
yðar guðir.
Þvílík hèlduð þèr
þess væri mynd,
er himin engi
getr uppmálat?
hvörs þau varla víst
voru skuggi!
Funduð þó til þess
þèr, svo skaptir —
en þótt ofann
frá yðar hæðum
þeyttuð þèr yðr
þannig sem dýpst —
at ormr eigi
á afarvíðum
heiðmörkum hrópi
hárra skýa;
Nè at dýr nokkurt
nært í fljóti
þerri þeirra tár
sem þúngt líða,
ei' heldr alskír
upprennandi
gjöri grimma menn
góðhjartaðri;
ei' helgi anda,
sem eptir ró
sárþyrstr sækir
ok sakleysi.
En þótt upptendruð
á ölturunum
rjúki ríkuglig
reykelsis fórn,
ok þará eldr
aldrei slöktur

haldist hvervetna
hátíðligr,
ok sálma saungr
sístreymi þar.
þèr funduð þetta,
en þvíat voruð
af sjálfum yðr
ofmjök fullir,
til at tjá lotníng
enum tign-hafna,
fyri þeim er þèr
þó voruð dupt;
ærit nóg yðr
auma gjörðuð,
Tign ok tígugleik
til at finna
í því, at yrðuð
upphafsmenn þèr
at neyðar *námi*
nýrrar villu
ok vegvísendur
væruð manna.
Ættuð þèr yðr
ódauðligum
líka vel at ljá
fyri lærendur
at gjöra Guði
grasbít ok dýr,
sem dag varla var
veitt at skríða;
Yðr sè nú svo
sagt til vissu,
bæði gort ok gný
geysi mikinn
yðar offra
hefir allvel merkt
hann, sem heyrir
yfir himnana;
þá er umkríngð
ótal hljóðum
líkneskja lundi
laufguðum í,
eðr, Oríon
ofdauf voru,
ok hestar hraðir
eigi hlaup stilltu;
þèr sem með svikum
sveitir manna
fellduð afgrunn í
eymdar dýpstu,
ok með afguðum
illa tælduð,
þeirra hörmúng hann
hefir vel merkt;
Atgætt hefir hann
háskafullann
*munað* musteris
mjök svelgjanda,
þess sem þèr hafið
þeim hrundit í;
atgætt andláts kvein
æpandi barna
í goðs glóanda
grimmu fángi;
Tíðum heyrt teitann
trómetu glaum,
sem harma hrópi
hugar viðkvæmnis
heimuligu heyrn
hvervetna deyft
forgefins fèkk
í feikna blóti;
Sjá, þat lèt þessum
sem þat heyrði
því hærra í hlustum,
sem heldr þat
mjök fölar mæður
með sèr kæfðu
í hreldum hjörtum
hartnær sprúngnum;
Neyddar til næsta
níðíngsliga,
án náðar allrar,
fyrir andlit sín
byrgjandi blæu,
í blóði at standa
ok brosa' at bana
barna sinna.
En nú á ný
ens niðurausna

með beiskri bræði
blóðs hann krefr,
nú verðr vellt framm
voldugri hefnd
fyri fjöld alla
framinna synda,
er með afguðum
uppfunduð þèr;
Fyri brest ok bann
betri verka,
alla mista mergð
sem menn hefðu
gjört, nema ginnt
í glópsku blinda
þèr hefðuð þá,
ok á þennann hátt
djúpt frá sjálfum sèr
sökkt þeim niðr!
Meðann hann mælti
miklu fegra
allt varð andlit hans
á at líta,
svo nú í sinni
sáu skína
dýrð eigi dulit
enir dauðu þat.
Eptir hann uppstóð
Enok helgr,
ok sjá, mikill með
morgunroði;
þessi tók þegar
þannig til máls
snem-gefin gimli
guðligr maðr:
Nær lifða'k lífi
enu litla fyrr,
meðann mèr eigi
minnar nýu
dýrðar stóra stund
stèg at höndum,
sat ek Cedrus três
svölum skugga
einnsamann undir
opt í lundi;
þá blèsu blíðu
blaktandi lopt
samt í Cedrus eik
sínu fjöri;
allar umkríng mik
eðlis verur
fagnaðarfullar
fundu til sín,
ek fann til andar
ódauðligrar.
Þá, ó þá, greip mik
þegar á stundum,
er ek enn blessa,
opt með nýúng
ok með unaðsemd
ósegjanligri
ágætastr einn
allra þánka;
Sá enn mjök mikli
meginn-þánki
um fyrstu ok æðstu
af öllum verum;
svo hár ok höfgr
at af hans skoðun
fèll sál með felmtri
í furðu dýpsta;
svo hvörju sinni
sèrliga nýr,
sem aldrei áðr
af mèr fundinn;
Ek þá orkulaus
upphrópaði;
eigi munnur minn
mjök titrandi
dofinn ok dumbi,
dauð var hvör raust,
traudt gekk út ok inn
andardráttr,
lífsins tepptust teikn,
tíminn stóð kyrr.
En þó uppkvað hátt
útaf djúpi
með tegund hvörri
tilfinníngar
í bljúgu brjósti
biðjandi sál:

O! hvör ertu,
hvör ertu stóra
verana vera,
voldúgi Guð,
þú einn með öllu
óendannligi!
fyrsti, fegursti,
fyrrenn allt varð!
Eini, sem aungvann
hefir uppruna,
ei' var, þú elska,
frá eylífð tómt!
æ! (til mín aptr
hin áðr mista
rataði raust,
ok nú runnu tár)
æ minn mikli Guð,
sem mik gjörðir!
Ek ferst, ek forgeng
vegna fagnaðar,
því at þètt fyllíng
þinnar nærveru,
sem ert alstaðar,
um mik streymir
ok mik umkríngir
alla vegu!
Eittsinn — æ sèrt þú
af mèr nefndr
dýri dagr
með dans ok gleði —
gekk ek til Guðs
sem mik gjört hafði,
en þó ei' gegnum
öræfi hels;
gekk ek upp til Guðs
frammhjá gröfinni.
Nú hefir hann mik
af hæðum sendann
í dag at dæma
án dvalar yðr,
í villu vöfðu
vísinda menn,
sem í dul dælskir
djúpra grillna
stærið yðr af
all-rírri sál!
Niðursökktri sál,
sem þèr Guði
ei' lètuð eptir
til at upphefjast;
trúðuð yðr æ
ódauðliga
ok möttuð ofhátt
yðr sjálfa;
Verauna veru
eptir vísindum
er þèr auglýstuð
yðar sjálfra;
þrengðuð yðr upp
í ógnarliga
dymmu, með drauma
dun fyrir vængi,
ok þann ætluðuð
algjörliga,
sem er eylífr,
út at grunda,
sannliga svo lángt
sem hann er Guð!
Hans þèr hlutuðuð
háa sundr
feikna fíbldjarfir
fullkomligleika,
mælir metandi
mannligum þann,
er þèr Guð í frá
eylífð vissuð.
þar sem þèr hefðuð
þá gjört betr
í dupti at dvelja
eptir dauðanum,
sem er hans engill,
uns hann færði
yðr um síðir
í hið dymma.
Betr, ef þèr í
undrun frómri
hefðuð traustri trú
tilbeðit þann,
sem hinum hærri
höfuðsvims anda

yðar sjálfra sik
síðr enn ekki
skynjaði skugga,
sem skópuð þèr
afskapligum í
af hans veru;
  Þannig svikuð þèr
af þeim sálum
hugarfar hærra,
sem höfðu þó
fðn ok æfíugu
ítrar dygðar
ok hennar umbun
yfrit stóra.
  Svo mælti enn sæli
sem á jörðu
guðliga gekk
í góðu lífi;
þvínæst ennú einn
útaf skýi
hástóli hjá
í hvítu klæði
forkunnar fögru
sá ek frammgánga;
  At myrkvum myndum
mínar sjónir
þvínæst urðu þar,
þær er komu
fljúgandi' ok fóru
fljúgandi burt,
þá heyrða'k þrumur,
þarnæst hörpur,
hèrmeð hjá tróni
hrópandans raust!
  Ei mátta'k merkja
meiníng raddar,
heyrða'k einstakt hljóð
hennar at eins,
hin í stríðanu straum
steyptust reiða,
aðrar ok aðrar
ýmsar myndir,
er þó auglýstust
aldrei til fulls,
skutu sèr skjótt upp
ok skjótt hvurfu,
fðuglig uppþot
ok undirgángr;
  Ymist fleygðist framm
flugi hröðu
tíð, eða tafði
tómlát hjá mèr,
ár mèr þóktu þat
sem þar hvurfu,
síðann var mèr sýnt
sjónarspil eitt;
  Leit ek laun gefin
líðendunum;
þat voru þeir
sem þjáðust pínu,
mikilmenni þau,
menn saklausir,
gæddir geðsmunum
göfugs eðlis,
þeir sem báru þraut
á þraut ofanu
gegnum gjörvallt líf
guðligir menn!
  Þeir krýndust krönsum
kostuligum
útaf einskæru
uppruna ljósi,
leiddu ljómandi
ljóss-englar þá,
svo at síðustu
sjónir hvurfu
enar óljósu
frá augum mèr,
sjá, ek fèkk aptr
opinnberanir!
  Hófst allt í einu
eylífs dauða
mest skelfandi mynd
mèr fyrir augum,
ódauðligs anda
hefir eins skekit
allann ummálshríng
engi þánki,
ok duldust djúp
þar dvelst tilfinníng

sem mitt hjarta hjó
herfilig sýn.
Því at nú þegar
þar komu framm,
sinn dapra dauða-
dóm at heyra,
forsmánarfyllstir
meðal fallinna,
fyrsta skömm ok skarn
skríðanda manndóms,
enir dýpstu dupts,
því er Drottinn sór,
rèttvís í reiði,
at ryk eitt væri!
voldugir vargar,
vondir kóngar.
Ei' þrumu þytr
þó frá tróni,
ei hljóð herlúðurs
háttgjallanda
flokk þann fyri dóm
frammkallaði,
heldr væl ok vein,
sem frá val blóðgum,
heyrist snörl ok snökkt
enna snart dauðu;
Svo stunur sárar
enna syndugu
þeirra, sem þessir
þvínguðu til
at fremja fólsku,
ok í fár steyptu,
þúsundsinnum þá
þúsund hljóðum
kölluðu at koma
fyri kóng himna;
þá komu þeir framm
sem þykkvust nótt.
Með sama mundi
maðr nokkr,
er einn þessara
hafði aumann gjört,
ok þó alla tíð
æfi sinnar
rækti rèttlátt líf
ok ráðvendni,
standa strax upp
af stóli sínum,
ok bar eiðsvitui
fyrir Aldæmir:
Ek lifði; líf mitt
lágt at sönnu,
sem í þrem sonum
sik útbreiddi,
rann þó rakleiðis
róligt ok klárt
allt þar til at
sá enn ómennskî
káti maðr kom,
ok kös af gulli
sína seztr í,
svo ena góðu
í eymd afskræmdi,
at urðu sem hann;
Ek dó þá; en þú
þegar hefir
dæmt þá, Dómari,
dólg þeim varpa
þú einnig út
frá augsýn þinni!
hrind þú honum burt,
sem hefir rænt
blóði mínu mik,
mynd aflagat
þess eptir sjálfs síns,
ok úr sakleysis
höndum hripsat þat
hraparliga!
Dæm þú hann, dæm hann,
dýri maðr
ens fyrsta frómleiks
ok fulls sakleysis!
yfir hann allra
útskúfaðra
kvalir komi,
sem hann kastaði
ofann í eymd
ok óhamíngju!
Ennú uppstóðu
útaf sinni

dægiligu dýrð
dauðligra sára
benjar berandi
blóðvottar sjö;
þar gengu þeir framm
ok þannig mæltu:
Vèr heitum hundrað
hundraðsinnum!
gaman ok gleði
grimdarfullum
augum yðar var
oss, þótt hefðum
síst til saka gjört,
at sjá deya.
Engi var af oss
illgjörð framin;
sín enn frjálsi fugl
fullvel kveðr
skær ljóð í skógi
Skaparanum,
en sálm at sýngja
síst þorðum vèr.
Utí ægar gjár
eyðifjalla,
at dymmum dysjum
ok dauðra gröfum,
þar bræðra bein
með blómstrum tárgum,
lágu dóma dags
döfnunar til,
ofsóktu' ok elltu
yðar grimdar
eyrindsrekar oss,
sem ei' aflètn
dör sinn at drykkja
dreyra kristnum;
Uns deyddar dróttar
dumba-varir,
hels þögn hræðilig
ok harla sljó,
bifun brostinna
brúna-ljósa
umkríng allstaðar
ómanneskjur
þær fylltu felmtri,
svo flýðu burt;
Ok blæ-blak minnsta,
sem blès í skógi,
var þeim viðlíkt
ok voða stormur;
hvar sem þeir sáu
svífa skugga
ægði þeim eins ok
ógnarlig nótt;
En þèr skulfuð ei'
meðann á hvílduð
blóma-þöktum beð
yðar býlífis,
allir umhverfis
við eyrun þètt
smurðir smánar reyk
smjaður-munna.
Horfið upp hærra
her þann allann,
slíka manna mergð
myrðt hafið þèr!
lítið augum upp
eins gegnt honum
enum frum-fædda
frá þeim dauðu,
sè yðr auðit
almáttuga
eylífs guðdóms ógn
á at horfa!
Jesús heitir hann,
heyrðuð þèr fyrr
nafn hans nógliga
nefnt á jörðu;
þá lèt þat eigi
með þrumu raust,
þegar hèr heyrðuð
þetta eð mikla
nafn, sem nú allir
nefna himnar!
Vottar sögðu svo
með sár fögur;
en brátt eptir þá
upphóf nokkr
sín augu sveipuð
sælu-brosum,

ok þeim áhorfði
ena frómu,
rèttlátr ræsir
ræðandi svo:
Hve næ ek nafni
nefna þá ró,
sem nú sál mína
sælu fyllir?
hve laun hátíðlig
herma' at fullu,
einúngis því ek
æ var maðr?
en lèt aldrei
meðr ofsjónum
makt nè mikilleik
mik fá villtann.
Æ lèt ek ógleymt
at ek væri
dupt, til at deya
sem dróttir þær
allteins ákvarðat,
er mèr voru
sem fylkir fengnar
fyrir at ráða.
Blessun með af mèr
minnst sè yðar
sífeldt þèr sætu
ok sælu stundir,
þá er við þrauta
þúngbærra sjón
enna aumstöddu
ok yfirgefnu
meyrt af meðaumkun
mitt varð hjarta,
ok þeim hátt harma
hrópaði bót.
Voru þá þegar
þakklát augu,
full heilags heiðurs
fyrir huggæðsku,
at líta, lofsæl
laun fyrir mik,
ok krónur ærnar
á at horfa;
Samt gefr sá mèr,
sem hæðst drottnar
ok sem umbunar
óendanliga,
sem hann er sjálfr,
síns fagnaðar
umbun enn meiri,
ok eylífðina,
fagnaða fjöld
til at fylla þá.
Nú hóf andlit einn
útskúfaðra
dapurt úr dupti,
þar dæmdr stóð,
ok hægri hendi
hèldt til vitnis
einmidt útrèttri
gegn öðlíngum;
Mitt líf, sagði sá,
sveipat er skömm;
sjá, ek er sekr
fyri synd dæmdr!
þann sálar sóma
síst ek þekki,
sem reisti ræsir
þann enn rèttláta
svo hátt í heiðri
yfir hauðurs dupt.
Þó samt þat ek finn,
at þèr eruð
manneðlis mínkun;
meir enn allir
á foldu fæddir
fyrr ok síðar
eruð þèr enir
óhelgustu;
Þèr sem syndin
hefir svo lengi
drottnat dátt yfir,
ok dómur hennar
samvizkuna sett
sofandi um kyrrt;
en sem á þessum
eigi verðr
í dvala dillat
degi hefndar!

þannig mælti þá
þessi enn dæmdi;
lengi hafði hár
helgrimmum sik
ógnum útbúit
Elóa seraf;
hefnd brann heiptarfull
í hans augum;
hèkk gegnum himin
hans opnuð bók,
sem hann samstundis
sundur-fletti;
harðr hvein stormur
þegar hann ræddi:
Aungvum mælir eymd
yðar er mæld,
tjón yðar tölu
telst ei minni;
ei er nokkurt nafn
fyri neyð yðar,
vei yðr at þèr
eruð skaptir!
eylíf eymd ok vei
yðar sálum!
Þèr hafið háðúng
helgastann manns
veru verðugleik
vanhelgaðann,
hvörjum víst hefðu
himins englar
með glaðri göfgun
ok grátandi þökk
af mildíng' mildínga
móti tekit!
O! þèr upphafnir
allmjök stóðuð,
stóð fjöld storðbúa
kríngum stól yðar;
næsta víðr var
völlur sjónar,
yðar stjórnar starfs
stór voru laun,
at vera góðgjarn
ok göfuglyndr!
Enn hái himin
horfði á yðr;
öll himins andlit
undansnèrust,
þá er þeir sáu
hvað þèr gjörðuð,
þá er þeir sáu
þjóðadráps stríð,
brennimerki mest
á manna kyni,
ok þat allar heims
aldir gegnum;
þá hæðst hvínandi
helvítis neðsta
skölla-hláturs skömm
skelfiligasta,
ok yðar augna
eylífann svöfn,
sem þará þrykkti
þráttskríðanda
við yðar vánga
vildarmenni!
aungva frá yðr
umbun dygðar,
engi þau, sem þèr
þerruðuð, tár!
Far nú, sem fylltir
frekt þín eyru
af hreim indælum
ódauðligleiks!
farið, fyrst þèr hann
fengið hafið,
en þótt eigi
þann yðr dreymdi!
Eylíft yðar nafn
er at vísu,
svo þat af sálna
saurugasta
undanulas einum
alþýðu dregg
ens neðsta niblheims
skuli nefnt verða
meðr fárfyllstu
formælíngum!
A kopar klettum
ens kvalafulla

afgrunns athafnir
yðar standa
endalausum á
ódáða streng
í leiðinliga
laungum röðum,
ok með eylífum
eldi grafnar,
svo þær af þeirra
þekkja megi
allir egin-skömm
ódauðligri!
Engin eru þar
æru musteri,
eigi lauf nè lim
lárberjaviðar
handa yðar höfðum
í heiðurs krans;
síst er þar saungur
sigur-ljóða,
Er með útsóun
æruteikna
ok hárra hróðra
hóflausu svalli,
öllum tál-töfrum,
sem trylla dramb,
gegnum prýði port
yðar prís hefji.
En kvala kvein
ok köll blöskrandi
alls blóðs ógrynnis,
sem þèr úthelltuð,
æðisfull öskur
ok óskir böls
til nýrra nauða
ok næmri kvala
frá frammslútandi
fjöllum glymja,
útaf gljúfra gjám
grímu eylífrar
æ fyrir yðr
sem ógnum gýs.
At skjótum skruggum
ský hjá tróni
verði vopnuð
móti varglyndum
jöfrum jarðar,
ok járn-fetum með
arki framm öflgir
englar dauða;
Ok at augu síu
allir dæmdir
stirð ok starandi
at stól upphefji,
því en miklu met
sèr í mund tekr
algjör alyktun,
ok til himins
flýgr fljótt þeirra
fis-lètta skál.
Engill sagði svo;
en sik hafði
hvervetna himin
ok hauðr yfir
einsamann útbreidt
allsherjar kyrð.
Heilagt, hálcitt
ok hræðiligri
með tign sik tjáði
tillit Dómara,
er skein almáttur
af ok reiði,
nú á niflúnga
niðurleit hann,
en lèt ásjónu
einu ok sama
við í vetfángi
vendt ok þagði.
I því hann augum
undannsnèri
víðu svæði varð
viðbillt ok skalf
foldin af felmtri
und' fótum kónga,
frá stillis stóli
stormur æddi,
ok dauðans englar
allir nætur
sorta samfara,
sjólar flýðu;

Yfir þá aumkast
ekki vætta,
ei' hrærist hauðr
til at hylja þá,
svo eigi sæust
ok svifum fyrir
djarfra dráps engla
dulist gætu.
Þat var sem þánki,
þá sáum vèr
dæmdra döglínga
dómstað auðann,
ok sem hröð hugsun
heyrðum vèr strax
helvíti hleypa
hörðum skruggum,
er sik opnaði
ok apturlokti.
Ok nú aptr
við ytstann himin
komu frá knáum
kónga rekstri
at dómstað djarfir
dauðans englar,
svörtum vo-veðrum
veifandi á lopt
gólu geysi hátt
gleði saungva.

---

### Hèr hefr

## Nítjándu bók Messías.

---

Eina draum-sjón dró
dómsins stráuga
frumfaðir manna
í fylsni þagnar,
hann sá midt í mergð
manna dauðra,
aptr uppvöktum
ógrynnis her,
er sjón útyfir
enginn náði,
uppá einum hól
Evu standa.
Fljóð með fljúganda
föggrum haddi,
útbreiddum örmum,
eldheitri kinn,
ok tónum allra
innilígustu
móður raustar með —
maðr slíka
engi nè engill
áðr heyrði —
bæði brosti' ok grèt,
biðjandi um náð.
Um náð bað Eva
afkvæmum sínum,
dyrstann Dómara
drós bað um náð,
en slík óttalig
opinberun
hvarf öll í einu
Adams sjónum.
Af himins hörpum
heyrði stundum
hann óm einstakann
ok mjök lágann,
þókti honum þá
sem þat væri
ýmist aumkunar
eða gleði,
en slíkt var einnig
allt þegar burt;

Síðann sá Adam
sjóuir nýár.
Eins ok af djúpum
uppvaknaðr
þaunkum tók hann til
tals at nýu:
ek sá yrkjendur
uppskerunnar
gegnum gjörvalla
gánga skara
upp ok niðr nú,
nákvæmliga
í hegðun hvörri
hugðu þeir at;
Svo þeir sigu framm
seint ok lengi,
ok með alvöru
ítarligri
skygudust um skara
skoðandi graut,
hrópuðu hátt
ok hermdu: komið!
Fluttu nú flokka
eins ok fákáta
þánka þessir
alla þegjandi,
mjök líka myndum
við manna gröft,
meðann voru menn
í mold grafnir,
þeir dapra drótt
á dómstað færðu.
Síðan var sendr
seraf nokkr,
hann gekk hægt framm,
ok háa skipun
færði flokunum:
fallið niðr
á yðar andlit,
úrskurð heyrið,
Sem yfir yðr
hefir uppkveðit
forðum enn frómi,
á fjör tíð stunda,
fyri sjálfann sik
sèrlīga' at eins,
sá er með ótta
yfir því jafnann
vandliga vakti
at verða hólpinn!
Æ! á fold falla
fölnaða þá
sá ek samstundis,
svo þeir láu,
ok sèr umhèldu
urðar steina;
engill þaðann þá
þegjandi gekk.
Í skæru skini
skírustu dygðar
uppstóð enn bezti
ok elskuverðasti,
Jóhannes, Jesú
jafnann trúr sveinn,
með tign tærustu
trúar þeirrar,
sem at sjá honum
í sinni prýði
guðdómligri gafst
fyri gröf handann;
ok nú umkríngðu
öldúngar hann.
Stóð hann því strax upp,
at stoltum fengi,
sem í dá dóttuir
á dóms-stað láu,
afdregit alla
yfirhilmíngu,
ok nú leidt í ljós
loks þeirra verk!
Líkt voða-veðri
þess ens volduga
hrærði hann eigi
við hvörju djúpi,
ei' við hvörri hæð,
heldr at eins
hèr við hátindi,
en hyldýpt þaðra;
skruggu ský þegja
skelfanda lèt.

Hann sagði svo:
þèr sjálfir skópuð
yðr egin dygð,
ok afguð settuð
yfir stillis stól,
þar stóð dæmanda
lávarðs lögmál,
ok lögum straungum
við síðu sjálfra
yðar samvizka.
Sjálfr sá helgi,
er sína mældi
trúlynda ok tæra
tilfinníngu
æ ens eylífa
eptir reglu,
ok þó um miskun
auðmjúkr bað,
eigi hjá sèr hreinn
hugðist sjálfum,
er hann vel vissi
hvör væri Guð.
En þèr allhreinir
yðr voruð,
svo varla vildnð
viðkannast þèr
furðu stóra fólks
friðþægíngu;
þó samt hafið þèr
í þrekk niðr
hrundit til hroka
ok hræðiligs drambs
enni göfgu girnd
yðar geðsmuna,
er til æru fèkk
yðr kallat!
Ok þann, sem æ var
yðr betri,
dirfðust þèr drambi
at dæma straungu;
ok þann, sem yðr
einlægari
var ok vísari,
vandrötuð gaung
þann meir þrengðist í
þúngra skyldua;
Þann, sem í sálu
sèr ens góða
tilfinníng tvöfaldt
tendraði meir,
ok þann eld nærði
iðugliga,
með dul flasfullum
ok feikn grimdar,
þèr, dælsku dárar,
dæmdann hafið!
Dupti hulda dygð
dirfðust þèr til
guðlausliga glíkt
gilda' at meta
ok nakta nyt
af nafni hennar,
sem glýu glapinu
glampa' af henni
í hilmis höll
eðr hæð nokkri
mannligs mikilleiks
myrkri líks á.
Sjálfir sömduð þèr
sælukjör yðr,
eptir umhugsun
yðra sjálfra
mörg þèr musteri
myndat hafit,
glis-ró glaðlátri
grundvölluð á,
hvörgi nærri hæð
helgrar skyldu.
Framm af vörum flaut
forsjónar nafn
yðr at sönnu,
en þó treystuð
þèr miklu meira
manna vegum,
reidduð yðr á
egin vegu!
Sál þá, sem yðr
sjálf náttúran
gaf í öndverðu,
æðri miklu,

af vegi vídt
hafið villta þèr,
teigt frá takmerki
sem þèr tilskópust;
þèr svo þrátt hafið
þægiligum
harla háleitum
ok hjartnæmum
saung mjök svo mætrar
mannhollustu
við klið róm-rámann
ok raul blandat;
Verkin sýnast svo
síst at vísu,
öfugt undin mynd
yðar þánka,
ei' at síðr svo
sannliga var
hjartanu háttat
heimugliga;
Æ var einher nótt
yðr þaðra,
hugskot yðar í
ei' kom friðr,
til fulls fjandmanni
at fyrirgæfuð,
ok honum hljódt
í hjarta-þeli
bæðuð blessunar
af blíðum hug.
Kann sá kórónu
kjöra' at vænta,
hvör eigi hèr var
hreinn fyrir Guði?
ok jafnvel eigi
fyrir innvortis
sjálfs síns tilfinníng
sannast vera,
á tíð ángistar,
svo ítur-hreinn,
nær kenna kunni
kröptugligar
þess án mótmæla
at maðr væri?
Sá ei meir sjálfum
sèr komst undann,
ok þó ei' heldr
ákallaði
enn góðgjarnasta
Guðsson um náð?
ok þó sem áðr
aptursnèri
strax at stórlátu
stollti sínu,
ok at mikla mest
mikilleik sinn;
tók hjá sjálfum sèr
synda kvittun?
O þú aumi mann
andvaralaus!
sjálfr syndugr
ok af syndugum!
gat enginn utann
efsti dagr
með sínum miklu
maktar ógnum
nóg minnt yðr á
yðr sjálfa?
En þó samt var sú
sèrhvör stunda,
sem frammfór, yðar
fljúganda lífs,
at kenna kunni
kröptugliga
yðr, at annar
utar gröfum
sè sá er dæmir,
enn sjálfir þèr!
Reisið yðr upp,
alla sjáið,
sem hærri hafa
hugró enn þèr,
merkið, hvílíks miðs
þèr á mis fóruð!
en þeir annann veg
at því gengu.
Auðmykt í hjartans
innstu rótum
meðaumkun mýkri
ok mannhollusta

bljúgari bænir
ok brennheitari
hafa frammleidt fet
euna farsælu
sigrenda sèrhvör
sælufullum
at leiðarlokum
lífs kórónu!
Eigi þèr, sem þeir,
hafið þreytt á stund
nokkurri neinnar
næturvöku
grátandi glímu
guðrækiliga
brennheitu brjósti
bænagjörðar!
Aldrei heilum hug
hafa nauðir
annars hjá yðr
verit aumkaðar,
þèr enum æðsta
alls fagnaðar
aldrei ókennduð
engla ok manna!
Þeirri gleði, þann,
sem þar uppi
af hæðstum himni
hvað eina sèr,
einn at vita vott
vorra gjörða,
öldúngis aungvann
annann enn hann!
Ok at álíta
oss hvervetna
því framar fróma
ok því farsællri,
nær verk þau verða,
sem vèr gjörðum,
fastliga fólgin
fyri mönnum!
Þèr ens hæðsthafna
heilaga, fyrsta
himna stillis, stærð
ens sterka Guðs
ei náðuð neitt sinn
nóg at þekkja;
þat er, at yðr
ávallt lètuð
dreyma drjúgt um ró
ok dátt hlóuð;
En komust aldrei
at þeim friði,
er ens iðranda
í rann tárum,
þeim er einúngis
umbáðu náð,
um náð einúngis
útvegaða
með Drottins dýrum
dreyra ok tárum.
Þessi sagði svo;
saung í metum;
ei' lyptist lengst upp
lèttari skál;
varð nú hálfdymmt húm
hlutfall dæmdra,
eigi níðdymm nótt,
máske nýr dagr
fyrri fyri þeim
frammkomi loks.
Stóð á vinnstra veg
enum volduga
Heimsdómara her
hræðslufullur;
dauðans englar ótt
ofaunsvifu
frá tignar tróni
til at ryðja
útskúfuðum í
eylífa nótt.
Dómægum augum
í þeir báru
ógnir þess, sem á
aðalstól sat,
þrumuskýum þeir
þúsundum samann
dómstóls dunandi
ok dymmum velltu
í feikna flugi
framm eptir sèr.

Orðlaus ok einn sèr
Abbadóna
stirðeygðr starði
ok stóð, sem dæi,
dugvana með deyfð
djúp sokinn í;
ok nú at honum
engill dauða
ætíð nær ok nær
nokkr færðist.
Hann kenndi Kerub,
er koma sá,
tók sik allr upp
at hann dæi,
ok leit með augum
enn daprari
til dýrs Dómara,
af dýpt gjörvallri
sorgfullrar sálar
sárt hrópandi.
Með sama mannkyn
móti honum
gjörvallt undireins
andlitum snýr,
ok sjálfr sínu
sá er dæmdi
frá tignartróni
til hans vendi.
Seraf tala tók
tilbiðjandi:
eptir því at nú
allir hlutir,
þeir er ske skulu,
skeðir eru,
ok nú er þessi
eylífðar nótt
ein komin eptir
efstann daga;
þá lát mik þessum
þik með tárum,
þú sem nú sitr
sæll á tróni,
nú eittsinn augum
enn litit fá,
sem í sífeldum
sorgartárum,
síðann fæddist fold,
flotit hafa.
Horf frá hástóli
hvíldar þinnar,
þú, sem ok sjálfr
hefir sárt liðit!
lít á eymd ofann,
þar allir vèr
til dymmra djúpa
dæmdir stöndum!
álít þann sem er
yfirgefnastr
á meðal allra
enna sköptu!
Ek bið ei' um náð,
en um dauða,
leyf mèr, ek megi,
miskunsami
Guðmaðr, gjarnann
grátbæna þik!
sjá hèr storð staddann
stein ek spenni,
held ek mèr við hann,
þá er hels englar
færa frá Guði
ena fordæmdu.
þúsund þrumur
eru þik umkríng,
þríf eina' af þúsund,
þú Guðs Sonur,
útbú afli þá
almættis þíns,
ok deyð mik aumann,
elsku vegna,
ok mjök mikillra
miskunsemda,
í dag af hvörjum
útbýtir náð!
Ek í öndverðu
af þèr skaptr
rann af rótum
meðal rèttlátra!
lát mik ei' lifa,
lát mik deya!

skaf nú skoðun
af sköpun þinni
út minnar eymdar
algjörliga,
æ sè aumum gleymt
Abbadóna!
Um eylífð sköpun
úti sè mín!
æ standa staður
ens sturlaðasta
ok framar öllum
yfirgefna
sköpuðum skörum
skyldi tómr!
tefr þruma þín,
þú heyrir ei,
ok síst gaumgæfir
grátbæn mína!
Látir þú líf mitt
lengr vara,
fráskil mik flokkum
enna fordæmdu,
at ek einnsamann
ætíð þessum
á dymma dómstað
dvelji, mèr leyf,
svo í sorgar kvöl
sè mín huggun,
at skygnast um
ok eptirþenkja:
Þar sat Sonurinn
á sínum tróni
með skært skínandi
skrýddr benjum!
á skærum skýum
skarar frómra
þar sik hátt hófu,
hèr var ek dæmdr!
Nú hnèg nauðbeygðr
niðr við stein
afllaus ok orðlaus
Abbadóna;
á fleygi-flugi
farar gjörðu
dauðans englar dvöl,
ok til Dómarans
undireins snèru
augum sínum,
mannkyn helgi-halds
horfði með þögn.
Þrumur þögnuðu,
þær frá stóli
dýrum Dómarans
dunat höfðu
án afláts áðr
með ógna gný;
aptr uppvaknar
Abbadóna,
ok fann enn vera
eylífann sik;
En í hlustum hans
himins gegnum
væntanda veldi
viðkvað þegar
dásamlig ok dýr
Dómarans raust,
hún gagnvart honum
hermdi þannig:
Ek skóp þik eittsinn
Abbadóna;
skepnur mínar mèr
eru mjök kunnar,
ek sè fyrr orminn
enn hann skríðr;
engilinn áðr
enn finnur til;
þánka þekkir ek
þeim enum dýpstu
alla hjartans í
öllum fylsnum;
En þú óhlyðinn
hefir afrækt mik,
ok hinir einnig
af mèr dæmdu
gegn þèr vitna víst,
varst þú ok með
í þrjózku þeirri
þá at villa,
allir eru þeir
ódauðligir.

Aptr uppstaðinn
Abbadóna
gnýr af hrygð hendur
móti himninum,
tekr til orða
ok talar þannig:
Æ! mik ef kennir,
ok hafir þú
virdt þess veikastann
ok vest haldinn
á meðal engla,
af ógnar hræðslu,
augum at venda
til eymdar hans;
ef þær eylífðar
aldir hefir,
sem mik sárt kvöldu,
sjón þín allar
guðdómlig gjörla
gegnum skoðat:
Þá virð mik þess ok,
at þín skrugga
hraðfleyg hæfi mik,
ok hraustr armur
miskuni mèr þinn,
með því at deyða
mik allt í einu
fyrir augum þèr!
Þú mannkyns mikli
Meðalgángari!
í djúp afgrunnsins
ógnarligasta
sökk ek sinnulaus;
sjónarplázi
andi minn flýr af
eylífðarinnar
titrandi, tvistr,
ok til sín hel
heimtir hrópandi
ok hrapar niðr;
Svo opt sem mèr
í sinni flýgr
þánki sá þúngr,
at þú mik skópst,
ok hitt, at ek þess
aungvann veginn
verðugr var
at verða skaptr!
Horf af hæð niðr,
hvar þú dæmir,
á mínar eymdir,
allsherjar líkn!
lát at eins eittsinn
enn mik þenkja
þann mikla þánka,
at þú mik gjörðir,
at ek, sem aðrir,
af enni beztu
allra vera var
veru skaptr!
ok mèr eptir þat
eylífliga
skúfa frá skærri
sköpunar sjón!
Þik kveð ek þánki
þenna fyri
ný-stofnaðann, nú
í nánd veranda,
minn skjótann skilnað
við hið skapaða
gjörvallt, sem gjörði
Guð, ok við hitt,
sem er óskapat
ytsti þánki!
Þá er frammkom fyrst
fullskapaðr
himin í hvörjum
hrínga sinna,
ok enn fyrst framdi
fagnaðar saungur
óendanligt allt
uppfyllti rúm;
Þá er miklum með
merkjanda krapti
skyns þess er skein
frá Skaparanum,
ok inntók alla,
engla verur
frumskapaðar fyrst
fundu til sín;

þá fyri þúsund
þúsundsinnum
sik enn al-eini
opinberaði,
eins ok hann í frá
eylífu var,
ok hæðsta hugsan
hóf at vera
allra fyrst eigi
einúngis Guðs,
þá myndaði mik
minn Dómari!
Ei' af eymd nokkri
ek þá vissi,
ekkert anda míns
ypparliga
vegsemd volæði
vanhelgaði;
yfir alla framm,
sem mèr útkjöri
ek til at elska,
eylífr Guð
einn var ætíð mèr
elskuverðastr!
Eylíf yfir mik
útbreiddi heill
sinn skemtinn skugga
skýlandi vængja,
ek sá í hvörja
átt sem horfði
umkríng mik ekkert
utann sælu!
Fagnaðarfull ljóð
fyri mèr sjálfum,
af indi ok undrun
upptendraðr,
gól ek gæfu þá,
at Guð mik skóp!
ek var, svo verða
af veru skyldi
elskaðr enni
allra beztu!
Mitt líf ek mældi
eð mjök lángvinna
eptir aldurs lengð
eylífðarinnar,
ok röð reiknaði
rósamra daga
eptir mergð míns Guðs
miskunsemda!
Nú fyrifarast
til fulls ek hlýt,
eyðast með öllu,
eigi meir verða,
aldrei með undrun
allra dýpstu
sjálfann Guð sjá,
nè Sonarins tróni
heilagt sýngja hjá
Halelúja!
Gakk þá til grunna,
gliðna, bráðna,
andinn eylífi
allr sundr!
fyllt er með öllu
augnamið þat,
vegna hvörs vakinn
varst í fyrstu!
Sjá, ek svo staddr
síðustu þèr
tjái tilbeiðslu,
enn tignar hæðsti!
sem mik settir á
sólskirrustu
ok fælufyllstu
forlaga hæð;
Valdir mik, vottur
at vera skyldi
þegar fyrst þaðra
þinnar hylli,
en hèrnæst hefndar,
hennar sem víst
óblíðkanlig er
öllum bænum,
at þat svo aldir
alda sjái,
ok byrgi allar
fyri augu sèr!
Framm á sitt andlit
at svo mæltu

fèll hann djúpt í dupt
fyrir Dómara,
ok beið eptir því
at hann dæi;
en djúp umhverfis
yfirbreiddist,
himin ok hauðr,
helgidóms kyrð.
Upp mínum augum
ek þá lypti,
ok um himins hæð
horfði niðr;
sá ek sveit helgra
á sínum titra
gjörglæstu stólum
enum gull-ligu
af þess eptirbið,
sem ætti at ske.
Fyri flokkum
enna fordæmdu
umkríng ángráðann
Abbadóna,
er nú atkvæðum
eptirbiðu,
eldi líkt enni
ek sá líka,
þat var af þykkvum
þokuskýum
allann veg umkríngt
óhrærannligum;
dauðans sjálfa svo
sá ek engla.
þeir stóðu í stað,
ok stólnum snèru
andlitum at
frá Abbadona,
hrærðust þeir hvörgi,
en horfðu þángat
sem dýrstr drótta
Dómari sat.
Hèr varð málfátt mjök
manna föður,
horfðu heilagir
á hann allir,
eins ok nú aptr
uppvaknaði
hann af myrkri mold
meðal þeirra,
þá er hann tók til
at tala' á ný:
Loksins, likt Föðurs
ljúfri ræðu
til sjálfs hans Sonar,
eða sætustum
óm glaðann eptir
ununar saung,
raust frá hæðst-höfnum
himins tróni
klíngði klárt þannig:
kom Abbadóna,
þú, nú til þess,
sem þèr miskunar!
Adam varð orðfall
aptr sem fyrr,
en nær af nýu
náði máli
ok gat eld-fleygri
orðsnild talat,
reisti sik raust hans
ok ræddi svo:
Hratt eins og hugsun
himinfúsrar
til Guðs glóandi
gjörðrar bænar,
sem á vængjum vinds,
er enn voldugi
engla gramur í
opt gengr framm,
uppspratt óðfluga
Abbadóna,
ok svo með sama
sveif at tróni.
Hann gegnum himna
meðann hófst þángat,
varð í hans ásýnd,
er nú sá Guð,
helgrar æsku hans
háleit prýði
í bæn auðmýktar
endurvakin,

fljótt kom í fas hans
ok í frammgaungu
aptr indæl ró
ódauðligra.
Enginn af oss
á upprisunnar
dýrum degi
hefir dupti frá
uppstaðit eins
ok Abbadóna
gekk nú fyri Guð
göfugliga.
Ei stóðst Abdíel
atkomanda
lengr at líta,
lángar gegnum
ruddist hann raðir
enna rèttlátu,
örmum útbreiddum
allháa lèt
hann gegnum himin
hljóma gleði.
Hans, glíkir glóðum,
glóuðu vángar,
klíngði kóróna
kríngum vánga,
skaut hann sèr skini
skjálfanda með
einmidt ofann
á Abbadóna
ok fornann ástvin
umfaðmaði.
En úr hans örmum
sá enn elskandi
sleit með sama sik
um sinn lausann,
ok fyri fætur
fèll Dómara
framm á sitt andlit
auðmjúkr strax.
Í himnum öllum
uppkom þegar
gleði gráts hljómr
geysi mikill
með rètt róligri
raust ununar,
lægra látandi
ljóð af hörpum
runnu frá reistum
enna rèttlátu
tvisvar tólf stólum
af tróni Sonar,
dýrðardans súngu
þeim dó en lifir!
Hvörsu má ek með
máli greina
orð þau, sem innti
Abbadóna,
er hann uppstóð
hjá æðstum tróni,
ok snèrist at þeim
er á honum sat?
Hann sagði svo
með sætu brosi
eylífs lífs æðstrar
unaðsemdar:
hvörju má ek helzt
hátíðligu
nafni nefna þik
nú í fyrstu,
hvörri má ek helzt
heiðra þik bæn,
þú sem mèr svo mjök
hefir miskunat?
O þèr ljóss arfar,
sem ek elskaði,
ek er til yðar
apturkominn!
enir fyrst fæddu
af fagri sköpun,
ok fyrir undir
eylífs Sonar
orðnir eylífs lífs
erfíngjar þèr!
hvört, ó hvört er ek
apturkominn?
Segið, hvör sá er,
ó, segið mèr,
hvör sá er, sem mik
svo kallaði?

hvörs var en háa
frá helgum tróni,
sem nú mik nefndi
með nafni, raust?
Þú lífsins einn ert
uppsprettu brunnur!
dýrðar dýr fylling!
djúp uppspretta,
eylíf uppspretta
ens eylífa lífs!
heill er heiti þitt
háleitt næsta!
eingetinn arfi
eylífs Föðurs!
Þú ljós af ljósi
lamb sem var deydt!
sáttmálans mikli
Meðalgángari!
kóngr kallast þú
krýndr líka!
ek vil þik ást
ok elsku nefna!
Einnig ennú
á aptni dóma
hefir góðr Guð
gjörva sköpun,
því ek var einn
meðal útlaga
undirorpinna
eylífum dauða.
A hinum ytsta
allra daga
er ek af honum
endurskaptr,
hann mik frá mínu
myrkri dauða
heimkallat hefir
í heill eylífa,
sem er einsok Guð
ósegjanlig!
Heilagt, hátíðligt
Hallelúja
af mèr um eylífð,
ó þú fyrsti!
sè þèr súngit,
er svo til eymdar
maktarboð mæltir:
meir aldrei vert!
ok til táranna:
talit hefi
eitt ok sèrhvört ek
yðar gjörla.
Tár af tilbeiðslu
trú hjartanligri
full ok fögnuði,
fórnir þakka
innist án afláts
eylífliga
honum sem sitr
sæll á tróni!
Nú allt í einu
undra sjónir
mínar at myrkvum
myndum urðu,
komu frá-fleygar
ok fljótt svifu,
ok himins aptr
við ytstu rönd
eins ótt fljúgandi
úr augsýn hvurfu.
Svo mèr um síðr
sokknar voru
allar óljósar
opinberanir,
þat ek síðann sá
sjónir voru;
ár mèr þókti þá
þannig á ný
sem mörg á milli
mundu liðin
sjónar er sá ek
síðast ok þess
er mèr enn gjörðist
opinberun.
Næsta mjök niðr
nú skein fegra
ok með ógnunum
eigi lengr
tróns gullinn glansi,
ok gjörvalla fold

upprisunuar ört
yfirlýsti.
Svo vídt, sem áðr
sjón mín hafði
aldrei' yfirnáð,
endalausum
í fjarska fèkk ek
fjöld herskara
sèð af sigrendum
svífa' í himin;
ek gat at eins
ena ytstu þekkt.
Þat foldar fyrstu
fóstur voru,
sem eittsinn urðu
at ægisfæðu,
þá er gullu glöggt
Guðs stóru met,
ok hvör veginn varð
á vog, sem erfði
eðlit dauðligt af
Adam föður,
ok sökktust ofann
ógnarliga
djúpt í díblissu
dauðra sálir.
Ennú útleystar
af þeim fjötrum
allar urðu þær
upptil himins
samfara sálum
sigrendanna;
með blíðri blessun
brjóstglaðr ek
í hæðir horfði
eptir her sælum.
Nú allt í einu
ek mèr á bak
heyrði þrumu þyt,
þarnæst verða
ek sá alla jörð
ummyndaða;
ó þèr englar
ens allrahelgasta!
ok þèr allir,
sem eruð fæddir!
Ek jörð ærit vídt
umhverfis mik
ena sömu sá,
sem var bölvun
undirokuð,
at Eðen verða!
eins ok ek sjálfr
uppstóð af mold
rètt eins reis Eðen
af rúst jarðar.
Öll gall umhverfis
indæl sköpun,
skærara skinu
skírar stjörnur,
enn var ómur
í eyrum mínum
sköpunar skruggu
ok skin af ljóma
himins eins var enn
augum mínum,
er ek eptir sýn
til yðar kom.

---

Af Tabors tindi
Tíberiadis
Jesús stóð við strönd
stíginn niðr,
engla helgr her
hann kríngum var
öllum ósèðr
utann honum.
Þeir báru boðskap
frá bygðum heima,
ok heyrðu há boð
sem heima kjörum
skipta skyldu,
ok um skapadóm,
sumir svifu til,
sumir fóru.
Þessir flýttu för
furðanliga
höfug á hendi
hafandi boð,

svo í feikn fèllu
forundrunar,
útaf hvörjum ok
yfirkomnir
vèr munum verða
vegna furðu;
Nær ens fyrra fjörs
fallin hulda
loksins af oss er,
ok andi dauðra,
sem í ró sofa,
sik hefir upp
gegnum glansanda
gimla heiði.
Nú aptur-eldíng
uppstígin var,
en dags dafnanda
drjúga geisla
lèt ein ljós þoka
linari verða,
glíkt sem af glausa
glæum ofin
himna til huldu
ok hvítri gufu.
Sik um víðann váng
vær breiddi ró,
ein hægt andandi
úthellt stilli,
en lángsamliga
í ljós komandi
bátr birtíngar
blíðri gufu
frammaf flaut um lög
fullur vina;
fremst stóð á fari
fiskinet við,
sem nú hèkk niðr,
nakinn Kefas.
Þar sátu, sá er
silfur-grátt hár
yfir brúnum bar
Bartólomeus,
á ár Lebbeus
eina studdist,
Tómas með tillit
teudrat gleði,
næsta nytja hreinn
Natanael,
þar sátu synir
Zebedei,
æ hug hafandi
í himni Jakob,
Jóhannes á jörð
hjá Jesú sinn.
Nú sem þeir náðu
í nánd við fjöru,
sáu þeir hjá sjó
Son Guðs standa,
en vissu eigi
at þat var hann,
ok þó ókenndum
atkomanda
alvarligum í
yfirbragði
veittu virðíngu
vinsamliga.
Meintu þeir mundi
morgun-prýði
hann þar af hreinni
ok hugfángandi
allr inntekinn
indælis ró,
ok sjálfs síns þánka
sèr viðskemta.
Aungvann sá ek svo,
sagði Jakob,
andar hátign af
eins ok þenna
frábærri fullann
meðal framandi
allra, sem nú at
yfirgefnum
Grikklands-goðum
ok gjörðar myndum
frá sjö fljóts-ósum
fóru hjá oss
heilaga' at halda
hátíð páska,
ok helgann heyra
hljóm musteris.

Tók þá til orða
Tvíburi svo:
ó at einn væri
af upprisunnar
sá, er vèr sjáum
sveit pílagríma,
með morgni kominn
meiri ljóma
í, fyrir oss
til at auglýsast,
enn hinn fagri fær
foldar dagr
ljóss-síur sendt
ok sól gefit skin!
Stórum starsýnt
ok með stöðugri
lengst verðr litit
Lebbeus þèr
augna sjón á hann
eins sem skoðar,
en afsèð aptr
eigi getr.
Lík hegðun lima —
Lebbeus kvað —
dauðligs eins, sem er
ofann frá himni,
er þat, ó Tómas,
sem ek áhorfi,
ok bíð án afláts
eptir flugi,
sem hans sjón-breytíng
sèr mun taka,
máske svo svipligt
at sjáist ei'.
En hinn ókenndi
ávarpar þá:
hann kvað, hafið þèr
við hönd nokkuð,
mín börn, matar
svo megi neyta?
þeir með þraut höfðu
þá nótt alla
at fánga fiska
forgefins reynt,
ok til at eta
ekkert höfðu;
varpið, hermdi hann,
hèr út neti
skips a hægri hlið,
heppnast mun þat!
Nú var at nýu
neti varpat,
en snart þeir ei þat
þar í luktri
fyri fiska mergð
fengu dregit,
ok með aukinni
eptir-þreyíngu
lèt sèr Lebbeus
líka Tómas
meir ok meir starsýnt
mann þennann á,
sem þeir sáu þar
sèr ókenndann.
Furðu fengsamr
fiskidráttur,
þar sem þeim var sagt,
þar sinn hittr,
jafnsnart Jóhanni
Jesúm syndi;
glaðr hrópar hann:
Herrann er þat!
Sem Kefas kenndi
Krist þar vera,
skjótt hann sínum serk
sik umvafði,
ok strax í ægir
útvarpar sèr,
sveimar svo at strönd,
at svalat fengi
innvortis óró
eptirlaungunar
Lausnara ljúfann
at líta nær.
Kefas sá Kristum
ok kenndi þegar,
á bát viðbrugðu
sem bráðast hinir,
net fullt af fiskum
at fjöru dróu,

gengu loks á land,
Lausnarann þekktu,
ok fyrir unun
ei' gátu mælt.
Þar lá fyri þeim
við þröm sævar
til beina búit
brauð og glæður,
fannst þar ok fiskr
á funa lagðr,
þá mælti' enn mikli
Meðalgángari:
Færið framm híngat
af fiskum þeim
til nautnar nokkuð,
sem þèr nú fenguð!
Kefas undir eins
óð frá landi,
ok dró án dvalar
úr drafnar löðri
net fullt af fiskum
á fjöru þurra;
Ok þótt allstórir
í því væru
fiskar flæktir
ok furðu margir
rifnaði þat þó
þaraf eigi;
krökkt var í kvíum
af kviku lífi.
Jesús Kristr kvað:
komið, snæðið!
nú settust niðr
til nautnar þeir
með ást ok alúð
inniligustu,
sat hann þar hjá sjó
meðal sveinanna,
ok þeim útbýtti
öllum fæðu,
unaðsemd innra
hafði uppfyllt þá.
Ok nú endaðist
önnur þessi
mjök glaðvær máltíð
frá máltíð þeirri,
er var full ángurs
fyrir andlát hans;
þvínæst gengu þeir
þá til strandar.
Greindi þá gjörla
enn guðdómligi:
Símon, son Jóna!
seg mèr, hvört þú
elskar meira mik
enn menn þessir?
nálægði sik nú
næsta hraðr
Kefas Kristo
ok kvað á móti:
þú veizt þat, Herra!
at ek þik elska!
Aptr með ástsemd
inniligri
fljótt kvað Frelsarinn:
fæð þú mín lömb!
þvínæst þannig
eptir þögn litla
jafnt mælti Jesús:
Jóhanna Símon!
ok spyr sem áðr:
elskar þú mik?
Kefas kenndi þess
klökkur í brjósti,
þó enn án ángurs
andsvaraði:
þú veizt þat, Herra!
at ek þik elska!
ennþá með ástsemd
inniligustu
sagði Jesús svo:
sauði mína
fæð þú! ok framar
sem fyrr spurði
sinnishrærðann svein
á sömu leið:
Símon, son Jóna!
seg, ef hefir
þú á mèr elsku
inniliga!

þá hann þriðja sinn
þessa spurði
ángr kom í önd
af því Pètri.
Svarar hann þá svo
með sál hryggri:
þú sem allt þekkir!
þèr, ó Herra!
at ek elska þik,
einnig er ljóst!
svo fæð mèr sauði!
sagði Jesús.
Þá er þú, Kefas,
á þínum varst
úngdóms aldri
með æsku fjöri,
þik girðtir þú,
ok þángat sjálfr
gekkst, sem þú girntist,
en gamall orðinn
hendur þínar þú
þenja munt út;
Eptir egín vild
aðrir munu
þá girða þik,
ok þángat leiða
er þú villt eigi,
eptirfylg mèr!
Skírliga skilst,
hvör skuli verða
leiðsla sú, ljúfum
lærisveini,
ok með hvörjum helzt,
hann einn vottur
þess ens upprisna,
eylífann Guð
loksins dauðdaga
dýrka muni.
Pètr snèri sèr
snöggliga við,
leit þar lærisvein
líka staddann
Kristo kærastann,
sá er kvöldmáltíð
aðskilnaðar um
ángursama
Herranum hafði
hvílst á brjósti.
Kefas hermdi hratt:
hvað skal þessi?
Jesús svarar svo:
sè minn vilji,
at hann uns ek kem
æ blífi við,
kemr þat við þik?
þú fylg mèr eptir!
ei' litu lengr
lærisveinanna
í þat sinn augu
þann enn upprisna.
Eins sem ægisbrim
upp sèr hreykir
en fallit aptr
eggslètt verðr,
svo var samræða,
er sín á milli
hèldu þeir um hann
sem hafði birzt.
Já, sagði Símon,
sannarliga
ek honum eittsinn
eptirfylgi,
ek dey eins ok hann,
ek verð girðtr
ok loksins leiddr,
læzt eins ok hann,
en þú eigi deyr
eins, Jóhannes!
heldr ert þú æ
ódauðligr!
Já, sagði Jakob
Jóhannem við:
þú ert án efa
ódauðligr!
hann upp til himins
hóf sín augu,
eins ok af unun
orðinn drukkinn.
Odauðligr ek?
aldrei þetta

játaði Jesús,
Jóhannes kvað;
lèt þá Lebbeus
líka svarat:
hvað er þat annat
sem innti hann,
at blífa æ við
uns hann kemr?
Elskusveinn þú ert
ódauðligr!
þá kaus þèr Kristr
kórónu í laun!
já, þú Jóhannes
jafnann lifir,
ok verðr ætíð
ódauðligr!
Fagnaðarfullur
fèkk þetta mælt
Lebbeus ok lèt
lengða ræðu:
at aungvum auðnist
öðrum þetta;
heill sè þèr, sagð' hann,
þú sæli Guðs!
þú hlauzt þá umbun
þessa stóru!
En einslags er mèr
efi í brjósti,
vèr um veg allrar
veraldarinnar
gjörvallir gaungum
til Guðs Sonar,
en þú einnsamann
eptirblífr!
Ei' at síðr allt
til ens efsta dags
hann utann afláts
er hjá sínum,
hjá þeim á himni!
hjá þeim á jörð!
þú, Jóhannes, þó,
þú deyr eigi.
Þeir snèru þvínæst
þaðann á burt,
af heim ókomnum
allir fullir,
at lífs uppheldis
önnum sínum,
um rastir rèru
ránar hesti
harla hug-glaðir
híngat ok þángat;
Ok af fiski feng
síns fulla nets
öðrum býttu björg,
hvar sem bát hittu
þann, er, sem þeirra,
þreytt hafði skrið,
en einkis aflat
allt til morguns.

---

Svo gengu sólir
samfleytt í röð
upp ok undir,
at enn stóð dómr
Frelsarans fyrsti,
fljótum orðum
bráðari buðu
bendíngar englum.
Þeir voru vottar,
velltu í sundr
loganda letri,
luktu bækur
ótt samann aptr,
umkríng dreifðu
ateins all-litlu
óttaligs skins.
Sálirnar sumpart
sagnir höfu,
sumpart svifu þær
sagnalausar;
orðfár Aldæmirs
úrskurðr var;
slóg eins ok eldíng,
ok sem geislar
dægiligir dags
dreifði' út unun.
Harla vídt hafði
Herrans þegar

ýpparlig útbreiðst
upprisu fregn,
ok at hefðu hann
enir bjartkæru
lifanda litit
lærisveinar!
Frá enum fögru
friðar sölum
hafi himneskir
enna holdligu
vottar vitjat
ok verit hjá þeim,
at hann, af hvörjum
háleitt vitni
berliga báru
burtdánir menn,
greidt sè genginn
í Galileam,
at hann þar aptr
opinberist;
Vídt umkríng vinir
voru sendir,
þeir með fljótri för
ok með fögnuði
tjáðu tíðindi:
á Tabor fjalli
safnast þeir samann,
sem nýrrar dýrð
opinberunar
eptirbíða.
Þeir sitja sælu
cedrus eika
í skugga skjóli,
ok af skærri lind
eigi svala sèr
nè seðjast brauði;
svo tjáðu sagðir
sendiboðar.
Hratt frá hýbílum
hurfu þeir eins,
til at tjá öðrum
tíðindi þessi:
ennú mun eittsinn
opinberast —
svo þeir glöggt greindu —
enn guðdómligi;
hefir ok heitit
hann þeirri náð.
Varð ok þeim þessi
er þökkum grètu
enum frómu færð
fregn af dauðum
aptr upprisnum
allmörgum þó:
skundið til Tabor,
ef tídt er yðr
ok mikils metit
at mega hèr,
eins ok englar Guðs,
yðr gleðja!
Stóð á tídt tèðu
Tabor fjalli
Lazarus ok lèt
ljúfum skugga
cedrus eikar í
uppkveðit svo:
mörgum vill hann víst
veita sælu,
hann eflaust ella
ei' svo tefði.
Vèr at eins erum
yfirhöfuð
tals ein tvö hundruð
til samans hèr,
miklu meiri þó
mergð er þeirra,
sem hann af sinnar
sælum notum
erfðar ætlar fyrst
endurnæríngu;
Sem hann vill senda
síns háa tróns
skímu skin eitt
af skærum ljóma
álengðar yfir,
árdags geislum
at eins ádreifa
eylífðar sinnar!
Svo bíðið bræður
af blessun fullrar

meiri miskunar
eptir mælíngu,
uns hún úthellist
í yðar skaut,
bíðið þèr hans þá,
sem þeir hjá tróni
bíða geðglaðir
ens guðdómliga!
  Prísið nú hans nafn
með nýum saung,
ei' meir musteris
meðr sálmum,
heldr æðstum óð
arfleifðarinnar
galið Guðs Syni
göfgun háa!
  Sèrhvör, sá himins
sem glóandi
er af andagift
upptendraðr,
sýngi Syninum
sómafull ljóð,
svo finni sèrhvör,
sá er kemr
auglit háleitt hans
hèr til at sjá,
oss hann án afláts
upphefjandi;
  Ok honum, hvönær
sem hann birtist,
taki tignar-ljóð
teit á móti!
með sama móðir
ens mikla' er dó
ok þó æ lifir
upphóf ræðu:
  Nam ek, nær ofmjök
eigi nálægðist
ódauðlig Eva
ódáinni,
gleði-tóna tróns,
en tamri þó
mannsraust vil ek með
mikla líka
enn hátt upphafna,

með hans bræðra
á hauðri hljóðum
vil ek hann prísa.
  Kom, sýng þú með mèr,
sem í Magdala
skóp Drottinn dölum
til dauðligs lífs;
María mælti
Magdalena:
ek með Messíæ
móður sjálfri
þess ens hátthafna
hróðr sýngi?
  Ek, sem er óvígð
með eldi Guðs,
sjáfum Syninum
saungprís stami?
en komum allvel!
þó eptir lángt
þèr mesta móðir
mun ek fylgja!
því ek hann elska
inniliga.
  Þú heyrðir hljóma,
þegar hann fæddir,
yfrit ágætann
yfir stalli
sigurhróss saung
frá sveitum engla,
sem gólu glaðir
Guðs Syni lof.
  Asamt með Evu
indisligri
hörpu hefir þú
heyrt ena fögru
tóna tróns, og ert
ens tignar-hæðsta
Messíæ móðir,
en mèr til hans
býr ást í brjósti,
byrja þú móðir
hans, sem hel þoldi,
hróðr nýann!
  Svo greip saltara
sæl María,

ok hóf augu sín
upp til himins,
streymdi þá strax
útaf strengjum flóð
all-lètt áhrærðum
andagiftar.
Svo hóf at sýngja
sjálf Guðs móðir:
hann, þá er helgir
hástóls englar
kváðu kríngum hús
kvikfènaðar
í borg Betlehems,
barnstárum grèt!
Hátt Hallelúja
heiðrendanna
hljómaði hærra
ok hátíðligar,
þegar þeir sáu
þvílík renna
gæðskugjörn tár
ens guðdómliga.
Þá kvað mærðarmál
Magdalena:
ek sú er svo mjök
syndgat hafði
fèll at fótum hans
full af ángri,
ok hann yfir mik
aumkaði sik!
Sá barn grèt borinn
í Betlehem
tárum mjök mjúkrar
meðlíðunar,
hann sem heiðurssaung
enna himnesku
stærstu mildi með
á móti tók.
Síðann saung aptr
sæl Guðs móðir:
ei' í grasgarði
Getsemanes
frammrann flóð tára
af Frelsaranum,
dýrir dundu þar
dreyri' ok sveiti,
hvörutveggi hátt
hrópuðu um náð!
Mæt saung María
Magdalena:
jafnt, sem Jesús leit
Jerúsalem,
útaf augum hans
ákaft flóðu
yfir eymd hennar
aumkunar tár.
Hann samannsafna
sonum hennar
vesælum vildi
víst sem hæna
úngum sínum ein
undir vængi,
en hann ei vildu
aðhyllast þeir!
Ei' hinn elskanda
um þeir hirðtu,
heldr hrópuðu
á hæð Gabbata:
yfir oss komi
ok á oss sjálfum
bytni blóð hans
ok börnum vorum!
Æ! þat útflóði,
ok eins fyri þá,
háu Golgata
á Guðs altari!
skaut þá eigi skjótt
skelfðum augum
frá honum ok fór
flýandi dómr?
Hrein þá ekki hátt
helvíti dymmt
af felmtri fángit
fyrir honum?
var þá eigi víst
vel uppfylltr
eiðr sá hann sór
sínum Föður:
ek vill allt mannkyn
endurleysa?

Hefir ei' hæðstum
með heiðri ok dýrð
fólks friðþægíngar
Fullkomnara
dýrstr Drottinn krýnt
dásamliga,
síðann hafði hann
höfuð á krossi
djúpt hneigt í dauðans
ena dymmu nótt?
Æ mín augu
með unun stórri
í hæðir horfa
til hans dýrðar,
þráliga þó
ek þeim niðr læt
brátt aptr brugðit
á blóðs alltari;
Ok ber ángurs kvein
yfir honum,
hvörs háleitt hneigðist
höfuð í nótt
krýnt með kórónu
kvala' ok smánar
á hæð hrakligri
höfuðskelja.
Góðlynd Guðs móðir
gól at nýu:
kom brátt, vèr biðjum,
vèr bíðum þín,
oss þrykkir þúngi
þess ens sæta,
eptirvæntíng, ósk
óró, gleði.
Kom, hvörn krans eigi
krýnir framar
forsmánar-fullur
á fjalli dauða;
ei' hylr holr
hèðann í frá
grafsteinn í grímu
gelgvænligri
hinni, Golgata
sem gein yfir.
O! kom af dauða
upprisni þú
maktar-mikli —
kvað Magdalena —
kom, sem fargat fjör
færðir aptr,
kom, og fulla flyt
Föðurs blessun!
Æ kom, eptir þèr
allir mænum
um djúpa dali,
dýrann himin,
um fjöll allt í kríng
inniligum
með sjónar-svifum
ennar sætustu
ok einlægustu
eptirvæntíngar,
kom, finn enn fyrsta
fólks söfnuð þinn!
Sjá þú, svo væntir
með sjón fagnandi
ok sæmd sakleysis
sannri prýði
brúður bíðandi
brúðguma síns,
sem nú safnaða
sá enn fyrsti
þessi væntir þín,
þú upprisni
með dýrð frá dauðum
dauða' at vekja!
Sveimið söfnuðir
sona-barna,
fagnandi fetum
til fyrstu grafa,
þá sem þar hvíla
þessi lífs Herra
ok yðr einnig
uppvekja mun!
Ferðist til fornra
feðra beina
ok berið alfrjó
uppskeru blóm
forkunnar fögur,
ok fullar varir

með lávarðs lof,
sem lífgar dauða!
Miðjann mærðarsaung
Magdalenu
heppti gleði hróp
hennar sjálfrar,
hans fái flokkr
fyrsti þessi
sífeldt Sonarins
söfnuðr vex!
Lítið, vottar, við,
um veg sèrhvörn
neðar koma nú
nýir vottar,
leiðir sem liggja
úr lágum dölum
híngat uppá hæð
helga Tabors!
Hve sik hraðara
hræra stafir
ferðamanna framm
við fet sèrhvört
upp til ununar,
ok hve dymmri
ryk-ský reisenda
rísa' af fótum?
Fjöld af farsælum,
fjöld af kjörnum
Kristi krossvinum
keppast hèr upp,
svo hann af sínum
sèð at nýu
Föður fái nú
forkláraðann!
En mæt María
móðir Kristi
hèldt framm sínum saung
ok són strengja:
frammkvæm, ó Faðir,
forklárun hans
með svo mikilli
megin-birtu,
At Guðs eylífa
auglit Sonar
fái sèð flokkr
frumsafnaðar
himins há-unun
heilagri með,
djúpum dýrðar ljóss
drekki af straumum;
Af þeim æ síðann
endurnærðir,
eptir huggun ei
optar þyrstir,
ei þá af þörfnun
þess, sem hressir,
örmagnist eðr
eptirlaungun;
þegar þá hittir
þyrst í dreyra
ok í trúar tjón
tyranna sverð;
Þá er þeir gánga
þrautum kvaldir
til blóðugs bana,
svo at beri þeir
sitt hið síðasta
um Son Guðs vitni,
lát þá lángsama
líðun þeirra,
nú sem nálægjast
neðsta púnkti,
ei' þá með ofþýngð
yfirbuga!
brátt lát blóð tala,
þú bezta líkn!
Enn saung mærðarmál
Magdalena:
hvört er ek einnig
útkjörin til
svo vegligt virðta
vitni at bera?
mun ek verða virdt
at veg blóðgann
til grafar gángi,
ó þú Guðs Sonur?
Ef lángsamligum
læzt ek dauða,
þá snú þèr eigi,
þegar ek hníg

máttlaus, með öllu
frá mèr aumri!
mèr nægir minnsti
moli' af huggun!
Svarar sýngjandi
sæl María:
þèr nægir þat
en þeigi honum,
sem þèr mær svo mjök
hefir miskunat,
at mildi mola
meðdeili' at eins.
Þóknist honum þik
þartil kalla
at vera vottur,
verðr engi
allra kvala kvöl
þik svo kveljandi,
at þú ei aptr
upphimins raust
mæla, María!
megir heyra,
ok sem fyrr fallir
til fóta honum.
Víst ei viðstaddr
verðr hann meir
geigvænurar grafar
gáttir dymmar,
heldr á hástól
hæðstu dýrðar
Föðurs hægri hlið
hjáríkjandi,
hvörs framm við fætur
falla munt þú!
Lengði mærðarmál
Magdalena:
ó þú, sem alltfrá
upptökum heims
hefir elskat oss
ákaft þráir
önd mín eptir þèr,
alla náðar
fá lát fyllíngu
frammvegis oss!
ennú ó Guðs Son
opinberast!
Æ virðst at veita
vottum þínum
stöðugann styrk,
svo stíg enn blóðga
træði traustir
allt at takmarki,
þar sem blídt blaktir
blóm-pálma grein,
ok væn verðlauna
viss króna
sjón skín sigranda
sèrhvörs móti!
Þannig súngu þá
þessar báðar,
María mey
ok Magdalena,
allmargir engla
ok upprisinna
voru viðbættir
vottanna flokk,
ok með þeim ásamt
önnur vitni.
A stilltra strengja
studdist hörpu
af gulli glæsta
göfgur Elóa,
hlýddi hann á
meðann helg kvæði
grátandi af gleði
Guðsmaðr saung,
sik nær dýrum dikt
Davíð færði.
Nær eð nú heyrðu
í nánd komandi
hópar hugfrómra
hana sýngja
af unun andar
upptendraða,
þá flýttu þeir sèr
þángat sem mest,
samræðandi svo
sín á milli:
Þèr heyrið, hvörnig
hún frábærri

með gleði göfgar
enn guðdómliga!
máske hennar hann
hvoli Tabors
einhvörjum á
fái augu sèð?
Hún máske hefja
helga fætur
hann sjái sína
hjá cedrus trè,
ok fúsann feta
at finna móður;
en hann ei sáu
augu þeirra.
Enn komu á eptir
aðrir margir,
sem voru af sveit
enna sjötíu,
svo hinna sèrhvör
samfara þeim
þeir er hann eittsinn
yfirgáfu,
grátnir í geði
gengu þessir.
Margir fylgdu með
manna halltra,
sjón ok heyrn sviptra,
sem Kristr fyrr
hafði heila gjört,
hèrmeð dauðir,
af honum áðr
endurvaktir.
Beór ennú einn
ok Dílean,
Samma samfara
sínum Jóel,
Elkanan ásamt
ósýniligir
Kerubim komu
ok krans blóðvotta,
Bæði Bersebon
ok Betórou,
ok með þeim englar
ósýniligir
báru blóðvotta
bjartar krónur,
trúuð Tabíta;
þeir tveir, Stefán
ok Jóses jafnframt,
at Jesú hneigð
prúðlynd Portía,
Pílats kvinna.
Nú lèk Neptóa
næstr henni,
dreifði vífs á veg
vænum blómstrum
úngum aldinum
uppvaxandi
með hálfmynduðum
mæta laufum.
Opt horfði á hana
hugljúfr sveinn,
mætti meinleysi
mörgum brosum;
svo er, hermir hann,
himins vegr,
ek er engill sá,
er þik leiðir!
Opt flóðu fögur
fagnaðar tár
um vánga vífs,
sem var ei' móðir,
en hèr úngr sveinn,
eylífðarinnar
sem nú var næsta
nálægr bygð,
hennar vegvísir
varð til Kristum.
Mælir hún til hans:
himinsvegr
er, þú úngi sveinn,
yfrit fagr;
elskar ek engil,
er mik leiðir!
ek þik — ansar hann —
elska líka.
Þó mun ek þaðra
þik elska meir,
þá er að þrotnum
þessum gángi

blómligrar brautar
munum bygð öðlast
eika skuggum í
annara fegri
cedrus — sem pálma,
þar sífeldt vor
okkr umljómar
eylífðarinnar.
Nikodemus nú
náði' ok Jósep
báðum þeim á braut,
ok brátt heyrðu
þat er þau ræddu
þar milli sín,
færðu þeir þeim fyrst
friðarkveðju,
kveðju Kristi,
sem hann kvaddi með
sína, svo opt þeim
sem hann birtist.
Þau gengu þángat,
sem þær voru
Messíæ móðir
ok Magdalena;
sem en fyrri sá
svannann heiðna,
full varð fagnaðar
ok forundrunar
hún, at til himins
hefði þegar
Kristr kallaða
konu þessa.
Nú ennar nýu
nam hún aptr
jafnsnart jörð hærri
Jerusalems
at hræra hörpu;
hún þannig saung:
Þú eykr ennú
iðugliga,
sjálfs Föðurs Sonur,
sæla skara
af ens eylífa
erfíngjum lífs!
Þú hefir þèr
á þessum degi
fjöld samann safnat,
þeir er sjá skulu
auglit þitt, ó þú
sem þinn Faðir
aptr af dauða
útleidt hefir!
Hún verðr helgra
á háum toppi
ok fagra fjalla
fast grundvölluð,
hvöreð hærra nær
himins stjörnum,
sáttmálans Salem
sjálf ens nýa.
Skunda fyri framm,
fleyg þèr mín sjón
á kaf inní
hið eptirkomanda!
unun er at sjá
þann enn upprisna,
en þat er einnig
eptirlæti,
at horfa á hina
happstíma röð
ofaun eptir,
þá er uppsprettan,
harla smár hópr,
at heilum skörum
verðr ok vex
eins ok vatns straumar.
Hvörnig hófstu þitt
háleita verk?
dauðligri drós
þú enn dýrðligi
ok veikri virðtist
veita' í fyrstu
þú at líta þik,
er þín vegna grèt.
Postulum þú þik
þínum háu
eins næst þareptir
opinberaðir,
hvörjum hèr geymast
harðar svipur

ok dapr drómi
en í dómi trón;
Ok þat optar
enn einusinni
hefir þessum þú
þik auglýstann,
uppá þat at þeir
því meir styrkist,
áðr enn þeir út
arka, sem þú
með háðúng hlaðnir
af herbúðunum;
þá enn þessum hóp
þínum litla.
Hvörnig heldr þú
enu háleita
fagurliga framm
furðuverki?
óx ok útbreiddi
ypparla sik
græn ok göfug eik
Guðs þekkíngar
yfir alda her
allann jarðar,
lènandi lýðum
lífsins skugga.
Ok hve nú algjört
innsiglar þat,
þú enn fórnfærði
Föðurs Sonur,
í frá upphafi
innvígðr til
fólks forlíkunar
fyri laungu,
fyrrenn þat þessi
þá enn væri
harla smár hópr
ok hinir skarar.
Opnast aðskilin,
þèr englar Guðs,
hángandi hulda
fyrir himinsins —
ó hún er opnuð —
allra helgasta!
komið, kórónum
kastið niðr
fyri fætur hans,
er svo frammkvæmir
dýrðliga Drottins
dásemdarverk!
Krists fætur kvistum
kostuligum
pálmaviðar við
varpið niðr,
við fætur frábærs
Fullkomnara,
sýngið honum hátt
Hallelúja
skara þúsund þèr
þúsundsinnum!
Þá er þær höfðu
þannig súngit
fyri forundrun
frá sèr numdar,
hljóðfagrar hörpur
úr höndum sèr
loksins lètu þær
lagðar niðr.
Lazarus leit þá
sem liðs fylkíngu
fleiri' enn fimm hundruð
fyri standa
mætri Messíæ
móður ok sèr,
vitandi vera
vissa heillar
æðstrar erfíngja,
ok enn fyrsta
aldinn gróða Guðs,
Guðs frumburði;
Sem mundu síðar
sigur kórónur
á höfðum hafa
hástóli nær,
ok flókinn feril
forsjónarinnar
fengju svo fetat
sem ferðamaðr
meðr morgunsól
margfarinn veg.

Hann við hermda sjón
háfögnuði
inniligum af
upptendraðist,
ok varð af sínum
ununar þaunkum
eins ok á vængjum
allr borinn.
Hvatfara á hvol
þann er hvíldist við
uppstèg ok yfir
erfíngjanna
brúna-ljósum brá
biðjandi skara,
ok með þagnar þökk
þeim leit í hæð.
En hann frammgekk fljótt
fyri skara,
lypti hátt hendi
ok hóf svo ræðu:
oss samannsafnat
sjálfr Kristr
hefir allt híngat,
höltum, blindum,
daufum ok dauðum,
dásamliga.
Samannsafnat
hefir Sonur Guðs
aumum í anda
örfátækum
þeim, sem þína hjálp
þekkja Drottinn ,
at eins, en aðstoð
anngva manna.
Vitið þat vottar,
sem verða munuð
þess ens upprisna,
at yðr sjálfr
hefir hann at eins
híngat senda
á hið fagra fjall
forklárunar,
Svo dýrð hans sæuð,
ok síðar um hans,
um ens eingetna
Arfa' af Föður,
sjá, fulls af sannleik
ok sætleik náðar,
vissuð at vitna
volduga dýrð,
dásamliga dýrð
Drottins Jesú,
hvörjum sè heiðr
ok há tilbeiðsla
frá eylífð einni
til annarar!
Ek hef upp höfuð
með himins gleði
mitt yfir yðr;
elskufullann
meginn-meistara
miskunarinnar
ek víst eigi
fyrir yðr nú
beiði blessunar,
því blessun sinni
hann yðr áðr
útbýtt hefir.
Hefir heiti því
Herrann Kristr,
sáttmálans mikli
Meðalgángari,
bezt yðr blessat,
at birtast vilji
á Tabor yðr
óbrigðanliga;
Ok með því einnig
yðr blessat,
er þèr, sem ek,
í ókominnar
sjáið fyriframm
fjárlægð tíðar,
með heipt ok háðúng
fyrir hans nafus skuld
undir illfúsum
ofsækjendum.
Eins með erfiði
ok ærnum sveita
á braut bölfullri,
ok með blóðvætti

því, at þaruppi,
þraut, smán ok blóð
launar líðendum
lífs kórónа.
Mik er mildi skeð
mikil næsta,
mèr er gnægð gefin
Guðs hjálpræðis,
geld ek þeim er gaf
grátanda þökk,
en þó mun eigi,
til at umvitna,
minn dreyri dynja,
Drottinn Jesúm;
ek fer á undann
upp, svo skipti
hernaðar hreysi
fyrir hressíngu.
Lof sè Lávarði,
sem leiðir mik
undann, en yðr
eptirsendir,
umbun eylífa
til at uppskera,
um hlið harla mjótt
hels blóðgann veg!
heiðrist heilagt nafn
Heimslausnara!
dýrkist dýrðligt nafn
Drottins Jesú
um allar aldir
eylífliga!
O líðið ljúfir
lægínguna,
þolið þúnga smán
þeirra gjarna,
sem niðra nafni,
ok neita dýrð
hans, sem himins er
Herra' ok jarðar,
ok hinn eylífa
eigi þekkja.
Því lýðir líka,
sem láta sèr
vísa veg til Guðs
vitnisburð yðar,
munu kanna kíf
Krists neitenda,
harðar háðúngar,
ok hjör sem eigi
drykkjast með dreyra,
en drepr þó.
Ei hinn upprisna
augum litu
þeir, en þó trúa,
þessvegna sjá!
Guð meðal manna
myrkva götu
sína fetar framm
fyrst í stilli,
en loks nær líðr
at leiðar marki
skundar hann skjótann
skruggu-veg dóms.
Lèt nu Lazarus
lokit ræðu,
ok leit umhverfis,
en í skugga
hjá einum hóli
hann sá standa
föt nokkur fæðslu
full ok drykkjar,
sem á vínviði
vex ok hálmi;
tók því til orða
ok tjáði á ný:
Skjótt þèr í skerfi
skiptið sundr
til bræðra borðhalds
brauði' ok víni,
færið þat svo framm
fyrir votta,
svo þat undireins
af þeim helgist;
Heyrið þèr, sem hans
hèr nú bíðið
eptir mjök æsktri
opinberun!
oss í hans andláts
endurminníngu,

hans máltíð helga
halda látum!
Glaðr heyrði her
hann segja þat,
ok síðann sendi
sjö menn únga,
er skipta skyldu
í skerfi sundr
til bræðra borðhalds
brauði ok víni,
svo hvör við síðu
settist öðrum.
Fór nú fjöld þegar
ok fèll á knè,
fjöld hèldt til himins
höndum samann,
auðmjúk af augum
útflóðu tár,
báru brauð ok vín
brátt hinir úngu
framm, ok fjölmennit
fyrirlögðu.
Gekk á láð lögðu
Lazarus at,
stóð með stjórn augna
af stórum þaunkum,
höndum harla fast
höldnum samann
ok til himins upp
allhátt lyptum;
hugðist hann aptr
at hefja tal.
þrengðu sèr þegar
þángat englar,
ok menn upprisnir
frá átt hvörri,
með ugg ok unun
ok með tárum,
til ens kærkomna
Krists safnaðar.
Hátíðligri hóf
hugar alvöru
Lazarus upp orð,
auðmjúka bæn
sem Guðs fórnfærðann
fyribæri
undir eins ok hann
innti þannig:
Jesús Kristr kær,
sem oss keypt hefir
á neyðar nóttu,
nær hann var svikinn,
tók brauð, blessaði,
braut þat ok gaf
lærisveinum sín,
ok sagði: takið!
etið! þat er minn
eginn líkami,
er fyrir yðr
verðr útgefinn;
í mína minníng
menn þat gjörið!
Jesús Kristr kær,
sem oss kvittaði,
nær eð hans niðr
á nótt skelfíngar
dreyra sveiti dýr
draup í garði,
kaleik kærann tók,
tjáði þakkir,
gaf sveinum sínum
ok svo mælti:
Kaleik þenna þèr
þess ens nýa
sáttmála samins
fyri sjálfs míns blóð,
sem ek, svo kvittist
syndir yðar,
af mèr úthellt læt,
allir drekkið,
þetta, svo opt þèr
þaraf bergið,
minnist at mína
í minníng gjörið!
En þeir með auðmýkt
inniligri
meðtóku máltíð
Meðalgángarans,
ok með öruggum
ásetníngi

trúa til enda
at tjá sik honum.
Nær borði náðar
nálægðu sik
þeir, eðr aptr
á burt snèru,
þá styrktu þeir sik,
þannig til sín
hrópaði hvör
af heitum anda:
Æ kosta kapps um
að komast lengra
þá góðu götu,
er til Guðs leiðir;
veðhlaups enda við
verðlauna hnoss
frammhaldendur fá,
en fyrr ekki.
Sjálfr hefir hann
háðúng liðit
ok þat útstaðit,
sem aungvum vor
ákvarðat er
til at útstanda;
hátt í himninum
heiðraðr sè,
ok hátt heiðraðr
hèr á jörðu
Guðs enn mjök mikli
Meðalgángari!
Hann fèkk fullkomnat
friðþægíngu;
sjá hann enn hæðsti
Herrann Kristr,
Jesús Kristr, já
Jehóvæ Sonur,
inngenginn í
hið allrahelgasta
er hinn eylífi
æðsti prestr!
Þèr, nær þitt hjarta
þyrstir, svali
sáttmáls bikar sá
ok sálu þinni
öflugrar afli
endurnæríngar,
blóðvættis bana
nær bíða skallt!
Eins sem, ó móðir,
orðum kveðju
þik eittsinn engill
ávarpaði,
Herrans háblessuð!
heilsa þú mèr,
ek til hans erfðar
er nú kominn,
til sjálfs Sonarins,
sá eð er Guðs
ok manna milli
Meðalgángari!
O! hvað er jarðar
uppfrá þessu
mikilleikr mèr
minna enn ekki!
ok þó er mèr geymd
óbrigðanlíga
önnur unaðsemd
ennú hærri!
Er hinn ókennda,
ógrundanliga
ok framar öllum
undrunarverða
guðdóm gjörla mèr
gefst at líta!
æ, ek em kominn,
ok nú þegar,
til heilags háborðs
hjálpræðisins,
er svo vesæll var,
víst ek sjálfr!
Þegar at þrotnu
þessu fjöri
hverf ek til hárra
himinsala,
þá verðr þat líf,
sem ek þar byrja,
sannliga hið seinna
sælulíf mitt!
Af víntrès vöka
vèr með honum

fullhrestir fögnum
í Föðurs ríki,
gefins verðum vèr
vel haldnir þar
af ljúfum legi
lífsins strauma!
Æ! hvönær, hvönær
himin opinn
fæ ek fagrann sèð,
ok við Föðursins
hægri hönd standa
Herrann Jesum?
nær gefst mèr götu
at gánga hèðann
sveinsins síðasta
af sjö blóðvottum?
einnig minn eginn
andláts bikar
drekk ek í Drottins
dauða minníng!
A hæðstum himni
háttlofaðr,
háttlofaðr hèr
á hauðri sè
æðstr allsherjar
Endurlausnari!
því meiri' ok þýngri
sem þessa heims
ánauðir yfir
yðr koma,
ok því hærra hèr
hróp er þeirra,
því framar fólgit
fjör með Kristo
yðar í Guði
eylífum sè!
Eptir aptansverð
elskufullann
gekk út Guðs Sonur
í Getsemane,
af lágt lútandi
líðandans þar
ásján draup dreyri,
með dauða sveita
ens hörmúng hlaðna,
eptir himneskt borð!
Miskuna mèr,
Guðs Meðalgángari,
er ek yfirgaf,
æ mèr líkna!
gef at til enda
ek sè þèr trúr!
mèr, sem hèr sái
með söltum tárum,
unn þú uppskeru
at öðlast síðar
fagnaðarfulla,
Frelsari minn!
Tvisvar ásett er
at ek deyi;
venjumst vèr ei því,
at vöku skammri
hjá þeim, heila nótt
hefir sofit,
dags-birtíngar dúr
dægiligrar,
nær aptureldir,
eptirfylgi?
Þá verðr þat,
nær at því kemr,
at mik vínviðar
veig með honum
kætir fersk *ok frjó*
í Föðurs ríki!
ó Kristi andláts
endurminníng!
Þèr, hvörja hann mèr
hefir senda,
blíði Benóni,
sem mèr birzt hefir,
ok aðrir englar,
hvar eruð þèr,
svo yðr með mèr
megið gleðja?
Hann sè á himnum
háttlofaðr,
háttlofaðr hèr
hann sè á jörð,
sem var svikinn
í sárann dauða,

svo kvöl kannaði
krossfestíngar!
hvörs í grasgarði
Getsemane
draup þegar dreyri,
áðr deyandi
höfuð sitt hneigði
hann á fjalli!
  Mætti stríðann stíg
Stefáns gánga,
stíg sveinsins sæla
þess ens sjöunda,
upptil Kristum ok
upptil Benóni,
upptil Samma, svo
til Símeons þú,
já, dýrðar jöfurs
Jesú Kristi.
  þá nemr nætur
nið frá augum
hann, ok þerrar þá
þín gjörvöll tár!
brátt hvarf myrkið mèr
meðann lifði,
ok brátt, Elkanan,
augum frómra,
sem lemstur líða,
líka þínum,
dymm nótt, þegar deyr,
detta mun frá!
  Mætust María
móðir Kristi
hrópar til himins
með hárri raust:
ó þú eylífi
æðsti Prestr!
eingetinn Arfi
eylífs Föðurs!
ok þú Mögur minn
af mèr fæddur!
  Dauða þinn, uns þú
þína móður
kallar, at komi,
vil ek kunngjöra!
á hæðstum himni
háttlofaðr,
háttlofaðr hèr
á hauðri sè
Guðs enn fórnfærði
Friðþægjari!
  Midt í því, at þeir
þannig ræddu
sín á milli, sik
svo styrkjandi,
ok sem þá þegar
væru þeir staddir
sjálfs himins sala
við sælar dyr,
lífsins orðum einu
annann kvaddi,
sjá þeir samstundis
sjálfann Jesúm
á hæð eina þar
ofanustíga.
  Gegnt þeim glansaði
enn guðdómligi,
ok nú strax í stað
stóð fyri þeim,
en allt í einu
augu þeirra
eins ok sèrhvörs um
upptendruð sveif
undrun ok unun
yfirmáta.
  Líkt sem vorvindr
í víðum skógi
hvískrar lágt um lopt,
lètu blandnir
rómar ræðenda
við raustir gráts,
þá er þessi gaf
þeim frá himni
sálar sannfæríng,
ok at sjón varð trú.
  Svo sem einn, sá er
í sólar hita,
gengr lánga leið,
líðr þorsta,
svalar sèr af læk,
ok samt þyrstir

aptr ok aptr,
ok enn drekkr;
þannig þeir einnig
þyrstri sálu
á Herrann horfðu
með himins girnd,
en hann undanndró
eigi lengi
til þeirra at tala,
ok tjáði þetta:
Æ! sè með yðr,
astkæru börn! —
slík var heilsun hans —
heill ok friðr!
mjök í míns Föðurs
margar eru
vistarverur
vegligu húsi.
Ek fer, svo fái
fyrirbúit
yðr þar uppi
öryggann stað,
svo kem ek síðann
til sèrhvörs aptr
í hans andláti
upp at flytja
hann til mín hèðann,
svo hvar ek er
hann þar meðr mèr
megi vera!
þèr, ef mik elskið
óbrigðanuliga,
haldit hvað yðr
hefi' ek boðit,
Föður mildann minn
mun ek biðja,
hann ok himneskann
Huggara mun
yðr senda sinn,
Sannleiksanda,
hvörjum heimsins
enir hrekkvísu
menn eigi megu
móti taka.
Hann ei þekkja þeir,
en þèr hann munuð
klárliga kenna,
nær kemr hann,
sjálfann sik yðr
sameinandi,
ok þèr eins verðið
eitt með honum.
Sjá, ek yðr ei'
yfirgef svo,
sem móðir mög sinn
munaðarlausann
ein við andlát sitt
yfirgefr;
ek kem aptr,
sem yðr leiði
ok hef til hárrar
himins þekkíngar,
yðar oddviti
til eylífs lífs.
Því at hèr þegar
munuð þèr læra,
at á milli min
ok míns Föðurs
sameiníng sè,
ok sömuleiðis
yðar milli' ok mín,
mín ok yðar.
Hvör mín boð hefir
ok heldr þau,
er sá enn sami
sem mik elskar,
mjök svo minn Faðir
mun hann elska,
ek mun elska hann,
ok mik honum
með ástarunun
opinnbera.
Elkanan einu
á augabragði
guðdómligann glöggt
meðal grátandi
votta sinna sá
Son Guðs standa,
hátt upphrópandi
hann fèll á jörð,

síðann reisti sik,
sem af dauða.
Jesús jók enn tal:
já, við munum
Faðir minn ok ek
elska þann mann,
heimsækjandi hann
hjá enum sama
vistarvern
munum við gjöra.
Víst em ek víntrè,
víngarðsmaðr
einn minn Faðir er,
en þèr kvistir,
sèrhvörn kvist, sem ei
sýnir gróða
ok er ónýtr,
mun hann afsníða;
en hvörn sem ávöxt
af sèr gefr
hreinsa mun hann,
svoat hvervetna
blómgist betr
ok beri gróða.
Enginn yðar mik
hefir útkjörit,
heldr yðr ek,
ok með blessun
auðgat svo yrðuð
ávaxtartrè,
eikur uppsprottnar
eylífðinni.
Heyrið, hugfestið
mitt háleitt boð,
ok þat sè eflíng
yðar hjörtum:
því eins sem áðr
iðugliga
hefir hatat mik
heimr þessi,
mun hann yðr ok
einnig hata;
elskið hvörannann
innbyrðis þèr!
Sjá, ek minn yðr
eptirlæt frið,
minn frið góðgjarnann
gef ek yðr,
frið mjök fráleitann
friði jarðar,
með hugar hreysti
hræðslulausri
hann yðr efli
ok andar ró!
þèr ef mik elskið
munnuð ok gleðjast!
Þannig heyrðu þeir
þessi en hinnstu
vígslu-orð inna
Endurlausnarann
til nú nálægrar
nýrrar rómu
ok til eylífs lífs
yfir sínum,
sem hann með sama
ei sáu meir.
Ok sem yfirtaks
undrun þèirra
öll var nú orðin
einskær gleði,
sálarró sæt
ok sinnisblíða,
litu þeir liggja
eigi lángt þaðann,
sem Herrann hafði
horfit frá þeim,
líkt svosem svæfi,
sveininn Neptóa.
Þeir vildu vekja
vært sofanda,
en sá enn sæli
sveinn var dáinn,
upp! látið lesin —
Lazarus mælti —
samann björt blómstur,
meðann bý ek gröf
honum til handa,
sem hèr er liðinn!
Þeir tóku án tafar
að tína samann

fimum mundum
mæta blómstur,
nærri Neptóa,
ná til at hylja,
hóf sik þegar hratt
hrúgan litla,
er vèr hljótum at
allir koma,
mætir dupt dupti
við dýngju þá.
Svo þeir samstundis
sveins brosanda
lík í gjörva gröf
glaðir lögðu,
lausri jusu jörð
jafnsnart yfir,
ok hans útsáðs reit
um lètu dreift
með fullum mundum
mæta-blómstrum.
Þá snèru þeir
at þessu gjörðu
sèr brátt til baka
burt frá Tabor,
opt varð allmörgum
apturlitit
á býng blíkandi
blomstra nýann.
Þó urðu þeirra
við þessa sjón
ei' af ángursemd
augu döpur,
þeim at eins andlát
ávinníngr
lystiligr var,
ok líf Kristr.
Þeir, sem af sveit
enna sjötíu
um tíma á Tabor
tafit höfðu,
af fjalli fóru
forklárunar
ofann aptr
eptir stígum
þeim sem þar lágu
þvert yfir frá,
svo rètt rötuðu
at runni pálma
luktum lágt í dal
lítils skógar.
Þar fundu þeir
í þessum lundi
hina helgu tólf
í hóp samann,
fundu þá af þeim
þar, sem höfðu
áðr ei' verið
uppá Tabor.
Eldligum orðum,
en þótt fáum,
hermdu þeir nú hèr
heill þá alla,
sem var svo marga
af Syni Guðs sken,
hve máttu mæla
menn sem grètu?
Djúp þögn drottnaði
á dýrum fundi,
smekkr fyriframm
fenginn himins,
æ, frábær unun
undannfari,
apturbirtíng ein
arfleifðar ljóss.
Frásleit faðmlögum
fèlaga sinna
sæll Jakob sik,
en þeir svöruðu:
hvört þú Herrans sveinn
hyggst at skunda?
sik utann efa
anglýsa mun
Drottinn blíðr brátt
börnum sínum.
Já, segir Jakob,
jafnsnart honum
skal ek sem skjótast
skunda móti;
til hans á Tabor
tafarlaust geng;

hve mjök hjarta þitt
hryggjast mundi,
ef hann nú einnig
opinberaðist,
at þèr einúngis
óviðstöddum?
Hann sèr hvað eina,
hann veit gjörla,
hve mik heitt þyrstir
hann til at sjá,
ok hvað þat er,
sem mik úfýsir
svo hratt at hverfa
honum móti;
látið mik lausann!
lítt mun særa
harmr hjarta mitt;
hann gekk af stað.
Hann kom í hárra
hamra skugga
strax innann stundar,
stóð þar, lypti
hátt móti himni
höndum ok bað:
Drottinn, Drottinn Guð!
dvel enn lítit,
stíg eigi strax upp
á stól þíns Föðurs!
æ! ek bljúgr bið,
bænheyr þú mik!
Vèr þat at vísu
vonum allir,
at þú oss munir
ennú birtast;
en hve verðum vèr
vitendur þess?
æ! Guðs mjök mikli
Meðalgángari!
yfirgef þú oss
eigi nú þegar!
Ek hefi, Herra
hæðstu líknar,
fyri þèr fundit
frábæra náð!
ek hulinn hèr
í hamarskoru
vil á knè krjúpa
ok með kirð bíða
eptir hárri heill
hjálpræðis þíns;
ek vil álengðar
eptirhorfa,
sjá, nær frammhjá fer,
þinni fögru dýrð.
Jesús Jakobs
á jörð liggjanda
með bæn hugheitri
í hönd tók þegar,
ok hann uppreistann
innvígði nú
með blíðri blessun,
til at burtsendast
í himin-háleitt
hans erindi.
Fylgdi frómr sveinn
Frelsaranum
ofann leið, sem lá
at lundi pálma
í dal, með dýrum
dans fögnuði
ok teitri titrun
tídt hrópandi.
Strax við fjalls fætur
fjarlæga þó
litu Lausnarann
lærisveinar,
ok við hönd honum
harla nærri
sannfarsælann son
Zebedei.
Litu þeir Lávarð
ljóma fegur
nú, enn nokkurt sinn,
nábeð sínum
síðann uppreis af,
áðr sáu,
ok yfir engla
upphafinn meir.
Þeir hugðu at hlaupa
honum móti,

en við elk pálma
engill nokkr
bauð þeim með bendíng
at bíða hans.
Minnist þú nú þess —
þannig ræddu
sveinarnir samann
sín á milli —
hve vèr hann sáum
her morðíngja
umkríngðann af
á Olíveti;
hardt voru hendur
hans reirðar þá?
Hvörnig Herodes
hvítum serki
Herrann hjúpaði
honum til spotts?
hvörnig háðsfullri
hans lèt vánga
Pílatus pínda
pressu þyrna?
hvörnig hann lèt
um herðar æða
ens skært skínanda
skæðar svipur?
Æ! mun hann í hæð
hefja sik nú?
hvört mun hèr í stað
hans síðustu
endursjónar oss
auðít verða?
munum vèr mega
Meðalgángarann
síðasta sinni
sjá hèr í dag?
O þú, oss ok hann
aðskiljandi,
samvista sundrun,
þú en sárasta,
þýngsta, þrautmesta,
þagnarfyllsta,
alls böls beiskasta,
sem blóðug hjörtu
nokkru sinni sært
ok sundrað gat,
þú ert þá í dag
þegar komin?
vor ok vors Jesú
viðskilnaðr.
Hoppa hjá mèr upp
hálsar ok fjöll!
hlær skemtinn skógr!
skrýðist dagr
með fegri farva
fyri mèr gulls,
ok með purpura
prýðiligra,
hýrara hrósar
himin bláma,
gleði gegnum mitt
gjörvallt hjarta
þannig þrengir sèr,
ok þú grætr?
Minnist þèr á þat,
hve þúngum krossi
uppá Golgata
gekk hann undir?
hvörnig hann var þá
hángandi þar,
uns döprum dauða
dó á krossi?
hvörnig Jósep hans
hjúpaði lík?
Vottar sögðu svo
sín á milli,
krjúpandi á knè
þá Kristr nálgast,
sèrhvör sína
móti Syni Guðs
útbreiðir arma,
ok ástúðliga
fagna Föðursins
Friðþægjara,
hvörs fund þeir fengu
fullkominn nú.
Hann þá himneskri
heilsun sinni,
undireins ok kom,
ávarpaðl;

friðnr — sagði svo —
sè með yðr!
stóð þar fyrir þeim
ok þannig kvað:
Líka sem lamb,
þat er leidt verðr
til fjörláts framm
at fórn-alltari,
engi *mótmæli*
í munni hefir,
gekk hann þögull þat
þolinmóðliga.
Ek mun innannskamms,
elskanligir,
eigi með yðr
endursjónar
nú framar njóta
hèr niðri' á jörð,
eigi heldr hèr
hunángseim eta
ásamt með yðr
uppfrá þessu;
Ei' heldr optar
af því neyta,
sem við sjáfarströnd
sjálfum yðr
mjök snemma morguns
matreiðið þèr,
ei' í forsælu
optar hvílast;
En í sannsælum
sölum friðar,
hvar vistar-verur
eru víst margar,
munuð þèr mega
yðar Messíam
með ást ok unun
apturlíta,
Ok í samsæti
sáttmálans feðra
með þeim mikilli
móti taka
vegligs vinskapar
vellystíngu,
sem ei skerða skal
skilnaðr meir.
Nú í viðurvíst
votta sinna
Drottinn dýrð skrýddu
dásamligri
fèll á fold niðr,
Föður sinn bað
ok með hátthöfnum
*hermdi rómi*:
Tíð var takmörkuð
til þess komin,
at hinn eingetna
auglýstir þinn,
svo hann sæist
í sinni prýði!
ok sjá, enn sama
sýnt þú hefir
at fullu Faðir,
ok fyrir hann
ert þú auglýstr
æ dýrðligr!
Honum hefir þú
her dauðligra
gjörvallann gefit
af gröf svo vekji,
ok þeim eylífs lífs
arfleifð veiti,
en þat eylíft líf
er, þik, Faðir,
sem ert eylífr,
ok þann sendir,
Jesum Krist, Konúng
at kenna, ok Son!
Ek víst í anda
minnar algjörfu
sè ok síðustu,
sem ek hefi
frammmkvæmt, fyllíngu
fullkomnunar,
á jörð ek þína
hefi auglýst dýrð!
Ek þitt, ó Faðir,
útrètt hefi
gjörsamliga gott
ok guðdómligt ráð!

þèr við hægri hönd
háleitastar
nú mín vænta víst
veldis kórónur!
Dýrð þá muntu mèr,
mín hvöreð var
áðr enn skópum,
apturgefa!
þitt nafn yfir allt
ógnarliga
auglýst hefir ek
útvöldum þeim,
sem af syndugum
sjálfr kjörir.
þú gafst mèr þá,
ok þessir hafa
trúliga varðveitt —
em ek vottur þess —
vísdóm þann ek þeim
þekkja kenndi;
fyri þeim, Faðir,
fús ek beiði,
því oksvo þeirra
fyri þjónustu
ok dyggvann dugnað
em ek dýrðligr.
Brátt fer ek á burt
frá byggð jarðar,
hverf ek heim til þín
á hæð, Faðir!
en þeir eru hèr
eptir á fold;
sjá lengi sorgir
enna syndugu,
ok þola þýngsli
af þeirra böli.
Haldt þeim hvervetna,
heilagi Faðir,
til enda trúum
tignarskærri
þekkíngu þeirri,
sem þeir munu
hafa hèðannaf
um hann, sem nú
er full friðþægðr,
Föður allra!
Eins ok við erum,
lát þá eitt vera,
hús byggt at bræðrum;
bar ek sjálfr
önn, ok umsorgun
ól fyri þeim,
er ek einsok þeir
enn var maðr
ok þeim all-líkr,
yfir þeirra
ódauðligum ek
anda vakti.
O, sjá, þeir allir
eru hèr, Faðir,
aungvum hefir ek
af þeim glatat;
at eins hið auma
ok ófarsæla
tortýníngar barn
tók sik frá mèr,
ok vitni vísum
varð spámönnum!
Ek kem þá þegar
til þín aptr;
til þeirra í tíma
tala' ek þetta,
hèr í heimi
meðann hjá þeim er,
svo minnast megi
minnar dýrðar,
ok gleðjast einnig
sem ek nú gleðst.
þeir ljúfum lèða
lífs þíns orðum
hafa heyrn sína,
ok haft mik kærann,
en hrekkvís heimr
hataði þá,
sem hann mik hefir
hatat jafnann.
þess, at þá takir
þú frá heimi
bráðliga burtu,
bið ek eigi,

heldr varðveitir
ok verndir þá
í gegn illfúsum
ofsækjendum,
frá fúlum anda
fordjörfunar!
  Þá í sannleik þú
þínum helga;
sjálfs þíns sagnir
eru sannleikr!
fyri þá, Faðir,
fús ek hefi
líf mitt látit,
svo lýtum synda
fráleystir fäi
fyri þèr birst.
  Þó bið ei at eins
ek fyri þeim,
sem mèr lènta lèzt
lærisveinum;
ótal munu mèr
mannsköpunar
ennar nýu nú
niðjar alast,
sem daggar dropar
af dags morgni,
endurborin öld
fyri orð þeirra.
  Ek bið þik einnig
fyrir öllum þeim,
at þeir eins ok við
eitt sèu, Faðir!
ok at þekki þat
þjóðir jarðar
allar at þú mik
útsendt hafir!
  Ek þeim eylíft líf
ok mína dýrð,
Guð, sem þú gafst mèr,
gefit hefi,
at þeir einum
anda samann,
eins ok við erum,
allir sèu,
allir ens sama
augnamiðs til
guðdómligs gjörðir
gjörsamliga!
  Ok svo syndarar
sjái jarðar
ok kenna kunni,
at Kristr Jesús
sannarliga sè
sendr af himni,
ok Guð elski þá,
sem eru börn
hans fullframmkvæmdu
friðþægíngar,
eins ok hefir hann
hjartanliga
sona frumburð sinn
sjálfann elskat!
  Sèr skulu safna
samann allir,
Faðir, friðkeyptu
flokkar mínir,
at þar sem ek er
eins þeir líka
sèu til samans,
ok sjái dýrð
þá sem þú gafst mèr,
þegar voru
allir himnar enn
óskapaðir!
  Heimr þessi þik
þekkir eigi,
dæmir rángt þitt ráð,
rèttláti Faðir!
en ek þekki þik,
ok þínum hefi
útvöldum allann
með opinberum
lærdómi ljósann
leyndardóm gjört
sjálfs míns sendíngar,
sömuleiðis
guðdóms þíns, ok þó
mun ek þat sama,
ó Faðir, ennú
opinbera;

Svo at sú elska,
sem þú, Faðir,
elskaðir mik með,
megi þeirra
hjörtu hertaka,
ok Heimslausnarinn,
en ekkert annat,
hinn ódauðliga
allann æ fylli
anda hjá þeim.
Svo bað Sonur Guðs,
sveipaðr geislum
furðu fögrum,
á fold liggjandi;
uppstóð nú aptr,
ok án lengri
dvalar dýrðligr
dauðligum hvarf.
Nær einn krapta-klár
kyrkju saungur,
hvörs inntak er
um upprisuna
eðr eylíft ljós;
uppfundit lag
samkvæmt sálminum,
saung-manns rómr,
hvíld, strengja stillíng
til stórs augnamiðs,
sèrhvað sameinað,
með snild byrjast;
Fer síðann framm
með fegurð samri,
ok hækkar ýmist
eða lækkar,
stundum stígr upp
stundum niðr,
innilegar æ
alltíð mýkri,
meir hughrærandi
ok hjartnæmari,
uns loksins endast,
með upphafs snild.
Líkt sem þeim er þá
sem þat heyra,
(himneska hluti
at hætti manna
at ek umtali)
eins mundi nú,
nær Lávarð litu,
lærisveinum,
þá hann sáu þeir
þannig skína,
ok hans svo heyrðu
hjartnæma bæn.
Þvínæst þeir sik upp
þaðann tóku,
ok frá grund gáfu
Galílæ-pálma,
síðann til Salem
sína leið heim,
uppfylltir unun,
aptursnèru.
Einnig upp með þeim
ærit djúpar
umþenkíngar í
englar þángat,
(þótt í þat sinn ei
vildu þeim birtast),
gengu gjörsokknir
yfir Guðsríkis
stóreflis stofni
nú strax settum;
gáðu þeir ei þess,
at þá hjá sèr
Lausnarans litu
lærisveinar.
Líka lá nærri,
at lærisveinar
eigi þekktu þá,
sem þeim fylgdu,
varla var þeim ljóst,
at væru þeir
engla flokkum af
ódauðligum,
svo voru sokknar
sálir þeirra
djúpt í dýrmæta
dásemd næstu
Endurlausnarans
opinberunar.

Jóhannes jafnvel
Jesú vinum,
er honum ásamt
yfir manna
frelsun fögnuðu,
fráskildi sik,
æskjandi' at vera
einn með Guði.
Sokkinn í sálar
sèrliga kirð
ok af ígrundun
alvarligri
allr inntekinn
eylífrar heillar,
hve hún frammgáng fèkk
furðannligann,
útí öræfi
ens eptirkomanda,
götulausann geim
gekk hann villur!
Fullur af auðmýkt
inniligri
í Guðs vega vídd
vogar hann sèr,
mannafetum með
meintist geta,
en gat öldúngis
ekki, ratat;
en þó sveif um hann
upptendrandi
megin-furðu með
meiníng hans villt,
æ! úr grafgötum
gaf sú honum
fagnaðar fjöld,
sem fæðir villa.
Gekk hann ok gróf
eptir Guðs ráði
því sem leiðir leynt
lukku vora,
þá tröppur þúsund
þúsundsinnum
uppstígr, eptir
ályktun þess
yfir hvörri helzt
hugsandi veru;
Sem þó alls enginn
endanligr
at meta ok mæla
megnat hefir,
ok sem er fyrir
eylífðina
ærit nóg ummáls,
at til at dást.
En svo mjök sem var
svika ljómi
forkunnar fagr,
sem hins farsæla
svo dátt dáraði
djúpa þanka,
þá samt þráliga
þess hann kenndi,
at hann annarar
öruggari
hefði frá himni
handleiðslu þörf.
Mjök fullur mýkstu
meðlíðunar
beið hjá biðjanda
blíðr Salem;
ok nú sá engill
ódauðligr
at sveini síga
svöfu frá Guði.
Engils blíðu bros
brátt gjörðu nú
sólskært sofandans
sjónarveldi,
ok svo fann aptr
uppvaknaðann
stöðug stallsystir,
er stóð hjá krossi,
sem ok síðar meir
við sælann trón
fyri frábærum
Fullkomnara.
Ok nú hrópar hann
hátt af gleði
mætri Krists móður
móti' ok sinni:

ó! nú ek nam
í næðisblundi,
móðir Messíæ,
mikla speki;
um heill ókomna
í þessum dúr
ek varð uppfræddr
ununarfullum!
Æ! þat vitrun var,
vegsamlig sýn!
allt var mèr annat
opinnberat,
enn þat ek áðr
í ætlun rángri
um Guðs auglýsíng
hafði ágezkað.
Því ek í ástands
ókomins vors
feikna fjarlægð mik
hafði frammgefit,
grenslast um, hvað Guð
gjöra mundi;
ek sem enn syndga,
ok senn mun deya,
dirfst hafði' at draga
þann dul at mèr!
Dvelja dirfumst ek
djúp þat viðr,
er sjálfir englar
í at skignast
frekliga fýsast
forgefins þó.
Sjá, vèr í voru
vorum húsi
samannsafnaðir
við sjálft musteri
allir inni
með einum huga;
frjálst ens fámenna
flokks samtal var,
eins meiníng einkis
annars hnekkti.
Móðir Messíæ!
mættu þennann
að eins aldreigi
yfirgefa
kristiligs kærleiks
enir komandi
stórsöfnuðir stíg,
nè í staðinn hans
annann útvelja
ótèrligrar,
harðrar, hvumleiðrar
herravalds-girndar!
Ljós vèr litum,
en í ljósi midt
rann yfir rökkur;
reiðubúnir
vorum vèr dauða
við at taka,
þó brast oss þor
ok þrótt í brjósti
til þess dauðdaga,
er dveldi lengr.
Allt of ákafir
eptir vorri
sjálfra sáluhjálp
sóktum vèr þess,
at með afneitun
fyrir annara
sorguðum sönnum
sálar-heillum.
Vèr eigi vildum
í veröld tefja,
æ! lengr eigi
hèr ala dvöl!
tókum brátt búnir
brautar-stafi;
vildum, vonuðum,
vorum þyrstir
at fá fullsælu
fljótt hjá Kristo!
Nú allt í einu
umkríng þat hús
hóf sik hár þytr,
eins ok hvassviðris,
hann kom af himni,
hrærði ok fyllti,
sjá, allann salinn,
þar sátum inni.

Hèrmeð horfðum vèr
hvör á annann,
litum oss leika
loga á túngum;
auk þess með ákefð
ennú meiri
tjáði tendraða
tilfinníng sik,
úthellt at ofann
í vor hjörtu,
yfir þat allt
sem ákennt höfðum.
Eldslogar — ó hvað
at elska hann
lærðum vèr þá vel! —
vorar sálir
öflgir umstreymdu,
ok allr rökkurs
skuggi skildist
frá skilníngs ljósi.
Ráðnir vorum vèr
við at taka
dauðdaga vorum
þó dveldi lengr,
ok vor, alráðnir,
aldurdóms hár
at láta litast
liðunar blóði.
At vísu velferð
vorra sálna,
en með afneitun,
elskuðum vèr,
með harla heitri
ok hjartannligri
ástar-umsorgun
útvalinna
sjálfs Guðs safnaða
fyri sálarheill.
Mjök vèr at vísu
vorum þyrstir
hjá vorum Herra
heima' at búa;
þó glaðir gjarna,
ef Guð vildi svo,
eptir ára lengð
ærit margra,
hið fyrsta fara
fetum seinum;
þá fyrst, þegar oss
þángat væru
í fullum flokkum
farnir undann
bræður burt hèðann
í enn betra stað
vorir, sem vakit,
velfrædt hefðum,
eflt ok endurnært
með ádreypíngu
líknar-lagar
í lífi' ok dauða.
Vèr ei vorum meir
vegferðamenn,
búnir til bráðrar
burtuferðar
uppí himins hæð,
heimkynni vort,
girðtir vorum vèr
ok viðbúnir,
stóðum með stíga-
stafi í höndum
út til at arka
umhverfis jörð;
Ok með erfiði,
ærnum sveita,
með tárum mörgum
mjök at vaka
yfir andar hjálp
allra þeirra,
við sendíng vora
er vildu kannast.
En í annann stað
oss venda burt
frá sveit sèrhvörri,
er sjálfa hèldi
æ sik eylífs lífs
óverðuga,
ok jafnvel aptr
á þá hrista
fis af fótum oss
frávíkjendum.

Svo greindi senda
sýn frá himni
á jörð Jóhannes
Jesú móðnr,
ok með unaðsemd
uppfyllti nú
harla háleitri
hennar sálu.
Nú hópr hárra
himintúngla
sem heitir harpa
með hans stjörnum
bjartast blikendum,
brátt snýr móti
enum ítrustu
altarisins.
Þetta var þegar
þeim á himni
tíðinda teikn,
at á trón Föðurs
til hægri handar
honum nú brátt
Sonurinn sjálfr
mundi sik hefja!
Eitt óljóst hugboð,
ok þat Jesús
lèt ei leynt vera
lærisveinum,
er hann næst áðr
auglýsti sik,
sagði þegar þeim
þetta fyrir:
At hann víst verða
við þá muni
innannskamms skilinn,
ok í skæra dýrð
á hæðstum himni
hafinn aptr,
þeir færðir fyrst
í fjötur ok spott,
þau er þó flyttu
þá til dýrðar.
Þá grètu þeir,
en þrautar klögun
ljósri Lebbeus
lengi varðist;
í sál syrgjandans
syrti lengi
áðr af henni
enn ofann streymdi.
Vesællt volæði
viðskilnaðr
er hins elskaða,
sem enginn tími
ásettr er
at aptr sjáist,
sálar-hrellíng sú
sèr í gegnum
þrengir þess líf,
sem þreyir eptir,
í hinn innsta merg
ok öll hans bein;
Kastar því um koll
ok á kaf hrindir,
eins hvörsu hárri
sem enn harmaði
ástvinr atsezt
unaðssælu,
því feikna fjærri
fólgin í nótt
er en æskta stund
endursjónar.
Eigi þat aumkar
engill nokkr
ok sik uppvísann
ateins gjörði
ósannindum at,
um þessa stund,
sem er látin leynd
með lágu hljóði,
hvönær hún með ógn
sinna himnesku
kætandi kjöra
koma muni.
Enginn aumkar sik
enna dauðu,
ok sitt egit tál
uppskátt gjörði,
er hann sýndi sik
sem í rökkri

at eins álengðar,
með einn hljóði,
hvönær hádýrmæt
ok heilög stund
klárustu kæti
koma muni;
Sem áðr atbar
engi morgun,
dagr alls engi
hefir uppljómat
enginn yfirklædt
aptan-skugga
nè tæru tjaldat
túngl-skini kríng.
En þó voruð víst
vorir bræður,
þèr, dauðu Drottins,
ok en döpru kjör
manna mold háðra
mjök vel þekktuð,
einnig grètuð opt
orum tárum.
Tómas tvíburi
ena tólf hafði
sem ok sjötíu
samannkallat,
ok hugðist hóp þann
hafa með sèr
útí grasgarðinn
Getsemane;
Var þat hans vilji
at vitja staðar,
hvar um nótt niðr,
nær ens fyrsta
skilnaðar skeði
skelfiligt böl,
Frelsarinn fèll
á fold til bænar
djúprar, dýrstum
fyri Dómara.
Þó var þat eigi
þánki Tómæ,
heldr handleiðsla
hulin Jesú,
sem gáng hans greiddi
til Getsemane;
meðal þeirra midt,
þegar minnst varði,
gekk hann vegvísir
votta sinna.
Þeir fylgdu fúsir
Frelsaranum,
ok hjá gröf gengu,
sem geymdi vífs
burtdáin bein
frá Betanía,
tráðu mjök seint mold
ok mæltu fagra
blessun blundanda
blíðkvendi Guðs.
Brátt var brattari
braut at gánga
uppá örðugt fjall
Olivetí;
Salem fjölfylkta
firnari varð,
tóku tindar fjalls
til at hækka.
Jesús þagði þá,
en þeir ræddu
með hryggvum huga
hvör við annann;
þókktust þeir nokkuð
þat á honum
sannarliga sjá,
er segði þeim
skilnat er ske
innann skamms mundi.
Með stórri sturlun
stóðu þeir opt,
ok sik umhverfis
alltíð horfðu
upptil Golgata,
ok á gröf opna,
en á þessa þó
þrásamligar.
Ut þaðann aptr
sá enn elskandi
er nú víst vikinn
til vina sinna! . .

þetta höfðu hèr
Herrans sveinar
sálir sínar
til at sefa með.
Osèðir allann
Olíufjalls
topp þar þreyandi
þökktu skarar
enir sannsælu,
þá er sèr hafði
Kristr kjörit
til klárrar fylgðar
uppstigníngar í
yppurstu dýrð;
Rèttlátir risuir
uppaf ró grafar,
sem ok sálir,
ok Serafim allir,
sem honum höfðu
á haúðri þjónat
frá enni fyrstu
fæðíngar nótt,
er hann barn barst
í Betlehems stalli,
framm til hèr fylltrar
forklárunar.
Sem ein Cedrus eik
sú en elzta
lyptir lauftoppi
á Líbanons hæð,
stóð hèr enn hái
meðal herskara
Gabríel; gánga
enn guðdómliga
litu þeir um láð,
ok lærisveina
með hrygð hálfglaðri
honum fylgja.
Með glansa miklu
meir ljómanda
enn hvört annað sinn
Elóa skein,
valinn at vera
verndar engill
foldar enn fyrsti;
forsvar leystrar
formælíngu frá
fyrsta jarðar.
Blíð orð berliga
blessunarinnar
formerkt hafði hún,
en hljóðlaus orðin,
ok burt var bistrar
bölvunar raust,
raust birt í bræði,
bráðum stormi,
ræðandi raust
í reiðarslögum.
Jörð hafði Jesúm
játa ok hrópa
með háu hljóði
á höfuðskelja
fjalli, formerkt:
þat er fullkomnat!
með heilum himni
hátíðliga
fèkk þegar þessi
þánki enn stóri
umkríngt Elóam
útvalda Guðs.
En hinir aðrir
öndverdt honum
frá öld til aldar
eptirkomandi
jarðar afdrif í
ofannsökktu;
uns honum einn
af æsku himins
loks rètti lúðr
lýðs upprisu,
at hann uppvekti
alla til dóms
með kláru kalli
fyri Kerubim!

---

Nú við leiðar lok
Lausnarinn var
með sveinum sínum
enni síðustu

at hæð uppkominn
Olívetí.
Lystugri loptblær
á ljósum morgni
kríngum lèk með kyrð,
og kul lèt hressa
fátækann flokk
eina farsælu,
sem enn svo þúngri
sveitast undir
dupts ok dauðligleiks
dapri byrði.
Meðal þeirra midt
mjök fagr stóð,
en þó á at sjá
ógnarligr
Arfinn eingetni
eylífs Föðurs;
aldrei höfðu hann
hátign slíkri
ok vegsemd vafinn
vottar hans sèð,
nè engill nokkr
niðri á jörðu.
Hèr stóð hann skrýddr
hátign slíkri,
at strengir aungvir,
engi raust manns,
engi himin-hár
hugar þánki
getr gripit
eða greint hana.
Svo lángt sem náði
sjónar kraptr
ens skarpskygnasta
meðal skapaðra
ofann eptir
frá yztu stjörnum,
svo vídt út voru
af veröld hvörri
um sköpun alla,
útaf hvörjum
ási þeim, sem öll
ómælanligs
hríngs knatta kerfi
kríngum velta,
lengstu leið útaf
loga straum' sóla,
allir andar þann
áhorfandi,
sem frægst furðuverk
hafði fullkomnat;
Hvörjum sem þeir helzt
ham, af gufu
eðr af eldi,
fyrir yfirhöfn
íklæddust, eðr
ítru lopti,
eðr af dupti,
eins ok voru.
Utvalinn engill
Elóa Guðs
sèrhvörn þeirra sá,
er Son Guðs litu
um hríng þann allann
ómælanligann;
hann á sitt andlit
auðmjúkr fèll
fyrir Föðursins
Friðþægjara.
Ok svo með sama
sinni niðr
kastar kórónu
klárra geisla
fyrir hátign hans,
sem hafði nú
frammkvæmt fullkomnun
ena frábæru.
A fjalls hæð fagri
Frelsarinn stóð,
kríngum hann var krans
kjörinna votta,
einnig ósèðir
upprisinna
ok engla skarar
umkríngðu hann.
Ljúflyndr móti
lærisveinum
útbreiðir arma,
ok innir þannig

jafnsnart Jesús:
af Jerúsalem
eigi víkið út,
eptir bíðið
fyrirheiti fyrst
Föðursins þar,
er þèr, nær uppreis,
af mèr heyrðuð!
  Jóhanns skeði skær
skíru með vatni,
en þèr eflaust
með Anda helgum
innannskamms skuluð
skírðir verða;
Föðurs fyrirheit
fullkomnast mun!
  Nú spurðu nokkrir
nefndra sveina:
þóknast þèr, Herra,
á þessum dögum
á ný upprètta
Israelsríki?
yðr, ansar hann,
ei' at vita
tilheyrir tíma,
tóm ok stundir,
sem Faðir sjálfs síns
hefir sett í vald;
yðr, sem eruð
enn dauðligir!
  Ok við orð þessi
meðann enn ræddi
brá hann brátt augum
til Betaníam
á láglendinu;
Lazarus varð
furðanliga fljótt
forkláraðr,
ok strax óðfluga
af engli sínum
á fjallit fluttur,
svo fylgja skyldi
Herrannm himins
í hæðstu dýrð.
  En þèr innannskamms
Andans helga,
sá yfir yðr
ofann sendist,
munuð meðtaka
mjök stórann krapt;
þèr mèr vottar víst
vera skuluð
í Jerúsalem
ok í Júdea,
sem ok um sveitir
Samaríæ,
ok allt til yzta
enda jarðar!
  Kristr kom nær
ok kærleiks-fullar
hóf nú upp hendur,
horfði á votta
með ástar alúð
inniligastri,
ok sagði síðann
svo til þeirra:
  Blessi, varðveiti
voldugr Guð
yðr! ok yfir
yðr sína
ljóma láti Guð
ljóss ásjónu,
ok sè æ jafnann
yðr mildr!
Guð yfir yðr
andliti sínu
upplypti góðgjarn,
ok gefi yðr frið!
  Svo at síðustu
sveinum blessun
meðbýtti mildr
Meðalgángari;
himin ok hauðr,
ok þèr hæðsta Guðs
allir af honum
endurleystu!
  Nú hafði hann
í heimi þessum
aflokit öllu,
allt fullkomnat!
ok sjá, yfir hann
ofannkom ský

ok hóf til himins
hann frá jörðu.
Kjörnir Kristó
enum krossfesta,
aptr upprisnum,
eptirhorfðu
vottar lánga leið
í loptit upp,
fleyti-fullri sjón
fagnaðar-tára.
Með sál hardt hrærðri
ok hugar sömu
viðkvæmni, sem vor
verða mun loks,
nær Kristr kemr,
klár í skýum,
frá himni híngat
heim at dæma.
Loksins ei' lengr
litu þeir hann,
en strax á einu
augabragði,
at honum horfnum,
hjá þeim stóðu
tveir menn, svo at sjá
í serk hvítum,
einn var Elóa,
en annar Salem.
Við þá, sem varla
vegna sætrar
fagnaðar furðu
fengu nú heyrt,
kvað þá undireins
annar þeirra,
sem bar bjartara
yfir brúnum hár,
ok stóð með sterkann
staf í hendi
gulli glæstann:
þèr Galileisku!
hví þèr svo horfið
uppí himininn?
Jesús sjálfr sá,
sem frá yðr
hvarf nú til himins,
hèreptir mun
af himnum aptr
ofann koma,
sem þèr samstundis
sáuð fara
hann uppí hæðir
hèðann af jörð.
I sama svifi,
at sögðu þessu,
vendtu þeir sèr við,
voru þegar
hinna sjón horfnir,
ok hvörgi þá
litu nú lengr
lærisveinar.
þarnæst þessir
meðr þakklæti
ok með göfgun Guðs
gengu hraðir
ofann aptr
af Olívetí
beina braut inní
borg Jórsala.
Hèldu þeir hóp sinn,
hvör með öðrum,
með bæn mjök tíðri
í musterinu
tilsamans töfðu,
ok tjaldbúð þeirri,
sem múr musteris
mjök nærri stóð.
þar biðu þeir nú
þannig vígðir,
uns fyllíng fengi
Föðursins heit,
af klárum klæddir
krapti af hæðum
öðluðust orku
til at umvitna
með hugar-hreysti
Heimslausnara,
ok heilags Anda
eldligri skírn
yfir þá alla
úthellt væri!

Hèr hefr

# tuttugustu bók Messías.

ALL-LANGT áleiðis
ofar skýum
hóf sik þegar hár
heims Lausnari,
af fylgð umkríngðr
ótöluligri,
blikandi brautir
beint at tróni.
Skin-skær Gabríel
fyri skörum sveif,
fluttu fagrann þyt
fljúgandi lokkar
kríngum höfuð hans,
ok með hvískrandi
gull-hörpu hljóði
hann þannig saung:
Takið titrandi
til, ok varla
at eins út lágu
andið hljóði;
þvíat þat er Krists
þúsundfaldt lof,
sem þèr samhuga
sýngja vogið!
gegnum eylíf ár
öll streymir þat,
ok frá öldum
til alda hljómar!
Nú upphóf einn
af endurvöktum
saungflokkr sína
samstundis raust,
ítrar ununar,
en með skjálfta,
hægt lètu hörpur,
heyrðist duna
eins sem álengðar
óp básúnu.
Eins heyrist ómur
all-lángt niðr
hjá bröttu bjargi
frá blásnum lundi,
ok lækjum líkum
at lit silfri,
nær í kletta klauf
kemr seinfara,
vegna vatns þurðar,
viðar-fróns á.
Nú horfði hópr
helgra saungva
endurvöktum af
uppí hæðir
með gleði gráti
til Guðs Sonar,
svo þeir súngu lof
Sigrara hels:
Í frá upphafi,
eylífri tíð,
þá er ei' var enn
orðinn heimr,
ei' dagr, nótt nein,
nè himintúngl;
fyrrenn frábærri
fegurð stjarna
klæddir komu fyrst
Kerubim framm,
ertu fórn-færðr
enn frumgetni
Guðs mikli Mögur,
Meðalgángari!
Sárpíndi Sonur,
saklausa Lamb,
sem á Golgata
gjörðist offur!
á því altari
er þèr slátrat!
þar ens fallna fólks
friðþægíng varðst!

mesti Meistari
miskunsemda!
þú sást þik dáinn,
þínu blóði,
heilagi, hulinn,
sem heitt útrann.
I frá upphafi,
eylífri tíð,
þá er alls enginn
enn var straumr,
eigi drafnar djúp,
dalur nè fjall;
Drottinn dupt eigi,
dýrð at erfa
ens lystiliga
ljóss-ríkis, skóp;
einkis gröf orðit
enn var hauðr!
Nú lèt engill einn
allsherjar dóms
með hægri hendi
herbásúnu
samstundis síga;
en saungkór annar
hóf með hæglæti
hróðr þenna:
Lambit löðranda
lá í blóði,
eigi braut hans bein,
sá er bannvænum
undum lostit lèt
Lamb á páskum;
umkríng alstaðar
meðr ýsópi,
í dreyra dýfðu,
dyr híbýla
yfirstrokknar ótt
öld Júda lèt.
Vei yðr, vei,
sem vernd í blóði
þess ens líflátna
Lambs ei' fáið,
þá er hauðurs hríng
hræðilig nótt
ógnar ókjörum
yfirsteypir!
Nóttin kom, ok nú
niðurstèg einn
öflgur engill,
sem olli tjóni;
þessi þegjandi,
þó mjök stráugr,
atsveif óðflnga
ofann til fljóts.
Dymm hljóð ok hás
í hrun sokkinna
kváðu kvörtun
ok kvein umbergis,
ok sorgar upphróp
Egyptalands,
því at þegar dauð
þengils tróni
rètt frammi fyri
frumgetníng lá;
hana helslegna,
hana dauða
sáu meini mædd
móðir ok ver.
Náði neyð sú jafnt
niðr til fánga,
einnig önnur dýr
únga sína
mylkjandi mistu
fyri morðengli.
I Ramses ríkti
rósemd at eins,
grát-fegin göfgun
ok gladt þakklæti;
þannig höfðuð þèr
þeirri varnat,
blóðmerktu býli,
bölfullri pest!
Með hærri hljóðum,
hvellri strengjum,
brýnnra blásturs gný
básúnnanna
úthellti nú einn
öflugr kór
sèr í saung þegar
svo látanda:

klárir Kerubim
kór var þessi
eins sem eldslogar,
ok andlát sín
fullir fagnaðar
forkláruðu.
Alyktat uppkast
eylífs ríkis
skipaðist í skeð
sköpunarinnar,
frumefnit færðist
í fulla mynd!
her meiri mergðar,
enn mætti telja,
heimar ok hvörjir
helzt þá byggðu
fóru flýandi
forundrunar
voldugrar vegna
at væru til.
Skelfði sköpunar
skært kall Sonar,
hann með háreistrar
hljóði þrumu
bauð hríng-hræríngu,
hratt ok seint kríngum
geislann sjálfann sveif
sveinn hans ok vagn,
ok með upptendrun
innbyggjarinn.
Var ens eingetna
eylíft ríki —
þánka dýpt ok dýrð
dásamligri
skinu skært útaf
sköpunar fá —
ein farsæld allra!
einnig færir
upp frá eymdunum
ein tárug leið.
O þèr erfíngjar,
yrkið, grafa!
látið ljóð súngin,
ljóss erfendur!
þèr bræður þess,
sem þoldi dauða!
um leið sem liggr
upp frá líðunum
at dýrum dómstól;
því dæma munuð!
Villusamr var
vegr dymmra,
ó þèr erfíngjar,
upptil kletta;
hann grafar gríma
gjörði myrkvann;
flóði fagurt blóð
friðþægíngar;
hvör síkn varð synda
sá heldr dóm!

---

Aðr einn kvistr
útaf Jeddo,
þá af dauðligum
dauðligr var,
en nú bur orðinn
upprisunnar,
sveif útfrá saungkór,
ok sik nálægði
með auðmýkt allrar
innstu gleði,
ok blíðu brjósti
enum boðaða;
Hann bauð at hljóma
hörpu sinni,
heiðrandi helgann
hátíðis dag,
er hann ljúfann leit
lángt frá Zema.
Hvört gekk eittsinn ei
inn Jósúa,
þar sem luktann lèt
leyndardóm Guðs
fortjald fyrir oss
fast hánganda?
þó var hann ei hreinn,
hvað ok Satan
í engils áheyrn
úthrópaði;

En honum Herrann
hrein klæði gáf,
ok hann svipti, synd,
saurgun þinni;
því eittsinn átti
efalaust hans
kærstr at koma
enn kjörni Zema!
svo lèt hans saungur
ok Zema nefndann,
englar umhverfis
allir heyrðu.
Sjá, þú Kriste, komst,
komst Frelsari!
nú ei neitt fortjald
niðurhèkk meir,
í ljós var leiddr
leyndardómr;
því eittsinn í
hið allrahelgasta
hreinn af sjálfum sèr
Sonurinn gekk.
Hvör öðrum heimboð,
heilla-lýðr!
veitið til veru
í víntrès skugga;
hvör annann inn,
þèr endurleystu,
færið forsælu
fíkjutrès í!
hátíð heilaga
hátt lífgandi
offurs sáttmáls sè
saltari skær!
Sjá þú komst, Zema!
fyri saltara
sè þannig súngit:
Zema þú komst!
harla hljóm-fagr
gegnum hátíðar
laufskála látinn
leyptra saungur
svo látandi sè:
Zema, þú dóst!
ok ert upprisinn
aptr Zema!
O hvörsu hár var
harpna glaumr,
hvörsu gall gustr
á grænum pálma,
hve skæru skini
skutu frá sèr
ásjánir engla,
sem með ágætum
dýrkuðu dikt
þann enn dýrðliga!
Þá er hátt hrópat
Herrann Jesús
framna fullkomnun
fèkk á krossi,
æptum vèr upp hátt
allshugar grát,
hvörjir heillar straum
helgann drukkum.
Hóf þá hæðstr Guð
hismi jarðar
einnig upptil ljóss
ok til heillar!
Kristr kallaði
af krossi niðr
himneskt hjálpræði
hauðurs dupti,
ofannyfir þat
eylífa heill.
Guðmanns kröptugt kall
nær kvað þetta:
verði veröld!
við í fyrstu,
þá varð þegar her
þeirra' án tölu,
sem daggar dropar,
er Drottinn skóp,
svo at sèrhvörra
sannar heillir
æ hærra ok hærra
hefjast skyldu!
Heill ok hjálpræði
hann lèt krossi
ofannhrópat af
æðra miklu,

eins fyrir alla
eylífa heill.
O þú herja her!
harla víða
flaug eð fagra nafn
fullkomnunar,
blessun birtanda
boðskapar orð
eptirhermdi hár
harpna saungur
með unaðs ópi
upptendrunar!
Meiri mergð yðar
mjök var tölu,
þèr, hvörjir honum
yðar knè beygðuð,
sæmdir sökum hans
sælu stærri!
Þannig höfðu þeir
þennann varla
ununar óð
á enda súngit,
í því at saungkór
upprisinna
allfagr einn,
ok yfirstreymdr
andagift af
með allri stilli,
sigurhróss-sálma
sveiflaði tón;
Ok með hugar hrygð
enna himnesku,
sú er líf ok lyst
ljóðum færir,
göfgaði Guðsson
ok gól þannig:
Tignar tilbeiðsla
tjáist Guði,
ok ljúfu Lambi,
sem leið dauða!
sjá, upp til Síon
sèr flýtir þat,
ok hefst í hæðstann
himins ljóma!
O hvað í blóði
altarit flaut
Gólgata fjalls,
nær Guðs Lamb deyði!
sè lof Syni Guðs,
sem var deyddr!
Lof sè þeim, sem lausn
ok lífgjöf föllnum
einn fèkk afrekat
erfíngjum hels!
hátt upphöfuum sè
heiðr Syni!
útaf eyði-nótt
ótöluligann
heimtir þú her
af himintúnglum,
flaut sem flóð-straumar
frá henni ljóss,
ok tók höstum hratt
hríngsnúníngi!
Tignar tilbeiðsla
tjáist Guði,
ok ljúfu Lambi,
sem leið dauða!
gleði-saungs göfgun
greiðist Syni!
af nótt eylífrar
útskúfunar
þú heli hremda
hrópaðir út!
ó þeir eru nú
eyðileggíngar
illrar afgrunni
útaf sloppnir!
Ennú annar kór
upprisinna,
mildri sjón mýkstu
meðaumkunar,
leit á lángt neðar
liggjandi jörð;
æ! þar höfðu þeir
þraungvum kofum
áðr í verit,
einnig gröfum
þar höfðu þeir
af þeim uppriset;

dauðligs lýðs Leysir
lofsúngu þeir:
Tignar tilbeiðsla
tjáist Guði!
sè dýrð Syninum,
sem fer til Guðs!
kastið kórónum,
kastið pálmum
oksvo þèr, englar,
er hann þá gaf,
í sómasamri
sigurhróss gaungu,
frá yðr frammi
fyrir tróni!
Pínum pláguðu
pílagrímar!
sem í nauð næsta
niðurlægðir
geysilángt gángið,
grátið þèr enn?
ok þó yðr,
svosem englarnir,
við sigurs vegsemd
varpið niðr
umsíðir eittsinn
fyrir æðstum trón!
Þannig ok þessum
þökkum meðr,
ok með ærupris
yðr slíkum,
líðendur, launar
leiðsla Jesú!
Þessa sýngr sá
sigurhróss dýrð,
sem eymd ok ánauð
ófráhverfr,
trúr allt til enda,
hefir útstaðit.
O tár, þagna þá,
þú sem grætr
huggun í hrygð,
lát hjörtu þeirra
óbleytt upphèðann,
ei' hugga meir!
er við tiltekit
takmark eigi
feng þá at finna
fullkomnunar?
hvört í dal dauðans
þó dymmr sè,
loksins enginn er
ununar saungur?

---

Þessir, meðann þeir
þannig súngu,
litu korn-lundi
ljómanda hjá
sálir, ok sæla,
sem þær færðu
Kristo, Kerubim
keppast til hans.
Al-kyndtir kæti
Kerubim flugu
útaf unaðsemd,
en með skjálfta
svifu sálir framm
sinnisglaðar;
frammfært hafði:
þat er fullkomnat!
með kláru kalli
af krossi háum
þeirra fórnfærði
Friðþægjari.
Frómir frammliðnir
voru fluttir þar,
sem nú sinn höfðu
samt fyri stuttu
dupts dauðligleik
í dymmum gröfum
ok í eldslogum
eptirskilit;
þat var sálnasafn
útaf sèrhvörri
átt ok ætt jarðar,
allskyns fólki.
Þeim, frá því fengu
fullkomnun sína,
til sjálfs ens sæla
sigurhróss-dags,

var safnat samann,
svo bauð Drottinn,
í geymslu-gerði
græn korn-axa.
Æ hærra ok hærra
hèrnefndr sveif
skjálfandi skari,
ok skaut upp kalli
gráts ok geðs furðu
yfir Guðdómnum;
æ! þat var ok
hið allra fyrsta!
Gæddum nýrri náð
nú tók móti
bræðrum sínum sæll
saungva flokkr
einn meðal aldar
upprisinnar
með hátt-hljómandi
himin-kæti,
fögnuðu þeir þeim
með þessum saung:
O! þeir uppkoma!
ærna mæðu
þoldu þeir meðann
þraungva dauðans
náttgötu gengu
gegnum eymdir;
farsælir, frelstir
flytjast þeir nú
lángt burt frá böli
í betri staði,
þar sem unun er
allr grátr,
harmr ok hrygð
eru himnesk ró.
O þat yfirtaks
ununar hróp!
þèr þess erfíngjar,
sem þá með yðr
dauðans götu gekk
geigvænliga,
ok þess sem er nú
yðr samferða
gagn-gjört þángat,
sem Guð launar.
Er hann umbúnar
eylífliga
enum frammförnu
með fullkomnun
viðr traust takmörk;
tilfinníng sæl!
ó, hvör þik orkar
út at skíra?
Hvar var at heyra
hljóm svo fagrann?
hvar gól sú harpa,
er hana fengi
at fullu ok öllu
útmálaða?
hvar með hátón sú
himneskum kvað?
Hvaðann heyrðir þú
hjá þèr líða
klíngjanda klið þann,
kristalls straumr?
ok þú, eik pálma,
sem ár straum viðr
heyrir Síons saung,
segið oss, hvar?
En með sama sveif
yfir sálirnar
ærit stór undrun
upptendrunar
mjök lystiligrar
lífsins nýa,
svo þær samann við
Sigrarans her
streymdu, staðnæmdust,
ok strax súngu:
Vèr, ó þèr englar,
ok arfar ljóss!
svifum uppí sjálft
sigurhrósið!
æ, vèr einnig
í eylífs Sonar
himnafarar hirð
hafnir erum!
Dauði, farsællt flug,
framm til nota!

grafir gjörvöllum
með geig yðar!
unaðsemd eruð
æskilig þèr,
himininn með hans
heill ok sælu!
Ei getr greint,
þú guðdómligi!
saungs þik unun út,
eigi heldr
tekst þetta teiti
tilfinníngar,
Vísir veraldar
voldugi þú,
gjörvalls heims Gramr
guðdómligi!
Ærit veikt at eins
ok mjök fjærri
hrópar hrós sigurs,
ok hróður þess
æpir eptir þèr
óm af kæti!
Sjá vèr erum ok
af þeim skörum,
sem þinn sár-dauði
sætti við Guð,
þú mikli mannkyns
Meðalgángari!
þúsundum þeim,
sem þú upphefr
frá dymmu dupti,
þú enn dýrðligi!
Ok sem var sáð
í sívæntanda
akr, þar sem þú
þínum mikla
á dóma-degi
dýrðligr mjök
eittsinn uppsker,
ok allt forklárar.
Himins há-æska
enir heilögu,
Serafim, sem við
Ceðrus-eika,
Gabríels, ok eins
Elóæ fætur,
líkt sem blíð blómstur
í blóma stóðu,
eigi máttu meir
megnrar gleði
teitri tilfinníng
í taumi halda;
þessvegna þeir
yfir þvílíkri
sælufullri sjón
ok svo hárri
stórum hrærðir,
strengja leik sinn
hófu með hróðri
hátíðligum:
Hve frór fögnuðr,
hve frjáls-unun,
hve són sigur-hróss
sælufullur,
heilagr, hár
með himin-dansi
láta glaum gjalla
galanda, hvað?
fagrann prís fólksins
fullkomnaða
súnginn af sálum
hjá sælum tróni.
Nær þèr nú allir
til nota fullra
yðr upphefjið,
ó þèr skarar,
allir eylífrar
upp til dýrðar,
náttbraut niðdymmra
nágrafa frá,
æ, ens alsæla
upp til sjónar!
Jafnann, sem Jöfur
Jesús Kristr
fyrir rèð forðum
fólki sínu,
í frá öndverðri
Abrahams köllun,
allt framm á þann dag,
á hvörjum grèt

hann barn ný-borit
í Betlems stalli.
Nær hjá nefndri þjóð
náðar ok dóms
um góðgjörðir
ens guðdómliga
ok frammkvæmd frægstu
furðuverka
súngu fyriframm
flokkar, sem hans
sigursæld árla
sæmdu hrósi.
Eins ok eldslogar
úköfustu
sveiflaði sèr upp
saungr þeirra,
með brjósts brennanda
bráðu vali,
flýttu þeir sèr frá
furðu teikni
einu til annars
alla leið framm.
Sem einn saungflokkr
sveif skínandi
undir silfur-són
sætum strengja;
svo hann með sama
saung til annars,
er traudt aptrat gat
andagiftar
kveðandi kæti,
kórs ljómanda;
ok dauðans englar
upphófu raust
allrar alvöru,
er þeir súngu:
Þú stóðst drafnar djúp,
því Drottinn bauð,
dags ský, dymmrar ský
draumnjórunar
hèldu sik harðfleyg
at hers baki,
þar lögmáls lýðr
leið sína gekk;
Guð skaut frá skýum
skelfíng bráðri;
Faraóns fákar
fórust ok menn.
Þögnuðu þeir,
en þó sem áðr
buldi bísna hvell
básúnu raust;
Miríam merkti
málróm hennar.
Frammgekk forsprakk
fyrir dansi
Amrams dóttir ek
yrkjandi lof;
hafit, hamstóla
hervíkíngar!
gjörðist gröf yðar;
til grunns niðr
þèr, sem þýngsta blý,
í þróttkari
bylgjur sef-sævar
sukknð allir.
Bæði brynjaðir
bardagamenn,
hestar, hervagnar
ok hilmir sjálfr,
Faraó, fórust
í feikn hefndar!
renndi reiðri sjón
ræsir himna
frá skýum skjótt
í skruggu loga;
þá flýðu fári
ok felmtri slegnir
dólgar ok drekktust
í djúpum sjó.
Öflugt fær á mik
ununar saungr;
tónar mjök mjúkir
Maríams hörpu;
haldt þèr, ó harpa,
hljóðlausri nú;
en lát klíngja köll,
kórs básúna,
klár eins ok Kison
ok Kedumim!

Líkt ok lèt forðum
lögur Kisons,
þá er dauðann dólg,
ek Debóra,
ok frómr arfi
Abinóams
sáum, helsvæfði
Sissera, þik!
stór gnýr ok stirðr
kríngum stríðsvagna
ok hark hervopna
horfinn voru!
Sela! sigurhrós!
saung Debóra,
ok þarmeð allr
Israels her!
Sela! sigurhrós
sá enn blóðgi
Kedumím kvað
ok Kisons straumr!
Englar með augum
undannvendtum
flýttu sèr frammhjá
forðum skeðri
óheill Abírams
útskúfunar,
Kóres tortíníng,
tjóni Datans,
þeir súngu þarum
á þessa leið:
O þá aumu raust
ángistarinnar,
sem drundi dymmt
útaf dupt-skýi,
lengst upp til ljóss
frá lægsta djúpi,
en þó til einkis
emjaði mjök!
Ok nú enn framar
ok útdeyandi
viðbjóðs-fyllri varð,
voðaligri,
þá er þagnaði,
ok þrefaldt meir,
enn nær niðursökk
með nauðkveini,
nú orðlaus orðin
alla skelfdi!
Einúngis einu
auga-kasti
vörpuðu vísir
vegsamendur
jafnframt á jarðfall
Jerikó borgar,
um þat var at eins
einusinni
af hörpum hljóði
hrundit niðr.
Básúnu blástr
bardagamanna,
er með áköllun
alvarligri
hèldu framm hiklaust
hergaungunui,
gall með graudshótum
kríngum gjörvallann
prjáli prýddrar múr
pálma-borgar.
Dauðans dagr kom
dymmr næsta,
ok Herrans herlið
hèldt framm gaungu,
Jerikó, jafnsnart
á jörð sem fèll,
skaut upp skelfanda
skruggu hljóði!
Nú hljóma hörpur
ok með hörpunum
upphófust einnig
engla raddir:
Hve þèr heppnaðist
hlutfall, Júda!
röskur, sem rádýr,
er hinn rauðleiti
Betlehems bur
brá sèr á leik,
sleppti staf, en sló
slaungu-steini
í rot enn ramma
risa frá Gat,

sem gaus gegn honum
grimmu spotti!
Þinn Guð þareptir
þennann, Júda!
upphóf ýngismann,
ok um höfuð
gaf honum gull
ok gull-ligan saung,
burtskúfandi bur
Benjamíns ættar,
at við geira gný
yfir Gilbóa
deyandans dreyri
drjúpa skyldi.
Sjálfann sá Davíð
son álengðar,
Guðs milli ok manna
Meðalgángara;
flaug þá flug sálma,
fagnaðar gall
hljómr hvervetna
í hærri kórum,
heiðr hans, er skóp
heim ok leysti!
Hèrnæst hljómuðu
hörpur aðrar;
aðrar upphófust
engla raddir:
Hann bað, þá bilti
boð frá tróni
af hæðum ofan
eldslogum brátt,
fullskjótt foreyddist
fórn í bruna,
ok við altarit
uppblossaði
lögur í loptit
lángt frá jörðu!
Klárir útaf kór
Kerúbim sjö
sínum svifu
at sjáandanum,
þeim Guð göfugleik
gaf mjök háann,
ok margs ókomins
álengðar sjón.
Ok þú þegir?
sem þar sèð standa
Kerúbim fèkkst fyrr
fyri Guði
alvarliga' ok ei'
utann huldu!
vèr höfðum vængi
vora' at skýlu
mjök, af megnis saung
musterit skalf
enna hátt höfnu
at Herrans tróni!
Ok þèr yfrit hátt
úthrópuðuð:
hann er heilagr,
heilagr er,
heilagr er hann!
Herrans skarar
ei' taka tölu
sem hann tilbiðja!
hljómar kríngum hæð
hástóls uppi,
ok djúpt í dupti
Drottins heiðr!
Þvínæst þagnar hann,
þánka djúpa
allr í sokkinn
um enn stóra
vísir veraldar;
víst ei lengi;
brátt hann bendíngu
básúnum gaf;
þannig blèsu þær
þá til saungva:
Sjá, dóttir Síon
sú en háa
frekt þik forsmáir,
færir þèr spott,
já, þèr júngfrúin
Jerúsalem
háðfull höfuð sitt
hristir eptir!
hvörn? hvörn hefir þú
hædt ok lastat?

O! gegn hvörjum helzt
hróp þitt ok last
stèg upp, þú stolti
ok stæriláti!
augu þorðir þú
þeim heilaga
Israels ígegn
upp at hefja?
hefir ei' hæðstann
Himna-drottinn
þú spotta þorat,
ok þannig sagt:
Yfir fjöllin upp
em ek stíginn
allra meðr mergð
minna vagna!
Líbanons lagða'k
leið um síður,
hans en háu trè
hjó ek um koll,
svo vel Cedrus við,
sem hans greni!
At hinum hinnstu
herbergjum ek
Karmels kominn er,
ok kunnat hefi
allar götur at
enda skógar!
gróf ei ek grafir,
ok gjörvöll drakk
vötn yðar allt at
ytstu merkjum?
þurkað' ek þau ei'
þessum fótum
allar Israels
ár ok tjarnir?
Er þèr aldrei
til eyrna komit,
at ek opt gjörði
hvað athefst nú?
allt bý ek þat til
áðr laungu:
þá býð ek þegar
því at koma!
Hábygðar borgir
brattra múra
ok hálsar hrynja
hroðin í rúst!
skömm ok skelfíng
ens skjóta dauða
styrk þess, er striddi,
steypti at jörðu!
þeir verða visnir,
sem vallar gras,
þorna þeir sem jurt
á þekjum uppi,
sú er fyrr fölnar
enn frjó verðr!
þekkir ek þá ei,
þú enn stolti,
inngáng þinn, útgáng
ok atsetr þitt?
Veit ek eigi vel
vitlaust æði
þitt mèr á móti?
ok með því nú
at þú æðir svo
ofsafullur,
ok þitt stóra stolt
er stígit upp,
svo ek þegar þat
þekkti á himni;
þá set ek þverkrók
þèr í nasir,
ok í munn þèr mitt
máttugt beizli,
svo enn sama veg,
sem komst híngat,
haldir þú hèðann
heim til baka!
Glóanda geði
gól hann þetta;
hófu þá hinir
hróðr á ný,
enir sælu sjö,
sem hann leiddu.
O, snú, Sanherib,
snarast aptr!
flýt þèr nú at ná
Nisroks offri!

enn gall hátt hótun
frá hæð Síons,
sem spakr spjallar
spámanns saungr;
þar hóf nú þegar
þrumu-strángann
fót sinn fullkomnun
til feikna dóms.
Með rósar roða
rann upp dagr,
þá lágu þöglar,
þaktar líkum,
allar útmerkur
Assýriskra;
flúinn með felmtri
var fylkir þeirra.
Ok hann, sem Herrans
háleita dýrð
forðum fèkk sèð
við fljótit Kebar,
tók flug sem tíðast
með tólf sveinum,
englum ok mönnum,
útaf skærum
fylgðar-hers flokkum
ens fagra saungs.
Þat klíngði þegar
er þeir flugu,
þótt ennú þegðu
þeirra hörpur;
þeir sjálfs Sonarins
nær svifu hjá
tjáðu tilbeiðslu
tign guðligri.
Eitt var óttaligt
uppflug þeirra
skjótt ok skínanda,
skoðun ok sjón
hræddi hvervetna
ena himnesku,
ok tillit augna
sem eldslogar;
svo þeir lof lèku
um Lávarð Júda:
O, hái hegnir!
hve þú tíðum
hefir hefnt þíns fólks
harðliga þjáðs!
ennar útkjörnu
ættar þinnar
sundr-saxendur
sundr-kramit?
birlat þeim bikar
blóðugs dauða?
af dreyra drukknir
dóms hefnd þinni
aldrei óhegndir
undannsluppu!
Var ei voðaligt
vatnsdýr í Níl
ærit líkt enum
Assýriska?
með lystiligri
Líbanons prýði,
harla háreistri
til hlè-skugga,
þakti sik þessi;
þykkvaxinn stóð
laufum hlaðinn hann,
hátt nam toppr!
Vötn sem hann vöfðu
vöxt hans stærðu;
óx hann allt at svelg
yfirtaks hár!
um rót ens reista
runnu straumar,
ok hinum öðrum
eikum skógar
lèt hann líka svo
læki senda!
Hèr fyrir hærra
hann sik öllum
eikunum upphóf
innann skógar,
varð honum vatn
til vaxtar kvistum
fulls, ok frjófgunar
fögrum greinum,
at þær útbreiddust,
alla tíð nóg!

Höfðu ei á honum
hreiðr fuglar?
ok lá ei lægri
lóðar dýra
ótalinn urmull
umhverfis hann?
þarmeð þjóðir
í þeirrar háu
bifdrukknu bjarkar
bjuggu skugga.
Hvört varstu, sem hann,
Herrans Cedrus?
þú, Guðs grenitrè,
glíkt hans kvisti?
varð þèr, en vænsta,
við hans greinir
næsta lángar líkt,
laufgaða björk?
yfir allann framm
eika skara
í Guðs blóm-garði
var hann *glisligr*.
Hafði hann eigi
Herrann sjálfr
gjört svo glisligann,
ok gædt kvistum
mjök þèttum með,
svo at meiðir Guðs
um hans aldingarð
öfunduðu
hann vegna hæðar,
því hans toppr
álitsfagr óx
upp til himins?
Stórum stærði sik
hans stolt hjarta
hreykt upp, af því hann
svo hátt stæði;
strángr í ströffun
enum sterkasta
fèkkst þú hann í hönd
hervíkíngi,
sá er svo honum,
sem hann vann til,
illann ofmetnað
endurgyldi!
Ein makt annarlig
upprætir hann,
til ok frá tíndum
tvístrar honum
uppá fjöllum eins
ok í dölum,
líkt sem við læki
lágu kvistir
sundr-höggnir hans
ok hardt kramdir,
hrönnum hèr ok þar
hröktust greinir!
Ei ljær hann lengr
lýðum skugga;
skjótt þeir í skörum
skunduðu burt;
á hans berum bol
bjó í lopti
sveimandi sveit,
um svæði dreifðum
gekk á greinum hans
grúi skógar.
Nú af nýum skèlk
niðurslegin
upphrokar engin
eik hjá vötnum
síðann, svo sem hann,
sèr með drambi;
einkis trèstoppr
teigist svo meir,
sem við straum stendr,
fyri stolts sakir
upp af þèttum þess
þjótandi greinum.
Af því einnig þeir
allir hljóta
grafir at gista,
gengnir niðr
til byrgðra beina
enna burtdánu,
fyrir hvörjum fold
fellr í djupt.
Nær Assúr ofan
yfrit dymmar

afgrunns götur gekk,
grátklögun hóf
undirdjúpit allt
yfir honum,
sik huldi svelgr
ok sèrhvör straumr;
Vötnin fèllu frá
frammrás sinni;
sem vegna sorgar
sorta þakin
þeirrar lág-lóðar
Líbanon stóð;
einnig umhverfis
uppþornuðu
í hans ofannför
eikur dala.
Ok sem með ærslum
ofannsteyptist
hann til heljar
með hörðum stormi,
ógn fèll ok ofboð
yfir þjóðir;
ó, þú afgrunnsins
Eden-lundr!
þú ens lága lands
Líbanons skógr!
hrestuð þaðra þèr
þel hans í nótt!
Já einnig allr
armleggr hans
storðar stjórnendur,
er stórum nutu
hlès ok hælis
undir hans skugga,
nú midt í myrkr
með honum var
djúpt niðurdottinn
til deyddra skara.
þögnuðu þeir nú;
þannig gefr
um stutt stundar-bil
storðar skjálfti
ógnarligr upp,
þó aptr strax
sendir ryk-rokur
at rjáfri ský́a
frá dottnum dýngjum,
ok deyenda vein;
svo þeir sinn á ný
saung upphófu:
Eins sem þú Assúr
ofann steyptir,
svo líka, Sonur!
sjávar drekann
keyrðir þú um koll,
kóng Egypzkra,
nær hann stökk í straum,
strax úr máta
fylltu fætur hans
fljótit sora;
hans gángr gjörði
gruggugann lög.
Hann nær hrópaði
harla stoltr:
mitt vatn er mitt,
ek mèr þat gjörði!
dró yfir drekann
Drottinn sitt net,
ellti herlið hans
harðsvíraðann
þrjót ok þverbrotinn
í þess möskva.
Sem þessum þúngir
í þraung fiskar
hèngu við hreistur,
honum fleygði
uppá víðann váng
úr vatni Guð,
ok at hræi hans
hrópaði samann
lið, sem lopt flýgr,
ok í leir skríðr,
ok hvað sik elr
æta ráni.
Svo lá hræit hjá
háu fjalli,
náði næsta lángt
niðr í dal,
ok hann uppfyllti
innann barma

allt til árbakka,
þar áðr svamm;
óx hún af blóði
ens útskúfaða.
Já, sèr þrengði þat
þètt til fjalla,
ok straums umhverfis
allir lækir
gjörðust grnggugir
glíkt af blóði,
því í grófar gjá
grýtt honum var.
Móti honum menn
í myrkvu djúpi
tóku þaðra þá,
þeir sem forðum,
hetjur eins ok hann,
höfðu menn deydt,
þeim var öllum eins
ofann-varpat;
þeir fórust, fèllu
fyrir sverði,
eiga náttból nú
hjá ná slegnum.
Hvílir Assúr ok
einnig hjá þeim,
með sveitum sínum
sik umhverfis,
gjörvöllum grafinn
í grímu sorta;
þú sverð, þeim hefir
þángat varpat!
djúpar gljúfra gjár
gista þeir nú,
er þó allann heim
áðr skelfðu.
Þar sem þeir liggja,
þar er Elam,
ok hans allr her
umhverfis hann;
þú sverð, þeim hefir
þær enar sömu
forsmánarfullu
fleygt í grafir,
er þó heim allann
áðr skelfðu!
Midt á mörk úti
Mesek liggr!
Túbal liggr lágt
með liði sínu,
forsmánarfullur,
firrtr vopnum;
ei' er honum hjör
undir höfði neinn;
foldin er fannhvít
af fúnum beinum
þeirra, þó sem fyrr
þjóðir skelfðu,
en sem eru nú
útsnaraðir!
A þèr sterkr stóð
stórs sigranda
fótr Faraó
forðum daga!
þar sefr þú nú
í þínum her
midt þeirra meðal,
sem mækir felldi!
Djúpt ok dreift liggja
drottnar Edoms,
stýrendur sterkra
styrjar-kappa,
ógnarligum í
afgrunns myrkrum;
um koll þeir ulltu
fyrir eggjum sverðs
til dauðra drótta,
sem dör felldi!
Niðursukku samt
Sídons lýðir;
smyr þat ei' smáum
smánar róða
hershöfðíngjanna
helföla kinn,
at djörf darrahríð
dró þá uppi,
ok þeim í afgrunn
ofannhratt svo!
Allt samannsafnat
sik umhverfis

sitt hið fellda fólk
Faraó sá
nú í neðra djúps
nætur myrkri;
þeir litu líka
lofðúng dauðann;
sú skjóta skelfíng
skap hans lètti.
  Þvíat hardt í heitt
heljarvíti
hefir þú honum
ok hans liði,
Guð, sem grimmt hegnir,
gjörvöllu steypt!
ok þú einnig,
sem alheim dæmir,
jarðar heilann hríng
hefir skelfðann!

---

  Ljós at eins augum
ódauðligra
í himins opnum
afgrunni lá
á jörð jafnskreiðri
Jerúsalem,
en dauðans englar
ofannhorfðu,
ok hratt frá henni
hvörfluðu sjón
dymmann ok djúpann
á dal Hinnon.
  Súngu þeir með sorg,
sem er dauðans
englum eðlilig,
alvöru-fullri,
í því geyst glumdu,
glíkt sem þrumur,
bísna lángt í burt
básúnur þeirra,
drynjandi dymmt,
sem dröfn við kletta:
  Fall, Guðs fagra borg,
fall til grunna!
styrjar ærslum í
ofsa reykjar
stríðum bálstraumi
steypst um ok sökk!
þú sem með þverúð
þrásamliga
hrattst frá þèr Herrans
hjálpar-armi!
gjörð sèrt, ó, Guðs borg,
at grjót-hrúgu!
  Dauða-dóms orð kvað
Drottinn Jesús;
Róm fèkk þau framkvæmt,
flýtti sèr örn
átsólgnum augum
ótt at hræi;
stendr af straungum
stríðsforíngja,
þá er þeirra Guð
þartil kallar,
at þeir umturni
ok eyðileggi,
harðr hel-blossi
hefndar-augum.
  Plógmenn salt-sæði
sá skelfandi;
Drottinn dró málvað
yfir dal sjóna;
sjálfr bauð hann sókn
til sigur-hróss;
trómetur teikna,
svo tekr undir,
grimmligt sigur-geys,
þar Guð útmældi.
  Um beiska bölvun
blóðs krefjandi
þú baðst, þjóð Júða,
þèr frá tróni!
hátt þú hrópaðir:
hans blóð komi!
með þínum munni;
en miklu knárri
með grimd grenjaði
gjörníngr þat.
  Heyrir til hlítar,
sá er herliði

Rómverja ræðr,
ramma hefndar
ósk, svo uppfylltist,
eyðilögð sèrt!
*Glíkt* sem einn glaðrær
góðfús maðr,
er nú um grafir
ekki þenkir,
elligar, ef hann
á þær minnist,
þeirra megn myrkur
mjök gjörir skær
með hýrri huggun
holds upprisu;
Líka sem sá,
nær hann sæl-ligr
vor-morgun vekr,
víða rennir
fagra fold umkríng
fagnandi sjón,
allr útflýtr
í offur bænar
til voldugs vísis,
sem vorit skóp;
Eins nú umhverfis
augum renndu
Serafim sínum
í saung-flokkum,
með klárrar kæti
klíngjanda hljóm',
nær um lystilig
ljóssins stræti
sælir sigur-hróss
svifu skarar;
Ok þá umkríngði
með ítur-skærum
höfum hvervetna
himin-fegri;
líka liðu þar
leyptrandi framm
þúsund þyrpíngar
þèttra stjarna,
svo gall um gjörvöll
gleði-saungr
helgra hirðsveita
himin-stræti.
Löud, sýngið lof hans,
látið, sólir,
þat sem hæðst ljóma!
himin-túngl þèr,
stjörnur, sem streymið
um stræti ljósa!
þess, sem leysti lýð,
lofgjörð hefjið
með dýrum dansi!
sjá, ens dýrðliga,
þeim ei nokkr nær
náttúrunnar
þrákveðinn þúsund
þakka saungr!
Þó samt þeim, er skóp
þig, náttúra!
sýng þú sífeldt lof!
ok saungr þinn
í háann himin
hiklaust streymi!
háttprísandi hann,
af hæð skjálfandi,
geislans gángvari
glóandi vagu,
kalli klárri raust
í Kidróna
alla leið ofann
í dal pálma!
Mánans miklu vötn,
meðr jarðar,
buldrið þarí þèr
þulur yðar!
sem hægt hvískranda
hörpu-saungs kvak
blaktandi blær
frá björkum pálma
ber til kórkvæða
kostuligra,
þèr einnig yðarn
uppsendið róm
í stórs stjarna-hers
sterkar-raddir!
Hve þèr fetið framm
fögru stjörnur,

er hinn æðsti skóp,
ótöluligar!
harla stórt herlið
himin-túngla!
hve skært þèr skíuið,
hve skírt ok hátt
hrópið þèr heiðr
Heims-lausnara
í hæðstann himin,
til hirð-sveitanna,
sem glansa glaðar
hjá Guðs tróni!
Þú, ó Son, er sá
sannarliga,
vegna hvörs veglig
veröldin öll
sýngr sigur-ljóð
samfagnandi!
alls sælu-efnis
uppsprettu lind!
heilagi Herra,
sem heill gefr!
Otæmanlig ein
uppspretta þess,
sem færir farsæld
fullkomnustu!
er þar einu vegr
einhvörstaðar?
eðr er þar flug
ok svo til ljóss
ok hárra heilla,
hvarum eigi
hann oss handleiði,
hefji' oss alla?
Þèr allir ennar
ónefnannligu
ok ærit stóru
endurgjalds heillar
fjöl-flóknu vegir!
þú fólgna braut!
hann gegnum gaung þín
Guðs ena sælu
frá öldum alda
til alda leiðir!

---

Sem nú Sonarins
sigur-hróss dýrð
æ hærra' ok hærra
með helgum skörum
stèg um stræti ljóss,
stjarna nokkr
ei' frá þeim fjærri
af föru-neyti
ítrar sólar ein
ummyndaðist.
Hastarlig hristíng
hennar miðju
alla færðist um
enda milli;
hún sprakk hvörsvegar
í hluti tvo;
með bísna brestum
brunnu fjöll hennar,
ægis ólga rauk
upp mót himni.
Einnig var englum
óttalig sýn,
hve í óorðu
allir hennar
frumkraptar fóru,
til forms annars
skauzt upp skjótt nýrrar
sköpunar fræ.
En út frá einnar,
er var nærri,
glóandi geislum
glaðrar stjörnu
risnir rèttlátir
raust upphófu
fagnaðarfulla
til Frelsarans:
O, þú eingetins
elska Sonar!
guðdóms skæra skin
skilnínginum!
tær ok tendruð glóð
tilfinníngu
útaf altari!
uppruni dags,

eins dags, sem aldrei
undirgángi,
dags, sem öldum einn
eylífr dagr
endurleystum er,
elska Sonar!
  Vængi þú tókst þèr,
þú tókst vængi,
Sonar sigur-hrós,
svo flýgir upp,
at þú uppflýgir
allt at tróni,
einnig fyrir oss
útvöldum skörum
ens hátt-upphafna,
heiðurs-pálmum
svo mjök sveiflar þú,
sigur-hrós Krists!
sjálfs á Föðurs sess,
sigur-hrós Kristi!
  O þèr englar,
sem uppi þaðra
gegnum glæst veldi
gimla sveimið!
hvör er hann, sem her
himin-túngla
sèr skamtat skrið
á skeiði miðju
stöðvar strax fyrir
á stigum Guðs,
dunar dýr saungr,
djúpin sökkva?
innið, hvör sá er,
þèr englar tróns?
  Hann sá enn sami,
sem á krossi
af þúngum þorsta
þjáðist ok dó,
er oss elskaði
allt til dauða,
dó smánar dauða,
á dóms altari,
Golgata fjalli
grimdar dauða;
  Hann sem hrópaði
hæðstum Guði
yfirgefinn af
í ógn nætur;
hann er, já hann
með heiðri krýndr
er, sem uppstígr,
þèr englar tróns!
  Streymið þèr straumum,
streymið þeim, ljóss,
ok þèr andkyljur,
yfir híngat
sendið sætann blæ
sigur-hrós skörum,
þeir er enn þaðra
þeigi heyrðir
oss fjær í djúpi
auglýsa sik
komandi, klára
Krists ásjónu
sinni til at sjá
í sigur-dýrð.
  Serafim, Sonar
sigur-hróss dagr,
himinför hans
á hástól Föðurs
hljómaði hátt
um heima alla,
hvör í híbýlum
heldr sik lífs,
ok hvörjum ann þess
hinu almáttúgi,
flýtir för sinni
af fremsta kappi,
at sjá ásjónu
eylífs Sonar!
  Allherjar er hann
einvalds Drottinn;
sjálfs Guðs Sonur
hefir sèrhvörs ráð;
æ hann ákalla
allra bænir!
um heims knött allann
ok í djúpi,
svovel sem í hæð
allt til síðustu

blíða bænheyrslu
burtsendir hann,
sá er sjálfr einn
sælu hefir!
Farsæll fögnuðr
fyrir yðr!
streymdi lystugt ljós,
loptin blèsu
hægum hýru blæ
harla lángt at
yfir til yðar
aldir sigurs;
þèr sælu þjóðir
þeirrar stjörnu,
sem hófst upp hærra
enn hauðrs sjón nær.
Allsherjar er hann
einvalds Drottinn!
æ hann ákalla
yðar bænir!
eins í undirdjúp
ok í hæðir
sendi Sonrinn
sína bænheyrslu,
hann sem einn hefir
heill ok sælu!
O hvílík orsök
upptendrana!
sjáið hvörsu sæll
Sonurinn skín
þar í hásaungs hóp
helgra tróna;
skær í flokka fjöld
af fólki grafa,
þat er friðþægt fèkk
fórnar blóð hans,
fyri dóms dag
af dauða vakið,
einnig af honum
endurskapat!
O! fyrsti ok elzti
allrar veru!
hvílíkann hefir
himneskann veg
Son þinn dægra dröl
Dauðans leiddann,
sem frá gröf sína
sigur-gaungu
heldr í hæð;
frá húmi nætur,
er hann umkríngði
við andlát hans,
út hins eylífa
Arfi kemr!
I víðum ægir
alsköpunar,
þar bylgna björg
at bökkum skunda,
mikli Messías!
mengi þitt býr,
þat er heill þyggr
af þèr líka;
þótt eigi þurfi
þat, sem allri
ósaurgat er
af yfirtroðslu,
blóð til borgunar
brota neinna.
En vor sök er sætt
fyri sjón votta;
syndar raust er rænd
róm fyri tróni,
í höllum engla,
fyrir eyrum dóms
er at eylífu
orðlaus hennar
kallandi kverk,
sem oss klagaði!
Hræðiliga hátt
var hennar kall,
en þó dauft ok dymmt
dómsins eyra;
en frá hæð fagr:
þat er fullkomnat!
kvað við klíngjandi
kór-sálma tón;
syndin af sjálfum
Sonarins vörum
heyrði þrumu þá
ok þagnaði.

O, vèr ok svo
við ens eylífa
kveðum, kristnir, lof
konúngs sæti,
þar sem yðr er,
erfíngjar skjól,
einnig fyrir oss
er þar hæli!
Ok þar, sem yðr
uppsprettr heill,
ró ok rík svölun
enum rèttlátu,
söfnumst vèr samann,
ok svo rennr
einnig út til vor
endurnæring!
Fylltust þèr felmtri,
fjarlægðar börn,
með ógn ok ótta
útskúfunar?
ó, draup í ángist,
ofboði dóms,
flótta frá Hóreb,
fullt af blóði
ok eldheitt yðar
af augum tár,
nauðskelfðum niðr
nokkru sinni?
Við ens svarta svelgs
svim-háa þröm,
tæpasta takmark
töpunarinnar,
ok við afgrunns nótt
ógnarliga
urðum vèr aldrei
óttasleguir;
Ei' hvar dymmt dynr
í dóms metum,
nè hvar hellt er út
hefndar skálum;
ok vèr ei heldr,
ó þèr hólpnu!
fundum, hvörs finna
frelsaðir til!
Kom en klára dýrð
Kristi sigurs
á stóru stræti
at stjörnu þeirri,
sem menn saklausir,
síns njótendur
ódauðligs eðlis,
einir byggja;
hennar hám fjöllum
her yfir sveif!
Litu ljómandi
liðs mergð þessa
yfir sèr enir
ódauðligu,
já sjálfann Soninn
sáu þeir nú,
einnig allann her
upprisinna.
Horfðu hópar,
en hópar urðu
skjótliga at skörum,
skarar at her;
her stóð með höfðum
til himins rèttum,
ok meðal manna
mergðar slíkrar
þeirra frumfaðir
fyrst skapaðr.
A knè framm fallinn,
Fullkomnari!
hrópaði hann,
ok her gjörvallr
umkríng hann enna
ódauðligu;
lundar til lunda
líkt gáfu hljóð,
ok fjöll til fjalla:
Fullkomnari!
Til þeirra tölu
var Tóa kominn;
færðann hafði hann
hár Dómari
útfrá óförum
aptr til lífs,
gjörvallra glaðra
var hann glaðastr,

allr einskær þökk,
yfirstreymdr
allr ens nýa
ódauðleiks síns
teitum ok tærum
tilfinníngum;
Yfirvættis í
undrun þeirri,
allshugar unun
upptendraðr,
kallar hann með her
helgra manna
til fólks Frelsara:
Fullkomnari!
Sem nú í sinni
sigurhróss dýrð
Sonurinn sálma
súngna heyrði,
um hans yppurstu
upphafníngu,
ok þá með unun
umbunaði
göfgandi gleði
af gnægð mestu,
frá grafa geimi
gaf sik á lopt
einn dýr dauðligra
diktr tveggja.
Þau höfðu hina
heilögu sèð
aptr upprisnu,
ok af þeim numit;
af full-friðstilltum
ok friðstillanda
heyrðr varð helgr
hróðr þeirra.
A meðann einnar
eikar skuggi
var þeim hús ok hlè,
ok hæg kylja,
duptit djúpt niðr
frá dýrum tróni
harla lángt, hvar þú
her af stjörnum
skærann skapaðir,
skelft sèr varpar;
Með þýðum þökkum
þat furðar sik
í hrærðu hjarta
yfir heill sinni,
at Guð þess gefr
gaum at kalli
neðann frá nóttu
ná-beina dals.
Gegnum helgi-halds
háttprísandi
lofkvæða kóra
klárra stjarna
mitt auðmjúkt ákall
uppat tróni
reykar ræsirs
yfir ríki ljóss;
Sá frá því fyrsta
farsæld veitir;
völundar vegn
ena vöndustu
oss sá umleiðir
uppat tróni,
þar sem hann sjálfr
yfir sèrhvörju
ráðandi ríkir
ransókn meiri.
O, þú alsæli,
allrahelgasti,
óendanligi,
eylífi Guð!
Drottinn, Drottinn!
uppfrá dal grafa
stígandi stunum,
stamandi bæn
útaf upptendrun
andar minnar,
unn þú áheyrslu
auðmjúkligri!
Hún uppí háleitt
Haleluja!
kveðandi kóra
kvakar frá nótt!
ó, heyr þú hana,
hæðsti Drottinn!

þarmeð þegjandi
þánka minna
gef ok gætur að
grátbeiðni, þú!
Deil þú, ó Drottinn,
dauðans örfum
æðri farsæld út!
aum hrygðar tár
þurka þú, Guð,
af þeirra kinnum!
en sè ángursöm
eymda byrði
hèr í nótt hlutdeild
hels erfíngja,
heilagt hugar þol
honum þá gef,
leið hann svo sjái
sæll hjá tróni!
Þessi saung þannig
ok þagnaði,
en sik brátt aptr
upphóf hans sál,
ok brann á ný
af auðmýkt helgri
í Guðs áköllun
inniligri.
Varla saungr sá
sveif frá jörðu
hans, sem hugat
í helga töln
ok kjör kristinna
at komast, var,
þó fèkk hann formerkt
fullkomliga
hann, sem hlustar til
helgra kóra;
Þannig þýtr
í þunnu laufi,
þá er bergmáls baul
bröttum næsta
frá kletta kleyfum
kalla þrumur,
ok sterkr steypir
straumr skógar
djúpt í dal niðr
dunandi reið.
Hreif þèr, hörpu-tón,
hef þik vakinn
eptir óð súngnum
upp at tróni!
ágætt lof eitt
hins óendanliga
sè þitt fljóta flug,
ok fagr prís
Herrans hróðr þinn
hátíðligr!
O! honum, hvörjum
himintúngla
saungr til sóma
samhljóðandi
uppstígr, unun
ok undrun með,
ok höfuð-englar
áhorfandi
láta logandi
lofgjörð hljóma,
honum hjala þú,
hróðr minn, lof!
Guð líka göfgun
frá gröfum heyri!
hvörnig hef' ek þat?
hvörnig lykta?
forsmekkr frór
ens fagra himins!
ó Herrans heiðr!
hvör sýngr þik,
svo hann ei svigni,
ok sik uppgefi?
Hvað annars upphóf
ótt nú sökkur,
mynd hans lífligri
litum fáin,
eins ok árbirtíng
í upp-gaungu
mótlíka myndat
málverk honum
fullt af gull-glansa,
gjörist rökkur!
Háleitum Hilmi
himnanna lof

gel ek, sem get,
með grímu skini
í myrkvum myndum
ok meðr veiku
eptir-óms hljóði,
þá er öflugar,
eins ok reiðar-raust,
raddir kóra
sýngjandi sveifla
sèr upp til tróns!
Þèr, hæðsti Herra!
hvör er líkr?
hvör er eins ok þú,
eylífi Guð?
furðu djúpa fá,
til at framleiða
víðar veraldir,
ok vætta hvað,
samdir þú hjá þèr,
þegar engin
enn var um-skynjun,
engi þánki,
ekkert augnamið
endanligs hers.
O þat útsáðs-fræ,
er þú hefir
sjálfr sáð, ó Guð!
ok sífeldt aukið
ótal margar um
alda raðir,
svo frjófgun fáist
fullkomin loks!
O, ráðs ályktun
undarliga:
nær aldir allar
eru liðnar,
mun utann afláts
uppskera þess
veglig vera
hjá veldis stól!
Þá hefir þú, Guð,
þína sköpun,
sem skal hljóta hjálp
ok heill Sonar,
frábæra frammkvæmt
ok fullkomnat;
þá fær oss flutta
farsæld ok eymd
lukkuliga
uppí ljóss-ríki.
Þat sem áðr oss,
er þvílíkar
heillir hljótum
ok hörmúng líðum,
dulinn vegr var,
villugjörn nótt,
flytr oss þá upp
í eylíf gæði.
Ei' at síðr einn
ódauðligr
maðr sem blómblað
burtu visnar,
hann finnur hjá sèr
at hel nálgast,
finnr forrotnun
færast sèr nær;
Ok trega tárum
tilveru sinnar
upptök útgrætr,
einber klögun,
þar hann þó veit,
at þat allt muni
Guð eittsinn unun
uppfyllt láta,
sem ok hefir hann
til heilla skapt;
já, þannig þú, Guð!
þat fullkomnar!
Æ hve dapr er,
sem óvær nótt,
sorgar þánki sá,
at sèr blandar
við hásaung himins
hróp ángistar,
ok hátt sik hefr
hrygð með tárum
gröfum foldar frá
í fagrann hljóm;
Þar sem kallar kyndt
kórsaungs unun

eptirlætis óp
upp at tróni,
ok af hörpum hægt
hvísl lokkar út,
þá í þökk unun
þaðra grætr!

---

Kerúbim kváðu
ok kór uppvaktra
Babýlons borgar
um brot ok töpun;
enir upprisnu
úthelltu svo
fögrum frægðarsaung
til Fullkomnarans:
Hinn dymmi dagr
dóms er strángr!
gángi grimms dauða
ok geystu flúgi
storms ok stríðviðris
steðjar hèr framm
sá dóma dagr
Drottins mikli!
Loks draga dapra
dymmu á hana
orð spádóms áðr
innt henni gegn,
hve þik helga spá
Herrann fyllir!
Æ hún er fallin!
ógurligast
Babels heyrðu hrun
hauðr ok sjór
öskrit af þrumum
uppfyllíngar!
nú gjörir Guð þat
frá glæstum tróni;
nú ógnar eigi
við ægis-strönd
blöskrandi boðun
básúnunnar!
Babel er burt!
ó! byrjast þegar
dagr Drottins,
sá dóms úrskurða
mjök merkiligi
ok mikli dagr?
hví liggr hún svo
hrunin um koll?
Vei henni, vei!
hvílík viðurstygð
er hún nú orðin,
sem áðr næsta
stolt ok stærilát
staðit hefir!
nú er hún olltin
í afgrunn niðr.
Kerúbim kváðu
ok kór uppvaktra
Babýlons borgar
um brot ok töpun;
kátir Kerúbim
kváðu þannig
fagrann frægðarsaung
Frelsaranum:
Hún sökkur, sjáið,
sökkur Babel!
er með eitur-drykk
yfir barma
freyðandi fylltur
ennar fláráðu
bannvænn bikar
ok brátt deyðandi!
því er þèr nú
af þeim, sem rètt
endurgeldr allt,
einn fullmæltr
af bræði, Babel,
bikar rèttr!
þú en hardt hrunda!
hvörsu lengi
vall þinn víngl-bikar
um veröld út
tárligu falsi,
sem fólk villir,
öfgum ok æði
ok aldurtila!
En nú er hans,
sem endurgeldr,

hörð ok hræðilig
hefnd uppvöknuð,
þik rètt af römmum
reiði bikar
til dauða drukkna
hefir Drottinn gjört!
Þessir sannsælu
sóma-dagar
ennar fjölfylktu
fyrri upprisu
voru þat, sem þèr
þegar algjörðu
hèlduð heilaga,
Herrans vottar,
sem píndir prýddust
píslarvætti.
Þèr, hvörra hefnir
enn hæðsti Guð,
góðrar giftu menn,
í glansa stjarna,
helgu hjálpræðis
huldir klæði!
þèr sem þolduð út
þrautir písla,
ok berit blessat
blóð-votta nafn!
Upp til arfleifðar
yðar komið
lystiligrar
í ljóssins ríki,
nú glaðir næsta
frá nætur dal,
þèr hetjur, hvörra
hefnir Drottinn!
Fyrir fólk hans,
sem fullkomnaði,
hans hörðu písla
hluttakendur!
kraptr ens kvalda
af krossfestendum!
ó takið umbun
erfíngjar lífs!
heyri þat hræddr
hremdr furðu
ok fyrir ángist
orðlaus heimr!
Menn, sem miskenndir
miklar píslir
ok hel hastarligt
hafa þolat,
af því til offurs
eigi brenndu
saurugum Satan
sitt reykelsi,
eigu nú umráð
yfir heimi!
Þessvegna þaðra
þèr enir sömu
berið tiggja tign,
frá tróni Guð
valdi með ok makt
miklar yðr,
kjörnir ok krýndir
eruð kóngar þèr!

---

Mjök lítt metin,
svo merktist eigi,
engin af heims hafs
hám Drottníngum,
brimi barin
meðal bylgna lá
æ í einsetu
eyan Patmos;
En þó var ásett,
at eittsinn þar
skyldi hljómr hár,
sem hljóð básúnu,
birtast berliga
á bökkum hennar
heyrn þess, er hafði
hann útkjörit
sèr til Sjáanda,
er sjálfr gaf
af himnum ofann
opinberanir,
Ok at í hennar
eika skugga
honum sýndi sik
Sonur Guðs þar,

af sjö umkríngðann,
eins ok væri
ljómandi logi,
ljósa-stikum,
ok bjart blikanda
buinn klæði,
glóanda girðtann
með gull-linda;
Var hans höfuð-hár
hvítt eins ok snjór,
augu hans alskær
sem eldslogar,
ok hans ásjána
eins ok sólin,
glíkt glæstum málmi
glóuðu fætur;
Utgekk tvíeggjat
af hans munni
sveipanda sverð,
ok sjö leyptrandi
í hægri hendi
hann bar stjörnur;
glóandi geislum
var glæst sú mynd,
svo feikna fögur,
at fyri henni
sagðr Sjáandi
sèg til jarðar.
Sá hann sár-skelfðr
svo hnèg fyrir
var dýrstr Drottinn,
dómari heims,
þótt hann eigi þar
at því sinni
strax hèldi storðar
hinn stóra dóm.
At eins uppkveðinn
úrskurð fyrsta
sinn lèt yfir sjö
söfnuðum hann;
í dóms atkvæðis
orðum straungum
ásamt anglýstist
innblönduð náð;
Himneskar höfðu
heyrðar raddir
engla fyrstu fjöld
ok feður helgir,
eins sem álengðar,
um þenna dóm
ok honum ásamt
innta mildi.
Lof dóms Lávarði
líkusömum þeir
samhuga súngu,
í söfnuðunum
at til eylífs lífs
endurborin
með heill himneskri
hans yrðu börn,
sem mest dropa mergð
morgunroða;
At hann yfir þau
ástúðligr,
sem mildust móðir,
miskuni sik,
já ok jafnvel
þegar jarðneskra
mæðra brjóst missa
miskun alla,
þá einnig þó
um þessa sína
kær Jesús Kristr
kenndi í brjósti.
Efesus! ó þú
Efesuborg!
kom aptr, kom
til kærleiks fyrra!
ó sjá, hve sökkstu
söfnuðr djúpt!
ó, snú við aptr,
ella þinni
læt ek lágt hundrit
ljósa-stiku,
ut hún af mèr svo
út verði slökkt.
Lof sè þèr, at laun,
Lausnari, þeim,
sem aptr upphefst,
eylíf gefr

í kyrð hjá klárum
krystalls straumi,
sú er flýtr frá
fögrum tróni,
lífsins trè lèna
ljúfann skugga,
sem ok sinn ávöxt
sigrendunum!
Nú hóf einn hærri
heilagra kór,
unaðs andagift
upptendraðr,
með glöðum glaumi
gullina harpna
svolátanda saung
at senda niðr:
O, þat útsæði,
eilífi Son!
sem þèr í Smyrna
sáðir niðr!
ó þeir stunda sterkt
stöðuglyndi,
í forsmán, fjötrum
ok í fángelsi,
gjarna þola þeir
þat, ok eru
til dauða trúir,
svo taki á mót
loksins til lanna
lífs kórónu!
Hèrnæst hljómuðu
hrygðar raddir;
svo kváðu klökkvir
kórar manna:
þú hèlzt með honum,
heyr Pergamon!
á sjálfs sigurhróss
sælum dögum,
Antípas sjálfs síns
nær sökk í blóði!
trúr vottur var hann
vitnandi sökk!
æpið upphátt,
þèr ódauðligu!
ó hrópið upphátt
Antipæ nafn!
þó hefir þú ok
þá, Pergamon!
er beiskt, sem Balak,
birla hneixli!
þann himins hulit
hressir at eins,
sem hefir sigrat,
síðar Manna;
hann einn heyrir sik
himna umvitna.
Hèrnæst hljómuðu
hrygðar raddir;
svo kváðn klökkvir
kórar engla:
Sjá Týatíra!
þú trúir víst,
þú ert þolinnmóð,
ok þú elskar!
þó hefir þú ok
þá spákonu,
Týatíra!
sem er tálfull norn;
þei hjartna þekkir
sá þik dæmir.
Hvörn, sem hreinann sá
hæðstr Sonur,
þann hefr hann upp
ok hátt setr,
at hann allri jörð
yfirdrottni,
fær honum stál-staf
stórrar maktar,
höfuð hans geislum
heiðrar stjörnu.
Skjótt meðal skara
skærs sigurhróss
kom nú kyrð ok þögn,
kórsaung engi,
hvörki nein harpa
nè hvell básúna
heyrðust um hríð
gefa hljóð af sèr;
uns þar um síðir
at eins fáar

raddir súngu svo
Syninum ljóð:
Æ Sardis, Sardis!
sýn þú henni
miskun, enn mikli,
sem menn dæmir!
vægðarsamr vert,
voldugi Son!
hún liggr látin,
en sik lifandi,
helzt til hugar-vill,
hyggr vera,
þirm henni hæðsti
Heims-Lausnari!
Æ heyr, uppvakna,
ó þú Sardis!
vakna dvala dúr,
hin dauða, frá!
öskrar álengðar
með ógn stærstu
ok harðri hótun
þinn hefndar dómr,
með feikna flýti
til at fullenda,
hve dymmt hann dunar,
þú dauða, heyr!
Hvör sigrat hefir,
hvítum skrúða
yfirklæddr er
alskínanda;
nafn hans blikar bjart
á bók þeirri,
sem hrópar heill
á hæðsta dómi;
Herrann nefnir hann
fyrir her engla
sannliga svo
ok sjálfum Guði!
Nú hóf einn hærri
heilagr kór,
unaðs andagift
upptendraðr,
með glöðum glaumi
gullinna harpna,
svolátanda saung
at senda niðr:
Hvörsu sæl er hún!
henni Drottinn
lènti lítinn krapt,
en ljúf þó hèldt
sèr við sáttmála,
ok sinni játun
aldregi fráfèll
Fíladelfía!
Satans svika þegn
síst henni skal
neinn sik nálægja
nema skelfðr!
hann mun falla í fis
fyri henni!
Hvörsu sæl er hún!
henni Drottinn
lènti lítinn krapt,
en ljúf þó hèldt
sèr við sáttmálann,
ok sinni játun
aldregi fráfèll
Fíladelfía!
hæf þú heim allann,
hörmúnga stund!
en flýt þèr frammhjá
fyrir henni!
Hve dýrðlig hún er,
herskari trúr!
haldt því, sem hefir,
heillar kórónu
ó lát aungvann fá
af þèr tekit!
stólpi mun standa,
sá stríðit vann,
glaðr glansandi
í Guðs musteri,
þar eylíf auðnast
umbun Sonar!
Midt útaf einum
ángursfullur
sigur-kvæða kór
kom nú raddar
tón, með tilfinníng,
sem tár afverða

meðal mannanna,
mælandi svo:
O lèði loksins
Laodicea
heyrn sína hrópi,
sem hana vekja
hyggst uppfrá heli
með hægri klögun!
æ! hve blind hún er!
hvörsu aumliga
gabbar sjálfa sik
ok svíkr hún!
upp! þú sem ert
at öðru Drottins!
hraða þèr til hans,
sem hrópar á þik!
Sjá, ok svo einn,
sem var agaðr,
kemr inn til Krists
kvöldmáltíðar!
hvör stöðugt stendr,
stríðir, sigrar,
hann fær viss verðlaun,
verðr krýndr,
til hástóls hæðar
hann uppstígr,
hvar þú, góðgjarni
Guðmaðr, býr
dýrstu drottnandi
í dýrðar ljósi!
Sem nú sigurhróss
sælir skarar
æ lengra' ok lengra
í lopt upp svifu
til gimla glæstu
geisla-hringa,
hófu saung-sveitir
Sjáendanna
ok höfuð-engla
at yrkja sálma
Einvaldsherrann um
upprisu ok dóms.
Kváðu sem í kapp
kórar á víxl;
spakra spámanna
spiluðu hörpur
hátíðligann hljóm
hugar alvöru,
sem útaf *ólgði*
í ákefð þánka;
svo lètu lífguð
ljóð af strengjum:
Þar sem hann hafinn
í hátt ljóss-ríki
dýrðligr drottnar,
til dóms þaðann
stèg hann með stórum
styrkleik niðr,
þrumu herlið hans
hrópaði dóms;
voldugt var kallit,
við þat alla
gaf framm grafa nótt,
þá gripið hafði,
sèrhvörn sofanda;
sukku þá fjöll!
Hóf sik upp her,
sem hann fèkk áðr
dýrt keypt frá dauða
með dreyra sínum;
glæsta gjörðu þá
geislar klæða;
svo gall sigurhróss
saungr þeirra,
sem ægis öldur
umhverfis jörð,
hátt með hrópi dóms
hófst sá kliðr.
En þeir gáfust upp
sakir ununar,
heyrðist hljóð strengja
hjá þeim at eins;
en þó ei' lengi,
því innann stundar
hófst nýr til harpna
hljómr saungva:
O sæði, er síðan
sáð var, hvíldist,
uns Guð þat aptr
útkallaði,

svo með gull-glansa
lèti grund þakta!
enir sælu, sem
scinfara nótt,
dupt falit dupti,
í sèr djúpt geymdi,
uns öll var úti
öld dauðligra!
O fræ! hve fagurt
ok frjóft þú sprettr!
herskarinn hrópar
hátt um svæði,
kallar komna tíð
kornskurðarins,
ok æstar út
til at uppskera!
Farsælu flokkar,
sem Fullkomnarinn
samannsafnar
fyri sinn himin
glansa til glansa!
þèr Guðs sælu!
hvörsu nemr nú
nýrrar aldar
eylíf dýrð yðr
uppí sitt skaut!

---

Hófu með hýru
himin-brosi
furðu fagrann saung
fyrstir engla;
en fegri frammrás
fèkk nú straumr
hljómandi harpna,
nær honum gafst
inn at blandast í
unnnar saungva:
Vakna, dauðra dupt!
dauðir, vaknið!
hrópar dagr dóms,
dynr undir!
klýngr glaðvært kall
kornskerenda
útum afarvídt
uppskeru frón!
Duptit heyrir hátt
hljóm þann gjalla,
þar sem þat sefr
þó í værðum;
vísir varðenglar
vekja til dóms!
Utan tafar til
tróns upplítið
þèr, sem góðfús Guð
gjörði kalla!
vaknið, strax af stað
standið nú upp!
líðið leyptrandi
í lopt frá gröfum
þèr, sem frjálsa frá
friðleysi dóms
gjörir hinn góði
Guðs Son Jesús!
þèr, sem ásamt oss
skuluð arf taka!
ó komið, Kristr
kallar yðr
til at taka við
tignar merki,
sómasamligum
sigur-pálma!
Svífið sælir upp,
setjið yðr,
sjálfum sem dæmir
Syninum með,
í gullnum geislum
hjá Guðs tróni!
upphefjið yðr,
sem ítru blóði
ádreifðir eruð,
ok yfirklæddir
hvítu heillar
ok heiðurs skarti!
Heyrið heilagir,
heim at dæma
til kjörnir, komið
móti kórónum
til at taka,
sem tignar gáfu

sómasamligri
til sigur-hróss!
Æ! þeir gánga greidt
geislum skrýddir
óttalígum allt
uppat tróni,
dul-lausri djörfúng
til dóms meta;
á kross-altari
útrunnit blóð
hans, sem hèkk á stað
höfuð-skelja,
prýðir þá prúðann
bera pálma-við;
sólskær sigur-krans
sèst þeim á höfðum!

---

Ok nú upphófu
útaf kórum
sællra sjáenda
sínar raddir
Debóra dýr
ok dóttir Amrams;
ýmist himnesk hrygð
frá hörpum gall,
eðr sætr són
af sigurhrósi;
engla við á víxl
vífin súngu.
Sem þá er þagnar
þjótandi gnýr
í skógi skjótt
af skruggu-stormi,
ei' meir blásin björk
bogin stendr,
en af blæ blaktir
blómkvistr hægt:
O þú oss forðum
eymd, vor dauði!
ó hve vorn anda
upptendrar þú
unnnar eldi
undrunar-fullum!
sá í sorta-dal,
sem mest skelfir,
fann ei forrotnun,
forgefins þreyr
at ná, hvörs njóta
ný uppvaktir!
Ei' þèr útrunnuð
eymdafullt skeið,
ei' hins útlenda
ofanngengins
víðann veg þángat,
sem var dauði!
þèr sem eruð æ
ódauðligir,
ei' lituð augum
opnaða gröf,
ok af forns fúa
fulla beinum!
þèr sáuð síst,
at hún sofnaða
einnig ástvini
undir fúa
harla hryllilig
hremmdi til sín,
mokstur-hark moldar
yfir menn dauða
aldrei uppgall
til yðrar heyrnar;
Aldrei uppvakti
hjá yðr þess
minníng, at munduð
und' moldar þaki,
hjá berum beinum
enna burtdáuu,
eittsinn einnig
til ösku fúna!
En sem mjök mikill
meðal skýa
steypir sèr straumr
framm af stórbjörgum,
kórar súngu svo
Sjáendanna
eins ok æstandi
aldir til dóms:
Vaknið við, dauðir!
vekr básúna,

dunar dóms lúðr,
dauðir, vaknið!
nötrar nætur skaut,
neðsti botn hafs
ok heil heimskrínglan
hátt uppdrynja!
bísna voldugt boð
beinin heyra,
höfuð-engla her
hrópar það skírt!
Gánga til grunna
gullnar hallir,
ok hreysi hrynja
hulin mosa;
sèrhvör, sem jarðar
svaf í gröfum,
ok í ægi lá,
aptr vaknar
eptir útsofna
all-lánga nótt!
Sèrhvör, sem lifir,
á sömu stundu
heyrir jörð hristast
hræðiliga;
deyr undireins
ok aptr vaknar!
Nú var enn nótt,
í næsta dymmum
skugga skelfíng inn
skjótlíga gekk;
breið mörk ok bjarkir
ok brattir tindar
á kaf í kólgu
köstuð sukku!
hljóðna þú, harpa,
því hrópar nú
barn-burðar ángist
bitr næsta!
Hrópar hörð þruma
frá hæðum tróns!
hljóðna þú, harpa,
hótun stránga
dunar dymmt þarí
dóms básúna,
ok með ógnar gný
óstöðvannliga
þýtr framm þúngr
þrumu stormr;
þarí barnburðar
biturlig neyð
hrópar af hörmúng
hræðiligri!
Tveir nú flugu framm
fyri skörum
harla hraðfara
höfuð-englar,
þannig uppkvað óð
annar þeirra:
Æ! þat eru þeir,
sem úthrópnnar
hefnd hótandi raust
hefir skelfða;
einnig af dauða
upprísa þeir!
O nótt innilyk
æfinliga
fast í fælu-dal
forrotnunar
þá, sem afgrunn í
ofannhrindir
ályktunar orð
allsherjar dóms!
Tveir flugu fyrir
flokkum hinna
harla hraðfara
höfuð-englar,
af þeim hinn annar
óð þenna saung:
Þú, æ þruma dóms,
þannig hrópar
í gröfum allt of
ógnarliga!
en nú einn lengri
eylífr svöfu
er, sem þeir sifeldt
sárt um biðja,
en þeir útaf nótt
óbænheyrðir
koma kveinandi
móti klettunum:

æ! fallið ofann
yfir oss, björg!
Kyrð var í kórum
kætifullra
sigurhróss-sveita,
er Syni fylgðu;
flugu þá framm
með fljótu svifi
Benóni barn
ok blíð María
lifandi' ok liðin
Lazars systir,
lètt eins ok blómblað,
sem blær feykir.
Sem mildt skin mána
um miðnótt sumars,
mjök lík mjúkum vors
morgunroða,
svo fyri sveitum
svifu þau framm;
Virðtu þau ok þess
þrjózkufullann
Satan, sem niðri
sigraðr lá,
hann svo hýmandi
at heyra skyldi
sèr til sárs-auka,
hve sigurhrós
Drottins dáinna
dýrðligt væri.
Lát þat sem þrumu,
þú minn saungr!
öskra niðr ógn
í afgrunns nótt,
svo nái saurgum
Satans eyrum,
hrekkvíss höfuð-dólgs
í helvíti!
Láttu þat í þeim
þannig hljóma:
þeim eittsinn ávann
eymd ok dauði
fyrr meir á foldu,
frammkoma nú
aptr uppvaktir
til indis sjónar!
Manna morðíngi!
til meginn sjónar!
í frá upphafi
aðal morðíngi!
allir, sem áðr
ángist dauða
ok fúans andstygð
undirlagt fèkk,
fljúga nú framm
af fylsnum grafa!
Hvört? dælski dólgr!
til dóms fljúga þeir!
þú sem einnig ert
ógnar hvörrar,
ok hvörs sem hrellir,
hluttakandi!
þángat, sem settann
sik í dýrðar
hátign hefir nú
hræðiligri
á dýrstann dómstól
Drottinn Jesús,
frægstr frelsunar
Fullkomnari!
Hosíanna! hann
hóf sik líka,
sem Drottinn-svika
sigraði dólg,
útaf dymmum dal
dauðans legu;
ok þèr, ó Satan!
útsnaraði,
þú sem þrá-kærðir
þá um daga
ok nætur allar
uppi við trón
með geysi-grimd
fyri Guðs-eyrum;
þú ei' þá at eins,
þrjózkr fjandi!
um gjörðir illar
áklagaðir,
heldr einnig um
óstyrkleik sinn!

þú tókst feila fis,
ok fullum sorta
í hegnis augum
yfirklæddir!
A laun lastandi
lyga smiðr!
þèr kastar Kristr
konúngr alls
niðr dýpst í nótt,
þar sem nýstandi
kvöl ok áugist er,
eylífr dauði,
engin uppvöknun
af indis sjón!
Nú upphóf einn
af englum dauða
bistr í bragði
blöskrandi raust,
hann lèt höud síga
ok herbásúnu,
ok saung með sama
svolátandi:
Kvein ok kvartau,
kvalastunur
drundu dymmt upp
úr djúpi neðann,
útfrá afgrunnsins
andstygðar-dal,
storms gól, straums öskur,
steina glamr,
er bylltust ofau
með ærnu skrölti;
Æðis ólæti,
ok útlhróp hefndar;
sem fljótast flýgr
fagr geisli,
vèr í vetfángi
vendum á braut,
hèldum hryggvir framm
hröðu svifi.
Gabríel grèt
ok gjarnsamliga
fann hann eð hreina
himneska tár,
svo rann en reista
raust með tári
hans, sem fyrì framm
fèkk ókomna,
þá er ske skyldu,
skoðat hluti;
Hvítu skarti skrýdd,
skær af blóði
hún sik hóf upp
at hæðstum tróni,
reist ok röggsamlig
stóð ræsis brúð,
sól-fögur sjónum
sæl af skoðun!
Harla sætum hljóm
hátíðar saungva
tónum teitari
tilfinníngar
streymduð þèr við þat,
sem þrumu raust
í dýrum dómi
duna látið!
Góðr Guðmaðr
með gleði sá
hjá sèr við hástól
hreina standa
sèr helgandi sik
sæla brúði!
Nú gullu nýir,
nýir streymdu
tónar, teitari
tilfinníngar
í lofsaungs yðvars
ennú fegur
prísandi prýði
til Paradísar,
í dýrum dómi,
sem dunið reið!
Þar af þvílíkum
þess sem hluti,
þá er ske skulu,
skoðar fyrir
andagiftar il,
sakir inndælis
frá sèr numinn nú
nefndr skari

sveif himin-heiðis
í höfum fegri,
sik hann sem hraðast
hafði þar at;
  Eigi þagði þá
þar nein harpa
kveðandi kóra,
ok með kröptugum
hræríngar hljómi
hvell básúna
lèt nú rödd ræða
reið sína hvör,
undir eins skarar
allir súngu:
  Nær greidt flug gjörðist
gángr þeirra,
ok hvör upphrópun
ununar saungr,
nær geim foldar frá
fylgð sigurhróss
dansandi dreif
upp at dóms tróni;
  þá tók í tölu
tign erfenda
sá, hvörn sjálfr Guð
sá á krossi,
uppí lystiligt
ljóssins ríki,
þá sem blídt blóðhróp
bana-altaris
sagði frjálsa frá
friðleysi dóms.
  En nú hóf hákór
höfuð-engla
á ný unaðsemd
yfir að streyma
saungva sinna
móti Sjáendum:
  O, þeir einnig,
sem innilukti
undir myrkri mold
ok í mar víðum
í dupt drafnaða
dóms atkvæði,
þat er í Eden
uppkveðit lèt
dýrðligr Drottinn
at dags aptni!
  Frumburðir fljúgið
í fegurð skærri,
svífið sem hraðast
sigurhróss flug!
haldið með honum,
hvörjum lúta
hæðir hvervetna
ok enn húmfulli
beina-dalr djúpt,
dóm veraldar!
  Hönd kom forðum framm,
faunst þá ritat:
Guð vóg, þengill! þik,
ok þú fundinn
allt of lèttr ert
af þeim Drottni,
er stjórnar alheim
at egin vild!
  Svo þat degi dóms
dyljist eigi,
heldr hann sjái
hvörsu lèttr
sá er, sem honum
syndgar í gegn!
svo frá hástóls hæð
hefir Guð boðit!
  Hann bauð svo: beri
bók um vitni
dómsins, hvað drýgði
dupts Sonur fyrr
í lífi, loks
þá lýðir dæmast!
  Með ljósu letri,
sem leyptur-skin
flýgr fljótt gegnum
flæmi nætur,
þinn í skrá skrifa
skara, hegnir!
ena miklu mergð
mannsins verka!
  Graf með gráti
inní greinda bók,

þó samt þegjandi,
þat er síðar
verðr hrópat hátt
fyrir heims dómi!
I drjúgum dýngjum
dóms-bókum þar
viðr veldis stól
veltir skari
alvarligr upp,
eins ok reknar
þær af sjó sèu
samann í hrönn;
ljómandi letr
lángt frá skelfir!
Farið fljótt upp,
enir frumbornu,
fljúgið sigurflug,
fúsir komið!
haldið með honum,
hvörjum lúta
hæðir hvervetna
ok enn húmfulli
beina-dalr djúpt,
dóm veraldar!
Guð hæðst á himni
hann sá nálgast!
eins ok sá er,
var aldrei dagr,
hvöreð hans allt,
sem hefir drottnat
í frá upphafi,
auglýsir ráð!
Hefjið gleði-hljóm,
horfið dýpra,
því loksins ljómar
ljóssins dagr,
huldar graf-götur
gángið umkríng,
hvörra gegnum gaung
yðr Guð leiðir!
Varir enn, varir
voða dagr,
svo útflaug ár,
at enn nú lengir
sá dómsins dagr
dvalir sínar!
óvæg ályktun
ennú skelfir
þann sem Sonurinn
sèr varpar frá!
En nú af ángist
yfirkomnir
með kvöl ok kvíða
kóngar flýa,
hrópandi hátt
útaf hrellíngu
til brattra bjarga:
byrgið oss fjöll!
En fá þá fjöllin
falit yðr?
enn dvelr dagr
dóms úrskurðar!
af ógn ok ángist
enn skelfr hvör,
sem þik, líflátna
Lamb, spottaði!
Steypist stóru fjöll
strax yfir oss,
af því almættis
æðir reiði!
hann, sem hardt kvalinn
hèkk á krossi,
bauð daprann dauða
frá dóms tróni!
Hann skín enn, hárrar
heillar dagr!
Guð ennú arfleifð
útbýtir ljóss!
ennú upplýsist
óljós vegr!
ennú gjörir Guð
glöggvann sjónum
fyrr dulinn feril
forsjónarinnar!
Ennú ífærist
iðugliga
hvítu blóð-björtu
brúðar fati,
krýnist kórónu,
ok kláránn pálma

í mund meðtekr,
merki sigurs,
sèrhvör sá er trúr,
Syninum var
ok hann elskaði
allt til dauða!
Himins hreina tár
í helgum augum
Guðs fyrsta gróða,
hvörsu glansaðir
þóknanliga þú
þeim, sem gefr
ljóss-erfð at lokum
á launa-dag,
hans enn dýra dag
dóms atkvæða!
Varla þorðu þeir
þeim, sem endur-
geldr gjörvallt,
ok nú gagnvart skein,
með auðmýkt innstu
eptirhorfa;
seinliga tók til
tón af hörpu;
En þar meir ok meir
mildiríku
Gjafarans geislar
gjaldi hètu,
fór hann á flug
ok fljótliga varð
frábærs fagnaðar
fullur saungr:
O þú af hæðum
uppruni skær!
eingetinn Arfi
eylífs Föðurs!
þú ljós af ljósi,
er leystir alla,
ok þó uppstígr
eittsinn líka
á hinn æðsta trón
allsherjar dóms!
Metaskálum með
muntu vega
hvað þeir höfðust at
meðann heim byggðu,
fyrir hvörja framm
forgefins streymdi
guðdómligt á grund
Golgatas blóð!
Prís sè þèr súnginn,
Son ens hæðsta!
þú ljós af ljósi,
er leysta hefir
ena sömu, sem
síðar munu,
æ, við mikil met
manna verka,
standa hjá stóli
ens stóra dóms!
Ok sitt auma vei
ásamt boða
þeim, meðal þjóða
sem þú leystir,
fyrir hvörja framm
forgefins streymdi
guðdómligt á grund
Golgatas blóð!
O þú uppspretta!
út sèr hellir
lind en ljúfasta
lífs ok heilla,
líkt sem lagar flóð,
líkt sem ægir,
svo bauðst þú sjálfr,
frá sæti ljóss
foss-föllum ofann
farsæld skaptra!
Hyggið at háu
höfuð-englar,
hvörnig út sèr eys
ægir heillar
yfir heilann hríng
heimsins bygðar!
þèr sáuð þegar
þat í fyrstu,
þá er ennú oss
umkríngði nótt,
ok þat dauðinn djúpt
dulit gjörði;

er vèr ennú Guð,
æ, vèr duptit!
dæmdum dymmri
útaf draumnjórun,
ok frá gröfum glöggt
Guð í miskun
þat merkti, þagði,
ok þrumu' ei skaut!
En sem áleiðis
um allt þetta
Jesús vissann veg
voldugr gekk
gegnum glætt heiði
uppat Guðs tróni,
hann þeim afdrif öll
ákvarðaði
sálum, sem nú
við sinna skildu
dvalar í dupti
dauðliga líf.
Upp eðr ofann
áttu at stíga
þær eptir því,
sem í þeim skaptann
lyndis þokka lèt
Lávarðr dóms,
á fold ununar
upp at hefjast,
eðr í þann hyl
ofann steypast,
er hin eylífa
æ ríkir nótt.
Hrópar einn af her
hárrar fylgðar
við sællt sigurhrós,
ok svo mælti:
sjá af öllum upp
áttum jarðar
löndum ok lýðum
lyptast sálir!
Af klárri kæti
kallar annar
hjarta síns til hans,
sem af heli reis:
sálir sofnaðra
sik upptaka
í lopt líðandi
at ljósi verða!
því at þeirra ljós
þeim móti skín,
ok dýrð Drottins
er dásamliga
yfir þeim öllum
upprennandi,
þess Drottins dýrð,
sem af dauða reis!
enduðu svo orð
ens ódauðliga.
þann enn ei þekktu
þessar sálir,
sem í miðju sást
sigurhrósi,
eðr hvörjir helzt
herskarar þeir,
er hann umkríngðu,
ótal væru;
En brátt þekktu þær
þarámeðal
vera mjök margar
manna sálir,
streymdi sterk unun
strax yfir þær,
þar meðal mergðar
at menn sæu.
En frá andliti
til andlitis
er þær sáu svo
sína bræður,
yfirkom undrun
ok efi þær,
af felmtri fullar
ok af feginleik.
því fyri þessum,
þá fyrst orðnum
himneskum, hinir
af heli risnu
felmtri með fegurð
frá sèr skutu,
hlaðnir með hátign,
svo höfðu þeir

aldrei áðr sèð
aðra slíka;
virðtust máske víst
vera Guðir.
I því varpar einn
af þeim guðum
orðum á þær,
ok ástúðliga
rann ens ræðanða
raust til þeirra:
Menn vorum vèr,
ok í veröld fyrr
þvílíkir sem þèr
hafið þar verit
nú rètt nýliga,
áðr nár urðuð.
En oss upphafið
til ævarandi
fèkk ok farsællrar
fullkomnunar
hann, sem hjá stjörnum
horfið þèr á
framgánga fögrum
frumljóss glansa,
búinn ok benja
björtum örum!
Nemið! því næsta
nú kunnið þèr
um margt að mentast
ok mikit læra!
hann, sem horfið á,
fyrir hjálpara
útveljið yðr
öllum framar!
Veljið, eðr ok
ekki veljið!
sjáið, svo frjálsir
sem eruð nú,
þèr aldrei áðr,
hafið enn verit!
Þat var þrí-slíkt bil,
sem þánka vendir
sínum engill einn
ályktun frá
einni skjótt yfir
til annarar,
þá er efar einn
ódauðligr,
svo lengi sagðar
sálir fylgdu
sælum sigurhróss
sveitum at eins;
Urðu þær eptir
á einni stjörnu,
ok þar eins biðu
uppfræðara,
hvörn þeim frá himni
Herrann Jesús —
Gabríel gat þess —
gefa mundi.
Um lángar leiðir
litu skarar
eylífs Alföðurs
ypparsta trón,
ok nótt umkríng
ens allrahelgasta;
undir eins englar
fyrir andlit sín
margir með vængjum
mundu byrgja.
En hans ásján,
sem á altari
Golgatas Guði
gjörðist offur,
ok þar útblæddi,
enn fegur skein.
Einn kór á meðal
upprisinna
fullur fagnaðar
frekt titraði,
ok nú fyrst eptir
all-lánga þögn
tók at syngja sinn
sálm at nýu,
upp til Síons einn
óð hefjandi:
Leið þú hann, ljóssher,
loks at tróni!
leið hann með hörpum,
hljóm básúnu,

ok með kór-kvæðum,
Kristum Guðs-Son!
mjök er hann mildr
ok mönnum góðr,
bezt þú birtir slíkt,
blóðs altari!
  Dýrki dauðligr,
dýrki Seraf,
sem ok söfnuðr
sannrèttlátra,
heiðri, háttprísi
Herrann Jesúm!
hann er heilagr,
hátignarfullur!
sjá, dóm gaf Drottinn
enum dýrðliga!
  Honum sýngi her
heill-erfenda,
klárir Kerúbim,
kórar allir
ljóss í helgum her,
Hósíanna!
heims jöfur, Jesú,
Jehovæ Sonur!
Guðs stórá staðar
stillir í hæð;
  Hve munt þú honum
á hæðstum tróni,
Faðir! frægasta
Fullkomnara,
er þat allt leið
ok allt framkvæmdi,
þínum mikla Mög
móti taka!
gef, tróns þruma þú,
þína vængi,
ok saung sigurhróss
sýngjandi kór
á meðal alda
ódauðligra!
  Þessir þögnuðu;
þá sveif annar
saungkór seinliga
við sólar fold
upprisinnar af
aldar skara;
þeir súngu þeim,
sem af því fegra
ljómaði ljósi,
sem leið hann nær
hægri hendi
síns hæðsta Föðurs.
  O þú eini,
sem allt fullkomnar!
hvörsu mun hann
á hæðum uppi,
sem er eylífr
alda Faðir,
þèr, síns tignar tróns
taka móti!
  O þú Eylífi!
þínum eingetna
hvörsu muntu Mög
móti gánga!
Drottins dýr Sonur
Drottinn skoða!
sá enn hátt-hafni
hans meðstýrir,
sem var ok æ er
óendanligr!
  Þú ljós af ljósi,
ljúfi Guðmaðr!
stór fyri kross-kvöl
ok kaldann dauða,
forlíkunar fórn
frábær ok há!
fyri þeim fullur
fegri dýrðar,
sem eittsinn affèll,
en aptr snýr!
  Sem dupt sofnaði
ok síðan vaknar
þá fyrst aptr upp
ódauðligr,
eins ok þeir aðrir
ásigkominn,
sem öðlast inngáng
í engla dýrð.
  I þinnar, ó þú
Allrahelgasta,

ógnar nótt inngekk
útleysandi
Sonur Guðs seka
syndara heims,
en hvörsu hefir
hæðstr Faðir
upphafit aptr
ástkærann Son!
Yðr öll knè
fyrir uppruna
af hæðum ofan
auðmjúk beygið!
djúpt í dupt lægðum
enn Drottni þó
æ lútið öll knè
endanligra!
Ok hve gellr upp
unnunarfullur
hátt í himnum
ok hauðurs dupti
þeirra tignar tón
til hans kveðinn!
hátt verðr hafinn
Herrans Sonur,
góðr Guðmaðr,
Guðs enn smurði,
óendanligum
til æru ok lofs
Gram, til göfgunar
Guði, Föður!
Þvínæst þögnuðu
þessir líka,
ok sífeldt urðu
um uppstigníngu
Kristi kveðandi
kórar færri;
en sjö upprisnir,
enir fyrstu
meðal mannanna,
mjök titrandi
fyrir fögnuði,
frammsvifu nú,
ok svo um Soninn
saung upphófu:
Mælið oss eigi
endanligleiks
meðr mælíngu!
mjök upphefjum
vèr sjálfs Sonarins,
sælir af því,
framið furðu-verk
fullkomnunar.
Unaðsemdar æ
eylífliga
tilfinníng teit
í tignar saungva
stöðugum straumi
sterkt hljóma skal!
En hvað er móti
ærusaungvum
skaptra, Skapari!
þín skæra sjón!
þú hvöreð hefr
til hátróns glansa
ok sjálfs þíns sjónar
sælufullrar!
þú stæðir straumr
stamr ok kyrr,
nema greiðs til gángs
Guð þèr bendti!
Þess sèu þakkir
þýðar ok lof
himneskum Herra,
at hann þess unnti
endanligum oss
upp at kvaka
til hans, með hjali
af hrósi sigurs,
til hans með hróðri
hátíðar saungs,
ok með undrunar
upphrópunum!
Allr er hann dýrð!
allr sæla!
bergmáls ómr einn
er vor saungr
af þrótt hans þrumu,
þá er verkar
hann fullri framkvæmd
ok færir heill;

framstreym fagnaðar
fagr saungr,
Drottins dásemdir
dansi prísa!
Mikli Messías
Meðalgángari!
þú fer til þess,
sem þik upphefr
á hæð hæðanna,
hans eginn trón,
til hægri handar
honum sjálfum!
fylg, sigur-saungr,
sigurherra;
fylg honum fast,
allt at fæti tróns!
Klárir Kerúbim
komu nú framm
hundrað í hóp
með hörðu svifi;
andlit sín aptr
augljós gjörðu,
ok hófu hátt
til himins pálma.
Fylgið afframm allt
upp at tróni
honum herskarar
helgir sigurs!
með hljóm af hörpum,
herbásúnum,
ok með klárum klið
af kórsálmum;
sjálfum Syni Guðs,
sjálfum Jesú!
Hann er allsherjar
Einvaldsherra,
Drottinn Drottnanna;
duna þat hátt
þrumur, sem þjóta
þrátt hjá tróni!
O, honum hrópa
þú, sem heill erfir!
kalla þú Kerúb,
ok kórar allir
ljóss í helgum her:

Hósíanna!
Jesús sjálfs Guðs Son,
sem leiðst ok dóst,
uppstiginn ert,
þú enn Eylífi,
til hægri handar
á hæð Drottni!
Nú sik nálægðu
næsta glaðar
sigurhróss sveitir
sælum himni,
svo þær í sínum
sáu hljóma
gjörvöllum glansa
Guðs háa trón.
En nú sem náðu
enir næst stöddu
englar optnefndann
á at líta
sigurhróss sóma,
svo stóra dýrð,
fángnir forundrun
fyrst þeir stóðu,
en brátt unnnar
upphrópanir
gullu gjörfullar
glaðværs ótta.
Stund þá, nær stíga
á stól sinn Kristr
aptr upp mundi,
at unnum sigri,
á himnum áðr
ei' vissi neinn,
hún var folgin
fyrstum tróna.
Heyrða höfðu þeir
hátíðliga
at eins álengðar
yfrit skæra
gegnum heima glaum
gleði saungva:
Messías! mjök hátt
milli fjalla
kallaði Kerúb
til Kerúbs svo;

til lunds frá lundi
líka sálir,
Seraf til Serafs
sín á milli
geisla frá geisla
gól: Messías!
  Allt at ölturum
offurs hljóma
mundi: Messías!
Messías! gall
at skýum upp,
ens allrahelgasta
til ens hæðsta tróns
tók: Messías!
  Svo af háum hljóm
hrópendanna
urðu skóga skurk,
skvaldr strauma,
einnig kólgu köll
krystalls sjóar
allvídt umhverfis
óheyranlig.
  Jafnsnart sem Jesús
jöfur hinn mikli,
sem fèkk fræbærla
fullkomnat allt,
með sólar síum
ennar síðustu
stórvirkum stigum
stèg á himin,
ofansviptust ótt
engla kórónur;
  Allir á himnum
ilmsætari
megingleði með
mundu dreifa
pálmum allvídt út
yfir þann veg,
háann veg, sem veit
at veldis tróni;
  Svo ok sigur-hróss
sveitir allar,
enir upprisnu
ok englar dreifðu
pálmum óspart út,
ok með teitri
allshugar auðmýkt
inngáng hèldu.
  En nú með nýrri
næsta hlaðnar
sálir trón-tignar
tilfinníngu
hefðu þar himins
á hárri leið
eptir orðit
í einum lundi,
nema hefði hátt
hrópanda boð
Grabríel gefit
með gullbásúnu,
at þær ok skyldu
eptirfylgja.
  Jesús tignar tróns
til var kominn;
kyrð varð kyrrari,
kall básúna
sitt eigi sendi
til sálna meir,
feður stóðu strax
í stað þöglir.
  Honum englar enn
eptirfylgdu,
þó um stutta stund,
uns stóðu þeir,
niðurkropnir nú
næsta djúpa
tóku tilbeiðslu
í tè at láta.
  Gabríel genginn
meðr Guðs syni,
en enginn annar
endanligra,
var á tignar tróns
tröppu neðstu,
þar kraup hann á knè,
ok kunni varla
sjást gegnum glansann,
sem gaus niðr;
augum hátt upp hann
horfði til Guðs.

Sjá, enn hátt hafni,
hann sá sem er
óendannligr,
þann allir munu
þekkja, þeim allir
munu þökk inna,
ok fella fyri
fagnaðar tár;
Guð ok ens góða
Guðmanns Faðir,
aðal-uppspretta
allrar mildi,
glansa gjörvallrar
guðdóms elsku
endalausum í
auglýstr var.
Sjá, Föðurs Sonur,
Sáttmáls höfundr!
hann í hel sleginn
frá heims byrjun,
þann allir þekkja,
ok þeim er munu
um síðir allir
inna þakkir,
ok fella fyrir
fagnaðar tár;
Sjá, heims fornfærðr
fyri syndir,
sá enn líflátni,
sem lífs uppreis,
Jesús mjök mikill
Meðalgángari,
aðal-uppspretta
allrar mildi,
gjörvöllum glansa
guðdóms elsku
endalausum í
auglýstr var.
Allir sáu svo
sjálfann Föður
himnanna himnar,
ok hæðstan Son
sáu svo allir
sömuleiðis
himnanna himnar
í hátign fullri.
I henni hóf sik
á hæð upp tróns
jafn við Jehóvam
Jesús Kristr,
ok nú setti sik
sínum Föður
til hægri handar
í hæðstu dýrð!

## Til Frelsarans.

Ek þess æ þegar
til þín vonaði,
Guðs Friðar-gjafi!
ok gjarnann hefi
súngit sáttmálans
saung ens nýa!
ek hef' útrunnit
óttaligt skeið,
ok fèkk fóthrösun
fyrirgefna!
Minnar hörpu hljóð
hef eð fyrsta
eldheit, alvængjuð
ok eylíf þökk!
hef strax, æ strax,
mèr streymir hjarta,
ok mín af unun
augu tarast!
Lítt biðst ek launa,
því ek laun hreppta
í þèr, er umsaung
engla gleði!
þá er öll mín önd
í mèr hrærðist
allt framm í fylsni
hennar fyrsta megns;
Í míns ens innsta
öflgri bifun,
himin ok hauðr
þá hvurfu mèr,
ok ei framar flug
flugu vindar,
í teitri' ok tærri
tilfinníngu,
sú er lífi ljúf,
líkt sem morgun
á vörmu vori,
vegliga blès.

Er-at þeim mín þökk
þekkt til hlítar
hvörjum óljóst er,
at nær hellir
sèr út sálin
í sinni fullu
tilfinníng tautar
túngan at eins,
ok verðr orðtak
allt at stami.
Ærin eru mèr
úthlutuð laun!
ek hefi augna tár
um sèð renna
kristinna kinnar,
ok á komandi
tíð eptir tærum
tárum himins
þori fyriframm
fast at vænta!
Mèr er mikil laun
manna gleði;
forgefins feldi
fyrir þèr ek
hjarta mitt hrokfullt
af heiðursgirni,
þat úngum upphátt,
en mun lægra,
síðan eltumst ek,
hefir æ slegit.
Sè nokkuð sómi,
sè nokkuð dygð,
þareptir þráið
ok þat stundið!
logann lèt ek mèr
til leiðirs kjörinn,
leyptrar hátt á leið
ljóss-glóð undan,

ok einn æðra veg
ærugjörnum
eina betri braut
beint vísar á.
Sú var en sama,
sem þat gjörði,
at ei' meingum mik
mann-glaðværðum
með töfra táli
tókst at svæfa;
opt hún á þá leið
uppvakti mik
aptr at snúa
til engla-gleði.
Svo ok sjálfar
með silfur-tóna
geysi-háum glaum
gegnum þrengjanda
opt mik uppvöktu
engla-gleðir,
ok með ölteitri
áminníngu
vegligrar vígslu
um virdta stundir,
með hörpu herlúðri
ok hárri reið.
Ek á enda skeiðs
er nú kominn,
nú er náð miði,
ok nógsamliga
ek finn, þar sem er,
allt titra í sál!
eins mun oss verða,
(at ek hluti
manna-greind greini
guðdómliga)
þèr bræður þess,
sem þoldi dauða
ok uppreis aptr,
við inngáng himins!
Til þessa takmarks,
minn trúr Drottinn!
ó þú góði Guð!
við gröf hefir
meir enn eina mik
máttkum armi
frammhjá þeim fluttann
frekt upphafit!
Græðslu gafstu mèr,
geiglausann hug,
ok öruggt áform
í atþrengjandi
hættu-næmri neyð
nálægs dauða!
ok ef mèr eittsinn
at augum bar
enar ókenndu
ógnar myndir,
hverfa hlutu þær
fyrir hlífð þinni!
þær flýðu þaðann!
þarmeð hefi
saung ek sáttmálans
súngit nýa,
ok mitt útrunnit
óttaligt skeið!
þess ek þegar
til þín vonaði!

# Prentvillur.

Bls. 1, 2 D. 14 l. elfda *l.* efida; 8, 2. 45 leska *l.* elska; 12, 2. 38 elfd *l.* efid; 24, 2. 6 jarnvegr *l.* jarðvegr; 26, 1. 27 fijótu *l.* fljótu; 30, 1. 18 sriðviðri *l.* stríðviðri; 30, 2. 42 engla *l.* englum; 41, 1. 29 gægiðst *l.* gægðist; 50, 1. 30 sengu *l.* fengu; - - 32 ytórliga *l.* stórliga; - - 33 aðr *l.* yðr; - - 34 ffar *l.* afar; 51, 2. 10 taumum *l.* tömum; 52, 2. 10 skögum *l.* skógum; 55, 2. 3 agn *l.* ógn; 65, 2. 37 aungna *l.* augna; 68, 2. 42 hröku *l.* hröktu; 69, 1. 5 mýkingr *l.* mýkingar; 78, 2. 32 svartálfr *l.* svartálfs; 79, 2. 14 darna *l.* darra; 88, 2. 17 fión *l.* fjón; 97, 2, 14 sveininn *l.* sveinninn; 102, 2. 14 Sebbeo *l.* Lehbeo; 110, 1. 37 sýni *l.* sýna; 121, 2. 35 ófær *l.* ófór; 127, 1. 33 meintu *l.* meinti; 130, 2. 42 konúgr *l.* konúngr; 136, 2. 29 er *l.* ert; 143, 1. 36 elfðari *l.* efldari; 144, 1. 19 hljóð *l.* hljótt; 147, 2. 23 tapazt *l.* tappazt; 148, 2. 15 uppvaxta *l.* uppvakta; 149, 2. 28 allmakligastar *l.* allmaklig ástar; 153, 1. 45 svif-full *l.* svif, full; 155, 2. 22 nálægt *l.* nálægs; 157, 2. 26 kætta *l.* kletta; 159, 1. 13 safnaðra *l.* sofnaðra; 164, 2. 38 þjóð *l.* Bjóð; 174, 2. 29 síma *l.* tíma; 179, 1. 15 ofanleystrar *l.* ofanleiptrar; 180, 1. 12-14 ok honum ásamt — sem hann umkringir — eyðileggir *l.* eyðileggir, — ok honum ásamt — sem hann umkringir; 180, 2. 12 falla *l.* fella; 181, 2. 18 ljóma *l.* hjá; 186, 1. 15 skyrkleiks *l.* styrkleiks; - 2. 45 vèr *l.* ver; 195, 1. 1 sinn *l.* hinn; 197, 2. 30 mèr *l.* mer; 201, 1. 28-30 með ró reifaðr — rèttkristinn einn — andlitsblæu *l.* andlitsblæu — með ró reifaðr — rèttkristinn einn; 207, 2. 8 ónir *l.* onir; 212, 2. 3 stil i *l.* stilli; 221, 2. 30 skal *l.* skall; 224, 1. 23 sendisveinn *l.* sendisvein; 234, 1. 13 forfugr *l.* forsugr; 245, 1. 32 mèr *l.* mer; 247, 1. 16 sálunni *l.* sál unni; 251, 1. 31 alháar *l.* allháar; 253, 2. 9 sinn *l.* sinni; 256, 1. 22 reiknandi *l.* reikandi; 260, 1. 44 fullt *l.* fúlt; 179, 1. 15 sælufjall *l.* fælufjall; 281, 2. 37 efendr *l.* æfendr; 292, 2. 15 heilagasta *l.* heilagast; 300, 2. 36 ena *l.* ens; 301, 1. 11 gáng *l.* gaung; 312, 2. 16 jafn *l.* jafnt; 315, 1. 4 eingan *l.* úngan; 321, 1. 2 brott *l.* hrot; 330, 1. 39 mórð-höggi *l.* morðhöggi; 336, 2. 18 eiuum *l.* einum; 339, 1. 4 öld-feðra *l.* öld feðra; 358, 2. 24 uudirdjúpum *l.* undirdjúpum; 360, 1. 32 drópi *l.* dropi; 414, 2. 5 dýrum *l.* dyrum; 439, 1. 5 himnesk *l.* himneskrar; 456, 2, 25 varg *l.* vang; 486, 2. 42 likami *l.* likama; 513, 2. 36 ok *l.* ek; 535, 1. 19 inntekuir *l.* innteknir; 545, 1. 33 sátt *l.* fátt; 574, 2. 18 bálsams *l.* halsams; 604, 2. 2 ljóss *l.* ljós; 611, 1. 5 þú *l.* þá; 618, 1. 24 hjalpar *l.* hjálpar; 623, 1. 38 storð *l.* storð; 638, 2. 22 umkring *l.* umkring; 649, 1. 1 munni *l.* muni; 666, 2. 19 hióma *l.* blóma; 682, 2. 5 af *l.*

at; 685, 2. 3 fjárlægar *l.* fjarlægar; 690, 1. 25 útheldt *l.* úthellt; 692, 2. 7 grunvölluð *l.* grundvölluð; 696, 2. 24 útheldt *l.* úthellt; 724, 2. 16 ataddr *l.* staddr; 740, 1. 41-44 *l.* þángat sem þrælar — þrautafullra — ok bistra biðu — bendínga hans; 741, 2. 33 maktannar *l.* maktanna; 742. 1. 37 okkrið *l.* okkr; - 2. 1 drogs *l.* drógst; 762, 1. 1 Sveinir *l.* Sveinar; 775, 2. 44 samlík *l.* samlíkið; 802, 2. 5 mum *l.* munn; 810, 2. 36 mannkynni *l.* mannkyni; 817, 1. 3 verana *l.* veranna; 825, 1. 37 flokunum *l.* flokkunum; 827, 1. 3 takmerki *l.* takmarki; 835, 2. 26 siðr *l.* siðir.

Það getr hæglega skeð, að fleiri prentvillur finnist í Messías, t. a. m. ránghverfir bókstafir: að orðum sé samanslengt, er sundurlaus eigi að vera, og apturámót önnur sundurliðuð, er eigi að vera samsett; líka kunna aðgreiningarteikn að finnast sumstaðar á raungum stöðum, hvað góðgjarnir lesarar biðjast að leiðrétta og virða á betra veg.

---

